# ÍSLENZKAR GÁTUR, SKEMTANIR, VIKIVAKAR OG ÞULUR.

SAFNAÐ HAFA J. ÁRNASON OG Ó. DAVÍÐSSON.

GEFNAR ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

I.

## GÁTUR.



KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.

*1887.*

# ÍSLENZKAR GÁTUR,

SAFNAÐ HEFIR

## JÓN ÁRNASON.



KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.

*(MÖLLER & THOMSEN).*

*1887.*



GÁTUR ÞESSAR

tileinka eg tveimur ástvinum mínum:

Prófessor dr. KONRAD MAURER í München

og

Dr. DAVID MACKINLAY í Glasgow

með þakklæti og virðíngu

JÓN ÁRNASON.

# Formáli.

Gátur hafa verið til frá alda öðli, þeirra er getið í elztu ritum á [illegible]ndum; stóðu þær opt í fyrndinni í sambandi við trúarbrögðin, og [illegible]tu prestarnir goðasvörin frá sér fara í gátuformi, til þess að þau yrðu [illegible]meiri fyrir alþýðu manna; þessi myrku og líkíngarfullu goðasvör voru [illegible] úr garði gerð, að það mátti ráða þau á marga vegu, það þótti [illegible] sama bezt að goðin töluðu svo, að mikinn skarpleika þyrfti til þess [illegible] skilja hvað þau sögðu. Seinna urðu gáturnar að leikfángi, menn reyndu [illegible] þeim hugvit og skarpskyggni sína og höfðu þær til gamans, en um [illegible] voru þær til að skerpa skilnínginn og til þess að æfa sig í að hugsa [illegible] taka eptir eiginlegleikum hlutanna. Gáturnar hafa því ekki haft [illegible] þýðíngu til alþýðlegrar menníngar, þær hafa hjálpað til að koma [illegible]lagi á hugsanirnar og brýna málið. Gáturnar eru fullkomnastar þegar [illegible]inn er lýst nákvæmlega og þó óvanalega, en svo að sem mest verður [illegible]hugsunar. Þó gátan sé af ásettu ráði myrk, þá verður hún þó að [illegible] í föstum skorðum og fylgja vissum reglum, í henni verður að nefna [illegible] marga eiginlegleika hlutarins, eins og þarf til þess að greina hann [illegible] öðrum hlutum.

Gáturnar hafa frá því í fornöld optast haft tvær hliðar, gaman og [illegible]: þó yfirborðið sé lipurt og leikandi og sýnist eintómt gaman og [illegible]kni, þá er opt dýpri og þýngri undiralda og alvarlegri skoðun á lífinu. [illegible]turnar eru því eins og önnur alþýðleg fræði einkar vel fallnar til að [illegible] hugmynd um eðli þeirrar þjóðar, sem þær hafa skapast hjá. Margar [illegible] eru svo algeingar í ýmsum löndum og hafa svo mikla útbreiðslu um [illegible] rúm, að þær sýna, eins og þjóðsögur og æfintýri hið andlega sam[illegible], sem teingir ótal þjóðir saman í þjóðakerfi og flokka. Ef vel væri að [illegible], mundi eflaust mega *sýna það, að hinar dýpstu rætur* þjóðlegra fræða á [illegible]*andi liggja, eins og í öðrum Európulöndum, lángt* burtu, austur í Asíu; þó

búníngurinn sé annar, þá eru hugmyndirnar, sem til grundvallar liggja opt hinar sömu; hver einstök þjóð hefir fært hið gamla í sérstakan búníng og skapað nýtt, eptir sínu eigin eðli. Þessi þjóðlegu fræði eru því á mismunandi stigi, eptir gáfum og skarpleika þjóðanna; eptir því sem fram hefir komið í þeirri grein hér á landi, held eg mér sé óhætt að segja, að íslenzk alþýða sé í þessu tilliti eingu síður en aðrar stærri þjóðir.

Vísindin hafa sýnt það á seinni árum, að allar þjóðir hafa í fyrstu verið mjög svo fákunnandi um flesta hluti, en hafa svo smátt og smátt hafið sig til meiri menníngar. Hið einfaldasta í öllum efnum má rekja til róta, þau orð í málunum, er tákna almenna hluti, sameiginlega mörgum þjóðum, má t. d. rekja leingst; seinna hafa þjóðirnar kvíslast og lífsskilyrðin hafa breyzt og með þeim hugmyndirnar og þekkíngin. Gáturnar fylgja sama lögmáli, þær gátur er tákna almenna náttúruhluti t. d. sól og túngl, vind og veðráttu, eld og snjó eru að líkindum elztar og má fylgja sumum þeirra land úr landi og lángt upp eptir öldum. Eg vil t. d. nefna gátuna:

Fuglinn flaug fjaðralaus,
settist á vegginn beinlaus,
þá kom maður handlaus,
og skaut fuglinn bogalaus.

Þessi gáta er algeing um alla Európu og er jafnvel til austur í Thibet, hún hefir líka fundist í latnesku handriti í Reichenau frá byrjun tíundu aldar; eg set hér til samanburðar gátu þessa á þýzku frá Schleswig-Holstein, á ensku og latínu.

Á þýzku:
Da köem en Vagel fedderlos,
Un set sik op'n Boem blattlos;
Da köem de Jungfrau mundelos,
Un freet den Vagel fedderlos
Van den Boem blattlos.

Á ensku:
White bird featherless
Flew from Paradise,
Perched upon the castle wall;
Up came Lord John landless,
Took it up handless,
And rode away horseless to the King's white hall.

Á latínu:
Volavit volucer sine plumis;
venit homo absque manibus;
conscendit illum sine pedibus;
assavit illum sine igne;
comedit illum sine ore.

Gátan um árið, mánuðina, vikurnar og dagana: «Hver er sú eik, sem hefir hundrað greinar» o. s. frv. eða «Hver er sá lundur, sem vex með tólf blómstrum» er eldgömul og hjá mörgum þjóðum, þessi gáta stendur ef til vill í einhverju sambandi við heimstréð, sem getið er um í goðafræði margra þjóða (askur Yggdrasils o. fl.). Gátan um Evu:

Mey var manni gefin
áður en hún var átta nátta,
átti barnið ársgömul
*og dó áður en hún fæddist,*

... mörgum málum og í ýmsu formi; lík gáta á latínu er til frá miðöld-... með sömu þýðíngu:

Nondum natus eram cum me mors abstulit atrox
et me natalem mors rapit ante diem.

...án um reykinn: »Faðirinn er ekki fæddur þegar sonurinn dansar ...kinu,« er til á Írlandi og víðar; gátan: »Hvað hét hundur karls sem ... bjó o. s. frv.« er til á Þýzkalandi, en þar er karlinn reyndar ... keisari. Svo er um margar fleiri gátur íslenzkar, að þær eru til í ...löndum og yrði það of lángt upp að telja.

Það er auðséð á Biblíunni að Gyðíngar hafa til forna tamið sér gátur ... þær sér til skemtunar, allir þekkja gátu þá er Samson bar upp ... Filistea í brúðkaupi sínu: »Matur gekk út af etanda og sætleiki af ...sterka.« (Dómarabók c. 14.v.14.). Filistear höfðu lofað að gefa ... 30 skyrtur og 30 hátíðaklæði, ef þeir gætu ei ráðið gátu þessa í ... er veizlan stóð, en hann átti að gefa þeim hið sama, ef þeir gætu ... En á sjöunda degi sögðu þeir við konu Samsons: lokka þú bónda ... til að segja oss gátu þessa, ella skulum vér brenna þig og hús föður ... í björtu báli. Þá grét kona Samsons og sagði við hann: þú hatar ... en elskar ekki, þar þú hefir borið gátu upp fyrir börnum míns fólks ... ekki sagt mér ráðníngu hennar. Hann svaraði henni: sjá! eg hefi ekki ... föður mínum né móður minni hana, og hví skyldi eg þá segja þér ...? Og hún grét framan í honum þá sjö daga, sem veizlan stóð yfir, ... á hinum sjöunda degi sagði hann henni ráðnínguna, því hún gekk svo ... á hann; og síðan sagði hún börnum síns fólks hana. Þá sögðu bæjar-... til hans á sjöunda degi, áður en sól settist: hvað er sætara en ...ángi? og hvað er sterkara en ljón? Þá sagði Samson til þeirra: ef þér ... ekki erjað með kvígu minni, munduð þér ei hafa ráðið gátu mína. ... kom andi Drottins yfir hann, svo hann fór ofan til Askalon og drap ... menn af þeim, tók klæði þeirra og gaf þeim til hátíðaklæðnaðar, ... höfðu ráðið gátu hans, og hann varð ákaflega reiður.«

Gáturnar voru svo mikils metnar, að jafnvel hinir vitrustu konúngar ... sér það einga lægíngu þykja að bera upp og ráða gátur. »Drottníngin ... Saba heyrði orðstír Salomons, sakir Drottins nafns og hún kom til að ...reyna hann með gátum« (1. Kgbók 10, 1-3, 2. Kronikub. 9,1). Á óteljandi ...stöðum í ritníngunni er framsetníngin líkíngarfull og þvínær í gátuformi ... sýnir það hve gátugjörðin hefir verið mikils metin, svo mönnum hefir ... fagurt og vel sæmandi að láta hin helgustu og hátíðlegustu fræði koma ... í þessum búníngi.

Hjá Grikkjum voru gátur mjög tíðar; goðasvörin voru eintómar gátur ... stuðla versum, auk þess höfðu menn gátur sér til skemtunar í sam-...tum og lögðu stundum *fé við, ef þær voru eigi ráðnar;* hjá Grikkjum ... *ýms fræg gátuskáld, einsog t. d. Kleobulos og dóttir* hans. Í attiskum

sorgleikum er getið um hinn egyptska «sphinx» í Þebuborg; óvættur þessi bar upp gátur fyrir menn og drap hvern þann, er ei gat ráðið; fjöldi úngra manna lét þannig líf sitt. Oedipus einn gat ráðið gátuna og fékk að verðlaunum konúngstign í Þebuborg; hin mikilfeinglegu örlög Oedipusar eru algeingt yrkisefni forngrískra skálda. Gáta sú er Oedipus réði er nú kunn um allan heim og algeing á Íslandi; hún er svo:

Hvert er það dýr í heimi,
harla fagurt að sjá,
skrýtt með skrauti og seimi,
skrökva eg þar ei frá,
á morgni með fjórum fótum
fær sér víða fleytt,
en gár þó ekki greitt.
Þá sól hefir seinna geingið
í sjálfan hádegisstað,
tvo hefir fætur feingið
frábært dýrið það,
gjörir um grund að renna
geysi hart og fljótt
og fram ber furðu skjótt.
Þá sólin sezt í æginn
og sína birtu ei lér,
dregur á enda daginn,
dýrið geyst ei fer,
förlast þá að flestu,
fætur hefir það þrjá
og þrammar þúnglega þá.

Í gamalli skröksögu er þess getið, að Homer hafi eitt sinn mætt fiskimönnum frá Íos og spurt þá hvernig þeir hefði fiskað, þá svöruðu þeir: «vér köstuðum því, er vér veiddum, en bárum það heim, sem vér ekki veiddum». Sagan segir, að Homer hafi eigi getað ráðið gátu þessa og varð honum svo mikið um það, að hann dó af því. Hér á Íslandi hafa menn ekki tekið sér svo nærri þó þeir gætu ekki ráðið gátur, en hinsvegar er það algeingt, að sá sem ber upp gátuna storkar hinum og segir: «Þú ert ekki hrein(n) sveinn, (mey) ef þú ekki getur ráðið þessa gátu.»

Rómverjar voru of alvörugefnir til þess, að þeir hefðu til muna gátur sér til gamans; gátuskáld þeirra t. d. Symposius, Aldhelmus o. fl. voru uppi á hinum seinustu dögum rómverskra bókmenta. Gátur voru hjá mörgum þjóðum alltíðar á miðöldunum og til eru nokkur gátusöfn á latínu frá þeim tíma. Í einu orði, gátur eru til hjá flestum þjóðum, sem komnar eru á nokkurt menníngarstig og yrði oflángt hér að elta það, þó það ef til vill væri mjög fræðandi að bera þesskonar saman frá ýmsum þjóðum og löndum, en það yrði of lángt mál og auk þess vantar mig þá þekkíngu, er til þess þyrfti.

Gátur hafa eflaust verið alltíðar á Íslandi til forna, en þó er þeirra mjög sjaldan getið í sögunum. Ein gáta er í Snorra-Eddu[1]. Þar segir svo: «Bóndi nokkur sendi húskarl sinn morgun einn at hugleiða um tún. En er hann kom aptur, spurði bóndi hví hann hefði svo lengi á burtu verit. Húskarl sagði: ek hefi horft á þat, sem ek hefi sét. Bóndi spyr: hvat sáttu?

[1] Edda Snorra Sturlusonar útgefin af Sveinbirni Egilssyni. Reykjavík 1848. bls. *238—239.*

Ek sá fljúga
fugla marga:
aldrtjón Ella,
eggdauða menn,
ben bíldskorna,
buðlung Dana,
þjónustumey,
þúnga báru«. o. s. frv.

Í sumum hinum eldri skáld- og hetju-sögum eru dulmæli, sem líkjast gátum; svo er t. d. í Völsúngasögu. »Þegar Fáfnir fékk banasár spurði hann, hverr ertu eða hverr er þinn faðir eða hverr er ætt þín, er þú vart svá djarfr, at þú þorir at bera vápn á mik«. Sigurður svarar: »Ætt mín er mönnum ókunnug; ek heiti göfigt dýr ok á engan föður né móður ok einsaman hefi ek farit« o. s. frv. Seinna segir Sigurður: »Seg þú þat, Fáfnir, ef þú ert fróðr mjök: Hverjar eru þær nornir, er kjósa mögu frá mæðrum?« Fáfnir svarar: »Margar eru þær ok sundrlausar, sumar eru Ása ættar, sumar eru álfa ættar, sumar eru dætr Dvalins«. Sigurðr mælti: »Hvé heitir sá hólmr, er blanda hjörlegi Surtr ok Æsir saman?« Fáfnir svarar: »Hann heitir Óskaptr«[1].

Í Ragnars sögu Loðbrókar eru og dulmæli nokkur eða gátur; menn hans sögðu honum frá fagurri konu, er þeir höfðu séð og sendi hann þá til fundar við hana »ef yðr lízt þessi unga mær svá væn, sem oss er sagt, biðið hana fara á minn fund, ok vil ek hitta hana, vil ek at hún sé mín; hvárki vil ek at hún sé klædd né úklædd, hvárki mett né úmett, ok fari hon þó eigi einsaman, ok skal henni þó engi maðr fylgja.« Sendimenn fóru til Kráku og sögðu henni orðsendíng konúngs. Næsta morgun fór hún á fund konúngs og var þá svo búin, að hún var vafin innan í urriðaneti og lét svo hár sitt falla utanyfir, bergði á lauk og lét hund fylgja sér[2].

Alkunnar eru gátur Heiðreks konúngs og eru þær hið elzta gátusafn, er [illegible]ki á íslenzka túngu og líklega eldri en sagan sjálf, mér þótti því bezt viðeiga að láta gátusafn mitt byrja með gátum þessum, og hefi eg hér á eptir látið prenta orðréttan gátukaflann úr sögunni, eptir útgáfu [illegible] Bugge[3].

---

Þó margar gátur séu til á Íslandi, þá hefir þó enn ekki komið neitt gátusafn fyrir almenníngssjónir, sem nokkuð kveður að; reyndar hafa nokkrar gátur áður verið prentaðar hér og hvar í ýmsum bókum, en þær eru svo fáar að tölunni, að varla er hægt að kalla þær gátusöfn. Gátur

[1] Völsungasaga. Reykjavík 1885. Kap. 18. bls. 38—40.
[2] Fornaldarsögur Norðurlanda. *Kmh. 1829. I. bls. 245—46.*
[3] *Hervarar saga ok Heiðreks. Christiania 1873 bls. 233—264.*

þær, sem prentaðar eru í Gunnarskveri[1] hefi eg allar tekið í safn mitt, auk þess eru gátur í Kvöldvökunum og í Lestrarbók séra Þórarins, en af því þessar gátur sýnast vera beinlínis útlagðar, þá hefi eg ekki tekið þær í safnið; nokkrar gátur, sem eru í Klausturpóstinum hefi eg heldur ekki tekið. Í Þjóðvinafélagsalmanökum eru ýmsar algeingar gátur, sem líklega munu flestar vera í mínu safni.

Um 1850 fór eg fyrst að safna gátum og síðan hefir smátt og smátt bæzt við. Hefi eg við gátusafn mitt notið aðstoðar margra manna, sem eg hér í einu votta þakklæti mitt fyrir alla hjálpsemina. Eg hefi ekki sett í safnið nöfn þeirra, er eg fékk hverja gátu frá, af því það yrði svo mikið mál, að það yrði nærri eins lángt og gáturnar sjálfar; sumar gátur hefi eg feingið úr 20—30 stöðum og eflaust meir en ²/₃ af öllu safninu úr 5—10 stöðum, það yrði því alveg þýðíngarlaust, að nefna heimild fyrir hverri gátu. Hjá Ólafi Davíðssyni, frænda mínum hefi eg feingið lángflestar gátur og á hann af mér miklar þakkir skilið, fyrir alla hjálp sína við safn þetta. Svo að eg nefni þá, sem mest hafa stutt að safni þessu, þá eru þessir helztir: Brynjólfur Jónsson á Minnanúpi, séra Eggert Briem á Höskuldsstöðum, séra Eiríkur Kuld, séra Gunnar Gunnarsson á Hálsi, Dr. Hallgrímur Scheving, húsfrú Ingunn Jónsdóttir frá Þíngeyrum, séra Jakob Finnbogason í Steinnesi, Jónas Jónsson dyravörður, séra Magnús Grímsson, Moritz læknir Haldórsson, Páll stúdent Pálsson, séra Sigurður Gunnarsson á Hallormstað, séra Sveinbjörn Guðmundsson á Holti undir Eyjafjöllum. Auk þessara manna hafa fjölda margir hjálpað mér um einstakar gátur; eg hefi og notað gátusafn eptir séra Ólaf Sivertsen í Flatey og ýmsar gátur í handritasafni Jóns Sigurðssonar og í handritasöfnum Landsbókasafnsins og Bókmenta félagsins. Það eru aðeins fáar gátur, sem menn vita höfunda að og missagnir ýmsar eru um margar, hvaðan þær séu; við einstaka gátu hefi eg sett skammstafað höfundarnafnið.

Eg var leingi í vafa um hvernig raða skyldi gátunum í safni þessu og fannst mér á endanum réttast, að raða eptir upphöfum gátnanna, því hefði þeim verið raðað eptir efni, hefði eigi verið hægt að komast hjá allskonar ósamkvæmni í niðurröðuninni, þó ef til vill margt mæli með að hafa slíka niðurskipun eptir efni. Eg get ekki ímyndað mér að niðurröðun eptir stafrofsröð geti komið að neinum baga og að safnið geti eins og tilætlast er, þrátt fyrir það, orðið alþýðu manna til saklausrar skemtunar og dægrastyttingar. Menn geta eigi ætlast til, að hér séu allar íslenzkar gátur í safni þessu. Það liggur í hlutarins eðli, að eigi er hægt að safna þeim öllum, sem til eru í landinu; en eg vona að hér sé þó tilfærður meginþorri þeirra gátna, sem almennar eru. Í safnið

[1] *Lijtið wngt* stöfunar-barn þó ei illa stautandi frá Hiarðarhollti i Breiðafjarðar Daul-*um. Hrappsey 1782. bls. 51—55.*

hefi eg tekið sem minnst af nafnagátum (nöfn bundin í vísu), mér finnst þær varla eiga hér heima, enda væri mikil fyrirhöfn og lítill vinníngur að safna þeim. Því í flestöllum rímum og í ótal kvæðum eru bundin nöfn, optast með Edduhnoði og illa fyrir komið; eins hefi eg sneitt hjá öllum klúrum og klámfeingnum gátum og margar gátur í ljóðum hefi eg ekki tekið, vegna þess þær voru svo illa orktar og eintómur leirburður.

Eg vil að endíngu óska þess, að safn þetta geti orðið sem flestum unglíngum á Íslandi til gagns og gamans, líkt og Þjóðsögurnar, og að gáturnar gæti hjálpað til þess, að vekja hjá þeim velvilja og rækt til alþjóðlegra fræða.

Reykjavík 25. nóvember 1886.

*Jón Árnason.*

# I.

# Gátur Gestumblinda[1].

Gestvmblindi het ein rikr maðr i Reiðgotalandi, hann var i vbliðv Heiðreks konvngs. I konvngs hirð vorv þeir siav menn, er dœma skylldv ǫll mal manna þar i landi. Heiðrekr konvngr blotaði Frey; þann gollt, er merstan feck, skylldi hann gefa Frey; kollvðv þeir hann sva helgan, at yfir hans bvrst skylldi sveria vm oll stor mal ok skylldi þeim gellti blota at sonarbloti; iolaaptan skylldi leiða sonargolltinn i holl firir konvng; logþv menn þa hendr yfir bvrst hans ok strengia heit. Heiðrekr konvngr strengði þers heit, at engi maðr skylldi sva mikit hafa af gort við hann, ef a valld hans kœme, at eigi skylldi korst eiga at hafa dom spekinga hans; hann skylldi ok friðheilagr vera firir honvm, ef hann bæri vpp gatvr þær, er konvngr kynni eigi or at leysa. En er menn freistvðv at bera vpp gatvr firir honvm, þa varð engi sv vpp borin, er hann reði eigi. Konvngr sendi orð Gestvmblinda, at hann kiæme til hans, ok setti honvm dag, ella sagðiz konvngr mvndv lata koma til hans. Honvm þotti hvargi goðr kostrin, þvi at hann vissi sig vanfœran at skipta orðvm vid konvng; honvm þotti ok sin von eigi goð, ef hann verðr at hafa dom spekinganna, þvi at sakir vorv nogar; veit hann ok, ef konvngs menn koma til hans at þat kostar lif hans. Siþan blotaði hann Oðin ok bað hann fvlltings ok het honvm storvm giofvm. Eitt kvelld kom gestr til Gestvmblinda, hann nefndiz Gestvmblindi; þeir vorv sva likir, at hvargan kendi firir annan. Þeir skiptv klæðvm, ok for bondi að hirða sig, en aller hvgðv þar vera bonda, er gestrin var. Þersi maðr ferr a konvngs fvnd ok heilsar honvm. Konvngr sa við honvm ok þagði. Gestvmblindi mællti: «Þvi em ek her komin, herra! at ek vil sættaz við yðr.» Konvngr spvrði: «Villtv hafa dom spekinga?» Gestvmblindi mællti: «Eru engar fleiri vndanlavsnir?» Konvngr segir: «Bera

[1] Prentaðar eptir «Hervarar saga ok Heiðreks». Christiania 1873. (Norröne Skrifter af sagnhistorisk Indhold, udgivne af Sophus Bugge, bls. 233—264.) Öllum orðamun *og öllum athugasemdum höfundarins* er slept.

mattv vpp gatvr; skaltv lavs, ef ek se eigi.» Gestumblindi svarar: «Litt em ek þar til fœrr, en harðr er a annað borð.» Konvngr mællti: «Villtv helldr domin?» «Nei», segir hann «helldr vil ek bera gatvrnar vpp.» Konvngr mællti: «Þat er ok rett. en mikit liggr a: sigrar þv mik, þa skalltv eiga dottor mína, ok a þer eigi þersa at varna. En vlikr ertv til mikillar speki; en alldri varð þat en, at ek sa eigi gatvr þær, er firir mik vorv vpp bornar.» Var siþan stoll settr vndir Gestvmblinda, ok hvgþv menn gott til at heyra þar vitrleg orð. Þa mællti Gestvmblindi:

«Hafa ek þat villda
er ek hafða i giær,
konvngr! vittv, hvat þat var:
lyða lemill
ok orða tefill
ok orða vpphefill.
Heiðrekr konvngr,
hygðv at gatv!»

«Goð er gata þin,
Gestvmblindi!
getið er þeirar:
fai honvm mvngat, þat lemr margra manna vit: svmir verða margmælltir þar af, en svmvm vefz tvngvbragð.»
Gestvmblindi mællti:
«Heiman ek for,
heiman ek for gerðag,
sa ek a veg vega:
vegr var vndir
ok vegr yfir
ok vegr a alla vega.
Heiðrekr konvngr,
hygðv at gatv!»

«Goð er gata þin,
Gestvmblindi!
getið er þeirar:
þar fortv yfir brv. ok var arvegrin vndir henni, en fvglar flvgv yfir havfði þer ok tveim megin þin, þat var þeira vegr; þv sátt lax i ánni, ok var þat hans vegr.»
Gestumblindi mælti:
«Hvat er þat drykkja,
er ek drakk í gær,
varat þat vín né vatn,
mjöðr né mungát
né matar ekki,
þó gekk ek þorstalauss þaðan?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv.
þar lagðiz þú í forsœlu ok kœldir varrir þínar á dögg. En ef þú ert sá Gestumblindi, er ek ætlaða, þá ertu vitrari en ek hugða, þvíat ek hefi spurt orð þín óvitrleg, en geraz nú á leið spakleg.» Gestumblindi mælti: «Þat er ván, at mik þrjóti brátt, en þó vilda ek enn, at þér hlýðið.
Hverr er sá hinn hvelli,
er gengr harðar götur,
ok hefir hann þær fyrr of farit;
mjök fast kyssir
ok hefir munna tvá
sá er á gulli einu gengr?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.
Heiðrekr konungr svarar:
Góð er gáta þín, o. s. frv.
þat er gullsmiðs-hamarr, er gull er með slegit.»
Gestumblindi mælti:
«Hverr er sá hinn mikli,
er ferr mold yfir,
svelgr hann vötn ok veisur;

glygg hann óask,
en guma eigi,
ok yrkir á sól til saka?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. þat er myrkvi; fyrir honum sér eigi sæ, en hann hverfr þegar, er vindr kemr, ok megu menn ekki at honum gera; hann drepr skini sólar. En vélasamlega berr þú upp slíkar gátur ok vandmæli, hverr sem þú ert.»

Gestumblindi mælti:
«Hverr er sá hinn mikli,
er mörgu ræðr,
ok horfir til heljar hálfr;
öldum hann bergr
en við jörð sakask,
ef hann hefir sér veltraustan vin?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. þat er akkeri með digrum ok sterkum streng, þat ræðr mörgu skipi; þat hrífr öðrum fleini í jörð, ok horfir sá til heljar, hann bergr mörgum manni. En mjök umdrumz ek orðfimi þína ok vitrleik.»

Gestumblindi mælti: «Ek em nú ok nálega þrotinn at gátum, en frekr er hverr til fjörsins.
Hverr byggir há fjöll,
hverr fellr í djúpa dali,
hverr andalauss lifir,
hverr æva þegir?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. hrafn byggir jafnan á hám fjöllum, en dögg fellr jafnan í djúpa dali, fiskr lifir andalauss, en þjótandi fors þegir aldregi.»

*«Vandaz mun nú», segir Gestumblindi*, «ok veitka ek nú, hvat fyrir verðr.
Hvat er þat undra,
er ek úti sá
fyrir Dellings durum:
höfði sínu vísar
heljar til,
en fótum til sólar snýr?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. þat er laukr, höfuð hans horfir í jörð, en blöðin í lopt.»

Gestumblindi mælti:
«Hvat er þat undra,
er ek úti sá
fyrir Dellings durum:
ókyrrir tveir
andalausir
sáralauk suðu?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. smiðbelgir eru þat, þeir hafa vind en engvan anda.»

Gestumblindi mælti:
«Hvat er þat undra,
er ek úti sá
fyrir Dellings durum:
hvítir fljúgendr
hellu ljósta,
en svartir í sand grafask?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. smækkaz nú gáturnar, en þat er hagl ok regn, því at hagli lýstr á stræti, en regnsdropar søkkvaz í sand ok sœkja í jörð.»

Gestumblindi mælti:
«Hvat er þat undra,
er ek úti sá
fyrir Dellings durum:

svartan gölt ek sá
í suria vaða,
ok reisat hánum burst á baki?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

»Góð er gáta þín, o. s. frv. þat er tordýfill, ok er nú mart til tint, er tordýflar eru ríkra manna spurningar.»

Gestumblindi svarar: »Frest eru böls bezt, en margr maðr vill at meira leita, ok séz því sumum yfir; sá ek nú ok, at allra útfœra verðr at leita.

Hvat er þat undra,
er ek úti sá
fyrir Dellings durum:
tíu hefir tungur,
tuttugu auga,
fjóra tigu fóta,
ferr hart sú vættr?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

»Góð er gáta þín, o. s. frv. þar sáttu sú, ok váru í henni níu grísir.»

Lét þá konungr drepa súna, ok váru í henni níu grísir, svá sem Gestumblindi hafði sagt; þá mælti konungr: »Eigi veit ek nú, nema vitrari eigi hlut í, ok eigi veit ek, hvat manna þú ert.»

Gestumblindi segir: »Slíkr em ek, sem þú mátt sjá, ok vilda ek gjarna þiggja líf mitt ok vera lauss af þessum þrautum.» Konungr svarar: »Upp skaltu nú bera gátur, þar til er þik þrýtr, ella mik at ráða.»

Gestumblindi mælti:
»Hvat er þat undra,
er ek úti sá
*fyrir Dellings durum:*
ofarlega flýgr
arnhljóð gellr,
harðar ro, hilmir! greipr?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

»Góð er gáta þín, o. s. frv. ör er þat», segir konungr.

Gestumblindi mælti:
»Hvat er þat undra,
er ek úti sá
fyrir Dellings durum:
fœtr hefir átta
en fjögur augu,
ber þat ofar kné en kvið?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

Heiðrekr konungr svarar: »Er nú bæði, at þú hefir höttinn síðan enda sér þú niðr undan fleira en flestir menn aðrir, er þú hugsar hvert skrípi jarðarinnar: en þat er köngurváfa.»

Gestumblindi mælti:
»Hvat er þat undra,
er ek úti sá
fyrir Dellings durum:
lýðum lýsir
lönd öll yfir,
ok keppask um þat vargar ávalt?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

»Góð er gáta þín, o. s. frv. þat er sól, hón lýsir lönd öll ok skínn yfir alla menn; en Skalli ok Hatti heita vargar, þat eru úlfar, er annarr þeira ferr fyrir, en annarr eptir sólu.»

Gestumblindi mælti:
»Hvat er þat undra,
er ek úti sá
fyrir Dellings durum:
horni harðara,
*hrafni svartara,*
*skjalli hvítara,*

skapti réttara?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. þú sátt hrafntinnu, ok skein á sólargeisli, er lá í einu húsi. Eða kantu eigi á annan veg gátur upp at bera en hafa hit sama upphaf at, þar sem mér virðiz þú fróðr maðr?»

Þá mælti Gestumblindi:

«Báru brúðir
bleikhaddaðar,
ambáttir tvær,
öl til skemmu;
vara þat höndum horfit
né hamri klappat
þá er fyrir eyjar útan
örðigr ker gerði.
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. þat eru æðar tvær þær er eggjum verpa; eggin eru eigi ger með hamri né höndum, en þjónustumeyjar báru ölit í eggskurninni.»

Gestumblindi mælti:

«Liðs verðr sá at leita er lítið sax hefir ok mjök er fáfróðr, ok vilda ek enn tala fleira. Eða
hverjar ro þær rýgjar
á reginfjalli,
elr við kván kona,
mær við meyju
mög of getr,
ok eigut þær varðir vera?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. þat eru fjallhvannir tvær saman, ok rennr upp hvannkálfr í milli þeirra.»

Gestumblindi mælti:

«Hverjar ro þær drósir,
*er um sinn dróttin*
vápnalausar vega;
enar jörpu hlífa
alla daga,
en hinar fegri fara?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. þat er hneftafl; töflur drepaz vápnalausar um hnefann, ok fylgja honum enar rauðu.»

«Hverjar ro þær leikur,
er líða lönd yfir
at forvitni föður;
hvítan skjöld
þær á vetrum bera,
en svartan um sumar?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. þat eru rjúpur.»

Gestumblindi mælti:

«Hverjar ro þær snótir,
er ganga syrgjandi
at forvitni föður;
hadda bleika hafa þær
enar hvítföldnu
ok eigu í vindi at vaka?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv. þat eru bylgjur, er heita Œgis meyjar.»

Gestumblindi mælti:

«Hverjar ro þær meyjar,
er margar ganga saman
at forvitni föður;
mörgum hafa manni
þær at meini komit,
ok eigut þær þar varðir vera?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv.

en þetta eru bárur sem áðan.»

Gestumblindi mælti:

»Hverjar ro þær brúðir,
er ganga brimserkjum í
ok eigu eptir firði för;
harðan beð hafa þær
enar hvítföldnu
ok leika í logni fátt?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

»Góð er gáta þín, o. s. frv. þat eru enn Œgis meyjar, ok förlaz þér nú mjök framburðrinn, ok muntu nú vilja þola dóm spekinga.»

Gestumblindi segir: »Tregr em ek þess, en þó væntir mik, at þar komi nú skjótt.

Fara ek sá
foldar moldbúa,
á sat nár á ná;
blindr reið blindum
brimreiðar til,
jór er andarvani.
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

»Góð er gáta þín, o. s. frv. þar komtu at á einni, ok rak ísjaka eptir ánni, ok lá þar á dauðr hestr ok á hestinum einn dauðr ormr, ok bar þar blindr blindan, er þeir váru þrír saman.»

Gestumblindi mælti:

»Hvat er þat dýra,
er drepr fé manna
ok er járni kringt útan;
horn hefir átta,
en höfuð ekki,
ok rennr, er renna má?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

»Góð er gáta þín, o. s. frv. þat er húnn í hnefatafli, hann heitir sem björn, hann rennr, þegar er honum er kastat.»

Gestumblindi mælti:

»Hvat er þat dýra,
er Dönum hlífir,
berr blóðugt bak
en bergr fírum,
geirum mœtir,
gefr líf sumum,
leggr við lófa
lík sitt gumi?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

»Góð er gáta þín, o. s. frv. þat er skjöldr, hann bergr mörgum, hann berr opt blóðugt bak.»

Gestumblindi mælti:

»Mjök varp forðum
nösgás vaxin,
barngjörn sú er bar
bútimbr saman;
hlífðu henni
hálms bitskálmir,
þó lá drykkjar
drynhraun yfir.
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

»Góð er gáta þín, o. s. frv. þar lá önd á eggjum millum nauts kjálka, er þú hálms bitskálmir kallar, en drynhraun hausinn, en bútimbr hreiðrit.»

Gestumblindi mælti:

»Fjórir ganga,
fjórir hanga,
tveir veg vísa,
tveir hundum verja,
einn eptir drallar
ok optast óhreinn.
*Heiðrekr* konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv.
Þat er kýr: hón hefir fjóra fœtr ok fjóra spena, tvau horn ok tvau augu, en halinn drallar eptir.»

Gestumblindi mælti:

«Hverr er sá hinn eini,
er søfr í ösku grjá
ok er af grjóti einu gørr,
föður né móður
áat sá enn fjárgjarni,
þar mun hann sinn aldr ala?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv.
Þat er fólginn eldr á arni er drepinn er við tinnu.»

Gestumblindi mælti:

«Hest sá ek standa,
hýddi meri,
dúði dyndil,
drap hlaun und kvið;
ór skal draga
ok í optað góða stund.
Heiðrekr konungr, o. s. frv.

Þá svarar konungr: «Þessa gátu skulu ráða hirðmenn mínir.» Þeir gátu margs til ok eigi fagrs mjök; þá mælti konungr, sem hann sá, at þeir gerðu ekki at: «Hest þann kallar þú línvef, en skeið meri hans, en upp ok ofan skal hrista vefinn.»

Gestumblindi mælti:

«Hverir ro þeir þegnar,
er ríða þingi at
ok eru sextán saman;
lýði sína senda þeir
lönd yfir
at byggja bólstaði?
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv.
*Þat er tafl Ítreks konungs.*»

Gestumblindi mælti:

«Sá ek á sumri
sólbjörgum á
verðung vaka
vilgi teita;
drukku jarlar
öl þegjandi,
en œpandi
ölker stóðu.
Heiðrekr konungr», o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv.
Þat er grísasýr; þá er grísir sjúga hana, þá hrínn hón, en þeir þegja. En eigi veit ek, hvat manna þú ert, er þvílíka hluti gerir svá mjúkliga af litlum efnum.» Ok nú biðr konungr í hljóði, at byrgja skuli hallardyrrnar.

Gestumblindi mælti:

«Meyjar ek sá
moldu glíkar,
váru þeim at beðjum björg,
svartar ok sámar
í sólviðri,
en þess at fegri er fǽra of sér.
Heiðrekr konungr, o. s. frv.

«Góð er gáta þín, o. s. frv.
Þat eru glœðr fölnaðar á arni.»

Gestumblindi mælti:

«Sat ek á segli,
sá ek dauða menn
blóðshol bera
í börk viðar.
Heiðrekr konungr,
hyggðu at gátu!»

«Góð er gáta þín,
Gestumblindi!
getið er þeirar:

þar saztu á vegg ok sáttu val fljúga,
ok bar æði í klóm sér.»

Gestumblindi mælti:

»Hverir ro þeir tveir,
er tíu hafa fœtr,
augu þrjú,
en einn hala?
Heiðrekr konungr,
hyggðu at gátu!»

»Margs freistar þú nú, er þú finnr nú þau rök til framburðar við mik, er forðum váru: þat er þá er Óðinn reið hestinum Sleipni, hann hafði átta fœtr, en Óðinn tvá, en þeir höfðu þrjú augu: Sleipnir tvá en Óðinn eitt.»

Gestumblindi mælti:

»Segðu þat it hinzta,
ef þú, Heiðrekr! ert
hverjum vitrari vísa:
hvat mælti Óðinn
í eyra Baldri,
áðr hann var á bál um borinn?»

Konungr svarar:

»Undr ok argskap
ok alla bleyði
væntik verit hafa;
en orð þau er mæltir
einn þú veizt,
ill vættr ok örm!»

Konungr brá þá Tyrfingi ok hjó til Gestumblinda, en hann bráz í vals líki ok fló út gegnum hallarglugginn, en sverðit kom á vélit valsins, ok er hann því vélstuttr jafnan síðan, svá sem heiðnir menn trúa. Ok var nú Óðinn honum reiðr orðinn, síðan hann hjó til hans; ok á þeiri nótt var konungr drepinn.

## II.
## Gátur.

1.
Að kemur opt hinn trauði,
inn sig í brögðum finnur,
haukaláðs fyrir flækjast
fábreytinn taugum náir:
kæna sér kveður vini,
kipraður saman í hnipur,
verjast kann við þeim berjast,
vitrum opt gys að flytur.

2.
Að kom eg þar elfan hörð
á var ferðum skjótum;
undir vatni ofan á jörð
arkaði eg þurrum fótum.

3.
Af höfuðfáti hlýt eg nafn
og hættulegri veiki;
þegar eg hitti sveina safn
sumir fara af kreiki.

4.
Af ullbandsþráða fjöld
ófléttaðri,
ósamanvafðri,
en óflæktri,
og fögru frumefni
fimbulskóga
hefi eg heiti mitt.
Hvað heiti eg þá?

5.
Aflar og kraflar
fyrir ofan nafla;
þar er aflaung hola
og þar baukar margur í.

6.
Aldraðan öldúng
eg leit standa,
hjá ítum með prýði,
fæðu með hraða hrifsar,
henni um stálgætt eg ýtti,
nýtur þess neytti aldrei,
nýtir sig þar með skreyta;
fylgja þrjár húðir harðar
honum af tvennu kyni,
tvo ása líka leit eg
lipra þar vera að starfi,
líka eitt látún lítið,
litlum á hlekkjum hánga,
ítar því tíðum ýta
öfugt í munninn til flýtis.
Tveir eru streingir stífir,
stiltir í velta sporum,
stærsta lim hans þeir halda,
húngraðir títt á vorum;
grimmur í máli gjörðist,
gleðst þó við skepnu styrkinn,
frekar hann fegurð kvenna,

en frekast um bjarnar nætur;
konu hann á sér eina,
ofur grönn var að líta,
án hennar er ónýtur,
allan gáng þessi skreytir.
Sjö hundruð sá fékk bræðra,
sex og betur tuttugu;
fleiri eg marga meina,
mér ofvaxið að greina.

7.

Aldrei er eg einburi,
optast er eg tvíburi,
þó er eg stundum þríburi,
en þá er eg optar fjórburi.

J. B.

8.

Aldrei vini eg yfirgef,
ætíð held eg lífi,
alténd vaki, aldrei sef,
opt eg hamla kífi.

9.

Alla daga á höfði húkir, hvatar leiðir;
lopt og vindur loks því eyðir.

10.

Allir vilja eiga mig
og að mér henda gaman,
niður við mig setja sig,
og sýna mig þá að framan.

J. B.

11.

Allsber gaur, sem átti pell,
á ýmsar hliðar skoppa vann,
nefinu klórar niður á svell,
nokkuð gruggótt drekkur hann.

12.

Alskrýddur þá er
aptur strax eg fer,
mitt hið skæra skart,
skjótt af leggja bjart.
Að klæða mig úr og í
ávalt gánga að því
sex á sviði fríu
systkini og fimmtíu.

13.

Ambátt er ein
er fæðist á Íslandi
og elzt í úthúsum opt;
volega vaxin
er sú hin vesla kona,
öll er hún um kvið klofin;
mjófa glugga
hún marga ber á sér,
opt er henni í rass rekið;
með breiðum hjassa
er sá á brott dreginn
er kemur höfuðlaus í hana.

14.

Anda skil eg opt við hold,
og þó hvorugt hafi,
hamra spreingi, hristi fold
hvellu meður skrafi.

O. B.

15.

Andvana er fljóð eitt fætt,
frjóvsama átti móðir,
fuglar margir fá hana snætt,
flasa um búkinn óðir.

16.

Aptur og fram það fer
svo furðu lítt á ber,
mörgum er það missir sár,
meðan óspilt er
hressíng gefur góða,
geingur á milli þjóða.

17.

Auðar hlíð eg eina sá
með eistum síðum hánga,
mælir tíðir mönnum hjá,
mikið blíð á vánga.

18.

Auðugur bað auman mann
*að selja sér* hlutinn þann,

sem að einginn kaupa kann
og kostar meira en veraldar rann.

19.

Auðþöll býr sig opt til vegs,
með augu tvö og fætur sex,
hörkulega hún fer að,
en heggur þó í sama stað.

20.

Augnadapur, eyrnalaus,
einn á bergi risi stóð,
gaur nefjaður með gildan haus,
grimt hann lamdi risa þjóð.

21.

Á ári hverju einu sinni
alla menn eg sæki heim,
þá sem ei mig eiga í minni
eg óvörum finn, og hverf frá þeim.

J. B.

22.

Á björtum degi ei birtist lýð,
bragnar sjá þá eigi,
en um nætur alla tíð
er hún ljós á vegi.

23.

Á bökkum tveim eg systur sá,
sextán voru að togast á,
móðir Loka mentafá
milli hafði geingið þá.

24.

A eg fyrst heiti orma,
eptir það streingjum þreingist,
getin með ótal götum,
greinist eg beina teini;
við gýgjarstaf geri kafa,
getur það einginn betur,
hála þá hremmi gálu,
hrökaða að ráðum Loka.

25.

Á fjórum stend eg fótum hér,
fángi sný að sveinum,
háir og lágir lúta mér,
eg lýt þó aldrei neinum.

26.

A grásteinsheiðum grápenínɡ
geingur;
grænar rætur gróa þar,
gular sjást þar eikurnar.

27.

Á heiði geingu höldar tveir
og hvatlega létu,
báru á sínu baki þeir
það báðir hétu.

28.

Á heiði geingu höldar tveir
og hvatlega létu,
báru í fángi bragnar þeir
það báðir hétu.

29.

Á heiði geingu höldar tveir
og hvatlega létu,
bragnar milli báru þeir
það báðir hétu.

30.

Á heiði geingu höldar tveir,
þar hefi eg til vottinn,
í eingu báru, spurn er sprottin,
spælnis hálfan mjólkur pottinn.

31.

Á hvaða tré er blöðin
öðrum megin svört
en öðrum megin björt?

32.

Á hverjum degi hef eg raun,
höfuðskepnur gegnum þrengist,
hrufur yfir og hörku kaun,
hörðum vendi líka fleingist.

33.

Á Hvoli þeim, er það til bar
það er nafnið hálfa,
eptir kendur eins eg var,
á þeim hárin skjálfa. J. Esp.

34.

Á hækjum fjórum höktað fær,
huggar ríka og snauða,

en ef á þremur þramma nær,
það er klæði sauða.

35.

Á hörðu eyra hángir drós og heitir rúna,
hjartað berst við óma inni,
iðju þegar hún hreifir sinni.

Br. J.

36.

Á mér líta ýmsir flúr,
ekki er því að leyna,
loðintösku lekur úr,
þá lind vill eðalsteina.

37.

Á mig leggja Adams börn með ýmsu tali,
einginn halla mundi máli
mínu, þó að öðru brjáli.

38.

Á sléttlendi stelpa stóð,
stundar listamenni,
ýmsir kúga aular blóð
alt í burt úr henni.

39.

Á sumardegi sést eg opt,
seggja vafinn mundum,
eg er hafinn hátt á lopt,
en hleyp í jörðu stundum.

40.

Átján göt á einum hólk,
eingum dropa heldur,
er þó borin í honum mjólk,
eitthvað slíku veldur.

41.

Á tönnunum gekk ein til og frá,
títt um bjarkar snaga,
hún þá sökk með hljóðin há,
svo hlutu menn út draga.

42.

Ábóta nokkurn
á eg í leyni
af hríngalundum
haglega saminn;
af þremur tegundum
þessi er gerður.
Er hin fyrsta
af höfði dýra[1],
önnur af holds
Ýmis forna
mergjardreggja
innstu æðum[2];
hina þriðju
hagleiksmenn bræddu
glæsilega
í glóðarkeri[3].
Ásjóna hans
er efst á fjöllum[4],
en bakhluti hans
við brúarenda[5].

43.

Áðan mætti eg einum þeim,
sem ei var á sér tregur,
kemur við jörð og karfageim,
kvikur og blífanlegur.

44.

Áðan sá eg úti þann,
sem á var fattur kviður,
með nefi sínu kroppa kann,
en kíngir eingu niður.

45.

Áður var eg keti klædd,
kynja mjúk í liðum,
en nú er eg utan böndum brædd,
býsna þúng í riðum.

46.

Ákaft hrópar snótin snögg,
í snæri opt hjóldregin.
Sjötíu og átta hún er högg
á hverju dægri slegin.

47.

Ánga fjóra á mér ber,
optast svelt um nætur,
en stinnist vömb þá staðið er
*stint í báða fætur.*

48.

Ángalíur út úr því
allar hánga nætur,
staðfast, þegar staðið er í
stíft með báða fætur.

49.

Ángur mitt er álnar lángt,
stendur enn og stóð í gær.
Bóndi ljáðu mér dóttur þína,
þá mun mér lina.

50.

Árhelmíngur innanlands ber eingan galla,
hans er nafn á höfði manns og hnjúkum fjalla.

51.

Átta á fönnum ýtti,
allmargur sér nýtti,
foldin þegar fraus;
á tuttugu höfðum trítti,
tíðum mjög sér flýtti,
handa og hapta laus.
Eitt að auki var,
einginn sá þess far;
fer um fjöll og heiðar
fjölga gáturnar.

52.

Átti að tæta ullartog um ormabana
lindin fögur lægis funa,
lipti fulla veröldina.

53.

Bar mig að byggðum
breytilegum,
þar réði bóndi
burgeislegur,
sat á stóli
sífeldlega.
Húsfreya var
harðla ólík
húsbúanda,
hlaðin kaunum,
hvíldist þó títt
við hlið bónda.
Vinnumaður var þar
vögusíður,
opinmynt ambátt
með örmum síðum,
ýngismær
ærið mjóvaxin —
varir prýddu
vífið netta —
hlaupastrákur
hvikull næsta.
Framgjörn vinnukona
fylgdi starfa
og flutti búfaung
að fjallahömrum,
hvar hvallík var grafið
í fold niður.
Ógnarlegur þussi
með illum anda,
hann, þá reirður
við hjólviðjar,
vin sinn hvatti
til verka stórra.
Trygg var griðka
greip til ráða,
heim dreif búfaung
að höfði bónda,
var til reiðu
vinnumaður,
vill að bóndi
veiti mótstöðu.
Hlaupastrákur
hvergi dvelur,
hoppar nú á
herðar bónda
og hyggur að tyggja
húsfreyu fylli,
hún tilkvödd
með hófi mætir.
Vinnumaður
sem vondur skálkur
veitir henni

vægðir linar,
hún með prýði,
hóglega
hvílist þó
í hyl einum.
Fæðir sveina
furðanlega
ýngismeya
með yndisleikum,
af þeim sleikir
upp og niður
alla gúla.
Völt var von hennar,
sjálf forfærðist
sárlúin skepna
snemma æfi.
Félag þetta
fábreytið
fannst ei ákærði
hvað annað,
hvort heldur þoldi
hita eða kulda.
Þjóð má læra
af þessu búi
þolinmæði
við þrekvirki,
þá vel hafa numið
vofu talda
verka starfa.
Úti er gáta;
eignist sá er ræður.

54.

Bar mig að ranni,
þar réði fyrir
húsastyrkur
og hölda verja;
hann bjó á hala
hornleysu sjóar;
en nær eg marghrossaði
móti hans dyrum,
skauzt til mín
skipan hin hæzta,
sem bauð mér til beina,
er bezt eg notaði.
Þar mátti eg líta
marga hluti,
og meðal þeirra
ýngissvein einn,
er embætti hafði,
hann átti að mála
án handa og verkfæra
hvern mann og hvern hlut
er hann fékk að líta,
þaðan lá leið mín
yfir þvita marga,
því komast vildi eg
til Kephas byggða,
en veraldir átti eg
á verkfæri einu.

55.

Batt eg minn hest, sem bragnar meina,
við saltan sjó og vatnið hreina,
holt, hæðir og hulda steina.

56.

Batt eg þar hest minn, sem fáir meina
við fjallshlíð og fagra steina,
við saltan sjó og vatnið hreina,
þá helgustu mold, sem geri eg að greina.

57.

Baulu sína bóndi skar, eg brögnum kenni;
hálfvætt mörs tók hann úr henni,
en hirti ekki mör úr enni.

58.

Báru mig fram
á brekku eina
bandíngjar tveir
með brak mikið;
hvor þeirra hafði
kynkvíslir fimm
*og flutti allar*

í ferð sinni.
Leit eg þá rittu
í rýu veðri,
hún rasar opt
í raddarfelli;
sú hafði kápu
af kögurskinni
og kuldahettu
með króka ferna.

59.

Ber ber brúðurin mæta
blá blá kjöltu í,
sér sér sveininn mæta,
sá sá ei við því.

60.

Berserki sá eg
bundna fimmtíu[1],
á þrjú hundruð streingi[2],
þrítuga alla,
með fjórum flækjum[3]
fimm tvennir greiða[4];
einn dregur að sér[5]
áður upp talið[6].

61.

Birtist mér í dag einn dreingur,
dapur lítt í fjúki,
ekki flýgur og ekki geingur,
er þó líf í búki.

62.

Birtust mér bræður þrír
bognir að starfi,
allir við einn staf
áfram kreika;
hvar sem staðar nam
stafurinn óhreinn,
lágu eptir hann
loðnar slóðir.
Einn drottinn eiga
áminnstir bræður,
tveir beina leið
svo tapist eigi,
en einn léttir undir
athöfn hinna.

63.

Bíngur er eilífð ýngri,
ei mjög frínlegur sýnum,
meðal að mörgu fríðu,
mynd hans þó einginn fyndi;
rúm hafði reit í tómum,
ráðstöfun nýa þráði.
Fönix efnandi funa,
færir hans dæmi skærast

64.

Bjó eg mér væna veizlu,
hafði eg jörðina fyrir pönnu
en eldinn fyrir seiði,
varð þá lítið
úr vænni soðníngu,
nema vatnið tómt
og varpaði eg því frá mér.

65.

Blóðlaust og beinlaust
bítur gras af jörðu.

66.

Blæa ein er breidd í vind
byggð að tveggja ráði;
eilífðar á eftirmynd
umhverfis hún náði.

Skullu á henni skýaföll,
skóðum hlaut að verjast;
þar sér höfðu haslað völl,
hiti og frost að berjast.

Kýmnisnafn eitt klæðið bar
kóngs á Gimla storðum,
ofið fyrst í vatni var
af vitríng mesta forðum.

Víkíngur frá himni hart
hleypti skeiðs á svifið,
geystist klæðið gognum snart.
gat þó hvergi rifið.

Væri fatið vel brúkað
vatni og eitri héldi;
himins milli og manna það
myrkra hrekur veldi.

Loks eg að því leiði þjóð
svo ljósri þýðíng valdi,
að lífs og andar giptíng góð
gerist í því tjaldi.

Ber eg nú fram beztu skil,
svo brellinn mig ei haldir,
horfa máttu hæða til
og hugsa fram í aldir.

H. J.

67.

Blökk og svört uppbirtir mart,
búin er þessi gáta,
sín hún rífur systkin hart,
svo þau undan láta.

68.

Bogin kerlíng blökk á kinn,
brennir margan skildínginn,
um munninn geingur út og inn,
af efni sama og maðurinn.

69.

Bolli datt af hyllu,
brotnaði bolli,
einginn kom til Íslands,
er bolla gæti bætt,
og þó var það bolli.

70

Borg leit eg eina
í upphæðum standa,
fimmdyruð er hún
með fagurt smíði,
á henni eru gluggar tveir
glæsilegir,
turnar að tölu
tveir og þrjátíu;
ræður þar fyrir
einn ríkur svanni,
en annars vegar
illur týranni.

71.

Bóndi átti hross í haga
hermi eg sjö en Drepur eitt,
átta töldust öll án baga,
er sú gátan heldur breytt.

72.

Bóndinn er á austurfjöllum,
konan er við sjávarströndu,
sonurinn milli fjóss og bæar,
dóttirin er í hverju húsi.

73.

Bóndinn heitir bauluson,
börn hans kisa og tóa;
það er því ekki á því von
þau eigi vizku nóga.

74.

Bóndinn «ofan af fjalli[1]»;
konan «með björgum fram[2]»;
sonurinn «milli húss og bæjar[3]»;
vinnumaður «á hverju þaki[4]»;
eldakerlíng «allra yndi[5]».

75.

Brattur heitir bóndi minn,
býr hann upp á fjöllum;
kona hans «að krepja» heitir,
komið er það um allar sveitir.

76.

Brúðir jafnan bera sig, að
búa þar um með snilli;
helzt á vetrum haft er það
hita og kulda á milli.

77.

Brúðurin bleik
hún stendur keik.
Eyðir auð
en liggur þó dauð.

78.

Brytinn harði meiddi mig,
manna skiptir fæði,

síðan fer í sjálfan sig
og sinni léttir mæði.

79.

Bræður eru tveir,
er fylgja brúða liði,
sjaldan munu þeir
í karlasveit koma;
margan dag um það
munu þeir togast
er hvor vildi hafa;
í sauðafeit
er þeim sæng huguð,
þar skulu þeir hvíld hafa.

80.

Bræður fimm með breyttan leik
borast hver í annars fat,
tvær þá systur tölta á kreik,
og troða þeim inn í sjálfs sín gat.

81.

Bræður tveir í baugakleyf
bjuggu leingi saman,
hvor af öðrum hárið reif,
þeir höfðu ei annað gaman.

82.

Bræður tveir við borð eitt sátu, bita snæddu,
ekkert saman sagt er ræddu,
sinna verka kappið glæddu.

Ósamlyndi einginn fann, sem ætlast kunni,
át þó hvor úr annars munni
ósiðaður þessi klunni.

83.

Bræður þrír með burðugt lið,
búa í kerfi einu,
hæztur er einn með herrasnið,
en heldur þó ekki á neinu.

84.

Bræður þrír með býsna flakk
búa á kerfi einu,
hæztur einn með hofmannsstakk,
heldur ekki á neinu.

85.

Búldu margir bíta í kjapt,
bætist opt hjá höldadrótt,
aptur fær þeim öllum tapt,
er að geysa dag og nótt.

86.

Býr mér innan rifja rð,
reiði, hrygð og kæti.
Kurteisin og kári þó
koma mér úr sæti.

87.

Börðust birnir tveir
um bannað fé manna,
hafði hörn átta hvor
en höfuð ekkert.

88.

Börnin skógar beit hún opt
beittum meður skafli,
lúði tönn, en tuggði á lopt
og týndi þar með afli.

89.

Dasla í lopti dólgar tveir
digrum hala fastir á,
í kvenna þvælum krafla þeir,
karlmanns nafni til sín ná.

90.

Dautt dregur lifandi úr skógi.

91.

Dautt dýr drattar eptir manni,
á köldum vetri fæðu fær,
en fastar þegar jörðin grær.

92.

Dettur út og dettur inn,
æfinlega á rassinn sinn.

93.

Dínglar eins og drukkinn maður
drjúgt í vorum höndum,
verður opt í verki hraður,
vefur um sig böndum.

94.

Dólgur einn með digran haus
dregst í lifandi manna sess,

illa fer ef er hann laus;
áttu nú að geta þess.

95.

Dreingir voru að veiði, fleygðu því sem þeir veiddu, og báru það heim sem þeir ekki veiddu.

96.

Dró eg mig fram með djöflum[1],
dúnkaðist niður af sköflum[2],
kom eg fyrir kattarófu[3],
kona nefndi mig þvögu,
myntist eg munni við bakka,
mikið átti eg að þakka.

97.

Duft er eg allur.
Dreki smávaxinn
býr sér til buxur
og brjóstadúk snotran,
úr búki mínum,
og bæ allsnotran,
þenna brjóta bragnar
og brenna í funa.

98.

Dýr með augum sjö eg sá,
sextán huldi maga,
fjórtán stóð það fótum á,
féll því ei til baga.

99.

Dýrgrip einn eg fyrir mér fann
og fór með hann;
þessi hlutur myndaði mann
og mér líkan.

100.

Ef mig gjörir aptan skerða
og því bætir framan við,
upp í þér eg á að verða
úngra barna gamanið.

101.

Efni skapnaðar
er míns þannig,
að eitthvert dýr
mér yfirlætur,
skinn eða skjól sitt.
eða skegg myrkviðar,
ormur spuna sinn;
er því svo varið.
Djúpur er eg sem brunnur
eða dæld vatna,
stundum lítill,
stundum þrekinn.
Forvitrir mig brúka
fáum sinnum
alveg einan;
er því svo varið.
Sá mig ei brúkar
sárfátækur
æ mun vera
um æfi sína.
Ráði nú gátu
rekkar spakir.
Úti er talið
að þessu sinni.

102.

Eg ber í vasa bræður tvo og
baugameiði,
brútskórónu, hanaklæði,
hauksvarp, bæ og pennasvæði.

103.

Eg er á gángi alla tíð
eingar fánga hvíldir,
er á hángi höfð hjá lýð,
höggin bánga mörg og tíð.

104.

Eg er á hausi, hálsi, búk og
vængjum;
lifandi skepna í lopt mig ber,
líf er í mér, þá dauður er.

J. B.

105.

Eg er án upphafs, þó fæðist eg, líka er eg endalaus. samt dey eg, eg hefi hvorki augu né eyru, þó sé eg og heyri, eg sést ekki, þó sjást verk mín, *eg yfirvinnst leingi*, eg yfirvinnst

ekki, samt sigrast eg, ætíð erviða eg, en þreytist aldrei, skynsamur er eg, en bý meðal þeirra skynlausu, forsjónarelskari er eg, samt kann mér sýnast að hún hati mig. Opt dey eg áður en eg fæðist, samt er eg ódauðlegur; opt kem eg óvörum, án minnar vitundar. Hjá kristnum byggi eg, hjá heiðnum er eg, hjá fordæmdum í helvíti fordæmist eg, í dýrðinni ríki eg.

106.

Eg er barin, brend og gegnum rekin,
fótum troðin, úti æ,
en ómissandi á hverjum bæ.

J. B.

107.

Eg er barinn blákaldur,
blásið að með kulda stormi,
síðan emja sárpíndur,
samt þó banað get eg ormi.

108.

Eg er bæði elztur og ýngstur af öllu í heiminum.

109.

Eg er ei nema horaður hryggur,
þó ber eg hold og bein,
og mer eg hold og bein.

110.

Eg er ei nema skapt og skott,
skrautlega búin stundum,
eingri skepnu geri gott,
en geing í lið með hundum.

Ó. B.

111.

Eg er ei skapaður og ei heldur er eg sjálfur skaparinn, þó finnst eg hjá þeim lifandi og meðal þeirra dauðu, eg blíf þó ekki í gröfinni, í veröldinni er eg hinn ríkasti, eg er hvorki eldur né lopt, jörð né vatn, þó finnst eg meðal höfuðskepnanna, eg er lítill, og mínka þó ekkert, eg er ei nærverandi, þó ei forgeinginn, eg er í eilífðinni, eg dey fyrri en eg fæðist, eg er faðir hinna fordæmdu anda, eg er í helvíti en þó fullríkur í sælunni.

112.

Eg er ein
í ótal mönnum,
og í myndir mér
margar breyti,
ber þó tíðast
bjarta ásýnd
og mörg andlit
eptir mynd konúnga;
glep eg því margra
guma sjónir.

Meðan fylgis
míns ei þurfa,
hreitir margur að mér
hnífilyrðum
en flestir minnar
forsjár leita,
þeir í mein
eða misgjörð rata;
hefir það mörgum
að haldi komið,
nema fátækum
neita eg fylgis.

Sakamenn opt
hefi eg sýkna gjörva,
og tælt dómendur,
til að dæma rángt,
mörgum hefi eg
til metorða komið
og hafið suma
til háembætta;
í lærdómi sumum
líka dugað,
og fyrir fjas einbert
fengið heiður.

Hér er einasta
heiti dulið,
þó af lýsíngu
ljóst að ráða;
eg á samnöfnu
eina líka,
sú er saungmanna
svarinn óvinur.

113.

Eg er eintómt höfuð
og hali lángur,
eyrna, augna
og andlits vana;
heili minn rýrnar
helzt af eldi.
Bezti bústaður
býst mér í horni,
varast þar kann eg
voðatilfelli,
svo tortímist ekki
torfeinginn hali.

114.

Eg er fyrst í jörðu
æfinlega,
þakið af jarðlagi
þúngu næsta,
koma þá menn
með hvassar axir
mig og höggva
miskunnarlaust;
er eg síðan
í vatni skolað,
en sundið þreyta
þoli eg ei leingi,
í eldi síðan
er eg kvalið
og sundur knosað
svo að lög eg verð.
Ýmsar vistar —
verur svo fæ eg
þraungar, rúmar,
lágar, litlar;
enda mína tilveru
í auðmannahúsum,
hvar eg næ
hæztu elli.

115.

Eg er hús með aungum tveim
í mér liggja bræður fimm;
í hörðum kulda hlífi eg þeim,
þó hríðin verði köld og grimm.

116.

Eg er hvorki ílt né ljótt
og allra hressíng manna,
þó er eg einkum notað um nótt
og í nauðum aumíngjanna.

J. B.

117.

Eg er í öllu og öllu á
alstaðar sjáanlegur,
fleiri en hundrað heiti á,
hvergi þreifanlegur.

J. B.

118.

Eg er lipur, léttur
litum mörgum settur;
eg er allur heimur,
utan himingeimur,
eg er lönd og lendur,
lángar sjóarstrendur
Opt eg ligg á hlið eða hrygg,
það hendir sig og eg standi.
Hnöttóttur, flatur,
heldur er eg latur,
óglöggur, skýr,
opt er eg dýr.
Aldrei tygg og ekkert þigg,
opt er mig að grannskoða vandi.

119.

Eg er með handarhöldum tveim,
hafandi *stert með* klumbu á,

eg get sýnt um allan heim
hvað eiga menn létt og þúngt að fá.

120.

Eg er móðurlaus og hann faðir
minn er maðurinn minn.

121.

Eg er sköpuð augnalaus,
og að framan bogin;
lítinn ber eg heila í haus,
hann er úr mér soginn.

122.

Eg er til það allir sjá,
einginn getur fundið mig,
ei rétt heldur sjálfur sá,
sem þó kann að brúka mig.

123.

Eg er þar sem ein fer mjó
ýmu hamars seira,
og æðir meður einga ró
útí jötuns dreyra.

124.

Eg fann út á Ísafjarðardjúpi, úr kú, af nauti, úr manni, af sauð.

125.

Eg fer um Róm og Eystrasalt,
Íslands þekki eg hvítu tinda,
í vetfángi bruna eg yfir alt,
eins og hugurinn til að mynda,
eg þarf að vera, var og er,
eðli mitt út fær einginn grundað,
aldrei sem vera til hef stundað,
greinið hver sé, ef getið þér.

126.

Eg[1] fríða bræður í flokki einum standa sá,
lýsa í dimmu, léna fæðu, líka meinum hrinda frá.

127.

Eg heiti nýtt tré, hæzt í húsi;
hvert er þá nafn mitt?

128.

Eg heiti það, sem fátækur er.

129.

Eg heiti það sem smiðir hitta á ljánum.
Eg heiti pressað flesk í sánum.
Eg heiti það, sem hugurinn lagar.
Eg heiti það, sem harpan bragar.
Eg heiti það, sem kvöldsól lagar.
Eg heiti það, sem um hetjudaga
hjartað gegnumstóð
Eg heiti það, sem lognið lagar
þar landi mætir flóð,
og ómissandi er alla daga,
eins fyrir menn og fljóð.

130.

Eg leit undir askinn bert,
er svo ráðin gáta,
það var rúnaskyrtan skert,
skal eg svo standa láta.

131.

Eg mætti hundi, millum fjarða;
var ennisbrattur, brúnasvartur,
rifjalángur, baksvángur.

132.

Eg nam æða inn með fæðu,
einu sinni að venju minni,
á skerborði bar eg forða,
bragnasveit þess ráði heiti.
Helmíng ítar laungum líta
— — — — — —
innan hliðar, hátt á síðu
húsa þeirra, er önd í dúsir.

133.

Eg sá einn rekk
með eyrum tveimur

[1] Það vantar eflaust framan við gátu þessa.

og eyrnaskarti,
ekki mjög litlu,
með nef
og nös eina,
víðan munn
og væna húfu,
stóran rass
og sterkan nokkuð,
stórhöfðíngjum
veitir fæðu.

134.

Bóndi nokkur sendi húskarl sinn til dyra einn morgun, að hugleiða um tún sitt, en er hann kom aptur spurði bóndi því hann hefði verið svo leingi í burtu. Húskarl sagði: »Eg hefi horft á það, sem eg hefi séð.» Bóndi spurði. Hvað sástu?» Hinn svarar:

»Eg sá fljúga
fugla marga:
aldurtjón Ellu[1],
eggdauða menn[2],
ben bíldskorna[3],
buðlúng Dana[4],
þjónustumey[5],
þúnga báru[6].

Enn sá eg fljúga
öðru sinni:
skorinn línskauta[7],
og skip Þráins[8],
járn úr afli[9],
útleidda sál[10],
konu kjötnefnda
fyrir kvið neðan[11].

Þá sá eg fljúga
þriðja sinni:
silki saumað[12],
svenska menn[13],
Gunnlaugs bana[14],
goðabrenni[15],
kú kollótta[16]
og kvíslað tré.[17]

Fjórðu leit eg
fugla á stræti:
sinnismót manna[18]
og mjófisk sjóar[19],
hrjónar íshrúgur[20]
og hrept góð heppni[21],
bríkur breiðar[22],
bólur ölskjólu[23],
daun vart vænan[24],
votlands gotann[25].

135.

Eg sá hleðslu upp við klett,
yfrið slétt;
glöggur ertu ef getur rétt.

136.

Eg sá mann og ekki mann
undir eik og ekki eik.
hann drap fugl og ekki fugl
með eðalstein og ekki stein.

137.

Eg sá snót eina
allshrautlega,
hún var því huld,
sem höldar fyr girntust
og létu líf fyrir;
á henni skein hafsól,
ljós landa banda,
og logi sefstræta.
Fóður sitt þáði
úr fjarlægum löndum.
alt þó hún meðtók
með endanum neðri,
upp því hún spúði
ítum til gamans,
þeir hennar spýu
með þökkum meðtóku.

138.

Eg sá standa eylönd tvö
*um þau hlupu* tveir þrælar,

ellefu tvennar ein og sjö,
ákaft meyar stríddu þar.

139.

Eg skrifa tólf, tek tvo af, þá eru eptir tveir.

140.

Eg var að leita, fljótt og fann
feitan jó á baki;
sand-blýfrosinn situr hann
á silúngsbæjarþaki.

141.

Eg veit eitt tré á háu fjalli
með þrettán greinum;
fjögur hreiður á hverri grein,
sex fuglar í hverju hreiðri,
sá sjöundi ber gyltar fjaðrir.

142.

Eg vil spyrja að einu þig,
úr því máttu flækja,
gettu með hverju eg girti mig
þá gerði eg vatn að sækja.

Var það hvorki hár nje ull
nje húð af skepnum neinum,
en á lopti eins og gull,
ekki úr jarðar leynum.

Var það hvorki viður né hálmur
vaxinn upp af jörðu,
hvorki steinar, mold né málmur
af manni nokkrum gjörður.

Rak eg á það rembihnút
og reyrði fast að búki,
síðan vann eg arka út,
ekki í litlu fjúki.

143.

Eg vil spyrja, intu mér,
eitthvað það er veggnum í
alls til þarf, sem unnið er,
ónýtt ef að tapar því.

144.

Eg þó gamall orðinn sé,
eineygður með skeggið síða,
í mektugasta mustere
mér er boðið inn að skríða.

145.

Eik er ein
á jörðu vaxin,
tólf hefur tágar,
tvær mjög digrar,
en frá tágum
öll hol innan,
liggur þar í
líf og dauði.
Tvær eru kvíslar
á henni ofan;
sitja fjórir
sveinar á hverri;
yfirmann hafa þeir
einhvern fjögra,
æ samlyndir
alt að vinna.
Börk eru þeir
að búa til henni,
brendur er sá
af bezta gulli;
borg er lítil
á henni ofan,
þá hafa smíðað
þrír meistarar.
Inn er dregið
undir hana
naut og sauðir,
svín og geitur,
sjáfar fiskur
og sæði jarðar,
göt eru tvö
og gjör með listum
gluggar tveir
og gler með steinum;
enn er hlið
hvorum meginn,

fit og gott
þar inn um geingur.
Ullar sprettur
akur á henni,
ýmsum litum
er hann vaxinn.
Nú meiga rekkar
ráða gatu,
sérhvern púnkt
með sönnum greinum.

146.

Eikur tvær á einum hól
eg hef litið standa,
önnur föl og ellimóð,
en önnur vel í blóma stóð.

147.

Ein er kvinna í sessi ósvinn,
sjaldan mikið þrælar;
hennar sjúga innýflin
yfirmannaþrælar.

148.

Ein er orðin öldruð mjög en úng
þó jafnan,
því ekkert hefir aptur farið,
undarlega er henni varið.

Sækir áfram sumar og vetur, sól
og grímu;
einum þykir ofseint fara,
en öðrum lítið hraðann spara.

Hana kalla höldar margir heimsku
að deyða,
gera það samt í gaungu og sessi.
Getu nú hvað heitir þessi.

149.

Ein er píka ofurskjót
af henni fékk ei fjandinn hót,
æða gerir hún út um mar,
ekki eru á henni fæturnar;
einginn veit, hvar hún er með ró,
utan það sé við nót í *sjó.*

150.

Ein er snót með ekkert vamm,
ærið lángan hala dró,
hvert við spor sem hún gekk fram
hennar róa styttist þó.

151.

Ein er skepna óbráðleg
ógurleg og þúngfær mjög,
skjaldan sjálf hún skeiðið kaus,
skríður á maga fótalaus,
alt eins þegar þúngt hún ber,
þú mátt ráða hver hún er.

152.

Ein er skepnan ógurleg
með æði mörgum hölum.
fjalla skríður vondan veg
vendir eptir dölum.

Hennar leingd er harla frek,
hljóðadigur æðir,
eyrðarlaus með ógna þrek,
opt sú meingi hræðir.

Opt að slysum hæðin hló,
í helju sumum fleytir,
ferðamanni mæddum þó
mjúka hressing veitir.

Ærið mörgum er hún kunn
afli hreifir stóru,
fótalaus að fetar unn
fram hvar skeiðir vóru.

153.

Ein er snót á yggjar mær,
er mér kom í huga,
hve hún væri frökk og fær
og fljót að yfirbuga.

154.

Ein er snót mér orðin kunn,
aptanfött og vángaþunn,
gaddar standa gegnum munn,
*glímir opt* við stálarunn.

155.
Ein er snót, sem opt sig níðir,
aptrar ferðum sú,
ber það nafn, sem barminn prýðir;
bragnar ráði nú.

156.
Ein er sú kona,
sem auðæfum þénar,
mynduð af fénaðarforða[1]
eða fatastyrkíngu[1],
en undir olboga
ætíð hefir
undirmark fjár[2].
eður arnarreifi[2];
fagurt á hún herberg
með fjallstind einum,
er geingur fram í munn
griðkonu hennar,
er skjáskriðu[3]
skatnar kalla;
bóndi eða húsfreya
berja að dyrum,
hafandi læraskjól[4],
líka barnshuggan[5],
þriflegan mump
og mána þurð[6]:
gleypir hún þá fjallstind
ı gini ambáttar,
og sækir án dvalar
að sárri húsfreyu,
linast hún þá
og lætur undan.
Þessa á þrátt,
sá sem þó ei fjáður.

157.
Ein er sú stjarna,
stálslegin heldur,
hefir til fæðis
foldar kotún,
hann er vatinn
hjúpnum nýrna.
þegar hann brestur,
þá er hún framliðin.

158.
Ein er sú örnefnd,
er þetta rétt, rétt,
heitir nýpa háleit,
holingeil og óþol,
geilhol og gatvíð,
gleiðstíg og rángmíg,
úti stendur vatnsvot,
vindblásin grjótgrind.

159.
Ein hefir auga ávallt tept með
enni hörðu,
rófuna frá hún réttir jörðu.

160.
Ein hefir klof en eingan kjapt,
innan á lærum hvöt og blauð,
með hasti streingd í harða hapt,
hún svo getur börn með nauð.

161.
Ein hefir mær sinn munn
á miðjum hvirfli,
og brennir í honum
blómstur í eldi,
girnist einginn
hennar glóandi varir,
kyssa því allir
aptan til á hana.

162.
Ein hefir snót
ekkert höfuð
nema aðeins þitt eigið;
vantar ávallt
augu og nef
en optast eyru og kinnar.

163.
Ein var þúnguð
af ótal sonum,
fætt gat hún einga,
þó fjör kosta ætti,
utan við brodda

:aun berðist nakin;
fæddi hun þá arfa
furðuhjarta,
er tyr létust
en á fold kæmi,
utan sá eini,
allir það skilja,
sem í fornbrendum ham
var til fósturs tekinn —
viðsjálsgripir
vaktun þurfa: —
gleipti hann hvervetna,
þ' gafst honum fæði.

164.
Ein veit eg systkin,
alvíða flakka,
um fjöll, sjó og byggðir
fara þau víða;
skilja þau ekki,
þótt skortur á dynji,
en ef í náðum nátta,
nær hvorugt til annars.

165.
Eina dóttur gat,
eymirja og kári
af efni soðnu
úr epli rindar.
Hún fékk sér maka
af hári foldar,
sem kúrði aflángur
í kviði hennar.
Um munninn tók gríður
við getnað standandi,
og fæddi á sama hátt
flót og á lopti;
öllum er þeim vís
aldurtili,
sem náðu til hennar
nýklakta fósturs.
Virðum er því,
til varnaðar, bannað
að verða á fæðíngar
vegi skessu.

166.
Eina hefir hann tönnina,
tyggur hann grettur,
geta máttu gátuna,
garpurinn er mettur.

167.
Eina leit eg auðargná
áðan sjónarbaugum,
köld var neðan, klæðafá,
kyrtli þunnum var hún á,
tárin runnu títt af hennar augum.

168.
Eina leit eg móður
aumkunarverða,
fæðir hún á dag
fjölda sveinbarna;
en í barnburði
barin harðlega,
keyrð ofan í kalt vatn
ef kemst ei frá fóstri.

169.
Eina leit eg únga snót
ugga dýrið stánga,
auga hefur og í því fót,
á vill höfði gánga.

170.
Eina rönd veit eg
efsta hlutar,
líka neðsta
á lifandi skepnum;
heil er á jörðu,
hjálpar í vatni;
loptbúar eiga hana,
lineikur semja hana.

171.
Eina sá eg laufa lín,
linda marga hefur,
svalar mæði frúin fín,
*firðum kossa* gefur.

172.
Eina veit eg ambátt
allra dyggasta,
ef hún til styrktar fær
átta þræla
læðist hinn níundi
um laundyr kæru;
henni tvær þernur
halda á lopti.

173.
Eina veit eg auðarlín
iðju stunda þarfa,
drjúgum rífur systkin sín,
sízt vill annað starfa.

174.
Eina þarf eg hjálparhönd,
harðnar rimman bráða,
ríkið heitir Höfðaströnd,
sem hefi eg til forráða.

175.
Einatt fékk eg systur sjá,
saman lágu báðar þær;
önnur hræra opt sig má,
en hin grafkyr liggja fær.

176.
Eineygð snót með yddum hramm
ærið lángan hala dró,
við sporið hvert, sem fór hún fram,
frúar styttist róan mjó.

177.
Einfætt, svinn, við iðju trygg
auga jötuns stendur í,
molar staung á hvössum hrygg,
hitnar opt á starfi því.

178.
Einginn hjálmur
í undaskúrum
jafnast við mig,
ég er tilbyrgður,
eingin sprúnga
*eða rifa*
á mér finnst,
því óhultur reynist.

179.
Einginn maður og ekkert dýr
án mín lifað getur,
sá sem á mikið af mér vel bý[i]
en mjög lítið á hrepp setur.

180.
Einginn var eg,
unz mig undirriðu
meginmagnaðir
meiðar axa,
hófst eg of hauður
til hásætis,
af læðíng læstum
Lokaburs stjóra;
var mér í miðju
Mjölnisspora
bústaður feinginn
að bragna ráði;
áliti næ eg
íta fjölda,
en virt er þó mest
af vandræðamönnum;
rekkar fá jafnan
réttar bætur
á sínum sökum
ef sækja mig heim,
og búin til reiðu
beina sama
gestum gef öllum
án greinar munar;
hafa mig höldar
í hávegum.
Þetta er sýnishorn
sögu minnar
í gátu falið.
Gettu hvað það er.

181.
Einhverju sinni voru tvær kon[ur]
þær sáu hvar tveir menn komu; [þá]
sögðu konurnar: »Þar koma okk[ur]

menn og okkar mæðra menn og okkar feður.

182.

Einmana eg ekkju sá,
átti marga sveina;
allir viku frúnni frá,
hún fékk ei aðstoð neina.

183.

Einn bandíngi eltir fljóð,
um ölmusu að klaga,
gegnum kverkar gaddur stóð
en glyrnur utan á maga.

184.

Einn er dreingur eg það veit,
etur rassi meður,
býr á hverjum bæ í sveit,
brátt með munni teður.

185.

Einn er dreingur endalaus,
er í hörðum skóla;
hvorki fótur finnst né haus
á fögrum þessum dóla.

186.

Einn er dreingur opt með væl,
alt dró fæði neðan í búk,
ótt það geingur upp úr þræl,
einskisnýtur bíði hann fjúk.

187.

Einn er hlutur ei mjög leyfður,
orðum mörgum sjaldan hreifður,
hann er á hverju heimsins feti,
held eg fáir skilið geti,
skapar flest og er að iðja,
ekki samt má hann tilbiðja.

188.

Einn er hlutur uppi í baðstofunni,
hálfur úr manni, hálfur úr kú,
hann á svanni og gettu nú.

189.

Einn er hríngur stunda stór,
staddur í glettu vindi,
með hlýrum tólf til ferða fór,
fyrri en nokkur myndi.

H. P.

190.

Einn er karl, í eldi hann situr,
opt hans svannar fylla kvið,
uppköst fær hann af því bitur,
alt fer það um nefgreyið.

191.

Einn er kominn ofan úr Grinda-
skörðum,
afgamall en úngur þó,
yfir geysar lönd og sjó.

192.

Einn er sá faðir,
sem ól sér niðja,
ól hann sér tólf,
sem er að skilja,
þrjátíu hver þeirra
þarfa á sér arfa,
syni með sama skini,
svartar dætur ei skarta,
ýmist fara eða eru,
aldrei þó við staldra.

193.

Einn er sá með afl og krafl
ekki fágaður mundarskafl,
aflaung hola er honum í,
hérna kraflar maðurinn því.

194.

Einn er sá sem allir líta og eins
konúngar,
en gylfi sólar séð ei hefur,
svoddan gáta skilníngs krefur.

195.

Einn er sá sem iðjar bezt,
út þá kviðinn treður,
etur það sem aldrei sést,
ægis hlýrann gleður.

196.

Einn er sá smiður
*á almanna* brautum,

sem reptir rann margra
en réttir leið sumra,
úngum og gömlum
óþekkur jafnan,
kemur á veg þrátt
og kinnar særir.

197.

Einn er þræll
á allmörgum bæum;
hann er haldinn
húsfreyum þarfur;
hann er jafnan
með höfði sívölu,
skegg hefur hann
með skörðum mörgum.

198.

Einn er stafur í öllum sveitum,
annar djúpt á fiskileitum,
þriðji er á himna hæðum,
fjórði er á skýja leiðum,
fimti situr á fjöllum hátt,
sjötti þar sem seggir stríða,
sjöundi þar sem lækir líða,
áttundi hjá íta meingi,
alla gleður röskva dreingi.

199.

Einn er stúnginn iðulega
óteljandi mörgum flein;
dýpstu sár hann samt ei vega,
sjást ei heldur örin nein.

200.

Einn er vegur endalaus,
arkar þar um dreingur,
við bæði lærin bindur haus,
á berum fótum geingur.

201.

Einn er þræll um búkinn ber,
býsna fagurt grön hans skín,
nægst til iðju nemur sér
*að narta og bíta móður sín.*

202.

Einn fer dreingur opt með væl,
alt dró fæði neðan í búk,
óðum geingur upp úr þræl,
einskis nýtur, fái hann fjúk.

203.

Einn hefir strákur illan sið,
úti á gluggum situr,
í endann tekur óhræsið
og út um kjaptinn flytur.

204.

Einn leit eg segg á svörtum klæðum,
sem þó aldrei slítur skæðum,
utan velur sér vaðmálsskó
Trúr þénar leingi tvinna hæðum,
tíðum situr á fölskva glæðum,
með túngu en aldrei talar þó.

205.

Einn var settur upp á borð,
innan í kviðnum lífið bar;
honum er líkt við herrans orð,
húsa sól í nefinu bar.

206.

Einn veit eg þann undirmann,
í öllum bæum vera kann,
þveginn, skafinn hvern dag hann
hreinn þó aldrei vera kann

207.

Eins hlutar nafn
er einkum þannig:
galli á gullkeri,
gott fyrir búsmala
fylgsni fjalla
féhirzlu blómi,
meðal metorða,
mýkir kóngsreiði.

208

Eins og nóttin er eg blakt,
upp þó flest í heimi lýsi,
mörgu frá þó skýri skakt,
skylt er mig að allir prísi.

J. B.

209.
Eins og sendill fer eg á stað,
ekki þótt eg gángi par
fyrst eg eingar fætur ber;
eg fékk þær eingar skapaðar,
blifi ekki bjargað mér
bilar strax minn dugur.
Sjáið hvað eg sendur er
svona ókunnugur.

210.
Eitt er dýr í fjötrum fast.
flestir halda á snilli,
fjandskap manna og fögnuð hast
færir landa milli.

211.
Eitt er dýr með yfrið þol
úr því éta lýðir bút,
höfuð innan hefir á bol,
hala um kjaptinn rekur út.

212.
Eitt er dýr með ærinn krapt,
innan í því er höfuðið skapt,
efst í kverkum hefur hapt,
halann rekur út um kjapt.

213.
Eitt er þíng í eigu manns.
eingan hefir bol til sanns,
klofið alt að kinnum er,
kynnast augun fjögur mér,
eingin kenni á sér ber
af auðar rein eða sörfa grér.

214.
Eitt sinn hittust Oddar tveir
og Jónssynir báðir,
annar nam að eta meir;
eg þess gjörla gáði.
Þar fyrir gekk annar inn,
ótt og títt, í nafna sinn,
með því gerði að metta hinn;
menn úr þessu ráði.

215.
Eitt sinn hittust Oddar tveir,
Oddsynir voru báðir þeir,
þá gekk Oddur út og inn,
ótt og títt, í nafna sinn.

216.
Eitt sinn var mér reikað
um eyðimörku,
fyrir mig bar þar
fyrn mikil;
eitt var vera
af andakyni,
hryggbrotin sýndist,
með hala ótal,
hafði þó augu
hálfu fleiri,
með þeim skygndist hún
að mannakyni
og hristi til þeirra
hala sína;
sendir hún örvar
af sérhverjum þeirra,
allar ramma þær
einhvern þegna,
sem á fót komast
og foldu troða;
hún særir alla
og suma til bana,
svo þeir hníga
í saurinn niður,
ekki samt hættir hún
á þá að skjóta,
fyr en leið er orðin
á leik þessum,
eða óvin hennar
í augsýn kemur;
hann er skært ljós
og skín henni í augu,
hjaðnar hún þá
og hættir um tíma,
en hamast þó opt
*á öðrum stöðum;*

hún varir ætíð
þó vindar deyi
og fölnar ekki
þó falli gras.

217.

Eitt sinn þá á vegi var,
virðar ráði fréttirnar,
brögnum mætti þremur þar
og þeirra nöfn í vasa bar.

218.

Eitthvað grátt en ekki ljótt,
ullarþétt og líka sítt,
beinasmátt en býsna fljótt,
bar sig létt þó væri grýtt.

219.

Einu sinni svarta gyltu sá eg vaga,
hærra bar á hné en maga.

220.

Ekki er komið
undir vexti
heldur litum
happ mitt stóra,
sálarlaus þó sé
samt virðíngar,
skötnum skapa
skipulega;
ef fast mér ei heldur
frár eg reyni
hlaup um geiminn
híngað og þángað,
sjáanlegur opt
en sést ei stundum,
fóta vani
og fjaðra líka.

221.

Ekki tuggið, ekki soðið, ekki
kíngt um góm,
er þó mörgum ýtum boðið,
yndis krás er tóm.

222.

Ekki verður eldri en tólf mánaða;
*sýnir tímann þó og þann,*
þroskaðan, úngan, gamlaðan.

223.

Eldsgagn veit eg eitt sem getur
aldrei hitnað
fyr en loginn fer að þrotna,
og fullan tíma hefur drotnað
Ó. B.

224.

Epli fult af fræi mjög
furðu margur til sín dró,
ítar margir átu úr lög,
óætt er það haldið þó.

225.

Er á gángi alla tíð,
eingar fángar hvíldir;
sú er á hángi höfð hjá lýð,
höggin bángar mörg og tíð.

226.

Er í byggðum öllum vara
ein, sem gulli betri reynist,
til að ná því viljinn velur,
víða sóast þó og tíðum,
aldrei rýrnar hún að heldur,
hjá bersnauðum endist dável.
vitrir hana virða lítils,
vinnur hún á járnsálir hinna.
Ó. B.

227.

Er mín skipan undarlig,
óréttvís og loðin,
heimskur sauður hefir mig
og hávís kónga boðin.
Svb. E.

228.

Eykur værð, en eyðir fé,
útskorið með staungum,
kemur í burtu kvikindi,
með kjálkum fjórum laungum.

229.

Faðirinn gleypir soninn sinn,
svo verður karlinn heingdur;
ýtir strákur út um hinn,

úr honum síðan fleingdur.

230.

Faðir minn átti sér svo digran og digran,
að einginn kóngur í þann tíð
átti sér jafndigran og digran.

Bróðir minn átti sér svo lángan og lángan,
að einginn kóngsson í þann tíð
átti sér jafnlángan og lángan.

Móðir mín átti sér svo víða og víða,
að eingin drotníng í þann tíð,
átti sér jafnvíða og víða.

Systir mín átti sér svo loðið og loðið.
að eingin kóngsdóttir í þann tíð
átti sér jafnloðið og loðið[1].

---

Það digra, sem eg áðan sagða
var míns föður dreki stór,
er opt á milli landa fór,
en ekki það, þú hugðir.

Það lánga, sem eg áðan sagða
var míns bróður burtstaung laung,
er bar hann opt í vopnaþraung,
en ekki það, þú hugðir.

Það víða, sem eg áðan sagða
var minnar móður silfurskál,
er frúr og meyar drekka af;
en ekki það, þú hugðir.

Það loðna, sem eg áðan sagða
var minnar systur safalaskinn,
er frúr og meyar báru inn,
en ekki það, þú hugðir.

231.

Faðir minn heitir
fallið tré í skógi;
móðir mín heitir
ár í vor;
systir mín heitir
svinnar ræður
bróðir minn heitir
bráður fyrir hel.

232.

Fann eg nokkuð faldasól
fyrir ofan völlinn,
það var allra skepna skjól,
skemdu það beinatröllin.

233.

Fann eg tvær á velli,
þær voru komnar að elli,
beinlausar voru þær báðar;
bragnar meiga það ráða.

234.

Fastur stendur einn
fáks í húsi,
en í mannshöfði
veltist á marga vegu;
hann liggur þversum,
í húsi flatur,
blýfastur ætíð
á báðum endum.

G. J.

235.

Fer í maga fjörginar,
flutt á haukaströndum,
utan baga eyðist þar
alla daga veraldar.

---

[1] Það þykir fara betur á því, að víkja hér útaf reglu þeirri, sem annars er fylgt í gátnasafni þessu og prenta þýðínguna á gátu þessari strax á eptir henni, af þeirri ástæðu, að hún er líka í ljóðum.

236.

Fer í sjó og sekkur ekki,
fer fyrir björg og brotnar ekki,
fer í jörð og fúnar ekki,
fer í eld og brennur ekki.

237.

Fer í sjó og sekkur,
fer í eld og stekkur.

238.

Fer með hverjum flasandi,
firðum einnig gángandi,
rekkum líka ríðandi,
rétt þó þeir séu standandi,
í sólu og túngli sjáandi,
senn í myrkrum hverfandi,
tignarmyndum týnandi,
tröll hann er við líkjandi.

239.

Fer um föður sinn beran,
fasmikil tíðum vasar,
hraklega öxlum ekur,
uppteygir sína skuplu.
Kept fær í anda krapti,
kveður dimmrödduð meðan,
benfrí, þá hlýtur bana
blöskurlega við öskrar.

240.

Ferðhraðir forma gjörðu
fagran, hjá barmi lagar,
sal meður þéttu þili,
þunnbyrðan niður að grunni,
miðbreiðstur, mjóstur neðan,
má settur ekki detta;
bygging á völtum veggjum
varla eða aldrei hallast
Ef dyrnar inn um grafast
ómildir þjófar vildu,
kóngslykil falskir fundu,
furðu skjótt opnast hurðin.
Eigendur upp á fundu,
arfa sínum til þarfa,
vel búnum sumarsali,
setnum trauðlega um vetur;
kunnugur fersk þar finnur
faung nóg, en skort á aungvu;
úti nær efnin þrjóta,
örsnauður sést um hauður.

G. S.

241.

Ferhyrnd kæran fögur og væn
fróð heilræðin kennir skást;
fángið býður firðum kæn,
freknur víða um það sjást.

242.

Fimm bræður fara hver í annars föt.

243.

Fimm búa feðgin
á ferðbúnu essi;
systurnar sitja
sín á hlið hvora,
en bræðurnir búa
á bognum kalli
og gánga báðir
gegnum sinn föður.

G. J.

244.

Fimm í pörtum fullkominn,
fælir suma rekka,
heimtar skatt fyrir herra sinn,
en hunáng gefur að drekka.

245.

Finnst eg ætíð
á förnum vegi,
dag og nótt
í dreingja solli;
á undan þér stundum
og eins á baki,
bendi til brautar,
bein mín ei færi.

246.

Finnst hjá mér það fáheyrt er
og fæstum eykur trega;

dagur er hér þá dagur þver
og dagur æfinnlega.

247.

Fiskana eg sextán sá
sina standa á fæturnar,
en að tölu einn og þrjá.
Áttu að geta hvað það var
þýðing[1].
það er rétta þýðingin,
þar af lítil mærðin vex,
það er mórautt skolla skinn,
skatterað á tíu og sex.

G. S.

248.

Fitna eg aldrei, fæðu þótt eg fái nóga,
frá mér hana dreingir draga,
dugir eigi slíkt að klaga.

249.

Fil leit eg standa
á fleti dýra,
blámagur var hann
og berrifjaður,
fyltur var hann
og feittist aldrei;
því eldur grasa
eyddi úr honum.

250.

Fjóra hef eg fætur
og fjóra vængi,
ólík blundsbitum
hýsn mig færa;
iður mín gegnum
æðir naðra,
lamin á meðan
lurki járnslegnum.

251.

Fjórar skinnpílur
skjóta í eina trépílu.

252.

Fjórir bræður fóru í sel,
fluttust heim til sveita,
görpum þótti gánga vel
Gettu hvað þeir heita.

253.

Fjórir bræður standa á einni þúfu, og skjóta hvítum pílum frá sér.

254.

Fjórir gánga
fimm hánga,
einn dínglar aptan við,
aldrei kemst hann fram fyrir.

255.

Fjórir gánga foldu á,
fimm þar hánga skamt í frá;
einn svo dolsar aptan við,
aldrei kemst hann fram með hlið.

256.

Fjórir þrælar kvendið krept,
klappi meður fánga,
hún er þeim um hálsinn hnept,
á höfði síðan gánga.

257.

Fjötrum girtur ferðast má,
fullur heim kom tíðum,
leggst á grúfu og gubbar þá.
geðjast spýan lýðum.

Ó. B.

258.

Flaug um fjöllin vestur
frárra en nokkur hestur,
úr manni, úr sauð
og innan úr nauti.

259.

Flent framan fer í munn.

260.

Fljótari eg reynist
funa og kára,

[1] Sbr. athgr. við nr. 230.

í ókunna heima
hlaup eg þreyti,
þá auga dauðlegt
ei hefir litið;
á þeim hef eg skipti
á augnabragði.

261.

Flórs sá eg brimil
fángaðan vera,
sem við bálkasker
búið hafði.
Fastlega var sá
í fjöturinn keyrður,
af þremur systrum
og þrjátíu sveinum,
síðan benstúnginn,
særður holundu,
húðfleginn þar með
og höggvinn í stykki;
fundust þá í honum
farvegir þraungvir,
sem graslagar rás
um geingið hafði.
Þá réð fýsnin
til forvitnis eggja,
hvað lángar leiðir
sú lindin rynni;
þá feingu lýðir
fulla vissu;
að flatfíngursmáli
freklega rúmu:
tvenn fimm hundruð
og tugir átta.

262.

Flughart, ferðlaust hrærist,
fleygist, stendur kyrt,
munnlaust, mikið ærist,
meinlaust, klappar stirt;
lopts er skuld ef linast það,
þess úr gati fæða fer,
firðar segi: hvað.

D. Sch.

263.

Flýgur í lopt upp flagðið eitt
ferlegt allar stundir,
upp og niður geingur greitt,
grundin dynur undir.

264.

Forakta mig flestir á daginn,
fussa ef þeir sjá mig um bæinn,
en hafa beztu not mín um nætur
þá nenna ekki úr rúminu á fætur

265.

Fór eg eitt sinn
á feril sauða,
í stjörnuveðri
starfaði eg mikið;
átti eg nýrnafat
nýtt að sækja;
mitt er heimili
í manni hverjum.

266.

Fór eg eitt sinn
á fiskum[1] víða,
hafði léttgaungur[2]
af harðri stormsverju[3],
með stórviðrisfönnum[4]
og sterkum ölböndum,
sem hentaði bezt
á hörðum vatnsklæðum[5];
henti eg lásakraptsspor[6]
af húsi melrakka[7],
því sízt vildi eg mæta
sauðarkroppnum[8];
lagði það mér
liðsemd drjúga,
því nýbærumjólkin[9]
var nógu stór vindur[10];
fór eg með brattri
brimvallar síðu[11],
sem þrjózkunnar verðlaun[12]
þöktu víða;
hér næst kom eg
að hörmúng[13] svana

m föðurlands lofan[14]
ítti mér yfir;
tti eg fyrir mér
rútsmóður[15] eina,
em framhjá mér hljóp
g ferðum aptraði;
m hræbarðs miðnætti[16]
ugði eg einga
ro nakta vera,
em virtist mér þessi;
á klæddi eg beinin
orstadrykk[17] góðum,
ro hvergi skaðaði
ennar klæðleysi.
raut mín lá yfir
rendar raumstennur[18],
; þar við kenda
áníng hugar[19]
fjalls eggja sólar hnúks
gða stólpanum[20]
eið eg fyrir þeim
aka dætrum[21];
lt eg því fyrir
la tánga,
· loga leyf[22],
í nábýlum[23];
eddi svo fyrir
utar[24] enda,
ı fiski[25] klæddar
rtándu rúnir[26].
rsdrykkja[27] skemdi mér
ssar leiðir
í rúnu hlýri[28]
nn fyrir suðri;
tti eg loks
ıð kaupendur kjósa[29]
byggðra pláz[30]
ð allra rómi;
afði eg þar
ættu[31] værð
hjá hollum vinum,
sem ætíð veittu mér

innífla böndin[32].
Hitti eg loks
það höfðingja setur,
sem Mjölnir forðum
markaði á nóttu[33];
var þar ráðandi
Veturliði[34]
í tvöföldu standi[35];
eg til hans var sendur.
Merghúsa val[36]
eg mátti þar kanna
draumnjórun eina;
drógst svo til hryggja[37],
sömu mölvaði[38];
svo gekk eg yfir
tvær fylkíngar[39]
endilángar.
Í hrygnu morguns
myntar gini[40]
átti veraldir[41]
á óklárendum[42].
Fóstra ellinnar
fálka stóls tjalda
höfuðskjólsgestur[43]
og Hrúngnis verja[44],
er sá sem bögurnar
saman hnýtti
og sínum líkum
sendir að ráða.

267.

Fór eg eitt sinn farinn veg,
fann eg grip á sandi,
með landi berandi.
Haukakletta hafði hann tvo,
hélt hann þeim upp báðum,
með ráðum og dáðum;
með öðrum sló hann undir sig
orm úr marar munni,
sá klunni, á grunni:
át og reif og að æti sveif,
af því sig hann fylti
*að ei sylti eða spilti.*

Eptir það hann bana beið
af bæsings skógartrölli,
á velli, sá sörli.

268.

Fór eg eitt sinn
og finna vildi
hjarðarmann
í haglendi góðu;
stautaði eg
með staf í hendi
yfir foldu,
afarmóður.
Óvart kom að
eyrum mínum
metalshljóð
úr miðju lopti;
mál það einginn
maður skildi.
Hægt er að ráða.
Hvað var þetta?

269.

Fór eg með Sleipni
um fugla bana,
á arfa Dellíngs,
um Ángantýs beðju;
beitti eg á fram
bitilþresti,
svo byrjaði listugt,
á blárastar feldi.
Leit eg til hliðar,
og lét þar við stansað,
hvar stóð einn gammi
með strábeygis auga,
skapaður forðum
af skógarbeini;
vafinn var utan
í viðar svita,
glæstur víða
með glampa sæskíða.
Sá stóð um daga
með gapandi gini,
gleypandi í sig
garpa fjölda;
víst aptur sumum
vitlausum slepti.
Eru í hans kviði
allstór rángindi,
samsnúin
af Sifjar haddskerði.
Stór hafði augu
og stælti þau opin,
sá fyrir aðra.
en sjálfur þó blindur.
Sá eg þar meyar
sextán í haldi,
við hvora hlið átta
höfðu sig festar.
Þær sátu í járnum
og saman eru teingdar
allsterklega,
aldrei sig hræra,
frábært þolandi
frost og hita;
stormviðrum sterkum
og stórregnum mæta.
Geðharðar eru
svo gráta aldrei,
nema son Sigmundar
úr svörtum Niflheimi.
Uppruni þeirra
er af mannsvöldum,
á kneri þjóða
út híngað komnar,
af iðrum
Adams móður
getnar og fæddar
í glóandi ofni,
umskornar síðan
með adamas hörðum.
Þær eru líkastar
lífi manna,
og forgánga stundum
fyr en varir.

270.
ir eg yfir fjörðinn snar,
fáknum trés óvöndum,
írar voru í fjalirnar,
ıtar á báðum löndum.

271.
ír um fjöllin vestur,
árra en nokkur hestur,
· manni, af sauð
r innan úr nauti.

272.
ótalaust um flestar nætur
n fær þess optast á daginn bætur.

273
ram dró eg fætur
ım foldar beðju,
ar mig þar að
em börn hirðis undu,
ettist eg niður
g svipaðist um.
ėku sér börn
ið lukkunnar kafla,
en sum voru dæmd
af svipillri gyðju.
Leit eg tvo bræður
í landi naumu,
svipaða illa
með sídökka vánga.
glampaði þó
í gulltennur þeirra:
þrifu valstrendur
þeirra í kjálka,
fyltu kjapt þeirra
með fæðu mjúka;
hér eptir haukakleyfar
harðfeingar léku,
svo báðir seldu upp
og sitómir voru.

274.
Frammi í gaungum *leit eg liggja*
lýsigull með treflum smá.
Einginn maður á þarf hyggja
upp það muni tekið fá.

275.
Freðið og kalt eg fljóð eitt sá,
fæddi um daga sveinbörn mörg,
öll voru tekin frúnni frá,
fékk hún af þeim einga björg.

276.
Fríður piltur einn er enn,
augnagaman sprundum,
tvo úr einum myndar menn,
og mentar frúrnar stundum.

277.
Frændur tveir þar flugust á,
um fæðu þeim á milli bar,
heiptarlega hripsa frá
hvor öðrum, það gefið var.

278.
Fugl einn veit eg fljúgandi
fulltíng vængs sá þarf ei neins,
á himni, jörð og helvíti
hann gat verið undir eins.

279.
Fugl veit eg einn fjaðralausan,
er settist á garð einn jarðlausan,
þá kom ein jómfrú gángandi.
Hún tók fuglinn handlaus,
steikti hann eldlaus
og át hann munnlaus.

280.
Fuglinn flaug fjaðralaus,
settist á vegginn beinlaus.
þá kom maður handlaus
og skaut fuglinn bogalaus.

281.
Fugls ber nafnið fagurt hús
með fínar stoðir,
aldrei kviknar í því mús,
þótt ítar skoði.

282.
*Fult af kosti* fann eg hús,

finnst þar hvorki maur né lús,
þá dreingir vilja draga til bús
dyrnar ekki sjást né brús.

283.

Fult hús lagar
og finnast eingar dyr á.

284.

Fult hús matar
og finnast hvergi dyr á.

285.

Fundist hefir fram á sjó,
fjörunum hvergi nærri,
opinmyntur, þögull þó;
þenna kost hafa færri.

H. P.

286.

Fundur mér féll til handa
fallegur má hann kallast,
utan lýta, óbreytinn,
innvortis limir finnast,
iður í annars kviði
á hann ef tímgast náir;
verði hann sár af virðum,
vunnið bót fær ei nunna.

287.

Fyrst er hann gulli roðinn;
svo er hann stúlkum boðinn;
ljáðu mér skærakinn
að klippa stubbann minn
og danzar þá karlinn.

288.

Fyrst var askurinn aldinklæddur,
einnig líka bekkurinn bræddur
bláum rúnaserki.

289.

Fæddist einn forðum
fríður hoflátúngur,
hafandi á höfði
hreina kórónu,
með gylta spora
gekk og var spámaður.
*Hann er aflángur*
og svo böllóttur;
fæddist af móður
ei hafandi höfuð
né limi neina,
ekki heldur sálu
og seg mer hver sá er.

290.

Fæðist í heimi
fjöld vor ótalin,
gagn og gleði manns
gnógt vor styður.
Flytja oss forlög
af fósturjörðu,
heims um álfur
yfir haf og lönd.
Ákvarðaður
unz yfir líður
dagur dóms,
svo að dupti verðum;
gína þá að oss
með grjótkasti
fossaföll
freyðandi vatna.
Endurnýun
að afstöðnum dómi,
og ummyndanir
ýmsar fáum,
heitum úr sloppin
hreinsunareldi,
er girnast hvervetna
gumar og fljóð.
Glatt þá oss meingi
gistíng býður,
og hæversklega
til húss inn leiðir.
En um leynigaung
loks út þaðan
vettugi virt
vær út förum.
Slíkt er æfintýr
örlaga vorra,

undir ráðgátu
rúnum falið.

291.

Fæðu á hlaupum fékk sér einn
þótt feingi blakið;
úr sér hreytti öllu óseinn
og út um bakið.

292.

Fækkar féð í fjörunum,
fann eg einn á þörunum,
þeir báru hann heim á börunum,
bundinn fast í snörunum,
allan þakinn örunum,
uppblásinn af mörunum,
kúrir hann þar í körunum,
kafnaður undir skörunum,
dreingir lyptu dörunum,
dauflegir í svörunum,
hertu að snæra hörunum,
hugsuðu eptir kjörunum.

293.

Fögur mær er fædd við skóg og
fram um sveitir,
stikar drjúgt og ferðum fleytir,
þú finnur ekki spor, þótt leitir.

294.

Fögur situr á fálkabeð
finnur broddajárnin stinn,
augum þakin utan með,
innan í manna bein og skinn.

295.

Garpi frá eg greina skal,
gagnið vinnur mörgum nóg,
efri partur á ætum hval,
en sá neðri fram á skóg.

296.

Garpur hefur geislúnga þrjá,
gjörir hans margur vitja,
herðabjúgan horfðu á;
hann kann vel að sitja.

297.

Gaur eg leit, með geiflu var,
grunnsóp manna bygð um jók;
í eyrnaker hann alt það bar,
úr þeim smærri byttum tók.

298.

Gátu minnar getið þið, með geði
slíngu;
hverjar voru þær tíu túngur,
sem tón í einu höfði súngu?

299.

Gátu minnar segðu sann,
sveinn ef heita viltu,
dauð hver túnga deyddi mann;
datt sá verstu biltu?

300.

Gátu vil eg greina
glögt, fyrir utan stans,
ekki nema um eina
unnustuna manns;
síns frá herra síðu
sú ei kæra fer,
með hauka bríkar blíðum,
við hana minnumst vér;
einn er hríngur ærið mjór
alt í kríngum laufin stór.
Ef úr fór þíngi illa fór
á henni glæpumst vér.

301.

Geingur hann Gasi
görðunum hærra,
ekki bælist grasið,
þó hann Gasi gángi.

302.

Gekk eg að finna
grannkonu mína,
bráðar að leita
blæs afspreingi[1];
fylti hún reykháfs-
randar nöfnu[2],
*og gat mér að gefa,*

sem geta máttu.
Það voru gánglimir
gnoðekrubúa[3];
vildi eg reyna
rekstur þeirra
undir hálmsöxum[4]
hjarðar únga,
hverjum vant er
um veturliða[5]
dúrinn dúsu nægta[6].

303.

Gekk eg að gá,
sat eg og sá
hvar átján túngur
í einu höfði súngu.

304.

Gekk eg fyrir hellisdyr,
þar sá eg inni laufblað,
en fyrir ofan laufblað tvö andhús,
en fyrir ofan audhús tvær tjarnir,
en fyrir ofan tjarnir tvo klakka,
en fyrir neðan klakka hraunsholt,
en fyrir ofan hraunsholt fífilskapt,
en fyrir neðan fífilskapt tvenna sápustaði,
en fyrir neðan sápustaði fjórar loðbrúðir,
en á fjórum loðbrúðum fjórar og tuttugu hornhagldir.

305.

Gekk eg fyrir hellismunna,
hékk þar blaðka,
en í kríngum blöðkuna broddar tólf,
fyrir ofan hellismunnann tveir vindbelgir,
fyrir ofan vindbelgina tvö stöðuvötn,
fyrir ofan stöðuvötnin tveir klakkar,
*aptur frá klökkunum* holt og hraun,
ofan frá holti og hrauni fjóri stólpar
og tuttugu og fjórar harðbeyglur á

306.

Gekk eg ofan að ármótum,
sá eg eyrar tvær
ekki breiðar,
þeirra á milli
þénar sá hlutur,
sem lífiaus leikur
við lipurt smíði.

307.

Gekk eg og granni minn,
kona hans og kona mín,
dóttir hans og dóttir mín;
fundum fimm egg í hreiðri,
tók sitt hver, og þó var eptir eitt.

308.

Gekk eg um grænar grundir,
leit eg orðajörð,
með augum mínum,
hún bar mér vín,
af vallbíts stampi
og kryddir þær,
sem kóngsnafn bera.

309.

Gekk eg um landsfoldarhauður,
varð fyrir mér hagablóminn rauður;
bar mig þar að sem sárast skáru nauðir:
stefndi eg fyrir strauminn hættlega;
bar eg á burt blómið laufveika,
en skildi eptir í skógarrunni
píslartré heilags anda.

310.

Gekk eg upp með á,
og sá þar tuttugu tjarnir,
en í hverri tjörn tuttugu hólma,
en í hverjum hólma tuttugu hreiður,
en í hverju hreiðri tuttugu egg,
en í hverju eggi tuttugu únga.

311.
Gekk með þúnga hin þykkva,
þolng af hreggi kvolast,
svaraði ei orði af vörum,
innvortis ráð þó finni;
afkvæmi iðrum vafin
ól á sífeldu róli;
fædd þó ei fóstur þýddust,
frá henni burtu róla.

312.
Gera lét höldur á hausti
hettu af kulda glettum,
rúmar brækur af rógi,
en ránglæti skikkju,
kyrtil sér af kulda,
og kvennsemi vöttu,
dýnu sér úr drambi,
en úr dulmælum kápu.

313.
Geri eg enda á öll þau mál,
er menn fyrir mig leggja;
ýmist lífi eða sál
er eg þýngsta sleggja.
J. B.

314.
Gestur[1] kom í bóndahús[2],
bóndi[3] var til dyra fús,
bóndi hljóp á gest með hast,
en gesturinn stóð þá fast,
þá voru öll hjúin[4] innibyrgð,
en húsið hljóp út um gluggann[5].

315.
Getið þið hver sá gripur er,
gráhærður, með skeggið síða,
inn í mesta mustere
mér er boðið inn að skríða.

316.
Getinn er sá af stáli og stein
er sterka málma kremur;
föðursins virðist fæðíng sein,
því fyrri sonurinn kemur.

317.
Getir þú ráðið gátu þá
gætni þinni hrósa eg framt.
Guðrúnu eg við götu sá,
en Guðrún var þar ekki samt.

318.
Gettu gátu minnar:
í gær sá eg hvar hún lá,
sú var þjóðriðin
af þráðum vaðnála.

319.
Gettu, gettu gátu mín,
garpurinn er nettur.
Þegar þorngrund þrífur hann,
henni finnst hann þéttur;
honum sem að leika kann,
honum finnst hann léttur,
tönn hefur eina
og tyggur allgrettur.

320.
Gettu, gettu gátunnar,
garpurinn er mettur;
eina hefir tönn í haus
og tyggur, þótt hann sé grettur.

321.
Gettu hvað eg át úr graut, en þegar eg sneri því við, var það maðurinn hennar Guðrúnar.

322.
Gettu hvað eg fann
á foldu einni,
í sólskini björtu,
en sá það þó eigi.
Færist það víða
á fjórum stólpum.
Girnist það margur
göfugur, snauður,
því heita má ferja
flestra manna.

323.

Gettu hvað eg fann á Grímseyarsundi, úr kú, af kálfi, úr manni, af sauð.

324.

Gettu hvað eg gerði mér til gamans vinna:
bjó jeg til fyrir blíðan svanna
böggul á milli rekkvoðanna.

325.

Gettu hvað eg sá
af sjó rekið,
þá með honum gekk eg,
mér til gamans.
Það var búið til
af búenda sveita
úr starblinds kvonar
stífnu hári.
Á fjórum fótum
í fjörunni stóð það,
taldi eg limi þess
tuttugu og fimm;
þénar til gamans
geddu klafa
og til borðhalds
himinbrjóts niðja.

326.

Gettu hvað eg settist á,
þá hætt var vökum,
með átta dyrum og þremur þökum,
þess eg get með skírum rökum.

327.

Gildlegt flagð er gólfi í,
gægist hind ein ofan í það,
innýflin rífur upp úr því,
og úngum sínum hreytir að.

328.

Góðir menn beina beiðast,
að bera mig, ferð nær gerist,
ofan báls yfir leifar[1]
og æð fróns, er hvikult blæðir[2].
*Ai svo ferða flugi*
úr fángelsi leyst, í vánga[3],
ari[4] hvar fagur eyrir
á mergðum Hamdis sverða[5].

329.

Góðlynd snótin glöð og blíð,
geymir tíð en þó er dauð,
heilsubótar blómstur fríð
býður þeim, sem líða nauð.

330.

Grafið í grandana
grípur fjandana.

331.

Grafinn, tegldur, teygður, prýddur,
tvinnaður, brendur, holaður,
sorfinn, negldur, skorinn, skrýddur,
skrúfaður, rendur, hnoðaður.

332.

Grannvaxinn, slétt
með gati smáu,
án hvers eg væri
ónýt næsta,
snildarverk stærstu
mér snarast úr hendi;
fögru bý í húsi;
flónum blóð vökva.

333.

Grátt læðist inn með veggnum og grípur þig, ef þú getur þess ekki strax.

334.

Grennsta horn í heimi,
hundrað bræður á;
lifi í litlum geymi,
lafsast til og frá,
fegurð marka manna,
mér sem vaxa banna.

335.

Greppur er einn
sá, er gamall unir
og stendur í gegnum grein.
Margra manna,
þótt hann matfrekur sé,

ber hann sér náttverð á nefi.
Alt afl er honum
í enni komið;
sjaldan geingur honum
byrði af baki.

336.

Græn grös gróa milli steina.

337.

Grænklædda, eg gulls leit þöll nær
gekk að borða,
upp nær stóð og að því gáði,
undrun stóra þiggja náði.

Alhvítum því mötli mærin mundi
hulin,
greitt sem huldi græna kjólinn.
Gettu þessa bauganjólinn.

338.

Halda eitt ríki harar tveir,
hafa stríð við landsfólk alt,
við klerka og jarla kífa þeir,
kvennfólk stríðir bezt ávalt.

339.

Harðan strút um hálsinn ber,
horaður á að líta,
í voðum mjúkum veltir sér,
og vinnur skyldu nýta.

340.

Harður fugl á hendi manns
hrínga nefnist þilja,
og brynja góð til bardagans.
Brúðar nafn má skilja.

341.

Harður þussi á hauðri bjó,
sem hafði ei anda,
hleypur opt með hörku þó
að höndla fjanda.

342.

Hart fram æðir heyrnarlaus,
hann er mjór um bolinn,
eingan stundum hefur haus;
í hríð og frosti þolinn.
Þægilega þar til sett,
þéna dável honum,
eyrun fjögur, nógu nett,
neðan í smáþörmonum.

Honum treinast hlaup um jörð,
hjálp þó reyni sjaldan;
brúkar eina um sig gjörð,
endafleini að halda.

343.

Hart og skært og hált og slétt að
höldum lýgur,
undir eins þó satt þeim segir,
samt er mállaust, dautt og þegir.

344.

Haukur hver var hermdu frá sem
hríngaströndu,
flaug með lángt um Fjölnis kvendi,
á flótta var og hratt sér rendi.

Inn af virki voða háu vann sá
flana,
hundvísir hvar höldar gana,
honum sem elti veittu bana.

345.

Hausinn niðri hefir í sér,
hljóðar eins og vargur,
rófan munninn út um er;
úr honum drekkur margur.

346.

Hálft er nafnið á hendi mér, en hálft á hafið út.

347.

Hálft er nafnið á himni uppi, en hálft niðri í kolagröf.

348.

Hálft er nú nafn á hæðum uppi, en hefir á jörðu verið og hálft má maðurinn ekki missa.

349.

Hángdi milli himins og jarðar,
*á vængjum* vindanna

og víðsvegar fer,
velkomin bæði veldisspíru,
armóðsstaf og almenníngi,
þá eld og vatn hef eg
í gegnum geingið.
Geti sá gátu,
er girnist hlutinn.

350.

Hángir uppi í heitum bolla
allra manna maturinn,
margur er sopinn sætur,
en einginn bitinn ætur.

351.

Háska svo forðastu
í heimi og stormi,
gættu að húsi
göfugu mínu;
það skal varbúið
vera ætíð,
og fylgd þér ljá,
ef finnst þér henta.

352.

Hátt í húsi einu
hylur loptið senn;
flýgur fjöllum hærra,
fellir marga menn.
Allir fá það ýtar séð,
en einginn fest á band;
þolir bæði þúst og vind,
þó er það ekki grand.

353.

Hefir ei manns né eisu ár
eikar kenníng þegið,
þótt gegn sé rekið, sést ei sár,
þá sverðið út er dregið.

354.

Hefir einn hvíld mjög lánga,
harðefldur sem vitum vér,
gerir hann að gánga
grjót og þar, sem klakinn er,
tekur hann með sér tíu aðra sveina,
*æðir svo* yfir urð og frón,
sem ólmist ljón,
makinn mistilteina.

355.

Hefir ekkert hafnar fat,
á hörðum fjölum liggur.
í augað tekur allan mat
en með búknum tyggur,

356.

Hefir höfuðið innan í sér, en rófuna út um kjaptinn.

357.

Heima rík hulin geymist,
húðklædd tók mátt af skrúða,
sér undirseldum gerir
sambornum, grálynd, ama;
letur ferð, lögum breytir,
lágsætin ásýnd fágar,
vökvalaus ónáð eykur,
yllaus bráðhita skilar.

358.

Held eg eina húskerlíngu
hún er þreknust upp við bríngu,
ranann niður rekið getur,
rófuna upp í loptið setur,
kveður hátt við klaka og steina,
kann þó ekki vísu neina.

359.

Heldur vil eg farbeina fjárskjóli
á ferbjarnar lopti,
en raka aurdrifna aurs húð
með eldfóðurs leingju.

360.

Herðalotinn, hnakkabrattur,
hnappalítill tíðum,
liggur stundum lima fattur,
lymskur úti í hríðum.

361.

Herm þú mér höld
svo híbýla prúðan
að innhýsa kunni
allar skepnur

og veita þeim
björg og beina.

362.

Hestur hvarf um heytíma,
kom aptur um sláturtíma,
fór um alla búfjárhaga,
þó var hann kyr í sama stað.

363.

Heyrðu maður, hermdu mér
hlutur hver í veröld er,
fyrir björg ef fellur hann,
frekast meiðsli innan fann,
er þó stráheill utanverðu
allur hann.

364.

Hér drattar handstuttur,
háleitur, misfeitur,
salt veður, sundhraður,
sjódjarfur, búþarfur,
lágeyrður, lundharður,
á láði fær opt náðir,
veltist í vogbelti,
veiðist á skrofheiði.

365.

Hélt eg yfir hrygnu dyr
hýsíngar til vona,
þar Höskulds arfi hýsti fyr
hópinn drjóna sona.

366.

Hið dauða grefur það lifandi upp.

367.

Hið sveltanda á landi drekkur það feitasta úr sjónum.

368.

Hið versta lá á því bezta.

369.

Hindurvitni eg sá af sel
sauðs og meyar tegund bar,
gert sem eggið gæða vel.
Gettu piltur hvað það var.

370.

Hitt hefi eg eina hrínga brík
hún er rík,
sú á marga fagra flík,
innan skartar öllum stundum,
öðrum framar silkihrundum,
utan á sér ekkert hefur,
optast nakin frammi sefur.
Hver er slík?

371.

Hitti eg bæi hálfa sex,
hver við annan stendur.
Þar óhlýðninnar verðkaup vex,
var hver þeirra kendur[1].

Þaðan gekk eg þá í svip,
þar á næsta leiti.
Þar sem báran þjáði skip,
þess var bæar heiti[2].

Svo kom hóll og hola í gjörð,
hlupu út kindur margar,
höfðu rana og rifu upp jörð
og rótuðu líkt og vargar[3].

Mæddur gekk eg mýrar og fen,
mínu bjarga lífi.
þar dreingir nefna dreyrugt ben,
og döggskó neðan af knífi[4].

S. G.

372.

Hjarðar iður, herragarður,
heitir þetta konan í brennu;
þvag ílát með þeli kátu,
þetta kenni eg bóndann hennar.

373.

Hjá sængum víða situr ein,
sú fram skottið býður,
fríska ýta, flám yntgein,
fögur á allar síður.

374.

Hljóp um velli halur á tám.

hafði kisu nagla klór,
öl var að drekka opt og smám,
aptur strax því míga fór.

375.

Hlut sá eg lítinn
hvert var efni?
gerður úr iðrum
grana byrðar;
lítill, svo mátti
liggja í hnefa,
en þó svo lángur
sem eilífar tíðir.

376.

Hluta allra
er eg stærstur;
líflaus er eg,
en lifandi þó.
Í mér lifandi
lifa skepnur,
en líf sumra tek eg
með lítilli blíðu.

377.

Hlýrar lúra léttir,
til lágs embættis settir,
allíkir — — — —
svarðargróða safn.
sama bera þeir nafn,
fullir af leggjum
flakka með seggjum;
þá úr þeim geingur
þverrar máttar feingur,
fylli ef sneyðast
ferða endast spreingur.

378.

Horfði eg eitt sinn
á hauk fáséðan,
hafði kló festa
á kvisti eikar,
flaug með í nefi
fagurt epli,
allir glöddust,
sem á það horfðu;
fór hann stundum,
að fá sér meira,
varð honum vel til
hjá virða meingi.
Ráð þú nú gátu
rétt, svo líki.

379.

Hólfað er hús með lásum,
hýrast tólf meyar inni,
vilja þær varla skilja,
veikar eru í leikum;
unna þeim glaðir gumar
greiða í húmi beiða,
pláss ljá ei prúðar þessar,
nema píkan einhver víki.

380.

Hreyfir gáng með hörku móð
hrufótt menjaskorða,
fæðu tyggur fyrir þjóð,
fær þó ekki að borða.

381.

Hrókur einn á hálum fans
hljóp í marga króka á snið;
fróðir rekja feril hans,
flasandi skilst saur sinn við.

382.

Hrútur gat ekki valdið hausnum fyrir hornum, og þó var hann kollóttur.

383.

Hvað er aptan sem tappi,
framan sem hnappur,
en um miðjuna sem mjölsekkur?

384.

Hvað er auðveldast í heiminum?

385.

Hvað er ból og hvað er sólu fegra,
eðallyndi og ágæti,
eiturkindum skaðlegri?

386.

Hvað er fljótara á ferðinni en ljósið?

387.

Hvað er fult á hvolfi, en tómt á grúfu?

388.

Hvað er innan loðið
og utan snoðið?

389.

Hvað er, sem með svörtum vörum
satt og logið, hjálp til lér,
að sjá; nú rétt í flestra förum,
en fátalað, því mállaust er?

Ó B.

390.

Hvað er það á bænum er þegir
en öllum þó til segir?

391.

Hvað er það á fiskinum, sem þú mátt aldrei án vera?

392.

Hvað er það á hauka klauf
hölda, meður bitið skæða,
fiður, stikill, lifri, lauf,
lyndi umburðar, saumur, fæða?

393.

Hvað er það ekki neitt,
sem öllu getur breytt,
og aukið til ómælanda?
Það eilífðinni einni er líkt,
en ekki má eg segja slíkt,
því alt er þá auðráðanda.

394.

Hvað er það fyrir hjól,
á bóli er springur,
hræra, bæra
má ei tær né fingur,
hoppar, töltir,
bramlar, bröltir,
skrapir, skröltir,
skyrkkjótt, hlykkjótt sýngur?

395.

Hvað er það í veggnum, sem til alls þarf að hafa?

396.

Hvað er það liðs,
er lendur byggir?
Felst í hlíðum hám
Heimdallar jöfurs,
finnur sér fóður
og fylgsni nóg,
þar skjöldúngs ása
skógar dafna.
Viðar á meingis
moldar sviði
á fætur færist
og frið bannar.
Seint mun sjöt
sigrast á því
liði, leiðángrum
þótt linni eigi.
Halir og hrundir
hyggið að gátu.

Þýðíng.

Dylgjar fyrir drótt
dularfull gáta,
þó mundi finnast
þýðíng hennar.
Gramur og jöfur
gilda sama;
sýna sögur
sverðsheiti Gram,
og Heimdallar sverð
nefnist höfuð manna,
en Hár
er heiti Óðins.
Manns er líkami
af moldu skaptur;
undir sig leggja
til ófagnaðar.
lendur þessar lýs,
nema lýðir verjist.

397.

Hvað er það með tennur tvær,

tekur fæðu í munna fimm,
undan sér því eldi slær,
við ísinn næsta haldin grimm?

398.

Hvað er það, sem allir vilja eiga, en einginn getur étið?

399.

Hvað er það, sem altaf þegir
en þó öllum satt segir?

400.

Hvað er það sem blómgast þegar rótin er særð?

401.

Hvað er það sem brotnar utan, en ekki innan þegar það dettur fyrir björg?

402.

Hvað er það, sem dettur fyrir
björg og brotnar ekki,
fer í sjó og sökkur ekki,
fer í eld og brennur þó?

403.

Hvaðer það, sem eg sé og þú sér,
kóngurinn sjaldan,
en Guð aldrei?

404.

Hvað er það sem einum er
ofur þúngt en tveimur nóg,
ef sá þriðji þar til fer,
þessu koma þeir ekki í lóg?

405.

Hvað er það, sem ekki er
öðruvísi en eg og þú?
en svo mikið af oss ber,
eins og ljón, að sögn, af kú.
Ó. B.

406.

Hvað er það, sem er minna en
mús,
hærra en hús,
dýrara en öll Danmörk ef það
feingist ekki?

407.

Hvað er það, sem er stærra en lús
og minna en mús,
og mænir öllum augunum upp á
kóngshús?

408.

Hvað er það, sem feitt er á vetrum, en soltið á sumrum?

409.

Hvað er það, sem fer á milli
lands og lagar,
hefir hvorki munn né maga
en segir þó öllum satt?

410.

Hvað er það sem fer á milli lands
og lagar,
hefur tvö augu og eingan maga
en ber þó marga máltíð í munni
sér?

411.

Hvað er það sem fer eptir grunni
með gapanda munni?
Veitir öllum mat
utan sér sjálfum.

412.

Hvað er það sem fer fyrir björg
og brotnar ekki,
fer í sjó og sökkur ekki,
fer í eld og brennur ekki,
en verður seinast
vargi að bráð?

413.

Hvað er það sem fer til vatnsins og skilur eptir innýflin heima?

414.

Hvað er það sem fer um flest
fyrir hal og drós?
Á augabragði ekki sést,
þá inn er borið ljós.

415.
Hvað er það, sem fer út og inn
; stendur þó alt af kyrt?

416.
Hvað er það, sem fór leingstan
g á skemmstum tíma, gerði guðs
ja en fór þó hvorki vel né illa?

417.
Hvað er það, sem frýsar og fratar
og neytir aldrei svefns né matar?

418.
Hvað er það, sem fult er af
ti og blóði á daginn, en gapir
n tröll á nóttunni?

419.
Hvað er það, sem fyrða fælir,
fræddu mig nú, vinur kær,
ýmist selur upp og ælir,
eða gleypir, hvað til nær?

420.
Hvað er það, sem fæðist blóð-
ust og hljóðar þegar í heiminn
mur?

421.
Hvað er það, sem fæðu fær
feykilega neðan í sig?
upp úr sér það öllu slær,
er sú gátan breytilig.

422.
Hvað er það sem geingur allan
aginn, og sést þó ekki nema eitt
por eptir?

423.
Hvað er það, sem geingur á
öfðinu um alt land?

424.
Hvað er það sem hefur augun
öðrum endanum, en nefið á
inum?

425.
Hvað er það, sem hefir líf og hita,
þegar
mænan stendur í ljósum loga
en leggur það fyrir mjólkur boga?

426.
Hvað er það, sem hinn fátæki
fleygir frá sér
en hinn ríki stíngur hjá sjer?

427.
Hvað er það sem hleypur, en
stendur þó kyrt?

428.
Hvað er það, sem hleypur þrátt
hæðir yfir vötn og dal?
Nafnið finna ef þú átt,
í undirdjúpi leita skal.

429.
Hvað er það, sem hoppar og skoppar
yfir heljar brú,
með manna bein í maganum?
og gettu þess nú.

430.
Hvað er það, sem hækkar, þegar
af fer höfuðið?

431.
Hvað er það
sem höfuðlaust stendur
hrygg með beinan,
húð og tvær fætur,
sem eru fastir
sinn við hvorn enda,
en átján að tölu
öfugar tærnar.
Munn hefur framan
og með honum snæðir,
líkt sem á flyðru
lagaður er hann;
selur upp öllu
sem það gleypir,
sést á sumrum
en sjaldan um vetur.

432.
Hvað er það, sem leikur dautt en lifir í?

433.
Hvað er það, sem liggur á grúfu og snýr upp fótum?

434.
Hvað er það, sem liggur á grúfu og snýr upp nefi?

435.
Hvað er það, sem liggur í brekku, og leggur merginn eptir?

436.
Hvað er það, sem læðist lágt,
líka stundum slæðist hátt?
yrði mörgum æði bágt,
opin ef ei stæði gátt.

437.
Hvað er það sem metur munnlaust,
tyggur tannlaust,
deyr, ef það drekkur ekki?

438.
Hvað er það sem rekur sjálfs sín túngu í rassinn á sér?

439.
Hvað er það sem skrýðir skrúð,
skötnum fyrst ónýtur?
Útbúinn með horn og húð,
húðum sundur slítur.

440.
Hvað er það sem skævaður
skrölta lætur?
tíðum það brýtur
tennur Sóta
og hruflar hold Ýmis
hræðilega,
máist um síðir
og sundur geingur;
menn báru það þá
í munn hjólbranda,
vargur gamma,
sem einatt æsir,
hófu það síðan
í höggstað Sigurðar,
sveinn að auknefni
sá var nefndur,
þar var það tuggið,
teygt og lagað
með Magna föðurs
miklu nafni,
dysjað síðan
af dalneyðar kvistum
í fórnarhornum
Ása dólgs niðja.

441.
Hvað er það, sem stendur kyrt en hleypur þó?

442.
Hvað er það, sem tekur bita á hlaupum og teður upp um bakið?

443.
Hvað er það sem tekur fæðuna inn um augað, bryður hana með maganum og skyrpir henni út um munninn?

444.
Hvað er það sem tyggur með
kviðnum,
en teður með bakinu?

445.
Hvað er það sem tollir við alt?

446.
Hvað er það sem úti frýs
og aldrei kemur í Paradís?

447.
Hvað er það sem úti
fyrir almennings dyrum
tyggur með tíu
túngum gráðugum?
Fætur á eru
fjörutíu,
fet sig ei hrærði,
fer þó víða.

448.
'vað er það sem úti liggur
rir almenníngs dyrum?
efur tíu túngur,
ittugu augu,
)rtíu fætur
: fer mjög víða.

449.
Hvað er það sem þú hefir á
ri, hvort sem þú ferð frá austri
'esturs, eða vestri til austurs?

450.
vað er það um borg og bý,
m brúkast dag og nætur,
eypur víða húsum í,
ɔfir þó einga fætur?

451.
Hvað fer gult undir bergið, en
ur hvítt undan því aptur?

452.
Hvað fer í gegnum veggjarholu
dregur garnirnar eptir sér?

453.
Ivað fylgir fljótum
jármanni heiman,
ɔað styttir opt leiðir
ɔg stjakar við gaungu,
ɔamlar svo hesta
ɔg hunda erfiði?
Bygð þess er í búðum
ɔensvita jarðar.

454.
Hvað gapir upp og niður,
er optast heitt
en aldrei sveitt?

455.
Hvað gerði griðka
til gagns í morgun?
myrti mein lítið,
mér þó vitandi;
það var á moldu
maður kallaður,
en á flæði
fley göfugasta,
merki fagurt
á mána tjaldi,
skriðdýr jarðar,
en skollinn í víti.

456.
Hvað hefir rúm í ofni, en fær aldrei að liggja í stofu?

457.
Hvað heitir fugl sá,
fljóðum hentugur,
gadda hefur tvo
í gegnum sig rekna,
einnig túngusporð,
tyltan við rófu;
dillar hann henni
þá drjúgum borðar.
Hallinskíða
hefir sá vængi,
í hríng þeim fleygir
og hvopti gleypir;
fæða hans reiknast
fiður af dorra,
sem bræður tveir
tuskast um áður,
dregst hún aptur
út hjá vængjum,
hann týnir þá öllum
innýflum sínum;
fótum er troðinn
þá fæðu skal neyta,
dansar þá fyrir
dindill bundinn;
skrýðist hann belti
af skeggi miðjúngs?
Upp er nú talið,
áttu að ráða.

458.
Hvað heitir kalt vatn á Íslandi?

459.

Hvað heitir karl,
sá í steini stendur,
hlær að höggum
þá hann á dynja.
Þolir glóandi
þyrna í auga,
sér þó eins vel
eptir sem áður?

460.

Hvað hét hundur karls,
sem í afdölum bjó?
Nefni eg hann í fyrsta orði,
þú getur hans aldrei þó.

461.

Hvað hétu hundar karls,
sem í afdölum bjó?
Annar hét af öllu,
en annar á öllu.

462.

Hvað hétu uxar kóngs í höllu?
Þeir hétu á öllu og af öllu.

463.

Hvað höggur allan daginn, og sjást þó eingin sporin eptir?

464.

Hvað margir hafa einu sinni fæðst og tvisvar dáið?

465.

Hvað má himni blám
hærra segja?
eða dýpra Niflheims-
díki kalla?
víðara ummáls
veröldu allri?
leingra en lagarröst
í laxaheimi?

466.

Hvað má teljast
tímanum eldra?
og sjást með augum,
sólunni fegra?
hvað kann stormunum
sterkara blása?
og björtum eldi
baka heitara?

467.

Hvað mun hún heita,
hvers getur þú til?
frammynt er hún,
með armleggi stóra,
heldur hún opt á
höfðíngja skálum,
blóðrauðleit þá
hún ber þær í munni;
pínu Krists
og píslarvottanna
verið hefir hún
viðstödd líka.

468.

Hvað mörg manna og bæjanöfn eru á sjálfskeiðíngum?

469.

Hvað rennur allan daginn, og sést þó ekkert spor eptir?

470.

Hvað sérðu bjartara
en brúnt hross?

471.

Hvað skýtur allan daginn, en breiðir ofan á sig á nóttunni?

472.

Hvað starfar hlutur
hver á jörðu,
er syndir á vatni,
sveimar í lopti,
alt þángað til
að örlögum lýkur,
og stundarheimur
stendur í funa?

473.

Hvað stendur en geingur ekki, hefur líf en eingan anda?

474.

Hvað var það sem sá eg
og séð hafði ei áður?
Það var oddur
af höfuðöx marða;
fyrst var það borið
í bróður míns auga,
áður var það tuggið
af tönn Ýmis;
þar gekk hann rati
og gróf hann dauðan
í Ásbjarnar fæti,
fast við ökla;
þar hángir svunta
þrílögð með borða,
svo síðan ei
af saumum gliðni,
varnar hún öllum
inn að koma,
þjarka mundum;
geymir það
hún getur hulið.
Enduð er gátan,
alhægt að ráða.

475.

Hvað veiztu fólgið
í fjörgynar hjarta,
fagurt á nóttu
en fölt á degi,
dapurt og glatt
deyr og lifnar,
öllum séð,
en eingum þreifanlegt?

476.

Hvað veiztu hrærast
á hundrað teingslum,
það finnst í skógi
og skyrtum manna,
leikur í einu
laust og bundið,
dregur á eptir sér
dýr og fugla?

477.

Hvaða ár renna upp á móti?

478.

Hvaða bæjarnafn er ávöxtur elda?

479.

Hvaða bæjarnafn nefnir sig sjálft?

480.

Hvar baulaði kálfurinn, sem allir í heiminum heyrðu til?

481.

Hvar er það á eingi,
sem ei verður slegið,
nema undir snjókrapi
nái standa?

482.

Hvar sat eg iðjulaus við vinnu mína og sá út um gluggann skepnur tvær mjög ólíkar? Önnur er í lífinu í heiðri höfð, en eptir dauðann er hún fyrirlitin af flestum; hin þar á móti er í lífinu lítilsvirt, en sem hún er dauð sækjast jafnvel stórmenni eptir henni.

483.

Hvar sat eg þar við vinnu mína, sem margir fara með hálfum huga?

484.

Hvar sem eg í heimi sést
hluti og skepnur sýni eg,
þeim aðgæzlu þurfa mest
þénusta mín er nytsamleg.

485.

Hve lángt er frá sjávarbrún til botns?

486.

Hve nær sástu kirkjuna albúna af hrossbeinum?

487.

Hver á flest spor á Íslandi?

488.
Hver er á Fróni
fæddur tvisvar,
ber sá kórónu
hversdagslega,
iðkar spásagnir,
öllum kunnar,
þó skilur einginn
orð, er hann mælir?

489.
Hver er fíll sá
flóðs, einkar valinn,
sem valdið gat öllum
veraldar fansi?
þó var ei ofhlaðinn
þröstur húna.

490.
Hver er hin harða,
er heilablaut verður,
hún hefir margar
misstórar raufar,
inn í þær borur
börn hennar smjúga;
þau drógu dvergar,
dauð út til forna?

491.
Hver er hin mjóa
með svo lánga rófu?
Hefur harðan haus
höku og skegglaus;
siglir með seggjum
sunnan úr löndum,
hefur austanbyr,
en liggur grafkyr.

492.
Hver er meya sú
er mælir andvana,
deilir þegjandi
og dæmir án orða;
maka sinn dauðan,
mark og réttindi,
ber hún jafnan
á baki sínu?

493.
Hver er sá annar Óðinn
austurlandanna hraustur,
sundur teygist og saman,
sitt ljær þó auga draugur,
hríngeygður sá er sagður,
sýnir það girnist maður,
bæði á lög og láði,
leingd, breidd og hæð við teingis

494.
Hver er sá á baki ber
byrði nokkuð þúnga;
hlotnast ket og hefir smér,
hjartað geymir túnga?

495.
Hver er sá á Sigtýs kvon,
segðu, því eg að spyr þig,
Dvalins leiku og Dellíngs son
dregur gegnum heilan sig?

496.
Hver er sá böllur
í brúða mundum,
leikur jafnan
lipurt unninn,
ýmist af veðra
vorþegnskyldum,
eða björtum hadd
Bölverks rúnu?

497.
Hver er sá dauður
dysjar þann lífs er?
þess máttu geta,
en það er vandamál.

Dr. Schev.

498.
Hver er sá drabant,
dans sem heldur?
dáfríður sjónum,
en dulinn stundum
fimtán tíða

fullþroskaður,
þrjátigi úngbarn
þreytist aldrei.

499.

Hver er sá dreingur
í duglegu starfi,
sem reikandi rennur
í rollufeldstaugum
og leikur við kvennmanns
limu þá neðri,
þá þær af limalist
léttfeta honum?

500.

Hver er sá einfætlíngur
aumkvunarlegur,
sem ráfar á höfðinu
rænulaus,
hefir túnguna á fæti
og talar ekki parið,
augun þar örblindur,
eyrun þar steindaufur,
vafrar þar merglaus,
valhoppar beinlaus,
ringlast og dánglast
og ritar undir slit?

501.

Hver er sá eingill
frá Úriel sendur
i dýrðar skrúða
dæilegum,
undan sér rekur
alsvarta flegðu,
en væntir annarar
vítt baklendis?

502.

Hver er sá einginn hlutur
er þú nafnkennir,
var, en er ei,
verður og ekki dvín?

503.

Hver er sá einhyrndi uxi,
sem hefir eina tönn,
kjaptinn á kviðnum,
rassinn á miðju baki,
og tekur sína fæðu
á tíðum gángi?

504.

Hver er sá eini,
hannyrðum þakinn,
ber hann konu,
á baki miðju,
hulinn pellklæði
heldur síðu
dagleiðir margar
hann drjúgum ferðast,
situr þó ætíð
í sessi kyr?

505.

Hver er sá eini
hægt farandi,
er ferðast hvorki
á fæti né hesti;
hans má dagleiðir
á himni marka,
tíðförull aldrei
tekur áfánga?

506.

Hver er sá einn
sem aldrei talar,
en hefur þó furðu
hrekkvísa túngu,
hjarta sviksamt,
en hugsar þó ekkert,
heldur fast stendur
og hleypur án dvalar?

507.

Hver er sá eldur
iðkvikandi,
sem vakir um verfaung
og versona blöðrur,
forbrennir aldrei,
flýr undan sólu,
eltir í húmi
*ístöðu litla?*

508.
Hver er sá eldur,
í alvotu logar,
sefast trauðlega,
nema saman komi
við annan eld,
sem eins er heitur,
samkynja hinum
sofna þá báðir?

509.
Hver er sá faðir, sem etur öll börnin sín?

510.
Hver er sá fereygði ferhyrníngur,
sem fiðrar með hornunum,
hviðrar með görnunum,
óður í augunum,
eingin hefir skil?

511.
Hver er sá fljóti
mig fann á vegi,
hans hraðfari
var hömlun ferð minni,
undan sér rak hann
allmarga dauða,
en hafði þó hvorki
hönd né keyri?

512.
Hver er sá fugl,
sem er fastur í hreysi,
flýgur þó leingi
og er fljótastur allra,
himin og helju
hann gegnum sveimar
og hæð hvervetna,
er hér finnst á milli?

513.
Hver er sá grasa gummur,
sem gægist upp á bæi?
fá vill fylli sína,
flestir gefa honum nesti;
rif hefur tvenna tugi,
töltir á fótum fjórum.

514.
Hver er sá göltur,
sem götulaust rennur,
yfir fen djúplögð,
með fótum átta;
treður hann undir
hæðir og sléttur,
finnur einginn
hans fótspor þótt leiti?

515.
Hver er sá handarlaus,
hendur þreytandi?
eitt hefur auga í haus,
ei þó sjáandi;
er að ásýnd dautt,
en opt hljóðandi,
hefur hvatt og blautt
hjá sér bjóðandi.

516.
Hver er sá haukur
sem heitir apaldur,
gerður af gýgjarstaf,
með geðugu auga,
vængi hefur hann
og víða flýgur,
nöfn hafa þeir
sem Níðhöggs þjónar.
Innýfli hans
eru öll rángindi,
þeinkíng manns
og þrískorað stykki.
Það hefir rati gert
að rifnaði ekki,
þegar gimfoldar negg
gekk á hvirflinum.
Konu halda menn
í kviði hans miðjum,
séð hefir sonabörn
svo er hún öldruð.
Það er bana sök

ef bilar konan,
því er henni laukur
lagður í munninn,
og blöðku korn,
sem berst við laukinn,
hjálpar þá nokkuð
þá hræsvelgur flýgur;
herðir hann þá fángið
og fer að skríða,
þar til hreiður sitt
hefir fundið;
lúðrar hann þá
og lætur sig njörfa.
Nú er gáta mín
greidd og lokin.

517.

Hver er sá hár hóll,
holur innan,
með blikstjörnum tveimur
og blöðkum fyrir,
úlfaldar fimm
þar ofan úr hánga,
girður er inngángur
göddum hvössum?
Í hólinn hver skal gánga,
er getur ei hins sanna.

518.

Hver er sá hinn ellefti,
er hefir afl í nefi
og er í legg lotinn,
harður undir höndum
og í hrygg boginn,
og felst í annars holdi optlega;
að föstumatarfaungum
fer hann iðulega
og hleypur þá í fiskferð,

— — —

vilja þann grepp taka
og beiðir hann þær þá búi frá?

519.

Hver er sá hinn fljóti,
er mig fann á vegi,
sem ei skín á sól
né önnur birta,
hann sá eg jafnframt
hafskipum renna,
þurfandi ei föt
né fæðu neina;
öllum auðsénn
en ei þreifanlegur?

520.

Hver er sá hinn hverflegi
af hveli jarðar,
háður umbreytíngum;
er í láns skarti,
þó litur prýði,
veg vísar opt
en veit þó eingan?

521.

Hver er sá hinn lági
lítill fyrir sér
og hefir fjóra fætur,
tvo lifandi
og tvo dauða?
Mjög er það kynlegt,
klóta baldur.
Á tveim hann stendur
en hann skal aðra
í milli herða hafa.
Kvenna kjöt
er honum á kropp borið,
finnst eigi honum þó
manns hold í maga.

522.

Hver er sá hinn þriðji,
er í þara hángir
og er herðilotinn heldur?
Á hliðar hann rær
og kemur þá hljóð mikið
í hans krínglótta klofa;
í heitum stað
var sá höldur skapaður
*og verður að ljósta til lífs.*

523.
Hver er sá hirðsveinn
herra nokkurs,
sem sauð hans elur
á sætu fóðri,
eptir sem hverjum
allra bezt hagar;
líf sitt um vefur
lifandi skrúða?

524.
Hver er sá hlutur
af höndum manns gerður,
hann hefir ei upphaf,
né enda nokkurn,
eins skaptur alstaðar,
hvar á hann er litið,
og þénar þó allvel
til þess hann skal vera?

525.
Hver er sá hlutur,
er höldar brúka,
gimsteini betri
og gulli brendu?
Þjást má laungum
lifandi og dauður,
tærir ull jarðar
og innýfla skýlu.

526.
Hver er sá hlutur
heldur þarflegur,
þá verst viðrar
verður hann kátastur;
allmargra þörf
er hann undir kominn,
því þá dauður er dofri,
dregst margt til þurðar?

527.
Hver er sá hlutur, hermdu það
hér að þessu sinni,
er höldar brúka á háum stað,
heilsu að skýla sinni?

528.
Hver er sá hlutur, herm þú mér,
sem höfuðskepna gegnum fer,
önnur fæðist þar af þá,
þriðja stendur jafnan hjá?

529.
Hver er sá hlutur.
hvolfir sem skipskutur?
Gettu minnar gátu,
gerðu úr henni hlátur.
Eg skal gefa þér gildan dal,
ef geturðu svo sem vera skal.

530.
Hver er sá hlutur, sem heitir eins og einn guðs eiginlegleiki?

531.
Hver er sá hlutur,
sem heitir nöfnum átta,
en hefir þó eina
þýðíngu þessa:
bragnar sex
og barmur elfu,
fiskar tveir
úr fjarðar grunni,
buðlúngs hæða
heitið eina?
Búin er gátan,
bið eg þú ráðir.

532.
Hver er sá hlutur,
sem hrundum þénar,
viðkomu mjúkur,
til voða gerðar,
eikum studdur
alla vega.
Hann ber það nafn
sem baula í fjósi
og fjaðurdýr
fallegt í skógi?

533.
Hver er sá hóll
holur innan,

dynur úr honum
djánkans mikið?
Rektu nefið í
rassinn á honum,
og ráddu svo
rétt, hvað hann heitir.

534.

Hver er sá hyrníngur, hreifir sér,
hefir litlar ræður,
matinn sá í munni ber,
í maganum ekki parið er?
Honum stýra hraustir tíu bræður.

535.

Hver er sá karl í krókum býr
og gægist fram úr greni?
Á hann hvorki ær né kýr,
alt hans nafn í hnakka býr,
þó ber hann marga máltíðina á nefi.

536.

Hver er sá karl í kvenna rann,
kominn leti að banna,
sinni fylli safnar hann
sér á milli tanna?

537.

Hver er sá karl með kjálka tvo,
hann kann ei spinna?
Augu þrjú eru á þeim dóla,
hann eykur mörgum raunaskóla.

538.

Hver er sá karl,
sem klæddur er vatni,
geingur sem móðir vor,
myndar sirkil,
etur aldrei
utan reikandi,
maga og munnlaus,
mörgum til þarfa?

539.

Hver er sá karlinn hljóður,
sem hver og ein húsmóðir
hefir utan hjá?
Gefinn er matur góður,
en glæsilegar tróður
honum læri ljá;
einlægt úr hans kvið
öðlast bragnar lið,
en stelpan hans er stryttuleg,
hún stofnar mikinn klið,
með sínum harða hausnum
hún hnubbar á honum dausnum.

540.

Hver er sá kastali
kátlega vaxinn,
upp með honum
eru fimm stólpar,
yfir er himinn
æðimikill,
undir þó annar
eingu minni;
þar inni sitja
þrifnar tvær meyar,
fríðar og fagrar
af forkunn skaptar;
þá önnur mettast
fær hin uppsölu?

Þ. Þ.

541.

Hver er sá kistill,
sem ýmsir bera á baki
en fátt er þó fémætt í?

542.

Hver er sá klaufnefur
kominn af flugi,
verður vænglaus
vakurt að hlaupa;
drukkinn af sóti
dregur sig í króka,
rekst ferill hans
á farfa ljósum?

543.

Hver er sá kóngsson
kominn að löndum,
*dökkur á hár*

og djarfmannlegur;
hann hefir tær,
og teingur lángar,
með þeim taungum
temur hann grísi;
hann er bundinn
á báðum höndum,
og reyrður með reipum
rétt um mittið.

544.

Hver er sá kóngur, sem býr fyrir neðan legg?

545.

Hver er sá ljósi,
sem lifir á grasi
etur hann ormslifur
opt í húmi,
etur hann fluguverk
og ískrau veðra,
er hann svo gamall
að einginn mundi?

546.

Hver er sá lundur,
er vex með tólf blómstrum,
en í hverju blómstri eru fjögur hreiður,
en í hverju hreiðri eru sjö fuglar,
ber sitt nafnið hver,
heita þó allir eitt?

547.

Hver er sá lundur,
sem með lokkunum býr,
leikur hann sér í lopti,
en rófan upp snýr,
batnar í búinu
er blæs hann úr þeim;
á vorin ríður hann út,
en á haustin kemur hann heim.

548.

Hver er sá seggur
á sífeldu hlaupi,
hvergi úr sínu
*sæti hrærist,*
munn hefir ei,
málróm né barka,
en sýngur svo hátt,
að heyrist allvíða?

549.

Hver er sá seggur,
í sívölu húsi,
samanskrúfuðu
sér til prýðis,
gerður af gleri
glæsilegu;
á má þar lesa
ýmsa stafi?
Um lög lýðum
leiðir segir,
náir að standa
á nálar oddi;
eykta mörk
og átta sýnir,
og mjölni reiðir
mitt til norðurs.

550.

Hver er sá sem bar sál og líkama, gerði eptir guðs vilja, en varð þó ekki sáluhólpinn?

551.

Hver er sá, sem hleypur dauður
heims á láði,
optast hraður, aldrei glaður
eins og sérhver lifandi maður?

552.

Hver er sá, sem hrakinn er
fyrir hvern einn vetur,
undan skepnum öllum étur
ei þess leingi notið getur?

553.

Hver er sá,
sem iðjar gángandi,
hann lýir hendi
en hefir þó einga,
aldrei þó sína
iðju fremur,

nema staung stjórnarans
standi í hans auga?

554.

Hver er sá, sem sýnir mynd,
sé hann til þess krafinn,
hermir eptir hverri kind,
hörðum böndum vafinn?

555.

Hver er sá skaptur manns í mynd;
mæðir eingin pína,
fetar opt um flata strind,
fer þó með honum eingin synd,
iðjulaus um alla daga sína?

556.

Hver er sá sonur, sem dansar á húsþekjunni, áður en faðir hans lifnar?

557.

Hver er sá spegill,
spunninn af guði,
bjartur á að vera,
en blettóttur er opt;
líkam sinn sjá þar
lýðir eingir,
en sál sína má þar
sérhver skoða?

558.

Hver er sá spegill,
spunninn úr jörðu,
í honum sér sig
einginn maður;
en hugferði annars
má hver þar skoða,
og þótt hann sé
ærið fjarlægur?

559.

Hver er sá stafur,
stendur á húni,
upp er broddur,
amast við njólu;
bræddu hann smiðir
úr bikurum snóta,
en veigarnar tóku
að verkalaunum?

560.

Hver er sá steinn, er líf var í látið?

561.

Hver er sá steinn,
er stökk úr mannshendi
og fjórða part eyddi
foldbyggjenda;
braust þá fram dreki,
beljandi af húngri,
sem hröklaðist æ síðan
yfir hræbeinum?

562.

Hver er sá stiltasti
straumur und sólu,
hvern alheims kraptar
fá eigi stöðvað?
Eigi eru til öfl,
er aptra megi
honum framrásar
um farveg hans.

563.

Hver er sá stólpi,
haglega tilbúinn,
rétt eins litur
og rykkilín presta?
Hans eru innýfli
af hör eða líni
en kroppur hans
af kvikfénaði.
Allur er kroppurinn
á honum dauður,
utan höfuðið
einasta lifir.
Tvær höfuðskepnurnar
tempra honum lífið,
önnur lífgar sálu hans
en önnur hana myrðir.
Lifði hann alltaf,
*þá lifði hann* rúmt dægur,

en lifði hann aldrei,
þá leingdist hans aldur.

564.

Hver er sá straumur
í húsi þraungu,
sem allar kann
um áttir renna,
heims og himins,
á hverjum degi,
en er þó jafnan
við uppsprettu fundinn?

565.

Hver er sá strákur,
sem stendur í jörðu,
innan í honum
ólmast stelpa,
á höfðinu
altíð geingur,
þá hún sig hrærir
hljóðar hann stórum
og hrekkur upp úr
hráki mikill,
skellir upp rassi,
skvettir úr munni
gusu stórri?
Gott er að ráða.

566.

Hver er sá sveinn,
er fullorðinn fæðist,
frá fæðíngu flýgur,
strax föður jafnaldri,
í stakk gráleitum
stígur til hæða,
útþenst við elli
og alhverfur sjónum?

567.

Hver er sá sveinn,
er í sauri sefur,
deyr ef hann drekkur?

568.

Hver er sá sveinn
*hýrlega* vaxinn,
hann fæðist
á höfði sinnar móður?
Fái hann aldur
enn þá hærri,
verður píka
úr pilti þessum.

569.

Hver er sá sveinn
illtækur einn,
íboginn allur,
einatt er hann hallur,
fTrískastur fullur
fleins er þessi ullur,
fannhvítt ber nef,
færir illan þef,
hentugur tíðum,
þá húmar að lýðum,
rekkar nær sátu?
Ráddu nú gátu.

570.

Hver er sá vegandi,
af verum skaptur,
hvoptgángs við
hlaup alltamur,
skapara sinn
má skaða og drepa,
valdi vangá
eða vondur hugi?
Efni hans er
úr iðrum jarðar,
og hæfis hjör
himinbrjóta,
fjötrast barmar
að báðum hliðum,
í ísarnfleinum,
optast þrennum.
Hefir í baki
borginmóða
ferðar ár
fleinum lagða,
standa þeir í undum
alla jafna,

nema bilun
til bana verði.
Sefur hann
í sjálfs síns iðrum,
sezt þá aldrei upp
nema aðrir tilhjálpi.

571.

Hver er sá veggur víður og hár
veglega settur röndum,
gulur, rauður, grænn og blár,
gerður af meistara höndum?

572.

Hver er sá viti,
sem vitran bar
og vissi ekki par?
Vísundum að vari,
vitríngum örvari,
vetfángs litfari,
brokkar fyrir vergest
og vogest,
æfur og gæfur,
eingum handhæfur.

Þ. Þ.

573.

Hver er sá vígvöllur
er virðar á stríða?
Hermenn eru átta
af hvorumtveggja,
beita þeir fyrir sér
börnum sextán,
falla þau optast
fyr en þeir eldri.

574.

Hver er sá vöxtur, sem snýr rótinni upp, en krónunni niður?

575.

Hver er sá þjóðvegur, sem aldrei hefur verið farinn nema einu sinni?

576.

Hver er seggur sá,
er seimgrundum þjónar,
með hríngvaxinn búk
og höfuð mjóskapað?
Á laungum þrem fótum
liggur standandi,
á baki gángandi
bært sig ei getur,
eineygður, óblindur,
einga sjón hefir,
þó vagl sé í auganu,
varla sakar.
Á opinni bríngu
brjóst eitt má líta,
það er grundvallað
í þánka ranni.
Mænan frá höfði
í mitt hjarta geingur,
sem líkt er að lifi,
líflaust í búki.
Hann er handalaus,
hefir þó arma,
af brjóstsins spena
báðir þeir gánga.
Hans á örmum
hvílir ein brúður,
undarleg
í eðli sínu,
hver sér við fætur
hefir barn litið,
ófædd uppfædd,
en þó getin,
en innýflin urðu
af iðrum móður;
situr á stóli
sem henni hæfir,
með sveina skara
sig umhverfis,
maga hefir eingan
mikið þó étur,
er út um barkann
aptur strax geingur,
það hennar sveinar
þá strax gleypa,
þó *nettum búk* frúar

notist til hlífðar,
hvar með og líka
þá hér til styrkir
hennar kóngur,
í höll sitjandi.
Umhverfis sjóla
eru riddarar,
herlega prýddir,
honum er sómir;
gegnum hans hjarta
gumi einhver
ör hafði skotið,
ekkert þó saki;
hann á múr setur
hennar odda
og höll í kríng sveiflar
með horskum riddurum.
Tveir vökusveinar
þar taka á vara,
að við þær sveiflur
ei ofan falli
samband hans
og hýrrar brúður;
ómegð tíðum
á þau hleður,
því þá leyndarþíng hans
línspeingur erta,
hann lystugur verður
og leik uppbyrjar,
en frú lystug
forðast ei dans hans,
þótt hún af slíku
þúnguð gerist,
að óvissum tíma
verður léttari;
yfir henni
ýmsir sitja,
frá henni mörg börn
á mánuði koma,
en öll þó,
án þess hún sýkist.
Lætur hún misjafnt
lángt á milli,
orsaka aðrir
en hún sjaldan.
Hálfsagt er varla
af högum þeirra,
skal þó ei þar um
skvaldra fleira.

577.

Hver er skepnan hentuga
með háar eikur,
þá orma bani lýði lúrar,
lifnar og blómgast þess náttúra?

578.

Hver er snótin halalaung, á haus er geingur,
gemlur ber í götum rata,
gerir vinna til ábata?

579.

Hver er spjátrúngur
spora léttur,
brotinn af Ýmis
beini minnsta,
sé honum vel stýrt,
sýnir hann mörgum
ráð, ræður manna
og réttlætis götur,
tíma tal og tíða rásir?

580.

Hver er sú ambátt,
er hleypur mest bundin,
hún víngsar höndum,
en hefir þó eingar,
aflar og eyðir
agna tölu,
hálfu meir en hundrað,
á hverjum degi.

581.

Hver er sú ambátt,
sem allmörgum þjónar
og heiti á saman við
hirði sauða,
fylgir hún flestum

fram til grafar,
næsta nytsamleg?
Nú er sem sagt sé.

582.

Hver er sú ambátt,
sem tyggur gángandi,
hún malar mjöl
mönnum óæti;
hún kveður bezt,
þá kennir harðinda?

583.

Hver er sú balsams
blómlega lilja,
sem blaktir í mundum
blíðra sjáenda,
opnaður verður þá
ylmur hennar
og drífur burt hrellíng
hyggjulanda?

584.

Hver er sú bjartleit mey,
blánkar á lín,
ber með sér sonu
býsna marga,
að hverjum verður
aldrei léttari?

585.

Hver er sú borg, sem hefir sorg,
hlýtur vind að geyma,
fer á sund á flatri grund,
flýgur yfir heima?

586.

Hver er sú brúður
brjóstheil að marki,
forkunnar dæileg
í fannhvítum skrúða?
Séð var hún eitt sinn
á sjónardals heiði,
lypti sér einatt
og lék á bendíngum.

587.

Hver er sú dís
í húsi fríðu
inni, er situr
út þótt gángi,
þegar höldar
hana finna
hýreyg hún verður
og vefur þá örmum?

588.

Hver er sú drós,
sem hentugust er að hafa við ljós
eitt hefir hún auga,
sem á stenzt við munn,
er hún til endanna sívöl og þunn;
fæðan, sem hún neytir
fer eptir daus,
með frammjóan haus?

589.

Hver er sú eik
af jörðu vaxin,
tólf hefir tágar,
tvær mjög digrar,
eikin þessi
er hol innan,
liggur þar í
líf og dauði,
kvíslar tvær
eru á henni ofan,
sitja fjórir
sveinar á hverri,
yfirmann hafa þeir
einhvern fjögra,
eru samlyndir
alt að vinna;
börk eru þeir að
búa til henni,
brendur er sá
af bezta gulli;
borg er lítil
á henni ofan,
þá hafa smíðað
þrír meistarar;
göt eru *tvö*

og gerð með listum,
gluggar tveir
og gler með steinum.
Enn eru tvö göt
báðum megin,
ilt og gott,
þar innum geingur
og út aptur;
um dyr borgar
eru dregnir
naut og sauðir,
svín og geitur,
sjávar fiskar
og sæði jarðar.
Ullar sprettur
akur á henni,
ýmsum litum
er þó vaxinn.
Nú meiga rekkar
ráða gátu,
sérhvern púnkt,
með sönnum greinum.

590.

Hver er sú eik, sem hefur hundrað greinar, og á hverri grein tólf kvisti, og á hverjum kvisti fjögur hreiður, og í hverju hreiðri sjö únga, sem bera sitt nafnið hver?

591.

Hver er sú eik sem opt er bleik,
ávöxt lítinn færir,
fer á kreik með fiman leik,
fljótt sem hjólvagn væri?

Tvídyruð er og trúðu mér,
tíðum mætir hnauki,
tvennar ber hún tuttugu hér
og tennur fjórar að auki.

Fætur þrjá hún fetar á,
fjórum meður húnum,
bera má sú, kynja kná,
kross á brjóstum lúnum.

592.

Hver er sú ein með annari á nöfn,
á hana margur grínir,
kerlíng fór í kvika höfn
kvikfé tók úr víðri dröfn,
liggur hún kyr þó löðri um hennar trýni?

593.

Hver er sú eina
sem um gerir reika,
dæileg mjög,
en dökk þó stundum,
þénar allmörgum
til þeirra starfa,
gleður fyrða,
og gefur tíma?

594.

Hver er sú eitt sinn fædd
en ei dáin,
er enn í heiminum,
en lifir ekki?

595.

Hver er sú ekkja
í einhýsi býr.
hún er aldrei glöð,
nema þegar gestir koma?

596.

Hver er sú ferskeytta freya,
henni fylgja þrjátíu meyar,
og þeir tveir þrælar,
sem hana vilja tæla?

597.

Hver er sú fjöl, sem liggur ætíð í vatni, en fúnar þó ekki?

598.

Hver er sú frunsa
fallega ofin,
yfir sem heila
Ýmis er vafin,
merkileg er;

þá menn hana líta,
þakka þeir drottni
þýðan sáttmála?

599.

Hver er sú frú,
er fer um löndin,
marga fræðir
en mál hefir ekki?
Hyggnir jafnan
hana spyrja
ýmsra hluta
umvarðandi;
hjálpar hún tignum
til hárra valda.
Við alla ræðir,
er aðhyllast hana,
bragna lægstu
sem buðlúnga snjalla:
hún mun á ferðum
til heims fjörbrota.

600.

Hver er sú fríða,
sem fyllir sig á holdi manna?
Undan sér rekur hún
eina þernu,
aptur og fram,
í ýmsa króka.

601.

Hver er sú frú,
sem fyrðar eiga,
ættuð úr jörð
og utan af ægi?
Drífu hún vekur,
og duglega frísar,
hvílir sig laungum
hjá höldum víða.

602.

Hver er sú frú,
sem fyrðar elska,
úr beini einu
ægisdýra,
og fögrum skrúða
úr fylgsnum jarðar?
Síðan skírð
í sjóðandi vatni,
fær hún sama nafn
sem bókin bezta.

Fæðu þarf hún
af foldar hári;
skartar þá vel
svo skatnar una.
Fyrir sinn fríðleik
hún fær að þola,
mannsal opt
á mannafundum;
þarf hún þó aldrei
þrældóm líða.

603.

Hver er sú frúin
fátæklega,
sem naumast getur
gat sitt hulið,
hana ásækir
holur karl framan,
digrastur ofan
með dáfríðu skeggi?

604.

Hver er sú frúin fríða,
hún gjörir eptir gestum að bíða,
þegar hún er full,
þá er hún dýrari en gull,
þó eru þeir margir,
sem henni hverfa frá
og hana vilja ei
augunum sjá?

605.

Hver er sú fædd alklædda,
sjá hana tveir,
taka hana fimm,
tíu svipta hana fötum,
rista rauf á enda hennnar
og gjöra úr henni pilt;
er þrag hennar svo dýrmætt,

að það geingur um öll konúngs
borð?

606.

Hver er sú girðíng
gerð af vatni,
sem fornöld eingin
fór í gegnum;
var seinna upplokið
með trélykli
svo fór þar um
fjöldi manna?

607.

Hver er sú harðráða
húsfrú, aldyggva,
sem eingan girnist, utan sinn
eignarmann rétta?
Hann girnist hana
með hökugróðri;
gerist þó einginn getnaður
af gamni þeirra.

608.

Hver er sú hástaung,
með hýrlegum faldi,
merg ber magran,
en mjög feitt er næfur,
vex hún af vatni,
en hjaðnar af eldi?

609.

Hver er sú hetja
hæst á fjöllum,
fullgóð í fjúki,
fylgir hirðurum?
Kunnáttu kónga
kreppir sjónlausa.

610.

Hver er sú hin fagra borg,
hún er ekki raptamörg,
þeir eru ei utan þrír,
góður er í henni hlýr,
hún er þakin veggjalaus
og víst með eingu torfi,
stendur vítt um hauðurs hríng,
margur á hana horfir?

611.

Hver er sú hin fagra frú,
fald upprétttan hefur,
ofan til á auðarbrú
um sig bálið vefur?

612.

Hver er sú hin fagra jómfrú, er tveir jafnaldrar sáu, fimm misjafnir faunguðu, tíu bræður klæðflettu, og sem þeir höfðu sært hana og svipt sínum meydómi, varð hún að niðurlútum dreing, en sem fóstra hennar gaf henni svarta ferðaskó á fæturna, mé hún svo mektugt, að það gekk um öll kóngsborð?

613.

Hver er sú hin ferhyrnda kista?
Henni verður upplokið,
en aldrei eins aptur látin.

614.

Hver er sú hin fríða,
á fróni situr hauka,
og bein manna
fyrir innýfli brúkar?

615.

Hver er sú hin fríða,
er finnst í hafvíkum?
Ber hún skrúðklæði
með skautafald háan,
býður auðugum
brauð og klæði,
en fátækum
frá sér vísar.

616.

Hver er sú hin mikla höll,
hefur mikinn grundvöll,
stendur í henni stólpi stór,
á þeim stólpanum eru tólf tröppur,
en í hverri tröppu eru fjögur
breiður,

en í hverju hreiðri eru sjö úngar,
heita allir eitt?

617.

Hver er sú hin mjóa
með mörgum snerlum,
duptkorn lítið
dregur hún að sér,
smakkar hún líka
smáa hnappa?
Grand trúi eg hún geri.
Gettu hvað hún heitir.

618.

Hver er sú hin ófædda mey,
taka á henni tíu,
bera hana ekki færri en fimm,
skera gat í endann á henni,
gera úr henni pilt,
það er svo mætt, sem hann mígur,
að það berst út um öll lönd?

619.

Hver er sú hin siðuga frú,
sem er dauð; í greinum
við þig talar vellabrú,
veiztu hvað hún heitir nú?

620.

Hver er sú hind dúks,
hvergi sem bærist,
þess vísasta mannvals
verka stofa?
Drekka þar þjóðir
dæilegan
sætasta drykk
undir sólartjaldi.

621.

Hver er sú hjá oss,
sem heitir eptir
blómlegum fiski
í blóði Ýmis?
Saman er njörfuð
af Svelnis hársrótum,
margopt sig fyllir
marðar af lokkum.

622.

Hver er sú hornótta hirzla,
sem ekki verður aptur lukt,
eins og hún var með fyrsta?

623.

Hver er su hríngskorð
í heimi mektug,
að henni leita
allar þjóðir,
kröptugt kynferði
kvendið hafði,
þá að völdum sezt
víkíngum náði:
giptist hún snemma
görpum fullþroska.
alt eins konur
kærar hafði;
fótspor þó hennar
finna vel lýðir,
í jörð og á
út um heiminn:
fjöllum hún ruddi
svo féllu í sjóinn
og elífanta krapt
aktaði lítið;
kónganna veldi
kunni hún deyfa,
kom þeim svo til
að krjúpa og lúta?
Eigi er sú dáfríð
drós meðal manna,
þó krapti hennar
þeir krjúpi fyrir.
Gert var þetta
að gamni sínu,
gættu því að,
hvað gilda mun.

624.

Hver er sú höll,
sem höldar sjá
ei með sög né eggjárnum
*innan smiðuð?*

Var ei grjót, torf,
né timbur neitt,
en alt loptkynjað
efni hennar.

625.

Hver er sú höll um víðan völl
vönduð, há og breið að sjá,
hulin öll með handarmjöll,
húsin smá í kríngum stá?

626.

Hver er sú kerlíng
sem krapt hefir í tönnum,
gerir sér götu.
geingur hana einginn;
tilstilli þarf hún
tveggja systra,
fer um fold víða,
þó fót hafi eingan?

627.

Hver er sú kona,
kend við hljóðfæri,
er árlega kemur
í orlof sitt híngað?
Syni þrjátíu
af sér hún fæðir,
einnig líka
eins margar dætur
baldstýrug reynast
börn hennar stundum,
fagna þó allir
fyrnefndu víti

628.

Hver er sú kyndug kæra,
í kyrtil úthverfum birtist,
felur ásjónu falin,
flakkandi beitir hnakka,
sveiflar i iðrum afli,
útsníkir sig úr flíkum,
handóð í hæru vindi
hoppar sem leikinn soppur?

Þ. Þ.

629.

Hver er sú laukaþöll
liðlega vaxin,
er hefir eitt auga
í höfði sínu,
tennur margar,
en tyggur þó aldrei;
passar hún ýmis
píkuklæði,
breiðir til þurks,
eða ber aptur saman?

630.

Hver er sú lángmjó,
hún hefur þann sið
þegar karlmenn taka á henni
urrar hún við?

631.

Hver er sú með hríng í eyra,
hún ef brennivín kann fá,
drekkur pott og máske meira,
mígur strax og tóm er þá.

Ó. B.

632.

Hver er sú með svörtum vörum,
satt og logið mál til lér,
að sé nú rétt í flestra förum,
fátöluð, því mállaus er.

633.

Hver er sú með sætan són,
seg mér hennar heiti,
gerir bæði gagn og tjón
garða yzt við reiti?

634.

Hver er sú mella
á mjallhvítu bjargi,
haukar elta hana,
hún fekk af því bana?

635.

Hver er sú mey
af mönnum fundin,
gáfum með prýdd
og listum ljósum?

Teikn í andliti
teljast þeirrar
með litfögrum rósum
líka stundum;
sífelt talandi,
túngu með einga,
en tönnur hefir
svo tugum skiptir;
garnir útvortis
get eg að hángi;
fótum með þremur,
fær þó ei geingið.
Hrærandi fleinn
stendur hennar í kviði,
málinu tapar
ef má hún ei hærast.
Kulda ef líður,
kann hún ei ríngla;
er henni því
af tré gerður
kastali,
með kynja útflúri,
eptir því sem spekíngar
upp á fundu.

636.

Hver er sú mey
með hári fögru;
hennar nafn er af
himneskum eldi,
líka einnig
af landi smáu,
fellir þó ellin
fríðleik hennar?

637.

Hver er sú mey,
sem fædd er alklædd,
horfa á hana tveir,
taka hana ekki færri en fimm,
tíu rífa af henni klæðin,
skera gat á enda hennar
og gera úr henni pilt?

638.

Hver er sú meya,
sem mörg ár skal þjóna,
skrautlega búin
skartinu dýra,
fríð er ásýndum
og fögur að líta,
samt þarf hún einhvern
sér til aðstoðar.
Sú hlýtur vera
sífelt á róli,
hvergi þó hrærir
hún sig að heiman,
nætur sem daga
drósin má vaka,
og sífelt iða,
en aldrei sig hvíla.
Sínar hún tíðir
sýngur vel fagurt,
og gjörir tilvísa
hvað glenskonu líður,
mörgum er hagur
að hennar nærveru,
fleiri á vini
en fáa hatara.
Samlíðan hefir
sú hin merka
með hjóla haukflugi
og hölda líkama.
segir hvað líður
systkinum tveimur,
er furðu ólík
flýa hvort annað.
Á hana lagt er
aldrei að þegja,
mæðir þó eingan
með sínu hjali?
Falda bið eg hrundir
og fleinatýra
glögga að ráða
gátu mína.

639.
Hver er sú mjóa,
er hefir munna tvo
en maga eingan,
kemst hvergi kloflaus
en kyssir marga?

640.
Hver er sú mjóa
með lánga róu,
hefir harðan haus,
hökuskegglaus,
siglir með seggjum
sunnan úr löndum;
fer beinastan byr,
liggur þó grafkyr?

641.
Hver er sú mær, á vindum vóð
vafin æsku blómi,
en í valstrandar starfi stóð,
strákur í aldurdómi?

642.
Hver er sú mær,
er menn únga gleður,
smábörnin græðir
og smiðunum þénar;
vísar hún líka
veigaskorðum
veg gegnum dökkar
villimerkur?
Kennivaldsstétt
hana kæra hefur
og veglegt stundum
velur sæti.
Í fornguða fósturjörð
finnst hennar heiti,
mærinnar,
og máttu nú ráða.

643.
Hver er sú mær
er mælir andvana,
deilir þegjandi
*og* dæmir án orða?
Maka sinn dauðan,
mark og réttindi,
ber hún jafnan
á baki sínu.

644.
Hver er sú mær,
mjög lýðum kær,
hana bera tíu bræður,
talar hún hvorki né hlær?
Klappar hún og kveður,
klæðnað eingum meður,
margur líður á landi,
leikmaður hefir í bandi.

645.
Hver er sú, sem hjá mér hvílir,
hún er ber og ekkert skýlir,
útlent blómstrið öðlast getur,
alt það steikir, sem hún étur,
hampað er henni á Hornströndum
hún er gjörð af vatnatröðum?

646.
Hver er sú snót, sem gadda ber
garpa þjáir hendur,
lykil þarf en ólæst er,
opin gjörvöll stendur?

647.
Hver er sú snót sem halan dró,
hljóp um tún og ofan að sjó,
upp um grund og inn í kró,
um hana eg um kvöldið bjó?

648.
Hver er sú sólin svarta, se
einga gefur birtu en varma nægai

649.
Hver er sú státlega stjarna,
sem salsæti heldur,
nóglega vafin
nýrna reyfi,
þegar það þrýtur,
þá er hún liðin?

650.
Hver er sú stúlka,

sem ein býr í húsi;
fjórir eru gluggar
á fylgsnum hennar;
margir gleðjast
við útgaungu brúðar,
þó er hún kærust
kvöld og morgna?

651.

Hver er sú únga,
skrautklæðum hlaðin
með skautafald hávan;
af hennar inníflum
öldúngar drekka,
en smælíngjar
smakka það varla?

652.

Hver er sú vambargylta,
hún hugsar ekki um pilta,
eina hefir hún tönn í haus,
þó er hún líflaus?

653.

Hver er sú vala,
sem veltur um bala,
á fjórum er hún fótum,
fyndilega skjótum,
konur hana keyra,
kann hún ekki að heyra,
sætur við hana sýngja,
sjálf kann ekki að hríngja?

654.

Hver er sú vél
um viðlendan hnöttinn,
ei gjör af málmi
né mistilteini?
Hún tafarlaust starfar
og stöðvast ekki,
svo ára tveimur
tugum skiptir.
Í henni myndast alt,
er manna hendur
mundu geta gert,
og margt það,
er manna hendur,
ei megna neinn veginn.
Ei svo stór
sem egg álptar,
og ólík því
að öllu leyti.
Aldrei uppdregin,
eins eg klukka,
né knúð af eldi,
vatni og vindi.
Ef hún í iðjunni
augnablik tefur,
úti er um verknað.
Enduð er gáta.

655.

Hver er sú víða
breiðleita og brúnsíða,
sorglega stynur
í sal örendra;
fleingd er með hverju
fjórtánda dægri,
ákaflega
með einu barefli?

656.

Hver er sú voklynd vera,
vær gefum orðstír kæran,
heima sæll helgidómur,
hnjaskast við ferða pjaskið;
seld var óséð um aldur,
siðlát fékk marga biðla,
firtist fáræn við ertíng,
flýði burt, kom ei síðan.

Þ. Þ.

657.

Hver er verkþræll,
sem að vinnu stendur,
mjög dýrt metinn,
en misþyrmt stundum,
troðinn og barinn
svo titrar af ótta,

þar til hann vísar fram
verkhyggni manna?

658.

Hver er það kvennkyns,
er kóngum þénandi
friðhelgi flytur,
þar fossar úr æðum
lyfrauður lögur
lymskum til fæðu?
Tvær eru nefndar
tilverur hennar,
báðar brúkaðar
bifurs til vagna,
fæst henni fæða
af færlínu sagga,
er þrátt gerir leita,
að Þórs mjaðar grunni,
fylgir með fleira
Freyu til matar,
æsíngar funi
að almanna rómi.

659.

Hver er það með þétta hlekki,
þetta mun auðráðin spurn,
um helgra tíðum húsa bekki
hoppar og slettir sínu í hvurn?

Ó. B.

660.

Hver er það, sem ekki er bróðir minn, ekki systir mín, en þó barn móður minnar?

661.

Hver er það sem hleypur dauður
heims á láði,
optast hraður, aldrei glaður,
eins og sérhver lifandi maður?

662.

Hver er það, sem skrýðir skrúð,
skötnum fyrst ónýtur?
Útbúinn með horn og húð,
húðum sundur slítur.

663.

Hver er það, sem úti er
og alt eins inni,
alstaðar í sama sinni?
Svaraðu þeirri spurníng minni.

664.

Hver er það, sem úti er
og alt eins inni,
úti er ekki að því sinni?
Þú átt að svara spurníng minni.

665.

Hver eru fánýtust
fjögur kóngaríki,
liggja þar undir
lönd tvö og fimtíu,
þar má telja
með tegundum fjórum,
tvö hundruð borgir,
brestur á átta?

666.

Hver eru hjón,
heilla vinur,
varla börn þeirra
verða talin,
þau samt sem áður
setja þeim reglur,
laga undir þeirra
lifum vér vængjum?

667.

Hver eru þau fimmtíu og tvö,
komin úr löndum;
þau eru tekin með tíu á höndum,
þau eru sett með mislitum röndum
og þau eru opt í þrætum vöndum?

668.

Hver eru þau fjögur fuglanöfn, sem þú berð á þér?

669.

Hver eru þau fjögur mannanöfn, sem þú sérð út um gluggann?

970.

Hver eru þau hjón,

er hafa víðar farið
en öll önnur?
Finnast þau jafnan
en forlíkast aldrei;
ræna þó hvort annað
ríkinu bæði.

671.

Hver eru þau hjón, er skilja á kvöldin en koman saman á morgnana?

672.

Hver eru þau ljós,
er loga jafnlega,
og eingi slúðviðri
slökkva kunna,
hver við daggarskúr
daprast eigi,
tendrast þó hvorki
af tólg né lýsi?

673.

Hver eru þau skjól,
sem eru eins og hjól
og hafa mannabein fyrir sinn há-
stól?

674.

Hver fer á móður maga,
mjór neðan, búkdigur,
opt sýgur í sig svángan,
af því hún byrgir inni,
en þá er orðinn saddur,
uppþýtur vambþúngur,
ælir þá öllu aptur,
ýtar hans spýu nýta,
kóngar og karlar kaupa,
krakasáð hana fyrir?

675.

Hver gefur blindur
birtu öðrum,
hrósar á nóttu sér
heldur en degi;
sá fer mínkandi
úr mesta vexti,
er það eðla hnoss
öllu léttara.
Sá var skírður
í sköpun öndverðri;
hann mun alheimi
aldur leyfa.
Hann ber þess nafn,
sem hæstur er allra,
án munns og maga,
matar neytir þó?

676.

Hver hefir baulað
í heiminum kálfur,
sem allar þjóðir
enn til heyrðu?
Mikið hátt hljóð
má það vera;
víð er veröld
vinir góðir.

677.

Hver hefir talað með stærstum munni?

678.

Hver kann að hrópa
með hálsi eingum,
en sjálfkrafa ætíð
situr þegjandi;
með skarpri járntúngu
skilar erindum,
það í hæðum býr
og helgidómi?
Ef þú greitt ræður
efni þetta,
skal eg þig leikmönnum
lærðari kalla.

679.

Hver kann hlaupa
hafs á bárum
og yfir þær koma
svo ei sig væti?

680.

Hver mun sá mér greinist,
*mósmeygur, ófeigur,*

dulpatti, stélstuttur,
stángvaxinn, krángaxli,
totmyntur, mat henti,
mannfælinn, grannvælinn,
beinkollur, bón fyllir,
brag smíðar lagfríðan?

681.

Hver sinn stóra brynjar búk með
breiðu fati,
sem allra kaldast er um heima,
ylinn kann þó bezt að geyma?

682.

Hver spor koma flest á alþíng?

683.

Hverjar eru ávallt á hvítum klæðum á vetrum en dökkvum á sumrin?

684.

Hverjar eru hreinar meyar
hvítfaldaðar,
aldrei nema í vindi vaka,
og voða gamma stundum blaka?

685.

Hverjar eru tennur,
sem tyggja jafnan
óæta muni,
en einga fæðu,
þær vaxa í höndum
en ei í höfði,
tyggja saman tvær og tvær
og tittur á milli?

686.

Hverjar eru tvær
með heiti sama,
sem lausar og fastar
leika í einu;
fylgir þeim eptir
flestra skepna
íbúðar nafn,
og allra manna?

687.

Hverjar eru völvur þær
á valstöðvar hornum,
blakkar við öfund,
bjartar við hylli;
kynja smágeingar,
klæðberar stundum,
bit er þeim einatt
bana tilræði?

688.

Hverjar systur hafa fætt sína eigin bræður?

689.

Hverjir brúka skarn fyrir skart,
skunda á milli sala?
sveinar þessir segja margt,
en sjálfir ekkert tala.

690.

Hverjir bræður hafa jarðað föður sinn ófæddan?

691.

Hverjir eru hyrníngar þeir
á fjöllum skríða,
í runnum ríða,
við röðul iða,
smjúga stein,
blóð og bein,
er bágt að miða
furðu gnæfir,
andar æfir
í þeim hriða,
skrykkt er þeim til skriða,
skepnur og menn þeir kviða?

Þ. Þ.

692.

Hverjir eru seggir
þeir er saman búa,
með augu tvö
og eitt nef báðir?
Á þeim er gleði
augljós blettur,
innýfli þeirra
er ekrublómi

og sjávar innbúa
svitadropar.

693.

Hverjir eru þeir fimm bræður, er fara hver í annars föt?

694.

Hverjir eru þeir sendisveinar. er hafa skarn fyrir skart, segja margt, en skrafa ekkert?

695.

Hverjir eru þeir steinar, sem gróa á grundu, hafa gáfur fram yfir alla hina, en með tímanum hrörna þeir og verða loks að moldu?

696.

Hverjir eru þeir tveir bræður, sem éta hvor úr öðrum?

697.

Hverjir eru þeir þrír hlutir, sem telja má óseðjandi?

698.

Hvern eg frá í kletta gjá,
á kynja háu fjalli stá?
Spýu þá hann spjó sér frá,
spjallast sá hún fellur á.

699.

Hvern veiztu jafnframt
hafskipum renna,
sem eigi skín sól á
né önnur birta,
þurfandi hvorki
föt né fæði,
af öllum auðséður.
en af eingum fundinn?

700.

Hvernig flutt var yfir á
úlfur, lamb og heypokinn,
ekkert granda öðru má,
eitt og mann tók báturinn?

701.

Hvernig geta hálfir tólf verið sjö?

702.

Hvernig má skrifa 200, að eins með tölustafnum 9?

703.

Hvers er eyra,
sem að öllu hlerar,
og svo glögt auga,
að alt skoðar,
eða það hugskot,
sem alt kann vita,
hvers að máttug hönd
megnar öllu?

704.

Hvers má sízt án vera við hverja máltíð?

705.

Hvert er band seigast,
þótt sé ei hjá mörgum,
sómir það meir
en sjálfar gullfestar,
en ef það slitnar
alt í sundur,
emjar við það
allur heimur?

706.

Hvert er minna en mús,
hærra en hús,
dýrara en öll Danmörk, ef það
feingist ekki?

707.

Hvert er það bein
af brúði ódáins,
með einu auga
af ýtum gerðu?
Brögnum þykir það
hús við annir,
ómissandi,
þá ýmsu farga.

708.

Hvert er það dýr á baki ber
byrði mikið þúnga,

hlotnast kjöt, ef hefir smér,
hjartað geymir túnga?

709.

Hvert er það dýr í heimi,
harla fagurt að sjá,
skrýtt með skrauti og seimi,
skreyti eg þar ei frá?
Á morgna með fjórum fótum
fær sér víða fleytt,
en gár þó ekki greitt.

Þá sól hefir seinna geingið
í sjálfan hádegis stað,
tvo hefir fætur feingið
frábært dýrið það,
gerir um grundu renna,
geysi hart og fljótt,
og fram ber furðu skjótt.

Þá sólin sezt í æginn
og sína birtu ei lér
dregur á enda daginn,
dýrið geyst ei fer,
förlast þá að flestu,
fætur hefir það þrjá
og þrammar þúnglega þá.

710.

Hvert er það dýr,
sem hefir tönn skarpa,
og geingur á henni
um grundir sléttar,
treður sundur aldin
og ilmandi blómstur,
eyðir öllu,
þar sem opt er á gángi?

711.

Hvert er það dýra,
hefir horn fjögur,
fætur einga,
án fæðu lifir,
hyggnara hverjum
heimspekíngi,
hefir þó ei önd
og einga vitund;
einatt það stendur
eða liggur,
málugt í björtu,
í myrkri þögult;
rekur heipt og harm
hölda sonum,
grát og gleði,
grennir dægur?

712.

Hvert er það fagurt himinsmíð,
hlýrnir ber þann vottinn,
sem ekki skapti í upphafs tíð
almáttugur drottinn?

713.

Hvert er það fánga
forstórt herbergi,
læsing það hafði
af litfögru vatni,
upp var því lokið
með lykli fáséðum,
sem bezti smiður
búið til hafði?
Af tré var hann gerður,
það tjáðu mér bækur.
Flett var upp lási
að fángahúsi;
voru þá dýrin
drifin af krapti
inn í þá stofu,
sem opna var búið,
grimmur veiði —
gerði það maður
drápgjörnum meður
dýra hundum;
þó sluppu dýrin
þaðan í burtu,
en jagararnir
út komust eigi.
Segðu mér maður
hvað svoddan þýðir,

þá muntu hljóta
hylli manna.

714.

Hvert er það fiðrildi,
fer um alla heima,
hefur vængi
og víða sveimar,
um undirdjúp öll
og óskapnað?
Það heptir ferðir
og fælir marga,
fellir títt
svo fá af því slys,
en ráðsettum
allsjaldan bagar;
varðveitir þjófa
á vegum þeirra,
það gefur næði
góðum mönnum,
en óráðvanda
espar það tíðum,
alt hold það svæfir
sem er á jörðu,
og náttúru alla
yfirbugar,
en þegar röðull
reisir um himin,
flýr það til húsa,
fylgsnis að leita,
er þá þess hæli
undir rúmum,
þar kúrir það um daga
i kreppu þúngri,
en þegar sunna
sezt er við æginn,
fer það á gægjur
með flokkum stórum,
og herðir svo flug sitt.
Hvað er þetta?

715.

Hvert er það fífl,
er flýgur í lopti,
færist þó eigi
af föstum púnkti,
vísar þegjandi
vanda hluti
það svo víst einginn
þorir að reingja?

716.

Hvert er það flóð
með ferföldum straumi,
sem öld af drekkur
um daga og nætur;
ef of eða van
er af því drukkið,
er bráður bani
búinn án tafar?

717.

Hvert er það furðulegasta fángahús,
sem drottinn setti einn sinn fánga í?

718.

Hvert er það gersemi,
sem gefst öllum,
svo vel hinum minni,
sem höfðíngjunum,
gerist af steini,
geymist inni,
eyðir fegurð jarðar
og faxi vallar?

719.

Hvert er það gripa,
sem guð skóp eigi,
fótavana
en fullvel þó geingur,
öndu firt, eg veit,
en alltíð hrærist,
túngu það ei hefir,
en trauðla þegir,
segir mönnum
satt og rétt
tennur það hefir
en tyggur aldrei,
situr á sæng uppi,

en sefur þó eigi,
stundum í vasa
en stelur þó eigi;
sól það ei sér
en sýnir þó eyktir?
Sv. Sölf.

720.

Hvert er það grjótbúr,
sem gefur af sér regnskúr?

721.

Hvert er það hið fagra fljót,
er fíllinn sveimar inni,
lambið veður lágt á fót?
Leystu úr gátu minni.

722.

Hvert er það hús
í heimi miðjum,
með tólf pílárum
prýtt er það innan,
tvær og fimtíu
fylgja því þernur?
Maður og kona
misjöfn að litum,
elta hvort annað
innan um húsið.

723.

Hvert er það hús
með hörðum rósum,
sem hita gefur
í kulda stríðum,
þrjár eru dyr
á þessum ranni,
en opnar standa
einar þeirra?

724.

Hvert er það hús,
sem ferðaðist frægst,
og flutti í einu
alla foldbúa,
sem þá voru
og enn nú eru
og munu verða
alt til heims enda?

725.

Hvert er það hús,
sem hefir að geyma,
reisur ljótar,
og rokk kvenna,
heiðarveg Noregs,
og harmlæti barna,
hnjáliða spelkur
og horn lamba,
fallegt verk meya,
fríðhana vizku,
óréttvísi
og setpalla,
lok með háfum,
líka dragkistlum,
sverð og umgjörð,
með Satans einglum.
Á. B.

726.

Hvert er það hús, sem hleypur til
jarðar og hratt tilbaka;
stundum gjörir það státlega skvaka,
staðfest alt með gesti spaka?

727.

Hvert er það kamers,
komið og getið,
sem sinn í hvern tíma
situr inni í?
aldrei til samans
eru þeir báðir,
svo er því varið,
satt eg það mæli.

728.

Hvert er það klenódí
með konstum gert,
er ýtum sýnir
það ei sjálfir kunna

augum líta;
af mörgum hlutum,
saman er sett
til sældar auka?

729.

Hvert er það konu nafn. «Svo vilja allir»?

730.

Hvert er það matborð, sem hefur meira vit en allir þeir, sem sitja við það?

731.

Hvert er það musterið mæta,
sem mest ber heiður og prís?
Þess vildi eg verða vís,
Standa við það stigar,
sem styðja musteris hólf
tel eg þeir séu tólf.
Á grinda rimunum gánga
göfug hjónin tvau,
einatt ónáð fánga,
aldrei hvílast þau,
myrkva nótt né morgna
og mæðast ekki enn.
Geti þess góðir menn.

732.

Hvert er það nafn, sem flokkur manna ber?

733.

Hvert er það nauðsynja vopn
nýtir brúka,
neðan við það er
nýtur dreingur
gyrtur er sá
með graðúngs voðum,
honum fylgja þernur,
þær eru klénar,
með tennur í höfði
tólf eða fleiri,
upp þær lepja,
það af sér hann kastar;
en þá hann eldist,
að verður stúlku?

734.

Hvert er það stykki, sem fimm tré eru í
látún að framan og naglar í?
Ráddu nú af því.

735.

Hvert er það stökk, sem reiðum veitir auðveldast, en óreiðum örðugast?

736.

Hvert er það tjald,
sem turnum er hærra,
víðara ummáls
en veldi jarðhnattar;
taugar þess ná
í metal og málma
og gegnum vefjast
öll elimenta?

737.

Hvert er það tré,
er tíðum hleypur,
með tuttugu götum
trúi eg það væri,
þar eru þrælar
þrír neðan undir,
þrýstin stelpa
þeirra á milli;
ef á henni er tekið,
öll hún þá kvikar.
halda þeir hana
harðlega að neðan,
fastri á milli
fóta sinna?

738.

Hvert er það tré
við Heimdals skjóma,
á hvert freyðandi
*ólga dynur*,

sem boði við sker,
en banar þó eingum?
Það fer svo víða,
sem fákur rennur,
og tærist svo loksins
tals í álum.

739.

Hvert er það tröll,
sem tyggur mat manna
bergmál berjandi,
sem brimóra heyri,
um hjólgadd hlaupandi
hvirfilförum
og fæðu forbetraðri
frá sér ryður?

740.

Hvert er það viðbit,
sem allir vilja eiga,
en einginn getur étið?

741.

Hvert er það þíng
með tólf blómstrum,
en í hverju blómstri
fjögur hreiður,
en í hverju hreiðri
sjö úngar
og ber sitt nafnið hver?

742.

Hvert er það þíng, þú gefur að gætur,
gerir það ómak sprundum,
hefir það bæði horn og fætur,
hendur ber það stundum?

743.

Hvert er þjálna þilhúsið,
það við flestum tekur,
hylur sálna herbergið,
heimsins álnum fráskilið?

744.

Hvert var hús
haglega smíðað,
er styttu hefir einga,
stóð þó í mörg ár?
Þess var rjáfur
reist fyrst hið efra,
en undirgrind skorðuð
eptir á, seinna.

745.

Hvert veiztu tré það
tólf með greinum,
þar eru á hverri grein
hreiður fjögur,
í sérhverju hreiðri
sjö eru úngar,
en einginn þar heitir
annars nafni?

746.

Hvort viltu heldur barnið blíða,
býð eg þér nú kosti þá,
það sem á gluggann gægist víða[1]
eða gaungunum í sem dvaldi þá[2]?

747.

Hvort viltu heldur
af hellunni hálu[1]
eða hángandi brunninum[2]?

748.

Hvort viltu heldur eiga hríngeygða orminn[1] eða sólbakaða kökuna[2]?

749.

Hvort viltu heldur eiga það,
sem í jötunni grét[1]
eða á hólnum hló[2]?

750.

Hvort viltu heldur eiga
það sem yfir um stökk[1],
eða ofan í datt[2],
eða eptir sat á bakkanum[3]?

751.

Hvort viltu heldur hángandi krángandi eða fult hús með meyum?

752.
Hylli bæði hals og vífs
hvílu gæðíng vekur,
þegar æðin opnuð lífs
unnum blæða tekur.

753.
Hirzlu sá eg eina
er hafði að geyma
efni samblönduð
aðskiljanleg,
tekin voru þau
af tveimur ríkjum,
himinsins dóttur,
er heitir náttúra;
lítast mér bæði
líf hafandi,
en hyrzlan sjálf
var hent og samin
af því hinu þriðja
þar frá skildu,
er leggur þolið
hinum líf hafanda.
Síðan var mér sagt
að samblands þessa
hálfur partur
hinn hundraðasti,
af mér sjálfum
átti að verða
dálitil deild,
en dulin þó heldur;
var mér starsýnt
á hirzlu þessa.
Efni hennar
var af Ýmis hrauni;
hluti sá eg
sem eg heyri kenda
við þann elzta stað
í Evrópu,
höfðu og læsta
himins lykla.
Hún var hverfulli
hlutum flestum,
fest og fáguð þó,
frumefni því
eldur, vatn og frost
sem ei fá grandað,
ekkert aldarmagn
því orkar lóga,
varanleika það
veitir öllu,
líflausu líkt
sem líf hafandi.
Fékk mér hirzlan
furðu enn stærri,
sá eg nú að dupt
samkynja henni
vafði hana skrauti
sem væri lifandi,
því er móðir mín
með sig prýðir,
þegar hún skartar
fyrir skyngjafa,
þá býður hann börnum
sínum hún brjóst gefi..
Tignaði þar sumt
túngan orðlausa,
er mannin hebreska
mjög svo glapti,
hann svo dæmdan lít
til hraklegs dauða;
blóð kostar hún opt
og hér blóðug sást,
málað hafði hún þar
mynd eilífðar,
fjórum sinnum,
en furða var mest,
að þúsundir þegna
með þegjandi slaðri,
eilífðar hugsun
opt svipti,
og hverjum þeim hlut
er í heimi finnst.
Hér var hægt að sjá
*hluta tálsmíðar,*

skreyttan annan lit
fyrir skoðendum,
fordjarfað efni,
þess frægð bar leingi,
helgidóms hurðar,
þess hyggnasta grams.
Ásján þess
er alt í fyrnsku,
er tvennar hrærðu trautt
tylftir hendi;
enn var hin þriðja
sú augað ginti.
lítið dulin, deild,
af dupti löguð,
kend við þann stað,
sem kallast af því nafni,
einginn átt getur
undir sunnu.
Af því var hún efni
sem elda drottinn
nettur net, af reið,
yfir náttbeð saurgan,
gyðju, gipta sér,
í glæp að veiða
ásamt hór,
og hér að leiddi
uppregin öll
til aðhláturs;
meina eg hlut þann
marghæfastan
þeirra er þreifar hönd
og þekkir sál,
berglífi sá og
bráðum fargar,
hann í blóði býr
og blóði út hellir.
Ráði nokkur gátu
svo rök til leiði,
öll er heyra henni
til heimildar,
met eg hann svo miklu
*mér* að hyggnari,
sem hægra er að binda
hnút enn leysa.
Fram lögð frá komin
framandi hendi,
af mér óráðin
mundi önnur slík.

754.

Höfuðs og fóta
eg fæddist vana,
féll þó mörgum
fremur í þokka.
Með höfði og fótum
helzt eg geðjast
maga þínum
ef mín þú biður.

755.

Illan sá eg örvaþór við auðarnönnu;
af henni fötin öll réð taka
og aldrei skilaði þeim til baka.

756.

Illur bani, bjargverja,
bjart með nef og hvassa tönn,
barna sala blindskerja,
beizlismél og freistni sönn.

757.

Inn gekk hann rauður,
út gekk hann snauður,
kínkar hann kollinum,
og þá liggur hann dauður.

758.

Inn gekk rauður einn um sinn,
út gekk snauður dreingurinn,
kínka nauðugt kolli vann,
klárlega dauður svo var hann.

759.

Innan höfuðið hefir í sér,
hljóðar eins og vargur,
rófan kjaptinn út um er,
af því neytir margur.

760.

Intu hvað að öll með sanni öldu dýr

hafa það, sem hverjum manni í
holdi býr.

761.

Í bókum ligg eg en læri ekki par,
lít þó svo grant til stafa þar,
að tönnin mín tærir þeim;
nóga á eg nafna í heim,
er narta í iljar á brautíngja hveim.

762.

Í dæld á hársmeyar holdi
hefi eg séð án efa
myndaðar margar standa
mænis hindirnar vænar.
Ein ber þó yfir hinar
alla prýði, má kalla;
hennar er siklíng sunnu
sanneigandi, ei annar.

763.

Í góðu lagi ef eg er,
eg get þína mynd þér sýnt,
en er gagnsær eins og gler,
ef eingu væri á bak mér klínt.

764.

Í hverju báru meyarnar
mjöðina til skemmunnar?
Það var hvorki með
höndum gert
né hamri slegið.

765.

Í méli og staf er mitt nafn séð,
munngát, klukknahljómurinn;
sjáist hánga sveppur með.
Seg mer hver er ráðníngin.

766.

Í nótt var eg í nálarhaldi[1],
ferðaðist eg um snarfugladali[2],
kom eg þar að sem úr var brostið[3],
ætlaði og mér að átta álnum og
fjörtíu[4],
en gisti hjá geirfuglum[5] mínum,
í gómloku huldri[6], gettu þess
maður,
fékk eg skinn[7] að drekka en járn
að éta[8].

767.

Í pörtum þremur piltur hér
passar saman spunninn;
höfuð niðri hefir í sér,
en halann út um munninn.

768.

Í sínu rúmi seggur hver,
sízt þó veitist róin,
háttaður undir höfði sér,
hefir geymdan skóinn.

769.

Í upphafi er eg ljós,
ofan mjó neðan digur,
svo verð eg alveg svört,
sveinslitnum get þó náð.

770.

Í ýmsan verknað er mér lætt,
öll hafa skipin þörf á mér,
án mín nýtt er ekkert klætt,
alkunnugt mitt heitið er.

771.

Í ýmsum myndum, ekki þjál,
allra þó með smæstum tönnum,
rífur bæði og stýfir stál,
stóran þarfa vinnur mönnum.

772.

Í öllu líki ílt og gott
einatt má eg gera,
en þreyngdu frá mér þá í brott
því ei án mátt vera.

Fleygðu burtu fremsta staf
finnst eg á hendi þinni;
hásetanum hlut eg gaf
hæsta á *vertíðinni*.

Tvo ef stafi flytur frá
fyrstu lögun minni,
orku sinnar ímynd þá
allir held eg finni.
Svb. Eg.

773.

Íngimundur og hans hundur
sátu báðir og átu.
Nú nefni eg hundinn
og gettu mína gátu.

774.

Jarðar fylgsnum úr eg er,
aldrei fagurleitur;
hefir ei nokkur not af mér
nema eg verði heitur.

775.

Karl á fætur fór um nótt,
flanaði út með geð órótt,
vit sitt lagði á vegginn hljótt;
vil eg þetta ráði drótt.

776.

Karl átti sjö hross í haga, drepur eitt og þá voru þau átta.

777.

Karl bjó í fjalli,
átti fjölda barna,
honum vaxa eistu
fyrir ofan enni,
hann er þess verri
sem hann lifir leingur.

778.

Karl er einn
kynlega skapaður
og hefir á flest lönd farið,
en eptra hlut ber hann
sér utan höfuðs,
og er hann þó eins laus alinn;
að vista kaupum vígir hann
vetur og sumar,
og verður því af tröllum togaður.

779.

Karl fór í kálfahús kerlíngar sinnar.

780.

Karl fór út um nótt, en þá hann kom inn aptur, nefndi hann kerlíngu sína með nafni og sagði: Nú er flóð. fjara.

781.

Karl fór út um nótt, og taldi fé sitt í bólinu og sá þó einga kind.

782.

Karl gekk inn á hallargólf,
hafði í hendi stafi tólf,
en á hverjum stafnum
húnana tólf
en á hverjum húni
kvistina tólf,
en á hverjum kvistinum,
laufin tólf,
en á hverju laufinu
laufblöðin tólf,
en á hverju laufblaðinu
teníngana tólf,
en á hverjum teníngi
teníngsaugun tólf,
en á hverju teníngsauga
agnirnar tólf.
Hvað voru þá agnirnar margar?

783.

Karl gekk út um nótt, og elti lambhúsið sitt í kríngum alt túnið.

784.

Karl gekk út um nótt og gerði það, sem guð gat ekki,

785.

Karl gekk út um nótt, og sá bæarlækinn sinn renna upp í móti.

786.

Karl hét ofan af kolli[1],
kerlingin undan landi[2].

sonurinn svipur eya[3],
dótturinni margur spyr að[4].

787.

Karl kom inn með hart og lagði á kerlíngar sinnar loðið og svart, þá linaðist karlsins hart, en vöknaði kerlíngarinnar loðið svart.

788.

Karl kom inn um kvöld og kvaðst hafa borið lambhúsið sitt yfir ána.

789.

Karl kom úr kaupstað, og skildi sálina eptir á veggnum.

790.

Karl kom út um nótt
og sá hann Kala[1] vera að pissa,
þá var hrókur
hálfdreginn úr brókum.

791.

Karl leit eg einn
kímilega vaxinn,
bar hann á baki
bönd sakaðra,
innýflum sínum
í öll þau festi,
jafnan hángandi,
hölda fé geymir.

792.

Karl sat á rárifjum sínum[1], kallaði á gómskellur sínar[2]: sigið út blóðbelgjum mínum[3], því hér koma tveir ígulkettir[4] neðan að og bera vogastykki[5] á milli sín.

793.

Karl sat undir fiskablaða, leitaði að því, sem hann vildi ei hafa, og bar það heim, sem hann fann ekki.

794.

Karl skar kú sína á enni, það var í henni tunna mörs, þó var einginn mör í enni.

795.

Karl skar kú sína á rófu, svo af fauk höfuðið.

796.

Karl skar sú sína
hvorki úti né inni
og ekki undir berum himni.

797.

Karl skar kú sína,
kvika uppfesti
át óborna,
aptur rann til sauða.

798.

Karl veit eg einn,
kominn frá útlöndum,
blekkilegur er hann
og í bragði grettur;
þrjá hefir hann fætur,
en fetar þó hvergi,
nema hann báðum sé
borinn á örmum.

Tveim hreykir höfuðlaus
hornum á bríngu,
með brettar króktennur
milli beggja þeirra,
maga hefir eingan
né innýfli nokkur,
etur þó allt,
sem í hann er látið.

Fæðunni ælir,
þá fullur er orðinn,
en undir eins gómfyllu
gubbar og tönnum;

[1] Kali er gælunafn á Ketill og er haft hér til að villa.

bein hans eru flest öll
úr bana Geirröðar,
lífgjöf marglitri,
sem lýðir kenna.

Brúðir að hyllast
úr baðmi gerðan,
og fiðra við tól þau
hann fóta ber milli;
hvikur um mittið,
hann knurrar og murrar,
meðan undir honum
er auðþöll að dúa.

799.

Karlinn meður kálfa fjóra kann ei vinna,
kemur hann við öll klæði manna,
kann sá tölu reiknínganna.

800.

Kemur hér fram
það kallast mætti
kvenna andvökur
og kvaða eyðíng,
hrygð ómálgra
og hjúa tregi,
kveða þó fæstir,
ef knör það brestur.

801.

Kerlíng ein á kletti sat,
kletta býr á stræti,
veginn öllum vísað gat,
var þó kyr í sæti.

802.

Kerlíng ein á koppi sat,
konan kemur við hennar fat,
hennar hland er haft í mat,
þó er tept fyrir hennar gat.

803.

Kerlíng ein í kjálkum hraust
kreppir að flykki gómanaust,
treglega það lætur laust,
lá við kyndil vor og haust.

804.

Kerlíng ein um bekki brýzt,
bragnar styrkja hennar mátt,
gegnum þraungar gjár hún skýzt,
gnægðar korní skirpir þrátt.

805

Kerlíng eina kunni eg líta,
kynja gamla þar á bænum,
mállaus er, en mönnum kennir
merkilega sér að haga,
úti og inni öllum stéttum,
eins við guð og náúngann líka;
hefir lífið hulið mönnum
og þó hrærast aldrei gerir;
lék eg mér við hana lítinn tíma,
lynti mér það sæmilega,
vegna tímans varð eg að hætta,
við hana skildi eg nauðuglega.

806.

Kerlíng hyrnd með kjapt víðan
kennist eineygð, rófulaung;
hún ef missir halann þann
hennar tapast verkin straung.

807.

Kerlíng skar karli sínum forna,
vetlínga úr nýu vaðmáli.

808.

Klædd er eg mötli
margbreytilegum,
líkustum því,
sem læðist með hvörmum
á skinnhrukkóttum
skalla Ýmis,
skapari minn
þá skeinkti mér verju,
og tók hana af úngum Krists
ofsækjara;
finna mig eingir
en flestir skoða;
brjóta þann margir,
er brestlausan kalla,
til að sigra mig

og sýna öðrum;
geta mín eingir,
sem gátu mín áður,
þegar minn er
möttull rofinn,
eg ríki þó
i ókomnum tíma,
og sterkust mót þeim,
er stara á eilífð.

809.

Knífur minn var í skeiðum, en nú er hann kominn úr.

810.

Knúði eg knémeið
um knör aldar,
þá var auðs bróðir
glaður ígultanna,
sendimey borin
mundilfara,
ættíngja sinn
með elju trygði.
Bar mig þar að
sem bragnar höfðu
fylkíngar miklar
færðar saman;
leit eg þar lund einn
í löð greyptan,
sá var riðtatni
um rót bentur,
mundu konur tvær
mann syrgjandi
i sögðum lundi
sæti hafa,
en í toppi trés
tannhvestur mjög,
holtskriði nokkur
hafði sæti,
sá er eld og unn
öslað hafði;
um lendvöðva var hann
læðíng gyrtur
af þykkum berki
þrymseilar hvals;
kom í gleipni þann
knapi lítill
úr höfuðhlíf gerður
hallinskíða,
með þjáníng þræls
í þykkari enda
og hestinn, sem fugl
við hreiður skilinn.
Nú komu þángað
nástrandar búar,
herjuðu á meið
og hann um feldu,
en brúðir fyr nefndar
báðar hertóku;
fór þá flatur
um fold að skríða
steingnúður stefnir
und storðar baðmi.
Við máli myrku
í munadölum,
mína gumar
gátu ráði.

811.

Knúðir um það keppa hér,
klæðum fá ei með sér skipt,
hver í annars fötin fer,
fram til þess þeim verður svipt.

812.

Kona gekk til kirkju,
hafði yfir sér skikkju,
henni fylgdi maltrog[1]
og galtrog,[2]
sýngjandi pípa[3],
gumlandi görn[4]
og getið þið börn.

813.

Kona gekk til sævar fylgdi henni einsýn bauga,[1] hljóðpípa[2] og heiðarrumpa;[3] hún sá valentirru[4] í læknum og óskaði, að þessi valentirra væri komin i sinn kutuluta,[5]

þá skyldi hún tuðra í kutuluta sínum.

814.

Kona velur konu lið,
kvikni sáð og falli,
mær hvar elur meyu við
mög á reginfjalli.

815.

Konúngar jafnt
sem kappar snjallir
ljá mér eyru,
litlum snáða;
þó mér einginn
öfund sýnir,
rart má það kalla
í ranni vinda.

816.

Konúngar og klerkar, ríkir og fátækir hafa neytt þess, þó hefir það aldrei verið á borð borið.

817.

Konúngur fann mann á vegi og spurði hann að heiti; hann mælti:
Kallaður var eg
í konúngs höllu
akur alvaxinn
og upprunninn reyr,
hús hávaxið,
humall á kvisti,
feldur af birni
og fagrar slægjur.

818.

Kóngs með nafni systur sjá
svipta auðnu grandi frá,
niðursettar höldum hjá,
hlaupa minna stræti á.

819.

Kóngur átti tíu smalamenn,
hann sendi þá í skóginn inn
að sækja þángað fénaðinn.

820.

Kóngur nokkur sendi senn
sextíu röskva smalamenn,
upp í skóginn albúinn,
allan að sækja fénaðinn.

821.

Kraptagóða konu eg sá,
kynstór fæðir börnin sú.
Margir hana fiplað fá
færri henni sýna trú.

822.

Krept liggur kyr hin tepta,
knúð til legs einatt lúðist,
kvolast af aur á iljum,
augum tilstoppuð þraugar,
farið um foldar hvera
fær hratt, þótt sjálf ei bærist.
örg við kjör ei hún syrgir.
allbezt þeim fara verst með.

823.

Kríng um alla Ísafold
einn á hausnum gekk í mold,
kjörin hans eg varla vil
virðum bjóða að eg skil.

824.

Krossburðinum einhver unir,
en hver þá, hún veit samt að
í tvent eða þrent, hún máske muni
mega detta fyrir það.

825.

Kvennsaman eg karl einn sá,
klæðlausan sem spýtu,
hold þeim voru eingin á,
opt þó niðri í matnum lá,
sköllóttur með skeggi eða strii
hvítu.

826.

Kviknaði eg fyrst
í krínglóttu húsi,
alinn þar upp
á innanstokks munum,
brauzt eg út þaðan
og brölti nokkuð,
ferðmikill varð eg,

fór því víða.
Féll þá yfir mig
feigðar möskvi,
klæðflettur var eg
og kviknakinn gerður,
brugðinn á bál
en brendur lítið,
í logheitri leiti
leingi bræddur.
þar með opt lagður
þríyddu spjóti.
Ýtt var mér í þann svelg,
sem öllum við kemur,
varð eg síðan
viðurstygð manna.
Enduð er nú
mín æfisaga.

827.

Kvíðir vetri, hver fyrir?
karls í letri getið er,
er í setri öflugur
okkar betri meðbróðir.

Lýst hinn lángi og liðmargi
lukku fángi höggdofi,
þótt Hildur gángi hart yfir
hann á slángri vefst fyrir.

828.

Kynn mér þá rós, er rennur
ríng, ókæl í forsælu,
kvikleg með hvítum hökli,
hrindir á skrúðann myndum,
draga þau sól í dögun,
dags um morguntíð vaxa,
eldist hann af að kveldi,
upp ljómast hennar blóminn.

Þ. Þ.

829.

Landsþjóð nokkur vopnlaus verst,
um veldið stríða allir menn,
kennivald með köppum berst,
kvennfólkið og almúginn.

830.

Lauk upp því sem leyndi krás[1]
lotin krubbu fleðan,[2]
glóðvolgt beð[3] á lindarlás[1]
lagði víst á meðan.

831.

Laungum geing eg liggjandi,
laungum stend eg hángandi,
laungum stend eg liggjandi,
laungum geing eg hángandi.

J. B.

832.

Lángvaxið leit eg dýr.
lifði við rætur,
ei var það ær né kýr,
einga bar fætur;
eina með nös,
eitt var þess höfuð líka,
melti sinn mat í haus,
mökkur úr nefi gaus.
Seg mér sjón slíka.

833.

Lánið heims er laungum valt,
líða það hef eg feingið,
á höfðinu um Ísa alt,
eg hefi frónið geingið.

834.

Leit eg á bekkjar bakka
blóðhús yfir dúsa;
óðu asnar fjórir
agna móður í gegnum.

835.

Leit eg á letursfhöfða[1]
lystugt klerka ból,
vildi eg víst fánga,
vafði mig griðungskápu,[2]
tildraði túnþekju;[3]
tókst mér þótt erfitt geingi.

836.

Leit eg átján læki standa línu á,
ýmsir belja ótt sem má,
at því himininn lék við þá.

837.
Leit eg drós eina
dæilega
yggdrasils asks
af ættarstofni,
hálsmeni búin
hún var skæru,
þó hlægilega
hegðun bæri,
rak hún í rump sér
rifna fæðu,
hafði hurð fyrir,
svo hrynja ei skyldi,
en þá hún hugði,
hægðar sér leita,
kastar hún höfði,
um kok uppseldi;
vinsæl má heita
vel mettuð gyðja.
Þú mátt ráða
þessi hvað heitir.

838.
Leit eg dýr í lund óþjált,
lýsti mjög af fegurð það;
jarðneskt er, en himneskt hálft,
hagleik mestum samblandað.

839.
Leit eg í ranni
reisulegum,
hlut einn hljóðbæran
höndum farinn,
saman settan,
sváslegt var smíði,
af undirstöðu —
efnum tveimur.
Annað var hinn fyrsti
girndargripur;[1]
unnið mundi hitt
af jötna slængi,[2]
er synir Börs
sundrað höfðu;
en lausum lim
lagnir til snilli,
apaldurs voru
ángar smágjörvir,[3]
létt á launsátrum[4]
lék naglvörður,[5]
svo að réttindi
raskist ekki.
Hefi eg nú hlut þann
heyrum kunnan,
í gátu leiddan
fyrir gumna sjónir.

840.
Leit eg limbura sætu
linburða, fulla ginum
fljótandi forða matast,
frá sér hann gefur hráan,
ótrauð á þeim ráðum
undan lætur að stundu,
ótt þó upp aptur sprettur,
eptir stjá svölun þráir.

841.
Leit eg menn, þeir leiddu hross,
létt við stóðu hér og hvar,
þeir á báru þúngan kross,
þú mátt geta, hvað það var.

842.
Leit eg ríta lunda sjö,
lokka báru snúna,
sérhver hafði seggja tvö
sefin ægis túna.

843.
Leit eg snót hún liggur ber,
lýðir stúngu hana á hol;
hennar nafn í hafinu er,
hríngur settur á miðjan bol.

844.
Leit eg standa landi á
listugt borgarsmíði,
veggjaþunn og viðafá.
var sú gerð af prýði.

845.
Leit eg tvo bræður

á landi naumu,
svipaða illa
með sídökka vánga,
en glampar þó
á gulltönnur þeirra;
þrifu valstrendur
þeirra í kjálka
og fyltu kjapt þeirra
með fæðu mjúka,
þá svo haukakleifar
harðfengar léku,
þar til seldu upp báðir
og sítómir voru.

846.

Leit eg um árdag
í loptstraumi gnæfa
kind fljúgandi
í kögri skýa,
nam hún staðar
svo náði eg henni.
Sex og átta
sinnum hafði
hlaupið sunna
hvelfðan boga,
síðan í kjalveg
settist niður
og týhraust
tók að varða
skervallarskíðis
skutla tvo
fyrir trölla magni
tveggja jötna,
um vegu þá,
sem válegir æða
Hrægleypir og Hlér
heita þeir fjandar.
Á hún sér líka
annan bústað.
Lok rekka vitum
lífs það heitir,
ef þaðan útflæmd
eitt sinn verður;
örlaga straumar
og æstir vindar
skekja þá húsið
skelfilega,
nöðrur innanvert
naga stólpa,
en hripuður heljar
harðgjör svelgir,
fagurt inni,
nema fáir þú
innbygt henni
aptur að nýu.
Hyggi nú rekkar
að huldri gátu
rósemd í
og ráði síðan.

847.

Liðamótamarga eg sá
meyu liggja krepta,
hnútur er þeim öllum á,
ei þó mjúkleik hepta.

848.

Liðugt togar ól við aml,
orkar að halda sessi;
við klukkulist og bjöllubraml
brúðurin kend er þessi.

849.

Liggur á grúfu og horfir upp nef.

850.

Liggur í gaungum
með laungum spaungum,
gullinu fegra,
en grípa má það einginn.

851.

Liggur í lág
og terrir fram tá,
ekki eru fleiri
en fimmtíu götin á.

852.

Liggur í ræfrinu
rángboginn karl;
*hann grípur þig í nótt,*

ef þú getur hans ekki fljótt.

853.

Liljan þráða lék við svein,
löguð úr glóðar forða,
í hennar maga hafði flein,
hún var þá að borða.

854.

Lista dreingir lána mér
leturgjörðir þýðar;
einnig við mig una sér
eikur og liljur fríðar.

Á máli hverju má eg til
meiðum veita branda.
kosta bezt þeim kunna skil,
kænn til munns og handa.

Að marardjúpi mér er steypt,
mín forlög það voru;
öldu fyltum ægi er hleypt
inn í klettaskoru.

Varla hvíldar von eg fæ,
velkjast má í förum
þar til hefi þrotinn sæ
þurkað upp að vörum.

855.

Líkama hlaut eg leiri af,
logi mér nýa krapta gaf,
í hæðunum held eg til;
kaldur veiti eg köldum yl.
Kantu að gera á ráðníngu skil?

856.

Líkama og sálarlaus eg er,
líkama og sál þó fángi,
endurnærast allir á mér,
ekki þó á gángi.

857.

Líkama tvo
eg litið hefi,
af seggjum snjöllum
saman vígða,
innýfli fljóð
þeim optast búa,
og lífsafl þar með
láta fylgja.

858.

Ljótan þussa leit eg
laungu nefi með.
Eingan verri veit eg;
hann veikir sumra geð,
fullur upp með fúla pest.
Hans þó spýu elskar öld,
og af henni nærist mest.

859.

Loðið eins og lambsskinn,
hvítt eins og kvíguskinn,
þó er ekkert hárið á því.

860.

Loðinn toppur í holu
leikur til og frá.

861.

Lofðúngar fjórir
löndum stýra
í sameiníngu,
því sællífir eru,
rósemd því elska,
en landstjórn ef sinna
innbyrðis heya
orustu og manndráp.

862.

Logn á milli lands og eya.

863.

Lyktargóður, þunnur, þéttur,
þefvís, beinn, hár, áleitinn,
svartur, ómóður, lipur, léttur,
lævísasti heilsu hvinn.

864.

Maður fór út um nótt og rak alt féð ofan í hann föður sinn.

865.

Maður gekk á sólardegi
um reit elju rindar,
hjá ránarjóðs barmi,
þar sem skatnar uppsetja
skeiðir álsráka.

Hlýrnis auga
var á ístindi miðjum,
en kári blés austan
af kembíngs býli
Fyrst sá hann dagfælis
fetabrokk pjakka,
sem drattaði lúinn
úr dúrskjóli manna.
Í því kom kethákur
af kárastigum,
með flugmundir beygðar
að fjölnis kvendi;
þá varð þeim bylt við,
sem braut æddi þvera,
varði sig þó
með vöðva rótslaungu;
fékk svo moldbyggir
flúið hornklofa
í mundkögli Ýmis,
hjá marflóar strindi.

866.

Maður kom að bæ og pissaði upp í nafna sinn.

867.

Maður kom á bæ og var spurður að heiti, og svaraði í vísu þannig:

»Nokkrir greina nafnið sitt,
nú með berum orðum,
en Hervör sótti heitið mitt
í haug á Sámsey forðum.

868.

Maður sat í brekku og var að birkja böll.

869.

Maður sat við ljóra
og var að dreingja saman
drafnar brynju,
hafði lóð snúna
í lauslyktum kjapti,
hélt með haukabrík
og hæfði auga.

870.

Maður sæll mér það tjáðu,
mildíng hver er sá gildi,
barinn og særður sárum,
sífelt með keyrum tíu;
húð hans óðum harðnaði
hann þegar mikillega,
rauðan lög saup á síðan,
seinast á kveldi einu.

871.

Margopt hleypur mönnum hjá.
mikið hefir í búknum þol,
mörgum níðist einnig á,
augað hefir í miðjum bol.

872.

Margt er smátt í vetlíng manns,
gettu sands;
en þó þú getir í allan dag
þá geturðu ekki hans.

873.

Margvíslegt mitt efni er,
en eðli mitt er jafnan það,
að óvörum eg að öllum ber,
einkum þegar náttar að.

874.

«Mál er upp að standa»,
sagði sá sem hornið klauf[1],
að vekja nauð
og binda handaböl[2]
við baksauð[3]

875.

Með honum snúinhaus mínum geri eg kytru handa honum bróður hvassnef, því ef eg geri það ekki, þá rífur hann alt í sundur.

876.

Með kjálkum fjórum karl einn er,
kjaptinn hefir eingan brátt.
rifin fimm sá rekkurinn ber;
ráða þessa gátu mátt.

877.

*Með þrjátíu* augum sá eg segg,

sér þó ei með neinu,
hefir til fæðis foldar skegg
á fjórum stendur greinum.

878.

Mellan dikar málsnjöll
mjallhvít um sitt drifsfjall,
með sann,
hyllist lítið heimsgöll,
hallar sér þjáð á svefnstall,
koddann;
dillar lendum leikfull,
lallar út um frónshjall,
stelpan;
kallar hátt með hljóð snjöll,
hvellan þegar hún fær skell
á endann.

879.

Mellan háa af mælsku þembd
marga hnúa á sér ber,
gerir skaða, glósar af fremd,
grjónum spýtir fram úr sér.

880.

Mestur á lopti eg optast er,
áður en lifnar faðir minn,
en aldrei mikið á mér ber,
ef að hann er stórvaxinn.

881.

Mey var manni gefin,
áður en hún var átta nátta
átti barnið ársgömul,
og dó áður hún fæddist.

882.

Mér að glansa er miður lént,
mun þó sjaldan ljótur,
orðið tjáist á mér þrent:
auga, haus og fótur.

883.

Mér sá starfsami af alhug ann,
iðjuleysínginn burt mig flæmir,
umbun því litla hefir hann,
honum því tíðum örbirgð dæmi;
eg flýg, þó vængjum ei er á
jörð neitt svo fljótt mér jafnazt geti,
eg hefi veröld í einu feti,
en þó læt eg mig aldrei sjá.

884.

Mikil frú um mittið þykk
móðu geymir staupa,
ofan í hana eptir drykk
ótal strákar hlaupa.

885.

Minn er ei til ferðaflýtis fótur
laginn;
utan brendur, innan þveginn,
á eyrunum stundum verð eg dreginn.

886.

Mitt er nafn úr kjapti kálfs,
klettur úr urðu hruninn;
þótt þú sjert stolinn, þá er eg frjáls,
þann geri eg okkar muninn.

887.

Mjúklyndur hófhár,
hjúklyndur vinbrár,
ljúfur lands,
viklyndur, kær, knár,
kviklyndur, orðfár
gæfði glans,
fnjólyndur, forspár,
fnjólyndur, misdár,
kom í krans,
hæglyndur, þelþrár,
þæglyndur, geðskár
draup í dans. Þ. Þ.

888.

Mjög er eg kaldur
í mínu eðli,
þó verð eg heitari
en hlutir flestir,
þegar menn vilja
hinir máttugu.
Opt er eg prýddur
útflúri miklu,
með myndum af mönnum
og mætum rósum,

optast sívalur,
opt þó ferstrendur.
Frá útlöndum kem eg
yfir hafið,
kosta penínga
kynja mikla.

889.

Mjög stór kirkja mikil og há,
er mestur bygði himna rex,
stór var í henni stólpi sá,
er stóðu á borgir tvennar sex.

Borgum þessum bygðust nær
bitar tveir með tíu ris,
kríngum hverja konur tvær
kunnu gánga opt á mis.

890.

Móðirin þegar fór í fat,
farfað mjallar blæu,
barn af kulda grátið gat;
gerðist skarð í nægju.

891.

Móðurlaus var manni gipt,
það miklar vanda,
sínum föður seimanipt,
það svo skal standa.

892.

Myndað hagleiks með fimi
met eg djásnið eina,
stendur mergs á miðhimni
mætir aðsókn fleina.

Það er kent við harða hlíf,
hamlar særing sprundum,
innibyggir í sér líf
ekki nema stundum.

893.

Mynduð er ein af mýrar jörðu
og magaslopp í keri hörðu,
fóstruð svo í kulda kofa,
kært er mönnum áður sofa,
hennar fagra höfuð líta
hún er öll með litinn hvíta,
allsnakin hjá örvanjótum,
utan skó á sínum fótum.

894.

Mætti mér í dag einn dreingur,
dapur lítt í fjúki,
ekki flýgur og ekki geingur,
er þó líf í búki.

895.

Nafn mitt hálft er við afl í smiðju og hálft ókrókóttur vegur.

896.

Nefndu mér hjón þau,
sem njótast um daga
alla, svo hvorugt
annars missir,
en skilnaður þeirra
skeður að kveldi,
svo þeim ei hlotnast
saman að hátta.

897.

Niður fastur einn sá er,
ærið víða fer hann,
hefir auð á hornum sér,
en höfuð ekkert ber hann.

898.

Nær er heimskínginn hyggnastur?

899.

Nær gjöra tennurnar tónunni mein?

900.

Nönnu gulls eg nafnið bind
nærri réttu hæfi,
hún heitir það, sem hverri kind
hentar bezt um æfi.

901.

Ofur lítil ein er mær,
eg fæ hana téða,
þegar hún í sig fylli fær
fer hún þá að kveða.

902.

*Opin stendur* ætíð ein

með ærið lánga róu,
túngan hennar temprar sein,
það tíðum verður sótt í stein.

903.

Opinn leit eg einn standa,
í var honum á hviki,
gyrtur með góðu bandi,
gluggar tveir þar á voru,
tveir stjakar héldu stórir,
stilli í þörfu starfi,
fylgir þessum lok líka,
laglega gert, eg meina,
tuttugu og fjögur höfuð
hefir það glóandi;
gátuna greitt má ráða,
geta þó allir varla.

904.

Opt á hrygginn er mér bylt,
opnuð til að liggja,
ef þú dyggur af mér vilt
uppfræðíngu þiggja.

905.

Opt eg brellinn er að sjá,
ei með hrellíng sáran,
þá löndum skellur liðugt á
lífsins fellibáran.

906.

Opt er troðið ofan í mig,
anda eg frá mér síðan,
ýtar láta hann upp í sig
og út um geiminn víðan.

907.

Opt gagnstúngin ekkja hörð
öðlast fátt til gaða,
hörkulega um búkinn börð,
börn þó sé að fæða.

908.

Opt það hundur hitta kann
hárs um sprund, við sérhvern
rann,
af því harðnar aflið þó,
af ber kjarna um land og sjó.

909.

Olík næsta erum við
þótt ýtar systkin kalli;
er mitt snjóhvítt andlitið
svo einginn finnst á galli.

En systir mín á brún og brá
er býsna dökk, eg meina;
næsta köld er hún mjer hjá
heitari er eg að reyna

Eitt fyrir öðru okkar flýr.
ætíð fylgi eg henni,
hún mig eltir, hvergi rýr,
þótt hvorugt sorgin spenni.

Aldrei bæði erum því
undir sama þaki.
Svona eru okkar forlög frí.
finnst ei enda taki.

E. Th.

910.

Oríkir menn og óþrifar
einatt mig veiða, en þó ei par
um feinginn sinna sinn,
fángi mig ekki fóstri minn,
fær hann um síðir gatnagað skinn.

911.

Ótal grefur ekru börn
í auga djúpu;
bitil mjúkan munni temur,
meinþolin í dans þá kemur.

912.

Piltur vængi hefir hér,
á hausnum vömb er skrítilig,
ef fóta hans milli farið er,
fá vill mat og hristir sig.

913.

Rann eg frá raupi[1],
rataði síðan í tólf fiska[2]
þar eptir fékk eg púngan móð[3].

B. G.

914.
Rassboginn og reimaður,
reyrður á halabroddi,
fugla jóð og flóðgarður
finnst hjá honum oddi.

915.
Rautt flaxar við rassinn svarta.

916.
Ráðið þið hvað eg rauðleitt sá
á Rögnis kvendi,
jó í morgun, þá eg þandi,
það lá niðri í Bakka landi.

Á það smíði listilegt
eg leingi starði,
einn þjóðsmiður grip þann gerði,
get eg hans líkar fáir verði.

Virðar kenna víða í sveitum
við hljóðfæri,
og við kinnar álma grera,
eins þar fæðu má á skera.

Við hljóðfæri fagra kenna
fjörupryði,
og það á hverju málma meiðar,
mat fram svinnum gestum reiða.

917.
Reið eg frá eldsenda
og urðar dýngju[1],
áði eg hesti mínum í teníngs auga[2],
náttaði mig á fjallskoru og hnífs rönd[3],
þar var mér gefið sverð[4] að éta
og skinn[5] að drekka.
Eg var að finna hana Grjótunni[6] mína
greifans dóttur.

918.
Reið eg um hraðfuglsdal[1],
kom eg þar sem úr var stokkið[2],
áði eg á vatni,
gisti eg á Gleðibakka[3],
mér var gefið járn[4] að éta
og skinn[5] að drekka.

919.
Réttinum fylgir,
rángindum glatar,
vísari en vitrir,
vonum fremur,
tuttugu og fjögur
talar sannindi,
þó þegjandi;
það eru undur

920.
Réttlátur bað ránglátan um eilíft líf og fékk það hjá honum.

921.
Riddara fimm eg röskva sé,
reka þræl með beran koll,
sitt að smala úr fjalli fé,
á flatlendi og ofan í poll.

922.
Ríkið mitt eg röskur ver
reglu held í plázi,
því er eg orðinn, sem þú sér,
seljum gulls að stássi.

Eina þarf eg hjálpar hönd
harðni rimman bráða,
ríkið heitir Höfðaströnd,
sem hefi eg til forráða.

923.
Rís nú ein ræðuklausa,
er rásar um gómabásinn.
leit eg fugl ofurlítinn,
lit hans eg kann ei vita,
gleikkuðu upp brúna gáttir,
eg gætti að skapníngshætti.
Vængi hann átti einga,
undra hátt flaug þó stundum.
*frárra valnum réð fljúga*

flóa yfir og móa,
vindinum hærra vendi,
og víðar en skýin líða,
af náttúrunni sá neytti,
náðuga svölun þáði,
af brunnum, er bráðir renna
og brjótast fram upp á móti,
fyrða það mætti furða,
hvað ferðugt hann vaxa gerði,
geima og grundaflæmi
gildlega hann upp fyldi;
stærðin hans stórum rýrðist,
nær stirðviðrin eyddu birgðum,
hörð fjúk og frost hann særðu,
ferð hans mjög náðu skerða,
dáðlaus með döprum kvíða,
dauðvona heim kom snauður,
lúður af lángri mæðu,
liðinn að mestu niður,
settist þar sæti átti;
sættist eg með að hætta;
gættu að gátuflóttum,
gátt hríngs, þær ráða áttu.

924.

Rollufiðurs rann eg sá
rétt með fjórum fótum á,
stóð, en ekki gengið gat,
gullskorð undir honum sat.

925.

Róa tveir með hark og hrikt,
heyrist byljaþytur senn,
lifnar dautt en leikur kvikt,
lógar auð en þvíngar menn.

926.

Rómutama, rauðlitað,
rekkum ama veitir,
Svafurlama biturt blað,
ber eg sama heiti.

927.

Saman bindur bræður tvo
biðlundaður snerill;
blaðhorn flugár beygir svo
að byrgist eggja ferill.

928.

Saman streingdir seggir tveir
við saur opt búa,
nætur sveingdir þola þeir
og þrældóms lúa. G. J

929.

Sat eg á dverga dýnu,
dýri var mér hlýrra,
barði hart með hörðu,
hrutu af rauðir litir,
leit eg þoku líða.
ljóst með báðum hliðum,
kendi eg hart í hendi.
hafði eg gagn af magni.

930.

Sat eg á dynjanda,
sá eg á hrynjanda,
sá eg hvar hann auðbjörn[1] fór
með ununarstykki[2],
kallaði eg á hana klofskellu[3]
og gettu hvað hún gera átti

931.

Sat eg á hlífar hellu[1],
kynti eg vogarviði[2],
sveið eg gægis höfuð[3].
gettu í hverju eg vatn sótti[4].

932.

Sat eg á hniflúng[1]
við salts[2] strendur,
ben sá eg bíldskorna[3]
brenni goða[4],
háan stein flatan[5],
fólksrit byrjun[6],
brýni báru[7]
og báta dritil[8].

933.

Sat eg á rennanda[1],
sá eg á drynjanda[2].
sá eg hvar vígahnötturinn[3]
tók vogastykki;[4]

kallaði eg á gómskellu mína,[5]
getið þið hvað hún gerði.

934

Sat eg á skjálfanda,[1]
horfði eg á beljanda,
leit eg freknóttan[2]
og elti flekkóttan.[3]

935.

Sat eg á svelti sauða,[1]
sá eg á mannadauða;[2]
brátt mun bragurinn falla,
berst hann um veröld alla.

936.

Sat eg eitt sinn
á sifjar snæru,[1]
og framdi aðgæzlu
um fleygi vígbarða,[2]
þá var Glens kona[3]
með glöðu bragði
og Skinfaxa stýrir[4]
skamt á leið kominn.
Tröllkonugustur[5]
trampaði víða,
og sagði álmveldi[6]
hvað iðja skyldi,
því laung fannst
Útgarða —
Loka fóstra sín.[7]
Tók eg þá bóka blað
og brúnum hleypti
um hafísa granda
og hjarta Þórs móður;[8]
úr Fenrisúlfs
festarhæls grindum,[9]
gerði eg systur tvær[10]
og gaf þeim heiti;
kallaði aðra
klifbeina dæsu
en þá síðari
sisseris búldu;
setti eg aðra
á sal Hríngshorna,[11]
sú var fullvaxin
og sat undir hinni.
Kom eg þeim síðan
á huldu Þórs móður,
er eg því óhræddur
um þær báðar.
Fjórir beinvargar[12]
fylgdu mjer eptir,
þeir er sofið höfðu
meðan systur voru gerðar;
þeir stukku upp
með stuttum búníngi
og létu steinstjörnur
stildra víða,
hver hljóp mót öðrum
með hljóða gángi,
svo undir tóku
allar blakkir
botnveðra halla[13]
og bygðir dalanna.
Fýsti mig til flugfars[14]
að finna kunníngja,
því himinhverfandi[15]
var horfin að mestu,
en náttfara brúður[16]
nálgaðist mikið.
Bið eg að læri
börn sér til gamans,
þó ei séu djúpfyndnar
orða brellur.
Ef þrévett barn
þýðir rétt hvert orð
eg þræti ekki við það,
þrítugt að aldri.

937.

Sat eg í kóngulóar
kastaladyrum,
horfði eg vítt
um völlu breiða,
vildi eg vita
hvar vegamót lægi,
þá varð eg margs vís

sem mér var hulið,
þar voru hamrar
hátt í fjöllum,
súngu lúðrar
senn á stræti,
undan björgum blá
bunuðu fossar,
synti fiskur
með fljúgandi vængjum,
bar mý marga
moldhauga kvika,
þar kembdu úngbörn
elli hærur,
ráku fénað
úr fjöllum ofan,
þar komu uxar
með arnarhöfðum,
spruttu upp sauðir
á sporhunda fótum,
brendir asnar
básúnum klíngdu,
gull á grönum
geitur báru,
geyuðu rakkar.
á gullspeglum héldu,
þíng vildu halda
á þussa torgum;
þar atburðir slíkir
að óvenju færi,
sér höfðu kosið
svín fyrir vitni,
gáfu hræfuglar
gott samþykki,
en ljón og birnir
lögum stýrðu,
drukku dróttir
af dverga krúsum,
þá var skemtun
í skrapanda húsum,
innan prýdd voru
með Herkúlis tjöldum,
af guðvefjar pelli
með gyllini stykkjum,
glaðir voru garparnir
og gullvagnana drógu,
sungu úngir sveinarnir
og sínar hörpur slógu,
glaðar gullhlaðseikurnar
guðvefs pellið skáru,
fagrar laufalindirnar
ljósa kransinn báru,
Stanzaði, Gunnbjörn
og starði á þetta.

938.

Sat eg í sólskins brekku
sá eg á mína,
hvar hún tók að gína,
rauð að neðan.
loðin ofan,
hún þarf þeirra tóla við,
sem hánga við karlmanns hlið.

939.

Sat eg og át eg
og át af mér;
át það, eg á sat,
og át af því.

940.

Saunggyðja í sessi há
sínar telur dætur,
gómakvörnum geingur á,
gagna litið fætur.

941.

Sá eg á gángi svanna
sumars hæstan dag,
skemtun sýndi sanna,
með siðugt háttalag,
eg stóð þar við um stund að sjá
hóglegt sprund og hennar snild.
Hlustaðu maður á.

Áfram þreytti iðin,
aktaði ei hégómann,
betalast mín biðin,
betra inndæli ei fann;

sýngja fór nú siðugt víf,
hennar hljóðin há og hvell
brestu sál og líf.

Saungs í vönum vísum,
var sú meiningin,
lofgjörð drottins lýsum,
lifa þjóðir enn,
leggið alúð menn og mær.
á lífs og sálar störf um stund,
stefnir dauðinn nær.

Ættina glögt eg eygi;
eðla göfugt sprund,
sunnan úr heim, eg segi,
sigldi á Ísagrund;
ágirnd stríðir opt á mig,
ætti eg í mundu aura safn,
eignast skildi eg þig.

942

Sá eg á minni suðurleið
sjón, er undran eg af beið,
svartur göltur vaga var,
vitund hærra knén sá bar
heldur enn maga og breiðan búk,
í bragði snar.

943.

Sá eg á Sámsveldi
seggi á einu kveldi.
Gettu, gettu gátu,
hvar garpar fríðir sátu.

944.

Sá eg á suðurvegi
svartan göltinn vaga,
hærra ber hann hné en maga.

945.

Sá eg á svörtum bekkjum
sitja, með fögrum litum.
systur með sóma mestum,
sextán jafnstórar vexti,
streingdar með stáli niður,
og streingjum, er vara leingi;
fyrðar sjá þær í friði
en fljóð þeim nauðúng bjóða.

946.

Sá eg á svörtum
söðli túnsfæðu
kátlega mynd.
Hvað skal hún heita?
Höfuð var ekkert,
hafði þó túngu,
fasta við kjálka
á fjóra vegu,
fallegar tennur
fremst á rólu,
en limina fleiri
leit eg eigi.
Þagði nú þessi
þar til eg dirfðist
ögn að snerta
ófreskjuna,
hélt eg um hala
hennar miðjan,
urraði hún þá
af öllu megni,
lifandi stólar
lögðu á flótta,
en dýrin smærri
espuðust næsta,
leizt mér að sleppa
ljótu skrímsli,
fleygði því niður
og fór burt þaðan.

947.

Sá eg áðan systur tvær,
sérhver að því hyggur;
á því standa þær optast nær,
sem einn og sérhver tyggur?

948.

Sá eg beina teyga tröll
títt af því, sem prýðir hnakk,
þar á stanzar þjóðin öll,
það eiga allir, sem hann drakk.

949.
Sá eg dökka sveina
saman standa í krans,
hver sitt hefur eina
heitið rétt til sanns,
tvenna tólf má reikna,
til einn leggist þá,
þeir vita vel að teikna
vísindunum frá,
eg nefni einnig hann,
sem er þar sem mann
gamall á róli rann.
G. J.

950.
Sá eg eina falda fit,
fær hún sjaldan kvefið,
lá á grúfu, en lítilvit
í lopt upprétti nefið.

951.
Sá eg eina sáravörn á sæti
hauka;
full var sú með línulauka,
látið er á henni stálið brauka.

952.
Sá eg eina setta taus,
sú bar munn en eingan haus,
vambmikil, en aldrei át,
upp hún spjó og komst í mát.

953.
Sá eg eina siðuga frú,
sú er dauð fyrir laungu,
við mig talaði veigabrú;
veiztu, hvað hún heitir nú?

954.
Sá eg eina sitja á beð
seggir stínga hana á hol,
hennar nafn í hafinu er,
hríngur settur á miðjan bol.

955.
Sá eg einn á svörtum kjól,
sá batt um sig snæri,
að elta börn á Íngjaldshól
ætla eg hann væri.

956.
Sá eg einn er sat að laug og
saurgan þvoði,
iðrin skildi hann eptir heima,
auðarselju lét þau geyma.

957.
Sá eg einn hlut,
sem séð hefi ei fyrri.
það var oddur
höfuðvopns Marðar.
Fyrst var honum brugðið
í bróður munn Auðar,
og síðan tugginn
af tönn Ýmis.
Gekk þá að rati
og gróf hann dauðan
í framfæti Ásbjörns
fast um ökla.
Þar tollir á svunta
tvílögð með borða,
svo síðan ekki
af saumunum gliðni.
Henni má víngsa
til vinstri handar,
en hnept er hún optast
hægra megin.
Þrálega hindrar
þeim, er koma
inn að þreifa
þjarka mundu;
geymir hún alt,
sem getur hún hulið.
Óvönd er gátan,
alhægt að ráða.

958.
Sá eg einn í svartri brók
sitja niður við hjalla,
augun klók í heimskum hrók.
Hann hugnaðist mér varla.

959.
Sá eg einn í svartri tjörn,
samstundis hjá hrundum;
gátu þau af sér geðug börn,
geysimörg á stundum.

Mikið hefir hann mjóan fót,
mælist síður en þveingur,
þar sem settist þýðleg snót
þar varð eptir dreingur.

Bæði er hann og börnin dauð,
þá berast hér í heiminn,
brún eru þau, blá og rauð,
brúka ei auð né seiminn.

960.
Sá eg eitt sinn systur tvær,
að sinni máltíð voru þær;
átu þær hvor annars mat,
einginn þessu hamlað gat.

961.
Sá eg fult hús með hvítar kýr,
og rauðan kálf leika sér á flórnum.

962.
Sá eg fyrir sunnan
svartan köttinn vaga,
hærra bar hné en maga.

963.
Sá eg í fögrum flóa
fríðan riddara skrýðast,
bjartan með blóma skarti,
brosandi vel til kosinn,
stórleitur stirða murði
státsmey, sem var hans eigin,
lítil var nærri látin,
af letíngjum betur metin.

964.
Sá eg í gegnum
gat Þórs bjargar,
veg verfugla,
vörðu sínglínga,
sá rak saman
sauða kulverju,
meður merghúsi
mævils jarðbúa.

965.
Sá eg í sólskins brekku
sífjaðraðan smjaðra.
þar lá lagður í lýngi,
línserkjaður með merkjum,
þar kom krókurinn illi
að borðsettum rétti,
murraði músar glópur
yfir marghnöttóttum kletti.

966.
Sá eg lambið sjóinn vaða,
svo það hrepti eingan skaða,
en fíllinn með sinn fótinn hraða
féll og dó þar inni.
Ráddu maður rétt úr gátu minni.

967.
Sá eg líkar systur tvær,
sem að margir prýða
nú víða;
hjá herramönnum hvíla þær,
í hofferðirnar ríða
til tíða;
þeirra eiga þykir fín,
þær geyma hana á milli sín,
vel opt seðja vindaskrín,
þær verða þá að gapa
með snapi,
upp úr þeim hvað í þær fer,
en ekki kemur það við mér,
hætt er við að hrapi
með tapi.

968.
Sá eg mann og ekki mann,
sat á tré og ekki tré,
hélt á stein og ekki stein,
hæfði fugl og ekki fugl.

969.
Sá eg mann sitja að vana,
sá hélt á Hamdisar bana,

hrjáði með því hársvelnis rætur,
hlaupajós hann bjó þraut um fætur.

970.

Sá eg nokkrar settar mær,
sumra ferðir hindrar það,
ákaft hlaupa áfram þær,
er þó hver í sama stað.

971.

Sá eg segg iða
í svanna höndum,
klæddur var sá
kápu af dorra,
fæða var honum
færð í kverkar,
sem ýttist niður
ofan hjá lúngum;
það var hræsvelgs
hraður andi,
sem ofraði vindgáng
í hans maga;
af gump hans niður
gekk húsabani
og veitti árás
vörmum hlýra,
hvar af hinn reiddist
og réði blossa.
Gátan er lokin,
getið þið ráðið?

972.

Sá eg sitja segg
sunnan undir vegg;
hefir augu og nef,
aldrei fær hann kvef
hefir bústinn bol,
býsna mikið þol,
sýngur örvaþór,
aldrei fer í kór.
Gettu gátu mín
ef glögg er vizkan þín.

973.

Sá eg sitja settan hal með sextán
rósum,
böndin þrjú á búki ljósum,
bjargar hann mér frá húngurs-
glósum.

974.

Sá eg sitja systur tvær á sandi,
nógar eiga nöfnur þær á landi.
Kúra þær fram við kaldan sjá
með bökin blá,
hvorug þúngt þeinkjandi.

975.

Sá eg sitja systur tvær
með svörtum gerðum,
báðar voru þær bornar innar
brúkað hafa þær gamlir Finnar.

976.

Sá eg síðklæddan
segg í ánauðum,
sá var harðfjötraður
að höfði og fótum,
þrem viðjum
þrátt um vafinn,
þó var hin fjórða
þreingst um knésbætur;
er strákar tveir héldu
sem stóðu til hliðar;
þar kom að
einn þræll dálítill,
sem klóraði hann og reif
með krumma nefi,
svo kvað við í honum
með korrandi hljóði;
kom þar að
kerlíng ein nakin,
og hljóp í klof hans,
með hörku stórri
lamdi og bukkaði
svo bærðist hann allur.
Þar kom að kóngur
klæddur kvennskrúða,
hjó á hans ristar
með harðri exi.
Negg foldar nokkur

nísta þar hvert annað
og kveinka svo heyrist
hvert undan öðru,
en grétu þó aldrei
svo gumar það sæu.

977.

Sá eg standa stoðir tvær
og stúlku nafn í milli,
fuglinn einn þar flögti nær,
frílega svo haldi þær,
þegnar búa þar inn í með snilli.

978.

Sá eg standa svartan hrók,
sem ókendur mér þó var,
með sínu nafni sundur tók
sama lim og efst hann bar.

979.

Sá eg standa svartan rekk
um sömu miðin,
báls yfir eysu ból sér fékk
og brendi kviðinn.

980.

Sá eg standa systur tvær
hjá settu tjaldi,[1]
báðar höfðu bróður sinn[2] þær
í beisku haldi.

Hann var það, sem hraunið[3] dró
og hátt við gelti,
örin[4] þegar í augað[5] fló,
hann um sér velti.

981.

Sá eg standa systur tvær,
saman fastar voru þær,
ofan í aðra önnur rær,
svo efldur maður varla upp nær,
ekki eru þær altíð heima þá úti
grær.

982.

Sá eg standa systur tvær,
sem einn risa báru þar,
þeirra á milli þrammar mær,
þar til hún er ekki par.

983.

Sá eg standa systur[1] tvær
settar hétu báðar eitt,
þeirra á milli þrammar mær[2]
þar til hún er ekki neitt.

984.

Sá eg systur sex og fjórar seims
á njörðum,
leika sér á lifandi görðum,
líka mæta kulda hörðum.

985.

Sá eg tvo á teigi
talast við þó eigi,
hvorugur hafði mál,
heyrðu heldur eigi,
hyggðu að, hvað eg segi,
nefni eg stein og stál.
Át hvor annars mynd
ýta sá það kind,
eyddust báðir saman senn.
Svo eg gátu bind.

986.

Sá eg höll á víðum völl,
var sú há og breið að sjá,
þakin öll með Þjassa mjöll;
þorpin smá í kringum stá.

987.

Sá eg úti svartan hrók,
sem að líkur mér þó var,
með sínu nafni sundur tók
sama lim og efst hann bar.

988.

Sá eg viðbjarnar væli[1] liggja,
þrymseilar hval[2] þúngan feta;
knör jarðar[3] með kappi fram þjóta,
moðrauðni[4] eltan af ysjúngs nið.[5]

989.

Sá mig á ekki,
synjast heims mæti;
örbyrgð blaðinn

er í heimi.
Sá, er mig hefir
sjá um það hlýtur,
af mér að hafa
ekki skapraun.

990.

Seg mér, hvað eg sá í vetur,
sem eg leit ei fyr,
og ansaðu mér ef þú getur
upp á það eg spyr.

Híbýlið á haukasetri
benda mun því lítt,
það af elda báru betri
ber þó litinn frítt.

Hvorki þarf, það föt né fæði
þótt finnist Óms á mey,
hvort það er af sjó eða svæði
segja kann eg ei.

Það hefir ekki mál né mynd,
þótt mörgu forði grandi,
ekki heldur sál né synd,
þó sýnist það lifandi.

Það er stærra þó en fys,
því kann illu valda,
ljómar eins og báru blys,
bönd því eingin halda.

Nafn þess eina nú inn bind,
þótt njótur einginn virði,
sárleg mein og svala lind
sveigist báru um girði.

Fjalla lögur, fróna hlé,
fagra sólin sveita
skerja ögur skýs og fé
skal um síðir heita.

991.

Segðu það sem sýnir mynd,
sé það til þess krafið,
hermir eptir hverri kind,
kemur yfir hafið.

992.

Seggjum vil eg segja,
sízt er gaman að því,
ef þegnar leingi þegja
og þumbast myrkri í,
skemtun þykir skötnum,
ef skeikar orðaknör
fram úr fræða vör.

Því skal þegna spyrja,
þótt mér veiti bágt
bragarins smíð að byrja
bezt við góma þátt,
hvað það musterið merkir,
sem mest ber fegurð og prís,
eg vildi þess verða vís.

Stólpi í því stendur,
er stýrir rínar höll,
með gull og grænar strendur
og Grettis dýrri mjöll,
með epli og aldinviðum
útbreiðist í frá,
sem vel mega virðar sjá.

Gjörr vil eg enn greina,
ef gumar hlýða til,
verður víst um seinan,
því veldur mælsku gil;
standa þar við stigar,
er styðja musteris hvolf,
tel eg þá alla tólf.

Þar með þrjátíu rimar
í þessum stiganum er,
öldin á þeim svimar
og alt að vilja fer,
auð og alls kyns gæði,

alt af þessu nóg
með vænum veraldar plóg.

Á greindum rimum gánga
göfug hjónin tvau,
einatt ónáð fánga,
aldrei hvílast þau,
myrkva nátt og morgna,
mæðast ekki enn.
Geti góðir menn. E. Sig.

993.

Seggur er einn
á sífeldu hlaupi,
hvergi úr sínum
sessi þó hrærist;
munn hefir hvorki,
málróm né barka,
en hljóðar svo hátt,
að heyrist allvíða.

994.

Sem þann nefna mig þú mátt
er metur orku stinna,
fótum troða undir átt,
eigi hann nokkuð vinna.

995.

Sendur var eg
úr Sandeyri
að sækja dreingja vit
og deiluefni[1],
áði eg þar
sem úr var brotið[2],
en náttaði í átta
álnum og fjörtíu.

996.

Sextán á eg systur mér,
sama nafnið hver ein ber;
hægðir auka heimi í,
hvað er þetta? Gáðu að því.

997.

Sextán líða þúnga þrá,
þessa eg stundum færri sá,
fjórar systur fylgja þeim,
fara víða út um heim.
þeir eitt heita, þær svo líka
þúngt með kvein.

998.

Sé eg liggja systur tvær,
samanfastar eru þær,
sitt hefur auga sérhver mær,
sárt með nefjum stínga,
yfirum hafið flytur þær
hirðir kramflutnínga.

999.

Séð hefi eg eina siðuga frú,
sú er dauð fyrir laungu,
við þig talar vella brú,
veiztu hvað hún heitir nú?

1000.

Séð hef eg piltúng augað eitt,
og ekkert höfuð hafa,
margan hefir frá lífi leitt
og leiðist ekki að kafa.

1001.

Séð hef eg þernu
seggjum vel þéna,
og örðugt skipta
apaldi marar,
flatvaxin er
með farva dökkvum
og einu auga,
sem er þó hulið.
Hún hefir jaxla
heldur hvassa
og skögultennur
úr skorðum geingnar;
finnast hennar efni
í fjörgynar hjarta,
og eru þaðan tekin
af aski leipturs,
lagt síðan þar
sem lystugir mætast
hlýrar tveir,
svo að hentugra verði.
Öðru hennar

efni skilar
blóðughadda
frá botni ránar,
flyzt það og líka
um Freys meyar linda
til jötuns jarka,
sem jafnan slíkt vantar.
Finnst það og líka
á fæti Ýmis
allvíða hér
sem eins vel hagar.
Þykist eg hafa
af þernunnar efni
og skapnaði skýrt,
svo skilja megi.

1002.

Sézt hefir sveinn
með sveran fót,
að eins hafði hann einn
og haltur var ei hót;
mikinn hafði hann maga
en meira brjóstið þó;
segir þannig saga,
í smáþarm lífið bjó.
Eina nös í hnakka hann hefur,
heitan anda frá sér gefur,
en hann náir ekkert saka,
að andinn snýr ei við til baka.
Hann beinir einatt bókamönnum
bezt, um skamma vetrardaga,
gleypir opt við greiða sönnum,
gjarnlega í tóman maga,
ef ei maga svángan seður,
sífelt lífið tekur þverra,
óhapp þetta einatt skeður,
annað herma mun eg verra;
það er margt, sem þegnar rausa,
þótt þeir minnstan sannleik tjái;
að hann skrúfu eigi lausa
ætla eg fæstir trúað fái.

1003.

Siðug snúin situr þétt
hjá snotri hrínga gefni,
laufa viðar rótin rétt
reiknast hennar efni.

1004.

Situr sjóli á stóli,
situr og er mjög vitur,
allar áttir telur
aldrei máli brjálar.

1005.

Sífelt helstúngin
og sárum þakin,
eru mín örlög,
en það batar,
að hættu ei kanna
holund þótt bíði,
ör og skrámur
aldrei lít eg.

1006.

Sjö systur
í sæng einni liggja,
eingin efst liggur
og eingin fremst.

1007.

Skal yður skemt af þræli,
skúti þeim yfir slútir,
lúrir svo lítt hann hrærist
landhríngs við yztu granda,
þó kunni ei kauðinn vinna,
kraptalaus ei er skaptur,
feitur, en fullaflþrota
finnst sá af stigum háum.

1008.

Skeggaður refur
skýzt í holu sína.

1009.

Skinnpílurnar skutu tvær
skrítið þótti mér það sjá,
í trépíluna eina, ær
ætlaði eg hún mundi þá.

1010.

Skolli sté á túnfót,

tók í burtu dagsmark
af vallarbót.

1011.

Skrögg einn sá eg skurrandi
er skrafar vítt um heima;
át hann mat sinn urrandi,
eins og köttur breima.

1012.

Skörp um vetur skepnan ein
skjaldan leysir af sér þvag,
um hásumarið hefir þá grein,
hún er að míga nótt og dag.

1013.

Slíngur jafnan slær og græðir,
slæmum gefur litla ró,
höggur títt og margan mæðir,
Mætan bróður á hann þó.

1014.

Snautaði hjá mér snefjaður skussi
snæs á hlíðum,
á Grímseyarsundi grár á síðum,
getinn var í Bólmstaðahlíðum.

1015.

Snót eg leit á snaga hánga
snart á auganu,
samt lét hún sitt höfuð hánga
húss á þilinu.

1016.

Snót leit eg eina
er seggir opt fipla
hennar er efni
úr iðrum jarðar,
ber hún heiti
sem bókmála runnar,
ómissandi
öllum þjóðum,
limi hefur hún
til liðsemdar henta,
heita þeir: mysa
í málmi sterkum,
klettur hár
og kviga bustar,
minnkandi túngl
og mikið kýli,
skjáa skriða
og skrifara vinur,
við hana fær
einginn að eiga,
nema snillíngur nokkur
í nærbuxum vænum,
með kampa síða
og kliptar í rákir;
hann er svo handgeinginn
á heimilum öllum,
hér fyrir veit eg
að höldar snót kenna.

1017.

Snótin hefir höfuð bjart,
harðar tönnur stillir,
bryður með þeim brauðið hart,
búkinn af því fyllir.

1018.

Snögt inn rekið,
loðið út tekið.

1019.

Sollinn meinum innan allur,
er á vakt fyrir dyrum hverjum,
varna eg hvinnskra frekju firnum,
felur kverkar hurð með vélum.
Minn ei armur svignar svinnur,
þó svolar hnykki fast og bolist,
magnið helzt þó mér vill gugna,
megnt ef búkinn lagt er gegnum.

1020.

Sonurinn stendur í dyrunum,
áður en faðirinn er fæddur.

1021.

Sólar varminn sýður það,
svo það höndin brýtur;
fótur braustur títt það trað.
Trútt þess munnur nýtur.

1022.

Sólin(n) rifin(n) festíng frá,
forgeingin(n) var himnum á,

aðgjörð fljóta þurfti þá;
þessa gátu ráða má.

1023.

Stáli klæddur sá eg sveinn
sveimaði á einum fæti,
býsna magur, blindan einn
brölti með um stræti.

Ekki var hann eyrnalaus
en þótt lítið heyrði;
svírann upp úr sínum haus
sífeldlega keyrði.

1024.

Stend eg eins og stafur á bók,
stirður í sömu skorðum,
mig sá ekki máli tók,
mælir fáum orðum.

1025.

Stigi stendur í húsi
og sjö rimar í.
Þar eru tvö hjón
og þau hvílast aldrei.

1026.

Stjarna ein á stóli skær
stýfir grasið þétt og feitt.
Ef því fóðri ekki nær,
úr henni þá ei verður neitt.

1027.

Stóð eg á stoðum tveim,[1]
starði eg á hafsbylgjur,
herti eg á hússtyrk,[2]
hélt eg á nýrri mjólk,[3]
bar eg bragna styrk,[4]
boðaði gríðar verk,[5]
faldi eg flóðamat[6]
und fögru dvergs inni.[7]

1028.

Stríðsmaður einn er,
um tíma spá kann,
kónglega á kolli ber
kórónu gulls hann,
fær spora á fót sér,
forgóður spámann.
Segðu, hver sá er.

Andvana ólst sá
af móður kviði,
hnöttóttur að sjá,
eingum að liði,
líka höfuðlaus lá
lífs eftirbiði.
Segðu hver sá er.

Nú sem náttúran
næm kemur til hans,
fagra mynd fær hann
með fulltíngi andans,
leiðir í lífs rann
lagsmaður dauðans.
Segðu hver sá er.

Loks kemur lífs bann,
leggur klæðin af góð,
vel smurður víst hann
verður á heitri glóð,
og fyrir eld þann
auma ratar helslóð.
Segðu hver sá er.

1029.

Stundum er eg á undan þér,
stundum er eg á eptir þér,
og vísa þér veg,
þó fer eg aldrei
heiman frá mér.

1030.

Stúlkan ein,
hún stökk upp á hann herra Stein,
hún vissi ekki hvert hún átti að fara.
hún stökk upp á nefið á honum Ara,
hún vissi ekki hvert hún átti að horfa,

hún stökk upp á nefið á honum
Torfa,
eltu hana margir menn,
hún stökk ofan í biskupenn,
og þar situr hún enn.

1031.

Stöðug mærin stendur hér,
stilt á miðjum slóðum,
undan bæði og eptir fer
ylnum heldur góðum.

1032.

Sundur þanin sú við Rín
seggjum varð að liði,
opt þér fylgdu augun mín
þá ertu í gjallar kviði.

1003.

Sú á Upsum bætir bú
bóndans yndi og gaman,
alt eins heitir auðarbrú
aptan til og framan.
P. R. H.

1034.

Sú er ein,
sem sína niðja
allmarga dauða
eptir skilur,
hennar nafn er
hita veðrátta,
fésæla manna
og friðsamar tíðir.

1035.

Svartur gumpur situr við eld og ornar sér.

1036.

Sveina marga sá eg vera í sendi-
förum,
skarn var þeirra skart, líkt tjörum,
skauzt þeim ekki orð frá vörum.

Samt málóða mundu þeir hjá
meingi fínu,
stóðu þeir á stryki brýnu,
stefndu rétt að marki sínu.

1037.

Svipþúngan sá eg spránga,
síðklæddan heldur víða,
svanna, er sveina ginnir,
sem hún í fáng sér nemur;
líður fram tármild tíðum,
töturlega opt nötrar,
metur ei málin fóta;
mjúkari en silkidúkur.

1038.

Systir sendi sinni suður á land brjóstamjólk í staupi, það var hvorki með höndum gert eða með hamri smíðað.

1039.

Systkin erum tvö,
samt ólík næsta,
hún systir er dökk,
en sólbjartur eg.
Hún þykir helköld,
eg heitur næsta,
bæði þjáum við
brautfarendur.
Hvort okkar flýr
fyrir hinu:
henni eg fylgi,
hún mig eltir,
erum þess vegna
aldrei bæði
undir sama
seggja þaki.

1040.

Systur tvær eg segi drótt,
síðla á kvöldin skilja fljótt,
en þá dagar, aptur þær,
einugar verða og færast nær.

1041.

Systur tvær hér samlíða,
sinni hvort er húsið tamt,

að hreinsa innan hæglega
heingdar báðar verða samt.

1042.

Sýn fyrir augum sjálfs míns varð,
segi eg það góðum vinum,
sá eg úti sáðan garð
sitja innan í hinum.

1043.

Særir og græðir sætan ein,
um sveitir víða færist;
hefir hvorki blóð né bein
af brauði eingu nærist.

1044.

Sæta er ein með saurugt blóð
og svartan vánga,
fræða mun hún fyrða þjóð
um framtíð lánga.

Í hennar blóði harður strákur
haus nær lauga,
nös með eina og aflángt auga.

1045.

Tapar þar helzt
er herrum mætir,
hauslaus, svángur,
með höfund í kviði,
nýtur þar frekast
næríngar sinnar,
auknafn Auðunnar,
efst er gildir.

P. G.

1046.

Teygt járn og tundur,
tekur alt í sundur,
fjölmóðar fundur,
fagur skógarlundur.

1047.

Til er ambátt
á tveimur fótum,
geingur þó aldrei
nema á bakið,
hrygg hefir hún
úr hamíngju stöðli,
en ber á, brjóstum
byrðar þúngar.
Opt að auðunnu
álfa reki,
endemi blæs,
eða beinum jarðar,
blíðust á velli
eða bleikju himni
komin á ferð
með klyfjar sínar.

1048.

Tíu′bræðra milli mær,
mörgum öðrum frægri,
hún er að fylla holur tvær,
í heiminum þarna lægri.

1049.

Tíu toga fjóra,
tvö eru höfuðin á,
rassinn upp og rassinn niður
og róan aptan á.

1050.

Tjáðu mér, hver tröð sú var,
tryggust er eg segi,
af ótraustasta efni þar
einum bygð á degi.
Hún var allra óhultust,
eg vil framar greina,
en flestra traða fallvöltust,
þá fóru menn að reyna.

1051.

Tólf leit eg tré
á torgi standa,
yfir náðu þau
allan heiminn,
fimmtíu og tveimur
fleyttu greinum,
á hverri sjö epli
sá eg hánga,
en sitt bar hvert heiti.
Óslítanlega

annað við tók,
þá annað hætti.

1052.

Treður túnið slétta,
tvo ber fætur létta,
magur á munni gekk,
lúðist lítt við þetta,
leið fór jafnan rétta,
fylgd þá góða fékk.
Leysi úr lýðir enn,
hann lítið drakk í senn,
mannlaus einga fæðu fann,
ferilinn röktu menn.
Sporin urðu að orðum,
alt svo stóð í skorðum.

1053.

Tré leit eg standa,
til var það búið
með niðurhald nauta[1]
og niðja bjarnar[2]
Odd og Eggert[3];
en hún áfeing
eptir þeim sótti,
tindi hún það saman,
sem tugðu þeir báðir.

1054.

Tunna með tvennskonar drykkjum.

1055.

Tuttugu lækir í fjalli,
tuttugu ær með hverjum læk,
og tuttugu lömb undir hverri á.

1056.

Tuttugu systur
sjáumst jafnaldra;
vöxum sem eikur,
ei þó jafnstórar,
lángar þá verðum
ljótar þykjum;
stuttar ef erum
stofnum svíða.

1057.

Tuttugu systur telja má,
tyllast fjórum stólpum á,
sem óværðum sóað fær;
segðu mér, hvað heita þær.

1058.

Túnguna hef eg á halanum,
sný í augunum;
hátt með gelti hundunum
og hræðslu geri sleipnirnum.

1059.

Tveimur á lopti verður veitt,
veit eg þeir heita báðir eitt:
ef annar missir matinn sinn,
mun hann undir hneppa hinn.

1060.

Tveir bræður rífa hvor frá öðrum.

1061.

Tveir eru hlutir
í heimi þessum,
ef þeir leika
af alvöru saman,
aldrei þeir finnast
upp frá þeim tíma,
einginn veit
hvað af þeim verður.

1062.

Tveir eru þrælar,
sem togast á laungum
og syni eiga marga
sín á milli,
þénar þeim
til þess verknaðar
það hæst er skapt
á hverju fjalli.

1063.

Tveir feður og tveir synir, skiptu þremur eplum á milli sín, og fékk hver þeirra heilt epli: hvernig var það mögulegt?

1064.

Tveir menn fóru og teymdu hross,
títt við stóðu hér og hvar,
þeir á báru þúngan kross,
þú mátt geta, hvað það var.

1065.

Tveir menn geingu á fjall
og bára það á fótunum,
sem báðir hétu.

1066.

Tveir menn geingu á heiði,
fundu mann í nauðum,
bundu vatn með viði
og björguðu hálfdauðum.

1067.

Tveir menn geingu upp með á
og báru með sér mjólkurmörk,
en báru hana í eingu.

1068.

Tveir menn geingu upp með á,
og báru það á milli sín,
sem allir vissu en einginn sá.

1069.

Tveir menn geingu upp með á
og báru það á milli sín,
sem báðir hétu.

1070.

Tveir menn geingu upp með á
og báru það í vösunum,
sem báðir hétu.

1071.

Tveir veita einni
uppeldi laungum,
hún flýtir og hamlar
ferðum margra,
geingur hún þrátt
og geymir fé manna,
er þó þörfust,
þá aptur kemur.

1072.

Tveir þá bræður toga hér
trékubb sín á milli,
hjálparlaust ei hægja sér
þótt hafi spúð af fylli.

1073.

Tvennir þréttán tignarmenn
tals af hverju landi,
reisa gjörðu og eru svo enn
allir margkunnandi;
þeim hefir spekin þegi dimm
þént í vizku bandi,
og sent út með þeim sína fimm
sonu veltalandi.

1074.

Tvisvar fimm eg tíu meina;
þá læt eg alla þegna líta.
Tvisvar fimm og tíu meina;
tvo af þeim sýni, tíu leyni.

1075.

Tvíbein sat á þríbein, og hélt á einbein, þá kom fjórbein og tók af tvíbein hans einbein; þá reiddist tvíbein og tók þríbein og setti í fjórbein svo fjórbein hlaut að missa sitt einbein.

1076.

Tvíkjaptaðan
tók eg að líta,
strák í jörðu
standa fast bundinn.
innan i honum
ærist stelpa,
á höfðinu
optast geingur,
þegar hún sig hrærir
hrín hann og hljóðar,
hrýtur uppúr
hráki mikill,
tvískiptir fæðu,
treður hálfa
saman í hnetti,
síar úr hinu,
skvettir upp rassi
og skellir úr kjapti

gusu stórri,
gott er að ráða.

1077.

Tvo sá eg þræla
tóma og fulla,
risu upp dauðir
og rótuðu í eldi,
beingdir með snærum
og hlekkjum bundnir,
fram og aptur,
fimir til víga.

1078.

Tvo við kofa hýrist hann,
hrundum gulls er tryggur,
flestir munu þekkja þann,
með þolinmæði liggur.

1079.

Tvær systur tyggja hvor í aðra.

1080.

Tvö eru höfuð,
tveir handleggir,
tær eru tíu,
tvisvar þrír fætur,
þó eru ei fleiri
en fjórir á gángi.
Hvernig á að skilja
heimuleik þennan?

1081.

Upp hjá einum glugga gróða
garpurinn lítur kerlíng fróða,
sjötent er sú silkitróða,
sannlega tyggur hún jarðargróða,
i henni gjörir nudda og njóða
nálega hverju sinni.
Ráddu úr gátu
ráddu úr gátu minni.

1082.

Upp í lopt og ofan á gólf,
ætla eg sig hann teygi,
hefir kjapta tvenna tólf,
talar þó aldreigi.

1083.

Upp með eikum vex,
aldrei færri en sex,
aflángt efnið í það fer,
á alla vega jafnt þó er.

1084.

Upp með garði og niður með garði
og tínir strá;
tuttugu og eitt eru höfuðin á.

1085.

Upp og niður, út og suður,
austur og vestur
ligg eg bæði bein og hlykkjótt,
brölt er á mér stundum skrykkjótt.
Ó. B.

1086.

Upp úr jörðu einn kom sá,
einfætlíngur stinnur,
manna holdið meiðslum frá
mjög opt hindra vinnur.

Sig hann hvílir sumrum á,
sízt um tíma hina,
eins og píla er hann þá
út um veröldina.

Hart fram æðir heyrnarlaus,
hann er mjór um bolinn,
eingan stundum hefir haus,
í hríð og frosti þolinn.

Þægilega þar til sett,
þéna dável honum,
eyrun fjögur nógu nett
neðan í smáþörmonum.

Honum treynist hlaup um jörð,
hjálp þótt reyni sjaldan,
brúkar eina um sig gjörð,
endafleini að halda.

1087.
Upp úr ösku stó
hún arkar há og mjó.
Tróðan var svo tindilfætt,
hún teygði sig og hló.

1088.
Upp var eg alinn
í öldu móði,
á eg erfiði
opt hjá konum,
geymir mitt heiti
gjarða glaður,
sá um fold rennur
með fót léttan.

1089.
Upp vex bróðir minn hjá mér,
mikið hár á kolli ber,
í fyrstu það mjög fallegt er
og fagurlega hreifir sér.

En þegar að eldist sá,
undarlegt það heita má,
úr honum verður auðargná
alþakin með hærur grá.

Þessi kerlíng sómir sér,
sín þó ellimerkin ber,
hárin gráu fella fer,
fölur eptir skallinn er.

1090.
Upprunnin er eg
af ókyrleikum,
og haganlega
án handa samin;
finnst eg í sveitum
og við síðu ægis
um merkur fjalls
og í mjóum dölum.
Ýmsir vilja mig
undir sig leggja.
og elta mig
sem óðast megna,
en einginn um hirti
það af mér náði,
þótt ákaflega
eptir sækti;
býðst mér því harðara
sem betri þyki,
en vondri er mér
vægt á stundum,
enda var uppeldi mitt
áníðsla tóm
og undirokun
aukníng þroska.
Lokin er gáta,
létt er að ráða.

1091.
Utan leingst úr löndum
lagað opt með röndum
faung þess bezt í bú.
Man eg ekki meira,
má það hver einn heyra;
gettu gátu nú.

1092.
Úngt hefur dýrið fjóra fætur,
fljótt með tvo þá bezt því lætur,
hár þá aldur hallast mætur
höktir á þremur, ei fást bætur.

1093.
Út gekk eg óvís,
inn gekk eg vís,
sá eg hvar átján túngur
í einu höfði súngu[1].

1094.
Út gekk yglan vigla

[1] Þessi gáta á að vera eptir sakamann, er skyldi vinna það sér til lífs að búa ti gátu, sem einginn gæti ráðið.

imaði, vimaði, skimaði;
þakin þyrnikvistum,
þikaði, vikaði, dikaði;
óx upp með efstu eikum,
ipríð tipríð, og nipríð.

1095.
Út kom maður morgunstund,
margt hann taldi fé um grund,
þó var ólag eitt þar á,
einga því hann skepnu sá.

1096.
Út um augun bæði
eins og tárum flæðir,
gleður guma sveitir,
gettu hvað það heitir.

1097.
Úti á sundi sást Grímseyar
sérlegt þíng, af þrennu gjört,
eitt úr manni, inna meyar,
annað úr kú, en þriðja úr hjört.

1098.
Úti bæði og inni
er á ferðum senn,
flýgur fjöllum hærra,
og fellir marga menn;
ýtar segja það ekki grand;
þolir bæði frost og fjúk,
og fer um sérhvert land.

1099.
Úti leit eg fagra frú,
er flestir trúi eg kenni,
veginn gekk, en voru nú
vargar tveir með henni.

1100.
Úti sá eg eina snót
uggadýrin stánga,
auga hefir eitt og fót,
á vill höfði gánga.

1101.
Útprik og innprik
og allra manna prikastik.

1102.
Vann eg smíðað verndar þíng að
kaupa,
af átta hlutum saman sett,
sem eg bar á haukastétt.

Af lendíng skips og lágum fjalla-
dránga,
fingra körtu, hörðum hjör,
af hjarni og tafli smíðað er.

1103.
Var eg inni
en vann þó úti
verk þau nokkur,
sem voru til þarfa.
Lofaði eg röðli,
að léna og glansa,
rak burtu regnfrost
og ráddu nú gátu.

1104.
Var eg í ranni,
þar veiktist log fjarðar [1],
og minnishöll manna [2]
mæðu kennir,
setti eg mig niður
á manns materíu [3],
horfði eg beint
til hægri hliðar.
Þar sá eg konu
kyrláta [4] liggja;
og tvíeygðan karl
með traustum búki [5],
vinnumaður [6]
var þar og nærri,
býsna ófríður,
og barði á karli.
Þar sá eg væna
vinnukonu
með mikinn munn
og mjóa arma [7],
eigi fríð sýnum,
þótt allvel þénti;

veitti hún aðstoð
vinnumanni,
að barna húsfreyu
fyrir bóndans augum.
Sonu þeirra
sá eg þar marga,
fast standa fótum
í foldar ávexti.
Varð mjer þá litið
til vinstri hliðar;
turn[9] sá eg standa
mjög tígulegan,
yfirhöfn hans
var af Ýmisbeinum.
Þar var niðursetníngur[10]
nokkuð fáséður,
burgeislegur
á blökkum klæðum.
Karlinn gamli
með kaldan anda
kann að tempra
tegund sólar.
Þjónustukerlíng
þar sat á gólfi
með undarlegu,
örmæddu skapi,
teingd var hún saman
af tveimur hlutum,
brúkast báðir
í bragna heiti.
Hjónin þessi
með hjúum þremur,
vinna sinn verknað
með varma nógum.
Á enda er gáta,
sem auðráðin má heita,
aðgættu upphafið
alt mun þá greiðast.

1105.

Var eg úti
hjá veðramótum,
sá eg segg,
sá var að éta,
mettaðist aldrei,
þótt mikið æti,
því fæðan hans gjörvöll
fór út um kollinn.

1106.

Vatn þó slökkvi voðabál,
því virðar una,
búk minn setur svoddan tál
í sáran bruna.

1107.

Veit eg bræður vera til
víst mjög æði fljóta,
varga fæði auka yl
íss á svæði þjóta.

Yndið ljúfa auka réð,
ísa drjúga viður
bezt þeir fljúga byrði með
bökum snúa niður.

1108.

Veit eg eina veiga brú
veginn skundar sinn með hrað,
einatt heldur áfram sú,
er þó kyr í sama stað.

1109.

Veit eg eitt það varga fól
vera með hvössum tönnum,
mun þess nafn á móts við sól,
í mosa býr og fönnum.

1110.

Veit eg í verki straungu
vafði belti laungu
utan um sig einn,
þreyttur í rúmi þraungu,
þjáðist opt af gaungu,
sýndist mér þó seinn,
frúin fæddi fagran svein.
Fljóðið togaði tentum gómi,
toldi á fótum drómi.

1111.

Veit eg mey bjarta,

vina í millum.
ferðast tíðum,
fálát næsta;
en sem meydóm sinn
mist hefir kæra,
segir hún fréttir
þeim hana spjallar.

1112.
Veldið sjóla og veit eitt,
allir menn í styrjöld gá,
þótt alt sé fólkið um það deytt,
það upp rís fljótt og stríðist á.

1113.
Verkamikil ambátt ein
aptanbrött og vángaþunn,
grönum nýr við grjót og bein,
gadda þrjá hefir sér í munn.

1114.
Verkamönnum þarfur þjón,
þegar fara að smíða,
í undirhald á ljóra ljón,
látinn efnin sníða.

1115.
Vex þá af er tekið, mínkar þá við er bætt.

1116.
Vér bræður dæmdir
vorum, og erum
daga og dimma
dóttur Njörfa
uppréttir standa
og aldrei sitja,
eður hvílast
sem aðrir hlutir,
þó er ókostur
þessi oss skaptur,
að girnist nokkur
vér gaungu þreytum,
þurfum tvo fætur,
þeirra fjögra,
er oss eru gefnir,
að auki brúka.

1117.
Vér erum bræður taldir tíu,
titil fullkominn hafa níu,
en sá tíundi eingan ber.
gángi hann samt á undan okkur,
agtast hann minna en hinna nokkur;
geti nú menn hver ættin er.
S. Br.

1118
Vér skulum líkja[1] okkur[2] saman við bjarmalóg[3], svo brauðkista[4] þessi geti orðið áþekk afgángi spendrekks[5].

1119.
Við hlaupum daginn út og inn,
eg og hann lángi bróðir minn,
frá eitt til tólf, þó ei með hrað.
Áttu nú að geta það.

1120.
Viltu ekki geta
hvað var eg að starfa,
Dellíngsbur áður
dró yfir ljóra,
lét eg valabrík
víða sveima
um reykarfjalls skóga
í regni náttkera,
safnaði eg dýrum
sex ærðum
og fergði
með klaufum
svo fjörinu týndu.

1121.
Vinnumaður vildi fá
verkalaunin bónda hjá,
eg sá fljúga fugla þrjá,
förum við að veiða þá.

Öndin fyrir álnir tvær,
álptin jöfn við báðar þær,
titlíngana tíu nær,
tók eg fyrir alin í gær.

Af fugla kyni þessu þá
til þrjátíu álna reikna má,
þó vil eg ekki fleiri fá,
en fugl og alin standist á.

Þýðíng:
Álptir fjórtán eru hér til
og einum titlíng fleira,
á einni geri eg önd þér skil
ekki færðu meira.

1122.
Vinnur stránga verkið svert
vatns úr díki smoginn,
endilángur og um þvert
allur er eg boginn.

1123.
Vinur elda vakka réð
um væna grundu,
baulu krakka klæðafeldi
keyrði í sundur.

1124.
Vissi eg af hjónum,
var sá munur beggja,
mér er það fyrir sjónum,
mætti eg til þess leggja,
hvernig þau voru í rekkjunni raung,
hann var of stuttur,
en hún var of laung;
upp hann sér sneri,
undan hún leit,
ygldi sig síðan
og faldinum sleit,
sú ber dökkvan sjónarreit,
svo fer hún um í minni sveit,
optast freðin, en aldrei heit.

1125.
Víðari munn en maga ber
mun það eingan furða,
ofan um hennar fótinn fer
fæðan sú, sem gefin er.

1126.
Vorum limir
líkama sama,
urðum húðflettir
og hart nauðbeygðir,
þér að þóknast,
þín not að stunda,
laun vor verða
loks í eldi.

1127.
Það heyrði eg nýast
nú fyrir skömmu,
að ein gekk þúnguð
af ótal sonum,
fætt gat hún eingan
þótt fjör kostaði,
utan við brodd
berðist nakin,
fyr létust allir,
en á fold kæmu
utan þeir einir,
sem í fornbrendum ham
fóstur sér tóku.

1128.
Það var fyrir fiski[1], að þessi garður var ull[2].

1129.
Það var sýn eg sá í gær á Sviðris brúði,
vaxinn njóli vænn á láði,
vafinn hvönn í gróðrar sáði.

1130.
Þar sem ferðast kóngar kríng
komendur á þá stara;
innanríkis út fyrir hríng
aldrei þessir fara.

---

[1] Jón Ólafsson frá Grunnavík segir að Brynjúlfur biskup Sveinsson hafi borið gátu þessa upp fyrir sveinum sínum, einu sinni á ferðalagi, þegar kalt var veður.

Saunggyðjan í sessi há
sínar telur dætur,
gómakvörnum geingur á,
gagnast lítið fætur.

1131.

þarfvirkan einn
þrátt sá eg gánga
um grýttan veg, ís
og grafna moldu;
eldur fló honum
af ísköldum munni,
heitir kennari
heiðinna þjóða.

1132.

þá veit eg bygging
búna með sætum,
berjast þar inni
brúðir þrjátíu;
frændur tveir
fyrir frúnum dansa
og augun setja
á allar systur.

1133.

þegar eg hleyp sem hraðast,
hreyfi eg ekki fæturna úr stað.

1134.

þegar svölur týr við tvær
teingjast bak og framan,
húðina þá fagra fær,
fugls ber nafn alt saman.

1135.

þegi fæddur enn eg er,
ekki í móðurkviði þó;
inni fallegt á eg mér,
uni eg þar með góðri ró.

1136.

þegjandi mælir þerna hér
þrætum eyðir ljótum,
sigurnagla sú þó ber
sér í túngurótum.

1137.

þekkir þú ei þann hlut,
sem þeir bera,
hestar hraðfara,
en hleypur þó aldrei;
spor má hans telja
á sprángvallar bökkum;
opt sézt hann algjör
í öldúnga sætum?

1138.

þekkir þú hann Galinn
úr Gaulardölum?
er hann jóð börfa,
sem járn heitir,
hnísinn og hvimgjarn
hvarflar í vindum,
hefir túngumál
tveggja bókstafa.

1139.

þekkir þú mey þá,
er þokka býður,
virðuleg bæði
að kyni og kostum;
er hún skyldust
allsherjar kóngi,
og hann tignar,
svo ekkert lýtir,
stólpi, styrkleiki
stofn hamíngju;
af hennar verkan
veröldin stendur;
haldandi bygðum,
hún má því kallast,
endurnæríng
náttúrunnar.
Já líf og yndi
allrar veru;
allir vilja
öðlast þá seinni,
eigi vegna
vinsældar hennar,
heldur gæða,
sem hún er að spilla
en skal samt öllum

aptur skila
henni með rentu
rífri um síðir.
þar sést nú munur
þessara snóta.
Allir stunda
að öðlast þá fyrri,
þá hún er fullgjörð,
þá er nóg feingið.
Hver, sem græskulaust
gaman mitt þýðir,
hendi happ hvert
hér og síðar.

1140.

þeytispjald eg þarflegt sá með þremur fótum,
gagn það tíðum gerir snótum.

1141.

þótt lítils mig virði
lýðir, eg skýli
þeim bezta parti
af búki þínum.
Höfðíngjar þegar
heim mig sækja,
með auðvirðu hrakin
er eg um bekki.

1142.

þótt óæti sé í mig helt,
ægis lostnum bróður,
þá hann hefi í maga melt,
matur þykir hann góður.

1143.

þótt þú eigir lykil, sem geingur að öllum skrám, þá brúkarðu hann aldrei, fyr en þú hefir lokið upp.

1144.

þótt æru rýrrar unnir mjer,
ekki er því að gleyma,
bezta partinn þó af þjer
þrávalt fæ að geyma.
Sértu staddur herrum hjá,
hvernig sem því er varið,
útí horn mig hrekur þá
og hirðir ei um mig parið.

E. Th.

1145.

þreifaði eg eitt sinn
upp í himin,
varð þar fyrir mér
vegur kjalar,
sá eg þar sex lauf
sama litar,
komin að lángt
um kjalar vegu;
tólf stóðu bræður,
tveir á hverju,
allir samfeðra
af einni móður,
ógnaði mér
hvað í þessu skeði,
því einn kom þar púki
óttalegur,
sá var þrjú hundruð
sagður álna,
fimm og sextíu;
svo ferlegur var hann;
hratt hann mér áfram
um hæð mína rétta,
var eg þó óskelfður
í því hnjaski;
uxu nú önnur blöð
aptur að nýu.
Um afdrif þeirra
ei veit eg parið,
hlýtur það fara
sem forlögin skamta.

1146.

þrífðu forkinn þritenta,[1]
þrjú mörbjúgu einnig þar,[2]
og með lensu[3] uppgötva
ár þá Svartidauði var.

1147.

þrífættur piltur
þrifinn og vandstiltur,
leikur við hendur,
þá lukkan á stendur,
fljóðum lið færir,
fóttroðinn samt er;
segðu hver sá er.

1148.

þríhöfðaður þussi grár
þenja sig um landspláz vann;
opt því loptar orkuknár,
sem allmargt er á þýngd við hann.

1149.

þrjá leit eg bræður
þriflega vaxna,
fædda í myrkvið
furðanlega;
einn var mestur
á að líta,
hann og gisti
hæsta sæti:
tveir mjög þarfir
þúnga báru,
lafvotur var það
litklæða baggi.

1150.

þræll einfættur opt í önn,
áður hafði nagað grjót,
skældur mjög með skakka tönn,
skrekkilegur er haus á þrjót.

1151.

þussa hefi eg svartan séð,
setur fót í auga,
hörðum kyssir munni með,
meiðir glóðar drauga.

1152.

þussar tveir við hamra há
hvellan-þeyta lúðraklið,
blæs þá hver sem betur má
bylur hljómur kletta við.

1153.

þorsteinn prestur Sveinbjarnarson á Hesti, var spurður hvar hann ætti heima, og svaraði hann þessu:

þú munt hafa vit í vösum,
vel ef skilur orð mín sljó;
bær minn frísar feitum nösum.
ferðmikill en latur þó.

Hinn gat ekki svarað, og sagði þá þorsteinn:

Svarið bresta mig ei má,
mér er vest að þegja,
eg á Hesti heima á,
hreint er bezt að segja.

1154.

því meira, sem úr mér er tekið, því stærri verð eg, og því minni, sem meira er í mig látið.

1155.

Ylnum sólar blær réð brjála,
brölti eg veginn,
haukastól í Skrýmnis skála.
skaut eg feginn.

1156.

Ýmist geing eg eða stend,
þótt einga fætur hafi,
eg væri ei til Íslands send,
ef einga hefði eg stafi.

J. B.

1157.

Ýtar mig finna en ekki sjá,
eldur og vatn mig einatt hýsa,
augnlausan voðir fleys mig prísa,
óþreifanlegur þreifa eg á.

1158.

Öldúngur einn á veldi
um skygður fann sér bygðir,
sællegur sat á stóli,
sá gekk og hrykti þrávalt,
opt fæddur aldrei deyddist,
ók sæti grafkyr, hnókinn,

mölvaði síðan sjálfur,
systir hans þar við misti.

1159.
Öll er eg úr járni,
með eggjum tveimur
og gati á öðrum enda.

1160.
Öllum kærir erum vér,
allra helzt þó móðum,
allra rassinn að oss ber,
öllum faðminn bjóðum.

1161.
Öllum verka eg í hag,
öllum skepnum þéna eg;
bæði nótt og bjartan dag
búum jarðar veiti eg.

# Gátur

## um það, sem skipinu fylgir,

samansettar af Ólafi Jónssyni 1685.[1]

1662.
Hvað er það í skipi
og í hjarta manns.
einginn gleðst sá,
það eina vantar,
kóngur aktar það
kórónu fremur,
því án þess gilda
eingin heimsgæði?

1163.
Hvað er það í skipi
og hjarta manns,
alment orðtak
um alla dóma,
hvar það einrátt
er í dómi,
misjöfn er von á
manna réttlæti?

1164.
Eitt er í skipi
og kvenna höndum,
líður eins og þær
og þeir laungum stela,
geingur sem ambátt
alla daga,
en þrotnar sem þrælar
Þór offraðir.

1665.
Eitt er í skipi
og ýmsum bæum,

[1] Mun eiga vera sá sem var skólameistari í Skálholti um þetta leyti, en dó sem prestur í Hítardal 1688. Stundum eru gátur þessar aptur eignaðar sjera Ólafi Böðvarssyni, sem dó í Saurbæ á Hvalfjarðarströnd 1650. Enn aðrir eigna þær Jóni Jónssyni að Nesi í Selvogi, sem líka var uppi á 17. öld.

Það þótti eiga betur við að skipa gátum þessum í eina heild, en slíta þær í sundur eptir stafrófsröð, því þær eiga allar saman.

að sumblum er það
sveipað dýrvefjum,
sett með gulli
og silfri hjá drottnum,
nakið optast
nema um dag þrisvar.

1166.

Tvö eru jafnan
tré í skipi,
líka er það orð
í lagasóknum;
sá, sem vill ferðast
að sjónhendíngu,
glögt hann það nefnir.
Gettu hvað það heitir.

1167.

Eitt er á skipi,
en áður í kífi,
í mat er það fundið
og manna höndum,
en helzt má það finna
í höndum sjómanna,
Grettis bani.
Gettu hvað það heitir.

1168.

Eitt er á skipi
og eyrum fénaðar
næsta mörgum
og manna húsum;
það verður stundum
þrúgað með tönnum,
gerir þó gagnsemd
og gettu hvað það er.

1169.

Eitt er á skipi
og hjá hermönnum,
falinn er í því
Forseta eldur,
hlífar jötna
það hellir kallast,
gert þeim til skelks
og gettu hvað það heitir.

1170.

Eitt er á skipi
og eyðiheiðum,
gerir það skaða
gotnum í reisum,
mest þó um vetur
magn það hefir,
svo er um það rætt
í rúmum manna.

1171.

Margt er á skipi,
sem má ei vanta,
hestar með frosti
fá það smíðað,
hafa hvorki
hníf né smiðju,
verður þó eins og
vafið með járni.

1172.

Eitt er með skipi,
og öllum mönnum,
líka skepnum,
sem lifa með anda,
það stillir saung
og sálinni færir
ótal skeinkja
á hverjum degi.

1173.

Það hefir nafn
sér þegið á skipi,
og á heima
í öllum bæum;
í því finnast
allir hlutir
þeir, sem skoðast
og þó enn fleiri.

1174.

Seg mér hvað það er,
sem sjá má á skipi
og svo á mörgum
úngum dýrum;
ritníng kallar það

ríkis styrkleika,
nær það fullkomið
nafn sitt hefir.

1175.

Taka má ráðníng
af tré í skipi
upp á þann hlut,
sem alt kann að hræra,
í annan máta
má af því skilja
sjálfgerð fjötur
sumra manna.

1176.

Hvað er það í skipi,
sem helzt má af ráða
víkíngs vana
og vondra dómendra?
Opt hafa ríkir
af því dóm dregið
grimmlega mjög
og gettu hvað það heitir.

1177.

Eitt er á skipi
og allmörgum byrðum,
nafn þess er hálft
í nautum og sauðum;
ráðníng af þessu
rétt má finna,
mönnum til gamans;
máttu það segja.

1178.

Eitt er með skipi
og öllum mönnum
að helmíngi nafns,
en hálft með meisturum,
þá hafa það allir
í þriðja máta,
það sést á smíðum.
Seg mér þess greinir.

1179.

Eitt er með skipi
og örðugum vegi,
einnig kindum
önd, sem draga;
eg hefi heyrt,
að unnustu hendur
mundu það finna,
ef mót færi að lagi.

1180

Eitt er með skipi
enn nú fundið,
víst mun það upphaf
til vatna stórra,
eingu síður
að ofan né neðan;
stundum verður úr því
stórfjúk mikið.

1181.

Eitt er með skipi
og eggjárni mörgu,
það er nauta bein
og þar til sauða;
það verðar fundið
í fornri mállýzku,
meistara titill
manns og brúðar.

1182.

Eitt er með skipi
og iðrum jarðar,
í lopti og í ljósi,
lýðir því fagna;
hafi það nokkurn
hríng fyrir nösum,
þá drepur það menn
og mállausar skepnur.

1183.

Það er með skipi
og í þaunkum manna,
sem aldrei skyldi
eiga þar heima;
helbygða stýrir
hefir því ollað,
en illum kemur það
ofan frá drottni.

1184.
Eitt er með skipi
og ýmsum flokkum,
sem ýngismenn þreya,
þar eru til dæmi,
eiga þó fæstir
utan viku.
það firtist þá líka
og fer í burtu.

1185.
Eitt er með skipi
og ýmsum stöðum,
undur er af því
í öllum sveitum,
eiga þó margir
örfátækir
meira en þeir ríku,
má það nú ráða.

1186.
Hvað er það í skipi,
sem hefir nafn dregið
af hlut þeim, sem var
í hofum goða?
það má helzt finna
á þessum tímum,
þar hestum er gefið
að hentri ráðníngu.

1187.
Leynisköp manna
líka má þýða
út af þeim trjám,
sem eru í skipi,
það mega stúlkur
með stillíng út leggja,
annars hygg eg það
of leingi bíða.

1188.
Enn fylgja skipi
önnur tré nokkur,
kvenna ófrelsi
það kallast laungum,
og andvöku efni,
þar eru í bæum
og barna grátur
að böli litlu.

1189.
Hvert er það tré
svo heitir í skipi:
stafur á bókum,
stoðir næst skipum,
samsleginn völlur
og snáka feldur,
illvirkja þraut
á öðrum parti.

1190.
Eitt þarf skip hafa
í öllum þrautum,
því skal nú síðast
þar til víkja,
en er það kemur
í augu manna
litla þægð fær það
með laungum vökum.

1191.
Laufeyar son
og lagasóknir
heitir svo tré
í hverju skipi;
ráðníng ef þessa
rétt þú finnur,
mönnum til gamans,
máttu það segja.

1192.
Í holdfúa húsum
og hættum meinum
á það nafn
og einnig í skipi;
út ef slitnar,
eymstur batna,
en knör ófæran
kann það gera.

1193.
Þó fylgir skipi
þar til nokkuð,

sem orð guðs merkir
og anda hans vottar,
knör ef brestur,
kemst þá hvergi,
mega það ráða
menn sér til gamans.

## Gáta Páls Bjarnasonar.[1]

1194.

Kom eg að rúmi
Ránar barna,[1]
öll voru þau
í útlegð flúin
þángað, sem Fornjótur
frekur hafði
sinn son[2] skikkað
að setja dóma.

Hömlúng[3] sá eg
á hafnar rúmi
þann, er valslaungur[4]
vöktuðu á grunni,
rastaður var hann
að rækja þær gjörðir,
sem gæflyndum Kára
gefst að bjóða.

Beima hans sá eg
bergja þarfindi,[5]
því kramarans bygð
kúgaðist þraungvan,
reiðskjótar voru þar
reifaðir gjörðum,
sem bar fluttu steina[6]
í bygðir manna.

Reið eg vígferla[7]
frá vindils jörðu,[8]
um það alda
örnefni jarðar[9],
þar er Ýmis tár
optlega höfðu
vandræði aukið
volendum mönnum.[10]

Þær voru grundir
af gylva stjarna
allar með snilli
útrústaðar,[11]
en bekkir allir
að botni jarðar
burtu voru færðir
af brautar gaungum.[12]

Valjarðar[13] ávöxt[14]
víða, að nægtum
líkamans, um
litast mátti

[1] Höfundur þessa gátnaflokks bjó í Unnarholti í Hrunamannahrepp á seinni hluta 17. aldar. Gáta þessi kom fyrst upp úr kafinu, þegar farið var að prenta safnið. svo henni varð ekki raðað niður þar sem hún átti eptir heima stafrofsröð.

sem af móæðum
mánategundar[15]
ártíðs hafði
af eðli runnið.

Leiðángurs var eg
og leit allmargar
hvítfaldaðar[16]
á harðbarðs fróni,[17]
þar sem mæli fornt
var úr minni guma,
höfðu staðið
Heimdalls fætur.[18]

Þær voru að lesa,
í þumlúnga mát[19]
lýngknappa saman
litlar rúnir,[20]
og kváðust raunar
ráða illa,
því ofvetur[21] þeim
afnám gerði.

Kom úr andfari[22]
krásara lýður[23]
og knúði ilþornum[24]
að kjalars meyu,
létu víða
valbartils skálmir[25]
vaða ofsvæsið
að vini lýngballar.

Undra sá eg þar
eitt dýr jarðar,[26]
sem allfæstum
yffrar þörfum,[27]
hverfur í manns skugga,
megnar sjónir
og færir svín moldar[28]
að fergins degi.[29]

Hefi eg á landi[30]
hlauparans[31] dvalið
og sjö knélýði[31]
setið til heljar,
og samnefndir
síðar koma
synir þeirra
með sönnum greinum

# Þýðingar.

1. Hnútur.
2. Maður gekk undir (Seljalands) foss.
3. Hettusóttin.
4. Hesputrje?
5. Strokkbulla.
6. Rokkur.
7. Kindarhorn.
8. Góðverk mannsins.
9. Reykur.
10. Spil.
11. Penni.
12. Túnglið.
13. Löð.
14. Púður.
15. Flugur á mykjuskán.
16. Mannorðið.
17. Jósep bað Pílatus um lík Krists.
19. Vagga.
20. Steðji.
21. Afmælisdagur.
22. Stjarna.
23. Myllur á upphlut.
24. Dráttarnet.
25. Stóll.
26. Geitur (í höfði).
27. Páll.
28. Steinn.
29. Ketill.
30. Þeir báru frosna mjólk í lúkunum.
31. Tíminn; blöðin: dagur og nótt.
32. Ljár.
33. (Jón) Espólín.
35. Klukka.
36. Mjólkursía.
37. Kvarði.
38. Blekbytta.
39. Torfljár.
40. Meis.
41. Sög.
42. Sjálfskeiðíngur; [1] horn, [2] járn, [3] kopar, [4] egg, [5] bakki.
43. Lækur.
44. Heykrókur.
45. Sauðarvala.
46. Klukka.
47. Skór.
48. Sama.
49. Vefur sem bóndadóttir átti að fella.
50. Kvísl.
51. Hestur á fimmboruðum skaflaskeifum.
52. Karfa sem var kölluð veröld.

53. Smiðja og smíðatól.
54. Maður frá Tindi kom til Ásgeirs í Kollafjarðarnesi. Guðlaug (lög) veitti honum beina. Hann sá þar spegil. Þaðan fór hann að Steinadal.
55. Hann batt hestinn við dauðan mann, sem var rekinn af sjó við árós; aðrir segja: við sjálfan sig.
56. Sama.
57. Kýrin var mörlaus í enninu, eins og lætur að líkindum.
58. Maður sá ferhyrnda á; [1] fæturnir, [2] tærnar.
59. Í gátunni er orðaleikur og á að taka hana þannig: mæta blá (klædda) brúðurin ber bláber í kjöltu(nni). (Hún) sér sveininn mæta sjer. Sá (þ. e. hann) sá ekki við því (þ. e. tók ekki eptir því að hún var með ber).
60. Íslenzki vefstaðurinn; [1] kljásteinar, [2] þræðir, [3] höföld, [4] fíngurnir, [5] rifurinn, [6] voðin.
61. Silúngur.
62. Penni og þrír fíngur (þegar verið er að skrifa.)
63. Óskapnaður.
64. Tóbakspípa.
65. Ljár.
67. Þjöl.
68. Tóbakspípa.
69. Eggskurn.
70. Mannshöfuð.
71. Drepur hjet vinnumaður bónda og átti hann eitt hrossið.
72. [1] Dagur, [2] Barbára, [3] Stígur, [4] Ása.
73. [1] Kálfur, [2] Högni, [3] Refur.
74. [1] Hallur, [2] Steinunn, [3] Stígur, [4] Torfi, [5] Una.
75. Hallvaður og Snjólaug.
76. Skjár.
77. Tóbakspípa.
78. Sjálfskeiðingur.
79. Ullarkambar.
80. Bandprjónar.
81. Ullarkambar.
82. Sama.
83. Klakkar á klyfbera.
84. Sama.
85. Smiðjutaung.
86 Hattur.
87. Teníngur.
88. Sög.
89. Hór (hóband).
90. Lúsakambur.
92. Hurð á hjörum.
93. Vinduteinn.
94. Hestskónagli.
95. Þeir voru að leita sjer lúsa.
96. [1] Árar, [2] bárur, [3] stýri.
97. Vax.
98. Baðstofa sem 16 manns voru inni í; augun: gluggar; fæturnir: stoðir.
99. Spegill.
101. Sokkar.
103. Klukka.
104. Dúnn.
105. Tíminn.
106. Skeifa.
107. Ljár.
108. Tíminn.
109. Hnakkur.
110. Svipa.
112. Múta.
113. Tóbakspípa.
114. Silfur.
115. Vetlingar.
116. Rúm.
117. Litur.

118. Landkort.
119. Reizla.
120. Eva.
121. Tóbakspípa.
122. Vegur fuglanna í loptinu.
123. Öxará.
124. Uppblásinn líknabelgur.
125. Tíðin.
127. Ásný.
128. Eiríkur.
129. Lagið.
130. Bók í trjespjöldum sem vantaði í.
131. Skip.
132. Stúlka bar mat á nautsherðarblaði.
133. Kaffiketill.
134. [1] Örn, [2] valur, [3] æður, [4] kráka, [5] þerna(kría), [6] himbrimi, [7] jaðrakan, [8] gammur, [9] þeistikofa, [10] önd, [11] gæs, [12] tjaldur, [13] svanur, [14] hrafn, [15] már, [16] rjúpa, [17] súla, [18] lundi, [19] trana, [20] skrofa, [21] svala, [22] lóa, [23] skúmur, [24] fýlúngur, [25] vætukjói.
135. Rétt.
137. Tóbaksponta.
138. Kotra.
139. Í orðinu «tólf» eru fjórir stafir, ef tveir þeirra eru teknir burt, eru ekki eptir nema tveir.
140. Maður fann dauðan hest, frosinn niður í svell.
141. Árið.
142. Stúlka gyrti sig með líknabelg.
143. Lagið.
144. Kirkjulykill.
146. Æska og elli.
147. Blekbytta.
148. Tíðin,
149. Ísa.
150. Saumnál.
151. Skip
152. Á.
153. Byssa.
154. Reka.
155. Hnapphelda.
156. Skrá; [1] féður, [2] fjöður, [3] fluga er platan kölluð, sem er fyrir lykilgatinu, [4] hald, [5] pípa, [6] skerðíng.
157. Kerti.
158. Sauðarétt.
160. Spónalög.
161. Tóbakspípa.
162. Húfa.
163. Eldvirki (tinna og tundurbaukur).
164. Krókur og lykkja.
165. Byssa.
166. Hefill.
167. Mjólkursía.
168. Lóð.
169. Sleggja.
170. Fit (sundfit og fit á sokki).
171. Blöndukanna.
172. Hurð.
173. Þjöl.
174. Greiða.
175. Kvarnarsteinar.
176. Saumnál.
177. Saumhögg.
178. Fíngurbjörg.
179. Fæða.
180 Fjallvegavarða.
181. Hvor átti annars dóttur, þegar fyrri konur þeirra voru dánar.
182. Lóð.
183. Askur.
184. Hefill.
185. Hríngur.
186. Hefill.
188. Skænisbelgur.

189. Árið.
190. Kaffiketill.
191. Bylur.
192. Árið.
193. Strokkur.
194. Jafníngi.
195. Smiðjubelgur.
196. Kuldi og frost.
197. Þyrill.
198. Sigríður; [1] *i* í illhveli, [2] *g* í guð, [3] *r* í regn, [4] *i* í ís, [5] *d* í dauði, [6] *u* í urð, [7] *r* í reið.
199. Prjónakoddi.
200. Sirkill.
201. Pállinn.
202. Hefill.
203. Strompur.
204. Skrokjárn (bolti).
205 Lampi.
206. Flór.
207. Dalur.
208. Stafur á bók.
209. Sendibréf.
210. Hafskip.
211. Strokkur.
212. Sama.
213. Reipi.
214. Oddur Jónsson átti spón og var nafn hans grafið á skaptið.
215. Oddur Oddson o. s. frv. sbr. 214.
216. Lýgi og sannleikur.
217. Skapti, Hjalti, Eggert.
219. Kónguló.
220. Peníngur.
221. Reyktóbak.
222. Árið.
222. Ljósaplata.
224. Burniment (?)
225. Klukka.
226. Smjaður.
227. Tog.
228. Kambur.
229. Ostur í ostpoka.
231. Hallur, Gróa, Málfriður. Oddur.
232. Hundétið skinn.
233. Vörður.
234. Biti.
235. Líkkista.
236. Mannsístra.
237. Glerbrot.
238. Skugginn.
239. Sjávarbylgja.
240. Sjófuglsegg.
241. Bók.
242. Bandprjónar.
243. Klyfberi.
245. Varða.
246. Dagur (mannsnafn).
248. Matborð.
249. Meis.
250. Vefstóll.
251. Kýr mjólkuð.
252. Skyrbelgir.
253. Kýrspenar.
254. Kýr (fætur, spenar og hali).
255. Kýr.
256. Skeifa og naglar.
257. Brennivínskútur.
258. Blásin hlandblaðra.
259. Spónn.
260. Hugurinn.
261. Nauti var slátrað, það var gert til og garnirnar mældar.
262. Vindmylna.
263. Sleggja.
264. Næturgagn.
265. Maður frá Túngu sótti sauð.
266. [1] Ísar. [2] töltur. [3] horn; stormur = veður = hrútur. [4] skaflar. [5] ísar. [6] stafur; lásakraptur = fjöður. [7] greni; skáldið gekk við grenistaf. [8] fall; mæta falli = detta. [9] broddurinn. [10]

hvass; stór vindur = hvassviðri. [11] strönd. [12] hrís (vöndur) = skógur; skáldið gekk út Skógarströnd. [13] fjarðarheiti; hörmúng svana = Álptafjörður. [14] að lofa einhverju = að heita einhverju; heiti = nafn. Ísland er kent við ísinn. [15] á. [16] hræbarður er bjarnarheiti en nótt bjarnar er vetur; skáldið hélt að eingin á væri íslaus um þann tíma árs. [17] skinnsokkar; skinn = bjór = drykkur. [18] hraun; Raumur er jötunsheiti. [19] = hörmúng = fjörður. Skáldið fór yfir Hraunsfjörð. [20] Tröllkonuháls; fjallseggjar = brúnir; brúnasól = auga: hnúkur augna = höfuð; stólpi höfuðs = háls; flagð = tröllkona. [21] hríð; Dætur Hrólfs konúngs Kraka voru þær Mjöll og Drífa. [22] viðarkol. [23] grafir; skáldið fór að bæ sem hét Kolgrafir. [24] sbr. 13. [25] sbr. 1. [26] *ó* en það er ós í málrúnum. [27] fjara. [28] Rúna = sólin; bróðir hennar = túnglið. [29] þeir sem eitthvað kaupa vilja fá heimild á því; heimili = bær. [30] Eyði. [31] = gríma = nótt. [32] beini; innýflabönd = rif = bein. [33] Setberg, þegar Þór ætlaði forðum að ljósta Skrýmni jötun með Mjölni, brá Skrýmnir bergi fyrir, svo Þór vissi ekki af, en hamarinn markaði far eða set í bergið. [34] Björn. [35] prestur og bóndi. [36] merghús = bein sbr. 31. [37] hryggur = bak; skáldið fór til baka. [38] = braut = leið. [39] = sveit manna = sveit = hérað. [40] Laxárdalur; hrygna = lax, morgun = ár· mynt = dalur, gin = kjaptur. [41] veröld = heimur; skáldið átti heima í Laxárdal. [42] Saurar. [43] Þór; fóstri ellinnar = Útgarðaloki; fálkastóll = hönd tjald hennar = vetlíngur. Þór var nætursakir í vetling Útgarðaloka, eins og kunnugt er. [44] hein = steinn; skáldið hét Þorsteinn.

267. Bjarndýr drap sel og var svo drepið.
268. Maður fór til kirkju og heyrði klukknahljóð á leiðinni.
269. Maður reið fram hjá sölubúð.
270. Trébrú.
271. Uppblásinn líknabelgur.
272. Skór.
273. Bóndi gekk til baðstofu og voru þá sum af börnum hans að kemba í látúnskömbum, en sum voru aðgjörðalaus og fýld.
274. Túnglskin.
275. Löð.
275. Spegill.
277. Ullarkambar.
278. Huguriun.
279. Sólbráð.
280. Vindur feykir burt föli.
281. Tjald.
282. Egg.
283. Vínber.
284. Egg.
285. Kútur sem annar botninn var brotinn úr.
286. Egg.
287. Ljósastjaki og ljósasöx.
289. Hani.

290. Korn malað í vatnsmyllu, borðað o. s. frv.
291. Hefill.
292. Dauður sauður vargëtinn.
293. Skip.
294. Fingurbjörg.
297. Spónn.
298. Titlingur átti tíu únga í hreiðri, í hrosshaus.
299. Gulltúngan.
300. Ponta.
301. Reykur.
302. [1] Lömb; blær = veður. [2] skjóla = fata. [3] uggar. [4] tennur. [5] vetur; veturliði = bjarndýr. [6] nóg og gott fóður.
303. Maðkaflugur í hrosshaus.
304. Köttur.
305. Sama.
306. Skæri.
307. Tveir menn áttu hvor annars dóttur.
308. Maður fann stúlku og gaf hún honum kúamjólk og konúngsnef.
309. Maður fann í skógi konu, sem var að ala barn, og bar barnið á burt.
311. Örk Nóa.
313. Eiðurinn.
314. [1] Ket. [2] á eða vatn. [3] lax. [4] silúngur. [5] möskvi á netinu.
315. Kirkjulykill.
316. Reykur.
317. »Guðrún« skrifáð á snjó.
319. Nafar.
320. Sama.
321. Spónn.
322. Maður fann til folalds í færleik.
323. Uppblásinn liknabelgur.
324. Undið af snældu í rúminu.
325. Klafi.
326. Kálfshaus.
327. Kona skamtar úr keraldi.
328. [1] Hraun. [2] Skjálfandafljót. [3] Kinn. [4] Arnfríður. [5] Björg.
329. Bók.
330. Dýrabogi.
331. Ponta.
332. Saumnál.
333. Reykjarkaf.
334. Hárið.
335. Gaffall.
336. Gróa.
337. Jörð fyrir og eptir sumarhret.
338. Skáktafl.
339. Vefjarrifur.
340. Valgerður.
341. Dýrabogi.
342. Gaungustafur.
343. Spegill.
344. Loki þegar hann flaug undan Þjassa.
345. Strokkur.
346. Hafliði.
347. Guðbrandur.
348. Kristmundur.
349. Kaffibaun.
350. Mjólk í konubrjósti.
351. Ljósberi.
352. Myrkur.
353. Vatn.
354. Járnkall.
355. Kvörn.
356. Strokkur.
358. Reka.
359. Eg vil heldur raka gæru en slá.
360. Dýrabogi.
361. Nói.
362. Kýr át tréhest.
363. Líkaminn.
364. Selur á sundi.
365. Fjós.
366. Eldtaung tekur eld úr ösku.
367. Lampakveykur.

368. Ormur lá á gulli.
369. Maður sá uppblásna hlandblöðru úr sel, sem stúlka hafði blásið upp og bundið fyrir þráðarspotta.
370. Fatakista.
371. [1] Ljárskógar. [2] Svalbarði. [3] Svínahóll. [4] Oddastaðir.
372. Vilborg og Sturla.
373. Kanna.
374. Penni.
375. Hríngur.
376. Sjórinn.
378. Lampi með ljósi.
379. Kjallaraflöskur.
380. Kvörn.
381. Penni.
382. Han var svo koraður.
383. Snælda.
384. Að lasta.
385. Illmálug túnga.
386. Hugurinn.
387. Hattur.
388. Kerti.
389. Blekhorn.
390. Bók.
391. (Uggarnir) Aldrei má vera ugglaus.
392. Hnífur.
393. Núll.
395. Lagið.
397. Skaflaskeifa.
398. Gull.
399. Reizla.
400. Kerti.
401. Skepnan.
402. Tágakarfa.
403. Sinn líka.
404. Rógburður.
405. Konúngur.
406. Eldurinn.
407. Fíngurbjörg.
408. Lampakveykur.
409. Reizla.
410. Sama.
411. Aungull.
412. Sólargeislinn.
413. Koddaver.
414. Myrkur.
415. Skjágluggi.
416. Hvalfiskurinn með Jónas.
417. Flautaþyrill.
418. Skór.
419. Hver.
420. Fretur.
421. Reykháfur.
422. Hjólbörur.
423. Hestskónagli.
424. Ljósasöx.
425. Kerti.
426. Horinn.
427. Vatnsfall.
428. Myrkrið.
429. Hafskip.
430. Koddi.
431. Tjald.
432. Vagga.
433. Pottur.
434. Ausa.
435. Sólin (hún bræðir snjóinn en vatnið verður eptir).
436. Reykur.
438. Sjálfskeiðíngur.
439. Fótur.
440. Skeifa.
441. Rokksnælda.
442. Hefill.
443. Kvörn.
444. Hefill.
445. Nafnið.
446. Saurindin.
447. Tík með níu hvolpum.
448. Köttur.
449. Fimm fíngur.

50. Hleypt mjólk.
451. Korn, þegar malað er.
452. Saumnál.
453. Leti.
454. Eldtaung.
455. Vinnukona drap jötunuxa, með vitund húsbóndans.
456. Eldurinn.
457. Rokkur.
458. Eldurinn; heitir = hitar.
459. Steðji.
460. Hvað.
461. Skuggi og Litur.
462. Litur og Skuggi.
463. Augnalok.
466. Ekkert.
467. Smiðjutaung.
468. Oddur, Eggert, Hjalti, Skapti, Ás, Kinn. Bakki.
469. Snælda.
470. Ekkert (Brúnt hross sér eins bjart og mennirnir).
471. Eldur.
472. Eldist.
473. Jurt.
474. Hurðarkrókur úr hrútshorni.
475. Eldur.
476. Band.
477. Æðarnar.
478. Hraun.
479. Bær.
480. Í örkinni hans Nóa.
481. Skegg.
482. Maður lá á skothúsi og sá hest og rjúpu.
483. Á Selvöllum, en selvellir eru líka sjórinn.
484. Braut og far eptir menn og málleysíngja.
485. Eitt steinsnar.
486. Á hestbaki.
487. Nál.
488. Hani.
489. Örkin hans Nóa.
490. Lóð.
491. Tóbakspípa.
492. Vog.
493. Sjónauki.
494. Fjalaköttur.
495. Gluggi.
496. Hnykill.
497. Svefninn.
498. Máninn.
499. Rokkur.
500. Skautafaldur.
501. Dagurinn.
503. Hefill.
504. Söðull.
505. Tíminn.
506. Fjalaköttur.
507. Maurildi.
508. Elskan.
509. Sjórinn.
510. Þeytispjald.
511. Vindurinn.
512. Hugurinn.
513. Meis (laupur).
514. Skip með 8 árum.
515. Sjórinn.
516. Skip undir seglum.
517. Kattarkryppan.
518. Aungull.
519. Skugginn.
520. Túnglið.
521. Fótskemill (skammel).
522. Klukkukólfur.
523. Prestur fyrir altari.
524. Hnöttur.
526. Hundur?
527. Húfa.
528. Aflhólkur.
529. Tjald.
530. Þolinmóður.
532. Bandrjúpa.

533. Tóbaksbaukur.
534. Heynál (heykrókur).
535. Hór (hókrókur).
536. Rokkur.
537. Klafi.
538. Hverfisteinn.
539. Strokkur.
540. Stundaglas.
541. Herðakistill.
542. Penni.
543. Vöndur.
544. Pípukóngur.
545. Ljós.
546. Ár, mánuðir, vikur og dagar.
547. Flautaþyrill.
548. Árniður.
549. Kompás.
550. Hvalfiskurinn með Jónas.
551. Skugginn.
553. Hamar.
554. Spegill.
555. Skuggi manns.
556. Reykur.
557. Samvizkan.
558. Bók eða bréf.
559. Vaxkerti.
560. Gröf Krists.
561. Kain drap bróður sinn.
562. Tíminn.
563. Kerti.
564. Hugurinn eða sólargeisli.
565. Strokkur.
566. Reykur.
567. »Eldur í ösku fólginn«.
568. Fífill.
569. Lýsislampi.
570. Hornskeptur sjálfskeiðíngur.
571. Regnboginn.
572. Svipur.
573. Skák.
574. Tennur í efra gómi.
576. Rokksnælda.
577. Hrútur.
578. Hrífa.
579. Griffill.
580. Kvörn.
581. Fjárhirzla.
582. Krít.
583. Handbók.
584. Bók.
585. Skip.
586. Vitríngastjarnan.
587. Gleraugu.
588. Nál.
589. Maðurinn.
590. Ár, mánuðir, vikur og dagar.
591. Hesputré.
592. Laxakista.
593. Vínflaska.
594. Konan hans Lots.
595. Kirkjuklukka.
596. Kotra.
597. Túngan.
598. Regnboginn.
599. Bók.
600. Fíngurbjörg.
601. Sög.
602. Tóbaksbaukur.
603. Skrá og lykill.
604. Kirkja.
605. Pennafjöður og penni.
606. Hafið rauða.
607. Skrá og lykill.
608. Kerti með raki.
609. Reka.
610. Tjald.
611. Kertaljós.
612. Fjaðrapenni.
613. Grötin.
614. Fíngurbjörg.
615. Kaupskip.
616. Ár, mánuðir, vikur og dagar.
617. Byssa.
618. Fjaðrapenni.

619. Bók.
620. Kirkja.
621. Karfa.
622. Gröf.
623. Elli.
624. Snjóhús.
625. Kirkja.
626. Sög.
627. Mánuðurinn Harpa.
628. Gátan.
629. Hrífa.
630. Sög.
631. Tregt.
632. Blekbytta.
633. Túngan.
634. Lús.
635. Klukka.
636. Sóley.
637. Fjaðrapenni.
638. Klukka.
639. Tóbakspípa.
640. Sama.
641. Fjöður.
642. Krít.
643. Vog.
644. Vefjarskeið í íslenzka vefstaðnum.
645. Tóbakspípa.
646. Klósög.
647. Seilarnál.
648. Ofn.
649. Kertisljós.
650. Mjólk.
651. Kaupskip.
652. Snælda.
653. Vagga.
654. Hjarta mannsins.
655. Kirkjuklukka.
656. Meydómur.
657. Vefstóll.
658. Byssa.
659. Tóbaksponta.
660. Eg.
661. Skugginn.
662. Fótur.
663. Guð.
664. Dagurinn.
665. Spil.
666. Kóngur og drottníng.
667. Spil.
668. Æður, önd, lóa og lundi.
669. Loptur, Torfi, Stígur og Steinn.
670. Dagur og nótt.
671. Krókapör.
672. Augun.
673. Gleraugu.
674. Sogari (sogtregt).
675. Eldur.
676. Í örkinni hans Nóa.
677. Asna Bileams.
678. Kirkjuklukka.
679. Vindurinn.
680. Keldusvín.
681. Jörð snælögð.
682. Nálspor.
683. Rjúpur.
684. Bárur.
685. Skæri.
686. Skærakinnar.
687. Ástir á nöglum.
688. Dætur Lots.
689. Sendibréf.
690. Synir Adams.
692. Ljós í kolulampa.
693. Bandprjónar.
694. Sendibréf.
695. Steinn (mannsnafnið).
696. Ullarkambar.
697. Eldur af eldsneyti, skækja af fýsn og Helvíti af kvölum fordæmdra.
698. Hráki.
699. Tíminn.
700. Fyrst var lambið flutt, svo pokinn og lambið til baka,

seinast úlfurinn og svo var lambið sótt aptur.
701. XII (með strykiþvert yfir).
702. 999⁹/₉.
703. Guð.
704. Munnsins og matarins.
705. Kærleikurinn.
706. Eldur.
707. Vogarlóð úr steini.
708. Fjalaköttur.
709. Maðurinn.
710. Tóbaksjárn.
711. Bók.
712. Regnboginn.
713. Þegar Ísraelslýður fór yfir hafið rauða, en Faraó drukknaði með öllum sínum her.
714. Myrkur.
715. Vindhani.
716. Loptið.
717. Hvalfiskurinn.
718. Kvörn.
719. Úr.
720. Augað í manni.
721. Hafið rauða, þegar Faraó og Ísraelslýður var á ferðinni.
722. Ár, mánuðir, vikur, dagur og nótt.
723. Ofn.
724. Örkin hans Nóa.
725. Skip.
726. Smiðjubelgur.
728. Sjónpípa.
729. Una.
730. Mannshöfuð með lúsum.
731. Ár, mánuðir, dagur og nótt.
732. Lýður.
733. Ljár.
734. Strykmát.
735. Stökk uppá nef sér.
736. Loptið.
737. Rokkur.
738. Strokkur.
739. Kvörn.
740. Öxi.
741. Árið.
742. Borð.
743. Líkkista.
744. Heimurinn.
745. Árið.
746. [1] Eingill, [2] vofa.
747. [1] Flór. [2] kýrjúgur.
748. [1] Silúngur. [2] kúaklessa.
749. [1] Kristur. [2] Skrattinn.
750. Skessa stökk yfir árgil (1); skór hennar af gulli datt ofan í ána (2), en saur hennar sat eptir (3).
751. [1] Hángiketskrof. [2] flugur.
752. Næturgagn.
754. Egg.
755. Spólurokkur og króna.
756. Aungull.
757. Hestskónagli.
758. Sama.
759. Strokkur.
760. Róin.
761. Mölur.
762. Kirkja.
763. Spegill.
764. Í eggskurni.
765. Beizli.
766. [1] Klömbur. [2] Valadalur. [3] Skarð. [4] Mörk. [5] mágar. [6] Túnga. [7] bjór. [8] egg.
767. Strokkur.
768. Hestskónagli.
769. Blekbytta.
770. Snúður (á því sem spunnið er).
771. Þjöl.
772. Flaska.
773. Hundurinn hét Nú.
774. Svörður.
775. Biblía.

776. Sonur karls, sem Drepur hét, átti eitt hrossið.
777. Hvannanjóli.
778. Pundari.
779. Hann fór í sokka hennar.
780. Kerlíngin hét Fjara.
781. Karlinn taldi fjárbólin.
782. 429, 981, 696.
783. Hann elti lambfulla á.
784. Hann fylgdi sér meiri manni.
785. Hann sá hest drekka úr bæarlæknum.
786. [1] Loptur, [2] Barbára, [3] Eyvindur, [4] Agata.
787. Karl lagði freðna vetlínga á vef kerlíngar.
788. Hann bar lambfulla á.
789. Skinnsál.
790. Karl sá leka úr klakapípu. Túngl óð í skýum.
791. Lás.
792. [1] Hálfrept hús = bæardyr, [2] dætur, [3] hundar, [4] tóur, [5] ket, rekið af sjó.
793. Hann var að leita sér lúsa.
794. Bær karls hét Enni.
795. Bær karls hét Rófa.
796. Hann skar hana á arinhellunni.
798. Rokkur.
799. Kvarði.
800. Keipur.
801. Varða.
802. Vinstur til að hleypa með mjólk.
803. Taung.
804. Sög.
805. Biblía.
806. Uxi.
807. Karl hjet Forni.
808. Gáta.
809. Ívar.
810. Orf með ljá.
811. Bandprjónar.
812. [1] Köttur, [2] hundur, [3] barn, [4] kálfur.
813. [1] Tík, [2] köttur, [3] lamb, [4] pottur.
814. Kvörn.
815. Eyrnaskefill.
816. Móðurmjólk.
817. Loðinn.
818. Maður leitaði sér lúsa.
820. Lúsakambur.
821. Löð.
822. Skeifa.
823. Hestskónagli.
824. Kona.
825. Flautaþyrill.
826. Fugl matreiddur.
827. Vetrarkvíði.
828. Lifið.
829. Tafl.
830. [1] Silúngsvatn, [2] hönd, [3] lukt, [4] ís.
831. Úr.
832. Tóbakspípa.
833. Hestskónagli.
834. Fuglshreiður troðið af hesti.
835. [1] Kirkjustaður, [2] beizli, [3] hey sem hann narraði hestinn á.
836. Lángspilsstreingir.
837. Tóbaksponta.
838. Maðurinn.
839. [1] Tré. [2] innýfli Ýmis = málmur þ. e. streingur. [3] apaldur = tré = stafur = bókstafur. *s* er stafur og ess er hestur; apaldursángi = hestángi = taglhár. [4] nót. [5] fíngur. Gátan þýðir því lángspil.
840. Njarðarvöttur.
841. Menn með viðarkesti.
843. Gluggaflyðra.
844. Tjald.

845. Kambar.
846. Ró í skipi og rósemd manna.
847. Hálsfesti.
848. Hríngja.
849. Ausa.
850. Sólargeisli.
851. Rifur í íslenzka vefstólnum.
852. Vinduteinn.
853. Hnykill og snælda.
854. Spónn.
855. Þaksteinn úr leiri.
856. Svefn.
857. Lampi með ljósi.
858. Kaffiketill.
859. Mygla.
860. Blaðka í smiðjubelg.
861. Spilakonúngar.
862. Eyvindur.
863. Reykur.
864. Maðurinn var Oddason en rak féð ofan í Odda.
865. Ferðamaður sá mús og hrafn.
866. Hann hét Steinn.
867. Hann hét Tyrfíngur.
868. Að skurna egg.
869. Maður saumaði skinnstakk.
870. Faraó Egyptakonúngur.
871. Kvörn.
872. Sandur.
873. Draumur.
874. [1] Hani, [2] nögl, [3] lús. Tvær seinustu línurnar þýða því að klóra sér.
875. Nafar og nagli.
876. Torfkrókar.
877. Meis.
878. Byssa.
879. Sama.
880. Reykur.
881. Eva.
882. Hnappur.
883. Tíðin.
884. Blekbytta.
885. Pottur.
886. Sigurður.
887. Koss.
888. Ofn.
890. Jörðin.
891. Eva.
892. Fingurbjörg.
893. Kertapípa.
894. Silúngur.
895. Kolbeinn.
896. Fatapör.
897. Klyfberi.
898. Þegar hann þegir.
899. Þegar hundurinn rífur hana.
900. Björg.
901. Kvörn.
902. Ljóskola.
903. Pottur með járnblemm, sem voru í 24 naglar.
904. Bók.
905. Næturgagn.
906. Tóbakspípa.
907. Löð.
908. Mergur.
909. Dagur og nótt.
910. Lús.
911. Kvörn.
912. Rokkur.
913. [1] Höll, [2] Eyri, [3] Ögur. Björn sýslumaður var fæddur á Hóli, bjó fyrst að Eyri en fór síðan að Ögri.
914. Ljár.
915. Eldur undir potti.
916. Hörpudiskur.
917. [1] Reykholt, [2] Ás, [3] Gilsbakki, [4] broddur, [5] bjór, [6] Steinunn.
918. [1] Haukadalur, [2] Skarð, [3] Leikskálar, [4] egg, [5] bjór.
919. Sólskin.
920. Pílatus gaf Jósep líkama Krists.
921. Lús kembd úr höfði.

922. Lúsakambur.
923. Hugur manns.
924. Ullarlár.
925. Smiðjubelgur.
926. Tyrfingur.
927. Sjálfskeiðíngur.
928. Skór.
929. Maður sat á steini við smíði í smiðju.
930. Maður sigaði tík (3) á bjarndýr (1), sem var með kvennmannsbrjóst (2) í kjaptinum.
931. [1] Felhella, [2] rekaviður, [3] selshöfuð, [4] hauskúpa.
932. [1] Steinn, [2] sjór, [3] æður, [4] már, [5] hávella (háhella), [6] rissa (ritur), [7] heinbrimi (himbrimi), [8] kría.
933. Tík drap tóu; [1] hestur, [2] foss, [3] tóa, [4] bráð, [5] tík.
934 [1] Árbakki, [2] silúngur, [3] flekkóttur sauður.
935. [1] Snjóskafl, [2] skiptapi.
936. Maður gætti fjár og hlóð vörður: [1] jörð, [2] heimurinn, [3] sólin, [4] dagur, [5] hugurinn, [6] hönd, [7] elli, [8] haf, [9] grjót, [10] vörður, [11] höll, [12] hundur, [13] þeir fóru að gelta svo undir tók í fjöllunum, [14] bær, [15] sól, [16] nótt.
938. Hvönn; hníf þarf til að skera upp hvannir.
939. Kona með barn á brjósti át á hestbaki. Hesturinn var folaldsmeri og beit á meðan, en folaldið saug.
940. Klukka.
941. Sama.
942. Kónguló.
943. Hrafnar sátu á bjargi; Sámur er tröllsheiti.
944. Kónguló.
945. Myllur á upphlut.
946. Hrossabrestur.
947. Sperrur á bita.
948. Hundur drakk hland úr látúnskopp.
949. Stafrofið.
950. Ausa.
951. Fíngurbjörg.
952. Bandrjúpa.
953. Gömul lögbók.
954. Kvörn.
955. Vöndur.
956. Hægindi.
957. Maður kom að bæ og sá fjárhússdyrakrók úr hrútshorni.
958. Hrafn.
959. Penni.
960. Skæri.
961. Munnurinn; tennur og túnga.
962. Kónguló.
963. Morgun og dögg.
964. Maður sá gegnum skipsglugga, yfir fjörð og inn í hús, þar sem vefari óf voð, í gamla íslenzka vefstaðnum og barði með hvalbeinsskeið.
965. Hrafn að éta ost.
966. Ísraelslýður og Faraó, þegar þeir fóru yfir hafið rauða.
967. Smjöröskjur.
968. Huldumaður sat á surtarbrandi og hélt á vikarkoli, en fuglinn var músarrindill.
969. Maður birkti tág og bjó til hapt á hest.
970. Ár (vatnsföll).
971. Físibelgur.
972. Steðji.
973. Askur.
974. Krákuskeljar.
975. Næturgagn.
976. Vefur.

977. Tjald.
978. Steðji.
979. Pottur á hlóðum.
980. Hleinar í íslenzka vefstaðnum; [1] Vefurinn, [2] rifurinn, [3] kljágrjótið, [4] haldvindan, [5] gatið á rifshausnum.
981. Smjörðskjur.
982. Vefur.
983. Íslenzki vefstaðurinn gamli; [1] hleinarnar, [2] vefjarslángan.
984. Neglurnar.
985. Ljár og brýni.
986. Kirkja og kirkjugarður.
987. Páll klauf sauðarhöfuð með páli.
988. [1] Köttur, [2] uxi, [3] hestur, [4] hjörtur, [5] hundur.
989. Peníngur.
990. Kvikasilfur.
991. Spegill.
992. Árið.
993. Foss.
994. Páll.
995. [1] Lögbók, [2] Skarð.
996. Greiparnar.
997. Skeifur og naglar.
999. Biblía.
1000. Aungull.
1001. Handsög.
1002. Borðlampi.
1003. Tágakarfa.
1004. Vindhani.
1005. Prjónasessa.
1006. Sjöstirnið.
1008. Lykill.
1009. Ær mjólkuð í fötu.
1010. Tóa tók hana af mykjuhaug.
1011. Rokkur.
1012. Sía.
1014. Uppblásinn líknabelgur fannst á sjó.
1015. Hnapphelda.
1017. Kaffikvörn.
1018. Heykrókur.
1019. Lás.
1020. Reykur.
1021. Vínber.
1022. Stígvélasóli.
1023. Húnstafur.
1024. Stafur.
1025. Dagur og nótt.
1026. Ljós á lampa.
1027. [1] Fæturnir, [2] þrepskjöldur, [3] broddur (á staf), [4] stafur, [5] sagði að köttur dræpi mús, [6] beita, [7] steinn.
1028. Hani, úngur og gamall, egg og dauður.
1029. Varða.
1030. Fluga.
1031. Hurð.
1032. Dráttarnet.
1033. Anna.
1034. Ár.
1035. Pottur.
1036. Sendibréf.
1037. Þoka.
1038. Eggskurn.
1039. Dagur og nótt.
1040. Myllur á kvennbol.
1041. Hálsnálar.
1042. Ólétt kona sat í sáðgarði.
1043. Saumnál.
1044. Blekbytta og penni.
1045. Hattur.
1046. Byssa.
1047. Hjólbörur.
1049. Kvennmaður að mjólka kú.
1050. Rauðahafið, sundurskipt.
1051. Árið.
1052. Penni (þegar verið er að skrifa).

1053. Orf og hrífa; [1] hælar, [2] húnar, [3] oddur og egg.
1054. Egg.
1055. 8000 lömb.
1056. Neglur.
1057. Tær og fingur.
1058. Hrossabrestur.
1059. Taðkláfar.
1060. Ullarkambar.
1061. Svein- og meydómur.
1062. Kláfar.
1063. Þeir voru feðgar.
1064. Hrisklyfjar.
1065. Hemíngar.
1066. Þeir fundu konu í barnsnauð og bundu fyrir naflastreinginn með tág.
1067. Þeir létu mjólk frjósa utan um gaungustafi sína.
1068. Skyldleiki.
1069. Páll.
1070. Skapti og Oddur (hnífur).
1071. Hurð.
1072. Ullarkambar.
1073. Stafirnir í stafrofinu og fíngur við skript.
1074. Fíngravetlingar.
1075. Maður sat á þrífættum stól og hélt á beini. Hundur kom og þreif beinið. Maðurinn reiddist og barði hundinn með stólnum.
1076. Strokkur.
1077. Smiðjubelgir.
1078. Skæri.
1079. Skærakinnar.
1080. Maður ríðandi.
1081. Sög.
1082. Vefstaður.
1083. Bandhnoða.
1084. Hestur járnaður fimmboruðum skeifum.
1085. Gata.
1086. Gaungustafur.
1087. Blossinn.
1088. Skeið í íslenzka vefstaðnum.
1089. Fífill og bifukolla.
1090. Gata.
1091. Mjöltunna.
1092. Maðurinn.
1093. 18 hunángsflugur súngu í hrosshaus.
1094. Kolabrenna.
1095. Hann taldi bælin í snjófönn.
1096. Legill.
1097. Uppblásinn líknabelgur.
1098. Myrkur.
1099. Sól og gílar.
1100. Sleggja.
1101. Saumnál.
1102. Reka.
1103. Maður mokaði snjó af rúðu.
1104. Smiðja; [1] gull, [2] höfuð, [3] sæti hlaðið úr torfi (mold), [4] löð, [5] steðji, [6] hamar, [7] taung, [8] naglar, [9] aflinn, [10] belgurinn.
1105. Reykháfur.
1106. Kalk.
1107. Skautar.
1108. Á.
1109. Dýrabogi.
1110. Vefur.
1111. Sendibréf.
1112. Skáktafl.
1113. Reka.
1114. Páll.
1115. Birtan, þegar gluggi er tekinn úr eða látinn í.
1116. Stóll.
1117. Tölustafirnir.
1118. [1] Samlaga, [2] rauður litur, [3] gljákvoða, [4] mannahús; manna = brauð, [5] gul; afgángur spendrekks = broddskita.

1119. Vísirar.
1120. Hann kembdi sér upp úr kopp.
1122. Torfljár.
1123. Líknabelgur.
1124. Dagur og nótt í skammdegi.
1125. Tregt.
1126. Körfutágar.
1127. Tinna.
1128. [1] Laungu (lánga), [2] lagður.
1130. Klukka.
1131. Páll.
1132. Kotra.
1133. Rokkur.
1134. Tjald.
1135. Úngi í eggi.
1136. Vog.
1137. Sessa.
1138. Hlátur.
1139. Æskan.
1140. Rokkur.
1141. Húfa.
1142. Pottur.
1143. Auga.
1144. Hattur.
1145. Almanak með sex blöðum.
1146. [1] M. [2] CCC, [3] L = 1350.
1147. Rokkur.
1148. Klyfberi.
1149. Klakkar á klyfbera.
1150. Nafar.
1151. Hamar.
1152. Smiðjubelgir.
1154. Gröfin.
1155. Maður setti á sig vetlínga.
1156. Klukka.
1157. Vindurinn.
1159. Skónál.
1160. Stóll.
1162. Ró.
1163. Þópta (þótti).
1164. Snælda. Hún er heingd, hálsskorin og bakbrotin.
1165. Borð.
1166. Stefni (að stefna).
1167. Sax.
1168. Biti.
1170. Kjölur (fólk kell).
1171. Gaddur.
1172. Barki.
1173. Rúm.
1174. Hnífill (»hjálpræðishorn» kvað standa einhversstaðar í biblíunni).
1175. Krappi (kraptur; kreptir menn).
1176. Raung.
1177. Lángband (lángi).
1178. Knélisti (kné, list, lyst, listi).
1179. Háls.
1180. Drag (lækjardrag, skúradrag, éljadrag).
1181. Stjórnvölur (vala, völundur, valva).
1182. Ar (ári = andi, ár = árgæzka, óár).
1183. Reiði.
1184. Jómfrú (meydómur).
1185. Rakki.
1186. Stellíng (stallur).
1187. Undirhlutir.
1188. Keipar.
1189. Hástokkar (*h*, há = þá eða fá sem sumir segja. stokkur = gapastokkur).
1190. Stýri (stírur).
1191. Stafnlok (Loki, að stefna).
1192. Nagli (graptrarnagli).
1193. Segl (»guðs andi blæs í seglið» segir dr. Gerbarður í 23. hugvekju sinni»).
1194. [1] Sjórinn, [2] vindurinn, [3] skip [4] akkeri, [5] selja vörur sínar. [6] mjöl og salt, [7] götur, [8] sjór, [9]

**fjallsháls** (háls er á hverri **lifandi skepnu**), [10] vogestir, [11] **grónar grasi**, [12] þornaðir upp, [13] **»grindin** sem fálkinn á **stendur, meðan hann er vaninn«** (**grind** = **tré** = viður = lýng), [14] **ber**, [15] »**af** raka og vessa **jarðarinnar**«, [16] konur, [17] heiði (**harbarður** = steinn), [18] tré — **rætur** = **tré** (dallur = askur = **viður** = **skógafætur** = trérætur), [19] vetlíngar, [20] ber, [21] frost, [22] lopt, [23] hrafnar (»hrafninn segir cras, cras«), [24] klær, [25] nef (valbartill = kjapturinn á krumma = sá sem *ber val*), [26] köttur, [27] bætir þarfir (yffra = offra = bæta (fyrir sig)), [28] mús, [29] til dauða (»allir hlutir eyðast og farast, en *gin fararinnar* er dauðinn«), [30] lend, [31] hestur, [32] dagar.

---

# Prentvillur.

---

Form. bls. $6^{35}$: tilætlast fyrir tilætlazt.
— - $6^{37}$: ætlast f. ætlazt.
Gáta nr. $6^{3, 14}$ (sbr. $132^{5}$, $137^{14}$, $180^{14}$, $188^{6}$, $224^{3}$, $281^{4}$): ítum f. ýtum.
— - $13^{3}$: elzt f. elst.
— - $13^{7}$: mjófa f. mjóva.
— - $24^{1}$: A f. Á.
— - $24^{8}$: hrŏkaða f. hrokaða.
— - $53^{31}$: reirður f. reyrður.
— - $54^{10}$: (sbr. $83^{3}$, $84^{3}$, $114^{24}$, $127^{1}$): hæzta f. hæsta.
— - $66^{15}$: gognum f. gögnum.
— - $81^{1}$: baugakleyf f. baugakleif.
— - $112^{13}$: hreitir f. hreytir.
— - $123^{2}$: ýmu . . seira f. ímu . . seyra.
— - $137^{2}$: allshrautlega f. allskrautlega.
— - $142^{3}$ (sbr. $257^{1}$): girti f. gyrti.
— - $145^{29}$: sjáfar f. sjávar.
— - $145^{36}$: meginn f. megin.
— - $158^{3}$: nýpa f. nípa.
— - $163^{17}$: gleipti f. gleypti.
— - $165^{2}$: eymirja f. eimyrja.
— - $171^{4}$ (sbr. $241^{3}$, $262^{7}$): firðum f. fyrðum.
— - $192^{7}$: skini f. skyni.
— - $216^{4}$: fyrn f. firn.
— - $235^{1}$: fjörginar f. fjörgynjar.
— - $266^{45}$: leyf f leif.
— - $266^{63}$: inniífla f. innýfla.
— - $273^{21}$: kaukakleyfar f. kaukakleifar.
— - $285^{1}$: Fundist f. Fundizt.
— - $299^{4}$: biltu f. byltu.
— - $273^{3}$: flám yntgein f. flámynt gein.
— - $394^{8}$: skyrkkjótt f. skrykkjótt.
— - $524^{5}$: þesshann f. þess hann.
— - $583^{6}$: ylmur f. ilmur.
— - $685^{16}$: bylt f. bilt.
— - $887^{7}$: fnjólyndur f. frjólyndur.
— - $979^{3}$: eysu f. eisu.
— - $989^{3}$: örbyrgð f. örbirgð.
— - $1001^{6}$: farva f. farfa.
— - $1158^{4}$: hrykti f. hrikti.

# ÍSLENZKAR GÁTUR, SKEMTANIR, VIKIVAKAR OG ÞULUR.

SAFNAÐ HAFA J. ÁRNASON OG Ó. DAVÍÐSSON.

GEFNAR ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

II.

## SKEMTANIR.



KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.

1888–92.

# ÍSLENZKAR SKEMTANIR,

SAFNAÐ HEFIR

ÓLAFUR DAVÍÐSSON.

GEFNAR ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU S. L. MØLLERS

(MØLLER & THOMSEN).

1888—92.

# INNGÁNGUR.

Þjóðsögur Íslendínga, þulur og gátur, leikir og listir lágu leingi í salti, svo að eingum datt í hug að safna þeim fyrir alvöru. Reyndar eru til nokkur gátusöfn frá ýmsum tímum, og svo safnaði Jón Ólafsson leikjunum, eins og bráðum verður skýrt betur frá, en bæði Jón og gátumennirnir hafa að eins ritað það upp, sem þeim barst af hendíngu, eða þá leitað aðstoðar til einstakra manna, í hæsta lagi, og hafa söfnin orðið eptir því stærri sem þeir voru fróðari. Nú liggur það í augum uppi, að ómögulegt er fyrir einn mann að tína saman safn af jafnvandfeingnum fræðum og þjóðsögur o. s. frv. eru, svo í jafngóðu lagi sé og mögulegt er, nema hann njóti aðstoðar góðra manna út um alt land, og hefir það vakað fyrir nefnd þeirri, sem deild hins íslenzka Bókmentafélags í Kaupmannahöfn kaus til að annast um lýsíngu Íslands, sem það ætlaði að gefa út, einu sinni á árunum. Það sendi prestum og prófföstum á Íslandi 70 spurníngar til sóknalýsínga 1839[1] og lúta nokkrar þeirra að þjóðtrú og þjóðsiðum. 56. spurníng er þannig: Hverjar íþróttir eru þar tíðkanlegar (sund, skot, skíðaferð, skautaferð, glímur o. s. frv.)? hverjar mest tíðkaðar eður af hversu mörgum o. s. frv.? 57. spurníngin er um saung og hljóðfæri. 58. spurníngin: Hvað hafa menn helzt til skemtunar. Spurníngar þessar eru alt of ónákvæmar, enda hefir nefndinni ekki verið sérstaklega hugað um að fá greinilegar skýrslur í þessu efni, því skýrslan um skemtanir Íslendínga hefði orðið minnsti hluti af lýsíngunni, þótt hún hefði verið samin. Það sér líka á, að prestunum hefir ekki verið ljóst, hvað lá í 58. spurníngunni, því aumari svör er ekki hægt að hugsa sér en þau, sem eru í flestum sóknalýsíngunum[2]. Þegar bezt gjörir er þess getið, að það tíðkist þar í sókninni,

[1] Af spurníngum þessum eru prentaðar nokkrar óbreyttar útgáfur. Hér er aðeins getið um söfnun íslenzkra fræða þjóðlegra, að því er snertir leiki og aðrar skemtanir. Guðbrandur Vigfússon lítur í fleiri horn í formála fyrir Þjóðsögum Jóns Árnasonar. I; bls. XXIV—XXIX.

[2] Sóknalýsíngasafnið er þó, þegar öllu er á botninn hvolft, eitthvert hið merkilegasta safn sem til er, að því er snertir allan íslenzkan fróðleik, og ómissandi að mörgu leyti. Það er í Hrs. Bmfj. 18—21 og 71 fol.

sem getið er um í 56. spurníngunni, eða þá ekki, en víðast eru svörin upp á þessar spurníngar eingu betri en ekkert svar, og þetta á sér stað, þótt lýsíngarnar séu ágætar að öðru leyti. Það er að eins ein sóknarlýsíng, sem minnist nokkuð ítarlega á leiki og listir, en það er lýsíng Svalbarðssóknar í Þistilfirði 1873, eptir Valdimar Ásmundsson, sem nú er ritstjóri Fjallkonunnar, enda er hún ein af lángbeztu sóknalýsíngunum að öllu leyti.

Íslandslýsíngarnefndin á þó þakkir skilið, fyrir að hafa komið þjóðsagna og þjóðsiðamálinu af stað, enda leið ekki á laungu áður en betri og greinilegri áskorun kom út til Íslendínga, um að skrifa upp þjóðsögur og því um líkt. Georg Stephens, sem nú er prófessor við Kaupmannahafnarháskóla, fékkst mjög við þjóðtrúarfræði á ýngri árum og fór hann nærri um það, að Íslendíngar mundu ekki vera alveg afskiptir í þeirri grein, þótt ekkert slíkt væri prentað, svo hann samdi »Forslag til Islændernes uudgivne Folkesagns og Sanges Optegnelse og Bevaring.« Áskorun þessi er samin 1845 og prentuð í Antiqvarisk Tidsskrift Kmh. 1845; bls. 191—192. Eg veit reyndar ekki til að áskorun þessi hafi verið send almenníngi á Íslandi, en aptur hefir hún eflaust verið vísirinn til áskorunar þeirrar, sem »Det kongelige nordiske Oldskrift-selskab« (Hið konúnglega norræna Fornfræðafélag) lét prenta 1846 og sendi út um alt Ísland. Áskorun þessi heitir »Boðsbréf til Íslendínga um fornritaskýrslur og fornsögur, 28. apríl 1846« og er sérstakur pési í raun réttri, en fylgir optast Antiqvarisk Tidskrift 1845. Þá var málið fyrst komið í vænlegt horf. Þá var Íslendíngum sýnt fram á, hvað þjóðtrú og þjóðsiðir eru og jafnframt ýtt undir alla þá, sem höfðu vit á, hve slík fræði eru dýrmæt, fyrir hverja þjóð sem er, að gjöra sitt til að bjarga þeim úr tröllahöndum tímans og hirðuleysisins, eða skrifa þau upp. Eg skal taka fram það sem stendur um leiki o. s. frv. í boðsbréfi þessu. Félagið biður um vikivaka og dansleikakvæði; leika og alla aðferð og þulur eða formála, sem séu hafðir við þá, bæði meðal barna og fullorðinna. Auk þess er óskað að lög á vísum og kvæðum væru skrifuð upp með nótum, ef kostur væri á[1].

Árángurinn af boðsbréfi þessu varð mjög mikill. Félaginu barst mjög mikið af kvæðum og þulum og talsvert af þjóðsögum. Að því er snertir leiki og skemtanir, var því sendur sandur af vikivakakvæðum og séra Guðmundur Einarsson (seinast prestur til Breiðabólstaðar á Skógarströnd † 1882) sendi því ritgjörð um íslenzka leiki, sem hann hafði samið. Um ritgjörð þessa er komizt svo að orði í Antiqvarisk Tidskrift[2]: »Séra Guðmundur Einarsson í Skáleyum hefir sent oss greinilega og vel samda skýrslu um leiki þá, sem honum eru kunnugir með nokkrum þulum,

[1] Bls. VI—VII. Ágrip af boðsbréfi þessu er prentað í formála Guðbrandar Vigfússonar fyrir Þjóðs. J. Árn.; bls. XXVIII.

[2] 1847; bls. 170.

og formálum sem þar við hafa tíðkazt.« Ritgjörð þessi var leingi týnd, en er nú komin í leitirnar og fleira af handritum félagsins, sem ekki hefir verið á almannafæri um hríð. Auk þess komst félagið yfir 2 handrit af Nípuþulunni: »Ferjan Kjalars fram skal gá,« annað af allri þulunni[1] en hitt af parti[2] og hefi eg fundið heilu þuluna. Loksins barst félaginu ritkorn um leiki eptir Magnús prest Grímsson, sem hvergi er minzt á í Ant. Tidskr. Annað veit eg ekki til að félaginu hafi verið sent af leikjadóti, en það getur þó vel verið, því það er ekki getið um öll handrit, sem því voru send í skýrslum þess. Það er einginn efi á því að leikir þeir, þjóðsögur o. s. frv. sem nú hefir verið drepið á, hefðu aldrei komizt á pappírinn, ef félagið hefði ekki lagt drögur fyrir slíkt og hefir því boðsbréf þess gjört íslenzkum þjóðtrúarfræðum stórgagn, en mesta gagn sem það hefir gjört er, að það greiddi götu Jóns Árnasonar, þegar hann fór að safna í sömu áttina.

Þeir Magnús Grímsson fóru að safna þjóðsögum o. s. frv. 1845[3], og var það ekki á almenníngs vitorði fyr en 1852. því þá komu »Íslenzk Æfintýri« út. 1858 sendi Jón kunníngjum sínum út um land hugvekju um alþýðlega fornfræði[4], og lét Jón Borgfirðíngur prenta hana fyrir hann í Norðra[5], þótt Jóns Árnasonar sé þar ekki getið. Hugvekja þessi er prentuð orðrétt í formála Guðbrandar Vigfússonar (bls. XXIX) og er þetta þar um leiki: Jón biður meðal annars um lýsíngu á vikivökum og dansleikum »þulur og fyrirmæli (formála) við leiki og tafltegundir alskonar, sem börn og fullorðnir temja sér eða hafa tamið sér, og greinilegar skýrslur um allan gánginn í leiknum og aðferð í taflinu.«

Nú drifu sendíngar að Jóni Árnasyni úr öllum áttum, af öllu tagi, því sem nefnt er í hugvekju hans, en hann komst alt af betur og betur inn í þjóðtrúna og þjóðsiðina og samdi loksins nýa hugvekju eða áskorun 1861. Hún er prentuð í Íslendíngi[6] og líka sérstök. Hún er miklu fullkomnari en allar fyrri áskoranirnar og tekur flest fram, sem nöfnum tjáir að nefna af því, sem um er að ræða. Þar er XI. greinin um leiki o. s. frv. og er hún þannig: »Leikir og töfl, þjóðleikirnir fornu og lýsíngar af þeim, sem enn kunna að loða eptir, dansleikar (vikivakar), dansleikakvæði og eins allir þeir leikir, sem eldri og ýngri temja sér enn og hafa tamið. Hér ríður ekki einúngis á að fá öll þau kvæði og kvæðabrot (leikkvæði), þulur og formála, sem hverjum leik heyra fyrir sig

[1] Ant. Tidskr. 1847; bls. 44.
[2] s. rit. 1852; bls. 261.
[3] Formáli Guðbrandar Vigfússonar fyrir þjóðs. J. Árn.; bls. XXVII.
[4] Sbr. Íslendíngur 1861; bls. 91.
[5] VII. (1859); bls 56.
[6] 1861; bls. 91—93.

og taflvísur, heldur einnig hvað annað sem skýrt geti sem nákvæmast alla aðferðina í leiknum og gánginn í taflinu.»

Arángurinn af þessum áskorunum Jóns Árnasonar eru Íslenzkar Þjóðsögur og æfintýri. I—II. Leipzig 1862—1864; má ráða af því, hve honum hafi borizt mikið af þjóðsögum. Tveir fyrstu partarnir af safni þessu sýna, hve honum hefir orðið vel ágeingt með gátur og þulur, og þessi hluti safnsins hefir haft mikinn stuðníng af leikjasafni Jóns Árnasonar. Annars minnist eg nákvæmara á það hér í inngánginum, þar sem eg get um helztu heimildarit mín, bæði prentuð og óprentuð.

Jón Árnason ætlaði fyrst að láta íslenzkt leikjasafn koma út svo sem áframhald af Þjóðsögunum, og er drepið á það í neðanmálsgrein við hugvekju þá í Íslendíngi. sem getið er um fyrir skemmstu. Þar segir J. Árn. að leikjasafnið eigi að koma út í »safni því, sem nú er verið að prenta«, þjóðsögunum með öðrum orðum. En þetta hefir einhvern veginn farizt fyrir, líklega af því, hvað tognaði ár, þjóðsögunum, þegar til kom.

Leikirnir lágu nú í láginni í 22 ár, svo að ekki var hugsað um útgáfu þeirra, og það var fyrst veturinn 1885—86, að það samdist svo á milli J. Árn. og deildar hins íslenzka Bókmentafélags í Kaupmannahöfn, að hún skyldi gefa út safn hans af íslenzkum gátum, þulum og leikjum.

Þá er ekki meira að segja að sinni um aðdragandann að safni þessu og aðalþáttinn í því, þátt Jóns Árnasonar, en hins er ógetið enn þá, þáttar höfundarins[1].

Þjóðsögur Jóns Arnasonar eru fæddar sama ár og höfundur leikjasafns þessa, 1862, og eg las Þjóðsögurnar spjaldanna á milli, upp aptur og aptur á kornúngum aldri. Þær höfðu mjög mikil áhrif á mig, eins og sjálfsagt mjög marga aðra únglínga, og hafa þau ávalt farið í vöxt, eptir því sem eg hefi lesið þær optar. Eg sá fljótt, að flestar sögur, sem Steinvör gamla, svarta Sigga og aðrar sögukellíngar sögðu okkur krökkunum, vantaði í Þjóðsögurnar og svo allar þulur, gátur og leiki. Mér duldist það ekki, þá þegar, að öll þessi fræði eru mjög merkileg eða að minnsta kosti mjög skemtileg og tók þessvegna uppá, að skrifa upp flest af því tagi, sem eg heyrði, en það voru ósköpin öll, því þá var nóg af sögukellíngum í Sléttuhlíð, hvað sem nú er. Auk þess gekk Þorgeirsboli um sveitina, eins og grár köttur, og það úði og grúði af draugum og huldufólki, bæði í Hrolleifshöfða og Fellinu, sem hvorttveggja er í landareign Fells, og má nærri geta að margar sögur hafi verið til um alt þetta. Síðan eg fór úr Sléttuhlíð hefi eg haldið áfram að skrifa alt sem eg hefi komizt yfir af þjóðtrúardóti, og er nú allmikið af því tagi í fórum mínum. Að því er sérstaklega snertir

[1] Höfundurinn vonast eptir að fólk taki það ekki illa upp, þótt hann drepi hér á frammistöðu sjálfs sín í máli þessu. Það er að eins gjört til þess að saga leikjasafns þessa verði sem greinilegust.

leikina skal eg geta þess, að eg tók þeim einusinni tak, þegar eg var í skóla, og hreinskrifaði þá alla saman. Jafnframt spurði eg félaga mína, aðra skólapilta, um skemtanir í þeirra sveitum og gat þannig bætt mjög miklu við þá.

Þegar eg frétti um samníng þann, sem áður er drepið á, milli Bókmentafélagsins og Jóns Árnasonar, skrifaði eg honum og stakk upp á því, að við skyldum slá okkur saman með söfn okkar; varð það úr að hann fékk söfn mín af þulum og gátum til fullra umráða, en eg leikjasafn hans.

Upp úr safni mínu, safni Jóns Árnasonar og öðrum svipuðum söfnum, sem eg skal nú minnast á, er safn þetta soðið.

---

Arngrímur Jónsson lærði hefir ritað um leiki og skemtanir á Íslandi, fyrstur manna svo eg viti, í Crymogaea sive rerum Islandicarum libri III. Hamburgi. M. DC. X[1]; bls. 56—58. En hann er svo stuttorður um þetta efni, að það er ekkert á honum að græða um það, hvernig leikirnir hafi verið. Hann drepur á glímur, knattleik, skotfimi, hestaat og vikivaka, og svo nefnir hann aðeins níu smáleiki. Þessi pistill Arngríms er merkilegur að því leyti, að hann er elzta heimild fyrir því að þessir smáleikir hafi verið leiknir á Íslandi, og þykir mér því réttast að telja þá hér upp: Oscillationes, cindalismi, ascoliasmi, apodidrascindæ, myindæ, basilindæ, cytrindæ, dielcystindæ og epostracismi. En nú er eptir að skýra hvaða íslenzkir leikir þetta eru.

Oscillatio er róla[2],[3] Cindalismus er vafasamari. J. Árn. segir að það muni vera pinnaleikur, en aðrir segja að leikurinn sé fólginn í því að reka staura ofan í sendna eða lina jörð og slá þá svo niður[3]. Í þessa lýsíngu vantar þó eflaust eitthvað. Ascoliasmus er að hoppa eða standa á öðrum fæti[2 3]. Apodidrascinda segir Skúli að sé feluleikur en orðabókarhöfundurinn lýsir henni alveg eins og saltabrauði enda er það nokkurskonar feluleikur. Myinda er skollaleikur[2] eða blindíngsleikur[3]; »blindisleikur eða krækiblinda« stendur í orðabókinni. Basilinda er tólfkóngaleikur[3] en cytrinda lögmannsleikur[3]. Dielcystinda segir orðabókin sé keflisleikur eða að toga molda, en í þýðíngunni, sem

---

[1] Annars eru til fleiri útgáfur, en eg hefi notað þessa. Þessi skemtanaskýrsla Arngríms er tekin orðrétt upp í rit eptir Arngrím, sem er prentað í Stephanius: De regno Daniæ et Norwegiæ Insulisq. adjacentibus. — — Tractatus varij. Lugd. Batav., CIϽ IϽC XXIX. [II. útg.]; bls. 363—366. (Það eru til 2 útgáfur frá sama ári og stendur ekki útgáfutalan á þeirri seinni).

[2] Skúli Thorlacius: Borealium veterum matrimonia; bls. 237.

[3] Latínsk-latínsk og latínsk-íslenzk orðabók, frá fyrra hluta 17. aldar. Hrs. Bmfj. 77 fol.; bls. 195—196. Jón Þorkelsson segir mér að orðabók þessi sé þýdd á íslenzku af Guðmundi Ólafssyni, fornfræðíngi, sem einu sinni var í Svíþjóð († 1698).

strax verður nefnd, er minzt á togunarleik »sem kallast af sumum að draga molda.« Eg hefi ekkert heyrt af nöfnum þessum en þykir líklegt að þau séu skild því að togast á, enda segir Skúli að dielcystinda sé »at trækkes i Hænderne« sem er eitthvað svipað. Epostracismus er að flytja kellíngu(ar)[1].

Í Ny Kgl. Samling 1281 fol.[2] er íslenzk þýðíng á Crymogæa Arngríms og þar á meðal leikjakaflanum. En kafli þessi er als ekki orðrétt þýddur, og sést það þegar á því, að þýðíngin nefnir 11 smáleiki »úngdómsins gamanleiki«, en frumritið aðeins 9. Þýðíng þessi gefur því litlar eða eingar bendíngar um það við hverja leiki Arngrímur eigi, en er allmerkileg að öðru leyti, því bæði er hún gömul (frá 17. öld) og svo nefnir hún ýmsa leiki, sem ekki eru nefndir annarsstaðar. Eg sé ekki faung á því að heimfæra leikina í þýðíngunni til leikjanna í frumritinu og get því ekki um þá hér, heldur seinna í riti þessu, þar sem þeir eiga heima.

Jón Ólafsson frá Grunnavík († 1779) samdi hina íslenzku orðabók sína um miðja 18. öld[3], og skýrir hún því eflaust helzt frá íslenzkum leikjum, frá fyrri hluta 18. aldar. Annars hlýtur Jón að hafa haft þetta rit undir í mörg ár, því það er ekki kastað höndunum að slíku stórvirki. Orðabókin er 9 bindi í arkarbroti og er ekki til nema á einum stað, safni Árna Magnússonar í Kmh. nr. 433 I--IX. fol.[4] Það er eiginhandarrit Jóns. Orðabókin er mjög þétt skrifuð og þar að auk liggur í henni mesti morandi af smásneplum, og liggur því í augum uppi, hve stór hún er. Venjulegast eru orðin þýdd á latínu, en þó eru heillángar klausur á íslenzku innan um. Það má segja með sanni að orðabók þessi sé með fróðlegustu ritum, sem hafa verið samin á íslenzku, ef ekki það allra fróðlegasta, þegar árbækur Espólíns líður. Þar ægir öllu saman, mögulegu og ómögulegu, því Jón lætur sér ekki nægja að þýða orðin, heldur fer hann út í sögu, náttúrufræði, landafræði, lögfræði o. s. frv., þar sem honum er það mögulegt. Undir orðinu **kirkja** er þannig t. d. lýsíng af Hólakirkju, þegar hún var nýbygð 1760. Einkum færir Jón til óskö̈pin öll af vísum og kvæðum, eins og þeim mun vera kunnugt, sem hafa blaðað í gegnum II. útgáfu af Kvæðum Stefáns prests Ólafssonar og er þó fæst talið þar. En hér er því miður galli á gjöf Njarðar, en hann er sá, að bókin er allra bóka óaðgeingilegust, þeirra sem eg hefi séð, því fyrst og fremst er hún ákaflega útkrössuð og því næst hefir höfundurinn ritað leiðréttíngar og viðauka á hvern naglarstóran blett og er víða illmögulegt að finna hvar þær eiga heima.

---

[1] Orðabókin nr. 77.

[2] á kónglega bókasafninu í Kmhöfn. Jón þorkelsson hefir vísað mér á handrit þetta.

[3] Aptast í henni segir að henni sé lokið 20. mars 1754.

[4] Áður var hún nr. 35—43. fol. í additamentinu.

Í ruslakistu þessari er meðal annars fróðleiks sú leingsta skýrsla um íslenzka leiki, sem eg veit til að hafi verið samin híngað til. Hún er undir orðinu **leikur** í VII; bls. 98 – 117[1] og er eiginlega alveg sjálfstæð ritgjörð. Jón er sá fyrsti sem lýsir íslenzkum leikjum og segir það sig því sjálft að ritgjörð hans er mjög merkileg fyrir sögu leikjanna, og það því fremur sem hann fer fleiri og færri orðum um hundrað leiki og listir. Eg tek ritgjörð þessa eins og hún er upp í rit þetta og þarf eg því ekki að fjölyrða um hana. Þó skal eg geta þess að þeir, sem unna íslenzkum þjóðsiðum, geta seint fullþakkað Jóni ritgjörð þessa, því þótt hann sé sumstaðar svo óljós að lítið sé að græða á honum, þá lýsir hann þó leikjunum víðast vel og greinilega. Sumstaðar virðist Jón líka færa til nokkuð skrítnar íþróttir, en eg fyrir mitt leyti efa ekki að þær hafi líka verið hafðar um hönd, þótt þær hafi verið sjaldgæfar. Undir orðunum **tafl** (IX; bls.2—7) og **skák** er um töfl, en undir **spil** um spil. Af þessum köflum hefi eg haft undir höndum afskriptir eptir Pálma Pálsson, cand. mag. og Jón Þorkelsson cand. mag. og hefir mér verið mesta lið að þeim, því annars hefði eg þurft að skrifa kafla þessa upp eptir Jóni. Auk þess er afskript af ritgjörð þessari með hendi J. Sig. í safni Svend Grundtvigs, nr. 66. Jón drepur mjög víða á leiki og þess háttar annarsstaðar í orðabók sinni. Eg hefi blaðað í gegnum hana og tekið það, sem eg hefi rekið augun í, en eg efa ekki að mér hafi sézt yfir margt, því það er erfitt að leita af sér allan grun í þessu bókarbákni, bæði að því er snertir leiki og annað.

Eggert Ólafsson getur allvíða um, skemtanir Íslendínga í ferðabók þeirra Bjarna Pálssonar, Reise igjennem Island, Soröe 1772. Þeir félagar ferðuðust um Ísland 1752—1757 og má því sjá af ferðabókinni, hvernig Íslendíngar skemtu sér seinni hlutann af fyrra helmíng 18. aldarinnar. Eggert skýrir helzt frá íþróttum, einkum glímum og svo tafli, en aptur verður honum valla að minnast á leiki og listir.

Hannes biskup Finnsson hefir safnað einhverju um leiki á latnesku. Safn hans hefir borizt til mín í leikjaritgjörð eða réttara sagt leikjaregistri eptir Pál heitinn Pálsson, stúdent. Það er tekið saman 1860, eflaust eptir undirlagi Jóns Árnasonar. I registrinu eru nefndir 83 leikir og listir. Sumstaðar er latnesk lýsíng, sem sagt er að sje tekin úr Excerptis Hannesar biskups[2]. Lýsíngar þessar eru svo að segja alveg eins og lýsíngar J. Ól. og skil eg ekki í öðru en að Hannes hafi tekið þær eptir Jóni.

1785 kemur út í Kaupmannahöfn rit eptir Skúla Thorlacius: Borealium veterum matrimonia cum Romanorum institutis collata, ex monumentis

---

[1] Ritgjörðinni fylgja nokkrir sneplar, en við orðið skák liggur hefti og eru dregin þar upp nokkur taflborð.

[2] Hér er eflaust átt við Excerpta Hannesar biskups þau sem eru til og frá á Landsbókasafninu í Reykjavík.

historicis magnam partem ineditis. Bls. 211—263 er um skemtanir fornmanna af öllu tagi, en sjaldan er getið um skemtanir þær, sem tíðkuðust á Íslandi um það leyti sem bókin kom út[1].

Í Philosophische Schilderung der gegenvärtigen Verfassung von Island. Altona 1786 er minzt á skemtanir Íslendínga, bls. 71—75, en á því er ekkert að græða, því það er ekkert annað en upptugga úr Eggerti Ólafssyni, en öll nöfn rammvitlaus.

Séra Guðmundur Jónsson (seinast prestur að Staðastað, † 1836) fer nokkrum orðum um hættulega barnaleiki í Sumargjöf handa börnum. Leirárgörðum 1795; bls. 117—124, en bæði minnist hann á fátt eitt og svo lýsir hann eingu. Á kafla þessum er því lítið að græða, nema það kemur upp úr kafinu að prófastinum er heldur í nöp við leikina, því hann telur allraskikkanlegustu og meinlausustu leiki skaðlega.

Magnús Stephensen drepur á skemtanir Íslendínga í Island i det 18. Aarhundrede. Kmh. 1808; bls. 223—240 og er það allfróðlegur kafli, eins og við var að búast. Fjölorðastur er höfundurinn um saung og finnst honum ekki mikið til um saunglist Íslendínga. Aptur drepur hann að eins á fáeina leiki og smálistir.

Jón Árnason bókavörður hefir safnað til leikja, eins og getið er um hér að framan. Hann komst yfir talsvert leikjasafn, en minna var það að sínu leyti en önnur söfn hans til þjóðlegra fræða; þó var það gott að því er snertir vikivaka. Safn þetta hefi eg feingið hjá Jóni, eins og áður segir, og er þess getið við alla leiki, sem nefndir voru í því. Þar var meðal annars brot af uppkasti til leikjalýsíngar eptir Jón sjálfan, samið skömmu eptir 1860. Niðurröðunin er eptir stafrofsröð. Brot þetta nær aptur í »h.« Seinast er minzt á »hlaup« Hér eru taldir 51 leikir frá »a« til hlaup og er þó einstaka nafn samnefni (sýnoným) við eitthvert af hinum. Þar var líka afskript Jóns Þorkelssonar cand. mag. af leikjaritgjörð Jóns Ólafssonar og leikjaregistur Páls heitins Pálssonar, sem áður er nefnt. Þess má geta, að það heitir »Ludorum genera.«

Leikjasafn Magnúsar Grímssonar, það sem áður er getið um, er hálf önnur örk. Það er nú í safni Árna Magnússonar[2]. Magnús prestur lýsir 15 leikjum og listum. Að vísu lýsir hann að eins einum leik (laumu), sem eg þekti ekki, en hann hefir víða vanizt leikjunum dálítið öðruvísi en eg

[1] Þess má geta að Skúli segir, bls. 237 að hann hafi opt séð og leikið Schoenophilinda á æskuárum sínum. Eg hefi séð einar tvær eða þrjár lýsíngar af leik þessum og er ómögulegt að hann hafi tíðkazt á Íslandi eptir þeim. Eg veit ekki hvaða leik Skúli á við. Hann er ef til vill alveg týndur nú.

[2] Því er miður að númer það, sem leikjaritgjörðir þeirra séra Magnúsar og séra Guðmundar eru í, er ekki númererað ennþá. Það verður víst með seinustu númerunum í fjögra blaða broti, í handritaskrá þeirri, sem nú er verið að gefa út yfir safn A. M.

og hefir því safn þetta grætt talsvert á ritgjörð hans. Frá J. Árn. hefi eg líka feingið skeyti um leiki eptir séra Magnús.

Sama er að segja um rit séra Guðmundar Einarssonar[1]. Það er nú í sama númeri í safni Árna og ritlíngur séra Magnúsar. Það er hálf þriðja örk. Séra Guðmundur lýsir 25 leikjum og listum og minnist stuttlega á svolítið fleira af því tagi. Ekki lýsir hann heldur nema einum leik, sem eg þekti ekki áður (tólfkóngaleik), en hann lýsir flestum leikjunum dálítið öðruvísi en eg hafði vanizt, enda er eðlilegt að Breiðfirðíngar hafi sömu leikina talsvert öðruvísi en Norðlendíngar. Safni þessu hefir því skinið margt gott af ritgjörð séra Guðmundar, þótt hún sé ekki leingri. Þess má geta, að hún er samin um áramótin 1847. Ritgjörð þessa hefi eg líka feingið frá J. Árn., hér um bil eins og hún er í safni Árna Magnússonar.

Þegar Valtýr Guðmundsson cand. mag. var í skóla, samdi hann ritgjörð um leiki og skemtanir Íslendínga og var hún lesin upp í félagi skólapilta. Ritgjörð þessi er allfróðleg og drepur á margt, sem einginn af höfundum þeim, sem hér hefir verið getið um, hafði nefnt annar en Jón Ólafsson. Valtýr gjörði mér þann greiða að ljá mér ritgjörð sína og hefir hún komið mér að góðu haldi. Eg hefi ekki getið hennar þar sem okkur bar alveg saman, en það var allvíða, því við erum báðir Skagfirðíngar að fornu fari. Aptur hefi eg alstaðar vísað til hans, þar sem hann hafði vanizt einhverju öðruvísi en eg.

Pálmi Pálsson cand. mag. hafði safnað til leikja á Íslandi, einkum þó vikivaka. Eg fékk safn hans hjá honum nema vikivakana, en hann fékk aptur það, sem eg hafði tínt saman um þá. Pálmi hafði skrifað upp ritgjörð Jóns Ólafssonar um leiki, og auk þess var í safni hans um fáeina leiki eptir Jónas Jónsson trésmið, skagfirzkan mann. Aptur hafði hann ekkert ritað upp um leiki eptir barnsminni sínu.

Stud. mag. Bogi Thorarensen Jónsson Melsteð samdi ritgjörðarkorn um leiki um áramótin 1880, eptir tilmælum prófessors Willard Fiske's. Hann hefir léð mér uppkastið til ritgjörðar þessarar og hefi eg haft stuðníng af henni á einstaka stað.

Loksins hefir Guðmundur Davíðsson, bróðir minn, sent mjer lýsíngar á öllum leikjum og listum, sem hann gat grafið upp, 75 að tölu, og er það lángstærsta og bezta leikjasafn, sem eg hefi haft við að styðjast, þegar Jón Ólafsson líður og Jón Árnason. Eins og við er að búast hafði eg vanizt mörgum listum alveg eins og bróðir minn, en aptur hafði eg alveg gleymt sumum, sem hann rifjaði upp fyrir mér, enda eru ekki svo fáir leikir af ýmsu tagi færðir til í safni þessu eptir handriti hans eins. Eg skal taka það sérstaklega fram, að það hefði verið hnapphelduskaði fyrir safn þetta, ef eg hefði ekki feingið hjá honum greinilega lýsíngu á rymbujárnuninni, því annars hefði *rymbulýsíngin* orðið álíka og kljádúskaflinn.

---

[1] Sbr. bls. 2—3.

Einu heimildarriti veit eg af, sem eg hefi, því miður, ekki átt kost á að nota. Það er handrit í safni Finns Magnússonar á Bodleianska bókasafninu í Oxford. Í handritaskránni er handrit þetta nefnt: Leikir í Danmörk, Noregi, Svíþjóð og á Islandi og er nr. 1, fol. Fasc. VI. Mér er alveg óljóst eptir hvern handrit þetta er.

---

Í fornöld voru leikir og íþróttir alltíðar og þarf ekki annað en að fletta upp í sögunum til að gánga úr skugga um það. Þess er getið þar á hverju strái, að teknir hafi verið upp leikir og hafa það einkum verið knattleikir og glímur. Í sögunum er líka mjög víða getið um sund, hlaup, skotfimi, hestaat og svo ýmisleg töfl, og er auðséð að mikil stund hefir verið lögð á alt þetta. Það er líka einginn efi á því, að líkamsæfíngar þessar hafa átt talsverðan þátt í því, að gjöra fornmenn að því, sem þeir voru, hraustmenni bæði á líkama og sál, þolgóðir og djarfir, hvernig sem á stóð og hver sem átti í hlut. Þegar fram liðu stundir lögðust fimleikar þeir og skemtanir, sem fornmenn höfðu leikið að list og vana, meir og meir niður og sumir týndust alveg t. d. knattleikurinn og hestaatið. Sumir tórðu að vísu en voru mjög sjaldan hafðir um hönd t. d. sund og skíðaferðir. Eg hefi fylgt þeirri reglu að geta um sögu hverrar íþróttar og hvers leiks, þar sem eg minnist á íþrótt þessa eða leik þenna, og þarf eg því ekki að fara fleirum orðum um það hér. Það er nóg að taka það fram, að það fara mjög litlar sögur af íþróttum Íslendínga á 16.—18. öld. Annálaritarar geta að eins á einstaka stað um sund o. s. frv. og er auðséð að þeim þykir það nýlunda. Það er eptirtektavert að það eru optast lærðir menn eða skólageingnir, sem eru syndir eða góðir glímumenn á tímabili þessu, og má ráða af því, að þeir hafi einkum lagt stund á íþróttirnar og haldið þeim við. Þess verður getið við glímurnar að þær hafi einkum blómgast í skólunum, og svo var um fleiri íþróttir. Eggert Ólafsson segir þannig að skólasveinar í Skálholti temji sér hríngbrot, stökk, kapphlaup o. s. frv. auk glímnanna[1], og skólapiltar á Hólum tömdu sér jafnvel sund, eins og seinna mun verða sýnt fram á.

Aptur hafa ýmsir smáleikir tíðkazt á tímabili þessu, eins og eðlilegt er, því börn og únglíngar hljóta ávalt að hafa eitthvað til að skemta sér við. Það er mjög sjaldan getið um slíkar skemtanir í fornsögunum og mætti ef til vill ráða af því, að þær hafi ekki verið tíðkaðar mikið í fornöld, enda þurfti þess síður, þar sem aðrar göfugri skemtanir voru alltíðar. Það er jafnvel líklegt að margir smáleikir og flestar smálistirnar hafi myndazt á tímabili þessu, en þó verður mjög sjaldan eða aldrei sagt með vissu um fæðíngarár leikja og lista og geta þeir vel verið frá fornöld, þótt þeirra sé ekki getið í fornsögunum.

[1] Reise igjennem Island; bls. 977. Sbr. Ísafold VI. bls. 127.

Það leikur einginn efi á því að Íslendíngar hafi lagt minni stund á íþróttir á 16.—18. öld, og reyndar fram á þenna dag, en í fornöld, og skal eg reyna að skýra hvernig stendur á því. Eg sé ekki betur en það séu þrjár aðalorsakir til þess: Vesöld og volæði Íslendínga á tímabili þessu, barátta biskupa og annara guðsmanna gegn þeim og svo öpun Íslendínga eptir útlendum siðum og útlendum skemtunum.

Fyrsta orsökin er aðalorsökin og felur hinar í sér að nokkru leyti. Vesöld Íslendínga og volæði í gamla daga er kunnugra en svo, að hér þurfi að fjölyrða um það. Einstakir menn voru ef til vill auðugri en nokkur er nú á Íslandi, en hagur alþýðu var að öllu leyti bágbornari en hann er nú, og það er ekki að furða, þótt Íslendíngar sintu ekki íþróttum og öðrum skemtunum, þegar menn dóu hvað eptir annað hundruðum og þúsundum saman úr sulti og seyru, þegar verzlunareinokunin grúfði yfir landinu, þegar klerkar og sýslumenn geingu um eins og grenjandi ljón og ofsóktu menn og brendu fyrir galdur, sem opt og tíðum var ekki annað en ást á þjóðlegum fræðum Íslendínga.

Önnur orsökin hlýtur líka að hafa haft mikil áhrif á hnignun íþróttanna, eins guðhræddir og Íslendíngar voru. Þegar í pápisku höfðu biskuparnir bannað ýmsa þjóðlega siði og þjóðlegar skemtanir. Jóni biskupi helga hafði þannig tekizt að afnema daganöfn þau, sem tíðkuðust í heiðni, og koma aptur á nafnaómyndum þeim, sem nú eru tíðkaðar. Þess er líka getið um hvern biskupinn eptir annan, að hann hafi haft skömm á vikivökum og reynt til að afnema þá, og skal eg ekki fjölyrða um það, því þess verður getið við vikivakana. Og loksins tókst þeim líka að koma því til leiðar að þeir voru lagðir alveg niður. En það voru ekki að eins vikivakar sem klerkarnir vildu eyðileggja, heldur allar skemtanir, hverju nafni sem nefnast: leikir, rímur, sögur, spil o. s. frv. Það lítur reyndar svo út sem guðsmenn þessir hafi leingi hlífzt við að prédika á móti taflinu. Taflvísa Jóns biskups Arasonar er prentuð í viðaukanum, og sýnir hún að hann hefir ekkert haft á móti tafli. Það er líka fært í frásögur um Guðbrand biskup Þorláksson að hann hafi teflt bæði úngur og gamall[1] og er merkilegt, því tafl virðist þó vera fult svo óguðleg skemtan sem meinlausar rímur og vikivakakvæði, sem Guðbrandur biskup hamast á móti. En seinna er taflinu heldur ekki hlíft, eins og eg skal bráðum sýna fram á.

Þar sem eg tala um sögulestur og rímnakveðskap færi eg til bönn móti hvorutveggja, bæði forn og ný, bæði eptir Guðbrand biskup Þorláksson og séra Jón Yngvaldsson, en hér skal eg færa til nokkur bönn móti skemtunum yfir höfuð, til að færa sönnur á mál mitt og sýna hve góð áhrif klerkastéttin hefir haft á þjóðlegar skemtanir vorar. Það má skipta bönnum þessum í veruleg lög og svo aðrar áminníngar, en það verður vel að gæta

[1] Ísafold VIII; nr. 13.

að því, að lög þessi, sem hér er um að ræða, áttu beinlínis rót sína að rekja til klerkastéttarinnar.

Jón Espólín getur fyrst og fremst um konúngsbréf um bændabrullaup, leiki og spil 1736[1]. Eg hefi gjört alt sem eg gat til að grafa upp bréf þetta. Það er hvorki í Lovsamling for Island né Alþíngisbókunum 1736 og 1737.

Í Fororðníngu um helgihald sabbatsins 1744 er þessi klausa: »Allt Tabl, Leiker, Hlaup, Spil, Gaarunga-Hial og Skemtan, — Fyrerbjoodast alvarlega hier med Øllum, Einum og Sierhverium, aan Mismunar, ad vidløgdu Straffe sem Helgedags Brot aaskilur[2].

Nú er taflið komið til sögunnar.

Í Húsvitjunar-Fororðníngunni 1746 er þetta: »Presturenn skal þad Alvarlegasta aaminna Heimiles-Folked ad vakta sig fyrer Onytsam-legum Søgum og Olijklegum Æfentijrum og Uppdictum, sem i Landenu hafa vered bruukanlegar, og aungvanveigenn lijda, ad þær sieu lesnar edur kvednar i þeirra Huusum, so ad Børnenn og þeir Uppvaxande villest ecke þar af; So og skal hann tillhallda Foolkenu ad þeir so vel siaalfer, sem og lijka þeirra Underhafande hallde sig fraa øllum skadlegum Spilum og Leikum, hvada Nafne sem heita kunne, epter þvi ad þar af fædest einasta Þraattan, Osamlinde, Aflog, og annad Vondt, sem einum Christnum er Osæmelegt, þar hiaa reitest þar med GUD til reide, og saa Dijrmæte Tijme, sem til Gudrækelegrar Yfervegunar og Nytsamlegs Erfides aa ad bruukast, eidest[3].«

I Húsaga-Fororðníngunni 1746 er komizt svo að orði: »Sierhver Huusboonde skal Kostgiæfelega aaminna sijn Børn og Hiuu, so vel ad uppbyria þeirra Erfide og Utriettingar med Bænum til GUDs, sem og i Erfidenu, stadfastlega siaalf ad upplipta þeirra Hiørtum til hanns, sem er Brunnur og Uppspretta allrar Blessunar, og innbyrdes ad tala sijn aa mille umm Gudrækelega og uppbyggelega Hlute, edur annad, þad sem Ærlegt er og Riett-Christnum Manne sæmelegt, hvar aa moot þau alvarlega eiga ad aaminnast under Straff, ad vakta sig fyrer Osæmelegu Tale og Gamne, Eydum og Bloote, Hiegoomlegum Historium, eda so kølludum Søgum, og Amors-Vijsum, eda Rijmum, sem Christnum soomer ecke umm Hønd ad hafa, og Heilagur Ande aangrast vid, A hvørt jafnvel og so, Hiuu og Børn eiga, epter skylldu þeirra Christendooms i Kiærleika ad aaminna hvørt annad; So og eiga Forelldrar, Huusbændur og Mat-Mædur siaalf hier i ad gaanga aa undann þeirra Børnum og Heimiles-Foolke med

[1] Árbækur IX; bls. 129.

[2] Forordning umm Tilblijdelegt Helgehalld Sabbathsens og anra Helgra Daga aa Jjslande. þann 29. Maji Anno 1744. Hoolum i Hialltadal, Anno 1744. (19 §).

[3] J. N. J. Forordning Vm Huus-Vitianer aa Islande. þann 27. Maji Anno 1746. Hoolum 1746. (18 §).

Goodu og Christelegu Epterdæme, og ad taka sier Vara fyrer øllu þvi, sem kañ af sier ad giefa nockurt heimuglegt edur Openbert Hneixle. Eñ verde þeir añadhvert siœlfer fundner i œdur tiedum Syndum og Løstum, samt ødrum Otierlegheitum og Ogudleik, edur ad lijda sijnu Foolke slijkt, œn þess ad giefa þad til kyña, þa œlijtest þeir med Gapastocknum epter undañgeingna Advørun, og gagne þad ecke, þa med hærra og hardara Straffe, sierdeiles med Kyrkiuñar D i s c i p l i n, epter Sakareñar Krijngumstæðum [1].»

Hér er s ö g u l e s t u r og r í m n a k v e ð s k a p u r beinlínis kallaður synd og löstur og liggur hvorki meira né minna við en gapastokkurinn hér í lífi, hvað sem öðru lífi líður.

Af öðrum áminníngum get eg ekki fært margt hér til, því eg er satt að segja ekki víðlesinn í íslenzkri guðfræði, og væri það þó eflaust lafhægt. Vess það og vísupartur, sem hér er prentað, er því hvorttveggja, að eins dæmi. Það mætti sjálfsagt tína þau til tugunum saman úr þessum moranda af guðfræðisbókum, sem við eigum.

28. erindið í fyrsta Upprisusálmi Steins biskups Jónssonar er á þessa leið:

Leikar, Ofdryckia Dans og Spil,
DRottni gjörast þa sijst i Vil,
einga GUds Dyrkan eflir slijkt,
Oskickan su þo gangi rijkt [2].

Séra Jón Magnússon í Laufási († 1675) hefir ort sand af andlegum kvæðum, þar á meðal eitt um ónýtíng tímans og er það óprentað. Þar er þetta:

Tafl og spil eða ráðlaust reik
með lát og leik
lítt trúi eg kristnum sæmi [3].

Loksins má færa hér til 137. greinina úr Ponta, sem var barnalærdómskver Íslendínga um og eptir miðja 18. öld, eins og kunnugt er. Ponti er reyndar saminn af útlendum manni, en það segir sig þó sjálft, að það hefir ekki getað haft góð áhrif á íslenzkar skemtanir að allur gleðskapur var bannaður í barnalærdómskveri því, sem hvert barn á Íslandi lærði. Greinin er svona: «Hvar med vanhelgar madur Hviildar daginn? Med

[1] Tilskipan Vmm Hous-Agann A Islande. þañ 3. Junii Anno 1746. Hoolum 1746 (7 §).

[2] PSALTERIUM TRIUMPHALE. Kmh. 1743; bls. 8.

[3] Sítat þetta er tekið úr Manducus séra Þorsteins Péturssonar.

lykamligu naudsynialausu Ervide, semuleidis syndsamligum Skiemtunum, so sem Danse, Spilum, og edrum Apaskap[1].«

En einginn hefir eins greinilega ritað á móti öllum leikjum og öllum skemtunum, hverju nafni sem nefnast, og Þorsteinn prófastur Pétursson á Staðarbakka († 1785, 74 ára), því hann samdi heila bók í því skyni. Rit þetta er nú í safni Árna Magnússonar í Kaupmannahöfn (963. 4to) og safni Jóns Sigurðssonar á Landsbókasafninu í Reykjavík (113. 8vo). Eg hefi farið yfir exemplarið á Árna safni. Það er 126 síður og allþétt skrifað sumstaðar, og þetta litla mál er ekkert annað en sannanir fyrir því, að því fari svo fjarri að leikir séu gagnlegir, að þeir séu í alla staði skaðlegir, því fari svo fjarri að þeir séu leyfilegir, að þeir séu bannaðir bæði í guðs og manna lögum.

Það er auðséð að séra Þorsteinn ætlar að gjöra hreint fyrir sínum dyrum, því það er eingin skemtan á guðs grænni jörðu, sem finnur náð fyrir augum hans, nema sálma saungur og guðsorðalestur, ef skemtan skyldi kalla. Þetta sést þegar á titli ritsins. Hann er svo: Manducus sive improbatio **Bachalyalium** modernorum, ludorum scenicorum, chorearum, chartorum ac tesserarum item rhythmorum, canticorumque prophanarum et frivolarum lectionum, nec non aliarum exercitionum inutilium, historice, theologice, biblice, dialectice et legaliter. Data occasione per Thorstenum Petri filium, Stadarbachæ. Anno 1757[2].

Prófasturinn skiptir ritinu í kafla og eru sumir þýddir eptir aðra, en sumir eptir sjálfan hann. Þýddu kaflanir eru frumsamdir af gömlum kunníngjum: J. Gerhardi, sem Gerhardíhugvekjur eru eptir og Erik Pontoppidan, sem Ponti er eptir. Þeir hafa ekki verið gleðimenn kallarnir, heldur en Þorsteinn prófastur.

Í einum frumsamda kaflanum skýrir höfundurinn frá því, hve gleðimönnum hafi hefnzt hraparlega fyrir skemtanir þeirra, leiki og tafl, einkum á helgum dögum. Stundum hefir kviknað í leikhúsum. Sumir hafa

---

[1] Gledileikum, ad gánga i Dryckiu Hws, og edru soddañ, sem alltijd er Synd i siálfu sier, eñ á Helgidegum tvefolld Synd. Hólaútgáfan 1759; bls. 57. Í meginmálinu er greinin prentuð eptir: Sannleiki Gud-hrædsluñar I einfalldri, og sem vard stuttri, þo ánægjanligri Ut-Skijringu yfir sál. Doct. Mart. Luth. Litla Catechismum – Gierd af Prof. EIRIKI PONTOPPIDAN. Kmh. 1741; bls. 36—37. Grein þessi er prentuð eptir útgáfunni 1781 í Þjóðólfi XXXIX; bls. 43. Þar er líka prentuð samskonar grein um vikivaka.

[2] Þessu mætti snara þannig á íslenzku: Mandúkus eða andmæli á móti heiðíngjaleikum þeim sem nú tíðkast, vikivökum og dansi, spilum og tafli, rímum og veraldlegum ljóðmælum, lestri léttúðugra bóka og öðrum gagnslausum athöfnum, studd við söguleg, guðfræðisleg, biblíuleg, heimspekileg og lögleg rök. Samið að gefnu tilefni af Þorsteini Péturssyni á Staðarbakka 1757. Annars færir Hallgrímur Jónsson til íslenzkan titil í Fræðimannatali sínu: Leikafæla mót holdlegum gleðileikjum og gamni veraldar, og virðist hann vera eldri en svo, að Hallgrímur hafi búið hann til. Hann er ef til vill líka eptir höfundinn.

*dottið og* meitt sig við leiki. Þetta álítur prófasturinn að sé bein refsíng *frá guði* almáttugum fyrir þetta óguðlega athæfi. Dæmi þessi eru þau *sögulegu* rök, sem höfundurinn færir fyrir því, að öll skemtan sé syndsamleg.

*Í* hinum köflunum skoðar prófasturinn málið frá guðfræðislegri, heimspekilegri og lagalegri hlið, og niðurstaðan verður alstaðar sú sama, að öll skemtan sé í alla staði óleyfileg, að áliti guðs og góðra manna, því prófasturinn færir ekki síður til klausur eptir Cicero, Seneca og Hugo Grotius, máli sínu til sönnunar, en kafla úr biblíunni og öðrum guðfræðisbókum.

Eg færi hér til svolítinn kafla, til að sýna hvað prófasturinn kemur víða við. Þegar hann hefir sannað (!) að dans spil, tafl, alskonar leikir og jafnvel glímur sé skaðlegt bæði fyrir sál og líkama, kemst hann svo að orði: »Hér mætti og bæta við fánýtum forlystíngum þeirra sem eru að lesa í gagnslausum bókum sífeldlega, svo sem eru Journaler, Adviser, Fabler, skröksögur, kvæða og rímna buldur og annað þvílíkt, sem ei er til neinnar uppbyggíngar, heldur alleina til forvitni og fánýtrar skemtunar, hvað alt er syndugt og á móti fine creationis[1]. Svoddan lestur er í eingu betri en iðjuleysið, og vita allir að það er bæði óþókknanlegt guði og mönnum, og sá það elskar er sem gagnslaus jarðarhnaus.«

Annan kafla færi eg hér til. Tilefnið til rits þessa, sem getið er um í titli þess, voru dansleikar (vikivakar), sem voru hafðir um hönd á Þíngeyrum, um það leyti sem prófasturinn samdi rit sitt. Hann drepur því fyrst á þá og skammar þá náttúrlega niður fyrir allar hellur. Því næst segir hann: »Sama er að segja um hina aðra gleðileiki, hjörtleik, hestreið[2] og kellíngarleik (er þeir svo kalla) og annað þvílíkt gjálífi, sem brúkað kann að hafa verið hér og hvar í landinu, þar sem óráðvandur sollur hefir verið saman kominn, svo sem í sjóstöðum af verfólki, þó hefir það ætíð verið gjört í hylmíngu og við launúng, fyrir utan vilja og vitund bæði andlegs og veraldlegs yfirvalds, og meina eg þess forgángsmenn víst hafa feingið ávítur þar fyrir, og að mestu hygg eg þetta hégómlega athæfi sé nú aflagt alstaðar. Svo eru og þeir jólaleikir[3], sem skólapiltar hafa kann ske í úngæði sínu tekið sér fyrir að halda á stólnum, án vitundar og samþykkis sinna skólameistara. Þeir stálust að því, þá eg til vissi, svo sem einum óærlegum hlut, eins og náttúrleg skynsemi kendi þeim það sjálf, að slíkur hégómaháttur væri ótilhlýðilegur fyrir þeirra stand, jafnvel þótt þeir vissu þá svo lítið sem ekkert hvað guðs orð meina, lög leyfði eða bönnuðu í svoddan sökum.«

---

[1] tilgánginum með sköpuninni.

[2] Leikir þessir snerta vikivaka og verður þeirra getið þar sem vikivökum verður lýst í safni þessu.

[3] Mér skilst að prófasturinn eigi hér ekki við neina vissa leiki, heldur ýmislega gleði, sem helzt var höfð um hönd um jólaleytið.

Kafli þessi er allmerkilegur fyrir sögu leikjanna, því hann sýnir bæði að leikir þeir, sem voru tíðkaðir við vikivaka, voru þá að mestu leyti lagðir niður, og að ekki hefir verið meir en svo gull í skel með skemtanir í latínuskólunum, frá hálfu yfirmannanna.

Að svo mæltu skil eg við Þorstein prófast og færi að endíngu til ályktarorð hans seinast í einum katlanum: »Er því svoddan íþrótt öll á mót guðs dýrkan, sjálfs sín viðurhaldi og mannsins uppbyggíng, ergo illicita, impia, inutilis, nocua et improbanda[1].«

Það virðist nú ef til vill í fljótu bragði vera undarlegt að biskupar og aðrir klerkar skyldu hamast svona á móti leikjum og skemtunum, en það skyldu þó einmitt vera skólageingnu mennirnir (prestarnir), sem héldu þeim við; en þeir hafa eflaust gjört það í trássi við félaga sína, eins og séra Þorsteinn bendir á um skólapiltana. Holdið hefir barizt á móti andanum hjá þeim, eins og svo opt kemur fyrir, og holdið hefir sigrað, eins og svo opt ber til, — hér til allrar hamíngju.

Það er vitaskuld að klerkarnir höfðu rétt til og voru jafnvel skyldir til að berjast á móti því, að leikina keyrði fram úr hófi. Það var t. d. ekki von, að þeim geðjaðist að seinustu Jörfagleðinni, þar sem sagan segir að 19 börn hafi komið undir. Mér dettur ekki heldur í hug að segja, að leikir og skemtanir séu »það eina nauðsynlega«, en að berjast á móti öllum skemtunum, af því að eina skemtan hefir einstökum sinnum keyrt fram úr hófi, það er sama sem að berjast fyrir því, að heill hreppur sé afmáður, af því einn eða nokkrir menn úr honum hafa brotið á móti lögunum að einhverju leyti. Þetta hefur meistari Jón séð, enda er hann sá einasti af gömlum íslenzkum guðfræðíngum, sem eg þekki, sem lætur leikina njóta sannmælis. Hann segir að í þriðja boðorðinu séu bannaðir »Liooter Leiker, og Ogudleg Skiemtan — — — Drickiu-Svall, Lauslæte, og añad því-lijkt Giœlijfe Heimsens[2]«. Meistari Jón hefir kunnað að gjöra mun á saknæmu og saklausu, eins og hans var von og vísa.

Eins segir hann í bók einni, sem hann hefir þýtt úr ensku, að skemtanin sje einn af þeim hlutum, »er vier eigum i Hoofe ad bruka, hvør[3] a stundū er Naudsynleg, bæde fyrer Lykamañ og sœlena, þvi hvørugt af þeim gietur þolað jafnadarlega Mædu, nema Madur a stundum take sier nockra Endurnæring, Þar fyrer er Mañenum þad Leifelegt. — — Fyrst eigum vier ad sjœ til ad þetta[4] verde giørt med leifelegu Moote, og a þañ Hœtt, ad eingeñ Synd fylge þar med, Vier meigum alldrei skemta oss

[1] þessvegna óleyfileg, óguðleg, gagnslaus, skaðleg og ámælisverð.

[2] STUTT OG EINFØLLD UNDERUIISVN VM Christenndoomeñ. Ed. III. Hoolum 1748 bls. 51.

[3] þ. e. skemtanin.

[4] þ. e. skemtanin.

med soddañ Hætte, ad Gud verde Ovyrdtur, edur vdrum[1] Nœunga sie Oriettur gier. — — I Añañ Mœta eigum vier ad bruka þvilijkt i Hoofe, hvar fyrer vier skulum vera fyrst visser um̄, ad vier ekki kostum of mikelle Tijd þar til, helldur lœtum oss i Hug koma, ad Orsøkeñ œ alleina ad vera su, ad giøra oss Hæfelegri til vorra Embættes Syslana, og ecke ad þetta skule vera vort Embætte. I þridia Mœta eigum vier ecke ad vera allt of miøg giefner fyrer slijku, þvi bæde vill þad verda oss ad Snøru, ef vier brukum þad Oftijtt, So og hindrar þad oss, frœ þvi sem oss meire Magt œliggur, og vier høfum meire þørf a. — — — I Sijdasta Mœta skulum vier eingañ añañ Asetning hafa i skiemtan vorre, eñ þañ sem Riett vijs er, sem er mœtuleg Hressing[2].»

Og svona heldur meistari Jón áfram stundarkorn, alveg í sömu stefnu. Eg færði kafla þenna til orðréttan til að sýna, hve skynsamlega meistari Jón tekur í mál þetta, jafn skynsamlega og margir af félögum hans hafa tekið óskynsamlega í það, bæði að fornu og nýu. Að vísu kallar hann tafl og spil skömmu seinna[3] þarflausa dægrastyttíngu og óþarfa skemtun, en jafnframt tekur hann það fram, að »soddan Leikur, nær hañ er i Hoofe brukadur, sie eingeñ Oleifelegur Hlutur» Loksins má geta þess, að meistari Jón vill með eingu móti láta tefla eða spila um fé, og kallar það á meistaramáli sínu að setja sálu sína undir taflið.

En þótt einstaka guðfræðíngur hafi ekki bannfært saklausar skemtanir, þá er það samt ekki fjarri lagi, sem Ólavíus gamli segir í ferðabók sinni[4], þar sem hann er að tala um að gamlar og göfugar íþróttir séu lagðar niður fyrir laungu: »Klerkastéttin hefir meir að segja ekki als fyrir laungu litið svo á, að það væri skylda sín, að afnema alla »gleði» eða leiki í staðinn fyrir að taka í taumana, ef þeir færu leingra en góðu hófi gegndi. Þó vóru þeir í sjálfu sér ekki annað en saklaus skemtan. Þeir voru meir að segja gagnlegir. Að vísu voru þeir óbrotnir, en þeir voru þó til hressíngar fyrir alþýðuna og hún hlaut að hafa gott af því að lypta sér upp nokkrum sinnum á ári, frá erfiði því og armæðu, sem hún varð að búa við dags daglega.»

Þá er þriðja orsökin. Það hefir leingi brunnið við, einkum við sjóarsíðuna, þar sem fólkið hefir mest viðskipti við útlendínga, að ýmsir útlendir siðir hafa slæðzt inn í landið, sumir góðir en flestir vondir. Íslendíngar, sem hafa verið í útlöndum, hafa líka eflaust flutt ýmsa útlenda siði inn í landið og þarf ekki annað en að minna á Svein lögmann Sölfason

[1] Á að vera »öðrum».
[2] Skyllda MANNSENS VJD GUD, SJALFANN sig, og Nœungann o. s. frv. Hoolum 1744; bls. 411—412.
[3] bls. 413, 415.
[4] Oeconomisk Reise igjennem Island. Kmh. 1780; bls. 185.

sem vildi »dependera af þeim dönsku« ekki síður í málinu en öðru[1]. Það er undarlegt að Sveinn lögmaður og aðrir lærðir menn skyldu ekki vita, að betra er sjálfur að hafa en sinn bróður að biðja, og að holt er heima hvað, því það ætti þó ekki að þurfa mikla mentun til að sjá, að málshættir þessir eiga að öllum jafnaði við. Skiljanlegra er það að alþýðu manna hætti við að apa ýmislegt eptir útlendíngum, sem sumt var ef til vill ekki sem heppilegast. Hún hefir jafnan talið kaupmenn og aðra útlendínga »fínni« en flesta menn aðra, sem hún komst í kynni við. Henni hefir því þótt það »fínast«, sem þeir höfðu um hönd, og tekið það eptir þeim, eptir faungum. Á þenna hátt hafa ýmsar útlendar skemtanir flutzt inn í landið og breiðzt þar út. Það er sannarlega hart að vita til þess, að flestar þjóðlegar íþróttir vorar skyldu vera lagðar niður og útlendar skemtanir koma í staðinn, en það var ekki við öðru að búast, eptir því sem á stóð. Nú þegar Íslendíngar hafa feingið svo næma tilfinníngu fyrir þjóðerni sínu, eptir því sem blöðin segja, þá er vonandi að þeir hætti að apa eptir útlendan hégóma. Það er sjálfsagt að læra af útlendíngum það sem gott er: dugnað, framtakssemi, samtök o. s. frv. Það er sjálfsagt að láta fimmeyríng af hendi, þegar króna stendur til boða, en að taka upp útlenda siði, útlendar skemtanir o. s. frv. í staðinn fyrir hina gömlu og góðu þjóðsiði vora, það er að skipta krónu fyrir fimmeyríng. Og loksins má geta þess, að því er íþróttirnar snertir, að sund, glímur, hlaup, skíðaferðir, kappreiðar o. s. frv. eru líka tíðkaðar í útlöndum »svo þótt Íslendíngar vilji nú slá slöku við sínar fornu íþróttir, af því þær eru innlendar, þá er þeim óhætt að taka þær upp aptur, fyrst þær eru einnig útlendar. Það þarf þá ekki að fyrirverða sig fyrir þær sem eingaungu íslenzkar[2].«

Hér þykir mér réttast að fara nokkrum orðum um þessar útlendu skemtanir, sem tíðkast á Íslandi, því það á ekki við að skipa þeim jafnhliða þjóðlegum skemtunum vorum, en ófært að minnast ekki á þær, fyrst þær eiga sér stað á annað borð. Þessar útlendu skemtanir eru þá fyrst og fremst ýmsir smáleikir og svo dans. Smáleikirnir eru flestir pantaleikir og leyfi eg mér að lýsa einum þeirra, jólaleiknum, því hann mun vera tíðastur og víðast hafður um hönd af leikjum þeim, sem hér er um að ræða, en á hinn bóginn eru leikir þessir svo líkir, að ef einum er lýst, þá sést að miklu leyti hvernig hinir eru. Eg lýsi jólaleiknum, eins og hann var leikinn í Eyafirði í úngdæmi mínu og þaðan hefi eg líka »herrar« eða »kavalérar« og »dömur«, en aðrir hafa sagt mér að þeir hafi vanizt nöfnunum piltar og stúlkur. Bezt fer á því að jafnmargir kallar og konur séu í leiknum, en ekkert er því til fyrirstöðu að kallar leiki konur eða

[1] Sveins Sölvasonar Tyro Juris. Kmb. 1799. Form.; bls. XII.
[2] Ísafold VI; bls. 128 (Dr. Grímur Thomsen).

konur kalla, ef á þarf að halda. »Dömurnar« sitja í sætum sínum, ákaflega nótentátulegar og bíða biðlanna; kýs hver sér einn af »herrum« þeim, sem eru í leiknum. Þeir eru frammi á meðan og vita ekkert hvað gjörist inni. Þegar tími er til kominn, koma þeir inn, einn í einu. Sá fyrsti geingur að þeirri sem honum þykir líklegast að hafi kosið sig og hneigir sig fyrir henni. Ef hún hefir nú kosið hann, þá hneigir hún sig aptur fyrir honum og vísar honum til sætis, en annars skellir hún saman lófunum og allar hinar »dömurnar« með henni og reka »kavaléranн« burt, ver en sneyptan. En áður en hann fer, verður hann að gjöra svo vel að láta af hendi »pant«. Nú kemur næsti »herra« og fer alt á sömu leið og svo koll af kolli, þángað til þeir hafa náð hver í sína »dömu«. Nú fara »dömurnar« út, en »herrarnir« eða »kavalérarnir« sitja inni, snipparamannlegir mjög. Alt fer á sömu leið, nema dömurnar hneigja sig miklu greinilegar en herrarnir, alveg eins og í dansi. Þegar dömurnar eru allar geingnar út, þá er farið að dæma pantana. Einn leikmanna hefir umráð yfir þeim. Hann tekur einhvern þeirra af handahófi og spyr einhvern félaga sinna, mig minnir þann sem seinast lét pant af hendi, hvað sá eigi að gjöra sem eigi þetta. Dómarinn kveður upp dóminn og er venjulega hagað svo til, að hægt sé að gjöra það, sem til var tekið, þegar í stað. Næsta dóm dæmir sá, sem seinast var dæmdur, og svo koll af kolli, þángað til pantarnir eru geingnir upp. Dómarnir eru mjög margvíslegir, eins og við er að búast. Einn á að yrkja vísu, annar að segja sögu o. s. frv. En sjaldan mun vera leikinn svo jólaleikur, að ekki séu fleiri eða færri kossadómar. Sumir kossadómarnir hafa jafnvel sérstök nöfn. Sá sem á þenna pant er dæmdur til að falla í brunninn. Hann vill falla fyrir þessari og þessari »dömu«. Hún spyr hve margar álnir hann sé fallinn. Svo og svo margar t. d. 13, og svo kyssast þau 13 kossa. Annar er dæmdur til að hánga. Eg hefi gleymt hvernig það er, en svo mikið er víst að allir leikmenn krosskyssast, svo það er eingu líkt. Þriðji er dæmdur til að telja stjörnurnar. Kossar og kossar, ekkert annað en kossar. Sumir eru aptur dæmdir alveg blátt áfram, til að kyssa þessa og þessa »dömu« svo og svo marga kossa, en valla færri en 10, því það þykir einginn slægur í því.

Af þessu tagi eru margir leikir, og skal eg að eins nefna nokkra: Að sitja á forundrunarstól, af því að, fríunarleikur[1], gikksleikur, hryggbrotsleikur, hvíslíngaleikur, og útásetníngarleikur[2].

Ef ætti að einkenna þessa leiki gagnvart þjóðlegum leikjum vorum, þá er það einkum tvent, sem aðgreinir þá. Annað er að þeir hafa einga hreifíngu í för með sér og herða því ekki líkamann að neinu leyti. Að

[1] Er nefndur í lýsíngu Breiðdalssóknar 1873 og er ef til vill sama og jólaleikur. Hryggbrotsleikur er líka ef til vill það sama.

[2] Ef til vill sama og að sitja á forundrunarstóli.

vísu má segja sama um allmargar íslenzkar skemtanir, en þó fáar að tiltölu, og sumar þeirra hafa þá aptur eitthvað sérstaklega þjóðlegt við sig, sem fullkomlega vegur á móti hreifíngu þeirri sem fylgir hinum, t. a. m. véfrétt Völu. Hitt er það að hér er ýmislegt dufl[1] miklu tíðara en í íslenzkum skemtunum. Því bregður þar reyndar fyrir á einstaka stað, t. d. í skipagjöf, en það kemur þar miklu viðkunnanlegar fram og eptir því sem eg veit bezt er ekki kossaflens í neinum íslenzkum leik.

Vitaskuld er það að jólaleiki og þess háttar leiki má leika, án þess að kossaflens og þess háttar keyri þar fram úr hófi, en það er að gjöra við því sem er, en ekki því sem getur verið, og þegar öllu er á botninn hvolft, virðast leikir þeir og listir þær, sem hafa tíðkazt á Íslandi frá alda öðli, eða minnsta kosti svo leingi, að þeir eru orðnir alveg þjóðlegir, eiga betur við þjóðerni vort en þessi aðskotadýr, sem flest eða öll hafa flutzt til Íslands á þessari öld, og það því fremur sem þessir útlendu leikir eru allir valdir af verra endanum. Ef t. d. knattleikir flyttust aptur heim til Íslands frá Einglandi, þá hefðu allir þeir, sem unna göfugum skemtunum, ástæðu til að klappa lof í lófa, því þeir eru jafnhollir fyrir líkama og sál og auk þess miklu minni hætta á því, að þeir fari leingra en góðu hófi gegnir.

Þá er að minnast á dansinn. Íslendíngar hafa eflaust tekið meiri trygð við hann en leiki þá, sem nú hefir verið talað um um hríð. Hann er þó valla kominn um alt Ísland enn þá, en hann breiðist út eins og eldur í sinu og er orðinn ótrúlega algeingur, þegar gætt er að því, hve hann er kornúngur á Íslandi.

Dansinn hefir breiðzt út frá kaupstöðunum, einkum Reykjavík. Únglíngar hafa drifið þángað víðsvegar af landinu til að mentast, bæði karlar og konur. Þeir lærðu flestir að dansa og kendu svo aptur út frá sér, þegar þeir komu heim í sveitirnar.

Á Bessastöðum lærðu skólapiltar þó ekki að dansa, nema þá rétt einn og einn[2], en þeir hafa eflaust verið postular þeir, sem hafa breitt gleðiboðskap dansins mest út á Íslandi. Í Reykjavíkurskóla kom annað hljóð í strokkinn, nema allrafyrst, og lætur víst nærri að gullöld útlenda dansins hafi runnið upp á Íslandi, um það leyti sem skólin komst almennilega á laggirnar í Reykjavík.

Synd væri að segja að dansinn hafi feingið góðar viðtökur hjá öllum á Íslandi. Það hafa opt staðið óþvegin orð um hann í blöðunum og læt eg mér nægja að skýrskota til tveggja greina í Norðanfara[3].

Á greinum þeim, sem getið er um, sést að höfundum þeirra hefir verið

[1] Dufl er gamalt orð og þýðir eiginlega teníngakast. Nú er það stúdenta mál og skólapilta og þýðir látalæti milli kalla og kvenna.

[2] Sbr. Íslendingur IV; bls. 26 og Piltur og Stúlka. II. útg.; bls. 181.

[3] II; bls. 21 og XXI; bls. 31.

*meinilla* við dansinn, og sama máli mun vera að gegna um ýmsa aðra. Ástæðan til þess er einkum sú, að vikivakarnir gömlu voru sumir hverjir alveg eins fagrir og dansar þeir sem alment tíðkast, en höfðu það fram yfir hina að þeir voru þjóðlegir, en á hinn bóginn er það alveg eðlilegt að útlendur dans breiddist út á Íslandi, úr því vikivakarnir liðu undir lok. Íslenzkt kvennfólk hefir þörf á að skemta sér, eins og allir aðrir menn með holdi og blóði. Nú kann það ekki við að glíma eða fara gegnum sjálft sig, og þess vegna tók það dansinum fegins hendi, þegar því bauðst tækifæri til þess. Ef vikivakar væru teknir upp aptur, þá mundi dansinum hnigna að sama skapi, en það er ef til vill ómögulegt.

Þeir sem kunna að hafa horn í síðu útlendra skemtana, hafa þó ekki ástæðu til að amast við einni þeirra, en það eru blysfarir eða blysburður, enda getur skemtan þessi haft alveg þjóðlegan blæ, ef vel er farið með. eins og við fyrstu blysför sem farin var á Íslandi. Á gamlárskvöld 1872 efndu stúdentar og skólapiltar í Reykjavík til blysfarar og tóku alt að 70 manns þátt í henni. Þeir bjuggu sig misjafnt og skiptu sér í tvo flokka; voru aðrir ljósálfar, en hinir dökkálfar. Flokkarnir mættust á miðri Reykjavíkurtjörn, dönsuðu þar álfadans og súngu undir góð og þjóðleg kvæði[1].

Þrjár aðrar blysfarir hafa skólapiltar farið, í desember 1874[2] og á þrettándakvöld 1875[3]. Á þá þriðju var ekki minzt í blöðunum. Loksins var farin blysför á »þjóðhátíð« Borgfirðínga í Þíngnesi, gamlárskvöld 1874[4], og veit eg þá ekki betur en taldar séu allar blysfarir, sem hafa verið farnar á Íslandi.

Extrema se tangunt[5] segir máltækið og sannast það hér, því aptan við þessar útlendu skemtanir leyfi eg mér að hnýta svo litlum pistli um þorrablót þau, sem haldin hafa verið, nú í nokkur ár. Eg vildi ekki gánga alveg þegjandi fram hjá þessari einkennilegu veizluskemtan, en gat hvergi komið þeim að á haganlegri stað en hér. því þorrablótin og að minnsta kosti sumar af blysförunum hafa það þó sameiginlegt, að hvorttveggja hefir ýngt upp minnínguna um hina gömlu, góðu og göfgu trú forfeðra vorra. Þorrablótin eiga upptök sín að rekja til íslenzkra stúdenta í Kaupmannahöfn, eða að minnsta kosti héldu þeir þorrablót 1873. Eg hefi heyrt sagt að doktor Björn Ólsen hafi geingizt mest fyrir því og eptir hann er veizlukvæðið, Full Þórs[6]. 1880 mun Fornleifafélagið í Reykjavík hafa haldið þorrablót, þótt eg hafi ekki rekið mig á skýrslur um það í blöðunum.

---

[1] Þjóðólfur XXIV; bls. 33, sbr. Norðanfari XII; bls. 33. Álfadans var líka stiginn a þjóðhátíð Svarfdæla, 3. ágúst 1874, sbr. Norðanfari XIII; bls. 102—103.

[2] Þjóðólfur XXVII; bls. 23. sbr. Norðanfari XIV; bls. 20.

[3] Þjóðólfur XXVII, bls. 32.

[4] Norðanfari XIV; bls. 51.

[5] Örskamt er öfganna á milli.

[6] Ný Félagsrit XXX; bls. 128—9.

Aptur hélt það stóreflis þorrablót 21. janúar 1881. Veizlusalurinn var búinn fornum voðum, skjaldarmerkjum og öndvegissúlum. Lángeldar brunnu á gólfinu. Samsætið byrjaði með griðasetníngu að fornum sið og var ekki mælt meira undir samsætinu. Við samdrykkjuna á eptir var guðanna minzt, Óðins alföður, Þórs[1], Freys og Njarðar til ársældar, Braga, Freyu o. s. frv.[2] Ekki hefi eg rekið mig á skýrslur um önnur þorrablót í blöðunum, en það er vonandi að þau leggist ekki niður. Það má ekki minna vera en guðanna gömlu sé minzt einstökum sinnum í þakklætis skyni fyrir fornöldina. Eg skal minnast á það, til gamans, að greindur bóndi norðlenzkur fáraðist mjög um þorrablótin við mig, sumarið 1881. Honum þóttu þau einhver óhappavænlegasti viðburður, sem hann hafði heyrt getið um nýlega, enda er það ekki að furða, því hann hélt að þau mundu verða vísirinn til þess að Íslendíngar köstuðu kristinni trú og færu að trúa á Þór og Óðin.

---

Það er eins og Íslendíngar hafi leingi vel ekki skeytt því, þótt þjóðlegar skemtanir þeirra legðust niður. Reyndar harmar séra Benedikt Jónsson það í leikkvæði sínu[3], að gamlar og góðar skemtanir skuli vera á förum, en eg veit þó ekki til að nokkur Íslendíngur hafi lagt framt á að halda þeim við, fyr en Eggert Ólafsson. Hann var uppi um miðja 18. öld († 1768). Eggert var manna þjóðlegastur, eins og kunnugt er, og unni mjög öllum íslenzkum þjóðsiðum og þá líka íslenzkum skemtunum. Þegar hann var við Kaupmannahafnarháskóla, var allróstusamt meðal íslenzkra stúdenta í Kaupmannahöfn, eins og opt vill brenna við, og er svo að sjá, eptir því sem Jón Espólín segir, að leikirnir hafi átt talsverðan þátt í því: »Á þeim árum[4] var allmikil óvild með Stúdentum í Kaupmannahöfn, fylgdi annar flokkr Hannesi Finnssyni[5] ok kalladr biskupssona-flokkr, en sá bóndasona-flokkr, er Eggerti fylgdi ok hans brædrum; — — vildi Eggert at stúdentar héldi uppi glímum ok leikum, en hinum þótti þeim þat ei hæfa, ok komst í metnadr[6].« Ekki veit eg þó til að þessar tilraunir Eggerts hafi haft nokkur áhrif á íþróttir Íslendínga.

Þegar kemur fram á þessa öld, fer óðum að lifna yfir íslenzkum skemtunum og íþróttum, enda hefir ekki verið sparað að brýna Íslendínga

[1] Þórs var líka minzt í nokkurs konar þjóðhátíðarsamsæti á Akureyri 23. janúar 1874 (Norðanf. XIII; bls. 121) og gamlárskvöldssamkomunni á Espihóli 1874 (Norðanf. XIV; bls. 14).

[2] Þjóðólfur XXXIII; bls. 10. sbr Norðanfari XX; bls. 39.

[3] Sbr. viðaukann.

[4] Kríngum 1765.

[5] Seinna biskup.

[6] Árbækur X; bls. 78.

til að halda þeim við og taka þær upp aptur, sem týndar voru. Jón Kjærnesteð kendi þannig víða sund, snemma á öldinni, eins og seinna verður skýrt frá, og 1836 gáfu útgefendur Fjölnis út Sundpésann. Þá var nú sundið komið af stað, og er einginn efi á því, að miklu fleiri Íslendíngar hafa lært sund á þessari öld en nokkurri öld annari, síðan í fornöld, þótt sundið hafi reyndar ekki breiðzt eins mikið út á Íslandi og það á skilið. Og það var ekki sundið eitt, sem lifnaði við. Flestar íþróttir, sem tíðkuðust í fornöld, hafa verið tíðkaðar meira og minna upp á síðkastið, alstaðar þar sem Íslendíngar hafa komið saman sér til skemtunar, en það hefir verið allopt í seinni tíð. Seinna verða færðar margar sönnur fyrir því, að glímur, stökkfimi, hlaup og kappreiðar er líka að rétta við og þarf því ekki að fjölyrða um það hér. Það er nóg að taka það fram, að flestar íþróttir forfeðra vorra virðast nú vera að rakna úr margra alda roti[1].

Valdimar Ásmundsson færir til skýrslu yfir íþróttamenn í Svalbarðssókn 1873, í lýsíngu sóknar þessarar. Slík skýrsla er í eingri annari sóknarlýsíngu. Eg tek hana hér upp, til gamans, og getur hún ef til vill verið dæmi upp á það, hve margir íþróttamenn eru í meðalsókn á Íslandi, um þessar mundir:

| | Hljóðfæramenn.[2] | Skotmenn. | Sundmenn. | Glímumenn. | Skíðamenn. | Skautamenn. | Dansmenn. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|
| Karlar. | 4 | 8 | 5 | 3 | 5 | 7 | 3 |
| Konur. | 2 | • | • | • | • | • | 10 |
| Samtals. | 6 | 8 | 5 | 3 | 5 | 7 | 13 |

»Um glímumenn og skíðamenn er það athugandi, að þeir einir eru taldir af þeim, sem beztir eru. Fleiri fara líka með byssu en skotmenn þeir sem taldir eru.« Dansmennirnir eru lángflestir og ræður það að líkindum.

Orsakirnar til þessara framfara í íþróttunum, eru fyrst og fremst það, að fjör, framtakssemi og þjóðernistilfinníng Íslendínga eru altaf að fara í vöxt, og svo ein áskorun af annari í blöðunum. Um margar slíkar áskoranir verður getið seinna, en hér skal eg aðeins nefna »Bréf í sveitina« eptir séra Svein Skúlason í Norðra[3] og svo hinar ágætu áskoranir Gríms Thomsens í Ísafold[4].

---

[1] Því fer reyndar fjarri að glímurnar hafi legið í roti frá því í fornöld, eins og sýnt er fram á, þar sem talað er um þær, en hitt er víst að meira virðist vera glímt nú, en um miðja þessa öld.

[2] Hljóðfærin, sem Valdimar getur um, eru lángspil, harmóníka og »fíól«(in).

[3] VII (1859); nr. 31—32.

[4] VI; bls. 127—128; VII; bls. 119—120. Aðrar áskoranir eru í Norðanfara XV; bls. 59, XXI; nr. 31, Þjóðólfi XVII; nr. 3, XXVIII, viðaukablað við nr. 9 og XXX; nr. 30. Þessi seinasta áskorun er frá Einglendíngi. Annars hafa, held eg, öll blöðin tekið í sama streinginn.

Ýms félög hafa líka verið stofnuð til að halda íþróttum vorum við og hafa þau eflaust haft góð áhrif, þótt þau hafi ekki lifað leingi sum, en sum lifa enn þá góðu lífi. Seinna verður getið um ýms slík félög, glímufélög, skotfélög og sundfélög, og þótt sum þeirra séu ef til vill ekki sem þjóðlegust eða hafi ekki verið það í upphafi, þá geta þó slík félög haft góð áhrif á íþróttir vorar óbeinlínis. Hér um árið var líka stofnað félag í Reykjavík, »Reykjavíkur Klúbbur« og var það tilgángur þess, eptir því sem segir í lögum þess[1], að safna mönnum saman til sameiginlegrar skemtunar, og að sjá fyrir því, sem yfir höfuð miðar til þess.« Félag þetta kvað vera dautt nú og er skaði, því það hefði ef til vill getað getið af sér þjóðleg skemtunarfélög út um landið.

Eins gæti íslenzkum skemtunum skinið gott af því, á margan hátt, að leikhús væri bygt í Reykjavík, eins og er í ráði[2], þótt þess verði, ef til vill, nokkuð lángt að bíða. Það mundi reyndar einkum vera haft til dansfunda og saungs, en þó yrðu eflaust leikin þar leikrit með höppum og glöppum og að sjá leikin íslenzk leikrit um íslenzk efni er sannarlega þjóðleg skemtan. Glímumenn gætu líka að öllum líkindum feingið húsrúm þar til að æfa sig o. s. frv.[3].

---

[1] Lög fyrir Reykjavíkur Klúbb. Rkv. 1881.

[2] Sbr. Þjóðólf XXXII; nr. 30 og XXXIII; nr. 22.

[3] Það er ekki fjarri lagi að minnast hér lítið eitt á íslenzk leikrit, einkanlega upptökin til leikaralistarinnar á Íslandi. Það má rekja þau til Skálholtskóla. »Sá sidur fluttist fordum med Skólanum í Reykjavík, að eptir að búid var að skipa lærisveinum í sæti á hvorju hausti, héldu þeir nokkurskonar gledi-hátíd, og var það þá haft til gamans ad krýna þann sem efsta sæti hlaut í skólanum, sem skólans konúng; og frá Skálholti kom med skólanum til Reykjavíkur, kóróna veldisspíra og ríkisepli, stjórnarinnar einkenni; sem þessi skólans konungur tók á móti á sinum krýningar degi; um leid voru tilsettir embættismenn. Medan skólinn var í Skálholti, voru ei kosnir adrir embættismenn heldur enn stiptamtmadur, biskup og dómendur. Þennan sama dag var skylda biskups ad prédika, og þadan er sprottin sú prédikun, sem alkunnug er hér í landi, og heitir Skraparotts prédikun. — —

Þessi sidur mun ei hafa þótt vid eiga þegar skólinn var kominn í kaupstad, og þó krýníngin vidhéldist, ad minsta kosti fram á næstlidin aldamót var prédikuninni sleppt, enn í hennar stad komu gledispilin. Þá voru og valdir ædstu rádherrar — enn ekki háir embættismenn, svo sem: utanríkis rádherra, Cancelleri, Dróttseti, o. s. frv.« Svona kemst Árni biskup Helgason að orði í Æfisögu Sigurðar sýslumanns Péturssonar[a] og svipuð lýsing er í ferðabók Sveins læknis Pálssonar.[b] Eg skal þýða hana hér orðrétt, því siður þessi er alveg lagður niður fyrir laungu og fallinn mjög í gleymsku.

»19. Októbr var eg um kvöldið við herranótt í Reykjavíkurskóla. Svo kalla

a. Leikrit Sigurðar Péturssonar Rkv. 1846; bls. XVIII—XIX.

b Hrs. Bmfj. 1 fol.; bls. 42—48. Sitatið er tekið eptir miða, með hendi Jóns Sigurðssonar í Hrs. Sv. Grv. Nr 66

Enn má geta þess að leikfimiskennsla var leidd í lög í Reykjavíkurskóla 1850. Það var reyndar lángt frá því, að kendir væru þjóðlegir fimleikar og leikfimiskennarinn var leingi vel danskur, en íslenzkum fimleikum gat þó vel skinið gott af kennslu þessari. Í nýu reglugjörðinni 1877 er skipað svo fyrir að glímur skuli kenna og hlýtur ákvörðun þessi að verða

---

skólasveinarnir athöfn þessa. Hún er nokkurs konar leikur [a] sem piltar leika einu sinni á ári hverju. Þeir bjóða skólastjóra og kennurum, öllum embættismönnum og heldri mönnum úr grendinni og konum þeirra. Leikurinn er fólginn í krýníngu, og er sá efsti í skólanum ávalt kóngur. Sumir leika biskup og presta, en aðrir verzlega höfðíngja svo sem æðsta ráðgjafa og annan ráðgjafa, stiptamtmann, lögmann, dómara o. s. frv. Kóngurinn er krýndur og tekur við veldissprotanum, en um leið er haldin stutt ræða á latínu, sem á við tækifæri þetta. Því næst geingur fram hver af höfðíngjum konúngs eptir annan og les upp fyrir honum heillaósk í ljóðum, á latínu. Við og við geingur öll hersíngin aptur og fram um gólfið, nokkrum sinnum, og líka fyrir utan skólann og kríngum hann; er þá súngið og leikið á hljóðfæri jafnframt, þegar kostur er á, og skotin nokkur skot. Sumum er falið á hendur að leika atriði (senu) úr gleðileik.»

Sveinn læknir talar hér bæði um ræðu og leikrit, en hann getur þess ekki, að biskup hafi haldið ræðuna, og er því ómögulegt að sjá hvort prédikun sú, sem Árni biskup talar um, hefir verið enn við lýði. Eg læt það liggja milli hluta, en víst er það, að hér eru upptökin til íslenzkrar leikaralistar. Geir biskup samdi fyrsta leikrit sem leikið var í skólanum, Brand [b] og svo Sigurður sýslumaður Pétursson tvö, Hrólf og Narfa.

Síðan hafa skólapiltar og stúdentar leikið hvað eptir annað, en sjaldnast hafa þeir leikið íslenzk leikrit. Íslendíngar hafa jafnvel opt leikið dönsk leikrit á dönsku og er skömm að. Stundum hafa aðrir leikið en stúdentar eða skólapiltar og upp á síðkastið hefir víðar verið leikið en í Reykjavík. Eptir því sem eg kemst næst eru 12 íslenzk leikrit prentuð, þegar leikrit Hannesar biskups í Kvöldvökunum eru talin með, og eru þau eflaust fyrstu leikrit, sem samin eru á íslenzku.

Hér hefir verið að ræða um skólasiði um hríð og vil eg því geta hér um fáeina kesknisiði, sem tíðkuðust í skólum vorum, að fornu fari. Séra Jón Steingrímsson (seinast prestur til Kirkjubæarklausturs † 1791) nefnir þannig «innbyrðis skólareglur þeirra [c] er brúkast við nýkomna, Snorra, bál, flug og skírn.» [d] Eingu af þessu lýsir Jón, en það hefir sjálfsagt verið einhver keskni við busana, alveg eins og Jamberíngin, sem tíðkaðist í Bessastaðaskóla. Mér er ekki ljóst sem stendur, hvernig henni var varið og minnir mig þó fastlega, að eg hafi lesið einhverstaðar um hana á prenti. Fleiri kesknibrögðum urðu busar fyrir og voru sum fremur barbarisk. Ekkert af þessu athæfi hefur breiðzt út fyrir skólana [e].

a. Skuespil.

b. Brandur er prestaður í leikritum Sigurðar Péturssonar.

c. Þ. e. skólapilta.

d. Æfisaga sera Jóns Steingrímssonar eptir sjálfan hann. Hrs. Lbs. nr. 182, 4to; 10 Kap. Palmi Palsson hefir gætt að þessu fyrir mig.

e. Nema ef til vill flug, sem þýðir að minnsta kosti sama sem að fljúga eða flögur hjá séra Benedikt Jónssyni. Sbr. Viðaukann

glímunum að ári, ef kennari og piltar eru samtaka í því að fylgja henni. Leikfimi og glímur á líka að kenna í Möðruvallaskóla[1].

Menn hafa ekki að eins skorað á Íslendínga, að temja sér ýmsar íþróttir og sýnt fram á það, hve þær væru hollar að öllu leyti, heldur hafa menn líka komið fram með ýmsar uppástúngur um það, hvernig hægast væri og heppilegast að koma þeim á. Einna ítarlegust er uppástúnga séra Sveins Skúlasonar í Norðra[2] og skal eg því taka hana hér upp orðrétta: »Mannfundir til skemtana gæti verið með ýmsu móti hjá oss, og ætti að vera það, og líka ætti þeir að vera á mörgum stöðum, eins og títt var í fornöld. Leikirnir ætti að vera tvennskonar, og annað hvort miða til að mýkja, styrkja og herða líkamann eða til þess að auðga andann og gefa honum ný verkefni til umhugsunar. Hinir fyrri leikirnir mundu nú verða lángt um almennari fyrst um sinn hjá oss, því þeir eru hægri viðfángs og tilkostnaðarlausir svo að segja. Leikir skyldu fyrst um sinn stofnaðir í hverjum hrepp, og skyldu sem flestir taka þátt í því, og ættu sveitaforstjórar að hvetja til þessa, og láta að hausthreppaskilum kjósa einhvern úngan mann og líflegan til leikstjóra. Leikstjóri þessi skyldi ákveða daga til leika, og láta vita hvað leikið yrði. Mættu leikir gjarna vera einu sinni í mánuði að vetrinum, en ekki nema tvisvar á sumri, fyrir og eptir slátt; hann skyldi stjórna leikjum, og jafnan ráða hvað leikið yrði; þegar leikfundir væru á komnir, færi bezt á, að þessir fundir veldu sjálfir forstjóra sína. Þegar segja á hverja leiki helzt skyldi við hafa, þá verður það nokkuð að fara eptir því, hvar á landi leikir eiga að fara fram. Glímur, hvatleiki á fæti, kappreiðar, knattleikir og skotfimi geta optast alt af átt við; skíða og skauta hlaup víða að vetrinum; sundfærni alstaðar, kappróður og kappsiglíngar víða að sumrinu. Margt mætti enn til tína, en það er leikstjóranna að finna upp leiki og velja þá, sem bezt eiga við í hvert skipti. Væri fyrst slíkir leikir orðnir almennir í hverjum hrepp, ætti að stofna sýsluleiki og fjórðúngaleiki, þar sem afburðamenn frá hverri sveit kæmi saman og reyndi með sér og mundi slíkt með tímanum geta orðið hin mesta skemtan. Menn vita að hinn forni almenni þjóðleikur vor, glímurnar, voru jafnvel í svo miklu geingi að þær tíðkuðust á alþíngi á seinni tímum, og þótti mikið undir komið, hver sigraði í þeim; svo er og um allar aflraunir, að mikið hefir jafnan þótt til þess koma að bera af öðrum í þeim.«

Svipuð uppástúnga er í Norðanfara[3], en þó bætir höfundurinn ýmsu við, sem hann vill að menn temji sér á fundum þessum. Hann vill þannig

---

[1] Líka var talað um að koma á leikfimiskennslu á fundi Framfarafélags Akureyrarkaupstaðar, 15. desember 1879, en ekkert varð úr því (Norðanfari XVIII; bls. 112, 3. d).

[2] VII; bls. 127—128.

[3] XV; nr. 30.

láta menn venja sig við að halda þar tölur, og er það sjálfsagt. Saung vill hann líka láta fara þar fram, og loksins leggur hann það til, að sýníngar séu haldnar jafnframt á aðalfundunum, eða fjórðúngafundunum og virðist það vera snjallræði. Þá eru tvær flugur slegnar í einu höggi. Fjórðúngafundina vill hann láta halda árlega á tímabilinu milli Jónsmessu og heyanna, sinn í hverjum fjóðungi[1]. Það virðist ekkert vera að athuga og eingu að bæta við uppástúngur þessar, nema ef það væri heppilegra að úngir menn og uppvaxandi tækju að sér leikina þegar frá upphafi. Það væri vert að reyna hvernig fyrirkomulag þetta tækist, því mér er ekki kunnugt að nokkur tilraun hafi verið gjörð í þá átt. Annars kemur fyrirkomulagið af sjálfu sér, ef menn vilja koma saman sér til skemtunar, og það ættu menn að gjöra, því »skemtana þarf manneskjan við og njóti hún ekki þeirra heilbrigðu, gagnlegu og leyfilegu, þá er henni hættara við að leita til til þeirra skaðlegu[2].« Og það eru einmitt óleyfilegu og skaðlegu skemtanirnar, sem menn leitast við að afla sér, hver fyrir sig Það er ekki svo hætt við þeim á skemtifundum.

---

Eg hefi haft það fyrir reglu, að tína saman alt um leiki, sem eg vissi, stórt og smátt. Þess vegna get eg hér málshátta þeirra og orðtækja, sem eg hefi rekið mig á um leiki yfir höfuð, eða þar sem orðið »leikur«, kemur fyrir. Aptur nefni eg málshætti þá o. s. frv. þar sem minzt er á einhvern sérstakan leik eða sérstaka skemtan, þar sem eg minnist á leik þenna eða skemtun þessa.

Fyrst koma málshættirnir.

Afl er bezt í hverjum leik[3] (Schev. II).
Augun eru bezt í hverjum leik (G. J.)
Barnið er móðurinnar bezta leika (J. Ól.)
Bezt er að hætta hverjum leik þá hæst geingur[4] (Schev. II.)
Dælla er að leika eptir en fyrir (G. J.)
Einginn er annars bróðir í leik (G. J.)
Ekki er sá gleðivandur, sem leikur sér að hrosshausnum (G. J.)
Hóf er bezt í hverjum leik (G. J.)
Hægri er eptirleikurinn[5] (J. Ól.)

---

[1] Mjög svipaðar uppástúngur eru í Norðanfara XIX; nr. 18 og XXI; nr. 53—54.
[2] Ísafold VII; bls. 120 (Grímur Thomsen).
[3] Afl er bezt til leiks að leggja. Nokkur ljóðmæli eptir Hallgrím Pétursson. Rkv. 1885; bls. 19. Afl er í leikum bezt (G. J. og Schev. II.)
[4] framfer (G. J.) Þá skal hætta hverjum leik er bezt geingur G. J.
[5] eða Óvandari er eptirleikurinn (en sá fyrri) (J. Ól.)

Jafnan vinnnur fólskur maður fyrsta leik (Schev. I.)
Leikspilið vanhelgar eingan, heldur þess vanbrúkun (G. J.)
Leikur er barna yndi (G. J.)
Leikur er góður [ef mátur er með[1] (Schev. I.)
Opt vex leikur af litlu (Schev I.)
Spyrjum að leikslokum en ekki höggvaviðskiptum[2] (J. Ól.)
Þar er eingum list, sem hann leikur ekki[3] (G. J., Schev. II.)
Það er ójafn leikur þá stormur glímir við sátu (strá) (Schev. II.)

Ekki eru orðtækin færri, sem dreigin eru af »leikur« eða skildum orðum og skal eg geta um nokkur, sem mér detta í hug í svipinn, bara til málamynda: Að leikslokum. Það urðu leikslok. Með illan leik. Hún lék það að list og vana. Þú hefir ekki verið einn í leiknum[4]. Að skakka leikinn. Að skerast í leikinn. Að vera barn í leikum[5]. »Þau færa leikinn út í túnið«[6]. Leikurinn barst t. d. út á völl. Leikur á borði[7]. Að leika einhvern svo og svo t. d. grátt, hart, sárt (harðleikinn). Svo fóru leikar að — — —. Að bregða á leik. Að gjöra sér leik til einhvers. Það leikur á tveim túngum (B. H.) Hann lék á lófum (B. H.). Hann leikur við laufum (G. J.) Hann leikur alsolla (á alls oddi, við hvern sinn fingur) (G. J.) Það leikur á litlum (þunnum) þræði (J. Ól.) Það er ekki leiklaust (J. Ól.) Eitthvað leikur í lyndi. Mér leikur hugur á þessu og þessu. Leikurinu gránar (J. Ól). Að eiga fyrirleikinn (J. Ól.) Til mín mun leikurinn gjörður[8]. Það er ekki einleikið. Að leika á einhvern.

Af einstökum orðum má nefna leiksbragð[9] leikaraskapur[10] og leikaradýr.

Í alla þessa flokka vantar sjálfsagt miklu fleira en til er tínt, en þetta er þó nóg til að sýna, hve hugmyndin »leikur« hefir verið rík hjá þjóðinni, þegar orðtæki þessi mynduðust, og mér er næst að halda, að ekki kveði

---

[1] Mátinn fylgir, sama heim. og G. J. Fyrri útgáfan er nokkuð færeyskuleg en sú seinni ófyrirgefanlega dönskuleg, svo málsháttarinn er eiginlega gallagripur.

[2] Vopnaviðskiptum (G. J.)

[3] Það er einum list, sem hann leikur (Schev. II.) Það verður eingum að list, sem hann leikur ekki (G. J.) Það er sérhvers list, er leikur. Kvæði Eggerts Ólafssonar Kmh. 1832; bls. 120. 14. er.

[4] Þjóðs. Jóns Árnasonar. II; bls. 180.

[5] Leikrit Sigurðar Péturssonar. Rkv. 1846; bls. 182.

[6] Piltur og Stúlka. II. útg.; bls. 33.

[7] Mér segir svo hugur um, að nýr leikur muni verða á borði. Kvæði Egg. Ól.; bls. 26.

[8] Þjóðs. J. Árn. I; bls. 281. Eg hefi opt heyrt: Til þess var nú leikurinn gjörður

[9] Þjóðs. I.; bls. 514.

[10] Þjóðs. I.; bls. 121.

eins mikið að nokkurri hugmynd í afleiddum[1] íslenzkum orðtækjum og hugmyndinni »leikur«.

---

»Einginn gjörir svo öllum líki og ekki guð í himnaríki« segir máltækið og geing eg að því vísu, að höfundi leikjasafns þessa hafi ekki tekizt það heldur. En eg hefi gjört það eins vel úr garði og mér var mögulegt, og vona eg því að ekki verði tekið mjög hart á því, þótt safninu kunni að vera áfátt að ýmsu leyti. Það eru einkum tvö atriði, sem eg er hræddur um að verði ásteytíngarsteinar fyrir lesendur safnsins, og hefðu þau sjálfsagt komið til greina, hver sem hefði skrifað um íslenzka leiki, að minnsta kosti ef það hefði verið gjört nokkuð nákvæmlega. Um þessi tvö atriði leyfi eg mér að fara nokkrum orðum.

Annað eru klúryrði þau, sem eru hér til og frá, en hitt, að mörgum mun þykja margt tínt hér til, sem sé svo ómerkilegt, að því sé ekki haldandi á lopt, og safnið ef til vill svo fáfeingilegt í heild sinni, að það hefði betur setið heima en farið í prentsmiðjuna og þaðan um alt Ísland og miklu víðar.

Klúryrði koma fyrir í svo mörgum íslenzkum skemtunum, að það hefði verið ógjörníngur að sleppa þeim öllum, og það því fremur sem það eru einkum slíkar skemtanir, sem bera einna bezt með sér þenna grófgjörða »humor«, sem er svo eiginlegur gauzkum þjóðum og germönskum, og hvergi kemur jafnvel fram og í þjóðsögum og þjóðtrú þessara þjóða. Þegar þjóðsögurnar o. s. frv. voru búnar til, var ekki verið að hnitmiða niður hvert orð eins og nú er títt. Nei, höfundar þeirra »mæltu« beinlínis »af gnægð hjartans«, og þá var ekki við öðru að búast, en margt klúryrðið fyki með. Yfir höfuð er það talinn einn aðalkosturinn við þjóðsögur og slík fræði, hvað þær eru hispurslausar og blátt áfram. Þær tala valla nokkurn tíma undir rós, eins og nú ber svo opt við, en fyrir bragðið gánga þjóðirnar þar til dyra í hversdagsfötum sínum, en ekki í sparifötunum, eins og í svo mörgum kvæðum og skáldsögum, sem nú eru samin. Í annan stað kynoka aðrar þjóðir sér ekki við að færa til ýmiss konar klúryrði í samskonar söfnum, og læt eg mér nægja að skýrskota til svensku útgáfunnar af »Hvar býr Nípa«, sem eg skal bráðum minnast á.

Að því er snertir seinna atriðið leyfi eg mér að vísa til þess, sem sagt er um þjóðsögur vorar, þar sem minzt er á sögulestur, seinna í safni

---

[1] Afleidd kalla eg orðtæki þau, þar sem aðalorðið er ekki haft i venjulegri merkingu. Að færa leikinn, er ekki afleitt, þegar er t. d. að ræða um að færa skollaleiksvið. Aptur er það afleitt, þegar sagt er að menn, sem eru að fljúgast á í illu, færi leikinn, því áflog í illu eru ekki leikur, að minnsta kosti eptir því sem málið er nú.

þessu. Því þjóðsögur, leikir o. s. frv. eru ekki annað en greinar á sama trénu. En eg skal bæta því við, að menn ættu að hafa það hugfast að »lítið hugnast litla fólkinu[1]«, og margar skemtanir, sem hér eru taldar, eru einmitt tíðkaðar mest af börnum eða únglíngum. Ekki svo að skilja að eg telji þær nokkru ógöfugri fyrir það. Börnin búa optast að því bezta, sem foreldrarnir hafa á boðstólum, og þá er ekki að furða, þótt leikir o. s. frv. séu einkum ætlaðir börnum og únglíngum.

Flestum únglíngum þykir ekkert skemtilegra en að leika sér, fara í skollaleik, hafnarleik o. s. frv, og furða eg mig als ekki á því. En þegar únglíngunum er vaxinn fiskur um hrygg, þegar þeir hafa sjálfir eignazt börn og buru, þá er opt komið annað hljóð í strokkinn og því furða eg mig á. Margir fullorðnir menn hafa skömm á leikjum, telja þá óþarfa, ef ekki skaðlega, og er ekki um að börn þeirra leiki sér eða banna þeim það jafnvel. Þetta er synd, þótt eg muni ekki eptir að hún sé bönnuð í kverinu, að minnsta kosti ekki tossakverinu. Eins og flestum fullorðnum mönnum þótti gaman að leika sér, þegar þeir voru börn, eins er von að börn þeirra lángi til að leika sér, og sama mun verða ofan á meðan heimur stendur. En er það ekki synd að bæla niður eðlilegar tilhneigíngar, að minnsta kosti þegar þær eru alveg skaðlausar, eins og tilhneigíng sú, sem hér er um að ræða? Hún er meira að segja gagnleg, eins og reyndar alt sem er eðlilegt. Við leikina harðna únglíngarnir. Þeir læra snarræði, verða þolnari til áreynzlu o. s. frv. Þess vegna er leikfimi kend í flestum skólum, og talin eitthvert bezta meðalið til að fá hrausta og liðuga sál í hraustan og liðugan líkama. Einglendíngar eru allra manna heilsubeztir og hraustastir og er það meðal annars eignað því, hve þeir leggja mikla stund á íþróttir og ýmsa leiki. Sama er að segja um Grikki gömlu.

Það eru einkum tvær ástæður til þess, að únglíngum er bannað að leika sér. Önnur er það að foreldrarnir, eða þá húsbændur og aðrir yfirmenn, sjá í hverja stund, sem geingur frá vinnunni til leikja. Þeim þykir nær að únglíngarnir kembi nokkrar kembur eða prjóni nokkrar lykkjur neðan við smábandssokk en fari út og fari í snjókast eða búi til snjókellíngu. Það er nokkuð til í þessu En hitt er víst að kembíngin eða prjónið mun gánga betur, ef únglíngunum er leyft að lypta sér upp með sprettum. Það má einginn taka orð mín svo, að eg mæli fram með því, að únglíngum sé leyft að leika sér ár og síð og alla tíð. Nei því fer fjarri. »Hóf er bezt að hafa í allan máta.« Einusinni bjó ekkja fyrir norðan, ekki als fyrir laungu og var únglíngur á heimilinu, sem þótti fremur hyskinn. Einn góðan veðurdag um hásláttinn leggst strákur upp í rúm og fer að lesa í bók. Fólkið fer á eingið, eins og vant er, en strákur liggur í rúminu og les í bók sinni. Ekkjunni þótti þetta

---

[1] Schev. II.

lynlegt og fer að hnýsast eptir hvaða bók það er, sem strákur er með. Þetta er þá hvorki meira né minna en biblían sjálf. Ekkjan tók biblíuna af stráknum, rak hann á fætur með harðri hendi ofan á eingi og barði hann minnir mig í tilbót. Það munu flestir vera á því, að rétt hafi verið af ekkjunni að banna stráknum að lesa í biblíunni, þegar svona stóð á, og vita þó allir að á henni er margt að græða. Eins er með leikina. Únglíngar mega ekki fá leyfi til að leika sér, til þess að komast hjá því að vinna, heldur til að lypta sér upp. Sumir foreldrar o. s. frv. eru víst aptur innilega sannfærðir um, að leikir og skemtanir séu gagnslausar, ef ekki skaðlegar, að minnsta kosti mjög auðvirðilegar. Eg hefi drepið fyrir skemstu á skoðun þessa og þarf ekki að gjöra það aptur, en vil klykkja út pistil þenna með svenskri vísu, eptir A. U. Bååth.

Men ei må ett ömkans löje man le
åt minnen från barnadar,
det vore en synd ty det vore för visst
att håna sin egen far.
Ei må man till glömska de minnen döma
det vore sin egen mor at glömma.

---

Það sést fljótt, þegar litið er í kríngum sig í útlendum bókmentum, að útlendíngum er ekki um að »hæða föður sinn en gleyma móður sinni,« því þar eru þjóðsögur og önnur þjóðleg fræði höfð í hávegum, að minnsta kosti meðal beztu mannanna Stjórnir ríkjanna veita mönnum fjárstyrk til að ferðast um löndin og safna slíkum fræðum, og má taka til dæmis stjórn Norðmanna og Dana. Við háskólann í Kristíaníu er prófessor í þjóðtrúarfræðum, og loksins eru til prentuð svo mörg söfn af þjóðsögum, leikjum o. s. frv. að þau skipta tugum þúsunda, held eg, en eru þó öll fremur úng. Margir vísindamenn gjöra líka ekkert annað alla æfi en að grúska í þjóðsögum og verða sumir heimsfrægir fyrir bragðið. Ef einhverjir Íslendíngar skyldu hafa laungun til og kost á að hnýsast inn í fræði þessi, þá skal eg geta hér um tvö rit, þar sem færður er til mesti morandi af titlum á þjóðsögum o. s. frv.: Fortegnelse over Professor Svend Grundtvigs efterladte Bogsamling. Kmh. 1884 og Hugo Gering: Íslendsk Ævintýri II. Halle, 1883.

Þegar borin eru saman þjóðsagnasöfn og leikja úr ýmsum löndum, kemur það fljótt upp úr kafinu, að sumir leikir, sem eru t. d. tíðkaðir sunnan til á Þýzkalandi eru náskyldir leikjum, sem tíðkast norður í Svíþjóð eða á Íslandi. Stundum er auðséð að leikirnir eru innfluttir, eins og t.

d. **jólaleikur**, sem hefir flutzt fyrir skemstu[1] frá Danmörku til Íslands, og verða slíkar skemtanir einstökum sinnum þjóðlegar í hinu nýa föðurlandi sínu með tímanum, t. d. **skáktafl** og *kotra* á Íslandi. En miklu optar er það þó, að lítil líkindi eru til, að leikirnir séu beinlínis fluttir inn í eitt land úr öðru. Flestir Íslendíngar þekkja t. d. **Nípuleik** eða **hvar býr Nípa**. Í Svíþjóð tíðkast alveg sami leikurinn og orðin eru meir að segja hérum bil þau sömu.

A. Hvar bor Vipa?
B. I Österrika.
A. Hvad gör 'o' där?
B. Värper ägg.
A. Hur många kullar?
B. Skäppo' fulla.
A. Hvad får ja'?
B. Agge' de söta
eller kattlorten den blöta[2].

Sama máli er að gegna með **brúarleik**, sem tíðkaður er í öllum löndum í Norðurálfu, nema að eins fjórum.

Nú eru báðir formálarnir við Nípuleikinn þjóðlegir, hvor í sínu landi og eins brúarleiksromsurnar. Þær eru enda allólíkar, þótt leikurinn sé sá sami í raun og veru. Þegar svona stendur á, telja þjóðtrúarfræðíngar að leikirnir séu svo gamlir, að þeir hafi þegar verið komnir í kríng þegar þjóðirnar skildu, því skildar þjóðir voru allar ein þjóð í upphafi og tvístruðust svo seinna, hver um sitt land, alveg eins og þegar Íslendíngar klofnuðu frá Norðmönnum við landnám Íslands. Ef þetta er rétt, eins og lítur út fyrir, þá eru margir leikir æfagamlir, en margir þeirra hafa breytzt allavega eptir eðli hverrar þjóðar.

Það væri eflaust mögulegt að ættfæra marga leiki og listir til útlendra leikja og lista, og væri bæði gagn og gaman að því, en mig vantar alveg

---

[1] Eins er það með einstaka íslenzka þjóðsögu. Sagan af Gríshildi góðu (Þjóðs. J. Árn. II; bls. 414—417) er þannig fyrst samin af Francesco Petrarcha, þessu heimsfræga ítalska skáldi († 1374). Gríshildarsagan hefir þó verið algeing á Íslandi á 17. öld, því frá þeim tíma eru til af henni þrjár útgáfur (redaktsíónir), auk þeirrar sem prentuð er og svo kvæði og rímur þar á ofan. Áptur er mér grunur á að sagan af þremur kóngssonum (Þjóðs. J. Árn. II; bls. 367—75) sé komin til Íslands miklum mun seinna. Í þúsund og ein nótt (III; bls. 341—393) er saga alveg eins, og held eg að þessi íslenzka þjóðsaga eigi rót sína að rekja þángað.

[2] Tekið eptir hrs. Svend Grundtvigs 64.

tíma til þess, enda mundi það verða lángt mál. En »lítið er betra en ekkert«, og þess vegna kaus eg heldur að drepa á skyldleika þeirra, en gánga alveg þegjandi fram hjá honum.

---

Loksins skal eg skýra frá niðurröðun þeirri, sem eg hefi fylgt í safni þessu. Eg hefi orðið að haga henni alveg eptir mínu eigin höfði, því á leikjasöfnum þeim, sem eg hefi haft við að styðjast, er ekkert að græða í þessu efni Þar hefir annaðhvort eingin niðurröðum verið, eða leikjunum o s. frv. hefir verið raðað eptir stafrofsröð. Eins er með prentuð leikjasöfn útlend, sem eg hefi haft undir höndum. Að vísu hefir verið þar niðurröðun sumstaðar, svo lángt sem þau náðu, en eg þekki ekkert leikjasafn, í víðri veröld, jafn yfirgripsmikið og þetta, og neyddist eg því til að skipta leikjunum niður, eins og mér þótti sjálfum eiga bezt við. Það er því ekki að búast við að niðurröðun mín verði jafnheppileg og á Þjóðsögum Jóns Árnasonar, sem »mest var tekin eptir bók Konrad Maurers, en hann hefir skipt i þætti, eins og nú[1] tíðkast mest á Þýzkalandi[2].«

Eg hefi ávalt haft það hugfast, að skipa skemtunum þeim saman, sem skyldastar eru, en nú eru sumar skemtanir, sem ómögulegt er að vísa til sætis meðal nokkurra annara skemtana, ef á að fara eptir góðum og gildum ástæðum. Eg vil taka brennurnar til dæmis. Eg var leingi í vandræðum með þær og hnýtti þeim seinast aptan í leikfángsflokkinn. Mér finnst þær fremur eiga þar heima en í hinum flokkunum. Öðrum finnst ef til vill, að þær eigi fremur heima annars staðar, en erfitt mun verða að vísa þeim til sætis, annars staðar í safni þessu, með rökum. Sama er að segja um nokkrar fleiri skemtanir, að tilfinníng hvers eins verður að ráða, hvar þeim er skipað, öllu fremur en skynsemi.

Eg hefi þá skipt safninu niður í þrjá flokka. Til fyrsta flokksins tel eg skemtanir, þar sem einhver líkamleg áreynsla, t. d. hlaup eða annar fimleiki er mergurinn málsins. Þar tel eg og til glímur, sund og aðrar íþróttir. Þessi flokkurinn er mesta uppáhald mitt og þess vegna skipa eg honum í öndvegi. Í öðrum flokknum tel eg skemtanir þær, sem litla eða einga hreifíngu þarf við, en víða meiri andlega atgjörfi en við fyrsta flokkinn. Spilamaðurinn situr t. d. í sæti sínu, meðan hann er að spila, en þarf þó opt að brjóta heilann talsvert, til að spila rétt. Eins þarf sá, sem er að kveðast á, að halda á góðu minni, því þar er alt komið undir því, að kunna sem flestar vísur og hafa þær á takteinum. Fyrst í öðrum flokknum get eg um orðagamanið og teingir það hann saman við fyrsta flokkinn, einkum leikina. Í þriðja flokknum lýsi eg ýmsu leikfángi, ýmsum verkfærum, sem gjörð eru úr garði svo og svo og sem á að gjöra þetta og þetta við. Aptan

[1] þ. e. 1862.
[2] Formáli Guðbrands Vigfússonar fyrir Þjóðsögum J. Árn. I; bls. XXX–XXXI.

við þenna flokk hnýti eg svo ýmsu, sem eg gat ekki komið annars staðar að, þótt það eigi þar ekki heima í raun og veru.

Flokkunum skipti eg svo aptur í greinir, eins og gjört er í þjóðsögunum, og sést sú skiptíng bezt á registrinu eða bókinni sjálfri. Þeirri skiptíngu er líka hagað eptir skyldleika, alveg eins og flokkaskiptíngunni. Þar sem ekki voru til orð, sem einkendu innihald hverrar greinar, myndaðist eg við að búa þau til. Það er mjög fjarri því, að eg sé ánægður með þau og bið eg lesendur mína velvirðíngar á þeim.

Mér þykir skylt að taka fram tvent annað, að því er snertir meðferð mína á safni þessu. Fyrst og fremst hefi eg allstaðar lagt til grundvallar þá útgáfu af leikjunum, listunum o. s. frv., sem eg hefi vanizt, en hnýtt svo aptanvið aðallýsínguna viðbótum og breytíngum frá öðrum, og getið ávalt heimildanna. Það sem eingin heimild stendur við, tíðkast því eða hefir tíðkazt í Skagafirði og Eyafirði 1860—1880. Í annan stað hefi eg als ekki gjört mér far um, að lýsa til hlítar skemtunum Íslendínga í fornöld, því til þess hefði þurft meiri tíma en eg mátti missa fra öðrum önnum. Auk þess liggur slíkt miklu nær fornfræðíngum en þeim, sem fást við þjóðsögur og þess háttar. Eg hefi þó ávalt getið þess, þegar hægt er að rekja einhverja skemtun fram í fornöld.[1]

Að endíngu skal eg minnast hér á nokkra menn, sem eg á sérstaklega mikið að þakka, að því er snertir safn þetta. Það eru þá fyrst og fremst allir þeir, sem nefndir eru, þar sem eg get um helztu heimildarrit mín[2]. Jóni Ólafssyni hefi eg grætt lángmest á og þarnæst safni Jóns Árnasonar. Safn Guðmundar bróður míns og Valtýs Guðmundssonar komu mér líka mjög opt að góðu haldi, og svo önnur söfn, sem þar eru nefnd. Þar er minzt á safn Pálma Pálssonar, en auk þess hefir hann gætt að ýmsu fyrir mig, sem til var í handriti, á handritasöfnum Landsbókasafnsins. Páll Melsteð, skólakennari hefir gjört mér þann greiða, að lesa yfir kaflana um sundið og sögu glímnanna, og bætt við ýmsum fróðleik, eins og hans var von og vísa, einhvers fróðasta manns á Íslandi. Auk þess hefir hann hjálpað mér um sum tvísaungslögin, og svo ýmislegan fróðleik um tvísaunginn þar á ofan. Þetta var ómetanlegt gagn fyrir safnið, því tvísaungurinn er að mestu leyti geinginn úr gildi, fyrir nokkrum tugum ára, og var því ekki von, að feitan gölt væri að flá í því efni, okkur úngu mennina. Af öðrum mönnum, sem heima eru, má nefna séra Eggert Brím á Höskuldsstöðum, móðurbróður minn. Hann hefir einkum sent mér ýmislegt leikfáng og gefið mér skýrslur um það.

[1] Skammstafanir þær, sem eru til og frá um safnið (til þess að spara rúm), verða færðar til í heimildaskránni, við nöfn þau sem eru skammstöfuð, t. d. Jón Ólafsson (J. Ól.)

[2] Sbr. bls. 5—9.

Allir félagar mínir hér í Kaupmannahöfn, sem eg hefi leitað ráða til, hafa stutt mig eptir faungum, og skal eg sérstaklega nefna til Þorstein Erlíngsson stud. jur., Jón Þorkelsson cand. mag., Pál Bjarnarson stud. med. og Beintein Gíslason stud. jur. Við Þorsteinn bjuggum saman á Garði um tíma, meðan eg var að hnoða saman nokkru af ritgjörð þessari. Það voru því hæg heimatökin að bera eitt og annað undir hann, enda var það ekki sparað. Og það er sannast að segja, að eg fór sjaldnast í geitarhús að leita mer ullar, þegar eg leitaði til Þorsteins. Hann er fæddur og uppalinn á Suðurlandi, og átti þannig hægt með að hjálpa mér um ýmsar sunnlenzkar skemtanir, sem eg þekti áður lítið eða ekkert.

Jón Þorkelsson er allra manna fróðastur í íslenzkri bókmentasögu frá seinni tímum, og svo kunnugur íslenzkum handritum, að það eru eins dæmi, síðan Jón Sigurðsson leið. Hann hefir gefið mér bendíngar um ýms heimildarrit, sem eg hefði að öllum líkindum ekki getað notað að öðrum kosti. Margt annað á eg honum að þakka, t. d. margt af skandéríngarvísunum.

Páll Bjarnarson hefir verið mín hægri hönd, að því er snertir skáktafl, enda hefði eg ekki verið á marga fiska þar, ef eg hefði átt að spila alveg upp á mínar eigin spýtur. Margt er enn þá óljóst, að því er snertir töflin, en það hefði orðið tíu sinnum fleira, hefði Páll ekki hjálpað mér.

Árni Beinteinn Gíslason hefir gjört rímnalögunum sömu skil og Páll Bjarnarson skáktaflinu. Hann hefir sett þau hér um bil öll á nótur, en til þess var eg með eingu móti fær. Auk þess hefir Beinteinn hjálpað mér með tvísaunginn, sem eg var sjálfur mjög ófróður um að öllu leyti.

Öllum þessum mönnum, sem nefndir hafa verið, kann eg þakkir og svo öllum þeim, sem hafa lagt mér lið að einhverju leyti. Safni þessu fylgir skrá yfir alla heimildarmenn mína. og þakka eg þeim öllum fyrir greiða þann, sem þeir hafa gjört mér og íslenzkum þjóðtrúarfræðum.

Eg hefi að vísu týnt til alt, sem eg þekti af íslenzkum skemtunum, hverju nafni sem nefnast, og sagt að jafnaði alt, sem eg vissi um þær, smátt og stórt. Eg geing þó að því vísu, að það sé til mesti fjöldi af leikjum og listum, sem hér er ekki minzt á einu orði. Eins er eflaust fjöldi af skemtunum, sem er hafður öðruvísi en hér segir, í ýmsum héruðum landsins. Eg er að vísu ekki svo hræddur um, að mér hafi sézt yfir margt, sem prentað er um íslenzkar skemtanir í seinni tíð, en margt getur legið í handriti. Flest af því sem hér vantar, mun þó að eins vera til á vörum og í tízku hinnar íslenzku þjóðar. Eg hefi als ekki sagt skilið við íslenzkar skemtanir, þótt safn þetta hlaupi einhvern tíma af stokkunum, og væri mér því mjög kært, ef einhverjir vildu gjöra við það athugasemdir og senda mér. Eg mundi taka öllum viðaukum og lagfæríngum fegins hendi, smáum og stórum. Fult svo rétt væri þó, ef til vill, að senda slíkar skýrslur

til einhvers handritasafns, helzt Landsbókasafnsins. Þar væri hægðarleikur, að skipa þeim saman í eitt eða tvö númer, og þar gætu allir geingið að þeim, sem hefðu áhuga á slíkum fræðum.

Að svo mæltu rek eg endahmútinn á inngáng þenna, og vildi svo kveðið hafa, að safnið yrði til gagns og gamans þeim sem lesa það, en íslenzku þjóðerni til sóma.

*Ólafur Davíðsson.*

# 1. FLOKKUR.

## (AFL OG ÁREYNSLA).

### 1. GREIN.

### ÍÞRÓTTIR.

Það dylst eingum, að íþróttirnar hljóta að standa í fyrsta flokknum, eptir því sem sagt er í inngánginum[1], en aptur getur verið meiri vafi á, hvað telja á til íþrótta. Í fornmálinu er fyrst og fremst sund, skot o. s. frv. talið til íþrótta, en auk þess ýmislegt fleira, sem eingum dettur í hug, að telja til íþrótta um þessar mundir. Það er t. d. sagt frá því í Flateyarbók[2], að Ólafur konúngur helgi og menn hans hafi talið íþróttir sínar. Það var íþrótt Sigurðar biskups »at syngja tiðir xij manudr alla, þær er hafa þarf, þo at ek hafui önga bok vid«. Ólafur konúngur telur það íþrótt sína, að hann sé mannglöggur. Kálfur Árnason, að hann muni ekki melta reiði sína, þótt hann þurfi að bera hana leingi. Finnur Árnason, að hann muni ekki flýa frá lánardrottni sínum o. s. frv. Þessi merkíng í íþrótt hefir haldizt leingi fram eptir. Að minnsta kosti segir í sögunni af Nitida frægu: »Hann (Livorius) kunni bezt skot og skilmíngar, tafl og túngur margar, og rúnir að ráða, og allar þær íþróttir, er karlmenn máttu prýða[3]. En hver mundi kalla góðan klerk eða málfræðíng mikinn íþróttamann um þessar mundir? Eptir því sem eg kemst næst, er nú aðeins líkamlegt atgjörfi talið til íþrótta, þó að eins það, sem beitt er til skemtanar. Sama má reyndar segja um leikina og listirnar. Munur á leikjum og listum verður seinna tekinn fram, en munurinn á íþróttum og leikjum er þessi: Íþróttirnar geta flestar komið að beinu haldi, þegar svo ber undir, t. d. sund og skíðaferð. Leikirnir gjöra meira gagn óbeinlínis, með því að herða líkamann. Íþróttirnar eru hafðar til skemtanar á

[1] Bls. 33.
[2] II; bls. 295.
[3] A. M, 226. 8vo.

mannamótum, leikirnir meira í heimahúsum, en af því leiðir aptur, að íþróttirnar hafa meiri frægð í för með sér en leikirnir.

Það hefir ávalt þótt göfugt að vera leikinn í einni íþrótt, eða fleirum, enda segir máltækið: Góð íþrótt er gulli betri[1]. Einna mest hefir þótt koma til glímnanna, og læt eg þær því standa í broddi fylkíngar.

**GLÍMUR.** Víða er minzt á glímur í íslenzkum ritum og er það merkilegt að aldrei hefir sézt á prenti og líklega sjaldan verið skrifað eitt einasta orð þeim til lasts. J. Ól. fer að eins fáum orðum um glímur og er mjög lítið á honum að græða í því efni. Skúli Thorlacius talar allmikið um glímur, en mest eru það glímur í fornöld, eins og eðlilegt er. Eggert Ólafsson minnist víða á glímur og gefur margar góðar bendíngar um þær[2]. Beztar skýrslur um glímur hefi eg þó séð eptir G. E. í leikjaritgjörð hans, en einkum og sér í lagi eptir séra Þorstein Pálsson á Hálsi og Jón Sigurðsson á Gautlöndum. Þeir sömdu báðir ritgjörðir um glímur, um áramótin 1860 og 1861, eptir tilmælum J. Árn. og bárust þær til mín í leikjasafni hans. Ritgjörð séra Þorsteins er tæp örk, en ritgjörð Jón Sigurðssonar tæp hálf önnur örk. Þær eru báðar ágætar og hefi eg haft mjög mikinn stuðníng af þeim.

Eg hefi líka haft mikið gagn af bragðalýsíngu Páls Loptssonar, sem nú er í Hrísey á Eyafirði. Páll er Siglfirðíngur að ætt og uppruna og lýsir mörgum brögðum, sem einginn annar af heimildarmönnum mínum minnist á. Guðmundur bróðir minn hefir útvegað mér lýsíngu þessa.

Glímur voru mjög tíðkaðar í fornöld og þarf valla annað en fletta upp í einhverri fornsögu, til að komast að raun um það. Þess er þegar getið í Snorra-Eddu, að Þór hafi tekizt á við Elli, fóstru Útgarðaloka, og fylgir það sögunni, að hún hafi felt hann hnéskít[3]. Í Eddu er glíma reyndar ekki nefnd á þessum stað, heldur fáng, en glímur eru opt nefndar fáng eða fángbrögð[4] í sögunum. Mest ber á glímum í tröllasögum og slíkum sögum, sem annað hvort eru hreinn og beinn skáldskapur, eða þá mjög ýktar, en það segir sig sjálft, að glímunum hefði ekki verið skotið inn í þær, hefðu þær ekki verið tíðkaðar og þótt hæfa hraustum dreingjum. Af þessum tröllaglímum er einna frægust glíman undir Skjaldbreið, eða á Hofmannafleti, sem sagan segir að þeir Bárður Snæfellsás og Ármann hafi efnt til. Hér þykir ekki eiga við að geta um ósköp þau, sem fóru fram á

---

[1] Schev. II.

[2] Í ferðabók hans er getið um glímur bls. 45—46, 186, 350—351, 461, 976—977. Sbr. Philosophische Schilderung der gegenwärtigen Verfassung von Island. Altona 1786; bls. 72.

[3] Snorra Edda. I. Hafniæ. 1848; bls. 160.

[4] Fáng og fángbrögð eru þó ef til vill yfirgripsmeiri orð en glíma, og ná bæði yfir glímur og tusk, og yfir höfuð öll átök. (Sbr. að takast á).

fundi þessum, en gaman er að lesa um hann í Bárðarsögu[1] og Ármannssögu[2]. Munnmæli þau, sem gánga um glímur mennskra manna á Hofmannafleti, eiga að öllum líkindum rót sína að rekja til glímufundar þessa. Það er sagt að konur hafi setið uppi á Meyasæti[3], og horft þaðan á glímurnar[4], en fellið er nokkuð hátt til þess, að konurnar hafi getað séð þaðan greinilega hvað fram fór á fletinum, eins og Guðbrandur Vigfússon segir[5].

Þá er bezt, að láta tröllin eiga sig, og drepa lítið eitt á glímur, eptir því sem minzt er á þær í sögum þeim, sem sannari eru. Það er auðséð, að glímur hafa verið ein af aðalskemtunum fornmanna, og er þeirra mjög víða getið á mannfundum. Fángabrekka hét á alþíngi, og glímdu þíngmenn þar. Svo er sagt í Glúmu[6]: »Þar genguz menn at sveitum, Norðlendíngar ok Vestfirðíngar«, og er líklegt að þeir hafi haldið bændaglímu. Á þíngum í héraði var lika glímt og er nóg að nefna glímu þeirra Grettis og Þórðanna frá »Breiðá í Sléttahlíð«[7] á Hegranessþíngi[8]. Loksins var glímt við veizlur, og er nóg að drepa á veizluna á Reykhólum 1119, sem getið er um í Sturlúngu. Veizlan stóð í sjö nætur. »Þar var glaumr ok gleði mikil ok skemtan góð, ok margs konar leikar, bæði danzleikar, glímur ok sagna-skemtan[9].« Það væri lafhægt, að tína til ótal fleiri dæmi um glímur úr sögunum, en þess þarf ekki, því af þeim, sem þegar er getið, má sjá að glímur hafi verið alltíðar í fornöld.

Glímurnar í fornöld hafa eflaust farið svipað fram og glímurnar í seinni tíð. Sum brögðin hafa þá þegar tíðkast, t. d. mjaðmarhnykkur eða mjaðmarbragð, og það er ekkert því til fyrirstöðu, að mörg brögð, sem nú er beitt við glímur, hafi verið höfð í fornöld, þótt þeirra sé ekki getið í sögunum. Tvö brögð hefi eg rekið mig á í fornum sögum, sem eg hefi hvergi spurt til í seinni tíð: loptmjöðm[10] og fótarbragð[11], en loptmjöðm er þó líklega sama sem lausamjöðm.

Þegar fornöldina þrýtur, er mjög sjaldan minzt á glímur í íslenzkum ritum,

[1] Kmh. 1860; bls. 18—19.
[2] Akureyri. 1858; bls. 28—31. Sbr. Þjóðs. J. Árn. I; bls. 251.
[3] Svipuð munnmæli gánga um Kvennabrekku í Dölum vestur. Þjóðs. J. Árn. I; bls. 121.
[4] Þjóðs. J. Árn. I; bls. 120. Hér má líka minna á kvæði Gríms Thomsens: Hrólfur Bjarnason var stór og sterkur.
[5] Ný Félagsrit 1859; bls. 135.
[6] Ísl. fornsögur. I. Kmh. 1880; bls. 37.
[7] Nú heitir bærinn Bræðrá í Sléttuhlíð.
[8] Grettla. Kmh. 1853; bls. 162—167.
[9] Sturlúnga Saga. I. Oxford. 1878; bls. 19.
[10] Fornaldarsögur Norðurlanda. II. Rkv. 1886; bls. 167.
[11] S. st. bls. 329.

þángað til á 18. öld og fara fáar sögur af glímumönnum á tímabili því, sem þar er á milli. Þó er þess getið, að glímur hafi verið hafðar til skemtanar í veizlu þeirri, sem Stefán biskup sat hjá Birni bónda Guðnasyni í Ögri[1] og hefir það verið á öndverðri 16. öld. Eins getur Jón Espólín[2] þess, að Olafur, sonur séra Jóns Sigurðssonar á Upsum, sem var uppi seint á 16. öld, hafi verið mesti glímumaður. Samt sem áður má gánga að því vísu, að glímurnar hafi haldizt við lýði og jafnvel verið mikið tíðkaðar, og má meðal annars marka það af Þjóðsögunum, sem flestar hafa myndazt á tímabili þessu, nema þær, sem vissa er fyrir að hafi myndazt seinna. Einkum er víða getið um glímur í útilegumannasögunum[3]. Þar er líka getið um glímumann einn norðlenzkan, sem ferðaðist víða um land til að reyna glímni sína við menn, og segir sagan að hann hefi felt alla skólapilta, sem þá voru í Skálholti, 12 að tölu, hvern eptir annan, en þó fór svo á endanum að karlssonur einn sunnlenzkur feldi hann[4].

Hér er þess getið að Skálholtspiltar hafi glímt og er það bæði sögn og sannindi að svo hafi verið, og ekki voru Hólasveinar eptirbátar þeirra. Glímur hafa eflaust verið aðalskemtanin í báðum skólunum[5] og má telja það víst, að skólasveinar á Hólum og Skálholti hafi átt mestan þátt í því, að halda glímunum við. Það er gömul sögn að í Skálholtsskóla hafi meir verið glímt á hægri hendi, en í Hólaskóla meira á hina vinstri. Því var það að á réttu glímumannamáli hét hægri höndin Skálholtshönd, en vinstri höndin Hólahönd[6]. Jón Sigurðsson segir líka, að það sé almenn sögn, að opt hafi verið haldnar bændaglímur á alþingi við Øxará[7], og hafi ýmsir stórhöfðíngjar stundum tekið þátt í þeim, en veitt þeim verðlaun

---

[1] Safn til sögu Íslands. I; bls. 657.

[2] Ættartölubækur. Hrs. Bmfj. 16 4to bls. 6613. Jón Þorkelsson hefir bent mér á alt sem er tínt til í safni þessu úr Ættartölubókum Espólíns.

[3] Þjóðs. J. Árn. II; bls. 163, 174, 225, 264 og víðar.

[4] Þjóðs. J. Árn. II; bls. 281—282. Samskonar saga er til um Björn Skafin, sem var uppi á 16. öld, og er hún enn óprentuð. Hann var afburðamaður að afli, eins og kunnugt er, og allra manna glímnastur, svo einginn stóð honum snúníng á Austurlandi. Hann hafði frétt að feðgar tveir í Fljótum væru mestir glímumenn þar um slóðir og gjörði sér ferð þángað, til að reyna sig við þá, en þegar þángað kom, varð ekkert af glímu við þá feðga, því áður en fundum þeirra bar saman, hafði hann tekizt á við dóttur bóndans og þurft að beita brögðum til að fella hana. Eins segir í þjóðsögunum[a] að kona Þorsteins í Skjaldartröð, hafi komið Jóni á Hafgrímsstöðum á kné, og var hann þó ærið sterkur.

[5] Sbr. Eggert Ólafsson: Reise igjennem Island; bls. 46, 977.

[6] Jón Sigurðsson á Gautlöndum og séra Þorsteinn Pálsson. Jón bætir því við, að yfir höfuð hafi fyrmeir verið glímt öllu meir á vinstri hendi og þótt glímumannlegra, enda hafi vinstri höndin stundum verið kölluð glímuhönd.

[7] Sbr. Norðri VII; bls. 127—128.

[a] Þjóðs. J. Árn. II; bls. 142.

nokkur, sem fræknastir voru; hafi þá stundum orðið vandræði út úr því, að Norðlendíngar og Sunnlendíngar áttu ekki höndur saman. Ekki veit eg til að nein vissa sé fyrir því, að glímt hafi verið á alþíngi, en það er als ekki ólíklegt að svo hafi verið, því lærðu mennirnir höfðu mætur á glímum, og er þá ekki annað sennilegra en þeir glímdu eða létu glíma, sér og öðrum til skemtunar[1].

Frá þessu tímabili eru líka glímugaldrarnir, eða ráð til að sigra í glímum á yfirnáttúrlegan hátt, því ekki eru síður til glímugaldrar en spila og taflgaldrar, ef svo má segja. En sá er munurinn, að hér er að ræða um verulegan galdur, með tilstyrk djöfulsins sjálfs, þar sem spilagaldrar og taflgaldrar eru ósaknæmir og áttu víst að byggjast á þekkíngu á náttúrunni. Reyndar er það fært í frásögur, að í fyrsta partinum af Gráskinnu hafi aðeins verið, »meinlaust kukl, eins og glímugaldur, lófalist og annað þess konar, og gátu allir orðið sáluhólpnir, þótt þeir lærðu þann partinn[2]» en glímugaldur sá sem J. Árn. lýsir[3] hefir þó sjálfsagt verið talinn miklu rammari. Til hans þurfti tvo galdrastafi, gapaldur og ginfaxa og fylgdi formáli þessi:

Gapaldur undir hæli,
ginfaxi undir tá;
stattu hjá mér fjandi,
Því nú liggur mér á,

því gapaldur átti að hafa undir hæli á hægra fæti, en ginfaxa undir tá á vinstra fæti. »Stafina átti annaðhvort að rita á blað, eða rista á spón eða spjald, og leggja hvort heldur sem var á milli skós og ilepps, en aðrir segja næst ilinni berri, innan í sokknum. Þeim, sem hafði glímugaldur varð ekki komið af fótunum, ef hann átti við ógöldróttan mann, eða þann, sem ekki var meir en jafnsnjallur hinum að kunnáttu. En ef sá var fjölkunnugri, sem hann glímdi við, gat hinn meiri kunnáttumaður ekki felt þann, sem glímugaldur hafði, fyrri en hann fótbraut hann[4]. Ekki dugir glímugaldur þótt við ógöldróttan sé að eiga, ef hann gjörir krossmark fyrir sér á glímufletinum með fætinum, áður en þeir gánga saman eða taka tökum.»

Eggert Olafsson hefir þekt galdur þenna, og tekur það skýrt fram á

[1] Eggert Ólafsson segir í Ferðabók sinni (bls. 186) að glímt sé á »þíngum» á Vesturlandi, en mér er ekki ljóst hvað hann skilur þar við »Thing.»

[2] Þjóðs J. Árn. I; bls. 509.

[3] Þjóðs. I; bls. 451—452. Bls. 446 er mynd af ginfaxa.

[4] Sbr. K. Maurer: Isländische Volksagen der Gegenwart. Leipzig. 1860; bls. 129. Þar fótbrotnar galdramaður í glímu, enda glímir hann við séra Hálfdán, sem seinna varð prestur að Felli. Sbr. þátt Hálfdánar Fellsprests eptir Gísla Konráðsson, 2. Kap.

tveimur stöðum[1], að hann sé enn[2] tíðkaður. Annars lýsir hann galdrinum eins, nema hann segir að annar stafurinn sé lagður undir tærnar, en hinn undir hælinn á hægra fæti; sá sem glími við sér göldróttara mann, eigi líka að missa allan orðróm fyrir glímur, ofan á beinbrotið.

Á tvo glímugaldra er minzt í Árbókum Espólíns[3] og voru þeir tvær greinar af þessum 80 galdragreinum, sem þeir Bjarni Bjarnason og Einar Guðmundsson voru reknir fyrir úr Skálholtsskóla 1664[4]. Tólfta greinin er »at glíma vel, med versi ok þremr stöfum« en sú 14. »at glíma med ödru móti med ristíngum ok blódvökvunum. þartil þrír stafir, ígultanni, ginfaxi, hagall ok satrix.«

Þess er þegar getið í fornum sögum, að menn hafi leitað styrks í glímum, í æðra heim eða yfirnáttúrlegan. Nóttina áður en Þórður átti að glíma við Gunnlög Ormstúngu hét hann á Þór til sigurs sér; þó »laust Gunnlögr báða fætrna undan Þórði, en fótrinn Gunnlögs stökk úr liði[5].« Þetta er þó einginn glímugaldur, heldur miklu fremur bæn til guðs, því trúin var úng um þær mundir.

Áður er þess getið að lærðu mennirnir hafi unt glímunum, en ekki lét alþýða manna sitt eptir liggja til að halda glímunum við og kom það einkum fram í fiskiverum við sjóinn. Þar voru komnir saman margir úngir menn á bezta skeiði og gátu þeir ekki haft neitt sér til skemtanar, er kallmannlegra væri en glímurnar, enda voru þær mjög tíðkaðar. Þess er víða getið í þjóðsögunum að glímt hafi verið í verum[6] og sagan segir jafnvel að drauginn í Draugahelli undir Jökli hafi lángað heim að Helgafelli, að hafa þar dans og glímuskelli[7]. Á. 18. öld glímdu vermenn allopt[8] og nefnir Eggert Ólafsson sérstaklega til Kjalarnes. Það eymir jafnvel eptir af sið þessum enn í dag, þótt hann sé reyndar farinn að leggjast niður[9], eða að minnsta kosti segist Bogi Melsteð vita til, að vermenn í Selvogi og á Vatnsleysuströnd skemti sér stundum við glímur í landlegum.

Því fór fjarri að glímurnar væru lagðar niður, þegar skólarnir voru

---

[1] Reise igjennem Island; bls. 350—351. Kvæði. Kmh. 1832; bls. 45, 19 nmgr.

[2] Þ. e. um miðja 18. öld.

[3] VIII; bls. 125

[4] Þjóðs. J. Árn. I; bls. 539.

[5] Íslendínga Sögur II. Kmh. 1847; bls. 246.

[6] T. d. II; bls. 142.

[7] Þjóðs. J. Árn. I; bls. 305. J. Ól. leggur »glímuskellir« út lófaklapp glímumanna og à líklega við að klappað hafi verið lof í lófa, þegar vel var glímt o. s. frv. en mér þykir líklegra að orðið þýði hark það og háreysti, sem opt er samfara glímum.

[8] Magnús Stephensen: Island i det 18. Aarhundrede; bls. 234; Eggert Ólafsson: Reise igjennem Island; bls. 46.

[9] Sbr. Ísafold VI; bls. 128.

fluttir frá Skálholti og Hólum. Reyndar var lítið um glímur í Reykjavíkurskóla eldra, eptir því sem Sveinn læknir Pálsson segir í ferðabók sinni[1], en aptur lætur það nærri sem Jón á Gautlöndum segir, að glímurnar muni aldrei hafa verið stundaðar betur og með meira kappi, en meðan skólinn var á Bessastöðum. Sumir kennararnir voru sjálfir góðir glímumenn t. d. Dr. Hallgrímur Scheving og hefir það stuðlað nokkuð að þessari gullöld glímnanna við Bessastaðaskóla, en þó eiga piltar sjálfir mestan sómann skilið. Þeir glímdu á hverjum degi, eptir því sem segir í Ísafold[2] og ræður að líkindum, að þeir hafi æfzt með því móti. Stundum glímdu þeir við vermenn þar á nesinu[3] og báru þá optast eða æfinlega hærra hlut.

Síðan skólinn fluttist til Reykjavíkur í seinna sinni, hefir verið fremur lítið þar um glímur og hafa þeir sem skrifað hafa um skólann í blöðunum opt harmað það. Í Íslendíngi eldra[4] stendur t. d. þetta í grein um lærða skólann: »Það er grátlegt að vita til þess, að svo kallmannleg og fögur íþrótt, sem glíman **var** er lögð fyrir óðal í skólanum. Hún **var** svo að segja hinn einasti fimleiki, sem Íslendíngar áttu eptir af íþróttum forfeðra sinna, og svo mátti að orði kveða, að skólinn[5] héldi henni uppi. — — Glíman er sú íþrótt sem Íslendíngar hafa hjá öðrum þjóðum jafnan haft virðíngu af, en ekki vansæmi. Hafa og margir útlendíngar meðan þeir voru hérlendir haft mikla skemtan af glímum og má með fleiri dæmum telja til þess Einglendínginn Savínus[6], þegar hann var vetursetumaður í Reykjavík. Hann efndi til bændaglímu mikillar á Austurvelli; var hún gjörð með viðhöfn mikilli; var hann sjálfur annar bóndi, en hinn danskur kaupmaður og varð af hin mesta skemtan. — — Vér höfum heyrt sagt að rektor Bjarni Jónsson vilji koma glímum á aptur í skólanum, og væri slíks von af jafnrösklegum manni; hitt er ótrúlegt að stjórn skólans varni honum þess.»

Þegar grein þessi var samin, 1864, lítur svo út sem skólapiltar hafi als ekkert feingizt við glímur. Síðan hefir þó, að minnsta kosti með sprettum, verið hafður nokkur áhugi á glímum við skólann, þótt lángt sé frá því að skólapiltar glími jafnmikið nú og Bessastaðapiltar, enda er það að nokkru leyti eðlilegt, því nú er saungur og dans o. s. frv. komið í staðinn, sem hvorugt var tíðkað í Bessastaðaskóla að nokkru marki. Einkum hefir verið feingizt talsvert við glímur í Reykjavíkurskóla, um það leyti sem

---

[1] Hrs. Bmfj. 1 fol.; bls. 42—44.

[2] VI; bls. 128.

[3] Eptir sögn Páls skólakennara Melsteðs.

[4] IV; bls. 26. Sbr. Lanztíðindi II (1851); bls. 170.

[5] Bessastaðaskóli.

[6] Mér er ekki ljóst um Savínus þenna. Það mun þó ekki vera sami maður og Savignak (réttara mun vera Savignac), sem var kaupmaður í Reykjavík á fyrri hluta þessarar aldar, og sem opt er getið um í XII. deild af Árbókum Espólíns?

glímufélagið var stofnað í Reykjavík. og sést það bezt á því, að flestir sem þóttu glíma þar bezt, voru úr skólanum, eins og seinna mun sagt verða. Í minni tíð (1877—1882) komu piltar sér saman um í byrjun hvers skólaárs, að glíma annað hvort kvöld, milli klukkan 7 og 8, en dansa hitt kvöldið, og voru kosnir glímustjóri og dansstjóri til að annast hvorttveggja. Þegar dansa átti komu piltar hópum saman upp í skólann, jafnskjótt og þeir gátu og féll valla aldrei úr danskvöld, en alt öðru máli var að gegna, þegar glímur áttu fram að fara. Þá komu fáir upp í skóla, fyr en þeir máttu til, eða feingust ekki til að glíma, ef þeir komu, svo ekki gat orðið úr glímunum, nema með höppum og glöppum. Þeir sem unnu glímunum, rituðu stundum áskoranir um að sækja þær betur, og voru þær svo lesnar upp í félagi pilta, en það var eins og að höggva í stein. Í hinni nýu reglugjörð fyrir Reykjavíkurskóla (1877), er skipað svo fyrir að leikfimi, þar á meðal glímur skuli kenna í öllum bekkjum utan skólatímanna (4 § 15)[1], en hamíngjan má vita hvort ákvörðun þessi kemur glímunum að nokkru haldi. Þegar eg vissi til, lét leikfimiskennarinn pilta mjög sjaldan glíma og auk þess er ómögulegt að kenna þeim glímur, sem ekki vilja læra þær.

Í reglugjörð Möðruvallaskóla er líka skipað að kenna glímur og aðra fimleika 4 stundir á viku (§ 6). Mér lízt heldur ekki svo á, að glímurnar hafi gagn af ákvörðum þessari, að svo stöddu, og ef til vill aldrei, en auðséð er það á báðum þessum reglugjörðum, að glímurnar eru lángt frá því að vera óþokkaðar »á hærri stöðum.«

Í sóknalýsíngunum er víðast minzt á glímur, en það er heldur ekki meira. Optast stendur aðeins: »Glímur tíðkast hér lítið eitt«, »Glímur eru hér lítið stundaðar« og þar fram eptir götunum. Einstaka prestur tekur það fram, að glímur tíðkist alls ekki í hans sókn[2]. Aðrir segja að glímur séu að vísu bornar við, en fáir leiki þær svo lag sé á. Svo segir t. d. séra Sigurður Gunnarsson á Hallormsstað (1874) og séra Sveinbjörn Guðmundsson á Krossi í Landeyum (1873). Ekki get eg séð af sókna-

---

[1] Um glímurnar er farið þessum orðum í Álitsskjali nefndarinnar í skólamálinu. Rkv 1877; bls. 37. »Nefndin hefir bætt við[a] þeirri ákvörðun, að kenna skuli og lærisveinum »glímur«, því að þessi list er eins og önnur leikfimi styrkjandi fyrir líkamann, mjög fögur, þegar fylgt er réttum reglum, gjörir og líkamann liðugan og er þar á ofan þjóðleg list, máske sú eina þjóðlega list, sem vér nú eigum; vér köllum hana þjóðlega af því, að þó að glímur séu ennþá tíðkaðar í nokkrum löndum, svo sem Svíaríki og Svissaralandi og sumstaðar á Einglandi, þá munu þær glímur nokkuð á annan hátt en vorar glímur.

[2] Séra Jón lærði, sem samdi lýsíngu Möðruvallasóknar í Hörgárdal 1840, kemst svo að orði: »Glímur æfa hér eingir nema yðjuleysíngjar.« Hann hefir víst kunnað betur við að menn læsu »smáritin« en lyptu sér upp á glímum.

[a] Í reglugjörðinni 1850 voru glímur ekki nefndar á nafn.

lýsíngunum, að glímur tíðkist meir í einum landsfjórðúngi en öðrum, því það er getið um þær hér um bil jafnt úr öllum sýslum landsins. Þó má geta þess að séra Ólafur Sivertsen tekur það fram í lýsíngu Flateyarprestakalls (1840), að í Múlasókn hafi verið betri glímumenn en víðast annarsstaðar »hvar af einn lifir enn á 99. aldursári.« Margir prestar taka það fram, að glímur séu einkum hafðar um hönd í verstöðum, og í sumum sóknalýsíngum ofan úr sveitunum er þess getið, að þeir einir kunni þar að glíma, sem hafi lært það í verinu.

Það er sannast að segja, að það er heldur dauft hljóðið í flestum prestunum með glímurnar, en fáeinir taka það þó fram, að heldur sé að lifna yfir þeim, eins og séra Þorvaldur Ásgeirsson í lýsíngu Hofteigssóknar 1874. En það eru svo örfáir prestar sem drepa á þessa framför, að ekkert verður ráðið af orðum þeirra, þegar litið er á glímulistina á Íslandi yfir höfuð.

Af því sem nú hefir verið sagt um hríð, er svo að sjá sem glímurnar hafi átt litlu láni að fagna síðan Bessastaðaskóli var lagður niður. Það er líka víst að glímuíþróttin hefir verið á heljarþröminni um tíma, en til allrar hamíngju bendir ýmislegt til þess, að hana sé að rétta við aptur, og skal eg segja það sem eg veit um það efni.

Nú á seinni tímum hafa sjaldan verið haldnir svo skemtifundir, að ekki hafi verið glímt þar og er það gleðilegur vottur um það, að Íslendíngar eru ekki hættir að leggja rækt við þessa gömlu og göfugu íþrótt. Það var þannig glímt við gamanleika þá er Húnvetníngar sóttu á Vesturhópsvatni »?«, snemma á þorra 1870, eptir undirlagi Bjarnar Ólsens[1], sem nú er kennari við latínuskólann. Líka var glímt á gleðisamkomunni á Grund í Eyafirði, á sumardaginn fyrsta 1874. Víða var glímt á þjóðhátíðinni 1874, þjóðhátíðinni á Oddeyri, og Ljósavatni, þjóðhátíð Svarfdæla og Reykdæla[2]. Á þjóðhátíð Vopnfirðinga var líka glímt, þótt þess sé ekki getið í blöðunum. Eins var glímt á þjóðhátíð Reykvíkinga og skal eg bráðum minnast betur á það, en hér má geta þess, að þeir séra Sigurður Gunnarsson (sbr. bls. 47) og séra Lárus Haldórsson glímdu sérstaklega fyrir Christján konúng IX. og þótti farast prýðisvel Loksins var glímt á þjóðhátíð Eyfirðínga 2. Júlí 1876[3] og samskonar skemtisamkomu 12. Júlí 1875[4]. Á sýníngunum á Norðurlandi hefir líka verið glímt bæði á sýníngunni við Reynistaðarrétt 29. maí 1879 og Garð í Hegranesi 10. maí 1880[5], sýníngu Fnjóskdæla 23. apríl 1880[6] og aðra sýníngu Eyfirðínga 8. júní 1880[7]. Eg man ekki

[1] Baldur III; bls. 12.
[2] Norðanfari XIV; bls. 48. XIII; bls. 86—7, 96. 102, 121.
[3] Norðanf. XV; bls. 64.
[4] Norðlíngur I; bls. 39.
[5] Norðanf. XVIII; bls. 59. XIX; bls. 72—73.
[6] Fróði, nr. 11; bls. 128.
[7] Norðlíngur V; bls. 52.

eptir að glímt væri á fyrstu sýníngu Eyfirðínga og getur það þó vel verið. Loksins er þess getið, að glímur hafi átt að fara fram í Reykjavík sumardaginn fyrsta 1884[1], hvort sem nokkurn tíma varð úr því.

Reyndar má gánga að því vísu, að hér hafi stundum verið glímt fremur af vilja en mætti, en það er þó ómögulegt annað en glímulistinni fari fram á Íslandi, ef sið þessum verður haldið áfram. Það er eðlilegt að glímumennina lángi til að afla sér sem mestrar frægðar fyrir list sína, á mannamótum, þar sem margir horfa á. Það er því líklegt að þeir kosti kapps um að glíma sem bezt. Til þess að glíma vel, þurfa þeir að æfa sig og ef þeir æfa sig nógu mikið, þá er ekkert því til fyrirstöðu, að glímulistin eigi nýja gullöld fyrir höndum á Íslandi.

Annað atriði er það líka sem sýnir, að minnsta kosti að nokkru leyti, að áhuginn á glímunum er ekki alveg kulnaður út, en það eru glímufélög þau, sem hafa verið stofnuð. Félög þessi hafa reyndar ekki orðið lángæ og er leitt, en það virðast vera forlög flestra félaga á Íslandi, enn sem komið er, að vera nokkuð skammlíf. Eg þekki aðeins eitt verulegt glímufélag, sem aðeins var stofnað í þeim tilgángi að halda við glímum, glímufélagið í Reykjavík. Auk þess var það meðfram tilgángur félags eins, sem Lángnesíngar stofnuðu 1876, að efla glímulistina, en það félag lifði víst ekki leingi[2].

Glímufélagið í Reykjavík var stofnað 1873, og var Sverrir steinhöggvari Runólfsson frumkvöðull þess. Hann hafði áður efnt til glímuleika bæði 1871[3] og 1872[4] og skýrir hann þannig frá seinni glímunni, sem var haldin 12.—14. mars: »Þenna fund sóttu, til að glíma, bæði lærðir menn og ólærðir úr ýmsum héröðum landsins, fyrir utan fjölda áhorfenda. Glíman fór fram með list og reglu og urðu mestir og jafnir taldir tveir menn, stúdent í guðfræði Björn Þorláksson frá Skútustöðum í Þíngeyarsýslu[5] og ýngismaður Þórður Jónsson frá Hlíðarhúsum við Reykjavík[6].« En nú vildi Sverrir koma upp reglulegu glímufélagi og sendi út boðsbréf í því skyni 26. febrúar 1873. Það er prentað í Gaunguhrólfi, nr. 9. Það lítur svo út sem góður rómur hafi verið gjörður að þessu nýmæli Sverris. Fundir voru haldnir, lög voru samin, stjórn var kosin og varastjórn og dómsnefnd[7] og alt að 80 mönnum geingu í félagið eða ef til vill fleiri. Félagið efndi til verðlaunaglímu 11. maí[8] og hlutu þrír menn verðlaun: Sigurður Gunnarsson

---

[1] Fjallkonan I; bls. 16, 2. d.
[2] Norðanfari XVII; nr. 43-44. XVI; bls. 43.
[3] Þjóðólfur XXIII; bls. 96. 2. d.
[4] Þjóð. XXIV; bls. 100, 2. d.
[5] Nú prestur að Dvergasteini.
[6] Þjóð. XXIV; bls. 124.
[7] Gaunguhrólfur; bls. 69, 71. Tíminn II; bls. 40.
[8] Gaunguhrólfur; bls. 96. Þjóðólfur XXV; bls. 92, 1. d.

stud. theol.[1], Einar Jónsson stud. art.[2] og Magnús Jósepsson (Skaptasen) stud. theol.[3]. Það er eptirtektavert að þeir voru allir úr Reykjavíkurskóla, svo það er auðséð, að um þessar mundir hefir verið lögð nokkur rækt við glímur í skólanum.

En nú virðist þegar fara að draga úr félaginu. Það er nokkrum sinnum getið um fundi þess í blöðunum og er það stundum tekið fram, að fáir hafi sótt fundinn, en í hin skiptin er hægt að lesa það milli línanna.[4] Eptir Sverri varð Egill Egilsson formaður félagsins. Áður en þjóðhátíðin var haldin í Reykjavík skorar hann á glímumenn þá, sem vilji glíma á þjóðhátíðinni, til skemtanar við hátíðahaldið, að gefa sig fram. Hann segir að það eigi að veita þrenn verðlaun, þeim sem bezt glími, glímuvöllur verði lagður úr timbri og tjald reist handa glímumönnum[5]. Það hefir víst aldrei verið haft jafnmikið við glímur á Íslandi, en þó fara mjög litlar sögur af þeim. Það er aðeins minzt á þær í Tímanum[6] en í hinum blöðunum hefi eg ekki rekið mig á svo mikið sem eitt orð um þær. Í Þjóðólfi 1875[7] er þess getið, að glímufélagið sé enn við lýði, en úr því hefir það dottið úr sögunni, því síðan hefi eg aldrei heyrt eða séð getið um það, nema þess er getið í Ísafold 1880[8], að það sé liðið undir lok. Þar er líka getið um glímufélag sem hafi verið stofnað í Húnavatnssýslu »um árið«, en um það glímufélag hefi eg hvergi séð getið annarstaðar. Um jarðabótafélag Hörgdæla 1863, sem jafnframt átti að vera glímufélag og sundfélag verður getið í sundkaflanum.

Þegar gætt er að því hve félög þessi hafa verið skamma stund við lýði, lítur svo út sem áhuginn á glímunum hafi ekki verið mikill, en á hinn bóginn hefðu þau aldrei verið stofnuð, ef menn hefðu ekki haft einhvern snefil af áhuga á því, að halda glímunum við. Sjálfsagt verða glímufélög stofnuð aptur og væri þá æskilegt að þau eltust betur.

Nú hefi eg sagt sögu glímulistarinnar á Íslandi, eptir því sem faung voru á, en ennþá er eitt eptir og það er að geta um hina helztu glímumenn, sem sögur fara af, að fornu og nýu. Eins og áður er sagt, hefi eg aðeins rekið mig á sagnir um einn glímumann frá því í fornöld, þángað til á 18. öld, en þá er líka getið um marga. Um 1700 voru þeir uppi

[1] Nú prestur að Valþjófsstað.

[2] Nú prestur að Miklabæ í Blönduhlíð.

[3] Fór til Vesturheims sumarið 1887.

[4] Gaunguhr; bls. 96 (1873). Víkverji I, 2. ársfjórðúngur; nr. 30, 31 (1873); 4. ársfj; nr. 56 (1874) Tíminn III; bls. 28 (1874).

[5] Víkv. II, 1. ársfj.; nr. 4. Þjóðólfur XXVI; bls. 148.

[6] III; bls. 60.

[7] XXVII; bls. 23.

[8] VII; bls. 120.

Glímu-Magnús Jónsson, á Akranesi[1] og Glímu-Bessi eða sterki Bessi Oddsson, af ætt Bjarnar Jónssonar á Skarðsá[2]. Það er líka fært í frásögur að Fjalla-Eyvindur hafi verið glímumaður góður[3] og Glímu-Oddur á Hlíðarenda[4] Séra Jón Ýngvaldsson nefnir[5] líka þrjá menn, sem hann segir að hafi verið mjög orðlagðir fyrir glímur: Séra Guðmund Guðmundsson á Undirfelli († 1749), séra Jón Hannesson, sem seinast var á Mosfelli í Mosfellssveit († 1807) og skólameistara Helga Sigurðsson á Móeiðarhvoli († 1819). Á þessari öld fara líka sögur af mörgum glímumönnum og eru þeir flestir fæddir annað hvort á 18. öldinni eða þá snemma á þessari öld. Séra Eggert á Reykjum[6] var annálaður glímumaður, enda kvað séra Pétur á Víðivöllum vísu þessa við rúm hans:

Nú er Eggert kominn í kör,
kappinn Skagafjarðar,
sá hefir mörgum baugabör
bylt niður til jarðar[7].

Benedikt bóndi Bogason á Staðarfelli († 1819) var bezti glímumaður á únga aldri og eins afi hans, Benedikt Jónsson í Hrappsey († 1746)[8]. Geir biskup Vídalín var á ýngri árum »líflegur« glímumaður og Sigurður sýslumaður Pétursson þótti mikill glímumaður[9]. Jón sýslumaður Espólín var manna sterkastur og eptir því mjúkur til glímu[10]. Séra Jón Þorsteinsson í Reykjahlíð við Mývatn († 1862) »var knár til burða og snar í átökum — — og talinn með fræknustu glímumönnum, meðan hann var á léttasta skeiði«[11]. Dr. Hallgrímur Schevíng var glímumaður góður og hafði ávalt mjög gaman af glímum[12]. Bjarni Þórðarson á Siglunesi vestra († 1842) var glímumaður frækinn[13]. J. Árn. hefir það eptir Jóni Sigurðssyni á Gautlöndum að séra Þorsteinn Pálsson á Hálsi í Fnjóskadal († 1873) hafi

---

1 Ættartölubækur J. Espólins. Hrs. Bmfj. 9. 4to; bls. 984.
2 S. st. nr. 14; bls. 5167.
3 Þjóðs. J. Árn. II; bls. 243.
4 Þjóðs. J. Árn. II; bls. 174—175.
5 Hrs. Bmfj. 81. 4to.
6 Séra Eggert Eiríksson frá Glaumbæ († 1819).
7 Æfiminníng séra Péturs Péturssonar. Rkv. 1881; bls. 28.
8 Feðgaæfi. Viðey 1823; bls. 29, 77.
9 Leikrit Sigurðar Péturssonar. Rkv. 1846; bls. XII.
10 Baldur I; bls. 23.
11 Minníng Jóns prests Þorsteinssonar og konu hans, Þuríðar Hallgrímsdóttur. Rkv. 1879; bls. 13. Sbr. bls. 6 og Æfisögu síra Jóns sáluga Þorsteinssonar (eptir sjálfan hann) Rkv. 1871; bls. 6.
12 Þjóðólfur III; bls. 220; Íslendingur eldri II; bls. 142—143.
13 Gestur Vestfirðingur III; bls. 117.

verið einhver bezti glímumaður á öllu Íslandi, í sinni tíð. Sama segir séra Arnljótur Ólafsson í æfisögu Þorsteins prests[1]. Hann minnist þar líka á aðra fimleika teingdaföður síns svo sem nú skal greina: »Séra Þorsteinn var meðalmaður á vöxt, þrekvaxinn og með gildustu karlmönnum til burða, snarmenni og léttleikamaður hinn mesti, fimur og leikinn manna bezt, skíðamaður einhver hinn bezti, ágæt skytta og afbragðs glímumaður. Við Mývatn hefir leingi verið glímuskóli Norðlendínga, síðan Hólaskóli lagðist niður. Er það og líklegt, þar er margir úngir menn koma saman og sitja við dorg á sléttum ísi, í hörkufrostum og vetrarkuldum, að þeir taki til glímu á millum, sér til hita. Svo sagði séra Þorsteinn frá Reykjahlíð[2] mér, að hann hefði lært glímur af nafna sínum á Hálsi og eigi hrokkið við honum meðan þeir voru saman í Reykjahlíð. En þess ber að geta að séra Þorsteinn var meira en þremur árum ýngri en hinn, en hann var svo mikill glímumaðnr að hann féll aldrei í glímu, meðan hann var í Bessastaðaskóla. Þeir nafnar tömdu sér margar íþróttir og ýmsar aflraunir. Þeir gátu stokkið níu álnir áfram með því að hlaupa til. Séra Þorsteinn á Hálsi lét upp hálftunnubagga, þannig að hann stóð annarsvegar við hest, og lét fyrst annan baggann yfir hestinn á þann klakkinn er frá vissi, en síðan hinn baggann með annari hendi á þann klakkinn er að sneri, án þess að hjálpa til með hendi eða fæti. Eigi vita menn nú um ýmsa þá fimleika er hann tamdi sér á únga aldri, en á efri árum gjörði hann það stöku sinnum sér til gamans, að hann tók höndum upp yfir skammbita, sem er í baðstofunni á Hálsi, rúm mannhæð frá gólfi og sló upp fótunum, svo sem þá er menn fara gegnum sjálfa sig, en fleygði sér yfir bitann, snerti hann hvergi og kom aptur niður í sömu spor.« Helgi bóndi Jónsson á Neðra-Nesi í Stafholtstúngum († 1866) var mestur glímumaður í Borgarfirði »og ef til vill á Suðurlandi«[3]. Af ýngri mönnum sem fæddir eru um eða eptir miðja öldina má nefna Jón stúdent Vídalín sem dó í Fagradal 1880. Hann var glímumaður góður og »flestum mönnum styrkari að afli og mátti hann valla einhaman kalla, er kapp kom í hann«[4]. Um aðra glímumenn um þessar mundir er getið áður, þar sem sagt er frá glímufélaginu í Reykjavík.

Páll skólakennari Melsteð hefir skifað mér ýmislegan fróðleik um glímur og glímumenn á þessari öld. Mér þykir réttast að láta Pál sjálfan segja frá, því bæði er það kunnugt að hann segir allra manna bezt frá og

---

[1] Æfiminníng séra Þorsteins Pálssonar á Hálsi. Akureyri. 1876; bls. 6.

[2] Sonur séra Jóns Þorsteinssonar, sem getið er um fyrir skömmu, seinast prestur á Þóroddstað í Kinn († 1868).

[3] Þjóðólfur XIX; bls. 10.

[4] Norðlíngur V; bls. 87.

svo fer betur á því að láta skýrslu hans halda sér, en slíta hana í sundur og dreifa innan um það sem áður er sagt.

»Glímur hafa verið tíðkaðar um alt land, alla þessa öld og einkum í latínuskólanum, þángað til þessi síðustu ár. Mér er það ennþá í barnsminni, er eg ólst upp á Syðri Reistará (1813—1819) að vinnumaður fóstra míns Sigurður Svanlögsson, knár maður, fótbrotnaði í glímu úti á Siglunesi, eitt vorið sem hann var þar til róðra; maður lagði klaufalega á hann leggjarbragð. Það var víst alment þá að halda glímur í fiskiverum og hvar sem margir menn voru saman komnir. Man eg það og, að glímt var á Möðruvöllum eptir embætti og var þar sterkastur Bjarni húskarl afa míns, er seinna bjó á Steðja.

Ekki var mikið um glímur í Múlasýslum; þó bar það við að slegið var í glímu, þegar mörgum únglíngum lenti saman við kirkjur, en eigi máttu það heita bændaglímur. Eg heyrði þær nefndar, en man eigi að eg sæi þær fyr en í Bessastaðaskóla. Eiríkur Magnússon hét maður. Hann var mörg ár hjá föður mínum á Ketilstöðum (á Völlum). Eirikur var vel fær maður og þótti gaman að glíma. En svo kom maður í vist til foreldra minna úr Þíngeyarsýslu, Stefán Bóasson að nafni (sonur séra Bóasar Sigurðssonar, prests í Grímsey). Hann var bæði sterkari og glímnari en Eiríkur og feldi alla, sem hann glímdi við. Eitthvað í kríngum 1830 kom maður úr Þíngeyarsýslu snöggva ferð, austur að Ketilstöðum. Hann hét Gunnar og kallaður Glímu-Gunnar, sterklegur maður. Mig lángaði til að koma þeim saman Stefáni og Gunnari, en það tókst eigi. Stefán þorði ekki. Margir voru þá sterkir menn uppi í Múlasýslum. Fyrst og fremst Hafnarbræður, Jón og Hjörleifur, Þorsteinn Guðmundsson í Krossavík og Stefán sterki Ólafsson úr Húsavík (skamt frá Norðfirði). En svo voru margir aðrir, sem oflángt yrði hér að nefna. Þó skal eg geta þess að Jón Pétursson bóndi á Aðalbóli í Hrafnkelsdal og Pétur bróðir hans á Hákonarstöðum á Jökuldal voru hraustmenni. Jón var glæsilegur maður á velli að sjá. Ekki tíðkuðu þeir glímur, svo eg vissi, en heyrða eg að bæði Glímu-Gunnar og Stefán sterki hefðu tekizt á við Jón Pétursson inni á baðstofupalli, en ekki komið honum undir.

Þeir menn sem eg sá glíma bæði nyrðra og eystra, glímdu meira af afli en af mýkt eða liðleik, og var það kallað að bolast; tóku þeir annari hendi í buxnastreing, en hinni niður undir hné, rifu stundum fötin, hver af öðrum og kunnu varla annað en hælkrók og leggjarbragð. Þá var annað að sjá þegar kom suður í skóla.

Að glímur hafi tíðkazt í Hóla og Skálholtsskóla tel eg óefað. Eg heyrði Dr. Hallgrím Schevíng nefna marga ágæta glímumenn í Hólaskóla og sjálfur hafði hann verið bæði sterkur og glíminn. Um Skálholtsskóla er mér ókunnugt, en það man eg að Steingrímur biskup var sagður bæði glímumaður góður og vel sterkur — og lærði hann í Skálholtsskóla. Eg

hygg og að séra Eggert sonur Bjarna landlæknis Pálssonar[1], hafi lært í Skálholti; var hann allra manna fimastur og glímnastur, þótt lítill væri vexti. Séra Eggert átti son sem Bjarni hét, hann var prestur í Garpsdal; hann var lítill, heilsutæpur og ekki sterkur, en honum varð varla af fótum komið. Einhverju sinni kom séra Eggert að Bessastöðum og átti tal við skólapilta. Hann spyr: »hver er nú glímnastur í skóla?« »Hann Bjarni sonur yðar« var svarað. »Guð hjálpi skólanum, er hann nú Bjalli minn beztur«! sagði karlinn, hann var vōlumæltur og gat ekki nefnt errið.

Svo sagði faðir minn mér að þegar hann var í Bessastaðaskóla (mig minnir 1808—1810) þá voru þar karlmenni og glímumenn nokkuð margir, þángað komnir úr Reykjavíkurskóla t. d. Jón Mattíasson (prestur í Arnarbæli), Jón Guðmundsson (bróðurson assessors Gröndals og prestur á Hjaltastað) — frá Mývatni, þar sem eg hygg verið hafa annað höfuðból glímunnar — hitt var skólinn, Gunnlögur Oddsson[2] og Brynjúlfur Bjarnason (mig minnir frá Mælifelli)[3] manna sterkastur og glímnastur. Hann var sá, er hóf Johnsen (aðjúnkt, föður Bjarna rektors) upp á klofbragði og kastaði honum upp fyrir ofninn í Neðribekkjarstofu á Bessastöðum, og var Johnsen þó ekki barn í vöfum. Þessir sem eg taldi voru víst farnir úr Bessastaðaskóla, þegar Dr. Scheving kom þángað. Aldrei heyrða eg hann tala um þá, en það sagði hann mér að Bjarni Pálsson (frá Undirfelli minnir mig) seinna prestur á Felli[4] hefði verið mestur glímumaður á Bessastöðum. Einhverju sinni kom Norðlíngur þángað, vel fær maður og lét allmikið yfir sér, glímdi við pilta og feldi hvern af öðrum. Þá sögðu sumir að slíkt væri eigi að marka, það væru þeir aumustu, er við hann glímdu, en ef þeir glímdu við hann sem færastir væru, skyldi hann sjá hvernig færi. »Mér er nær að halda« segir einn af piltum að þú hafir ekki við skólaþjónustunni. Það þótti Norðlíngi hart. Þá var farið til Bjarna og hann beðinn að bjarga. Hann fór í kvennklæðnað, kemur ofan í »forstofuna« þar var jafnan glímt og réð þegar á Norðlínginn, og í einni svipan leggur þjónustan á hann dómadags klofbragð og hlassast Norðlíngur úr háa lopti niður á gólfið og svona fór hann fleiri.

---

[1] Seinast prestur í Stafholti († 1856).

[2] Prestur í Reykjavík († 1835).

[3] Prestur á Miklaholti († 1850).

[4] Þegar eg (Ó. D.) var strákur á Felli í Sléttuhlíð, var þar gamall karl blindur, sem Jón hét. Hann kunni frá mörgu að segja og þar á meðal séra Bjarna. Gamli-Jón annálaði það mjög hve Bjarni prestur hefði verið glíminn. Þeir stóðu opt yfir fé saman niður í Hrolleifshöfða og sagði Jón að prestur hefði ávalt haft með sér einhverja latínska bók og lesið í henni opt og einatt í hörkufrosti og grimmdarkulda, en þess á milli hefðu þeir glímt sér til hita og sagðist Jón ekki hafa staðið presti snúning og var hann þó karlmenni á yngri árum.

Samt held eg að Bjarni Pálsson hafi eigi verið meiri glímumaður en Þorsteinn Jónsson frá Reykjahlíð[1]. Hann hefi eg þekt lángmestan glímumann. Það var list, fögur list, að sjá til hans; hann einan sá eg aldrei falla. Þegar hann glímdi og það var opt, beitti hann aldrei afli, þessu mikla afli, sem honum var gefið, fyr en í því er bragðið reið að. Við[2] fundum ekki til mæði; við stóðum uppréttir og beittum ekki öxlinni, eins og þeir sem bolast. Það var sama hvort hann glímdi við lágan eða háan, sterkan eða ósterkan. Hann endurbætti glímuna í skólanum. Haustið 1830, ef mig minnir rétt kom Þorsteinn Jónsson í skóla, orðinn nokkuð gamall. Þá var þar mestur glímumaður Jón Hjaltalín (landlæknir) og var vel fær. Hið fyrsta sinn — og eg held síðasta — sem þeir glímdu, Jón og Þorsteinn, lagði Jón á hann klofbragð, sem hjá honum var skaðræðisbragð, en Þorsteinn krækti fæti í hnésbót Jóni svo Jón kiknaði niður, og þetta var Þorsteins lakari hönd en Jóns skárri. En á betri hendi Þorsteins skipti það eingum togum; Jón var óðara fallinn. »Novibusum«[3] var öllum kent að glíma, sem glíma vildu, en það vildu flestir. Við glímdum hér um bil á hverjum degi, í rökkrinu, í forstofunni og þeir sem bezt kunnu, gjörðu sér að skyldu að kenna hinum. Hér um bil einu sinni á mánuði héldum við bændaglímu í neðra bekk — borð og bekkir fluttir í efra bekk. Við sögðum ætíð Dr. Schevíng til, honum þótti það skemtan og hann sýndi okkur stundum tökin, meðan við vorum viðvaníngar. Aldrei brutum við neitt, aldrei meiddist maður, varla aldrei rifnuðu föt okkar. Við vorum í vaðmálsfötum með sauðskinnsskó á fótum. Af 40 piltum, er þá voru í skóla, hygg eg að 30 hafi jafnaðarlega glímt. Opt komu vermenn heim af Nesinu til að glíma við okkur, þar á meðal Gestur Bjarnason, Glímu-Gestur eða Sund-Gestur[4]. Hann glímdi mjög líkt því sem við glímdum. Aldrei sá eg hann glíma við Þorstein, enda hefði hann eigi haft við honum. Við feldum Gest sumir, en ekki nema þeir glímnustu. Sá af skólabræðrum mínum, sem leingst varðist Þorsteini var Stefán Pálsson (dó kapellan að Hofi í Vopnafirði). Hann var sterkur að afli og mjúkur, enda var hann bróðurson Þorsteins Guðmundssonar í Krossavík[5]. Góðir glímumenn voru þeir Magnús Eiríksson[6], Jónas Hallgrímsson[7], Sigurður Brynjúlfsson (frá

---

[1] Sbr. bls. 49.

[2] Skólapiltar á Bessastöðum.

[3] Nú eru nýsveinar í Reykjavíkurskóla kallaðir busar en áður voru þeir kallaðir nóvíbusar.

[4] Um Gest er líka getið ísundkaflanum.

[5] Sbr. Hlaup og stökk og bls. 50.

[6] Guðfræðíngur í Kmh.

[7] Skáldið.

Útskálum, Konráð Gíslason[1] Magnús Hákonarson[2], Gísli Jónsson (frá Litladal, sonur séra Jóns á Kúlu, sem í Vatnið fór), Þorsteinn Jónsson frá Auðkúlu sem seinna varð kaupmaður og dó í Rkv. 1859 og svo fleiri og fleiri[3].

Eg þakka það mest og bezt Dr. Scheving og þarnæst Þorgrími gullsmið Tómassyni, föður Dr. Gríms að glímurnar voru í miklum metum á Bessastöðum um mína daga. Þorgrímur var mesta snarmenni og harðfylginn sér, ef til handanna kom. Páll bróðir Þorgríms[4] var svo fimur að einginn kom honum af fótunum. Hann fór upp um reykháfinn á Bessastaðastofu, hann klifraði upp veggina og þakið á Bessastaðakirkju, upp á staungina á kirkjuturninum, upp á kúluna sem þar er og krúnkaði sem hrafn. Ekki glímdi hann, en þó rak hann hælkrók á Glímu-Gest svo Gestur féll og var sagt að Dr. Scheving hefði gefið Páli nokkrar spesíur fyrir vikið.

Brögðin sem við höfðum voru hælkrókur, bæði utan fótar og innan, leggjarbragð, hnykkur, mjaðmarbragð, sveifla. Í því sama sem sveiflan endaði var venjulega lagt á klofbragðið, því þá lá það bezt fyrir; klofbragð kunnum við flestir rétt og öfugt, upp á báðar hendur.

Talsvert voru glímur tíðkaðar í Reykjavíkurskóla fyrstu, veturna eptir að hann fluttist þángað frá Bessastöðum. Mér var það kunnugt árin 1846—49. Þá voru beztir glímumenn sem eg sá glíma í skóla: séra Lárus heitinn Scheving (sonur Dr. Schevings)[5] og séra Benedikt Kristjánsson[6]. Vel færir menn voru þeir séra Jakob Benediktsson[7], Stefán sýslumaður Björnsson[8] og Stefán heitinn Thorsteinsen[9]. Mig grunar — þótt eg viti það eigi með vissu — að farið hafi að minnka áhugi skólapilta á glímum þegar Dr. Scheving var liðinn undir lok.

Þegar eg hugsa um þetta á gamals aldri, rennur mér til rifja að nú sé eg eingan glíma, nú fæst einginn til þess, jafnvel ekki skólapiltar, þessa síðustu vetur. Leikfimin er eins í skólanum og hún var fyrir 30 árum,

---

[1] Prófessor.

[2] Seinast prestur á Stað í Steingrímsfirði.

[3] Það mun vera óhætt að bæta Páli sjálfum við, að minnsta kosti að því er liðleik snertir.

[4] Prestur á Knappstöðum í Stíflu. Margar sögur gánga um liðleik séra Páls heitins, bæði andlegan og líkamlegan, um Fljót og Sléttuhlíð, þótt þær eigi ekki heima hér.

[5] Prestur til Selvogsþinga.

[6] Prestur á Grenjaðarstað.

[7] Seinast prestur á Miklabæ í Blönduhlíð.

[8] Sýslumaður í Árnessýslu.

[9] Sonur Jóns landlæknis Thorsteinsens.

eg þori að fullyrða að hún er orðin mannsaldri á eptir tímanum, en íslenzka glíman fyrnist aldrei. Það er þjóðarminnkun að leggja niður þjóðarsóma og það voru glímurnar á mínum skólaárum.»

Að því er snertir undirbúníng undir glímu og aðalgánginn í hverri glímu sem er, þykir mér réttast að færa hér til orðréttar sagnir þeirra séra Þorsteins Pálssonar og Jóns á Gautlöndum, því þeir segja báðir mjög skýrt og skipulega frá.

«Til glímu er bezt að bera léttan og rúman klæðnað, hafa þó fremur aðheldin buxnahöld eða vera gyrtur belti um mittið og með íslenzka skó á fótum.

Glímureitur fer bezt að sléttur sé og óhallfleyttur og einkum fyrir viðvanínga hvorki harður né frosinn.

Á báðar hendur glíma þeir jafnvel er bezt kunna og er hentugast að venja sig undir eins við það.

Þegar tveir menn gánga að glímu og taka glímutökum, leggja þeir saman sömu öxlina að framanverðu, hvor fyrir, sig og skal nú gjöra ráð fyrir því að það sé vinstri öxlin; tekur þá hvor þeirra vinstri hendi sinni í buxur eða buxnahald[1] hins, utan og aptanvert á hægri mjöðminni, undir hægra handlegg hans, en um leið hægri hendi sinni í buxur hans, utan og framanvert á miðju vinstra lærinu[2]. Við þessi glímutök standa þeir lítið álútir hvor að öðrum og varast þá óvirðu sem heitir að bolast, er viðvaníngum, stirðum og ófimum mönnum hættir við, en það er að beygja sig mjög í mjaðmliðunum og standa fótum sem fjarst hinum, svo á þykir að sjá sem flatan nautshrygg[3]. Allir góðir glímumenn fyrirlíta svo ámátlega stöðu, því auk þess sem hún gjörir glímuna að þussafángi og ollir einatt slysablytu, bægir hún allri fegurð og öllum fimleika burt frá glímunni. Þeir sem fagurlega og íþróttarlega glíma, standa þannig lítið álútir hvor að öðrum, að vinstrafótarhné þeirra lenda að nokkru leyti hvort á hlið við annað og beygja þeir báðir þann fótinn dálítið um hnéliðinn, en hægra fótinn hafa þeir út og aptur undan sér, álíka boginn um hnéð, og beita því altaf fram og út á við. Þessum áminztu tökum handanna og þessari stöðu fótanna leitast hvor glímumaður við að halda sem stöðugast í allri glímunni, og að ná hvorutveggja aptur sem skjótast, þótt það verði að breytast nokkuð í hvert sinn, sem hann þarf að verjast hnykkjum, brögðum eða sviptíngum hins, eða hann beitir hinn þesskonar áleitni. Þegar þeir hafa nú tekið þessum tökum sem liðugir glímumenn halda

[1] Bróklinda, Jón á Gautl., buxurnar utanlærs, ýmist ofarlega eða neðarlega, G. E

[2] Það segir sig sjálft að tökin eru öfug ef glímt er upp á hægri hendi. Jón á Gautl. gjörir ráð fyrir að þannig sé glímt og segir að sumir hafi þá vinstri hendina lausa.

[3] Þeir sem bolast eru stundum kallaðir «bolar».

aldrei fast og neyta ekki afls við fyr en í sama bili, sem þeir beita brögðum eða hnykkjum, fara þeir að tvístíga fótum hægt og hægt, hvor eptir öðrum[1], en sá stígandi er biðleikan eptir færi á því að geta brugðið. Hvor fyrir sig gefur því gætur að stöðu hins og sér í lagi að jafnvægi líkama hans, bæði með sjón en einkum tilfinníngu og jafnframt að því um leið, hverju bragði eða hverjum hnykk hann muni vera viðbúnastur eða þá muni hafa í huga að beita fyrst. Þó er eigi síður vel að gæta þess að jafnvel þó svo virðist, sem hinn muni ætla að beita vissu bragði eða hnykk, þá getur vel verið að hann með einhverjum látalætistilburðum sínum hafi eitthvert annað bragð í huga. sem hann lætur þá líka koma er minnst varir. Í þessum kríngumstæðum verður því hvor þeirra að varast sem mest að láta sig berast nokkuð úr jafnvægi sjálfs sín og réttri stöðu fóta sinna.

Bragði skal þá beita er maður verður þess áskynja, eptir áður sögðu, að hinn annaðhvort misstígur fæti í stöðu sinni eða jafnvægi hans hallast nokkuð og þá jafnan því bragði eða þeim hnykk, er hagkvæmastur þykir[2].»

»Glímuíþróttin er eingaungu falin í því að menn séu fimir að bregða og verjast brögðum. Öll brögð eru gjörð með fótunum en ekkert með höndunum[3]. Það er aðeins við einstök tækifæri að maður beinir að með höndunum, einkum þeirri sem laus er við glímuna, svo sem við ýmsar sveiflur og hnykki sem einatt koma fyrir. Með höndunum heldur maður þeim sem liðlegast að sér er hann glímir við, og reynir að beita hann brögðunum, gjöri maður meira að mega það öllu heldur heita sviptíngar en glímur. Sé glímt á hægri hendi, beitir maður hægra fætinum meir við glímuna, til að bregða með, en vinstra fætinum, þegar glímt er á vinstri hendi. Þó er stundum brugðið jafnt með báðum fótunum, og þykir sá snjallastur glímumaður, sem er jafnvígur á báða fætur»[4].

Í pistli þeim, sem færður hefir verið til eptir séra Þorstein Pálsson, er gjört ráð fyrir, að glímt sé upp á vinstri hendi, og kemur það heim við sögusögn þá, sem áður[5] er getið um, að Norðlendingar hafi að fornu fari glímt meira upp á þá hendi. Nú er venjulega glímt á hægri hendi, og er ekki laust við, að ómyndarlegt þyki, að glíma á vinstri hendi, enda

---

[1] G. E. minnist ekki á tvístigníngu þessa, en segir að glímumenn stígi fyrst fram hægra fætinum ef glímt er uppá hægri hendi, annars hinum.

[2] Séra Þorsteinn Pálsson.

[3] Eg sé ekki betur en að líka sé brugðið med höndunum t. d. við handarbragð, en vitaskuld er það að fótbrögðin, klofbragð, leggjabragð o. s. frv. eru aðalbrögðin. Það er annars skrítið að B. H. nefnir líka aðeins brögð með fótunum, («bragð»). Páll Loptsson skiptir brögðunum aptur í handbrögð, hnykki og fótbrögð.

[4] Jón Sigurðsson á Gautlöndum.

[5] Bls. 40.

er hún stundum kölluð rasshönd, til aðgreiníngar frá réttri hendi, eða hægri hendinni.

Eg býst hálfpartinn við að sumir fetti fingur út í það, að eg skyldi ekki breyta lýsíngu séra Þorsteins á vinstrihandarglímu í lýsíngu á réttri glímu (hægrihandarglímu), en séra Þorsteinn var svo góður glímumaðar[1] að eg vildi láta lýsíngar hans halda sér óbreyttar. Í annan stað þótti mér vel til fallið, að lýsa sumum brögðunum á vinstri hendi, því sá er beztur glímumaður, sem jafnvígur er á báðar hendur, og auk þess glíma sumir ávalt á vinstri hendi, t. d. örvhendir menn. Í þriðja lagi er lafhægt að breyta lýsíngum séra Þorsteins, bæði á glímum alment og brögðunum, í hægrihandarglímu, þegar þess er gætt, að hann gjörir **ávalt** ráð fyrir vinstrihandarglímu. Tökin og brögðin verða öfug. Það er allur munurinn.

Þá koma nú brögðin sjálf til sögunnar og eru þau merguriun málsins, eins og þegar er drepið á. Helztu brögðin eru klofbragð, leggjarbragð, utan fótar og innan, mjaðmarhnykkur, sniðglíma, sveifla og svo hælkrókur og tábragð, enda eru þetta algeingustu brögðin og kunn um alt land, þann dag í dag. J. Ól. nefnir nokkru fleiri brögð og þykir mér réttast að telja þau upp, því skrá hans er elzta skrá, sem til er yfir íslenzk glímubrögð, eða að minnsta kosti þekki eg einga jafngamla: draugabragð, handarbragð, hælkrókur, klofbragð, leggjabragð, mjaðmarbragð, músarbragð, ristarbragð, sniðglíma og sveifla. Auk þess telur hann áflogabrögð til glímubragða, en. þau eru víst ekki annað en ryskíngar eða sviptíngar. Þess verður þó að geta að Jón segir að þetta séu aðeins helztu brögðin.

Eg hefi tekið upp lýsíngar þeirra séra Þorsteins Pálssonar og Jóns Sigurðssonar á brögðunum, svo mikið sem eg gat, því þeir lýsa þeim báðir miklu greinilegara og réttara en mér hefði verið mögulegt.

**Bakbragð.** »Menn taka vinstri hendinni í hægra handlegg mótstöðumanns síns, neðarlega, og sleppa um leið öllum tökum öðrum. Síðan er skotizt undir hendi hans, aptur fyrir hann og snúa menn þá bökum saman. Þegar menn snúa sér saman aptur, grípa menn einhversstaðar hægri hendinni í mótstöðumann sinn vinstra megin, svo hann geti ekki snúið sér og er þá hægt að fleygja honum fram af sér. Bragð þetta hentar bezt snarráðum mönnum, en aptur forðast hinn það tæplega, ef hann þekkir það ekki fyrir fram.«[2]

**Bolahnykkur.** »Menn setja aðra hvora hendina aptan á háls mótstöðumanns síns, og leggja á hann ristarbragð um leið.«[2] Svipað bragð er kallað bolabragð í Múlasýslum, og jafnvel hálsbragð.

[1] Sbr. bls. 48—49.

[2] Páll Loptsson.

**Draugabragð**. J. Ol. segir að það sé draugabragð þegar glímumaður sleingi öðrum fætinum framan á báða fæturna á hinum.

**Grikkur**. »Hann er fólginn í því að sleppa glímutökum í miðju kafi, er hinn stendur þægast við, og grípa á augabragði sinni hendi hvorum megin undir vinstri hnésbót hans, kippa henni með snarræði inn undir sig, en skjóta um leið vinstri öxlinni sem mest fram í fáng hins, og hnykkja honum þannig öfugt á vinstri hliðina; þykir opt gaman að sjá þá volæðisbyltu sem hann fær aptur á bak, en ekki er þetta fagurt glímubragð.« [1]

**Hálsbragð**. Magnús Magnússon stud. theol. þekkir bragð þetta að vestan, en aðeins nafnið. Sbr. bolahnykk.

**Hnébragð og handarbragð**. G. E. telur þau sama bragð og lýsir því þannig: »Maður slær hendinni sem undir er[2] á utanvert hné hins, sama megin, og setur á hann öfugan snúníng um leið«. Annars er bragð þetta að mörgu leyti líkt hnykk séra Þorsteins. Skúli Thorlacius[3] nefnir hnébragð, en handarbragð segir J. Ól. sé »með margt slag.« V. G. og Pálmi Pálsson nefna handbragð.

Páll Loptsson lýsir fernskonar handbragði og nefnir það fimta. Hnénu er ekki beitt við neitt þeirra og er því ómöguiegt að kalla þau hnébrögð öðru nafni.

»Fyrsta handbragð. Menn sleppa undirtakinu (hægri hendinni), taka snögt í hliðina á hinum undir hægri hendi hans og leggja sveiflu á hann um leið.

Annað handbragð. Menn sleppa vanalega vinstrihandartakinu, en grípa hægri hendi undir vinstri hendi mótstöðumannsins og sveifla honum frá sér. Um leið leggja menn á hann leggjabragð. Líka má fara öfugt að þessu þ. e. sleppa hægra hendinni en sveifla með þeirri vinstri Bragð þetta er ágætt fyrir sterka menn og gott í lausatökum.

Þriðja handbragð. Menn halda fast vinstrihandartökunum en setja hægri hendi undir vinstri hendina á mótstöðumanninum og hrinda honum á hliðina. Ekki dugir bragð þetta við liðuga menn.

Til er enn handbragð sem eg þori ekki að lýsa, því eg hefi aðeins einusinni séð það, en fékk ekki að læra það.«

Þetta seinasta er alleinkennilegt og sýnir að glímumenn hafa það til að liggja á fágætum brögðum. eins og ormur á gulli.

**Hnéhnykkur**. »Menn setja hnén á víxl, eptir því sem bezt á við fyrir hné mótstöðumanns síns, utanfótar« [4].

»**Hnykkur** er öllu heldur sveifla en bragð og verður ekki lýst nákvæm-

---

[1] Séra Þorsteinn Pálsson.
[2] Þeirri hendinni sem ekki er glímt uppá.
[3] Borealium veterum matrimonia, bls. 220.
[4] Páll Loptsson.

lega, því hann getur verið með mörgu móti; það er svo mjög undir atvikum komið, hvernig honum er varið. Réttur hnykkur er það þegar sækjandi gjörir sveiflu eða snögt kast á mótstöðumann sinn og hrindir honum að sér, eru áhrif þessa bragðs eingaungu undir því komin, að öll atvik þar að lútandi gjörist á einu augabragði og að verjanda óvörum. Við réttan hnykk beinir sækjandi að, eða hrindir á eptir með þeirri hendinni sem glímt er uppá, svo verjandi skuli því heldur falla. Öfugur hnykkur er það, þegar sækjandi sveiflar verjanda frá sér, og hrindir á eptir með hinni hendinni, eða þeirri sem ekki er glímt uppá. Hnykk er helzt beitt í glímum við þá, sem eru óvarfærnir, eða þegar verjandi stendur nokkuð höllum fæti fyrir sækjanda, og er þá stundum öðrum brögðum beitt með, til að gjöra sem skjótust umskipti. Hnykkur getur verið skæður fyrir óvana. en fljótt getur maður vanizt við hann, sé ekki öðrum brögðum beitt með; krefur hann meira snarræðis en nokkurt annað bragð í glímum[1].«

Séra Þorstein Pálsson kallar mjaðmarhnykk aðeins hnykk, en hann lýsir líka öðrum hnykk á þessa leið: »Hnykkur er gjörður þannig, að annar glímumanna hnykkir hinum með öllu handafli sínu, fyrst til vinstri handar, svo snögt sem hann getur, og svo aptur í sama bili til hægri handar, með þeim mun meira afli, sem vinstri höndin heldur ofar um hinn, og hrindir þá á, en jafnskjótt slær hann hægri hendi sinni, til mótspyrnu utan og aptan á vinstra hné hins. Þegar hinn kennir fyrra hnykksins bregður hann við, til að verja jafnvægi sitt. og spyrnist við til vinstri hliðar, en verður með því samtaka seinna hnykknum og hjálpar þannig til að fella sjálfan sig; er því þessi hnykkur bæði fagur og mjög skæður í höndum fimra glímumanna«.

Hnykkur er nefndur nokkrum sinnum í íslenzkum ritum[2], en honum er hvergi lýst. svo ómögulegt er að sjá við hvers konar hnykk er átt. B. H. getur þess ekki einu sinni að hnykkur sé glímubragð

**Hælbragð** er nefnt í orðabók þeirra Guðbrandar Vigfússonar og Cleasby's við orðið »bragð«. Það er að öllum líkindum sama sem hælkrókur.

„**Hælkrókur** kallast það er annar glímumanna dregur hinn að sér með handafli sínu og krækir vinstrafótarhælnum aptur fyrir hægra fót hans að utanverðu og leitast svo við að sveigja hann aptur á bak, með því að halda tökunum fast og gánga á hann að framan, þángað til hann gugnar og lætur fallast á bak aptur. Bragð þetta er aldrei fagurt né fimlegt, heldur trölldómslegt og verður opt slysabylta af því, ef stirðir og harðfeingir eiga saman. Tamur og fimur glímumaður telur sér það ekki mjög hættulegt, því jafnskjótt og hinn fer að draga hann að sér. til að leggja það á

[1] Jón á Gautlöndum.

[2] Piltur og Stúlka. Rkv. 1861; bls 17; Útilegumennirnir. Rkv. 1864; bls. 26; Aðalsteinn. Akureyri. 1877; bls. 269.

hann, bregður hann honum annaðhvort snörpu leggjarbragði, svo hann verður að hætta við hælkrókinn eða þrífur hægri hendinni með öllu afli undir hnésbót hans, og gjörir sem harðast hnykk á hann með vinstri hendi, á þá hliðina, sem hann hefir fótinn á lopti, og fellur hann opt á því.

Hælkrókur innanfótar er það bragð að krækja vinstra hæl sínum að innanverðu, annaðhvort aptur fyrir vinstrafótarökla hins, eða þá hægrafótarökla hans. Hvorugur þessara hælkróka er fagurt bragð eða sigursælt«[1].

Jón Sigurðsson á Gautlöndum lýsir hælkrók alveg eins, en segir þó að sækjandi bregði öðrum hvorum fætinum, eptir því sem bezt horfir við, aptur fyrir fót verjanda að utan eða innan. Hann getur þess líka, að sjaldan leggi góðir glímumenn bragð þetta á aðra en þá, sem bolast eða glíma á annan hátt stirt og sterklega.

Páll Loptsson nefnir utanfótarhælkrók öðru nafni lángskuð, en svo nefnir V. G. sniðglímu, eins og ef hefi vanizt henni Eg hefi að eins heyrt lángskuð nefnda í Fyafirði.

»Klofbragð er þannig álagt, að sækjandi geingur sem bezt inn undir mótstöðumann sinn, og leitast við að liðka kann sem bezt að sér; sætir hann því lagi, þegar hinn varir minnst að koma fætinum og lærinu, er hann beitir meira við glímuna, inn á milli fóta verjanda og vega hann þannig upp í einni svipan, að klof verjanda riði yfir um mjöðm sækjanda, og um leið hallar sækjandi sér, til að ná snúníngi á hinn. Þegar svona lángt er komið, er optast við falli búið, og veitir verjanda mjög torvelt að greiða sig úr bragðinu. Þegar hann á annað borð er kominn á lopt. En til þess að klofbragð heppnist vel, heyrir það að sækjandi sé bæði baksterkur og snarráður, því kunni verjandi vel til glímu, getur hann ef til vill, felt sækjanda á sínu eigin bragði. Sá sem fellur á klofbragði mun optast koma niður á hnakkann og herðarnar. Helzt má verjast klofbragði með þessu móti. Þegar sá sem sækir, ætlar að ná bragðinu, þarf hann, um leið og hann vegur mótstöðumann sinn upp, að reigja sig aptur á bak. Því færi skyldi verjandi sæta, hlaupa sem harðast í fáng sækjanda, krækja fætinum um leið aptur fyrir fót hans, og reyna að koma honum á hnakkann. Að öðrum kosti skal verjandi hnipra sig saman, um leið og hinn ætlar að ná bragðinu, svo hann verði síður veginn upp, og heppnist honum að standast hina fyrstu tilraun, mun enn torveldara að fella hann á sama bragði í annað skipti«[2].

Séra Þorsteinn Pálsson lýsir klofbragði svona: »Klofbragð er til á tvennan hátt, eða rétt og öfugt. Sá er kann hið rétta klofbragð og ætlar að leggja það á annan, bíður lags þángað til hann sér færi; kippir

[1] Séra Þorsteinn Pálsson.

[2] Jón Sigurðsson á Gautlöndum.

hann hinum þá að sér, en hleypir jafnframt hægra hné sínu innan við vinstrafótarhné hans, alt upp undir mitt lærið, og hefur hann þannig í einni svipan á lopt, bæði með afli hægri handar sinnar, sem heldur í lærið, og hnénu sjálfu; hann stendur aðeins á vinstra fæti sjálfur, og snýst á honum, eins og hjól, til vinstri hliðar, heilan snúníng eða meira, með leikbróður sinn í fánginu, sem þá hlýtur að hallast meir og meir og falla byltu, er niður kemur. Þetta bragð er bæði hið fegursta og glímumannlegasta, en torveldasta bragð vel að nema. Þegar fimur glímumaður nær því vel, er trauðla hægt að standast það, sízt ef leggjarbragð kemur líka á mann, undir eins og nær niðri af fluginu, nema því að eins að sá sem veginn er upp á bragðinu, sé því líka alvanur og komi hægra fæti sínum, jafnskjótt og hann er að hefjast á lopt, utan á vinstrafótar hné eða lær hins, til stuðníngs sér á snúníngnum, eða grípi hinn afargrimmum hælkrók með vinstra fætinum, sem hann verður þá að byrja á sama augabragði, sem hinn fer að hefja hann upp, með hnénu að innanverðu. Til að verjast þessu skæða bragði er auk þess ekkert annað ráð, en halda vinstrafótarhné sínu ávalt inn á við, sem næst hné hins, svo hann eigi sem sízt kost á því að koma hægrafótarhné sínu inn og upp á milli hnjánna á honum.

Hið öfuga klofbragð er einnig mjög viðsjált bragð góðra glímumanna. Það er lagt þannig á, að annar kippir hinum snögglega að sér í glímunni, þegar minnst varir, og hleypir jafnframt vinstrafótarhné sínu uppá milli læra hans, sem næst hægra lærinu, en hallar sér um leið hálfvegis aptur á bak, á hægra fótinn, og vegur hinn þannig á lopt með vinstra hnénu og handafli sínu; sveigir hann hnéð með leikbróður sinn á því, sem bezt til vinstri hliðar, og hrindir með hægri hendinni í sömu átt á vinstra lær hans, en til hægri hliðar að ofan á mjöðm hans, snýst svo með hann á hægra fæti til hægri hliðar, svo jafnvægi hans hallist sem mest, og vindur hann þannig niður á snið. Þessu hrekkjabragði er einkum beitt, er hinn er að verjast rétta klofbragðinu og gefur illa kost á sér, en geingur þó nokkurn veginn vel að, og mistekst það þá ekki opt þeim er vel kann.»

Páll Loptsson minnist á nokkurs konar klofbragð auk venjulegs klofbragðs: »Menn setja hnéð undir vinstra lær mótstöðumanns síns, taka jafnframt fast í hliðina á honum með vinstri hendi, en hrinda honum frá sér um leið«.

**Lausamjöðm** er þegar nefnd í þættinum af Jökli Búasyni[1]. Engelstoft nefnir hana líka[2]. Hennar er enn fremur getið í vísu sem ekki getur verið mjög gömul og byrjar þannig:

[1] Íslendinga Sögur II. Kmh 1847 ; bls. 464.

[2] Skandinavisk Museum 1802; bls. 59.

Lýðir brúka lausamjöðm
og límíngs stím við glímu faðm[1].

Samt þekki eg ekki bragð þetta og kann ekki að lýsa því, en eptir því sem því er lýst, í þætti Jökuls: »en er hana varði minnst brá hann henni lausamjöðm, ok kom fyrst niðr höfuðit ok síðan búkrinn«, getur hún vel verið sama sem mjaðmarhnykkur. Í öðru handriti stendur líka mjaðmarbragð í staðinn fyrir lausamjöðm.

„**Leggjarbragð** er þannig sókt að sækjandi sætir því færi, þegar hinn sem á móti er hefir annaðhvort ný sótt bragð og ekki náð að fella, eða hann hefir á annan hátt tapað því jafnvægi, sem maður þarf að hafa á öllum líkamanum, þegar glímt er. Þá bregður hann þeim fætinum, sem hann beitir meira við glímuna, á ská fyrir fót verjanda, þannig að fótur sækjanda komi staurréttur á fót verjanda utan og framanverðan, ofan við ristina, en um leið og sækjandi leitast við með höndunum að koma losi á hinn, og jafnvel sveifla honum móti bragðinu, svo hann verði því lausari fyrir, þá bregður hann ristinni og tánum lítið eitt uppá við, verjanda til falls. Sé þetta gjört með því lagi og snarræði, sem svo er nauðsynlegt við glímur, þá er það fárra færi að standast leggjarbragð. En hrökkvi það nú ekki, kemur sækjandi á sama augabragði með eitthvert annað bragð, svo sem öfugt leggjarbragð, sem að öllu leyti er á lagt eins og hitt, en með hinum fætinum, sem minna er beitt við glímuna. Sé leggjarbragð stirt álagt og klaufalega, getur það verið hættulegt, t. a. m. þegar sækjandi deingir fætinum fast og stirt á fótlegg verjanda, ofarlega, því þá getur leggurinn geingið í sundur. En sé leggjarbragð vel á lagt og af þeim sem kann, eins og gjört er ráð fyrir hér að framan, þá er það eitthvert hið skæðasta bragð og ilt að varast það; er ekki nema um tvent að velja, fyrir verjanda, annaðhvort að stökkva yfir bragðið, eða standa svo fast fyrir að honum verði ekki þokað. Til hins fyrra þarf mikinn fimleika og snarræði, en hið seinna er trauðla gjörandi, nema fyrir þann sem er vel sterkur í fótunum. Sá sem fellur fyrir leggjarbragði, mun optast fara áfram eða á hliðina«[2].

Séra Þorsteinn Pálsson lýsir bragðinu á þessa leið: »Leggjarbragð heitir það, er annar glímumaður bregður vinstra fæti sínum utan og neðanvert á hægrafótarökla hins. Þessu bragði varpar hann þar á, svo fljótt og fast sem má, er hann finnur að leikbróðir sinn hallast nokkuð á hægra fótinn, en kippir jafnskjótt upp á við í vinstra lær hans, þar sem hann heldur hendi sinni og vindur hann þannig móti bragðinu. Sá sem leggjarbragðinu er vel tamur, bregður vinstri hönd i sömu svipan, vinstra megin á

[1] Hrs. Bmfj. í Rkv. 82. 8vo. Annars er ekki meir um glímur í vísunni.
[2] Jón á Gautlöndum.

háls hins, ef hann finnur að hann stendur haganlega við því, og verða þannig báðar hendurnar samtaka að hrinda á móti bragðinu.

Leggjarbragð innan fótar er einnig til. Því slær annar hvor hinum að innanverðu, neðanvert á vinstrafótarökla með vinstra fæti sínum, þá er honum virðist hann standa ógætilega fast í þann fótinn, en hnykkir honum áfram um leið, jafnframt því að bregða sér undan öxl hans að framan; fellur hann opt við þetta á hnéð og heitir það að fá hneskít.«

Þriðju útgáfuna af leggjarbragði hefur G. E. »Maður slær flötum fætinum framan á skurnúng[1] eða fótleggi hins og hrindir honum svo áfram um leið.« Þetta virðist þó einmitt geta haft hættu þá í för með sér sem Jón á Gautlöndum getur um.

Hér hefi eg eingu við að bæta, nema eg hefi ávalt vitað fætinum brugðið á jarkann á hinum fast við jörðina eða gólfið. Þess má líka geta að bragðið er opt kallað leggjabragð.

**Magahnykkur.** Pálmi Pálsson þekkir aðeins nafnið.

**Mjaðmarhnykkur.** Jón Sigurðsson á Gautlöndum kallar bragð þetta sniðglímu eða mjaðmbragð og lýsir því á þessa leið: »Sækjandi leitar færis að koma fætinum og lærinu á ská, aptur fyrir eða á bug við þann, sem hann glímir við. Þegar hann hefir liðkað mótstöðumann sinn til og komið á hann hreifingu, þá vindur hann honum í einni svipan uppá mjöðm sér, og leggur hann öfugan á bakið, svo fæturnir horfa að sækjanda, en höfuðið frá. Bragð þetta á vel við, þegar verjandi hefir hlaupið yfir leggjabragð, því um leið hlýtur hann að hrökkva á bug við sækjanda, og er þá hið bezta færi að leggja á hnykkinn. Annars er mjaðmarhnykkur eitt af þeim brögðum, sem torvelt er að ná, nema við einstök tækifæri, og þarf meira snarræði við hann, en alment verður gjört ráð fyrir, en heppnist hann á annað borð, er það fárra færi að standast hann.«

G. E. kallar bragð þetta mjaðmarbragð, sniðglímu eða hnykk og lýsir því svo: »Maður geingur með mjöðmina undir hinn miðjan og steypir honum svo hallfleyttum fram af sér.« Lýsíng þessi getur ekki átt við annað bragð en það sem kallað er mjaðmarhnykkur í Eyafirði.

Séra Þorsteinn Pálsson kallar bragð þetta aðeins hnykk og lýsir því þannig: »Fyrst hnykkir maður leikbróður sínum til vinstri handar, svo hann fer að reigjast við, en í sama vetfángi vindur maður vinstri mjöðm sinni — og gjörist mjög frálútur — utan og aptanvert á vinstri mjöðm hans, með svo miklu afl vinstri handarinnar, og svo miklu kasti sjálfs sín, ofan að mjöðminni, sem hann megnar, og vegur hinn þannig öfugan upp á mjöðm sína, en vindur sér undan honum þegar svo er komið, og kemur hann þá jafnan upp í lopt niður.

Til að verjast þessum skæða hnykk er það helzta ráðið að hafa ávalt

---

[1] Líklega sama sem sköflúngur.

minni hnykksveifluna í huga sér, til varúðar, og rétta sig sem minnst upp við hina fyrri.»

Páll Loptsson segir að hægast sé fyrir lágvaxna menn að koma á mjaðmarhnykk. Hann nefnir líka öfugan mjaðmarhnykk og er það einmitt hnykkur séra Þorsteins, því Páll gjörir ávalt ráð fyrir því að glímt sé á hægri hönd. Páll segir að ekki þurfi aðrir að hugsa til að fella á öfugum mjaðmarhnykk en hjólliðugir menn.

**Mjaðmarbragð** er annars víða nefnt[1] og lítur svo út sem það sé elzta og algeingasta nafnið.

Í Bárðar sögu Snæfellsáss[2] er getið um bragð, sem virðist hafa verið mjög svipað mjaðmarhnykk, ef ekki alveg sama bragðið: »Gestur leiddi hann (Gljúfrageir) á mjöðm, ok brá honum á lopt með svá miklu afli, at höfuðit kom fyrst niðr á honum.« Sbr. lausamjöðm.

**Músabragð**. J. Ól. segir það sé fólgið í því að stiga á ristina (á hinum). Það er því eflaust sama sem tábragð. Annarsstaðar nefnir Jón músarbragð og er það nafn enn til. »Menn stiga á tá mótstöðumannsins og sveifla honum til um leið. Bragð þetta getur verið skaðlegt« [3].

**Rassbragð** nefna þeir Skúli Thorlacius[4] og Engelstoft[5] og get eg ekki sagt meir um það.

**Ristarbragð** segir Pálmi Pálsson muni vera sama sem tábragð. J. Ól. og séra Þorst. Pálsson nefna það aðeins[6]. Páll Loptsson er sá eini sem lýsir því: »Annari hvorri ristinni er krækt fyrir þann fótinn á mótstöðumanninum, sem fjær er, t. d hægri ristinni fyrir hægra fót mótstöðumannsins. Við það rekur hann vinstra fótinn á hægra fótlegg manns, og missir við það beggja fótanna ef alt fer vel.« Eptir þessu er ristarbragð ekki sama sem tábragð.

**Skessubragð**. »Bragði þessu er aðeins beitt við ofurefli. Maður hálfstekkur í fáng leikbróður sínum er færi gefst, svo hann sperrist við, en í sama bili kastar maður sér út og aptur á hægra hnéð, viðundinn, og kippir hinum á eptir sér; kastast hann þá fram, og yfir mann rétt áfram, en sækjandi vindur sér að vörmu spori við, og kastar sér ofan á hann. Bragð þetta á þó ekki skilt við sanna glímuíþrótt[7].« G. E. segir að

---

[1] Íslendinga Sögur II. Kmh. 1847; bls. 464. J. Ól. Eggert Ólafsson: Reise igjennem Island; bls. 46; Þjóðsögur J. Árn. I; bls. 251.

[2] Kmb. 1860; bls. 35.

[3] Páll Loptsson.

[4] Borealium veterum matrimonia; bls. 220.

[5] Skandinavisk Museum 1802; bls. 59.

[6] Séra Þorsteinn kallar ristarbragð, hnébragð »o. s. frv.« smábrögð, sem lítið kveði að og ekki sé vert að lýsa, enda gjörir hann það ekki.

[7] Séra Þorsteinn Pálsson.

skessubragð sé einkum haft við í lausatökum. Skessutak er sama sem skessubragð[1]. Það er sagt að annar glímumaður taki hinu skessutaki þegar hann leggur á hann skessubragð. Jóhannes Jóhannesson stud. jur. segist líka hafa heyrt skessubragð kallað skussabragð öðru nafni. Á Austurlandi er bragð, sem er mjög líkt skessubragði, kallað draugasveifla.

Thorlacius segist sjálfur hafa séð í úngdæmi sinu, að annar glímumanna hafi alt í einu fleygt sér á bakið og dregið mótstöðumann sinn niður með sér; því næst hafi sá sem undir lá spent höndum og fótum utanum hinn, velt sér svo við og orðið þannig ofan á að síðustu[2]. Aðferð þessa telur Thorlacius til sérstakrar glímutegundar, flatglímu, gagnvart réttri glímu, þar sem glímumenn standa, en mér þykir sennilegast, að hér sé aðeins lýst skessubragði.

**Skólahnykkur**. »Mjög algeingt bragð. Það er slegið í hnésbótina á þeim sem glímt er við[3].« Eg skil ekki að nafnið geti verið mjög alment, því eg hefi aldrei heyrt það.

**Sniðglíma**. »Ef hinn misstígur ekki fæti og gefur þannig kost á því að bragð þetta sé lagt á hann, þá hnykkir maður leikbróður sínum snarpt til vinstri handar, svo vinstri fótur hans breyti stöðu sinni, bregður síðan vinstra fætinum aptur fyrir vinstra fót hans, að utanverðu, geingur svo fast á lagið og sveigir hann á sama augabragði aptur á bak, með öllu afli vinstri handar sinnar. Þetta er skætt bragð ef það næst vel og eigi auðvelt að standast það. En það er líka hættulegt þeim sem leggur það á mótstöðumann sinn, ef hann getur ekki sveigt hann aptur á bak í sama vetfángi og hann bregður.«[4]

Annars kallar séra Þorsteinn bragð þetta sniðglímubragð, en segir að sumir kalli það skessubragð.

Jón Sigurðsson á Gautlöndum segir að sumir kalli sniðglímu mjaðmbragð og á lýsíng hans á henni við mjaðmarhnykk.

G. E. nefnir sniðglímu öðru nafni hnykk eða mjaðmarbragð og lýsir þar mjaðmarhnykk eins og Jón Sigurðsson.

Eg hefi aldrei vitað sniðglímu og mjaðmarhnykk blandað saman. Aptur hefi eg vanizt sniðglímu alveg eins og hælkrók, að því undanskildu, að hér á að bregða fætinum fyrir báða fætur á þeim, sem glímt er við, en þar átti aðeins að bregða fyrir annan fótinn. Sbr. hælkrók.

Sniðglíma er þegar nefnd í fornsögunum. Jökull Bárðarson sló til sniðglímu við Gnípu[5] og Goðmundur á Glæsisvöllum brá Agða jarli til sniðglímu »ok snéri honum vakrlega«[6].

[1] Þorleifur Bjarnason stud. mag.

[2] Borealium veterum matrimonia; bls. 221.

[3] Páll Loptsson.

[4] Séra Þorsteinn Pálsson.

[5] Íslendinga sögur II Kmh. 1847; bls. 464.

[6] Fas. III; bls. 189

**Síðuhnykk** hefi eg heyrt nefndan í Reykjavík. Einhver hefir sagt mér að nafnið væri vestfirzkt.

„**Sveifla** er stundum viðhöfð í glímu af glímumanni, en sjaldan nema einhverju bragði til undirbúníngs. Stirðir menn, sterkir og fákænir beita henni opt. Hún er ekki annað en að hefja hinn til snúníngs á lopti, með handafli, þángað til jafnvægi hans hallast svo, að hann dettur af kastinu þegar niðri nemur«[1]. G. E. lýsir sveiflu alveg eins og gjörir ráð fyrir, að eitthvert annað bragð sé lagt á þann sem sveiflað er, þegar hann kemur niður, sveiflunni til stuðníngs. B. H. getur þess ekki að sveifla sé bragð, en segir að það sé hreifing glímumannanna til og frá[2]. Í Ármanns sögu er getið um sveiflu: Ármann brá Húfu til sveiflu[3], og það er jafnvel drepið á sveiflu í Grettlu[4]. Séra Benedikt Jónsson nefnir sveiflur og er það sjálfsagt sama sem sveifla[5].

**Veltibragð.** »Maður kastar sér á bæði hnén og verður að gæta þess að mótstöðumaðurinn sé til hliðar. Um leið og hann færist að, sperrir maður fram fótinn. Mótstöðumaðurinn rekur sig á hann og dettur, því um leið gjörir maður dálitla sveiflu á hann. Valla varast mótstöðumaðurinn bragð þetta, ef hann kann það ekki fyrir fram«[6].

Enn eru tvö brögð, sem eg kann að lýsa meira eða minna, en þekki ekkert nafn á. Kristjan Kålund lýsir þannig bragði í athugasemd við þýðíngu sína á Pilti og Stúlku:[7] Sækjandi slær alt í einu hendinni í hnésbæturnar á verjanda, svo hann missir jafnvægið, en jafnframt heldur hann (verjandi) honum föstum með því að stíga á stóru tána á honum. Lýsíng þessi er að vísu ekki greinileg, en er þó nóg til þess að greina bragð þetta frá venjulegu tábragði.

Hitt bragðið hefi eg feingið frá Páli Loptssyni: »Maður leitast við að láta mótstöðumann sinn stíga á tá sér. Takist það, slær maður utan á hnéð, á þeim fætinum sem laus er, en lyptir hinum svo hátt upp, sem mögulegt er og fleygir mótstöðumanni sínum þannig niður.«

»Mörg eru fleiri brögð, sveiflur og hnykkir sem fyrir kunna að koma í glímum við einstök tækifæri, en hér er gjört ráð fyrir, og sem ómögulegt er að lýsa, því þau eru þá að meira eða minna leyti riðin við brögð þau, sem nú voru talin og sameinuð þeim. Það er einnig mjög undir atvikum og kríngumstæðum komið, hverra bragða glímumaðurinn neytir, hvort heldur

[1] Séra Þorsteinn Pálsson.
[2] »De Kjæmpendes svingende Bevægelser.«
[3] Ármanns Saga. Akureyri 1858; bls. 55.
[4] Grettis Saga. Kmh. 1853; bls. 151.
[5] Sjá leikkvæði séra Benedikts í Viðaukanum.
[6] Páll Loptsson.
[7] Indride og Sigrid. Kmh. 1874; bls. 18.

hann sækir eða ver, og verða eingar reglur gefnar um það, aðrar en þær, að hver góður glímumaður varast að beita þussatökum eða þrælahnykkjum [1] í glímum, en því nafni nefnast öll þau tök og hnykkir, þar sem meir er beitt afli en fimleika, og þar sem glímumaðurinn beitir einhverjum ósæmilegum brögðum til að fella mótstöðumann sinn.« Jón Sigurðsson á Gautlöndum færir til grein þessa á eptir lýsíngu sinni á glímubrögðunum. Hann lýsir að vísu ekki öllum þeim brögðum, sem hér eru nefnd, en orð hans eiga þó eflaust eins vel við hér og í ritgjörð hans.

Það segir sig sjálft að ómögulegt er að gefa reglur um það í hverri röð beita skuli brögðunum. Það verður að vera komið undir atvikum. Séra Þorsteinn Jónsson, uppgjafaprestur frá Þóroddstað í Kinn hefir samið stuttar athugasemdir við glímulýsíngu Jóns á Gautlöndum og getur hann þess þar að hælkrókur sé talinn þussatak. Honum er víst skipað svo ógöfugt sæti, af því hvað hann er stirðlegur og ljótur en alls ekki af því að hann sé óleyfilegur í dreingilegum glímum. Aptur er skessubragð sannkallað þrælabragð að öllu leyti.

Eins og áður er sagt er mest komið undir því í glímum að vera fimur að bregða og lipur að varast brögð. Það segir sig því sjálft, að mest er komið undir liðleiknum, í glímum, enda fer stór maður og sterkur opt halloka í glímum fyrir litlum manni og liðugum [2] og Jón Sigurðsson segir jafnvel að það sé almenníngsálit, að stórir menn séu aldrei eins fimir í glímum og smávaxnir menn.

Þegar fáir taka þátt í glímum, er það undir atvikum komið hverjir glíma saman, en þegar glímumenn eru fleiri þá er stofnað til bændaglímu. Þá eru fyrst og fremst kosnir tveir menn og eru þeir nefndir bændur. Optast eru þeir kosnir bændur, sem beztir eru glímumenn, eða þeir sem elztir eru eða hafa mestar mannvirðíngar [3]. Bændurnir gánga á afvikinn stað. Liðinu er skipt með ýmsu móti. Stundum nefna bændurnir sig öðrum nöfnum en þeir heita í raun og veru og láta svo glímumennina, einn og einn í senn, velja um það, hvoru nafninu þeir vilji heldur fylgja [4]. Stundum eignar líka hvor bóndinn sér sinn hnapp á vesti eða treyu annars hvors þeirra og láta svo glímumenn kjósa um þá. G. E. segir að stundum sé liðinu skipt eptir hlutkesti. Nú getur hæglega farið svo að annar bóndinn hafi miklu meira lið en hinn, eða allir beztu mennirnir fylgi öðrum hvorum. Eggert Ólafsson segir að sá bóndinn, sem ver er staddur, lýsi því annaðhvort yfir, að hann telji sig yfir unninn, eða bjóði hinum bóndanum til glímu, með þeim kostum, að sá þeirra skuli bera sigur úr býtum, sem ber

[1] Líka eru til »þrælabrögð«.

[2] Sbr. t. d. Piltur og Stúlka. II. útg.; bls. 17.

[3] Sbr. bls. 43.

[4] Sbr. Eggert Ólafsson: Reise igjennem Island; bls. 350

hærra hlut. Eg hefi aptur vanizt, að glímunni væri haldið áfram, þótt illa liti út fyrir öðrum hvorum.

Þegar allir sem ætla að taka þátt í glímunni hafa kosið, skipa bændurnir liði sínu, sinn hvorum meginn við glímuvöllinn. Þó getur opt brugðið út af því. Þegar alt er nú komið í kríng, skipar annarhvor bóndinn einhverjum liðsmanna sinna fram á glímuvöllinn og er þeim optast skipað fyrst, sem eru minnstir fyrir sér eða liðléttastir[1].

Hinn bóndinn sendir mann á móti og glíma þeir, þángað til annar fellur eða báðir eru orðnir uppgefnir. Sá bóndinn, sem misti manninn, sendir þá fram annan og glímir hann við þann, sem eptir stóð, svo framarlega sem hann er ekki óvígfær af mæði, eða þá einhvern nýan mann. Svona geingur það koll af kolli. Bændurnir senda menn sína fram á vígvöllinn hvern af öðrum. Þeir eigast við og falla, en nýir koma í þeirra stað og heldur þessu áfram, þángað til bændurnir standa einir uppi. Þá taka þeir venjulega saman og er talið að sá þeirra vinni sigur, fyrir sig og sína menn, sem fellir hinn.

Áður en glíman byrjar eru sett glímulög, tekin til brögð, sem ekki megi beita t. d. skessubragð o. s. frv. Glímulög eru náttúrlega mjög misjöfn, eptir því hverjir glíma, og skal eg geta hér til dæmis glímulaga þeirra, sem Jón Mýrdal lætur sjómenn setja á Suðurnesjum, í Mannamun[2]: »Bændur skal velja með hlutkesti; öll meiðsli forðast, svo sem hægt er; ekki má mauðga af kné með afli; eingin högg eður barsmíð sé við höfð; einginn má reiðast falli í réttri glímu.« Jón lætur þann sem brýtur móti lögum þessum göra sig sekan í leikviti, en ekki getur hann þess hvað við liggur.

B. H. nefnir bóndaglímu, en séra Benedikt Jónsson bóndaglímur eða bændaglímur[3]. Loksins má geta þess að bændaglímu er stuttlega lýst í orðabók þeirra Guðbrandar Vigfússonar og Cleasbys, undir orðinu **glíma**.

Enn eru ýms smá atriði er snerta glímur, sem eg hefi ekki haft tækifæri til að geta um, og skal það nú gjört. Það eru þá fyrst önnur nöfn á glímum og ýms orð, sem dregin eru af þeim, eða koma að eins fyrir, þegar talað er um glímur. Venjulega nafnið er glímur, en það eru líka til ýms gælunöfn á þeim ef svo má segja. Að fara í kringlótta[4] að koma í (eina) bröndótta, að slá í brýnu og að slá í (eina) hrotu þýðir alt saman að fara í glímu. Auk þess þýðir B. H. »stím« glímur og »stímabrak« glímuskarkala, en orð þetta er víst sjaldan haft í þeirri

[1] Sbr. Aðalsteinn. Akureyri. 1877; bls. 126; Piltur og Stúlka. II. útg. Rkv. 1867; bls. 17.

[2] Akureyri. 1872; bls. 51—53.

[3] Sbr. viðaukann.

[4] Norðri VII; bls. 128, 1. d.

merkíngu, eða aldrei. »Sukk« þýðir hann líka glímu eða tusk og hefi eg aldrei heyrt það orð í svipaðri merkíngu. Annars er gjörður greinilegur munur á tuski og glímum, því tusk eru öll samtök[1] í góðu, sem ekki eru bundin neinum föstum reglum, og er þá tekið tökum eptir því sem bezt hentar, í hvert skipti. Aptur eru glímur og tusk, áflog og grágléttur þ. e. tusk þar sem gamanið er farið að grána, en þó ekki orðið verulega ilt úr, nefnd handalögmál einu nafni.

Bylta eða fall í glímu er öðru nafni nefnd skrokkskjóða, einkanlega ef fallið er mikið. B. H. hefir »skrokkskjóður« og þýðir »hann rak hann niður skrokkskjóð«, »Han kastede ham ned saa det knagede i ham.«

Í þættinum af Jökli Búasyni[2], er þess getið að Gnípa tröllkona hafi feingið »allmikla skjóðu« fyrir Jökli. Það er eflaust sama orðið og skrokkskjóða.

Glímuskjálpta er minnzt á í Þjóðsögum J. Árn.[3] og er það orð dregið af því að glímumenn eiga að hálftitra, líklega af spenníngi, áður en þeir leggja út í glímu og er ekki ómögulegt að það sé satt.

Bogi Melsteð segir mér að á Suðurlandi þýði »tágliminn« sama sem mjög glíminn, og man eg ekki eptir að eg hafi heyrt það orð á Norðurlandi. Þeir sem eru liðugir í fótunum í glímu, voru og eru víst ennþá kallaðir fótmjúkir, en hinir fótfúnir[4]. Um glímuhönd og glímuskelli er áður getið.

Annars þekki eg fremur fá orðtæki og málshætti, sem dregnir eru af glímum, og ekki nema þessa:

Hlífst við þann sem minna má,
menn jafnir bezt glíma (G. J.)

Leingi glíma líkir tveir. (Schev. II).
Nær tveir glíma, dettur gjarna sá minna má (G. J.)
Opt fær sá knésig, sem knárri er[5] (Schev. II.)
Opt kemur krókur á móti bragði[6] (G. J.)
Ragur er sá við rassinn glímir (G. J.)
Sá fellur opt sem fángið býður (J. Ól.)
Sá hefir fult í fángi, sem við fjandann glímir (G. J.)

---

[1] Sbr. að taka saman.
[2] Íslendínga sögur. II. Kmh. 1847; bls. 464.
[3] I. bls. 399.
[4] Thorlacius: Borealium veterum matrimonia; bls. 220—221.
[5] Opt fær sá sterkari knésig fyrir þeim veikari (G. J. og Schev. II.)
[6] Nú er opt sagt:

Einhvern tíma koma kann
krókur á móti bragði.

Stenzt boli bragð (G. J.)
Þegar tveir glíma, fellur sá sem minna má (Schev. I.)

Þá verður að minnast á bræðrabyltu og hnéskít. Það er kallað að bræðrabylta verði, þegar báðir glímumenn falla og hefir þá hvorugur unnið sigur. Hnéskítur er það aptur, þegar annarhvor glímumanna fellur á hné fyrir hinum, og hefi eg vanizt að sá þætti fara heldur halloka. Aptur hefi eg aldrei vitað hnéskít talinn jafnmikinn ósigur og verulegt fall, og því síður að það þætti meiri óvirða að falla á hné en að falla fullkomlega, eins og J. Árn. segir. Að koma einhverjum á kné þýðir, að minnsta kosti stundum, að fella einhvern fullkomlega[1] og er skrítið.

Loksins má geta þess að J. Ól. nefnir gífursglímu »þar öll brögð eru af öllum kröptum í frammi höfð.« Orð þetta heyrist víst valla um þessar mundir.

Glímur þær, sem nú hefir verið lýst um hríð, eru stundum kallaðar fastatök til aðgreiníngar frá lausatökum, sem líka eru kölluð axlatök. Að eins tveir taka þátt í þeim, eins og í fastatökunum. Þeir taka hvor í axlirnar á öðrum »eða treyubarma, vestisboðánga[2] eða hlýra[3]« og reyna svo til að fella hvor annan, með því að sveifla hvor öðrum til. Í lausatökum er mest komið undir kröptum, en þó kemur það sér líka vel, að vera mjúkur og liðugur, eins og eðlilegt er. Lítið er brugðið nema þá leggjarbragði og tábragði[4]. Lausatök eru miklu minni íþrótt en fastatök, enda sjást þau miklu sjaldnar, nema þá í stimpíngum eða áflogum, sem ekkert eiga skylt við glímur. J. Ól. lýsir lausatökum alveg eins og þau tíðkast enn í dag.

Hryggspenna er líka nokkurskonar glíma en eingri átt nær það, þegar J. Ól. telur hana til glímubragða, því tökin eru alt önnur. Hryggspennarnir[5] taka höndum saman, hvor utan um annan, vinstra handleggnum utan um hægri öxlina, eða hægra handlegginn ofanverðan, en hægra handleggnum undir vinstra handlegginn, á hinum, og mætast hendurnar þá á bakinu; herða þeir nú tökin og reyna til að brjóta hvor annan á bak aptur. Hryggspenna er mest komin undir afli, eins og lausatök og er lítið brugðið nema þá helzt hælkrók.

Ef annar spennir báðum handleggjum aptur um brjóstið á hinum, fyrir neðan báða handleggina á honum, þá er kallað að hann hafi bæði undirtökin og hefir hinn þá yfirtökin. Sá er ávalt viss um að bera

[1] T. d. Þjóðs. J. Árn. II; bls. 257.
[2] Eg hefi heyrt »boðúngur«.
[3] G. E.
[4] Sbr. Eggert Ólafsson: Reise igjennem Island; bls. 46.
[5] Sbr. glennir, t. d. Greipaglennir af »glenna«.

hærra hlut, sem hefir undirtökin, ef aflsmunur er ekki þeim mun meiri, og þykir það því ekki lögmæt hryggspenna, ef annarhvor hefir þau.

Það kemur öllum saman um að glímurnar séu góð list og göfug og þarf því ekki að brýna það fyrir mönnum, eða ætti ekki að þurfa, en þó get eg ekki stilt mig um að taka hér upp fáeinar línur úr ritgjörð séra Þorsteins Pálssonar, sem sjálfur var alvanur og ágætur glímumaður: »Glímurnar eru gagnleg og fögur íþrótt, því þær venja líkamann bæði til afls og þols, fimleika og snarræðis. Þær hressa og styrkja hugann og eru mesta yndi að sjá og reyna.«

**SUND.** Um fáar íþróttir er getið jafnvíða í fornsögunum og sundið, og er auðséð að það hefir þótt einhver hin ágætasta íþrótt. Það þarf ekki annað en að blaða í sögunum, til að detta niður á hvert dæmið öðru ljósara. Það segir t. d. í Eglu, að Skallagrímur hafi róið áttæríngi, lángt út á sjó, nótt eina, og kafað eptir stóreflisbjargi. Hann reri í land með steininn í áttæríngnum og lúði járn við hann síðan »ok munu nú ekki meira hefja fjórir menn[1].« Steinn þessi er til sýnis enn í dag og getur séra Þorkell Eyúlfsson hans þannig í lýsíngu Borgarsóknar á Mýrum 1873: »Reksteinn Skallagríms stendur í holti einu, spölkorn austur frá Rauðanessbæ. Að vísu virðist steinninn ofstór til þess að Skallagrímur hafi synt með hann upp af mararbotni í fánginu og lagt hann upp í áttærínginn, en bæði ber hann þess merki að hann sé brimbarinn og að á honum muni lúð hafa verið járn.« Um stærð steins þessa, og þyngd, er til allgreinileg skýrsla eptir Ólaf Snóksdalín, ættfræðínginn. Skýrsla þessi er nú í eigu Jóns Þorkelssonar, og er með hendi Ólafs sjálfs. Ólafur kallar steininn »Skallagríms rekstein í Raufarnesi« og segist hafa grafið hann upp og mælt hann haustið 1819, eptir tilhlutan séra Jóns Magnússonar á Ferjubakka. »Steinsins útvortis mál fannst að vera 9 álnir lángs, 6½ alin ummáls um miðjuna, 6 álnir ummáls til gildari enda, og knappar 5 álnir ummáls í þann mjórri, alt danskt mál.« Eptir þessum tölum komst Ólafur að þeirri niðurstöðu, að »steinkroppurinn« væri 264,438 ferhyrníngsþumlúngar. En nú vildi Ólafur líka fá að vita hve þúngur steinninn væri. Til þess hafði hann »tommustokk og vatn« og taldist honum svo til að steinninn væri hér um bil 29,100 pund[2]. Í skýrslu Olafs er færður til allur reikníngur hans, en honum er slept hér. Efamál er það hvort Ólafur hefir reiknað rétt þyngd steinsins og ferhyrníngsmál, en það liggur þó í augum uppi að hann er stærri en svo, að nokkur maður, af konu fæddur, hafi getað hafið

[1] Sagan af Agli Skallagrímssyni. Rkv. 1856; bls. 61.
[2] Sbr. Árbók hins íslenzka Fornleifafélags 1886; bls. 15.

hann upp af mararbotni. Hver veit nema fornfræðíngum takist að finna rekstein Skallagríms, einhvers staðar í grendinni við bjarg þetta.

Kunnað hefir Kjartan Ólafsson líka að fleyta sér. Ólafur konúngur Tryggvason var einginn skussi og var mjög líkt um þá Kjartan erþeir þreyttu sundið[1]. Allir þekkja söguna um Gretti þegar hann synti í land úr Drángey viku sjávar[2] og svona mætti tína til ótal dæmi, en þess þarf ekki. Þó vil eg sérstaklega geta þess er Helga kona Harðar Grímkelssonar synti til lands úr Geirshólma með son sinn. »Helga kastar sér til sunds, ok leggst til lands or hólminum um nóttina, ok flutti með sér Björn son sinn fjögra vetra gamlan, til Bláskeggsár, ok þá fór hon móti Grímkatl syni sínum viij vetra gömlum því at honum dapraðist sundit þá, ok flutti hann til lands; þat heitir nú Helgusund[3].« Það er auðséð á sögu þessari, að Helga hefir verið vel sundfær, enda segja fróðir menn að Helgusund sé ekki minna en 1½ ensk míla[4], og þegar þess er gætt að hún synti alla leiðina með stálpað barn og nokkuð af leiðinni þrívegis, þá liggur það í augum uppi, að hún hefi unnið eins mikið þrekvirki og Grettir, eða jafnvel meira. En það skiptir í tvö horn, því eg hefi hvergi rekið mig á annars staðar, að nokkur íslenzk kona hafi lært svo mikið sem að fleyta sér, hvorki að fornu né nýu, þegar húsfrú Björg Einarsdóttir á Undirfelli er skilin undan.

Þegar fram liðu stundir hnignaði sundinu eins og öðrum listum á Íslandi og er það þeim mun undarlegra og óskiljanlegra sem sundið er allra lista þarfast, ekki sízt á Íslandi, þar sem hvert vatnsfallið er við annað. Þó leið sundlistin ekki alveg undir lok hjá Íslendíngum, en hún varð svo sjaldgæf, að ef einhver kunni að synda, þá héldu annálaritarar því á lopt, eins og það væri eitthvert teikn eða stórmerki. Jón Egilsson drepur einstaka sinnum á sund í Biskupaannálum sínum. Hann segir t. d. að Árni biskup mildi († 1430) hafi lagzt yfir »á millum hamra í Skálholti á ferjustöðnum, með mann, og í annað sinn lagðist hann yfir í þeim stað og batt þá hest við fót sér«[5]. Jón getur um þrjá sundmenn aðra en Árna biskup, tvo á dögum Ögmundar biskups (1521—1542) en sá þriðji drukknaði af sundi 1574[6]. Allir voru þeir prestar og er því ekki fjarstætt að geta til þess að það hafi verið lærðu mönnunum að þakka að sundlistin gleymdist ekki alveg. Það er líka fært í frásögur að Hvanndala-Bjarni

[1] Laxdæla-Saga. Hafniæ. MDCCCXXVI; bls. 166—168.
[2] Grettis Saga. Kmh. 1853; bls. 169—171.
[3] Íslendinga sögur II. Kmh. 1847; bls. 107.
[4] Sigurður Vigfússon í Árbók hins íslenzka Fornleifafélags. Rkv. 1881; bls. 73.
[5] Safn til sögu Íslands. I; bls. 34.
[6] Sama heimild; bls. 80, 108.

hafi brugðið fyrir sig sundi, þegar þeir bræður fóru til Kolbeinseyar um 1580[1].

Til eru munnæli um það að Íslendíngar, og Írlendíngar sem voru við verzlun og fiskiveiðar á Íslandi, hafi þreytt sund og aðrar íþróttir, hjá Strákatánga við Reykjavík, í Steingrímsfirði vestur[2], og hlýtur það að hafa átt sér stað á 15. eða 16. öld, ef satt er. Samskonar kappsund getur Jón Espólín um[3], hvort sem það hefir verið þreytt við Strákatánga, eða annarsstaðar. Einar hét Vestfirðíngur einn og var uppi um 1570. Hann átti son, sem Páll hét. »Einar reyndi sund við eingelskan mann; syntu þeir í kríngum mörg eingelsk skip, og kembdu sér á meðan. með annari hendi. Hann stóð á höfði á stafnloki, á sexæríngi, meðan sex menn reru áfram. Einar varð á skiptapa, með son sinn og stjúpson; synti með þá báða, þar til sonur hans deyði. Stjúpsyni sínum kom hann heilum á land, en dó sjálfur í flæðarmálinu[4].«

Eg hefi ekki orðið svo frægur að reka mig á neinar bendíngar um sundið á Íslandi á 17. öld, en á 18. öld virðist heldur hafa lifnað yfir því. Séra Jón Steingrímsson getur þess í æfisögu sinni[5] að skólapiltar í Hólaskóla hafi lagt talsverða stund á sund um miðja öldina, en ekki var biskupnum meir en svo um það. Þar er þess líka getið að þeir hafi látið strauminn bera sig fram af 6 faðma háum fossum og er ótrúlegt[6]. Á öndverdri 18. öld var Tindala-Ími uppi, allra mesti bófi en syndur sem selur[7]. Um miðja öldina hafa þeir líka verið á bezta aldri séra Snorri Björnsson, sem optast er kendur við Húsafell († 1803) og Fjalla-Eyvindur. Þeir voru báðir mestu sundmenn og er þess víða getið[8]. Meðal annars er það fært í frásögur, að Snorri prestur hafi bjargað á sundi Hirti þjófi Indriðasyni úr Hvítá í Borgarfirði, sem ófær var af vexti og jökulhlaupi, og var Hjörtur þó stór maður vexti[9]. Þessir þrír menn hafa eflaust lært að synda á Íslandi, en aptur er það tekið fram um séra Sæmund Magnússon Hólm († 1821), að hann hafi lært að synda

---

[1] Þjóðs. J. Árn. II. bls. 126.

[2] Olavius: Oeconomisk Reise igjennem Island. Kmh. 1780; bls. 185.

[3] Ættartölubækur. Hrs. Bmfj. 11. 4to; bls. 2046.

[4] »Hefði hann verið búinn að kenna þeim báðum sína íþrótt, hefðu allir mátt afkomast« bætir Jón Espólín aptanvið.

[5] Hrs. Lbs. 182, 4to.

[6] Tekið eptir Fjallkonunni 1887, bls. 16.

[7] Espólíns Árbækur IX; bls. 11. Bls. 84 segir líka um Ima. »Hefir hann mjök orðlagðr verit um sundfarir, en þat kunnu fáir þá.« Sbr. X; bls. 23.

[8] Á sund séra Snorra er drepið í Ættartölubókum Espólíns, nr. 12; bls. 3523, í Árbókum hans X; bls. 36, XI; bls. 127 og Minnisverðum Tíðindum III; bls. 250. (Sbr. Raupkorn í viðaukanum), en um Eyvind er í Árb. XI. deild; bls. 75, Þjóðs. J. Árn. II; bls. 243 og þætti Eyvindar, 34. kap.

[9] Þáttur Fjalla-Eyvindar eptir Gísla Konráðsson, 41. kap.

erlendis[1]. Í þætti Sæmundar prests Hólms eptir Gísla Konráðsson er minnzt á sundfimi hans í 2. kap. en í 13. kap. er saga um það, er hann synti inn undir Höskuldsey á Breiðafirði, sem sagt var að stæði á fjórum steinstólpum, og sagði prestur síðan, að einn stólpinn væri hruninn, en annar tekinn að hallast, og svo eyan sjálf. Enn var Dr. Gísli Brynjúlfsson á Hólmum sundmaður mikill. Hann drukknaði af sundi 1827, eins og kunnugt er[2].

Þótt þessi lífsmörk sæust með sundlistinni, lá hún í raun réttri alveg í dái, enda segir Eggert Ólafsson, sem ferðaðist um mest alt Ísland 1752—1757 að Íslendíngar hafi alveg týnt niður sundinu[3]. Kríngum 1820 fer sundið aptur að rakna aptur úr rotinu fyrir alvöru. Snillíngurinn Jón Þorláksson Kjærnesteð lærði sund eins og annað þenna stutta tíma, sem hann var erlendis, og gjörði sér mjög mikið far um að kenna það út frá sér, þegar hann kom heim aptur. »Bæði 1821 og 1822 dvaldi hann um hríð í Skagafirði til að kenna þar 24 unglingum sund, en 8 á Eyafirði[4]. Urðu nokkrir í Skagafirði svo sundfærir að þeir syntu þar yfirum Héraðsvötnin. — — Sundskólann hafði hann í Skagafirði á Reykjatjörn í Tungusveit[5].« 1823 kendi Jón 21 pilti sund í Húnavatnssýslu[6], eg veit ekki hvar. Vorið 1824 kennir Jón yfir 30 únglíngum sund »nálægt Reykjavík,«[7] og »útskrifar« að minnsta kosti marga þeirra »sem fullnuma.«

Auðséð er að góður rómur hefir verið gjörður að sundkennslu Jóns, og má meðal annars sjá það af lofkvæði því, sem Klausturpósturinn flytur á eptir fyrstu sundskýrslunni. Það er líka vert að taka það fram, að Magnús Stephensen mælir mjög fram með sundkennslunni og sundlistinni, eins og var reyndar að búast við af öðrum eins framfaramanni[8].

Jón Kjærnesteð kendi þannig alt að 100 mönnum sund, og er ómögulegt að vita hve sundlistinni hefði fleygt fram undir forustu hans, ef hans

---

[1] Árb. Esp. XI; bls. 61. Klausturpósturinn IV; bls. 104. Sbr. Þjóðs. J. Árn. II; bls. 71. Auk bendinga þeirra um sundmenn sem getið hefir verið um úr þjóðsögunum, minnast þær á sund á þessum stöðum: I; bls. 83, 256, 535, 639, II; 111. — Satt að segja svarar þó varla kostnaði að fletta þeim upp.

[2] Sbr. Tíðavísur séra Jóns Hjaltalíns. Kmh 1836; bls. 142.

[3] Reise igjennem Island; bls. 740.

[4] Við Laugaland?

[5] Klausturpósturinn VI. 1823; bls. 64, sbr. bls. 116. Í Sóknarlýsingu Mælifellssóknar 1839, eptir séra Jón Konráðsson, segir að Jón hafi kent sund í Staðartjörn, eða Reykjatjörn, hjá Reykjum í Reykjasveit, í júní 1822. Skagfirðingar segja mér að Reykjasveit og Túngusveit sé sama sveitin

[6] Klausturpóst. VII. 1824; bls. 116.

[7] Klausturpóst. VII; bls. 100 Jón hefir eflaust kent sundið í Laugunum.

[8] Klausturpóst. þar sem til er vísað.

hefði notið leingi við. En hann dó 1837. Þá dofnaði að vísu yfir sundkennslunni, en bæði hafa margir lærisveinar hans eflaust haldið því við, sem þeir höfðu lært og sumir kendu jafnvel út frá sér.

Gestur Bjarnason er líka nafnkunnur fyrir sundlist sína og sundkennslu, þótt hann hafi, ef till vill, ekki kent eins mörgum og Jón Kjærnesteð. Þess er getið í sóknarlýsíngu Staðarsóknar í Hrútafirði 1848, að tveir eða þrír menn hafi lært hjá honum sund á Reykjum og hann hefir sjálfsagt kent sund víðar, þótt eg viti ekki til þess[1]. Annars má geta þess að ýmsar sögur gánga um það hve Gestur hafi verið góður sundmaður, enda var hann kallaður Sund-Gestur[2]. Eg hefi t. d. heyrt að hann hafi synt frá Reykjavík út í Eingey, heldur en Viðey, en eg veit ekki hvort það er satt. V. G. segir mér að sund hafi verið kent á Reykjum á Reykjabraut í Húnavatnssýslu til skamms tíma[3].

Um 1870 kenndi Ólafur í Hamarsgerði sund í laug hjá Barði í Fljótum, en áður kendi hann sund í Reykjasveit fram í Skagafirði.

Einhversstaðar hefir sund líka verið kent í Aðalreykjadal í Þíngeyarsýslu, því séra Jón Ýngvaldsson getur þess í lýsíngu Nessóknar í Aðalreykjadal 1840 að »stöku únglíngar hafi numið nokkuð í sundment af járnsmíðasveini einum norðlenzkum, er hið fyrra sumar kom sunnan úr Reykjavík og var vel sundfær.« Mér þykir líklegt, að hann hafi verið lærisveinn Gests

Eptir daga Jóns Kjærnesteðs er víða minnst á synda menn[4] en þó var sundið svo fátítt og hefir verið alt til þessa dags, að fæstir Íslendíngar hafa séð mann synda.

---

[1] Í lýsíngu Breiðabólstaðarsóknar í Vesturhópi 1839, er sagt að únglíngar læri þar sund á vorum. Þeir hafa ef til vill lært hjá Gesti.

[2] Gestur var ættaður úr Víðidal í Húnavatnssýslu en dó á Vatnsnesi norður 1862. Hann var kallaður Glímu-Gestur eða Sund Gestur af því hann kunni hvortveggja manna bezt og sund kendi hann á Reykjum, þángað til þremur dögum áður en hann dó. Norðanfari I; bls. 48. Sbr. bls. 52—53. Ættartölubækur Espólíns. Hrs. Bmfj. 13. 4to; bls. 4773.

[3] Þess er getið í Norðanfara III (1864); bls. 20, að piltur sem var að læra að synda í Reykjalaug á Reykjabraut, hafi drukknað í lauginni, þegar sundkennarinn var ekki við. Það hlýtur því að hafa verið kent sund þetta ár í Reykjalaug, en ekki veit eg hver kendi.

[4] Það er ekki til neins að telja þá upp sem sögur fara af að hafi verið syndir í seinni tíð, en eg skal þó færa til nokkra staði, þar sem getið er um sundmenn, ef einhver kynni að hafa gaman af að vita alt, sem skráð er um íslenzka sundlist: Tíðavísur séra Jóns Hjaltalíns: bls. 151, 154, 158. Klausturpóst. VII; bls 164. Þjóðólfur V; bls. 124.1-2, VI. 190.1. Norðanfari III; bls. 20, XII; 125. Fjölnir V, II; bls 11. Flestir þessir staðir eru skýrslur um drukknanir af sundi, en á tveimur stöðunum er aptur skýrt frá því er syndir menn björguðu öðrum úr vatnsföllum.

Í flestum sóknalýsíngum er það tekið skýrt fram, að einginn kunni sund í sókninni. Það eru í hæsta lagi 20 sóknalýsíngar af þessum 150, eða hvað það nú er, sem Bókmentafélaginu hafa borizt, sem geta þess, að sund sé tíðkað þar um slóðir og í meir en helmíngnum af þessum 20, er það tekið fram, að aðeins örfáir, 1 eða 2 sóknarmanna séu syndir. Sumum prestunum þykir jafnvel sundið slíkt »rarítet«, að þeir fara að dæmi annálaritaranna og nefna sundmanninn. Þannig er það tekið fram í sóknalýsíngu Helgafells og Bjarnarhafnarsókna, að Árni Thorlacius kunni að synda og séra Sigurður Jónsson getur þess í lýsíngu Staðastaðarsóknar, að prófastur P. Petersen[1] hafi lært sund í úngdæmi sínu.

Páll Melsteð skólakennari hefir sagt mér, að talsvert hafi verið feingizt við sundment í Bessastaðaskóla[2] og segir gjör af því í pistli Páls, sem bráðum skal koma, en hér vil eg þó færa til eina sundsögu þaðan, eptir sögn Páls. Sumarið 1829 voru þrír piltar á Bessastöðum, Konráð Gíslason (seinna prófessor), Páll og Þorsteinn Jónsson (seinna kaupmaður í Rvík.) Þeir komu sér saman um að fara í sjó alt sumarið, hvernig sem viðraði, þángað til piltar kæmu um haustið og lá ríkissort heilt[3] við, ef út af var brugðið, ef veikindi hömluðu ekki. Það kom einu sinni fyrir Pál, en aldrei fyrir þá, enda var hann þeirra yngstur og óharðnaðastur, á 17. ári. Þeir félagar héldu þessu áfram fram um veturnætur og má nærri geta að opt hafi verið hart aðgaungu í svipinn að fara í sjó um haustið, en aptur er mjög líklegt að það sé sundförum þessum að þakka, að minnsta kosti meðfram, að þeir eldast betur en flestir aðrir Páll og Konráð.

Mér þykir líklegt að sund þeirra félaga standi í sambandi við sundpésann, sem útgefendur Fjölnis gáfu út 1836, því Konráð átti mikinn þátt í Fjölni, eins og allir vita. Pési þessi heitir: »Sundreglur Prófessors Nachtegalls auknar og lagaðar eptir Íslanns þörfum af útgjefendum Fjölnis« (Kmh. 1836. 12. XII + 58 bls), og er sú eina leiðbeiníng til að læra sund sem til er á íslenzku máli[4]. Jónas Hallgrímsson þýddi pésann og lagaði

[1] Biskupinn. Jón Espólín getur þess í Ættartölubókum nr. 9; bls. 277, að Pétur biskup Pétursson og þeir bræður hafi lært sund hjá Jóni Kjærnested.

[2] Ekki hefir vantað tillögur um það að sund væri kent í Reykjavíkurskóla, en aldrei hefir orðið af því og skólapiltar í Reykjavík hafa ekki haft þann mannskap að temja sér sund af sjálfsdáðum, eins og Bessastaðapiltar og Hólapiltar. Það virðist þó einginn efi vera á því, að sundið er miklum mun gagnlegra en byssufiktið í skólanum, eins og B. L. Blöndal segir (Ísafold XII: nr. 44, 53) og að minnsta kosti eins góð hreifíng. Tillögur um að kenna sund í latínuskólanum og öðrum skólum eru líka í Norðanfara XIV; bls. 67 og XV: bls. 58.

[3] 38 skildíngar og ½ eða liðugir 75 aurar.

[4] Því eg tel ekki lýsíngu á sundtökunum í Töfralist eða eðlilegur galdur. Akureyri. 1857; bls. 58 61 og því síður í Hrs. Bmfj. 452. 8to. Á seinni staðnum er lýsíngin aðeins eitt blað og ekkert a að græða.

og er hann meistaralega saminn, eins og alt, sem Jónas samdi á óbundnu máli. Í formálanum brýnir hann fyrir Íslendíngum hve hraparlegt það sé, að þeir skuli alveg slá slöku við sundið og færi eg hér til svolítinn kafla úr honum: »Það er varla ofhermt, að firir 14 eða 15 árum hafi ekki verið fleiri enn so sem 6 menn á öllu landinu sem væru sjálfbjarga ef þeir lentu í polli sem þeir náðu ekki niðr'í. Þá höfðu menn so gjörsamlega gleímt öllu sundi, að ofurhugar báru grjót á sig og skriðu so í botninum yfir ár og síki sem ekki voru of breíð[1], enn eínginn maður bar við að neíta ljettleíkans og fara samkvæmt eðli ofanvatns, þó það væri þúsund sinnum hægra«. Því næst er Jóns Kjærnesteðs getið að góðu og tilrauna hans til að vekja sundlistina á Íslandi úr dái. Það er ekki ástæða til að tala hér um sundreglurnar sjálfar og er nóg að taka fram að þær eru mjög ljósar og lipurlega samdar.

Sjálfsagt hefir sundpésinn haft talsverð áhrif og hvatt únglínga til að læra sund hjá Gesti og ef til vill fleirum sundkennurum, en þessi sundkennsla virðist þó hafa verið mjög stopul, þángað til Jónas Jónsson fór að kenna sund við Syðra-Laugaland í Eyafirði. 1873 er sundstæðið gjört úr garði og hagar svo til að veita má laugarlæk í það. Jónas sundkennari eða Sigluvíkur-Jónas kendi sundið og má eg segja að hann hafði lært það hjá Gesti. 1874 var bygt svolítið hús við sundpollinn, til að klæða sig í og afklæða. 12 piltar voru við sundkennsluna. Að lokum var haldið nokkurs konar próf og gátu þeir, sem höfðu æft sig við sundið allan kennslutímann, 14. maí. — 7. júní, synt fjórðúng úr klukkutíma viðstöðulaust[2]. 1875 voru 9 nýsveinar og próf að lokum[3]. Ekki hefi eg rekið mig á skýrslur um sundið 1876 og 1877, en auglýsíngar eru um það í Norðanfara[4] og Norðlíngi[5] bæði árin og hefir það því sjálfsagt verið kent þau árin líka. 1878 og 1879 er ekki kent sund á Laugalandi og hefir líklega einginn kært sig um að læra það þá. Eg veit samt ekki. 1880 læra 14 piltar sund hjá Jónasi við Laugaland[6]. 1881 komu ekki nema 5 piltar til sundsins[7] og

---

[1] Það eru dæmi til þessa undarlega athæfis enn í dag. Eg hefi heyrt getið um eina þrjá eða fjóra menn sem skriðu í botninum yfir ár og vötn, en kunnu ekki að fleyta sér. Á sokkabandsárum mínum var maður nokkur í Fljótum í Skagafirði, sem Jakob hét. og var venjulega kallaður Myllukobbi. Hann lifir líklega enn í dag. Það var að minnsta kosti fullyrt að hann skriði stundum í botninum yfir vatnsföll.

[2] Norðanfari XIII; nr. 11—12, bls. 74.

[3] Norðanf. XIV; bls. 79. Sbr. bls. 34, 41.

[4] XV; bls. 20 og XVI; bls. 52, 68.

[5] I; bls. 170. Sbr. bls. 226 og II; bls. 194.

[6] Norðanfari XX; bls. 6. Sbr. XIX; nr. 28 og XX; bls. 76.

[7] Norðanf. XXI; bls. 18. Sbr. Fróði, nr. 44; bls. 172.

síðan ekki söguna meir. Nú kom upp þref[1] um sundið milli Jónasar sundkennara og Jóns Ólafssonar sem áður var á Rifkelsstöðum, en hann hafði verið einn af helztu hvatamönnum sundsins. Sundhúsið var rifið og sundpollurinn skemdur, og hamíngjan má vita hvort nokkurn tíma verður kent framar sund við Laugaland. Jónas sundkennari kendi yfir 50 piltum sund[2] og er það mjög góðra gjalda vert. Hann samdi líka margar greinar í Norðanfara og hvatti þar únglínga til að læra sundið, því við flestar af sundskýrslum þeim, sem getið hefir verið um, hnýtti hann slíkar áskoranir. Og þótt þessar greinar Jónasar væru ekki sem áheyrilegast samdar, þá hafa þær þó eflaust vakið áhuga margra únglínga til að læra sund[3].

Sundkennslan við Laugaland varð að vísu ekki eilíf, en því sem næst, þegar gætt er að því hve félög og ýms samtök eru vön að standa leingi í Eyafirði. Eitt af þessum félögum eða félaganefnum snertir dálítið sund, svo eg verð að minnast á það. Hörgdælir stofnuðu jarðabótarfélag, sumardaginn fyrsta 1863. Eggert Gunnarsson var potturinn og pannan. »Hann stakk uppá því að félagsmenn skyldu og gánga í félag til að æfa sig í glímum, sundi og skotfimi og stofna sjóð til að styrkja þá sem lærðu sund.« Ellefu dölum var skotið saman í því skyni[4]. Hart var nú af stað riðið, en hvernig fór? 1865 er getið um einhverjar jarðabætur eptir félagið en ekki minnzt með einu orði á íþróttirnar. Eptir það hefi eg hvorki heyrt né séð getið um félagið og tel sjálfsagt, að það hafi lognast út af, eins og Eiríkur frá Brúnum myndi að orði kveða.

Um sama leyti og Jónas fór að kenna sundið við Laugaland nyrðra, var sund líka kent eitthvað svolítið í Reykjavík. Íngimundur Íngimundarson og Benedikt Pálsson auglýsa það í Tímanum[5] að þeir ætli að kenna sund í Laugunum vorið 1873. Litlar sögur fara af sundkennslu þessari, en þó hefir orðið úr henni, því næsta sumar auglýsir Benedikt Pálsson[6] að hann ætli að halda áfram að kenna sundið. Eptir það hefi eg eingar sögur af þessari sundkennslu.

Nú er eg kominn að því atriði, sem eg vona að verði mjög þýðingarmikið í sögu sundlistarinnar á Íslandi, en það er sundkennslan í laugunum við Reykjavík og stofnum sundfélagsins í Reykjavík. Eg slæ þessum fyrirtækjum saman, því þau standa í mjög nánu sambandi, enda sér sundfélagið nú um sundkennsluna. Vorið 1884 kennir Björn Lúðvíksson Blöndal

---

[1] Í Norðanf. XXI; bls. 46—47 er svar eptir Jónas sundkennara móti grein, sem þar er sagt að sé í Fróða III 54, en eg get einga sundgrein fundið eptir þeirri tilvísun.
[2] Norðanf. XXI; bls. 18.
[3] Nú (1888) er Jónas sundkennari kominn til Vesturheims fyrir nokkrum árum.
[4] Norðanfari II; bls. 65 og IV; nr. 9.
[5] II; bls. 48.
[6] Tíminn III; bls. 48.

sund í laugunum skamt frá Reykjavík og lætur nokkra af lærisveinum sínum »sýna bæjarmönnum íþrótt sína á Reykjavíkurhöfn við bryggjurnar«[1], og var það vel til fallið, því alt af er þó myndarlegast að synda í sjónum, þar sem kostur er á því.

1. október 1884 er stofnað sundfélag í Reykjavík »í því skyni að halda uppi stöðugri sundkennslu í laugunum hjá Lauganesi og styðja og efla sundkunnáttu hjá Íslendíngum eptir megni[2]«. 100 manns geingu í félagið á fundinum, en 31. janúar 1885 eru félagsmenn 112. Sumarið 1885 er sund kent um þriggja mánaða tíma til 6. október og tóku um 50 manns þátt í því. Bæarstjórn Reykjavíkur veitti dreingjum þeim, 10 ára að aldri eða eldri, sem höfðu notið kauplausrar kennslu í barnaskólanum, veturinn 1884—85, ókeypis kennslu í sundi þetta sumar og væri æskilegt að því væri haldið áfram, því allir hafa gott af að læra að synda háir og lágir, ríkir og fátækir. 6. janúar 1886 voru félagsmenn orðnir alt að 200 og er furða hve þeim hefir fjölgað fljótt. 1886 er baðhús eða sundhús bygt við laugarnar og reglur samdar fyrir notkun þess[3]. Ýmislegt fleira hefir félagið haft fyrir stafni, en ekki er þörf á að tína það hér til[4].

Leingra er ekki mögulegt[5] að þræða sögu félagsins. Það hefi byrjað vel og er æskilegt að það haldi eins vel áfram. Reyndar er viðbúið að dauði sundkennarans, Bjarnar Blöndals († 1887) kippi úr framkvæmdum félagsins í bráð. en það ætti að vera vinnandi vegur að fá annan sundkennara í staðinn, þótt hann væri þá ekki eins mikill sundmaður og Björn heitinn hafði verið.

Það hlýtur að gleðja alla þá, sem unna kallmannlegum íþróttum, að sundið er komið í svona gott horf á Íslandi og eiga þeir miklar þakkir skilið, sem hafa geingið bezt fram að vekja áhuga manna á því. Í flestum leikahvötum þeim, sem getið er um í inngánginum, er almenníngur líka hvattur til að læra sund. Áskorana Jónasar sundkennara er getið hér að framan. Annars hefir Ísafold gjört sér mest far um að mæla fram með sundinu, og skal eg sérstaklega taka fram hina snildarlegu grein í XII. árg. nr. 26[6]. Hún er eflaust eptir ritstjórann sjálfan. Hin blöðin hafa öll

---

[1] Ísafold XI; nr. 30. Sbr. nr. 6. og Suðri II; bls. 77.

[2] Sbr. Sundfélag Reykjavíkur. Ísafoldar-prentsmiðja. 1884. 2 blöð. 4to. Það er áskorun um að gánga í félagið, og lög þess.

[3] Ísaf. XI; nr. 40. XII; nr. 6, 30, 44, 53. XIII; nr. 2, 22.

[4] Sbr. Ísaf. XII; bls. 8, 216. XIII; bls. 72.

[5] Eitthvað kann reyndar að hafa gjörst í sundfélagi Reykvíkinga, síðan Bjarnar heitins Blöndals misti við, en mér er það ekki kunnugt. Eg man ekki eptir að eg hafi séð nokkuð um það í blöðunum síðan.

[6] Samskonar grein er í XI, nr. 30 og svo er víða sýnt fram á það sama í greinum þeim, sem vísað hefir verið til.

tekið í sama streinginn[1] og einginn hefur ritað aukatekið orð á móti sundinu, enda veit eg ekki hvernig ætti að fara að því.

Páll skólakennari Melsteð hefir gefið mér ágætar bendíngar um sögu sundsins ekki síður en glímnanna og tek eg upp orðréttan kafla hans um það. »Sund heyrða eg fyrst nefnt austur í Múlasýslum og var sagt að Eydalabræður væru syndir, en einginn talaði um að læra það. Þeir Eydalabræður, synir séra Brynjúlfs Gíslasonar voru: Snorri, Gísli (Dr. phil.), Sæmundur, Jón, Sigurður, allir mestu frækleikamenn og til merkis um það er að Sæmundur stökk yfir ellefu álna breiðar traðir á Bessastöðum[2]. Jón hlóp af turnveggjum Bessastaðakirkju, áður en hlaðið var ofan á þá (1822—23) og út fyrir sáluhliðsgrindur og er það voðahlaup. Sigurður synti eptir bát, er rak undan landi í hvössu norðanveðri á vordegi og reri honum á tvær árar til lands. Það var úti í Breiðdalseyum. Snorra vantaði í staupinu. Hann hljóp út í Breiðdalsá bráðófæra og synti yfir — það var brennivín til hinum meginn árinnar. Flestir eða allir kunnu þeir bræður handahlaup. Eg sá þau til Dr. Gísla og var hann fljótari á þeim en eg að hlaupa. Þá mun eg hafa verið nálægt því 12 vetra.

Eg heyrði þar eystra getið um Jón Kjærnesteð og sundkennslu hans, en slíku var þá einginn gaumur gefinn í Múlasýslum. Það þótti fremd að vera sterkur, en til íþrótta var þá alls eigi hugsað. Þegar eg kom híngað suður (1828) heyrði eg talað um sund, einkum í skólanum og fyrsta vorið mitt í skóla (1829) komst eg að raun um að hér var meira en talið tómt. Einn hlýan dag geingu margir piltar ofan að tjörninni, fyrir sunnan Bessastaðatún. Þar nær túngarðurinn til sjávar. Þar afklæddu þeir sig og út í vatnið; Sumir syntu lángt út á tjörn, en sumir voru að gutla uppi í landsteinum. Magnús Hákonarson[3] var lángmestur sundmaður af mínum skólabræðrum. Honum líkir voru þeir sagðir Teitur Finnbogason[4], Helgi prentari Helgason[5] og Gestur Bjarnason, enda munu þeir allir hafa lært hjá Jóni Kjærnesteð[6]. Magnús kom eitt sinn að vestan, ríðandi, að Hvítá

[1] Þjóðólfur XXVIII; bls. 25. Suðri II; nr. 21. Fjallkonan I; nr. 2.

[2] Sbr. það sem segir um þá bræður, þar sem minnst er á hlaup og stökk.

[3] Prestur, seinast á Stað í Steingrímsfirði.

[4] Dýralæknir, dó í Rkv. fyrir fáum árum.

[5] † 1862.

[6] Séra Magnús Hákonarson minnist þannig á sundfarir þeirra Helga í erfiljóðum þeim sem hann orti eptir hann (Þjóðólfur XIV; bls. 158):

Minnumst eg fóstbróðir
að marga stund
saman þreyttum
á salti og láði,

man eg fjör þitt
og fylgi að störfum,
man eg sátt okkra,
er að sundi lékum.

og ætlaði á Þíngnesferju, en einginn kom ferjumaðurinn. Magnús var í kavaju með mörgum krögum, í stígvélum með stromphatt á höfði og reiddi dúnpund bundið í klút í annari hendi. Svona ætlar hann að sundríða Hvítá, en klárinn steypist á höfuðið og Magnús af honum. Þannig synti hann austur yfir svona búinn, sem eg sagði, með hattinn á höfði og haldandi dúnpundinu ofanvatns, með annari hendi. Það hefir verið skrítin sjón þar á ánni: Magnús með dúninn og selshausarnir kríngum hann. Teitur synti hér fram á skipalegu og sótti poka með dóti í ofan á sjávarbotn. Einhver sveitabóndi hafði mist hann þar útbyrðis.

Einhverju sinni syntu þeir Teitur og Gestur hér út á höfn[1], um nótt, í blíðviðri og komu að spánversku skipi, er þar lá fyrir akkerum. Vökumenn á skipinu héldu þetta vera þjófa, tóku byssu og létu sem þeir myndu skjóta. Báðir stúngu sér. Gestur synti til lands, en Teitur stefnir út á Efferseyargranda. Spánverjar elta hann á báti, en Teitur kemst upp á grandann og syndir svo þaðan út með landi og upp á það hjá Ánanaustum, en Spánverjar töfðust við grandann og misstu hans þannig.

Kristófer bróðir Teits (lifir enn[2] það eg veit) skaut á sel uppi í landsteinum, mig minnir það væri á Akranesi. Selurinn misti sjón á báðum augum og leitaði til hafs. Kristófer náði í hreifana og vildi draga hann til lands, en kobbi varð sterkari og dró Kristófer út á djúpið, gekk svo um stund þángað til selurinn sneri til lands og gekk Kristófer þar af honum dauðum. Kristófer var vel syndur. Svo var og séra Jakob í Steinnesi bróðir þeirra Teits.

Ekki er mér kunnugt um hvenær sundið hefir fyrst flutzt að Bessastöðum, en kunni Snorri Brynjúlfsson (seinna prestur á Eydölum eystra) að synda, þegar hann kom í skóla — ekki man eg nú betur — þó getur verið að Snorri hafi lært sund af Árna Geirssyni biskups. Árni var sagður afbragðs sundmaður[3]. Hvar hann hefir lært veit eg eigi. Hann hafði synt frá Lambastöðum fram undir skerin á Skerjafirði. Bjarni Thorarensen (amtmaður) og Björn Gunnlögsson (skólakennari) voru góðir sundmenn. Eg heyrði Björn segja: »eg gæti verið að synda allan daginn, ef kuldinn bagaði ekki, því eg get hvílt mig þegar eg vil.«

Á mínum skólaárum kunni meir en helmíngur pilta að synda, það kendi hver öðrum. Það var með sundið eins og glímurnar. Opt var farið í sjó á Bessastöðum, þótt veður væri ekki sem ákjósanlegast. Einu sinni

---

[1] Þ. e. Reykjavíkurhöfn.

[2] 1887.

[3] Jón Espólín segir að Árni hefi verið »syndr svo vel, at hann sókti sel í sjó fram, er skotinn var ok sokkinn, ok dró hann af botni, ok í land med sér.« Árb. XII; bls. 142.

fórum við Þorsteinn Jónsson út í sjó í sjóbúðinni, sem svo er kölluð. Þá var logn en frost og tólgaði fjöruna, þegar út féll og hjómaði sjóinn. Það var snemma morguns. Við vorum allsberir, eins og vant var. Sjórinn var ekki kaldur niðrí, en sárkaldur þar sem mættist lopt og lögur. Ekki varð mér meint við þetta. En einu sinni fóru þrír skólapiltar um vetur í norðanveðri suður á tjörn. Ís var á tjörninni mestallri, en állinn var auður. Þar syntu þeir í vökinni allsberir eins og sjófuglar. Það þorði eg ekki. Mig minnir þessir þrír væru Benedikt Eiríksson í Guttormshaga, Halldór Jónsson í Tröllatúngu og Konráð Gíslason. Þeir eru allir á lífi enn í dag[1]. Þetta sýnir hvað menn geta gjört sig harða, ef hug og menníng vantar ekki.

Ekki hefi eg heyrt að Gestur eða aðrir hafi synt út í Eingey eða Viðey, en vera má það fyrir því. Einu sinni var Gestur á fiskiskútu úti á hafi. Þá synti hann yfir að öðru skipi, er lá í logni, skamt þar frá, og flutti bréf í hatti sínum. Það þótti mikið ámæði, því »margt er ílt í sæ.»

Árni Thorlacius í Stykkishólmi held eg hafi verið mestur sundmaður hér á landi á síðari öldum. Hann lærði ytra, bar þar af öllum og fékk — minnir mig — verðlaun, eptir sundpróf.

Þekt hefi eg fjóra góða sundmennn íslenzka, er allir druknuðu: Dr. Gísli Brynjúlfsson († 1827), séra Gísli Jónsson í Kálfhaga († 1853), Steindór Stefánsson skólapiltur († 1844) og Björn sundkennari Blöndal († 1887). Þessir fórust allir af slysum. Dr. Gísli fór frá heitum mat útí kaldan sjó — það voru hafísjakar á firðinum — og fékk krampa. Séra Gísli ætlaði að bjarga mönnum á bát, er undir hvolfdi á Ölvesá, en kunni ekki að bjarga, þótt hann kynni að synda; má og vera að jökulvatnið í Ölvesá hafi drepið hann. Eg veit af sjálfs reynslu hversu aðgæzluvert er að synda í jökulvatni. Steindór var marga tíma að stumra yfir félaga sínum hálfdauðum á kjölnum, og dó af kulda, en hafði bundið sig fastan, þegar hann fann að dauðinn fór á hann. Björn Blöndal hefir annaðhvort rotast af bátnum, eða feingið sinadrátt, sem hann átti vanda til. En ekki er það rétt að lasta sundkunnáttu fyrir það, þótt þessir menn færu svona.»

Annars er lítið að segja um sund á Íslandi. Íslendíngar þeir, sem kunna að synda, synda alveg eins og allar aðrar siðaðar þjóðir, bæði á brjósti og baki (bríngusund, brjóstsund, grúfusund, baksund) bæði á lángsundi og kafsundi[2]).

Þegar við vorum að læra sund um vorið hjá Jónasi sundkennara, sýndi hann okkur einu sinni hverninn fornmenn hefðu synt. Sundtökin voru

---

[1] 1887.

[2] Að dubla þýðir líka að dýfa sér, eptir því sem B. H. segir, sbr. að dúfla hjá Fritzner.

talsvert öðruvísi en nú er vant, einkum með fótunum. Eg hefi því miður alveg gleymt hverju munaði, enda er mjög efasamt að sundaðferð fornmanna sé enn við lýði, þótt hún hafi ef til vill verið frábrugðin því sem nú tíðkast.

Eg þekki heldur ekki neinar sundlistir eða listir á sundi sem eru einkennilegar fyrir Íslendínga. Þó má minnast á að troða marvaða. »Að troða marvaðann er að hreyfa fæturna mjög hratt, en þeir eru niður í vatninu upp að hnjám. Jafnframt á sundmanninum að miða dálítið áfram«[1]. Ef marvaði er á þessa leið og mögulegur eptir þessari lýsíngu, þá er einginn efi á því að hann er íslenzk list. En eg er hræddur um að hann sé ekki allra meðfæri og jafnvel ekki góðra sundmanna. Ennþá fjarstæðari er marvaðinn sem Stígandi er látinn troða,[2] því sjórinn tók honum ekki nema í skóvörp. Svipaða hugmynd hefir Ólafur gamli haft um marvaðann. Hann segir að þeir, sem kunni að troða hann, geti geingið á sjónum eins og á þurru landi; »heyrst hefir þeir skyldu brúka þartil tálkn, og á rista, og undir sínum fótum hafa, þar með eina leingju um sig binda af húð hvalfisks eins«[3]. J. Ól. segir í rúna fræði sinni (Hrs. A. M. A. 413. fol.; bls. 128) að hjálparhríngir Ólafs konúngs veiti gott lið við marvaðatroðníngu, en þeir eru nokkurs konar galdrastafir.

Júngfrúrsund (jómfrúrsund), ef sund skyldi kalla, þekki eg ekki í útlöndum. Sundmaðurinn liggur á bakinu eins og á venjulegu baksundi, kreppir fæturna inn undir sig og glennir út hnén. Því næst tifar hann fótunum út frá sér og dregur þá aptur inn undir sig a víxl. Ekki er júngfrúrsund neitt hraðsund, en þó skilar sundmanninum svo lítið áfram. Aptur er ágætt að hvíla sig á júngfrúrsundi, því það er alveg áreynslulaust.

Loksins má geta um hundasund, því það er þjóðlegt sund eptir því sem eg kemst næst. Sundmaðurinn liggur skáhallur í vatninu og krafsar svo fram fyrir sig, bæði með höndum og fótum. Bezt er að halda fíngrunum saman og beygja þá dálítið, en þó er það ekki óhjákvæmilegt. Aptur verður sundmaðurinn að vera samtaka með höndum og fótum. Ekki vil eg mæla fram með hundasundi, því það er allra sunda erviðast og ekki eins fallegt og hin, en þó er óneitanlega betra að kunna hundasund en ekkert sund, og ekki er sá alveg af baki dottinn sem dettur í vatn, ef hann kann það.

Handtök þau, sem getið er um að Leirulækjar-Fúsi hafi náð, þegar hann átti við Sigurð Dalaskáld dauðan[4], eru eflaust ekkert annað en handtök við venjulegt sund.

---

[1] J. Ól. undir marvaði.
[2] Sagan af Sigurgarði frækna. Rkv. 1884; bls. 18 og víðar.
[3] Formáli fyrir Þjóðs. J. Árn. I; bls. XXI.
[4] Þjóðs. J. Árn. I; bls. 535.

Að endíngu skal eg geta þess að eg hefi rekið mig á tvo málshætti um sund. Hægt er[1] að synda þá annar heldur höfði upp[2] (Schev. I), og þeim lærist bezt að synda, sem liggur við drukknun (G. J.). Það er lángt frá mér að óska þess, að sem flestum Íslendíngum liggi við drukknun, en þess vil eg óska, að sem flestum Íslendíngum, köllum og konum, lærist að synda.

**SKÍÐAFERÐ.** Skíðaferðin er bæði þörf íþrótt og einhver hin helzta skemtun únglínga, þar sem skíði eru annars höfð við, en það er einkum á útkjálkunum á Norðurlandi, því að þar er fannfergið mest og þessvegna mest þörf á skíðum. Annars eru skíði höfð meira eða minna við á öllu Norður- og Austurlandi og jafnvel á einstaka stað annars staðar á landinu, þótt minna beri á því. Í Tímanum er þess getið[3], að skíðaferðir virðist vera með öllu undir lok liðnar í Suður- og Vestur-fjórðúngi landsins, en þær hafa aldrei verið hafðar þar um hönd að marki.

Öllum mun vera ljóst, hvernig skíði eru í hátt, og þarf því ekki að lýsa þeim, enda kemur ekki sjónin til, en hitt er víst að fáir hlutir eru jafnóhjákvæmilegir í snjósveitum og skíðin, enda læra allir þar á skíðum, sem þurfa að vera eitthvað úti við. Kvennfólkið geingur á skíðum í fjósið til að mjólka kýrnar, hvað þá heldur fjármenn o. s. frv.

Aptur eru únglíngar öllum stundum á skíðum sér til skemtunar, þegar veður leyfir, og sælast einkum eptir því að renna sér ofan brekkur, annaðhvort með staf eða staflaust, sem er reyndar vandameira, en aptur meira í munni. Það er að vísu ervitt að pota upp brekkurnar en það borgar sig, þegar maður brunar ofan á fleygiferð[4].

Talsvert munu skíði hafa verið höfð við í fornöld, þótt sjaldan sé getið um þau í íslenzkum sögum, en aptur er allvíða talað um þau í Noregi[5], og lætur því að líkindum að landnáms menn hafi flutt þau með sér til Íslands. Svo hefir skíðaferðin alveg lagzt niður, eða því sem næst, því þar sem eg hefi fyrst rekið mig á frásagnir um skíði, í seinni tíð, segir að þau séu mjög sjaldgæf og valla höfð við nema í Fnjóskadal í

---

[1] Það er hægt G. J.

[2] Upp höfðinu G. J.

[3] I; bls. 20 (1872).

[4] Þó vill það til að menn slasa sig af skíðum sbr. Fróði nr. 32; 22—23. d. Norðanfari IV; bls. 6, 3. d., bls. 30, 3. d. XX; bls. 27, 3. d. Norðlingur V; bls. 116, 1 d.

[5] Svo segir t. d. í Konúngsskuggsjá Chria. 1848; bls. 20. »En þat mun þykkja meiri undr[a], er svá er í frá sagt um þá menn, er þat kunnu, at temja tré eða fjalir til þess at sá maðr, er hann er eigi fimari á fæti en menn aðrir, meðan hann hefir ekki annat á fótum en skúa sína eða elligar bera fætr sína, en jafnskjótt

[a] Ex Indialandsundur,

Norðursýslu[1]. Aptur sé altítt að gánga á þrúgum[2]. Nú var það mjög sennilegt að skíði væru bráðnauðsynleg þar sem er eins snjóasamt og á Íslandi og því lét konúngur boð út gánga, að ef stiptamtmaður og amtmaður héldu að skíðaferðir væru gagnlegar á Íslandi, þá skyldu þeir heita Buch, undirassistent á Húsavík, sem stjórninni var kunnugt um að kynni á skíðum, verðlaunum fyrir þá 3 Íslendínga sem hann kendi listina fyrst. Þeir mættu líka eiga von á verðlaunum, ef þeir kendu út frá sér[3].

Nú fór Buch að kenna, enda er honum eignað það að skíðagánga breiddist út um Þíngeyarsýslu[4]. 1786 fær Buch 8 rbd.[5] verðlaun fyrir skíðaferð »og at hafa í margann máta framit ok upphvatt skíðaferðir« og sömuleiðis Gunnar bóndi Þorsteinsson á Mýlaugsstöðum í Suður-Þíngeyarsýslu »fyri fimleika hans á skíðahlaupum, og fyri þat hann kénnt hefir 2 drengjum kunzt þessa.« »Loksins er hverjum þeim í Vaðlaþíngi allramilldilegaz launum heitit, í næztu 3 eða 4 ár, sem sannat gétr, at hann hafi lagt sig eptir skíðahlaupum, ok lært þau til gagns ok fullkomnunar«[6].

Nú breiddist skíðalistin út frá Þíngeyarsýslu, en þó fremur dræmt. 1808 voru að eins skíði í Ólafsfirði, sem er einhver mesta snjókista á land-

---

sem hann bindr fjalar undir fætr sér, annat tveggja sjau álna langar eða átta[a] þá sigrar hann fugla at flaug eða mjóhunda at rás, þá sem mest megu hlaupa; eða hrein er hleypr hálfu meira en hjörtr«. Þetta minnir mig á söguna um kallinn, sem sagði ávalt er honum þótti eitthvað fjarskafljótt, að það væri eins og fuglinn fljúgandi á skíðum.

[1] Svo var Þíngeyarsýsla kölluð á dönsku, í gamla daga.

[2] Tilgift som videre Efterretning og Notice om Island, eptir Jón Þorkelsson, sem er prentað með dönsku þýðíngunni á riti Andersons um Ísland Kmh. 1748; bls. 306. Sbr. líka Ferðab. Eggerts Ólafssonar; bls. 740. Jón Espólín segir að Eggert sjálfur hafi verið »skíðfær mjök vel« (Árb. X; bls. 18) og hefði hann ekki tekið það fram ef það hefði ekki verið sjaldgæft. Í Æfisögu Eggerts (Æfe Eggerts Olafs Sonar Hrappsey 1784; bls. 13) segir svo frá skíðaferð hans: »Hann fór hradara á Øndrum enn nockr Madr mætte fylgia honum á Hlaupe.« Eggert drukknaði 1768 eins og kunnugt er og er því ekki gott að vita hvar hann hefir lært á skíðum, því Buch fór ekki að kenna skíðagaungu fyr en laungu seinna.

[3] Jón Eiríksson: Formáli fyrir ferðabók Ólavíusar; bls. CLII—CLIII.

[4] »Ei eru enn utan rúm 50 ár síðan þessi allþarfa íþrótt upptókst og út breiddist hér um slóðir; var það mest að þakka dugnaðarmanninum, austmanninum (Norðvegsmanni) Nicolasi Buch er fyrst var við höndlum á Húsavík, en keypti síðan Laxamýri í Húsavíkursókn og bar þar bein« segir séra Jón Ýngvaldsson í sóknarlýsíngu sinni.

[5] Það er aðgætandi að peníngar giltu miklu meira í þann tíð en nú.

[6] Rit þess Isl. Lærd.-Lista-Fél. VI. Kmh., 1786; bls. 268. Sbr. Espól. Árb. XI; bls. 53.

[a] Nú eru skíðin optast »nær 8½ al. á leingd en um þverhönd á breidd og kosta nú tíðast 1 rbd. 24 sk.« segir séra Jón Ýngvaldsson í sóknarlýsing Nessóknar í Aðalreykjadal 1840. 1880 eru vönduð skíði aptur auglýst á 3,50 Kr. — 4,00 Kr., í Fróða nr. 27; 324. d.

inn. »Þá bætti ónefndur maður öðrum við og leiddi fyrir sjónir, þegar hann í ófærð varð samferða sveitúngum sínum, sem þá gengu á þrúgum, að hann mæddist minna en þeir. Nú eru þrenn til fern skíði á hverjum bæ og margir góðir á þeim; þykir mikil skemtan að horfa á, er þeir renna sér ofan brekkur[1].«

Nú kann hver maður á skíðum, eins og áður er sagt í snjósveitum, þar sem mögulegt er að koma skíðum við.

Annað hefi eg ekki að athuga við skíðaferð á Íslandi, nema séra Jón Ýngvaldsson segir í »Norðlenzku orðasafni[2] að framendarnir á skíðum og sleðameiðum séu kallaðir gægjur (nom. gægja), af því þeir gægðust eða góndu í lopt upp. Eg þekki ekki til í Þíngeyarsýslu, en þetta nafn mun hvorki vera til í Skagafjarðarsýslu né Eyafjarðarsýslu. J. Ól. nefnir líka skíðastaf skíðageisla, en B. H. segir að geisl og geistill sé skíðastafur. Skíðageisli og geisl eru forn orð, hvað sem geistli líður.

Þess má líka geta að málshátturinn: Snælega snuggir, kváðu Finnar, áttu andra fala, er dreginn af skíðum, því í fornmálinu var skíði kallað andri eða öndurr. Það er allmerkilegt að orðið andri er við lýði, enn í dag, á Vestmannaeyum. Lárus Árnason stud. med. segir mér, að einstaka únglíngar skemti sér þar við að gánga á öndrum, því svo eru stiklur, stillur, eða hvað það nú heitir (Stylter), nefndar þar. Eg veit hvorki til að orðið né skemtanin tíðkist annarsstaðar en á Vestmannaeyum.

**SKAUTAFERÐ** er alltíð íþrótt, þar sem hægt er að koma henni við, en það er allstaðar þar sem ísalög eru mikil á vetrum. Annars þarf ekki að lýsa henni, því hún er alkunn hverju mannsbarni og auk þess ekki fremur innlend en útlend. Aptur er það þjóðsiður að karlmenn einir læra á skautum á Íslandi, því í útlöndum fara karlar og konur á skautum, jöfnum höndum. Þó má geta þess að kvennfólk lærir líka á skautum í kaupstöðunum og væri óskandi að sú tízka breiddist út, því kvennfólkinu er ekki fremur vanþörf á góðri hreyfíngu er kallmönnum.

Skautaferð er úng skemtun á Íslandi, til þess að gjöra, þótt mér sé ekki ljóst, hvenær farið var að tíðka hana. Í sóknalýsíngunum er víðast tekið fram að skautaferð sé ekki tíðkuð þar, eða þá mjög litið. Í lýsíngu Hítarnessþínga 1841, er sagt að það sé eins dæmi þar um slóðir, að tveir menn kunni á skautum á einum bæ. Það eru að eins þrjár sóknalýsíngar, þar sem það er tekið fram að margir kunni á skautum og eru það lýsíngarnar á Kvíabekkjarsókn, Þóroddsstaða og Ljósavatnssóknum[3] (báðar frá 1839) og Landeyaþíngum (1873).

---

[1] Sóknarlýs. Kvíabekkjars. 1839.

[2] Hrs. Bmfj. 338. 4to.

[3] Þar eru skautar nefndir skriðjárn, hvort sem það er sagt í sveitinni, eða það

Áður en skautaferðin komst á, rendu únglíngar sér á leggjum og Sunnlendíngar segja mér að það sé daglegt brauð þar enn í dag. Á Norðurlandi er leggjaferð aptur fremur sjaldgæf um þessar mundir og ekki man eg eptir því að eg hafi séð leggi.

Leggirnir voru hrossleggir[2] og þóttu apturfótaleggirnir bezt fallnir til að renna sér á þeim. Þeir urðu að vera þráðbeinir, eins og eðlilegt er. Það var höggvið af þeim að aptan og framan, til þess að þeir skyldu ekki rekast í. Annars voru þeir látnir eiga sig, eins og náttúran hafði gjört þá úr garði. Sumir boruðu tvö göt gegnum hvern legg, annað að aptan en hitt að framan, drógu svo bönd gegnum þau og bundu upp um fótinn. Sumir boruðu að eins eitt gat á legginn, framanverðan, og festu í það lykkju, sem svo var smeygt upp á fótinn. Sumir rendu ser aptur á leggjunum alveg lausum, og studdu sig þá við broddstaf.

Bertel Þorleifsson, stud med., sem er nákunnugur leggjaferð í Þíngvallasveit, segir mér að valla hafi aðrir farið þar á leggjum en únglíngar. Kindarleggir hafi verið tíðastir, en kálfsleggir hafi þó þótt bezt fallnir til leggjaferðar. Optast hafi verið farið á framfótarleggjum. Búngan hafi vitað niður og hafi verið sorfinn á hana sléttur flötur að neðan. Ekki man hann eptir því að höggvið hafi verið framan eða aptan af leggjunum.

Leggjaferð er afgömul íþrótt og er þegar getið um hana í sögu Sigurðar Jórsalafara og bræðra hans. Eysteinn konungur taldi sér það til gildis við Sigurð konúng bróður sinn, hve hann kynni vel á ísleggjum[3].

Jón Espólín getur þess að únglíngar hafi rent á leggjum[4] og séra Guðmundur Jónsson telur það til hættulegra barnaleikja »að renna sér á leggjum, smáskíðum eður klakahnausum á ís, ám og vötnum[5].« Einhver hefir líka sagt mér að hann hafi vitað únglínga renna sér á kindahornum.

Í lýsíngu Holtssóknar undir Eyafjöllum 1845 er þess getið að únglíngar renni sér þar á leggjum og er það sú eina sóknarlýsíng sem minnist á þá.

Magnús Stephensen getur líka um leggi[6] og telur það ógöfugra að renna sér á leggjum en skautum.

---

er tyrfni úr prestinum. Eg hefi líka séð gátu um skauta og var þýðingin skriðskjótar. Það er eflaust skáldaorð, eða hvergi haft í daglegu tali með öðrum orðum. Aptur nefnir séra Jón Íngvaldsson skriðskauta í Hrs. Bmtj. 325. 4to; bls. 97.

1 Sbr. Þjóðólfur IV; bls. 304.₃.

2 Heimskríngla. Chria. 1868; bls. 682.

3 Árbækur XI; bls. 6

4 Sumargjöf handa börnum; bls. 123.

5 Island i det 18. Aarhundrede; bls. 234.

Seinast hefi eg séð getið um leggi í Þjóðólfi 1866[1], enda munu skautarnir þegar hafa borið þá ofurliði að mestu leyti.

**HLAUP OG STÖKK.** Það er ómögulegt að komast hjá því að hlaupa og stökkva á Íslandi og hafa því íþróttir þessar haldizt þar við, en satt að segja hefir eingin íþróttleg rækt verið lögð við þær, að minnsta kosti í seinni tíð. Öðru máli var að gegna í fornöld. Sögurnar geta víða um frábæra stökkfimi, og má gánga að því vísu, að t. d. Gunnar á Hlíðarenda hafi orðið að æfa sig stinning, áður en honum tókst að hlaupa hæð sína í lopt upp með öllum hertýgjum.

Annars hefir lifað leingur í kolunum að því er snertir stökkfimi en flestar aðrar íþróttir, og Ísland hefir átt frábæra stökkmenn, svona einn og einn, fram á þessa öld. Það er þannig fært í frásögur að þeir Björn, Einar og Ari, synir Jóns Þorlákssonar og Solveigar Bjarnardóttur, ríka á Skarði, Þorleifssonar, hafi hlaupið ellefu álnir á sléttum velli[2]. Grímur Thomsen getur þess líka í Ísafold[3] eptir sannorðum mönnum, að Þorsteinn í Krossavík hafi stokkið jafnfætis upp á axlarháan garð með vættarstein í fánginu[4], »og er það fult eins vel hlaupið og að stökkva hæð sína í öllum herklæðum« þar er líka drepið á það, að Jón og Snorri, bræður Dr. Gísla Brynjúlfssonar hafi hent sig eins lángt og Skarphéðinn á Markarfljóti forðum[5]. Helgi bóndi Jónsson á Neðranesi í Stafholtstúngum († 1866) var annálaður fimleikamaður og ekki sízt að því er snertir stökk. Hann hljóp þannig »alvotur eða gagndrepa yfir gróf þá, sem er að vestanverðu við Keflavík«, og var það hlaup réttar tíu álnir[6]. Um stökkfimi þeirra nafnanna séra Þorsteins Pálssonar og séra Þorsteins Jónssonar er áður getið[7]. Eins var séra Snorri á Húsafelli stökkmaður mikill[8] og segist hann sjálfur hafa stokkið 15 álnir. Hafnarbræður, Hjörleifur og Jón sterki, Árnasynir voru mestu íþróttamenn, einkum til stökkfimi og er þess getið þannig í Þjóðsögum Jóns Árnasonar[9]: »Það segja Múlasýslumenn að þeir bræður Jón og Hjörleifur hafi mjög tamið sér á ýngri árum að stökkva bæði lángt og hátt, og verið svo leiknir í því, að þeim hafi veitt hægt að

---

[1] XVIII; bls. 33.₃.

[2] Safn til Sögu Íslands. I; bls. 57.

[3] VI; bls. 127.

[4] Þetta er þó efað í Norðanfara XIX; bls. 126 og segir höfundurinn, hver sem hann er, að hann hafi aldrei heyrt að Þorsteinn Guðmundsson hafi tamið sér þá list að stökkva.

[5] Sbr. bls. 79.

[6] Þjóðólfur XIX; bls. 10.₁.

[7] Sbr. bls. 49.

[8] Sbr. Raupkorn í Viðaukanum.

[9] II; bls. 157—158.

létta sér yfir áttæríngsskip á jafnsléttu, og þegar Hjörleifur hafði 7 um sextugt, stökk hann enn hæð sína í lopt upp (1818), enda telja Múlasýslumenn hann fremri bróður sínum að fimleikum. Hann sagði og sjálfur frá því, að hann hefði opt á ýngri árum sínum, þegar skipi var hægt róið með landi, geingið eptir borðstokkum, fram á hnífil, snúið þar við og geingið svo eptir hinum borðstokknum aptur á eptra hnífil.« Loksins voru þeir Guðbrandur og Hljóða-Bjarni synir Prjóna-Péturs[1] stökkmenn miklir, einkum þó Guðbrandur. Þeir voru látnir prjóna duggarapeisur í úngdæmi sínu, eins og þá var títt. Stjaki stóð á hlaðinu á Heiði, tveggja álna hár, og var höggvinn stallur í miðjan stjakann. Það var leikur þeirra bræðra, að bregða sér út með prjónana, hlaupa upp á stjakann og fóta sig efst á honum, en fella þó ekki lykkjuna. Guðbrandi tókst það, en Bjarna ekki. Einu sinni kom Guðbrandur gángandi til Sauðanesskirkju og stóð margt fólk úti á hlaði. Þar stóðu líka fjórir hestar, bundnir hver aptan í annan; stóð sá yzti við stjaka, en stjakinn við for. Guðbrandur bregður á skeið og hleypur fram yfir hestana og forina. Hlaupið var mælt og var meira en 15 álnir[2].

Um frábærlega fóthvata menn gánga fáar sögur, nema ef vera skyldi Hlaupa-Eggert, dóttursonur séra Guðmundar Erlendssonar á Felli í Sléttuhlíð[3]. Árnes Pálsson, sem kunnur er úr sögu Fjalla-Eyvindar var líka allra manna fóthvatastur og segir Gísli Konráðsson, »að fáir mundu hestar hann á hlaupum taka, þótt fráir væri«[4].

Þess má líka geta að Eggert Ófafsson segir að skólapiltar í Skálholti temji sér kapphlaup og stökk meðal annara íþrótta[5]. Stökk temja skólapiltar sér enn í dag, en kapphlaup iðka þeir aldrei við skólann.

Ekki hefi eg heyrt getið um jafnmikla stökkfimi seinustu árin og nú hefir verið talin um hríð, en þó er ekki skotið loku fyrir að hún eigi sér stað, því slíkt getur auðveldlega leynzt. Aptur eru dæmi til þess að menn hafi skemt sér við hlaup og stökk á mannfundum. Þannig getur Fróði[6] þess, að á gripasýníngunni í Fnjóskadal 23. maí 1880 hafi menn leingi dags glímt, hlaupið kapphlaup, stokkið og hoppað.

Annars er lítið að segja um stökk og hlaup, því hvorttveggja er mjög einfalt og óbrotið. Mest áherzla er lögð á að stökkva sem hæst og sem leingst[7], og þykir það þá enn meiri fremd, þegar íþróttamaðurinn stekkur

---

[1] Pétur bjó á Heiði á Lánganesi um seinustu aldamót.

[2] Eptir söguþætti um Hljóða-Bjarna, sem Jón bókavörður Árnason á. Ef eg man rétt hefir Jón Sigurðsson í Njarðvík eystra samið þátt þenna.

[3] Ættartölubækur Jóns Espólíns. Hrs. Bmfj. 14. 4to; bls. 4967.

[4] Þáttur af Fjalla-Eyvindi, 5, 9. og 32. kap.

[5] Reise igjennem Island; bls. 977.

[6] Nr. 11; bls. 128 sbr. líka Norðanf. XIV; bls. 48.

[7] Sbr. Norðanf. II; bls. 21, 2. d.

upp fyrir sig, eins og eðlilegt er. Við lángstökk er hlaupið til, þegar kostur er á, til þess að fá sem mestan skrið á sig. Opt skemta únglíngar sér með því að stökkva aptur á bak, en það gjörir ekki betur en að það þyki sæmilegt.

Að stökkva jafnfætis er að standa við það, sem stökkva á yfir, með fæturna fast saman, og henda sig svo yfir það, án þess að taka fæturna í sundur, hvorki á leiðinni né þegar niður kemur. J. Ól. segir að sá, sem stekkur jafnfætis, megi hlaupa til, ef hann »komi að eins báðum fótum í einn stað niður.« Hann talar líka um alt annað jafnfætisstökk: »Maður heldur á snúru í báðum höndum og stekkur fram eða aptur úr lykkjunni.« Það stökk mun þó ekki vera algeingt.

Að stökkva á bak hefir verið algeingt á fyrri dögum. Jón Ólafsson segir: »Það er algeingt að stökkva svo léttilega á bak hesti, án þess að styðja á hann eða stíga í ístöðin[1], að hesturinn kikni ekki í bakinu, þegar sezt er á hann. En það er meiri vandi að stökkva yfir hest á annan hest. Þó er fimlegast leikið, þegar stokkið er yfir tvo hesta á þann þriðja, án þess að styðja niður höndum eða hesturinn kveinki sér. Hafa má og tvo lausa þófa á hestinum og skal listarmaðurinn þá halda í ístaðið«, áður en hann stekkur upp eða standa fast við hestinn (?). Séra Benedikt Jónsson nefnir að hlaupa á bak og er það víst sama.

Hopp er skilt stökki. Að hoppa á öðrum[2] fæti er alltítt og sést á nafninu hvernig það er, þegar venjulega er farið að. Stundum er aptur hoppað þannig á öðrum fæti, að haldið er undir ristarþveingina á hinum[3], og er það mun erviðara. Séra Benedikt Jónsson minnist á hopp á öðrum fæti. Fátíðara er að hoppa á báðum fótum í einu. Það kallar J. Ól. að hoppa jafnfætis. Únglingar sjást líka opt valhoppa, en mér er ekki ljóst hvernig því hoppi er varið.

Hlaupið er enn óbrotnara, enda hefi eg ekkert að segja um það, nema að kapphlaup er sú lángtíðasta eða öllu fremur sú eina kappiþrótt, sem nú tíðkast á Íslandi að marki, enda er það kallað að reyna sig. Opt sjást únglíngar líka hlaupa aptur á bak, en sagan segir að það sé ekki fallegt, því sá sem gjöri það, gángi móður sína ofan í jörðina[4], eins margar álnir og sporin voru mörg, hefi eg heyrt bætt við. Dæmi eru til að menn hafi haft kapphlaup sér til skemtunar á mannamótum, en fremur er það fátítt. Fyrir skömmu er getið um kapphlaup á gripasýníngunni í Fnjóskadal. Á »gleðisamkomunni« á Grund í Eyafirði, sumardaginn

---

[1] Sbr. Magnús Stephensen: Island i d. 18. Aarhundr.; bls. 234.

[2] Einnum hefi eg líka heyrt, en í þýðíngunni á Crymogæa (Ny kgl. Saml. 1281 fol.) er nefndur »hoppunarleikur á öðrum fæti«.

[3] Eptir sögn Bertels Þorleifssonar, stud. med.

[4] Þjóðs. J. Árn. II; bls. 548

fyrsta 1874[1] skemtu menn sér líka við kapphlaup og við Þjóðhátíðina á Oddeyri voru veðhlaup höfð til skemtunar, meðal annars[2].

Eg hnýti hér aptaní svolitlum pistli um brattgeingi, því það er náskilt hlaupi og stökki. Brattgeingi var talið til íþrótta í fornöld. Það er þannig fært í frásögur að Ólafur konúngur Tryggvason hafi verið hverjum manni brattgeingari[3] og hefir hann þó valla þurft að gánga mikið í kletta. Fáar þjóðir eru víst brattgeingari en Íslendíngar, enda kæmi það sér illa fyrir gángnamenn t. d., að geta ekki fótað sig nema á jafnsléttu, og mörg kindin sylti í hel í klettum, ef henni væri ekki bjargað þaðan. Annars eru jafnbeztir klettamenn þar sem fuglebjörg eru, eins og t. d. í Vestmanneyum, og er það eðlilegt. Ekki veit eg til að brattgeingi sé talið til íþrótta um þessar mundir og þarf því ekki að fjölyrða um það. Þó vil eg taka það fram að Eggert Ólafsson var annálaður klettamaður og hefir hann eflaust tamið sér brattgeingið að sið forfeðra vorra, eins og svo marga aðra góða siði og gamla. »Eggert Ólafsson. var gyldr Karlmadr til Burda. Manna lettastr, og so frækenn hvad sem reyna skylde, at fæster jøfnudust vid Hann, brattgengr var Hann í Fiøll og Kletta þurfte Hañ opt til þess at taka á Sinne Observations Reisu«[4].

Eitthvert mesta þrekvirki. sem sögur fara af, að því er snertir brattgeingi, er þegar Jóhann Skram, Húnvetníngur, klifraði upp á dráng þann, er stendur sunnan við Drángey á Skagafirði, og Kellíng heitir. Svo er sagt að Kellíngin sé í skapnaði eins og kona, og höfðu menn áður komizt svolítið upp eptir henni, en Jóhann fór alt upp á brjóst eða leingra. Hann rak nagla í bergið jafnóðum, og klifraði svo upp og ofan á þeim, því hvergi var fótfesti að fá. Páll prestur Erlendsson á Brúarlandi[5] getur Kellíngarfarar Jóhans í bréfi, sem fylgir sóknarlýsíngu Hofssóknar á Höfðaströnd[6], og segir að Jóhann hafi komizt yfir Kellínguna vorið 1839; leggur hann þar og til, að Íslendíngar í Kaupmannahöfn stuðli að því að Jóhann fái verðlaun fyrir frækleik sinn. Í Skagafirði geingur líka sú saga að Páll prestur hafi sent skjal til konúngs, og beðið um fjárstyrk handa Jóhanni »fordí han har klývet paa Kjellíngen«. Ekki er þess þó getið að Jóhann hefði nokkuð upp úr viðureign sinni við Kellínguna.

Handahlaup eru íþrótt sem ekki sést á hverju strái um þessar mundir, eða að minnsta kosti hefi eg aldrei orðið svo frægur að sjá þau, eða reka mig á nokkurn sem kynni þau. Aptur hefi eg frétt að þau þektust

---

[1] Norðanfari XIV; bls. 48.
[2] Þjóðhátíðin á Oddeyri 2. júlí 1874. Akureyri. 1874; bls. 11.
[3] Fornmannasögur II; bls 169, 275—77.
[4] Björn Halldórsson: Æfe Eggerts Olafs sonar. Hrappsey. 1784; bls. 13.
[5] Mig minnir að Jóhann yrði seinna teingdasonur hans.
[6] Ekki er þó Jóhann nefndur þar.

á Suðurlandi. Handahlaup hafa ekki verið mjög fátíð á fyrri dögum, og ræð eg það einkum af því, að Skúli Thorlacius tekur skýrt fram að hann sé alvanur þeim[1]. Auk þess er minnzt á þau á einstaka stað í Þjóðsögum Jóns Árnasonar og öðrum ritum. Það er þannig fært í frásögur að Fjalla-Eyvindur hafi kunnað svo vel handahlaup, að hann hafi dregið undan fljótustu hestum[2]. Eyvindur á að hafa kent handahlaup Árnesi Pálssyni, sem laungum var með honum[3]. Séra Snorri á Húsafelli kunni líka vel handahlaup[4]. Loksins má minna á söguna um Eirík, í Hellismannasögu, sem sagt er að hafi hlaupið einfættur upp Eiríks jökul á handahlaupum[5]. Eg vil reyndar ekki ábyrgjast að hún sé dagsönn, en hún sýnir þó, að það er þjóðtrú, að flest megi komast á handahlaupnm, og er undarlegt að þau skuli vera svo fátið, eins góð list og þarfleg og þau virðast vera.

J. Ól. og Skúli Thorlacius eru mjög fáorðir um list þessa, en þó má ráða í hvernig handahlaup séu af lýsíngu þeirra. Íþróttarmaðurinn hendir sér í stuttu máli áfram, á hlið, eins og hjól. Fyrst stendur hann upprjéttur, eins og lög gjöra ráð fyrir. Svo styður hann t. d. niður hægri hendinni og stendur þá á hægra fætinum og hægri hendinni. Því næst vindur hann búknum til hægri handar og kemur vinstri höndin næst niður, þá vinstri fóturinn, þá hægri fóturinn, þá hægri höndin aptur og svo koll af kolli. Það segir sig sjálft að allar þessar hreyfíngar verða að fara fram miklu fljótara en hér er verið að lýsa þeim, ef íþróttin á að vera í nokkru lagi. Þegar fimur maður og leikinn fer á handahlaupum, ber hann svo ótt yfir, að hvorki sjást handa skil né fóta.

**KASTFIMI** er góð íþrótt og gömul og mikið tíðkuð enn í dag. Það er einkum tvent sem kemur þar til greina, en það er að vera hæfinn[6] og geta dregið lángt. Hvorttveggja tekst furðanlega með æfíngunni, enda er ekki sparað að temja sér kast, sízt á vetrum, því þá er optast nógur snjór, til að hnoða úr kúlur og kasta. Þá er opt farið í snjókast og er þá stundum gott að vera hæfinn, þegar þeir sem kastast á, standa allángt hvor frá öðrum, en opt ber það þó við að ekki þarf á hæfni að halda, því mótstöðumennirnir standa opt svo nærri hvorir öðrum, að hver einasta kúla hittir. Slíkt snjókast er eingin íþrótt, og stendur í sama

---

[1] Borealium veterum matrimonia, bls. 235.
[2] Þjóðs. J. Árn. II; bls. 243, 249. Sbr. Árbækur Espólíns. X; bls. 75 og þátt Fjalla-Eyvindar, eptir Gísla Konráðsson 3, 21. og 34. kap.
[3] Þáttur Eyvindar 26. kap. sbr. 9. kap.
[4] Fræðimannatal Hallgríms Jónssonar. Hrs. Bmfj. 385. 4to; bls. 438. Minnisverð Tíðindi III; bls. 251. Sbr. Raupkorn í viðbætinum.
[5] Þjóðs. J. Árn. II; bls. 303.
[6] Sbr. Sturlúnga. Oxford, 1878, I; bls. 308. Þar segir »Hann (Sturla) kastaði allra manna best steini ok var hæfinn«.

hlutfalli við reglulega kastfimi og tusk við glímur. Allan gáng má hafa á snjókasti og er ómögulegt að gefa neinar reglur fyrir því.

Skutl má telja undir kastfimi. Únglíngar skemta sér stundum með því að reyna til að hitta hitt og þetta með prikum eða stöfum, sem eru þá kallaðir skutlar[1]. Það er þó lögð miklu minni rækt við þessa hæfni en hina hæfnina og kemur það til af því, að sjaldnar þarf að taka á henni. Meðan selir voru skutlaðir á Eyafirði, tömdu únglíngar þar við sjóinn sér skutl frá blautu barnsbeini og fékk selurinn að kenna á því seinna meir, en þegar farið var að skjóta selinn, lagðist skutlið niður og er nú ekki tíðkað nema endur og eins. Séra Sigurður Jónsson nefnir skot með rá í lýsíngu Rafnseyrarsóknar (1839) »Íþrótta iðkan er eingin tíðkuð utan skot með byssum og skutlum, með rá er iðkuð af úngum dreingjum.« Setníngin er ekki vel ljós, en líklegt er að skot með rá sé svipað skutulkasti.

J. Ól. minnist á að slángra og má telja það til skemtana, þótt það sé fátítt, því einstökum sinnum sjást únglíngar þó kasta steini úr slaungu, að gamni sínu. Furðanlegt er hve æfðir slaungumenn eru hæfnir. Það er þannig fært í frásögur um Fjalla-Eyvind, að hann kynni slaunguskot svo vel, »að nálega hæfði hann alt, og drap fugla með slaungu sinni.« Þegar Árnesíngar flæmdu þau Eyvind undan Hofsjökli, slángraði Eyvindur tvisvar sinnum klakastykki í lið þeirra. Í fyrra skipti var þeim hrundið undan, sem á var miðað, en í seinna skiptið kom klakastykkið í hattbarð eins er eptir sótti »svo nálega tók stykki úr barðinu«[2].

Hér búast menn ef til vill við, að eg drepi á boga og pílu eða gaflok sem dreingir eru opt að bjástra með, en það er sjaldnast tilgángurinn að hæfa með slíkum skrapatólum, svo mér þykir réttara að telja þau undir annað barnaglíngur.

Aptur hnýti eg hér aptan í fáeinum orðum um að flytja kellíngar[3] eða fleyta kellíngar[4] því kastfimi er það, þótt það sé lítil íþrótt. Listamaðurinn tekur svolitla helluflís og kastar henni út á sjó eða vatn. Ef steinninn hoppar eptir yfirborði vatnsins, áður en hann sekkur, þá flytur hann kellíngar og eins margar og steinninn hoppar opt upp. Bezt er að flísarnar séu sem flatastar og sléttastar og verður listarmaðurinn að kasta þeim á ská eða með vatnsyfirborðinu, en ekki beint út í það, því þá sekkur steinninn þegar í stað. J. Ól. getur um list þessa og segir að

---

[1] Það voru og eru eingir meinbugir á því að únglíngar skjóti til marks með prikum og börn meiga leika sér að prikum á alla vegu, nema þau meiga ekki veifa þeim í kríngum sig, því þá segir sagan að hætt sé við að þau pissi undir næstu nótt. Sbr. Þjóðsögur Jóns Árnasonar II; bls. 550

[2] Þáttur Fjalla-Eyvindar eptir Gísla Konráðsson, 17. kap.

[3] Kellíngu J. Ól.

[4] Austfirzkt nafn.

stundum flytji margir kellíngar í einu og keppist um það hver geti flutt þær flestar og leingst. Þessi keppni segir hann heiti epostracismus á latínu og nefnir Arngrímur þann leik[1]. Annars er sagt í daglegu tali að sá eða það flytji kellíngar sem kastast til, t. d. skíðamaður sem fer fram af heingjum. Aðra merkíngu þekkir séra Jón Ýngvaldsson í að flytja kellíngar eða **fleyta kellíngar**: »þegar róðrarmaður fellur á bak aptur, upinn[2] aptur af þóptu af því sjóskortur varð á ár hans eða hún hljóp upp úr keipnefinu«[3]. Þess má líka geta að séra Jón segir að hellublöðin séu nefnd kellíng, en mér hefir alt af skilizt að kellíng væri hér í venjulegri merkíngu og að listin færi fram á að sýna, að kellíngum hæfði ekki göfugri flutníngur.

---

[1] Sbr. bls. 5—6.

[2] Upp í lopt?

[3] Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 47. Eg hefi grætt svo mikið á þessu handriti, að því er snertir leiki, að það má ekki minna vera en eg minnist einhversstaðar dálítið á það. Sá hluti þess sem víða er vísað til í þessu riti heitir »Fjölþýddar, samrýndar, sundurþýddar samnafnavísur« og er eptir séra Jón Ýngvaldsson (seinast prest á Húsavík † 1876), eins og sést á titli þess. Vísurnar eru 1054, en það vantar aptan af handritinu svo ekki er hægt að segja hve vísurnar hafa verið margar alls. Í hverri vísu eru taldar upp sem flestar merkíngar í einhverju orði og eru opt margar vísur um sama orðið. Hverri vísu fylgja skýríngar. Skýríngar þessar eru víðast mjög fróðlegar, eins og alt sem eg hefi séð eptir séra Jón, en einkum eru þær sannkallaður fjársjóður fyrir þá, sem lángar til að fræðast um íslenzkt sveitamál eða alþýðumál. Vísurnar eru mest megnis orktar undir tveimur bragarháttum og leyfi eg mér að færa hér til sýnishorn af hvorumtveggja, til þess að gefa þó svolitla hugmynd um ritið.

Dráttur; bls. 250.

Á-að-af-fé-í-liðs--tré-til-undan dráttur,
skinn-vír-belta-skip-stein dráttur,
skíða-sleða-hey-upp dráttur.

Þúnga; bls. 329.

Ellin ofurþúnga
eykur manni þúnga.
Bar eg byrði þúnga.
Brún hefir margur þúnga.
Kenni eg karla þúnga.
Kugg á ber eg þúnga
Ber und brjósti þúnga.
brúður í skapi þúnga.

Þúngur í 1. línunni vill séra Jón láta þýða þúnglamalegur, en latur í 5. línunni. Þúngi í 6. línunni er farmur, en fóstur í 7. línunni. Svona eru allar vísurnar gjörðar úr garði, frá þeirri fyrstu til þeirrar seinustu. Eg hefði helzt viljað færa til **betri vísur en þessar** eru, en það er ekki hægt um vik, því það finnst ekki **ein einasta *góð* vísa** í öllu ritinu, fremur en glóandi gull.

Aptan við grein þessa hnýti eg nokkrum orðum um kappreiðar, hestaat, kappsiglíngar og vopnaburð. Eg get reyndar ekki talið neitt þessu íþrótt, að réttu lagi, en þrent hið fyrsta er þó í áttina og vopnaburðurinn jafnvel líka, eptir því sem hann hefir tíðkazt á Íslandi, í seinni tíð. Auk þess eru kappreiðar og kappsiglíngar og svo íþróttir þær, sem eg hef minnzt á, kallaðar »sport« í útlöndum einu nafni, og bendir það, meðal annars, á skyldleika þann, sem þar er á milli.

Kappreið er skemtun, sem Íslendíngar hafa tíðkað frá alda öðli, eins og eðlilegt er um eins mikla hestamenn. Sjaldnast hefir það þó verið opinber veðreið, eins og altítt er í útlöndum og ekki fyr en einstöku sinnum upp á síðkastið, t. d. sumstaðar á þjóðhátíðinni 1874. Þá voru veðreiðar bæði í Reykjavík[1] og á Akureyri[2] og ef til vill víðar. Kappreið var líka haldin við sýnínguna við Reynistaðarrétt í Skagafirði 29. maí 1878, fyrstu sýníngu sem haldin var á Íslandi og »gleðisamkomuna« á Grund í Eyafirði, sumardaginn fyrsta 1874, skemmtisamkomu Eyfirðínga á Oddeyri 12 júlí 1875[3], sýnínguna á Grund, sumardaginn fyrsta 1879, og aðra sýníngu Eyfirðínga, 8. júní 1880.

Aptur er það daglegt brauð að hestar séu reyndir, þótt ekki sé annað í aðra hönd en sóminn af því að hafa betri hest og skemtanin að reyna klárana, en það er heldur ekkert smáræði. Ekki leggja neinir vissir menn stund á það á Íslandi að ríða hestum við kappreiðar, eins og í útlöndum, enda erum við fæddir reiðmenn[4], ef svo má segja, en útlendíngar læra að ríða með mikilli fyrirhöfn og kvað opt ganga skrykkjótt.

Hestaat, sem var svo opt haft til skemtunar í fornöld, eins og sögurnar bera með sér á hverju strái, er nú lagt niður fyrir lifandi laungu. Þó var það við lýði fram á 17. öld. Oddur biskup Einarsson fyrirbýður þannig prestum »hestaþíngvökunætur og aðra þvílíka heiðínglega hætti« á prestastefnu á Kýraugastöðum á Landi 9. maí 1592[5].

Seinasta hestaat, sem menn vita til að hafi átt sér stað á Íslandi, fór fram 1623, og tek eg hér upp frásögn um það eptir Jón Espólín[6]. Um þetta leyti bjó Sveinn ríki á Illugastöðum í Fnjóskadal, en Sigmundur nokkur á Garðsá í Eyafirði. Þeir voru óvinir bændurnir og mestu kappsmenn báðir. Sigmundur átti hest vindóttan, vaninn til vígs. Hann gekk á Fnjóskadalsafrétt, fyrir vestan Fnjóská. Sveinn átti bleikan hest, vígtaminn. Hann gekk fyrir austan ána, þar sem heitir Bleiksmýri og segja

---

1 Þjóðólfur XXVI; bls. 1482. Víkverji II, 1 ársfj. nr. 4; bls. 128.
2 Norðanfari XIII; bls. 86—87. XVIII; bls. 59—60. XIV; bls. 48.
3 Norðlíngur I; bls. 39. IV; bls. 135. V; bls. 52.
4 Sbr. Eggert Ólafsson: Reise igjennem Island; bls. 186—187.
5 Sbr. Historia ecclesiastica Finns Jónssonar. III. bindi; bls. 337.
6 Árbækur VI; bls. 21—22.

samir að það og fleiri örnefni séu dregin af hestunum. »Þeir Sveinn oc Sigmundr mæltu mót med sér at reina hesta sína oc etja þeim á dalnum; voru þeir seinastir hestar vandir til vígs í Norðrlandi eda á Íslandi öllu. Þeir hlódu tvo garda á Vindhólanesi,. sem enn sér merki til, oc öttu hestunum milli gardanna, en menn hjuggu sér rjódr fyrir ofann í hólunum, þeir sem vildu á horfa, því at til vorra daga hefir verit skógland mikit í Fnjóskadal. Vindr var stærri oc styrðleiknari en Bleikr minni oc mjúkari, sviptust þeir lengi oc hlupust á, en svo féll er ei var vant, nema kunnáttuleysi hafi valdit þeirra er fylgja áttu, at Bleikr tók á nára Vinds oc reif á hol, svo at út héngu innifli. Vindr stöck á garðinn, oc braut í skard mikit oc féll síðann daudr, en Bleikr hljóp yfir ána, framm í stóðit á dalnum. Sigmundr þycktist mjög við missir hestsins, oc óvyrðíng sína er honum þótti, oc qvad þetta verða mundi seinast hestavíg þar nyrðra; varð fátt um qvedjur med bændum.« Vorið eptir drukknaði Sveinn í kýl einum og var eignað fjölkynngi Sigmundar »enn nockru sídar var vitjað um stód á Bleiksmyrardal, oc var Bleikr daudr í Bleiksmyrargröf, ætludu menn um sama leiti ordit hafa sem lát Sveins.«

Jón Espólín heyrði sögu þessa í æsku af þíngeyíngi einum, er svo var gamall að muna mátti þá menn gamla, er mundu Sigmund, og telur hana því áreiðanlega, enda virðist ekkert vera á móti henni, að því er snertir sjálft hestaatið.

Kappróður og kappsiglíngar eru mjög tíðkaðar í útlöndum og þykja hin bezta skemtan, en öðru máli er að gegna á voru landi Íslandi. Eg veit jafnvel ekki til að íþróttir þessar hafi verið tíðkaðar á Íslandi í gamla daga og þá er valla von á að opt sé feingizt við þær nú, þar sem allar íþróttir liggja meira eða minna í salti, hjá því sem þá var. Það er þó hverju orði sannara, sem Grímur Thomsen segir í Ísafold[1]. »Það er lítið fjörmerki að í sjóplássi, þar sem allir róa, skuli aldrei vera haldnir kappróðrar og kappsiglíngar til skemtanar; gæti þetta einnig orðið til þess að bæta bátalagið til gángs.«

Það er vonandi að íþróttir þessar komist að á Íslandi með tímanum, enda hafa þær verið bornar við á einum stað, Akureyri. 1. desember 1870 var haldinn kappróður á Pollinum[2] undan Akureyri og tóku tveir sexæríngar og tvö fjögramannaför þátt í honum[3]. Í Fróða 1881[4] er líka getið um kappróður á Pollinum og sagt að skýrsla hafi komið út um hann í blöðunum. Eg skal láta alveg ósagt hvort alt er sami kappróðurinn. Jón Sigurðsson getur þess líka í einu handriti sínu (Hrs. J. Sig. 95. 4to) að sumarið 1871

---

[1] VII; bls. 120.
[2] Svo er Akureyrarhöfn nefnd.
[3] Norðlíngur IV; bls. 231.
[4] Fróði nr. 38; bls. 99.

eigi að fara fram kappróður á Íslandi[1]. Mér er alveg ókunnugt hvort nokkuð hefir orðið úr honum.

Vopnfimi er eingin tíðkuð á Íslandi, nema skot, enda mega þau lönd telja sig sæl sem ekki þurfa á vopnaburði að halda. Skotfimin er alltíð á Íslandi, eins og reyndar allstaðar annars staðar, enda er það þörf list og góð, bara að hún komi ekki í koll æðarfuglinum og smáfuglunum.

Ekki fara sögur af skotfimum Íslendíngum í seinni tíð, en þó má geta þess, að maður var uppi á 17. öld, sem hét Þorgrímur og var kallaður byssuskytta. Hann hefir eflaust feingið nafn þetta af skotfimi sinni. Þorgrímur var reyndar danskur að ætt, en fæddur og uppalinn á Bessastöðum[2].

Skotfélag er í Reykjavík, stofnað fyrir nokkrum árum[3] en ekki virðist það hafa haft þjóðlegan blæ, eins og skotfélög svo víða í öðrum löndum »Það er mest-megnis í höndum kaupmannastéttarinnar og þykir því hafa danskan blæ — — Viljum vér leyfa oss að leggja það til að svo margir Íslendíngar gángi í nefnt félag, að því verði ekki leingur um kent, að skotið sé á dönsku, enda á þá bæði nafn þess og lög að vera á hreinni íslenzku«[4]. Það lítur svo út sem áskorun þessi hafi hrifið, eða að minnsta kosti eru hin nýu lög félagsins á íslenzku: Lög skotfélags Reykjavíkur s. a. (Rkv. 1880). Í Keflavík er líka skotfélag eptir því sem eg veit bezt. Það fór líka af stað á dönsku. »Keflavík og Omegns Skytteforenings Vedtægt, den 27de December 1870« er prentuð í Rkv. af Einar Thordersen, og er eitt blað í fjögrablaðabroti á margulum pappír, en svo sneri það við blaðinu eða að minnsta kosti eru »Lög skotfélagsins í Keflavík og nágrenni hennar«, prentuð í Rkv. 1873, á íslenzku, eins og titillinn ber með sér. 1876 stofnuðu Lángnesíngar skotfélag í þeim tilgángi að afla sér framfara í skotlist, »en það fyrirtæki mun hafa náð litlum viðgángi«.

Loksins má geta þess að það var samþykt á fundi Framfarafélags Akureyrínga 15. desember 1879, að skotfimi væri kend í félaginu, hvort sem nokkuð hefir orðið úr því[5].

Öll vopnfimi önnur en skot er lögð niður á Íslandi fyrir lifandi laungu, og er svo sagt að Ögmundur sterki á Auðsholti í Árnessýslu bæri seinastur vopn allra Íslendínga[6]. Ögmundur var uppi um miðja 16. öld.

---

[1] Bendíng þessi er frá Pálma Pálssyni.

[2] Ættartölubækur Jóns Espólíns. Hrs. Bmfj. 14. 4to; bls. 5340.

[3] Mér er ekki ljóst hvenær félag þetta var stofnað. Í seinustu greininni í »Love for Reykjavik Skytteforening. Reykjavik 1871« er kveðið svo á, að allar eldri ákvarðanir um félagið skuli falla úr gildi 1. mars 1871, en lög þessi koma í staðinn. Félagið hefir því verið stofnað fyrir 1871.

[4] Þjóðólfur XXVII; bls. 23.

[5] Norðanfari XVI, bls. 43. XVII; nr. 42—44.

[6] Ættartölubækur Jóns Espólíns, nr. 15; bls. 5882.

Fyrir liðungum 30 árum feingust þó Vestmanneyíngar talsvert við vopnaburð, að gamni sínu. Svo stóð á að nýr sýslumaður kom þángað, sem Kohl hét eða von Kohl, danskur maður. Hann hafði áður verið herforíngi og tók upp á því að kenna Vestmanneyíngum hermennsku, óðara en hann kom þángað. Stjórnin gaf eyarskeggjum 60 dátabyssur og önnur hertýgi að því skapi, og þegar æfíngarnar stóðu í blóma sínum, tóku alt að 90 manns þátt í þeim og hafa það víst verið flestir kallmenn í eyunum, sem vettlíngi gátu valdið, enda höfðu Vestmanneyíngar hina mestu skemtun af þessu uppátæki. Þeir buðu Reykvíkíngum flokksforíngja, til að kenna þeim vopnaburð, og tók Jón Guðmundsson vel í það í Þjóðólfi, en það hefir víst einhvernveginn farizt fyrir, því ekki hefir heyrzt að Reykvíkíngar hafi feingizt við slíkt[1].

Í Grímseyarlýsíngu séra Jóns Norðmanns[2] er þess getið að únglíngar þar æfi sig í að berjast og verjast með stórum spýtum, og er líklegt að þeir hafi gjört það í því skyni að vera ekki varbúnir við Tyrkjanum, ef hann kynni að rekast þángað. Það er annars skrítið, að þessar heræfíngar, ef svo má segja, skuli aðeins hafa átt sér stað í Vestmannaeyum og Grímsey, en ekki annarstaðar á Íslandi á seinni dögum.

## 2. GREIN.

### LEIKIR.

Í daglegu tali eru svo að segja allar skemtanir vorar opt kallaðar leikir einu nafni, og kemur það heim við sögnina: að leika sér. Únglíngar segjast leika sér, hvort sem þeir fara í skollaleik, flá kött, stökkva, reyna sig eða búa til leggjalaup, og eru þó ýmsar af skemtunum þessum mjög ólíkar. Það hefði því mátt verja það frá mállegu sjónarsviði, að kalla allar skemtanir þessar leiki og allar skemtanir þær sem eru í sömu áttina. En þá hefði það lent saman, sem var mjög óskylt, og þessvegna hefi eg kosið, að nefna aðeins eina grein skemtana leiki, en skipað öðrum «leikjum» t. d. strokkleik, lífleik, giptíngaleikjum o. s. frv. annarsstaðar í safni þessu, þar sem það átti bezt heima[3].

Eins og drepið er á í inngánginum[4], er það sameiginlegt fyrir alla leiki, að þar er einhver líkamleg hreyfíng eða áreynsla merguriun málsins, en að öðru leyti eru þeir mjög misjafnir og ólíkir. Sumir eru að vísu svo

[1] Þjóðólfur Viðaukabl. við. IX. nr. 18; bls. 2 (1857). XI; bls. 22—23. Sbr. Norðri V; bls. 132

[2] Hrs. Bmfj. 21 fol. Lýsíngin er frá 1847, á að gizka.

[3] Það sem helzt einkennir leiki, og greinir þá frá listunum, sem annars eru skyldastar þeim, hefi eg tekið fram fremst í listakaflanum.

[4] Sbr. bls. 33.

skyldir, þegar litið er á aðalatriðið í þeim, að hægt er að skipta þeim niður, eptir efni t. d. felíngaleikir, en margir eru aptur einir sér og svo ólíkir, að eg hefi ekki séð mér fært að skipa þeim niður eptir vissri röð og raðað þeim þessvegna alveg eptir handahófi.

Fyrst skal eg þá minnast á felíngaleikina ef svo má segja, þar sem felíngaleikur er annað nafn á feluleik, eins og þar segir, en eg hefi mér það til málsbóta, að allir leikir, þar sem sumir leikmenn fela sig en sumir leita, eru opt kallaðir feluleikir eða felíngaleikir einu nafni. Eg hefi t. d. heyrt kóngsleik kallaðan feluleik og er hann þó allólíkur óbrotnum feluleik. Það er þegar drepið á hvað einkennilegt er fyrir leiki þessa, enda liggur það í nafninu[1].

**Feluleikur** er allra leikja algeingastur og óbrotnastur. Einn leikmanna grúfir sig niður eða heldur fyrir augun á sér[2], en á meðan fela hinir sig. Áður en leikurinn byrjar koma leikmenn sér saman um, hve leitarmaðurinn eigi að gefa þeim lánga tómstund til að fela sig. Hann á t. d. að telja til 150, eða kveða svo og svo margar vísur. Þegar tími er til kominn, fer leitarmaðurinn að leita og á ekki að hætta fyr en hann hefir fundið alla, en það vill opt gánga skykkjótt, þegar við brögðótta er að tefla. Að réttu lagi mega menn ekki flytja sig þaðan sem þeir hafa falið sig, en opt er það þó brallað.

Felíngaleikur er nefndur í Þjóðs. J. Árn.[3] Það er auðsjáanlega sami leikurinn[4].

**Að skipta liði.** Leikmenn geta verið svo margir sem vill. Þeir skipta sér í tvo flokka. Annar flokkurinn heldur fyrst kyrru fyrir á einhverju tilteknu svæði, sem opt er mjög stórt. Þegar líklegt er að felumennirnir séu komnir í felur, fara hinir að leita. Felumenn láta þá, sem eru liprastir af þeim, njósna um hvað leitarmönnum líður og flytja sig úr einum stað í annan, ef þess er kostur, þegar leitarmennirnir nálgast þá, svo leikurinn getur opt staðið tímunum saman. Næst fela þeir sig sem leituðu og svo koll af kolli[5].

---

[1] Sumum þykja ef til vill leikir þessir koma illa heim við það, sem eg hefi sagt að væri sameiginlegt fyrir alla leiki, áreynsla og hreyfíng. Það er satt, að flestir leikmenn reyna hér venjulega lítið á sig, sitja kyrrir í felunum, þar sem þeir hafa holað sér niður, en á hinn bóginn er leitarmaðurinn, sem hefir vandamest hlutverk á hendi í leikjum þessum, á sífelldri hreyfíngu og einlægum erli.

[2] Stundum er þó búið betur um hnútana. Sbr. Þjóðs. J. Árn. I, bls. 407.

[3] I; bls. 490.

[4] Guðbrandur Vigfússon segir i orðabók þeirra Cleasby's undir orðinu leikur að J. Ól. lýsi felíngaleik. Jón gjörir það ekki.

[5] Eptir sögn Mórizar læknis Halldórssonar-Friðrikssonar.

**Kóngsleikur.** Fyrst er ákveðinn einhver staður og er hann nefndur **kóngsstóll eða kóngssæti.** Einhver leikanda sezt á stólinn og er sá nefndur **kóngur.** Kóngurinn grúfir sig niður í stólinn eða heldur fyrir augun á sér og tautar fyrir munni sér: [Eg fyrirbýð öllum kóngsstól[1], utanlands og innan, nema kónginum sjálfum[2]. Á þessu stagast hann fáeinar mínútur[3]. Á meðan fela hinir leikmennirnir sig sem bezt þeir geta, en þó svo, að sem hægast sé að komast á kóngstólinn. Þegar kónginum þykir líklegt að allir séu komnir í felur, rís hann á fætur og fer að leita[4]. Ef einhver hefir ekki haft tíma til að fela sig, þá segir kóngurinn við hann: Eg fyrribýð þér [kóngsstól[5], og er sá úr þeim leik. Sama segir kóngurinn við alla þá, sem hann verður var við, en ef einhverjum auðnast að komast í kóngsstólinn svo hann viti ekki af, þá er kóngur úr tigninni, en sá kemst aptur til valda, sem komst í sætið, eða sá sem komst fyrst í það, ef um fleiri en einn er að ræða. J. Árn. segir að sá sem kemst í stólinn segi: Kominn í kóngstól. Ef einginn kemst í sætið, þá stjórnar kóngurinn eptir sem áður og er opt erfitt að steypa honum.

Á blaði frá J. Árn. stendur, að ef fleiri en einn komist í kóngsstólinn í einum leik, þá falli sá leikur niður og haldi sá sami konúngstign eptir sem áður, þángað til ekki geti nema einn ríkiserfíngi komið til greina. Sama segir M. G. Þessi aðferð virðist þó vera óeðlilegri en hin. Magnús Magnússon, stud. theol. segir mér, að kóngsleikur sé kallaður kóngsstólaleikur á Vesturlandi; sama segir G. E., en M. G. kallar hann konúngaleik.

**Dúfuleikur** er tvennskonar, eptir því sem er að ráða af þessum sex lýsíngum sem og hefi komizt yfir. Hvort sem er, geta verið í honum svo margir sem vilja. Einn er dúfa, annar er vökumaður. Hinir eru úngar dúfunnar. Dúfan leggst til svefns og grúfir sig niður. Vökumaðurinn á að gæta únganna á meðan. Þegar dúfan er sofnuð fara úngarnir hver í sína áttina og fela sig, en á meðan talast vökumaður og dúfan við á milli dúranna. «Sefur, sefur dúfa»? spyr vökumaður. «Já»[6] segir

[1] á kóngsstólinn komast. V. G.

[2] Fyrirbýð eg öllum mönnum utanlands og innan, ríkum og fátækum, voldugum og vesælum í minn[a] kóngsstól að koma, utan mér kónginum sjálfum. G. E. Eg fyrirbýð öllum mönnum í kóngshöll (úr Borgarfirði).

[3] Jónas Jónsson segir, að kóngurinn eigi að telja tvisvar tuttugu eða kveða tvær vísur, eftir samkomulagi.

[4] J. J. segir, að kóngurinn segi um leið og hann standi upp: Einginn skal í kóngssætið komast, nema kóngurinn sjálfur.

[5] Sleppir V. G. M. G. lætur kónginn þegja þángað til hér er komið sögunni, en þá lætur hann hann segja: Eg fyrirbýð þér í konúngsstól að komast.

[6] Dr. Jón Þorkelsson yngri lætur dúfuna ekki svara hrafninum með öðru en spyrja hvað tímanum liði. Það verður strax talað um hrafninn.

[a] J. Árn. bætir hér inn í: herra.

dúfan. «Hvað er orðið framorðið?» «Það er kominn miður morgunn» segir vökumaður. «Bezt er þá að sofa» segir dúfan. Skömmu seinna talast þau aptur við og fer alt á sömu leið, nema vökumaður segir, að nú séu dagmál. Svona geingur það koll af kolli. Vökumaður fetar sig alt af fram eptir eyktunum, þángað til hann sér að allir úngarnir hafa falið sig. Þá vekur hann dúfuna ennþá, og segir henni hve framorðið sé, eins og áður, en bætir því við að nú sé mál að vakna. Hann segir t. a. m.: «Nú eru komin náttmál[1] og mál að vakna». Dúfan unir illa úngahvarfinu og barmar sér mjög, fer þó að leita og hættir ekki fyr en hún hefir fundið alla úngana.

V. G. og Jón Þorkelsson láta þann, sem á orðastað við dúfuna, vera hrafn. Eptir því sem V. G. segir, rumskast dúfan og spyr úngana að fyrra bragði: «Hvað er orðið framorðið?» en hrafninn verður fyrir svörum og svarar eins og áður er sagt. Þegar dúfan er sofnuð aptur fer hrafninn til eins úngans og segir.

Eg skal gefa þér gull í skel,
eg skal gefa þér silki í stél.

Unginn trúir þessu eins og nýu neti og lýkur svo viðskiptum þeirra krumma, að hann fer á burt með úngann og felur hann. Svona geingur koll af kolli. Hrafninn breytir til um eyktirnar og læðist á burt með hvern úngann eptir annan, þángað til hann hefir séð fyrir þeim öllum. Þá vaknar dúfan fyrir fult og alt og fer að leita að úngunum.

Í Hrs. J. Sig. 282. Svo er leikurinn nefndur Rúðuleikur[2] og spyr vökumaður þar: «Sefur, sefur Rúða?». «Sefur Rúða» svarar hún og spyr hve framorðið sé o. s. frv. Þegar vökumaður svarar að nú sé miðaptan, segir Rúða: «Þá má ekki sofa leingur» og rís á fætur. En á meðan Rúða svaf, hefir vökumaður skotið úngunum undan og fer hún að leita að þeim.

Hinn dúfuleikinn verður að leika úti. Fyrst marka leikmenn svið. Því næst er bundið fyrir augun á dúfunni, svo hún sér ekkert. Dúfan sofnar nú eins og áður. Skömmu seinna kemur einn únginn, klappar á öxlina á dúfunni og segir: «Sefur, sefur dúfan?». «Já». «Er orðið framorðið?». «Nei» svarar únginn. «Óhætt er mér að sofa enn», segir dúfan. Að litilli stundu liðinni vekur únginn dúfuna aptur og segir: «Sefur, sefur dúfan, sefur hún enn?». «Já», segir dúfan í svefnrofunum. «Er orðið framorðið?» Barnið romsar upp öll eyktamörkin, til að sýna dúfunni, hve hún hafi sofið leingi og bætir aptan við: «Öll börnin eru komin í sjóinn, nema eitt sem er að flækjast í brimgarðinum. Stattu upp og flýttu þér». Þá stekkur dúfan

[1] G. E. segir, að það sé viss passi, að dúfan vakni við náttmál. Hann lætur dúfuna spyrja milli svefnrofanna: «Hvað er framorðið. Eru úngar mínir kyrrir?» (J. Árn.)

[2] J. Árn. nefnir rúðuleik eptir handr. Dr. Hallgríms Schevings. G. E. þekkir líka nafnið. (J. Árn.).

upp með andfælum og fer að leita að úngunum, en það er einginn hægðarleikur að finna þá, því þeir mega fara innan um alt sviðið. Þó segja sumir að þeir verði að standa kyrrir og megi aldrei hreyfa sig svo mikið, að þeir fari úr báðum sporum[1].

J. Ól. segir, að skollaleikur og dúfuleikur sé sami leikurinn, en nú er þeim að minnsta kosti aldrei ruglað saman.

J. Árn. lýsir dúfuleik talsvert öðruvísu en áður hefir verið sagt. Hann segir að leikmenn séu að eins þrír, sá ýngsti sé dúfa, sá elzti hrafn en sá þriðji úngi dúfunnar. »Dúfan leggst í laut milli þúfna. Það er kallað hreiður og kúrir únginn þar undir væng hennar, þ. e. hann stíngur höfðinu inn undir handkrika dúfunnar. Þá kemur hrafninn og segir: »krúnk, krúnk«. Við það vaknar dúfan og segir: »Hvað er framorðið?«. Hrafninn svarar: »Um miðjan morgun«. Dúfan: »Sofa meigum við enn únginn minn«. Að svo mæltu sofnar dúfan aptur. Í næsta skipti fer alt á sömu leið, nema hrafninn segir það sé um dagmál. Þegar dúfan er sofnuð, vekur hrafninn úngann með hægð og segir: »Komdu með mér únginn minn, eg skal gefa þér gull í skel«. Únginn lætur gabbast af þessu og fer með honum. Hrafninn fer svo með úngann í eitthvert fylgsni og segir: »Bíddu hérna únginn minn, meðan eg sæki þér gull í skel«. Síðan fer hann aptur til dúfunnar og krúnkar. Dúfan vaknar og spyr hve framorðið sé. Hrafninn: »Um hádeigi«. Dúfan: »Þá er okkur mál að vakna, únginn minn«. En þegar hún vaknar, saknar hún úngans, fer að leita hans með harmatölum og segir altaf í sífellu: »Hvar er únginn minn, æ únginn minn, komdu únginn minn«. Hrafninn læzt vera að leita með henni en villir hana raunar sem kænlegast hann getur. Þegar útséð er um það, að dúfan ætlar ekki að finna úngann, kemur hann stundum sjálfur í leitirnar, af því honum fer að leiðast að bíða eptir hrafninum. Tekur dúfan hann þá heim í hreiðrið og spyr hann, hvað hann hafi verið að fara. Únginn segir dúfunni þá af aðförum hrafnsins, og að hann hafi lofað sér gulli í skel. Dúfan heimtar þá gullið af hrafninum og segir: »Eg vil hafa gullið, sem þú lofaðir únganum«, en krummi hefir allskonar undanbrögð, svo að dúfan sér að þetta er alt gabb úr hrafninum; varar hún þá úngann við hrafninum að láta hann ekki blekkja sig framar og segir að krummi ætli að éta hann. Stundum byrjar leikurinn að nýju, en venjulega leitar dúfan ekki optar en tvisvar að únganum, þó hann láti í þriðja sinn tælast af hrafninum«.

**Blindkrækluleikur** er að því leyti ólíkur hinum felíngaleikjunum, að þar er leitarmaðurinn blindandi. Leikmenn setjast niður á víðavángi, allir nema einn, og má einginn færa sig þaðan sem hann hefir sezt. Þó er leyft að víkja

[1] Þessi seinni útgáfa er tekin eptir blöðum frá J. Árn., úr Rángárvallasýslu.

líkamanum til á alla vegu, standa upp o. s. frv.[1] Þegar allir eru komnir á laggirnar er farið með þann, sem ekki settist, út á mitt sviðið og bundið fyrir augun á honum svo hann sjái ekki minnstu skímu. Hann er þá orðinn blindkrækla. Sá sem blindaði kræklùna snýr henni nokkrum sinnum í snarkrínglu, til þess að hún ruglist í áttunum og fer svo aptur til sætis síns, en blindkræklan fer að leita að náúnganum og á ekki að hætta fyr en hún hefir fundið alla.

Blindkræklan á erfitt uppdráttar, þar sem hún er steinblind og rugluð í ríminu þar á ofan. Kostar hún því kapps um að koma setumönnum til að gjöra vart við sig. Hún hefir t. d. í frammi ýms skrípalæti í því skyni að koma þeim til að hlægja og rennur svo á hljóðið, ef það tekst. En það er ekki alt búið, þótt hún nái einhverjum, því hún verður að segja hver það sé. Annars er alt ónýtt.

G. D. kallar leik þenna öðru nafni setuleik. Eg man ekki eptir því nafni og held að það sé spánnýtt. V. G. segist líka hafa heyrt hann nefndan blindíngsleik eða þúfuleik, af því leikmennirnir sælist til að sitja eða standa á þúfum. Guðmundur Andrésson talar um krækisblindu[2], en séra Benedikt Jónsson og J. Ól. um krækilblindu. J. Ól. segir að það sé sama sem skollaleikur. Krækilblinda og blindkrækluleikur er alveg sama nafnið, en leikur þessi alt öðruvísi en skollaleikur. Ef það er rétt hermt af Jóni, að skollaleikur hafi líka verið kallaður krækilblinda á hans dögum, þá liggur nærri að geta þess til, að blindkrækluleikur hafi komið upp, eptir að hann samdi leikjalýsíngar sínar.

Séra Guðm. Jónss. minnist á blindíngsleik og telur hann til hættulegra barnaleikja[3]. Einn leikmanna er blindíngur og er bundið fyrir augun á honum. Annars er ómögulegt að sjá hvort presturinn á við skollaleik eða blindkrækluleik, því hann segir bæði að börnin hafi hlaupið um kring í húsagarðinum og að blindíngurinn hafi hugsað með sér: þarna hafa þau (börnin) falið sig.

Þá eru þrír leikir, skollaleikur, saltabrauð og útburðsleikur, sem teingja saman felíngaleikina og eltíngaleikina, því þar koma bæði fyrir felur og eltíngar. Skollinn í skollaleik er blindandi og kippir skollaleik því talsvert í kynið til blindkrækluleiks, enda hefir þeim verið blandað mjög saman, eins og bráðum verður sýnt fram á.

[1] G. D. segir að setumennirnir megi að eins snúa sér einu sinni við eða færa sig til um eitt spor, ef þeir standa í leiksbyrjan. Ef þeir hreyfi sig meira séu þeir rækir úr leiknum í það skipti.

[2] Lexicon Islandicum. Havniae. 1683.

[3] Sumargjöf handa börnum; bls. 121.

**Skollaleikur eða skollablinda.** Í skollaleik geta verið svo margir sem vilja. Hann er optast leikinn úti og er þá fyrst haslaður völlur. Því næst er bundið fyrir augun á einum leikmanna, svo hann geti ekkert séð, og er hann nefndur skolli. Hinir sem eru í leiknum fara til hans hver eptir annan[1], taka í hendina[2] á honum og segja: »Er skolli heima?«. »Heima segir hann sig« svarar skolli. »[Skítur í hverju landshorni kæfi þig og kerlínguna þína«[3] segja leikmenn. Aðrir segja:

Klukk,[4] klukk[5] skolli[6],
[skellur í hverju horni[7]
Aldrei skaltu mér ná,
[fyr en í kvöld um sólarlag,
þegar þú drepur[8] hestinn þinn
og þig sjálfan þar[9] á[10].

Þegar allir hafa heilsað skolla, hleypur hver í kapp við annan út á leiksviðið, en skolli á eptir og reynir til að handsama sem flesta. Ef skolli álpast út fyrir sviðið, þá er honum gjört aðvart, en ef öðrum verður það á, af ótta fyrir því, að skollinn nái þeim annars, þá eru þeir brendir[11], eða missa rétt til að vera leingur í leiknum.

---

[1] G. D., M. G. og Sæm. Ey. segja, að aðeins einn eigi orðastað við skolla.
[2] Í blöðum af Suðurlandi frá J. Árn. segir, að optast sé klappað á öxlina á skolla.
[3] »Lukkan leiði þig«, Guðmundur Magnússon, stud. med. Skítur í hverju horni blandkæfi þig. Sigurður L. Jónasson.
[4] J. Ól. getur þess til að »klukk« sé komið af þýzka orðinu: Gluck, hamíngja. Eptir því byrjar formálinn á heillaósk til skolla.
[5] þér, úr Borgarfirði.
[6] í kolli, Bogi Melsteð.
[7] sleppir. M. G.
[8] þótt þú spreingir M. G.
[9] sleppir, M. G.
[10] Blöðin af Suðurlandi. J. Ól. hefir eingan formála og er skrítið. Jóhann Pétursson frá Hákoti, syðra, hefir formálann svo:

Klukk, klukk skolli.
Aldrei skaltu mér ná
fyr en á miðjum morgni.

Annars lýsir Jóhann leiknum líkast því sem eg lýsi blindkrækluleik og þykir mér líklegast að það fari eitthvað millum mála. Sbr. þó J. Ól. G. E. hefir formálann þannig: Klukk, klukk skolli minn, aldrei skaltu finna mig fyrir sólarlag í kvöld. Hann þekkir líka aðra útgáfu af formálanum, þar sem önnur línan er: Skítur í hverju horni.
[11] M. G. er sá eini sem skýrir hvað það er að vera brendur: »Tveir menn leggjast niður á flöt, á bakið, svo að þeir spyrna iljum saman. Skal þá sá, er brenna skal,

Þegar skolli nær einhverjum klukkar hann hann eða klappar á bakið á honum[1] og segir: [Klukk, klukk[2] á herðar þínar, sittu kyr í [holu þinni[3] og komdu aldrei meir [þángað til á morgun[4]; verður sá að fara út fyrir leiksviðið nauðugur, viljugur og er úr leiknum. En ef skolli klappar ekki á öxlina á þeim, sem hann nær, einhverra orsaka vegna, þá er sá í leiknum eptir sem áður. Jónas Jónsson segir að skolli láti þá, sem hann nær, kjósa um hvort þeir vilji heldur vera sínir menn eða deya. Ef þeir vilji heldur vera menn skolla, þá sé bundið fyrir augun á þeim, og hjálpi þeir svo skolla til að ná úr því, en annars séu þeir úr leiknum. Eg þekki ekki þessa aðferð í skagfirzkum skollaleik og er hræddur um, að hún sé tíðari í öðrum leikjum, eins og seinna mun sagt verða.

Það sem eg hef heyrt kallað, að heilsa skolla, er kallað að vígja skollann í Borgarfirði. Einhver leikmanna klappar á axlirnar á skollanum (»krukkar« hann) og segir:

Krukk, krukk skolli,
skítur í hverju horni.
Aldrei skaltu mér ná,
fyr en dauður er hesturinn hinn
og þú sjálfur þar o'ná.

Eins verður skolli að krukka þá, sem hann nær í leiknum, og segir við þá: »krukk, krukk, krukk!«[5]

Opt er skolli hvektur með ýmsu móti, en þó má það ekki keyra fram úr hófi. Það þykir t. a. m. illa gjört að bregða fyrir hann fæti, og setja sumir þau lög, að þeir sem gjöra sig seka í því og öðru eins, séu rækir úr leiknum[6].

Þegar skolli hefir náð öllum, er leiknum lokið, en stundum gefst hann upp áður og þykir hann þá hafa farið litla fremdarför.

J. Ól. segir að ef fleiri en einn leikur sé leikinn, þá verði sá skolli í næsta leik, sem náðist annaðhvort fyrst eða seinast í seinasta leik, eptir

---

hlaupa yfir fætur þeim, en þeir slá upp fótunum svo hart og títt sem þeir geta, og eiga þeir þá að geta felt þann, er yfir hleypur, og ef hann fellur, er hann brendur, en komist hann af, þá er hann skýr eða sýkn saka.«

[1] þrysvar segja sumir t. d. Bogi Melsteð.

[2] Blöðin frá J. Árn. og G. E. hafa ekki meira en þessi tvö orð af öllum formálanum, en J. Ól. að eins: »Klukk, klukk þér«.

[3] horni þínu, V. G., Bogi Melsteð.

[4] þessu bætir V. G. við.

[5] Sæmundur Eyúlfsson.

[6] J. Ól. segir að stundum læðist þeir, sem skolli er að ná, að honum, þegar hann sé óviðbúinn, klappi á öxlina á honum og segi: klukk, klukk þér skolli.

því sem hafi verið talað um áður en byrjað var. Jónas Jónsson segir að skollaröðin fari eptir aldri. Aptur hefi eg ekki vanizt neinni fastri reglu um röðina á skollunum.

J. Ól. segir að skollaleikur heiti öðru nafni dúfuleikur, blindíngsleikur[1] eða krækilblinda, af því það sé eins og skollinn kræki þá að sér með fíngrunum sem hann nær. Guðmundur Andrésson nefnir krækisblindu[2] og ber lýsíng hans með sér að alt er sama tóbakið[3]. Aptur er krækiblinda nefnd í orðabók Guðmundar Ólafssonar[4] og er svo að sjá þar, sem það sé sama sem blindisleikur. Séra Jón Ýngvaldsson og G. E. segja skýlaust að skollaleikur og blindíngsleikur sé það sama[5].

J. Ól. minnist líka á leik, sem heiti halti fjandi og segist halda, að hann sé líkur skollaleik, en hann muni vera danskur. Eg hefi hvergi séð getið um þann leik annarsstaðar.

Skollaleikur er með algeingustu leikjum á Íslandi, eða að minnsta kosti á Norðurlandi. Einkum eru það börn sem leika hann, eins og alla þessa leiki yfir höfuð, en þó ber það einna optast við að fullorðnir menn fari í skollaleik og líklega hefir það verið fullorðinn maður, sem orti húsgánginn:

Kaffibolla beindu mér,
blíð og holl gulls eikin,
því að hrollur í mér er,
eptir skollaleikinn.

Þess má geta að spurt er að, hvort skolli sé heima, þegar í Laxdælu[6]. Alkunnugt er líka að Torfi í Klofa spurði, hvort skolli væri inni, þegar hann sótti heim Stefán biskup í Skálholti[7]. Aðrir segja að Eiríkur Haldórsson í Álptanesi hafi spurt að skolla, þegar hann veitti atför Páli Jónssyni á Skarði 1498[8]. Eg skal láta ósagt, hvort ávörp þessi eiga nokkuð skylt við skollaleik.

---

[1] Sbr. Kvæði Stefáns Ólafssonar, I. Kmh. 1885; bls. 35 og Kvæði Eggerts Ólafssonar. Kmh. 1832; bls. 134. Blindíngsleiknr er líka nefndur í sóknarlýsingu Breiðdalssóknar 1873. Eg veit ekki hvort þar er átt við skollaleik. Sbr. blindkrækluleik.

[2] Lexicon Islandicum. Havniae. 1683. Sama nafn er í þýðingu á Crymogæa sbr. bls. 6.

[3] Sbr. bls. 106.

[4] Hrs. Bmfj. 77 fol.; bls. 195. sbr. bls. 5.

[5] Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 202—3.

[6] Hafniæ. 1826; bls. 278.

[7] Safn til sögu Íslands. I; bls. 52. Árbækur Espólíns. III; bls. 13. Þjóðs. J. Árn. II; bls. 132—3.

[8] Árb. Espólíns. II; bls. 131. Sbr. Dr. Jón Þorkelsson ýngri: Om Digtningen på Island i det 16. og 17. Århundrede. Kmh. 1888; bls. 276.

**Saltabrauð eða saltabrauðsleikur**[1]. Saltabrauð er mjög svipað kóngsleik. Stóllinn heitir saltabrauð og sá, sem situr í því, fyrirbýður öllum saltabrauð utanlands og innan. Annars fer saltabrauð fram hér um bil eins og kóngsleikur, en þó þarf brauðráðandinn meira til að geta »fyrirboðið« en að sjá þá sem eru að keppa við hann, því jafnskjótt og hann sér einhvern þeirra, taka báðir á sprett að saltbrauðinu. Ef brauðráðandinn verður fyrri til að klappa á saltabrauðið og segja: »Saltabrauð fyrir mig«[2], þá heldur hann því, eptir sem áður, en hinn hefir hlaup og lítil kaup. Að öðrum kosti fær keppinautur hans brauðið, eða sá þeirra, sem helgaði sér það fyrstur, ef um marga er að gjöra. Páll Bjarnarson, stud. med. hefir líka heyrt leik þenna kallaðan sætabrauð fyrir austan.

V. G. telur kóngsleik og saltabrauð sama leik, en það er víst, að þeir eru ekki alveg eins, og heita hvor sínu nafni.

**Útilegumannaleikur**. Fyrst er mörkuð mannabygð og svo stöðvar útilegumanna. Mannabygðin er venjulega tópt eða eitthvert útihús, eða þá bæardyr. Leikmenn geta verið svo margir sem vera skal, en valla eru þeir færri en þrír. Einn er valinn útilegumaður og verður sá optast fyrir kjörinu, sem sterkastur er. Hann felur sig og meiga hinir ekki horfa á á meðan. Þegar útilegumaður er kominn í felurnar fara bygðarmenn til fjárleita, en fara þó varlega, því þeir vita að útilegumaður er á næstu grösum. Þegar einhver af bygðarmönnum verður var við útilegumanninn, hrópar hann: »Útilegumaður fundinn«, og forðar sér þvínæst til bygða, svo fljótt sem auðið er. Hinir bygðarmennirnir hlaupa líka til bygða, eins og fætur toga, jafnskjótt og þeir hafa feingið vitneskju um útilegumanninn. Hann kostar aptur kapps um að ná sem flestum bygðarmönnum á sitt vald. Þegar hann hefir orðið þess áskynja að allir bygðarmenn eru farnir að heiman, þá reynir hann til að komast í dyr þeirra og hefur árás sína þaðan, þegar hinir drífa að; fer þá valla hjá því að hann nái einhverjum. Þeir sem hann nær eru skyldir að ganga í lið með honum. Ef útilegumaður nær ekki öllum í fyrsta skipti, þá felur hann sig aptur og félagar hans; sér útilegumaður þá um að þeir feli sig ekki allir saman, heldur á víð og dreif og skipar liði sínu, yfir höfuð að tala, svo haganlega sem auðið er. Svona geingur þángað til útilegumaður hefir náð öllum bygðarmönnum á sitt vald og er þá leiknum lokið. Þess má geta að ef bygðarmenn sjá, að þeir geta ekki komizt til bygðar sinnar, áður en útilegumenn hafa náð þar fótfestu, þá meiga þeir velja sér vígi, þar sem þeir vilja og verjast þaðan. Einginn kemst á vald útilegumanna, nema þeir nái svo

[1] Jónas Jónsson.

[2] J. J. segir að brauðráðandinn nefni nafn sitt, segi t. d.: »saltabrauð fyrir Árna«, Pétur o. s. frv.

föstu taki á honum, að hann geti ekki slitið sig af þeim. Það verður líka að taka það fram, að ef útilegumanni tekst að komast í dyr bygðarmanna, þá er hann skyldur að gjöra félögum sínum vart við[1].

Þrír seinustu leikirnir hafa verið eltíngaleikir í aðra röndina, en nú, koma til sögunnar nokkrir leikir, sem bera nafn þetta ennþá betur með rentu, því þar geingur ekki á öðru en hlaupum og eltíngum, eða að minnsta kosti er undir því komið að vera frár á fæti. Eg hefi ekki orðið var við, að nokkur sérstakur leikur væri kallaður eltíngaleikur, en orðið er algeingt og haft[2] um eltíngar, einkum ef sá sem veitir eptirförina á erfitt með að ná þeim sem sækir undan.

**Skessuleikur** er á sex vegu, eptir því sem eg veit bezt. Allir fara þeir fram úti og í öllum geta verið svo margir sem vilja.

Í fyrsta skessuleiknum er einn leikmanna skessa, annar bóndi. Hinir eru allir börn bónda. Skessan býr í helli skamt frá bæ bónda. Leikurinn byrjar á því, að bóndi situr úti á hlaði og krakkahópurinn í kríngum hann. Skessuna ber þar að. Hún er draghölt og mjög vesældarleg. Skessan heilsar bónda og getur þó varla komið upp orði fyrir aumíngjaskap. »Heill og sæll bóndi«, segir hún. »Heil og sæl kellíng«, svarar bóndi. »Ílt er mér í lærinu mínu enn«. »Og eg vænti þess«. Nú þeigja bæði dálitla stund, þángað til bóndi segir: »Hvar fórstu yfir ána í morgun«? »Á hundavaði«. »Var hún djúp?«. »Hundi í lagklauf«. »Það rauk snemma hjá þér í morgun«. Alt til þessa hefir skessan verið svo mjóróma, sem hún mögulega gat, en nú byrstir hún sig og spyr aptur: »Rauk snemma hjá mér í morgun?«. »Hvað varstu að sjóða?« spyr bóndi. »Laxana mína feitu«, svarar skessan og gjörir sig svo blíða í málinu, sem auðið er. »Gafstu börnunum þínum nokkuð af þeim?« spyr bóndi. »Gaf eg börnunum mínum nokkuð af þeim?« segir skessan hryssíngslega, »Skít og skófir og alt sem verst er í koppi kellíngar á hurðarbaki«[3]. Þvínæst setur hún aptur upp silkiróminn og segir: »Barn bóndi«. »Og þú færð ekkert barn«. Skessan biður enn betur, en bóndi neitar aptur. Þetta geingur dálitla stund. Skessan jamlar um barn og verður altaf aumíngjalegri í málrómnum. Bóndi kennir loksins í brjósti um hana, bendir á eitthvert barnið og segist halda að hann verði að gefa henni þetta barn. Skessan heldur af stað með það, til hellis síns og er þá miklu mannborlegri en áður og stíngur valla við. Skömmu seinna kemur hún aptur og fer alt á sömu leið, þángað til bóndi hefir feingið henni öll börnin. Seinast kemur skessan til

---

[1] Eptir hdr. Björgvinar skólapilts Vigfússonar frá Hallormsstað. (Frá Pálma Páls.)
[2] t. d. Þjóðs. J. Árn. II; bls. 43, 94.
[3] Sbr. Hvar býr Nípa.

bónda og spyr hann, hvort hann vilji ekki sjá börnin sín. Bóndi fellst á það og fer með henni í hellinn. Þar liggja þá öll börnin í hrúgu og hræra hvorki legg né lið, eins og þau séu steindauð. Bóndi verður bæði hryggur og reiður og ræðst á skessuna. Hann kemur henni undir, seint og síðar meir, og segist skuli drepa hana, ef hún lífgi ekki börnin aptur. Skessan þorir ekki annað og lífgar þau öll. Þá er leiknum lokið[1].

Annar skessuleikurinn byrjar á þann hátt, að leiksviðinu er skipt í tvent, eptir beinni línu, og er skessan öðrum meginn við merkjalínuna en börnin hinum meginn. Jötunheimar eru öðrum meginn en Mannheimar hinum meginn. Bóndi er einginn. Í leiksbyrjan stendur skessan fast við merkjalínuna, sín meginn, og geingur svo í hægðum sínum inn í Jötunheima í beina stefnu frá línunni. Jafnframt tautar hún þetta fyrir munni sér, svo að börnin heyra: »Skessa svaung, skessa svaung« o. s. frv. Börnin elta hana í einni halarófu og kveða:

Skessa svaung,
ljót og laung,
larfahaung,
hefir gaung
heldur þraung,
horbaung.
Við aflafaung,
opt raung,
er hún straung;
með sultarsaung,
svaðiltaung,
svikabaung[2].

Þegar skessan þykist vera komin nógu lángt snýr hún sér alt í einu við og og klófestir þá sem gánga næstir henni, nema þeir séu svo fljótir að snúa sér við og hlaupa undan, að þeir komist yfir merkjalínuna, áður en hún nær þeim. Þá hefir hún ekkert vald yfir þeim í það skipti, því hún má ekki fara inn í Mannheima. Fari skessan yfir merkjalínuna, er hún brend. Hún er þá ekki skessa leingur og leiknum er lokið. Ef skessan nær einhverjum, þá á sá að gánga í lið með henni. Skessan og fylgifiskar hennar fitja nú upp á nýjan leik og þetta geingur upp aptur og aptur, þángað til skessan hefir náð öllum á sitt vald. Þá er leikurinn á enda og ný skessa kemur til sögunnar[3].

Sumir láta skessuna segja:

---

[1] Eptir handriti G. D.
[2] Úr Fljótum nyrðra.
[3] Úr Eyafirði.

»Eg er svaung
eg er svaung
[eg er mikið garnalaung«[1].

Börnin elta hana inní Jötunheima og segja: »Éttu gras, éttu gras« o. s. frv., en þegar þeim þykir tími til kominn, skipta þau um og segja: »Éttu skít, éttu skít« o. s. frv. Þá fýkur í skessuna, eins og von er til. Hún snýr skyndilega við og reynir til að klófesta börnin o. s. frv. eins og áður er sagt.

V. G. segir að skessan sé öðrum meginn við merkjalínuna en grasafólk hinum meginn. Fólkið fer til grasa yfir ána og tautar í sífellu fyrir munni sér: »Gott er að tína grösin, gott er að tína grösin«. Skessan ræðst svo alt í einu á grasafólkið, en það hleypur undan blóðspreing o. s. frv. V. G. hefir ekki vanizt því að þeir sem skessan handsamaði geingju í lið með henni.

Brynjúlfur Kúld stud. jur. lætur kóngsmenn vera öðrum megin við merkin en skessuna hinum megin. Kóngsmenn fara yfir í land skessunnar og segja: »pilla, pilla akur, kóngsins akur«. Skessan kemur og segir að þetta sé sinn akur. Þeir bera á móti. Þau kýta nú um þetta nokkra stund, þángað til skessan reiðist og ræðst á þá. Þeir hlaupa undan og verða menn skessunnar, ef hún nær þeim áður en þeir komast yfir merkin.

Þriðja skessuleiknum lýsir Jónas Jónsson. Tveir stórir hólmar eru afmarkaðir. Skessan stendur mitt á milli þeirra í leiksbyrjan og leitast við að ná börnunum, þegar þau hlaupa milli hólmanna. Leiknum er lokið þegar hún hefir náð öllum. Annars er þessi skessuleikur miklu keimlíkari hafnarleik eða borgarleik.

Fjórðu útgáfuna af skessuleik hefi eg feingið frá Jóhanni Péturssyni og er hún keimlíkust risaleik. Skessan leggst á annað hnéð og fer að seyða kóngsmenn að sér. Þeir standast ekki töfrana og fer einn þeirra til kellíngar, tekur í aðra hendina á henni, stígur öðrum fæti á tærnar á henni og segir: »Sæl vertu nú kellíngarkind«. Kellíng hváir hvað eptir annað, en seinast tekur hún þó kveðjunni og spyr: »Hvers menn eruð þér?« »Kóngsmenn erum vér sunnan úr löndum«[2]. »Viltu vera minn maður í dag?« spyr kellíng. »Nei«, segir maðurinn. »En á morgun?« spyr kellíng og neitar maðurinn því. Að svo mæltu tekur hann á rás frá skessunni, en hún á eptir, alveg eins og í risaleik. Svona geingur það, hvað eptir annað, svo leingi sem vera skal. M. G. og Bogi Melsteð drepa líka á þenna skessuleik.

Skessuleikur einn, sem eg hefi feingið frá Sæmundi Eyúlfssyni er líka alllíkur risaleik, þótt talsvert sé að mununum. Skessan stendur í landi

---

[1] Sumir sleppa þó þessari seinustu línu.
[2] Sbr. formálann við brúarleik.

sínu í leikbyrjun, og stígur fram á fótinn. Hún hefir gull á tánni (stein eða eitthvað þessháttar) og tautar í sífellu: »Ekki koma kóngsmenn á skóginn í dag«. Nú sendir kóngur einhvern manna sinna með bréf til skessunnar, en aðalerindið er þó að ná gullinu, þótt hitt sé látið í veðri vaka. Þegar kóngsmaður kemur til skessunnar segir hann: »Heil og sæl skessa mín. Eg er kominn með bréf til þín«. »Heill og sæll kóngsmaður« segir skessan, »frá hverjum er það?«. »Frá kónginum«. Síðan fær hann henni bréfið, en þegar hún ætlar að fara að lesa það, þá grípur hann gullið af tánni og hleypur burt. Skessan eltir hann, og á að ná honum, áður en hann kemst yfir mark það, sem skilur lönd þeirra kóngs. Ef kóngsmaður dregur undan skessunni, fer hann til kóngs og fær honum gullið. Síðan fer hann aptur, að sækja annað gull. Þegar skessan hefir náð kóngsmanni, leggur annar af mönnum kóngs af stað, og fer alt á sömu leið. Seinast glíma þau kóngur og skessa, og vinnur það þeirra leikinn, sem ber hærra hlut í glímunni.

Fimtu útgáfuna hefi eg frá Stefáni lækni Gíslasyni. Fyrst er dregin merkjalína og er kóngur og menn hans öðrum megin við þau, en skessa hinum megin Kóngurinn segir við menn sína. »Eg sendi ykkur á skóg, mínir menn, til að veiða bæði dýr og fugla, en varið þið ykkur á skessunni í skógnum, því hún gjörir bæði að bíta og slá. Farið þið og flýtið þið ykkur sem fljótast«. Þvínæst fara kóngsmenn inn í land skessunnar og á hún þá að reyna til að ná þeim, en ekki veita þeir henni lið, þótt henni takist að klófesta þá. Ef skessunni tekst að ná öllum mönnum kóngs, leggur hann sjálfur af stað og glímir við skessuna.

Svipaða útgáfu hefi eg feingið úr Borgarfirði, frá Þórunni konu séra Jónasar, prests til Grundarþínga í Eyafirði. Fyrst er afmarkað svæði kríngum kóngsgarð og annað afmarkað skessunni, hér um bil þriðjúngi stærra. Kóngur sendir menn sína á land skessunnar og segir:

Út sendi eg mína menn
til að tína ber,
en varið ykkur á skessunni,
sem í skógnum er.

Þeir fara á land hennar og tína berin álútir á jörðunni sem næst henni og tauta: »tína ber í aldingarði, tína ber í aldingarði«. Þá segir skessan: »Hver hefir leyft ykkur að tína ber í mínu landi?«. »Kóngur sendi okkur« svara þeir. Þá segir hún: »Varið ykkur, eg kem«, og stekkur á þá o. s. frv. eins og Stefán segir. Loksins kemur kóngur sjálfur og spyr um menn sína og segist skessan hafa étið þá. Og seinast glíma þau kóngur og skessa.

Hér þykir mér líka réttast að færa til formála úr risaleik, sem eg hefi feingið frá J. Árn., því honum kippir mest í kynið til formála Stefáns, en risaleik og skessuleik blandað saman hvort sem er. Formálinn er þannig:

Ut allir mínir menn
að veiða dýr og fugla,
og svo:
Inn allir mínir menn;
kominn er dagur að kvöldi.

Kóngurinn segir seinni hlutann, þegar honum þykir mál á að menn hans snúi við.

Frá Sæmundi Eyúlfssyni hefi eg feingið skessuleik, sem er nokkurskonar samsteypa úr leikjum þeirra Jóhans Péturssonar og Stefáns Gíslasonar. Kóngur segir við veiðimann sinn: »Eg sendi þig út á skóg að veiða bæði dýr og fugla, en varaðu þig á skessunni, sem í skógnum býr; hún gjörir bæði að bíta og slá, ropa og reka við, og farðu þá«. Veiðimaðurinn fer nú út í skóginn og rekst á skessuna. »Heil og sæl skessa« segir hann. »Heill og sæll kóngsmaður« svarar skessan. »Frá hverjum ertu sendur?« »Frá kónginum«. »Í hvers land?« »Í kóngs land«. »Með hvers leyfi?« »Með kóngs leyfi«. »Viltu vera minn maður í dag?« »Nei«. »En á morgun?« »Nei«. »En hinn daginn?« »Ja, hvað er til fæðis?« Skessan vill ekkert um það segja. Veiðimanninum lízt þá ekki á blikuna og flýr sem fætur toga, en skessan á eptir o. s. frv. alveg eins og í leik Stefáns Gíslasonar.

Sjöttu útgáfuna hefi eg feingið hjá Þorsteini Erlíngssyni. »Leiksvæðið er tíðast valið milli tveggja hóla, eða annara glögt afmarkaðra staða og svo, að ekki sé mjög skamt á milli þeirra Leikfólkið er skessa og börn. Til að vera skessa er sá valinn, sem sterkastur er og fóthvatastur. Annar hóllinn er bæli skessunnar. Þar stendur hún og bíður átekta. Utan um þann hólinn safnast svo öll börnin. Leikurinn byrjar með því að börnin gánga fast að einni hlið hólsins og segja: »Heil og sæl skessa«. Þau sem betur treysta sér af börnunum, gánga þá svo nærri að þau yddi gómum saman við hendi skessunnar og þau allradjörfustu heilsa henni með handabandi, en einginn er þó skyldur til þess. Þau sem minna eiga undir sér standa áleingdar. Skessan tekur kveðju barnanna mjög kompánlega og segir: »Komdu sæll (sæl) kunníngi (heillin góð). Eru kóngsmenn komnir á skóg?« »Já« svara börnin. Hvað eru þeir að gjöra þar?« spyr skessan »Höggva við og svíða kol« svara börnin. Þá sendist skessan stundum strax á eitthvert af börnunum og reynir til að klófesta það, en stundum bíður hún við og gjörir sig aðeins líklega til að hlaupa af stað. Ef skessan hefir gint börnin til að taka til fótanna með þessu móti, verða þau að færa sig aptur í sömu stellíngar. Áður en skessan hleypur af stað, verður hún að segja skýrt og skilmerkilega »ket í pottinn«[1] og þegar hún hefir sagt það, má hún ekki bíða leingur. Skessan tæpir því opt á orðunum og segir fyrst um sinn »ket í« eða »ket«. Þegar skessan þýtur af stað, eltir hún optast nær fyrst það barnið sem henni þykir mestur slægur í og

[1] eða ket í potti sjóða, Þ. Erl.

það eru stundum lög að hún megi ekki elta börnin leingra frá bæli sínu, en svo, að hún geti séð um að þángað komist ekkert af börnunum á undan henni. En komist þau þángað fyr en hún, þá meigi þau handsama hana og fleingja, ef þau hafa orku til, og er skessunni það mesta vanvirða, en skyld er hún til að snúa heim í bæli sitt, þótt hún sjái þar ofurefli fyrir. Þegar þessi lög eru sett, keppist skessan við að ná þeim sem fyrst, sem hún treystir til að verja bæli sitt. Börnin hlaupa optast sitt í hvora áttina og ginna skessuna sem leingst frá bæli hennar, en ef í nauðir rekur og þau sjá sitt óvænna, þá forða þau sér upp á sinn eigin hól. Þar er griðastaður fyrir skessunni og setji hún þar, þó ekki sé nema litlu tána, er hún brunnin. Verði henni sú skyssa á, þá á hún eptir lögunum að leggjast niður og gefa sig á miskunn barnanna, en þau lög munu fáar skessur halda. Þeim börnum, sem skessan nær, safnar hún saman á sinn hól, og eins þótt hún hafi þar ei ófrið að óttast. Stundum setur hún þann skildaga, að hún meigi gjöra börn þau, sem hún nær, að smáskessum og hafa þær til hjálpar sér við eltíngarnar eða skipa þeim hvar á leiksvæðið sem hún vill; þó ekki nær hóli barnanna en á miðri leið. En þetta þykir ekki mikilmannlegur skildagi og flestar skessur vilja heldur verða af tigninni en grípa til þessa úrræðis. Sé skessan kraptalítil, verða börnin að láta sér lynda að hún grípi í þau eða komi við þau, svo þau finni vel og er þeim þá náð, en þær sem betur eru að manni, láta sér ekki annað sæma en að halda þeim eða fella. Leiknum er lokið, þegar öllum börnunum er náð eða skessan uppgefin, nema hún sé þá áður hýdd eða brunninn«.

**Risaleikur.** Einn leikmanna er risi, annar kóngur. Hinir eru menn kóngs. Risinn tekur sér stöðu alllángt frá kóngi og mönnum hans. Kóngur sendir einn af mönnum sínum með bréf til risa. Risinn krýpur á annað hnéð, þegar bréfberinn kemur til hans, og vill hann eflaust votta lotníngu sína við kóng með því. Sendimaður kastar kveðju á risann, tekur í sleikifíngur á honum, stígur öðrum fæti á tá honum og segir: »Kóngur sendir risa bréf og [segist skuli láta heingja[1] hann, ef hann heyi nokkurn ófrið í landinu«[2]. Að svo mæltu bíður sendimaður ekki boðanna og tekur á rás til kóngs sem mest hann má, en risinn hleypur á eptir kóngsmanni og reynir til að ná honum, áður en hann kemst yfir mark það, sem greinir lönd þeirra kóngs, því yfir það má hann ekki fara. Þá er hann brendur. Ef sendimaður sleppur úr greipum risans, sendir kóngur annan og fer alt á sömu leið sem áður. Ef risinn nær kóngsmanni, er hann skyldur að ná með

[1] Aðrið drepa.

[2] Frá [ hefir Jón Finnsson, stud. theol.: biður hann að vera hlýðinn sér, ella skuli hann reka hann úr landi.

honum það sem eptir er leiksins Kóngsmenn þeir, sem risi hefir náð. mega ekki heldur fara inn fyrir landamerki kóngs, eptir að þeir hafa geingið á vald risanum. Þegar risinn hefir náð öllum kóngsmönnum, fer kóngur sjálfur af stað og glímir við risann. Glímuna láta menn risa hlutlausa. Sá þeirra verður kóngur næst, sem ber hærra hlut.

Aðrir[1] sleppa formála sendimanns við risann og láta hann spyrja sendimann ýmsra frétta. Alt í einu segir hann: Vari hver sig. Sendimaður tekur þá til fótanna og risinn á eptir o. s. frv.

J. Ól. nefnir kastalaleik og segist halda að hann sé sama og risaleikur, en svo lýsir hann ekki risaleik eptir alt saman. Páll heitinn Pálsson segir aptur með skýrum orðum, að kastalaleikur sé sama sem risaleikur.

G. E. getur um annan risaleik, sem eg þekki ekki annarsstaðar að, og nefnir hann öðru nafni skessuleik. Hann segir, að kóngurinn segi við menn sína: »út, út allir mínir menn« og hlaupi þeir þá að marki því, sem skilur lönd kóngs og risa. Þá segi kóngur aptur »inn, inn allir mínir menn«; hlaupi þeir þá til hans, en risinn á eptir og reyni til að ná þeim á heimleiðinni. Þetta gángi þángað til risinn hafi náð öllum eða gefizt upp[2].

**Tóuleikur**. Fyrst er markað svið, og er venjulega hagað svo til, að þúfa sé á því miðju, eða þá eitthvað annað mark, t. d. steinn. Einn leikmanna er tóa, annar smalamaður, en hinir lömb. Í leikbyrjun stendur tóan á markinu í miðjunni og gaggar þar tíu sinnum. Að því búnu fer tóan frá markinu og út á sviðið, og gaggar nú í sífellu. Lömbin hlaupa í kríngum hana, og á tóa að ná þeim, því þá eru þau dauð. Það er jafnvel nóg að hún komi við þau eða þau við hana. Aptur er það frá smalamanni að segja, að hann ver lömbin eptir mætti; hann er þar ávalt fyrir, sem hættan er mest, og varnar tóunni að snerta lömbin. Hann má jafnvel takast á við hana, ef á þarf að halda. Ekki má tóan fara út fyrir sviðið, því þá er hún brend, en aptur er lömbunum það heimilt. Þegar tóan hefir náð öllum, er leiknum lokið og verður sá tóa næst, sem seinast náðist[3].

**Hafnarleikur, borgarleikur** eða **stórfiskaleikur**. Fyrst er afmarkað leiksvið. Því næst eru afmarkaðir vissir blettir[4] á leiksviðinu út við sviðjaðr-

[1] J. Árn. eptir handriti Páls heitins alþingismanns frá Víðidalstúngu og M. G.
[2] Sbr. bls. 111.
[3] Eptir sögn Bertels Þorleifssonar, stud. med.
[4] Jónas Jónsson segir að þeir eigi að vera einum færri en þeir sem eru í leiknum. Eg hefi vanizt 4—5 höfnum.

ana. Það á að vera hér um bil jafnlángt á milli þeirra og eru þeir nefndir hafnir, borgir eða eyar, eptir því hvað leikurinn er kallaður í svipinn. Mitt á milli hafnanna stendur einn leikmanna og á hann að reyna til að ná hinum, sem eru í leiknum, en þeir hlaupa frá einni höfn til annarar. Sá sem nær heitir stórfiskur eða kapari, en hinir eiga víst að tákna skip.

Þegar alt er nú komið í kríng segir stórfiskurinn: »Allir í höfn« og eiga þá allir að nema staðar í höfninni; annars má stórfiskurinn taka þá, ef hann getur.

Stórfiskurinn reynir nú af alefli að ná skipunum, en þau þjóta milli hafnanna, því eingiun vill verða fyrir stórfiskinum. Ekki mega aðrir hlaupa út fyrir sviðið en stórfiskurinn, því þá eru þeir brendir. Ekki leyfist að hörfa optar en þrisvar til sömu hafnar, sem hlaupið var frá. Þá er sagt að leikmaðurinn sé orðinn þrisvar apturreka í höfn og er úr leiknum. Ekki mega menn heldur halda mjög leingi kyrru fyrir í sömu höfninni, því þá brenna menn inni, eða stórfiskurinn hefir þá leyfi til að draga þá út úr höfninni, en annars má hann ekki fara inn í hafnirnar, því þá er hann brendur. Jónas Jónsson segir jafnvel að þeim, sem séu í höfnunum, sé heimilt að draga stórfiskinn inn í hafnirnar og brenna hann þannig. Það mun vera þetta sem kallað er að draga á drottníngareyrunum[1].

Þegar stórfiskurinn nær einhverjum segir hann: »Hvort viltu heldur vera minn maður eða [eg skeri, skeri þig í þrjú[2] stykki?[3]. Flestir kjósa að gánga í lið með stórfiskinum og ná þeir þá með honum úr því. Þeir sem vilja heldur deya eru úr leiknum. Svona geingur leikurinn, þángað til stórfiskurinn og lið hans hefir náð öllum, sem ekki eru þegar brendir, eða allir eru orðnir stórfiskar. Þá er leiknum loknið.

Þegar stórfiskurinn hefir náð öllum nema einum, á sá kost á því að leysa sig undan ofsókn, með því að hlaupa þrisvar hrínginn í kríngum leikssviðið, höfn af höfn, en það er erfitt, því þá eru allir samhuga um að hepta för hans. Jónas Jónsson getur ekki um sið þenna, en segir að sá, sem næst seinast, verði stórfiskur í næsta leik.

G. D. nefnir leik þenna líka kaparaleik og eg hefi líka heyrt hann nefndan höfrúngaleik eins og eðlilegt er, þar sem höfrúngar eru ein tegund stórfiska, en kapari á víst að þýða sjóræníngja. Eg hefi líka heyrt hann nefndan skessuleik[4] og er þá stórfiskurinn kallaður skessa.

Í Höfðahverfi kvað skessuleikur vera kallaður paparaleikur en

---

[1] Guðmundur Þorláksson, cand. mag.

[2] Aðrir: þúsund.

[3] Aðrir frá [ deya.

[4] Sbr. þriðja skessuleikinn.

skessan papari[1] og sama nafn þekkja menn úr Flóanum[2]. Þykir mér líklegt að það sé skessuleikur sá, sem sviplíkastur er hafnarleik, og að papari sé önnur útgáfa af kapari.

Í Vestmannaeyum kvað hafnarleikur vera kallaður útburðsleikur; eru þar að eins hafðar tvær hafnir og þeir, sem nást, eru kallaðir útburðir[3].

Leikur þessi hefir annars ýms önnur nöfn í ýmsum stöðum á landinu, t. d.: kaplaleikur[4] (í Fljótum), eyaleikur[5] (í Snæfellsnessýslu) og hvalfiskaleikur[6] (á Álptanesi).

**Mángleikur** er allíkur hafnarleik, en þó er verulegur munur á þeim. Leiksvið er haslað og teknir til tveir staðir á því, alllángt hvor frá öðrum, og kallaðir hafnir. Leikmenn geta verið svo margir sem vilja, og standa þeir á höfnunum í leikbyrjun, allir nema einn. Hann stendur mitt á milli hafnanna og er kallaður mángur. Leikmenn hlaupa nú milli hafnanna, alveg eins og í hafnarleik, en sá er munurinn, að hér er nóg að mángurinn geti klappað á bakið á einhverjum leikmanna og sagt um leið: »Klukk, klukk á máng«; verður þá sá mángur, en fyrsti mángurinn verður aptur óbrotinn leikmaður og svo koll af kolli[7].

**Fuglaleikur** eða **fuglageta**[8]. Einn leikmanna er kóngur, annar aðkomumaður. Hinir eru fuglar kóngs og heitir hver þeirra sínu nafni, einn kría, annar álka o. s. frv. Svið er afmarkað og eru allir leikmenn á því. Aðkomumaðurinn biður kóng að gefa sér einn fuglinn Kóngur segist munu gjöra það, ef hann geti upp á nafni einhvers af þeim. Aðkomumaður fer að geta. Ef hann getur upp á nafni einhvers fuglsins, þá á hann hann, en þó ekki skilmálalaust. Fuglinn hleypur nefnilega frá kónginum. Ef aðkomumaður getur náð honum, áður en hann kemst aptur til kóngs, þá verður fuglinn eign hans. Annars ekki. Ekki má fuglinn hlaupa út úr sviðinu. Aðrir segja að fuglinn eigi að hlaupa þrisvar kríngum sviðið og verði aðkomumaður að ná honum á þeirri ferð.

Á blaðinu frá Sæm. Ey. er aðkomumaðurinn látinn vera veiðimaður,

---

[1] Eptir sögn prestaskólakennara Þórhalls Bjarnarsonar, eptir því sem cand. mag. Pálmi Pálsson skrifar mér.

[2] Eptir sögn læknis Stefáns Gíslasonar.

[3] Eptir sögn Lárusar stúdents Árnasonar.

[4] Eptir sögn stud. jur. Páls Einarssonar.

[5] Eptir sögn stud. jur. Brynjúlfs Kulds.

[6] Eptir sögn Steingríms stúdents Stefánssonar.

[7] Eptir sögn Sigurðar Hjörleifssonar, stud. med. Nafnið hefi eg líka feingið frá séra Jónasi frá Stokkahlöðum.

[8] Blað frá Sæmundi Eyúlfssyni, stud. theol.

sem vill veiða fugla kóngsins. Þar er ekki minzt á svið. Ef veiðimaður getur upp á nafni einhvers fuglsins, hleypur fuglinn af stað, en veiðimaður á eptir og á að ná honum.

Brynjúlfur Kuld stud jur., hefir vanizt leiknum dálítið öðruvísi. Hann lætur kónginn vera fuglasala, sem hefir ýmsa fugla á boðstólum, kríu, álpt o. s. frv. Nú ber að aðkomumann, sem falar einhverja fugla. Ef hann hittir ekki strax á nafnið á einhverjum fuglinum, þá heldur hann áfram, þángað til það tekst. Fuglasalinn er fús á að selja fuglinn. Aðkomumaður spyr hvað hann kosti. Kaupmaðurinn segir að hann megi eiga hann, ef hann nái honum. Þá þýtur fuglinn af stað og aðkomumaður á eptir. Ef hann nær honum, þá veitir fuglinn honum lið, það sem eptir er. Annars falar hann einhvern annan fugl o. s. frv.

Bertel Þorleifsson, stud. med., hefir vanizt fuglaleik enn þá öðruvísi. Fuglasala ber þar að sem fuglakóngur er fyrir, og fuglar hans. Þeir heita hver sínu nafni, eins og áður er sagt. Fuglasalinn falar einhvern ákveðinn fugl, og verður að geta þess, hver fuglanna beri nafn það, sem hann hefir nefnt. Jafnskjótt og hann á kollgátuna, hleypur fuglinn á burt, en þó ekki lángt, fyrst um sinn. Fuglasalinn fer aptur að þrefa við kóng um verðið. Kóngur telur upp kosti á fuglinum, en fuglasalinn lesti. Þegar þeir hafa þæft þetta stundarkorn, koma þeir sér saman um eitthvert verð og greiðir fuglasali andvirðið, með því að klappa jafnopt í lófann á fuglakónginum og krónurnar voru margar, sem fuglinn kostaði. Þegar kaupunum er lokið, tekur fuglinn til fótanna, en fuglasalinn á eptir. Meðan eltíngaleikur þeirra stendur yfir, kallar fuglakóngurinn í sífellu: »Aptur komdu fuglinn minn fríði«. Ef fuglasalinn nær fuglinum áður en hann kemst aptur til kóngsins, fær hann fult vald yfir honum, en komist fuglinn til kóngs, heill á húfi, þá er honum fyrst og fremst tekið þar með kostum og kynjum, því næst fær hann nýtt nafn og að því búnu er ekkert því til fyrirstöðu að leikurinn byrji að nýu[1].

**Rúðuleikur**. Tveir eru í leiknum. Ferhyrnt svið er markað. Leikmennirnir hlaupa hvor á móti öðrum í skakkhorn og reyna til að ná hvor öðrum á leiðinni. Ef annarhvor fer út fyrir sviðið, þá er hann brendur[2].

Rúðuleikur er líka annað nafn á dúfuleik, en það kemur ekki til mála, að þetta sé sami leikurinn.

**Djöflaleikur**. Leikmenn afmarka ferhyrnt svið. Tveir nema staðar sinn hvorum meginn við annan enda sviðsins og eru þeir djöflar. Hinir

[1] Fuglaleikur tíðkast líka í Danmörku (50 Selskabslege. Kbh. 1873; bls. 6) og Einglandi (Drengenes egen Bog. Kmh. 1868; bls. 10 og Pigernes egen Bog. s. ár; bls. 5).

[2] J. Árn. eptir Hákoni Hákonarsyni í Brokey.

**eru við hinn sviðsendann.** Þeir eru sléttir og réttir menn. Mennirnir **taka nú á rás** og eiga að hlaupa út úr sviðinu á milli djöflanna, en djöflarnir reyna aptur til að klófesta þá áður. Allir sem djöflarnir ná, gánga í lið með þeim og kosta kapps um að ná mönnunum með þeim. Þeir sem komust út úr sviðinu fara sömu leið til baka, og hafa djöflarnir þá allar klær úti, ekki síður en áður. Svona geingur það í sífellu, þángað til árarnir hafa veitt alla mennina[1].

**Stólpaleikur** er mjög líkur djöflaleik. Þó er ekki afmarkað neitt svið, heldur er að eins mörkuð lína, ekki mjög laung. Á línunni standa einn til þrír menn, eptir því hve hún er laung, og eru þeir nefndir stólpar. Annars eru leikirnir alveg eins, nema einginn má fara út fyrir línuendana, hvorki stólparnir né aðrir, því þá eru þeir brendir[2].

**Ekkjuleikur.** Í ekkjuleik geta verið svo margir sem vilja. Tala leikmanna verður líka að standa á stöku. Þó geta þeir ekki verið færri en fimm. Fyrst taka tveir og tveir hvor í höndina á öðrum, allir þeir sem eru í leiknum, nema einn. Optast sælast karlmenn og kvennmenn til þess að halda höndum saman. Þeir sem haldast í hendur, skipa sér nú í röð, hvorir aptan við aðra. Þessi eini, sem ekki er í röðinni, er ekkja, ef það er stúlka, en ekkill ef það er kallmaður, og á hann að nema staðar frammi fyrir röðinni, fáein fet frá henni. Þegar alt er komið í lag, klappar ekkillinn eða ekkjan saman lófunum. Þá hlaupa þeir, sem aptast standa, af stað, fram fyrir röðina, hvor sínum meginn við hana. Þeir eiga að ná saman aptur, fyrir framan röðina, en það er ekki hlaupið að því, því ekkjan eða ekkillinn reynir til að ná í annanhvorn þeirra. Ef hvorugur næst, eða ef þessir tveir, sem um er að ræða, ná saman aptur, fyrir framan röðina, þá verður sami ekkill eða sama ekkja í næsta skipti, en þeir standa þá fremst í röðinni sem fluttu sig, en ef annar næst, þá verður sá sem ekki náðist ekkill eða ekkja, en hinir tveir draga sig saman og standa fremst. Svona geingur það hvað eptir annað, svo leingi sem vera skal[3].

Þá eru tveir leikir sem má kalla stökkleiki, því stökk er merguriun málsins í þeim báðum, en annars eru þeir mjög ólíkir.

---

[1] J. Árn. eptir handriti Páls heitins alþíngismanns frá Víðidalstúngu og M. G.

[2] Eptir sögn Lárusar stúdents Árnasonar.

[3] Eptir handriti G. D. Ekkjuleikur er líka danskur leikur (Gamle danske Minder i Folkemunde. Kmh. 1857; bls. 252 og Spogemesteren Kmh. 1866; bls. 32—3). Í Einglandi tíðkast hann líka. (Drengenes egen Bog og Pigernes egen Bog; bls. 9—10 og 5—6).

**Höfrúngahlaup.** Leikmenn standa hálfbognir í beinni röð, hver framundan öðrum og styðja höndunum á hnén. Hér um bil tveir faðmar eru á milli hvorratveggju. Einn leikur þó lausum kjala. Þegar röðin er komin í kríng, hleypur sá sem laus er aptan að þeim aptasta, styður höndunum á axlirnar á honum og stökkur yfir hann. Því næst stökkur hann yfir þann næsta og svo hvern af öðrum, þángað til hann er kominn fram fyrir alla strolluna. Þá nemur hann staðar og setur sig í sömu stellíngar og hinir. Sá sem áður var næst aptastur, en nú er orðinn aptastur, fer að dæmi hins og svo koll af kolli, svo leingi sem leikmenn vilja halda áfram. Stundum fer sá sem var næst aptastur af stað strax á eptir hinum og eru þá ávalt nokkrir á ferðinni, ef ekki eru því færri í leiknum. Optast fer svo að höfrúngurinn kemst ekki yfir alla og húkir á herðunum á þeim, sem hann er að stökkva yfir eða dettur fram af honum. Hann hættir þá við stökkið og fer fram fyrir. M. G. segir að höfrúngurinn megi ekki koma við þá sem hann hleypur yfir. Annars lýsir hann leiknum eins og eg.

Nafnið höfrúngahlaup hefi eg fyrst rekið mig á hjá B. H. Magnús Stephensen nefnir þau líka og lýsir þeim stuttlega[1]. J. Ól. lýsir leiknum alveg eins og hér er gjört, en kallar hann höfrúngaleik. Sama gjörir G. D. en hann kallar hann líka barberaleik[2]. G. E. kallar leik þenna stórfiskaleik eða að hafa höfrúngahlaup[3]. Hann er líka kallaður stórfiskaleikur í Hornafirði.

**Háu-þóruleikur.** Seinna verður getið um Háu-Þóruleik Jóns Ólafssonar, en þessi leikur er ekki vitund líkur honum. Hann er tekinn eptir því sem Hákon Hákonarson í Brokey hefir sagt J. Árn. Leikmaður stendur á hárri þúfu og á að stökkva yfir annan mann sem liggur hjá þúfunni. Það er frægðin að stökkva sem leingst.

Í skjaldborgarleik reynir opt á stökkfimi leikmanna og skeyti eg hann því aptan við stökkleikina.

**Skjaldborgarleikur.** »Svo margir sem vilja slá hríng utan að einum eða tveimur mönnum; síðan eiga þeir, sem innan í hríngnum eru, að leitast við að komast út, annaðhvort með því að stökkva yfir hrínginn, eða með

[1] Ísl. i d. 18. Aarh.; bls. 234.

[2] Barberi er eyfirzkt hvalsnafn, sama sem skjöldúngur eða háhyrníngur. Eg leiði minn hest frá að segja hvaða hvalur það er.

[3] Alveg sami leikurinn tíðkast í útlöndum. Í Danmörku heitir hann »Bukkespring«. (Börnelege. Kmh. 1837; bls. 52. Bók þessi er þýdd úr frönsku. Hvormed skal jeg more mig. Kmh. 1861; bls. 34—5. Bók þessi er þýdd úr ensku að mestu leyti).

því að ryðjast út á milli manna þeirra, sem í hríngnum eru, en þeir eiga að varna hinum útgaungu. með því að krækja undan þeim fæturna, svo þeir falli inn í hrínginn, en eigi mega þeir leggja hendur á þá[1].

Bogi Melsteð hefir sagt mér, að hríngmennirnir væru vanir að taka handleggjum saman um olnbogabæturnar og mættu ekki hræra þá úr þeim stellíngum, meðan stæði á leiknum. Hann sagði líka, að hann hefði aldrei vanizt nema einum hríngrofa.

M. G. ber saman við Boga Melsteð. Að öðru leyti lýsir hann leiknum eins og hér er gjört. Hann nefnir leikinn líka skjaldborg og segir að kallað sé að þeir rjúfi skjaldborgina, sem komast út úr hríngnum.

G. E. minnist líka á, að rjúfa skjaldborg, en mér er óljóst, hvort hann á við skjaldborgarleik eða skjaldborgarrof, það sem minzt er á aptan við töflin.

J. Árn. getur þess, að skjaldborg geti verið margsett, hver hríngur utan yfir öðrum og þarf eptir því meiri frækleik til að rjúfa hana.

Hákon Hákonarson í Brokey hefir sagt J. Árn. frá leik, sem hann kallaði hríngbrot eða blindíngsleik, en eg sé ekki betur, en það sé einkennileg skjaldborg. »Í leiknum má ekki hafa færri en 20, en svo marga sem vill; slá þeir hríng um einn, sem bundið er fyrir augun á, og á hann að komast blindandi út úr hríngnum. Þeir sem í hríngnum standa, eiga að halda um herðar eða háls hver á öðrum, og standa sem þéttast saman alstaðar. En ekki mega þeir spyrna eða bregða fæti fyrir blindínginn, né heldur taka til hans höndum«. Það fylgir lýsíngu þessari, að Rómúlus konúngur hafi látið leika leik þenna, fyrstur manna.

Greinilegasta lýsíng á skjaldborg hefi eg séð í bréfi til J. Árn. frá Ásgeiri heitnum Einarssyni alþíngismanni. Bréfið er frá 1860. Eg tek hér upp kafla úr lýsíngu þessari, þó allur mergurinn málsins sé kominn áður, af því eg veit ekki betur en að leikurinn sé sjaldan leikinn um þessar mundir Ásgeir gjörir ráð fyrir 15—20 leikmönnum. »Sá sem á að komast út úr hríngnum reynir til þess á allan hátt sem hugvit, fráleiki og kraptar leyfa honum. Stundum tekur hann sinni hendi í hvorn mann og reynir að vega sig upp með þeim, með afli og snarræði, unz hann getur steypt sér út meðal höfða þeirra, eða yfir þau, en stundum leggur hann hendurnar á axlir þeirra. Stundum hleypur hann á mannhrínginn með afli, og reynir annaðhvort að beygja höfuð einhvers undir bríngu sér og steypa sér út, eða taka hann hryggspennu, eða kippa undan honum fótum og hlaupa yfir hann. Eg hefi líka séð einn mann svo frækinn, að hann lagði bakið við mannhrínginn og tók sinni hendi í hvorn og steypti sér út öfugum,

[1] J. Árn. eptir handriti Páls heitins Vídalíns, alþíngismanns. Bogi Melsteð nefnir leikinn að eins skjaldborg.

svo fæturnir stóðu upp, í því hann steypti sér út, en kom standandi niður á völlinn. Nú þykir mér líklegt eptir íþróttalærdóminn við skólann, að menn kynnu að geta stokkið yfir hrínginn, eins og eg hefi vitað einstaka dæmi til. — — — Til að hindra þetta gjöra skjaldborgarmenn alt sem þeir geta með fótum og höfði. — — — Þegar hann (sá sem er að rjúfa borgina) ræðst á eina síðu hríngsins, færir sá hluti hríngsins sig að, er gagnvart er, og reynir þá einn að vega sig upp á handleggjatakinu og seilist með fæturna í fætur þess, er út vill fara, og verður þetta honum mest hindrun. Þetta gjöra líka nábúar þeirra, sem á er ráðist og enda þeir sjálfir stundum, en með höfðunum gera þeir alla þá mótstöðu, er þeir geta«. Loksins segir Ásgeir að rofinn komist optast út úr borginni. Hann getur þess til að leikur þessi hafi verið tekinn upp á seinni tímum »eptir hugmynd þeirri, er sögurnar hafa gefið mönnum um það, þegar bornir voru skildir að köppum í fornöld«.

Þá eru þrír leikir, sem kalla mætti kastleiki einu nafni, því mergurinn málsins er að hæfa eitthvert visst mark með steinum. Sumum þætti ef til vill réttara að geta um leiki þessa, þar sem minzt er á kastfimi, en eg vildi heldur nefna þá hér, þar sem bæði er að ræða um verulega leiki, og svo kemur ýmislegt fyrir í vörðuleiknum, sem ekki á skylt við kast eða hæfni.

**Blámannaleikur.** Stundum eru að eins tveir í leik þessum. Ef leikendur eru fleiri, þá eru valdir tveir foríngjar og skipta þeir liðinu með sér til helmínga. Foríngjarnir reisa sína steinaröðina hvor. Þær eru í beinni línu hvor við aðra, en talsvert bil á milli þeirra. Steinarnir sem vita að millibilinu eru stærstir, en smækka svo, eptir því sem dregur nær endanum á röðunum. Stærstu og fremstu steinarnir hvorumeginn, heita konúngar en hinir blámenn. Sigurinn er fólginn í því að verða fyrri til að setja um koll alla steina í röðinni, með steinkasti, og er varpað um það hlutkesti, hvor foríngjanna á að kasta fyr. Þeir standa á milli raðanna og kasta þaðan. Þegar foríngjarnir hafa kastað, kasta liðsmenn þeirra, og svo koll af kolli, þángað til allir steinarnir eru dottnir. Það segir sig sjálft að þegar að eins tveir eru í leiknum, þá eru þeir báðir sjálfkjörnir foríngjar og kasta sjálfir öllum köstunum[1].

**Vörðuleikur.** Svo margir geta verið í leik þessum sem vera skal. Fyrst er reist varða, þ. e. nokkrir smásteinar eru skorðaðir, og fylt á milli þeirra, svo ofan á þeim verði nokkurnveginn sléttur flötur. Á fleti þessum er reistur upp aflángur steinn, ekki allstór, og er hann varðan. Allir þeir

[1] Eptir hdr. Björgvinar Vigfússonar frá Hallormsstað, stud. jur. (Frá Pálma Pálssyni).

sem í leiknum eru, velja sér nú hver sinn stein. Steinum þessum kasta þeir að einhverju vissu marki, og verður sá kamarmokari, sem dregur skemmst. Það er listin að kasta steinunum frá einhverju tilteknu marki og fella vörðuna, en kamarmokarinn er skyldur að vera í grend við hana, og reisa hana, jafnóðum og hún fellur. Leikmenn kasta í sömu röð og steinar þeirra lágu, þegar þeir köstuðu um það, hver ætti að kasta fyrst. Ef sá sem fyrst kastar fellir vörðuna, þ. e. aflánga steininn, þá er um að gjöra fyrir hann, að verða fyrri til að ná steini sínum en kamarmokinn að reisa vörðuna aptur. Ef kastmaðurinn hefir ekki náð steini sínum, þegar kamarmokarinn hefir reist vörðuna aptur og hrópað: «búinn», þá verður kastmaðurinn sjálfur kamarmokari, en kamarmokarinn fer til hinna, sem í leiknum eru, og kastar þegar að honum kemur. Stundum kemur það fyrir að kamarmokarinn flýtir sér svo mikið að hlaða vörðuna, að hún hrynur af sjálfsdáðum, og verður hann þá að takast aptur á hendur starfa sinn, þótt hann sé þegar kominn í flokk leikmanna, en sá sem var að keppa við hann sleppur við kamarmokaraembættið í það skipti. Ef sá sem fyrst kastaði hefir felt vörðuna og náð steini sínum, eptir því sem áður segir, hefir hann rétt til að kasta aptur, svo leingi sem hann fellir vörðuna, og ber hærra hlut í keppninni við kamaramokarann. Þegar hann hefir felt vörðuna þrisvar sinnum, verður hann prins og svo kóngur, keisari eða páfi eptir því sem hann fellir vörðuna optar. Páfatignin kvað vera bundin við að fella vörðuna o. s. frv. tólf sinnum hvað eptir annað. Þegar einhver er orðinn páfi hættir hann að kasta, en sá tekur við, sem á að kasta næst og svo koll af kolli.

Híngað til hefir verið gjört ráð fyrir því, að sá sem fyrst kastaði feldi vörðuna. Ef honum tekst aptur ekki að fella hana, verður hann að láta stein sinn liggja þar sem hann nam staðar og standa hjá honum, en sá næsti kastar og fer á sömu leið, ef hann getur ekki felt vörðuna, en ef hann fellir vörðuna, má sá fyrsti taka stein sinn, fara með hann í flokk hinna leikmannanna, og kasta aptur, þegar kemur að honum. Opt standa margir við steina sína í einu, því opt ber við, að margir verða að kasta áður en varðan fellur, og á kamarmokarinn þá náðuga daga. Það sem sagt hefir verið um þann sem fyrst kastaði á við alla, og svona geingur leikurinn koll af kolli. Ef eingum leikmanna tekst að fella vörðuna, stendur kamarmokarinn klofvega yfir hana og reynir að hæfa þaðan með steini sínum, einhvern tiltekinn stein af steinum hinna leikmannanna. Ef kamarmokarinn hæfir steininn, verður sá kamarmokari næst, sem steininn átti, en ef mokaranum tekst ekki að hæfa hann, verður hann kamarmokari, eptir sem áður. Þá eru leikslok þegar leikmenn eru orðnir þreyttir eða leiðir á leiknum[1].

---

[1] Eptir sögn Bertels Þorleifssonar, stud. med. Mjög svipuðum leik er lýst í «Fælles-

**Selníngaleikur.** Nokkrir steinar, t. d. 20, eru reistir upp á hellu eða kletti, í fjórar eða fimm raðir, ef því verður við komið. Tveir eru í leiknum og velur hvor þeirra sér 10 steina (aðra en þá, sem standa á klettinum). Listin er að fella sem flesta af klettsteinunum í tíu köstum, því hverjum steini er að eins kastað einu sinni. Það segir sig sjálft, að kastað er frá einhverju vissu marki. Leikmenn koma sér saman um, hvor fyr skuli kasta, en hinn reisir steinana upp á meðan, jafnóðum og þeir falla. Sá vinnur, sem fellir fleiri steina í leiknum. Heimildarmaður minn[1], hefir vanizt leik þessum í Þíngvallasveit.

Þá fer nú að styttast í samheinginu milli leikjanna, og standa allir þeir sem eptir eru einir sér eða því sem næst.

**Brúarleikur** eða **bandaleikur.** Í leik þessum geta verið svo margir sem vilja. Tveir af leikmönnum halda hvor í sinn enda á bandi og verður það að vera faðmur á leingd, að minnsta kosti og allsterkt. Bandið táknar brú, en þeir sem halda í það eru brúarverðir. Hinir leikmennirnir taka hver aptan í annan eða hver um axlirnar á öðrum og gánga því næst að brúnni í halarófu. Þegar sá sem fremst geingur, kemur að bandinu, segir hann við annanhvorn brúarvörðinn:

Flyttu mig[2] yfir brú, brú breiða.

Brúarvörður svarar:

[Eg kann[3] ekki að flytja þig[4] milli lands og eya.

Komumaður:

Hvað er að brúnni breiðu?
Brotinn stöpull í [miðju[5].

Komumaður:

[Hver kann að bæta brú
betur en sjálfur þú?[6].

Brúarvörður:

Hvers menn eruð þér?

Komumaður:

---

lege for Skoler» af L. M. Törngren. Kmh. 1882; bls. 50—52. Svipaður leikur er líka i »Hvormed skal jeg more mig» (bls. 2) og »Drengenes egen Bog» (bls. 26).

[1] Bertel Þorleifsson, stud. med.

[2] Flytjið oss M. G. (J. Árn.).

[3] eg þori. Hrs. J. Sig. 282. 8vo.

[4] vér getum ei flutt yður M. G. (J. Árn.).

[5] henni miðri. s. heim.

[6] Kall[a] upp, kall[a] Kýngilsdóttir[b]. J. Ól.

[a] eða kalla.

[b] kóngsdóttir, Hannes biskup.

Kóngsmenn erum vér,
komnir af [löndum, ströndum[1]
Lyptu upp seglum,
[leyf oss að[2] fara.

**Brúarvörður:**

[Farið þið, farið þið[3]
flýtið ykkur að gánga[4].
[en seinasta manninn
ætla' eg mér að fánga
og hann skal í snörunni hánga[5].

Komumenn brjótast nú undir bandið, en brúarverðir reyna til að ná þeim seinasta með því að kasta bandinu fyrir hann og slíta hann þannig frá hinum, en hann á aptur að reyna til að komast á eptir hinum, annaðhvort undir bandið eða yfir.

Aðra útgáfu hefir J. Ól. þekt af brúarleik, en þá sem orðamunur hefir þegar verið tekinn úr, og færir hann til upphaf og enda formálans úr henni.

Gaktu yfir brú brú breiða
og
þér megið þétt saman gánga.
Þann seinasta ætla' eg mér að fánga[6].

Í Hrs. J. Sig. 282. Svo er lýsíng á leik þessum og er gjört þar ráð fyrir að tveir séu í leiknum. »Annar bindur band utan um eitthvað og heldur svo sjálfur í hinn endann«, en hinn er komumaður. Annars eru formálarnir hinir sömu nema brúarvörður svarar:

»Einginn betur en sjálfur þú«, þegar komumaður spyr hver geti bætt brúna. Komumaður bætir líka hér við á eptir »löndum, ströndum«:

Vér erum jarlar
sextíu karlar

---

[1] að landi. Hrs, J. Sig, 220. Svo. G. E. sleppir: ströndum.

[2] láttu oss. J. Ól. Látum oss gánga. J. Árn.

[3] Farigen, farígen[a] G. E. Far ekki' enn, far ekki' enn, Sæm. Ey.

[4] Farið allir, farið allir
þér [megið nú[b] gánga. J. Ól.

[5] En sá skal í bandinu hánga
sem seinastur verður að gánga. Blöð frá J Árn.
Ól. sleppir seinustu línunni í textanum, en J. Árn. segir, að sumir hafi hana:
Undir fjallinu stránga.
Sæm. Ey. hefir í staðinn fyrir seinustu línuna í textanum:
hann skal hánga
í bandinu lánga
alla dagana lánga.

[6] Eptir blaði frá Pálma Pálssyni.

[a] = í gegnum.
[b] munað, *Hannes biskup.*

og kunnum at bæta brú
betur en sjálfur þú.

Eg hefi einhvern tímann skrifað það hjá mér eptir einhverjum, að leikur þessi væri líka kallaður drottníngarleikur, en það getur varla verið eptir því sem honum er lýst hér. Hver veit nema þessi Kýngilsdóttir, sem J. Ól. getur um eða kóngsdóttir Hannesar biskups, sé einmitt drottníngin, sem leikurinn er kendur við.

Guðmundur Ólafsson færir til fyrstu línuna úr formálanum[1] og segir að leikurinn heiti öðru nafni gígsleikur. Hann vill láta »gígur« eiga skylt við »geigur« og er það því ekki rétt sem Liljegren segir[2], að Guðmundur kalli leik þenna geigsleik öðru nafni.

Annan brúarleik virðist Jón Árnason benda á í vikivakaritgjörð sinni; segir hann þar að Hoffinnsleikur, brúarleikur og fleiri leikir hafi verið leiknir á eptir vikivökum og sé það einkennilegt að kvonbænir hafi komið fyrir í þeim öllum, en hér er ekki drepið á neitt slíkt.

M. G. sleppir miklu úr formálanum. Annars ber honum saman við lýsínguna. Leikur þessi er fyrst nefndur, svo eg viti, í þýðíngunni á Crymogæa[3].

J. Árn. færir annars til skrítna sögu um uppruna brúarleiks. Hann segir að það sé fært í frásögur, að Jón Loptsson í Odda hafi fyrstur fundið hann og beitt honum við Þorlák biskup helga. Jón á að hafa setið fyrir Þorláki þar sem brú lá yfir keldu eða síki. Hann lét tvo manna sinna halda streing yfir brúna og hleypa fylgdarmönnum biskups undir hann, en biskup reið seinastur og áttu þeir að bregða streingnum fyrir hann og handsama hann. Af þessu kvað leikurinn draga nafn.

**Að elta sel í sjó**[4]. Leikfólkið er selurinn og heimilisfólkið og svo eitt barn eða fleiri. Leiksvæðið er sjórinn og heimalandið. Sjórinn á að vera ferhyrnt svæði, helzt á sléttu og glögt afmarkað. Stærst má það vera tveir faðmar á hvern veg og bezt að reknir séu niður tittir eða stafir í hverju horni og snæri svo streingt milli þeirra utan um svæðið. Þar er selurinn og inn á það svæði má einginn stíga fæti annar. Heimalandið verður að vera nokkuð frá sjónum og má til að vera garður eða annað sem fólkið geti falið sig bak við. Selurinn er einlægt sá stærsti og sterkasti af leikendum. Hann bíður nú kyr í sjó sínum. Heimafólkið vill veiða selinn og egnir hann upp úr sjónum, með því að setja barnið eða börnin á

---

[1] Kóngl. bókas. í Stokkhólmi. Ísl. pappírshandr. 50. 4to.
[2] Skandinaviska Fornålderns Hjeltesagor. I. Stokkhólm. 1818: bls. 338.
[3] Ny kgl. Saml. 1281. fol.
[4] Eptir handr. Þorsteins Erlíngssonar.

þá staði sem selurinn hyggur sér vera óhætt að sækja það á. Þar bíður barnið, en fólkið felur sig á þeim stöðum, sem vænstir eru til að komast frá milli sels og sjóar. Selurinn tekur barnið, ef hann fær færi á því, og ber það í sjó sinn, en komist hann í kröggur, þá fleygir hann barninu og forðar sér. En þó að honum sé sótt, þá má hann aldrei verja sig með höndunum, en höfuð, munn og fætur notar hann sem bezt hann má. Geti hann þá felt einhvern, sem að sækir, á hnén, þá má sá til að vera skríðandi upp frá því í þeim leik. Detti hann alveg, er hann dauður og má ekki gjöra neitt að leiknum. Náist nú selurinn í þessum ferðum, þá dregur fólkið hann á fótunum eins opt milli sjávar og heimalands og hann hefir farið margar fýluferðir eptir barninu. Annars heldur leikurinn áfram, þángað til selurinn nær barninu og getur komizt með það í sjóinn. Þegar svo er komið, sækir alt fólkið að honum þar, og vill ná barninu, og veiða sjálfan hann. Svo má það líka beita snörum og öðrum veiðibrellum, sem það hefir kænsku til og ráð á að hafa. Selurinn ver sig og barnið eptir mætti og reynir með munni og fótum að ná vígvélum af fólkinu, en höndunum má hann ekki beita. Fólkið má heldur hvorki kasta í hann né beita bareflum, en geti selurinn felt einhvern inn á svæðið til sín, þá er það sama sem hann hafi etið það af manninum sem inn kom. Komi t. d. hönd eða handleggur inn fyrir á manninum, þegar hann dettur, þá má hann ekki beita þeirri hendinni framar við aðsóknina, en komi höfuðið inn, þá er sá dauður. Leikurinn heldur svo áfram þángað til selurinn er höndlaður, og er honum þá refsað sem fyr segir, ef svo margt af fólkinu stendur þá uppi, að það hafi mannafla til þess. En nái fólkið barninu en ekki selnum, þá má selurinn halda áfram leiknum, eins og hann hefði aldrei náð því, ef hann þorir það og ef fólkið hefir liðsafla til þess. Gefist selurinn upp góðmótlega, áður en hann nær barninu, sleppur hann með helminginn af refsíngu sinni og skömmina. En selji hann barnið af höndum af sjálfsdáðum, eptir að hafa náð því, þá sleppur hann við alla refsíngu. En gefist fólkið upp fyr eða síðar, þá velur selurinn þann sér til matar sem hann kýs helzt og dregur hann svo í sjóinn og klípur og kvelur hann þar eptir vild sinni, til þess að ögra fólkin og særa það. Þess skal getið, að fólkið má ginna selinn, ef því verður komið við. Það hefir t. d. stundum föt eða annað, þar sem barn skyldi vera.

**Kallsleikur**[1]. Bezt er að sem flestir séu í leik þessum. Leikfólkið er **kóngur**, **börn kóngs** og **kall**. Leiksvæðið er kóngsríkið og kallskotið. Í kóngsríkinu er kóngur með börnum sínum og er optast valinn til þess hóll eða laglegur staður afmarkaður. Skamt þaðan er kallskotið. Það

---

[1] Eptir handr. Þorsteins Erlíngssonar.

á helzt að vera ljótur staður og auðvirðilegur og hundaþúfa þykir ágæt, ef þess er kostur. Kóngur situr í ríki sínu og börn hans hjá honum glöð og kát.

Fyrst skreiðist kall að heiman, keingboginn, með staf og mjög illa til fara. Þegar hann nálgast kóngsríkið kveða við sköllin í börnunum að kalli. Þegar kall kemur fyrir kóng, fleygir hann sér á hné og situr á hækjum sínum, tekur ofan ómyndina og horfir upp á kóng með bænaraugum og sem ámátlegast. Þá segir kall: »Heilir og sælir kóngur góður«. »Kondu sæll kall«, segir kóngur. »Hvaðan kemur þú kall?« »Heiman úr koti mínu«, segir kall. »Er nokkuð í fréttum kall?« segir kóngur. «Ekki nema það sem allir vita», segir kall. »Hvar förstu yfir ána í gær?« segir kóngur. »Á hundavaði, þar sem allir komast þurrum fótum«, segir kall. »Hvert ert þú að fara kall?« segir kóngur. »Eg er að biðja um barn«, segir kall. »Hvað átt þú að gjöra við barn?« segir kóngur. »Gef mér barn«, segir kall. »Eg á ekkert barn«, segir kóngur. »Gef mér barn, kóngur góður«, segir kall. »Þú færð ekkert barn«, segir kóngur. »Æ gef mér barn«, segir kall. »Hvað á það þá að hafa til klæða?« segir kóngur. »Lúsakuflinn og lúsabrækurnar«, segir kall. »Hvað sagðirðu núna kall?« segir kóngur. »Mér varð mismæli, kóngur góður«, segir kall. «Eg færi það í rósakuflinn minn og rauðu brækurnar«. »Hvar á það að sofa?« segir kóngur. »Á hroðanum í hundabælinu«, segir kall. »Helduröu að nokkur maður gefi þér þá barn?« segir kóngur. »Mér varð mismæli kóngur góður«, segir kall. »Í góða rúminu með glitábreiðunni«. »Með hverju ætlarðu að kemba því?« segir kóngur. »Með lúsakambinum mínum og lúsagreiðunni?« segir kall. »Með lúsakambinum og lúsagreiðunni?« segir kóngur reiður og byrstur. »Nei, mér varð mismæli kóngur góður«, segir kall mjög auðmjúkur. »Með gullkambinum mínum og gullgreiðunni«. »Hvað ætlarðu að gefa því að eta?« segir kóngur. «Gorið og gallið og alt það sem verst er«, segir kall. »A — — a?« segir kóngur. »Nei, nei, nei, nei, sussu nei. Mér varð mismæli, kóngur góður«, segir kall. »Eg gef því mörinn og magálinn og alt það sem bezt er«. »Þá er bezt þú fáir óþægðar strákinn (stelpuna) þann (þá) arna«, segir kóngur. »Guð launi þér fyrir mig, kóngur góður«, segir kall. Þá tekur kall við barninu og stendur upp, verður mjög glaður í bragði og segir við kóng: »Verið þér sælir, kóngur góður«. »Farðu sæll kall«, segir kóngur.

Þegar kall er kominn spölkorn með barnið, segir hann við það: »Hvort viltu heldur eg beri þig eða dragi?[1]« Ef barnið vill heldur láta

[1] Eg skal geta þess hér að Steinvör kelling á Felli í Sléttuhlíð sagði mér sögu, eina af átján, í úngdæmi mínu, sem kipti mjög í kynið til formála þessa. Meðal annars spurði tröllskessan — það var tröllskessa þar, sem hér er kall, barn það,

bera sig. Þá heingir karlinn það á herðar sér og heldur í handleggina, en vilji það láta draga sig, þá dröslast hann með það einhvernveginn, og opt heldur hann í axlirnar og dregur það svo milli fóta sinna, eins og kind, og heldur svo heim í kot sitt. Þegar þángað er komið, fær kall barninu moldarköggul eða hrossatað í höndina, snýr um á því húfunni eða aflagar föt þess að einhverju og lætur það svo liggja. Síðan leggur hann aptur af stað til kóngs og hefir þá alla sömu formála og áður og kóngur öll svör hin sömu. Þetta geingur þángað til kall hefir feingið öll börn kóngs. En meðan kall er að sækja seinasta barnið, snúa öll hin börnin um á sér fötunum, tæta á sér hárið, fora sig um höndur og gánga eða skríða svo heim til kóngs með skítinn í lófunum og varast að mæta kalli. Þau bera sig sem aumkunarlegast og veina og gráta og gretta sig og klaga kall mjög. Kóngur tekur þeim eins og hann hafi heimt þau úr helju, lætur þau fleygja óþverranum og lagar föt þeirra. Kall kemur nú heim með seinasta barnið, sér ekki að hin eru farin og fer til kóngs að biðja um fleiri. Þá lætur kóngur skammirnar dynja yfir kall og svo ræðst hann á hann og öll börnin og berja þau hann þá ef þau geta. En kall er opt valinn knár og er mesti frami, ef hann getur þá varizt aðgángi þeirra, og opt er hann svo hygginn að gjöra vel við sterkasta barnið, svo það sitji hjá leiknum. Leikurinn endar optast svo, að söfnuðurinn fer allur út í læk að þvo sér«.

J. Árn. drepur að eins á kallsleik og hefði því orðið fátt til frásagna um hann, ef Þorsteinn Erlíngsson hefði ekki hlaupið undir bagga. Það er vitaskuld að þetta er eiginlega sami leikurinn og fyrsti skessuleikurinn en réttara þótti að lýsa honum sérstaklega, fyrst hann er nefndur sérstöku nafni á Suðurlandi.

**Rófuleikur** eða **halaleikur**. Fyrst taka allir sem eru í leiknum hver aptan í annan, nema einn, svo hersíngin verður ein halarófa. Fremstur er

---

sem hún hafði betlað út úr kónginum, að þessari einkennilegu spurníngu. Eg man lítið úr þessari ágætu sögu og er hræddur um að hún sé týnd nú, en svo mikið er víst að kóngsbarnið hjó að lokum hausinn af skessunni. Skessan ætlaði að hafa kóngsbarnið til sælgætis í tröllaboði og lét það sjálft brýna öxina, sem hún ætlaði að höggva það með, en barnið fékk að reyna hvort hún væri orðin nógu beitt á hárinu í hnakka kellíngar, og brá þá öxinni á hálsinn í staðinn fyrir á hárið. Öðru man eg eptir einkennilegu í sögu þessari. Þegar skessan var á leiðinni heim til sín með kóngsbarnið, þurfti hún að hægja sér og spurði barnið í því skyni hvort styttra væri til fjalls eða fjöru, því hún varð endilega að fara annaðhvort á seturnar.

sá látinn vera sem hraustastur er[1] og heitir hann verjandi[2]. Sá sem er aptastur á að hafa hatt eða húfu á höfðinu og heitir hann halarófa[2]. Sá sem ekki er í röðinni heitir sækjandi[2] og stendur hann fyrir framan verjanda. Hann á að ná húfunni af halarófunni en verjandi á að varna honum þess af fremsta megni. Það segir sig sjálft, að röðin má ekki slitna. Þegar halarófan hefir mist höfuðið er leiknum lokið.

Lárus Árnason nefnir leikinn halarófuleik. V. G. og Páll Vídalín, M. G., G. E. og Sæm. Ey. kalla kann hnappleik. Líklega liggur það bak við húfutökuna að sækjandi taki hnappinn þ. e. höfuðið af halarófunni og kemur nafnið þannig heim við leikinn.

J. Ól. þekkir nöfnin hnappleikur[3] og rófuleikur[4] en leikinn sjálfan þekkir hann ekki. Hann getur þess til, að hann sé sama sem brúarleikur, en það er fjarstætt.

G. E. lýsir leiknum talsvert öðruvísi, en aðrir heimildarmenn mínir. Hann segir að verjandi spyrji sækjanda hvað hann vilji. Hann segist vera kominn að sækja hnapp. Verjandi spyr hvers konar hnappur það sé, tinhnappur, beinhnappur, látúnshnappur, koparhnappur o. s. frv. en sækjandi neitar. Loksins stíngur verjandi upp á hnappinum á höfði halarófunnar. Þá segir sækjandi: hnappurinn er mér kærastur, ef jeg gæti náð honum. Úr þessu ber G. E. saman við lýsíngu mína.

Frá J. Árn. hefi eg feingið brot af formála úr hnappleik á þessa leið: »Viltu köku, viltu ost, viltu hálfan ost, viltu heilan ost? viltu hálfa köku, viltu heila köku o. s. frv? — — viltu hnapp?« »Hnappurinn er mér kærastur, kynni eg að ná honum«. Það er svo að sjá sem verjandi bjóði sækjanda ýmislegt góðgæti, þángað til honum dettur loksins í hug að bjóða honum hnappinn.

Sæm. Ey. hefir útvegað mér formála þenna í heilu lagi. Verjandi, sem Sæmundur kallar foríngja segir við sækjanda, sem Sæmundur kallar beiníngamann: »Hvað ert þú að fara?« »Eg er að reytla mér«. Foríngi býður nú beiníngamanninum ýms matvæli, en hann vill ekki þiggja. Loksins segir foríngi: »Viltu lögg úr hnappi?« »Nei«. »Viltu fjórða part úr hnappi«. »Nei«. »Viltu hálfan hnapp?« »Nei«. »Viltu heilan

---

[1] J. Árn. eptir handriti Páls heitins Vídalíns, alþíngismanns.

[2] Eptir sögn Lár. stúdents Árn. M. G. segir að húfa þess aptasta sé kölluð hnappur og sé hann kallaður hnappur eptir henni, en hin nöfnin eru eins hjá honum. G. E. kallar húfuna hnapp, en nefnir ekki leikmennina.

[3] Eg hefi feingið skeyti um það að heiman, að bændaglíma sé líka stundum kölluð hnappleikur.

[4] Á öðrum staðnum þar sem J. Ól. nefnir leikinn kallar hann hann róðuleik, en það er líklega ritvilla.

hnapp?« »Já, hnappurinn er mér kærastur, ef eg gæti náð honum«. Og svo fer sækjandinn að reyna að ná hnappnum[1].

Annar leikur er nokkuð skyldur halarófuleik, en heitir þó ekki því nafni. Þeir sem sterkastir eru af leikmönnum, skipta með sér liði, til helmínga, eða eptir hlutkesti, eins og í bændaglímu. Liðsmenn hvorstveggja taka hverjir utan um mittið á öðrum, aptanvert, og verður því heil halarófa úr hvorutveggja liðinu, ef margir eru í leiknum. Þeir sem fremstir eru í halarófunum taka hvor utanum mittið á foríngja sínum, en foríngjarnir taka höndum saman, optast hægri höndum saman og vinstri höndum saman. Nú fara foríngjarnir að togast á, og dingla þá halarófurnar til og frá, því einginn má sleppa tökum. Seinast verður annarhvor forínginn að sleppa tökum, og dettur þá öll halarófa hans aptur á bak, ef forínginn og lið hans veitir ekki þeim mun hraustara viðnám. Ef fast er togað, detta opt báðar halarófurnar.[2] — Heimildarmaður minn þekti ekkert nafn á skemtun þessari, en eg hefi heyrt því fleygt úr annari átt, að það væri kallað að fara í halarófu.

**Hnappheida.** Leikmenn eru tveir. Þeir setjast flötum beinum og spyrna saman iljum. Því næst taka þeir snæri, tagl, eða eitthvað þess háttar og togast á um það, taka báðir í af öllu afli. Sá vinnur sigur, sem situr sjálfur kyr en dregur hinn upp og að sér.

Eg hefi líka heyrt leik þenna nefndan hráskinnsleik[3] á Norðurlandi, og kemur það til af því, að menn hafa áður verið vanir að haldast á um blautt skinn, því leikurinn er gamall og er þegar nefndur í fornum sögum[4] og J. Ol. og B. H. þekkja hann ekki nema þaðan.

---

[1] Leikur þessi er alltíður í Danmörku, en sá er munurinn, að sækjandi leitast að eins við að ná einhverjum úr halarófunni. Leikurinn heitir ýmist »Ræven og Hönsene«, »Hvide og sorte Gaas« eða »Ulven og Faarene«. (Spøgemesteren. Kbh. 1866; bls. 13, 18. Den uudtømmelige Spøgemester. Kmh. 1821; bls. 19-20, 47. Saml. af Julelege. Udg. af Werfel. III. Udg., bls. 11-12. Samling af Julelege. Kmh. 1796; bls. 61-2.)

[2] Eptir sögn Bertels Þorleifssonar stud. med. Togunarleikur þessi tíðkast líka í Danmörku. Þó er sá munurinn, að þar leitast halarófurnar að eins við að þoka hvor annari úr stað. (Børnenes Musik, Sange, Lege og Dandse. Kmh. 1871. Tekst, bls. 38. Ride, ride Ranke. Hjørring 1858; bls. 37-9. Børnenes Bog. Rudkjøbing 1867; bls. 11-12 og fleiri barnabækur.)

[3] Í Reykjavíkurskóla eldra var það stundum gjört, að öllum gluggum var lokað í þessu og þessu herbergi. Þegar koldimt var orðið, flugust menn á og létu öllum illum látum. Þetta kölluðu þeir hráskinnsleik. Sigurður L. Jónasson eptir séra Einari Guðbrandssyni á Auðkúlu.

[4] Bárðar saga Snæfellsáss. Kmh. 1860. bls. 26. Þó stendur skinnleikur í meginmálinu, en hornaskinnsleikur skömmu seinna, bæði í meginmálinu og handriti því, sem hefir verið haft til samanburðar. J. Árn. segir líka, að skinnleikur sé nafn sem tíðkist enn í dag.

Opt togast menn líka á standandi um hitt og þetta.

Skúli Thorlacius fjölyrðir mjög[1] um skinndrátt[2] og skiptir honum í hráskinnsleik og reipdrátt. Hráskinnsleik skiptir hann aptur í þrent, 1) að togast á um skinn, 2) að hnuðla skinni saman í kökk og henda honum svo á milli sín. Þriðja þáttinn tekur hann upp úr Saxo[3]. Reipdráttinn segir hann tvenns konar, því þeir sitji ýmist eða standi, sem fáist við hann. Fyrra reipdrættinum skiptir hann í tvent, 1) að toga haunk við einhvern eða að togast á um smeyg, 2) að draga reip við einhvern, eða að togast á um einn eða tvo streingi, með annari eða báðum höndum. Af þessari tegund skinndráttar segir hann að máltækið sé komið: Vant er við raman reip að draga. Hinn reipdrátturinn fer fram á hlaupum.

Eg hefi þrætt lýsíngu Skúla á þessum leik svona nákvæmlega, af því allar tegundir leiksins geta komið fyrir enn í dag, og koma opt fyrir, þótt það sé sjaldnast í vissum og reglubundnum leik, en meðfram til að sýna, hvernig hann fer með leikina, því hann færir til skiptíngar og undirskiptíngar og undirundirskiptíngar, alstaðar þar sem honum er það mögulegt.

**Að róa í sel.** Tveir únglíngar setjast flötum beinum á gólf og halda saman höndum. Þeir eru róðrarmennirnir og róa hvor á móti öðrum. Hinir sem eru í leiknum, eru selirnir og eru þeir að valkóka kríngum sjómennina. Þegar minnst að vonum varir, kasta róðrarmennirnir einhverju í selahópinn. Það er skutull. Sá dettur niður er skutullinn hittir og lætzt vera steindauður. Róðrarmennirnir smámjaka sér að honum, taka hann og leggja yfir fæturnar á sér, taka þeir svo aptur að róa og skjóta, færa sig og innbyrða. Þetta geingur svo leingi sem vera skal.

Það er víst einginn efi á því, að þulan »Róum við í selinn, rostúngs út á melinn« bendir til leiks þessa.

**Handsaxaleikur.** Í fornsögunum er víða getið, að »leika at handsöxum«. Þegar Gángleri kom í Ásgarð, sá hann þar mann í hallardyrunum, sem »lék at handsöxum ok hafði VII senn á lopti.«[4] Ólafur konungur Tryggvason lék að þremur handsöxum í senn, svo að jafnan var eitt á lopti[5] og marga fleiri staði mætti tína til úr sögunum, ef vildi. Það er vitaskuld, að handsöx og öll önnur herneskja er liðin undir lok á Íslandi fyrir lifandi laungu, en þó kvað eyma eptir af leiknum enn í dag, eptir því sem J. Árn. segir: »Til eru þeir hér á landi, sem leika með þremur smá-

[1] Borealium veterum matrimonia. Kmh. 1785; bls. 211-17.
[2] Sbr. Páll Vídalín: Skýríngar yfir fornyrði lögbókar. Rvk., 1854; bls. 493-4.
[3] Sögu Danmerkur eptir Saxo Grammaticus.
[4] Edda Snorra Sturlusonar. Kmh. 1875; bls. 13.
[5] Flateyarbók. Chria. 1860; I, bls. 463-464.

steinum á sama hátt, sem fornmenn léku að handsöxum, svo að ávalt er einn á lopti, en optast allir þrír.« Eg þekti ekkert nafn á þessari skemtan, svo eg tók það til bragðs, að geta hennar undir gamla nafninu.

**Burtreið** (?)[1] Í leiknum eru fjórir menn, og setjast tveir þeirra upp á herðarnar á hinum. Axlamennirnir snúa fótunum fram og halda burðarmennirnir utan um þá, sem fastast, því alt er komið undir því, að axlamennirnir séu sem óvaltastir í sessinum. Nú gánga burðarmennirnir fast hvor að öðrum. Axlamennirnir fara í handalögmál jafnskjótt og þeir ná saman og reyna að fella hvor annan niður. Ef öðrumhvorum tekst það, þá hefir hann unnið sigur. Annars er leikur þessi ekki mikið tíðkaður, því leikmenn geta opt feingið illa byltu.

J. Ól. nefnir leikinn að ríða háhest eða ríða háhesti[2], en lýsir honum alveg eins og hér er gjört, nema hann segir að burðarmennirnir eigist líka við og hjálpi hinum eptir fremsta megni. Stefán læknir Gíslason kallar leik þenna að ríða ofan páfann.[3]

**Birnuleikur.** Leiksvið er helzt valið þar, sem fylgsni eru í grend, og geta verið svo margir í leiknum, sem vilja. Sá sem sterkastur er af leiksmönnum, er birna, en tveir, sem yngstir eru eða kraptaminnstir, eru húnar hennar; fer birnan með þá í bæli sitt, en það er einhver tiltekinn staður á leiksviðinu. Aðrir leikmenn eru til og frá um leiksviðið, annaðhvort fyrir allra augum eða þá í felum. Þegar birnan hefir verið stundarkorn í bæli sínu, fara húnarnir að verða innantómir. Birnan fer á veiðar til að afla þeim bráðar, og á nú að ná einhverjum leikmanna. Ef það tekst, fer hún þegar með hann heim í bæli sitt. Húnarnir verða honum fegnir og kvelja hann og klípa af fremsta megni. Birnan fer þegar á veiðar aptur og á að draga sem flesta heim í bæli sitt, en meðan hún er að heiman, leitast hinir, sem í leiknum eru, mennirnir, við að draga húnana eða þá, sem birnan hefir þegar veitt, út úr bælinu, því þá verða þeir að mönnum aptur; sælast því sumir leikmanna til að vera í felum, sem næst bælinu, svo að þeir eigi

[1] Mig minnir, að eg hafi heyrt leik þenna nefndan svo, en þori þó ekki að ábyrgjast það.

[2] Eg hefi heyrt þetta orð í sambandinu, að bera einhvern á háhesti og situr þá sá, sem borinn er, alveg eins og lýst hefir verið, en hesturinn ber hann að eins til og frá. Þar kemur ekki til greina nein orusta, eins og hér.

J. Árn. nefnir eptir Páli heitnum Pálssyni, að ríða á háhesti, en ekki virðist hann telja það beinlínis til leika.

[3] Burtreið er lýst í 76 Gaader, Lege og Taskenspillerkunster. Kmh. 1865; bls. 13, og heitir þar »Hippas«. Hún er líka í Hvormed skal jeg more mig (bls. 9) og Drengenes egen Bog (bls. 10).

sem hægast með að ræna það, meðan birnan er að eltast við hina. Birnan ver aptur únga sína eptir faungum, og sleppir stundum bráð sinni í miðju kafi, ef húnarnir eru í hættu staddir. Þetta geingur koll af kolli, þángað til birnan hefir annaðhvort veitt alla mennina, eða þeir hafa rænt öllum úr bælinu. Ekki mega húnarnir, eða þeir, sem birnan hefir veitt, fara úr bælinu af sjálfsdáðum, en aptur er mönnunum heimilt að veitast að birnunni, og reyna til að ná þeim af henni, sem hún hefir þegar klófest. Ef fleiri enn einn er í bælinu í einu, auk húnanna, hjálpa þeir húnunum til að þraungva kosti þeirra, sem birnan kann að ná framvegis.[1]

Hver veit nema leikur þessi standi í sambandi við þá trú, að bjarndýr séu menn í álögum[2], því hér verða menn að húnum, en húnarnir aptur að mönnum, ef svo vill verkast.

**Beiníngaleikur** eða **húsgángsleikur**. Leikurinn fer fram inni. Leikendur skipta sér niður sinn í hverju horni á húsinu, þar sem leikið er. Einn stendur þó á miðju gólfi og heitir hann húsgángur eða beiníngamaður. Hann geingur á milli hinna og segir við hvern fyrir sig: »Gef mér pláss,« en svarið er ávalt: »Farðu til þess næsta.« Meðan beiníngamaður er á leiðinni þángað, leitast hornamennirnir við að hafa vistaskifti, en beiníngamaður leitast aptur við að komast í eitthvert hornið sem losnar. Takist honum það, verður sá, sem misti horn sitt að beiníngamanni. Svo er byrjað á nýan leik, ef vill, og svo koll af kolli, svo leingi, sem vera skal.[3]

Að skipta um horn er mjög svipað. Þessi seinni leikur fer fram úti og eru venjulega þúfur í staðinn fyrir horn. Sá sem stendur í miðjunni, klappar saman höndunum og fara þá hinir að hlaupa milli hornanna o. s. frv., eptir því, sem áður er sagt. Stundum gjörir miðmaðurinn sig að eins líklegan til að klappa höndum saman, og er það glópska hornmannanna, ef þeir láta það villa sig.[4]

**Lauma**. »Þessum leik er svo skipað, að þeir, sem leika, sitja í hríng og sem þéttast þeir mega; allir halda þeir höndum fyrir aptan bakið, og einn

---

[1] Eptir sögn Bertels Þorleifssonar stud. med.

[2] Sbr. Þjóðs. J. Árn. I, bls. 608.

[3] Eptir sögn Steingríms stud. jur. Jónssonar. (Frá Pálma Pálssyni.)

[4] Eptir sögn Bertels Þorleifssonar. Leikir, sem eru mjög svipaðir báðum seinustu leikjunum, eru í þorranum af öllum þeim leikjabókum, sem minnst hefir verið á, t. d. Ride, ride Ranke. Hjørring. 1858; bls. 40-41. Bernenes Bog. Rudkjøbing. 1867; bls. 15-16. Saml. af Julelege. Kmh. 1843; bls. 3-4. Den uudtømmelige Spøgemester. Kmh, 1821; bls. 7-8 og 50 Selskabslege. Kmh. 1873; bls. 19-20.

heldur á einhverju í höndunum. Einn maður stendur innan í miðjum hríngnum. Réttir nú sá, er á hlutnum heldur, hann að næsta manni og svo hver að öðrum, en það er fimleikur þeirra, að láta einga hreyfíngu sjást á handleggjunum, því sá sem er í miðjum hríngnum, á að hitta á, hvar hluturinn er, og er það vinníngurinn, að verða sem fyrstur að hitta það. Þenna leik má bæði hafa úti og inni og í honum geta verið svo margir sem vilja.

Sumir kalla leik þenna músarleik og enn aðrir húfuleik, en þá dregur hann nafn af því, að leikendur sitja í hríng á velli eða fleti, réttum beinum og setja upp hnén. Halda þeir þá höndunum undir hnjám sér og rétta hlutinn, sem þá er optast húfa, undir hnjám sér, hver að öðrum.«[1]

J. Ól. nefnir að eins húfuleik.

**Skírnarveizla.** Þrír menn taka þátt í leiknum og eru tveir þeirra hjón, en prestur sá þriðji. Hjónin efla til veizlunnar, eins og lög gjöra ráð fyrir, en það er allur undirbúníngurinn, að þau setja tvö koffort fram á mitt gólf og á að vera liðugt alinnar bil á milli þeirra. Að því búnu breiða þau ábreiðu eða einhvern annan dúk yfir koffortin. Því næst setjast þau hvort á sitt koffort og streingja dúkinn undir sér, svo að ekkert lautar. Nú er presturinn sóttur og kemur hann von bráðara. Optast hefir hann pils eða einhverja dulu yfir herðunum og á það að vera hempa. Bóndi býður honum til sætis milli þeirra hjóna, meðan sé verið að búa undir skírnina og þiggur prestur það. En um leið og hann sezt, standa bæði hjónin upp í snatri, en presturinn hlúnkast aptur á bak milli koffortanna.

Það er galli á þessum leik, að presturinn má ekki vita, hvað er á seyði. Hann má ekki þekkja leikinn. Heppilegast er líka, að presturinn sé látinn skíra í rökkrinu. Beinteinn Gíslason stud. jur. hefir heyrt leik þenna kallaðan að skíra barn, en Páll Einarsson stud jur. að gipta. Hann hefir vanizt því, að tveir settust á milli svaramannanna og væru þeir brúðhjón. Annað þeirra væri opt í vitorði, svo að þann grunaði síður, sem ætti að fá skellinn.

**Að draga á dræsunum í Rómavegu** er fólgið í því, að eldra barn og stærra heingir sig aptan í ýngra barn og minna og segir við það: »Dragðu mig á dræsunum í Rómavegu.« Að svo mæltu heldur fremra barnið af stað og reynir af fremsta megni að draga hitt á eptir sér, en veitir erfitt, eins og eðlilegt er[2]

---

[1] Eptir handr. M. G.

[2] Eptir sögn Sigurðar L. Jónassonar.

**Hríngbrot** eða **hríngrof.** Í leiknum geta verið svo margir sem vilja. Leikmenn taka höndum saman og skipa sér í hríng. Tveir leikmanna taka að rjúfa eða brjóta hrínginn. Þeir rétta upp hendur þær, sem þeir halda saman og myndast við það nokkurs konar hlið, sem allir hinir leikmennirnir gánga í gegnum. Þegar allir hinir hafa gengið í gegn, er hríngurinn orðinn alveg umsnúinn eða úthverfur. Leikmenn hoppa nú nokkra stund í hríng, svona rángsælis, en ekki getur það heitið dans, sízt reglubundinn. Seinast rjúfa tveir aptur þenna ránghverfa hríng eða halda upp höndunum, eins og áður og gánga allir undir þær. Þegar því er lokið, standa leikendur eins og þeir stóðu í leikbyrjun, enda er þá leiknum lokið. Við leik þenna eru stundum súngin kvæði, eptir því sem verkast vill, en aldrei hefi eg heyrt nein kvæði eða neina formála, sem eru einkennilegir fyrir hann.[1]

J. Árn. nefnir hríngbrot öðru nafni að rjúfa skjaldborg, og kemur það heim við það, að þeim hefir verið ruglað saman við skjaldborg, eins og getið er um við hana.

Hríngbrot þau, sem lýst hefir verið, eru algeing skemmtun únglínga á Norðurlandi þann dag í dag, en Eggert Ólafsson, J. Ól., Skúli Thorlacius og fleiri minnast á annars konar hríngbrot, sem meir svipar til dansa og verður getið um þau í þeim hluta safns þessa, þar sem vikivökunum verður lýst. Hríngbrot þau, sem eg hefi vanizt, eru ólík öllum dönsum meðal siðaðra þjóða, sem eg hefi nasasjón af, en líklega eru þau þó í raun og veru gamall og göfugur þjóðdans, sem er orðinn svona afskræmdur og af sér geinginn. Séra Benedikt Jónsson nefnir hríngbrot. Eg hefi séð þau nefnd fyrst í Píslarprédikunum séra Páls Bjarnarsonar í Selárdal (1684). Hrs. Bmfj. 63. 4to; bls. 108.

**Pinnaleikur.** Knattleikur var leikinn allra leikja mest í gamla daga, og er getið um hann á hverju strái í gömlu sögunum. Líklega mætti lesa saman úr þeim, hvernig hann hafi verið, og hefir þó Rudolph Keyser verið í vandræðum með hann. Eg hefi séð einna greinilegasta lýsíng á honum hjá Thorlaciusi.[2] Hann segir að listin hafi verið að taka annaðhvort knöttinn, sem manni var sendur, eða slá hann til baka með knatttrénu (knattdreplinum). Hinir leikmennirnir hafi aptur átt að varna því, að sá næði knettinum, sem átti að gjöra það, svo sem með því að grípa hann sjálfir, eða slá hann úr leið með dreplinum. Ef sá, sem knettinum var stefnt til, gat ekki náð honum eða slegið hann til baka, þá átti hann að sækja hann, þángað, sem hann datt niður, en það var opt lángt frá leiksviðinu, og færa leikmönnum hann. Sjálfsagt vantar þó margt og mikið í lýsíngu þessa.

[1] Í »50 Selskabslege.« Kmh. 1873; bls. 15, er leikur mjög svipaður hríngbrotum og heitir »Babelstaarnet«.

[2] Borealium veterum matrimonia. Hafn. 1785; bls. 226.

Eins og lætur að líkindum er knattleikur lagður niður á Íslandi fyrir lifandi laungu eins og hann var í gamla daga. Þó er nafnið enn við lýði. Í lýsíngu Breiðdalssóknar (1873) er þess t. d. getið, að knattleikur sé leikinn þar um slóðir, en eg þykist gánga að því alveg vísu, að það sé sami leikurinn, sem annars er kallaður pinnaleikur eða boltaleikur.

Vera má að pinnaleikur sé leifar af knattleiknum gamla, að minnsta kosti er svo mikið víst, að hann er ekki spánnýr á Íslandi. Eg hefi feingið af honum greinilega lýsíng eptir Pál heitinn Pálsson og er hún skrifuð hér um bil 1860. Neðan við lýsínguna stendur: »Nú eru um 40 ár, síðan eg sá seinast leikið«. Eptir því er pinnaleikur að minnsta kosti sjötugur á Íslandi. Eg tek hér upp orðrétta lýsíngu Páls: »Til leiksins útheimtist þrent: 1) pinni, þ. e. trékubbur hér um bil 1—$^{3}/_{4}$ þumlúngar í þvermál og 3 þumlúngar á leingd, aðdreginn til beggja enda,[1] 2) pinnatré, þ. e. þunn skífa, sem svarar hálftunnustaf, hér um $2^{1}/_{2}$—3 þumlúngar á breidd og 3 kvartil—alin á leingd, nokkuð mjórri í þann endann, sem haldið er um, eða á að gizka 2 þumlúngar; 3) hlóðir, þ. e. 2 steinar kantaðir með skörpum brúnum, settir nokkurnveginn limrétt[2] með rúmu tveggja þumlúnga millibili á sléttan völl, þar sem leiksvæðið er valið. Þegar þetta er feingið hefst leikurinn, eptir að leikendur eru búnir að koma sér saman um, eða ef það tekst ei, hlutast um, hver verja skuli (af hverju öll vinníngs von er) og hver sækja (sem ætíð hefir missirinn í för með sér, svo leingi vörnin ekki fatlast). Annan kalla jeg því verjanda en annan sækjanda.

Fyrsta atriði byrjar svo, að verjandinn leggur pinnann þversum ofan á og yfir um hlóðirnar, þannig að hér um $^{1}/_{2}$ þumlúngur nemi upp á steinbrúnirnar hvorum meginn. En sækjandi fer á sínar stöðvar, fram undan hlóðunum, svo lángt sem honum þykir hlíta. Síðan smokkar verjandi mjórri endanum á pinnatrénu skáhalt undir pinnann og gefur hann út, þ. e. þeytir honum með því, svo lángt, sem hann getur, leggur svo pinnatréð flatt, þversum á hlóðirnar og víkur til hliðar. En sækjandinn leitast við, á hinn bóginn, að henda pinnann á lopti með hendinni eða í hatt sinn, því heppnist honum það, er hinn fallinn á vörninni, og geingur sækjandinn þá að henni. Takist þetta ekki reynir sækjandinn eingu að síður að stemma stigu fyrir pinnanum, með hendi eða fæti, meðan hann er á lopti, er honum það heimilt, en úr því pinninn er fallinn á jörð, má hann ekki mjaka honum neitt úr stað. Síðan fer hann þángað, sem pinninn liggur, og stígur öðrum fæti á hann, þannig að hann sé rétt undir holilinni, tekur hann síðan upp og færir sig með hann einu skrefi nær hlóðunum, kastar honum svo heim á leið, sem næst hlóðunum, og leitast við að hitta pinnatréð, sem á þeim

[1] »Þykkur í miðju, oddmjór til beggja enda, svo að endarnir náðu ekki niðri, eða voru á lopti, þegar pinninn lá á borði eða sléttum steini.« Páll Melsteð.

[2] Sjálfsagt sama sem lárétt.

liggur, því lánist það er vörnin fallin. Annars kostar fær verjandi jafnmarga vinnínga, sem pinnatrés leingdir eru frá pinnanum, þar sem hann lendir, þegar sækjandi kastar og að hlóðadyrunum. Sje bilið ekki full trésleingd vinnur verjandi ekkert (nema þar um sé áður samið) og lyktar hérmeð fyrsta atriði

Annað atriði byrjar með því, að verjandi kastar eða slær út pinnanum, þ. e. hann stendur hliðhalt við hlóðirnar með hægrafótarjarkann við hlóðamunnann, heldur pinnanum milli gómanna á vinstri hendi og slær undir hann með flatveg pinnatrésins, sem hann heldur á í hinni hægri, þannig að pinninn hrjóti sem leingst fram undan hlóðunum, í áttina til sækjanda. Þó má hann ekki slá fyr en sækjandi er kominn svo lángt frá, sem honum þykir hæfa. Mistakist nú verjanda að slá út pinnann, á þann hátt, að hann falli niður ósnertur af drepnum, er hann fallinn á vörninni og tekur þá sækjandi við. Annars ber sækjandi sig að með hendíngu pinnans á lopti, eins og greinir í fyrsta atriði. En í verjanda tilliti er sá munur, að nú má hann verja hlóðir sínar, sem ýtrast hann getur. Stendur hann framan við þær, öndverður sækjanda og haldandi á pinnatrénu í hægri hendi; ber hann það fyrir sig og leitast við að mæta pinnanum með því á heimfluginu og hrökla hann svo lángt aptur, eða eitthvað á burt, sem unt er, því svo margir eru vinníngar (eins og fyr), sem hann fellur trésleingdir frá hlóðunum. Heimilt er honum og að bregða fæti fyrir hann, meðan hann ekki hefir snert jörð. Hins vegar leitast sækjandi við að koma pinnanum sem næst hlóðunum og takist honum að hitta þær, er verjanda fallin vörnin.

Þegar málin eru talin og vinníngarnir ritaðir, hefst þriðja og seinasta atriði, sem stytzt er og að eins innifalið í því, sem kallast að vippa. Leggur þá verjandi pinnann á hlóðabrúnina, þannig, að fram af henni standi hér um bil þriðjúngur hans (eða svo mikið, sem hverjum þykir sér bezt henta). Síðan slær hann á það, sem fram af stendur, svo fimlega, með jaðrinum á pinnatrénu, að pinninn hefjist vel á lopt, og í því sama slær hann undir hann með pinnatrénu flötu og þeytir honum svo lángt, sem honum er lagið, í hverja átt sem bezt gegnir. Misheppnist vippíngin, þannig að pinninn velti óhönduglega snortinn ofan af hlóðunum, eða að drepurinn[1] missi hans, eptir að hann er kominn á lopt, er verjandi úr veltunni og fallinn á vörn sinni. En hafi hann að eins snert pinnann, þótt dráttarlítið verið hafi, heldur hann vörn sinni og vinníngum, eptir málatölu, ef málum nemur; ef ekki, missir hann vörnina, því þá má álíta, að pinninn sé fallinn niður óvippaður. Fyrir þau mál reikna sumir (minnir mig) tvöfalt meira en fyrir hin t. a. g.[2] með tilliti til þess að vippíngin hefir þótt hvað vanda-

[1] Sama sem pinnatré.

[2] = til að geta.

sömust. Annars er það, eins og reikníngurinn yfir höfuð í þessum og hverjum öðrum leik, komið undir samkomulagi þeirra sem hlut eiga að«. Loksins getur Páll þess að þetta sé ef til vill sama sem að verja hlóðir og er það mjög sennilegt. J. Ól. nefnir það eins.

Séra Hallgrímur Pétursson minnist á, »að snara konstugum knetti«, og á hann þar eflaust við knattleik eða pinnaleik.

Páll Melsteð hefir sent mér lýsíng á pinnaleik, og ber henni mjög saman við lýsíngu nafna hans. Páll Melsteð segir að Bessastaðapiltar hafi opt farið í pinnaleik og hafi hann geingið neðan frá Lambhúsagarði fyrir sunnan stofuna og austur fyrir alla garða; þegar vel var að verið. Þeir hafi haft knött úr eikitré eða beyki, en knatttré úr eikivið. Hver veit nema Páll heitinn Pálsson hafi líka lært þenna leik í Bessastaðaskóla. Í Baldri[1] er drepið á það, að Húnvetníngar muni hafa leikið knattleika á Vesturhópsvatni veturinn 1870, en því miður hafði höfundurinn eingar greinilegar sagnir af samkomu þessari.

Jeg lærði pinnaleik í Eyafirði í úngdæmi mínu og heyrði hann líka kallaðan boltaleik. Eg hefi steingleymt honum, en þó man eg, að hann var að mörgu leyti líkur pinnaleik Páls. Sjálfsagt er leikur þessi leikinn mjög lítið og líklega óvíða. Að minnsta kosti hefir einginn þekt hann, sem eg hefi minnst á hann við, í seinni tíð, og hvergi er honum lýst í ritgjörðum þeim, sem eg hefi haft mér til stuðníngs.

G. E. nefnir soppleik eða boltaleik en ekki pinnaleik, en það er þó eflaust alt sami leikurinn. Soppleikur er nefndur í fornsögunum, en mjög óvíða, svo ekki er mögulegt að sjá hvernig hann hefir verið leikinn, en sjálfsagt hefir hann verið í áttina til knattleiks, enda þýða orðabókahöfundar soppur eins og knöttur t. d. B. H. og Guðbrandur Vigfússon. B. H. nefnir líka soppdrepu og er það knatttréð eða knattdrepurinn. Á soppleik er líka minnst í Ármannssögu[2].

Annars fer J. Ól. undarlegum orðum um soppleik. Hann segir að stundum sé einn um leikinn, en þó geti tveir eða fleiri tekið þátt í honum. Hann sé leikinn á 5 vegu með hnöttóttum steini eða þá einhverju öðru hnöttóttu. Fyrsta aðferðin er þegar einhver lætur stein detta úr hendi sér og grípur hann, áður en hann kemur niður. Önnur aðferðin er að kasta steini upp í loptið og grípa hann á leiðinni niður. Þriðja aðferðin er að kasta steini upp í loptið með annari hendinni, og taka hann með hinni, á leiðinni niður, en standa þó í sömu sporum. Fjórða aðferðin er alveg eins, nema þá á maður að vera á gángi. Fimta aðferðin segir hann sé þegar tveir eða fleiri standa andspænis hvorir öðrum og grípa á víxl steina, sem þeir kasta hvorir til annara. Seinna segir hann að henda sopp sé

[1] III; bls. 12.
[2] Akureyri 1858; bls. 29.

að kasta steini eða einhverju hnöttóttu upp í loptið með annari hendi og grípa það með hinni, áður en hann fellur til jarðar.

Alt þetta brángs er við lýði enn í dag, en aldrei hefi eg heyrt það kallað neitt, nema þá í hæsta lagi að henda (stein) á lopti eða kastast á, og hefði eg getið þess þar sem eg minnist á kast, ef J. Ól. nefndi það ekki soppleik með skýrum orðum.

Séra Jón Yngvaldsson minnist líka á soppleik og sopp, og segir að soppur eða leiksoppur sé »fisléttur hnöttur, gjörr af hári, heyi eða ull og saumað skinn utanum. Stundum hafa sveinar að soppi útþaninn hrútspúng eða blöðru[1]«.

Loksins má geta þess að stundum er sagt að fleygja einhverju eins og sopp[2].

Auk leikja þeirra, sem hér hafa verið taldir, eru til ýmsir leikir sem eg hefi einga eða þá mjög óljósa hugmynd um. Eg skal drepa á þá sem eg hefi séð eða heyrt nefnda.

J. Ól. telur ekki svo fáa leiki, sem hann kann ekki að lýsa og eru þeir þessir: eplaleikur[3], sessuleikur, lögmannsleikur[4], kellíngarleikur[5], og Háu-Þóruleikur[6].

Dr. Jón Þorkelsson yngri segir mér að selaleikur sé til[7].

Vopnaleik[8] nefnir B. H.

Prikaleikur er nefndur í æfisögu Jóns Eiríkssonar Kmh. 1828. bls. 102[9]. Þar segir að Illugi, sem seinna var kallaður Illugi svarti, hafi verið í prikaleik við annan dreing á gólfinu á Skarði á Skarðsströnd: »vildi þá svo

---

[1] Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 319, 365.

[2] Þjóðs. J. Árn. I; bls. 372.

[3] J. Árn. segir eptir Hákoni Hákonarsyni í Brokey, að þetta muni vera sama sem að berjast með grasvöndum, en eg er eingu nær.

[4] Guðmundur Andrésson nefnir hann í orðabók sinni og getur J. Ól. líklega um hann eptir honum, því hann veit ekkert um leikinn, en getur þess til að hann muni ekki vera ólíkur goðatafli. Þessi tilgáta er þó lángt frá því að vera heppileg, eða að minnsta kosti er það ólíklegt, að leik skuli hafa verið blandað saman við tafl. Séra Benedikt Jónsson nefnir hann líka í leikkvæði sinu.

[5] Hann nefnir líka séra Þorsteinn Pétursson í Manducus. Sbr. bls. 15.

[6] J. Ól. segir, að þessir tveir seinustu leikir muni vera það sama. Í báðum komi fyrir skrímsli nokkuð eða »skrípildi«. Í Háu-Þóruleik heiti skrímslið Háa-Þóra og sé hún ákaflega há vexti, mjög málug o. s. frv. Meira er ekki að græða á Jóni um þessa tvo leiki. Mig grunar annars að þeir standi í einhverju sambandi við vikivaka.

[7] Er ef til vill sama sem að róa í sel eða elta sel í sjó.

[8] Það er þó ef til vill að eins orustukenníng.

[9] Eptir handriti séra Vigfúsar Jónssonar, en hann hafði eptir gömlum skræðum, frá tíð Odds biskups Einarssonar (1589—1630). Sbr. Árb. Espólíns. II; bls. 10.

slysalega til fyrir Illuga, að prik hans óvörum kom á fót Lopti, svo honum varð mjög dátt í á eptir, settist niður og sagði: »þú slær ógætilega piltur«. Eg hefi hvergi séð getið um prikaleik annarsstaðar en hér. Mér er þessvegna óljóst hvort hér er átt við reglubundinn leik, því það getur eins vel verið, að piltarnir hafi verið að venjulegu brángsi með prik, eins og börnum er títt.

Grenjabítur er nefndur í Kvæðum séra Stefáns Ólafssonar[1]. Jón þorkelsson segir í athugasemd, að hann sé ef til vill sama sem skollaleikur eða krækilblinda, og er mögulegt að Jón eigi kollgátuna.

Valsleikur er nefndur í Sumargjöf handa börnum frá séra Guðmundi Jónssyni[2]. það skilst á því, sem presturinn segir, að leikurinn sé eltíngaleikur og einn leikmanna sé valur. Annars er ekki alveg víst að leikurinn sé íslenzkur, því Sumargjöfin er þýdd og sniðin eptir útlendri bók. (Sbr. formála hennar).

Völuleikur og kögglaleikur eru nefndir í orðabók Guðmundar Ólafssonar[3], en mér þykir líklegt að þetta hafi aldrei verið íslenzkir leikir, enda er það ekki tekið fram í handritinu. Leikjanöfn þessi eru höfð þar svo sem þýðíng á »talus« og »astragalus«, en svo hétu nokkurs konar teníngar á latínu.

Séra Guðmundur Einarsson nefnir jafníngjaleik. Hann hafi verið leikinn í gamla daga, en sé nú týndur.

Svipuleik nefnir J. Árn. og hefi eg aldrei heyrt getið um hann, um þessar mundir. Aptur er svipuleikur nefndur í Fornmannasögunum[4], í þættinum af þorsteini Bæjarmagni, og er þar þó einginn verulegur leikur, því hann er fólginn í því, að þorsteinn pjakkar eld úr töfrahalli sínum.

Sama er að segja um hituleik, sem Asmundur Flagðagæfa þreytti við þorgerði »Höldatröll«[5], Listin var að gleypa glóandi nagla, og má því fullyrða að leikur þessi hafi ekki verið mikið tíðkaður.

Séra Jón Steingrímsson getur þess í æfisögu sinni[6], að bitaleikir hafi tíðkazt í Hólaskóla, um miðja 18. öld, og veit eg ekkert hvers konar leikir það hafa verið. Stökkfimi virðist þó hafa verið merguriun málsins, því séra Jón tekur það fram, að þeir hafi æft mann í því að hlaupa á skip o. s. frv[7].

Dómaraleikur er til, eptir því sem Eyfirðingur einn hefir skrifað

[1] I; bls. 35.
[2] Leirárgörðum. 1795; bls. 119—21.
[3] Hrs Bmfj. 77. fol., bls. 193.
[4] III; bls. 193, 196.
[5] þjóðs. J. Árn. I; bls. 176.
[6] Hrs. Lbs. 182, 4to.
[7] Fjallkonan. 1877; bls. 16.

mér, en hann hefir ekki getað grafið upp hvernig hann er, og eg þekki ekki nafnið sjálfur, því síður leikinn.

Dómstólaleikur, hefir tíðkast í Borgarfirði, og er víst við lýði e… í dag.

Þjófaleik hefir Þorsteinn Erlíngsson kunnað í úngdæmi sínu, en hv… nú gleymt og veit ekki betur en leikurinn sé nú týndur; þar stal þjófur börnum frá móður þeirra. Formálar miklir fylgdu leik þessum.

Í þýðingu þeirri á Crymogæa Arngríms Jónssonar, sem getið er um inngánginum, eru nefndir ýmsir leikir sem nú virðast vera týndir eða h… þá að minnsta kosti breytt nafni. Til »kappleika« (t. d. knattleikur, hestaat) eru þar taldir »bolleikur, varpleikur, sundleikur og aðrir«. Sundleikur er sjálfsagt sund. Eptir réttrituninni á handritinu má l… »bólleikur« alveg eins og »bolleikur« og þekki eg hvorugt nafnið. Ekki heldur varpleik. Það er þó ef til vill ekki fjarri sanni að bolleikur sé sa… sem boltaleikur eða knattleikur, en varpleikur kastfimi.

Af »úngdómsins gamanleikjum« eru þessir vafageplar: hendíngaleikur, grenjaleikur, sem líklega er sama sem grenjabítur, dáraleikur og »Gygursleikur«. Líklega væri réttara að nefna þenna seinasta leik gýgjarleik og getur það, eptir orðunum, verið sama sem skessuleikur.

Bertel Þorleifsson, stud. med., kannast við skipaleik, en hann er víst ekki annað, en að láta hitt og þetta, t. d. fjalir vera skip, sem róið er, eða barizt á o. s. frv.

Guðmundur Ólafsson, sem dó í Svíþjóð 1698. hefir skrifað upp nöfnin á nokkrum íslenzkum leikjum og listum, og eru þau nú í kónglega bókasafninu í Stokkhólmi[1]. Ekki lýsir Guðmundur nokkrum leik, og er skaði. Af leikjum, sem eg þekki ekki, nefnir hann: grenjakaup, kalls- og kellíngarleik, brekansleik og fretlykkju, ef það er þá ekki list. Grenjakaup er þá líklega sama sem grenjabítur. Kalls- og kellíngarleikur getur ekki verið sama sem kellíngarleikur, því Guðmundur nefnir hann líka. Leikjaskrá Guðmundar er prentuð í: Skandinaviska Fornålderns Hjeltesagor. Utg. af J. F. Liljegren. I. Stockholm. 1818; bls. 338, en þar eru nöfnin víða afbökuð. Eg hefi haft frumritið fyrir mér.

## 3. GREIN.

## LISTIR.

Það er svo mikill munur á listunum og leikjunum, að vert þótti að skipa þeim sæti sér. Í leikjunum eru optast eða geta að minnsta kosti

---

[1] Pappirshandrit, 50. 4to.

verið margir. Í listunum taka sjaldnast fleiri þátt en tveir. Optast er þó að eins einn um hituna. Það sem ríður mest á í leikjunum er optast eitthvað einfalt og óbrotið, eitthvað, sem allir eða flestir hafa í vitum sínum, meira eða minna, t. d. fráleikur á fæti eða á hinn bóginn kænska til að fela sig. Í listunum er venjulega aptur einhver sérstakur fimleiki mergurinn málsins. Leikjunum fylgja líka opt formálar, en það á sér stað með mjög fáar listir, og fleira mætti tína til. En í því eiga listirnar sammerkt við leikina, að þar er einhver líkamleg áreynsla eða hreyfíng aðalatriðið.

Listirnar eru mjög misjafnar, eingu síður en leikirnir, og er sama að segja um flokkun á þeim og leikjunum. Sumum er hægt að skipa saman eptir efni t. d. bitalistunum, en margar standa alveg einar sér.

Bitalistir má kalla listir þær, þar sem listamaðurinn tekur höndum upp um bita og gjörir svo hitt og þetta. Sumar af listum þessum eru einna algeingastar allra lista t. d. að fara gegnum sjálfan sig og flá kött, sem svo að segja hvert mannsbarn á Íslandi þekkir.

**Að flá kött**[1]. Sá sem leikur list þessa bregður höndum og fótum utan um einhverja fasta slá, optast bita í baðstofu, sleppir síðan höndunum og hángir á fótunum einum. Í þessum stellíngum á listarmaðurinn að klæða sig úr treyu eða[2] vesti, klæða sig í fatið aptur og vega sig svo upp í sömu stöðu og áður.

J. Ól. og séra Jóni Ýngvaldssyni[3] ber alveg saman við lýsíngu þessa. G. E. segir að listarmaðurinn eigi að fara þrisvar úr og í treyu eða vesti.

**Að fara á kjöl**. Kjölfarinn bregður höndum og fótum upp um bita og vegur sig síðan upp á hann öðrum megin með liðleik og afli, því ekki má hann hafa nokkra viðspyrnu. Jón Sigurðsson á Gautlöndum hefir sagt J. Árn. að listarmaðurinn ætti loksins að leggjast endilángur ofan á bitann og væri þrautin þá fyrst unnin.

J. Ól. nefnir að eins þessa list. Bogi Melsteð kallar þetta að fara á jómfrú, en J. Árn. að komast á kjöl. Sama segir Valdimar Ásmundarson í lýsíngu Svalbarðssóknar. Hallgrímur Pétursson nefnir listina.

**Að fara á kellíngu**. Listarmaðurinn bregður höndum og fótum upp um bita. Að því búnu snýr hann sér við, svo að bak hans veit upp að bitanum og á hann að reka rassinn þrisvar upp í hann hvað eptir annað. J. Ól. ber saman við lýsíngu þessa.

Séra Jón Ýngvaldsson hefir heyrt nafnið á list þessari haft um annað

[1] Sbr. Stefán Ólafsson: Kvæði I. Kmh. 1885; bls. 151.
[2] og G. D., Jóhann Pétursson.
[3] Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 281.

»svo kallast«, segir hann, »þegar sá, er-reka vill ár sína í sjó niður, alvot verði, upp yfir skauta, fær ei svo vel rekið hana í kaf að skautan nái að vökna«[1]. Séra Hallgrímur Pétursson nefnir list þessa.

**Að fara í gegnum sjálfan sig.** Listarmaðurinn geingur að bita, þann að bitinn er þvert fyrir honum. Hann bregður höndunum upp um bita en fótunum upp yfir höfuð sér, aptur á milli handanna og eiga þeir síga niður að gólfi, ef ekki er því hærra undir bitann. Að því hefir hann sig upp aptur, gegnum höndurnar, þángað til hann er kominn sömu stöðu og áður. Sumir fara þrisvar í gegnum sjálfa sig, hvað annað, áður en þeir sleppa tökum af bitanum. Varast verður að sleppa of fljótt, því annars getur orðið slys[2]. M. G. segir að það þyki vel gert að aptur í gegnum sjálfan sig, þar sem maður hángir öfugur á bitanum. verða tveir snúníngar á handleggjunum og mun ekki vera heiglum hent J. Árn. getur þess, að stundum sé farið í gegnum sjálfan sig á bandi bita stað) en aldrei hefi eg vitað það.

J. Sig. nefnir að fara í sjálfan sig (Hrs. Sv. Grv. 66) og er það eflaust sama sem að fara í gegnum sjálfan sig.

**Að sækja á bita.** Maður tekur höndum á efri bitabrún, sem er að minnsta kosti kollhæð manns og vegur sig upp á handafli eintómu. En áður en maður vegur sig upp, er lagður lykill á bitann, aðrir segja nál, og á sá sem sækir að taka lykilinn eða nálina með munninum; hefir hann þá sókt á bita. Fáir eru svo færir að burðum, að þeir geti sókt á bita, ef þeir ætla sér að taka lykilinn sama megin og þeir hafa hendurnar; er því betra að hafa hendurnar uppi á bitabrúninni, á móti þeirri sem maður ætlar að taka nálina af[3]. J. Árn. nefnir þetta öðru nafni að fara á bita.

**Að fara á bita.** Heimildarmaður minn J. Ól. skiptir list þessari í þrent og segir, að hver greinin hæfi sinni stétt manna. Fyrst er hofmannsuppkast eða bændauppkast »sinni hvorri höndu sé tekið hvorum meginn bita« og búkurinn svo hafinn upp á hann. Þá er sveinauppkast. »Báðar hendur utan; það er bágast«. Seinast er þrælauppkast eða kotúngauppkast. »Báðar hendur innan, því það er hægast«. Annarsstaðar nefnir Jón hofmannsupphlaup, sveinaupphlaup og þrælaupphlaup.

Eptir því sem mér skilst er hofmannsuppkast sama sem að fara á kjöl eða að minnsta kosti er staða listarmannsins gagnvart bitanum sú sama. Aptur held eg að sveinninn og þrællinn standi fyrir þverum bitanum, því það er ekki gott að tala um ytri eða innri brún á bita, gagnvart þeim sem snýr sér eptir bitanum endilaungum. Ef þetta er rétt til-

[1] Hrs. Bmf. 325. 4to; bls. 97.

[2] Sbr. Klausturpósturinn VIII; bls. 51.

[3] J. Árn. eptir sögn Jóns Sigurðssonar Gautlöndum.

gáta, þá ætti ytri bitabrúnin að vera sú sem snýr frá listamanninum, en innri brúnin sú sem snýr að honum og þá á sveininn líklega að bregða höndunum undir bitann upp á ytri brúnina.

Séra Benedikt Jónsson nefnir bitahlaup í leikkvæði sínu, og getur J. Árn. til, að það sé sama og að fara á bita. en það er því til fyrirstöðu, að Benedikt prestur nefnir sveinauppkast. J. Árn. kallar þetta líka að sækja á bita. Guðmundur Ólafsson nefnir að eins sveinauppkast[1].

**Að hánga á ristunum á bita og gánga.** J. Ól. getur um list þessa og þarf ekki að lýsa henni, því nafnið ber með sér í hverju hún er fólgin. Séra Hallgrímur Pétursson og séra Benedikt Jónsson nefna: að gánga á rist(um)[2]. Eg hefi vitað menn hánga á ristunum[3] og hefir þótt vel gjört, þótt þeir geingju ekki. Sumir hánga líka á hökunni, í lausu lopti.

Nokkrar listir eru fólgnar í því, að gánga einkennilegar brautir, eða hreyfa sig einkennilega á fæti og tel eg til þeirra, þær er nú skal greina.

**Að gánga[4] heljarbrú[5].** Hnullúngum er raðað á sléttum velli, líklega í beina röð. Það er listin að hlaupa á steinunum og stíga ekki út af þeim. Ef listarmanninum verður það á að stíga utan við steinana, þá er alt ónýtt.

**Að vaða bál[6].** Nokkrir únglíngar liggja á bakinu upp í lopt í tveimur röðum og vantar lítið á að raðirnar spyrnist í iljar. Nú geingur einn leikmanna milli raðanna og eiga þá hinir að sparka í hann og spyrna við honum. Ef hann dettur, þá hefir hann fallið í bálið og brent sig. Annars hefir hann vaðið bálið og þykir vel gjört. Séra Guðmundur Jónsson telur list þessa til hættulegra barnaleikja[7].

**Að troða bál.** »Leikur þessi var leikinn í Hólaskóla. Nokkrir menn lögðust á bakið og sneru upp fótum og saman, en sá sem fimleikinn þreytti, hljóp eptir endilángri röðinni, á fótum þeirra sem lágu«[8].

**Að renna sér[9] fótskriðu** kann hvert mannsbarn á Íslandi, þó menn séu

---

[1] Það er skrítið að í knattleik einum þýzkum, kemur fyrir svipuð nafnbreyting og í bitaför, eptir því hvort þroskaðir menn leika eða óþroskaðir. Í »Walther og hans Elever«. Kmh. 1802, sem þýtt er úr þýzku eru nöfnin: Lærlingespil, Svendespil og Mesterspil.

[2] Sbr. viðaukann.

[3] Sbr. Magnús Stephensen: Island i det 18. Aarhundrede; bls. 234.

[4] *á* bætir J. Árn. inn í, eptir Hannesi biskupi.

[5] Eptir hdr. J. Ól

[6] Eptir hdr. J. Ól. sbr. Magnús Stephensen: Island i det 18. Aarhundrede; bls. 234.

[7] Sumargjöf handa börnum; bls. 124.

[8] J. Árn. eptir bréfi frá séra Skúla Gíslasyni á Breiðabólstað.

[9] sleppir J. Ól.

náttúrlega mislagnir á það. Ekki er hægt að renna sér fótskriðu, nema á glæru svelli. Listarmaðurinn hleypur að svellinu til að koma skriði á sig, snýr sér á hliðina, þegar hann er kominn fast að því og brunar svo út á það í þeim stellíngum, með fæturna fast saman. Listarmanninum tekst eptir því betur sem hann kemst leingra á svellinu, þángað til hann nemur staðar af sjálfum sér.

J. Ól getur þess að vel þyki gjört ef listarmaðurinn geti stokkið í fluginu yfir eitthvað, sem verði á vegi hans. List þessi er þegar nefnd í fornum sögum. Það þarf ekki annað en minna á Skarphéðin.

Að renna sér á fjöl á svelli eins og séra Stefán Ólafsson bendir á[1] þekki eg ekki, en J. Ól. minnist líka á það. Aptur er altítt að renna sér á sleða eða jafnvel fjöl ofan fannbrekkur[2] og er það hin bezta skemtun.

»**Að bregðast við á hæli** er að eins fimleiksbragð, sem opt kom að liði í vopnaviðskiptum, þegar menn viku sér snöggvast undan höggi annars. Nú er orðinn úr því leikur, og er í því fólginn, að maður tekur upp annan fótinn, en snýr sér við á hælnum á hinum fætinum, og ætlast á að snúníngurinn verði hvorki meiri né minni en svo, að tærnar lendi þar aptur á fætinum sem maður snýr sér á, sem þær voru, áður en maður sneri sér«[3]. Séra Benedikt Jónsson nefnir list þessa eða kallar hana þó öllu fremur að bregðast á hæli.

Þá eru þrjár listir þar sem hreyfíngin áfram eða aptur á bak er fólgin í kútveltíngu, ef svo má segja.

**Að steypa[4] sér[5] kollhnís.** Fyrst styður maður höndunum á jörð niður, því næst beygir maður sig áfram, þángað til líkaminn missir jafnvægið og steypist um o. s. frv. koll af kolli.

J. Ól. lýsir kollhnís eins og hér er gjört, en seinna í ritgjörð sinni segir hann það sé að vísleggja hendurnar aptan á hálsinum og kútvelta sér svo aptur á bak. Þá ætti kollhnís að vera hér um bil sama sem klukka.

Jón Þorkelsson hefir heyrt, að steypa sér kollhnísu. Sama segir séra Jón Ýngvaldsson í orðasafni sínu einu[6]. Að steypa sér kollskít[7] og kúsa[8] er líka altítt um sömu hreyfínguna.

---

[1] Kvæði I. Kmh. 1885; bls. 33.
[2] Sbr. Þjóðs. J. Árn. I; bls. 32 og Piltur og stúlka II. útg.; bls. 23.
[3] Eptir hdr. J. Árn.
[4] Stinga J. Ól.
[5] sleppir séra Jón Ýngvaldsson.
[6] Hrs. Bmfj. 325, 4to; bls. 203. Sbr. Ný Sumargjöf. Kmh. 1862; bls. 54.
[7] Sjá t. a. m. Lítil ferðasaga Eiríks Ólafssonar. Rvk., 1878; bls. 31.
[8] J. Ól. undir kúsi.

**Að steypa klukku**[1] er alveg gagnstætt því að steypa sér kollhnís. Listarmaðurinn kastar sér aptur á bak, í staðinn fyrir að kasta sér áfram og kemur því niður á magann, þar sem hann kom niður á bakið í kollhnísnum.

J. Ól. ber saman við þessa lýsíngu, en hann talar líka um að steypa sér klukku í bandi. »Bandið sé fyrir aptan mann og haldi (maður) því svo fram milli fótanna sem fastast verður, steypi svo niður höfðinu en slái fótunum aptur yfir bandið.«

J. Árn. segir, að klukkusteypíng í bandi sé sama sem að fara í gegnum sjálfan sig, þar sem band er í bita stað, en úr annari átt hefir hann, að óbrotin klukkusteypíng sé sama sem að fara í gegnum sjálfan sig á venjulegan hátt.

G. E. lýsir list þessari þannig: »Menn taka höndunum seilíngarhátt upp fyrir sig, um lángband eða einhvern ás, sem liggur nærri vegg eður þili. Milli handanna láta þeir vera gott bil. Síðan fika þeir fæturnar upp eptir veggnum, unz þeir geta komið þeim upp á milli handanna og aptur fyrir höfuð; gjöra þeir þá um leið kast á líkamann og sleppa handfestunni og koma standandi niður.« Þessi aðferð er svipuð því að fara í gegnum sjálfan sig og hefir eflaust valdið því, að þessum tveimur listum hefir verið ruglað saman.

Séra Guðmundur Jónsson telur til hættulegra barnaleikja »að steypa sér klukku, hvar við hálsinn kann auðveldlega að gánga úr liði«[2]. Séra Jón Ýngvaldsson segir, að klukka og kollskítur sé sama.[3]

Einhver hefir líka sagt mér, hvernig farið væri að steypa krukku. Listarmaðurinn sezt niður, krossleggur fæturna inn undir sig, tekur hægri hendi um vinstri rist og vinstri hendi um hægri rist. Því næst vindur hann sér aptur á bak í sömu stellíngarnar, án þess að sleppa tökum. Svo rekur hver krukkan aðra, alveg eins og kollhnísinn. — Bertel Þorleifsson stud. med. hefir vanizt því í Þíngvallasveit, að krukkusteyparinn segði, um leið og hann steypti sér:

Steypa, steypa krukku,
steypi' eg á mig lykkju.

Í leikvísu séra Hallgríms Péturssonar er nefnt að steypa klukku eða klukkur, eptir því sem segir í viðaukanum.

**Að velta stömpum.** Skylt kollhnís er að velta stömpum eða að

---

[1] klukkur J. Ól., Guðmundur Ólafsson.
[2] Sumargjöf handa börnum; bls. 123.
[3] Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 203.

steypa[1] stömpum. J. Ol. lýsir því þannig: »Listarmaðurinn tekur saman höndum í hnésbótunum, hneigir því næst höfuðið og steypir sér áfram.«

G. E. segir að það sé það sama að velta stömpum og stínga sér kollhnís. »Maður setur sig í kuðúng,« segir hann, »og spennir greipar yfir fæturna fyrir neðan hnén. Síðan veltir maður sér þannig ofan eptir brekku eður hallanda, að ýmist stendur upp ás eður daus, er menn kalla.« J. Árn. kallar þetta líka að steypa stampa, en séra Hallgrímur Pétursson hefir aðalnafnið.

Þá eru nokkrar listir þar sem merginn málsins er að standa upp, þegar svo og svo er ástatt, og eru þær ekki allra meðfæri sumar.

**Að reisa horgemlíng.** Horgemlíngur er reistur með tvennu móti. Önnur aðferðin er á þessa leið: Listarmaðurinn sezt flötum beinum á gólfið og tekur hægri hendinni upp í hægra[2] eyrað, undir hægra lærið, en vinstri hendinni bregður hann aptur fyrir bak sér og heldur henni í buxnahaldið að aptan. Því næst á hann að standa upp í þessum stellíngum og hoppa þrjú skref áfram. Ef það tekst, þá er gemlíngurinn kominn á fæturna, annars ekki. — Hin aðferðin[3] er þannig. Fæturnir á listarmanninum eru bundnir saman á tveimur stöðum, um kálfana og ofan við hnéð. Hendurnar eru bundnar á bak aptur. Því næst er hann lagður flatur niður á gólf og á að standa upp, svona á sig kominn, án þess að styðja sig nokkurs staðar við.[4]

J. Ól. ber saman við fyrri lýsínguna. G. E. kallar fyrri aðferðina að rífa ræfil úr svelli og lýsir henni alveg eins, nema hann getur ekki um hoppið seinast. Aptur nefnir hann það, sem hér er kallað að rífa rifinn ræfil upp úr svelli að reisa horgemlíng; séra Hallgrímur Pétursson nefnir list þessa í leikjavísu sinni. Guðmundur Ólafsson nefnir hana líka.

---

[1] J. Árn. eptir Ásgeiri heitnum á Þíngeyrum.

[2] vinstra J. Árn.

[3] Eptir hdr. G. D.

[4] Eg hefi heyrt sögu norður í Eyafirði um það, hvernig Bólu-Hjálmar lék á karl einn með list þessari. Hjálmar ólst upp í Eyafirði og bar snemma á gáfum hans. Það lék jafnvel orð á því, að hann væri göldróttur. Um þessar mundir bjó bóndi einn í Hörgárdalnum, vellríkur, en allra manna sínkastur. Einu sinni vantaði kall gemlíng og tók hann það svo sárt, að hann var valla mönnum sinnandi. Um þetta leyti kemur Hjálmar til kalls. Kall segir honum frá gemlíngshvarfinu og mælist til þess að hann segi sér, hvar gelsi sé niður kominn. Hjálmar tekur því vel, en segir, að hann verði að gera sér eitthvað gott fyrst. Bóndi segir að það sé skylt, sækir magál, súr svið og alls konar góðgæti og bar það fyrir Hjálmar. Hjálmar gjörir matnum beztu skil, en að því búnu reisir hann horgemlíng, og segir bónda, að þarna sé nú gemlíngurinn, sem hann hafi lofað að segja honum til. Að svo mæltu fór hann af stað. Bóndi dauðsá eptir matnum, en varð að hafa gabbið bótalaust.

**Að rísa upp frá dauðum.** Listarmaðurinn liggur endilángur á gólfi, aptur á bak og á svo að standa upp án þess að beygja hnjáliðina[1].

**Að standa upp í sauðbandi.** Fæturnir á listarmanninum eru rígbundnir saman en hendurnar bundnar á bak aptur. Þá er hann kominn í sauðbandið og á að standa upp svona á sig kominn. V. G. segir að hendur og fætur á listarmanninum séu bundnar saman í eitt, og kallar listina að binda sauðbandi. Sama segir Bogi Melsteð. List þessi er mjög lík því að reisa horgemlíng eptir því, sem G. D. segir, og er reisíngin ef til vill ekki annað en þessi list með breyttu nafni.

**Að standa upp úr þríbindu.** Listarmaðurinn er reyrður þrennum fjötrum. Fyrst er bundið utan um fótleggina á honum, fyrir ofan ökla. Því næst eru lærin á honum reyrð saman, rétt fyrir ofan hnén. Loksins eru hendur hans bundnar á bak aptur. Því næst er hann lagður flatur á grúfu og á að standa upp svona á sig kominn.[2] List þessi er líka kölluð að rísa upp úr þríbindu.

Aptan við uppstöðulistir þessar má geta um þá einu uppreisnarlist, sem mér er kunn.

**Að reisa mann frá dauðum.** Listarmaðurinn lætur einhvern leggjast endilángan á gólfið og á sá að halda sér stinnum (stífum). Því næst tekur hann undir hnésbæturnar á hinum, en lætur steilurnar standa út úr olbogabrikunum á sér og reisir hann þannig upp, eins og hann er lángur til. Ekki er talið að listin takist vel, ef listarmaðurinn stendur ekki seinast með þann, sem var dauður, í fánginu, jafnstinnan og hann var í byrjun.

J. Ól., J. Árn. og Valdimar Ásmundsson[3] nefna þessa list að reisa upp frá dauðum. J. Ól. lýsir henni eins og jeg hefi vanizt, nema hann segir, að maðurinn, sem upp er reistur, eigi að vera alveg máttlaus. Séra Jón Ýngvaldsson nefnir hana að reisa frá dauðum og ber honum alveg saman við mig, nema hann segir að listarmaðurinn láti býfurnar á þeim, sem hann er að reisa, standa aptur á milli fóta sér.[4] Frá J. Árn. hefi eg feingið skeyti um það, að sá, sem upp er reistur, ætti að halda báðum höndum undir hnakkanum, þángað til hann gæti náð í axlirnar á þeim, sem reisir hann.

Nokkrar listir eru skyldar að því leyti, að listarmaðurinn á að ná einhverju litlu eða léttu með munninum[5]. Að öðru leyti eru þær mjög ólíkar, en það fer ekki ver á að láta þær standa saman, en innan um hinar.

---

[1] Í lýsingu Svalbarðssóknar.
[2] Eptir sögn Brynjúlfs Kúlds stud. jur. og Steingríms stúdents Stefánssonar.
[3] J. Árn. eptir sögn séra Benedikts Kristjánssonar á Grenjaðarstað.
[4] Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 209.
[5] Sama er aðalatriðið við eina bitalistina, sbr. bls. 142.

**Að rífa rifinn ræfil upp úr svelli.** Listarmaðurinn legst endilángur niður á gólfið og stendur svo upp í sömu sporum og áður. Því næst leggur hann einhvern hlut á gólfið, þar sem hann hafði höfuðið áður, eða leingd sína frá fótum sér. Að því búnu leggur hann vinstri hönd á bak aptur og heldur henni þar, en mjakar sér áfram á hægri hendinni, þángað til hann nær hlutnum með munninum. Ekki má hann koma við gólfið annarsstaðar en með hægri hendinni og ekki hreyfa sig úr sömu sporum, því að þá er ræfillinn jafnfastur í svellinu og áður.

M. G. segir, að listarmaðurinn eigi að ná ræflinum með hendinni, sem hann mjakar sér fram með. Annars ber honum saman við það, sem eg hefi vanizt. J. Ól. kallar þessa list að rífa ræfil eða lepp upp úr svelli. Hann segir, að listarmaðurinn eigi að halda annari hendi fyrir aptan sig í buxnastreinginn, en beita hinni eins og áður er sagt. Séra Hallgrímur Pétursson, M. G. og G. D. nefna listina að rífa ræfil úr svelli. Valdimar Ásmundarson nefnir að rífa lepp úr svelli í lýsíngu Svalbarðssóknar. Guðmundur Ólafsson líka. Á blaði frá J. Árn. er list þessi, eins og eg hefi vanizt henni, nefnd að reka naut frá garði, en útgáfa M. G. að rífa ræfil úr svelli. J. Árn. kallar hana líka eptir hdr. Hannesar biskups Finnssonar að rífa bjór úr svelli, en Sæmundur Eyúlfsson að rífa ræfil af svelli.

**Að sækja smér í strokk.** Tveir menn standa keikir og halda höndum beint fram undan sér, hvor um axlirnar á öðrum. Klútur, húfa eða eitthvað þess háttar liggur mitt á milli þeirra. Listarmaðurinn vegur sig yfir handleggina á mönnunum og er ætlazt svo til, að þeir svigni ekki. Hann sígur nú niður hægt og hægt, þángað til hann nær klútnum með munninum, en það tekst honum sjaldan, fyr en tærnar á honum hvíla á strokkbarminum, eða á handleggjum þessara tveggja manna, enda er sælzt eptir því, að sá, sem ætlar að sækja smérið, sé viðlíka hár og strokkmennirnir. Þegar hann hefir náð klútnum, hefur hann sig upp aptur á handafli sínu, með því að styðja sig við strokkmennina. Ef listarmaðurinn kemst ekki upp aptur alla leið, þá er sagt að hann hafi kafnað í strokknum. Stundum eru strokkmennirnir þrír og standa þeir þá í hríng, en smérsóknarinn fer að eins og áður er sagt.

Séra Hallgrímur Pétursson og J. Ól. nefna listina, að fara í strokk, en J. Árn. strokkleik. Sama segir M. G., en þekkir þó fyrra nafnið. Hann lýsir listinni eins og jeg hefi vanizt, nema hann segir, að hinir láti handleggina síga, þegar listarmaðurinn fer ofan, en kippi þeim svo hátt upp, sem þeir geta, þegar hann fer upp aptur. Bertel Þorleifsson stud. med. hefir vitað einstaka mann fara úr treyunni og í hana aptur, meðan hann var í strokknum, eða hékk að eins á fótunum, á handleggjum strokkmannanna.

**Loksins** lýsir Konrad Maurer list þessari.[1] Þar er hún nefnd að fara í strók, en það er eflaust prentvilla.

**Ein af listum þeim**, sem hér er um að ræða, er nafnlaus, eptir því sem heimildarmaður minn[2] veit bezt. Tveir leika. Annar situr flötum beinum á gólfi. Hinn geingur framan að honum, og klofar yfir hann, þángað til hann er kominn allur aptur yfir hann, nema fæturnir, sem setumaðurinn heldur föstum fyrir framan herðarnar á sér, en fótleggirnir á hinum nema við axlirnar á setumanninum. Hér um bil mannsleingd fyrir aptan setumanninn er húfa, klútur eða eitthvað þvílíkt, sem klofarinn á að ná með munninum, og fika sig því næst aptur á bak aptur, á höndunum, þángað til hann er kominn allur fram af setumanninum. Meðan á þessu stendur, má setumaður hvorki sleppa tökum né lina þau, og er það litlu minni vandi, en að ná húfunni.

**Að brynna álptum.**[3] Tveimur reiptöglum er hnýtt upp um bita og eru gjörðar lykkjur á endana. Lykkjurnar eiga að vera svo lángt frá gólfinu, að það sé listarmanninum í mitt lær. Húfa eða eitthvað þess háttar er lögð á gólfið undir töglunum. Listarmaðurinn stígur nú sínum fæti í hvora lykkju og á svo að steypa sér áfram, ná húfunni með munninum og hefja sig svo upp aptur í sömu stellíngar og áður, en það kvað ekki vera neinn hægðarleikur.

J. Ól. segir, að listarmaðurinn sitji á streing og haldi höndunum fyrir aptan sig. Því næst eigi hann að beygja höfuðið niður á gólf. Annars er Jóni ekki vel ljóst, hvernig listin er, því á öðrum stað segist hann halda, að list þessi sé lík því að fara í strokk. J. Árn. nefnir list þessa líka að vatna álptum.

**Að sverja nálareið.** Trog eða þá eitthvert annað grunt ílát er fylt með vatni og er saumnál lögð á botninn. Listarmaðurinn dýfir nú andlitinu niður í trogið og á að koma upp aptur með nálina í munninum.

J. Ól. talar um að sverja nálareið í keitu og er það alveg eins, nema keita er í troginu í vatns stað. »Þetta virðist þó ekki vera göfug list«, bætir Jón við. G. D. kallar listina, að sækja nál í vatnstrog og eg hefi skrifað upp eptir einhverjum, að hún væri kölluð að brynna músum. Aptur segir J. Ól. að það sé að depla augunum einhvernveginn þannig, að tár hrjóti af þeim. Að brynna músum er líka enn í dag nokkurs konar gælunafn á skælum. Valdimar Ásmundsson nefnir að vatna músum í lýsíngu Svalbarðssóknar.

Listir þær, sem fara hér á eptir, eru skyldar tvær og tvær, þegar bezt

---

[1] *Germania* XIV. 1869; bls. 108.

[2] *Bertel Þorleifsson* stud. med.

[3] Eptir *hdr.* G. D.

gjörir. Þessum listum hefi eg skipað hvorri hjá annari, en annars er **niðurröðunin** af handa hófi.

**Að gánga undir alinmál.**[1] Sá, sem vill leika þessa list, tekur alinnar lángt prik eða styttra og heldur báðum höndum um efri endann á því, en styður hinum endanum á gólf eða jörðu. Að því búnu smeygir hann sér öllum, höfðinu fyrst, undir hendurnar, án þess að koma nokkurs staðar við og stendur upp aptur. Ekki má listarmaðurinn sleppa tökum á prikinu meðan á listinni stendur. J. Árn. minnist á að gánga undir alinnarlángt kefli og er víst alt sama tóbakið. G. D. nefnir list þessa að gánga undir sauðarlegg, og segir að stór sauðarleggur sé hafður í staðinn fyrir prikið eða þá álíka lángt kefli. Sama segir J. Ól. Hann kallar listina að fara undir sauðarlegg[2] eða fara yfir sauðarlegg eða stökkva yfir sauðarlegg. Þetta seinasta nafn er þó haft um alt aðra list, um þessar mundir og miðnafn Jóns virðist vera það sama. G. E. kallar þetta að fara í gegnum sjálfan sig. Þetta er eflaust mjög erfið list, þegar um sauðarlegg er að ræða og ekki allra meðfæri. Jón Sigurðsson á Gautlöndum hefir sagt J. Árn., að hann hafi að eins séð einn mann leika hana með því móti.

**Að fara í gegnum snærissmeyginn** er skylt list þeirri, sem seinast var nefnd. Listarmaðurinn situr fyrst. Hann tekur snæri og bregður því undir il sér. Síðan hnýtir hann hnút á það, uppi á hné sér, rétt við hnéð, en reyrir þó ekki að. Því næst bregður hann smeygnum ofan af hnénu, en lætur hann vera fastan undir fætinum. Að því búnu stendur hann upp. Það sem eptir er leiksins stendur hann á öðrum fæti, þeim sem snærið er ekki undir, og á nú að troða sér í gegnum smeyginn, en smeygurinn má ekki smokrast út af fætinum. Fyrst smeygir hann höfðinu í gegnum hann, þá höndunum, þá mjakar hann honum niður fyrir herðarnar o. s. frv. Meðan þessu fer fram, á listamaðurinn annaðhvort að standa kyr á öðrum fæti, eða þá hoppa á öðrum fæti, ef hann vill það heldur, en hvergi má hann styðja sig við. Seinast fer hann með fótinn, sem hann stóð á, gegnum smeyginn og liggur hann þá laus, enda er þá björninn unninn.[3]

**Róla**. Rólan er tíðari en flestar aðrar skemtanir, enda er ekkert hægari vandi en að róla sér. Róla er búin þannig til, að band er bundið upp um bita eða einhvern ás, á báðum endum, en lykkjan hángir niður. Ramlega er búið um báða endana og bandið er optast reiptagl. Þegar bandendarnir eru orðnir fullfastir, sezt rólumaðurinn í lykkjuna, kemur á sig skriði og fleygir sér svo fram og aptur. Kastið verður mjög mikið á honum og kemst hann því furðu hátt, en ekki dugir þeim að fara í rólu, sem höfuðveikir eru

[1] álnarmálið, Sæmundur Eyúlfsson.
[2] það nefnir líka Valdimar Ásmundsson í lýsingu Svalbarðssóknar.
[3] Eptir hdr. G. D.

eða mjög svimagjarnir. Ekki er bændum vel við að ljá reiptögl í rólur, því þeir segja þau slitni á því, eins og satt er.

Ekki hefi eg séð rólu nefnda fyr en hjá B. H. og Skúla Thorlacius[1]. Séra Guðmundur Jónsson nefnir hana líka og telur hana til hættulegra barnaleikja[2]. Ef róla er oscillatio á latínu, eins og Skúli segir, þá getur Arngrímur Jónsson um hana. G. E. kallar leik þenna að róa í rimbu, í útgáfu þeirri af ritgjörð hans, sem er í safni Árna Magnússonar, en rimbu eða einfalda rimbu í útgáfu þeirri, sem mér hefir borizt frá J. Árn.

**Að vefja hnipur** er talsvert í áttina til rólu. Fyrst bregður listarmaðurinn sívölu kefli þversum undir lærin. Því næst er streingur eða snæri bundið um mitt keflið, en hinn endinn er rígfestur við mæni á húsi eða einhversstaðar hátt uppi. Listarmaðurinn sezt nú á keflið og rólar sér á því fram og aptur, upp og ofan.[3]

B. H. segir að hnipur sé dreingjaleikur og á hann líklega við list þessa. Séra Benedikt Jónsson og Guðmundur Ólafsson nefna hana líka.

**Að járna rimbu.** Reipi er sreingt á milli tveggja stólpa og á að vera dálítið bil undir það. Rimbujárnarinn tekur prik í hönd sér, sezt á reipið lángsetis og krossleggur fæturna upp á því. Fyrst hefir hann prikið í hægri hendi, slær því upp í vinstri ilina og segir um leið: »Geing eg í haga.« Því næst slær hann annað högg og segir: »Tek eg meri mína.« Við þriðja höggið segir hann: »Teymi eg hana í hlaðið,« en »Tálga eg hófinn« við fjórða höggið. Síðan segir hann: »Rek eg einn nagla, tvo nagla« o. s. frv. upp að tuttugu og fjórum og slær eitt högg við hvern nagla. Ekki er alt búið enn. Rimbujárnarinn heldur áfram og segir: »Legg eg á hnakkinn,« og um leið tekur hann prikið úr hægri hendi með hinni vinstri og yfir reipið og hné sér. Að því búnu bregður hann prikinu undir reipið, grípur það aptur með hægri hendi og segir um leið: »Spenni eg gjörðina.«[4] Seinast segir hann: »Spenni eg reiðann,« og bregður jafnframt prikinu aptur fyrir sig með hægri hendinni og grípur það með þeirri vinstri. Ef þetta geingur alt slysalaust, þá hefir hann unnið þrautina, en velti hann út af reipinu. ofan á gólf, áður en hann hefir spent reiðann, þá er rimbutruntan ójárnuð eptir sem áður. Þess verður að geta. að rimbujárnarinn má stínga prikinu í gólfið sér til stuðnings svo opt sem hann vill, en aldrei má hann taka fæturna af reipinu, og því síður rétta úr þeim.

Þessi lýsíng er tekin eptir hdr. G. D., og er hún lángt um ýtarlegri

[1] Borealium veterum matrimonia; bls. 237.
[2] Sumargjöf handa börnum; bls. 124
[3] J. Ól., heimildarmaður minn, segir: »sessor ludens nunc caput, nunc pedes, sursum et deorsum, exaltando vel deprimendo circumvolvit.
[4] »Gyrði eg undir kviðinn«, V. G.

en lýsingar þeirra V. G. og J. Ól. Lýsíng J. Ol. er mjög ógreinileg og þar að auk nemur hún staðar við naglareksturinn. Eptir því, sem mér skilst, lýstur rimbujárnarinn hjá Jóni iljarnar á víxl og höggin segir hann að séu tuttugu[1] í alt. Jón segir, að rimbujárnarinn hafi formálann yfir meðan listin er leikin, en ekki lætur hann hann þó fara að slá sig í iljarnar, fyr en hann segir: «Slæ eg eitt» o. s. frv. Annars er formálinn svona hjá Jóni:

Hér fer eg heiman að[2] Hóli.
Hygg eg að meri minni[3].
Sé eg hana, sæki' eg hana, söðla' eg hana.
Ríð eg heim í hlaðið,
svo rýkur[4] úr henni taðið.
Járna[5] eg hana.
Slæ eg eitt,
slæ eg tvö o. s. frv.[6]

Mér er alveg óljóst, hvað rimba þýðir. J. Ol. segir, að það virðist vera komið af rið-tumba, og vill láta að tumba þýða sama sem að riða. Sú þýðíng er lítið betri enn ekkert, nema verri sé. B. H. nefnir listina að járna rumbu. G. D. og J. Árn. kalla hana að járna pertu.[7] Hvorttveggja er hebreska fyrir mig, en þó má geta þess, að B. H. segir, að perta þýði hryssa, og ætti það þá að eiga skylt við þýzka orðið Pferd, sem þýðir hestur. J. Sig. nefnir að járna hana rimbu[8], en séra Hallgrímur Pétursson og Guðmundur Ólafsson að járna rymbu.

Nú er lýsíng sú á pertujárnun, sem getið er um í Antiqv. Tidskr. í safni Árna Magnússonar[9]. Hún er med hendi séra Páls Erlendssonar og segir hann alt öðruvísi frá en hér hefir verið gjört. Páll prestur segir að listarmaðurinn krossleggi fæturna yfir streinginn[10] og haldi vinstri hendi niður milli læranna í hann, en í hinni hægri heldur hann á priki og styður því fyrst á jörðina og kemur nú á sig stöðvun. Nú er farið að járna pertuna og sagt:

---

[1] sextán, V. G.
[2] eða á.
[3] eða Hitti eg meri mína.
[4] eða hrýtur.
[5] slæ, Páll heitinn Pálsson eptir hdr. Hannesar bisk. Finnssonar.
[6] «et sic consequenter donec quattuor pedes absoluti sunt» J. Ól.
[7] Sbr. Antiqvarisk Tidskrift. Kmh. 1847; bls. 44.
[8] Hrs. Sv. Grv. 66.
[9] Sbr. bls. 8, 2. nmgr.
[10] Eflaust sama sem á streingnum.

Hér ríð eg heim hólinn
og um leið slegið neðan í vinstri ilina.
Hygg eg að meri minni.
Aptur slag.
Beizla eg hana.
Slag.
Legg eg á hana gráa gæru,
ríð eg heim í hlaðið með æru.
Fer eg í smiðju mína
og tek upp naglapýngju mína,
tek eg upp hófinn,
tálga skóinn,
rek eg fyrsta naglann, annan naglann, þriðja naglann, fjórða naglann.
Birgur er sá fóturinn,
sem ekki er undan stolið.

Frá reiðaspenníngunni segir séra Páll eins og eg hefi gjört, en kallar hana að spenna volkann og segir að listarmaðurinn segi: «Stattu upp aptur perta», um leið og hann spennir hann. Páll prestur lærði list þessa í Eyafirði, þegar hann var únglíngur, af Galdra-Brandi[1], en segir, að hann hafi ekki heyrt hana nefnda lánga leingi. (Lýsíng hans er samin um 1840.)

J. Árn. ber Jón Sigurðsson á Gautlöndum og Stefán Jónsson á Steinsstöðum fyrir því, að rimbujárnarinn eigi að halda á prikinu annaðhvort í hægri eða vinstri hendi en hinni í streinginn. Annars er lýsíng þeirra svo frábrugðin, að réttast er að færa hana hér til eins og hún er. »Hafi maður nú t. d. prikið fyrst í vinstri hendi, þegar sezt er á bandið, en haldi um bandið með hinni hægri, skal maður hafa handaskipti á prikinu og bandinu, þ. e. taka upp prikið frá gólfinu í vinstri hendi og taka við prikinu með henni fyrir ofan bandið; heitir það að gyrða að ofan. Geti maður nú setið kyr sem áður á bandinu við þessi umskipti, má ef vill, styðja niður prikinu með hægri hendi, sér til stuðníngs, áður en byrjað er að járna. Síðan skal lypta upp hægra fæti og slá með prikinu þrjú högg neðan í ilina. Þegar það er búið, skal skipta aptur um hendur, sleppa með vinstri hendi tökum á bandinu, og taka með henni við prikinu úr hægri hendi, fyrir neðan bandið, en grípa bandið með hinni hægri. Þessi handaskipti heita að gyrða að neðan. Síðan skal lypta upp vinstra fæti og slá eins með prikinu í vinstri hendi þrjú högg neðan í ilina á þeim fæti.«

Eg hefi enn feingið lýsíngu á því, hvernig farið er að járna hana pertu, í Árnessýslu frá Kristjáni Jónssyni cand. med. Hún er mjög lík

---

[1] Guðbrandi teingdaföður Þórðar sýslumanns Björnssonar í Garði.

þeim, sem áður eru komnar, nema formálinn, sem er nokkurs konar samsteypa úr formálum J. Ól. og séra Páls Erlendssonar:

Heiman ríð eg frá Hóli.

Þá er fyrsta högg slegið og svo framvegis við hverja línu og hvern nagla.

Hygg eg að meri minni.
Sé eg hana,
tek eg hana.
Ríð svo hart í hlaðið,
að hrýtur úr henni taðið.
Það skulu tveir smástrákar hafa í spaðið.
Fer eg af baki.
Hleyp eg í bæinn.
Sæki eg strákinn.
Vilji hann ekki koma
gef eg honum á kjaptinn.
Fer eg í smiðju,
sæki eg hamar,
naglbít og nagla.
Fer eg að járna.
Haltu strákur, stattu perta.
Rek eg einn, rek eg tvo, rek eg þrjá, rek eg fjóra.
Birgur er sá, ef ekki er undan stolið.
Haltu strákur, stattu perta.

Nú eru komin 23 högg, en 3 seinustu línurnar eru hafðar yfir tvisvar enn og alt af slegið, svo höggin eru orðin 35. þegar því er lokið:

Rek eg einn, rek eg tvo, rek eg þrjá, rek eg fjóra.
Birgur er sá sem ekki er undan stolið.

Og eru þá höggin orðin 40. Nú er hætt að slá og farið að spenna reiðann og gyrða gjörðina. Kristján segir alveg eins og G. D., nema hann hefir vanizt, að reiðinn væri spentur áður en gjörðin væri gyrt. Hnakkinn sjálfan þekkir hann ekki.

**Að ríða til páfans** er skylt rimbujárnun, þótt mikið sé reyndar að mununum. Tveir menn taka ás á axlir sér, en hinn þriðji á að taka höndum um ásinn, hefja sig upp á hann og taka sér sæti á honum lángsetis. Hinir, sem bera ásinn, gánga áfram með hann á öxlunum og manninn á. Þá kemur þar að fjórði maður og slær á fæturna á þeim, sem á ásnum situr, með poka eða einhverju þvílíku. Ef hann getur setið, þótt slegið sé á fæturna, þá hefir hann riðið til páfans[1].

G. E. segir, að á Vesturlandi muni list þessi vera kölluð að járna rimbu, en þekkir þó hitt nafnið. Hann lýsir henni eins og hér er gjört,

[1] J. Árn. eptir sögn Ásgeirs Einarssonar á Þingeyrum.

nema hann segir að ásinn, sem listarmaðurinn situr á, sé fastur. J. Árn. nefnir list þessa Rómreið eða páfareið eptir Hákoni Hákonarsyni í Brokey.

**Að vega salt** er tíð list og forn. Henni er lýst í sögunni af Þorsteini Víkíngssyni[1]. En ekki er hún nefnd þar. Aptur er hún nefnd í rímum af Þorsteini Víkíngssyni[2], eða að minnsta kosti hefi eg heyrt, að vísa þessi væri þar:

Voru þeir leingi að vega salt á vænum ási:
heyrðu þeir þótt hríðin blási,
að hrínglað var í bæjarlási.

Optast vega tveir salt. Þeir taka tré eða plánka og setja það yfir vegg eða jafnvel húsmæni. Að því búnu sezt hvor á sinn enda trésins, þannig að jafnvægi er á því. Því næst þýngir annar á sér og fer þá hans endi niður, en endinn, sem hinn situr á, lyptist upp. Þegar hann þykist vera kominn nógu hátt, þýngir hann á sér og hefur þann, sem situr á móti honum, upp á við og svo koll af kolli. Stundum situr einn á öðrum enda trésins, en tveir á hinum. Stundum sitja tveir á báðum endum o. s. frv. Listin getur verið allhættuleg[3], enda er börnum opt bannað að vega salt.

Stefán prestur Ólafsson minnist á list þessa í einu af kvæðum sínum[4]. Þar stendur:

Þá er nú kortan riðin rétt.

Annars nefna Sunnlendíngar listina að ríða kort eða að róa kort.[5] Séra Jón Ýngvaldsson nefndir hana öðru nafni að ríða ási[6]. Séra Hallgrímur Pétursson nefnir hana.[7]

**Að skaka strokk** er í áttina til þess að vega salt. Tveir leika listina. Þeir snúa bökum saman og halda saman handleggjunum í olbogabótunum. Því næst beygir annar sig áfram og vegur hinn upp á bakið á sér, svo að hann hefst á lopt upp. Síðan setur hann hann niður aptur. Hinn fer alveg eins að og svo koll af kolli. Þetta fer miklu fljótar fram en verið er að segja frá því, að minnsta kosti þegar æfðir strokkskakendur eiga í hlut.

---

1 Fornaldarsögur Norðurlanda II. Rkv. 1886; bls. 87.

2 Til eru tvennar rímur af Þorsteini Víkíngssyni. Aðrar eru mjög gamlar og eru nú ekki til af þeim nema lítil brot á kónglega bókasafninu í Stokkhólmi. Hinar nefnir J. Ól., eptir Jón Þorsteinsson í Laufássókn. Þær eru ekki til á bókasöfnum svo menn viti. Rímnatal J. Sig. AM. 923. 4to.

3 Séra Guðmundur Jónsson telur hana líka til hættulegra leikja í Sumargjöf sinni handa börnum; bls. 122.

4 Kvæði I Kmh. 1885; bls. 33—35.

5 Sbr. Athugasemd Jóns Þorkelssonar við kvæði Stefáns; bls. 35.

6 Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 315.

7 List þessi er mjög tíðkuð í útlöndum, en ekki hefi eg séð getið um hana á prenti annarstaðar en í Börnelege. Kmh. 1837; bls. 97. Þeir eru þýddir úr frönsku.

Listin er líka kölluð að steyta pipar. J. Ol. nefnir hana að vega salt. J. Árn. hefir það eptir Hákoni Hákonarsyni í Brokey, að þetta sé kallað kellíngarleikur.[1]

**Að fara í skinnbrók, skollabrók eða brókina hans Skíða.** Sá sem vill leika list þessa, tekur alinnar lángt prik og heldur sinni hendi utan um hvorn enda, fyrir framan sig, þannig að hnúarnir eru neðan á prikinu. Því næst stígur hann yfir prikið, fyrst vinstra fætinum og því næst hægra fætinum, svo að prikið verður fyrir aptan hann. Að því búnu vindur hann prikinu fram yfir herðar sér, án þess þó að missa hendur af því. Nú er prikið aptur komið fram fyrir leikmanninn og eru þá hendur hans snúnar á prikinu, en ekki er alt búið enn, því nú verður hann aptur að stíga yfir prikið og kasta því svo fram af sér. Ef listarmaðurinn getur ekki kastað prikinu fram af sér, þá kafnar hann í brókinni.

Séra Jón Ýngvaldsson talar um að fara í skinnbrók Skíða í norðlenzku orðasafni[2]; segir hann að það heiti öðru nafni að rota skrattann. Valdimar Ásmundarson nefnir að klæða skolla í skinnbrók í lýsíngu Svalbarðssóknar. Þetta er eflaust alt sama listin. G. E. nefnir listina að fara í brók og segir að listarmaðurinn kasti prikinu þegar fram af sér, þegar hann hefir sett fæturna fram yfir það.

**Að reka naut frá[3] garði.** Listarmaðurinn tekur prik og lætur annan endann á því standa á gólfi eða á jörðu. Því næst beygir hann sig áfram og styður enninu á hinn prikendann. Nú á hann að víngla sig (snúa sér) 30 sinnum kríngum prikið og hitta einhvern vissan hlut með því, að því búnu. En hann er optast orðinn svo ruglaður í höfðinu, að það tekst ekki.[4] Séra Hallgrímur Pétursson nefnir list þessa í leikjavísu sinni. G. E. lýsir henni þannig: Maður tekur stafprik og miðar því á einhverja tiltekna veggjarholu. Því næst snýr hann sér í snarkrínglu það hraðast getur, tuttugu sinnum, og í sömu andránni og tuttugasta snúníngnum er lokið, á hann að reka prikið í holuna og hitta hana rétt.

**Bóndabeygja** eða **að taka einhvern í bóndabeygju.** Fyrst er annari hendi tekið utan um hálsinn á þeim, hnakka megin, sem á að beygja, en hinni undir hnésbætur honum. Því næst er hann keyrður saman. Ef sá, sem beygir, getur hnept hinn svo mikið saman, að hann nái höndum saman, þá er hinn kominn í bóndabeygju. Það er einginn hægðarleikur að

---

[1] Á list þessa er minnst í Börnelege. 1837; bls. 94. Hún er kölluð þar «At veje salt», en «að vega salt» er kallað «Vippelegen».

[2] Hrs. Bmfj. 338. 4to.

[3] úr, Sæmundur Eyúlfsson.

[4] Eptir sögn Magnúsar Magnússonar stud. theol.

taka mann í bóndabeygju, því það segir sig sjálft, að hann spyrnir á móti því af alefli. Þó má hann ekki beita höndunum. Sá sem er í bóndabeygju, leitast ávalt við að spyrna sér úr henni, og þykir það eins laglega gjört að sínu leyti að losast úr beygjunni og að taka annan í hana, þegar krapta munur er ekki þeim mun meiri.

**Að járnhatta.** Optast eru únglíngar járnhattaðir, en þó má járnhatta hvað sem vera skal, eins og J. Ól. bendir þegar á. Járnhattarinn tekur annari hendi í buxurnar, milli fótanna á þeim, sem járnhatta á, en hinni hendi undir skyrtukraga hans framanverðan, og hefur hann svo á lopt, upp fyrir höfuðið á sér. Stundum er járnhattað með annari hendi. Það er t. d. fært í frásögur um afl Jóns Espólíns, að hann hafi getað járnhattað litla menn með annari hendi.[1]

J. Ól. segir að járnhatta þýði að setja upp járnhatt. Því nafni er jeg vanastur, en eg hefi líka heyrt að jafnhatta og ætti það að þýða að hefja eitthvað jafnhátt hattinum eða höfuðfatinu. Séra Jón Ýngvaldsson segir í orðasafni sínu[2]: »Að vinda loptkött er að hefja einn sem kött léttilega yfir höfuð sér.« Eptir því ætti það að vera sama sem að járnhatta. Loptköttur er líka nefndur í rímum af Hrólfi konúngi Kraka[3], þar sem menn Fróða konúngs eru að þjappa að Vífli gamla:

»Ovidbúenn er hann sliett,
oss med kínge ad blinda,
Hilmirs sveinar hlaupa liett
og hønum loptkott vinda.«

**Að hlumma árar** er að taka um árarhlumma og rétta þær svo út hvora með sinni hendi.[4]

Að taka bagga heldur J. Ól. að sé eitthvað í sömu áttina, en ekki kann hann að lýsa þeirri list. Séra Benedikt Jónsson nefnir baggatak og J. Árn. nefnir að hlumma ár eptir Hannesi biskupi.

**Að kyssa kóngsdóttur** er að standa við þil og snúa að því bakinu, fetta sig svo aptur á bak, þángað til hægt er að kyssa á það. Sumir segja að maður eigi að standa fast við þilið, en J. Ól. segir, að maður eigi að standa hér um bil alin[5] frá því. G. D. segir, að listarmaðurinn eigi að halda höndunum fyrir aptan bakið meðan hann er að kyssa jómfrúna.

[1] Baldur I; bls. 23.
[2] Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 281.
[3] Riimur af Hroolfe Konwnge Kraka — —, kvednar af sira Eiriki Hallssyni (og) Þorvallde Regnvalldssyni. Hrappsey 1777; bls. 8.
[4] skilst mér. Heimildarmaður minn, J. Ól., segir »að taka þannig um árarhlumma, að þær verði réttar út með annari hendi.«
[5] »ulna«.

Ekki vil eg ráða únglíngum til að tíðka list þessa, því hún getur verið hættuleg. — Guðmundur Ólafsson nefnir hana.

**Að ríða til Róms**[1]. Fyrst er gamall maður með sítt skegg látinn setjast og á hann að tákna páfann.[2] Því næst nemur pílagrímur staðar hér um bil 10 faðma frá páfanum og er einhverju bundið utan um mittið á honum. Þessi syndugi maður heldur á priki og styður sig við það. Þriðji maðurinn kemur til sögunnar og er það einn af þjónum páfa. Hann heldur í hinn endann á bandi því, sem er bundið utan um pílagríminn, og dregur hann aptur á bak, jafnóðum og hann stritar áfram, svo hann geti ekki náð fundi páfans. Páfaþjónn spyr nú pílagríminn, hvert hann ætli. Hann segist ætla á fund páfans í Rómi. »Hvað vilt þú honum?« »Eg ætla að fá hjá honum aflausn synda minna.« »Hvað viltu gefa mér til, að eg lofi þér að hitta hann?» »Ekki neitt.« »Þá kemst þú aldrei á fund hans.» Þegar minnst varir, ryðst pílagrímur áfram af alefli, en hinn heldur í hann, eptir megni. Ef pílagríminum tekst að komast alt til páfa, þá fellur hann á kné fyrir honum og játar fyrir honum syndir sínar, en páfinn veitir honum aflausn. Þó verður pílagrímurinn að þægja honum eitthvað fyrir það, gefa honum t. a. m. svolítinn tóbakshita eða þá eitt tóbaksnef.[3]

**Að bera á brúðarstóli.**[4] Ef það er stúlka, sem á að bera á brúðarstóli, þá taka tveir karlmenn höndum saman í kross og tekur stúlkan sér þar sæti. Þvínæst tekur hún sinni hendi utanum hálsinn á hvorum karlmanninum og í þeim stellíngum bera þeir hana til og frá. Sömu skil gjöra stúlkur karlmönnum, þegar svo ber undir, en annars hafa karlmenn miklu sjaldnar þá ánægju, að sitja á brúðarstólnum, en konur.

**Að bera á gullstóli** er skylt list þeirri, sem seinast var lýst, þótt tilgángurinn sé alt annar. Það eru optast kallmenn, sem hafa þann sóma að setjast á gullstólinn, en hann er alveg eins og brúðarstóllinn: víslagðar hendur tveggja manna. Gullstóllinn hossast nú til og frá, eptir því sem burðarmennirnir hreyfa hendurnar. Sá sem situr í honum, er því á einlægu iði, og er það list hans að detta ekki, því ekki má hann styðja sig með höndunum. Þegar minnst varir, sleppa burðarmennirnir tökum, og dettur þá sá, sem á stólnum sat, kylliflatur, ef hann uggir ekki að sér. Aptur hefir

---

[1] Eptir hdr. J. Ól.

[2] Heimildarmaður minn getur ekki um, hvort páfinn sé gamall maður í raun og veru eða únglíngur í gamals manns gerfi. Þó þykir mér líklegra, að það seinna eigi sér stað.

[3] List þessi ætti ef til vill öllu fremur heima meðal orðagamansins í öðrum flokkinum, en bandið er því til fyrirstöðu, því ekki mun vera sparað að toga veslíngs pílagríminn aptur á bak, frá herra páfanum.

[4] Eptir hdr. G. D.

hann leyfi til að styðja sig við burðarmennina, í því þeir eru að sleppa tökum, ef hann annars kemur því við.[1]

**Að stökkva yfir sauðarlegginn.** það lítur svo út í fljótu bragði, að þetta sé hægur vandi, en það er sá hængur á, að listarmaðurinn á að bregða fingrunum undir távörpin[2] á skóm sínum og stökkva svo yfir sauðarlegg eða eitthvað því um líkt, án þess að sleppa tökunum. J. Ól. lýsir listinni alveg eins, en bætir því við, að sumir geti stokkið aptur á bak yfir sauðarlegg í sömu stellíngum. Annars nefnir Jón list þessa að stökkva eða fara yfir sauðarlegg og að stika legg. Séra Hallgrímur Pétursson, Guðmundur Ólafsson og G. E. hafa að eins þetta seinasta nafn. J. Árn. nefnir listina líka, að stika á legg. Loksins má geta þess, að við leikvísu Hallgríms prests er orðamunurinn: (að) stilla leggi, en það er eflaust rángt.

**Að þræða nál á flösku.** Venjuleg sívöl flaska er lögð á gólf á hliðina. Listarmaðurinn á að setjast á flöskuna og þræða þar saumnál, en ekki mega fæturnir á honum koma við gólfið, meðan á því stendur.[3] G. D. segir að stúturinn á flöskunni eigi að snúa aptur en botninn fram, undir listarmanninum. Hann eigi að sperra fæturna beint fram undan sér og krossleggja þá svo, að að eins annar hællinn komi niður. Í þessum stellíngum eigi hann að þræða nálina og sé ekki hlaupið að því.

**Að binda eða fánga mann með nálþræði.**[4] Sá, sem á að hneppa í fjötrana, situr fyrst og réttir hendurnar undir hnésbæturnar innanfótar, sína hönd undir hvora hnésbót. Hendurnar verða að ná út undan fótleggjunum. Því næst er hann bundinn saman með einum nálþræði á báðum þumalfíngrunum, samanlögðum, og það getur hann ekki slitið, hversu sterkur sem hann er.

**Að kyssa fótinn á páfanum** er að taka, sitjandi, um öklann á öðrumhvorum fætinum á sér, keyra hann upp að munni og kyssa á tærnar.[5] Guðmundur Ólafsson nefnir list þessa. Vel þykir líka gjört að signa sig sitjandi með öðrumhvorum fætinum.

**Að standa á höfði.** Allir þekkja þá list og þarf því ekki að fara mörgum orðum um hana, enda ber nafnið með sér í hverju hún er fólgin. Þó má geta þess, að listarmaðurinn hefir venjulega hendurnar sér til stuðníngs. J. Ól. segir, að listarmaðurinn eigi að standa á höfðinu einu. G. E. getur þess, að sumir séu svo leiknir í listinni, jafnvel nú á dögum, að þeir geti

---

[1] Eptir sögn Bertels Þorleifssonar stud. med.
[2] Aðrir segja ristarþveingina.
[3] Eptir hdr. Pálma Pálssonar.
[4] Eptir hdr. J. Ól. og J. Árn.
[5] Eptir sögn Bertels Þorleifssonar stud. med.

staðið á höfðinu á hnífilkrappa, þó að siglt sé hægðarleiði. Séra Hallgrímur Pétursson nefnir líka list þessa.

Það er líka list, ef list skyldi kalla, að stökkva upp þrisvar sinnum og slá jafnframt báðum hælunum upp í rassinn á sér. Þetta á að gjöra hvað eptir annað.

Þá eru eptir listir þær, sem J. Ól. nefnir þrælaleiki, einu nafni, og er sannast að segja að þar fylgir renta nafni. Til þrælaleikja telur Jón ennfremur að sverja nálareið í keitu og er áður getið um það.

**Að róa köttinn af gærunni** er svo fáránleg list, að eg efa að hún hafi nokkurntíma verið leikin. En J. Ól. lýsir henni, og hann vissi hvert hann fór. Órökuð gæra er spýtt á sjávarströnd og þarf hún að vera rígföst. Ullin á að snúa upp. Köttur er settur á gæruna og er bundið um hann snæri, en hinn snærisendinn er festur í bát, sem flýtur fyrir landi, fast við ströndina. Nú sezt einn maður undir árar í bátnum og rær frá landi, en kötturinn krækir löppunum sem fastast í ullina og heldur sér þar dauðahaldi. Ef ræðarinn getur nú rifið köttinn upp úr ullinni, þá er hann talinn meðalmaður að burðum. Listin er ljót og aldrei tíðkuð um þessar mundir. Sjálfsagt stendur hún í sambandi við orðtækið: hann reri köttinn af gærunni (G. J.)

»**Reðrastefna** ad. v. conventus de membris pudendis virilibus: Vas habent quinque chaenicum capax (vulgo kútur sev áttúngur) cui unus fundus exemptus est, alter vero creta intus illinitus. Congregati nebulones, priapismo sibi inducto, membrum immittunt. Fundum si quis attigerit ut creta conspiciatur, princeps luti erit.«[1]

**Að draga hákarl** eða **að keipa**. Þorskroði er hnuðlað saman í dálitla kúlu. Því næst er kúlan bundin neðan í spotta. Listarmaðurinn gleypir kúluna og dregur hana svo aptur upp kokið, á spottanum. Síðan gleypir hann hana aptur o. s. frv., eins og þegar sjómenn eru að keipa.

Heimildarmaður minn, J. Ól., bætir þessu við lýsínguna: »Ef kúlan er nokkuð stór, þá er ekki skotið loku fyrir það, að keiparinn kyrkist, og er þannig við búið, að slíkir gárúngar fái makleg málagjöld fyrir galgopaskap sinn.«

**Að aka sméri**. Listarmaðurinn klínir smérbita á ennið á sér og snoppúngar sig svo sjálfur, þángað til smérið bráðnar við hitann, og rennur ofan andlitið; á hann þá að sjá svo til, að það fari ekki fram hjá munninum.

Heimildarmanni mínum, J. Ól., þykir ekki list þessi göfugleg, enda væri synd að segja það. Hún er líka eflaust liðin undir lok.

Þrælaleiki, sem nú tíðkast, þekki eg ekki, nema ef vera skyldi að halda

---

[1] Frá þessari list er sagt með orðum heimildarmanns míns, J. Ól. Sbr. inng. bls. 6—7.

upp í sér loganda ljósi, optast kertaljósi, svo og svo leingi, t. d. meðan verið er að telja til tuttugu eða jafnvel þrjátíu.

Enn eru nokkrar listir sem eg er mjög ófróður um, en eg skal þó tína þær til, og það sem heimildarmenn mínir segja um þær.

**Að draga lúsavað.** »Þeir[1] halda niðri andanum, kreista hendurnar, halda handleggjunum að síðunum, og miða sér til á hliðarnar, eins og maður sé að draga vað.«[2]

**Að setja upp matselju** segir J. Ól. sé að stökkva aptur á bak(?)[3], uppá við, á hærri brún en þá, sem listarmaðurinn stóð á í fyrstu.

**Að stökkva yfir sveig.** Heimildarmaður minn J. Ól. segir að sveigur muni vera hér sama sem svigi eða svigagjörð á einhverju íláti. »Það á eflaust að stökkva einhvernveginn þannig yfir, að fæturnir komi ekki við gjörðina. Sami heldur um snúru í báðum höndum og stökkur fram eða aptur úr lykkjunni.«

**Að stikla á staung.** Á staung er stiklað með tvennu móti. Sumir stikla með henni. Aðrir hlaupa upp á hnappinn og láta svo riðið[4] bera sig.[5] Páll Pálsson getur uppá að þetta sé sama sem að gánga á stiklum og er það ef til vill ekki fjarri lagi.

**Að fara undir sauðarlegg** er nefnt áður, en J. Árn. hefir feingið lýsíngu af list þessari frá Hákoni Hákonarsyni í Brokey, sem ómögulegt er að eigi við list þá, sem getið er um á bls. 150. Lýsíng þessi er því miður ógreinilegri en skyldi: »(Það á að) hafa lykkju eða enda í legg, sinn hvorum megin við fæturna, sem taki í miðjan legg og hoppa svo aptur úr eða fram úr.«

Auk lista þeirra, sem nú hefir verið lýst um hríð, kann eg að nefna nokkrar. Eg get að vísu ekki lýst þeim, því heimildarmenn mínir hafa ekki verið fróðari um þær en eg, en mér þykir þó réttara að drepa á þær, því betra er að veifa raungu tré en aungu.

J. Ól. nefnir þannig að eins að dumpa sela, að fara á klakk[6] og að taka mat. J. Árn nefnir að steypa dásum. Það er líka nefnt í Aradals-brag Jóns lærða (t. d. Hrs. Bmfj. 656. 8vo). Þar segir svo um það, er Varði heilsaði útilegumanninum[7]:

Heilsar upp á húsbóndann,
hinn þá steypa dása vann.

[1] Sjálfsagt þeir sem leika listina.
[2] Svo segir J. Ól. Eg hefi hvergi annarsstaðar rekið mig á list þessa og get ekki ráðið af þessu, hvernig hún er eða hefir verið.
[3] »Converso corpore«.
[4] »Hreyfíngin á staunginni«.
[5] J. Ól.
[6] J. Árn. hefir eptir Hákoni í Brokey að þetta muni vera sama og riða a móti bagga, en það er mjög ólíklegt, því að ríða a moti bagga er eingin list.
[7] Þjóðs. J. Árn. II; bls. 185.

Hér má líka minna á seinustu[1] vísu Leirulækjar-Fúsa:

Eg stíng mér niður og steypi' af dás,
stattu' ei nærri kona.
Mér er ekki markaður bás
meir en svona' og svona.[2]

Guðmundur Ólafsson[3] tekur það skýrt fram, að annað sé að steypa dása en að steypa klukkur. Hann segir að minzt sé á dásasteypu í »Vilm. R.« á þessa leið:

Dreingjum þótti dásinn margur
drjúgum steyptur verða.

»Vilm. R.« eru sjálfsagt Vilmundar rímur.

Páll heitinn Pálsson nefnir að steypa dás, og getur upp á, að það sé sama sem að stínga sér kollhnís. Bertel Þorleifsson stud. med. hefir kunnað að steypa á dás og vill láta það vera sama sem að steypa klukku. Séra Benedikt Jónsson í Bjarnanesi nefnir að brenna nipt. J. Árn. hefir eptir Hákoni í Brokey að það sé einhver skylmíngaleikur. Í varíöntum við leikkvæði séra Benedikts stendur[4] að berja ál og að berja álpt. Eg þekki hvorugt, enda getur vel verið að hvorttveggja sé afbökun. Séra Benedikt nefnir að fljúga eða flögur. Hannes biskup nefnir það líka, að eins fyrra nafninu. Að mæla leingd sína er líka til, og það enn í dag, en ekki veit eg hvernig farið er að því.

Guðmundur Ólafsson nefnir tvær listir, sem eg kann ekki að lýsa, og eru þær þessar: að plokka spora og að sækja skó eða vetlíng sinn.

Aptan við listir þessar hnýti eg fernskonar barna gamni og únglínga, sem hvorki á heima undir leikjum né listum í raun réttri, og því síður annarsstaðar. Það virðist þó liggja næst að vísa þess konar dóti til sætis hjá listunum.

Fyrst er **hnjáraun**, og hefi eg smíðað það nafn til að kalla þó gaman þetta eitthvað. Tveir taka þátt í því. Annar reisir borðstóla[5], annaðhvort á gólfi, eða öllu heldur uppi í rúmi, og kreppir hnén saman, svo fast sem hann getur. Hinn kemur ofan að borðstólamanninum og þrýstir öðru hnénu ofan á hnén á honum. Það er mark hans og mið að komast niður á milli þeirra, en hinn reynir til að halda þeim saman í leingstu lög.

---

[1] Ef þjóðsögunni er fylgt. Annars dó Vigfús Jónsson á Leirulæk skikkanlega og skaplega.

[2] Þjóðs. J. Árn. I; bls. 538.

[3] Sbr. bls. 140.

[4] Sbr. leikkvæði hans í Viðaukanum.

[5] »Svo er kallað þegar einn liggur á bakið, upp í lopt, og kreppir fætur undir sig, svo hnén rísa uppi,« segir séra Jón Ýngvaldsson, Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 209.

**Kleifför**. Eg hefi ekkert nafn heyrt á þessu gamni og set þetta heldur en ekkert Tveir taka þátt í því, eins og hinu fyrra, og er annar venjulega miklu eldri og sterkari en hinn. Hann stendur fyrst hálfboginn. Hinn setur höfuðið aptur á milli fóta hans, svo að hnakkinn snýr upp, og réttir báðar hendurnar aptur á milli læranna á sér. Sá, sem fyr var nefndur, tekur í þær, sem mest hann má, og hættir ekki fyr en hinn hefir snúizt gegnum sjálfan sig og er aptur kominn á fæturna.

**Hökuleikur** er hið þriðja. Hann er fólginn í því, að tveir menn núa eða ýta saman hökunum og tapar sá sem fyr lætur undan, en hinn hrósar sigri. Jóhannes Jóhannesson stud. jur. hefir heyrt þetta kallað að fara í hökubrynjur, en að fara í nefbrynjur segir hann sé að nugga nefjum saman sem fastast.

Loksins má geta þess, að það er altítt að skemta börnum með því **að hossa** þeim á **ristunum á sér**. Sá, sem er að skemta barninu, situr og lætur það stíga á ristarnar á sér. Því næst tekur hann í hendurnar á því og lyptir svo upp fótunum. Barnið lyptist upp um leið, og þykir því optast þeim mun betra, sem það fer hærra.

Hér má líka minnast á það, er börn stíga að gamni sínu, en það er svo lítið leiklegt við þetta gaman, að réttara þótti, að telja stigþulurnar og stigvísurnar til þulanna

Við margar smálistir er ekki beitt öðrum hlutum líkamans en höndunum, og mætti því kalla þær handlistir, réttu nafni. Þær eru sumar létt verk og löðurmannlegt, en þó þarf lag og lipurleik við þær. Eg skal lýsa þeim, sem eg þekki.

**Hrútur** er einna óbrotnastur. Hrútsmiðurinn setur fíngurna á hægri hendinni hvern upp á annan með vinstri hendinni, þannig að sleikifíngurinn er undir, en litli fíngurinn ofaná. Þvínæst setur hann fíngurna á vinstri hendinni í sömu stellíngar með þumalfíngrinum og vísifíngrinum á hægri hendinni, en ekki má röðin á hægrihandar fíngrunum haggast, meðan því fer fram. Loksins styður listarmaðurinn saman gómunum á laungutaung og þumalfíngri á báðum höndum, og hefir hann þá komið sér upp tveimur góðum og gildum hrútum. Nú er framhliðunum á fíngrunum barið saman. Hrútarnir eru þá að stángast og líður ekki á laungu, áður en þeir hafa stángað hvor annan í hel. Hrútur er eldra gaman en að líkindum lætur. Þess er þegar getið í fornsögum, að börn geri »rúta« með fíngrum.[1] Jóhannes Jóhannesson hefir heyrt þetta kallað að búa til hrútshorn, en Páll heitinn Pálsson að stánga með hrút.

**Ferhyrndur hrútur** er gjörður þannig úr garði að lángataungin er lögð yfir sleikifínguripn, sem efst, og baugfíngurinn yfir litlafínguripn, bæði á

[1] Flateyarbók II; bls. 300. Fornmannasögur V; bls. 348.

hægri og vinstri hendi. Að því búnu eru hrútarnir látnir stángast eins og áður.

**Að sverja lófaeið**, er að láta hendurnar snúast á hryggjum þeim, sem eru á lófunum milli holhandarinnar og fíngranna, svo að þær komi hvergi saman nema þar. Þetta er og nefnt að kyssa kóngsdrottnínguog jafnvel kóngsdóttur. Brynjúlfur Kúld stud. jur. kallar það að kyssa kóngssoninn, en að kyssa drottnínguna, segir hann sé að láta fíngurna snúast á miðliðunum, innanverðum, og mega þá hendurnar hvergi koma saman annarsstaðar.

**Að láta prest stíga í stól**. Listarmaðurinn heldur vinstri hendinni skáhallri fram undan sér, og veit handarbakið inn að honum. Hann vindur líka hægri höndina dálítið, þannig að lófinn snýr hérum bil upp á henni; snúa þá handarbökin saman. Því næst leggur hann litla fíngurinn á hægri hendi í greipina milli litla fíngurs og baugfíngurs á vinstri hendi, baugfíngurinn á hægri milli baugfíngurs og laungutángar o. s. frv., þángað til sleikifíngur á hægri er yztur, auk þumalfíngranna. Fíngurnir ligga á ská í greipunum. Því næst hreyfir listarmaðurinn handleggina fram, og vindur hægri hendinni niður fyrir vinstri höndina, en beygir jafnframt fíngurna á henni (v. hend.) inn á við, og beinir hægri þumalfíngrinum þannig, að hann liggur milli þumalfíngursins á vinstri hendi og fíngranna víslagðra. Seinast snýr hann þumalfíngrinum upp og tifar honum hægt og hægt. Þá er presturinn að prédika. Ekki má listarmaðurinn bregða fíngrunum úr greipunum, meðan listin fer fram. Jóhannes Jóhannesson stud. jur. kallar þetta að búa til prest en Páll heitinn Pálsson »prestur í stól«. Hann nefnir líka Pétursstól, og skal eg láta ósagt, hvort hann á nokkuð skylt við þetta mál. Lýsíng þessi er flóknari en skyldi, en eg get ekki gjört hana greinilegar úr garði, þótt eg væri allur af vilja gjörður.

**Að setja Pílatus í dómstólinn**. Listarmaðurinn styður saman gómunum á þumalfíngri og laungutaung á hægri hendi og eins á vinstri hendi. Á vinstri hendinni snýr lófinn upp, en niður á þeirri hægri. Hina fíngurna lætur hann vera beina. Því næst stíngur hann baugfíngri (heiðarmána) og litla fíngri á vinstri hendi inn á milli þumalfíngurs og laungutángar á hægri hendi, og um leið sleikifíngri á hægri hendi á milli þumalfíngurs og laungutángarinnar á vinstri hendi. Baugfíngur og litlafíngur á hægri hendi leggur hann ofan á sleikifíngur á þeirri vinstri.[1]

Guðmundur Magnússon cand. med. kallar list þessa lífleik. Eg hefi líka þekt hana frá blautu barnsbeini, og heyrt hana nefnda enn annað, en get ekki komið því fyrir mig nú. J. Árn. nefnir dauðs manns tak og segir að Hákon í Brokey segi að það sé sama sem lífleikur. Annars lýsir hann hvergi þeim leik.

[1] Eptir sögn Þorst. Erl.

**Að reisa skemmu.** Listarmaðurinn reisir saman litlu fíngurna eins og sperrukjálka, leggur baugfíngurinn á vinstri hendi niður í greipina milli litlafíngurs og baugfíngurs á hægri hendi, reisir saman laungutaung á á vinstri hendi og baugfíngur á hægri hendi, setur laungutaung á hægri hendi í greipina milli laungutángar og sleikifíngurs á vinstri hendi og reisir svo sleikifíngurna og þumalfíngurna saman. Þá er komin skemma með sperrum og bitum. Páll heitinn Pálsson kallar þetta að reisa hús.

**Að skipta ástum.** Listarmaðurinn heldur fíngrunum á annari hvorri hendinni fast saman. Hann verður að halda fíngrunum beinum og höndin má hvergi koma við. Það er listin að hreyfa hvern fíngur eptir annan, frá hinum. hvern fast að öðrum, þannig að þeir, sem eptir eru, séu grafkyrrir og fast saman. Listarmaðurinn byrjar t. a. m. á litla fíngri. þokar svo baugfíngri fast að honum og mega sleikifíngur og lángataung ekki haggast á meðan. Sagt er að þeir séu ekki við eina fjölina feldir í ástamálum, sem geta skipt ástum laglega. Steingrímur Stefánsson kallar þetta að skipta gæsum en Brynjúlfur Kúld stud. jur. að skipta löndum.

**Svenska.** Tveir leika listina og standa andspænis hvor öðrum. Þeir halda höndunum upp, fyrir framan brjóstið á sér, þannig að lófarnir snúa fram. Þeir slá fyrst saman hægri lófunum, þá vinstri lófunum, þá skella þeir hægri lófunum saman við vinstri lófana. Þá sleingja þeir þeim beint niður á lærið á sér, framanvert. Þá vísleggja þeir handleggina framan á brjóstinu, þannig að fíngurnir lenda uppi undir öxlum. Þá skella þeir saman lófunum á sjálfum sér. Þá byrja þeir að nýu og halda áfram svo leingi sem verkast vill. Ýmsar eru tilbreytíngar á svenskunni. Sumir skella saman höndunum, áður en þeir sleingja þeim niður á lærið. Sumir skella líka saman höndunum á milli hvers taks og verða þá tíu tök í staðinn fyrir sex. Þess má geta að svenska er frægasta meðal við kulda, en þá verður að slá nokkuð fast.

Gísli Brynjúlfsson cand. med. og Lárus Árnason, Vestmanneyingar, segja mér að þar sé títt að slá svensk, og er það ekki annað en tilbreytíng á svensku þeirri sem eg hefi lýst hér. Fyrst er höndunum sleingt niður á lærið. Þá eru þær lagðar þversum á brjóstið, neðanvert, þó ekki svo að fíngurnir nái saman. Þá skellir hvor um sig höndunum saman fyrir framan brjóstið. Þá skella þeir saman hægri lófunum. Þá er þriðja takið endurtekið. Þá skella þeir vinstri lófunum saman. Þá er þriðja takið enn endurtekið. Þá skella þeir vinstri lófunum saman við hægri lófana. Þá skellir hvor um sig lófunum saman, fyrir framan höfuðið. Þá kemur fyrsta takið aptur til sögunnar o. s. frv. koll af kolli.

Skylt er að slá dansk og tíðkast það líka í Vestmanneyum, eptir því sem sömu menn segja mér. Tvö fyrstu tökin eru eins og þegar svenskur er sleginn. Þá er hægri lófunum slegið saman, en vinstri hendurnar eru

ekki hreyfðar úr stellíngum þeim, sem þær komust í við annað takið. Þá er vinstri lófunum slegið saman. Þá slær hvor um sig höndunum saman, fyrir framan sig. Þá er fyrsta takið aptur haft um hönd og svo framvegis. Dr. Jón Þorkelsson ýngri þekkir að slá spansk austan úr Skaptafellssýslu. Það er víst svipað.

Aðrar handlistir eru miklu fremur komnar undir hörku og afli en liðleik, enda er opt tekið til þeirra, þegar á að reyna kraptana, og segir það sig því sjálft, að mest er komið undir því að bolurinn sé hraustur, þótt höndunum einum sé beitt.

**Krók** þekkir hvert mannsbarn á Íslandi og þarf því varla að lýsa honum. Þó þykir mér réttara, að gánga ekki alveg þegjandi fram hjá honum. Tveir menn krækja saman fíngrum, optast sömu fíngrum á sömu hendi, þannig að innri fletirnir á miðkjúkunum liggja saman. Að því búnu taka þeir báðir í af öllu afli, og er kallað að sá hafi krókinn, sem réttir upp fíngurna á hinum, en hann er þá dreginn upp.

Optast fara menn í krók á laungutaungum á hægri hendi, en stundum krækja menn þó saman laungutaungum á vinstri hendi, eða þá einhverjum fíngrum, sem verkast vill. Sumir snúa upp á fíngurinn á þeim, sem þeir fara í krók við, en það þykja ólög. Hvorugur krókmanna má heldur kippa í, þótt það sé opt brallað. Margir hafa þann sið að bleyta fínguriun í munnvatni sínu, áður en þeir fara í krók. Þeir segja að fínguriun togni þá síður. Þegar mest er haft við, er farið í snæriskrók eða krókmennirnir krækja fíngrunum í snærissmeyg. Annars er sá krókur alveg eins, nema hann er miklu sárari, eins og eðlilegt er.

J. Ól. nefnir það sem hér er kallað krókur að handkrækjast[1], en eðlilegra er að hafa það nafn um krummu.

Í krummu krækja menn saman höndum eða öllum fíngrunum, nema þumalfíngrunum. Annars er hún alveg eins og krókur. og vinnur sá sigur, sem dregur hinn upp, eða getur dregið höndina að sér órétta um greiparnar á hinum. En ef fíngurnir á hvorumtveggja gleikka svo, að hvor dregur sína hönd að sér órétta, þá er jafntefli. Það er mesta þíng fyrir þá, sem fara í krummu, að hafa lángar neglur, eins og auðskilið er. Einhver Múlsýslíngur hefir sagt mér að krumma væri kölluð þar krumla, og virðist það vera réttara nafn. Opt kemur það fyrir bæði í krummu og krók, að

[1] Að handkrækjast er nefnt i Vatnsdælu (Fornsögur. Leipzig 1860; bls. 78) en þar getur það varla verið haft um krók. »Hann (Bárður Styrfinn) bað þá handkrækjast ok gera hring.« Það litur svo út, sem það þýði hér að eins að taka höndum saman blátt áfram. Að handkrækjast er líka nefnt í Fornmannasögunum (VI; bls. 203) og segir þar að hönd þess hafi brátt dofnað, sem var minni máttar. Það litur svo út, sem handkrækíngin hafi hér verið fólgin í að kreysta hendurnar hvor á öðrum.

annar dregur hinn að sér. Sá þykir fara hallloka, sem að er dreginn, en hvorugt þykir þó á enda kljáð, fyr en annar hvor er dreginn upp.

**Handfáng** er skylt krók og krummu. Tveir menn taka höndum saman: tekur hvor fyrir sig hægri hendinni utan um hægri úlfliðinn á hinum. Þegar hendurnar eru komnar í þetta horf, togast þeir á, þángað til annarhvor missir af takinu eða kippist til. Handfaung eru miklu sjaldgæfari en krókur og krumma. Sumir þreyta handfaung med vinstri höndunum, en sjaldan sést það þó.

**Hnefakaup** eru eins tíð og krókur, enda eru þau eingu síður fallin til að reyna hörkuna. Þeir sem fara í hnefakaup, kreppa alla fíngurna inn í lófann og berja svo saman hnúunum á milli annarar og þriðju kjúkunnar, eða þá miðkjúkunum sjálfum. Optast er farið í hnefakaup með hægri höndunum, en einstökum sinnum er þó barizt með vinstri höndunum. Það þykja rángindi að berja annarsstaðar en á hnúana eða kjúkurnar, svo sem á úlfliðina, enda getur það verið skaðlegt. Svo er talið, að sá, sem fyr hættir, bíði lægra hlut, en opt lætur hvorugur undan, fyr en blæðir úr hnúunum. J. Ól. drepur á hnefaleik, og er það nafn enn við lýði, þótt það sé sjaldgæfara en hitt, að minnsta kosti á Norðurlandi. Hnefakaup eru líka stundum kölluð hestakaup, hvort sem það nafn er skylt orðtækinu að leiða saman hesta sína. Loksins segir dr. Jón Þorkelsson mér, að þau séu kölluð hnefakítur í Skaptafellssýslu.

**Að komast í búr einhvers** er fólgið í því, að opna kreptan hnefa einhvers. Siggi kreppir t. d. hnefann svo fast sem hann getur, en Bjössi reynir til að opna hann með öllu móti. Siggi beitir öllum brögðum til að varna honum þess, eins og eðlilegt er, og á Bjössi opt fult í fángi. Eitt bragð er honum þó óbrigðult, en það er að keyra hnefann á Sigga inn að handleggnum. Þá réttast fíngurnir og búrið opnast.

Aptan við listirnar hnýti eg skýrslu um hrekkjabrögð þau, sem eg þekki, því þeim kippir að mörgu leyti í kynið til þeirra. Aptan við hrekkjabrögðin skeyti eg aptur ýmsum glennum, sem fólgnar eru í orðum einum, og hefðu því að réttu lagi átt heima í öðrum flokkinum, en þær eru svo fáar, að ekki þótti taka því, að skipa þeim þar í sérstaka grein.

Hrekkjabrögð þau, sem hér er um að ræða, eru venjulega kölluð skelmistök eða fantabrögð. Únglíngar beita þeim opt hvorir við aðra að gamni sínu, en stundum gránar reyndar gamanið, því ekki ber það sjaldan við, að þeim þyki fyrir, sem áreittur er.

**Selbiti** eða **sölbiti**[1] er fólginn í því að fremsti liðurinn á laungutaung eða vísifíngri er spentur við þumalfíngursgóminn; er honum svo kipt fram

[1] Það nafn er sunnlenzkt, tekið eptir sögn Þorsteins Erlíngssonar.

af gómnum á höndina á þeim, sem á að verða fyrir skellinum, eða jafnvel framan í hann. Stundum eru bæði lángataung og vísifíngurinn sett í spennuna í einu, og verður þá selbitinn tvöfaldur í roðinu. Séra Guðmundur Jónsson varar við því »að gefa selbita á enni, helzt ef nærri gagnaugum koma».[1]

**Brennivínsskál** eða **ölkanna**.[2] Sá, sem vill manna sig upp og gefa kunníngja sínum brennivínsskál, leitast við að koma einhverjum fíngri í holu þá, sem er fyrir aptan eyrað á honum neðanvert; þrýstir hann fíngurgóminum inn í holuna, og er brennivínið því rausnarlegar til tekið, sem fastara er þrýst. Bertel Þorleifsson hefir heyrt brennivínsskál kallaða þrælatak.

**Tvíbaka**. Sá, sem vill gefa öðrum tvíböku, setur hnéð í bakið á honum, en tekur jafnframt í axlirnar á honum og keyrir hann aptur á bak.

**Öggutak**[3] er að koma einhverjum fíngri inn fyrir annaðhvort munnvikið á náúnganum og taka svo óþyrmilega í, niður á við. Sá, sem ætlar að taka einhvern öggutaki, kemur optast aptan að honum.

**Að gefa tóbaksbita** er að reka fíngurinn í lautina upp undir hökuna á einhverjum. J. Árn. nefnir tóbaksmola eptir séra Jóni Norðmann.

**Steinbítstak** er að taka þannig með útþaninni greip utan um hálsinn á einhverjum, aptanverðan, að fíngurnir rekist upp undir kjálkabörðin. Ef sá, sem tekur takinu, hefir ekki svo stóra greip, þá lætur hann sér nægja, að kreista hálsinn, rétt fyrir neðan bein þau, sem liggja fyrir aptan eyrun.

**Barkabiti**. Það er komið aptan að þeim, sem á að finna í fjörugrjótinu. Hrekkjaklápurinn styður þumalfíngrinum á hálsinn á honum, aptanverðan, en bregður um leið greipinni fram um hálsinn, og styður einhverjum hinna fíngranna á barkakýlið á honum. Bitinn er eptir því verri á bragðið, sem fastara er stutt.[4]

**Skálkatak** er að taka með útþaninni greip utan um hálsinn á einhverjum framanverðan og keyra fíngurna upp undir kjálkabörðin.[5]

**Að taka** einhvern **í spanska lás** er að koma aptan að honum, setja handleggina fram um handkrikana á honum og spenna fast greipar aptan á hálsinum; spennast þá axlirnar aptur, en höfuðið niður, og er mjög óþægilegt.

---

[1] Sumargjöf handa börnum; bls. 124.

[2] Austfirzkt nafn, eptir sögn Jóns Finnssonar stud. theol. J. Árn. lætur brennivínsskál og steinbítstak vera það sama.

[3] Agga er einhver fiskur nefndur á Austurlandi, eptir því sem Jónas Hallgrímsson segir í Hrs. Bmfj. 27, 4to. (Sbr. ögurinn, sem séra Páll í Selárdal telur með fiskum í Vísdómsbók sinni), hvort sem öggutak er dregið af því nafni. Ef svo er, þá væri orðið myndað eins og steinbítstak.

[4] Eptir sögn Sigurðar Briems cand. polit.

[5] Eptir sögn Þorleifs Bjarnarsonar stud. mag.

J. Árn. getur um að rétta upp spanskan lás og standa upp undan spönskum lás. Það er eflaust sama listin.

**Upp núp og niður núp.** Vandi er að velja hvort heldur skal kjósa upp núp eða niður núp, því ef kosið er upp núp, þá er þumalfíngurgómnum þrýst neðan á nefbroddinn og hann keyrður upp, en ef sá, sem á völina, kýs heldur niður núp, þá er fíngurgómurinn settur ofan á nefið, og nefbroddurinn keyrður niður.[1]

Svipað glettubragð hefi eg heyrt kallað meðlæti og mótlæti, fyrir norðan, og er sá, sem beita á bragðinu við, ávalt látinn kjósa um, hvort hann vilji heldur, eins og við »núpinn«. Ef hann vill heldur meðlæti en mótlæti, eins og optast ber við, þá strýkur hrekkmáðurinn hendinni ofan andlitið á honum, en ef hann kýs heldur mótlæti, þá er lófinn lagður á hökuna og strokið upp eptir andlitinu. Hvorttveggja er óþægilegt, því fast er strokið, hvora leiðina sem farið er. Stundum er náúnginn líka látinn kjósa um, hvort hann vilji heldur ofan í móti eða upp á móti. J. Árn. nefnir að kjósa meðlæti eða mótlæti. Bertel Þorleifsson hefir vitað völ á ofanbrettu eða neðanbrettu, en Sigurður L. Jónasson á uppstroku eða niðurstroku, og er alt sama.

Bls. 25 er minzt á jamberíngu, og kunni eg þá ekki að lýsa henni. Síðan hefir Páll Melsteð skrifað mér: »Að jambera var það kallað þegar einhver litilmagninn var tekinn og haldið, og strokið upp á við andlitið, eða ef til vill höfuðleðrið og raulað yfir honum þetta:

Snú þú nú aptur enn til hvíldar öndin mín,
nótt er komin, en dagur dvín.«

Eptir þessu hefir jamberíngin átt skylt við meðlæti og mótlæti. En eg hefi fengið alt öðruvísi lýsíngu á jamberíngu frá manni, sem þekti hana líka úr Bessastaðaskóla,[2] og þykir mér réttast að setja hana hér til samanburðar, þótt hún sé eiginlega skyldust því að sækja smjör í strokk: Tveir menn héldu höndum saman. Annar hélt um axlirnar á hinum, en hinn um handkrikana. Annar hafði þó aðra höndina lausa. Þeim, sem átti að jambera, var stúngið upp á handleggina, og sá, sem hafði höndina lausa, rak höfuðið á honum niður á milli þeirra, eptir því sem taktinn í vísunni sagði til.

Hér má líka geta þess, að óbrotinn löðrúngur eða snoppúngur er opt nefndur sléttur dalur.

Stundum ber það við að sá, sem á að leika á, þekkir ekki brögðin og vill t. d. óður og uppvægur fá selbita eða tóbaksbita, ef það er á boðstólum: þykir þá ávalt hálfu meira gaman að gjöra honum grikkinn, eins og eðlilegt er.

---

[1] Eptir sögn Þorsteins Erlíngssonar.
[2] Sigurður L. Jónasson.

Í áttina til þessara bragða eru greiparsvunta, að hræra flautir og svo ýmsar smáglennur, sem fólgnar eru í því, að beygja fíngurna á náúnganum á sérstakan hátt, eða ýmislegu smáfitli við hendurnar á honum, og er þó ekkert af þessu venjulega talið til fantabragða, en opt hrekkja únglíngar hvor annan á allan þennan hátt, að gamni sínu.

**Greiparsvunta** er fólgin í því að hrekkjarinn vætir greipina milli sleikifíngursins og laungutángarinnar, optast með því að bregða túngunni gegnum hana. Að því búnu læðir hann henni að nefinu á þeim, sem hrekkja á, þannig að greiparklofið veit niður, og strýkur svo niður nefið á honum. Þetta er líka kallað að gefa greiparskuð eða kellíngarklof.

**Að hræra flautir.** Nú vill einhver gjöra kunníngja sínum glennu, með því að hræra honum flautir. Þá tekur hann annaðhvort aðra höndina eða báðar hendurnar á honum, með lófunum saman, á milli handanna á sér og hrærir fíngurna á honum saman, svo að þeir vísleggjast. Fíngurnir komast allmikið við, þegar fast er snúið, og láta þeir því opt hræra sér flautir, sem kalt er á höndunum.

Svo koma smáglennur þær, sem eg hefi nefnt áður, og kann eg að telja þessar.

**Að rífa hrís**, er að glenna einhverja greip sundur á náúnganum. Slíkt er allsárt, þegar fast er tekið í fíngurna. Sumir segja að þá sé hrísið fyrst rifið á réttan hátt, þegar tekið er með annari hendi utan um laungutaung og sleikifíngur á náunganum, en utan um baugfíngur og litla fíngur með hinni og glent svo í sundur. Séra Guðmundur Jónsson telur til hættulegra barnaleikja »að rífa hrís og binda, þegar hörku er beitt«.[1] Að binda hrís þekki eg ekki.

**Að binda bagga**[2] er að þrýsta fremsta og efsta liði á einhverjum fíngri saman, svo að miðliðurinn standi þvert á þeim. Þetta getur líka verið allsárt.

**Að láta upp**, er að terra einhvern fíngur aptur á bak.

**Að aka á völl**, er að kreppa hnefann og draga hnúana fram og aptur um þvert handarbak á einhverjum. Það er líka kallað að aka mykju.

**Að skera tóbak eða að saxa tóbak**, er að kreppa hnefann og láta hnúana ríða yfir þvert handarbak á einhverjum, eins og tóbaksjárn á tóbaksfjöl.

G. D. segir að það sé sama að aka á völl og skera tóbak, en mér þykir þó rettara, að greina það í sundur, því einhvers staðar hefi eg heyrt lýsínguna á fyrra hrekknum, út af fyrir sig.

**Að gefa pálmastiku**, er að taka með annari hendi utan um aðrahvora höndina á náúnganum, þannig að gómarnir á honum standi fram úr

[1] Sumargjöf handa börnum; bls. 124.

[2] J. Árn. telur það sama hrekkinn, að rífa hrís og binda bagga.

lófunum og berja svo ofan á þá með hnúunum á hinni hendinni, eða þó öllu fremur einhverju hörðu.[1]

Gísli Konráðsson nefnir pálmadiku í þætti Latínu-Bjarna, og er það víst sama sem pálmastika. Saga Gísla er svo merkileg, að réttast þykir að taka hana hér upp orðrétta. Bjarni Jónsson var fæddur 1706 og fór í Hólaskóla á dögum Steins biskups Jónssonar. »Þá var þar brúkuð pálmadika bæði á góma og hnéskel, skólasveinum til refsíngar, þá þeir misbrutu nokkuð; átti blóð að stökkva fram undan nöglum, en sagt er, að öllu verri þætti þeim hún þó á hnéskel. En fyrir því að Bjarni þótti brögðóttur snemma, þá föluðu sveinarnir að honum, og hétu gjaldi fyrir, ef hann feingi með einhverju bragði komið í veg fyrir þessa venju. Bjarni sagði þá að gæta skyldu þeir þess vandlega, ef að sér yrði svo refst, að grípa sig strax er hann æpti; hétu þeir góðu um það; leið ei lángt, áður Bjarni vann sér til refsingar. Það var þá títt í skóla, að sveinar margir voru í línbrókum næst sér, er náðu ofan fyrir hnéskelina, undir sokkaband. Nú vissi Bjarni, að sér mundi refst með þessum hætti, því meira braut hann en minna; kom hann þá áður hveitibrauðsloki ofan yfir hnéskelina, undir brókina, en skólasveinar skyldu þegar hlaupa til og bera hann til rekkju sinnar, ef hann væri sleginn. Nú er Bjarna var refst á hnéskelina, heyrðu menn að eitthvað brotnaði í hné honum; var það brauðlokið; æpti Bjarni við hátt; lét síðan sem að sér svifi ómegin; tóku sveinarnir hann þegar og báru til rúms síns; neri Bjarni þá og blóðsteini um hnéð og heimtaði plástra; var síðan leingi haltur, er hann komst á skrið; ætluðu skólameistarar Bjarna mjög meiðst hafa; er sagt að pálmadika væri eptir það aflögð á hnéð.«

J. Ól. nefnir aptur »pálmastiku«.[1] Hann segir að Páll Vídalín hafi sagt, að þegar hann var skólameistari í Skálholti »hafi hann ei gefið piltum fleiri en tvær eður fjórar pálmastikur eður mest sex; kvað það óþarfa, því hendurnar væri þá orðnar dofnaðar.«

**Að láta einhvern prjóna**, er að taka hendurnar á einhverjum, sína með hvorri hendi og núa svo gómunum á honum fast saman.[2]

**Að flétta reipi úr punti.**[3] Ef náunginn kann ekki að flétta reipi úr punti, þá er vel gjört, að kenna honum það. Kennarinn tekur tvo puntvendi og lætur þá upp í lærisveininn, í kross, þannig að öxin eru upp í honum, en leggirnir standa út úr báðum munnvikunum. Síðan tekur kennarinn í leggina og kippir vöndunum snögt út úr hinum; sitja þá öll öxin eptir upp í honum og á milli tannanna.

**Er mikið í öskjunum þínum?** »Maður tekur um eða undir höku annars, sem hefir hálfopinn munninn, heldur laust og spyr: »Er mikið í öskjunum

[1] *Æfisaga Páls Vídalíns.* Hrs. A. M. 437. fol.; bls. 55.

[2] Eptir sögn Brynjúlfs Kúlds stud. jur.

[3] Eptir hdr. G. D.

þínum?« Hinn segir að hann skuli vita. Ef sá sem spurður er, lætur þá fast aptur munninn, svo hakan hreyfist ekki, þótt hinn lypti undir hana; eru öskjurnar fullar, en ef munninum er haldið hálfopnum, eptir sem áður, lyptir sá, sem vita vill um smérið, hægt og hægt undir hökuna (öskjuna), svo að tennurnar í neðra gómi snerti að eins hinar; en á endanum þegar sá heyrir að öskjurnar skrapa, sem forvitnast um þær, skellir hann neðri skolti fast upp að hinum og segir: »Svei þeim, þær eru tómar.« En við það verður hinum hverft og gætir þess að hafa öskjur sínar heldur fullar, nema hann sé óvanur.«[1]

Ægir þér smérið hennar móður þinnár nefnir J. Árn. að eins, og þykir mér líklegt að það sé einhver hrekkur.

J. Árn. nefnir líka að eins »létt skrifarahönd«. Það er eflaust sama sem eg hefi heyrt kallað að vita hvort einhver er eða verður góður skrifari. Maður tekur í handlegginn á einhverjum og segir honum að hafi höndina sem máttlausasta, hann sé eða verði eptir því betri skrifari, sem höndin sé máttlausari. Ef hinn verður við þessum tilmælum, víngsar maður hendinni stundarkorn fram og aptur, en lemur henni svo alt í einu í eitthvað hart, eða gefur jafnvel hinum utanundir með hans eigin hendi.

Að endíngu má geta um kitlur. Þær eru að vísu ólíkar því sem hér hefir verið talið, en það virðist þó mega telja þær híngað, þar sem þær eru ef til vill hinn almennasti hrekkur. Annars hafa víst flestir einhvern tíma verið kitlaðir, og þarf því ekki að lýsa kitlunum, en hins má geta, að sagt er, að sá sé ekki hreinn sveinn og sú kona ekki hrein mey, sem ekki kitlar.[2]

Þá koma andlegu hrekkirnir, ef svo má segja, og skeyti eg þeim hér aptan við hina hrekkina. Til slíkra hrekkja tel eg, þegar einkennilegt gabb er gjört að náúnganum, og er það gjört með mörgu móti. Ein aðferðin er sú, að ávarpa hann og látast ætla að tala við hann, en segja svo einhverja vitleysu, þegar til kemur. Stundum læzt maður líka ætla að hvísla einhverju að einhverjum, en steinþegir þá, þegar hinn leggur við eyrað og býst við stóreflis leyndarmáli, eða hvíslar þá einhverju dómadagsbulli, sem ómögulegt er að botna í. Stundum er þessi og þessi ávarpaður og þegar hann svarar, þá segir hinn ekki annað en »snuð« eða »skjóttu kobba«. Svipað er það, þegar einhver er ávarpaður og sagt svo: »Hann bað að heilsa þér.« »Hver?« spyr sá, sem ávarpaður er, ef hann varar sig ekki. »Sá með gatið«, segir hinn.

Nokkurs konar snuð er það líka, að segja »Stöktu upp í hraun«, þegar sagt er »Guð laun'«, eða »á skakk«, þegar sagt er »takk« (Tak!).

---

[1] Eptir hdr. J. Árn.

[2] Eins er opt sagt, þegar einhver á að geta einhvers: Þú ert ekki hreinn sveinn (hrein mey), ef þú getur þessa ekki í þriðja skipti.

Skylt snuði er svar það, sem spurulir menn fá stundum, þegar þeir spyrja hvað þetta og þetta sé, því þá er opt og einatt svarað:

Styr,
að stínga í rassinn á þeim sem að spyr.

Séra Jón Ýngvaldsson segir dálítið öðruvísi frá: »Þegar maður er að tálga spýtu, og annar minni háttar kemur að, og spyr hvað hann sé að smíða, þá segir hann opt:

Það er styr,
að stínga í þann sem að spyr.«[1]

Skylt þessu er það líka, sem opt er sagt, þegar einhver spyr hvað þetta og þetta sé: »það sem forvitinn má ekki vita.«

Þegar tveir menn mætast í myrkri og annar spyr: »Hver er þar?« Þá svarar hinn opt: »Maður með skinn um hálsinn, skapaður í kross.« Sama er líka stundum sagt, þegar verið er að tala um einhvern mann, ef aðrir vilja fá að vita hver það er, en maður vill ekki gjöra það uppskátt.

En tíðast er þó sögugabbið, ef svo má segja, þegar einhver lætzt ætla að segja sögu, en segir svo einhverja bannsetta vitleysu, í sögu stað. Það eru jafnvel til fastar setníngar, sem sögumaðurinn hefir á takteinum, til að núa þeim um nasir, sem búast við sögunni. Af þeim hefi eg heyrt þessar:

Eg skal segja þér söguna af honum Sóma,
sem setti beran rassinn o'n í rjóma.[2]
Eg skal segja þér söguna af henni Sönn,
sem setti beran rassinn út í fönn.[3]
Eg skal segja þér söguna af honum Skugga,
sem setti beran rassinn[4] út í glugga.
Eg skal segja þér söguna af goðinu,
sem sleikti rauðan skít af[5] roðinu.
Eg skal segja þér söguna af henni kisu,
hún setti rassinn á sér o'n í sjóðandi mysu.
Eg skal segja þér söguna af henni Hít,
hún makaði allan rassinn á sér í krít.[6]

Stundum er sumum af þessum klausum slegið saman í eitt. Fyrst er t. d. sögð sagan af Sönn. Náúnganum þykir skömm til koma. Sögumaðurinn lofar að bæta ráð sitt og segir þá söguna af Skugga. Hún þykir

[1] Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 353.
[2] Eptir sögn Stefáns læknis Gíslasonar.
[3] í snjófönn. Móriz læknir Halldórsson-Friðriksson.
[4] Hann setti rassinn á sér. Sæmundur Eyúlfsson og Guðmundur Þorláksson.
[5] Biskupinn sendi þér rauðan skít í. Sama heim.
[6] eða skít. Tvö seinustu stefin eru frá Sæm. Ey.

ekki bæta úr skák. Sögumaðurinn lofar öllu fögru, og segir svo s af goðinu.

Eg skal segja þér sögu
af kellíngunni rögu,
sem dró á eptir sér drögu
[og sletti um hausinn[1] þér hlandblautri þvögu.[2]

Sama efni er í þessum vísum:

Einu sinni var kall og kellíng í koti.[3]
Þau áttu sér kálf.
Þá er sagan hálf.
[Hann hljóp út um allan völl.
Þá er sagan öll.[4]

Einu sinni var kóngur og drottníng í ríki sínu.
Þau áttu sér kálf.
Þá er sagan hálf.
Þau áttu sér fagra höll.
Þá er líka sagan öll.[5]

---

[1] Aðrir: rassinn.

[2] milli fjóss og hlöðn
og skeyndi sig á skorpinni rjóma þvögu.
Dr. Jón Þorkelsson yngri.

[3] sínu, bætir Þorsteinn Erlíngsson við.

[4] Þau áttu sér hrút.
Þá er sagan út. Þ. Erl.

[5] Sæmundur Eyúlfsson lætur aptur kóng og drottníngu í ríki sínu eiga eir og söguna þá vera hálfa, en svo bætir hann við:

Svo var kall og kellíng í koti sínu.
Þau áttu sér einn hrút,
og þá er sagan út.

# 2. FLOKKUR.

## (ORÐ OG UMHUGSUN.)

---

### 1. GREIN.

### ORÐAGAMAN.

Til þess tel eg ýmislegt gaman, sem leikið er með orðum einum, eða þá að minnsta kosti að mestu leyti. Skemtanir þessar eru að vísu skyldar sumum leikjunum, en þó er sá munurinn, að hér reynir miklu minna á líkamann og hér þurfa hluttakendur sjaldan eða aldrei að hreyfa sig, sízt neitt að marki. Kafli þessi er lángskyldastur fyrra flokknum, og þykir því réttast að vísa honum til sætis fyrst í þessum flokki. Skemtanir þær, sem hér er um að ræða, eru annars mjög ólíkar, og geing eg að því vísu, að mér hafi opt ekki tekizt vel að skipa þeim saman, sem skyldastar voru. Víðast eru orðin meðal, en ekki mark, og koma þau þá fram eins og ákveðnir formálar, sem ekki má bregða útaf, eða þá að minnsta kosti einhver ákveðin inngángsorð, og draga flestar þessar skemtanir nafn af þeim.

**Fagur fiskur í sjó.** Tveir taka þátt í gamni þessu. Annar tekur höndina á hinum og leggur hana flata í lófa sinn, þannig að lófinn á henni snýr upp, þó láta sumir handarbakið snúa upp. Því næst strýkur hann fram lófann með hinni hendinni, hægt og hægt, og hefir um leið yfir formála þenna:

Fagur fiskur í sjó[1]
brettist upp á[2] halanum;
veiðikúla[3] á maganum.

---

[1] Fagur er fiskur í sjónum. Jón stúdent Jakobsson. Fagur fiskur á sandi. Séra Jón Ýngvaldsson (blað frá J. Árn.).

[2] Brettir hann upp. Þ. Erl. — bröndóttur á. J. Jak. — spyrtur upp á. Hrs. J. Sig. 282. 8vo. — flettist upp á. J. Ýngv. — sprettur upp á. Úr Borgarfirði. — brendur á. Bertel Þorleifsson stud. med.

[3] með rauða kúlu. Þ. Erl., Hrs. J. Sig. 282. 8vo. — veiðikríngla, J. Ýngv.

Vanda, vanda,[1]
gættu[2] þinna handa,
[klíngur,[3] slíngur,
vara þína fíngur.[4]
Fetta,[5] bretta,[6]
svo skal stórt högg á lófann þinn detta.[7]
Það er svo ekki meir.[8]

En í því hann sleppir seinasta orðinu, kippir hinn hendinni að sér og þykist hróðugur, ef hann sleppur við höggið.

Leikur þessi er nefndur lófaleikur í Hrs. J. Sig. 282. 8vo. Þar er inngángur þessi fyrir formálanum: »Hefir kall róið í dag?« »Já.« »Hefir hann aflað nokkuð?« »Eina pottýsu.«[9] Tvenn eru þar upphöf á formálanum sjálfum. Annars er þegar getið, en hitt er svo:

Fallegr[10] fiskurinn,
flyðran í sjónum,
með rauða kúlu á maganum,
bröndótt á halanum.
O. s. frv.

**Legg í lófa blinda kalls.**[11] Sá sem leikur blinda kallinn, leggur aptur augun, réttir svo fram höndina og segir: »Legg í lófa blinda kalls, kall skal ekki sjá, sjá.« Ef einhver lætur nú eitthvað af hendi rakna, og leggur það í lófa þess sem bað, þá spyr hann: »Hver gaf?« »Assa gaf«, svarar gefandinn. »Ekki vil eg það. Hver gaf?« »Krummi gaf.« »Ekki vil eg

---

[1] Eptir vanda. Hrs. J. Sig. 282. 8vo. — handa banda. J. Ýngv. — vanda banda. Sæm. Ey.

[2] Njóttu. J. Ýngv.

[3] lýngur. Úr Borgarfirði.

[4] Frá [ sleppa sumir.

[5] hetta. Úr Borgarfirði.

[6] Pretta, pretta. Hrs. J. Sig. 282. 8vo.

[7] Aðrir: á litla lófann. Sumir hafa seinustu línuna þannig: högg skal á detta, en Þ. Erl. hefir vitað hana hafða svona:

svo mun[a] högg á detta.

G. Magn. bætir þar aptan við:

og það skal vera þetta.

[8] bætir Hrs. J. Sig. 282. 8vo. við.

[9] spröku. J. Árn. eptir hdr. dr. Hallgríms Schevings.

[10] er. Sama heim.

[11] Í Þjóðs. J. Árn. er drepið á leik þenna (I; bls. 28), og stendur þar: Legg í lófa kalls kalls, kall skal ekki sjá.

[a] senn mun. J. Ýngv. — hér skal. J. Jak. — þér skal. Hrs. J. Sig. 282. 8vo. — snart skal.] H. Schev. (J. Árn.).

það. Hver gaf?« »María litla gaf.« Þá lætur biðjandi sem sér þyki gjöfin góð og segir: »Þakka þér fyrir María litla«[1] eða þá »María mín«. Optast er það bráðónýtt, sem lagt er í lófa kallsins í fyrsta og annað skiptið, en þá heldur til einhvers nýtt það sem honum hlotnast seinast.

J. Árn. lýsir beiníngaleik eptir hdr. séra Jóns heitins Norðmanns og kippir honum í kynið til þess tvenns, sem seinast hefir verið lýst. »Þegar einhvern lángar í það, sem annar er að borða, réttir hann fram lófann blindandi og hefir þenna formála um leið:

Bættu í lófa blindum kalli,
kall skal ekki sjá.
Sá skal hafa steinshögg og stafshögg,[2]
sem ekki bætir í,
en blóðrauðan kyrtilinn,
sem bætir í.

Þó sá, sem matinn hefir, gefi hinum af honum og leggi bita í lófa hans, fær hann þó ekki blóðrauða kyrtilinn að heldur, en við ber það að hann fær högg með hendinni, ef hann leggur ekki í lófann.«

**Hvar býr hún Nípa? eða Nípuleikur.**[3] Það er sjaldnast neitt sældar brauð að svara þessari spurníngu, sízt þegar sækir fram í samtalið. Samt er opt og tíðum minzt á Nípu, þótt flestum sé kunnugt hvað á eptir fer. Tveir leika og spyr annar, en hinn svarar. Sá sem spyr, byrjar á því að taka utan um nefið á hinum, ósköp hægt og spyrja:

»Hvar býr hún Nípa?«

Hinn svarar:

»Fyrir ofan[4] garð.«[5]
»Hvað gjörir hún þar?«
»Verpir eggjum.«
»Hve mörgum á dag?«[6]
[»Fimm og fjórum,
fullum ausum.«[7]
»Hvað gefur hún gestum,
[sem að garði koma?«[8]
»Skyr og rjóma.«[9]

---

[1] María litla er annað nafn á Maríötlu. Sbr. Þjóðs. J. Árn. I; bls. 624.
[2] Aðrir: beinshögg og steinshögg. J. Árn.
[3] G. E. og G. D.
[4] Aðrir: sunnan.
[5] Aðrir: norðan fjall.
[6] Verpir hún mikið á dag. Þ. Þ. Hrs. Bmfj. 605. 8vo. — Mörgum á dag. J. Árn.
[7] Fullan mæli. Þ. Þ. — Aðrir: Mæli fullum eða Mjög fullan mæli. — Tíu og tólf. Siem. Ey.
[8] Sleppir J. Árn.
[9] Graut og flautir Sama heim.

»Hvað gefur hún þér?«[1]
»Brauð og sykur.«[2]
»Hvað gefur hún mér?«
»Skít[3] og skófir[4]
og alt sem verst er í koppi[5] kellíngar
[á hurðarbaki.«[6]

Eg hefi ávalt heyrt formálann eins, og hann er færður til í meginmálinu, en Þorsteinn Þorsteinsson frá Upsum, sem hefir skrifað nr. 605. 8vo, sem minzt hefir verið á, segir þar líka, að svörunum í seinna hluta formálans megi breyta eptir því sem vill. Sama segir G. E. Hann segir að sá sem spyr, nefni ýmsa menn, þegar hann hefir sagt: »Hvað gefur hún gestum, sem að garði koma?« og spyrji hvað Nípa gefi þeim. Hinn svari því sem honum sýnist, eptir því sem honum sé við þá, sem spurt er um. Seinast sé spurt: »Hvað gefur hún mér?« og svari hinn þá: »Skarn og skófir og alt það sem verst er í koti kellíngar.« Þá herði spyrjandi á takinu ef hinn geti ekki kipt nefinu undan. Eg hefi aptur vanizt að sá, sem spyr, segði við hinn: »Er það satt?«[7] og herti á takinu, ef hinn játaði því. Og þángað til herðir hann á takinu og þángað til spyr hann, að hinn lætur sig annaðhvort, og segir að hann fái brauð og sykur hjá Nípu, eða hann getur ekki kreyst fastara, og þykir þá þeim hafa farizt kallmannlega, sem kreystur var og spurður, ef hann hefir ekki gugnað. Sæm. Ey. segir að ef sá, sem kreystur er, gefist upp, kannist hann við það að Nípa gefi hinum flot og flautir, en sér sjálfum skít og skófir.

Björn læknir Ólafsson segir að stundum segi sá, sem stendur fyrir svörum: Skán og skófir og alt það sem bezt er í keri kellíngar, og verði sá sem spyr venjulega svo uppveðraður við það, að hann herði ekki á takinu.[8]

Til eru tvær þulur um leik þenna, og sýnir það meðal annars, hve mikils hann hafi verið metinn. Þulurnar gefa ýmsar bendíngar um bústað Nípu o. s. frv., sem eg veit ekki til að séu kunnar nú, og set eg þær því hér.

---

[1] sér. J. Árn.

[2] Aðrir: Skyr og rjóma. — Graut og flautir. Þ. Þ. Hún gefur mér flot og flautir og alt það sem bezt er í koti kellingar. Sæm. Ey.

[3] Aðrir: skúm. — skarn. Þ. Þ.

[4] Skófir, skít og skóbætur. J. Árn.

[5] Aðrir: kollu, koti. G. Magn., Sæm. Ey.

[6] Sleppa G. Magn. og J. Árn.

[7] Gefur hún mér það. Sæm. Ey.

[8] Í Danmörku tíðkast Nípuleikur, ekki síður en í Svíþjóð. Þar er Nípa látin heita »Vibe« (vepja). Barn er látið standa fyrir svörum, en móðir þess spyrja, svo sjaldan verður víst mikið úr kreystíngunni. Danska þulan er miklu styttri en sú íslenzka. Sbr. Ride, ride Ranke. Hjörring. 1858; bls. 18.

Af annari þulunni hefi eg við höndina fjórar útgáfur, og legg eg til grundvallar þá, sem er í Þórkötlu hinni meiri (Hrs. Bmfj. 633. 8vo). Hún r skrifuð skömmu eptir miðja 18. öld af Þorkatli lögréttumanni Jónssyni Hrauni í Grindavík. Tvær af hinum útgáfunum eru líka í Hrs. Bmfj. 08. 8vo. (A) og 605. 8vo. (B).[1] Þá þriðju (C) er mér ekki ljóst hvar eg fi feingið.

Nípukvæði.[2]

Ferjan kjalars fram skal gá,
með furðu lítinn reiða,
þó illa falli[3] lóðins[4] lá,
ef lýðir[5] [mig þess beiða.[6]
Þetta börnin þylja[7] og tjá,
þegar í nefið klípa:
»Hvar býr hún Nípa?«
[Róms um stræti keifar kná,
kvæða skeiðin, furðu rýr.
Þau segja[8]: »hún býr.«[9]
Af Óðins [feing[10] eg ei kann[11] fá
efnis mikinn[12] forðann.
»Hún býr fyrir norðan.«
[Eru því[13] kvæða efnin smá,
eptir af drykkju fjöðrum[14] varð.
»Hún býr fyrir norðan garð.«
[Þó nú[15] skemtan þrátt vill fá[16]
[Þiljan [prýdd[17] með Glasis bar.[18]
»Hvað gjörir hún þar?«
[Róms[19] þó grugg af[20] ræðu[21] rá
[riti'[22] eg[23] fyrir seggjum.
»Hún verpir eggjum.«
Sumir kveða sætum hjá
siðug[24] ljóð með fáheyrt lag.
»Hvað mörgum á dag?«
[Starfi því eg styggist frá,[25]

---

[1] Þorsteinn Þorsteinsson frá Upsum í Svarfaðardal hefir skrifað þetta handrit og Nípuþulurnar, eptir handriti Gunnlögs á Skuggabjörgum.

[2] Nípuþula eða Nípugæla B. [3] gángi A. [4] löndúngs A. Óðins C. [5] ýtar C. [6] skulu það heyra A. margir beiða B. [7] þeinkja A. [8] því að B. [9] frá [ vantar í A. [10] fylli B. [11] feingnum eg nam fá AC. [12] nokkurn B. lítinn C. [13] þau A, frá [ opt eru C. [14] Fjölnis B. [15] þæga A. [16] sjá C. [17] þjóðin hver A. [18] frá [ gulls með glósu' hún var C. [19] Leirs B. [20] Leirinn gruggar C. [21] frá [ Róms af brugga ræddu A. [22] rita A. [23] ritaða C. [24] samhent C. [25] Starfið fyrir eg styggist þá C.

strindin[1] gulls mig kælir.[2]
»[Menn segja[3] mæli[r].«
[Góma[4] veiði kænt að kljá
kann eg ekki máls um tún.
»Hvað gefur[5] hún?«[6]
Leiða[7] skal í[8] ljóða skrá,
ljóst svo verði[9] flestum.
»Hvað gefur hún gestum?«
(Sviplynd mjög [í sinnu krá[10]
[sýnist þeim[11] sem reisa um braut.
»Hún gefur þeim graut.«
Veit eg hún lætur víst útá,
svo vökvist[12] kverka lautir.
»Grautinn og flautir.«
[Kæri vinur[13] kynníng[14] ljá[15]
kostur hver[16] á borðið fer.
»Hvað gefur hún þér?«
Úr að leysa það[17] vill þjá,
[við þegna hvern sem eptir[18] spyr.[19]
»[Ei nema[20] skyr.«
Umbreytíng[21] þar ein er á,
allvel gjörð, með sóma.
»Skyrið og rjóma.«
[En hvað hún er blíð á brá,
með brauðið, ostinn. ket og smér
»og alt það sem bezt er.«[22]
Borðs þá [reist er búin slá,[23]
ber hún [þar á staðfult[24] trog.
»[Hún gefur[25] mér og.«
Sízt [mun hún[26] þig setja hjá,
svo þú ekki prófir
»Skúm[27] og skófir.«
[Lízt mér orðin lyndisgrá,

---

[1] ströndin ABC. [2] fælir AC. [3] Mjög fullan B. [4] Orna B, aðrir: Óma. [5] gjörir B. [6] frá [ vantar í AC. [7] leiðast A, lenda C. [8] af A. [9] yrði A. [10] í sinni grá A, á sinni brá B. Frá ( svipill bæði og sinnisgrá C. [11] segja þeir C. [12] vökni B, velgi C. [13] Kærir bræður A. [14] kenníng B, kunníngi C. [15] tjá B. [16] sá A, þegar C. [17] þrátt C. [18] að því A. [19] frá [ þegna hver sem eptir spyr B. [20] Eg meina [súrt skyr[a] A. [21] Aðgreiníng C. [22] bætir A inn í. [23] ekki er búið stjá A, Borð þá reisa búin er kná BC. [24] því næst kúfað C. [25] Mun hún gefa B. [26] þig gjörir B. [27] skarnið A.

[a] sleppir B, hún gefi mér skyr C.

þótt lofi hana flestir.
»[1]Alt það sem verst er.«[2]
[Hlýtur ræðan stofnuð stá[3]
[stirðan mæði[4] þvíngar[5]
[6]Í koppi[7] kellíngar
[8]— — — — —
Berlíngs[9] jó í naust eg brá,
með lyndi hollu.
[10]Í kellíngar kollu,
í kellíngar kollu.[11]

**Eptir að þetta** var skrifað, rak eg mig á 5. útgáfuna. **Hún er með hendi séra Páls** Erlendssonar († 1852) og svo að segja eins og B. **Séra Páll eignar hana** séra Hallgrími Péturssyni.[12] Auk þess kvað þula þessi **vera í Hrs.** J. S. 272. 4to. og ef til vill víðar.[13]

**Hina Nípuþuluna** hefi eg ekki rekið mig á annarsstaðar en í handriti **Þorsteins Þorsteinssonar** á Upsum (Hrs. Bmfj. 605. 8vo).

Hér skal Herjans hornaflóð
hýrum bjóða sprundum;
hefi' eg vitað fögur fljóð
fagna ljóðum stundum,
og borga þannig breyttan óð,
að bágt er að grípa.
»Hvar býr hún Nípa?«
Spurníng greiða fús kann fróð
falda hýrleg skorðan.
»Hún býr fyrir norðan.«
Sæmilega griðagóð,
— Glaðnis hlýðið feingum arð —,
»Fyrir norðan garð.«
Víst hún kann af sagnarsjóð
siðuglegt að greiða svar.
»Hvað gjörir hún þar?«
Þó að séu lasin ljóð,

[1] B bætir inn í: og. [2] frá [ sleppir A. [3] Lyktar þar mín ljóða skrá A. [4] mærðin B, mæða C. [5] frá [ loks með þær veitingar A. [6] A bætir framan við: Og alt það sem verst er, og endar á þessari línu. [7] kollu B. [8] Hér vantar í línu, en hún er svo í B: Rénar þannig ræðustjá, en: Ræmist, tæmist raustin sljá í C. [9] Regins B, Rögnis C. [10] C bætir framan við: Og alt það sem verst er. [11] sleppa BC.

[12] Útg. séra Páls er víst í sama nr. í hrs. A. M. og leikritgjörðir þeirra M. G. og G. E. Sbr. bls. 8. 2. nmgr.

[13] Eptir bendíngu séra Einars Friðgeirssonar.

ljóst er það seggjum,
»að hún verpir eggjum.«
Furðu lítinn fræða bjór
fékk eg á huga björgum.
»Verpir eggjum mörgum.«
Kólna tekur Kvásis blóð
kvæða hnignar bezta lag.
»Hvað mörgum á dag?«
Orða þá á stansi stóð,
storðin auðs mig kælir.
»Mjög fullan mæli[r].«
Bætir lítið bragar hnjóð,
bragsmíðið, hjá flestum.
»Hvað gefur hún gestum?«
Laungum sú af lyndismóð,
lætur blíða voma,
»þá að garði koma.«
Ekki spör á yndisglóð
öllum veitir sóma,
»skyrið og rjóma.«
Bist er sízt við broddarjóð.
bauga sú um ker.
»Hvað gefur hún mér?«
Rétta fátt það þótti þjóð,
þetta nú þótt prófir.
»Skyrið og skófir.«
Tekur að verða túngan móð,
tæmist raunin mesta.
»Alt það hið versta.«
Settan, breyttan saminn óð,
sagna magn mig þvíngar.
»Alt það sem verst er í koti kellíngar.«

Hvorki hefi eg séð né heyrt getið um höfund að þessari seinni þulu.

J. Ól. getur þess undir orðinu nípa, að nípa komi fyrir í barnaleik, þar sem fíngurnir séu kreystir. Hver veit nema þessi Nípu-raun hafi bitnað á fíngrunum, en ekki á nefinu á hans dögum?

**Að liggja á gólfi** eða **að liggja á sæng** er mjög skylt Nípuleik, og hnýti eg því því aptan við hann. Það kvað ekki vera neitt sældarbrauð að liggja á sæng í raun og veru, og svo er líka með þessa sængurlegu. Sveinki tekur utan um litlafíngurinn á Konsa, kreppir fremstu kjúkuna á honum, inn á við, og spyr um leið: »Hvað sagði hún móðir þín, þegar hún átti þig?« »Hún sagði pé (p)«, segir Konsi. Sveinki herðir á takinu og

spyr enn: »Sagði hún það?« Ef Konsi stendur við það sem hann sagði, kreystir Sveinki enn fastara og reynir yfir höfuð til að kreysta svo fast, að Konsi segi »æ«, því til þess er leikurinn gjörður. Konsi forðast því að hveinka sér í leingstu lög, en aptur má hann segja að móðir sín hafi sagt þorn (þ), ess (s) eða í og hvern staf sem vera skal, nema æ.[1]

**Tólfkóngaleikur.** Tveir leggja saman hendurnar á víxl, hverja ofan á aðra. Nú dregur sá sem höndina hefir neðst [hana út], leggur hana efst og segir: »einn«. Því næst dregur hinn út hönd sína, sem nú er neðst, leggur hana sömuleiðis ofaná og segir: »tveir«; og þannig geingur þessi handadráttur, þángað til tólf eru komnir. Þá segir sá sem nú á höndina undir efstu hendinni: »Heill og sæll kóngur minn«, því sá er kóngur, sem í tólfta sinn hefir höndina efst, »hvað á eg að gjöra í dag?« »Þú átt að fara í skorpinn skinnstakk, sem skrollir uppi' á bakinu, kattarrófu um hálsinn, hundsskinn á höfðinu, sjóskó[2] á fótunum, fara svo upp á gluggann og kveða sextánmælta vísu, eða sækja saumnál í hlandskál,[3] eða leysa víti þín á því, sem eg segi þér. En ef þú getur það ekki, skaltu fá níu nípínga[4], tíu klípínga, tólf pústra, högg á milli herðanna og selbita í ennið«; verður undirlægjan optari (!) að sæta þessari refsíngu.«

J. Ól. nefnir leik þenna tvisvar sinnum, og er auðsjeð að honum hefir ekki verið ljóst hvernig honum væri varið. Á öðrum staðnum segist hann halda að hann sé fólginn í því að tólf únglíngar látist vera kóngar, beri ráð sín saman og ræði röksamlega um landsins gagn og nauðsynjar. Á hinum staðnum segir hann aptur, að leikurinn sé alkunnur og heiti »at drage Handsker« á dönsku.

Í orðabók Guðmundar Ólafssonar[5] er leik þessum lýst þannig. Kóngur er valinn með hlutkesti. Hann skipar fyrir hvað gjöra skuli, og leggur ríkt á við þegna sína, að framkvæma skipanir sínar fljótt.

Loksins má geta þess að B. H. segir að tólfkóngaleikur sé »et Slags barnagtig Leg med Hænderne«, og kemur það heim við lýsingu séra Guðmundar.

Í þýðingunni á Crymogæa[6] er leikur þessi nefndur tólftúngaleikur öðru nafni, og er svo að sjá sem það nafn hafi verið tíðara en hitt, þegar þýðíngin var samin.

**Véfrétt Völu** eða **Völuspá**[7] er í raun réttri spá, en þó hefi eg ávalt

---

[1] Eptir handriti G. D.
[2] Sjóskinn. G. E. (J. Árn.).
[3] Sbr. að sverja nálareið í keitu.
[4] þ. e. klípi í nefið, G. E., og er öll þessi lýsing tekin eptir handriti hans.
[5] Hrs. Bmfj. 77 fol.; bls. 195.
[6] Ny kgl. Saml. 1281 fol.
[7] J. Árn.

vitað hennar leitað í skemtanar skyni, en ekki til að fá sannar sagnir, eins og þegar spil eru spurð eða lesið í lófa.

Maður tekur sauðarvölu, setur hana upp á höfuðið á sér og spyr hana að einhverju, sem mann fýsir að vita, en spurníngunum er hagað þannig, að svarið geti verið já eða nei. Að því búnu er formáli þessi hafður yfir:

»Upp er kryppa á völu minni.
Segðu mér það spákona mín,
sem eg spyr þig að.[1]
Eg skal með gullinu gleðja þig
og silfrinu seðja þig

og gefa þér [kóngsson og alt hans ríki,[2] ef þú segir mér satt, [en annars skal eg brenna þig á björtu báli.[3]« Því næst er valan látin detta fram af höfðinu niður á borð. Ef lautin kemur upp á henni, þegar hún stöðvast, svarar hún nei, en komi búngan upp, þá kveður valan já við spurníngunni. Ef hún fellur aptur á hliðina, þá veit hún ekki það sem spurt er um, eða segir: Þig varðar ekki um það. Optast er valan látin spá þrisvar, og hefi eg heyrt að ekki væri að marka fréttina nema henni bæri saman öll skiptin.

J. Árn. segir að sá sem geingur til fréttar við völuna, nuggi henni að eins um ennið á sér, áður en hann hefir yfir formálann og kasti henni svo úr hendi sér, til að sjá á hverri hliðinni hún nemur staðar.

J. Ól. minnist að eins á véfrétt Völu, þar sem hann talar um að getrast. Undir orðinu **vala** minnist hann líka stuttlega á spá þessa, og hefir formálann svona:

Segðu mer það, Vala,
er eg vil þig spyrja.

Eg hefi feingið blað frá J. Árn., skrifað eptir skólapiltum 1845, og dr. Hallgrími Scheving, þar sem gaman þetta er nefnt spákona mín. Það á eflaust rót sína að rekja til þess að spákonur voru nefndar völur eða völvur í gamla daga, eins og kunnugt er.

---

[1] Hér bætir J. Árn. inn í:

Opin ef þú lýgur,
aptur ef þú segir satt.
Verður það konan mín,
sem eg spyr þig um?

og er svo að sjá á því, sem valan hafi helzt verið spurð ráða í kvonbænamálum.

[2] Fríðan kóngsson. M. G.

[3] En ef þú lýgur, skal eg brenna þig í eldinum á morgun. M. G. — Aðrir hafa seinni hluta formálans þannig: Ef þú segir mér satt, skal eg láta þig ofan í rjómabyðuna, en ef þú lýgur, skal eg láta þig í keitukyrnuna. M. G. — Sumir bæta aptan við formálann: Upp er kryppa á völu minni ef hún segir satt, en niður ef hun lýgur (J. Árn.), og sleppa þeir þá líklega fyrstu línunni.

Önnur samskonar spá er til, sem valla er mörkuð, en að eins höfð til skemtunar. Ef einhver vill komast eptir, hve þessi ýngissveinn eða þessi ýngismær eigi að eiga mörg börn, þá er ekki annað en að taka í fíngurna á þeim, einu sinni í hvern fíngur, og telja saman í hve mörgum brestur. Börnin eiga að verða eins mörg og brestirnir[1]; lausaleiksbörnin segja aðrir.

**Að geta hve margar árar eru á borð.**[2] Strákastirtla er tekin og allur fiskurinn étinn og skafinn vandlega af dálkinum. Því næst er honum brugðið upp fyrir þeim, sem vill hætta til að geta hve margar álmur (ángiljur) eru á honum öðrum megin og sagt:

»[Gettu hve margar árar eru á borð.«[3]
»Til hvers er að vinna?«

spyr sá sem geta skal.

»Sess í skála,
sæng í baðstofu,
ketfat[4] [á borð,[5]
kopp á skör,
könnu á hyllu,

[fríða mey[6] fyrir ofan þig á hverri nóttu, ef þú vinnur, en ljóta, leiða, lánga og ófríða fyrir framan þig, ef þú tapar.[7] Nú spyr sá, sem ætlar að geta, hverjar stúlkurnar séu,[8] og er það ákveðið; er valin fríð stúlka og faunguleg, ef hann geti rétt, en hræmuleg herfiskrolla að öðrum kosti. Að því búnu er dálkinum brugðið upp einu sinni, tvisvar eða þrisvar, eptir því hvort

---

[1] Sbr. Þjóðs. J. Árn. I; bls. 621 (neðst). Þetta mun vera það sem Björn Haldórsson kallar í orðabók sinni að drepa einhverjum orm. Annars hefi eg ekki heyrt nokkurt nafn á spá þessari. Í Danmörku er sagt, að þessi og þessi eigi eins marga(r) kærustur (kærasta) og brestirnir eru margir. Thiele: Den danske Almues overtroiske Meninger. Kmh. 1860; bls. 72.

[2] Eptir sögn Þorsteins Erlíngssonar.

[3] Hvað eru margar árar á borð. G. D.
Gettu hve margar árar eru á borði
undir sporði. G. E.
Gettu margar árar á borði (sporði) eða
Eru margar árar á borði. J. Árn.
Hvað eru margar árar á bát. Bertel Þorleifsson.

[4] ketfall. Sæm. Ey.

[5] í kné. G. E. — í knjám þér. J. Árn.

[6] »og fallega« bæta sumir við.

[7] Ef stúlka getur, á hún að fá fríðan pilt fyrir framan sig, ef hún vinnur, en ljótan o. s. frv. fyrir ofan sig, ef hún tapar.
G. D. hefir frá [ karlmann (kvennmann) fyrir ofan og annan fyrir framan, á hverri nóttu sem þú vilt, en G. E.: fríða konu (karlmann) fyrir ofan og aðra fyrir framan.

[8] eða piltarnir, ef stúlkur geta.

dálkstykkið er lángt eða stutt, og getur sá sem geta skal, eptir því sem honum þykir líklegast, en bætir við töluna »og tvær [í innstað[1] hvort það er af eða á«. Hann getur t. d. upp á 12 og tveimur í innstað o. s. frv. og þýðir það einhverja tölu á milli 10 og 14. Þessa þýðingu hefir »í innstað« hver tala sem nefnd er. Ef rétt er getið, liggur fallega stúlkan laus og öll gæðin sem talin eru, en að öðrum kosti er ómögulegt að komast hjá herfiskrollunni. Bertel Þorleifsson stud. med. hefir heyrt annan formála við skemtan þessa, en kemur honum ekki fyrir sig. Þar er »hest á heyum« í staðinn fyrir »sess í skála«. J. Árn. segir að sumir kalli þetta giptíngaleik.

**Að geta króks og kríngs.** Eitt eyruggabeinið í þorskinum heitir krókur.[2] Það er örmjótt í annan endann en talsvert breiðara í hinn, og er svolítill krókur á honum. Í ýsunni heitir sama beinið kríngur, og er það alveg eins nema krókinn vantar.

Þegar blautur fiskur er skamtaður á Íslandi, ber það opt við að þorskur og ýsa eru soðin saman, og byggist gaman þetta á því. Sá sem finnur krók eða kríng á diski sínum, tekur hann í lófa sinn og segir svo við hvern sem verkast vill: »Hvort geturðu heldur króks eða kríngs?« Hinn spyr hvað við liggi, og koma þeir sér saman um það. Sögumaður minn[3] hefir optast vanizt, að svo og svo mörg Kristfisksstykki væru lögð undir.[4] Ef gátumaðurinn heldur að beinið sé krókur, segir hann:

Eg get króks
mér til hróss,[5]

en

Eg get kríngs
mér til ávinníngs,

---

[1] í eiðstaf. G. E. Hann segir að sá, sem getur, taki eina, tvær eða þrjár árar í eiðstaf. Sögumaður minn, Þ. Erl., segist líka hafa heyrt »í einsta«, og segir að hvorttveggja muni vera fyrir »í eins stað«. Sá sem getur megi ekki fela í tölunni, sem hann getur uppá, nema næstu tölu báðum megin við hana, en gömul venja heimili honum að taka tvær hvorum megin í staðinn fyrir þessa einu, og jafnvel þrjár þegar mjög margar álmur eru á dálkinum.

J. Árn hefir: eiðstaf minn. »Ekki þykir rétt að taka fleiri en eina í eiðstaf, ef ángiljurnar reynast ekki fullar 10, eða fleiri en tvær ef ekki reynast yfir 20, eða svo að fleiri séu árar í eiðstaf teknar en tugir eru til.« Eptir þessu virðist mega taka fleiri ángiljur í eiðstaf en þrjár.

[2] postclaviculare, á vísindamáli.

[3] Þorsteinn Erlíngsson.

[4] Svo eru smáflísar þær nefndar, sem blantir fiskvöðvar flísast sundur í. Þ. Erl. segist hafa heyrt að þau dragi nafn af því, að þegar Kristur mettaði fimm þúsundir manna, þá hafi hver feingið eina af þessum smáflísum, og eptir því eiga að vera þúsund Kristsfiskstykki í hverjum fiski.

[5] plógs. Séra Jón Ýngvaldsson. Hrs. Bmfj. 338. 4to; 325. 4to: bls. 333.

ef hann heldur að það sé kríngur. Sá, sem heldur á beininu, ber það nú upp að neðri vörinni. Ef það getur hángið á henni, þá er það krókur, en annars kríngur. Ef gátumaðurinn átti kollgátuna, fær hann það sem var lagt undir hjá þeim sem spurði, en annars verður hann að láta það af hendi við hann. Ef sá sem fyrst var spurður þorir ekki að geta, segir hann:

Eg get hvort, sem heldur er,
og gátubitann kýs eg mér,
en græðir ekkert á því, eins og eðlilegt er.

Krókurinn kemur líka fyrir við aðra skemtan, og hefi eg hana eptir handriti Jóns Sigurðssonar, en hann hafði eptir Sigurði Hansen.[1] Maður tekur krókinn og á að láta hann tolla á neðri vörinni á króknum og segja svo: Biti, biti, biskupsbiti, án þess hann detti, en fljótmæltur verður maður að vera, ef þetta á að lánast, enda segja heimildarmenn mínir að eptir því þyki betur takast sem maðurinn sé fljótmæltari.

**Skipagjöf**[2] eða **að gefa skip** er tíð skemtan einkum í rökkrum á vetrum, enda getur hún opt vakið hlátur og gaman. Skipagjöf er með tvennu móti.

Ef á að gefa einhverjum skip, þá er sagt við hann:

»Skip mitt er komið [að landi.«[3]
»Hvað á[4] það að færa?«

spyr sá sem á að verða fyrir gjöfinni.

»[Þrjár ýngisstúlkur[5] vænar, vænar.[6]

En Þorsteinn Erlíngsson hefir heyrt svarið þannig:

Epli og fíkjur
og þrjár fallegar píkur

eða

Epli og steina
og þrjá fallega sveina,

ef stúlka á að hljóta happið. »Hvert er nafn þeirra?« spyr þiggjandinn. Gefandinn nefnir fyrstu stafina í nöfnum einhverra þriggja kvenna. Hinn hugsar sig nú um stundarkorn og reynir til að hugsa sér, hverjar stúlkur skipeigandinn eigi við. Loksins segist hann taka einhverja, spásséra með annari og fleygja þeirri þriðju. Skipeigandinn segir nú frá því, hverjar

---

[1] Hrs. Sv. Grv.; nr. 66.
[2] skipkoma, blað frá J. Árn.
Að setja á skip. Sæm. Ey.
[3] sleppir, G. E.
[4] hefir. Þjóðólfur XII; bls. 69, 2. d.; G. E.
[5] þrjá ýngismenn væna, væna, ef stúlkum er gefið skipið.
[6] þrjár stúlkur vænar. Þjóð.; G. E.

stúlkur hann hafi átt við, og hittist þá opt svo á, að sá sem kaus hefir tekið þá, sem verst er í alla staði, enda er þá ekki hlífzt við að stríða honum.

Hin Skipagjöfin er alveg eins, framan af, nema sá sem á að kjósa spyr: »Hvernig eru þær í hátt?«[1] eða »Hvernig gánga þær klæddar?« Skipeigandinn lýsir þeim nú, en ekki þó greinilega, og telur það helzt til, sem hann heldur að hinn hafi ekki tekið eptir t. d. hárlit, skólit o. s. frv. Þegar skipeigandinn hefir lýst stúlkunum nógu vandlega, kýs hinn sér einhverja þeirra, en gjörir hinum lægra undir höfði, eins og áður er sagt. Ef sá sem kýs hefir grun um að stúlkurnar séu lángt að, eða honum þykir þeim vera of ógreinilega lýst, þá hefir hann leyfi til að spyrja að einni spurníngu, en sumir segja þremur.

Á blaði frá J. Árn. stendur, að sá (sú) sem á völina, segist vilja lifa og deya með þessari og þessari (þessum og þessum), verða þessari og þessari samferða, en fyrirlíta þá þriðju.

Lárus stúdent Árnason lætur skipgjafann nefna stúlkurnar eða lýsa þeim, eins og áður er sagt, en því næst hefir hann vanizt að hann spyrði þann sem skipið er gefið: »Með hverri (hverjum) viltu lifa og deya, útkasta eða spásséra?« Annars lýsir hann skipagjöfinni alveg eins og eg hefi gjört.

G. E. lýsir að eins seinni útgáfunni. Hann lætur þann sem kýs segja: »Eg vil lifa og deya með þessari og þessari, spásséra[2] með þessari og þessari og kasta þeirri sem eptir er.« Þess má geta að G. E. kallar gaman þetta og að geta hve margar árar eru á borði giptíngaleiki einu nafni.

**Að setja í horn** svipar til skipagjafar að því leyti, að það er mergurinn málsins að kalli og konu lendi saman. Tveir setja í horn, optast kall og kona Stúlkan hugsar sér fjóra kallmenn, og skipar hverjum þeirra í huganum í sitt horn á herberginu eða baðstofunni. Kallmaðurinn hugsar sér aptur fjórar konur og fer hann eins með þær. Því næst spyr stúlkan: »Hver er í þessu horni?« og bendir á eitthvert hornið. Pilturinn segir hverri konu hann hefir skipað þar. Þá kemur líka upp úr kafinu hverjum kallmanni hafi verið vísað þar til sætis. Svona geingur það með öll hornin og verður opt mikið gaman út úr öllu saman, því það er svo sem sjálfsagt, að kall sú og kona, sem eru í sama horninu, eiga að eiga vingott. Vissara þykir að þeir, sem setja í hornin, hvísli því að náúnganum hver sé í þessu og þessu horni, því annars er hætt við að skipt sé um.

Sæmundur Eyúlfsson lýsir skemtun þessari nokkuð öðruvísi: »Árni segir við Bjössa: Eg ætla að setja í horn fyrir þig. Ein stúlkan er í þessu horni, önnur í þessu horni og sú þriðja í þessu. Þú mátt kjósa hverja sem þú

[1] Sbr. Þjóð. XII o. s. frv. Sú útgáfa er eptir Guðbrand Vigfússon.

[2] gánga skemmtigáng (J. Árn.), en það er víst að eins þýðing á »at spadsere« og aldrei sagt.

vilt. Bjössi vill lifa og deya með einni stúlkunni, spásséra með annari, en kastar þeirri þriðju.«

Í sömu áttina er kellíngagjöf, ef svo má segja, því eg hefi, satt að segja, ekki heyrt nokkurt nafn á sið þeim, sem nú skal greina.

Únglíngar keppa opt um það, hvor þeirra verði fyrri á fætur á morgnana. Það er kallað að reyna sig. Þeir sem reyna sig, keppast við að klæða sig, sem mest þeir mega. Sá, sem fyr er kominn í öll fötin, hefir rétt til að eigna hinum kellíngar. »gefa honum kellíngar« optast þrjár, en stundum fleiri; velur hann ávalt þær sem hann þekkir ljótastar og afskræmilegastar, og verður hinn að láta sér það lynda. Ef stúlkur reyna sig, gefa þær hvor öðrum kallhrotur eins og eðlilegt er.

Hér þykir mér eðlilegast, að geta um sið einn, sem sumstaðar tíðkast í Norðurlandi, og ef til vill víðar, því þar er köllum og konum skipað saman eins og í næstu atriðum hér á undan. Siðurinn er sá, að skrifa á miða nöfn allra þeirra, sem koma á bæinn á jólaföstunni. Einginn er skilinn undan, hvorki úngur né gamall, fríður né ófríður, kall né kona. Á aðfángadagskvöld er miðunum skipt í tvent; eru kallmannanöfnin sér og kvennmannanöfnin sér. Því næst eru miðarnir lagðir á borð, þannig að að nöfnin snúa niður, og draga kallmenn kvennnafnamiðana, en konur kallnafnamiðana. Einginn vill fá miða þá, sem kallar og kellíngar eru skrifaðar á, í sinn hlut, en einhverjir verða að sitja uppi með þær, og er ekki sparað að skopast að þeim og stríða þeim, sem hafa orðið fyrir því óláni.

Enn eru tvær smáskemtanir, þar sem það er mergurinn málsins að vera stiltur og þolinmóður, annað er að horfast í augu en hitt alur í vegg.

Ef einhverjir tveir menn hafa komið sér saman um að horfast í augu, hefir annarhvor yfir formála þenna:

[Horfumst við[1] í augu,
sem[2] grámyglur tvær.
Það[3] skal vera [músin sem mælir.
[kötturinn sem sig[4] skælir,
fíflið[5] sem fyrri hlær,
folaldið[6] sem fyrri lítur undan,
og skrímslið, sem [skín í hvítar[7] tennurnar.

[1] Horfast í augu. J. Ól. [2] sleppir J. Ól. [3] Sá S. heim. [4] folaldið sem. S. heim. [5] kötturinn. S. heim. [6] fíflið. S. heim. [7] skína lætur í, Björn Ólafsson læknir. J. Ól. sleppir seinustu línunni. Línuröðin er annars öðruvísi hjá honum. 5. lína hér í staðinn fyrir seinni hluta af 3. línunni frá [. Þá kemur hann. Úr Borgarfirði hefi eg feingið útgáfu, sem er mjög lík útg. J. Ól.

Um leið og hann sleppir orðinu, lítur hann til hins og þeir hvor á anı einblína þeir nú hvor á annan, svo leingi sem vera skal, og má hvorı láta sér verða það á, sem nefnt er í formálanum, því þá er hann ı köttur o. s. frv. Eins og við er að búast forðast báðir að láta sér fa svo leingi sem auðið er, og geta menn því horfzt í augu lánga lei Það segir sig sjálft, að hvorugur leikmanna má beita nokkrum brögð til að rugla hinn í reikníngunum.

Ekki þarf síður að halda á þolinmæði við al í vegg en að horfa augu, og það því fremur sem skemtan þessi er enn fáfeingilegri. T eigast við. Annar segir:

»Alur í vegg
[úti' er hregg.[1]

Hefirðu heyrt það fyrri?«

»Hefir þú heyrt það fyrri?« svarar hinn. Sá sem byrjaði svarar ł sama, og svo koll af kolli, þángað til annarhvor gefst upp og svarar hverju öðru en »Hefirðu heyrt það fyrri«, en það gjörir hvorugur, fyr seinustu lög, því alurinn stendur í rassinum á þeim, sem brá útaf.

Mér hefir komið til hugar, að þetta uppátæki ætti ef til vill skylt söguna um Helgu kallsdóttur, sem stakk alnum í vegginn, áður en flýði frá föður sínum, og játaði alurinn fyrir hana.[2] Þó er mér ekki l nokkurt samband milli sögunnar og alur í vegg. Til er líka málsh urinn: »Hér er eg, kvað alr í vegg.«[3]

Eins þarf sá á aðgætni að halda, sem skýrir frá því, hvað hann gj við peníngana, sem frúin í Hamborg gaf honum. Tveir leika. Aı spyr hinn: »Hvað gjörðirðu við peníngana, sem frúin[4] í Hamborg gaf og sagði að þú mættir kaupa alt fyrir þá nema já og nei, ójá og ónei Hinn svarar uppá spurnínguna því sem honum lízt. Sá sem byrjaði he áfram að spyrja, en hagar spurníngunum þannig, að hinn eigi ervitt að komast hjá því að segja já og nei, ójá og ónei. En það má svaram ekki með nokkru móti. Aptur má hann segja alt annað. Nú er sv manni ómögulegt að komast hjá því til leingdar, að játa og neita, og gj hann það með sérstökum orðatiltækjum, svo sem: »einmitt það«, »jiríj »víst er svo«, »svo er nú það«, »þú átt kollgátuna« eða þá »fjarri fer | og »fari það« o. s. frv. Þessi samræða stendur opt mjög leingi, því ir hana má flétta alt mögulegt, ef svaramaður hleypur ekki á sig. En op verður honum það á, þegar fram í sækir. að segja já, nei, ójá eða ó

[1] Stendur stegg. Á. Beinteinn Gíslason.
[2] Þjóðs. J. Árn. II; bls. 413—414.
[3] Guðmundur Jónsson: Safn af íslenzkum orðskviðum. Kmh. 1830.
[4] drottníngin. Gísli Brynjúlfsson cand. med.
[5] jú og ójú, bætir G. D. við.

missir hann þá alt féð, sem frúin gaf honum, og leikurinn hættir. Stundum hættir líka leikurinn við það, að peníngamaðurinn segir seint og síðar meir, að hann hafi nú keypt fyrir alla peníngana, sem frúin hafi gefið sér. Eg hefi feingið dálítið öðruvísi útgáfu af þulu þessari úr Borgarfirði frá húsfrú Þórunni konu séra Jónasar Jónassonar. Þar byrjar sá, sem eg hefi vanizt að alt af stæði fyrir svörum, og segir: Hvað á eg að gjöra við það, sem drottníngin í Hamborg sendi mér? Þá svarar hinn: Þú mátt kaupa þér alt fyrir það, nema bara segja já og nei o. s. frv., eins og þegar er sagt.

Líklegt þykir mér að leikur þessi sé eptirstöðvar af verzlun Þjóðverja við Íslendinga í gamla daga.[1]

Náskylt gamni þessu er: **Kóngurinn af Spanía er dauður.** Einhver kemur til annars manns og segir þetta. Sá sem við er talað segir venjulega: »Nú er hann dauður kallfuglinn?« Úr þessu er hver sjálfráður hvað hann segir, en hvorugur má segja já eða nei, ójá eða ónei, og fer sá halloka, sem verður fyrri til þess.

**Alt mitt dót.**[2] Svo margir geta verið í leik þessum sem vilja. Einn gengur um gólf. Hann er frúin. Hinir eru föt hennar eða fjármunir og sitja þeir allir. Frúin nefnir þá ýmsum nöfnum. Einn er húfa, annar skór, þriðji lúsakambur o. s. frv. Þegar frúin kallar á einhvern, á hann að standa

---

[1] Sbr. þuluna eða kvæðið:

Til Hamborgar ætla' eg mér að ríða í dag.

Leikur þessi er til í Danmörku (Ride, ride Ranke. Hjörring 1858; bls. 45—46) og er pantaleikur. Ef þeim, sem stendur fyrir svörum, verður það á að segja já eða nei, þá lætur hann af hendi pant. Ekki er þess getið að »frúin« sé frá Hamborg í danska leiknum. Ekki heldur í Samling af Julelege. Kmh. 1843; bls. 14, Selskabsmanden. Kmh. 1876: bls. 4—5, Den uudtømmelige Spøgemester. Udg. af C. F. Severin. Kmh. 1821; bls. 103—104, né: Samling af Julelege. Udg. af Werfel. III. Udg. Kmh.; bls. 54. Á tveimur seinustu stöðunum heitir leikurinn »Ja og Nei«. Það kemur fyrir í fleiri dönskum leikjum, að hvorki má segja já né nei, t. d. í »Fiskerlegen«, sem lýst er í tveimur seinustu bókunum, sem nefndar hafa verið; bls. 95-6 og 46-7. Sami leikurinn tíðkast á Einglandi eins og sést á Drengenes egen Bog. Kmh. 1868; bls. 37, sem þýdd er úr ensku.

[2] Eg hefi reyndar grun á því, að leikur þessi sé beinlínis útlendur, þar sem hann er nokkurskonar pantaleikur. Þó tek eg lýsingu af honum upp í safn þetta, því hann var leikinn upp til sveita í úngdæmi mínu, meira að segja á afskektum útkjálka. Eg hefi rekið mig á danskar útgáfur af skemtan þessari í Samling af Julelege. 1843; bls. 15—16 og 50 Selskabslege. Kmh. 1873; bls. 14—15. Báðar þessar útgáfur eru þó talsvert ólíkar þeirri, sem tíðkast hjá okkur, og á seinni staðnum er leikurinn ekki einusinni pantaleikur. Þar heitir hann: Fruens Natbord. Hjá Werfel heitir hann: Natbordet (bls. 77). Severin hefir tvær útgáfur (bls. 118-19 og 123-4). Í Samling af Julelege. Kmh. 1796 heitir hann Toilettet (bls. 14—15).

upp sem snarast. Stundum kallar hún á marga í einu og eiga þá allir þeir, sem hún nefnir, að standa fljótt upp, en láta af hendi pant að öðrum kosti, eða einhvern þekkjanlegan mun og hirðir einn leikmanna þá. Þegar frúin segir: »Alt mitt dót«, eiga allir að standa upp, en þeir afhenda pant sem sitja. Þegar frúin segir aptur »alt mitt«, þá eiga allir að sitja sem fastast, og lætur sá pant, sem stendur upp. Eins verða þeir að láta pant, sem standa upp án þess frúin kalli á þá.

Þegar frúnni þykir tími til kominn, hættir hún gólfgaungu sinni og ávörpum; er þá farið að dæma þá sem eiga pantana. Pantavörðurinn heldur svo á þeim, að þeir sjást ekki, og spyr: »Hvað á sá að gjöra, sem á þetta?« Frúin dæmir fyrst, en úr því dæma þeir, sem voru dæmdir næst áður, og er öllum dómunum fylgt fram þegar í stað, ef mögulegt er.

**Að kjósa mann úr miðri sveit.** Þrír eru í leiknum. Einn kýs sér, stúlku ef það er kallmaður, en pilt, ef það er kona. Annar spyr, og á sá sem kýs að segja honum (henni), hvern (hverja) hann hafi kosið. Sá þriðji getur upp á. Spyrjandinn færir giptíngu kjósandans í tal við þann, sem á að geta upp á. Hann segir t. d.: »Hefirðu heyrt, að hann N. N. ætlar að fara að gipta sig?« »Eg veit ekki af því heldur en dauða mínum.« »Þú veizt þá náttúrlega ekki hver á að verða fyrir láninu.« »Því er nú ver, en ætli það væri ekki mögulegt að hafa upp á því með góðu móti?« »Hver veit?« segir spyrjandi, »þú getur reynt það.« Því næst telur hann upp fyrir hinum hverja stúlkuna eða hvern kallmannin á fætur öðrum og neitar hinn alt af, þángað til hann getur upp á þeirri, sem kjósandi hafði hvíslað að spyrjanda.

Kjósandi verður opt meinahissa, því það bregzt ekki að stúlkan komi í leitirnar, og það opt mjög fljótt. Gátumaðurinn getur jafnvel sagt fyrir, að hann skuli eiga kollgátuna í t. d. þriðja eða fjórða skipti. Spyrjandinn og gátumaðurinn hafa nefnilega komið sér saman um, áður en leikurinn byrjaði, að nefna einhverja vissa stúlku, næst á undan þeirri, sem kjósandi nefndi til.[1] Optast er höfð einhver stúlka til vara, ef kjósandi skyldi kjósa þá, sem til var nefnd.[2]

G. E. nefnir að vita hvað annar hugsar og að þekkja á hverjum af þremur hlutum hafi verið tekið. Sjálfsagt eru svipuð brögð í tafli við hvorttveggja þetta og við að kjósa mann úr miðri sveit.

[1] Sama bragð kemur fyrir í dönskum leik, »Aanden Markus«. Spøgemesteren. Kmh. 1866; bls. 42.

[2] Eptir handriti G. D.

## 2. GREIN.

### LOTULEINGDARKAPP.

Orð þetta er ekki heppilegt, en eg finn ekkert betra í svipinn. J. Árn. nefnir sumar af romsum þeim, sem fara hér á eptir andartaksþulur, og má færa það til sanns vegar, en romsurnar sjálfar eru þó ekki merguriun málsins, heldur andarteppan, eða sú list að halda andanum niðri í sér, og því eru romsurnar stundum kallaðar andarteppuþulur. Eg hefi líka tekið til bragðs að hnýta ýmsum smáskemtunum hér aptan í, þótt þær snerti ekki lotuleingd og séu ekkert keppikefli. Þær eiga fult svo vel heima hér og annarsstaðar í safni þessu, en »einhversstaðar verða vondir að vera«.

Lítið er úngs manns gaman, segir máltækið, og sannast það á skemtan þeirri, sem nú skal greina, því það er mjög ósennilegt, að nokkrum geti þótt gaman, að halda niðri í sér andanum, leingur en góðu hófi gegnir. Þetta er þó opt brallað og þykir ekki svo lítið í það varið, að geta verið sem lotuleingstur, þegar svo ber undir.

Það er til sandur af orðum og klausum bæði í óbundnu máli og bundnu, sem maður á að hafa yfir, svo og svo opt, í einu andartaki. Misjafnt er hve opt á að hafa þetta yfir í lotunni, og fer það nokkuð eptir leingdinni, eins og eðlilegt er.

Flest einstöku orðin á að hafa yfir 100 sinnum, en þau sem eg hefi heyrt af þeim, eru svoleiðis úr garði gjörð, að það hlýðir ekki að færa þau hér til. Það er ætlast til að þau heyrist ekki sjálf heldur verði önnur orð úr þeim í framburðinum, við það að lotulánguriun ber eins óðan á og hann getur. Eitt orð er það þó, sem mögulegt er að færa hér til. Bertel Þorleifsson stud. med. hefir sagt mér, að hann hafi heyrt orðið snarkríngla·[1] haft yfir 50 sinnum í andartaki, og þótti vel gjört, en ekki máttu lotulángnum fipast.

Sumar klausur á líka að segja 50 sinnum í andartakinu, svo sem: Eitt ber í kopp, en þó á að breyta tölunni og segja næst: 2 ber í kopp o. s. frv., alt upp að 50.

Önnur klausa er svipuð:

Faðir minn átti
fimtíu geitur;
[skyldi' eg þær allar
á eitt band binda[2];

[1] Sbr. blýkrínglnna, sem strax verður getið um.

[2] allar bundnar
í einu bandi.
Séra Jón Ýngvaldsson á blaði frá J. Árn. Sæmundur Eyúlfsson hefir líka

batt eg eina, batt eg tvær,
batt eg eina, batt eg þrjár

o. s. frv. upp að 14, en næst er sagt: batt eg 15 o. s. frv. upp að 50.[1]

Björn læknir Ólafsson hefir vanizt að á eptir fjórum fyrstu línunum væri sagt:

batt eg eina, batt eg tvær, batt eg þrjár í bandi,
batt eg fjórar, batt eg fimm, batt eg sex í bandi

o. s. frv. upp að tuttugu og einni.

»Vatnsbali' á velli« á líka að segja 50 sinnum en »Fló, lús, fluga, færilús« 14 sinnum. Lárus Árnason segir mér, að hann hafi heyrt Vestmanneyínga segja: Ein bóla á túngu minni, eingin á morgun,[2] tvær bólur á túngu minni, eingin á morgun o. s. frv. upp að 20, í einu andartaki. J. Árn. segir (í handriti) að á eptir »tuttugu bólur á túngu minni, eingin á morgun«, eigi að segja: nítján bólur á túngu minni, eingin á morgun o. s. frv. niður að: ein bóla á túngu minni, eingin á morgun, alt í sama andartakinu.

Flestar klausurnar á aptur að segja sjö sinnum[3] og hefir þá lotulángurinn formála þenna yfir, á undan þeim: »Sá er hvorki blestur né holgóma, sem segir þetta sjö sinnum, milli þess hann andar,« en sjálfar eru klausurnar optast svo flóknar og staglsamar, sem auðið er, svo að mönnum verði sem hættast við að flaska á framburði þeirra, en það má lotulángurinn ekki.

Eg hefi þessar klausur í óbundnu máli:

Vestan undir bláflá vex ein lifrauð reyniviðarhrísla.

Ein væn, lifrauð, laufgræn reyniviðarhrísla, stendur í miðjum Vaglaskógi.[4]

Eða Ein væn, græn, kæn, laufrauð reyniviðarhrísla.[5]

---

heyrt þetta svona: Karl átti sér fimtán geitur og bað mig þær allar á eitt band að binda. Batt eg eina, batt eg tvær, o. s. frv. upp að 15.

[1] Aðrir hætta fyrri talníngunni við 10 og segja næst: batt eg 11, batt eg 12 o. s. frv. J. Ýngv. telur venjulega, þegar frá upphafi: batt eg eina, batt eg 2, batt eg 3 o. s. frv. Jón Sigurðsson hefir aptur:

batt eg eina, batt eg tvær,
batt eg eina, batt eg þrjár,

o. s. frv. alt upp að 50.[a] Seinast verður þá:

batt eg eina, batt eg fimtíu.

Sumir segja að eigi að telja svo lángt sem auðið er.

[2] Sbr. Þjóðs. J. Árn. II; bls. 553.

[3] eða tólf sinnum. J. Ýngv. — eða níu sinnum. Jón Sig., Sæm. Ey.

[4] Eptir hdr. G. D.

[5] J. Sig. Hrs. Sv. Grv.; nr. 66. Til er þulukorn, sem stendur auðsjáanlega í einhverju sambandi við ummæli þessi:

Kantu að nefna steininn bífífil?
[Þar vex upp úr hár, flár

[a] Hrs. Sv. Grv.; nr. 66.

Einu sinni brotin, brotin blýkríngla; tvisvar sinnum brotin, brotin blýkríngla. G. D. hefir að eins heyrt: »Brend og brotin blýkríngla«, en Steingrímur stúdent Stefánsson hefir vanizt klausunni þannig: »Sá hefir hvorki blest mál né er holgóma, sem getur sagt þrisvar sinnum þríbrotna blýkrínglu,« og er þá formálinn skeyttur aptan við klausuna sjálfa.

Í bundnu máli hefi eg heyrt þessar:

Refur skauzt[1] ofan fyrir bakka;
hafði[2] [hvítt, sítt,[3] nýtt, hnýtt[4]
[afarloðið ólarreipi[5] í[6] hnakka.

Björn læknir Ólafsson hefir heyrt þetta svona:

Sá eg renna ref eptir bakka,
upp fyrir bakka
og ofan fyrir bakka,
með nýtt, hnýtt, hvítt
loðið leðurskinn í hnakka.
[Legðu[7] saltan[8] laxfisk[9]
uppá biskupsdisk[10]
og hnífana[11] með.[12]

---

flögurár úr skógi;[a]
þar vex upp úr ein hrein,
rauð, rauð,
lifrauð[b]
reyniviðarhrísla,
blautt, blautt barnabrauð,
allra brauða blautast,
rautt, rautt reyniviðarlauf,
allra laufa rauðast.

Eptir Margréti prestkonu Magnúsdóttur á Snæfjöllum. Komið til »Det kongel. nord. Oldskrift-Selsk.« frá séra Jóni Eyólfssyni á Stað í Aðalvík (Hrs. Sv. Grv. 67).

[1] hljóp. J. Ól.

[2] með eitt. J. Sig. (Hrs. Sv. Grv.; 66).

[3] rautt, hvítt. J. Ýngv. (J. Árn.).

[4] Frá [ nýtt, hnýtt,[c] rautt, blautt. J. Sig. — hvítt, nýtt, strítt. Sæm. Ey.

[5] Loðið leðurreipi. J. Ól., J. Ýngv., J. Sig. — Ólar-loðið leður-reipi. J. Árn. — Loðið leður-ólar-reipi. Sæm. Ey.

[6] um. J. Ól.

[7] Láttu. J. Sig.

[8] Aðrir: feitan eða heitan. — saltaðan. J. Ól.

[9] Frá [ Taktu steiktan laxfisk og legðu. J. Sig.

[10] Aðrir bæta inn í: gaffalinn.

[11] hnífinn. J. Sig.

[12] J. Ýngv. hefir þetta þannig: [Sá er hvorki blestur né holgóma, sem getur

[a] *sem stendur fram á bláfiá* (J. Árn.).

[b] *laufgræn. Sama heim.* Annars er þulan miklum mun styttri hjá J. Árn.

[c] *J. Ól. bætir hér við:* hvítt.

Aðrir blanda blýkrínguluromsunni saman við þessa laxromsu og segja: »Einbrotin blýkríngla uppá biskupsdiskinn«[1] svo opt sem þeir geta eða þá: Einbrotin blýkríngla uppá biskupsdisk og hnífinn með, tvíbrotin blýkríngla uppá biskupsdisk og hnífinn með o. s. frv.[1]

Fluga flaug á vegg upp,
þaðan og á gólf fram.
Hvað fann?
Fluga fann
hárautt, lifrautt
laufblað í ösku.[2]

Taktu askinn þann óflatvaxnasta
og mjólkaðu í hann ána [þá móstuttulluðustu.[3]

Af þulu þessari færir Jón Sigurðsson til tvær útgáfur,[4] aðra eptir Magnúsi Gíslasyni á Villíngavatni 1859:

Takið þið askinn
óflatvaxinn,
mjólkið þið ána
ósturluðustu.

Hin er svona:

Taktu ána þá allra óflatvöxnustu
og mjólkaðu í askinn þann allra óflatvaxnasta.

Stebbi stóð á ströndu
og var að troða strý[5].
strý [tróð hann[6] Stebbi,
og Stebbi treður strý.

---

sagt[a] sjö (tólf) sinnum saltaðan laxfisk, lagðan uppá biskupsdisk og hnífinn með. En J. Sig. segir, að maður eigi að hafa klausuna svo opt yfir í einu andartaki, sem unt er.

[1] J. Sig.

[2] Eptir hdr. G. D.

[3] móflekkóttu, stuttulluðustu. J. Ýngv. (J. Árn.).
Sumir skjóta inn í þessa klausu »arna, þann« og »arna þá« á undan tveimur seinustu orðunum í báðum hendíngunum.

[4] Hrs. Sv. Grv.; 66.

[5] eða trí. J. Ól. Annars bætir Jón tveimur línum inn í á eptir þessari:
þó var [eigi strýið (tríið)[b] troðnara,
þótt Stebbi træði strý.

[6] treður. J. Ól.

a Sömu ummælin eru til á jótsku við samskonar þulu:
Æn er hwarken lesp eller stam,
der kan føhr si Taal ret fram
o sej:
o. s. frv. Gamle danske Minder i Folkemunde. Kmh. 1854; bls. 76.

b eða strý at.

**Björn læknir Ólafsson** hefir heyrt þetta þannig:

Stebbi stóð á Ströndum
og átti að troða strý;
strý var ekki troðið,
nema Stebbi træði strý.
Þrítreður Stebbi strý.

Eg skal gefa þér hrínginn þann hinn rauða,
ef þú segir sjö sinnum bauga, bauga.
Hrínginn þann hinn rauða.[1]

**Aðrir segja:**

Nefndu svo einu sinni bauga, bauga,
hrínginn þann hinn rauða.
Nefndu svo tvisvar sinnum bauga, bauga,
hrínginn þann hinn rauða.

o. s. frv. alt upp að tólf sinnum.[2]

Enn hefi eg heyrt vísu, sem á að hafa yfir sjö sinnum í andartaki, og er hún svona:

Sat eg á súð og elti[3] húð,
opt í votu veðri;
rakaði' eg rú af rauðri kú,
með rauðu, loðnu leðri.[4]

---

[1] J. Ýngv. bætir hér framan við sama formálanum og hann skeytir við »legðu saltan laxfisk«.

[2] J. Sig. hefir þulu þessa þannig:

Sá skal eiga bauga, bauga, hrínginn rauða,
sem að nefnir tólf sinnum bauga, bauga, hrínginn rauða.
Einu sinni bauga, bauga, hrínginn rauða.
Tvisvar sinnum bauga, bauga, hrínginn rauða o. s. frv.

»og á að hafa alt í andartaki, formálann og svo ummælin sjálf 12 sinnum.«

Í Borgarfirði er þetta aptur haft talsvert öðruvísi. Lotulángurinn hríngsnýr hríslukvisti með eld í endanum og segir svo opt sem hægt er í einu andartaki:

Einu sinni bauga, bauga,
hrínginn þann hinn rauða, rauða;
tvisvar[a] bauga, bauga,
hrínginn rauða, rauða o. s. frv.

[3] risti. J. Ýngv. (J. Arn.).

[4] Á dönsku eru til flóknar romsur, svipaðar sumum af þeim, sem færðar hafa verið til, en ekki hefi eg rekið mig á að ætti að hafa þær svo og svo opt yfir í andartaki. Þær eru ýmist kallaðar Pludderlegen (Spøgemesteren. Kmh. 1866; bls. 69—70), og þar er sagt að menn eigi að hafa þær fljótt yfir, 4—10 sinnum, hvað eptir annað, og láta pant af hendi, ef mönnum fipist. Í Den uudtømmelige Spøgemester. Udg. af C. F. Severin. Kmh. 1821, eru þær kallaðar »Øvelse i at

a. öðru sinni. Sam. Ey.

Loksins er til vísunefna þessi:

Sjö sinnum, það sagt er mér,
sýngi þetta versið hver;
þeim skal eg gefa
sjö tunnur rauðagulls.

Ekki er vísa þessi betri en fyrri vísan. og er það þó furðanlegt, því góður er að henni nauturinn, nefnilega djöfullinn sjálfur. Sagan segir, að kölski hafi komið þar að, er menn voru að reyna, hve þeir gætu verið lotulángir og heitið launum þeim, sem nefnd eru seinast í vísunni, ef hún væri súngin sjö sinnum í andartaki, þannig að hver vísa væri altaf byrjuð einni nótu hærra en næsta vísa á undan.

G. D. segir, að það eigi að kveða vísuna sjö sinnum, hvað eptir annað, þannig að hver vísa sé byrjuð á sömu nótu og seinasta vísa endaði á[1], en ekki þurfi kvæðaskapurinn að fara allur fram í sama andartaki. Eg hefi feingið nótur til að kveða vísuna eptir frá bróður mínum, og eru þær á þessa leið:
















tale hurtig» (bls. 241—43) og sagt að megi gjöra þær að pantaleikjum. Til dæmis má taka þessar romsur úr seinni bókinni: «Skjærsliberen sliber Skjæreknive til at skjære Skjærehavre med paa Slibestenen», og «Mellermester Meller! Mal mig min Mellepose Mel. Min Moders Moster Maren maler da Melboller mig.»

[1] o. s. frv. í 7 tóntegundum alls, þannig, að hver endanóta verður «qvint» í næstu tóntegund.



1. Sjö sinnum það sagt er mér, sýng-i þett - a vers- ið hver;



þeim skal eg gef - a sjö tunnur rauð-a-gulls!



2. Sjö sinnum það sagt er mér sýng - i þett - a vers-ið hver;



þeim skal eg gef - a sjö tunnur rauð-a-gulls!



3. Sjö sinnum það sagt er mér

Seinni útgáfan af laginu var súngin í Bessastaðaskóla og komust fæstir það til enda, þótt þeir byrjuðu »niður í gori«, eða svo lágt sem þeir gátu. »Mig minnir þeir einir kæmust það: séra Arngrímur Haldórsson,[1] séra Magnús Hákonarson og séra Jón Reykjalín,«[2] skrifar Páll Melsteð mér.

Stundum æfa únglíngar sig á því að telja aptur á bak, og er það nokkuð í áttina til þess, sem áður er sagt. Sjaldan er byrjað á hærri tölu en 20, en þaðan á að telja niður að einum, 20, 19, 18, 17 o. s. frv., og optast er bætt »einginn« aptan við 1.

Skyld þessum skemtunum er vísan:

Kráka sat á kvisti;  
[ól hún egg[3] og misti,  
ól hún tvö, ól hún þrjú.  
fimtán eru nú.[4]

---

[1] Prestur að Bægisá, † 1863.

[2] Prestur að Þaunglabakka.

[3] eitt. J. Árn.

[4] Frá [ »og sagði colon eitt, colon tvö o. s. frv.« J. Ól. við kráka.

Þetta kólon er við liði enn í dag. Björn læknir Ólafsson hefir heyrt:

Kólon eitt og misti,  
kólon tvö, kólon þrjú o. s. frv.

Í Danmörku tíðkast sama skemtanin, en sá er munurinn, að þar stryka

Meðan maður mælir vísu þessa fram, á maður að skrifa eða kríta 15 stryk, og mega þau hvorki vera fleiri né færri, þegar vísan er á enda.

Hér þykir mér líka réttast, að geta um varastafaklausuna, ef svo má segja. Hún er þannig:

N e f n d u s v o [m j ö ð m o g m j a ð m a r b e i n
og[1] spaks manns[2] spjarir,
að ekki[3] komi saman á þér varir.

Þetta á að bera svo fram, að varirnar á manni komi ekki saman, og er ekki hlaupið að því.

J. Sig. hefir þetta þannig:

N e f n d u s v o s p a k s m a n n s s p j a r i r,
að hvergi komi saman á þér varir,
og svo skýrt og skiljanlega
eins og Hest-Nefs-Refs kellíng
mælti við Hest-Nef-Ref son sinn,
í Hest-Nefs-Refsfirði.[4]

Enn er til saga, sem stendur í sambandi við lotuleingdina, og set eg hana því hér, eins og Sæmundur stúdent Eyúlfsson hefir skrifað mér hana. »Einu sinni var kall og kellíng í koti sínu. Þau áttu sér einn kálf. Einu sinni var kálfinum hleypt út til þess að viðra sig, og fór alt vel fyrst. Kussi hljóp leingi vel um allar tríssur, og undi sér vel í góða veðrinu, en þegar minnst varði, steyptist hann á hausinn niður í dý, svo að ekkert stóð upp úr nema róan. Kellíngin hafði séð ófarir kálfsins. Hún hljóp að dýinu, greip í róuna og ætlaði að draga kálfinn upp úr, en ekki gekk róan. »Það vildi eg, að kallinn minn væri kominn,« sagði kellíngin. Þá kom kallinn og togaði í kellínguna, kellíngin í róuna, en ekki gekk róan. »Það vildi eg, að hann Einbjörn minn væri kominn,« sagði kallinn. Þá kom Einbjörn og togaði í kallinn, kallinn í kellínguna, kellíngin í róuna, en ekki gekk róan. »Það vildi eg, að hann Tvíbjörn minn væri kominn,« sagði Einbjörn. Þá kom Tvíbjörn og togaði í Einbjörn, Einbjörn í kallinn, kallinn í kellínguna, kellíngin í róuna, en ekki gekk róan. »Það vildi eg, að hann Þríbjörn minn

margir í einu, og ef strykin eru fleiri eða færri hjá einhverjum en þau eiga að vera, þá verður sá að láta af hendi pant. Sbr. Børnenes Musik, Sange, Lege og Dandse. Tekst. Kmh. 1871; bls. 43 og Skjære, skjære Havre! Hjørring 1858; bls. 17.

[1] Frá [: skýrt. Dr. Jón Þorkelsson ýngri.

[2] Frá [ hefir Lárus Árnason að eins heyrt: s p a k m a n n a, en J. Árn.: s p a k s m a n n s.

[3] aldrei. J. Árn.

[4] Hrs. Sv. Grv.; 66. Eg vil geta þess, að mér hefði, að öllum líkindum, aldrei dottið í hug að leita að leikjadóti í nr. 66 og 67 í safni Svend Grundtvigs, ef Dr. Jón Þorkelsson ýngri hefði ekki bent mér á þau.

væri kominn,« sagði Tvíbjörn. Þá kom Þríbjörn og togaði í Tvíbjörn, Tvíbjörn í Einbjörn, Einbjörn í kallinn, kallinn í kellínguna, kellíngin í róuna, en ekki gekk róan. Þríbjörn óskaði að Fjórbjörn væri kominn, Fjórbjörn að Fimmbjörn væri kominn o. s. frv., og allir toguðu þeir hver í annan, en ekki gekk róan. Ellefubjörn sagði seinast: »Það vildi eg, að hann Tólfbjörn minn væri kominn.« Þá kom Tólfbjörn og togaði í Ellefubjörn, Ellefubjörn í Tíbjörn, Tíbjörn í Níbjörn, Níbjörn í Áttabjörn, Áttabjörn í Sjöbjörn, Sjöbjörn í Sexbjörn, Sexbjörn í Fimmbjörn, Fimmbjörn í Fjórbjörn, Fjórbjörn í Þríbjörn, Þríbjörn í Tvíbjörn Tvíbjörn í Einbjörn, Einbjörn í kallinn, kallinn í kellínguna, kellíngin í róuna, og þá slitnaði róan.«

Hverja togunartilraun á að hafa yfir í einu andartaki, t. d. Fjórbjörn togaði í Þríbjörn, Þríbjörn í Tvíbjörn, Tvíbjörn í Einbjörn, Einbjörn í kallinn, kallinn í kellínguna, kellíngin í róuna, en ekki gekk róan. Erfiðust er náttúrlega seinasta klausan, þegar Tólfbjörn togaði í Ellefubjörn, Ellefubjörn í Tíbjörn o. s. frv.[1]

Enn er ein skemtan, sem mér er ekki ljóst hvar á að vísa til sætis, en þó þykir mér henta bezt, að hnýta henni aptan í þenna kafla.

Únglíngar gjöra sér það opt til gamans, að tala á annarlegu máli, eða breyta móðurmáli sínu, með því að bæta ýmsum atkvæðum inn í orðin, sem eiga þar annars ekki heima, eða þá setja ávalt sömu samhljóðendurna í staðinn fyrir samhljóðendur þá, sem eru í orðunum að réttu lagi. Viðbætur þessar eru ávalt bundnar föstum reglum og draga hrognamál þessi nöfn af þeim.

Eg kann að lýsa pé(p)máli, erressté(rst)máli, err(r)máli og emmmáli eða amramáli.

Pémál er þannig. Aptan við hvert atkvæði er bætt pé/ og hljóðstaf þeim, sem er í atkvæðinu, en ef atkvæðið endar á samhljóðanda, einum eða fleiri, þá er honum eða þeim bætt aptan við viðbótaratkvæðið. Ef t. d. »Eldgamla Ísafold« er snúið á þetta mál, þá verður það Epeldgapamlapa Ípísapafopold.

[1] Eg hefi heyrt sögu þessa dálítið öðruvísi fyrir norðan. Kall og kellíng bjuggu í koti og áttu eina kú. Einu sinni bar kýrin sem optar. Kall og kellíng drápu kálfinn. Þau söltuðu hann niður í eldiviðarhlaða, svo að róan ein stóð út úr hlaðanum, og ætluðu að geyma hann þar til jólanna. Þegar fór að líða að jólunum, hugðu þau kall og kellíng sér gott til glóðarinnar. Kellíngin tók í róuna, og ætlaði að draga kálfinn út úr hlaðanum, en ekki gekk róan. Þá kom kallinn og tók í kellínguna, kellíngin í róuna, en ekki gekk róan. Þá kom Einbein, tók í kallinn, kallinn í kellínguna, kellíngin í róuna, en ekki gekk róan. Þá kom Tvíbein, tók í Einbein, Einbein í kallinn o. s. frv. Svo koma allir Beinarnir, hver eptir annann, alveg eins og í Sæmundar sögu, en sá er munurinn, að þegar Tólfbein og öll hersíngin tekur í róuna, þá dregst kálfurinn út úr hlaðanum. »Og loksins gekk róan,« stendur seinast í sögunni.

Eins er erresstémál nema viðbótaratkvæðin eru þrjú. Heimildarmaður minn[1] segir líka, að þar sem tvíhljóðar eru í frumorðinu, sé viðbótaratkvæðunum skotið inn á milli þeirra. Baun verður t. d. barasataun. »Eldgamla Ísafold« er á erresstémáli: Ereseteldgarasatamlarasata Írísítísarasataforosotold.

Það er aptur errmál,[2] þegar hvert atkvæði er látið byrja á erri. Ef orð byrjar á tveimur samhljóðendum, þá kemur r í staðinn fyrir þá báða. Aptur verður að bæta erri framan við atkvæði þau, sem byrja á hljóðstaf. Á errmáli verður »Eldgamla Ísafold«: Reldramlra Rísrarold.

Emrmál[2] er í því fólgið, að mr er sett í staðinn fyrir alla samhljóðendur, nema þá sem standa í byrjun atkvæðis, hvort sem þeir eru einn eða fleiri, en skeytt aptan við einsatkvæðisorð. »Eldgamla Ísafold« er: Emrgamra Ímrafomr á emrmáli.

Mál þessi eru nefnd einu nafni djöflaþýzka, skollafranska,[3] skollaþýzka, djöfliska eða málamiska á Suðurlandi,[4] en ekki þekki eg annað af þeim, að norðan, en djöflisku.

Aptur segist G. E. hafa heyrt esma þasma mál kallaða djöflisku og svo ubbala abbala mál. Upp á þessi mál tekur hann til dæmis: »núsma esma ésma asma skrisma usma leisma« og »núbbala ebbala ébbala abbala skribbala ubbala leibbala« og þýðir hvorttveggja: »Nú er eg að skrifa um leiki.« Auk þess segist hann hafa heyrt enkura unkura mál kallað kúrisku,[5] og er setníng sú, sem áður er tekin til dæmis, svona á því: »nunkura enkura énkura ankura skrifnkura[6] unkura leinkura.«

J. Ól. kallar öll þessi mál einu nafni kúrelsku[5] og tekur til dæmis: »ekur sekur þakur« eða »esma seisma þasma« fyrir: »eg segi það.« G. E. getur um ge(g)mál, og er það líklega líkt pémáli, og loksins segir Páll sýslumaður Briem mér, að hann hafi heyrt aeta eeta mál og esna þasna mál. Þau eru mynduð eins og esma þasma málið, nema þar er bætt »eta« og »sna« aptan við, í staðinn fyrir »sma«. Annars segir það sig sjálft, að hrognamál þessi geta verið svo mörg sem vera skal, því það er hægt að skeyta stafina saman á óendanlega marga vegu.

Það lítur svo út, sem sum af málum þessum séu nokkuð flókin, en víst er það, að þeir, sem eru vanir þeim, tala þau jafnliðugt og hreina íslenzku. Aptur eru þau ekki auðskilin fyrir óvana.

---

[1] Magnús Magnússon stud. theol.

[2] Eptir sögn Þorsteins Erlíngssonar.

[3] Sbr. golfranska. Svo er málmynd sú nefnd, fyrir norðan, sem Íslendingar og frakkneskir fiskimenn babla saman.

[4] Þ. Erl. og J. Þork. J. Árn. nefnir þau djöflamálisku.

[5] Sbr. leikvísu Hallgr. Péturssonar.

[6] Skrinkura væri víst réttara.

Loksins hnýti eg hér aptan í sögukorni, sem eg hefi feingið frá Sæmundi stúdent Eyúlfssyni. »Kallar tveir bjuggu sinn á hvorum bæ.. Annar kallinn átti sér þrjá syni. Sá elzti hét Skrat. Annar bróðirinn hét Skrat-skrata-rat, en sá ýngsti Skrat-skrata-rat-skrat-skrúmum-skrat. Hinn kallinn átti sér þrjár dætur. Sú elzta hét Sipp, sú næst-elzta Sipp-sippa-nipp, en sú ýngsta Sipp-sippa-nipp-sipp-súrum-sipp. Kallssynirnir fóru einn góðan veðurdag og báðu kallsdætranna. Þeim var tekið báðum höndum. Skrat kvæntist Sipp, Skrat-skrata-rat Sipp-sippa-nipp, en Skrat-skrata-rat-skrat-skrúmum-skrat kvæntist Sipp-sippa-nipp-sipp-súrum-sipp. Öll þessi hjón lifðu vel og leingi, áttu börn og buru og grófu rætur og murur.« Það er vandinn, að hafa sögu þessa yfir orðrétta. eptir að hafa heyrt hana í fyrsta skipti. Allrasízt má flaska á mannanöfnunum.[1]

## 3. GREIN.

### SAGNASKEMTAN.

Sögusögn og sögulestur hefir verið ein af þjóðskemtunum Íslendínga um lángan aldur. Það er eins og Sveinn prestur Skúlason segir í Norðra: »Sögurnar hafa verið þjóðskemtan okkar, síðan þær mynduðust og alt á þenna dag, og það er þessari sögutrygð þjóðarinnar að þakka, að þær glötuðust ekki, þegar alt lá hér í dái og alt var í eymd og volæði á 14. og 15. öld.«[2]

Þess er þegar getið í fornsögunum sjálfum, að sögur hafa verið sagðar á manna mótum, og þarf ekki annað en að minna á það, þegar Sturla lögmaður Þórðarson kom sér mest í mjúkinn hjá Íngibjörgu drottníngu, með því að segja söguna af Huld tröllkonu »betur og fróðlegar en nokkur þeirra (sem voru við) hafði fyr heyrt.«[3] Þessi sögusagnarsiður hefir haldizt alt fram á okkar daga, og hafa margar sögur skapazt eða lagazt við hann, að minnsta kosti flestar hinar ágætu þjóðsögur okkar.

Það er annars undarlegt, að sögurnar skuli hafa lifað af öll þau bönn, sem klerkar og lögfræðíngar, háir og lágir, hafa lagt á þær að fornu og nýu. Þær hafa verið einhvernveginn lífseigari en vikivakarnir. Það er getið um ýms slík bönn í inngánginum, og hér skal eg bæta einu við,

---

[1] Saga þessi er líka til í Danmörku (Ride, ride Ranke. Hjørring. 1858: bls. 19—20), en ekkert vandamál fylgir henni þar. Ekki heldur í Remser og Lege for Børn. Rønne. 1886: bls. 36-7, og er hún þar þó mjög lík þeirri íslenzku.

[2] Norðri. VII; bls. 134—135.

[3] Safn til sögu Íslands. I; bls. 578—79.

spánnýu.[1] Þegar séra Jón Ýngvaldsson kemur til Hofteigsbrauðs 1847, lætur hann »andlega áminníngarhugvekju« gánga um sóknina, bæ frá bæ. Þar vekur hann athygli sóknarmanna á ýmislegu og þar á meðal sögulestri og rímnalestri. Hann áminnir þá alvarlega, samkvæmt Húsvitjunarfororðníngunni,[2] »að leggja minni hug og ástundun en alment skeður, á ótrúlegar og diktaðar lyga, trölla, drauga og álfa sögur og rímur af slíkum sem Andra, Fertrams og Platos og aðrar þvílíkar, þótt áheyrilega séu ortar og kveðnar.« Aptur mælir hann fram með Horster, Náttúruskoðaranum, Kloppstock,[3] Milton o. s. frv. og íslenzkum sögum, að fráteknum »einstökum ómerkum þáttum, svo sem af Gesti Bárðarsyni, Jökli Búasyni, Ármanni og Fornaldarsögunum.«[4]

Einstakir verzlegir menn urðu aptur til að mæla fram með sögunum, og leyfa að þær væru hafðar um hönd, t. d. Páll lögmaður Vídalín. J. Ól. ólst upp hjá Páli, og hefir samið æfisögu hans. Þar er kafli þessi meðal annars: »Hann straffaði ógjarnan börn, nema fyrir strákskap, en aldrei fyrir meinlausan leikaraskap, heldur jafnvel skipaði þeim að glíma og leika sér og sagði þeim stundum aðferðina á ýmsum leikjum, er þar[5] voru margir í frammi hafðir, eins hvað réttast væri, þegar þá aðgreindi í tafli eða schack. Hann leyfði að lesa sögur fyrir vinnufólki, á kvöldvökum á vetrardag, í bakstofu,[6] og stundum leiki, sem að brynna álptum, sækja smér í strokk, reisa horgemlíng, járna rymbu etc., og kvað slíkt venja únglínga við hraðari handatiltektir og agilitatem eða vaskleika, bannaði ei heldur stundum, að kveða rímur og kvæði. En úti leyfði hann dreingjum eigi síður að fremja sína ýmislega leiki, sem að gánga heljarbrú, brúarleik, skollaleik etc. — — — Hann vandi fyrst únglínga á steinaupptökum til að verða sterka, oftaka sig ei einusinni, heldur smám saman iðka sig og fremja. Allir urðu nálega að dugandi mönnum, er uppólust hjá honum.«[7]

1 Eg skal taka það fram, Þórði biskupi Þorlákssyni til lofs og dýrðar, að hann er sá eini guðsmaður í gamla daga, svo eg viti, sem hefir haldið fram sögum vorum opinberlega. Hann lét prenta Landnámu og Sögu Ólafs kóngs Tryggvasonar og segir um þær í formála fyrir: »Sá stóri Katekismus, Skálholti 1691«, að þær séu »bäädar godar Frodleiks Bækur til ad lesa j, til Skemtunar þess a midle, fyrir þa sem þad gyrnast, hvad Gude vorum er ecke a mot, einkum sieu þvilijkar Søgu Bækur ecke meir ednr framar jdkadar eñ sjalft Guds Ord.«

2 Sbr. bls. 12.

3 sem eg veit ekki til að nokkur maður hafi haft elju til að lesa, spjaldanna milli.

4 Hrs. Bmfj. 720. 8.

5 Þ. e. á heimili Páls Vídalíns, Víðidalstúngu.

6 Á eflaust að vera baðstofu.

7 Hrs. A. M. 437 fol.; bls. 55. Kafli þessi er svo yfirgripsmikill, að hann hefði öllu fremur átt heima í inngánginum en hér, en eg rak mig ekki á hann, fyr en inngángurinn var prentaður, og tók það því til bragðs að skjóta honum hér inní.

Eins og getið er um fyrir skemmstu, hafa klerkarnir hamazt á móti sögunum um lángan aldur, en þeim hefir, til allrar hamíngju, ekkert orðið ágeingt. Þeir hafa haft hlaup og lítil kaup: Guðbrandur biskup og Harboe biskup, Þorsteinn prófastur Pétursson, Jón prestur Ýngvaldsson og miklu, miklu fleiri, en sögurnar hafa lifað góðu lífi. Þær hafa skemt einum ættliðnum fram af öðrum, og eru nú virtar eins og þær eiga skilið. Þær eru nú taldar djásn og dýrmæti Íslendínga, að minnsta kosti fornsögurnar. Þjóðsögurnar eiga erviðara uppdráttar enn þá, og það eru eflaust margir, sem telja þær ómerkilegt bull og hégóma, en í raun réttri eru margar þeirra eins ágætar og sumar fornsögurnar, enda hafa þær orðið Íslendíngum og bókmentum þeirra til mjög mikils sóma í útlöndum, því meira og minna af þjóðsögum Jóns Árnasonar er þýtt á ensku, þýzku, norsku og dönsku og ef til vill fleiri mál.

Það er því alveg fjarstætt að amast við þjóðsögunum, eins og sumir hafa gjört og gjöra. »Sumar þjóðsögur og æfintýri ættu að eyðileggjast, því þær eru fremur spillandi en bætandi fyrir siðferði alþýðu,« stendur í Norðanfara[1] og þetta líka: »Ýmsar þjóðsögur vorar og æfintýri eru fremur auðvirðileg skemtun nú á tímum.«[2] Höfundar þessir hafa verið svo hyggnir að segja »sumar« og »ýmsar«, því annars hefðu þeir höggvið nærri þjóðerni Íslendínga. Því þjóðsögur hverrar þjóðar sem er, eru bein af hennar beinum og hold af hennar holdi, ef svo má segja. Í þjóðsögunum gánga þjóðirnar til dyra, eins og þær eru klæddar, og ef einhver vill þreifa á lífæð einhverrar þjóðar, þá er bezta ráðið til þess, að lesa þjóðsögur hennar. Því fer svo fjarri, að íslenzkar þjóðsögur ættu að eyðileggjast, að það ætti ekki að líða undir lok titill eða bókstafur af nokkurri íslenzkri þjóðsögu.

Það eru þjóðsögurnar, sem eru líf og yndi allra únglínga, sem ekki eru eitthvað fatlaðir á sálinni, og það eru þær, sem gánga mest manna á milli, eða sem haldast við lýði, þótt þær séu hvorki prentaðar né skrifaðar, því það er minnst af íslenzkum þjóðsögum prentað í Þjóðsögum Jóns Árnasonar. Og það er ekki hætt við að þær fari að forgörðum, meðan Íslendíngar eru Íslendíngar, nema þá ein og ein saga, sem deyr með einhverjum sögumanni eða sögukellíngu. Annars segja Íslendíngar sögur eins og aðrir menn, og eg hefi ekkert að athuga við það.

Eins mikið kveður að sögulestrinum og sögusögninni. Það eru einkum fornsögur, sem lesnar eru, bæði Íslendíngasögur og annara þjóða og svo riddarasögur, bæði prentaðar og skrifaðar. Þjóðsögur þær, sem prentaðar eru, eru líka lesnar eins og eðlilegt er. Sögur hafa verið lesnar á Íslandi laungu áður en nokkur bók var prentuð á íslenzku, og ekki hefir verið minna um sögulestur, síðan sögurnar komu út. Það er ekki neitt einkennilegt fyrir

---

[1] XV; bls. 59.

[2] XXI; nr. 53—54.

Íslendínga að lesa sögur, en það er einkennilegt fyrir Íslendínga að lesa sögur jafnmikið og jafnalment og þeir gjöra, en annars er ekkert einkennilegt við sögulestur á Íslandi, heldur en sögusögnina, og eg veit ekki betur en ýmsir sérstakir siðir, sem útlendir höfundar segja að séu honum samfara, séu uppspuni eða misskilníngur.[1] Á dögum Eggerts Ólafssonar hafa þó verið dálítið öðruvísi siðir, að því er snertir sögulestur og um þessar mundir: »Sjaldan eru lesnar sögur á helgum dögum á Íslandi. Sumstaðar á Vesturlandi eru heldur ekki lesnar sögur um föstutímann, en sá siður hefir verið tíðari þar áður.«[2] Nú kynokar víst einginn Íslendíngur sér við, að lesa og segja sögur á helgidögum, enda virðist ekki vera nein ástæða til þess.

Eggert getur þess að sögulestur hafi minnkað mikið á Íslandi, seinustu hundrað árin.[3] Eins segir einhver í Norðanfara,[4] að eptir 1880 hafi sögur verið lesnar miklu sjaldnar en áður. Þær hafa hlotið að vera lesnar frámunalega mikið áður, ef þetta er rétt hermt, því þann dag í dag eru sögur lesnar ákaflega mikið, þar sem eg þekki til og hefi spurnir af, enda er sögulestur talinn aðalskemtan sóknarbúa í flestum sóknalýsíngunum. Víðá er getið um sögulestur annars staðar, en hér hefir verið tekið fram, en það er ekki til nokkurs hlutar að vera að tína það til.[5] Það eru jafnvel dæmi til þess að menn hafi feingið orð á sig fyrir sögulestur, svo sem Sögu-Grímur Einarsson frá Nikulásarhúsum í Fljótshlíð. Hann var uppi um og eptir miðja 18. öld, og segir J. Espólín, að hann hafi lesið sögur fyrir Jórunni gömlu Skúladóttur á Hlíðarenda.[6]

## 4. GREIN.

### RÍMNAKVEÐSKAPUR

er að mörgu leyti skyldur sögulestrinum, og er því réttast að vísa þeim til sætis saman. Það virðist ef til vill vera óþarfi að fjölyrða um hann, þar

[1] von Troil segir þannig t. d. að húsbóndinn byrji ávalt lesturinn. Einhver annar taki við, þegar hann sé orðinn þreyttur, og svo koll af kolli. Bref rörande en resa til Island. Upsala 1777; bls. 69.

[2] Reise igjennem Island; bls. 461. Auk þess er minzt á sögulestur og rímna á þessum stöðum: bls. 47—48, 186, 351, 490, 700, 977.

[3] bls. 48.

[4] XXI; bls. 31.

[5] Þó skal eg benda á Philosophische Schilderung der gegenwärtigen Verfassung von Island. Altona. 1786; bls. 71, Island i det 18. Aarhundrede; bls. 235—236 og Norðanfara XXIV; bls. 51—52.

[6] Konu Brynjúlfs Thorlaciusar. Ættartölubækur. Hrs. Bmfj. Nr. 16. 4to; bls. 6656.

sem hérum bil hvert mannsbarn á Íslandi, sem komið er til vits og ára, veit hvernig rímur eru kveðnar. en mér þykir þó réttara að fara nokkrum orðum um hann.

Rímurnar eru einkennilegar fyrir íslenzkar bókmentir og afgamlar. Elztu rímur, sem til eru, kváðu vera frá 14. öld,[1] og síðan hefir hávaðinn af öllum íslenzkum skáldum fram um miðbik þessarar aldar ort fleira og færra af rímum. enda er til mesti sægur af þeim. Eptir því sem eg veit bezt, eru alt að 60[2] rímur prentaðar útaf fyrir sig og svo nokkrar í öðrum bókum, en þær sem liggja í handriti. eru að öllum líkindum meira en 10 sinnum fleiri, þegar öll kurl koma til grafar. Fyrstu rímur, sem prentaðar voru, eru »Rimur af Karl og Grym Suia Kongum«, og af »Hialmar Hareks suni a Biarmalandi,«[3] því eg tel ekki helgirímur þær, sem seinna verður getið um, en fyrstu rímur, sem prentaðar voru á Íslandi, eru Úlfarsrímur eptir Þorlák Guðbrandsson og Árna Böðvarsson. Hrappsey 1775.

Rímurnar hafa verið uppáhald Íslendínga fram á þenna dag, en þó á nokkuð annan hátt áður en nú. Áður unnu þeim bæði lærðir menn og leikir. Nú hafa flestir lærðu mennirnir slitið trygð við þær og margir alþýðumenn, en sumir meta þær mikils enn í dag. Áður ortu skáldin opt rímur fyrir lærða menn og stórhöfðingja. Það mætti færa mý-margar sönnur fyrir því, en eg skal að eins koma með tvö dæmi: Það er fært í frásögur, að Sigurður blindi hafi ort rímur fyrir Jón biskup Arason og fært honum 12 rímur á hverju alþíngi.[4] Í annan stað orti Árni Böðvarsson á Ökrum Völsungarímur, rímur af Droplaugarsonum og miklu fleiri rímur fyrir Jón sýslumann Árnason á Íngjaldshóli, og getur hann þess sjálfur víða í mansaungum fyrir rímum sínum.[5] Og það var ekki nóg með að lærðir menn og höfðingjar létu yrkja fyrir sig rímur; þeir ortu sjálfir rímur og létu sér einga lægíngu þykja. Séra Hallgrímur Pétursson orti rímur af Lykla-Pétri og Magelónu og aðrar af Ref. Séra Brynjúlfur Halldórsson í Kyrkjubæ († 1737) og séra Eiríkur Hallsson í Höfða († 1688) ortu margar rímur hvor. Sveinn lögmaður Sölvason og séra Jón Þorláksson á Bægisá ortu rímur af Gissuri jarli Þorvaldssyni.[6] Og svona mætti færa til dæmin

[1] Guðbrandur Vigfússon segir í Corpvs poeticvm boreale II. Oxford. 1883; bls. 392, að Ólafsríma eptir Einar Gilsson sé allra rímna elzt, frá hérum bil 1360. Hún er í Flateyjarbók og prentuð í henni og svo í »Corpvs«.

[2] Jón Sigurðsson átti 44 rímnaflokka, eptir því sem segir í handritaskrá hans, en það er ekki víst, að hann hafi átt allar rímur, sem til voru, prentaðar, og auk þess hafa nokkrar rímur komið út, síðan hann hætti að safna bókum.

[3] Björner: Nordiska Kämpadater. Stockh. 1737.

[4] Biskupasögur. II; bls. 570.

[5] Fleiri dæmi samskonar eru í: Om Digtningen på Island, eptir Dr. Jón Þorkelsson yngra; bls. 121.

[6] Prentaðar í Leirárgörðum 1800.

tugunum saman ef vildi. Nú fer því svo fjarri að lærðir menn yrki rímur eða láti yrkja fyrir sig rímur, að þeir hafa jafnvel margir skömm á rímum og virðist það alt af vera að fara í vöxt. Eg man ekki eptir því, að eg hafi heyrt þess getið, að nokkur skólageinginn maður, sem nú lifir, hafi ort rímur, annar en Benedikt Gröndal. Hann orti um árið rímur af Gaungu-Hrólfi og var í ráði að þær kæmu út á Akureyri, en aldrei varð úr því og er skaði.[1]

En þessi munur á hylli rímnanna fyrrum og nú er alveg eðlilegur. Áður báru rímurnar af flestu öðru, sem kveðið var, eins og gull af eyri. Á 16., 17. og fram um miðja 18. öld var megiñið af því, sem kveðið var, sálmar eða þá andleg kvæði og svo rímur. Talsvert var reyndar kveðið af smákvæðum um hitt og þetta og svo lausavísum, og er sumt af því ágætt, eins og mörg vikivakakvæðin, mörg viðkvæði og svo t. d. flestar lausavísur Páls lögmanns Vídalíns. En mergurinn málsins í íslenzkum skáldskap um þetta leyti voru þó sálmar og andleg kvæði og svo rímur. Þegar sálmaskáldskapurinn er nú borinn saman við rímurnar, þá lenda allir kostirnir hjá rímunum en allir lestirnir hjá sálmunum. Rímurnar voru að jafnaði vel kveðnar. Sálmarnir óskiljanlega illa kveðnir. Það þarf ekki annað en fletta upp í einhverri útgáfu af grallaranum, til að komast að raun um það. Rímurnar voru optast um eitthvert skemtilegt efni; skáldin ortu þær eptir fornsögum og riddarasögum, eða þá einstökum sinnum eptir nýum atburðum. Sálmarnir voru aptur svo nauðaleiðinlegir, að það er óskiljanlegt, að þeir hafi getað lypt huga nokkurs manns til guðs og hefir það þó eflaust verið tilgángur þeirra. Rímurnar voru opt og tíðum hnyttnar og smellnar. Sálmarnir aptur svo andlausir að það var eingu líkt. Loksins voru rímurnar þjóðlegar og optast ortar eptir þjóðlegum efnum. Sálmarnir svo óþjóðlegir sem framast var unt, margir þýddir eða þá sniðnir eptir útlendum skáldskap, og þótt þeir væru alveg frumkveðnir, þá voru þeir samt óþjóðlegir í sínu innsta eðli og hlutu að vera það. Og þó voru sálmarnir gull hjá þessum sandi, sem til er af andlegum kvæðum, því þeir voru styttri. Tólfunum kastar fyrst þegar maður les t. d. Einvaldsóð,[2] Dýrðardikt[3] og jafnvel Skriptarminníngu,[4] þó hún sé ekki mikið hjá hinum ósköpunum. Einna geysilegust er þó Hugarfró eptir Þorvald Rögnvaldsson á Sauðanesi,[5]

[1] Sbr. Om Digtningen på Island, eptir Dr. Jón Þorkelsson yngra. Kmh. 1888 bls. 133.

[2] Eptir séra Guðmund Erlendsson í Felli († 1670). 300 erindi; t. d. Hrs. Bmfj 126. 8vo.

[3] Eptir Kolbein Grímsson (lifði að minnsta kosti 1682). 640 erindi hálf. Hrs Bmfj. 105. 4to.

[4] Eptir Þorleif Þórðarson († 1647). 100 erindi; t. d. Hrs. Bmfj. 179. 8vo.

[5] († 1680); Hrs. Bmfj. 126. 8vo. Sbr. Jón Þorkelsson: Om Digtningen på Island bls. 109.

því hún er hvorki meira né minna en 454 er. Náttúrlega eru til sálmar, sem eru ágætir, svo sem Passíusálmarnir, en það væri líka alveg dæmalaust, ef ekki væri neitt ágætt af þessum óþrjótandi aragrúa, sem til er af sálmum og andlegum kvæðum, bæði prentuðum og óprentuðum.

Íslendíngar eru trúaðir mjög og guðhræddir enn í dag og voru það ekki síður á 16—18. öld og hlutu því að lesa það og hafa um hönd, sem þeim var feingið af sálmum. Þeir urðu að tjalda því sem til var. Eingu að síður unnu þeir rímunum mjög, og sýnir það bezt þessi fjöldi, sem kveðinn var af þeim, og þessi ógrynni af afskriptum, sem tekin voru af þeim og breiddust út um alt land. Guðsmennirnir gjörðu það sem þeir gátu til að spilla fyrir þeim, en það dugði ekkert, og sumir sem geingu einna bezt fram í því, að yrkja andleg kvæði, voru svo breiskir að yrkja rímur með sprettum, eins og t. d. Þorvaldur Rögnvaldsson og Kolbeinn Grímsson.

Fyrsta sálmabók, sem gefin er út á Íslandi, er prentuð á Hólum 1589 og er merkilegur formáli fyrir henni eptir Guðbrand biskup Þorláksson. Þar kemur biskupinn meðal annars við rímur og önnur veraldleg ljóðmæli, og skal eg færa til orðrétt það, sem hann segir í þá átt: »Marger hafa adur fyrmeir hier i Lande stora Astundan lagt vppa Rijmur. Vijsur og önnur Kuæde, Lært og idkad þ, þegar i fra Barndome, og hallded þ Frodleik, og haft þar skemtū af, sm̄ þo ei var nema onytsamligur Hiegome.«[1] Seinna í formálanum segist biskupinn meðal annars gefa sálmabókina út til þess, »ad af mætte leggiast [þeir onytsamlıgu Kuedlingar, Trólla og Fornmaña[2] Rijmur, [3]Mañsaunguar, Afmors Vijsur, Bruna Kuæde, Hædz og Hugmodz Vijsur, og añar vondur og liotur Kvedskapur, Klæm, Nijd,[4] og Keskne, sm̄ hier hia Alþijdu Folke framarmeir er elskad og idkad, Gude og hañs Einglum til Stygdar, Dióflenum og hañs Aarum til Gledskapar og Þionustu, eñ i nockru Kristnu Lande ódru, Og meir epter Plagsid Heidiña Maña eñ Kristiña, sa Vókunottum og ódrum Mañna Motum, et ct. Sómuleidis i Veislum og Gestabodum, heyrist valla añad til skemtanar haft og Gledskapar, eñ þesse Hiegomlige Kuædahættur,[5] Sem Gud nœde.«

Því næst skorar biskupinn á alla góða menn og guðhrædda að styðja að því »ad af mætte leggiast þsse vonde, og onytsamlige Kuedskapar hættur, Eñ i stadeñ iñtakast og idkast Andigar Vijsur og Kuæde, suo sm̄ nu er orden Vijsa og Plagsidur i Danmórk — — huar sm̄ Madur kemur i Gillde

[1] Ein nij Psalma Bok. Holum i Hialta Dal 1589. Formáli; bls. aaiij.

[2] onyt-samegier(!) Kvedlingar vm Tr-oll og Fornmeñe. Formáli fyrir »Psalma Bok Ijslendsk«. Hólum. 1619.

[3] Þar er »jller« bætt framan við »Mansaunguar«.

[4] Þar er líka »hædd« bætt inn í.

[5] Kuædaskapur. S. heim.

Klausa þessi er líka prentuð og þýdd á ensku í Corpvs poeticvm boreale II. Oxford. 1883; bls. 387—388.

eda Gestabod, ı Erfidis Huus eda adra Verkstade, þa er optast ad heyra Psalma og Andligar Vijsur.«

Í formálanum fyrir Vísnabókinni er Guðbrandur biskup líka að fárast um »Bruna vijsur og Afmurs Kuæde.«[1] Eins er tekið fram í Katekismus þeim, sem Guðbrandur biskup þýddi, að kveðskapur o. s. frv. sé saurlifnaður og því stórsynd. Þar stendur: »Añañ mæta skiedur Saurlijfe med Ordunum. Soddan Ord eru Klam og Nijd og ohæfeligr Orda Muñsefnudur, Søgur og Æfentijr, Brunakvæde og Afmors Vijsur, hvar af margur upptendrast til Lostasemdar og sauruglegra Gyrnda.«[2] Skömmu seinna stendur að í boðorði þessu sé bannað »Danslæte, Kvedskapur, Mañsøngvar, Afmorsvijsur, Brunakvæde«[3] o. s. frv.

Það er reyndar vitaskuld, að þessar tvær seinustu klausur eru þýddar, en það er jafnvíst, að þær eru alveg eins og þær ættu rót sína að rekja til Guðbrandar biskups. Mér er ekki ljóst hvað biskupinn á við með Amorskvæðum og brunavísum, en líklega eru það þó vikivakakvæðin.[4] Undarlega hefir guðræknin staðið þversum i Guðbrandi biskupi og mörgum á hans dögum, þegar þeir telja meinlausar rímur og vikivakakvæði saman við klám og níð og telja það víst, að guð styggist og einglar hans yfir hverju rímnaerindi, sem raulað er, en djöfullinn fagni og árar hans yfir hverri gamanvísu, sem kveðin er, og þá yfir höfuð öllu sem talað er, nema guðsorði, og öllu sem súngið er, nema sálmum.

Þetta er hvorki í fyrsta né seinasta sinni, sem guðfræðíngarnir hafa reynt til að raka allan eldinn að sinni köku, og þetta er líka hvorki í fyrsta né seinasta sinni, sem þeir hafa haft hlaup og lítil kaup, því náttúran er ávalt náminu ríkari. Rímurnar og gamankvæðin lifðu eins góðu lífi eptir sem áður. En Guðbrandur biskup var ekki af baki dottinn. Hann sá, að hann gat ekki eyðilagt rímurnar, en það var ef til vill mögulegt að gjöra þær að guðsorði. Í formálanum fyrir Vísnabókinni stendur þessi merkilega klausa: »Meñ hafa ædur kveded Rijmur af Fornmöñum til Skiemtunar og Dægrastyttíngar, og j Frasøgur fært þeirra Ord og Gıerder, þui skylldu nu þa Meñ ecke helldur kueda Rijmur og Kuæde, af heilögum Mønnum, þar bæde er j Heilsusamlegur Lærdomur og god Dæme, epter að breyta.« Á sama máli er séra Jón Bjarnason, sem sjálfur gekk vel fram í því, að yrkja andlegar rímur. Hann tekur að eins ennþá dýpra i árinni. Annað erindið í Sýrachs rímum, sem strax verður minnst á, er svona:

[1] Ein Nÿ Wijsna Bok. s. l. (Hólum) 1612.

[2] Sa Store CATECHISMVS. Ed. III. Skalhollte M.DC.XCI; bls. 155.

[3] bls. 160.

[4] Það er skritið að í fyrstu prédikuninni útaf 53. kap. í Esajas spádómsbók talar séra Páll Björnsson i Selárdal um »afmorskvæði Jesú við brúði sína«, og á þar við Lofkvæði Salómons. 4. kap. 9. v. (Hrs. Bmfj. 134. 4to; bls. 7). Sama gjörir hann í einni af Píslarprédikunum sínum (Hrs. Bmfj. 63. 4to; bls. 148).

Aður hefir sú Edda þént
afmors ljóða greinum,
því skal héðan af þessi ment
þjóna guði hreinum.

En »kaupmaður vill sigla en byr hlýtur að ráða«.

Það er reyndar vitaskuld, að talsvert var ort af rímum út af Biblíunni. Í Vísnabókinni eru 5 slíkir rímnaflokkar, t. d. rímur af Ruth[1] og Sýrachs rímur[2], og fjöldi af slíkum rímum hefir aldrei verið prentaður, t. d. rímur af krosstrénu Kristí[3] eptir séra Sigurð Jónsson í Presthólum († 1661) og Jesú-rímur[4] eptir séra Guðmund Erlendsson í Felli. Eg held þó að Íslendíngar hafi aldrei tekið jafnmiklu ástfóstri við þessar andlegu rímur og hinar rímurnar. Það er líka eitthvað óeðlilegt að yrkja rímur eptir Biblíunni. Það er eitthvað í áttina til þess »manns ef höfði málara pensill, merar teingdan svíra feingi,« eins og þeir segja Hóratsíus og Gröndal eldri.

Svona geingur það leingi vel. Guðsmennirnir reyna annaðhvort til að eyðileggja rímurnar eða breyta þeim í guðsorð. Hjalti prestur Þorsteinsson í Vatnsfirði († 1752) óskar þess þannig í formála fyrir kvæðabók séra Ólafs Jónssonar á Söndum,[5] »ad til kalldra kola brendar være allar fáfengelegar, fíflslegar og hneixlanlegar Rímur, Kvæda-þvættings og Kesknis druslur, sem fylla ætla Landed,«[6] og væri sjálfsagt hægt að tína til miklu fleiri dæmi úr formálum fyrir gömlum guðsorðabókum, en þetta er nóg. Alþýða manna og svo margir prestar og aðrir lærðir menn unna þeim aptur, yrkja þær, skrifa þær upp hundruðum saman, kveða þær sér til skemtunar og kenna börnum sínum.

Ekki var reynt minna til að eyðileggja rímur, sögur og allar þjóðlegar skemtanir á 18. öldinni. Um miðja öldina var sú oftrúaröld í Danmörku, að mönnum var skipað með harðri hendi að sækja helgar tíðir og þar fram eptir götunum. Frá þessu tímabili eru bönn þau á móti rímum og öðrum skemtunum, sem færð eru til í formálanum og svo berserksgángur Þorsteins prófasts Péturssonar, sem þar er líka getið um. Haldór biskup Brynjúlfsson tekur líka í sama streinginn í formálanum við aðra útgáfu af Vísnabókinni. Hólum. 1748. Þar segir: »þar í Húsagafororðníngarinnar 7. Art. eru bannaðar hégómlegar historíur, sögur, amorsvísur og rímur, meinast lyga- og

---

[1] eða Rijmur af Bookeñe Ruth: bls. 112—139.

[2] bls. 298—357. Bæði Ruthar rímur og Sýrachs rímur kváðu vera eptir séra Jón Bjarnason, sem var uppi á 17. öld, öndverðri. Sbr. Dr. Jón Þorkelsson ýngri: Om Digtningen på Island. Kmh. 1888; bls. 462 6 s.

[3] Hrs. Lbs. 9, 8vo.

[4] eða Únga Jesú rímur, t. d. hrs. Bmfj. 53. 8vo og 110. 8vo, en hrs. Lbs. 8. 8vo og 9. 8vo. Fleiri helgirímur er getið um í Om Digtningen på Island: bls. 132.

[5] Hrs. Bmfj. 70, 4to; skrifuð 1693.

[6] Dr. Jón Þorkelsson hefir bent mér á þessa klausu.

tröllasögur, amorsvísur og þesskonar kvæði, lyga- og trölla-rímur, sem mörgum almúga hefir þótt mesta skemtan að, og ofmjög lagt uppá hjartað, yfir hverju sá sæli herra Guðbrandur, biskup þessa stiptis, loflegrar minníngar, hefir á sinni öld klagað, og því til að hindra svoddan, látið þessa Vísnabók útgánga anno 1612, til guðrækilegrar dægrastyttíngar einföldum almúga, að ei samblandaði hann daglegt bænahald áður á minstum sögum kvæðum og rímum, heldur því, er guðs börnum væri vel sæmilegt, svo sem það er, sem þessi bók inniheldur.« Skömmu seinna segir Haldór biskup, að reyndar hafi kóngurinn ekki bannað á Íslandi »studium Historicum«[1] né »Historiam Patriæ[2] eður Moralia[3], ennþá síður rímur af heilagri ritníngu eða andlegar vísur, er kenna Historiam Sacram[4], og annað nytsamlegt, þá það er svo um hönd haft, sem guðs börnum sómir.« Og seinast klykkir biskupinn út með því, að nauðsynlegra sé að muna úr andlegum ljóðum, »en vitlausum tröllasögum og rímum, hverjar guðhrætt og hyggið fólk hatar, og virðir ei að heyra.«[5]

Gauragángur þessi hafði þó eingin áhrif á rímurnar, eptir því sem eg kemst næst. En þessi ósköp gátu ekki staðið leingi. Það er ávalt vant, að apturkippur komi, þegar eitthvað keyrir úr hófi, og svo var enn. Hér er ekki ástæða til að fjölyrða um apturkipp þenna, en þess verður að geta, að honum fylgdi nýúngagirni og tilraunir til að breyta því sem var og hafði verið. Apturkippur þessi eða hér öllu fremur framkippur. því flestu var breytt til batnaðar, hafði mikil áhrif á margt á Íslandi og þar á meðal rímurnar.

Magnús Stephensen var aðalpostuli þessarar nýu stefnu á Íslandi. Hann vildi bæta sem flest, það sem honum þótti vera í illu horfi, og þar á meðal smekk Íslendínga. En nú kemur smekkur, hverrar þjóðar sem er, hvergi betur fram en í skáldskap hennar, og á hinn bóginn er ekkert betur fallið til að bæta smekk einhverrar þjóðar en góður skáldskapur. Það gat eingum blandazt hugur um það, að sálmarnir væru ósmekklegir, og það verður heldur ekki varið, að rímurnar eru víða, ef til vill optast, ósmekklegar, einkum í augum þeirra, sem kunnugir eru útlendum skáldskap, og það var Magnús manna bezt. Það er því ekki að furða, þótt hann réðist bæði á sálmana, eins og þeir höfðu verið, og rímurnar. Hér þarf ekki að tala um viðureign hans við sálmana, en aptur skal eg færa til nokkur ummæli hans um rímurnar.

---

[1] þ. e. sögunám.

[2] þ. e. sögu föðurlands sín.

[3] þ. e. siðfræði.

[4] þ. e. söguna helgu, kirkjusögu.

[5] Sitatið er tekið eptir: Om Digtningen pa Island, eptir Dr. Jón Þorkelsson, bls. 127—128.

Í Eptirmælum 18. aldar minnist hann á »rímna ófagurt ýlfur« og »ósaungleg rímnalög«.[1] Í Hjálpræði í neyð[2] talar hann um »ólundar rímnagól« og segir að fólk láti kvæðamenn gánga á milli sín til að kveða »helvízkt bull og heimsku«. Skömmu seinna minnist hann á »heimsku- og leiðinlegt rímnagól«. Í formálanum fyrir Vinagleðinni[3] segir hann: »Ad helmíngur styckia-tölunnar, er í ljódmælum, og til útbreidslu betri skáldskapar smecks enn þess, er mest drottnar nú hér í landi, mun þeim víst midur gédiast, sem í qvedskap aldrei leita ad efni, né skarpvitrum, meiníngar-fullum og snotrum þaunkum, heldur láta sér nytina nægja þó kiarnanu vanti, og fást ei um þó bögur og rímur velli af marklausu þvættíngs bulli, stagli, meiníngarlausum hor-títtum og heimsku kénníngum, hafi leir-veltan adeins venialegt útvortis bragar-form, einkum dýrt og í mørgum samstædum skéllandi í eyrum þegar þessum en ei skynsemi og gáfum skémta skal.« Í einu af kvæðum[4] sínum kemur Magnús Stephensen líka við rímurnar:

Rímna góli rifinn þvert
rámur gaular óða;
þeir eru hæfir, það er bert,
að þrykkjast milli glóða.

En hreinast gerir þó Magnús fyrir dyrum sínum í Island i det 18. Aarhundrede.[5] Þar lýsir hann því beinlínis yfir, að rímurnar séu flestar mjög bágbornar. Þær séu ýlfraðar eða gaulaðar kvöldunum saman. Sumir kvæðamenn gángi á milli manna og hafi ofanaf fyrir sér með því að grenja upp úr sér heilar rímurnar, því þeir kunni þær utanað.

Magnús er allbeiskur við rímurnar, en þó hefði þeim eflaust ekki verið mikil hætta búin af honum, ef aðrir hefðu ekki tekið í sama streinginn, því ef satt skal segja var skáldskapur Magnúsar eingu smekklegri en skáldskapur sá, sem hann var að berjast við. Magnúsi var margt til lista lagt, en skáld var hann ekki.

Um þetta leyti yrkir Sigurður sýslumaður Pétursson Stellurímur, sem flestir segja að eigi að vera skop um efnisleysi rímnanna, en Benedikt Gröndal eldri skopast að rímnaskáldskap Árna Böðvarssonar, sem var eitthvert mesta rímnaskáld á 18. öldinni.[6] Það tóku því mörg strá að stínga rímurnar. Reyndar lofar Gröndal Gissurarrímur Sveins lögmanns,[7] en honum

[1] Leirárgörðum. 1806; bls. 559—560. Sbr. Island i det 18. Aarhundrede; bls. 276.
[2] Leirá s. a. (1803): bls. 31—32, 57. Sítatið er tekið eptir Söguágripi Jóns Borgfirðings um prentsmiðjur og prentara á Íslandi. Rkv. 1867: bls. 50.
[3] Leirargörðum. 1797; bls. IX—XI.
[4] Ljóðmæli. Viðeyarkl. 1842; bls 66—68.
[5] bls. 236.
[6] Kvæði Benedikts Gröndals. Viðey. 1833; bls 160. Sigurður Breiðfjörð tók reyndar svari Árna (Snót. II. útg. Rkv. 1865: bls. 327—328), en það þýddi ekkert.
[7] Kvæði: bls. 160—161.

var þó auðsjáanlega mjög illa við rímurnar yfir höfuð. Snemma á öldinni stælir líka Ögmundur Sivertsen eptir Rímna-Bessa, eða yrkir »Kjalars læt eg klúnkara hlúnkara dúnkinn« o. s. frv.[1] Öllum ber saman um, að vísur þessar séu skop um eddutorfið í rímunum. Þær eru svo alkunnar, að ekki þarf að prenta þær hér, en aptur set eg hér samskonar vísur, sem eg náði[2] í heima í Reykjavík, því bæði eru þær öllu betri en vísur séra Ögmundar, og svo hafa þær ekki verið prentaðar áður:

Kjalars læt eg kjarkara dall
kreika út á sónar for;
út um rifinn ræðuhjall
rek eg stirðan orðabor.

Mun eg í Óðins mýrarlaut
mærðar stínga hnausa
og hróðrar líka heitum graut
í heyrnarkeröldin ausa.

Duggarabands í lagarlút
leysi' eg Austra dvergahnút;
með Berlíngs ása stinnum stút
staga' eg fyrir mærðar hrút.

Dr. Jón Þorkelsson ýngri segir mér, að miðvísan sé venjulega eignuð Páli lögmanni Vídalín, hvað sem hinum líður. Hann hefir líka bent mér á enn eina vísu, samskonar, sem eignuð er Páli lögmanni;

Berlíngs læt eg brókar lög
úr Bölverks ausu drífa,
síðan Herjans hornasög
hróðrar drumbinn rífa.[2]

Mótbárur þær á móti rímunum, sem getið er um allraseinast, voru sprottnar af estetiskri[3] hreyfíngu, sem var alveg fjarstæð þeim, en jafnframt eymir eptir af gömlu aðfinníngunum við þær. Þannig leggur Ísleifur sýslumaður Einarsson († á Brekku 1836) kvæðaskap að jöfnu við oflæti og ýmislegt glys og gort, í einni þíngræðu sinni.[4] Rímur eru að vísu ekki

---

[1] Ögmundar-Géta. Kmh. 1832; bls. 57—58.
[2] Vísa Bjarnar í Lundi: »Fleinahóll og faldaþúfa« o. s. frv. er í sömu áttina.
[3] Skilst »fagurfræðilegur« betur?
[4] Ný Félagsrit XVII; bls. 106.

nefndar hér, en mér þykir líklegra að átt sé við þær en ekki kveðskaparkeppni. Um annan kvæðaskap getur valla verið að ræða.

Nú kemur sá til sögunnar, sem eflaust hefir unnið rímnakveðskapnum mest ógagn allra manna, Jónas Hallgrímsson. Ritgjörð hans um Rímur af Tistrani og Indíönu, eptir Sigurð Breiðfjörð, kom út í Fjölni 1837.[1] Þar tekur hann fyrst og fremst duglega í lurginn á Sigurði og Tistransrímum, eins og kunnugt er, og úthúðar svo rímnakveðskapnum yfir höfuð. Þetta er byrjunin á ritgjörð hans: »Eins og rímur (á Íslandi) eru kveðnar og hafa verið kveðnar allt að þessu, þá eru þær flestallar þjóðinni til minkunar — það er ekkji til neins að leyna því — og þar á ofan koma þær töluverðu illu til leiðar: eiða og spilla tilfinníngunni á því, sem fagurt er og skáldlegt og sómir sjer vel í góðum kveðskap, og taka sjer til þjónustu »gáfur« og krapta margra manna, er hefðu gjetað gjert eitthvað þarfara — orkt eitthvað skárra, eða þá að minnsta kosti prjónað meinlausann duggra-sokk, meðan þeir voru að »gullinkamba« og »fimbulfamba« til ævarandi spotts og aðhláturs um alla veröldina.« Hér hefir Jónas ekki gætt að því, að Íslendíngar höfðu lánga leingi ekki átt kost á neinum **góðum skáldskap**, að marki, og höfðu því hallazt að rímunum, en annars hefir hann rétt að mæla, og þegar Íslendíngar áttu kost á jafngóðum skáldskap og kvæðum Bjarna Thorarensens, Jónasar sjálfs og fleiri skálda, þá var sjálfsagt að taka honum tveim höndum og hverfa frá rímunum, enda var það gjört.

Sigurður Breiðfjörð orti skammakvæði um Fjölni, sem hann kallaði Fjölnisrjóma,[2] og skoraði þar á menn »að kveða hann og keyra niður svo hann yrði klumsa«. Hann skrifaði líka ákaflega svæsið skammabréf um Fjölni til séra Ólafs Indriðasonar,[3] sem var Fjölni hlyntur og orti að minnsta kosti eitt kvæði í hann. Fyrst og fremst skammar hann mjög kvæði séra Ólafs, en þarnæst Fjölni sjálfan. Meðal annars stendur í bréfi Sigurðar: »Kerlíngarnar hafa heyrt þín getið og fæla með þér börnin, eins og Grýlu og Leppalúða. Á mannamótum sletta ýmsir í þig boðslettum: aðrir forakta þig sem viðbjóðslegasta afskræmi föðurlandsins, því sá er fuglinn verstur, sem í sjálfs sín hreiður skítur. Já! eg aumka þig fyrir flónskuna, þegar þú læzt ætla að kenna valdamönnunum að stafa og skrifa, prestunum siðfræði« o. s. frv. Skömmu seinna segir Sigurður: »Einn af vorum mest virðandi og uppbyggilegustu meðbræðrum, hefir nýlega skýrt mórauðan hlaupahund með nafninu Fjölnir, líklega ekki af virðíngu við þig. Þessum hvelpíngi vona menn þú sendir köku í löppina, fyrst hann var látinn heita í höfuðið á þér, eða takir hann til kennslu að stafa og skrifa, svo hann síðar máske geti' létt undir með þér.« Allar skammir Sigurðar eru alveg

[1] Líka í Ljóðmæli og önnur rit eptir Jónas. Kmh. 1883.
[2] Þáttur Sigurðar Breiðfjörðs eptir Gísla Konráðsson, 23. kap.
[3] Hrs. Bmfj. 310. 8vo.

ástæðulausar, og hafa því dottið niður, að minnsta kosti þegar svo lítið leið frá, en Fjölnir stóð jafnréttur eptir sem áður, til allrar hamíngju, því annars hefði hann ekki getað haft þá þýðíngu fyrir bókmentir vorar, sem hann hefir haft.

Seinna urðu ennþá aðrir en þeir Jónas Hallgrímsson til að taka í sama streinginn. Það er víða minzt á rímur og rímnakveðskap í blöðunum og er þar víðast hnýtt í rímurnar. Einhver svæsnasta greinin er í Norðanfara 1866.[1] Henni var svarað í sérstökum pésa, sem kom út í Reykjavík 1866,[2] og var rímunum haldið þar fram.[3]

Síðan Jónas samdi ritgjörð sína, hefir rímnaskáldskapurinn aldrei náð sér. Það er vitaskuld að rímur hafa verið ortar og eru ortar alt fram á þenna dag, og margir alþýðumenn unna þeim enn í dag, en margir eru þó horfnir frá þeim og flestir lærðu mennirnir. Rímurnar hafa sjálfsagt lifað sitt fegursta, enda hafa þær ekkert að gjöra framar í íslenzkum bókmentum. Það er komið annað betra í staðinn fyrir þær. En þær voru einusinni mergurinn í kveðskap Íslendínga og hljóta því ávalt að vera mjög merkilegur þáttur í bókmentasögu vorri.

Opt skemta menn sér við að lesa rímurnar, eins og sögu eða hverja aðra bók, en optar eru þær þó kveðnar, og svo hefir sjálfsagt verið allan þann tíma, sem rímur hafa verið ortar.[4] Rímnakveðskapurinn er þannig talinn aðalskemtun Íslendínga í flestum sóknalýsíngunum, jafnframt sögulestri, en nú er hann heldur að leggjast niður, að minnsta kosti á Norðurlandi, og er t. d. drepið á það á einum stað í Norðanfara[5]: »Fyrir 40 árum var það helzta skemtunin að kveðnar voru rímur eða lesnar sögur. Voru

---

[1] V; nr. 15.

[2] Eg hefi aldrei séð pésa þenna. Hann er ekki til á bókasöfnum hér í Kaupmannahöfn. Eptir því sem segir í Þjóðólfi XVIII (bls. 290, 2. d.) kostaði hann að eins 2 skildínga og hlýtur því að vera örstuttur. Pésa þessum er aptur svarað í Norðanfara VI; nr. 5–6.

[3] Auk þess er hnýtt í rímur í Norðanfara XV; bls. 59 og XXI; nr. 53—54 og víðar í íslenzkum blöðum. Aptur er svari þeirra tekið í Norðanfara VI; nr. 23 og VII; bls. 11—12. Sbr. Sunnanpósturinn II (1836); bls. 17—19 og Ljóðmæli Brynjúlfs Oddssonar. Rkv. 1869; bls. 21. Flest af bönnum þeim og aðfinníngum við rímurnar, sem eg hefi tínt til, er líka tekið upp í: Om Digtningen på Island, eptir Dr. Jón Þorkelsson; bls. 125—132.

[4] Það var þegar kveðið í fornöld, og er það víða tekið fram í fornsögum vorum. Morguninn fyrir Stiklastaðaorustu »settist Þormóðr« Kolbrúnarskáld þannig »upp ok kvað hátt mjök, svá at heyrði um allan herinn, hann kvað Bjarkamál hin fornu.« (Heimskríngla. Chria. 1868; bls. 477.) Eins stendur í sögu Þorfinns Karlsefnis: »kvað Guðríður þá kvæðit svá fagrt ok vel, at engi þóttisk heyrt hafa með fegri rödd kveðit, sá er þar var hjá.« (Grønlands historiske Mindesmærker. I. Kmh. 1838; bls. 378.) Það mætti tína til miklu fleiri dæmi, ef vildi.

[5] XXI; bls. 31, 1. d.

feingnir góðir kvæðamenn og lesarar til þessa, opt af öðrum bæum, jafnvel úr öðrum sveitum, enda var þetta opt góð skemtan og gagnleg. Þessar skemtanir viðhéldust alt fram að 1860 eða jafnvel leingur, en úr því heyrðust rímur sjaldnar kveðnar.« Aldrei hefi eg vitað að menn væru feingnir að til að kveða rímur, en þó er það sjálfsagt satt, enda drepur Magnús Stephensen á það.[1] Rímurnar voru og eru kveðnar á kvöldvökunni, og kveður þá einn eða fleiri til skiptis, en hitt fólkið situr við vinnu sína og hlýðir á. Stundum kveða þeir líka rímur í rökkrinu, sem kunna heilar rímur utanað, en það er alltítt. Eggert Ólafsson minnist á að rímur séu kveðnar á kvöldvökunni:

Þegar hjá þeim[2] húmar að
og hjarnar ljós í ranni
margt þær raula rímu-blað
og reka hrygð frá manni.[3]

Dæmi eru til að menn hafi feingið orð á sig fyrir kveðskap. Stefán Jónsson bróðir Þorgeirs, sem Þorgeirsboli er kendur við, var þannig kallaður Kvæða-Stefán, »því sagt er að hann kvæði og sýngi viðbrigða vel.«[4] Margir eru fleiri kendir við kvæði, og er líklegt að þeir hafi feingið viðurnefni sitt af sömu ástæðu og Stefán. Þannig fara sögur af Kvæða-Birni.[4] Kvæða-Þórður Gíslason, Skagfirðíngur, var uppi um 1700.[5] Kvæða-Guðbrandur, sonur Björns Hrólfssonar, lögréttumanns í Stóradal, í Húnavatnssýslu, var uppi í byrjun 17. aldar. Hann hafði »sérleg hljóð«.[6] Kvæða-Eyúlfur, Árnesíngur, var uppi á 16. öld, ofanverðri.[7] Og fleiri mætti sjálfsagt tína til. Dr. Jón Þorkelsson minnist á flesta af kvæðamönnum þessum í: Om Digtningen på Island (bls. 120) og nefnir auk þeirra Kvæða-Önnu og Kvæða-Tobba. Kvæða-Keli, sem seinna verður minzt á, kvað rímur fyrir menn á bæum og hafði kvæðalag öðruvísi en aðrir. Einkum tókst honum upp með vísu þessa:

Hundrað ára hrepti klára gleði,
ellefu skorðuð árin tvenn,
ein fyrir norðan kellíngen.[8]

Jón Espólín[9] nefnir Brynjúlf Grímsson prests Bessasonar, »þann sem bezt kvað á Hjaltastað«. Kvæða-Jórunn hét kerlíng í Borgarfirði, sem dó

---

[1] Sjá bls. 213.
[2] þ. e. konurnar, kvennfólkið.
[3] Kvæði. Kmh. 1832; bls. 171.
[4] Þjóðs. J. Árn. I; bls. 350, 196.
[5] Ættartölubækur J. Espólíns. Hrs. Bmfj. nr. 12. 4to; bls. 3401, 3727.
[6] S. st. nr. 11; bls. 2143.
[7] S. st. nr. 10; bls. 1348.
[8] Páll skólakennari Melsteð.
[9] Ættartölubækur. Séra Grímur dó 1785.

um 1840. Hún fór milli bæa og hafði ofan af fyrir sér með því að þæfa, en kvað ávalt eða saung jafnframt, og fékk hún viðurnefni sitt af því.[1]

Sum kvæðalög eru almenn og kunna allir þau, en aptur hafa margir einstakir menn sérstök kvæðalög, sem þeir hafa fundið upp sjálfir; deya þau opt með þeim, en stundum lifa þau þó og verða almenn. »Rímnalög voru næstum þau einu skemtilög, sem þektust á Íslandi fyrir fáum árum og hafði hver þau með sínu móti og bjó þau til eptir eigin geðþótta.«[2] Það er mikið hæft í þessu, en þó eru sum kvæðalög óbreytileg og gánga um land alt.

Rímnalögin eru lángt frá því að vera fögur, og er því ekki að furða, þótt þeim hafi fundizt lítið til um þau, sem vanir voru fegurri saung, enda er sú raun á, að flestir útlendíngar, sem hafa heyrt rímur kveðnar á Íslandi, skamma þau niður fyrir allar hellur, ef þeir minnast annars á þau. Horrebov segir þannig, að við rímurnar sé að vísu lagnefna, en mesta ómynd.[3] v. Troil segir líka,[4] að rímnakveðskapurinn sé ekki fallegur saungur. Áður er getið um álit Magnúsar Stephensens á rímnalögunum.

Eg veit vel að rímnalögin gjöra Íslendíngum og saunglist þeirra lítinn sóma, en mér þykir þó réttara að færa hér til nokkur rímnalög, því bæði er bezt að hver gángi til dyranna eins og hann er klæddur, og svo er ekki ólíklegt, að einhverjum þyki einhvern tímann gaman, að vita hvernig Íslendíngar kváðu á ofanverðri 19. öld. Gaman þætti okkur að vita hvernig Egill Skallagrímsson og Kórmakur fóru að flytja eða jafnvel kveða kvæði sín.

Lög þau, sem eingin heimild stendur við, hefi eg lært í úngdæmi mínu í Skagafirði og Eyafirði.



1. Leiðist mér að liggja hér í ljótum hell - i; betra'er heima' á



Helga - felli að hafa dans og glímu - skelli. [5]

[1] Jón Borgfirðíngur.

[2] Norðanfari XXI; nr. 53—54.

[3] »— — deres gamle Islandske Helte-Viser; hvortil de have en Slags Melodie, som er ganske rude.« Tilforladelige Efterretninger om Island. s. l. (Kmh.) 1752; bls. 375.

[4] Bref rörande en resa til Island Upsala. 1777; bls. 69.

[5] Eptir sögn Jóns Jónssonar stud. med. Vísan er í Þjóðs. J. Árn. I; bls. 305.



2. Sorgar hjör mér svið-a gerði, samt ei vann mér slig:



lífsteinn var í sár - u sverði, sem að græddi mig. [1]



3. Því ég sjálfur þann tilbjó þennan kenna fáir slag-inn;



ný-hend-u má nefna þó nokk - uð þokkalegan braginn. [2]



4. Synda' að vanda vann um flóðin, vinda þandist myndin blá:



hrinda' að landi hrannar-jóðin hindum banda' í Indí - á. [3]



5. Hrannarbál, sem hvals í ál nam Hrókur send - a, aptur



sótti beitir branda. bláan nið'r í hrínginn landa. [4]

---

[1] Vísan er eptir Steingrím Thorsteinsson. Snót. Akureyri. 1877; bls. 140.

[2] Lag þetta er við nýhendu, hátt sem Sigurður Breiðfjörð kvað undir fyrstur manna. Vísan er í Númarímum, eptir Sigurð.

[3] Vísan er úr Tistrans rímum og Indíönu, eptir Sigurð Breiðfjörð.

[4] Vísan er úr Agnarsrímum, eptir Árna Böðvarsson.



6. Feldi dreingur frægð og raus, fyr sem geingi branda kaus,



stáls á eingi straumur gaus, stóð þó leing - i höfuðlaus. [1]



7. Kemur efnið kvæða nóg: Krumur bóndi fór á skóg,



sótti víða' á söðla - bát, seggur-inn heyrði úngbarns-grát. [2]



8. Af-hendíng er öll - u góð þá ann - að brestur;



við han-a er nú Sigg - i sezt - ur. [3]



9. Það er dauði' og djöfuls nauð, þá dygða - snauðir fant-



ar safna auð með aug - un rauð, en aðra brauðið vantar. [4]

---

[1] Vísan er úr Andrarímum, eptir séra Hannes Bjarnason og Gísla Kónráðsson.

[2] Vísan er úr rímum af Þorsteini Uxafæti, eptir Árna Böðvarsson.

[3] Vísan er eptir Sigurð Breiðfjörð.

[4] Vísan er eptir Sigurð Breiðfjörð. Snót. Ak. 1877: bls. 207.



10. Dundi grund og hló við hóf; hópur sveina þeysti;



stundum undan skeifu skóf, skauzt úr steinum neisti. [1]



11. Þar sem einginn þekkir mann, þar er gott að ver - a.



því að allan andskotann er þar hægt að ger - a. [2]



12. Ríður senn í réttir - nar rjóður kvennaskarinn, yfir



fennur eggslétt - ar alinn rennur gjarðamar. [3]



13. Yngis - mey, er á - lög þjá, eptir bíður sveini þeim, er



kærleiks - kossi má kveikja líf úr stein - i. [4]

---

[1] Vísan er eptir Bertel Þorleifsson. Guðmundur Þorláksson cand. mag. hefir kent mér lagið.

[2] Vísan er ort í Kaupmannahöfn, ekki alls fyrir laungu.

[3] Vísan er húsgángur um alt land. Eg þekki ekki höfundinn.

[4] Vísan er eptir séra Mattías Jochumson í Útilegumennirnir. Reykjavík. 1864. bls. 5. Lagið er frá Beinteini Gíslasyni, en líklega að norðan.



14. Eitt er lofið allra stærst; all - ir sjá, ég vona:



ég hefi' ekki Glæsi glæst; Glæsir, hann var svona. [1]



15. Guð þeim launi, gott er mér gjörði máttar linum; ef hann



bregzt, þá eig - ið þér aðgáng - inn að hin - um. [2]

Það eru ekki einúngis rímur, sem kveðnar eru, undir kvæðalögum þessum, heldur allar ferskeyttar vísur hverju nafni sem nefnast, og það eru ekki einúngis rímur, sem menn kveða í rökkrum sér til skemtunar, heldur allskonar lausavísur, t. d. þegar skandérast er, og skal eg bráðum minnast á það.

Nú man eg ekki eptir öðru, sem eptir er að athuga við kveðskap Íslendínga en vítum um hann, eða ýmislegu, sem liggur við, ef kveðið er þegar svo og svo stendur á. Reyndar eiga mörg þeirra líka við saung, en mér þykir þó réttara að geta þeirra hér við kveðskapinn, því optar munu þau hafa bitnað á honum en saungnum:

Ef maður kveður í rúmi sínu, þá tekur maður framhjá.[3]

Ekki má kveða eða sýngja í búri, því þá kveður maður sult í búrið (sýngur óblessun í búrið).[4]

Ekki mega fiskimenn kveða eða sýngja við færi sitt eða vörpur eða í vararruðníng, því fylgir óblessun.[4]

Ef börn sýngja eða kveða yfir mat sínum, blessast þeim hann ekki (verða jafnsvaung aptur sem áður).[5]

Ef tveir kveða í einu sína vísuna hvor, þá skemtir maður skrattanum.[5]

[1] Vísan er eptir Pál Ólafsson. Snót. Ak. 1877; bls. 252.

[2] Lagið er frá Beinteini Gíslasyni. Vísan er eptir séra Pál Jónsson, skálda. Snót; bls. 210.

[3] M. G. Hrs. A. M. Sbr. bls. 8. 2. nmgr.

[4] Þjóðs. J. Árn. II; bls. 548.

[5] S. st.; bls. 548-9.

Hér verður að minnast á gáturnar. Reyndar eru þær að mörgu leyti ólíkar rímunum, en á hinn bóginn er svo fátt til frásagna um þær, að ekki tekur að skipa þeim sæti, út af fyrir sig.

Opt skemta Íslendíngar sér við það að geta gátur, enda eiga þeir til ógrynni af þeim, eins og fyrsti partur af safni þessu sýnir, og vantar þar þó mesta fjölda, eins og eðlilegt er. Eg hefi ekkert að segja um gáturnar, nema það er opt sagt, að sá (sú) sé ekki hreinn sveinn (hrein mey), sem ekki getur þessa og þessa gátu í fyrsta, annað eða þriðja skipti.

## 5. GREIN.

### KVEÐSKAPARKAPP.

Við rímnalesturinn læra áheyrendurnir fjölda af vísum, því það er aldrei svo, að eitthvað loði ekki eptir, þó meginið gleymist. Auk þess yrkja Íslendíngar meira af lausavísum en nokkur þjóð önnur að tiltölu[1], og breiðast þær út um alt land, ef þær eru góðar, og sumar jafnvel hvort sem er. Slíkar vísur eru nefndar húsgángar.[2]

Af þessu hvorutveggja leiðir, að Íslendíngar kunna ógrynni af vísum. En það er eins með vísurnar og annan fróðleik, að myndarlegra þykir að melta hann ekki með sér, svo einginn viti af, og þessvegna há kvæðafróðir menn stundum regluleg vísnaeinvígi, til þess að vita hvorir meira kunni af vísum, eða hvorir eigi hægra með að grípa til þeirra vísna, sem þeir kunna.

Þessi vísnakeppni er tvenns konar, sópur[3] og skandéríng, og er hvorttveggja nefnt einu nafni að kveðast á.

Sópurinn, sem líka er kallaðar vísnasópur, er fólginn í því að tveir[4] menn koma sér saman um að kveðast á. Annarhvor byrjar, og eru vissar vísur ætlaðar til þess. Af þesskonar vísum hefi eg heyrt:

---

[1] Eg hefi einhversstaðar lesið, að varla mundi hittast svo fulltíða maður á Íslandi, að hann hefði ekki einhverntímann hnoðað saman vísu, og mun það ekki vera fjarri sanni.

[2] Þó hefi eg einkum heyrt þær vísur nefndar húsgánga fyrir norðan, sem almenníngi er ekki ljóst hver hefir ort.

[3] Sæmundur Eyúlfsson segir, að það, sem venjulega er kallað að fara í sóp, sé kallað að fara í súpu, sumstaðar á Norðurlandi. Eptir því ætti sópur að heita súpa öðru nafni, en aldrei hefi eg heyrt það nafn.

[4] Þó eru stundum margir í sóp og skandéríngu líka, og er þá liðinu annaðhvort skipt jafnt í 2 flokka, eða margir eru á móti einum, ef það er kunnugt, að hann kunni venju fremur mikið af vísum. Sbr. Piltur og stúlka. II. útg.; bls. 23.

Komdu nú að kveðast á
kappinn dygðasnauður[1];
annarhvor skal okkar þá
eptir liggja dauður.

Komdu nú að kveðast á,
kappinn,[2] ef þú getur;
láttu gánga ljóðaskrá
ljóst í allan vetur.

Komdu nú að kveðast á,
kappinn, ef þú þorir.
Gjörðu vel við þessa þrjá,[3]
þeir eru bræður vorir.

Komdu nú að kveðast á
kvæðin okkar, stór og smá.
eitthvað það sem ekki er last.
Eigum við að skandérast?[4]

Einhver þesskonar vísa er fyrst kveðin, og svarar hinn henni með einhverri annari vísu, með venjulegu rímnalagi. Þá svarar sá, sem byrjaði. Hinn svarar aptur, og svo koll af kolli, þángað til annarhvor er uppi-skroppa, eða menn koma sér saman um að hætta. Annars eru vísurnar sjaldnast kveðnar, heldur að eins hafðar yfir eða mæltar fram; mun það vera gjört til að spara tíma. því sópurinn teygist opt lánga leingi, ef kvæðamennirnir kunna mikið af vísum, en kvæðaskapnum opt markaður tími, t. d. í kvöldrökkrum á vetrum.[5]

Einga vísu má kveða optar en einu sinni, hvorki í sóp né skandéríngu, og verður því opt ágreiníngur um það, hvort þessi og þessi vísa hafi þegar

[1] eða orkutrauður, eða orkusnauður. Sæm. Ey.

[2] Aðrir: kellíng eða kall minn. Vísa þessi er prentuð í athugasemd við Indriða og Sigrid, þýðíngu Kr. Kålunds á Pilti og stúlku. Kmh. 1874; bls. 14.

[3] Magnús Jónsson stud. jur. hefir seinna partinn svona:
öðrumhvorum okkar þá
út úr rennur gorið.
þessi vísa virðist vera kveðin í sóp eða skandéríngu, þar sem fjórir hafa verið á móti einum.

[4] J. Árn. þessar inngángsvísur eru einnig venjulega kveðnar, þegar skandéríng byrjar.

[5] Dæmi eru til þess að sami sópurinn eða sama skandéríngin heldur áfram margar kvöldvökur í röð, og eru þá upphöfin á vísum þeim, sem kveðnar eru, stundum skrifuð.

verið kveðin, ef kvæðakeppnin hefir staðið leingi. En þó verða mest vandræði út úr því, þegar annarhvor, sem stendur tæpt með vísur, fer að breyta til sléttubandavísum og kveða þær á þessa 15 vegu, sem mögulegir eru, fyrir utan aðalveginn eða aðallínuröðina.[1]

**Skandéríngin** fer fram á sama hátt og sópur, að sumu leyti, en þó er sá aðalmunur á þeim, að vísurnar, sem kveðnar eru, verða að byrja á vissum stöfum, eptir því hvernig vísa sú endar, sem hefir verið kveðin næst áður. Ef fyrsta vísan af þessum þremur vísum, sem standa hér næst á undan, er t. d. kveðin fyrst, þá verður mótstöðumaðurinn að koma með vísu, sem byrjar á *r*.[2] Hinn verður að koma með vísu, sem byrjar á sama staf og sú vísa endar á, o. s. frv.

Til er og önnur tegund skandéríngar eða skandéríng með svolítið öðruvísi sniði en sú, sem getið hefir verið um, þótt hún sé fátíðari. Þar er svarað með vísu, sem byrjar á staf þeim, sem seinasta orðið í næstu vísu á undan byrjaði á. Ef byrjað er t. d. á sömu vísu og áður er gjört ráð fyrir, þá á hinn að koma með vísu, sem byrjar á *d*, o. s. frv.

Það liggur í augum uppi, að það er miklu erfiðara að skandérast en fara í sóp, þar sem alt er óbundið öðrum megin, en alt bundið hinum megin. En þó tekur það út yfir, að hvor fyrir sig reynir til að koma með vísur, sem hann heldur að hinn eigi erfiðast með að svara. Nú byrjar ekkert íslenzkt orð á *x*, og þess vegna er sælzt til að koma með vísur, sem enda þannig eða þá á ks og gs, sem þar er látið jafngilda x. Á þenna hátt hafa **exavísurnar** myndazt, og er valla komið svo í skandéríngu, að ekki sé kveðið fleira eða færra af þeim.

Venjulega hefi eg vitað vísuna:

Rauður minn er sterkur, stór,
stinnur mjög til ferðalags;
suð'r á land hann feitur fór,
fallegur á tagl og fax,

hafða yfir svo sem inngáng fyrir exavísunum, því þá er hinn skyldur að koma með vísu, sem byrjar á x, eptir því sem áður er sagt um venjulega skandéríngu. Sams konar vísu hefi eg feingið frá Sæmundi Eyúlfssyni:

Róa skulum Rúnki minn
ríkidæmið óðum vex;
geingið hafa í garðinn inn
gömul naut og svínin sex.

Þessar exavísur hefi eg heyrt, og eru þó miklu fleiri til, eins og ráða má af einni exavísunni sjálfri:

---

[1] Sbr. Ritgjörð Benedicts Gröndals í Tímar. Bmfj. III; bls. 158—160.

[2] Þess ber að geta, að sumir láta breiða og granna hljóðstafi, t. d. a og á, vera jafngilda, en sumir ekki.

Exafræði um eg ræði,
upp mitt(!) græðgi þannig vex;
eru það gæði ef eg næði,
að eyða mæði en enda pex.[1]
Exakippu átti mann
uppfesta á silkitau,
og í lestri fyrir sér fann
fallegasta stafinn au (y).[2]
Exatippa[3] er mér sagt
allra mesta væri fox,
tíðum hafði mikla magt,
myldinn kalla jötunox.[4]
Exavísur eru hér á blaði,
samantaldar sextíu og sex;
svo eru komin nokkur ex.
Ex (x) á bókum opt eg sá
aðra stafi líka hjá,
en á slóðum baulu bekks
bragnar aldrei fundu ex.[2]
Exemplaría er við hönd;
ertu því að máta fix,
en þar við ei eg reisi rönd,
að ráða fram úr appendix.[5]
Exerses kóngur orkuframur,[6]
í augum mér hann[7] vex;
í höggi einu hildi tamur[8]
hann gat vegið sex.[9]

---

-Irs. Bmfj. í Rkv.; nr. 82. 8vo. Dr. Jón Þorkelsson yngri hefir léð mér afskrift
-ina af vísum þessum og segir, að handritið sé með hendi Jóns Bjarnasonar í
Þórormstúngu.
-Frá Sæmundi Eyúlfssyni. — Sbr. bls. 231, athgr. 3.
Exantippa. Guðmundur Magnússon cand. med. Exa(n)tippa er eflaust afbökun úr
Xanthippe og mun vera átt við konu Sókratesar, sem var allra kvenna geðverst.
Eptir handr. Jóhanns Péturssonar. Vísa þessi virðist vera eitthvað bogin, en
-eimildarmaður minn hefir altaf heyrt hana svona, og að myldinn væri sama
-em moldugur.
-Irs. Bmfj. í Rkv.; nr. 82. 8vo.
-rkuramur.
-að.
-afði opt í höggi tamur.
-undrað nærri og sex.
Bæði vísan og variantarnir eru frá Sæmundi Eyúlfssyni.

Exerus[1] fór opt á dýraveiðar.
Með honum riðu sveinar sex,
sívanir við stálapex.
Exerus reiddi bitran brand,
bragna deyddi grimmur rex,
atför greiddi' að gráum sand,
gaur ei leiddist sverða pex.
Exerus var afreksmaður í stríði;
reið hann opt um foldarfax,
fallega bar hann skjöld og sax.
Exerus var Austurríkjakóngur.
kunnugur botnum Kyrjalax',
kappsamur að rjóða sax.
Exerus[2] þreytti' odda þíng,
orku neytti hilmir strax,
ýtum veitti ofnis bíng,
otaði beittum sára lax.[3]
Exi, krókur, aungull, kló
ósjal[d]an að bilar strax,
en einatt hefir orðið þó
arnar bani sterkur lax.[3]
Exi lofa eg sízt í sjó,
sjór að borga ei er fix,
fix er eg ei þar til þó.
Þó mig vanti appendix.[3]
Exi verður að auka við
og ekki hætta ljóðasmíð;
þörf er því að leggja lið
og líka bæta orði við.[3]
Exið hefi' eg ei til taks,
en þótt bíði mið'kudags;
komdu nú til kvæðalags
og kveddu á móti exi strax.[4]
Exið hefi' eg ekki neitt,
að því máttu gæta,
af því mér er ekki veitt
Óðins vínið sæta.[5]

[1] **Exerus, Exerses** og Serexeres er afbökun úr Xerxes. og er eflaust átt við Xerxes **Persakeisara.** Sbr. Ármann á Alþingi IV. Kmh. 1832; bls, 77.
[2] **Í handr. stendur:** Xerex.
[3] **Frá Sæmundi** Eyúlfssyni. [4] Magnús Jónsson stud. jur. [5] Björn læknir Ólafsson.

Exið hefi' eg ekki til,
eigi ég að gegna strax.
Einatt situr örn við hyl
og ætlar sér að veiða lax.[1]
Exið hefi' eg ekki til,
eg verð þó að leita lags,
og nú aptur skýrt eg skil,
skal það aptur koma strax.[2]
[Exið hefi' eg[3] ekki til í eigu minni,
mér þótt gefi[4] maðurinn svinni
[magálinn af[5] henni dóttur sinni.
Exið hefi eg ekki til,
unnið getur þú mig strax,
seint eg gjöri á svörum skil,
samt skaltu' hafa þig til taks.
Exið kemur enn á kreik,
áttu því að finna ex (x).
Aldin, skógar, urt og eik,
upp af jörðu þetta vex.[2]
Exið læt eg leiðast mér,
ljóðin ætla að fúna;
af því grætur einginn hér,
að eg misti kúna.[6]
Exið mega ýtar sjá,
eyddist til þess pottur bleks,
en tvíllaust á það treysta má,
að tvennir þrír það eru sex.[2]
Exið myndað er í kross
af því þánkaruglið vex;
líka einnig lukkast oss
að lesa úr því fjóra og sex.[6]

[1] Eptir hdr. Jóhanns Péturssonar.
[2] Hrs. Bmfj. í Rkv. nr. 82. 8vo.
[3] Ex og kú (q) er. Guðmundur Magnússon, cand. med.
[4] bjóði. Sæm. Ey.
[5] magann á. S. heim. Sæmundur segir líka, að vísa þessi byrji stundum svona:
Nú er ekki tóbak til í tösku minni.
[6] Frá Sæm. Ey.

Exið rara[1] er að sjá
eins og bezta[2] silkitau.
Þegar kappar kveðast á,
kunna þeir að bjóða[3] au.[4]
Exið skrifað er í kross,
aptan stendur það við lax.
Bilar exið báða oss,
blessaður komdu með það strax!
Exið smíða er eg fix,
axarlaus það get eg strax;
sex ei mundu sálir gikks,
saxa af minni þetta fax.[5]
Exið stendur yzt í hríng
á ofurlitlum túskildíng[6];
úr exinu verður einatt pex,
exið gjörir fjóra' og sex.[7]
Exið vantar okkur núna bræður;
úr exinu verður einatt pex,
exið gjörir fjóra' og sex.[4]
Exið vantar okkur núna bræður;
þótt þú komir með sálma sjö,
samt muntu' ekki finna ö.[8]
Exið vantar opt í skandéríngu.
Exið er með öllu frá,
exið valla koma má.[4]
Exið vantar opt í skandéríngu;
úr exinu verður einatt pex,
exið gjörir fjóra' og sex.
Exið vantar opt í skandéríngu,
því er bezt að leita lags
og láta exið koma strax.

---

[1] **bara.** Dr. Jón Þorkelsson.
[2] **rara.** S. heim.
[3] **brúka.** S. heim.
[4] **Eptir handr.** Jóhanns Péturssonar.
[5] **Hrs. Bmfj.** í Rkv. 82. 8vo.
[6] *túskildíng.* Guðmundur Þorláksson cand. mag.
[7] *Dr. Jón Þorkelsson.*
[8] *Bertel Þorleifsson.*

Exið þitt er þrautin mín,
þar af mikið ángur vex;
er það mín hin mesta pín,
að má eg aldrei finna ex (x).[1]
Exið þrýtur ekki þig,
á það lít eg svona strax.
Er það skrítið, undrar mig,
ef að flýtur dauður lax.[1]
Exið þykir ágætt hnoss
ákvæða þá hríðin vex;
brúðir gefa bezta koss,
hjá brögnum ef þær lána ex.[2]
Exin bítur ekki sem mér líkar,
meitilseggin á henni vex,
eru í hana skörðin sex.[1]
Exin bresta ekki mig,
auðarlundur ver til taks,
á exum mun eg mæða þig,
mér nú svara aptur strax.[1]
Exin eru á enda kljáð
og efnið þrotið núna brags.
Blaðs er letrið býsna máð,
berðu þig að gegna strax.[1]
Exin hefi' eg allmörg til,
eitt og með get komið strax,
en hót eg ekki halda vil,
að hákallinn sé betri en lax.[3]
Exin hefi' eg ekki nóg,
ef eg á að gegna strax,
brýna verður bókar plóg,
bíta má hann eins og sax.[1]
Exin hefi' eg næsta nóg,
níutíu fimm og sex,
því er bezt að leita lags
og láta exið koma strax.[4]
Exin hefir örfa lundur
ærið mörg til brags.

[1] Hrs. Bmfj. í Rkv. 82. 8vo.
[2] Sæmundur Eyúlfsson.
[3] Jóhannes Jóhannesson stud. jur.
[4] Eptir handr. Jóhanns Péturssonar.

af þér krefur auðar þundur
aptur gegna strax.[1]
Exin liggja opt í kross,
eru mörgum þó til hags,
rart og þykir öllum oss
úngur það ef nefnir strax.[1]
Exin læt eg gánga greitt,
gegndu mér nú aptur strax;
eg kalla þér í því veitt,
ef eg á að ljá þér sax.[1]
Exin rífur rætið tré í sundur,
einatt reiðist hún til höggs,
hún kann vinna meira' en söx.[1]
Exin þessi er ei föst á skapti,
er hún því til einskis gagns,
árétta má hana strax.[1]
Ex (x) og seta (z) saman eiga' að standa,
þar á milli bósíbau[2]
bókstafur, sem heitir y.[3]
Serexer[es] vitur var,
vann hann jarla sér til plógs,
auðugri fannst einginn þar,
alt við þetta tign hans vóx.[1]
Xerxes ekki boða beið
bjó sig jafnan snemma dags;
gráum hesti hilmir reið,
hans óskert var tagl og fax.[4]
Xerxes kóngur[5] átti ost,
át hann snemma [að morgni dags,[6]
[en í middags[7] mætan kost
mildíng hafði steiktan[8] lax.

---

[1] Hrs. Bmfj. í Rkv. 82. 8vo. — [2] bjó sér baug. Jóhann Pétursson.

[3] Sunnlendíngar segja mér, að þeim hafi verið kent, að bera *y* fram *au*, þegar þeir voru að læra að lesa, ex, au, seta o. s. frv. Eg þekki ekki til þess og hefi vanizt að vísu þessari væri svarað með vísu, sem byrjaði á tvíhljóðanum *au*. »Bósíbau» hefi eg eingin ráð til að skilja, og »bjó sér baug» er litlu betra. — Á Austurlandi og að minnsta kosti sumstaðar á Norðurlandi kvað seinni hluti þessa erindis vera hafður þannig:

þar á milli bjó sér *bý* (aðrir: *bú*)
bókstafur, sem heitir *ý* (aðrir: *ú*).

[4] *Björn læknir Ólafsson.* — [5] Serex[er]es. Hrs. Bmfj. í Rkv. 82. 8vo. — [6] morgun dags. Sama heim. — [7] í middagsverðar. Sama heim. — [8] feitan. Sama heim.

Þess verður að geta, að exavísur þær, sem enda á *a*, eru kveðnar þegar annarhvor er orðinn leiður á exavísum og vill láta skandéringuna komast í venjulegt horf aptur.

En stundum kemur krókur á móti bragði, ef mótstöðumaðurinn kann einhverja exvísu, sem endar á jafnóvenjulegum staf og hún byrjar á, svo sem *z*, því þá verður hinn að koma með vísu, sem byrjar á setu. Eg hefi heyrt tvennar af slíkum vísum.

Exið sendi[1] eg aptur þér,
eikin linna fleta,
en það borgast ekki mér
utan komi seta (z).
Setu aptur sendi eg þér,
sóma vafin ýngisfrú,
en það borgast ekki mér.
utan aptur komi kú (q).

Hinar vísurnar eru þannig:

Exið við mig einatt gjörir auðgrund meta.
Í stafrofinu stendur seta.
Seta er orð, það segja má,
seta á buxum gættu þess,
seta er líka söðli á,
seta er brúkuð fyrir ess (s).

Auk þess hefi eg tvær exavísur frá Jóhanni Péturssyni, og er gjört ráð fyrir setuvísu í báðum:

Exerus kóngur einn var sá
um hann kvæði geta;
exið borgast ekki má
utan komi seta.

og

Exið vanta mun ei mig;
má því nærri geta,
að eg sættist ei við þig
utan komi seta.

Enn hefi eg feingið setuvísu úr sömu átt, sem gjörir ráð fyrir kúvísu:

Setu kveðið sízt eg get,
sú er ekki heima nú;
letin bagar lífs um flet,
Lúinn aptur gef eg kú.

[1] gef. Sæm. Ey.

Það er ekki fjarri lagi að færa hér til vísu úr handriti því, sem svo margar af exavísunum eru teknar úr (Hrs. Bmfj. í Rkv. 82. 8vo), því hún á auðsjáanlega skylt við þetta mál, þótt hún sé ekki ferskeytt.

Exa loksins óx umhugsun fixa,
axarkjaxið fax og laxinn saxar,
skerja marar skörug týru eyri,
skýr, sig býr hjá víra dýrum mýrum.
Boðnar mjöðinn, brúðurinn fríð, án mæði,
bjóði og fróðleik Óðins glóða rjóði,
ef Litars gæti lítill bátur flotið
í letur betur fetað getur seta (z).

Ekki er hlaupið að því að koma með kú(q)vísur, en þó kann eg fernar. Ein kúvísan stendur í sambandi við setuvísu. Þær vísur eru á þessa leið:

Allra handa orðagnótt
upp er vandi' að feta,
mér í anda' er ekki rótt,
í þér standi seta.
Seta standi sízt í mér,
sem að blanda hugðist þú.
Annan vanda vel eg þér,
viður branda, findu kú (q).
Kú eg út á Sökku sá,
Svei mér ef eg lýg því. nei;
dúfan mín þann dýrgrip á;
deyi aldrei það kýrgrey.

Önnur kúvísan er svar uppá exvísu, og eru þær vísur þannig:

[Exerus með einni frú[1]
átti sjálfur börn og bú,
skikkun sú er skýr og trú,
[skilst mér þetta heita[2] kú (q).
Kúinu gegna kann eg víst,
kveðið enginn getur;
skilja okkur skal nú sízt,
skandérumst við betur.[3]

Þriðja kúvísan gjörir ráð fyrir setuvísu og er svona:[4]

Kú (Q) eg hefi á höndum nú,
hér bér þess að geta,

[1] Exarus með eina kú. Sæm. Ey.
[2] skil eg þetta verður. Sama heim.
[3] Eptir hdr. Jóhanns Péturssonar.
[4] Eptir hdr. séra Einars Friðgeirssonar.

en eg vil stafinn aptur þú
eignist, það er seta (z).

Fjórða kúvísan gjörir ráð fyrir exvísu og er frá Sæmundi Eyúlfssyni:

Kúið rara kemur þar að bragði,
á fögrum marar súðum sex;
svo er bara komið ex.

Enn er til kúvísa, þar sem gjört er ráð fyrir sé(c)vísu, og er hún þannig:

K(Q)onu sinni kappinn varð að láta,
kollótt ofan, kú í té;
kýs eg aptur frá þér sé.[1]

Til er og exvísa, þar sem búizt er við eð(ð)vísu, og er ekki hlaupið að því að svara henni, því ekkert orð byrjar á eð:

Exið deyfir ýmsra lund,
ekki fæ eg betur séð,
til að kæta karl og sprund,
komdu bara fljótt með eð.[1]

Loksins eru til tvær exavísur, þar sem gjört er ráð fyrir sé(c)vísum:

Exið mitt er ekki stórt,
exið hefi' eg brúkað fort,
hegg eg með því hrís og tré,
eg held þú verðir að koma með sé(c).

Exið skaltu aptur fá með skilum,
skömm er að halda skuldafé,
skaltu fá í viðbót sé.

Sæmundur Eyúlfsson, sem eg hefi feingið báðar þessar vísur frá, segist hafa heyrt vísuna:

C fyrir framan o, ú, á
eins hljóðar og væri ká (k),
en fyrir framan e, æ, í
sem essi skaltu kveða að því

hafða fyrir sévísu í skandéríngu, og er það sú eina sévísa, sem eg þekki.

Ef annarhvor verður uppiskroppa með vísur og getur ekki svarað, þá kveður hinn hann í kútinn, en til þess þarf hann að kveða 3 vísur, sem byrja á sama staf og vísa sú, sem hinn á að koma með. Ef hann getur það, þá er mótstöðumaðurinn kominn í kútinn. Ef mótstöðumaðurinn getur aptur kveðið 6 vísur, sem byrja á sama staf og þær, sem hann var kveðinn í kútinn með, eptir stuttan umhugsunartíma, þá kveður hann sig úr kútnum[2]

---

[1] Eptir hdr. Jóhanns Péturssonar.

[2] Til er líka kútur í sóp, en 6 vísur þarf til að kveða í hann og 12 til að kveða sig úr honum aptur. Dr. Kr. Kålund segir í athgr. við þýðingu hans á Pilti og

með þeim; hefst þá skandéríngin að nýu. Ef hann getur ekki kveðið sig úr honum, þá er hann í honum til eilífðar og þykja það óyndisúrræði. Ef sá, sem á að lenda í kútnum, getur komið með vísu, meðan verið er að kveða hann í hann, þá er hann sloppinn í það skipti.

Til kútsins lýtur vísa þessi:

Eg skal yrkja og ykkur styrkja piltar,
liljur spjalda kveða í kút,
svo komist aldrei þaðan út.

Sumir láta þann, sem ekki getur svarað, vera kominn í kútinn og kveða hann því ekki í hann. Aptur á vesalíngurinn í kútnum þá á eingan hátt apturkvæmt úr honum.

G. D. segir, að ef annarhvor þeirra, sem skandérast, verði uppiskroppa með vísur, þá megi hinn kveða hann í tunnuna, kvartilið eða kútinn. 4 vísur þurfi til þess að kveða í tunnuna, 16 til þess að kveða í kvartilið, en í kútinn kemst hann ekki, nema kveðnar séu 30 vísur, sem allar verða að byrja á tilteknum staf, eins og áður er sagt. Sama á sér náttúrlega líka stað með tunnuvísurnar og kvartilsvísurnar.

Ekki mun það vera allra meðfæri að skandérast á latínu, en þó eru dæmi til þess. Þegar Magnús Stephensen var við nám í Skálholti, æfðu þeir sig við að »skandérast í latínskum versum«, Vigfús og Guðmundur synir séra Jóns Högnasonar á Hólmum, Helgi Bjarnason (seinna prestur á Reynivöllum) og Magnús sjálfur. Loksins urðu þeir svo fimir í þessu, »að þótt fleiri settust að einhverjum þeirra við skandéríngu, útbúnir með ýmisleg latínsk skáldaverk í höndum, tókst þeim vart nokkurn einn þeirra að yfirbuga, því hann orti jafnótt við, með upphafsbókstaf þeim, er vantaði; líka gjörði æfíng og vani þeim öllum um síðir jafnauðvelt að talast við í latínskum versum, eins og í sundurlausri ræðu.«[1]

## 6. GREIN.

### SAUNGUR OG HLJÓÐFÆRASLÁTTUR.

Það er erfitt að rita um saunglist Íslendínga svo í lagi sé, því um það efni er ekkert til, svo mér sé kunnugt, nema ef telja skyldi einstaka greinir í blöðunum, en þær eru alveg á stángli og auk þess mest um kirkjusaunginn.

stúlku, bls. 14, að 7 vísur þurfi til að kveða í kútinn. Það þekki eg ekki, og getur þó vel verið að það sé rétt, því slíkar reglur geta verið nokkuð misjafnar í hverri sveit, eins og lætur að líkindum.

[1] Tímarit Bmfj. IX; bls. 206.

Þar við bætist, að sá, sem ritar þetta, er allra manna ófróðastur í saungfræði. En það tjáir ekki að tala um erfiðleikana. Saungur er skemtan, sem tíðkast talsvert á Íslandi, og verður því að minnast hér á hann.

Í fornöld fara litlar sögur af saung Íslendínga. Þó hefir eitthvað verið feingizt við hann, því bæði er það fært í frásögur, að Richini prestur, franskur maður, hafi kent saung í skóla þeim, sem Jón biskup helgi Ögmundsson stofnsetti á Hólum,[1] og svo er þegar getið nokkurra saungmanna í fornöld.[2] Saungur sá, sem kendur var, var katólskur messusaungur, enda var sá saungur tíðastur um þær mundir, þótt víðar sé leitað en á Íslandi. Nótur við katólskan messusaung koma víða fyrir í gömlum skinnbókum, og skal eg nefna nokkrar, til dæmis, sem svo er varið. Þær eru allar í safni Árna Magnússonar. Í 241a fol., sem er frá byrjun 14. aldar, eru meðal annars nótur við Þorlákstíðir, eða latínsk kvæði, sem voru súngin á Þorláksmessunum 20. júlí og 23. desember. Þorlákstíðir eru alllángar, 23 bls., og væri vert að gefa þær út með nótunum. Dr. Jón Þorkelsson ýngri hefir látið prenta nokkur erindi nótnalaus.[3] 241b fol. er brot af ýmsum guðfræðisritum frá 13.—15. öld Þar eru víða nótur, meðal annars við brot af tíðum Ólafs kóngs helga og heilags Hallvarðar. Í 249 fol. eru líka nótur, bæði í mII og gc. Aptan við 175a 4to eru nótur við upphaf á latínskum sálmi. Handrit þetta er frá 1400, á að gizka. Í 622 4to eru nótur við mörg kvæði. Þau eru flest latínsk, en sum dönsk. Þar eru líka nótur við tvö kvæði (Maríuvísur), sem eru hálfíslenzk og hálflatínsk. 76 8vo er pappírshandrit. Þar eru víða nótur við latínska sálma. Eg veit ekki nema þetta seinasta númer sé danskt, því mikið af því er á dönsku.

Við dansa þá, sem getið er um á einstaka stað, t. d. í Sturlúngu, hafa líka eflaust verið einhver lög, en nú munu þau öll vera úr minni liðin. Líklega hafa þau verið nokkurskonar vikivakalög. Að fornmenn hafi haft talsverðar mætur á saung og hljóðfæraslætti sést meðal annars á því, að þar sem fornrit vor minnast á himnaríki, láta þau það optast nær kveða við af fögrum hljómum. Til dæmis má taka það, sem stendur í Duggals leizlu, þótt hún sé ekki beinlínis norræn að uppruna: »Í þessum búðum[4] gengu þjótandi með margskonar hljóðum alls konar strengleikar: hörpur, gígjur, simphonia, organa, salterium, pípur, með hinum sætustum hljóðum,«[5] og náttúrlega hljómuðu öll þessi hljóðfæri »án manna höndum«, eins og stendur nokkrum línum seinna.

Katólski kirkjusaungurinn eða latínusaungurinn leið undir lok við siðabótina, eins og eðlilegt er, en lúterskur saungur kom í staðinn, og mætti

[1] Biskupasögur I; bls. 239—240. Sbr. bls. 168.
[2] Þeir verða bráðum nefndir.
[3] Digtningen på Island; bls. 23.
[4] Þ. e. himnaríki.
[5] Konráð Gíslason: Sýnisbók. Kmh. 1860; bls. 455₁₂—₁₄. Sbr. bls. 456₅—₆.

ef til vill kalla hann grallarasaung,[1] því meira var súngið á grallarann í kirkjum og heimahúsum, en »sálmabækurnar«, alt fram á byrjun þessarar aldar. Fyrst framan af var þó latínusaungurinn við lýði jafnframt grallarasaungnum. Í II.—V. útgáfu af grallaranum[2] er prentað talsvert af latínusaung, og segist Guðbrandur biskup gjöra það til þess, »ad Latynusaunguren leggest ecke med öllu fyrer odal og falle nidur«. Í VI. útgáfu af grallaranum, Skálholti 1691, er aptur lítið um latínusaung, og færir Þórður biskup Þorláksson það til sanns vegar í formálanum,[3] á þessa leið: »Latinu Saungur er j þessum Grallara undañfelldur, nema a Stor-hætijdum, z er sa Latinske Saungur ovijda brukadur hier j Lande. fyrer utañ Domkyrkiur bædar. hvar flester [eru Intelligentes lingvæ Latinæ.[4] og þvi Syndest mier ecke ölldungis ad aftaka þañ Latinu Saung, so nockur Greinarmunur giördest midle stor Hætijda z añara helgra Daga, einkum þar vier hier j Lande, höfum ecke [instrumenta Musicæ artificialis vel organicæ.«[5]

1589 kemur út á Hólum: »Ein ny Psalma-Bok« fyrir tilstilli Guðbrandar biskups Þorlákssonar. Þar eru fyrst prentaðar nótur á Íslandi, og við íslenzk ljóð,[6] en það eru fáir sálmar, til þess að gjöra, sem nótur eru við. Miklu meira er af nótum í grallaranum.

Fyrsta útgáfa af grallaranum kemur út á Hólum 1594. Framan við hann er formáli eptir Odd biskup Einarsson[7] og heitir: »Vm þañ Psalma Saung sem tijdkast j Kristeligre Kirkiu, nockur Vnderuijsun af lærdra Manna Bokum, þeim til Frodleiks, sem þad hafa ecke sialfer lesid.« Formáli þessi er það fyrsta, sem prentað er á íslenzku um saung, en annars er lítið á honum að græða. Biskupinn talar mest um saung hjá Gyðíngum og í kirkjum í fornöld, en kennir alls ekki að þekkja nótur, né syngja eptir þeim. Nótur eru valla nefndar í pistlinum. Það eru að eins tvær setníngar hjá Oddi biskupi, sem vert er að taka eptir. Á öðrum staðnum segir hann, að »vier eigum ad forleggia alla þa Saungua edur Psalma, sem ecke eru Gudz Orde samhliodande,« allan verzlegan saung með öðrum orðum. Á hinum staðnum varar hann við að syngja í kirkjum »med margslungnu Hliodum,

[1] Í Ættartölubókum Jóns Espólíns (Hrs. Bmfj. nr. 12. 4to; bls. 3452. nr. 15; bls. 5852, 5874) er getið um Jón nokkurn grallara. Hann hefir þó víst ekki feingið viðurnefni sitt af grallarasaungnum?

[2] Hólum 1607, 1623, 1649 (1651), 1679.

[3] Bls. Aiij.

[4] skilja latínska túngu.

[5] hljóðfæri.

[6] því eingar nótur eru í sálmakverum þeirra Marteins biskups Einarssonar. Kmh. 1555 og Gísla biskups Jónssonar. Kmh. 1558.

[7] það er víst misskilníngur, sem Hallgrímur Jónsson segir í Fræðimannatali sínu, bls. 224, að til sé á prenti um saung eptir Guðbrand biskup. Hann hefir víst ruglað þeim saman biskupunum.

klinku notum og añare Hliodaña vm̃breytne.« Mér er ekki ljóst hvað biskupinn á hér við. Það er þó víst ekki tvísaungur? Pistill Odds biskups er að minnsta kosti framan við sumar[1] útgáfur af grallaranum, alt fram að XII. útgáfu, 1732, en úr því er honum slept.

Aptan við VI. útgáfuna af grallaranum er: »APPENDIX Sem er Stutt Vndervijsun um̃ einfalldañ Saung, fyrer þa sem lijted edur Eckert þar um lært hafa, eñ gyrnast þó Grundvölleñ ad vita og sig framar ad ydka.« Appendix þessi er 7 blaðsíður. Hann er eptir Þórð biskup Þorláksson, sem gaf út útgáfu þessa, og má heita fyrsta saungfræði, sem prentuð hefir verið á íslenzka túngu, því hér er kent að þekkja nótur, og drepið á, hvernig sýngja á eptir þeim. Hér er getið um tónstiga (gamma[2]), linan og harðan saung (dúr og moll) o. s. frv., en mjög er fljótt yfir sögu farið, eins og við er að búast, þegar um jafnstutt mál er að ræða.

Appendix Þórðar biskups er prentaður orðrétt aptan við allar útgáfur af grallaranum, sem komu út eptir 1691, eða 13 útgáfur,[3] og var sú ein saungfræði, sem Íslendíngar höfðu við að styðjast í hálfa aðra öld. Reyndar segir Hallgrímur Jónsson,[4] að séra Ólafur Brynjúlfsson að Görðum á Akranesi († 1783) hafi ritað um íslenzka saunglist, en ritgjörð hans hefir sjálfsagt ekki breiðzt mikið út, og er ekki til nú, eptir því sem eg veit bezt.

Eptir grallarasaungfræðinni var saungur kendur í Hólaskóla og Skálholtsskóla.[5] Það hefir að öllum líkindum að eins verið sálmasaungur og mestmegnis útlendur sálmasaungur. Lög þau, sem hafa verið kend, hafa sjálfsagt að eins verið lög þau, sem eru í grallaranum sjálfum, en þau munu flest vera útlend. Reyndar segir Pétur Guðjónsson í bendíngum þeim, sem standa aptan við Sálmasaungs- og Messubók, um uppruna laganna í bókinni, að hann hafi hvergi fundið sum lögin,[6] nema í grallaranum, eða þá í Hólabókinni 1589 og 1619, og hafði hann þó sér til stuðníngs sand af útlendum nótnabókum, fornum og nýum. Sum af lögum þessum eru eflaust íslenzk, eins og Pétur getur til, en sum löguð (eða þá aflöguð) af Íslendíngum, en á hinn bóginn er ómögulegt, að Pétur Guðjónsson hafi haft við hendina öll heimildarit um gamlan kirkjusaung, og getur því vel verið, að mörg af lögum þeim, sem hann hefir ekki fundið nema í íslenzkum bókum, fyndust í gömlum nótnabókum útlendum, ef betur væri rannsakað. Að minnsta kosti er óhætt að fullyrða, að flest grallaralögin séu útlend.

[1] Þær eru ekki allar til hér í Höfn.
[2] Tónstiginn var kallaður gammi, því neðsti tónninn hét gamma (γ eða grískt g).
[3] Seinasta útgáfan (XIX. útg.) er prentuð á Hólum 1779.
[4] Fræðimannatal; bls. 895. Sbr. Skiagrafíu Hálfdans Einarssonar. Havniæ 1777 bls. 177.
[5] Ari Sæmundssen: Leiðarvísir. Akureyri 1855; bls. 5. Pétur Guðjónsson: Íslenzk Sálma-saungs og Messubók. Kmh. 1861; bls. 2—3.
[6] Lög þessi eru nr. 3. 7, 11, 43, 47, 49, 52, 56, 67, 83-84, 89a, b, 91-96, 98-100.

Pétur Guðjónsson efar annars, að grallaralögin hafi nokkurn tímann verið súngin rétt eptir nótunum, og jafnvel að það hafi verið mögulegt upp í síðkastið. Í öllum útgáfum af grallaranum eru nóturnar táknaðar á sama hátt, og voru þó táknanir þessar úreltar, laungu áður en fyrsti grallarinn kom út. Nú hefir Pétur Guðjónsson það fyrir satt, að saungur sá, sem kendur var í skólunum (Hóla og Skálholtsskóla) hafi verið fólginn í því, að læra grallarasaunginn »eins og lögin höfðu verið súngin mann fram af manni, um lánga æfi,« en ekki höfð hliðsjón af nýrri saungritum.[1] Afleiðíngin af þessu var, að menn týndu niður að læra grallarasaunginn eptir nótunum. Þeir, sem voru úngir og uppvaxandi, höfðu lögin eins og eldri mennirnir höfðu þau, en nú kunnu þeir þau ekki rétt. Lögin afbökuðust altaf meir og meir, þángað til laga ómyndir þær, sem tíðkuðust alt fram á okkar daga, og tíðkast, ef til vill, sumstaðar ennþá, komu í staðinn fyrir grallaralögin, sem voru þó að minnsta kosti skárri, þótt þeim kunni að hafa verið áfátt.

Í Reykjavíkurskóla eldra og Bessastaðaskóla, var ekki einu sinni borið við að kenna saung.[2] og er merkilegt. »Viljinn til þess góða« var þó í Hólaskóla og Skálholtsskóla, þótt »kraptinn til að framkvæma« vantaði.

Nú hefir verið skýrt frá því, hvað gjört var til að kenna Íslendíngum saung frá því fyrsta, fram á þessa öld, en eptir er að rannsaka hver afleiðíngin varð, hvernig Íslendíngar súngu á tímabili þessu.

Það var ekki við öðru að búast, en þeir sýngju illa. Ekki vantaði hljóðin, því Íslendíngar hafa verið og eru enn í dag raddmenn, að öllum jafnaði, eins og títt er með fjallaþjóðir, en þeir kunnu ekki að beita hljóðum sínum. Þeir voru örfáir, sem þektu nótur. Fæstir súngu í »takt«. Þeir höfði ekki, í einu orði, hugmynd um saungfræðina, eins og hún var þá hjá mentuðum þjóðum.[3] Þeir voru mörgum öldum á eptir tímanum.[4]

Eg hefi að eins rekið mig á einn stað,[5] þar sem kirkjusaungur Íslendínga í gamla daga er ekki skammaður niður fyrir allar hellur. Nicolaj Mohr, færeyskur maður, ferðaðist um Ísland 1780—1781, til að rannsaka náttúru landsins, og fer hann þessum orðum um kirkjusaunginn: »Kirkjusaungurinn er venjulega í allgóðu lagi, því nóturnar við þann og þann sálm i grallaranum, standa við fyrsta versið, en eptir honum hafa flestir prestar lært að sýngja í skólanum. Þeir, sem hafa bezt hljóð, sitja opt uppi í kór,

---

[1] Sbr. Island i det 18. Aarhundrede; bls. 225,

[2] Ari Sæmundssen; Leiðarvísir. Akureyri 1855; bls. 5. Sbr. Íslendíngur IV; bls. 26.

[3] Sbr. Troil: Bref rörande en resa till Island; bls. 70 og Island i det 18. Aarhundrede; bls. 221—225.

[4] Saungfræði Þórðar biskups, aptan við grallarann 1691, styðst við kenníngar ítalsks múnks, sem hét Gui d'Arezzo, og var uppi snemma á 11. öld.

[5] Nema ef vera skyldi Norðanfari IX; bls. 81. Þar segir að »félagssaungur eða kórsaungur hinna gömlu laga hafi ekki æfinlega farið svo illa«, en annars er greinin alveg á móti gamla saungnum.

við hliðina á prestinum — —. Íslendíngar sýngja reyndar ekki sérlega skemtilega, því saungur þeirra er laus við alt, sem kallað er skemtilegt á vorum dögum, en kirkjusaungur þeirra fer eins skipulega fram og auðið er, hljóðfærislaust.«[1]

Öllum öðrum ber saman um að saungur Íslendínga hafi verið mesta ómynd. Magnús Stephensen segir t. d. að það komi fyrir, að »hverr gauli í belg og kjeppist máta- og adgreiníngar laust, sumir ad grípa hverr fram fyrir annann, og endina á lopti, stundum í midjum ordum og meiníngum, og sumir ad draga seyminn í saung, hverr ødrum lengur.«[2] Skömmu seinna segir Magnús: »Þad er ljótt bædi ad heyra og sjá, þegar saungvarar kúga upp skræki á stángli med uppblásnum ædum á høfdi og øllu andliti af ofraun — —; en svo sem þetta er opt um of, svo er þad allt eins um van, þegar saungurinn verdur ad ólundar rauli í lægstu nótum.«

Svipað er komizt að orði víða í blöðunum, og þykir mér réttast að færa hér til þessar lýsíngar á gamla saungnum, þótt þær séu frá miðri þessari öld, því grallarasaungurinn eða gömlu lögin voru víðast hvar við lýði fram yfir 1860. Sumstaðar var jafnvel súngið á grallarann sjálfan. Þannig stendur í lýsíngu Kálfholtssóknar 1857: »Hér er aldrei annað súngið en gamli grallarinn, í kirkjum og heimahúsum á helgidögum.«

Einna bezt grein um gamla saunginn[3] er í IX. árgangi af Norðanfara, nr. 38—42, og leyfi eg mér að taka hér upp kafla úr henni: »Lagamyndir þessar (sálmlögin eins og þau voru súngin) eru reyndar nokkurskonar lagleysur, með óteljandi dillanda og hrínglanda, upp og niður, stundum nærri því sitt lag í hverju vessi í sama sálmi, og víst sjaldgæft að sami saungmaður sýngi sama lagið ætíð eins, heldur hefir saungur þessi í sér það frjálsræði, að það má þá og þá bregða sér á leik, þar og þar, upp eða niður úr, stundum svona, stundum hins vegar, rétt eins og andinn inngefur í það og það skipti, en sá andi er ýmist andi heimskunnar, vanþekkíngarinnar eða tilgjörðarinnar, en ávalt andi smekkleysisins. Af því lögin eru svona laus og hrínglandi, þá flýtur af því, að hver leikur sér í lögunum upp á sinn hátt, eptir því sem hans eigin andi gefur honum inn, svo að þegar sumir leika sér upp eptir, þá leika aðrir sér niður á við, og hver fer í sína áttina, og stundum verður einginn öðrum samróma, mikinn part af því, marg opt, að hver vill vera sinn eigin herra, í þessu sem öðru, og hafa það frjálsræði að sýngja eptir sínum vilja og smekk, en ekki annara, en laga sig ekki eptir öðrum, sem betur sýngja og smekklegast. Það er allopt svo í kirkjum, að það er ekki nóg með það, að sinn hefir eiginlega hvert lagið, eða lagmyndina, að nokkru leyti frábrugðið, hver uppá sinn hátt, heldur og keppist stundum hver fram yfir annan, svo einn eða tveir eða svo eru leingst á undan, en

[1] Forsøg til en Islandsk Naturhistorie. Kmh. 1786; bls. 372—373.

[2] Messu-saungs og Sálma-bók. Leirárgörðum 1801; bls. 282—283.

[3] Því saungur sá, sem Pétur Guðjónsson kendi út frá sér, var kallaður nýr saungur.

forsaungvarinn sjálfur þó, ætla eg, sjaldnast í þeirra tölu; nú, þeir stökkva fram yfir hann, þrátt fyrir hans þakk, rétt eins og í veðhlaupi — — —. Svona sýngja menn stundum, rétt eins og í smáhópum, þar sem hver hópur sýngur á undan öðrum, svo dæmi munu til, að þegar hinir fyrstu eru búnir með vess eru hinir síðustu í miðju vessi, svo að þeirra, sem bezt og réttast sýngja, gætir ekki, eða þeir þagna, af því þeim líkar ekki saungurinn. Þegar hver út af fyrir sig sýngur þannig í sjálfræði, reglulaust, upp á sinn eigin hátt, mætti svo kalla, sem sérhver saungmanna þessara sé lagasmiður (Kompónist); hver býr til sitt lag.«[1]

Önnur góð grein um sama efni er í Norðlíngi, og stendur þetta í henni: »Það er óheyrilegt hvernig menn, sem annars hafa ekki afleit hljóð, afskræma þau með allskonar hnykkjum og rykkjum og dillandi viðhöfn — — —. Það er reglulegt hneyxli að heyra, hvernig saungurinn fer víða fram í kirkjunum. Þar er einatt sálmalagið súngið rammskakt og skælt. Sumir eru á undan í vessinu, sumir á eptir, sumir streytast við að belja sem barkinn þolir og hafa lángar lotur, en þó tekur út yfir, þegar einhver, sem hyggst hafa meiri og merkilegri hljóð en hinir, rekur upp gól með glymjandi rödd, sem kallað er að fara í tvísaung. Vér viljum reyndar eigi neita, að tvísaungur, þegar rétt er súngið, getur verið allfallegur — —, en í kirkjum á hann eigi við.«[2]

Sams konar greinir eru á hverju strái í blöðunum, og læt eg mér að eins nægja að benda á þær, því efnið er allstaðar það sama, að sálmasaungurinn hafi verið orðinn líkari útburðarveini, en lofsaung siðaðra manna.[3]

Í Norðanfaragreininni, sem kaflinn var tekinn úr, er hálfpartinn tekið máli forsaungvaranna, en aðrir kenna þeim, að minnsta kosti að nokkru leyti um ólag það, sem var á saungnum.[4] Hér má líka minna á tvö kvæði um afkáralegan saung forsaungvara, annað eptir séra Sigfús Árnason,[5] en hitt eptir Jónas Hallgrímsson.[6]

---

[1] Norðanfari IX; bls. 75.

[2] Norðlingur I; bls. 235—236.

[3] Norðanfari XV; nr. 40. Hinar greinarnar, sem eg hefi rekið mig á, eru í Ársriti presta í Syðra-Þórnesþíngi. Rkv. 1846; bls. 33—48 og svo í Norðanfara XI; nr. 19—20. XV; bls. 59 og XXII; nr. 27—28. Flestar af greinum þessum og sams konar greinum, sem sjálfsagt eru til og frá um blöðin, eru þó alt of geystar. Það er eins og höfundar þeirra haldi, að alt sé feingið með fögrum saung. Í seinustu greininni, sem vitnað er til, er þannig sagt, að saungurinn gjöri menn hógværari, bliðlyndari, siðsamari, skynsamari, lipra og fjölhæfa. Það mátti ekki minna vera.

[4] t. d. Norðanfari XI; nr. 12.

[5] Snót. II. útg. Rkv. 1865; bls. 255—58. Séra Sigfús Árnason er ekki nefndur í Prestatali séra Sveins Nielssonar. Hann drukknaði úngur í Lagarfljóti 1822. Sbr. Árb. Espólíns XII; bls. 105, 131.

[6] Ljóðmæli. Kmh. 1883; bls. 159—161.

Híngað til hefir mest verið talað um sálmasaung, og sýnist, ef til vill, sumum að það eigi ekki við að tala um hann í safni þessu, en þess verður að gæta, að það lítið, sem til var af verzlegum saung á tímabili því, sem talað hefir verið um, stóð í nánu sambandi við sálmasaunginn. Hvorttveggja var skrifað með grallaranótum. Hvortveggi saungurinn var lærður á grallarasaungfræðina, hvortveggi var súnginn jafnafkáralega, eins og pistill séra Jóns Þorleifssonar drepur á,[1] og loksins var sálmasaungurinn nokkurs konar inngángur til verzlegs saungs. Mér þótti því hlýða, að minnast á sálmasaunginn, áður en eg gat um hinn.

Það var mjög lítið um verzlegan saung á Íslandi alt fram á þessa öld, þegar þjóðlög vor og svo tvísaungur eru skilin undan. Við vikivakana hafa líka sjálfsagt verið lög, en þau eru flest týnd nú, og auk þess verður þeirra fáu, sem enn eru til, getið seinna í safni þessu, þar sem vikivökum verður lýst. Þjóðlög vor minnist eg á, þar sem eg get um lagsmíði Íslendínga, og eins tvísaunginn, því þótt hann sé útlendur að uppruna, þá eru þó mörg tvísaungslög alveg íslenzk. Hér þarf því að eins að gæta að, hvort Íslendíngar hafi ekki súngið útlend lög verzleg á tímabili þessu, og svo drepa á meðferð þeirra á lögum þeim, sem súngin voru.

Um fyrra atriðið er eg fremur ófróður. Eg þekki að eins eitt gamalt handrit íslenzkt, þar sem verzleg lög eru á nótum. Handrit þetta er á háskólabókasafninu í Kmh., nr. 98 í handritasafni Rasks, og heitir: »MELODIA. Nockrer ütlendsker Tonar med jislendskum skäldskap, og marger af þeim nitsamleig(er) til andlegrar skiemtunar.« Í handriti þessu eru þó líka sálmalög, eins og titillinn ber með sér. Flest af veraldlegu lögunum er sagt að séu »Jóns Ólafssonar tónar«, og er það er víst svo að skilja, að einhver Jón Ólafsson[2] hafi skrifað bók þá, sem lög þessi voru rituð upp úr. Sumt af lögunum er tekið upp úr Kvæðabók séra Ólafs Jónssonar á Söndum (í Dýrafirði, † 1627), en sumt er »hiedan z þadan saman tekið«. Handritið er víst frá miðbiki 17. aldar. Als eru á því 225 lög. Sjálfsagt hafa lög þessi ekki breiðst út að nokkru marki, eða að minnsta kosti ber öllum, sem minnast á verzlegan saung Íslendínga á 18. öldinni, saman um, að hann hafi verið mjög bágborinn. Eggert Ólafsson segir þannig:

Fyrir saunglistar sætan eim
svarta galls-raul er helzt í þeim,[3]

og á þar sjálfsagt við rímurnar. Magnús Stephensen segir, að Íslendíngar sýngi ekki annað en sálmalög og það rammskakt eða rímnalög.[4] Það var ekki gull í skel.

---

[1] Ljóðmæli. Kmh. 1868; bls. 169—170.

[2] Dr. Jón Þorkelsson ýngri segir, að þessi Jón Ólafsson sé sonur séra Ólafs á Söndum. Om Digtningen på Island. Kmh. 1888; bls. 256.

[3] Kvæði. Kmh. 1832; bls. 32.

[4] Island i det 18. Aarhundr.; bls. 226. Sbr. Norðanfara XV; bls. 59.

Á ofanverðri 18. öld fer verzlegum saung svolítið að kippa í liðinn. Í Eptirmælum 18. aldar lætur Magnús Stephensen Ísland segja: »Þó ødladist eg, þín seinustu ár, til umskipta, líflegri og saunglegri løg ýmisleg til gaman- og gledi-saungva, ad útlendra þjóda hætti, enn mín fyrri ósaunglegu rímn-aløg bjóda,«[1] og í dönsku útgáfunni[2] stendur, að íslenzku félögin[3] hafi. seinustu áratugi aldarinnar. kostað kapps um að flytja inn í landið falleg útlend lög, en þeim hafi ekki verið vel tekið, og breiðist þau því seinna út en skyldi.

Magnús Stephensen bendir hér til þess, að bæði félögin tóku upp í rit sín kvæði, ýmist þýdd eða frumsamin, sem ort voru undir bragarháttum, sem þá voru óþektir á Íslandi. Skólapiltar og aðrir breiddu út lögin við kvæði þessi, og fór nú skemtilögum óðum að fjölga í landinu. Í VIII. bindi af Ritum þess Konungliga Islenzka Lærdóms-lista Félags, Kmh. 1788, eru nótur við lagið: »Þrent eg trúi' og treysti á«, og eru það fyrstu nótur, sem eg veit til að prentaðar hafi verið við íslenzkt kvæði verzlegt.[4] Það mun mega fullyrða, að það hafi verið Magnúsi Stephensen að þakka, að nótur þessar voru prentaðar.[5] Í ritum Magnúsar Stephensens man eg hvergi eptir nótum, en bæði í Vinagleðinni og Gamni og Alvöru[6] er margt af bragarháttum, sem þá voru ekki þektir á Íslandi. og segist Magnús beinlínis ætlast til að þeir verði til að bæta saungsmekk Íslendínga. »Spyrji nockurr, því skáldin í Vinagledinni hafi ei orkt þessi 7[7] stycki undir kunnugum íslendskum løgum? voga eg fyrir alla hlutadegendur ad svara: ad þeirra tilgángur var ad fiølga gladværdar løgum í landinu, sem enn á, því midur! hvørki né þeckir eitt, né heldur eitt danslag, en ecki ad útnída lystug, nett og þánka-rík efni med verds-legra laga grátkiøklandi edur og rímnagóls tónum, og sídur ad velia þeim andaktar psálmaløg.« Og skömmu seinna segir Magnús: »Nótur máttu fylgia, en þegar Grallararnir sýna, ad vor fánýti saungur þeckir engann takt, án hvørs gód hliód verda óhliód og dírdlegir lofsaungvar greniast fram, fari þá vel øll saunglist og allur íslendskur nótusaungur! fáum þá blindum nótna-bók! þylium heyrnarlausum æfintýri!«[8]

Sjálfsagt hefir nýbreytni Magnúsar Stephensens verið tekið illa, í þessu eins og sumu öðru, en þó hefir hann eflaust komið miklu til leiðar, að því

---

[1] Bls. 559—560.

[2] Island i det 18. Aarhundr.; bls. 227—28.

[3] Það Íslenzka lærdóms-lista félag og hið Íslenzka landsuppfræðingar-félag.

[4] Í X. og XII. bindi af ritum félagsins eru líka kvæði með bragarháttum, sem þá hafa verið nýir af nálinni á Íslandi.

[5] Sbr. Tímarit Bmfj. IX; bls. 265.

[6] Margvíslegt Gaman og Alvara — —. I. Leirárgörðum. 1798. II. Beitistöðum. 1818. Meira kom ekki út.

[7] Í bókinni eru 7 kvæði með útlendum bragarháttum.

[8] Skémtileg Vina-Gledi. I. Bindi. Leirárgörðum. 1797. Meira kom ekki út.

er saungbót snerti. Hann átti þannig, eins og kunnugt er, mestan þátt í Sálmabókinni 1801.[1] Hún átti að koma í staðinn fyrir grallarann og kom það líka með tímanum. Í bók þessari eru þrjú lög með nótum. Aptan við hana er: »Einføld Utskíríng yfir þau 3 nóterudu Sálma Løg, sem finnast í Bókinni, og um reglulegan Sálmasaung.« Pistill þessi er eflaust eptir Magnús sjálfan, og er ágrip af saungfræði, og svo ýmsar reglur um saung, en fljótt er yfir sögu farið, því greinin er ekki nema 9 blaðsíður. Þetta var fyrsta ritgjörð um saungfræði, sem komið hafði á prent á Íslandi, frá því grallari Þórðar biskups Þorlákssonar kom út 1691,[2] og hér er Íslendíngum fyrst bent á nótnamerki þau, sem nú tíðkast, »takt« og fleira, sem liggur til grundvallar fyrir öllum saung á vorum dögum. Þrátt fyrir það voru þó grallaralögin súngin alt fram á okkar daga í kirkjum og heimahúsum, og hefir það bæði komið af fastheldni við gamlan vana, og svo af því, að ekki voru til á íslenzku nótnabækur eptir nýa sniðinu, fyr en alveg upp á síðkastið.

Eitthvert íslenzkt skáld hefir kallað Pétur Guðjónsson »föður saungs á Ísamold«, í kvæði til hans, og er það hverju orði sannara, því það er víst einginn efi á, að það er honum að þakka, að saunglist Íslendínga hefir farið svo mikið fram, síðan um miðja þessa öld. Pétur Guðjónsson var líka vakinn og sofinn í því, að kenna saung og hljóðfæraslátt, og starfa með öllu móti að því, að bæta saungsmekk Íslendínga.

Þegar skólinn var fluttur frá Bessastöðum til Reykjavíkur 1846, var Pétri Guðjónssyni falið á hendur, að kenna skólasveinum saung,[3] og lagði hann framt á það, því það lá í augum uppi, að skólapiltar voru allra manna bezt fallnir til að breiða saunglistina út um Ísland. Þeir voru vísastir til að kenna út frá sér, bæði þegar þeir voru heima á sumrin, og ekki síður þegar þeir voru orðnir embættismenn út um alt land. Þetta gekk líka að óskum. Fyrir tilstilli Péturs Guðjónssonar urðu margir skólapiltar gæðasaungmenn, og hafa eflaust átt mikinn þátt í því, að kenna lög upp til sveita, og yfir höfuð að bæta saungsmekk Íslendínga, bæði að því er snertir andlegan saung og verzlegan.

2. apríl 1854 súngu skólapiltar fyrir bæarmönnum í lánga loptinu[4] undir forustu Péturs Guðjónssonar, og þótti takast vel.[5] Þetta hefir eflaust verið fyrsti samsaungur, sem haldinn hefir verið á Íslandi, en síðan hafa bæði skólapiltar og aðrir opt súngið opinberlega, og tekizt framar öllum vonum.

---

[1] Evangelisk-kristileg Messu-saungs og Sálma-Bók. Leirárgörðum. Um sálmabók þessa og útbreiðslu hennar er i Minnisverðum Tíðindum I: bls. 169, 289. II; bls. 465—467, XXII—XXVI. Island i det 18. Aarhundr.; bls. 253—255.

[2] Sbr. bls. 238.

[3] Sálmasaungsbók. Kmh. 1878; bls. VIII.

[4] Stærra svefnherbergi skólapilta í latínuskólanum.

[5] Þjóðólfur VI; bls. 192-3.

1861 kom út: Íslenzk Sálma-saungs og Messubók með nótum, og hafði Pétur Guðjónsson samið hana í því skyni að laga kirkjusaunginn, sem var orðinn mjög svo bágborinn, eins og áður er sagt. Lögin voru tekin eptir beztu heimildum, sem voru fyrir hendi, en samt mætti bók þessi talsverðri mótspyrnu framan af. Menn voru orðnir svo þaulvanir gamla saungnum, að þeir gátu ekki feingið af sér að skipta um, þótt til betra væri. En með tímanum ruddi nýi saungurinn sér til rúms, einmitt sá saungur, sem Pétur Guðjónsson var að berjast fyrir í bók sinni. Nú sýngur einginn gömlu lögin, nema þá einstakir gamlir kallar, og þegar öllu er á botninn hvolft, á Sálmasaungsbókin 1861 víst mestan þátt í því, næst hljóðfærum þeim, sem nú eru farin að tíðkast í kirkjum, að sálmasaungur er í jafngóðu lagi á Íslandi og hann er.[1]

Í formálanum fyrir Sálmasaungsbók Péturs Guðjónssonar 1861 eru ýmsar bendíngar um saungfræði (bls. 8—13), um tónstiga o. s. frv., en alt of stuttar til að hægt væri að nema saung af þeim að marki. Þetta mátti ekki svo búið standa. Úr því áhugi fyrir saung var farinn að breiðast út um landið, þurfti ítarlegri saungfræði, en til hafði verið áður á íslenzku. Pétur Guðjónsson hljóp undir bagga, eins og hans var von og vísa. 1870 kemur út í Reykjavík: »Leiðarvísir til þekkíngar á saunglistinni (eptir J. Chr. Gebauers »Musikens Catechismus«) íslenzkaður af Pétri Guðjónssyni.« Það er sannast að segja, að kver þetta er að eins ágrip af saungfræðinni, en þó nógt um leingra en aðrar ritgjörðir, sem áður voru til á íslenzku um sama efni, og það var fyrst eptir að rit þetta kom út, að alþýðu manna gafst kostur á, að komast svolítið niður í saungfræði.

Pétur Guðjónsson dó 1877 og hafði þá komið saungnum á Íslandi á góðan rekspöl, enda hafði hann unnið að því eptir faungum, bæði nótt og nýtan dag.

Síðan Pétur Guðjónsson leið, hefir Jónas Helgason unnið mest að því að efla saunglist á Íslandi. 1874 kemur út eptir hann: »Stutt ágrip af hinum helztu saungreglum«, og seinna hefir komið út önnur útgáfa af riti þessu. Mest gagn hefir þó Jónas gjört íslenzkri saunglist með því að gefa út Saungva og kvæði. »Saungvar og kvæði með fjórum röddum. I.«[2] kom út

[1] Önnur sálmalagabók eptir Pétur Guðjónsson kom út að honum látnum: Sálmasaungsbók með þremur röddum. Kmh. 1878. Jónas Helgason hefir líka gefið út sálmalagabækur: Kirkjusaungsbók með fjórum röddum. Kmh. 1885, og auk þess tvö sálmalagahepti (ef eg man rétt) í áttablaðabroti.

[2] Meira kom ekki út af safni þessu, en Jónas hefir seinna gefið út, eg held 5 hepti af Saungum og kvæðum, með tveimur og þremur röddum, og er það nokkurs konar áframhald. Enn hefir Jónas gefið út: Saungkennslubók fyrir börn og byrjendur. I. hepti. Rkv. 1882. Fyrst er ágrip af saungfræði og svo nokkur lög. III. hepti. Rkv. 1887. Tóm lög. IV. hepti er í vændum. II. hepti er ekki til á bókasöfnum í Kmh.

í Reykjavík 1875. Saungvar og kvæði eru fyrsta safn af verzlegum lögum, sem komið hefir út á Íslandi, og þar eru fjórrödduð lög prentuð í fyrsta skipti með íslenzkum texta, enda hafa Íslendíngar ekki súngið margraddað frá aldaöðli, þegar tvísaungurinn er skilinn undan, alt fram á miðja þessa öld. Saunghepti Jónasar flugu út um alt land, og hafa átt mjög mikinn þátt í því, að breiða út góð lög meðal alþýðu manna.

Björn Kristjánsson er líka að gefa út íslenzka saungfræði: Stafrof saungfræðinnar. I. hepti kom út í Rkv. 1877. Svo lítur út sem saungfræði þessi verði leingri en hinar tvær.

Í hér um bil öllum sóknalýsíngunum, er það tekið fram, að einginn eða mjög fáir sóknarmenn kunni að sýngja eptir nótum. en það verður að taka vel eptir því, að fjöldinn af þeim er saminn um 1840, og þá var gamli saungurinn ennþá í blóma sínum. Nú getur fjöldi manna fleytt sér, að því er snertir þekkíngu í nótnasaung, og er það vottur um að saunglistin hefir rutt sér talsvert til rúms í seinni tíð. Ýmislegt er líka fleira, sem bendir á það. Í blöðunum úir og grúir af greinum um saung, og eru þær allar hvatir til að læra saung og laga þann, sem menn kunnu áður. Sumstaðar er jafnvel ráðið til að láta únglínga læra saung og hljóðfæraslátt í staðinn fyrir ýmsar smáskemtanir, spil, tafl og danskan dans.[1] Saungskóli var stofnaður á Akureyri 1863.[2] hvað sem úr honum hefir orðið. Eg man ekki til, að eg hafi heyrt hans getið í seinni tíð. Það, sem einna bezt ber þó vott um áhuga fyrir saung á Íslandi, eru saungfélög þau, sem stofnuð hafa verið. Reyndar eru þau ekki víða. Eg hefi að eins heyrt getið um saungfélög á tveimur stöðum, í Reykjavík og Þíngeyarsýslu,[3] en saungfélög í Reykjavík eru margföld í roðinu, ef svo má segja. Í þeim eru og hafa verið menn, sem að eins hafa verið í Reykjavík um stundarsakir. Svo hafa þeir aptur tvístrazt út um landið, og breitt út það sem þeir höfðu numið.

Fyrsta saungfélag, sem stofnað var í Reykjavík. mun vera »Harpa«, hvort sem félagið hefir heitið því nafni þegar frá byrjun. Það var stofnað veturinn 1867—68. og voru helzt í því iðnaðarmenn og verzlunarmenn. Jónas Helgason var forsprakki félagsins, og átti víst mikinn þátt í stofnun þess. Ekki bar mikið á framkvæmdum félags þessa framan af, en 20. janúar 1874 heldu félagsmenn, sem voru víst rúmir 20, samsaung.[4] og síðan hafa þeir opt súngið opinberlega. Það var líka félag þetta, sem gaf út fyrstu Saungva og kvæði Jónasar Helgasonar og báðar útgáfurnar af saungfræði hans.

1875 var annað saungfélag í Reykjavík. Þar voru helzt »námsmenn

[1] Norðanfari XV; bls. 59. XXI; bls. 53—54.

[2] Norðanf. II; bls. 66.

[3] Þjóðólfur XXX; bls. 132, 2 d. og Norðanf. XVI; bls. 43.

[4] Víkverji I. 3. ársfjórð. nr. 46; bls. 14.

og heldri stúlkur«. Aðalkennari var Einar læknir Guðjohnsen.[1] Líklega er félag þetta lagt niður nú.

Í seinni tíð hefir líka verið saungfélag í skólanum.

Þegar litið er á sögu saunglistarinnar á Íslandi, sést það fljótt, að allur saungur er í miklu betra horfi nú, en 1589, þegar fyrst voru prentaðar íslenzkar nótur. Það er ekki að furða, þótt mikil breytíng sé orðin á, á svo laungum tíma, en hitt er eptirtektarvert, hve saunglistinni hefir farið fjarska fljótt fram hjá oss eptir að hreyfing fyrst komst á. Grallarasaungurinn drottnaði fram yfir miðja þessa öld. Eingin saungfræði var til, eingin verzleg lög á nótum o. s. frv. Nú, risið er reyndar ekki hátt ennþá, en grallarasaungurinn er þó geinginn úr gildi. og nú eigum við þó þrjá pésa um saungfræði og ein sex saunghepti. Ef saungþekkíngu fleygir eins mikið fram framvegis og henni hefir fleygt fram seinustu 40 árin, þá rekur að því, að Íslendíngar geta skipað sæti það á saungmannabekk annara þjóða, sem hljóð þeirra heimila þeim.

Eg hefi nú minzt á saunglist Íslendínga yfir höfuð að tala, alt fram á vora daga, og komizt að þeirri niðurstöðu, að hún hafi ávalt staðið á útlendum merg, eins og reyndar er ekki að furða, því saunglistin er allra landa gagn (kosmopólítisk), ef svo má segja, en þó eiga Íslendíngar einstaka lagsmiði, út af fyrir sig, bæði að fornu og nýu, og skal eg nú fara nokkrum orðum um þau.

Þess er áður getið, að meginið af sálmalögum þeim, sem venjulega voru súngin í kirkjum og heimahúsum, hafi verið útlent,[2] en aptur er það fært i frásögur, að séra Oddur Oddsson að Reynivöllum í Kjós († 1649) »hafi útlagt Davíðssálma eptir höfuðtextanum, og snúið í íslenzka sálma, nóteraða með óþektum lögum,«[3] eða kompónerað lög við Davíðssálma með öðrum orðum. Eg veit þó ekki betur en lög þessi séu týnd nú.

Við sum kvæðin í Kvæðabók séra Ólafs Jónssonar á Söndum við Dýrafjörð[4] eru líka nótur. Dr. Jón Þorkelsson ýngri segist einhvers staðar hafa rekið sig á, að séra Ólafur hafi sjálfur samið lög, en í Melódíu eru lög séra Ólafs kölluð »útlenzkir tónar«, og er líklega réttara að trúa því, úr því Melódía er skrifuð fyrir svo laungu.[5]

---

[1] Þjóðólfur XXVII; bls. 24.

[2] Sbr. bls. 238.

[3] Fræðimannatal Hallgríms Jónssonar; bls. 394. Sbr. Dr. Jón Þorkelsson ýngri: Om Digtningen på Island; bls. 479 og Specimen Islandiae non barbarae (gl. kgl. Saml. 2872. 4to) eptir Jón Þorkelsson (Therkelsen).

[4] Kvæðabók Ólafs prests er í Hrs. Bmfj. (70, 4to), skrifuð af Hjalta prófasti Þorsteinssyni í Vatnsfirði 1693. Alls er 21 lag í bókinni með nótum, og eru þau kvæði öll andleg, eins og reyndar flest kvæði í bókinni.

[5] Dr. Jón Þorkelsson segir þó með skýrum orðum í: Om Digtningen på Island (bls. 456), að lögin í kvæðabók séra Ólafs á Söndum séu samin af honum sjálfum.

Annars kváðu flest lögin í Kvæðabók séra Ólafs ekki hafa nokkurt saunglegt gildi, eða vera alveg ómöguleg, eptir öllum saungreglum, fornum og nýum, eptir því sem danskur saungfræðíngur, Angul Hammerich, hefir sagt Jóni Þorkelssyni.

Í viðbætinum við ferðabók Mackenzie's[1] eru aptur nótur af sex íslenzkum sálmalögum, og tók hann þau eptir handriti, sem Magnús yfirdómari Stephensen átti. Magnús sagði þeim félögum, að lögin væri mjög gömul, og einginn efi væri á, að þau væru alíslenzk. Lögum þessum kippir í kynið til laganna í Kvæðabók séra Ólafs, því þau kváðu öll vera mesta ómynd, eptir því sem saungfræðíngum þeim ber saman um, sem eg hefi borið þau undir.

Það væri hægur vandi, að prenta eitthvert af lögum þessum, til dæmis um íslenzkt sálmalagasmíði í gamla daga, en það virðist ekki vera þörf á því. Sum af lögum þeim í Sálma-saungs og Messubók Péturs Guðjónssonar, sem hann hefir ekki fundið annars staðar en í íslenzkum bókum,[2] eru eflaust íslenzk, og má sjá af þeim, hvernig Íslendíngum hefir tekizt, að semja sálmalög í fyrri tíð.

Annars eru til nokkur gömul handrit, þar sem íslenzk sálmalög eru sett á nótur, og skal eg sérstaklega benda á nr. 138, 4to í Ny kongel. Samling. Það er frá mótunum á 16. og 17. öld,[3] og mjög vandað handrit að öllu leyti, en líklega eru flest eða öll lögin á því útlend.

Í seinni tíð veit eg ekki til, að aðrir hafi samið íslenzk sálmalög, en séra Pétur Guðmundsson í Grímsey, en ókunnugt er mér, hvort hann hefir feingizt við það nokkuð að marki, og ekkert lag hefir komið á prent eptir hann.

Arngrímur Jónsson minnist á saunglist Íslendínga á einum stað,[4] en ekki er mér ljóst, hvort hann á við sálmalög eða verzleg lög. Eg hallast þó heldur að hinu seinna. Arngrímur segir: »Að því er saunglist og lagfræði snertir, hafa landar mínir ekki verið svo illa að sér, að þeir hafi ekki getað búið til hljóðfæri, upp á sínar eigin spýtur og tekizt vel. Og lagfræðina[5] hafa þeir þekt alt fram á þennan dag. Sumir hugsa jafnvel upp lög með fjórum, fimm eða fleiri röddum,[6] og sýngja þau alllaglega.« Ólíklegt er, að þetta geti verið allskostar rétt, eða að minnsta kosti vottar hvergi fyrir margrödduðum saung íslenzkum, alt fram á þessa öld, þegar tvísaungurinn er skilinn undan, en hann var að eins tvíraddaður, eins og kunnugt er. Í annan stað tekur Arngrímur það svo skýrt fram, að Íslendíngar hafi samið margrödduð lög um hans daga, að hann hefir valla getað vaðið tóman reyk,

[1] Travels in the Island of Iceland. Edinburgh. 1811; bls. 469.
[2] Sbr. bls. 238.
[3] Sbr. Dr. Jón Þorkelsson ýngri: Om Digtningen på Island. Kmh. 1888; bls. 415.
[4] Anatome Blefkeniana. Hólum. 1612; bls. I6.
[5] »Melodiam vel musicam vt vocant figurativam.«
[6] Til eru lög með fimm eða jafnvel fleiri röddum, en fremur sjaldgæf.

og þeim mun síður, sem hann var allra Íslendínga lærðastur í sinni tíð. Hver veit nema Íslendíngar hafi súngið margraddað í gamla daga, en þau lög séu týnd nú?

Magnús Stephensen segir að Íslendíngar eigi eingin gleðilög, eingin danslög eða glaðværðarlög, sem einkennileg séu fyrir þá.[1] Þetta er nærri sanni, en þó ekki allskostar rétt, því fremur má kalla þessi fáu þjóðlög, sem við eigum gleðilög en sorgarlög, fremur glaðværðarlög en sálmalög.

Eptir því sem eg veit bezt eru íslenzk þjóðlög fyrst prentuð í Essai sur la Musique. A Paris. 1780.[2] Þar eru þau prentuð fimm. Jón Ólafsson saung þau fyrir Hartmann, afa J. P. E. Hartmanns, og Jacobi, skrifara vísindafélagsins í Kaupmannahöfn.[3] Hartmann setti þau á nótur. De Schutze nokkur fékk þau hjá Jacobi, og lét þau af hendi við höfunda rits þess, sem um er að ræða. Fyrsta lagið er við dróttkvæða vísu, háttlausa. Til dæmis er tekin vísa úr Krákamálum.[4] Annað lagið er við fornyrðalag (vísu með átta línum). Til dæmis er tekið erindi úr Völuspá.[5] Þriðja lagið er við fornyrðalag (vísu með sex línum). Dæmi er tekið úr Hávamálum. Fjórða lagið er við reglulega dróttkvæða vísu. Vísa eptir Harald konúng harðráða er tekin til dæmis. Fimta lagið er við hrynjandi hátt (Liljulag), og er tekið til dæmis erindi úr Lilju. Það er tekið skýrt fram í »Essai«, að lögin séu færð þar til, eins og þau séu súngin á Íslandi, um þær mundir, og er ekki ástæða til að efa það, þar sem þau eiga rót sína að rekja til J. Ól., sem var allra manna bezt að sér í öllum íslenzkum fróðleik. Ekki treysti eg mér til að leggja nokkurn dóm á, hve lög þessi kunni að vera gömul.

Í Danske Folke-Sange og Melodier, samlede og udsatte for Pianoforte af A. P. Berggreen,[6] eru líka nokkur íslenzk þjóðlög, og skal eg nefna þau. Fyrst eru tvö lög við »Ólafur reið með björgum fram« (nr. 20 d og e), og er hið fyrra það sem allir þekkja, en hitt alt öðruvísi, og miklu fátíðara.

[1] Island i det 18. Aarhundr.; bls. 226.

[2] II; bls. 402—407. Sbr. bls. 397. Þetta stóra og merkilega rit (í fjórum stórum bindum í 4to) er nafnlaust, en eptir Laborde og Roussier.

[3] Nyerup: Udsigt over Nordens ældste Poesi og dens Litteratur. Kmh. 1798; bls. 43. »Den lærde Islænder John Olafsen«, sem Nyerup talar um, er líklega Jón Ólafsson frá Grunnavík, en ekki Jón Ólafsson frá Svefneyum, því hann er opt nefndur áður í pésa Nyerups, en kallaður að eins »Olafsen«. Sbr. Grønlands historiske Mindesmærker I; bls. 323 og 329.

[4] Lag þetta er seinna prentað í Krakas Maal. Udg. af C. C. Rafn. Kmh. 1826, bæði einraddað, eins og það er í »Essai«, og fjórraddað. Keyper nokkur, herforíngi bætti við hinum rödduuum (sbr. bls. 79 í bók Rafns).

[5] Lag þetta er prentað aptan við Nordens ældste Digt (Völuspá), oplyst og oversat af Fr. Hammerich. Kmh. 1876. J. P. E. Hartmann hefir bætt þar við þremur röddunum.

[6] II. útg. Kmh. 1860. III. útg. er til.

Þá er lag við kvæðið: Svíalín og hrafninn, »Hrafninn flýgur um aptaninn«[1] (nr. 24 b). Þá er lag við Harmabótarkvæði: »Einum unna eg manninum«[2] (nr. 84). Þá er lag við Ásukvæði: »Ása gekk um stræti«[3] (nr. 85), og er það alkunnugt. Þá eru lög við Tólfsonakvæði og Vinaspegil Guðmundar Bergþórssonar[4] (nr. 127-8). Þá er lag við Grýlukvæði, sem venjulega er eignað séra Guðmundi Erlendssyni: »Hér er komin Grýla á Gægis hól«[5] (nr. 172), og seinast er eitt af þeim fáu vikivakalögum, sem enn eru við lýði, lagið við kvæðið um kvonbænir þeirra Hoffinns og Alfinns[6] (nr. 173 a). Öll eru lög þessi tekin eptir nótum frá Pétri Guðjónssyni (1846-7), nema nr. 20 d og 173 a, sem séra Gísli Thorarensen saung fyrir Berggreen 1843, og hefir því Berggreen sett þau á nótur.

Ekki er heldur gott að ákveða aldur þessara laga, en þó má víst fullyrða að nr. 20 d sé einna elzt. Nr. 84 og 85 virðast og vera allgömul, en hin ýngri, einkum lögin við kvæði Guðmundar Bergþórssonar.

Fremur munu lög þessi hafa verið og vera fátíð á Íslandi. Eg hefi ekkert heyrt af þeim upp til sveita[7] nema »Ólafur reið með björgum fram« og »Ása gekk um stræti«. Fyrra lagið minnir mig jafnvel, að eg hafi ekki heyrt, fyr en það var komið út í Saungheptum Jónasar Helgasonar.

Í Sitzungsberichte der königl. bayer. Akad. der Wissensch. zu München, 1867, I. B., hefir Konrad Maurer gefið út íslenzkt kvæði um Friðrik keisara Barbarossa. Á 142. bls. eru tvö íslenzk lög við kvæði þetta, annað frá Sigurði L. Jónassyni, en hitt frá Pétri Guðjónssyni. Lög þessi eru bæði mjög tíð á Íslandi, við bragarhátt þann, sem kvæðið er undir, en hann er þessi:

Keisari nokkur, mætur mann,
mest sem bækur hrósa,
staðnum Tyro stýrði hann,
stillir líka Sidon vann,
frægur nefndist Friðrik Barbarossa.

Ekki man eg eptir, að eg hafi séð fleiri íslenzk þjóðlög á prenti, en þau sem þegar er getið, nema ef vera skyldi lagið við »Látum af hárri heiðarbrún«. Jónas Helgason segir, að mörgum beri saman um, að það sé innlent.[8]

[1] Iðunn IV; bls. 468—474.
[2] Íslenzk Fornkvæði. II. Kmh. 1859—85; bls. 89—101.
[3] Sama rit; bls. 226—234.
[4] Kvæði þessi komu út saman í Rkv. 1847 og Hrappsey 1784.
[5] Kvæði þetta verður prentað í þulunum.
[6] Kvæði þetta verður prentað í vikivakakaflanum.
[7] Í Eyafjarðarsýslu og Skagafjarðarsýslu.
[8] Saungvar og Kvæði. I. Rkv. 1875; bls. 58.

Loksins má geta þess, að Johan Svendsen »Kapelmester« við konúnglega leikhúsið í Kaupmannahöfn hefir lagt »Ólafur reið með björgum fram« til grundvallar fyrir einu af lögum sínum.

Af því, sem sagt hefir verið, má ráða, að ekki sé um auðugan garð að gresja hjá Íslendíngum, að því er þjóðlög snertir, og virðist það vera undarlegt í fljótu bragði, þegar litið er á það, hver ógrynni vér eigum af þjóðsögum. þulum, gátum og öðrum þjóðlegum fræðum. þetta kemur sjálfsagt mest af því, að Íslendíngar hafa aldrei rist djúpt í saunglist, en þó meðfram af því, að við eigum mjög lítið af þjóðkvæðum í raun réttri. Meginið af fornkvæðum þeim, sem þeir gáfu út Jón Sigurðsson og Svend Grundtvig[1] og öðrum fornkvæðum, sem til eru á íslenzku, er þýtt úr dönsku á 17. öld.[2] en það eru einkum slík kvæði, sem þjóðlög eru við í öðrum löndum. Rímur og ferskeyttar vísur yfir höfuð komu í staðinn fyrir þjóðkvæði annara þjóða, og rímnalögin eru því okkar þjóðlög að réttu lagi, þótt ólíku sé saman að jafna, þegar saungleg fegurð er tekin til greina.

það getur annars vel verið, að talsvert sé til af þjóðlögum út um Ísland, þótt þau séu ekki komin í leitirnar ennþá. Slíkt leynist í afskektum sveitum í leingstu lög. Helgi Helgason kaupmaður hefir tekið sér fyrir hendur að safna saman því, sem hann getur náð í af íslenzkum þjóðlögum og tvísaungslögum,[3] og ættu menn að styrkja hann til þess eptir faungum. því þau eru merkilegri en margur hyggur. Svíþjóð og Noregur hafa t. d. mikinn sóma af þjóðlögum sínum. Reyndar getur Island eflaust aldrei orðið frægt fyrir þjóðlög. en það er þó betra að veifa raungu tré en aungu. og auk þess mundi eingin þjóð skammast sín fyrir annað eins þjóðlag og »Ólafur reið með björgum fram«.

Af því við eigum svo fátt af prentuðum þjóðlögum, færi eg hér til þau fáu lög, sem eg þekki óprentuð af því tagi. þau eru reyndar lángt frá því að vera falleg nema ef vera skyldi fyrsta lagið. það geingur víst um alt land. Eg hefi heyrt það bæði fyrir norðan og til sunnlenzkra skólapilta. Tvö næstu lögin lærði eg á mínum sokkabandsárum af gamalli konu í Sléttuhlíð, Steinvöru Jónsdóttur. Hún hafði lært þau af Ingibjörgu móður sinni, og eru þau því að minnsta kosti frá seinni hluta 18. aldar. Árni Beinteinn Gíslason hefir sett lög þessi á nótur fyrir mig.



1 Hilmir hjálma skúrir herðir sverði roðnu; hrjóta hvítir

[1] Íslenzk Fornkvæði I. Kmh. 1851—85. II. Kmh. 1859—85.

[2] Sbr. Om Digtningen på Island, eptir Dr. Jón þorkelsson; bls. 185—188.

[3] Sbr. Ísafold XV; bls. 14.



ask - ar, hrynja brynju-spángir; hnykkja hlakkar eldar harða



svarðar landi; remma rimmu glóðir randa grand of jarli.[1]



2. Brögnum skipar bistur þá brenna víf - ið skyld - i,



svo var kastað eld - inn á úngri silk - i - hild - i, kappi



kynt var með; blossinn ekkert höf - uð - hár hennar skadda réð,



heiðinn lýður þrjózku - þrár þetta teikn fær séð.[2]



3. Nú skal seggjum segja sög-u - þátt með skýrri grein, og



þögn burt frá sér fleygja, sem fólki stundum gjörir mein,



komið þið hínga𝔡 klæða seljur snjallar, og sitjið á

[1] Vísan er í Háttatali eptir Snorra Sturluson.
[2] Vísan er úr Agnesarkvæði eptir Þorvald Magnússon á Sauðanesi († 1747). T. d. Hrs. Bmfj. 310. 8vo.

*rit.* *a tempo*

með - an súngið er eitt sónar - kver —; því ljóða -

klukkan kall - - ar.[1]

4. Máninn hátt á himn - i skín hrímföl - ur og grár.

Líf og tími líð - ur, og liðið er nú ár.[2]

5. Fram á regin - fjalla - slóð fyrðar ljótir bú -

a; þeirra bygð er þeyg - i góð, þyrstir mjög í sauða -

blóð er - u þeir og eingan guð á trú - - a.[3]

Við Vinaspegil hefi eg heyrt lag, sem er mjög svipað laginu við Agnesarkvæði, svo ekki þótti taka að setja það á nótur, þótt það sé alt öðruvísi en lagið í bók Berggreens. Við Tólfsonakvæði hefi eg heyrt alt annað lag en Berggreen hefir, en eg kem því ekki fyrir mig. Barbarossakvæðislögin eru líka stundum súngin dálítið öðruvísi á Íslandi, en Maurer hefir þau, en munurinn er svo lítill, að það svarar ekki kostnaði að færa til útgáfur þær af lögunum, sem eg kann að heiman.

[1] Vísan er úr Hrafnahrekk. Fróðlegt Ljóðasafn. Akureyri 1856; bls. 31.

[2] Vísan eptir Jón Ólafsson. (Viðkvæðinu slept.) Lagið úr þingeyarsýslu og kvað vera kallað Ljúflíngslag.

[3] Lagið er fært til eins og Á. Beinteinn Gíslason hefir heyrt það. Eg hefi heyrt það svolítið öðruvísi. Vísan eptir séra Mattías Jochumsson.

Við Oddsbrag (»Út á djúp hann Oddur dró« eptir séra Stefán Ólafsson) er eflaust til sérstakt lag, því í »Fróðlegt Ljóðasafn« stendur fyrir ofan Gortaraljóð: »Lagið: Út á djúp hann Oddur dró.« Þetta lag þekki eg ekki.

Lagið við: »Séra Magnús settist upp á Skjóna« er eflaust íslenzkt. Það er prentað í Musik-Journalen, udg. af Wilhelm Hansen. Kmh. 1890, og er kallað þar »Islandsk Smedevise«.

Aptan við þenna þjóðlagapistil, þykir mér bezt henta að minnast á tvísaunginn, því hann hefir að mörgu leyti innlendan keim, þótt hann sé útlendur að uppruna, og mörg tvísaungslögin eru alveg innlend.

Svo er sagt, að séra Erasmus Villaðsson, prestur að Breiðabólstað í Fljótshlíð († 1591), hafi leitt tvísaung inn í landið fyrstur manna[1] og á því tvísaungur að hafa breiðst frá honum út um alt land með tímanum.

Í formála Þórðar biskups Þorlákssonar fyrir 6. útgáfu af grallaranum[2] er tvísaungur að eins nefndur. Það er drepið á, að hann gángi stundum mjög hátt. Það mætti ef til vill ráða af því, hve Þórður biskup fer fáum orðum um tvísaunginn, að hann hafi ekki verið orðinn eins tíður þá og hann varð seinna. Séra Stefán Ólafsson († 1688) nefnir tvísaung í einu af kvæðum sínum.[3] Hann segir, að Jón Stúfur sé »tvísaungs gæddur hljóðum« og er hvorttveggja til, að Jón hafi súngið tvísaung, og að hann hafi haft hljóð (nógu mikil hljóð) til að fara í tvísaung.

Annars er fremur óvíða getið um tvísaung í íslenzkum ritum. J. Ól. nefnir hann að eins og segir, að svo sé kallað, þegar tenórinn og bassinn sýngi saman. Magnús Stephensen segir að tvísaungur sé nokkurs konar »accorderende Bassang«, sem ekki sé bygður á nokkrum réttum saungreglum.[4] Í blöðunum er drepið á tvísaung á einstaka stað, eins og áður segir, og auk þess í Þjóðólfi.[5] Þar stendur þetta um hann: »Margraddaðan saung hafa menn aldrei þekt hér né kunnað, annað en blessaðan tvísaunginn, og þótt hann geti verið betri en ekki par, og alláheyrilegur við einstöku lög, þá verður hann þó aldrei tekinn saman við margraddaðan saung.«

Af því, sem sagt hefir verið, sést, að þeim, sem vit höfðu á, var ekki vel við tvísaunginn, og á eg þar einkum við Magnús Stephensen, en það lét alþýða manna sig eingu skipta, og saung tvísaung við öll hátíðleg tækifæri, t. d. brúðkaupsveizlur, í gríð og ergi. Í annan stað hefir að minnsta kosti sumum heldri mönnum, eingin læging þótt að því, að bregða fyrir sig tvísaung. Páll Melsteð hefir það þannig eptir foreldrum sínum, að mjög opt hafi verið farið í tvísaung á Möðruvöllum, hjá afa hans Stefáni amtmanni Þórarinssyni, einkum í rökkrinu á kvöldin. Þar var líka nóg af

---

[1] Hallgrímur Jónss.: Fræðimannatal; bls. 357.

[2] Sbr. bls. 238.

[3] Kvæði. II. Kmh. 1886; bls. 70.

[4] Island i det 18. Aarhundr.; bls. 236.

[5] VI; bls. 193.

saungmönnum. Þau súngu öll vel systkinin, börn amtmannsins, ekki síður en föðurbræður þeirra.[1] Þar voru tveir skrifarar, sem súngu hvor öðrum betur. Benedikt Jónasson faðir séra Jakobs í Glaumbæ, og faðir Páls.[2] »En þar var þó einn sá, er af öllum bar í saunglistinni, það var ráðsmaður afa míns, Ólafur, er seinna bjó á Undirfelli.[3] Hann tók heyið handa kúnum og var þá stundum myglan í barkanum fyrstu versin, sem hann saung, en hún fór við hvert erindi, og hans hljóð tóku yfir alt, bæði að hæð og fegurð. Þorvaldur hét fjósakarlinn á Möðruvöllum. Hann hafði mikil hljóð en nautstirð. Þeir höfðu karlinn inn í stofu og létu hann vera með í tenórnum; hann fylti svo vel saunginn undir þann sem upp fór. Kall þessi fluttist frá Möðruvöllum í aðra sókn og varð þar forsaungvari, og þótti mikið að honum kveða í þeirri stöðu.« Páll skrifar mér líka, að faðir hans og Kvæða-Keli hafi verið vanir að sýngja tvísaung, þegar fundum þeirra bar saman,[4] enda hafi þeir verið hér um bil þeir einu menn í Múlasýslum, sem kunnu tvísaung, að nokkru ráði. Sjálfsagt hafa þó margir aðrir feingizt við tvísaung, meira og minna.

Eg man vel eptir því að eg heyrði tvísaung í æsku, og jafnaldrar mínir úr Húnavatnssýslu og Skagafjarðarsýslu hafa sagt mér, að í þeirra sveitum hafi eingînn þótt teljandi saungmaður, í úngdæmi þeirra, sem ekki gat súngið tvísaung. Seinustu árin hefir aptur tvísaung hrakað mjög mikið, og mun láta nærri, að honum hafi farið að hnigna, þegar nýi saungurinn hafði rutt sér til rúms að marki.

Eg er mjög ófróður um það, hvernig tvísaungur fór fram, en sjálfsagt hefir hann átt sinn þátt í aðfinníngum þeim um gamla saunginn, sem áður er getið,[5] og jafnvel ef til vill öllu fremur en óbrotinn saungur. Að minnsta kosti hefi eg aldrei heyrt »óskapa rokur« í saung, ef það hefir ekki verið í þessum tvísaungslögum, sem eg heyrði á únga aldri. En eins og eðlilegt er, var það ekki tvísaungnum að kenna í sjálfu sér, heldur þeim sem súngu.

Orðið tvísaungur ber það með sér, að tvær raddir hafi verið súngnar í einu. Venjulegast hafa víst tveir súngið, og svo var með tvísaung þann, sem eg hefi heyrt. Annar saung lagið sjálft (tenórinn), en hinn »fór upp«, eða »saung bassann«.[6] Aptur skrifar Páll Melsteð mér, að þegar súnginn var

---

[1] Bráðum verður minzt betur á þá.

[2] Páll amtmaður Melsteð.

[3] Ólafur var faðir Páls bónda á Akri í Húnavatnssýslu.

[4] Þess verður seinna getið að nokkru.

[5] Sbr. bls. 240—241.

[6] Sbr.: Tenórinn hefi' eg
tamið mér leingi,
brúkið þér herra
bassann sjálfur.

Eg hefi feingið stef þetta frá Páli Melsteð.

tvísaungur í Bessastaðaskóla, hafi optast margir súngið tenórinn í einu, e einn farið upp. Stundum hafi þó tveir, sem áttu vel róm saman, farið up í einu.

Þá er ekki annað eptir en að geta tvísaungslaganna. Elzta tvísaungs lag, sem eg hefi rekið mig á, er í Kvæðabók séra Ólafs Jónssonar á Söndum við kvæði andlegs efnis. Tenórinn geingur upp úr öllu lifandi lagi, e bassinn niður úr öllu valdi. Þess má geta, að báðir tónstigarnir eru færð saman, og textinn fyrst skrifaður undir þá báða. Auk þess eru fim streingir[2] í tenórsstiganum, í byrjun lagsins, svo alls eru þar 9 streing saman, en annars eru allstaðar fjórir streingir í stiganum, eins og venjuleg er. Það er þó ekki víst, að þessi streingjaskipun standi í nokkru samban við tvísaung, því í gröllurunum eru 3—6 streingir í stiga, eptir því sem stendur. Ekki skal eg leiða nokkrum getum um, hvort lag þetta er innlen eða útlent.

Páll Melsteð hefir sent mér tvö tvísaungslög, sem tíðkuðust í Bessa staðaskóla í hans tíð, og tek eg þau hér upp, eptir því sem Jónas Helgaso setti þau á nótur, eptir fyrirsögn Páls.

Eitt sinn fór eg yf - ir Rín, snér - i lit; snér - i lat, á

laufblaði einnar lilj - u von lit, von lat,

von lieben Hut, lítil var ferjan mín.

[1] 45.-6. blað í Hrs. Bmfj. 70. 4to.

[2] Væri ekki heppilegast að kalla þá rímar?

Lag þetta er allgamalt og útlent að uppruna. Séra Ólafur á Söndum sneri kvæðinu úr þýzku, og hefir lagið líklega fyrst komizt á gáng eptir það. Þýðing hans er í kvæðabók hans, og er textinn þar svona:

:| Eitt sinn fór eg yfir Rín |:
á laufblaði einnar lilju;
lítil var ferjan mín.

Krumsprángi því og krússindollum, sem eru í textanum við nóturnar, er alveg slept hér.

Í kvæðabók séra Ólafs (nr. 70), eru eingar nótur við lag þetta, en í Melódíu[1] eru tvær útgáfur af laginu (nr. 82 og 136). Textinn er þar á þessa leið:

Eg ferðaðist yfir Rín:
eg flaðaðist yfir Rín.
Fagurt laufblað var ferjan mín,
fróm og kærleg baugalín,
fór eg að vitja þín.

Hamíngjan má vita, hvort lögin í Melódíu eru lík lagi Jónasar.

Í Melódíu segir, að önnur útgáfan af laginu sé tekin úr kvæðabók séra Ólafs á Söndum, og er auðséð á því, að sá, sem skrifaði hana, hefir haft fyrir sér einhverja aðra kvæðabók séra Ólafs en þá, sem nú er í handritasafni Bókmentafélagsins.

Þá er hitt lagið frá Páli Melsteð:







[1] Sbr. bls. 242.

harpan ið - u - lig, alt á efst - a stig! [1]

Lag þetta er altítt á Norðurlandi, en eg hefi ávalt heyrt það dálíti
öðruvísi, en Páll hefir vanizt því, og sama segir Á. B. Gíslason. Við höfu
heyrt lagið súngið í tvískiptum takt, þar sem Jónas Helgason hefir sett þa
á nótur í þrískiptum takt.

»Nú er eg kominn á nýa bæinn« hefir verið og er algeingt tvísaungsla um alt Ísland.[2] Eg er ekki viss um, að eg hafi lært það alveg rétt, en ræð þó í að setja það hér eptir minni mínu, heldur en ekkert. Á. B. Gíslaso hefir sett það á nótur, og lög þau, sem eptir eru. Við þorðum ekki að tak hina röddina, því hver sýngur hana með sínu nefi, og er mjög mikið a munum.

Nú er hann kominn á nýa bæ - - inn, nýr er han

*rit.* *a tempo*

orðinn síðan um daginn, bað - stof - an. Heldur honum heima

snag - inn. heystál - ið og konu - maginn. Hver er hann?

»Ísland, farsælda frón,« er algeingt tvísaungslag.

Ísland! farsælda frón, og hagsælda hrímhvíta móðir!

[1] Seinasta erindi í: »Um hvað biður óðarsmiður Apollín« Snót. Rkv. 1865; bls. 135-7.

[2] Sbr. Kvæði Stefáns Ólafssonar I. Kmh. 1885. Þar er líka kvæðið.

Hvar er þín forn aldar frægð, frelsið og manndáðin bezt?

Við ferskeyttar vísur hefi eg heyrt tvö tvísaungslög, og set eg þau hér bæði. Fyrra lagið hefi eg kunnað fra blautu barnsbeini, en seinna lagið hefi eg heyrt til cand. mag. Guðmundar Þorlákssonar.

Hún er suð'rí hólun - um, hólun - um, hólun - um,

hún er suð'rí hólun - um, hefir grá - a skýl - u.

Meira veit eg ekkert um, ekkert um, ekkert um, meira

veit eg ekkert um ættina' hennar Grýl - u.[1]

[1] Norðlenzkur húsgángur.




Mörg fleiri tvísaungslög eru til en þau, sem eg hefi komizt yfir. Einhvern tímann hefi eg heyrt, að »Úngur þótti eg með saung«[2] hafi verið súngið með tvísaungslagi. Stefán Stefánsson kennari á Möðruvöllum hefir sagt mér, að hann hafi vitað »Hver skyldi sína hagi klaga[3]« og »Sjá, nú er liðin sumartíð[4]« súngin með tvísaungslögum, og sama máli er eflaust að gegna um mörg fleiri kvæði og sálma. Í Ársriti presta í Syðra-Þórsnesþíngi, Rkv. 1846, er þannig drepið á það (bls. 6), að lögin »Annars erindi rekur[5]« og »Mörg er hryðja mótlætis um aldur[3]« séu algeing tvísaungslög. Því miður kann eg ekkert af lögum þessum og get því ekki fært þau hér til, en góðra gjalda væri vert, ef þeir sem kost eiga á og hafa þekkíngu til þess, vildu halda öllum tvísaungslögum til haga. Það er satt að þau eru ekki falleg eða fæst af þeim, en þau eru einkennileg og allmerkileg frá siðsögulegu sjónarmiði.

Eg hefi nú talað um lagsmíði hinnar íslenzku þjóðar í fyrri daga, og er því ekki annað eptir, en minnast stuttlega á lagsmíði þeirra um þessar mundir.

Það var ekki von að Íslendíngar semdu lög, fyr en farið var að lifna yfir saunglistinni á Íslandi, fyr en nýi saungurinn var farinn að ryðja sér til rúms. En úr því var ekki heldur lángt að bíða þess.

Í Gaunguhrólfi nr. 4—5 er fyrsta lag, sem nokkur Íslendíngur lét koma fyrir almenníngssjónir[6], og tvísýnt hvort nokkur íslenzkur maður hefir samið lag fyr. Lag þetta er við »Andvarp«, kvæði eptir Árna Gíslason og eptir Jónas Helgason. Þegar ísinn var brotinn fór íslenzkum lagsmíðum óðum að fjölga, og síðan 1873 hafa komið á prent milli 20 og 30 lög eptir íslenzka lagsmiði á Íslandi. Flest af þeim eru eptir bræðurna Jónas Helgason og Helga Helgason. Björn Kristjánsson hefir samið tvö eða þrjú lög og Benedikt Ásgrímsson eitt. Í Skotlandi er líka íslenzkur lagsmiður, Sveinbjörn

[1] Mér þykir ekki þurfa að færa til alt lagið. Það er prentað áður í rímnalögunum (11), og fyrri parturinn er hér alveg eins og þar.

[2] Kvæði Bjarna Thórarensens. Kmh. 1884, bls. 222.

[3] Kem ekki fyrir mig, hvar kvæði þessi eða sálma er að finna.

[4] T. d. Sálmabók. II. útg. Rkv. 1875, bls. 467—68.

[5] T. d. Snót. Rkv. 1865, bls. 118—120.

[6] Sbr. Gaunguhrólfur, bls. 29.

Sveinbjörnsson, og hefir hann samið hið ágæta lag við kvæði séra Mattíasar Jochumssonar: »Ó guð vors lands«, og svo mörg fleiri lög, bæði við íslenzk og útlend kvæði. Mörg af þeim eru til á prenti, þótt þau séu ókunn á Íslandi.

Einginn veit, hve Íslendíngar geta komizt lángt í lagsmíði með tímanum.

Þótt saunglist hafi aldrei staðið með miklum blóma á Íslandi, fara sögur af saungmönnum ekki allfáum, og skal eg geta þeirra, sem eg þekki.

Það er þegar fært í frásögur um einstaka mann í fornöld, að hann hafi verið frábærlegur saungmaður, og má nefna til þess Auðun Hólabiskup rauða (1313—1321): »Rödd hafði hann svo fagra, háfa og skæra, að öllum þótti yndi í að heyra á hans saung[1]«. Bergur Sokkason, ábóti að Múnkaþverá, »var formentr maðr umfram flesta menn þá á Íslandi um saung« og fleira[2]. En fyrstur saungmaður, sem sögur fara af á Íslandi, svo eg viti, er Páll biskup Jónsson í Skálholti (1196—1211). »Hann var svo mikill raddmaðr og saungmaðr, að af bar saungr hans og rödd af öðrum mönnum, þeim er þá voru honum samtíða[3]«.

Á 16. öld er getið tveggja saungmanna: séra Erasmusar Villadssonar í Breiðabólstað í Fljótshlíð, sem reyndar var danskur að ætt, en »ypparsti saungmaður«[4] og Sigurðar Stefánssonar, skólameistara í Skálholti, sem valt sofandi niður í Brúará 1593. Hann var »lista saungmaður«[5].

Á 16. öld var Saungva-Borga líka uppi, móðursystir Guðbrandar biskups[6]. Hún hefir, að öllum líkindum, súngið frábærlega vel og feingið af því viðurnefni sitt.

Á 17. öld er getið margra saungmanna. Gísli Guðbrandsson prestur að Hvammi í Dölum († 1620) var saungmaður mikill[7]. Séra Oddur Oddsson að Reynivöllum »kunni saunglist manna bezt[8]«. Þorkell Ögmundarson var uppi í Axarfirði snemma á öldinni. Hann var saungmaður góður[9]. Finnur Vilhjálmsson af Kalastaðaætt var uppi um miðja öldina. Hann var »mikill saungmaður«[10]. Andrés Bjarnason á Melgraseyri, bróðurson séra Jóns Magnússonar í Laufási var »mikill saungmaður[11]« Séra Jósep Loptsson að

[1] Biskupasögur I, bls. 830.
[2] Biskupas. I, bls. 850. Sbr. 891. Bergur var uppi á dögum Lárenzíusar Hólabiskups (1323—1330).
[3] Biskupas. I, bls. 127.
[4] Fræðimannatatal Hallgríms Jónssonar; bls. 357.
[5] s. st.: bls. 434.
[6] Ættartölubækur J. Espólíns. Hrs. Bmfj. 14. 4to; bls. 4944. Sbr. Árbækur Espólíns *III*; bls. 61 og Sýslumannaæfir I; bls. 463.
[7] Fræðimannatal H. Jónss.; bls. 179.
[8] Sama rit; bls. 394.
[9] Ættartölub. J. Esp.; nr. 13: bls. 4374.
[10] Sama rita; nr. 12: bls. 3450.
[11] S. r. nr. 11; bls. 2955. Sbr. Árb. Esp. VIII; bls. 101.

Ólafsvöllum († 1683) var saungmaður mikill og hraustmenni eptir Séra Stefán Ólafsson í Vallanesi var »fyrirtaks saungmaður og raddm mikill[2]«. Séra Pétur Jónsson á Upsum við Eyafjörð († 1708) var lo saungmaður mikill[3]. Kvæða-Guðbrandur Bjarnarson, Hrólfssonar sýslum Sigurðssonar í Þíngeyarsýslu hafði fjarska há hljóð en mjög sérleg[4].

Margir saungmenn eru líka uppi á 18. öldinni. Sigurður Bjarnarson maður († 1723) var saungmaður góður[5]. Bjarni Haldórsson skólameist Skálholti (1723—1725) »kunni saung með þeim beztu á sinni öld[6]«. I biskup Þorleifsson († 1710) var saungmaður góður[7]. Jón biskup Árn († 1743) »var svo vel að sér í saungkunnáttu, að einginn var honum fr á hans dögum«.[8] Um miðja öldina var Kvæða-Stefán uppi, bróðir Þor Jónssonar, sem vakti upp Þorgeirsbola. Það er sagt að hann kvæði og viðbrigðavel[9]. Séra Haldór Hallson á Breiðabólstað í Vesturhópi († 1 var »raddmadr gódr ok kunni vel saung[10]«. Sama segir Espólín um Benedikt Pálsson[11] (seinast að Stað á Reykjanesi, † 1813). Vigfús s maður á Hlíðarenda († 1819) var »raddgódr til saungs«, eptir því Espólín segir, og »saungmadr góðr[12]«. Friðrik prestur að Breiðabóls Vesturhópi, bróðir Vigfúsar sýslumanns († 1817), var líka annálaður sa maður. »Hann var frægur raddmaður og kunni manna bezt saung landi[13]«. Þorkell stipstprófastur Ólafsson var líka afbragðs saungmaðu kemst séra Jón Konráðsson svo að orði um það: »Sra Þorkell Ólafsso talinn mesti saungmadur sinnar tídar í Hóla stipti, máské og þó vídar leitad hér um land, bædi ad raust og kunnáttu[14]«. Séra Þorkell kendi s

---

[1] Ættartölub. J. Esp. nr. 9; bls. 914—15. Þar er sagt til merkis um k séra Jóseps. að hann hafi borið sér á brjósti 49 fjórðúnga þúngan bolta ekki hafi hann þó komizt til jafns við Gísla biskup Oddsson.

[2] Kvæði Stefáns Ólafssonar II; bls. LXIV.

[3] Ættartölubækur. J. Esp. nr. 16; bls. 6622—23.

[4] Sýslumannaæfir I; bls. 98—99.

[5] Fræðimannatal H. Jónss.; bls. 426.

[6] S. r.; bls. 129.

[7] S. r. miði milli bls. 146 og 147.

[8] S. r.; bls. 274.

[9] Þjóðs. J. Árn. I; bls. 350.

[10] Árb. Esp. IX; bls. 67.

[11] Árb. X; bls. 67.

[12] Árb. XI; bls. 131 og XII; bls. 111. Sbr. Minnisverð tíðindi I; bls. 266. Melsteð skrifar mér, að um aldamótin hafi Vigfús sýslumaður verið talinn m saungmaður á Suðurlandi, séra Friðrik og séra Þorkell á Norðurlandi, en Sæmundur Hólm á Vesturlandi.

[13] Ljóðabók Jóns Þorlákssonar II. Kmh. 1843; bls. 269.

[14] Stutt Agrip um Þorkells Olafssonar — — margbreyttu og eptir minnilegu Tilfelli Viðey 1821; bls. 13.

nafna sínum Þorkeli Jónssyni, sem eptir það var kallaður Kvæða-Keli. Hann var seinna í Múlasýslum, og var saungmaður mikill. Kvæða-Keli var ættaður úr Skagafirði og hafði verið »bullari[1]« á Hólum. »Hann hafði ágæt hljóð, svipuð nokkuð hljóðum séra Sigurðar Arnþórssonar[2]. Man eg það einn jóladag í Vallaneskyrkju. Eg var þar með föður mínum, hér um bil 12 vetra. Faðir minn sat við altarishorn og var vanur að byrja, þegar hann var í kirkju. Nú kom Þorkell og var leiddur í kór, því hann var utansóknarmaður, og settist á bekk í kórnum. Eptir litla setu bendir faðir minn Þorkeli, og Þorkell upp með sama »í bassann«, sem það var kallað, og þótti öllum unun að heyra á það[3].« Um séra Þorkel Ólafsson er þetta kveðið:

Þar saung hann út öll jól
á ermabættum kjól.
Heyrðist hans grenj og gól
gegnum hann Tindastól.

Hann saung introitum[4]
af öllum lífskröptunum,
og endaði' á exitum[5]
með útþöndum kjaptinum.[6]

Svo er sagt, að séra Þorkell hafi ávalt byrjað útgaunguversið sjálfur, og súngið svo hátt, að einginn gat fylgt honum leingi vel. Haust eitt gat þó einn nýsveinn fylgt honum út alt vessið og það í barnshljóðum. Þorkell prestur klappaði í koll dreingnum, eptir messu, og sagði: »Þú getur einhvern tímann súngið dreingur minn.« Pilturinn var séra Friðrik Thórarensen, sem getið er um fyrir skemmstu.

Páll Melsteð hefir skrifað mér tvær sögur um saung séra Friðriks og eru þær á þessa leið. »Þegar faðir minn var á Melstað, eitthvað 17—18 vetra, fór hann eitt sumar og 4—5 úngir menn í Miðfirði til að heyra séra Friðrik, annaðhvort á Breiðabólstað eða Víðidalstúngu — eg man það nú ekki. Séra Friðrik var fyrir altari, og saung lítið fyrstu sálmana, en þegar byrja á versið milli milli pistils og guðspjalls: »Ó þú göfuglega þrenníng«, þá bendir prestur forsaungvara; hann skildi það og byrjaði, en séra Friðrik »fór upp«[7], þá sagðist faðir minn hafa hætt að sýngja, en þegar prestur fór í undirbassann, eða »fór niður«, sem kallað var, »þá skalf bekkurinn, sem við

[1] »Bullari hét sá, sem bar svertuna, eða dró hana yfir letrið í prentsmiðjunni«.
[2] Prestur á Mælifelli.
[3] Páll skólakennari Melsteð.
[4] þ. e. inngángur, hér inngángsvers = stólvers?
[5] þ. e. útgángur, hér útgaunguvers.
[6] Ekki man eg betur en eg hafi erindi þessi, og sögu þá sem fer þar á eptir, eptir Páli skólakennara Melsteð.
[7] Sbr. bls. 255.

sátum á«[1], sagði faðir minn. »Aldrei hefi eg heyrt önnur eins manns hljóð« bætti hann við. Einu sinni voru margir beztu saungmenn saman komnir hjá Geir biskupi Vídalín, hér í húsi hans í Reykjavík, og þar á meðal séra Friðrik. Þá saung hann svo, að tárin komu í augu Ísleifi Einarssyni teingdaföður mínum, er þar var viðstaddur, og sagði Ísleifur, er hann kom heim: »Slíkar raddir vona eg að heyra í öðru lífi.«

Ólafur stiptamtmaður Stefánsson og sonur hans Magnús Stephensen voru líka saungmenn miklir og kemst Magnús þannig að orði um það í æfisögu sinni: »Náttúran hafði þegar á úngdómsaldri lént honum (Magnúsi) góð og hvell saunghljóð, fullorðnum rómsterk og karlmannleg, enda æfði faðir hans þau stöðugt — sjálfur liðugur og góður saung- og hljóðfæramaður — kendi hann honum öll þau vönduðustu andleg og veraldleg lög, saung með honum tvísaung jafnaðarlega í rökkrum og optar, vandi hann við, frá hans 8. aldurs-ári, að byrja öll lög, vers og sálma við húslestra, við hvað hann lagfastur varð; lét hann, eins og þau börn sín öll, sem komust fram yfir æskuskeið, læra lángspilsleik og saung opt undir með þeim[2]«.

Sæmundur prestur Hólm var saungmaður mikill. Hann »var hinn mesti raddmaður og að því skapi liðugur; unni hann mjög tvísaung; brá hann þá jafnan hendi upp og niður, eptir því sem hann vildi saungurinn geingi[3]«. Únglíngar sem voru á heimili Sæmundar prests lærðu saung af honum og þar á meðal Ketill Ketilsson, sem síðan var kallaður Saung-Ketill. Ketill átti að hirða fé prests, með öðrum manni, »en prestur hélt Katli jafnlega, einkum á kvöldum, inni við saung,« svo hinn varð einn að gæta fjárins. »Allir þeir, sem lærðu saung af Hólm, höfðu öðruvísi saunglag en aðrir menn, svo þekkja mátti þá frá hinum[4]«.

Á þessari öld hafa verið margir góðir saungmenn á Íslandi, eins og lætur að líkindum, og kann eg þó ekki að nefna marga. Séra Einar Guðbrandsson á Auðkúlu var ágætur saungmaður og kunni saung að því skapi. Ólafur sá sem áður er getið[5] var þá í sókn hans, og bjó á Grund í Svínadal. Séra Einar sagði um hann, að hann væri beztur raddmaður, þeirra manna, sem hann hefði þekt, en verstur saungmaður. Það var samkomulag þeirra Ólafs, að hann fór upp í öllum sálmunum nema útgaunguversinu. Þá þagði Ólafur, enn Einar prestur saung[6]. Páll Melsteð skrifar mér, að í Bessastaða-

[1] Það eru líka dæmi til þessa í útlöndum, þegar miklir rómmenn leggjast djúpt.

[2] Tímarit Bmfj. IX; bls. 201—2.

[3] Hann hefir slegið takt, sem þá hefir verið sjaldséð á Íslandi.

[4] Þáttur Sæmundar prests Hólms, eptir Gísla Konráðsson 13. kap. sbr. 2. og 29. kap. Sbr. Klausturpóstur IV; bls. 104. Mér hefir gleymzt að geta þess áður, að alt sem fært er til í safni þessu úr þáttum Gísla Konráðssonar, er tekið eptir þáttabók, sem skrifuð er af Gísla sjálfum og Dr. Jón Þorkelsson ýngri á nú.

[5] Sbr. bls. 255.

[6] Sigurður L. Jónasson.

skóla hafi þeir verið beztir saungmenn: séra Páll Magnússon Thórarensen, bróðurson séra Friðriks, sem getið er um fyrir skemmstu, séra Jón Reykjalín á Þaunglabakka og séra Jón Sveinsson á Mælifelli. »Hjá þeim var bæði fegurð og fylling hljóðanna framúrskarandi«, segir Páll. Hann skrifar mér líka, að Torfi nokkur, sem bjó í Hvammi skamt frá Vallanesi, hafi haft »óvenjulega mikil hljóð og heldur lagleg.«

Í Reykjavíkurskóla hafa ávalt verið einhverjir góðir saungmenn, en ekki þykir mér þurfa að nefna þá hér, sem mér er kunnugt um. Þó má geta þess, að þeir tveir af skólabræðrum mínum, sem bezt þóttu sýngja, voru af Thórarensensættinni, og flestum eða öllum, sem eg hefi þekt af þeirri ætt, hefir verið létt um saung, eins og niðjum Stefáns Ólafssonar yfir höfuð að tala[1]. Það eru fleiri dæmi til þess að góð hljóð hafa lagzt í ættir og má nefna til þess Blöndalana og Skúlaætt í Mjóafirði austur. Hún var nafnkend fyrir fögur hljóð[2].

Nú hefir verið minzt nokkuð á sögu saunglistarinnar á Íslandi, bæði að fornu og nýu, og hefir þar einkum verið átt við »vókalmúsikina« eða saunginn, en nú er eptir að minnast á »instrúmentalmúsíkina« eða hljóðfærasláttinn.

Hljóðfærasláttur hefir ávalt verið mjög bágborinn á Íslandi[3]. Bæði hefir hann verið hafður mjög lítið um hönd, og svo hefir þetta litla ekki verið á marga fiska, eins og ekki er við að búast, þegar gætt er að hljóðfærunum, sem leikið var á. Það vantar reyndar ekki, að hljóðfærin hafi verið nógu margs konar, eða að minnsta kosti er getið um mörg hljóðfæri og þegar í sögunum.

Í Fróða[4] er grein um saunglist í fornöld og er minzt þar á hljóðfæri þau, sem nú skal greina: *Lúður* er víða nefndur í Fornmannasögunum[5]. *Horn* eru víða nefnd í fornum sögum, og þarf ekki annað en minna á Gjallarhorn. *Pípa* er nefnd í Fornmannasögunum[5]. *Harpa* er þegar nefnd í fjórum kvæðum í Sæmundar-Eddu, og auk þess í Fornmannasögunum[5], og Biskupasögunum[6] og miklu víðar. Fróði telur öll þessi hljóðfæri til *blásturhljóðfæra* og er þó réttara að telja hörpuna til *streingjahljóðfæra*, eins og *fiðlu* og *gígju*. Bæði hljóðfæri þessi eru nefnd í Heimskrínglu[7], eða þó öllu fremur fiðlarar og gígjarar, því Hugleikur Uppsalakonúngur hafði

---

[1] Sbr. Tímarit Bmfj. IX; bls. 202.
[2] Páll Melsteð.
[3] Sbr. Horrebow: Tilforladelige Efterretninger; bls. 376. Hann segir að Íslendingar hafi eingin hljóðfæri, og má færa það til sanns vegar, því lángspil o. s. frv. eru valla hljóðfæri nema að nafninu.
[4] V; nr. 139–40.
[5] VI; bls. 203, VII; bls. 97.
[6] I; bls. 155.
[7] Christiania 1866; bls. 19.

hvoratveggju við hirð sína. Auk þess er hvorttveggja hljóðfærið nefnt í Fo[illegible]mannasögunum[1]. Í Æfintýrasögum frá 14. og 15. öld er víða minzt á *org*[illegible] *simfón* og *salterium*. *Bumba* er einkum nefnd í útlögðum sögum, t. d. Alexanderssögu og Karlamagnúsarsögu, og sama er að segja um *trumbu*.

Reyndar er hér um bil víst, að sum af hljóðfærum þessum hafa ald[illegible] tíðkazt á Íslandi, því það er aldrei minzt á þau í Íslendínga sögum og sa[illegible] er að segja um hljóðfæri þau, sem nefnd eru í Duggalsleizlu og áður getið um.

Þess er getið í Árbókum J. Espólíns[2], að leikið hafi verið á hljóðf[illegible] þegar Friðriki konúngi III. voru svarnir hollustueiðar á alþíngi 1649 [illegible] 1662. Í fyrra skiptið segir J. Espólín jafnvel að blásið hafi verið á »*p*[illegible] og *trómetr*[3]«. Það er þó líklegt, að það hafi verið útlendíngar sem léku, þ[illegible] höfuðsmaðurinn hélt að minnsta kosti fyrri veizluna.

J. Ól. telur[4] nokkur hljóðfæri, sem tíðkist á Íslandi, og eru þau þe[illegible] *lángspil, fiðla, fiól, bumba, harpa, sýmfón* og »*clavier*«. Þó segist Jón [illegible] eins nefna þau, sem tíðust séu. Eg skal nú minnast á hljóðfæri þessi, [illegible] svo önnur hljóðfæri, sem sögur fara af á Íslandi í seinni tíð[5].

Ekki veit eg annað en lángspil sé alveg íslenzkt hljóðfæri, eða [illegible] minnsta kosti hefi eg hvergi rekið mig á, að það tíðkaðist í útlöndum. Ein[illegible] er mér alveg ókunnugt um, hvenær það tíðkaðist fyrst á Íslandi. Margir [illegible] þeim, sem nú lifa, hafa hlotið að sjá lángspil, en þó eru þau orðin frem[illegible] sjaldgæf um þessar mundir. Eg hefi að eins þekt einn mann, sem kunni [illegible] smíða lángspil, Davíð bónda á Heiði í Sléttuhlíð, og var hann orðinn aldr[illegible] aður maður, þegar eg ólst þar upp (1862—74). Árni bóndi Einarsson [illegible] Vestmannaeyum kvað líka smíða lángspil. Í Eyafjarðarsýslu hefi eg mjög óvíða heyrt getið um lángspil, en þó eru þau þar til á einstaka bæ, eða að minnsta kosti er vísa þessi:

Á lángspilið litla Marja liðugt sýngur,
laglega færir hún lipra fíngur

ort þar fyrir skemmstu um barn, sem var að fitla við lángspil.

Um miðja þessa öld hafa lángspil aptur verið miklu tíðari en nú. 1855 gefur Ari Sæmundssen, umboðsmaður, út bók á Akureyri: »Leiðarvísir til

---

[1] VII; 97, XI; bls. 323. Í Hrs. J. Sig. nr. 398. 4to er sagt að fiðlu og gígju sé getið í þýzku tímariti Idunna und Hermode 1814; nr. 32, 38. Eg hefi ekki átt kost á að sjá þessi númer.

[2] VI; bls. 129, VII; bls. 32.

[3] Sama sem trompet = lúður. Í Tyrkjaránssögu Bjarnar Jónssonar á Skarðsá, Rkv. 1866 er þess getið (bls. 19) að Tyrkir hafi blásið á »trómet og belgpípur. Í Bibliukjarna Lassenii. Hólum 1744 er líka minzt á trómetur bls. 2941.

[4] Undir spil, á lausum miða.

[5] Þ. e. eptir 1400.

að læra á lángspil og til að læra sálmalög eptir nótum.« Þar er kent að leika á lángspil eins og titillinn ber með sér, og skýrt frá öllu sem þar að lýtur (bls. 13—14), en ekki er hljóðfærinu sjálfu lýst svo í lagi sé. Auk þess eru þar 120 sálmalög á nótum. »Lángspil voru smíðuð eptir bók Sæmundssens og tókst mörgum vel«, segir í Norðurfara[1], en aðrir segja, að valla muni tíunda hvert lángspil hafa verið ófalskt að nótnaskipan[2], og veit eg ekki, hvort sannara er, en fleiri hafa haft horn í síðu lángspilanna en Þjóðólfur, og þar á meðal Pétur Guðjónsson. Hann segir þannig að lángspilin muni sjálfsagt eiga þátt í því, að sálmalögin afbökuðust með tímanum[3]. Lángspil hafa líklega aldrei verið tíðari á Íslandi, en nokkur ár eptir að bók Ara kom út, en þó er opt getið um þau áður. Troil sá þannig lángspil með sex messíngarstreingjum 1772. Magnús Stephensen minnist líka á lángspil, en segir að þau séu fremur sjaldgæf. Auk þess eru lángspil nefnd í mörgum af sóknalýsíngunum, bæði fyrir og eptir 1855, en þó er að ráða af þeim, að þau séu í litlum metum, því víðast er tekið þar fram, að ekki kunni nema einn eða tveir af sóknarmönnum á þau. Það eru alveg eins dæmi, að séra Vernharður Þorkelsson segir, að átta manns kunni á lángspil þar í sókninni[4].

Ekki kann eg að lýsa lángspili, en ferðamaður nokkur enskur, Mackenzie, sem ferðaðist um Ísland snemma á öldinni, hefir góða mynd af því í ferðabók sinni[5], og fyllir hún vel upp lýsíngu Ara Sæmundssens. Mackenzie segir, að hljómur þess láti ekki vel í eyrum, þegar leikið sé á það fast við mann, en aptur hælir hann honum, þegar hann heyrist svolítið að. Þórunn dóttir Magnúsar yfirdómara Stephensens, gaf Mackenzie lángspil það sem myndin er af, og voru þau feðginin mestu meistarar á lángspil, ekki síður en Ólafur stiptamtmaður faðir Magnúsar[6], svo það er auðséð, að það hefir verið fínt í þann tíð, að kunna að leika á lángspil.

Annar enskur ferðamaður, Hooker, kom að Innra-Hólmi tveimur árum á eptir Mackenzie, og lék dóttir Magnúsar yfirdómara á lángspil fyrir hann. Hooker lýsir lángspilinu og færir til mynd af því í ferðabók sinni[7], en mynd hans ber ekki saman við mynd Mackenzie's, enda er mynd Hookers tekin eptir minni, eptir að hann kom heim til sín. Mynd Hookers er í laginu

---

[1] XVI; bls. 38.

[2] Þjóðólfur VI; bls. 192.

[3] Islenzk Sálma-saungs- og Messubók. Kmb. 1861; bls. 3.

[4] Hítarnessþíng. Sóknarlýsíngin er frá 1841.

[5] Travels in the Island of Iceland, during the summer of the year 1810. Edinburgh. 1811; bls. 146—47.

[6] Sbr. bls. 264.

[7] Journal of a tour in Iceland, in the summer of 1809. London. 1813. I; bls. 282—283.

eins og hálfur gítar, eða gítar, sem skipt er sundur í miðjunni, eptir en d
laungu, en hjá Mackenzie mjókkar lángspilið í annan endann, jafnt á b
bóga. Annars segir Sigurður L. Jónasson mér, að lángspil hafi verið með hvorutveggja laginu, og hafi þau þótt »fínni«, sem voru með Hook
lagi. ef svo má segja.

Á Forngripasafninu í Reykjavík er til vandað lángspil, að vestan[1].

Loksins má geta þess, að það var gömul trú, að einglunum væri mj
skemt, er leikið væri á lángspil[2], enda mun lítið hafa verið leikið á þ
nema sálmalög.

Um fiðlu er þegar getið í Heimskrínglu, eins og áður er sagt, og he
hún tíðkazt á Íslandi síðan fram á okkar daga, eða að minnsta kosti hljóð
færi, sem kallað var fiðla. Það eru ekki til greinilegar lýsingar á fiðlu, s
eg viti, og þessum lýsíngarnefnum sem til eru, ber ekki saman. Troil
fiðlu á Íslandi með tveimur hrosshársstreingjum og var leikið á hana me
boga[3]. Magnús Stephensen segir, að fiðla sé fremur sjaldgæf og alv
óheyrileg. Hún sé optast gjörð þannig úr garði, að grófur hrosshársstreingu
tvinnaður, sé streingdur yfir aflángan trékassa, holan, og svo sé leikið me
enn grófari boga. Loksins er til gáta um fiðluna:

Hver er sú höldar hæla?
Hún er beðin að fremja saung.
Hún þarf tíu þræla,
að þjóna sér um sinnisgaung.
Handarbökum höldar að henni snúa.
Holgóm þessi hrundin er,
sem hermi eg hér,
og hára ber hún grúa.[4]

Þrælarnir eru sjálfsagt fíngurnir, og holgóm er fiðlan kölluð af því trékassinn er holur. Háragrúinn bendir líklega til háranna í streingnum[5] og boganum, en aptur er mér ekki ljóst hvað átt er við með fimtu línunni.

Sjálfsagt hefir fiðlan verið sjaldgæfari en lángspil, að minnsta kosti á þessari öld, og aldrei hefi eg séð fiðlu. Það er þannig mjög óvíða getið um fiðlur í sóknalýsíngunum. Eg hefi að eins rekið mig á þær í þremur sóknalýsíngum: Garðsóknar í Kelduhverfi, Stórólfshvols og Sigluvíkursókna og svo Presthólasóknar. Þar er sagt, að þrjár eða fjórar »svonefndar fiðlur« séu til í sókninni.

Til eru hendíngar um fiðlu úr vikivaka:

---

[1] Skýrsla um Forngripasafn II. Kmh. 1874; bls. 93.

[2] Gísli Konráðsson í sögunni af Fiðlubirni, sem strax verður minzt á.

[3] Bref — — ; bls. 70.

[4] Frá J. Árn.

[5] eða streingjunum.

Hrosshár í streingjum og holað innan tré;
eigi átti hann fiðlúngur[1] meira fé[2],

og koma þær heim við lýsíngarnar. Eins er til bragarháttur, sem kendur er við fiðlu og kallað fegursta fiðlulag ramvíxlað, eða fegursta fiðlulag víxlað saman[3], og hefir Jón sýslumaður Espólín ort vísu þessa undir honum:

Lindin banda yndisanda
endurmyndi,
hrindi vanda, lyndislanda
lendíng vindi[4].

Loksins má geta um Fiðlu-Björn. »Björn hét maður skagfirzkur[5] og kallaður Fiðlu-Björn, fyrir því að hann lék manna bezt á fiðlu; lagði hann það eitt fyrir sig og fór um héröð með íþrótt þá og hélt sér uppi við það; en það var forn trúa, að álfar og ýmsar vættir sæktu þar mjög að, er fiðla var leikin«[6]. Það þýðir ekkert að færa til meira af sögunni, og er nóg að taka það fram, að Fiðlu-Björn kemst í tæri við álfa, þegar fram í hana sækir.

Fíól það sem J. Ól. getur um er eflaust sama sem fíólín. Það er útlent hljóðfæri, sem flutzt hefir til Íslands fyrir skemmstu. Þó þektust fíólín á Íslandi á dögum Horrebows og voru helzt í kaupstöðunum, og hjá Dönum[7]; sama segir Magnús Stephensen[8]. Um fíólín er líka getið í einstaka sóknarlýsíngu, helzt úr Þíngeyarsýslu og Múlasýslum, en fáir munu þó kunna á þau upp til sveita á Íslandi, sízt svo í lagi sé. Enn má geta þess, að dæmi eru til að leikið hafi verið á fíólín við messugjörð. Magnús Stephensen segir: »Heidra má þad og Hra. Stiptsprófasts Markúsar Magnússonar menta-smeck og þenkíngar-hátt, ad hann gjørdi nærstlidinn Nýársdag 1803 enn hátídlegri med samspilun 3gja Fíólína med saungnum vid Messugjørd í Garda-kirkju«[9].

Bumbu lýsir J. Ól. þannig: »Eg hefi einhversstaðar séð hljóðfæri

---

[1] eða fiðlari = fiðluleikari.

[2] J. Ól.

[3] Hrs. Bmfj. 572. 8vo.

[4] Hrs. Bmfj. 4. 4to.

[5] Í þætti Hálfdanar Fellsprests, eptir Gísla Konráðsson (11. kap.) segir að Fiðlu-Björn var systurson séra Hálfdanar. »Þar segir að hann kvað manna bezt á fiðlu, svo að ærin var íþrótt í.«

[6] Gísli Konráðsson í safni A. M. (sjá 2. nmgr. bls. 8). Sbr. Maurer: Isländische Volkssagen. Leipzig. 1860; bls. 136. enda mun sagan vera komin þángað frá Gísla, og Om Digtningen på Island; bls. 200.

[7] Tilforladelige Efterretninger om Island. Kmh. 1752; bls. 376.

[8] Island i det 18. Aarhundrede; bls. 227.

[9] Minnisverð Tíðindi II; bls. 471.

nokkurt á Íslandi, sem ekki var ósvipað fiðlu eða lángspili að lagi leingd, en undir streingjunum, sem voru tveir, ef eg man rétt, voru ei eða tveir uppblásnir belgir[1], sem gáfu frá sér dimt boms[2], þegar leikið v Hljóðfæri þetta kallaði stúlkan, sem lék á það, og heimilisfólkið bumbu«

Hörpu er mér mjög ókunnugt um. Hún er afgamalt hljóðfæri, e og áður er sagt, og mun harpa sú, sem Heimir í Hlymdölum faldi í laugu Sigurðardóttur Fáfnisbana[3] vera frægust harpa í forna tíð. Snem hefir harpa tíðkazt á Íslandi. Það er þannig fært í frásögur, að Þorlei prestur á Reykjum í Skagafirði hafi verið mestur hörpuslagari á Ísland sinni tíð[4]. »Það er sagt að harpslaginn hafi sett hanzka sér á hendur, hann vildi leiða fram öfluga tóna. Hafa hanzkar þessir vafalaust ve með málmnöglum[5]«. Hvergi hefi eg rekið mig á þessa sögu annarssta en í Fróða.

Á 16. og 17. öld hlýtur hörpusláttur að hafa verið enn við lýð Íslandi. Þess er þannig getið í Gandreið[6], að Gemma Frisius[7] hrósi lendíngum fyrir hörpuslátt, og hefir hann víst ekki gjört það alveg ástæðulausu, þótt hann muni annars ekki vera áreiðanlegur. Í annan s er þess getið í orðasafni úr Skaptafellssýslu frá 17. öld[8], að í Álptaveri bassastreingurinn í hörpunni kallaður bordún[9], og hefði það ekki ve hægt, ef hörpur hefðu ekki verið þar við lýði. Enn má geta þess að Handritasafni Bókmentafélagsins í Reykjavík[10] er kvæði, sem kallað Hörpukvæði, hvernig sem á því stendur.

Í Þjóðsögunum er víða getið um hörpur í Æfintýrunum[11] og voru ávalt hinar tignustu konur, sem léku á þær, eða litu að minnsta kosti eins og tignar konur, þótt þær væru reyndar tröllskessur í raun og ve Þetta sýnir að menn hafa talið hörpur hljóðfæri, sem samboðin væri göf um mönnum.

---

[1] eða blöðrur.

[2] »bombosum soni mugitum«.

[3] Fornaldarsögur Norðurlanda I. b.; bls. 91.

[4] Biskupasögur I; bls. 866 og Árb. Espólíns I; bls. 62 (við árið 1328).

[5] Fróði V; nr. 139.

[6] Eptir séra Jón Daðason að Arnarbæli. Hrs. Bmfj. 35. fol. 43. kap.

[7] Gemma Frisius var landafræðingur og sagnfræðingur. Hann var uppi á 1( 17. öld. Eg hefi ekki treyst mér til, að leita uppi í ritum hans kafla þa sem séra Jón Daðason á við.

[8] Hrs. A. M. 226. 8vo.

[9] Dr. Jón Þorkelsson yngri þýðir bordún »djúp og digur hljóð« í neðanmálsg við Kvæði Stefáns Ólafssonar. I. Kmh. 1885; bls. 137. Það kemur ekki h við Álptaversþýðinguna.

[10] Nr. 67 í safni Guðmundar Einarssonar.

[11] T. d. II; bls. 327, 342—3, 386.

Loksins eru til tveir málshættir um hörpur:

Er-at hlunns vant, kvað refur, dró hörpu á ísi. (G. J.)

Hvað skal hrosshófur á hörpustreingjum? (G. J.)

Simfón er áður nefnt. Jón biskup Arason minnist á fón í vísu þeirri, sem færð er til í viðaukanum, og er það eflaust sama sem simfón. Troil heyrði líka talað um simfón 1772, en sá það ekki. Ekki heldur Hooker[1]. Þetta er alt, sem eg get sagt um hljóðfæri þetta.

Klavier segir J. Ól. að sé altítt á Íslandi, eptir því sem áður segir. Það er ómögulegt, að það sé rétt. Magnús Stephensen[2] þekkir að eins eitt klaver[3], sem þá var nýlega komið út til Íslands, eptir því sem hann segir. Nú um miðja öldina voru 6 klaver í Reykjavík og eitt í Hafnarfirði, eptir því sem frú Ida Pfeiffer segir[4], en ekki þótti henni vel leikið á þau. Nú er talsvert af forte-píanóum í Reykjavík og ef til vill í einstaka kaupstað, en víst að eins eitt upp til sveita á Íslandi.

Þá er getið um öll þau hljóðfæri, sem J. Ól. nefnir, en auk þeirra sjást fáein hljóðfæri á Íslandi, og er þá fyrst að minnast á harmóníkuna, sem er lángtíðust allra hljóðfæra á Íslandi um þessar mundir, og er skaði, því aumara hljóðfæri getur valla. Á harmóníkur er víða drepið í sóknahjáleigunum. Magnús Stephensen minnist á flautu[5], en segir að það séu helzt Danir, sem leiki á hana. Magnús blés sjálfur á flautu og faðir hans, Ólafur stiptamtmaður[6]. Einstaka stúlka á Íslandi leikur líka á gítar.

Hornleikafélag hefir verið í Reykjavík seinustu árin, og hefir Helgi smikkari Helgason veitt því forstöðu. Ekki veit eg hvenær félag þetta er stofnað, en það mun þó vera hér um bil tíu ára gamalt. Félagsmenn hafa opt skemt Reykjavíkurbúum með hornblæstri[7]. Ekki er að búast við að hornleikar breiðist út um Ísland, þótt góð skemtan sé að þeim þegar vel er leikið.

Harmóníum[8] kom fyrst til Íslands 1800. Magnús Stephensen kom þá að utan og hafði með sér harmóníum. Það var sett í Leirárkirkju í Borgarfirði, og haft þar við messugjörð, þángað til 1803. Þá flutti Magnús að Innrahólmi og hafði harmóníið með sér. Hann lék á það sjálfur, því

---

[1] Journal of a tour o. s. frv. I; bls. 283.

[2] Island i det 18. Aarhundrede; bls. 227.

[3] sem líka er kallað forte-píanó. og er það nafn tíðara á Íslandi.

[4] Reise nach dem Skandinavischen Norden und der Insel Island im Jahre 1845. I. Pest. 1855; bls. 86, 124—26.

[5] Island i det 18. Aarhundrede; bls. 227. Í Eptirmælum 18. aldar (bls. 559) er flautan kölluð hljóðpípa.

[6] Tímarit Bmfj. IX; bls. 202.

[7] Sbr. t. d. Þjóðólfur XXXIII; bls. 87.

[8] Séra Einar Jónsson kallar harmóníum smáorgan í æfisögu Péturs Guðjónssonar; bls. XIV.

ekki kunnu aðrir. 1819 var harmóníum þetta flutt til Viðeyar, og hafði þar við messugjörð, þángað til Magnús dó 1827. Skömmu eptir fráfall Magnúsar var það aptur flutt af landi burt, því einginn var svo fær að hann gæti leikið á það, og segir þó Jón Espólín, að Magnús hafi kent það öðrum[1].

Um aldamótin var líka í ráði að setja orgel í dómkirkjuna í Reykjavík en ekkert varð úr því. 1840 lét stjórnin aptur setja þar organ eða orgel eptir beiðni nokkurra sóknarmannna[2] og lék Pétur heitinn Guðjónsson á það síðan, meðan hann hann lifði, en hann hafði lært að leika á orgel á Johnstrup Seminarium[3]. 1859—60 var orgel þetta ytra til aðgjörðar, og var þá að eins súngið í Reykjavíkurkirkju[4], en annars hefir verið leikið á það, hvern sunnudag, eða því sem næst.

Pétur Guðjónsson kendi mörgum að leika á harmóníum, ekki síður en að syngja, og varð það meðal annars orsök til þess, að harmónía fóru að breiðast út um landið. Einna fyrst voru feingin harmónía í Melstaðarkirkju (1872)[5], Arnarbæliskirkju í Ölvesi[6] og Möðruvallakirkju í Hörgárdal, og síðan hafa þau fjölgað óðum. 1881 voru harmónía í milli 30 og 40 kirkjum á Íslandi[7], og eru þau þó eflaust orðin talsvert fleiri nú. Auk Péturs Guðjónssonar hefir Jónas Helgason eflaust kent mest og bezt að leika á harmóníum, en margir lærisveinar þeirra hafa aptur kent út frá sér. Nú eru Íslendíngar sjálfir farnir að smíða harmónía og tel eg til þess Jón Árnason á Laugalandi á Þelamörk. Hann smíðaði fyrst harmóníum 1876 »þó það væri ófullkomið, vegna þess hann vantaði ýmislegt í það«[8]. Síðan hefir hann smíðað fleiri[9]. Eins hefir Helgi snikkari Helgason í Reykjavík smíðað harmóníum[10], þótt eg hafi ekki eins ljósar sagnir um það.

Í Fróða V; nr. 139 er þess getið, að trélúðrar komi fyrir, enn í dag, hjá alþýðu manna og sagt að þeir muni vera »elztu og einföldustu myndir« af lúðrum þeim, sem tíðkuðust í gamla daga. Eg hef aldrei séð þessa trélúðra.

---

[1] Magnús Stephensen: Island — —; bls. 228. Fróði; nr. 50. Árb. Esp. XI; bls. 109, 126. Hooker: Journal of a tour. I; bls. 282. Minnisverð Tíðindi; II; bls. 467—71.

[2] Æfisaga Péturs Guðjónssonar eptir séra Einar Jónsson, framan við Sálmasaungsbók. Kmh. 1878; bls. VII. Sbr. Fróði; nr. 50.

[3] S. st. Sbr. Þjóðólfur X; bls. 133.

[4] Þjóðólfur XII; bls. 155—57.

[5] Norðanfari XII; bls. 5. Sbr. bls. 46.

[6] Norðlíngur I; bls. 238.

[7] Fróði; nr. 50.

[8] Norðanfari XVIII; bls. 2. d.

[9] Norðanfari XXII; bls. 103. Sbr. Norðlíngur IV; bls. 208.

[10] Norðanf. VIII; bls. 55, 2. d.

Enn má geta þess að únglíngar leika opt á *hárgreiðu* með vörunum og er þá pappír milli greiðunnar og varanna. Eins búa únglíngar sér opt til *hljóðpípur úr tvinnarúllum*, með því að telgja gat á mjóddina við annanhvorn endahnúðinn, og hálffella í það svo lítið téstykki. *Ýlustrá* þekkja allir. En ekkert af þessu þrennu seinasta er þó verulegt hljóðfæri. Loksins sést einstaka únglíngur með *munnhörpu*. Í Snorra-Eddu kemur fyrir tröllkonuheitið Munnharpa, og er skrítið.

Þess er örsjaldan getið, að Íslendíngar hafi verið fimir hljóðfæramenn. Áður er getið um séra Þorkel á Reykjum og Fiðlu-Björn. Auk þeirra hefi eg ekki heyrt getið um íslenzka hljóðfærasnillínga, nema ef vera skyldi Latínu-Bjarni, því Árni Böðvarsson kvað um hann vísu[1] og er þetta þar meðal annars:

*Fiðlu* og *simfun*[2] fer með tíðum,
*fýol*[3], *hörpu, langspil, gýu*[4].

Hér er reyndar ekki tekið fram að Bjarni hafi leikið afbragðs vel á nokkurt af hljóðfærum þessum, en nógu eru þau mörg.

Enn eru nokkur smáatvik, er lúta að saunglist, sem eg hefi ekki komið að áður.

Það eru til tveir málshættir um saung: »Margur sýngur vísuna eptir annara nótum« (G. J.) og »sýngur hver með sínu nefi«. Seinni málsháttinn er alltíður enn í dag.

Þar sem talað er um rímnakveðskap er getið um ýms víti, sem liggja við saung, þegar svo og svo stendur á. Hér skal eg bæta við svipaðri kreddu: »Ef ein þúngbúin kvinna ber sitt fóstur hægra meginn, og etur gjarna »feniche« og fugla, og hefir lyst að heyra *riddaraspil*, merkir son, en beri hún það vinstra meginn og hefir lyst að dansa og hlýða hljóðfærum, merkir hún gángi með meybarn«[5].

Loksins segir B. H., að »slæmur« þýði »imus et ultimus sonus vocis« (den dybeste Tone), hvort sem hann á við neðsta tóninn á tónstiganum, eða lægstu hljóð, sem menn geta náð.

---

[1] Þáttur Latínu-Bjarna, eptir Gísla Konráðsson. 19. kap.

[2] Sama sem simfón.

[3] Sama sem fiólín.

[4] Það er undarlegt að gígja skuli vera nefnd hér, svo seint, því Bjarni var uppi á 18. öld († 1790). Eg hefi að eins séð gígju nefnda hér, þegar fornsögurnar líður.

[5] AM. nr. 437, 12mo (nr. 50) Kredda þessi er valla íslenzk, en réttara þótti að geta hennar, fyrst hún stendur í gömlu íslenzku handriti. »Feniche« veit eg ekki hvað þýðir, nema ef vera skyldi jurt ein útlend, sem heitir Fennikel á dönsku, en foeniculum á latínu.

## 7. GREIN.

### TÖFL.

Það eru ekki allfá töfl sem tíðkast á Íslandi, meira og minna. Sum eru alveg þjóðleg, hvergi höfð um hönd nema á Íslandi, t. d. *goðatafl*, *ofanfelling*, *Ólafstafl* o. s. frv. Það var sjálfsagt að lýsa hér slíkum töflum. Sum töfl vor eru aptur áreiðanlega útlend að uppruna, og þar á meðal tvö aðaltöflin, *skáktafl* og *kotra*. Það var þó sjálfsagt að geta flokks þessa að nokkru, því bæði hafa skáktafl og kotra tíðkazt á Íslandi frá því í fornöld og svo er kominn þjóðlegur blær á þau, að mörgu leyti, eins og seinna verður sýnt fram á með skáktaflið. Kotra veit eg jafnvel ekki til að sé tefld annarsstaðar um þessar mundir en á Íslandi. Loksins eru einstökum sinnum tefld á Íslandi alútlend töfl, t. d. *dammur*, alveg eins og útlendíngar tefla þau, og hefi eg að eins nefnt nokkur þeirra. Lýsíng á slíkum töflum fanst mér ekki eiga hér heima. Það hefði nú mátt halda þessari skiptíngu, og skipta töflunum niður í þjóðleg töfl og töfl útlend að uppruna, en eg hefi heldur kosið að skipta þeim niður í töfl, þar sem ekki er leikið eptir teníngakasti og teníngatöfl, eða töfl þar sem teníngar ráða leikjunum. Fyrst í hvorum flokknum er minzt á aðaltöflin, en seinast á þau, sem eru týnd eða því sem næst.

Eg get um sögu hvers tafls o. s. frv. við hvert tafl og þarf því ekki að fjölyrða um það hér, en það er ekki úr vegi, að taka það fram, í eitt skipti fyrir öll, að það er teflt fremur lítið á Íslandi. Þar sem eg þekki til eru *refskák* og *mylna* tefld mest allra tafla og svo skáktafl og kotra á einstaka bæ, og má fullyrða að fjöldinn af Íslendíngum kunni hvorugt taflið. Kotra er einkum við lýði hjá gömlum prestum og öðrum embættismönnum, og er mér ekki ljóst hvernig stendur á því. *Goðatafl*, *ofanfelling* og *að elta stelpu*, veit eg ekki til að séu tíðkuð, þar sem eg er uppalinn (Skagafjörður og Eyafjörður), en vera má að töfl þessi séu tíðari í öðrum sveitum. Öll hin töflin, sem minzt er á hér á eptir, eru liðin undir lok, eptir því sem eg veit bezt, eða því sem næst.

Venjulegt er að leggja fé undir töfl í útlöndum, en á Íslandi er það mjög fágætt[1]. Reyndar er þess getið einstökum sinnum í gamla daga, eins og drepið verður á við kotruna, en nú þekkist það varla. Á hinn bóginn þykir ekki alllítið varið í það í svipinn, að bera sigur úr býtum í töflum, og sýna það meðal annars ráð þau til að hafa hærra hlut í tafli, sem seinna verður getið um. Einkum vill það brenna við, að metnaður verði um vinnínginn í kotru, og er ekki dæmalaust, að sá sem tapar, svarti taflinu í fússi og keyri jafnvel taflborð og separate teninga framan í mótstöðumann sinn.

---

[1] Sbr. Eggert Ól. Reise igjennem Island; bls. 50.

Málshættir og orðatiltæki um einstök töfl eru færð til við hvert tafl, en hér fer vel á að geta þess af því tagi, sem snertir töfl yfir höfuð. Málshættirnir eru þá þessir:

Fiplar hönd á feigu tafli (J. Ól., B. H., G. J.)
Hér tefla tvö fífl (G. J.)
Hver má tefla við þann kost, sem hann hefir upptekið (G. J.)
Hægt[1] er að tefla þá vel fellur (G. J.)
Mér er annað tíðara en um tafl að ræða (G. J.)
Mörgum misteflist fyrir síns misgáníngs skuld (G. J.)
Mörgum tekst vel upp, sem teflist illa að lyktum (G. J.)
Sá á leikinn, sem síðar teflir[2] (J. Ól.)
Sá verður að tefla á tvær hættur, sem vinna vill (Sch. I.)
Sjaldan vinnur taflmaður fyrsta tafl[3] (G. J.)
Svart er sigurtaflið, sjaldan þeim sem áheldur (G. J.)
Svo er hver leikur, sem að heiman er gjör (G. J.)
Teflir hver um tvo kosti, að tapa eða vinna (G. J.)
Treystu ei tafli hálfunnu[4] (G. J.)
Það eru taflslok ef leikið er í stans (G. J.)

Ekki er færra til af orðtækjum, sem dregin eru af töflum yfir höfuð og kann eg að nefna þessi: að tefla tvíkosti (J. Ól., G. J.); eitthvað er komið í stans og jafntefli (J. Ól.); að færa sig um reit[5]; að þykjast sjá taflskák málum sínum[6]; að tefla á tvær hættur; um eitthvað er að tefla (lífið, smámuni o. s. frv.); brögð, svik í tafli; að sjá sér leik á borði, sbr. Hann sér níu leiki á borði (G. J.); að tefla við páfann, að tefla við hana tóu, að tefla við Þóri, sem alt er sama og að leysa buxurnar[7].

Öll töfl eru nefnd »tafl« á Íslandi einu nafni, einkum þó skáktafl og er t. d. opt sagt: Eigum við að koma í tafl? þó átt sé við skáktafl. J. Ól. segir aptur[8] að Íslendíngar kalli »tafl« öll töfl sem tefld sé með kríngl-óttum töflum. Með þessum orðum er skáktafl skilið undan og hefir því orðið tafl breytt merkíngu sinni, að nokkru leyti, síðan á dögum Jóns, ef hann hefir rétt að mæla. Eggert Ólafsson getur þess líka, að töfl séu einnig kölluð spil á Vesturlandi[9], og heyrist það jafnvel einstökum sinnum enn í dag, eða þó öllu heldur að spila í merkíngunni að tefla.

---

[1] Eða *ljúft*. Schev. I. [2] Eða *kastar* G. J. [3] Eða *hið fyrsta sinn*. J. Ól.
[4] Sbr. Samhendur séra Hallgríms Péturssonar 6. er. (Snót. II. útg. Rkv. 1865; bls. 300).
[5] Sbr. Leikrit Sigurður Péturssonar. Rkv. 1846; bls. 26.
[6] Árb. Esp. VI; bls. 4.
[7] Kvæði Stefáns Ólafssonar II. útg. I. b.; bls. 57. Eg þekki aðeins fyrsta orðatiltækið að norðan. [8] »tafl«.
[9] Reise igjennem Island; bls. 186.

Þá koma töflin sjálf til sögunnar og fyrst teníngalausu töflin. Sjálfsagt er að skipa skáktaflinu þar í öndvegi.

*Skák, skáktafl, manntafl* eða *mannskák*[1]. Skáktafl virðist vera elzta nafnið. Það er víða nefnt í Fornmannasögunum[2] og að minsta kosti tvisvar í Biskupasögunum[3]. Í Mágussögu[4] er það nefnt og miklu víðar í fornritum vorum.

Ekki kemur mönnum saman um hvenær skáktafl hafi verið flutt til Íslands. Sumir vilja láta töfl þau, sem getið er um svo víða í sögunum vera skáktafl, en aðrir neita því. Eg skal ekkert um það segja að svo stöddu, en víst er það að skáktafl er mjög gamalt á Íslandi. Prófessor Willard Fiske segir[5], að skáktafl muni vera flutt til Íslands frá Englandi, en hvorki frá Noregi né Danmörku, og dregur hann það einkum af því, að ensku og íslenzku skákmannanöfnunum ber mjög saman. Hrókur er t. d. »rook« á ensku, en »Taarn« (turn) á dönsku. Þessi tilgáta er ekki ólíkleg, en torvelt mun vera að sanna nokkuð um uppruna skáktafls á Íslandi.

Á seinni tímum er fremur óvíða getið um skáktafl í íslenzkum ritum. Það er minzt á það í taflvísu Jóns biskups Arasonar, sem prentuð er í viðaukanum, og er hún ort á fyrri hluta 16. aldar. Á tafl er minzt í kvæðinu Heimsádeila eptir séra Sigfús Guðmundsson að Þóroddstað († 1597). Þar stendur:

Drekka[6] fast og dansa með,
dreisa á góðum klæðum,
fá sér eina frillu á beð
með frómum afmorskvæðum,
tala og tefla greitt[7] o. s. frv.

Í einni útgáfunni af Búalögum er þess getið, að það kosti 12 álnir að kenna skáktafl, og samsvarar það hér um bil 7 krónum. Búalög þessi eru frá hér um bil 1500. Þetta er allmerkilig bendíng, og virðist hún benda á, að menn hafi lagt meiri stund á að verða fullnuma í skáktafli til forna en nú. Dr. Jón Þorkelsson ýngri hefir bent mér á þetta. Hann segir mér einnig að til forna hafi skáktafl verið eitt af gripum þeim sem Eydalakirkja átti.

Tafl er líka nefnt í Sörlarímum, sem kváðu vera ortar fyrir 1600:

---

[1] J. Ól. og sumar sóknalýsingar. [2] T. d. IX; bls. 366.
[3] I; bls. 635. II; bls. 186—7. [4] Forns. Suðurlanda. Lund. 1885; bls. 50.
[5] Deutsche Schachzeitung. 1880; bls. 129.
[6] Þ. e. þeir = landsmenn um þær mundir.
[7] Tekið eptir: »Om Digtningen på Island« eptir Dr. Jón Þorkelsson ýngra; bls. 435. Hann hefir farið eptir Hrs. A. M. 148. 8vo. Í 104. 8vo stendur »fögrum« fyrir »frómum« og virðist það eiga betur við.

Skötnum verður að skemta mart
ef skortir ekki fræði,
sögur og tafl og sund og skart
»skagir« með dans og kvæði.[1]

Og í næstu vísu er tafl líka nefnt. Líklega er átt við skáktafl á báðum stöðunum, þótt ómögulegt sé að sanna það. »Skák hefi eg teflt bæði úngur og gamall«[2] er Guðbrandur biskup Þorláksson látinn segja, þar sem hann er að þreyta tafl við förudreinginn[3] og Jón Þorkelsson (Thorkillius) ber Arngrím Jónsson lærða fyrir því, að skák sé tefld mikið á Íslandi á hans dögum[4]. Það er líka fært í frásögur, að Brynjúlfur biskup Sveinsson hafi haft mætur á skáktafli, og segja sumir, að Ragnheiður dóttir hans hafi kveðið vísuna: »Fallega spillir frillan skollans öllu« til að hjálpa manni, sem fór halloka í skáktafli fyrir föður hennar[5].

Skáktafl hefir sjálfsagt verið alltítt á Íslandi á 16.—17. öld, en þó nær það eingri átt, sem Blefken segir[6] í pésa sínum um Ísland, að Íslendíngar liggi í rúminu marga daga um vetrartímann og tefli skáktafl. Það er eflaust líka orðum aukið, sem Peder Claussön segir[7], að Íslendíngar séu svo ágætir skákmenn, að þeir séu stundum nokkrar vikur með taflið, þótt þeir tefli á hverjum degi. Claussön gamli fullyrðir þetta þó eigi, en hefir það eptir sögn. Wolff[8] hefir bæði þetta og fleira um Ísland eptir P. Claussön. H. O. Pflug getur þess líka[9], að Íslendingar séu skákmenn miklir, en segir ekki neinar reyfarasögur um skáklist þeirra og er merkilegt. Jón Þorkelsson (Thorkillius) getur þess, að skák sé farin að leggjast niður á Íslandi[4] og Horrebow segir[10], að ekki verði sagt, að Íslendíngar tefli mikið

---

[1] Tekið eptir: »Om Digtningen på Island«; bls. 119.
[2] Guðbrandur biskup var uppi 1542—1627. [3] Isafold VIII; 51—52.
[4] Arngrímur dó 1648. Jón Þorkelsson vísar í »Crymogæa L 1, C 4« í »Tilgift som videre Efterretning og Notice om Island« (bls. 330), sem prentað er aptan við dönsku þýðinguna á riti J. Andersons um Ísland. Kmh. 1748. Eg get ekki fundið neitt um tafl, þar sem til er vísað, og ekki heldur þar sem Arngrímur talar um skemtanir Íslendínga í Krýmógeu.
[5] Eg hefi þessa sögn úr einhverju handriti Bókmentafélagsins. Eg hefi gleymt að skrifa hjá mér númerið og get ómögulega fundið það aptur. Aðrir eigna vísu þessa séra Brynjúlfi Haldórssyni á Kirkjubæ eystra († 1737). Hún er prentuð í Kvæðum Stefáns Ólafssonar II; bls. 48—49 og eignuð honum. Þar segir líka að sumir eigni hana Guðmundi Bergþórssyni.
[6] Islandia. Lugduni Batavorum CIϽ IϽCVII.
[7] Norriges Oc Omliggende Øers Bescriffuelse. Kiøbenhaffn. M. DC. XXXII; bls. 169—170. [8] Norrigia illustrata. Kmh. 1651; bls. 233.
[9] Den Danske Pillegrim. Kmh. 1707; bls. 38—44.
[10] Tilforladelige Efterretninger om Island. Kmh. 1752; bls. 373.

skák, en þó sé skáktafl tíðara á Íslandi en í Danmörku. Eggert Ólafsson segir hvergi beinlínis að skák sé tefld mikið á Íslandi, og hann tekur það fram, að teníngatöfl séu tíðari en skáktafl[1], og að fáir kunni skáktafl í Gullbríngusýslu[2], en aptur segir hann, að orð fari af Vestfirðíngum, bæði háum og lágum, fyrir skáklist þeirra[3]. J. Ól. segir að margir telji Íslendínga meiri skákmenn en aðrar þjóðir, en hann getur þess ekki, hvort þessir »margir« eru Íslendíngar sjálfir eða útlendíngar. Líklega á hann þó við útlendínga, því Íslendíngar hafa haft mikið skákorð á sér í útlöndum. Uno v. Troil segir þannig, að Íslendíngar séu nafntogaðir fyrir skáklist sína[4] og sama er sagt í fjölda af ferðabókum, sem ekki er þörf að geta hér um. Íslendíngar hafa skákorð á sér enn í dag í útlöndum og er nóg að taka það fram, sem prófessor Willard Fiske segir[5], að skáktafl muni hvergi vera jafntítt og á Íslandi. Einkum segist hann hafa heyrt, að Grímseyíngar séu ágætir skákmenn; sama hefir fræðimaður einn skrifað mér, sem var nákunnugur í Eyafjarðarsýslu um og eptir miðja öldina, en ekki hefi eg heyrt þess getið nyrðra.

Það er eflaust satt að skák hafi verið og sé tíðari á Íslandi, að tiltölu, en öðrum löndum, en ekki af því, að hún sé tefld þar svo mikið, heldur af því, að hún er tefld svo lítið í útlöndum, til þess að gjöra. Þar sem eg þekki til á Norðurlandi, er skáktafl teflt mjög lítið, og þori eg að fullyrða, að fjöldi fólks kann ekki einu sinni manngánginn. Annað er það sem eflaust á mikinn þátt í skákorði því, sem Íslendíngar hafa, en það er að alþýða manna á Íslandi kann ekki síður að tefla en lærðu mennirnir. Í útlöndum eru það skákfélög, sem tefla mest, og svo heldra fólkið, en fjöldinn af alþýðunni veit ekki einu sinni hvað skáktafl er. Þegar útlendíngar koma nú heim til Íslands og reka sig af hendíngu á óbrotið bændafólk, sem kann að tefla, þá verða þeir öldungis hissa, og halda að allir Íslendíngar séu meiri og minni skákmenn. Svona held eg að standi á skákorði því, sem Íslendíngar hafa í útlöndum.

Sóknalýsíngar bera það líka með sér, að skáktafl sé ekki títt á Íslandi um þessar mundir. Það er ekki minzt á tafl nema í hér um bil þriðja parti af þeim, og er víða tekið fram, að fáir kunni að tefla. Þar eru nefnd: skáktafl (mannskák), kotra, mylna og refskák, og taka sumir prestarnir það fram, að skáktafl sé lítið tíðkað, en hin töflin meira, einkum mylna og refskák. Það er að eins einn staður, sem eg hefi rekið mig á, þar sem þess er getið, að skáktafl hafi færzt í vöxt á Íslandi. Það stendur í Norðanfara[6], að tafl og spil hafi hvorttveggja verið »brúkað« fyrir 1840, þótt meir yrði síðar. Hér er reyndar ekki nefnt skáktafl, en eg geing þó að

---

[1] Reise igjennem Island; bls. 186. [2] bls. 50. [3] bls. 462.
[4] Bref rörande en Resa till Island. Upsala. 1777; bls. 70. [5] Deutsche Schachzeit.; bls. 130. [6] XXI; bls. 31.

því vísu, að átt sé við það, því skáktafl er optast kallað að eins tafl. Þetta getur ekki verið rétt, nema að svo miklu leyti sem það nær til spilanna, því það er víst, að skáktafl er lángt frá því að vera algeingt nú á Íslandi.

Það er merkilegt hve sjaldan er getið um góða skákmenn í íslenzkum ritum. Það er eins og þeir hafi annaðhvort ekki verið til, eða minni frægð hafi þótt að bera af öðrum í skáktafli en glímum, sundi og stökkfimi. Það er áður getið um allmarga afbragðs glímumenn, sundmenn og stökkmenn, en aptur hefi eg hvergi rekið mig á sagnir um afbragðs skákmenn, nema þá Hrappseyarfeðga: Benedikt Jónsson († 1746) og Boga son hans († 1803)[1], og svo bræðurna Pétur biskup og Jón háyfirdómara, Péturssyni, sem hafa skákorð á sér um alt land. Það er líka minzt á mann í Sturlúngu[2], sem var kallaður Taflbergur og Dansbergur[3] og hefir hann ef til vill verið nefndur svo vegna kunnáttu sinnar í tafli og dansi.

Loksins má geta þess, að víða eru kóngar látnir tefla á gulltafl í íslenzkum æfintýrum[4] og bendir það ef til vill á það, að Íslendíngar hafi talið skáktafl göfuga íþrótt, sem sæmdi vel tignum mönnum.

Ýmsar kreddur eru til um það hvernig eigi að fara að vinna sigur í skáktafli. Sumar eiga reyndar líka við spil, en það er eins vel tilfallið að geta þeirra hér og þar.

»Tak músarbein og [brenn þar í[5] skákmennina, og muntu sigur hafa í tafli, upp frá því«[6].

»Sá sem um peninga teflir eða spilar, og snýr bakinu móti D[7], honum er víst að tapa«[8].

Ef hvítur köttur er krufinn lifandi, og setið á innýflunum þegar telft er eða spilað, þá vinst. Sumir segja að hann eigi að vera grár eða svartur[9].

Tak hjarta, lifur og lúngu úr hrafni og herð það við vind, en ei sólarhitan, og lát það í líknarbelg. og haf undir vinstri hendi þinni. þá þú spilar eða teflir[9].

Loksins er til galdrastafur, som átti að rista á eik og hafa í hendinni til að vinna í skák. Þetta er stafurinn:



A. v. d. Linde ber Finn Magnússon fyrir þessu[10], en vitnar ekki til rita hans.

Aðrar kreddur þekki eg ekki um skáktafl, nema það er trú manna, að ef kóngur annarshvors dettur, þá tapi

[1] *Æfiágrip feðganna* Jóns Péturssonar o. s. frv. (Feðgaæfi) Viðey. 1823; bls. 29. 61.
[2] Eldri útg. *II*; bls. 72 og á tveimur öðrum stöðum. [3] Ef það eru ekki tveir menn? [4] t. d. þjóðs J. Arn. II; bls. 364. [5] Hvað þýðir þetta hér?
[6] Hrs. Bmf. 321. 8vo. [7] ? [8] Safn A. M. 437. 12mo (nr. 43).
[9] Hrs. Bmf. Bmf. 646. 8vo. Annarsstaðar í sama hdr. segir að þetta hrafnainnvols »láti menn vinna í leikum«. Í nr 667. 8vo er sama ráð gefið til »að hafa sigur í hverjum leik«, en þar er bætt við túngunni úr krumma.
[10] *Nordisk Skaktidende* Kmh., 1874; bls. 11.

hann[1]. Aðrir segja, að hver maður sem dettur sé feigur[2]. Það er líka trú að sá vinni skák, sem fljótari er að setja taflið[3].

Talsvert er til af málsháttum og orðtækjum sem dregin eru af skáktafli, og þekki eg þetta af því tagi:

Auðurinn bætir alla skák, ef ei er mát á borði (G. J.)

Ein bót nægir í senn, segja allir skákmenn (J. Ól.).

Opt fær sá mát, sem mentina ber hærri (G. J.).

Opt mátar slinni slóttugan taflmann (G. J.).

Skýzt um skák hverja (J. Ól., G. J.).

Það er skák og jafntefli, ef báðir bera minkun úr málunum (G. J.).

Þú skákar fyr en þú mátar (í hróksvaldi) (G. J.).

Auk þess eru ýms orðtæki dregin af skáktafli, og man eg þessi: að vera kominn í mát með eitthvað, að standast, þola ekki mátið, að skáka í hróksvaldi, að skáka í skjóli einhvers[4], eitthvað bætir úr skák.

Talsvert hefir verið ritað um skáktafl á Íslandi, en það er flest meira eða minna í molum.

Jón Ólafsson er mjög stuttorður um öll töfl og ekki sízt skáktafl, eins og bráðum verður sýnt fram á. Það er þó enn verra, að honum ber þar opt ekki saman við sjálfan sig. Jón Þorkelsson hefir tekið meginið af tafldóti nafna síns upp í athugagrein við Kvæði Stefáns Ólafssonar[5].

Í enskri bók, Chess II. London 1789[6], er um skáktafl á Íslandi bls. 173—81 og lítið á að græða. Þó er þar grein eptir Grím Thorkelín, þar sem hann segir, að Páll lögmaður Vídalín geti um taflritgjörð nokkra, »Útskýríng tafllistarinnar« í skýríngum sínum yfir fornyrði lögbókar. Hann geti til að ritgjörð þessi sé samin á 13. öld, því það sé getið um hana í Sturlúngu, Eg hefi ekki rekið mig á neinar bendíngar um ritgjörð þessa í því, sem prentað er af fornyrðum Páls, og veit ekkert um hana[7].

Eggert Ólafsson minnist allvíða á tafl í ferðabók sinni[8], og er 608. greinin[9] einkum merkileg í því efni.

1858 kemur út á Akureyri »Spilabók, | sem kennir að spila: | Domino-

[1] Páll Einarsson, cand. jur. [2] Páll Bjarnarson. [3] Jóhannes Jóhannesson, cand. jur.
[4] Þjóðólfur XXXIII; bls. 3, 1. d. [5] II; bls. 49—50.
[6] Eptir Twiss nokkurn, þótt nafn hans standi ekki á titilblaðinu.
[7] Það er þó ekki ómögulegt, að þetta sé ritgjörð sú sem nú er í Brit. Mus. og getið verður um skömmu seinna, en það er víst mjög efasamt að hún sé eins gömul og Thorkelín segir. Í Nordisk Skaktidende eru orð Twiss færð til, en öll vitlaus og bjöguð. Þar segir að ritgjörðin sé »indagt i Sturlunsaga« (bls. 11) og er ilt að botna í því.
[8] Reise igjennem Island; bls. 50, 186, 462—64, 490, 976. Sbr. Philosophische Schilderung. Altona. 1786; bls. 73—74.
[9] bls. 462—64. Grein þessi er tekin upp í Nordisk Skaktidende. 1874; bls. 66—68 og nokkuð af henni upp í Twiss, í þýðingu Gríms Thorkelíns.

og Gmá-spil, einnig | skák, Damm o: fl. | Kostnaðarmaður[1]: | Jósef gullsmiður Grímsson«. Kver þetta er í minna broti en nokkur önnur bók, sem komið hefir út á Íslandi[2], og er 32 síður. Um skáktafl er bls. 19—29. Hér eru gefnar almennar reglur fyrir skáktafli, og svo minzt á einstaka atriði, sem einkennilegt er fyrir skáktafl á Íslandi. Um kver þetta hefir prófessor Willard Fiske samið svo litla grein í Deutsche Schachzeitung. Leipzig. 1880; bls. 129—34.

Þýzkur maður, dr. A. v. d. Linde hefir samið allánga grein um skáktafl á Íslandi: Skak paa Island, í Nordisk Skaktidende II. Kmh. 1874; bls. 2—14, 37—46, 65—68. Grein þessi er mest um tafl í fornöld og fremur ómerkileg. Það er ekkert á henni að græða um það hvernig tafl er og hefir verið á Íslandi, á seinni tímum, nema það sem hann hefir frá Eggerti Ólafssyni.

Enn má geta þess að Hannes heitinn Sveinbjarnarson samdi ritgjörð um skáktafl, þegar hann var í Reykjavíkurskóla, og var hún lesin upp í félagi pilta. Séra Einar Friðgeirsson kom fram með athugasemdir við hana. Hannes fór þó ekkert út í íslenzkt skáktafl og Einar ekki heldur.

Eldra en alt þetta er sjálfsagt útskýríng skáktaflsins[3], sem er í safni Finns Magnússonar í British Museum nr. 206 v. Dr. Jón Þorkelsson ýngri hefir afskrifað hana og hefi eg haft tækifæri til að kynna mér hana hjá honum.

Loksins má geta þess, til gamans, að Íslendíngur hefir samið ritgjörð um skáktafl á dönsku. Það er Jónas Gam, sem seinast var rektor við Næstved Skóla († hér um bil 1734). Ritgjörð þessi er á Háskólabókasafninu í Kaupmannahöfn, í Rostgaards safni, nr. 41. 8vo og heitir: En Cort berettning over Det Dybsindige Schach-Spil, kaartelig og Eenfoldelig, af det Corte begreb som Johan Høttern, fordum bogfører til Franckfurt am Main har udtaget af Gustavo Silenio, Der ex professo har beskrevet dette spil, Nationen til tieneste, med nogle faa anmerkninger, forfattet af J. G. Ekkert er að græða á Gam að því er snertir íslenzkt skáktafl. Hann minnist að eins á það á einum stað. Aptur kallar hann hrókinn »Hroch« og »Roch«, »Hrochenis gang« gángur hrókanna og eru það líklega menjar af hróksnafninu, því annars er hrókur »Taarn« á dönsku, eins og áður er sagt.

Nú hefi eg drepið á sögu skáktaflsins á Íslandi og er þá eptir að skýra frá, hver munur er á skákaðferð Íslendinga og útlendínga. En til þess að mögulegt sé að gjöra hann skiljanlegan, verð eg fyrst að lýsa því stuttlega, hvernig skáktafl er teflt í útlöndum. Eg skal geta þess, að Páll stúdent Bjarnarson hefir stutt mig með ráðum og dáð, bæði að því, er

---

[1] *Og höfundur?* [2] Þegar skilið er undan Bænakver Olearii. Skálholti. 1687.

[3] »*Interpretatio vetustissima ludi schacchici*«.

snertir lýsínguna á taflaðferð útlendínga og ekki síður ýmsum tafllögum, sem Íslendíngar einir tíðka.

Venjulega tefla tveir. Þó getur einn teflt á móti tveimur, tveir á móti tveimur o. s. frv. Taflborðið er rétthyrndur og jafnhliðaður ferhyrníngur. Honum er skipt í 64 jafnstóra fernhyrnínga, reiti, og er þeir optast svartir og hvítir á víxl, eins og sést á myndinni[1].




Þegar teflt er, á hvítur reitur að vera hvorum taflmanni til hægri handar. Mennirnir í skákinni eru alls 32, 16 hvítir og jafnmargir svartir. Þó eru þeir stundum öðruvísi litir. Hvor taflmaður hefir sinn lit og eru sömu mennirnir eru hjá báðum. Mennirnir eru: kóngur, drottníng 2 hrókar[2], 2 riddarar, 2 biskupar og 8 peð, hvorum meginn. Peðin eru löguð öll eins, og eins allir biskuparnir, riddararnir og hrókarnir, og báðir kóngarnir og drottníngarnar. Aptur er kóngurinn öðruvísi lagaður en drottníngin, drottníngin öðruvísi en hrókarnir o. s. frv. Taflmennirnir raða mönnum þessum á tvær yztu reitaraðirnar, hvor sínu liði sínum meginn. Hrókarnir

[1] Skástrykuðu reitirnir á myndinni eru svartir á flestum taflborðum.

[2] Í spilabókinni eru hrókarnir kallaðir fílar öðru nafni (bls. 20). Hrókar hafa aldrei verið kallaðir fílar á íslenzku. Aptur er hrókur Elephant á þýzku, þótt það sé ekki algeingasta nafnið.

eru settir á hornreitina (a 1, h 1). Næstir þeim standa riddarnir (g 1, b 1). Þá biskuparnir (c 1, f 1). Í miðjunni standa kóngur og drottníng, kóngurinn á e 1 en drottníng á d 1. Drottníngin ræður reit, eða hún á að standa á eins litum reit og hún er sjálf. (Hvít drottníng annaðhvort á e 1 eða d 8, svört drottníng á d 1 eða e 8). Peðin standa á næst yztu reitaröð, hvert á sínum reit.

Taflmennirnir leika til skiptis. Þó leika sumir tveimur fyrstu leikjunum í senn. Sumir láta líka kóngspeðin, þ. e. peð þau, sem standa fyrir framan kónginn, standa fram á miðju borði í taflbyrjun, eða hafa þau lög, að hvortveggja sé skyldur að leika þeim fyrst fram á borðið.

Gángur mannanna er misjafn og eins og nú skal greina: Kóngurinn geingur á alla vegu, en aldrei leingra en reit af reit. Drottníngin geingur allan gáng, nema riddaragáng, og getur hún farið eins lángt og taflborðið nær, í hverjum leik, ef einhver maður tálmar ekki för hennar. Ef drottníngin stæði t. d. á e 1, mætti leika henni á a 5, e 8 eða h 4, en stæði t. d. maður á e 6, þá væri ekki mögulegt að leika drottníngunni á e 8. Eins er það með hina mennina og má einginn þeirra gánga yfir nokkurn mann. Biskuparnir gánga um reitaraðirnar á ská, og geta þeir farin eins lángt eða skamt og taflmaður vill, ef ekkert hindrar þá. Standi biskup t. d. á c 1, þá getur hann farið á h 6, a 3 eða b 2 o. s. frv. Biskuparnir eru kallaðir svartir eða hvítir, eptir því hvort þeir gánga um svarta eða hvíta reiti. Riddararnir gánga af hvítu á svart og svörtu á hvítt, á skakk, aldrei leingra en yfir eina reitaröð í senn. Aptur getur ekkert hept för þeirra, því þeir stökkva yfir það sem fyrir verður. Ef riddari stendur t. d. á e 5, getur hann að eins komizt á svörtu reitina d 3, d 7, c 4, c 6, f 3 o. s. frv., þó menn standi t. d. á d 4 og f 4. Hrókarnir gánga beint fram og aptur eptir reitaröðunum, t. d. frá h 1 til h 6 eða g 1. Peðin gánga beint áfram reit af reit, en aldrei til baka, eins og hinir mennirnir. Þó má leika þeim í fyrsta skipti fram um tvo reiti, ef einginn maður er fyrir þeim. Þegar peð kemst alla leið yfir taflborðið, eða upp í borð hins taflmannsins, þ. e. reitaröð þá, sem hann hefir fylkt á stórmennum sínum, þá er sagt að því sé komið upp, og má þá taka það á burt, en setja mann sem þegar er fallinn í stað þess. Taflmaður má velja í stað þess hvern sem hann vill af mönnum sínum, þeim sem fallnir eru. Eptir sumum skáklögum getur peðið jafnvel orðið að drottníngu, biskupi o. s. frv., þótt einginn þessara manna sé fallinn. Kóng má þó ekki taka upp.

Þegar svo stendur á, að hægt er að leika einhverjum manni á reit, sem mótstöðumaðurinn á mann á, þá má gjöra það, ef vill. Maðurinn, sem stóð áður á reitnum, er jafnframt tekinn burt, og er kallað, að hann sé drepinn. Sé maður sá, sem drepur, drepinn aptur jafnharðan, þá eru það kölluð mannakaup, slétt eða ójöfn, eptir því hve drepnu mennirnir voru

göfugir. Slétt mannakaup eru t. d. þegar báðir missa riddara, en ójöfn þegar annar missir riddara, en hinn drottníngu. Níðtefli er það kallað að fara opt í slétt mannakaup. Allir mennirnir gánga eins og áður er sagt, þegar þeir drepa, nema peðin. Þau gánga þá á ská, eða eins og biskupar, en að eins á næsta reit. Ef peð stæði t. d. á d 6 og ætti að gánga áfram á d 7, þá gæti það drepið annaðhvort á c 7 eða e 7. Þegar peði er leikið fast framhjá einhverju peði mótstöðumannsins, þá segja sumir að megi drepa það (peðið sem leikið er), og hefir þá sá aptur leik, sem peðið var drepið af. Það verður að drepa það í næsta leik. eptir að því var leikið framhjá hinu peðinu. Annars má það ekki á þenna hátt. Ef hvítt peð stendur t. d. á c 7, og svart peð á d 5, og hvíta peðinu er leikið frá c 7 til c 5, þá er það réttdræpt leiklaust, eptir lögum þessum, en svarta peðið stendur kyrt eptir sem áður. Allir mennirnir eru dræpir nema kóngurinn.

Hlutkesti er venjulega látið ráða hver leikur fyrst.

Þegar einginn maður stendur milli kóngsins og hróksins, má leika þeim báðum í senn. Kóngurinn er þá færður um tvo reiti til annarshvors hornsins en hrókurinn fluttur yfir hann, og settur á næsta reit við hann. Þetta er kallað að rokkera[1]. Það er þó ekki leyfilegt að rokkera:

1) ef kóngnum hefir verið skákað áður,

2) ef hann stendur í skák,

3) ef honum hefir verið leikið af kóngsreitnum, þótt hann sé kominn á hann aptur,

4) ef kóngurinn þarf að fara yfir skák, þ. e. yfir reit. sem hann væri í skák á, ef hann stæði þar.

Flestir sleppa þó einni eða fleiri af reglum þessum. Ekki má rokkera optar en einu sinni í hverju skáktafli.

Kóngurinn er ódræpur, eins og áður er sagt. Það er því skylda að vara mótstöðumann sinn við, ef leikið er á kóng hans, og er það gjört með því að segja skák[2]. Hinn er þá skyldur að bæta úr skák, eða forða kónginum, ef þess er auðið og getur það orðið með þrennu móti:

1) með því að færa úr skák, eða flytja kónginn,

2) með því að bera fyrir skák, eða setja einhvern af mönnum sínum milli kóngsins og manns þess, sem stendur á honum. Aðferð þessi dugir

[1] Það er ávalt talað um að rokkera á Íslandi, þar sem eg hefi spurnir af, en aldrei að hrókskipta, eins og segir í Spilabókinni, bls. 22, enda er það ljótt orð og leiðinlegt. Ekki væri heldur heppilegt að tala um að hróka, eins og prófessor W. Fiske stíngar upp á í ritgjörð þeirri, sem áður er getið um (bls. 130). Það væri rángt myndað. Þá væri nær að segja »hrækja« sbr. krókur·krækja, ók(aka)-æki o. s. frv. [2] Skák þér J. Ól.

þó ekki við riddaraskák eins og auðséð er á gáng riddaranna; ekki heldur við peðskák eins og auðvitað er.

3) með því að drepa úr skák, eða drepa mann þann, sem stendur á kónginum.

Það er líka venjulegt að sýna drottníngunni sama sóma og bónda hennar, eða vara mótstöðumann sinn við, þegar leikið er á hana. Það er gjört með því að segja *madam*[1].

Taflmennirnir kosta kapps um það hvor fyrir sig, að kreppa svo að kóngi hins, að hann geti með eingu móti forðað sér undan manni þeim, eða mönnum þeim, sem standa á honum. Þegar svo er komið, er taflinu lokið, og segir þá sá sem vinnur, þ. e. sá sem hefir verið svo lánsamur að festa kóng hins: skák og mát, eða að eins mát.

Ekki er þó ávalt mátað að leikslokum, og geta taflslok orðið á þrjá vegu, auk máts: jafntefli, þrátefli og patt.

Jafntefli verður þegar hvorugur taflmaður hefir nóg lið til að máta kóng hins. Þrátefli, þegar báðir taflmenn leika ávalt sömu leikjunum. Patt, þegar annarhvor festir kóng hins svo rammlega, að hann getur ekki hrært sig. Ekki mega heldur aðrir menn hans vera lausir, svo að þeim verði leikið. Það segir sig sjálft, að einginn maður má standa á kóngnum, því þá væri hann mát. Talið er, að sá sem gjörir hinn patt, beri hálfan sigur úr býtum.

Auk skákorða þeirra, sem þegar er getið um, eru til ýms önnur, og skal eg skýra frá þeim eptir föngum.

Mennirnir eru líka nefndir skákmenn einu nafni, en það er óheppilegt, því skákmaður þýðir líka, og optar, maður sem er góður í skák.

Drottníngin er öðru nafni kölluð frú. Þetta seinna nafn er sjaldgæfara nú á dögum, en áður var það miklu tíðara en drottníng. J. Ól. nefnir þannig ekki drottníngu. Eggert Ólafsson hefir bæði nöfnin, en frú fyrst[2]. Víða er annarsstaðar minzt á frú í gamla daga, en mjög sjaldan á drottníngu. Séra Stefán Ólafsson nefnir drottníngu á tveimur stöðum[3] (þá) gömlu, hvort sem hún hefir nokkurntímann verið kölluð það alment.

Í Annaler for nordisk Oldkyndighed[4] er drepið á það, að peð sé stundum kallað bóndi á Íslandi, en sagt að það sé stundum kallað peðmaður eða peðsnydda. Eg þekki ekkert af þessum nöfnum og hefi altaf haldið að peðsnidd hjá séra Stefáni Ólafssyni væri komið þannig undir, að Stefán gamli hefði verið í vandræðum með rímið. Kóngspeð er eða hefir verið kallað drellir eða kóngsdrellir (J. Ól., B. H.), J. Ól. vill láta það þýða þann sem drallar (drattar) eptir kónginum. Jón Þorkelsson

---

[1] *Eg sé ekkert á móti því*, að segja »drottningin« eða »frúin« í staðinn fyrir »madam«, *það er þó íslenzka.* [2] *Reise gennem Island*; bls. 462.
[3] *Kvæði Stefáns Ólafssonar. II*; bls 47, 48. [4] 1839—38; bls. 154.

segir[1], að það sé annars kallað lalli. Nafn þetta er ekki haft nema undir sérstökum kríngumstæðum, eins og segir seinna.

B. H. nefnir að rjúfa skák og er það sama sem bæta úr skák, eptir því sem hann segir. Maður sá, sem borinn er fyrir, til að bæta úr skák, er kallaður leppur.

B. H. segir, að »setja að« þýði að máta. Hann segir líka, að stans þýði mát í skáktafli, en réttara mun það vera, sem Eggert Ólafsson segir, að stans þýði jafntefli[2].

Prófessor Fiske segir[3], að Íslendíngar segi optast »kóngurinn er leiklaus«, þegar hann er patt og getur það vel verið, þótt eg þekki það ekki. Að minsta kosti væri ekkert á móti því, að hafa það í staðinn fyrir patt, sem er alútlent orð.

J. Ól. nefnir að eins fíngurbrjót í skáktafli. Það er ómögulegt að sjá hvaðan Jón hefir orð þetta. Líklega hefir það þó ekki verið við lýði á hans dögum, og er mjög sennilegt, að Jón hafi tekið það úr Knytlíngu. Þar segir[4]: »Knútr konungr lék fingurbrjót mikinn. Þá drap jarl (Úlfr) af honum riddara«. Nú veit einginn hvað fingurbrjótur er, en eitthvert glapstepli er það líklega.

Loksins skal eg geta um uppnám, þótt mér sé mjög óljóst um hvað það þýðir) J. Ý. segir[5] »Uppnám kallast það, sem er upptækt að lögum, »að tefla mann (riddara) í uppnám«. Það er eins og Jón prestur eigi sérstaklega við uppnám riddara, og veit eg þá ekki, hvað hann getur átt við. Annars liggur nærri að geta þess til, að »að tefla í uppnám« sé að kreppa svo að einhverjum manni, að honum verði ekki forðað (sbr. uppnæmur fyrir einhverjum eða einhverju).

J. Ól. nefnir þrennskonar skáktafl: manntalsskák[6], frúrskák og riddaraskák.

Manntalsskák segir hann sé skáktafl »þar sem maður kemur útundan manni, svo sem hrókur undan krók o. s. frv.« Með þessu virðist Jón segja, að manntalsskák sé skák, þar sem mennirnir standi hver á móti öðrum (í upphafi), t. d. hrókur á móti hrók, biskup á móti biskupi o. s. frv., alveg eins og í venjulegri skák. J. Ól. segir, að þessi tegund skáktafls sé »sú almenna skák«.

Frúrskák segir Jón sé skáktafl, »þar sem hvert peð útgeingið, verður að frú, á hærri reitum sem uppkemur«. Eg skil ekki Jón hér, því hann á víst ekki við, að hvert peð, sem komið er upp, verði að drottníngu? Eg

[1] Athgr. við Kvæði Stefáns Ólafssonar II; bls. 49. [2] Reise igjennem Island; bls. 462. [3] Deutsche Schachzeitung; bls. 130.
[4] FMS. IV; bls. 366. [5] Hrs. Bmf. 325. 4to.
[6] Ekki manntaflsskák, eins og Jón Þorkelsson segir í athgr. við Kvæði Stefáns Ólafssonar II; bls. 49.

get mjög lítið sagt um þessa frúrskák, því hún er týnd nú. J. Ól. er sá eini, sem minnist á hana, svo eg viti, en hann er hér svo tvísaga, að það tekur ekki tali. Á einum stað segir hann, að skáktegund þessi, dragi nafn af því, að drottníngin hafi mest völd, sé göfugust[1]. Eptir því ætti drottníngin að hafa sömu tign í frúrskák og kóngurinn í venjulegri skák. Annarsstaðar segir Jón, að frúrskák sé í því ólík venjulegri skák, að drottníngin sé ofsótt hér með vissum leikjum, og sé reynt á alla vegu, að koma henni í klípur[2]. Á fyrra staðnum (skák) segir hann, að frúrskák sé venjulegri en riddaraskák og vandameiri, Á seinni staðnum (frúrskák) segist hann að eins hafa þekt þrjá menn, sem hafi kunnað frúrskák: Pál lögmann Vídalín, Þorstein Sigurðsson, sýslumann í Norður-Múlasýslu, sem hafi lært hana af Páli, og séra Álf Gíslason á Kaldaðarnesi í Flóa († 1733). Auk þess segir Jón hér, að þegar Páll Vídalín var skólameistari við Skálholtsskóla[3], hafi hann teflt »skák«[4] við Jón prentara Snorrason, en á einkennilegan hátt, og eigi ekki við að færa hann til í orðabókinni. Það lítur svo út, sem þessi seinni útgáfa Jóns sé réttari, því þar tekur hann það svo skýrt fram, að frúrskákin sé sjaldgæf.

Uno von Troil nefnir Jungfru schach (júngfrúrskák) og Riddare schach (riddaraskák) í ferðabók sinni[5], og hefir það úr bréfi frá Árna Magnússyni til Vídalíns[6], að um þær mundir sé að eins fyrra taflið haft um hönd.

Það virðist að eins vera einn vegur til að greiða úr þessari flækju og hann er þessi: Á dögum þeirra Árna Magnússonar og Páls Vídalíns var riddaraskákin alveg lögð niður, eða því sem næst. Frúrskákin var sjaldgæf, en þó kunnu fáeinir hana. Júngfrúrskákin var mest höfð um hönd, og ef til vill sama sem manntalsskák Jóns Olafssonar (venjuleg skák), sem hann segir að sé »sú almenna skák«. Þar sem Jón minnist á riddaraskák, bregður því fyrir hjá honum, að almenn skák sé líka kölluð frúrskák, af því drottníngin sé bezti maðurinn. En það er ómögulegt, að hann eigi hér við reglulega frúrskák. Hvernig hún hefir verið, er víst ómögulegt að segja

---

[1] »quia frúin hic summum imperium obtinet«. [2] »In angustias redigere«.

[3] 1690—97. Páll Vídalín var skákmaður mikill. J. Ól. segir í Æfisögu hans (Hrs. A. M. 437., fol.; bls. 40), að þegar hann var stúdent í Kmh. hafi hann kent skáktafl Kristjáni Worm, sem seinna varð biskup (held eg, J. Ól.) »á móti móður sinni, og að gjöra heimaskítsmát, og henni eins eptir bón hennar, nema í þriðja sinni, því hann kvaðst hafa tekið hann að sér, til að kenna honum taflið en ekki hana«. [4] Líklega frúrskák.

[5] *Bref rörande en resa til Island.* Upsala. 1777; bls. 70—71.

[6] *Páls lögmanns?* Jón Þorkelsson hefir bent mér á fáein bréf frá Arna Magnússyni í *Ny kgl. Samling* 2061. 4to, en þar er ekki minzt á tafl einu orði.

nú, og ekki heldur júngfrúrskák, ef hún er ekki sama sem almenn skák. En hver veit nema J. Ól. hafi vaðið reyk á öðrum hvorum staðnum, þar sem hann minnist á frúrskák, eða þá U. von Troil og falla þá þessar bollalagníngar mínar um koll af sjálfu sér.

Riddaraskák segir J. Ól. að skáktafl, »sem hefir á það eina borð fjóra riddara. Gángur þeirra er tvennslags; sá eini almenni riddaragángur, sem í almennri manntalsskák. Hinn sá leingri er einum reit á skakk fram yfir þann styttri«. Hér er þó dálítið á að græða.

Styttri riddaragángur Jóns er venjulegur riddaragángur. Leingri riddaragángur er aptur frá t. d. b 2—d 5, eða e 4. Annars verður ekkert sagt um það, hvernig riddaraskák hefir verið, en hún hlýtur að hafa verið alt öðruvísi en venjulegt skáktafl, því hér stóðu allir riddararnir í öðru borðinu í skákbyrjun. Áður er minzt á tíðleik riddaraskákar gagnvart öðrum skáktegundum. J. Ól. tekur það fram, að riddarinn sé bezti maðurinn í riddaraskák, og að mátanöfnin *heimaskítsmát, lánga skuðarmát, apturskvettumát, fretstertumát* og *peðrífur* eða *blóðskitur*, eigi upphaflega að eins við riddaraskák, en hafi flutzt þaðan í manntalsskákina. Loksins getur Páll Vídalín þess, að *fretsterta* sé peð í riddaraskák[1], og hefir nafnið flutzt þaðan líka yfir í venjulega skák. Nafnið riddaraskák er enn við lýði, en í annari merkíngu. Sbr. að rjúfa skjaldborg.

Nú er ekki tefld nema einskonar skák á Íslandi, svo ekki er hætt við að þeir sem rita um íslenzkt skáktafl á vorum dögum, að 100 eða 200 árum liðnum, komist í annað eins moldviðri og verið hefir um hríð. en þó er gjörður munur á *valdskák* og *drepskák* innan vébanda hinnar almennu skákar. *Valdskák* er að öllu leyti eins og almenn skák, nema þar má ekki drepa neinn mann sem valdaður er[2]. Aðrir segja þó, að menn þá megi drepa í valdskák, sem valdaðir eru af kóngi[3]. Aptur er algeing skák eins og hún er tefld, venjulega kölluð drepskák, til aðgreiníngar frá valdskákinni. Annars konar drepskák er líka til, og er hún að öllu leyti eins og algeing skák, nema þar mest fremd, að láta drepa af sér sem flesta menn, og vinnur sá taflið, sem fyr verður mannlaus[4]. Þessi seinni drepskák kvað þó vera spánný.

Þá er að skýra frá því, að hverju skákaðferð Íslendínga er frábrugðin skákaðferð útlendínga. Um gáng mannanna í skáktafli, þekki eg eingar sérstakar íslenzkar reglur, nema sumir segja, að kónguriun megi gánga riddaragáng, einusinni í hverju skáktafli. Sumir láta kónginn vera sjálfráðan hvenær hann bregður þessum annarlega gángi fyrir sig[5], en aðrir

---

[1] Skýríngar yfir fornyrði lögbókar. Rkv. 1854; bls. 512. [2] Páll Bjarnarson. [3] Spilabók; bls. 28. [4] Páll Einarsson, cand. jur. [5] Eptir sögn Páls Bjarnarsonar.

segja að hann megi að eins gánga riddaragáng, þegar honum er leikið í fyrsta sinn[1]. Kredda þessi kvað þó vera úrelt, og er bættur skaðinn.

Íslendíngar hafa sérstakar reglur um uppkomu peða. Þegar peði er komið upp, láta þeir það verða að manni þeim, sem stóð á reit þeim í taflbyrjun, sem því er komið upp á. Það verður t. d. biskup, ef það lendir í biskupssætinu, eða reit þeim, sem biskupinn stóð á í upphafi taflsins. Sumir hafa sérstök lög um uppkomu kóngspeðsins. Ef það kemst beina stefnu yfir borðið, og upp í kóngssætið, þá láta þeir það vera ódræpt, nema það sé drepið í næsta leik eptir að því var komið upp. Kóngspeð þetta er kallað *lalli, kóngslalli, blóðkóngur, fretsterta, freðstertur* eða *fretstertur*. Sumir láta það hafa allan gáng, jafnvel riddaragáng, en almennast er að láta það að eins hafa kóngsgáng[2]. Sumir láta aptur hvert peð, sem kemst upp í kóngssætið, verða kóngslalla, hvort sem það geingur þángað beina línu eða krókótta. Þessari útgáfu er fylgt í Spilabókinni[1] og eg hefi orðið hennar var víðar. Spilabókin lætur líka lallann vera ódræpan, skilmálalaust.

*Drottníngarlalli* er líka til[3]. Þó hafa fæstir, sem eg hefi spurt um hann, heyrt hann nefndan. Drottníngarlalli er að öllum líkindum drottníngarpeð (sbr. kóngspeð).

Rokkeríngalög Íslendínga eru miklu margbreyttari en annarsstaðar tíðkast. Þeir gjöra venjulega mun á því, hvort rokkerað er í leingra horn eða styttra horn, eða horn það, sem er nær eða fjær. Þegar rokkerað er í horn það sem er fjær, þ. e. horn það sem er drottníngarmeginn, þá er:

1) kóngur settur á hornreit, hrókur á kóngsreit.
2) kóngur á riddarareit, hrókur á drottníngarreit,
3) kóngur á hornreit, hrókur á biskupsreit.

Þegar rokkerað er á horn það sem nær er; er:

1) kóngur settur á hornreit, hrókur á kóngsreit,
2) kóngur á hornreit, hrókur á biskupsreit,
3) kóngur á riddarareit, hrókur á kóngsreit.

Sumar af reglum þessum eru sjaldgæfar og fæstir leyfa að rokkera á alla þessa vegu.

Stundum sleppa Íslendíngar líka skilmálum þeim fyrir rokkeríngu, sem áður er getið um, og leyfa að rokkera eins opt og vill, ef kóngur stendur á reit sínum, en hrókur í horni.

Ekki gjöra Íslendíngar það ávalt, að vara mótstöðumann sinn við, þótt leikið sé á drottníngu hans.

---

[1] Spilabók; bls. 28.
[2] Þessi útgáfa um kóngslallann er tekin eptir sögn Páls Bjarnarsonar.
[3] Jón Þorkelsson. Athgr. við Kvæði Stefáns Ólafssonar II; bls. 49.

Útlendíngar láta mát jafnan vera leikslok, og er þeirri reglu opt fylgt á Íslandi. En margir Íslendíngar leyfa að máta hvað eptir annað. Þó er þessi regla varla eins tíð nú og hún var áður. Eggert Ólafsson skýrir allgreinilega frá þessu margfalda máti. Hann segir, að sá sem mátar, verði að hafa komið tafli sínu þannig fyrir við fyrsta mátið, að hin mátin geti dunið yfir, hvert eptir annað, því kóngurinn, sem verið er að máta, megi ekki eiga þess kost, að skjótast undan mátunum á meðan. Sá sem er að máta megi heldur ekki leika neinum öðrum leikjum milli mátanna. Mjög sé hætt við glaptefli, meðan standi á mátunum, og geti taflmaður tapað öllu taflinu hvað lítið sem beri útaf[1]. Góðir skákmenn geti mátað hinn sexföldu eða sjöföldu máti, þótt hann sé allsnjallur líka. Sjaldan komi fyrir meir en nífalt mát. Það sé ekki annara meðfæri en afbragðs skákmanna, að máta svo opt. Opt sé sá, sem verið er að máta, látinn halda biskupi eða riddara, til þess að sigurinn verði enn þá glæsilegri. Það sé mjög mikill vandi, að vera fimur að gjöra mótstöðmann sinn margfalt mát[2].

Þetta er eini munurinn á útlendri og íslenzkri skákaðferð, sem Eggert Ólafsson lýsir, auk skammarmáta, en hann getur þess, að þær séu mismunandi í ýmsum smáatriðum. Þetta sé aðalmunurinn. Hin atriðin séu hvorki eins forn, eins almenn, eins rétt eða eins föst.

Íslendíngar nefna mátin ýmsum nöfnum og telja sum þeirra smánarlegri en sum. Þetta er einhver helzti munurinn á íslenzku skáktafli og útlendu. Eg skal nefna mát þau, sem eg hefi rekið mig á, og lýsa þeim, og er þá fyrst að minnast á mát þau, sem ekki þykir sérstök óvirða að verða fyrir.

*Biskupsmát* er mát með biskupi. Það er þegar nefnt í Mágussögu[3].

*Frúarmát* er mát með drottníngu. Eggert Ólafsson segir, að það sé minsta mátið, eða minstur vinníngur, fyrir þann sem gjörir það[4]. Nú er mát þetta öllu optar kallað *drottníngarmát.*

*Hróksmát* er mát með hrók. Það er þegar nefnt í Mágussögu[5]. Í Kaupmannahafnarútgáfunni er orðamunur: *hrotsmát*[6], en það er víst að eins ritvilla í handritinu.

*Riddarapissa* er mát með riddara. Mát þetta er öðru nafni kallað *riddarapeisa*[7] og *pissari*[8].

---

[1] Mát þau sem þegar eru fullgjörð, verða ógild, ef eitt bregzt, og ef sá, sem er að máta margföldu máti, leikur máti af kóngi hins á meðan, þá hefir mátarinn tapað taflinu. Mínkun er það talin, að geta ekki mátað mótstöðumann sinn margföldu máti, ef reynt er til þess á annað borð.

[2] Reise igjennem Island; bls. 463—64. [3] Fornsögur Suðurlanda. Lund. 1884; bls. 11₁₄. [4] Reise igjennem Island; bls. 463. [5] Fornsögur Suðrlanda. 1884; bls. 5₁₄₋₁₅. [6] 1858; bls. 44. [7] Jón Þorkelsson. Athgr. við Kvæði Stefáns Ólafssonar II; bls. 49.

[8] Eptir sögn Steingríms stúdents Stefánssonar.

Mát þau, sem þegar er getið um, eru að vísu ósigur í skáktafli, en ekkert á móti mátum þeim, sem nú skal geta um. Þau eru kölluð *skammarmát* og eru alveg einkennileg fyrir íslenzkt skáktafl. Eggert Ólafsson telur ekki önnur skammarmát en *heimamát, peðríf* og *blóðsótt*, en venjulega eru öll mát þau, sem getið er um hér á eptir, kölluð skammarmát. Orð þetta kemur ekki fyrir í fornsögum svo eg viti, en auðséð er það, að mönnum hefir verið ver við sum mát en sum. Í Mágussögu stendur t. d.: »Ekci þarftu nv at renna«, segir keisari »undan máti; þui at ek skal nv allheðiligv mati mata þig«[1], en í Kaupmannahafnarútgáfunni stendur: »Jarl mælti: eigi mun þurfa at spara at gera þik sem hrakligastan í mátinu«[2]. Þar er líka talað um »hit fúlasta peðsmát«[3]. Ekki er mér ljós neinn munur á þessum skammarmátum, en sjálfsagt eru sum smánarlegri en sum.

»*Apturskvettumát* er af frúarpeði undir eins og hún geingur út« segir J. Ól. Þetta getur ekki þýtt annað, en að apturskvettumát sé mát með drottníngarpeði, undir eins og henni er leikið úr sæti sínu, fram á borðið. Eg hefi hvergi rekið mig á mát þetta annarsstaðar. Hefði »það« staðið í staðinn fyrir »hún«, þá væri mát þetta *útkomumát* með drottníngarpeði.

*Blóðsótt* er mát með kóngspeði, þegar kóngurinn hefir ekki hrært sig úr kóngssætinu[4]. *Blóðskítur*[5] eða *blóðskítsmát* hlýtur að vera sama mátið því orðin þýða það sama. J. Ól. segir að blóðskítur sé kallaður *sinn undir hvort eyra* öðru nafni. Páll Bjarnarson getur þess til, að þetta seinasta nafn eigi við tvöfaldan *peðríf*, og er það mjög sennilegt. Í blóðsótt og einföldum peðríf er að eins einum manni leikið á kónginn. Í tvöföldum peðríf standa tvö peð á honum, sitt hvorum meginn, og liggur þá nærri, að líkja mátinu saman við lôðrúng, bæði utan undir og sunnan undir. Ekkert Ólafsson telur blóðsótt mjög hæðilegt mát.

*Fretstertsmát* er mát með *fretstert*. Það heitir öðru nafni *fretstertumát*[6], *freðstertsmát* eða *lallamát*[6]. Sumir[7] kalla aptur kóngspeðið *lalla* (þótt því sé ekki komið upp), og ætti lallamát að vera sama sem blóðsótt eptir því. Þess má geta að O Verelius lýsir fretstertumáti[8] alveg eins og Eggert Ólafsson lýsir blóðsótt, og er auðséð á því, að mátum þessum hefir verið blandað saman og er sjálfsagt blandað saman enn í dag. Það virðist þó vera réttara að greina þau í sundur. Fretstertumát er þegar nefnt í Mágussögu[9].

*Gatrífur* er nefndur í vísuparti:

---

[1] Fornsögur Suðurlanda. Lund. 1884; bls. 51₉-₂₁. [2] 1858; bls. 23. [3] bls. 44. [4] Eggert Ólafsson Reise igjennem Island; bls. 463. [5] J. Ól. [6] Jón Þorkelsson. Athgr. við Kvæði Stefáns Ólafssonar II; bls. 49. [7] Páll Bjarnarson. [8] Olai Vereli Index lingvæ veteris scytho-scandicæ. Upsalæ. Anno M.DCXCI (fretstertumát). Þar er líka nefnt rogs mat (hróksmát) og pedmat (peðmát). [9] Fornsögur Suðrlanda. Lund. 1884; bls. 521.

— — gatrífur og *gleiðarmát*[1] — —
Eg hefi ekkert getað grafið upp um mát þetta.

*Fuðryttumát* er nefnt í Mágussögu[2]. Það nafn er nú týnt. Ef þa væri skrifað fuðrittumát, þá væri mögulegt að það þýddi sama og gatrífu Fritzner vill láta það þýða mát með drottníngu. Eg sé ekki að han færi gildar ástæður fyrir því.

*Gleiðarmát* kvað stundum vera kallað *gleidarmát*[3] en *flenniskuð*[4] öðı nafni. J. Ól, nefnir »*skakka gleiðarmát*«. Jón Þorkelsson hefir skilið þetta sv að *skakka mát* væri annað nafn á gleiðarmáti[5], og er það mjög sennileg því það væri skrítið ef J. Ól. nefndi skakka gleiðarmát, en mintist ekki gleiðarmátið sjálft. Nafnið gleiðarmát þekkist um alt land. Vísa þessi hef verið ort á Suðurlandi fyrir skömmu:

Að öllum leikum eg hef gát,
ekki er um það að tala;
eg gjöri þig bara gleiðarmát,
gáðu nú að þér Vala.

Gleiðarmát er, þegar kónguriпn, sem mátaður er, stendur á einhverju hornreitnum, drottníng hins á hornreitnum, sem er í skakkhorn við kóngı hornreitinn, en tveir hrókar sinn á hvorum af hinum hornreitunum. Al þessir menn eiga að skáka kónginum í einu. Biskup má hafa í staðiı fyrir drottníngu, ef ekki er annars kostur[6], (Dæmi: Svartur kóngur á a hvít drottníng á h 8, hvítir hrókar á a 8 og h 1). Í Spilabókinni segiı að það verði að færa drottnínguna og hrókana þannig að kónginum, að haı sé skák og mát í hverjum leik.

*Heimaskítsmát* er, þegar annarhvor taflmaður verður mát, áður hann hefir hreift kóng sinn, þaðan sem hann stóð í taflbyrjun. Sama segir Ól. Svo er að sjá á Eggert Ólafssyni[8], að ekki sé heimaskítsmát, þótt kón urinn hafi ekki hreift sig, ef honum hefir verið skákað áður en hann mátaður. Sumum þykir það þó gott og gilt heimaskítsmát, ef kóngurinn mátaður í sæti sínu, þótt honum hafi verið leikið áður[6]. Páll Bjarnars hefir heyrt mát þetta kallað *heimaskít* öðru nafni. Eggert Ólafsson Spilabókin[7] kalla það *heimamát*, og bæta því við, að það þyki smánarlegı allra máta.

*Hornskítur* eða *hornskítsmát* er mát á einhverjum hornreitnum[6].

*Kóngsmát* nefnir J. Ól. að eins. Það ætti að þýða mát m kóngi (sbr. *hróksmát, biskupsmát*, *frúarmát* o. s. frv.). En nú má el máta kóng með kóngi í venjulegu skáktafli. Það er hugsanlegt að n

[1] Athgr. við Kvæði Stefáns Ólafssonar II; bls. 49. [2] Fornsögur Suðrla Lund. 1884; bls. 11. [3] Þorsteinn Erlíngsson. [4] Steingrí stúdent Stefánsson. [5] Athgr. við Kvæði Stefáns Ólafssonar II; bls. [6] Páll Bjarnarson. [7] bls. 27. [8] Reise igjennem Island;

þetta eigi við riddaraskák, og hafi þá verið aðrar kreddur þar um kónginn en í venjulegri skák. Öllu sennilegra er þó að geta þess til, að kóngsmát sé stytt fyrir *blóðkóngsmát*, og ætti það að vera sama sem *fretstertsmát* eptir því, því *blóðkóngur* er sama sem *fretstertur*. Það verður ekkert sagt um þetta með vissu.

»*Lánga skuðarmát* (ekki *lángskuðarmát*), er af hrókspeðjum undir eins og þau gánga út« segir J. Ól. Eptir þessu hlýtur lánga skuðarmát að vera mát með hrókspeði, þegar því er leikið úr sæti sínu fram á borðið. (Dæmi: hvítt peð á a 2, ósnert. Svartur kóngur á b 5; getur ekki komizt þaðan. Hvítt á leik; leikur peðinu frá a 2—a 4. Þá er svarti kónguriun lánga skuðarmát).

*Peðmát* eða *peðsmát* er mát með hverju peði sem er, nema *fretstertn-um*. Peðmát er kallað *peðrífur* öðru nafni, og stundum kvað peðrífur vera stytt í *peðri*. J. Ól. segir að peðrífur heiti *blóðskítur* öðru nafni, en það getur ekki verið rétt, og má meðal annars ráða það af sunnlenzkum vísuparti:

Börfaplátur bráðheimskur
*blóðskítsmát* og peðrífur,

því það liggur í augum uppi að blóðskítur og blóðskítsmát er sama mátið. Það er getið áður um blóðskít. Peðrífur er talinn með smánarlegustu mátum[1], Peðmát er nefnt í Mágussögu[2] og peðsmát í Kaupmannahafnar-útgáfunni[3].

*Skítumát* er að eins nefnt í Ljóðmælum Sigurður Péturssonar[4]. Eg hefi ekkert getað grafið upp um það.

*Útkomumát* er mát með peði í sama leik og því er fyrst leikið úr sæti sínu, eða í sama leik og því er komið upp[5]. (Dæmi: Svartur kóngur á a 7, hvítir hrókar á h 6 og h 7. Þeir valda hvor sína röð. Hvítt peð á b 7. Hvítt á leik; leikur peðinu til b 8 og kemur upp drottníngu. Þá er svarti kóngurinn útkomumát). *Lánga skuðarmát* er aptur útkomumát með hrókspeði. Eggert Ólafsson segir, að útkomumát þyki versta mát næst *heimamáti*, *peðrif* og *blóðsótt*, en sé þó ekki talið með skammarmátum.

Skammarmát þau, sem nú hefir verið lýst um hríð eru öll einföld, en það eru líka til tvöföld og margföld skammarmát. Tvöföld eru þau, þegar sama mátið er tvítekið. *Peðrífur* er mát með peði, eins og áður er sagt. Tvöfaldur peðrífur er aptur þegar tvö peð máta kónginn, hvort eptir annað. (Dæmi: Svartur kóngur stendur á b 8, hvít peð á a 6 og c 6, hvítur kóngur á b 6, hvít drottníng á e 7. Hvítt leikur; leikur drottníngunni til b 7. Þá er svarti kóngurinn mát. Þá leikur hvítt peði frá a 6—a 7. Þá

[1] Eggert Ólafsson Reise igjennem Island; bls. 463. Spilab.; bls. 27.
[2] Fornsögur Suðurlanda. Lund. 1874; bls. 5₂₃. [3] 1858: bls. 44.
[4] Rkv. 1844; bls. 58. [5] Reise igjennem Island; bls. 463.

er kóngurinn peðrífur. Þá leikur hvítt hinu peðinu frá c 6—c 7. Þá er kóngurinn tvöfaldur peðrífur). Sumir kannast þó ekki við tvöfaldan peðríf, nema að eins peðin máti kónginn, hvort eptir annað (ekki drottníngin fyrst, eins og gjört var ráð fyrir í dæminu). Ekki eru önnur mát látin vera tvöföld en peðrífur og *riddarapissa*.

Margföld skammarmát eru það aptur þegar hverju skammarmátinu er dembt yfir kónginn eptir annað, t. d. tvöfaldur peðrífur með *riddarapissu*, *gleiðarmát* með tvöfaldri riddarapissu, *hornskítur* með peðríf og riddarapissu o. s. frv.

*Mát á miðju borði* er smánarlegast margfalt mát. Kóngurinn sem á að verða fyrir skömminni, á að standa á einhverjum miðreitnum (d 4, d 5, e 4 eða e 5) og er mátið eptir því hæðilegra sem fleiri menn skáka honum í einu[1]. Sbr. Vísupart:

Kominn í mát með kýngilát
kóngur á borði miðju.

Tvöföld og margföld skammarmát falla burt, ef ekki má leika eptir að annarhvor kóngurinn er orðinn mát, eins og tíðkast í útlöndum. En Íslendíngar leika opt skákleikjum, eins og áður er sagt, þ. e, leikjum þar sem kóngnum er skákað jafnframt, þótt annarhvor kóngurinn sé þegar orðinn mát, og því að eins eru tvöföld og margföld skammarmát möguleg.

Um jafntefli eru til ýmsar kreddur, sem eru einkennilegar fyrir íslenzkt skáktafl.

Sumir telja það jafntefli, ef ekki tekst að máta í vissri leikjatölu eptir að annarhvor kóngurinn er orðinn mannlaus, eða menn hans bundnir svo, að þeim verður ekki leikið. Ef mennirnir losna á meðan verið er að máta á þenna hátt, verður að hætta að telja leikina, sem ætlaðir eru til mátsins. Þeir eru sjaldan fleiri en 16 og aldrei færri en 3. Optast eru þeir hafðir 9[2].

Annars konar jafntefli lýsir Eggert Ólafsson[3]: »Það er jafntefli þegar annarhvor taflmaður getur ekki flutt aðra menn en kónginn, en hann er ekki skyldur að leika honum, nema honum sé skákað jafnframt. Ef kóngnum er þá ekki leikið ofan í skák, þá er taflinu lokið og vinnur hvorugur. Aptur er talið að þeim hafi farizt ófimlega, sem olli stansinum.

Auk þess getur Eggert um fimtu tafllokin, og nefnir þau bert. Bert verður, þegar annarhvor er orðinn alveg mannlaus, en kóngur hans þó ekki mát. Ef kóngurinn verður mát í sama leik og hann missir seinasta manninn, er það kallað stóra bert, annars litla bert. Bert er minstur vinníngur í skák.

»Hinn litli taflsmunr« er nefndur í Mágussögu[4]. Orðtæki þetta

[1] Páll Bjarnarson. [2] Páll Bjarnarson. Sbr. Spilabókin; bls. 28.
[3] Reise igjennem Island; bls. 462—63. [4] Fornsögur Suðrlanda. Lund. 1884; bls. 11₄₄.

sverði yfir hné sér. Drottníngarnar sitja líka. Þær eru með skuplu, enn kórónu ofan á. Biskuparnir eru með mítur, bagal og brevíaríum. Riddararnir sitja á hestbaki og eru herklæddir. Hrókarnir eru líka herklæddir, en fótgángandi. Peðin eru áttstrend en mjókka upp. Allir eru skákmenn þessir úr tönn og svara til taflborðs sem er tvö fet að þvermáli. Fornfræðíngur nokkur, Frederic Madden, ritaði um skákmenn þessa í enskt fornfræðistímarit[1]. Hann kemst að þeirri niðurstöðu, að þeir hafi verið smíðaðir á Íslandi á öndverðri 12. öld, og fluttir út svo sem verzlunarvara. Skipið sem þeir voru á hafi farizt. Skákmönnum hafi skolað í land við Lewiseyu, þeir hafi orðið orpnir sandi og fundizt fyrst eptir sjö aldir. Það er líka getið um þá í Annaler for nordisk Oldkyndighed[2], og sagt, að þeir muni vera frá 11. öld. Þar er líka getið um aðra íslenzka skákmenn úr tönn, og eru þeir nú á Forngripasafninu í Kaupmannahöfn[3]. Þeir fundust í jörðu á Íslandi á öndverðri 18. öld, og eru fremur óbrotnir. Peðin eru strýtumynduð og alveg óútflúruð. Riddarar, biskupar og hrókar eru rendir, sívalir og ekki ósvipaðir því, sem hrókar eru vanir að vera um þessar mundir. Drottníngin er skorin. Hún situr og heldur höndunum í keltu sér. Um kónginn er ekki getið.

Eins getur J. Ól. um gamlan skákmann: »Fundizt hefir á Borg á Mýrum skákmaður rendur af hvalbeini, þverhandarhár, allur jafn, hálfur annar þumlúngur [í díameter[4], eður að þykkri, sem menn meina sé monument[5] eptir Egil Skallagrímsson, sem nú er í eign djáknans í Viðey, mr. Páls Sveinssonar, honum gefinn af mági hans, prestinum séra Hannesi á Qvennabrekku í Dalasýslu«.

Aptur hefi eg færri fréttir af því, hvernig Íslendíngar hafa gjört skákmenn sína úr garði á seinni tímum. Á Forngripasafninu í Reykjavík er hrókur úr beini, 1¼ þumlúngur á hæð. Neðan á honum stendur: Annó 1600[6]. Þar er líka riddari úr tönn. Hann er með hesthöfði með makka að ofan og stóru gati neðan[7]. Aptur segir í Annaler for nordisk Oldkyndighed[8], að menn viti til þess, að íslenzkur riddari hafi verið látinn sitja á hestbaki, á öndverðri 17. öld. La Peyrere og Zorgdrager[9] lýsa íslenzkum hrókum þannig, að þeir séu gjörðir úr garði eins og hershöfðíngjar, enda kalli lærðu mennirnir þá s(c)enturíónes[10]. Þeir hafi sverð við hlið og blási í horn, enda séu þeir tútnir í framan.

Enn eru tvær listir, eða hvað maður á að kalla það, sem standa í sambandi við skáktafl: að rjúfa skjaldborg og að leysa frú úr tröllahöndum.

---

[1] Archaeologia XXIV. London. 1832. [2] 1838--1839; bls. 138—59. [3] Oldnordisk Museum. [4] að þvermáli. [5] hér = smíðisgripur? [6] Skýrsla um Forngripasafnið III; bls. 4. [7] II: bls. 7. [8] 1838—39; bls. 156. [9] sjá nmgr. 9—10; á bls. 295. [10] hundraðshöfðíngi.

**Að rjúfa skjaldborg.** Mönnunum er raðað reglulaust á hálft skákborð, (a 1—h 1)—(a 4—h 4), nema riddarinn stendur í öðruhvoru horninu. Ná á að leika honum yfir borðhelmíng þenna í 31 leik, þannig að hann komi að eins einu sinni við á hverjum reit, og nemi að lokum staðar í hinu horni taflborðsins. Ef riddarinn stendur t. d. í upphafi á a 1, þá á hann að nema staðar á h 1. Það segir sig sjálft, að riddarinn verður að drepa mann í hverjum leik, þar sem maður stendur á hverjum reit.

Sumir hafa þann sið, að setja kóng, öðruvísi litan en riddarann, á hornreit þann, sem riddarinn á að nema staðar á, og komast svo að orði, að riddarinn eigi að drepa alla mennina í 30 leikjum, en skáka kónginum á hornreitnum í seinasta leiknum[1]. Aðferð þessi virðist vera upphaflegri, því sjálfsagt eiga mennirnir að vera skjaldborg fyrir kóngnum, sem riddarinn rýfur með árás sinni. Brynjúlfur Kúld, stud. jur., hefir heyrt list þessa kallaða *riddaraskák*.

J. Ól. lýsir list þessari eins og hér er gjört, svo lángt sem lýsíng hans nær. Þó **tekur hann ekki fram**, að riddarinn eigi að eins að fara um hálft skákborðið. Aðallýsíng Jóns er undir orðinu »skjaldborg«, en undir orðinu »skák« eru myndir af gángi riddarans, og sést þar, að Jón á að eins við hálft skákborðið. Jón segir að hægt sé að **að rjúfa skjaldborg** á öllu fólkinu með tvennu móti, og eru myndir þessar til skýríngar.

1[2].

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1 | (10) | 27 | (18) |
| (26) | 19 | (8) | 11 |
| 9 | (2) | 17 | (28) |
| (20) | 25 | (12) | 7 |
| 3 | (16) | 29 | (24) |
| (30) | 21 | (6) | 13 |
| 15 | (4) | 23 | (32) |
| (22) | 31 | (14) | 5 |

2.

| | | | |
|---|---|---|---|
| (1) | 16 | (27) | 18 |
| 26 | (19) | 8 | (15) |
| (9) | 2 | (17) | 28 |
| 20 | (25) | 14 | (7) |
| (3) | 10 | (29) | 24 |
| 30 | (21) | 6 | (13) |
| (11) | 4 | (23) | 32 |
| 22 | (31) | 12 | (5) |

Það er nokkur munur á þessum skjaldborgarrofníngum og þeirri, sem þegar er lýst. Jón lætur riddarann hefja gaungu sína frá hornreit eða (a 1), eins og enn tíðkast. Aptur lætur hann hann ekki nema staðar á hornreit. Af því leiðir, að mögulegt er að rjúfa skjaldborg á tvo vegu, og ef til vill fleiri, en þegar riddarinn er látinn nema staðar á hornreit, þá er ómögulegt að rjúfa skjaldborgina nema á einn veg[3].

J. Ól. sýnir líka með mynd hvernig á að **rjúfa skjaldborg** á þrem

[1] *Páll Bjarnarson.* [2] *Reitirnir,* sem innsirkluðu tölurnar eru á, eru svartir hjá J. Ól. [3] *er mér sagt.*

fjórðúngum fólksins eða 24 mönnum. Hér er riddarinn líka látinn gánga frá 1 yfir þrjár reitarraðir í 23 leikjum, og á hann að drepa

| | | |
|---|---|---|
| 22 | (17) | 24 |
| (19) | 14 | (21) |
| 16 | (23) | 18 |
| (13) | 20 | (15) |
| 10 | (5) | 12 |
| (7) | 2 | (9) |
| 4 | (11) | 6 |
| (1) | 8 | (3) |

mann í hverjum leik. Hann má ekki, fremur en áður, standa optar en einu sinni á hverjum reit og ekki fara út yfir þessar þrjár reitaraðir.

Í Eldíngu eptir frú Torfhildi Hólm[1] er minzt á að slá skjaldborg um konúnginn í manntafli, hvort sem það á nokkuð skylt við að rjúfa skjaldborg.

Að leysa frú úr tröllahöndum er náskylt, eptir því sem J. Ól. segir. Hér tekur Jón það fram, að riddarinn gángi um alt skákborðið, og er það líklega eini munurinn á list þessari og að rjúfa skjaldborg. Jón segir, þar sem hann drepur á list þessa, að hann hafi dregið upp mynd af ganginum í henni. Á þessu taflmyndahepti, sem getið er um í formálanum[2], er ekki að gjöra um fleiri myndir en eina, sem geta átt við list þessa. Það er venjulegt skákborð með 64 reitum, og virðist það vera því til stuðníngs, að riddarinn eigi að gánga um alt skákborðið. Eingar tölur eru á mynd þessari eins og hinum. Mennirnir eiga sjálfsagt að standa víðsvegar um skákborðið. Þeir eiga eflaust að þýða tröll. Riddarinn drepur eitt af öðru og loksins er frúin alveg sloppin úr höndum trölla þessara. Maður verður þá að hugsa sér, að riddarinn taki frúna seinast í vernd sína, en drepi hana ekki eins og tröllin.

**Refskák.** Eg hefi aldrei séð sérstakt refskákartaflborð, og efa, að það sé til. Taflmyndin er optast krítuð á fjöl, eða þá strykuð á bréf eða reikníngsspjald. Hún er svona:




Tveir menn tefla refskák, eins og flest önnur töfl. Annar hefir tóu, en hinn hefir 13 lömb. Eg set að hornið A snúi að lambamanninum, og skipar hann þeim á reitina 1—13. Hinn setur aptur tóuna á miðreitinn, x. Það er mark og mið lambamannsins að bræla tóuna inni, skipa lömbunum svo, að tóan geti ekkert komizt, en hinn reynir aptur til að varna

[1] Reykjavík 1889; bls. 24.

[2] bls. 7, 1. nmgr.

töflurnar mega aptur að eins drepa varnartöflurnar, þegar þær gleym drepa, og auk þess mega þær ekki fara um sumar línurnar.

**Mylna** er tefld eptir þessari mynd. Tveir tefla. Hvor þeirra hefi töflur eða gler o. s. frv. til að með, og verða þau að vera mislit, t. d. öðrum meginn, en dökkleit um meginn. Þeir kasta hlutkesti hvor fyr skuli setja. Sá, sem á byrja, setur tölu á einhvern reit í inu. Þá setur hinn, og svo kol kolli, þángað til hvortveggi hefir allar tölur sínar. Flestir leitast að koma sér upp mylnu, en er mylna þegar annarhvor á tölı þremur reitum, sem liggja í bı línu hvor við annan. Sá sem feingið mylnu, má drepa eina tölu hinum, og er hún þá úr sögunni. Þó má hann ekki drepa úr lok mylnu. Ef annarhvor á t. d. mylnu á *n*, *m* og *l* eða *l*, *k* og *j*, þá hann drepa hverja tölu, sem hann vill fyrir hinum, nema þær sem st í mylnu, en dræp er hver tafla annarshvors, ef mótstöðumaður hans leikið einhverri af töflum sínum á reit hennar. Annars er talsverður að setja tölurnar í mylnutafli, og þykir góðum taflmönnum meira k undir því, að tölurnar standi haganlega, þegar búið er að setja þær en að fá mylnu meðan verið er að setja þær. Ekki er hægt að gefa rı fyrir setníngunni, en þó má geta þess, að altaf er gott að eiga tölur á reitunum *k*, *m*, *í* og *ó*.




Þegar búið er að setja allar tölurnar, leikur sá, sem setti næst ast, svo hvor eptir annan. Tölurnar gánga á næsta reit við þær, beinum línum. Báðir leitast við að leika þannig, að þeir fái mylnuı geti notað sér þær, því það er til lítils gagns að eiga mylnu, sem ekl hægt að [spenna upp[1] og drepa með aptur. Ef annar á t. d. mylı *p*, *q* og *r* en hinn tölur á *í*, *v* og *s*, þá verður mylnan að miklu leyti í bráð, en ef sá fyrri getur fært töluna, sem stendur á *p* til *v*, spent l og frá *v* aptur til *p*, lokað henni, þá hefir hann ýngt mylnu sína upp má drepa hverja tölu fyrir hinum sem hann vill, nema þær sem stan lokaðri mylnu. Það segir sig því sjálft, að hvor fyrir sig reynir til að tölu í kjaptinn á mylnum þeim, sem mótstöðumaður hans spennir,

[1] Páll Bjarnason hefir heyrt »að spana«.

binda[1] þær, því þær eru máttlausar á meðan. Ef annar hefir t. d. spenta mylnu, *b*, *j*, *q* og hinn á tölu á *i*, þá færir hann hana á *i*, og ónýtir þannig mylnuna.

Auk einfaldrar mylnu er til *svikamylna*, *krossmylna* og *rennihestur*. Svikamylna er það, þegar annarhvor getur komið sér upp mylnu við hvern leik eða lokið mylnu og spent aðra í sama leiknum. Ef annarhvor á t. d. tölur á *n*, *ó* og *i* og *b* og *q*, en reiturinn *í* er auður, þá getur hann fært *i* á *í* og *í* á *i*, og feingið þannig mylnu í hvert skipti sem hann leikur. Ef hinn á tölu á *j*, þá verður mylnumaðurinn að drepa hana, ef mögulegt er, því annars getur mótstöðumaður hans bundið svikamylnuna. *Krossmylna* er þegar annarhvor á tölur á öllum reitum á einhverjum krossinum, nema miðreitnum, t. d. *b*, *i*, *j* og *k*. Aptur ber mönnum ekki saman um *rennihest*. J. Ól. segir, að sá, sem eigi rennihest, geti drepið margar tölur í einu. Þ. Erl. segir að rennihestur sé svikamylna og krossmylna sameinaðar t. d. tölur *a*, *b*, *c*, *i*, *j* og *q*. Aðrir segja, að rennihestur sé tölur á t. d. *a*, *c*, *i*, *j*, *p* og *r*, og á einhverjum reitanna *b*, *i* eða *q*. Rennihestur er eins og svikamylna að því leyti, að með honum er hægt að drepa tölu í hverjum leik, en þó er hann talsvert öðruvísi, eins og auðséð er. Eg þekki ekki rennihest að norðan.

Þegar annarhvor hefir svikamylnu eða rennihest, er svo að segja ómögulegt fyrir hinn að vinna, en þó er taflið ekki útkljáð fyrir fult og alt, fyr en annarhvor hefir mist svo margar tölur, að hann getur ekki feingið mylnu, eða sjö tölur með öðrum orðum. Sumir telja það líka fullan vinning í mylnu, ef annar getur fest svo tölur hins, að þeim verði ekki leikið, en aðrir telja slíkt að eins hálfan vinníng. Það þykir ekki alllítil frægð að setja tölur sínar svo vel í taflbyrjun, að tölur hins festist, áður en kemur til manndrápa[1].

J. Ól. hefir mynd af mylnutafli, alveg eins og það er enn í dag, en ekki lýsir hann því að marki. Hann segir að krossmylna heiti *vængjamylna* öðru nafni. Mylnan er útlend að uppruna[2], eins og *skáktafl* og *kotra*, en mér þótti þó réttara að lýsa henni hér, því bæði er hún tefld mjög mikið á Íslandi, og svo koma fyrir í henni ýms nöfn, sem eru alveg þjóðleg.

Séra Hallgrímur Pétursson nefnir hvorki *refskák* né mylnu í taflvísu sinni, og mætti ef til vill ráða af því, að hvorugt nafnið hafi tíðkazt um þær mundir, en með því er ekki sagt að töflin hafi ekki verið tíðkuð þá[3].

---

[1] Páll Bjarnarson. [2] Sbr. Skýrslu um Forngripas. I. Kmh. 1868; bls. 42.
[3] Þess má geta að mylna tíðkast á Einglandi, alveg eins og hún er höfð á Íslandi, eptir því sem er að ráða af »Drengenes egen Bog«. Kmh. 1868; bls. 33-4 og »Pigernes egen Bog«. Kmh. 1868; bls. 14. Mylna er líka tefld í Danmörku og heitir þar *Mølle*. »Spillebog for Börn«. Kmh. 1853; bls. 36—7.

Auk tafla þeirra, sem þegar er getið, eru til nokkur töfl, sem leikin eru teníngalaust og réttast er því að vísa hér til sætis. Töfl þessi eru flest meira eða minna ókunn, en það er betra að veifa raungu tré en aungu.

**Ólafstafl,** *Ólafs kóngs tafl*[1] eða *að vinna kotrueið*[2]. Öllum ber saman um að tafli þessu fylgi vísa. Eg hefi séð tíu útgáfur af henni. Eg legg til Grundvallar þá, sem er í Hrs, Bmf. 387, 8vo. Tvær eru hjá J. Ól., eða ein heil og partur af annari (A 1 og A 2). Ein er hjá G. E. (B). Ein er í gátum Þorsteins frá Upsum, í Hrs, Bmf. 635. 8vo (C). Sú sjötta er í Ísafold VIII; bls. 52 (D). Sú sjöunda er með hendi séra Jóns Ýngvaldssonar, á blaði frá J. Árn. (E). Sú áttunda í ritgjörð eptir Konrad Maurer (Germanía XIV, 1869; bls. 108 (F), sú níunda er líka frá J. Árn. (G). Eptir heimildum þessum er vísan svona:

Fjórir[3] eru góðir, fimm[4] eru verri,
fríðir tveir hjá[5] einum stríðum,
[þrenníng[6] mæt og þegninn[7] ljóti[8],
þá er [einn góður[9] en[10] [tveir í námi[11].
[Tel eg enn[12] tvo[13] og þrjá sem þræla,
[þarfur[14] er[15] einn[16], en[17] tveir í starfi.
[[18]Nýtir tveir munu[19] nærri[20] sitja
nauðadökkur[21] [sá skal[22] sökkva[23].

Tíunda útgáfan er hjá J. Ól. við nám, og er hún svo frábrugðin hinum, að mér þykir réttast að láta prenta hana sérstaka;

Fimm eru góðir, fjórir eru verri,
fagrir tveir hjá einum þeirra,
svartur einn og sá er í námi,
neytir tveir skulu nærri sitja,
nauðadökkum sá skal sökkva.

En útgáfa þessi er eflaust reingri en hinar. J. Ól. minnist á tafl þetta á tveimur stöðum. Á öðrum staðnum segist hann halda, að það sé nokkurs konar tafleiður[24]. Ákveðinni tölu af hvítum eða[25] svörtum töflum sé skipað

---

[1] J. Ól. *Ólafs helga tafl.* Bogi. *Tafl Ólafs konúngs helga.* Konrad Maurer. [2] G. E. Kotrueiðinn (J. Árn.) [3] Fimm A2. [4] Fjórir A2. [5] með B. [6] þreinging C. [7] þrællinn F. [8] síðan einn og sá er í námi »etc«. A2. [9] hann einn F. [10] og A, CF. [11] tveir í voða B. [12] sleppir DG. [13] Til eg vel tvo A1. [14] þarfari E. [15] sleppir A1CDFG. [16] þá varir einn B. [17] og A1DFG. [18] D og G bæta »en« framan við. [19] eða skulu A1. [20] hjá nýtum tveimur nú skal F. [21] nauðadökkvum A1DG; »og« bætir F inn í. [22] skal hann DG. [23] rökkva D. Auk þess hefir F það fjórðu línuna, sem hér er sjötta línan, en það sjöttu línuna, sem hér er fjórða línan. [24] »Species quadam jurandi aleatoria«. [25] Á víst að vera »og«.

fari svikalaust fram. Kotrutöflum er raðað niður í kotruborði[1] eptir vísunni. Ef sá teflir, sem er látinn heita A. í kotrunni, þá setur hann fyrs fjórar hvítar töflur á *a*, *b*, *c* og *d*. Þá fimm svartar á *e*, *f*, *g*, *h*, og *i*. Þá tvæ hvítar á *j* og *k*, en svarta á *l*. Þá setur hann í bilið milli *l* og 1, fyrs þrjár hvítar og eina svarta, þá eina hvíta og eina svarta. Þá svarta á en tvær hvítar á 2 og 3. Þá þrjár svartar á 4, 5 og 6. Þá eina hvíta á 7, en tvær svartar á 8 og 9, og svo loksins tvær hvítar á 10 og 11, en eina svarta á 12. Þá er komin röðin, sem færð er til í Ísafold, og kemur hún heim við vísuna, því fyrri talan í flestum vísuorðunum táknar hvítar töflu eða góðar, en seinni talan svartar töflur eða vondar, en »þegninn ljóti« þriðja vísuorðinu er svört tafla og eins »sá nauðadökki« í seinasta vísuorð inu. Ef sá skipar töflunum niður sem teflir, og það virðist vera eðlilegast þá hlýtur hann að hafa fulla sjón, meðan hann er að því, því annars gæt hann ekki séð litarmun á töflunum. Það getur því ekki verið rétt, sem J Ól. segir á fyrra staðnum. Þegar alt er komið í kríng, er bundið fyri augun á taflmanninum, svo hann sjái ekki skímu, og á hann nú að tak upp allar svörtu töflurnar, en skilja eptir allar þær hvítu. Það gjörir hann eptir stefinu: únus dúnus o. s. frv., og hefir það yfir, meðan hann er að taka upp töflurnar. Hvert orð í stefinu svarar til reits. Taflmaðurinn er þv kominn að reitnum *i*, þegar hann segir »skamm«, og við það orð höggu hann, eða tekur upp töfluna, sem stóð á *i*, og er hún úr sögunni. Svo byrja taflmaðurinn stefið að nýu, og höggur næst töfluna, sem stendur næs reitnum 1. Svona er haldið áfram. Næst er höggvin taflan á reitnum 9[2] Í næsta skipti verður taflmaðurinn að hlaupa yfir bilið á milli 12 og *a* *Únus*, *dúnus* og *dínus* svara til reitanna 10, 11 og 12, en *damm* til reits ins *a*. Taflan, sem höggvin er, stendur því á reitnum *f*. Svona geingu það koll af kolli, þángað til allar svörtu töflurnar eru á burt. Seinast e höggvin taflan á reitnum 5, og er þá komið hátt á sjöttu umferð á kotru borðinu. Það þarf valla að taka það fram, að meðan verið er að taka upp töflurnar eru reitir þeir ekki taldir með, sem töflur hafa þegar veri höggnar á.

Tafl þetta er í raun réttri mjög óbrotið, og getur hver maður tefl það viðstöðulaust, þótt blindur sé, með dálítilli æfíngu.

**Færíngartafl.** J. Ól. segir að það sé leikið teníngalaust, og að þrjá raðir séu í því[3]. Það sé auðvelt mjög. Eg veit ekki meira um tafl þetta

[1] Kotru verður strax lýst og er gjört ráð fyrir sömu reitatáknum hér og þar.

[2] J. Ól. segir að talið sé til 29 o. s. frv. Réttara væri að segja að talið væri t 27 o.s. frv., því hvert stef svarar til 9 reita, en þrisvar 9 eru 27.

[3] »tribus ordinibus constans«.

Egg. Ól. nefnir það að eins[1]. Hallgrímur Pétursson nefnir færitafl[2] og er það eflaust sama taflið.

**Freystafl** nefnir J. Ól og segir að það sé týnt. Hann færir til klausu um það úr »Flov. cap. 5«. Það lítur svo út, sem Jón eigi við Flóventssögu, en það er ekkert Freystafl nefnt í 5. kapítula á Flóventsögu þeirri, sem gefin er út í Fornsögum Suðurlanda. Fritzner hefir heldur ekki Freystafl í orðabók sinni, svo orðið kemur líklega ekki fyrir í fornum bókum, prentuðum. Klausan er svona: »Heiðíngjar sóttu eptir Flóvent, en sá er næstur var í eptirreiðinni týnir snart lífi sínu, og er svo á að líta viðskipti þeirra, sem maður leiki Freystafl og eigi jafna röð, og leiki úr annari í aðra, og taki hverju sinni einn senn; og sem hann snerist í móti, lá hver fallinn, er fyrir honum varð«. Seinast segir J. Ól. að þetta Freystafl muni vera sama og það, sem nú sé kallað Færíngartafl. Mér hefir dottið í hug, að færíngartafl og Freystafl gæti verið sama sem mylna. »Tribus ordinibus constans[3]« getur vel átt við mylnu, og ættu »raðirnar« þá að vera þessar þrjár línur, sem eru á hvern veg í mylnutaflborði. Eins fellur það sem J. Ól. segir um Freystafl alveg saman við mylnu. »Jöfn röð« er fullgott nafn á mylnu, og ef taflmaður á tvær »jafnar raðir«, tvær mylnur, svikamylnu, með öðrum orðum, og »leikur úr annari í aðra og tekur hverju sinni eina (tölu) senn (frá hinum)«, þá fer fljótt að saxast á tölur mótstöðumannsins, ekki síður en heiðíngjanna, sem Flóvent var að brytja niður. En þessi getgáta er ekki alveg sama sem vissa og þess vegna skipaði eg þessum tveimur töflum sæti sér, en ekki undir mylnu.

**Boddatafl** nefnir J. Ól. og segir að í því séu 16 reitir á hvort borð. Hann segir að nafnið muni vera afbakað úr böndatafl, eins og bæjarnafnið Boddastaðir[4] í Dalasýslu úr Böndastaðir. Þetta er alt sem Jón segir um tafl þetta. Á Boddatafl er líka minzt í sögunni af Sigurði þögla. Þar segir að kónguriun af Tartaría hafi gefið Sigurði tafl. »Á borðinu váru XVI reitir horna í millum, ok XVI taflmenn við hvern bekk, og jafnmörg peð hvárum megin. Sá meistari, er Boddi hét ok þar í landi var, fann fyrst at setja þetta tafl ok var af hánum kallat Boddatafl«[5].

Til samanburðar má geta hjer um tafl Ítreks konúngs, sem gáta þessi er um í gátum Gests blinda:

> Hverir 'ro þeir þegnar,
> er ríða þingi at

[1] *Reise igjennem Island*: bls. 50. [2] hærutafl og færutafl, variantar (rángir) við leikvísu Hallgríms prests. Sbr. Viðaukann. [3] þ. e. þríraðaður, settur þremur röðum. [4] *Jón Sigurðsson getur þess í afskript sinni af tafldóti J. Ól., að bær þessi muni alment vera kallaður* Goddastaðir.

[5] *Sagan af Sigurði þögula. Rvik. 1883; bls. 108.*

ok eru sextán saman;
lýði sína senda þeir
lönd yfir
að byggja bólstaði?[1].

Í tafli þessu kemur líka fyrir talan 16, en hvort það og Boddatafl er sama taflið, er ómögulegt að segja.

Þá koma nú teníngatöflin og eru þau eingu færri en hin. Ekki kann eg heldur að lýsa þeim öllum. Víða er drepið á teníngatöfl yfir höfuð í íslenzkum málsháttum og orðtækjum, og tíni eg hér til, það sem eg þekki af því tægi, en aptur get eg um orðtæki, sem benda til einhvers ákveðins tafls, við það.

Málshættirnir eru þessir:

Forsjálum teflara er teníngalukkunni að trúa (J. Ól.)

Hann lýgur á annan teninginn, en stelur á annan (G. J.)

Leika máttu[2], lokið er að kasta (Schev. I.)

Létt er að leika, ef teníngurinn vill vel[3] (G. J.)

Ljáðu lukkunni teninga (G. J.)

Stríðið er teníngakast, sem veltir lukkunni upp og niður (G. J.)

Teníngur er vondur varníngur (J. Ól.)

Ýmist [veltur upp[4] á teníngnum.

Af orðatækjum af þessu tægi hefi eg að eins rekið mig á fáein: að eiga eitthvað undir kasti[5], nú kemur til minna (þinna o. s. frv.) kasta, taflið og teníngurinn er hjá honum (G. J.), þegar einhver hefir bæði töglin og hagldirnar.

Hér má líka geta um tvo vísuparta:

Teníngurinn talus[6] heitir,
trygð hann litla stundum veitir (J. Ól.)

og Ef ábóti tenínga á sér ber,
oss múkum leyft að tefla er (G. J.).

**Kotra**. Helzta teníngatafl Íslendinga er kotra. Hvergi er getið um hvernig hún er leikin, svo eg viti, og skýri eg því svo nákvæmlega frá henni sem eg get. Það er heldur ekki vanþörf, því kotra er mjög ótíð á Íslandi, að minsta kosti þar sem eg þekki til, en allra tafla skemtilegust og fjörlegust í raun og veru[7].

---

[1] Fornaldarsögur Norðurlanda Rkv. 1885; bls. 38. [2] þú mátt leika (G. J.) [3] Hægt er að tefla, þá verpillinn vill vel (Schev. II). [4] er uppi (G. J.) sbr. sama verður uppi á teníngnum. Norðanf. XVI; bls. 31, 1. d. [5] eða teníngakasti (J. Ól.) [6] talus er latneskt nafn á teníngi.

[7] Þess er getið í fornum sögum, að gaman hafi þótt að tefla kotru, og er ein-

Útlend er kotra að uppruna eins og skáktaflið, og fellst eg á það sem Sigurður málari segir: »Kotra mun vera frakkneskur leikur, eins og tölunöfnin á teníngunum og eins nöfnin mor eða mar og jan benda til«[1]. Nafnið sjálft fellur saman við eitt tölunafnið á teníngunum, eins og seinna segir, og er því sama máli að gegna með það[2].

Samt hefir kotra þegar verið tefld á Íslandi í fornöld, eins og sést á sögunni úr Biskupasögunum, og telur Sigurður málari, að menn hafi fyrst sannar sagnir af kotrutafli á Íslandi á 12. öld.[3]

Annars er örsjaldan getið um kotru í íslenzkum bókum. Í útgáfu einni af Búalögum frá hér um bil 1500 er þess þó getið að það kosti 8 álnir að kenna kvotru, og er það alt að 5 krónum.

Jón biskup Arason og séra Hallgrímur Pétursson nefna líka kotru í taflvísum sínum (sbr. viðaukann). Eggert Ólafsson nefnir líka kotru[4] og hafa nokkrir útlendíngar, sem hafa ritað um Ísland nefnt nafnið eptir honum, en afbakað það þó.

Eggert getur þess líka að kotra sé opt tefld í Kjósarsýslu, og er það alt og sumt, sem eg hefi séð um tiðleik hennar á Íslandi; en nú lítur svo út sem Íslendíngar hafi kotru í litlum metum, eða eð minsta kosti er kotrutafl óvíða til.

---

kennilega komizt að orði um það í Biskupasögunum II; bls. 176—77. Þar segir: »Svá bar til í Vestfjörðum, sem mjök er títt í því landi, þó at ei sé vel, at menn tefla kvátru; var hèr ok svá at tveir menn sátu yfir taflit ok pantaðu þar við eitt og annat, af því sem þeir til höfðu: gekk öðrum merkiliga verr, þvíat honum dugði eigi teningr, en þat er ónáttúra þess tafls, at því meira sem hann lætr þar í, þeim mun síðr vill hann af létta, og þar kom sem þeim brast lýsi«. Sá sem hafði tapað undi illa við og hét á »hinn góða Guðmund« (biskup) að hann skyldi »minnr leggjast í þessa ónytjugjörð héðan af en hingat til«, ef hann ynni aptur það sem hann hafði tapað. Hann sótti vatn í Guðmundarbrunn og helti á lampann »og brennr vatnit sem hit skýrasta lýsi — — En sá, sem vatnit bar til, lagði af kvátruna.«

[1] Skýrsla um forngripasafnið I; bls. 37.

[2] Eg skal geta þess hér til gamans, að séra Jón Daðason segir í Gandreið (Hrs. Bmfj. 35 fol.) 47. kap., að Attalus Asiaticus hafi fyrstur manna »tíðkað í Europa að leika með kotru og teninga og líka sem sumir segja riddaraskákina«, rétt á eptir Trójubardaga. [3] Sk. um forngrsafn I, bls. 38. Í Sturlúngu er getið um kotru (fyrri útg. III, kap. 26), en kvotra er nefnd í sama riti (V. kap. 38). Þar er líka getið um ás og daus á teníngum (V, kap. 31). Í Biskupasögunum er getið um kvotru (I, bls. 596) og kvátru (II, bls. 176—77) eins og áður er sagt. *Quatra* er nefnd í Konráðs sögu keisarasonar (Fornsögur Suðurlanda Lund, 1884; bls. 83₃₀-₃₁). Í Karlamagnúsarsögu er líka nefnt kvátrutafl (bls. 470, 486). En á eingum þessum stað er getið um, hvernig kotra hafi verið tefld. [4] Reise igjennem Island; bls. 50.

Til eru gömul ráð að vinna í kotru, ekki síður en skáktafli og [illegible] þetta eitt: »Ef þú vilt vinna í kotru. Tak hrafnshjarta og herð það þ[illegible] sem sól skín ei á, myl síðan sundur og nú um tenínga[1].

Aðrar aðferðir til að vinna í kotru færir J. Árn. til í þjóðsögum sínum. — Kotrumenn sögðu: »Ólafr, Ólafr, Haraldr, Haraldr, Eirekr, Eirekr«[2]. Þennan formála átti sá, sem vinna vildi, að skrifa á blað[3], og annaðhvort hafa á sér blaðið eða láta það undir kotruborðið, ofan á lærinu á sér, meðan hann tefldi, og lesa þar að auki paternoster til heiðurs Ólafi konúngi«[4].

Hitt ráðið, sem J. Árn. nefnir, er meira í áttina til kredduráðs þess, sem þegar er getið. »Til þess að vinna í kotru skal taka máríötlutúngu og þurka við sólu, mylja síðan saman við messuvín og láta í teníngsaugun, og er þá vís vinníngur«.[5]

Í sömu áttina mun vera kotruvers sem Páll Vídalín nefnir[6] og segir að »eigi gildi lífsstraff nú í lögunum og ei hafi átt að gilda að fornu né síðan Jónsbók kom inn« hvað sem áður hefir verið. Það lítur svo út sem mikið hafi sagzt á kotruversum, því Árni Pétursson, sem brendur er á alþíngi fyrir galdur 1681, kannast við það fyrir andlátið, meðal annars, að hann hafi reynt kotruvers með fjölkyngisbrögðum[7].

Sagan, sem eg hefi fært til úr Biskupasögunum, sýnir að menn hafa teflt kotru um fé til forna[8], en þó á Konungs-Skuggsjá eflaust ekki við kotru, þar sem hún varar við teníngakasti[9], heldur teníngakast um fé, tafllaust, enda varar hún á einum stað bæði við tafli og »kasti um viðlögur«[10]. Slíkt var kallað að dufla og kastið sjálft dufl; þótti ills viti að fást við það, eða vera duflari, enda segir málshátturinn: Drykkjurum fást ráð, en duflurum ekki (G. J.) Það eru líka til fáeinir málshættir, sem eiga beinlínis við kotru, og þekki eg þessa:

Hann er kóngur í kotru og kortspilum (G. J.)

Kotra og kanna

---

[1] Úr einhverju handriti Bmfj. Eg man ekki hverju. [2] J. Ól. sleppir seinna Eiríknum í Hrs. AM. 413, fol.; bls. 126. [3] Með rúnastöfum. Sama heim. [4] Þjóðs. I; bls. 449. [5] Þjóðs. I; bls. 625[a].

[6] Skýríngar yfir fornyrði lögbókar. Rkv. 1854; bls. 179—80. [7] Alþingisbókin 1681; núm. 14. [8] Á 17. öld hefir líka verið lagt undir í kotru og sést það á Kvæðum Stefáns Ólafssonar II Kmh. 1886: bls. 112. Þar tapar Eyvör, sem séra Stefán orti mest til, hvolpi í kotru. [9] »Þú skalt varast teningakast um silfr, pútnahús« o. s. frv. Kon. Sk. Chra. 1848; bls. 80. »Þat er og siðgæði at flýja tenningakast« o. s. frv. s. b.: bls. 92. [10] »Enn eru þeir hlutir, er þú skalt svá flýja ok varask sem fjándann sjálfan, þat er drykkja ok tafl, og portkonur ok þrætur ok kast um viðlögur, þvíat af þessum grundvöllum timbrask enar mestu höfuðúgæfur, og fáir einir munu lengi lastalausir eða glœpa ef eigi varask þessa hluti«. Bls. 7.

a Sbr. Hrs. Bmfj. 667, 8vo; bls. 148.

gjöra margan fátækan manna (J. Ól.)
Laung er von í kotru (G. J.)
Nú vill ei upp nema dauðinn (G. J.)
Ýmsir eiga í henni kotru (J. Ól.)[1]

Þá er að lýsa kotrutafli eins og það er teflt nú, og set eg fyrst svo lítinn uppdrátt af taflborðinu, máli mínu til skýringar.




Uppdráttur þessi[2] sýnir kotruborð opnað til fulls eða kotrutafl. Því er skipt í jafnstóra fleti. Á flatabrúnirnar eru negldir eða límdir listar, öllum meginn og mynda þeir umgerð um fletina. Reitirnir eru málaðir á fletina, eins og sýnt er á myndinni, en ekki eru þeir eins lagaðir á öllum kotruborðum. Nú eru fletirnir teingdir saman með hjörum á þverlistunum og má þá leggja þá saman. Það er ávalt gjört þegar ekki er teflt, og er þá kotruborðið eingu líkara en lágum og umfángsmiklum smákassa.

Í holinu milli listanna og flatanna eru teníngar þeir og töflur geymdar, sem taflið er leikið með. Stundum eru mörg taflborð skeytt saman. Opt er t. d. málað skáktafl og mylnutafl, annað á botninn en hitt á lokið, á kotrutaflskassanum[3].

Kotra er tefld með 2 teníngum og 30 töflum[4], krínglóttum[5]. Teníngarnir eru venjulegir teníngar með 6 flötum og augum á hverjum fleti, en augna-

---

[1] Málshættir þessir munu sjaldan vera hafðir um höndum þessar mundir, en það er ekki ástæða til að efa að þeir hafi verið í hvers manns munni áður. Sá einasti er t. d. í bréfkafla með hönd Árna Magnússonar, sem liggur í orðabók Jóns Ólafssonar I; bls. 93. [2] J. Ól. hefir mynd af kotruborði undir skák. Það er alveg eins og enn í dag. [3] Sbr. Sk. um Forngripas. II, nr. 427.

[4] Hvergi hefi eg orðið var við, að kotra væri tefld með 12 töflum, eins og drepið er á í s. riti I; bls. 36. [5] Töflurnar eru annaðhvort úr tré, beini eða tönn, teníngarnir úr beini eða tönn, taflborðið sjálft úr tré. Venjulega eru töflurnar kríngum þumlúng að þvermáli, en þó er getið um kotrutöflur, sem eru 3 þumlúngar að þvermáli. Sk. um Forngripas. I, nr. 54, 75.

talan eru sex lægstu tölustafirnir: 1, 2, 3, 4, 5, 6[1]. Töflurnar eru mis-litar, 15 t. d. svartar, hvítar eða rauðar[2].

Reitirnir eru 24, 12 hvorum meginn á taflinu opnu og 6 hvorum meginn í hvoru taflborði, eins og sýnt er á myndinni[3]. Reitirnir eru náttúr-lega öðruvísi litir en álagið (grunnurinn), t. d. svartir á gulu. Þeir eru ýmislega lagaðir, stundum kringlóttir, stundum aptur blaðmyndaðir eða þri-strendir, eins og á myndinni[4]. Milli reitaraðanna er aflangt bil eptir endi-löngu taflinu, öðruvísi litt en reitirnir. Þar er teníngunum kastað[5].

Í taflbyrjun situr sinn taflmaður hvorum meginn við taflið. Eg kalla þá A og B til hægri verka. hvor þeirra hefir 15 töflur til umráða og allar eins litar. A setur allar sínar töflur upp á reit þann, sem er leingst til hægri handar honum, í þeirri taflborðshlið hans, sem snýr frá honum og er hún stundum kölluð heimaborð. Eg hugsa mér hann fyrir neðan myndina og læt hann setja þær upp á *a*. B fer eins að. Hann setur sín töflur upp á 1. Svo kastar hvor sínum teníngi, hvor í sínu borði. Sá sem fær fyr minna kast leikur fyrst. Kast með báðum teníngunum segir til hver leikurinn er, eða hvernig á að leika töflunum. Augnatala sú, sem kemur upp á teníng-unum, er kölluð ás, daus eða dís, treia, kotra, fimm eða sex[6] eptir því hvort 1, 2, 3, 4, 5 eða 6 koma upp. Ef sama augnatalan kemur upp á báðum teníngunum í sama kasti, eru það kölluð samvörp og heita þau ásar allir, treiur allar o. s. frv., eptir því hver talan er. Sexin öll eru líka kölluð tólfin[7]. Sá sem fær samvörp verður að leika tölu þeirri sem upp

---

[1] Á Forngripasafninu í Reykjavík er til svartur steinteníngur, alt öðruvísi en venjulegir teníngar. Hann hefir sjálfsagt heldur aldrei verið hafður við töfl. Sigurður málari getur uppá að hann sé lukkuteníngur eða töfrateníngur. Hann er með 24 flötum. Tölusetníngin er öðruvisi en vant er og auk þess eru tólf samhljóðendur á honum, 2 og 2 saman. Sk. um Forngripas. I, Kmh. 1868; bls. 74.

[2] S. rit II, nr. 427. [3] Taflborð eða bara borð er helmíngur taflsins; skilja þverlistarnir þau, þeir sem saman liggja. Hvor taflmanna eignar sér taflborð það, sem er til hægri handar honum, þegar hann situr við taflið.

[4] Séð hefi eg líka kotrutafl, þar sem eingir reitir voru málaðir, heldur voru tegldar hálftúnglslagaðar lautir inn í listana, sem lágu lángsetis, og féllu töflurnar í þær. [5] Flestir telja kastið ekki gilt, nema taflmaðurinn kasti báðum teníngunum í sínu borði. Sumir telja það aptur gilt, þótt annar teníngurinn eða báðir velti yfir í borð hins taflsmannsins. Ef annar teníngurinn staðnæmist á röð eða lendir upp á töflu, þá verður að kasta honum aptur, en þó er kastið á hinum teníngnum gilt, ef það hefir farið að feldu. [6] B. H. nefnir í orðabók sinni ás, daus, treyu, kotru, sett eða sétt á teníngi, en eg hefi aldrei heyrt 6 augu á einum teníngi nefnd nokkru sérstöku nafni. Þegar tvö lægstu augun koma upp á teníngunum í einu, er venjulega sagt að þar sé ás og daus en stundum, að þarna sé hún Ásdís. [7] B. H. nefnir líka tólfin, en í Flateyarbók II; bls. 174 eru þau nefnd »sex tuo«, þar sem Ólafur konúngur helgi

kom fjórum sinnum, ef hann getur. J. Ol. segir að sumir kalli það ellefin, þegar 6 kemur upp á öðrum teníngnum en 5 á hinum.

Þannig er leikið að ein tafla eða tvær töflur eru færðar um eins marga reiti og augnatala sú bendir á, sem kemur upp í hverju kasti, og er talið frá reitnum, sem taflan stóð á. Ef A fær t. d. kotru og daus við fyrsta kastið, þá flytur hann tvær töflur, aðra til *c* en hina til *e*. Hann getur líka náttúrlega flutt eina til *g*, en optast er vant að fara út með tvær töflur fyrst, ef þess er kostur, en það er ávalt, nema þegar tólfin koma upp (í fyrsta kasti). Þá er ekki mögulegt að færa nema eina töflu. Sumir segja aptur að þegar svo ber undir, megi fara út með 4 töflur, og leika þeim öllum á 6. reit frá uppsetníngarreitnum. Það fylgir sögunni, að mótstöðumaðurinn megi drepa þær, eða rífa þær upp, eigi hann kost á því, áður en hinn hefir dreift úr þeim. Þetta kvað þó ekki vera íslenzk regla.

Þegar A hefir kastað og leikið, leikur B. Ekkert er á móti því, að taflmaður leiki á reiti þá, sem hann á töflu fyrir á[1], en ekki má hann láta tvær eða fleiri töflur standa á reit eða reita, fyr en á yzta reit í þeirri taflhliðinni sem snýr frá honum. Þó er honum það því að eins heimilt, að hann sé kominn með 5 töflur út af uppsetníngarreitnum eða kominn út með 5 töflur. A má því reita eða koma sér upp reit á *l*. Aptur er honum heimilt að reita hvar sem hann vill hinum meginn á taflinu, með sama skilmála og getið hefir verið um. Töflurnar gánga nefnilega frá A's hlið yfir í B's hlið, frá *l*—1[2] og svo áfram að 12. Gángsvið þeirra er því frá *a* til 12 og frá 1 til *l*, B's töflur. Hvorugur má leika á þann reit, sem mótstöðumaður hans á reit á, nema honum sé ómögulegt að komast yfir reitaröð hans. Þá má hann rífa upp fyrir honum, drepa reitaðar töflur, þar sem hann getur. Ef B á t. d. reiti á 1, *l*, *k*, *j*, *i* og *h*, þá getur A ekki komizt yfir, ekki einu sinni þótt hann fái 6 upp á teníngunum, má hann þá rífa upp, eptir því sem kast hans segir til. Það þarf því að gjalda varhuga við, að reita á 6 reiti, hvern við annan[3]. Þegar mótstöðumaður-

og Ólafur Svíakonúngur eru að kasta um, hvor þeirra skuli hafa yfirráð yfir Hising. Af tólfunum í kotru er það dregið að tólfunum kasti, sem opt er sagt, þegar eitthvað keyrir fram úr hófi. J. Ól. segir líka að þeir sem verða fyrir einhverri slimpilukku segi: nú fékk eg tólfin á teníngana, eða nú fékk eg tólfin.

[1] En náttúrlega verður hann að flytja töflu þá sem hann er að leika leingra áfram ef hann má ekki reita á reitnum, fyrir einhverra hluta sakir. Sumir segja, að þeir pissi í farið sitt, sem leika töflu áfram og setja svo aðra töflu á sama reit, í sama skipti, en Sigurður L. Jónasson hefir heyrt það kallað að míga í skó sinn. [2] Reitir þeir sem næstir eru uppsetníngarreitunum eru venjulega kallaðir skitnes. [3] Það er algeingast, sem segir í meginmálinu um upprifníngu 6 reita í röð, en það er líka til önnur regla sem er æfagömul á Íslandi. Eptir henni má ekki rífa upp 6 reiti í röð, heldur verður mótstöðumaðurinn að vera leiklaus, meðan þeim er ekki haggað, ef hann á þá ekki töflur, fyrir framan þessa 6 reiti, því yfir þá er ómögulegt að komast. Þetta er kallað

inn á aptur að eins eina töflu á reit, þá má A færa sína töflu á þann re og drepa hina, ef svo vill verkast. Verður B að koma henni[1] aptur inn í heimaborð sitt, en þá er uppsetníngarreiturinn talinn með. Ef hann fær t. d. kotru og sex, eptir að tvær töflur hafa verið drepnar fyrir honum, þá verður hann að koma þeim inn á 4 og 6. Annars er hann leiklaus, þángað til hann hefir komið þeim inn. En þess er opt lángt að bíða, því ekki má hann setja dauðar töflur inn á þá reiti, sem hann á töflu fyrir á eða mótstöðumaður hans reiti, nema hann eigi fleiri töflur dauðar en reitir þeir eru, sem hann getur komizt inn á. Þá má hann rífa upp reiti mótteflarans, eptir því sem köst hans segja til. Ef svo stendur á töfluskipan annarshvors, að hann getur ekki leikið eptir kasti því, sem hann hefir feingið, þá er hann leiklaus í það skipti.

Svona geingur taflið með drápum og töfum. Það er mikið eða mest komið undir því að tefja hvor fyrir öðrum, en góð ráð eru til þess að eiga marga reiti í borði hins, svo honum veiti erviðara að komast inn, ef drepið er fyrir honum. Þó verður opt að hafa hemil á drápinu, svo að mótteflarinn geti ekki rifið upp. Það þykir líka farsælt í kotru, að ná kverkatakinu, eða ná yzta reit í heimaborði mótstöðumannsins og reit þeim sem er næstur við hann. Ef A á reit á 6 og 7, þá hefir hann kverkatakið[2].

Loksins er það snjallræði að koma sér upp reitaröð, yzt í þeirri taflborðshlið sinni, sem að manni snýr, eða úttektarborðinu, með öðrum orðum, því þá er vanséð að mótteflarinn komist yfir nema endur og eins, en ekki mega reitirnir vera 6, því þá er mótstöðumanninum ómögulegt að komast yfir, og má því rífa upp.

Með þessu móti eru mest líkindi til að geta gjört mótstöðumann sinn jan[3] eða janað hann, og er það mestur vinníngur í kotru, en þá er annar jan, þegar hann á fleiri töflur dauðar en honum er mögulegt að koma inn. Við jan endar taflið, eins og eðlilegt er, og eins við úttekt, sem er venjulegasti vinníngurinn.

J. Ól. talar um »janstork«[4] í forkæríngi og kotru, og er það eflaust sama sem jan, en ekki getur hann um, hvernig orðinu hefir verið komið fyrir, hvort sagt hefir verið »að verða janstork« eða hvað? Annars skil eg ekki Jón hér, og ekki þeir sem eg hefi borið undið klausu hans. Hann er fyrst eitthvað að tala um að »janstork« sé kallað, þegar annarhvor komist ekki í hornið, en hinn komist út[5].

að fortaka. Sigurður L. Jónasson, sem hefir bent mér á reglu þessa, segir mér að séra Árni Helgason i Görðum hafi ávalt teflt á þenna hátt, en hann var kotrumaður mikill. [1] Eða »þeim« ef fleiri töflur en ein eru dauðar í einu. [2] Sigurður L. Jónasson. [3] Á orðið jan hef eg fyrst rekið mig í Kvæðum Eggerts Ólafssonar; bls. 132. Annars er jan líka til í sumum spilum t. d. marias. [4] »storkur«. [5] »cum quis non tantum vincula tabularum in ludo forkæring vel kotra assequitur, collusore altero feliciter evadante«.

þegar allar töflur manns eru komnar í úttektarborðið, t. d. A's töflur á reitina 7—12, þá má fara að taka út, en líka má leika, ef vill, meðan þess er kostur. Úttektin er fólgin í því, að taka töflur sínar út úr borðinu, og eru þær, sem út eru teknar, úr sögunni. Gott er að fá samvörp við úttekt, því þá má taka 4 töflur út. þegar tekið er út, er talið eins og þegar töflum er komið inn. Ef A á reiti á 9, 10, 11, 12 og fær fimm og treiu, þá verður hann að taka fimmið út af 9, en sjálfráður er hann, hvort hann leikur treiunni til 12 eða tekur hana út úr 10. Yfir höfuð að tala, er sá, sem fær hærri köst en hann getur leikið, meðan stendur á úttekt, skyldur að taka aptan af reitaröð sinni, og verður það opt til þess, að mótstöðumaður hans getur drepið fyrir honum. þegar svo ber undir, verður sá sem á töfluna að setja hana inn í heimaborð sitt, eins og aðrar dauðar töflur, og má ekki halda áfram með úttektina, fyr en hann hefir komið henni aptur í úttektarborð sitt.

Jan og úttekt eru aðalvinníngarnir í kotru, en auk þess eru til aukavinníngar og eru þeir 4: meistari, stutti múkur, lángi múkur og lángihryggur eða rasslangur, sem sumir nefna lángskuð. Meistari er fólginn í því, að geta sett allar töflur upp í hinum yzta reit, sem þær geta verið á. Ef allar töflur A's standa á 12, þá hefir hann feingið meistara. Ef hann hefir sínar 5 töflur á hverjum reitanna 10, 11 og 12, þá hefir hann feingið stutta múk. Ef hann hefir komið sínum þrem töflum á hvern reitinn 8, 9, 10, 11 og 12, þá hefir hann feingið lánga múk. Lángi hryggur eru 5 töflur á hverjum reitanna 7, 8, 9, 10 og 11. Hann kemur valla fyrir, nema mótstöðumaðurinn eigi reit á 12; leitast maður því við eptir megni, að ná þessum reit frá honum og spila þá heldur upp á múk.

Betra er en ekki að fá múkana hálfa, en það er ef maður getur komið öllum töflunum í ákveðið horf, með annari augnatölunni, sem kemur upp. B spilar t. d. upp á stutta múk og hefir 5 töflur á 12, 5 á 11, 4 á 10 og 1 á 7. Nú kastar hann og fær t. d. sex og treiu. Hann leikur að eins treiunni og fær hálfan múk[1].

[1] Sumir leyfa þó að kasta öðrum teníngnum þegar svona stendur á. Ef kast það kemur upp, sem á þarf að halda, er múkurinn heill.

Hvergi mun kotra vera jafntíð meðal Islendínga og íslenzkra stúdenta í Kaupmannahöfn, á sumrin, en ekki er sú tízka gömul enn, og verður það ef til vill ekki. Við höfum þann sið, að sá sem er kominn að því að fá múk, megi kasta að eins öðrum teníngnum og látum múkinn vera heilan, ef hann fæst með kastinu. En ef það auðnast ekki, þá leyfum við að kasta hinum teníngnum og látum múkinn vera hálfan, ef hann fæst með því kasti. En þetta er of mikil ívilnun fyrir múkmanninn. Réttast væri eflaust að gefa honum kost á að kasta annaðhvort báðum teníngunum eða þá öðrum teníngnum að eins einusinni, og láta múkinn þá vera heilan, ef alt geingi vel.

Sumir telja litla meistara með múkum. Það er litli meistari þeg 8 töflur eru á yzta reitnum, sem töflurnar geta komizt á, en 7 á þe næsta. Aptur eru þeir flestir sem ekki taka þenna litla meistara[1] gilda

Það eykur hvern vinníng, ef mótteflandinn á dauða töflu, þegar vir íngurinn fæst; er þá kallað að mótteflarinn verði mar[2] á úttekt, mú um o. s. frv.

Þegar A hefir tekið allar töflur sínar út, en B er ekki farinn að ta út, þá má B hafa 5, 7 og 13[3] eptirköst, eptir því hvort hann ætlar að reyna til að fá lánga múk, stutta múk eða meistara, og eru þeir góðir gildir ef hann fær þá með því móti. Einstaka menn leyfa þó eingin ept köst, og eru múkar mjög sjaldgæfir með því móti.

Miklu er frægra að fá aukavinníngana en úttekt. Meistari er fremst á blaði. Þá stutti múkur. Þá lángi múkur. Þá lángi hryggur lægstu lopti.

Eg hefi vitað vinnínginn talinn í tölum á þenna hátt. Einföld útte 2[4], lángi hryggur 3, lángi múkur 5, stutti múkur 7, meistari 13, jan 1 Fyrir mar bætast 2 við hvorn vinníng sem er. Fyrir mar á stut múk eru t. d. 9. Fyrir hálfa múka er helmíngurinn af því, sem er fyr múkinn.

Þegar annar hefir tekið allar sínar töflur út og útséð er um að hi fái múk er taflinu lokið. Sumir[5] leyfa þeim, sem seinna lék í taflbyrjun, leika einu kasti, eptir að hinn hefir tekið út, og láta vera jafntefli, ef verður jafnt. Þessi regla kemur einkum til greina við úttekt, því opt annar að eins eptir 2 eða 4 töflur, þegar hinn er kominn út. Regla þe kemur vel heim við það, að leyfa eingin eptirköst.

Ef fleiri kotrur en ein eru tefldar hver eptir aðra, þá á sá að kas fyrst næst, sem unnið hefir úttekt eða janað hinn. Múkar koma þá ek til greina.

J. Ól. getur um kotru, en alt sem hann segir um hana er á ríngulre svo lítið er á því að græða. Fyrst getur hann um kotúngatafl segir að það sé sama sem kotra; dragi hún nafn af því, að hún sé leik með 4 riddurum, eða af því hún sé ferstrend. Annarstaðar segir Jón að kotúngatafli standi 4 riddarar móti öllum »peðjunum«. Nú fara eing sögur af því að kotra hafi verið leikin með riddurum eða peðum og leik mér því grunur á, að hér sé eitthvað bogið. Í annan stað nefnir Jón kven kotru sem sumir kalli kotru. Hann lýsir henni ekki. Í þriðja lagi nefnir J

[1] Aðalmeistarinn er stundum kallaður stóri meistari gagnvart þessum litla mei ara. [2] eða mor, en ekki hefi eg heyrt það orð. [3] Þess tölur eru þó líklega misjafnar í ýmsum sveitum.

[4] Þar sem úttektin er svona vinníngslág í samanburði við múkana, er sjaldan fa að taka út, fyr en útséð er um, að ómögulegt sé að fá múk. [5] Sigurð L. Jónasson.

alkotru. Eg hefi ekki heyrt getið um neitt af þessum nöfnum annarsstaðar en hér og get ekkert um þau sagt. Loksins segir J. Ól. að sumir kalli kotru eingelskt ticktack[1] og jafnvel forkæríng. Nokkru seinna segir Jón að kotrutöfl séu: 1. að elta stelpur, 2. ofanfellíngartafl[2], 3. forkæríngur, 4. Goðatafi, 5. Ólafs kóngs tafl[3]. Þessa skiptíngu get eg alls ekki fallizt á, því kotra, eins og hún er tefld nú, og hefir að öllum líkindum verið tefld þá, er alveg ólík t. d. goðatafli. Eg minnist því á þessi töfl út af fyrir sig og læt þau ekki vera kotrutegundir.

Það er þó eitt af töflum þeim, sem Jón Ol vísar til sætis undir kotru, sem á þar heima að réttu lagi, en það er piprjállinn, því hann er ekki annað en breytt kotra. Munurinn kemur fram við samvörpin. Þegar tólfin koma upp í kotru, er sexi leikið fjórum sinnum, en í piprjál er sexunum leikið fyrst, svo fimmunum, svo kotrunum, svo treiunum, svo dausunum og seinast ásunum. Þegar ásarnir koma aptur upp, er þeim leikið fyrst, svo dausunum, svo treiunum, svo kotrunum, svo fimmunum, svo sexunum. Þegar kotrur, treiur eða dausar koma upp, er þeim leikið niður á við, eða ásunum seinast, en þegar fimmin koma upp, þá er þeim leikið upp á við, eða að eins fimmunum og sexunum[4]. Þetta er allur munurinn.

Piprjáll var líka kallaður koprjáll, og er þá auðskilið hvernig »kopar í alin« er komið inn í taflvísu séra Hallgríms Péturssonar[5] Séra Jón Íngvaldsson vill láta að pípóla (»leika, dansa eða spila«) vera sama sem piprjóla og eiga skylt við piprjál[6].

**Ofanfellíng** eða ofanfellíngartafl[7]. Tafl þettta er leikið í kotruborði og leika tveir. Hvor fyrir sig setur tvær töflur á hvern reit í taflborðshlið þeirri, sem snýr frá honum, til hægri handar. Annar hefir svörtu töflurnar, en hinn hvítu töflurnar. Því næst er kastað um hver eigi að byrja. Sá, sem fær fleiri augu í einu kasti, kastar teníngunum og færir efri töflurnar á reitunum niður við hliðina á neðri töflunni, eptir því hver köst hann fær. Ef hann fær t. d. sex og daus, þá færir hann niður töflurnar í sex og daus sætunum. Ef hann fær samvörp, þá getur hann ekki flutt nema eina töflu niður, en hefir rétt til að kasta aptur, og það þó hann fái mörg samvörp, hver eptir önnur. Hinn kastar nú og fer alt á sömu leið, og svo koll af kolli. Ef kast það kemur upp, sem svarar

---

[1] Á að vera tricktack. [2] Undir »kotru« nefnir hann tafl þetta að eins »ofanfellíng«. [3] Undir »kotra« telur Jón líka piprjál, færíngartafl, dándismannstafl »etc.« undir kotrutöfl, en undir »tafl« telur hann þau sérstök töfl. Yfir höfuð vill Jón láta öll töfl heita kotru, sem leikin eru með töflum og teníngum (sbr. Ferðabók Egg. Ól.; bls. 50), en þá getur t. d. Ólafs kóngs tafl ekki verið kotrutafl, því það er leikið teníngalaust, eins og áður er sagt.

[4] *Sigurður L. Jónasson hefir kent mér piprjál.* [5] Sbr. Viðaukann.

[6] *Blað frá J. Árn.* [7] *J. Ól.*

til reitanna, sem búið er færa efri töfluna ofan af, þá verður það k
ónýtt. Þegar annarhvor eða báðir hafa fært allar töflurnar ofan, flytja þ
þær upp á neðri töfluna aptur, þar sem þær voru fyrst, eptir því sem köst
segja til. Þegar allar töflurnar eru komnar upp aptur, er farið að ta
þær út, og fer það fram alveg eins og í kotru. Sá vinnur sem er fyrri
taka allar töflur sínar út.

J. Ól. drepur að eins á ofanfellíngartafl en lýsir því ekki. Sigurð
málari drepur líka á það[1]. Hallgr. Pét. nefnir það.

**Að elta stelpu.** Tafl þetta er líka leikið í kotruborði. Tveir tefl
Annar hefir til umráða 6 hvítar töflur en hinn 6 svartar, og er þeim skip
eins og í ofanfellíngartafli, nema hér stendur að eins ein á hverju
reit. Hér er líka kastað um það hvor eigi að byrja, og er það sá, sem f
hærri augnatölu í einu kasti. Hann kastar nú. Ef hann fær upp sex,
flytur hann tvær yztu töflurnar fram fyrir hinar til vinstri, og eins ef ha
fær samvörp, nema tólfin, því þeim fylgir réttur til að flytja fjórar. A
þess má hann kasta aptur eptir öll samvörp. Ef hann fær ás, þá leik
hann einni. Hin köstin eru öll ónýt. Því næst kastar hinn, og fer alt
sömu leið, og svo koll af kolli. Þegar fremsta tafla annarshvors er kom
út á endann á taflhelmíngnum, þá flytur hann öptustu töflu(r) sína(r) y
þvert taflborðið, á næsta reit í hinum taflhelmíngnum, eptir því sem köst
segja til. Ef töflur annarshvors standa t. d. á reitunum *g*—*l* í vinst
kotru-taflborðinu (sjá myndina bls. 309) og hann fær sex og ás, þá flyt
hann töflurnar af *g*, *h* og *i* á 1. 2 og 3 o. s. frv. Svona eltir hvor anna
Þegar töflur annars standa á reitum þeim, sem hinn þarf að flytja töfl
sínar á, þá drepur hann þær. Ef töflur annars standa t. d. á 1—6,
töflur hins á 7—12 og sá fyrri fær tólfin, þá flytur hann töflurnar af 1—
á 7—10, en tekur töflur mótstöðumannsins á burt, og eru þær úr sögunn
Þegar annarhvor á að eins eina töflu eptir, breytir hún um gáng sin
Hún geingur að eins í hornin og er kölluð hornaskella. Ef hornaskel
stendur t. d. á 4, og sá sem hefir ráð yfir henni fær sex og ás, þá leik
hann henni á 6, 7 og 12. Það segir sig sjálft, að hornaskellan drepur
eins töflur þær, sem standa í hornunum. Ekki má heldur drepa hana
hún stendur á milli taflna þeirra, sem mótstöðumaðurinn stýrir. Ef ann
hefir t. d. töflur á 5, 6 og 7, en hinn hornaskellu á 1, og sá seinni fær á
þá leikur hann henni á sex, og drepur töflu þá sem stóð þar um leið.
hinn fær nú líka ás, þá verður hann að leika töflunni af 5 á 8 o. s. fr
Aptur er hornaskellan réttdræp, þegar hún stendur fyrir framan töflur mó
stöðumannsins. Seinast getur farið svo, að báðir hafi mist allar töfl
sínar nema hornaskellurnar, og verður þá opt lángur eltíngaleikur m
þeim, þángað til önnur getur drepið hina. Við það endar taflið.

---

[1] Skýrsla um Forngripasafn I. Kmh. 1868; bls. 38.

J. Ól. nefnir að elta stelpur, og er það alt og sumt sem eg hefi séð um tafl þetta, nema hornaskella er nefnd í Norðanfara[1]. Þess er getið í Annaler for nordisk Oldkyndighed[2], að viss tafla í vissu íslenzku teníngatafli sé kölluð hornaskækja. Eg þekki ekki nafnið, en þykir líklegast að hér sé átt við hornaskellu. Hallgr. Pét. minnist á tafl þetta í taflvísu sinni.

Páll Bjarnarson segir mér, að þar sem hann þekki til, sé teflt um einhverja nafngreinda stúlku, og sitji sá uppi með hana, sem geti drepið allar töflur hins. Af þessu er nafnið eflaust dregið.

Goðatafl[3]. Svo margir geta tekið þátt í taflinu sem vilja, en bezt fer á að taflmenn séu 3—5. Ekki þarf neitt sérstakt taflborð við tafl þetta, og má leika það á óvöldu borði. Aptur þarf teninga og svo og svo margar töflur, eða þá glerbrot, eða eitthvað þess háttar, og skipta taflmenn þeim jafnt á milli sín. Bezt fer á því, að hver hafi svo sem 20 töflur[4].

Taflmennirnir kasta fyrst teníngum um það hver eigi að byrja að ráða goðann og er venjan að sá byrji, sem fær hæsta (augna)tölu í 3 köstum. Þá er farið að ráða goðann og fer það þannig fram: Taflmaðurinn hefir yfir þulu og kastar teníngunum við hverja línu í þulunni. Þulan er svona:

Heima[5] ræð eg[6] goða minn,
bæði vel og leingi;
[Eg skal gefa þér[7] súrt[8] smér og reingi[9]
[ef þú unir[10] hjá mér leingi,
[í góðu geingi,[11]
og kasta eg nú[12] fyrir þig[13].

Ef kotra kemur upp á öðrumhvorum teníngnum í þessum 6 köstum, þa

---

[1] XIII; bls. 49. [2] 1838—39; bls. 153—54.

[3] Nafn þetta er opt stytt í goði. [4] Konrad Maurer segir að goðatafl sé leikið með 32 töflum (Germania XIV. 1869; bls. 108). Eg hefi optast vitað goðatafl leikið í kotruborði og með kotrutöflunum. J. Ól. drepur á það, að töflurnar séu hvítar og svartar, og segir að ein hvít gildi jafnmikið og tvær svartar. Þá þarf ekki eins margar töflur. [5] Heim, J. Yngv.

[6] J. Yngv. bætir inn í: þig. [7] honum, J. Ól. [8] eða: gef eg honum súrt J. Ól. [9] Hér hættir J. Ól. [10] og un þú J. Yngv.

[11] Maurer sleppir línu þessari (German.). [12] svo Frú Thorfhildur Hólm í Elding; bls. 639. [13] frá [Og hér muntu vilja vera J. Yngv. Aptan við línu þessa bætir Maurer:

er það satt!

*Lína þessi stendur ekki í neinu sambandi við hinn hluta formálans og þykir mér því líklegt, að hún heyri honum ekki til.* Aptur er vel mögulegt, að Maurer hafi heyrt orð þessi sögð í goðatafli, rétt á eptir formálanum, því það er ekkert eðlilegra en að sá, sem er að leggja drögur fyrir goðann segi: Er það satt (að þú viljir ekki koma til mín)? ef hann kemst ekki í goðatignina.

hefir taflmaðurinn unnið fyrir gíg, og er ekki fremur goði eptir en áður, enda hættir hann við þuluna jafnskjótt og hann fær kotru, en það getur vel borið að þegar í fyrsta kasti. Aptur er hann goði, ef aldrei hefir komið upp hjá honum kotra, nema þær séu þá allar. Ef sá fyrsti fær ekki goðatignina, þá byrjar sá næsti á sömu leið o. s. frv., sólarsinnis, þángað til einhver verður goði. Stundum verður einginn goði fyr en allir hafa lagt tvisvar eða optar drögur fyrir goðatignina.

Þegar einhver er orðinn goði, kastar sá teníngunum sem situr vinstramegin við hann. Ef sá fær ás, sex eða samvörp, þá vinnur hann af goðanum eina töflu fyrir ás, 2 fyrir sex og öll samvörp nema tólfin, því fyrir þau fær hann 4 töflur. Auk þess hefir hann rétt til að kasta aptur eptir hver samvörp, og eru eptirköst þessi jafnréttmæt og fyrsta kastið. Ef taflmaðurinn fær t. a. m. fyrst kotrur allar, svo ása alla, en sex og ás í þriðja kastinu, þá vinnur hann 7 töflur af goðanum. Því næst kastar sá, sem er næstur þeim sem seinast kastaði, og svo koll af kolli og fer alt á sömu leið. Þegar aptur er komið að goðanum, kastar hann eins og hinir, en segir áður: goðagjöldin öll, og eru hinir þá skyldir að fá honum hver sína töflu. Ef goðinn gleymir einhvern tíma að heimta goðagjöldin, þá hefir hann ekki rétt til að heimta þau eptir það, en samt heldur hann áfram að vera goði, þángað til kotra kemur upp á öðrum teníngnum hjá honum. Þá ræður sá næsti goðann, á sama hátt og áður er sagt; en ef einginn verður goði, áður en komið er aptur að gamla goðanum, þá þarf hann ekki að hafa yfir þuluna, heldur segir hann að eins: Hjerna ertu góður(inn) og verður aptur goði, ef ekki kemur upp kotra. Þess má geta að goðaráðningaköstin hafa eingan beinan vinníng í för með sér, eins og hin köstin.

Svona geingur taflið þángað til einhver verður uppiskroppa með fé. Hann er þá kominn á hreppinn og er honum eingin uppreisnarvon úr því. Hinir taflmennirnir kasta um það, hver eigi að sitja uppi með niðursetnínginn, og fær sá hann á heimili sitt, sem fær hæsta tölu á teníngana í þremur köstum. Leikurinn heldur nú áfram eins og áður, en þó fær niðursetníngurinn ekki að hafa nein fjárráð. Húsbóndi hans tekur við öllu fé, sem honum kann að áskotnast, en er aptur skyldur að borga fyrir hann allar kvaðir bæði goðagjöld og annað. Hann heimtar líka goðagjöld, þegar niðursetníngurinn er goði, um leið og hann (niðurs.) kastar. Það getur komið fyrir að húsbóndi niðursetníngs verði sjálfur niðursetníngur með tímanum, og kasta þá hinir um þá í einu lagi. Optast vinnur sá sem hefir niðursetníng, einn eða fleiri, á heimili sínu, og kveður því meira að þeim í goðatafli en venja er til. Seinast nær einhver taflmanna öllum töflunum og er þá taflið á enda.

Lýsíng J. Ól. á goðatafli er fremur ógreinileg, en þó mjög svipuð þessari. Aðalmunurinn er sá, að Jón segir að sá, sem verður uppiskroppa með

fá, sé úr taflinu. Hann þekkir því ekki niðursetusiðinn. Auk þess segir Jón að goðinn sé svo lítið mannslíkan eða þá einhver hlutur í staðinn fyrir það, og gángi hann á milli þeirra, sem eru nefndir goðar í lýsíngunni hér að ofan. Jón kallar þá því ekki goða. Loksins segir Jón að goðatafl sé einstökum sinnum kallað kotra.

Séra Hallgr. Pét. segist kunna að tefla »Olafs-tafl og goða«. Mér þykir líklegt að »goða« sé hér eignarfall og eigi við tafl eins og «Ólafs« en ekki þolfall af goði.

Tvo málshætti þekki eg um goðatafl. J. Ól. segir að opt sé sagt: Eigi veit nær að goðakasti, kemur, þegar hleypur á snærið fyrir einhverjum að óvörum. Hinn málshátturinn er hjá G. J.: Ætíð verður leppurinn að fylgja goðanum eða leppurinn fylgir goðanum. Mér þykir líklegt að leppur bendi hér til niðursetanna.

Þá hef eg farið nokkrum orðum um teníngatöfl þau, sem enn eru við lýði og eg þekki af eigin reynslu, en hin eru líka nokkur sem eru týnd og ókunn að mestu leyti, en eg skal tína til alt sem mér er kunnugt um þau.

**Dánumannstafl** eða dándimannstafl. J. Ól. segir að tafl þetta dragi nafn af því, hvað það sé teflt alvarlega. Það sé teflt með þremur teníngum, og sé fátíðara en hin töflin, sem hann getur um. Þegar sexin öll komi upp, sé töflunum leikið um 18 sinnum 6 reiti. Þegar ás, daus og treia komi upp, sé það kallað hælúngi; daus, treia og kotra, fjósamaður; treia, kotra og fimm, litli dánumaður, en kotra, fimm og sex stóri dánumaður. Svo lítið talar Jón meira um tafl þetta, en það er hvorttveggja, að ekkert er á því að græða um gánginn í taflinu, og er svo það mjög ógreinilegt. Eg sleppi því þess vegna.

Finnur biskup Jónsson drepur 'á dánumannstafl í orðabókarbroti sínu[1] en ekkert að marki. Dánumaður er nefndur í taflvísu Hallgríms Péturssonar og þýðir eflaust sama þar og dánumannstafl.

Loksins má geta þess að orðtækið: Nú kastar átján yfir[2] (J. Ól., G. J.) er dregið af tafli þessu.

**Forkæríngur.** J. Ol. nefnir forkæríng, en lýsir honum ekki að marki Hann segir að það sé allvandasamt tafl og mjög títt. Nafnið sé dregið af danska orðinu »Forkjæring«[3], af því töflunum er leikið öfugt. Taflið kvað samt vera íslenzkt, þótt nafnið sé nokkuð dönskulegt, og Egg. Ól. tekur það beinlínis fram, að forkæríngur þekkist ekki í útlöndum[4]. Um janstork í forkæríngi er áður getið[5]. Í Sigurhrósshugvekjum séra Jóns Jónssonar,

---

[1] Gamle kgl. Saml. 2395. 4to.

[2] Sbr.
»þótt nú taki átján yfir
umferðin hans«
í *Grýlukvæði* séra Stefáns Ólafssonar. Kvæði I. Kmh. 1885; bls. 230.

[3] Sbr. *»forkert«*.

[4] Reise igjennem Island; bls. 50.

[5] bls. 312.

## 8. GREIN.

### SPIL.

Það er sannast að segja, að spil og öll spilamennska eru lángt frá því að vera íslenzk að uppruna, en þó þykir mér réttara að gánga ekki þegjandi fram hjá þeim, því þau eru skemtan sú, sem er höfð mest um hönd á Íslandi á vorum dögum, þótt skömm sé frá að segja. Sum spil hafa líka tíðkast svo leingi á Íslandi, að það er kominn alveg þjóðlegur blær á þau, og auk þess kvað einstaka spil vera innlent.

Hvergi hefi eg séð þess getið, hvenær spil voru fyrst flutt til Íslands. Eg veit ekki til, að fyr sé getið um þau í prentuðum bókum, en riti Anderson's um Ísland[1], en hann drepur að eins á þau. Í ferðabók Eggerts og Bjarna[2] er getið svolítið greinilegar um þau, og er ekki annað að sjá í því sem þar segir, en að þau hafi þá verið alþekt. Uno v. Troil[3] og Eggers[4] geta líka um spil í ritum sínum um Ísland, en þeir hafa tekið það beinlínis eptir Eggerti Ólafssyni, svo á því er ekkert að græða. Annars er mjög óvíða getið um spil í íslenzkum ritum og þá ekki nema rétt af hendíngu[5].

Í sóknalýsíngunum er líka drepið á spil á einstaka stað, en þar eru að eins talin spil þau, sem mest eru spiluð í sókninni, þegar bezt gjörir. Víðast hafa höfundarnir aptur látið sér nægja að segja, að sóknarfólk þeirra skemti sér stundum með spilum.

Eg hefi samið kafla þenna um spilin eptir þessum drögum, en mest eptir því sem eg þekki sjálfur til.

Prentaðar bækur gefa eingar bendíngar um það, hvenær spil hafi farið að tiðkast á Íslandi. Reyndar segir Jón biskup Arason í taflvísu sinni, sem prentuð er í viðaukanum:

Til hef eg tafl með spilum,

og vill Jón Sigurðsson láta það vera regluleg spil[6], en mér þykir nokkuð snemt, að spil skuli vera farin að tíðkast á Íslandi snemma á 16. öld. Og með orðinu

---

[1] Nachrichten von Island, Grönland o. s. frv. II. útg.; bls. 153. [2] Reise igjennem Island; bls. 50. [3] Bref rörande en Resa till Island; bls. 71. [4] Philos. Schild. der Verfassung von Island; bls. 74—76. [5] Um alkort er t. d. getið í Pilti og stúlku. II. útg.; bls. 23—24, Nýársnóttunni eptir Indriða Einarsson. Akureyri, 1872; bls. 50—51 og Ljóðmælum Sigurðar Péturssonar. Rkv., 1814; bls. 219—21, 259. Á spil er líka minst í Island i det 18. Aarhundrede; bls. 235. Þar segir að alkort sé nokkurskonar »styrvolt«, sem er aldanskt spil. Þar er þess líka getið, að Pólskpas og Lomber séu í þann veginn að breiðast út á Suðurlandi, út frá kaupstöðunum. [6] Hrs. J. Sig. 95, 4to; bls. 102 en 131. bl.

sótt eða mikil veikindi, gosinn vífinn mann, drottningin óvandaða konu kóngurinn ágjarnan mann.

Þar sem hvert spil hefir sína þýðíngu, þá er hægt að fá talsverðan fróðleik með að skeyta það saman sem þessi fimm spil segja. Við hinar tvær aðferðirnar voru að eins höfð 36 spil (hrökin tekin úr) og átti þar að leggja þau á borð í vissar raðir. Grunur leikur mér á að spá þessi, sem ferð hefir verið til, sé ekki gömul á Íslandi.

Eg hefi líka orðið var við annars konar spilaspár og kann eg að lýsa tvennum. Önnur er aðferð til að vita, hvort þessi og þessi kona ann þessum og þessum kallmanni, eða þá einhver kallmaður einhverri konu og fer þannig fram.

Sá sem vill gánga til fréttar við spilin, heldur á þeim öllum á grúfu, og leggur þau svo upp í lopt á borð, hvort eptir annað, og hefir formála þenna yfir um leið, í sífellu, þángað til hjarta ásinn kemur á borðið:

Hann elskar hana[1]
af öllu hjarta,
yfir máta
ofurheitt,
harla lítið
og ekki neitt.

Ef hjartaásinn kemur í ljós, meðan verið er að segja »af öllu hjarta« — þá má gánga að því vísu, að sá sem spurt er um, unni mjög konu þeirri, sem um er að ræða. Ef ásinn kemur aptur ekki fyr en seinasta setníngin er höfð yfir, þá fer fjarri því að hann unni henni. Yfir höfuð sýna línurnar í formálanum á hverju stigi ástin er, á þann hátt sem getið er um. Þessi spá er mjög almenn þar sem eg þekki til á Íslandi, og er opt hent að henni hið mesta gaman.

Hina spána hefi eg eptir sögn Jóns stúdents Finnssonar. Ef einhver vill vita hvernig honum reiðir af, þegar hann ætlar að fara að biðja sér stúlku, þá tekur hann spil, leggur þau á borð, hvort eptir annað, og hefir yfir vissan formála, hverja línu við sitt spil, en formálinn breytist, eptir því hvort spilin, sem verða fyrir honum, eru hjarta, tígull, spaði eða lauf, því þá er tíguleg(ur), hjartanleg(ur), lygin(n) og spotzk(ur) skeytt framan við allar línurnar í formálanum, nema þá fyrstu. Formálinn er þessi:

Fyrst leggur hann af stað,
kemur hann að,
ber hann að dyrum,
kemur hún til dyra,
býður hún honum til sætis,

[1] Hún elskar hann, ef um konu er að ræða.

og hinn hafði í upphafi, en það er hægur vandi, ef hann hefir tekið úr þrettán spil[1]. J. Árn. kallar galdur þenna spilaleik.

Lítið ber annars á spilunum í munnmælum og málsháttum, þegar skilin er undan sagan um tígulkónginn í alkortinu. Þó má geta þess, að til er húsgángur um laufagosann.

Laufagosinn liggur frosinn úti;
honum tosa eg ætla inn
upp á mosasvæfilinn,

og má vera að hún bendi til einhverra munnmæla um laufagosann; er þá ekki ólíklegt að vísan lúti að púkki, því þar er laufagosinn merkisspil, eins og kunnugt er. Orðtækið »að sjá sér slag á borði« á líka eflaust rót sína að rekja til spila. Allir þekkja orðtækið: sjaldan vinnur spilamaður fyrsta spil. Eins er sagt: Það er dregið, sem drýpur, þegar dregið er f spilum, en eitt eða fleiri spil detta undan því sem af er tekið. Lokins má geta þess að opt er sagt í spilum, þegar spaða er slegið út:

spaði
sprángaðu út á hlaði
eða: Hérna er spaði

og svarar þá sá, sem hann er að spila við, eða einhver af mótstöðumönnum hans, ef margir eru í spilinu:

Spreingjum hann út á hlaði.

Allir þekkja spilin og þarf því ekki að taka fram hvað þau heita á íslenzku. Sérstök spil hafa opt sérstök nöfn, í vissum spilum, og verður það tekið fram við þau, en hér má geta þess, að sjöin heita öðru nafni besefar, bisefar[2] eða bísefar, sexin póstar en fjarkarnir koppar. Auk þess segir Þorsteinn Erlíngsson mér, að þristarnir séu kallaðir hryggjarliðir[3], þar sem hann þekkir til á Suðurlandi, en eg hefi líka heyrt að sunnan, úr annari átt, að svo væru hrökin nefnd einu nafni. Lágu og ónýtu spilin eru kölluð roð, hundar, hrök, fúlhundar[4] og blóðhundar[5] en háu og góðu spilin hákallar og lýur. Þó eru ef til vill öllu fremur miðlúngsspilin táknuð með þessu seinasta nafni.

---

[1] Lýsing þessi er tekin eptir hdr. Pálma Pálssonar og svo barnsminni minu.
[2] Nýársnóttin; bls. 50. Þess má geta að J. Ól. segir í orðabók sinni við besefi, að það sé komið af danska orðinu Besyv. [3] hryggjarbein segir séra Jón Yngvaldsson. Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 156. [4] Björn Haldórsson segir í orðabók sinni, að hundur og fúlhundur sé fimmið í spilum. Sbr. fúlundur hjá J. Ól., því það er eflaust sama orðið. [5] Sagt er líka þegar maður fær vond spil, að hann fái ekki gráan gosa.

Þess má geta að á Austurlandi er fimmið kallað fimma og Múlsýslingar hafa sagt mér, að sjöið væri kallað þar sjöa og sexið stundum sexa. Þar sem J. Ól. nefnir spilin við orðið *spil*, segir hann að tvisturinn sé líka nefndur daus en þristurinn treia. Fimmið nefnir hann að eins fúlund og sexið að eins póst, sem hann segir að sé komið af danska orðinu Paust.

Það er líka eptirtektarvert, að í orðabók Guðmundar Ólafssonar, eru ás—tía nefnd »1—10 á blaði«, og má vera að spilin hafi verið nefnd svo framan af. Mig rámar jafnvel í að eg hafi t. d. heyrt sjö kallað sjö á blaði.

Nú skal eg geta um spil þau á Íslandi, sem þjóðlegast snið er á og Eggert Ólafsson segir að séu innlend, en þau eru alkort, handkurra og trú. Auk þess segir Eggert að pamfíllinn[1] sé innlent spil, en það er liðið undir lok, eptir því sem eg veit bezt, og hefi eg hvergi rekið mig á, hvernig það hefir verið. Annars er nafnið alútlent og er því ólíklegt að spilið hafi verið alveg innlent, en á hinn bóginn mun Eggert hafa vitað hvað hann saung í þessu efni, eins og öðrum Þess má geta að Páll skólakennari Melsted lærði pamfíl í Eyafirði í æsku sinni[2]. Pamfíllinn hefir því verið spilaður fram undir 1820, að minsta kosti.

Fyrst skal frægan telja og kemur þá **alkortið** fyrst til sögunnar. Nafnið hefir að vísu útlendan keim, en þó mun það vera með elztu spilum á Íslandi, og víst er það, að alkort var spilað allra spila mest í gamla daga, en nú má kalla að það sé alveg lagt niður, að minsta kosti þar sem eg þekki til. Það er því ekki seinna vænna að lýsa því, því hætt er við, að spilreglurnar gleymist, þegar hætt er að spila það.

Til er tvenns konar alkort, fjögramannaalkort og tveggjamannaalkort, en bæði eru þau svo að segja alveg eins, og auk þess er fjögramanna alkort aðalspilið. Eg skal því að eins lýsa því.

Fyrst og fremst eru tíurnar og fimmin tekin úr spilunum, Spilaröðin er mjög frábrugðin í alkorti, því sem vant er. Tígulkóngurinn er hæstur. Þá hjartatvisturinn. Þá lauffjarkinn. Þá spaðaáttan. Þá hjartanían. Þá tígulnían. Þá ásarnir. Þá gosarnir. Þá póstarnir. Þá átturnar, nema spaðaáttan. Hin spilin eru öll blóðónýt hrök, sem ekkert gildi hafa, þó svo að sá á slaginn, sem slær hraki út, ef hin þrjú spilin eru jafnónýt. Þess má geta, að þó hrökin séu öll jafnónýt í raun réttri, þá eru þó kóngur og drottníng örgust þeirra allra, og má drepa kónginn með tvist, en drottníngu með tvist og þrist, þegar þeim (kóngi og drottníngu) er slegið út, og ekkert spil, sem hefir gildi, er gefið í þau. Til þessa bendir vísuhelmíngur nokkur:

---

[1] *Þorsteinn Erlíngsson* segir mér að Sunnlendíngar kalli laufagosann í púkki *pamfíl*, og eru það ef til vill menjar af pamfílnum.

[2] *Eptir því sem hann* hefir skrifað mér.

Kóngur í veltu kostar tvist,
kemst drottníngin af með þrist.

Þessari spilaröð vandist eg í ungdæmi mínu, en seinna hefi eg tekið mi[illegible] á, að sumir láti póstana vera lægsta þeirra spila, sem hafa nokkurt gildi.

Sigurður L. Jónasson hefir vanizt því, að póstarnir, væru lægstir spil[illegible] þeirra, er gildi hefðu, þeir stýngju hrökin, en aptur þyrfti gosa til að stíng[illegible] átturnar eða fríðurnar. Hann hefir líka vitað að kóngur stýngi drotníngu, þegar henni væri spilað út, ef sami væri liturinn.

Til er vísa eða vísupartur um spilarröðina í alkorti og er á þessa lei[illegible]

Tígulkóngurinn kæri
kominn vildi eg væri,
lagður í lófa mér;
alt að óskum geingi
ef eg tvistinn feingi
og fjarkinn fylgdi með.

Besefarnir eru bæði hæstir spilanna og lægstir. Ef þeim er slegið út þá getur ekkert spil drepið þá, en það má eingin gjöra, fyr en hann hefir feingið slag. Aptur eru þeir alveg ónýtir þegar þeir eru gefnir í spil, og er það því hin mesta skapraun, að fá besefa, en ekkert hátt spil með þeim, eða *móðurlausan*[1] besefa, eins og sagt er. Sigurður L. Jónasson hefir þó vitað, að sá sem er í forhönd, mætti slá besefum sínum út fyrstum spila. Það segir hann sé kallað að *míga blóði*, að verða að gefa í móðurlausan besefa.

Mörg spil hafa sérstakt nafn í alkorti, og er þá fyrst að telja laufafjarkann, sem venjulega er kallaður *lauffjórir*. Spaðaáttan er kölluð *spaðaáttur*. Hjartanían og tígulnían eru líka nefndar í fleirtölu og er hjartanían kölluð *feitu níurnar*[2] en tígulnían *mögru níur* eða þær *þunnu*. Bogi Melsteð kallar hjartaníuna *feitu níu* en tígulníuna *þunnu níu* eða *sótt*. Aptur segir Magnús Ásgeirsson stud. med., að á Vesturlandi sé hjartanían kölluð *breiða nía* en tígulnían *mjóa nía*. Sigurður L. Jónasson hefir heyrt níurnar kallaðar *skiturnar* einu nafni. Laufanían er nefnd *nagla-Jórunn* en spaðanían *lánga brúnkolla*, *stóra brúnkolla* eða *svarta brúnkolla*[3], hvernig sem stendur á þeim nöfnum. Átturnar heita öðru nafni *fríður*, nema spaðaáttan.

Fjórir menn spila eins og nafnið ber með sér, og er venjulegast, að þeir dragi sig saman, eða láti spilin ráða[4] hverjir saman eigi að vera. Því

---

[1] Sunnlendingar tala um *forstöðulausan bísefa* þegar svo ber undir.
[2] *rauðu níurnar* segir J. Ól. í orðabók sinni við orðið *spil*. [3] Bogi Melsteð. [4] Sbr. Piltur og stúlka. II. útg.; bls. 23.

næst er dregið, eins og lög gjöra ráð fyrir, og er þá sælzt til að setja á passann, eða að sjá svo til, að eitthvert gott spil sem fróðlegt er að vita hver fær, verði neðst við stokkunina. Gjafarinn gefur þá þann hluta spilanna sér í lagi, sem dreginn var, og á þannig hægt með að sjá, hvar neðsta spilið lendir. Eins er venja að sá sem dregur skoði á passann, eða gæti að neðsta spilinu[1], sem hann dró. Margir banna þó stránglega, að setja eða skoða á passann í alkorti.

Því næst eru hverjum manni gefin níu spil. Gjafarinn flettir opt upp efsta spilinu, í fyrsta slagnum, hjá öllum sem spila, og er þá jafnframt haft það orðl, að sá eigi barn í vonum, sem fái bezta spilið. Spil þau sem verða eptir, þegar búið er að gefa, eru lögð á grúfu á borðið, sem spilað er á, og nefnd stokkur[2]. Í honum eru 8 spil, eptir því sem áður er sagt. Enginn má sjá hann Nú hafa sumir þann sið, að ef einhver spilamanna er er ekki fríðufær, sem kallað er, eða hefir ekki svo hátt spil á hendi, að hann geti drepið óvalda áttu[3], þá megi hann fleygja sínum spilum, nema einu, og taka stokkinn í staðinn fyrir hin 8. Til þessa bendir vísuhelmíngurinn:

Eg er ekki fríðufær
fáið þið mér stokkinn[4].

Aptur hafa sumir ekki þessa reglu og ekki lætur Jón Thóroddsen Íngveldi þekkja hana í Pilti og stúlku, þar sem hún hefir stóru brúnkollu hæsta spil á hendi, en finnur sér þá ástæðu til að láta gefa upp, að Sigríður hafi haft rángt við[5].

Það er líka auðséð að Jón Thóroddsen hefir ekki vanizt því, að þeir sem væru saman mættu sjá hvor hjá öðrum, en aptur er það víða siður, að þeir sýna hvor öðrum kallinn[6] eða hæsta spil, sem þeir hafa á hendi og sumir segjast jafnvel hafa þar undir og þar undir[6], um leið og þeir sýna hæsta spilið, ef þeir hafa næstu spil fyrir neðan það. Séra Jón Ýngvaldsson segir, að venjulegast sé sagt: »þar er eg allur« um leið og spilin eru sýnd[7].

Nú slær sá út, sem er í forhönd, eins og lög gjöra ráð fyrir, og vinna þeir spilið, sem fá 5 slagi, en ef forhandarmaðurinn og sá sem er á móti honum fá 5 slagi, áður en hinir fá nokkurn slag, þá múka[8] þeir eða gjöra

---

[1] þessar seinustu passareglur eiga sér stað við öll önnur gróðaspil, en alkort, og opt er þrefað um það í alkorti hvort heimilt sé að setja á passann, eða skoða á hann. [2] eins og í öðrum spilum, þegar svo ber undir. [3] ef hann hefir ekki einu sinni gosa. Sig. L. Jónasson. [4] Prentað áður í Ögmundar-Gétu. Kmh. 1832; bls. 159. [5] II. útg.; bls. 24. [6] Sbr. *Nýársnóttin; bls.* 50. [7] Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 57.

[8] *Af þessari múkan* er dregið orðtækið: það varð dauft eptir múkinn. Ísafold X; *bls.* 57. *sbr. Opt er dauft eptir múkinn* (G. J.) Múkur er líka vinníngur í *kotru sbr. bls.* 313.

hina múk. Það kvað heita meistaramúkur, þegar forhandarmaður hef tígulkóng og fjóra ása, aðrir segja besefa, og virðist það vera eðlilegra. Þegar forhandarmaðurinn hefir feingið heim þrjá slagi, segir hann opt v þann sem er móti honum: »Nú er eg búinn að gjöra strákinn; þú á eptir að gjöra stelpuna«, en það eru þeir tveir slagir, sem vantar á múk inn. Ef forhandarmaðurinn hefir mjög góð spil, þá kemur til greina leggja múkinn upp, eða leggja fram á borðið 5 ótakandi spil og má s sem er móti honum, bæta við, ef hann vantar uppá múkinn, enda fara þ nærri hvor um annars hákalla, ef þeir hafa séð kallinn hvor hjá öðru. Það er að vísu glæsilegast að leggja múkinn upp, en það er sá hængur að þá mega þeir ekki fá stroku, þó þeir hafi spil til þess. Strokan fólgin í því, að fá 6, 7 eða 8 slagi, áður en hinir fá nokkurn slag, e þá alla slagina, og er strokan kölluð sexblaðastroka, sjöblaðastroka, átt blaðastroka eða níublaðastroka, eptir því hvað slagirnir eru margir. Sig urður L. Jónasson hefir ávalt heyrt sexblaðastroku kallaða skuðmú. Þegar mótspilendurnir geta aptur staðið fyrir strokunni, með einhverju hi spili, þá segir sá sem hefir þetta spil: Híngað og ekki leingra, og sýn spilið um leið; er þá því spili lokið.

Eins er það þegar forhandarmaðurinn og félagi hans hafa svo gó spil, að þeir hljóta að vinna, en hinir geta þó varnað því, að þeir múki, me einhverju háspili, t. a. m. tígulkóngnum sjálfum, þá sýna þeir hann o segja: Við forðum og svo megið þið hafa vinnínginn; er þá ekki farið leingi út í það spil.

Fyrir hvern einfaldan vinníng er 1, fyrir múk 5, en fyrir hverja strok jafnmargir og strokurnar eru margra blaða. Vinníngurinn er krítaður borðið, rúmfjölina eða tóbaksfjölina, eða hvað það nú er, sem spilað er eða þá jafnvel upp um þiljur, og standa tölurnar þar stundum heilan o hálfan, til lofs og dýrðar þeim sem unnu. Einkennilegt er líka hvernig vin íngurinn er krítaður. Einfaldir vinníngar eru jafnan krítaðir á þenna hát IIII (með skástryki yfir) o. s. frv., en múkar og strokur með venjulegum tölustö um, uppi yfir einföldu vinníngunum. Sjöblaðastroka og tveir vinníngar eru t. skrifaðir svona: $\overset{5}{\text{ıııı}}$. Sumir hafa aptur þann sið, að stryka líka yfir stór vinníngana, þegar þeir fá samskonar stórspil optar en einu sinni. Tveir múl vinníngar eru eptir því skrifaðir svona: 5 (með stryki yfir).

Alkort hefir verið spilað óskÖpin öll, en einkum þó á stórhátíða

[1] Sbr. orðasafn séra Jóns Yngvaldssonar. Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 49. Sigurð L. Jónasson hefir vitað ásana í meistaramúk. Hann er jafn öðrum múkum í vinníng. [2] Sbr. Þjóð. IV; bls. 76, 306. d. Þar er líka nefndur mar íngur í alkorti og er svo að sjá, sem það sè einhver vinníngur. Eg veit ek til að marníngur sé einkennilegt orð fyrir alkort, en opt er sagt í spilum: þet er ljóti marníngurinn, þegar einginn eða hvorugir vinna að marki.

kvöldum, svo sem jólanótt og gamlárskvöld, en þó er ekki hættulaust að spila það jólanóttina, ef það er satt, sem sagt er, að þegar illindi verði út úr alkorti jólanóttina, þá komi tveir tígulkóngar í spilin og sé annar andskotinn sjálfur. Þorsteinn Erlíngsson segir mér, að á Suðurlandi sé sagt, að þetta eigi sér einúngis stað, þegar alkort sé spilað á altarinu, jólanóttina sjálfa; vænkast þá málið, því slíkt er ekki venjulegt á vorum dögum. Frú Íngibjörg Schulesen segir aptur, að þegar búið sé að spila mjög leingi, eigi sá gamli að koma í spilin, í tígulkóngslíki. Til þessarar sögu mun það eiga rót sína að rekja, að opt er spurt í daglegu máli, hvert fjandinn sé með í spilinu. Þegar eitthvað þykir ráðast óvænlegar en áhorfist. Tveggjamannaalkort fer fram alveg eins og fjögramannaalkort. Þó eru þar tekin úr öll hrökin, nema að eins einhver fjögur[1].

Í **handkurru** geta verið svo margir sem vilja, meðan spilin hrökkva, en bezt fer á því að spilamenn séu 4—8. Spilin eru gefin upp og tekur hver allar jöfnur eða samstæður (2 eða 4 áttur, tíur o. s. frv.) úr hjá sér og skýtur þeim undan, svo lítið beri á. Því næst dregur hver spil hjá öðrum, eptir því sem þeir sitja, og er öllum jöfnum stúngið undir stól. Líka verður sá, sem dregið er hjá, að forðast eins og heitan eld, að láta þann, sem dregur, komast að því, hvað hann hefir margt á hendi. Þetta geingur þángað til einhver er kominn úr. Þá leggur hann seinustu jöfnurnar fram á borðið og segir: Lýsi eg þá alla í handkurru, sem ekki eru á borð komnir. Því næst ber hann jafnmörg högg í lófann á hverjum spilamanni og hann heldur að hann eigi mörg spil eptir, og fer bezt á, að það sé gjört með hornspæni. Sumir berja aptur framan á gómana. Ef hann ber einhvern fleiri högg en spilin eru í raun og veru, þá ber sá hann aptur jafnmörg högg og munurinn var mikill, og dregur þá ekki af, ef hann þykist hafa verið hart leikinn.

Þá er að minnast á **trú** eða blindtrú sem Sunnlendíngar kalla grúfuspil, eptir því sem Þorsteinn Erlíngsson segir. Trú spila tveir menn. Fyrst er dregið spil úr öllum spilunum og er sá litur tromf í spilinu. Síðan er stokkað vandlega og spilunum skipt til helmínga; tekur hvor sinn helmíng og spilar með honum. Hvortveggi heldur á spilum sínum á grúfu og má hvorki sjá þau óðara en líður né breyta röðinni á þeim. Sá sem er í forhönd slær út og gefur hinn í það. Í það spil gefur sá sem sló út og svo koll af kolli, þángað til tromf kemur. Þá gefur sá sem ekki átti tromfið eitt spil í það, og tekur þá hinn öll spilin, hvort sem þau eru mörg eða fá, og stíngur þeim undir spil sín. Í öll óvalin tromfspil er gefið eitt spil. Í tromfgosann 2, í drottnínguna 3, í kónginn 4, í ásinn 5[2], en 10 í tíuna. Þetta geingur þángað til annarhvor er orðinn

[1] Bogi Melsteð.

[2] Aðrir gefa 11 í ásinn.

alveg uppiskroppa með spil og er opt lángt að bíða þess. Af því mun það koma að spil þetta er stundum kallað **þolinmæði**[1].

Ekki hefi eg neinar sannanir fyrir því, að **hjónasæng** sé íslenzkt spil, en þó hefir hún svo íslenzkan keim, að eg get ekki stilt mig um, að lýsa henni. Í hjónasæng, sem líka er kölluð **hjónaspil**[2], eru optast fjórir en geta þó verið alt að tíu. Áður en spilið er byrjað, er dregin mynd á spilaborðið, og er hún venjulega svona:




en stundum öðruvísi:




eða




og fleiri útgáfur eru ef til vill til af henni. Það segir sig sjálft, að álmurnar verða að vera eins margar og margir eru í spilinu. 1 eða hríngurinn sem er yzt á hverri álmu, er nefndur **koppurinn**. 2 heitir **koppbarmur**[3], 3 **pallstokkurinn**, 4 **rúmstokkurinn**, 5 **hjónasængin**. Hverjum eru gefin 5 spil. Nú slær einhver út, en hinir gefa í alveg eins og í hundi. Sá fær slaginn sem drepur hin spilin, með hærra spili í sama lit, og sezt hann á einhvern koppinn, eða leggur í hann gler eða eitthvað því um líkt. Þegar sá sami fær slag næst, bograr hann upp á barminn, eða færir gler sitt þángað. Þetta geingur koll af kolli. Þeir sem fá slagina fika sig upp á við, þángað til þeim tekst að fá 5 slagi eða komast upp í hjónasængina, og er spilinu þá lokið. Ef menn vilja þá halda áfram, verður að byrja að nýju. Sá þykist hafa himin höndum tekið, sem kemst upp í sængina, og er það ekki að furða, því þar á að vera fyrir einhver stúlka, sem áður er tekin til, og er hún náttúrlega ekki valin af verra endanum. Á hinn bóginn þykir það mjög neyðarlegt, að dúsa alt

---

[1] Í Spillebog for Börn. Kmh. 1853 er lýst spili, sem er mjög líkt Blindtrú (Sulten Gris). Þar er þó ekki gefið meira í háspilin en hin spilin. [2] séra Einar Friðgeirsson. [3] Pálmi Pálsson, sem hefir hjálpað mér um lýsíngu á spili þessu, nefnir annað stigið **Harbarðshest**.

af á koppnum, og litlu betra að komast á rúmstokkinn, því þá er manni synd gæs en gefin ekki; einna ófrægilegast þykir þó að húka á barminum.

Svona hefi eg vanizt spilinu, en Pálmi Pálsson lætur þann, sem vinnur, komast að stúlku sinni á annan hátt, en þegar er gjört ráð fyrir. Hann segir: »Hver spilamaður gefur sína stúlkuna þeim sem unnið hefir og hann kýs sér eina sjálfur. Því næst er stokkað upp og sá sem í bakhönd er vinnanda, slær þá öllum spilunum upp í jafnmarga búnka, sem spilamenn eru, og fær þá vinnandi þá stúlku, sem sá hefir gefið, er það spil fær í sinn búnka, sem kom vinnanda upp í sængina.« Þessi viðbót er þó allútlend að bragði og líklega ekki íslenzk, þótt spilið kunni að vera það.[1]

**Treikort.** Þegar eg var úngur heyrði eg gamla kerlíngu í Sléttuhlíð tala um dansk treikort og íslenzkt treikort. Hún kunni þó ekki nema annað spilið og lærði eg það, en vissi ekki hvort það var það danska eða íslenzka. Nú er treikorti lýst í gömlum dönskum spilabókum[2], og er alt öðruvísi en treikort það, sem eg hefi vanizt. Það liggur því nærri að það sé einmitt danska treikortið, sem lýst er í spilabókunum, en íslenzka treikortið, sem kellíngin kendi mér. Spil þetta tíðkast annars um alt land og er að eins kallað treikort, alstaðar þar sem eg hefi spurnir af.

Laufadrottníngin er hæst. Þá spaðatvisturinn. Þá tígulkónguriun. Þá hjartatvisturinn. Þá lauffjórir. Þá spaðaáttur. Þá hjartaníur. Þá tígulníur. Þá ásarnir. Þá gosarnir. Þá póstarnir. Þá átturnar lægstar nema spaðaátturnar. Enn eru besefarnir og geta þeir verið bæði hæstir og lægstir eptir því sem á stendur. Á þessi 27 spil er treikort spilað.

Þrír spila, eins og nafnið ber með sér. Hver fær 9 spil, þrisvar sinnum þrjú. Nú er um að gjöra að fá sem flesta slagi. Besefarnir eru ódræpir þegar þeim er slegið út, annars blindónýtir, en ekki má neinn slá þeim út fyr en hann hefir feingið slag[3]. Annars stínga spilin eptir þeirri röð sem áður er sögð. Ásarnir eru jafnháir, eins gosarnir o. s. frv.

Í treikorti er um að gjöra að fá sem flesta slagi. Ef einhver fær 13 slagi í þremur spilum, þá verður hann páfi. Sá sem fær 11 slagi heitir keisari. Fyrir 9 slagi verður maður konúngur, en sá, sem fær undir 5 slögum, heitir kamarmokari. Það eru þó eingin hlunnindi bundin við þrjú seinustu embættin, en páfinn hefir rétt til þess að kjósa bezta spil hjá öðrum en besefa hjá hinum, og eru þeir skyldir til að láta hvort-

---

[1] *Í Spögemesteren* Kmh. 1866 er lýst spili, sem kippir nokkuð í kynið til hjónasængur (bls. 84—85). Þar er þó að eins spilað um penínga, og stigin hafa ekki sérstök nöfn. Sama máli er að gegna um spil, sem lýst er í »Nyeste dansk Spillebog«. Udg. af S. A. Jörgensen. Kmh. 1802; bls. 376.

[2] *Nye og fuldstændig* Dansk Spillebog. Kmh. 1786; bls. 165—6. Því er líka *lýst í spilabókinni 1802*; bls. 277—8.

[3] Sumir segja þó að forhöndin megi slá besefum út strax.

tveggja af hendi, ef faung eru á því. Sá, sem páfinn heimtar bezta spil hjá, hefir ávalt eitt spil hæst og verður að láta það af hendi, en opt ber það við að besefamaðurinn hefir eingan besefa, og fær páfinn þá ekkert hjá honum. Páfinn lætur einhverja hunda í staðinn fyrir spil þau, sem hann hefir feingið, en er úr tigninni ef hann gleymir því. Eins er hann úr tigninni ef hann fær ekki 13 slagi í þremur spilum, en að því róa hinir öllum árum. Ef páfinn fær 13 slagi í miðju spili, þá er því spili hætt. Erfitt er opt að steypa páfa úr tigninni, en ef það tekst, þá er byrjað aptur og svo koll af kolli.

Frú Íngibjörg Schulesen segist altaf hafa heyrt spil þetta kallað þriggjamannaalkort.

**Hundur** er opt spilaður á Íslandi, og má heita að hvert mannsbarn kunni hann. Líklega er hann útlendur að uppruna, en ýmisleg atvik eru þó efalaust einkennileg fyrir íslenzka hundinn. Eg hefi heyrt spaðatvistinn kallaðan heingíngaról, og er það trú manna að sá heingi, sem fær hann á hendina, en Þorsteinn Erlingsson segir mér, að sama trú sé á hjartatvistinum í Rángárvallasýslu, og sé hann kallaður þar heingíngarfaðir. Hann segir líka, að opt sé getið til að sá muni heingja, sem fyrst tekur á manni sínum, eða fyrst þarf að drepa með mannspili. Eg hefi vanizt því, að ef maður heingdi ása væru þeir taldir frá spilatölu þeirri, sem maður heingir, og hefir sú ástæða verið talin til þess, að þeir væru rárnar, sem ætti að heingja hundana á. Leiðinlegt er að heingja í hundi, en þó tekur út fyrir þegar spilin sem maður heingir standa á stöku, því þá á maður að gjöra svo vel, að hánga móti staka hundinum sjálfur.

Enn eru nokkur spil sem mig grunar að séu meira eða minna íslenzk og eru þau *þjófaspil, kóngsspil* og *biðilsspil*. Að minsta kosti verða spil þessi alveg íslenzk í meðferðinni, því þau eru miklu fremur gamanleikir (kómedíur) en spil, enda hafa spilin þar einga aðra þýðíngu, en að skipta niður hlutverkum milli spilamannanna, eða öllu fremur leikandanna.

**Þjófaspil** eru líka kölluð þjófur[1]. Eg hefi vitað þau spiluð þannig að ásarnir eru teknir úr spilunum og einhver tvö spil önnur. Þessi spil eru vandlega stokkuð og draga því næst 6 menn sitt spilið hver. Sá sem dregur hjartaásinn er bóndi, en sýslumaður sá sem tígulásinn hlotnast. Hinir ásarnir hafa aptur fremur ógöfugt embætti í för með sér, því spaðaásinn gjörir þann, sem dregur hann, að þjóf, en laufaásinn markar sínum manni böðulsbás. Hinir tveir eru vitni. Nú byrjar bóndi: »Er sýslumaður hér á þíngi?« »Hér er hann,« segir sýslmaður. »Eg hefi mál fyrir yður

[1] Sbr. Piltur og stúlka II. útg.; bls. 24. Til er og þjófur í annari merkíngu í spilum. Það er sagt að þjófur sé í spilum, þegar sum spilin snúa öðruvísi en fjöldinn af spilunum, eða þegar sum þeirra snúa bökum saman.

**Kóngsspil** eru alveg af sama tægi, en eg man ekki almennilega hvernig þau eru, svo eg leiði alveg hest minn frá að skýra frá þeim.

J. Ól. getur um *að messa með spilum* og virðist það vera í sömu áttina. Jón segir: »Tígulkóngurinn sem hæstur er hjá íslenzkum í *Carnifelinu* (Dan. Styrevolt) er prestur og settur fyrir altari, en máluð spil[1] hin önnur eru sett í kór, og laufagosinn, sem er snúður mannlegur í búníngi, og skal vera klukkari, og umgángast hin önnur geistlegu störf, þau sem minniháttar eru.«

Að endíngu má geta um spil, ef spil skyldi kalla, sem er nefnt **smérfjórðúngur**. Það hefir það sér til ágætis, að einn maður spilar það. Smérfjórðúngur er eitt af þeim spilum, sem kölluð eru »Kabaler« á dönsku og er líklega útlent frá rótum, en nafnið er einkennilega íslenzkt. Maður stokkar heil spil vel og vandlega, og leggur þau því næst á borð, þannig að eitt spil snýr upp í lopt ofan á hverjum þremur spilum á grúfu. Því næst tekur hann saman jöfnur þær, sem ofan á liggja, af öllum spilunum, nema kóng, drottníngu og gosa. Þau tekur hann saman og eru bæði þau og jöfnurnar úr spilunum. Því næst flettir hann upp efsta spilinu af þeim, sem liggja á grúfu, og hann hefir áður tekið spil ofan af, og heldur svo áfram, eins og áður, þángað til spilin gánga annaðhvort upp, eða eingar jöfnur og eingin kóngur, drottníng og gosi eru í einu ofan á spilunum, sem liggja á grúfu. Þau sem eptir verða, telur spilamaðurinn saman og tapar hann jafnmörgum smérfjórðúngum og þau eru, en aptur hefi eg ekki heyrt þess getið, hvað hann fær í aðra hönd, ef alt geingur upp.

Að endíngu skal eg telja útlend spil, sem eg þekki til að séu spiluð upp til sveita á Íslandi um þessar mundir: *Bónaparte*[2], *brús*[3], *fantur*[4], *fransfús*[5], *fölsk vinátta*, *gosi*, *hanrei*[6], *hálftólf*, *himnaríki og helvíti*[7], *kasína*, *kvikk*[8], *köttur*[9], *lauma*, *lánghundur*[10], *lúmber* eða *lomber*[11], *marías*,

---

[1] Undarlegt nafn á mannspilum. [2] Kvað vera spilaður á Suðurlandi og ef til vill sama sem Napóleon. [3] Spilaður mjög mikið í Fljótum og Sléttuhlíð, en lítið eða ekkert annarstaðar á landinu, er mér sagt. Sumir sem eg hefi átt tal við, hafa haldið að brús væri íslenzkt spil. En það er ekki. Honum er lýst í Spillebog for Börn. Kmh. 1853; bls. 21—3, alveg eins og við höfum hann. [4] Mér er ekki ljóst leingur, hvernig spil þetta er. Eg spilaði það í Eyafirði í úngdæmi mínu. [5] Var einu sinni »fínt« spil og spilað, ósköpin öll, af stúdentum á Garði. [6] sem stundum er kallað hanreið; kvað líka vera kallað stelpuspil.

[7] Er líklega enskt spil. Því er lýst í Pigernes egen Bog. Kmh. 1868; bls. 17—18, en hún er útlögð úr ensku. [8] Bogi Melsteð. [9] sem líka er kallaður lúfa, lú og lær(?), lúfur, segir Bogi Melsteð. [10] sem líka er kallaður vitlaus hundur, lánga vitleysa, súpuhundur og súpa, súpuspil (Hamlet eptir Shakespeare Rkv. 1878; bls. 107.)

[11] Til er húsgángur um það, hve erfitt sé að læra lomber í samanburði við önnur spil. Hann er þannig:

*Napóleon*[1], *norskur hundur*[2], *pikket*, *púkk*[3], *rampús* eða *rambús*, *rauða-nef*, *skelkur*, *svarti Pétur*[4] og *vist*[5].

*Púlspas*[6] hefir verið spilað upp til sveita á Íslandi fyrir tæpum 50 árum[7], en ekki veit eg til að það sé spilað nú. Sama er að segja um *Boston*. Bogi Melsteð segir, að það hafi verið spilað allra spila mest í Bessastaðaskóla um 1830, og hefir hann það eptir sögn Páls skólakennara Melsteðs.

Fleiri spil eru sjálfsagt eða hafa verið spiluð upp til sveita á Íslandi, en eg hefi talið upp, og það er víst að ýms spil eru spiluð í Reykjavík og kaupstöðunum, sem eg hefi ekki nefnt. Það má t. d. geta um *sjavs* eða *skafskopf*, (kindarhöfuð), sem íslenzkir Garðbúar hafa flutt til Reykjavíkur og ef til vill breiðist út um alt land.

Til samanburðar má geta þess að Eggert Ólafsson telur *imperíal*, *púkk* og *styrevolt* algeingust af útlendum spilum á Íslandi, um það leyti sem þeir félagar ferðuðust þar, 1752—57. Nú munu Imperíal[9] og óbreyttur Styrvolt vera liðin undir lok á Íslandi, en það er ekki skaði skeður, enda er skarðið fullkomlega fyllt.

Aptur nefnir J. Ól. þessi spil í orðabók sinni við orðið spil: *drykkjar-spil* eða *kúpuspil*, *handkurrur*, *hundaspil*, *laumuspil*, *pamfíl* og *trúarspil* og svo *karnifel*. Tvö fyrstu spilanöfnin hefi eg aldrei heyrt, en hin eru sjálfsagt sama sem *handkurra*, *hundur*, *lauma*, *pamfíll* og *trú*.

Pamfíl hefi eg hvergi séð nefndan í spilabókum, en í gömlum dönskum spilabókum er lýst bæði Imperíál, púlspasi og styrvolt, sem J. Ól. segir að Íslendingar kalli karnifel[9]. Eg set hér stutta lýsingu á spilum þessum, því eg geing að því vísu, að þau séu liðin undir lok á Íslandi.

---

Fullnæmur má segjast sá
sendir hafnar bríma,
sem að lærir lomber á
liðugum klukkutíma.

[1] Bogi Melsteð. [2] er líka kallaður tromfhundur. Hann er gamalt spil til þess að gjöra. Gömul kona í Sléttuhlíð norður, sem nú er dáin, kendi mér þetta spil á sokkabandsárum mínum og sagði hún að móðir sín hefði kunnað það frá blautu barnsbeini. [3] Púkk er eitthvert mesta uppáhaldsspil Íslendínga, og er opt spilað á jólanóttina sjálfa, til hátíðabrigðis. Laufagosinn er stundum kallaður pamfíll í púkki. [4] I Þjóðólfi III; bls. 226, 1. dálki, er strykið, sem svarti-Péturinn er merktur með á nefið, kallað gosamerki. [5] Það er líka óhætt að fullyrða, að vist sé spiluð allra spila mest á Íslandi sem stendur. [6] Sbr. bls. 338. [7] Það er getið um spil þetta í sóknarlýsingu af Þaunglabakkasókn 1839 og Páll skólakennari Melsteð vandist því í úngdæmi sínu. [8] Á blaði, sem eg hefi feingið frá J. Árn., með hendi Sigurðar Guðmundssonar málara, stendur að imperíáll hafi verið spilaður mest allra spila í Hólaskóla. [9] Sbr. bls. 336; sama segir hann á lausum miða, sem liggur í orðabók hans við spil. Í Videnskabernes Selskabs Ordbog er sagt að orðið Karniffel sé afbakað úr latneska orðinu Carnifex, sem þýðir böðull.

**Imperíáll** er ekki ólíkur pikketi. Optast spila þrír, en þó geta tve eða fjórir verið í spilinu. Þegar þrír spila, er tekið úr upp að se um. Hver fær níu spil, en níu liggja í stokknum. Efsta spil er tromf. Ef það er ás, kóngur, drottníng, gosi eða sex, má kau það með sjöinu. Þessi fimm spil hafa þau hlunnindi, að sá, sem fá þau annaðhvort við gjöfina eða í skiptum, krítar hjá sér eitt vinníngsstry og eins ef eitthvert þeirra er drepið með samskonar spili seinna í spilin nema þá skrifar sá líka stryk hjá sér, sem spilaði út spili því sem drep var. Annars er sexið lægsta spilið og eru öll hin yfir því. Þegar búið að gefa, gæta menn að því, hvort menn hafa ekki Imperíál, en það e fjórir ásar, kóngar drottníngar eða gosar. Sá sem hefir hæstan þess kon Imperíál skrifar hjá sér einn Imperíál. Fyrir kvart-majór eða ás, kón drottníngu og gosa í sama lit, fær maður líka Imperíál, Nú er gætt því, hver hefir fleiri spil í sama lit. Ef allir hafa jafnmörg, skrifar stryk hjá sér, sem hefir flest augu í sínum spilum, en ef augun eru jaf mörg, þá forhöndin. Ásinn telur 11, kónguriun, drottníngin og gosinn 10, hin spilin eins og augnatala þeirra bendir á. Sá slær út, sem er í forhöndin Hinir eru neyddir til að svara í sama lit eða stínga með tromfi. Þegar spilað upp, eru slagirnir taldir. Ef einhver hefir fleiri en þrjá slagi, skrifar ha stryk hjá sér fyrir hvern slag sem fram yfir er. Þegar einhver hefir feingið stryk, þurkar hann þau út og skrifar Imperíál í staðinn, og þá verða hi líka að þurka út sín stryk (en ekki Imperíála þá, sem þeir kunna að h feingið). Þegar einhver spilamanna hefir feingið 5 Imperíála er spili lokið. Sá sem eingan Imperíál hefir feingið, tapar þá tvöfalt við hinn[1].

**Púlspas** heitir Polsk Pas á dönsku, Fjórir spila á 24 spil, frá ás ni að níu í öllum litunum. Spilamennirnir koma sér saman um hve hátt þ eigi að spila, og sá sem gefur leggur það í borð, sem til er tekið. Hver spi maður fær 5 spil, fyrst 2 og svo 3. Efsta spilið sem verður eptir er tro Þeim sem gefur er heimilt að taka spil það sem valt, en þá verður ha að spila í tromfi. Hann verður líka að fleygja einhverju spili í staðinn fy spil það sem hann tók.

Hæstir eru gosarnir, fyrst laufagosinn, þá spaðagosinn, þá hjartag inn, þá tígulgosinn. Þeir eru altaf tromf. Annars er hæð spilanna e og vant er.

Ef sá sem gaf hefir ekki keypt, segir sá til, sem er í forhönd, hv hann vilji spila í tromfi eða ekki, og svo hinir í réttri röð. Ef allir h

---

[1] Ny og fuldstændig Dansk Spillebog. Kmh. 1786; bls. 106—7. Í Nyeste Da Spillebog. Udg. af S. A. Jörgensen Kmh. 1802, er því bætt við, að laufago sé allra handa járn, eða gæti þýtt hvert spil sem vera skal. Í dönskum sp bókum frá seinni tímum eru enn aðrar breytíngar við Imperiál, en ekki þ vert að færa þær hér til, því Imperíáll hefir sjálfsagt verið lagður niður á landi, þegar þær komu út.

passað einusinni, má forhöndin enn spila í tromfi, en hinir ekki. Forhöndin má þó líka kjósa einhvern annan lit eins og hinir, þegar kemur að þeim, ef forhöndin hefir passað. Ef allir passa tvisvar sinnum, gefur sá sem var í forhönd og leggur í borð um leið, og svo koll af kolli, þángað til einhver spilar.

Ef sá sem spilar fær tvo fyrstu slagina, vinnur hann svo framarlega sem einginn hinna fær þrjá slagi. Eins vinnur hann, ef hann fær þrjá slagi. Ef hvorugt tekst, leggur hann í borð helmíngi meira en um var spilað. Sá vinnur aptur, sem hefir nóga slagi, eptir því sem áður segir. Ef einginn hefir það, liggur féð í borðinu þángað til einhver vinnur. Ef einhver hefir feingið tvo fyrstu slagina og segir »la voilà«[1] um leið og hann spilar út í þriðja skipti, þá á hann að fá alla slagina. Ef það tekst, fær hann hjá hverjum af félögum sínum þriðja part af því sem um var spilað. En ef það lánast ekki, þá vinnur hann ekkert, en tapar eingu heldur[2].

**Styrvolt eða Karnifel.** Ekkert er tekið úr spilunum[3]. Fjórir spila, tveir og tveir saman. Sá sem dregur skoðar á passann. Ef háspil er á passanum, er það lagt á borðið, og er þeim, sem fær drottníngu eða þá jafnvel kóng í sama lit, heimilt að kaupa það. Ekki má sjá meira en eitt spil á passanum. Nú eru hverjum gefin 9 spil, 3 í einu. Því næst er flett upp tveimur tromfum og má kaupa þau með tíunni, ef hún er inni[4].

Ekki mega þeir sem eru saman segja hvor öðrum hvaða spil þeir hafa, en segja mega þeir hvort þeir geta stúngið eða ekki.

Háspilin (Matadorer, Stikkere) eru hjartatvistur, lauffjórir, spaðaáttur, hjartaníur og tígulníur. Næst þeim gánga ásarnir, gosarnir, póstarnir, tvistarnir, þristarnir og fjarkarnir í tromfi.

Útspilin (Udspillere) eru átturnur, níurnar, kóngarnir og drottníngarnar í tromfi. Tromfsjöin eru ódræp. Sumir segja að ekki megi slá þeim út, fyr en maður hafi feingið slag[5]. Gildi hinna spilanna, sem ekki eru tromf, fer eptir því sem vant er. Áttur og níur í tromfi heita fríspil. Það er ekki hægt að stínga þær með lægra spili en gosa. Lægsta spil sem er yfir tromfkóngnum er tromftvisturinn, en þristurinn yfir drottníngunni. Ása þá, sem ekki eru tromf, má ekki stínga lægra en með tromfpósti.

---

[1] Franska. Þýðir sko ɔ: varið ykkur nú(?) [2] Spilabókin 1786; bls. 155—6. Í nýrri spilabókum er spili þessu lýst talsvert öðruvísi, hafður kaski, eins og í lomber o. s. frv. [3] Í Spilabókunum 1786 og 1802 er reyndar sagt að spilin séu að eins 48, en ekki er getið um hvað úr er tekið.

[4] *Tromftíunni víst.* Spilabókunum ber saman um að flett sé upp tveimur tromfum, en eg veit ekki hvernig farið er að því. Það virðist reyndar vera ólíklegt að tveir litir séu tromf í einu, en það sést á Marie Grubbe eptir J. P. Jacobsen að þetta á sér þó stað (Samlede Skrifter, Kmh. 1888. I; bls. 289).

[5] *Í Ny og fuldstændig dansk Spillebog.* Udarb. af M. Schwartz. Kmh. 1847, eru öll sjöin látin vera ódræp (bls. 171).

þeir sem fyr fá 5 slagi vinna. Ef aðrirhvorir fá 5 slagi áður en l hafa feingið nokkurn slag, vinna þeir tvöfalt.

Loksins má geta þess að sum spilin hafa sérstakt nafn, ekki síðu í alkortinu. Gosarnir heita »Karnefler«, og er þaðan komið karnifel . Ólafsonar. Sexin heita »Pauster« eða »Pavster«[1], tvistarnir »Duzer« dausar), þristarnir »Trester«, fjarkarnir »Firhakker«, en sjöin »Besyv Ásarnir heita »Styrvolter«, og dregur spilið nafn af þeim. Nöfn þessi eru ekki í spilabókinni 1786, en þau eru í þeirri frá 1802 og svo nýrri s bókum.

Spil þetta er skylt alkorti að mörgu leyti og líklega er alkortið bakað úr »Styrvolt« í upphafi, en nú er það orðið svo frábrugðið, að má telja það íslenzkt spil. Sum nöfnin í alkorti eru líka sótt í Sty beina leið. »Pavst« er þannig auðsjáanlega sama sem póstur. Fjark að öllum líkindum dregið saman úr »Firhakker« og besefi er búið ti »Besyv«. Aptur sjást eingin merki til nafnsins »Styrvolt« í alkorti.

Loksins nefni eg hér *púkaspil,* og hefi eg heyrt, að þau sama sem himnaríki og helvíti.

Í formálanum hefi eg farið nokkrum orðum um Manducus eða Le fælu séra Þorsteins Péturssonar og tekur hann ekki vægilegar á spilur tafli, leikjum og öðrum »syndum og löstum«. Þorsteinn prófastur úth optast öllum skemtunum í einu lagi, en þó er svolítill pistill hjá ho um spilin sér í lagi og leyfi eg mér að færa hann hér til orðréttan, hann sé lítið annað en guðsorð.

Prófastinum dettur í hug, að fólk fallist ef til vill ekki á sann hans fyrir því, að alt gaman og öll skemtan sé stórsynd og kunni t. d glæpast á því að spila. En séra Þorsteinn er ekki af baki dottinn fyrir því hann vill að spilamennirnir láti spilin vekja hjá sér guðlegar hugr íngar. Hann segir: »Fái eg nú ekki með öllum þessum sannfærin talið mönnum trú um það, að niðurleggja aldeilis öll hégómleg leik sem þó er minn vilji, þar þau eru gjarnan syndarinnar tækifæri, en sóman þess góða, þá samt vil eg og enn sýna þeim, hverninn þeir s iðka andlegar hugvekjur, meðan þeir eru að spila. Til dæmis við á kann maður að minnast, að þar er ekki nema einn sannur guð jafnvel þar séu margir, sem guðir kallast, bæði á himni og jörðu. Við kóngin sá sanni guð er konúngur konúnga, frá hverjum kóngarnir á jörðu þeirra makt, og fyrir hvern þeir stjórna. Við drottnínguna eða frún Drottinn Jesús, sem kom híngað til að gjöra þá syndugu sáluhólpna, l lét sig fæða af einni hreinni jómfrú, upp á það að kristnin, fyrir Evan embætti, kynni að færast til hans, sem hrein mey handa manni sínum. gosann eður þrælinn að Kristur, þegar hann var í Guðs mynd, þá

[1] Í Videnskabernes Selskabs Ordbog er »Pavst« dregið af »Pave« þ. e. páfi.

hann það ei fyrir rán, guði líkur að vera, heldur niðraði hann sjálfum sér í því hann tók þjónsmynd upp á sig og varð mönnum líkur. Við tvistinn, að tveir eru verulegir höfuðpartar mannsins, sem er sál og líkami. Við þristinn, að þrjár eru persónur guðdómsins. Við fjarkann skal minnast, að mannanna hjörtu líkjast við fernslags fjársjóð, sem gjörir misjafna frjófgun. Fimm á blaði minna á fimm Jesú píslarsár. Sex, sem þeir kalla p ó s t, á hlaup vorrar æfi og pílagrímsreisu í heiminum. Sjö á helgihald sjöunda dags vikunnar. Átta á þær átta sálir, sem guð varðveitti í örkinni í því hræðilega vatnsflóði, af hverjum heimurinn bygðist aptur. Níurnar vekja fyrir oss þá hugleiðing, að það var um níundu stund, að Jesús hrópaði á krossinum: »Guð minn! því hefir þú yfirgefið mig«. Tíurnar minna á Guðs tíu boðorð, og að hann vill gjöra þeim miskunsemi í þúsundasta lið, sem þau varðveita og hann elska. Og þanninn kann maður að þeinkja til guðs dásemdarverka af hverju blaði í spilunum«.

Mjög svipaður pistill kemur fyrir í danskri þjóðsögu (frá Fjóni)[1], en sá er munurinn að þar gjörir þjónn einn sér upp þessa guðrækni til að koma sér úr klípum.

[1] Gamle danske Minder i Folkemunde. Kmh. 1857; bls. 311—12.

# 3. FLOKKUR.

## LEIKFÁNG EÐA LEIKTÓL.

Sumt af því, sem áður er getið um, mætti ef til vill kalla leikfáng, t. d. prikið sem sá, sem er að fara í skinnbrók stígur yfir, eða glerbrotin, sem gánga milli þeirra, sem eru að getast á; en hér skil eg við orð þetta ýmsa muni, sem beinlínis eru smíðaðir til að leika sér að eða skemta sér við, með einhverju móti.

Flest af þess háttar glíngri er þannig, að það er ekki fyrir aðra en börn, en við sumt þarf meiri umhugsan en svo, að það sé barnameðfæri í raun og veru.

Einhversstaðar þurfti eg líka að minnast á bandlistir eða ýmislegt fitl með snærum og böndum. Mér sýndust þær vera skyldastar því sem getið er um í flokki þessum, og smelti þeim því aptan í hann, og eins ýmsu barnagamni, þótt það liggi ekki beinlínis í orði því, sem stendur yfir kaflanum.

**Skopparakríngla** mun vera einna tíðast leikfáng barna af innlendu leikfángi. Það er tegld þunn trékríngla og borað gat á hana miðja. Í gatið er feldur téstandur og stendur hér um bil níundi partur af honum niður úr krínglunni. Sá hluti er yddur, en það sem upp úr stendur er sívalt. Nú veltir barnið eða einhver fyrir það sívalníngnum stundarkorn á milli lófa sér og sleppir honum svo snögt; kemst þá krínglan á hreifíngu og getur skoppað allleingi á borði eða gólfi, ef hæð standsins og stærð krínglunnar standa í réttu hlutfalli. Stundum er borað gat á bollabotn og hann svo hafður fyrir kríngu.

J. Ól. lýsir skopparakrínglu. Hann nefnir líka skopp og færir þá til vísu þessa:

Eg hrekst eins og annar skoppur,
er sér börn að leika,
knöttur eða trítiltoppur,
trítla kann og reika.

Skoppur og trítiltoppur eru eflaust önnur nöfn á skopparakrínglu. Dr. Jón Þorkelsson ýngri segir mér, að hún sé kölluð topar í Skaptafellssýslu.

B. H. kallar skopparakrínglu, trítil og skotru í orðabók sinni. Grunur er mér á að skopparakríngla sé eða hafi einhversstaðar verið kölluð snarkríngla, enda kemur það vel heim við orðtakið: Lukkan og snarkringlan, hvað veiztu líkara?[1]

Loksins er skaptkríngla nefnd í Njálu[2] og sé eg ekkert á móti því að það sé sama og skopparakríngla. Skopparakrínglu hefi eg fyrst séð nefnda í Lögþíngisbókinni 1658, núm. 28. Hún er líka nefnd í Píslarprédikunum séra Páls Bjarnarsonar í Selárdal[3], sem samdar eru kríngum 1680. Séra Páll segir: »Mikil skopparakríngla er sá almúgi, hann herra omnis«[4].

J. Ól. lýsir þeytispjaldi á þessa leið. »Þeytispjald er ferkantað spjald með gati á hverju horni, örþunt; í gegnum götin dragast fjórir þræðir, sem bindast í lykkjur á báðum síðum. Taka menn svo fíngrum í lykkjurnar, sínum fíngri í hvora og láta þræðina slaka á milli handanna, og spjaldið er svo á miðri bugt eða slökun þráðanna, veifa svo í hríng að snúðurinn komi á þráðinn báðum meginn spjaldsins; kippa svo vel til að snúðurinn slái til baka sem bezt má, og svo herða menn á baksnúðinn aptur, að hann slái framsnúð á og svo framvegis vice versa[5]. En [það er observandum[6], að jafnfast sé á tekið við hvern snúð. Skal og vera togþráður í streingjunum því hann gefur enn meiri teygju en línþræðir«. Lýsíng þessi er nokkuð flókin, en þó má skilja hana, en einkum tek eg hana óbreytta af því hún er ágætt sýnishorn af leikjalýsíngu Jóns, enda er hún leingsti kafli á íslenzku í safninu.

Þeytispjöld eru enn í dag alveg eins og Jón segir. Þau eru annars eldri en að líkindum lætur. Í Flateyarbók[7] segir að Ormur Stórólfsson hafi veifað stórum ási kríngum sig sem »hreytispeldi«, þegar Eiríkur jarl Hákonarson lét 60 manns sækja að honum í einu.

Illur bifur hefir verið hafður á þeytispjöldum í gamla daga. Magnús prestur Grímsson segir að það sé trú manna, að sá, sem veifar kríngum sig þeytispeldi, fæli frá sér góða anda[8].

**Að reisa skemmuþil.** Þegar reisa á skemmuþil, eru fimm smáspýtur, svo sem átta þumlúnga lángar, tegldar örmjóar og mjög þunnar. Þó þurfa þær að þola sveigju. Fyrst eru tvær lagðar í kross, svona: 1╳2. Þá er þriðja spýtan lögð ofan á krossinn. Því næst er hinum tveimur smeygt undir endana á 1 og 2, og ofan á þá 3., annari að ofan en hinni að neðan. Þá er alt fast og skemmuþilið fullgjört.

Af **þankabroti** hefi eg séð, stutta lýsíngu á blaði, sem er skrifað

---

[1] *Íslenzkir málshættir* safn. af Dr. H. Scheving. Boðsrit frá Bessastaðaskóla 1843; — *hvað sástu líkara* (G. J.) [2] Íslendinga sögur. III. Kmh. 1875; bls. 832. [3] Hrs. Bmfj. 63. 4to; bls. 158. [4] = allur þ. e. allir. [5] ɔ: *til skiptis.* [6] ɔ: þess verður að gæta. [7] I; bls. 532. [8] *Hrs. AM.* Sbr. bls. 8, 2. nmgr.

Nú er vandinn að losa hríngana sundur svo að hægt sé að taka hvern af öðrum af járnteinunum og smeygja þeim upp á þá aptur. Það er mál manna að varla nægi þrjár stundir til listar þessarar, og er nafnið dregið af því. Annarsstaðar segir Jón að hugvitsmaður nokkur, er setið hafi í fángelsi, hafi fundið upp leikfáng þetta sér til dægrastyttíngar og verið látinn laus fyrir bragðið. B. H. segir að dægradvöl sé verkfæri það sem hríngleikur (Ringleg) sé leikinn með.

Heimildarmaður minn J. Ól. bætir því við að list þessi sé ekkert barnameðfæri og er það víst dagsanna. Annars er hún enn við lýði. V. G. minnist á hana og Valdimar Ásmundsson í sóknarlýsíngu Svalbarðssóknar, en hvorugur lýsir henni.

Eg hefi feingið dægradvöl frá séra Eggerti Brím, og segist hann hafa þekt leikfáng þetta í úngdæmi sínu. »Það er teinn með götum, á sýnishorninu 12, en mega vera fleiri eða færri — eg man eptir dægradvöl með 14 götum. Upp um hvert gat geingur teinn, og er á enda hans hríngur, er geingur yfir um ás næsta teins og verður þá á öðrum endanum hríngur, sem er laus þ. e. geingur eigi yfir neinn tein. Allir hríngirnir þurfa að vera lóðaðir saman og öll samskeyti. Hríngakerfi þessu fylgir vírlykkja, lóðuð saman í annan endann, eða vírsveigur«. Ekki er mér ljóst hvernig á að fara að vinna þessa þraut, en það vakir þó einhvernveginn fyrir mér að það eigi að koma hríngunum upp á vírsveiginn, enda virðist það koma saman við lýsíngu J. Ól.

**Kljádús** veit eg heldur ekki annað um en það sem J. Ól. segir: »Kljádús eru tvö spjöld aflöng með þremur streingjum, sem eru fastir á skakk í bæði spjöldin. Þar að auki hafa þeir einn streing lausan, lángsetis, eður þunnan tréspón. Þegar þeir snúa fyrir sér spjöldunum, er streingrinn ýmist laus eða fastur, eptir því sem þeir þá mæla fyrir, sem er svo:

Fjölkunnugur[1] fleinn
farðu undir einn,
viljir þú eigi svo
[þá farðu[2] undir tvo.
stíg eg á strá
stöktu[3] undir[4] þrjá.
Leik eg [þér svo[5] laungum
liggðu undir aungum.

g þá er streingurinn laus. Má gerast á tveimur gömlum spilum«.

tur adeo ut unus post alterum possit eximi iterumque eodem modo lineis suis ferreis immitti«.

[1] Sleppir J. Árn. eptir hdr. Hannesar biskups Finnssonar. [2] viktu J. Ól. undir kljádýr.
[3] stíng eg, sama heim. [4] yfir, J. Árn. (H. F.) [5] það (slikt) sama heim.

Lýsíng þessi er ekki svo ljós sem vera skyldi, en því verður að tjalda sem til er. Orðið kljádús er ekki mitt meðfæri og það bætir alls ekki úr skák, þótt Jón Magnússon riti það kledws í málfræði[1] sinni og segi að það sé kallkyns.

Annars skýrir Jón orðið, en skýríng hans er mjög óheppileg eins og flestar orðskýríngar, sem eg hef rekið mig á hjá honum. Hann vill leiða það af (að) kljá dug-fús ɔ: fús á að sýna dug við að kljá streingina eða koma þeim í reglu. Hann segir líka að sumir kalli leikfáng þetta kljádýr og lýsir hann því aptur undir því orði, en sú lýsíng er eingu greinilegri en hin, og er því ekki til neins að fjölyrða um hana. Loksins segir hann að sumir kalli leikfángið krjádús og krjádýr, sem líka komi fyrir í orðtækinu: þetta er skrítið krjádýr, og á krjádýr að þýða þar svipað og kríli. Loksins má geta þess að hjá Jóni eru tvær myndir af kljádús, önnur undir leikur, en hin undir kljádýr, en það er sá galli á þeim, að það er ómögulegt að koma þeim saman við lýsíngar hans. Aptur eru þær mjög líkar gestaþraut.

Séra Jón Ýngvaldsson getur um leikfáng þetta í orðasöfnum sínum, en ekki þekkir hann nafnið kljádús. Hann segir: »Leikur sá er kallast fjölkunnugur fleinn tíðkast norður hér, og verður honum ei lýst svo ókunnugum skiljist, en við leiknínguna hans er hafður þessi þuluformáli:

Fjölkunnugur fleinn
farðu nú yfir einn,
viljirðu valla svo
víktu þér yfir tvo;
stíng eg við þér strá,
stöktu yfir þrjá;
leik eg við þig laungum
og liggðu undir aungum.

Hákon Hákonarson í Brokey hefir sagt J. Árn., að kljádús héti öðru nafni vefjarleikur; annars lýsir J. Árn. kljádús, en lýsíngin er gestaþrautarlýsíng. Þetta kemur heim við myndir J. Ól., og er því eingin efi á, að kljádús og gestaþraut hefir verið ruglað alveg saman.

**Gestaþraut** hefi eg feingið frá Pálma Pálssyni og séra Eggert Brím,

Í annari, útgáfu sem er af þessum formála undir kljádýr, er næsta línan á eptir »stíng eg undir þrjá» svona:

»fer eg svo með fjóra etc.«

og hefir hún líklega endað alt öðruvísi en sú sem hér er færð til.

[1] Grammatica Islandica. Bls. 20 í afskript J. Ól. í safni AM. nr. 29,c. 4to. Þar er líka örstutt lýsíng á kljádús.

og er dálítill munur á þeim. Gestaþraut Pálma er þunn spýta, bjúg, hérum bil þumlúngur á breidd. Niður úr miðjunni á henni er breitt ávalt typpi og er gat í gegnum það. Eins er gat í gegnum báða endana á spýtunni. Í gegnum miðgatið er brugðið kappmellu, en hvor endinn á bandinu hnýttur í sitt endagat. Á öðrum bandbugnum leika tvær trétöflur, önnur talsvert stærri en hin, og er stærri taflan nær typpinu. Á hinum bugnum leikur að eins ein tafla jafnstór þeirri minni hinum meginn. Gestaþraut séra Eggerts er gerð svipað úr garði, en þar leikur ekki nema sín tafla á hvorum bug, báðar jafnstórar. »Þrautin er í því falin að koma báðum litlu töflunum saman eða flytja aðra yfir til hinnar, án þess að leysa nokkurn hnút«[1]. Sama á sér stað með gestaþraut séra Eggerts, því stóra taflan á gestaþraut Pálma er víst ekki til annars en að þrautin skuli líta enn þá ómögulegar út. Það segir sig sjálft að miðgatið má ekki vera svo stórt að töflurnar komist í gegnum það. Það er ekki áhlaupaverk fyrir óvana að vinna þrautina, en illmögulegt, að lýsa öllum þeim brögðum, sem þarf til þess, og leiði eg því hest minn frá því. Þess má geta að eg hefi heyrt Þíngeyíng kalla gestaþraut dægradvöl.

Eg hefi líka feingið annarskonar gestaþraut frá séra Eggerti, og sé eg ekki annað ráð en að færa hér til uppdrátt af henni í náttúrlegri stærð.



Gestaþraut þessi er úr járnvír, og eru öll samskeyti á henni lóðuð saman, svo að ekki sé mögulegt að koma prettum við. Hún er í tveimur pörtum eins og myndin sýnir, og er vandinn að setja þá saman og ná þeim sundur aptur[2].

Húsfrú Karólína Jónsdóttir, kona Dr. Jóns Þorkelssonar ýngra, segist hafa heyrt í ungdæmi sínu í Eyafirði, að nafnið væri dregið af því, að í einhverjum stórharðindum (móðuharðindunum?) hafi eingum verið veitt inngánga né beini á heldri bæjum, sem ekki hefði áður leyst gestaþraut, frammi í bæardyrum.

Svipuð gestaþraut er að leysa Tyrkjabát. Það kvað vera vestfirzk

---

[1] Pálmi. [2] Eg skal geta þess að Stefán Stefánsson kennari á Möðruvöllum hefir dregið gestaþraut séra Eggerts upp fyrir mig.

þraut og er komin til mín frá Pálma Pálssyni, en Halldór Guðmundsson skólakennari sagði honum. »Það er sagt að Tyrkir hafi einusinni tekið mann einn kristinn og ætlað að geyma hann næturlángt í bát, er festur var við skip þeirra; gat maðurinn með eingu móti forðað sér nema með því að leysa bátinn frá skipinu, en hann var rammlega bundinn svo sem nú segir. Um aptara stafnlokið var gerð kappmella og bandið síðan dregið fram eptir bátnum og brugðið með *skutilbragði* um þóttu eina miðskipa, og því næst fest um fremra stafnlokið með skutilbragði og síðan fest við skipið«. Það er búin til grind og á hún að tákna bátinn. Grindin er eins og ferstrend umgjörð um t. d. spegil, en um hana miðja liggur þverslá og er það þóttan. Bandinu er nú brugðið eins og segir í sögunni og endarnir bundnir við eitthvað, sem á þá að vera skip þeirra Tyrkjanna. Ekki er mér ljóst hvernig á að vinna þrautina, en þess má geta að skutilbragð er tvöfaldur vafníngur utan um þóttuna og framstafninn.

Séra Jón Finnsson, sagði mér einu sinni, að þeir fyrir austan kynnu *að leysa sig úr tyrknesku fjötrunum*, og þykir mér líklegt að það sé sama og þetta.

Þá má nefna **gaflok**, sem eg hefi æfinlega heyrt kallað *pílu* fyrir norðan, en nafnið kvað þó vera við lýði bæði á Norðurlandi og á Suðurlandi[1] og svo nefnir Jón Eiríksson leikfáng þetta því nafni í formálanum fyrir Konúngs-Skuggsjá[2]. Hann segir að leikfángi þessu muni kippa í kynið til gamla gafloksins. en það var skotvopn og er nefnt í Konúngs-Skuggsjá, bls. 387, og miklu víðar í norrænum fornritum. Annars lýsir Jón Eiríksson þessu seinni tíma gafloki svona:

Fyrst er smáspýta tegld þráðbein. Framan í hana er rekinn broddur, misstór, eptir því hvað skaptið er gilt. Á apturendann má festa fjaðrir hverjar andspænis öðrum, jafnmargar hvorum meginn. Þó er betra að hafa fluginn úr pappír og er eptir því betra sem hann er stinnari. Það er klipptur pappírsferhyrníngur. Þó á að vera svo lítið horn á tveimur hliðunum á honum. Hann er svo brotinn saman eptir báðum skáhornalínunum. Þá eru allar hliðarnar sveigðar inn, svo að bréfopið verður eins og fjögra blaða rós. Svo er krossskorið inn í skaptendann og mjóa endanum á bréfinu stúngið inn í skorurnar, en fliparnir á bréfopinu standa hver í sína áttina; halda þeir gaflokinu í jafnvægi og bera það. Svo er því kastað beint úr hendi. Það fer hart, því loptið þenur bréfið út, og það kemur altaf á oddinn, hvernig sem því er kastað.

Lýsíngu J. Ól. á gafloki ber alveg saman við þessa, og eg hefi vanizt pílu alveg eins, nema eg hefi ekki vanizt neinum hliðahornum á flugnum.

Eg hef líka vitað únglínga leika sér að **boga** úr stinnum sviga eða

---

[1] Þ. Erl. [2] Kong-Skugg-Sjo. Soröe. 1768; bls. LVI.

kresrifi. Endarnir eru þá reyrðir saman og verður bandið að vera vel strítt. Því næst er ör lögð á streinginn og er optast hak fremst á henni að neðanverðu, sem skorðar hana við bogann. Þegar ýtt er undir hakið þýtur örin af stað. Séð hefi eg margbreyttari boga, en kann ekki að lýsa og veit heldur ekki nema þeir sé smíðaðir eptir útlendum dreingjabogum.

Pílubog**a** nefnir séra Guðmundur Jónsson[1] og telur hann til hættulegra barnaleikja. Það er líklega bogi, þar sem örin er ydd.

Stundum skemta únglíngar sér við það að leika bardaga úr sögunum, en ekki eru vopnin önnur en spýtur eða eitthvað þess háttar. Dæmi eru til þess að fullorðnir menn hafa haft það sama fyrir stafni. Páll Melsteð skrifar mér þannig: »Einn veturinn, þegar eg var í skóla, kom það fyrir að sjómenn hér í Reykjavík léku þá Arngrímssonu og Odd og Hjálmar. Þeir höfðu einhver vopn og börðust og hermdu eptir því sem í sögunni segir. Oddur feldi þá 11 berserki. Mig minnir að Odd léki Magnús Halldórsson, stór maður vexti, bróðir séra Arngríms á Bægisá«[2].

**Rella** er sett upp á húsburstir eða strompa og gerð þannig úr garði, að hún snýst fyrir vindi. Við snúnínginn kemur fram hljóð, svipað brestum í hrossabresti nema lægra.

**Söguнarstrákar** tíðkast einkum á Suðurlandi. Það eru tvær spýtur í mannsmynd, sem hreifast fram og aptur fyrir vindi eins og rellan.

J. Ól. og B. H. nefna barnaskröpur. B. H. kallar þær líka skröp og barnaskröp og segir að þær séu leikfáng: »Rangle. Skralde til at lege med«, svipaðar rellu eptir því. Eins þýðir hann glamm eða glamur og vípur, en J. Ól. segir, að vípur sé eitthvað grant t. d. prik, sem hægt sé að hreifa fram og aptur mjög fljótt. Aptur segir hann að barnavippur sé sama sem barnaglíngur[3]. Eg þekki ekkert af þessum nöfnum og því síður verkfærin sjálf.

Enn er eitt gaman sem mér er ekki ljóst hvar eg á að vísa til sætis. Það er eins gott að nefna það hér eins og annarsstaðar. Það er að spila með keflum. Alt og sumt sem eg veit um keflaspil þetta er að það hefir verið tíðkað, því séra Jón Reykjalín segir í lýsingu Fagraness og Sjávarborgarsókna (1840): »Nokkrir spila með keflum helzt únglíngar«. Eg hefi spurt Skagfirðínga af næstu grösum við Skagann sjálfan, hvað þetta væri, en þeir hafa ekki verið neinu nær en eg. Mér þykir því líklegt að gaman þetta sé liðið undir lok.

[1] Sumargjöf handa börnum. Leirárg. 1795; bls. 122. [2] Grein þessi hefði átt betur heima í Inngánginum, bls. 24—5, en eg fékk ekki söguna frá *Páli Melsteð fyr* en fyrsta heptið var prentað, og þótti því réttast að smeygja henni hér inn. [3] Svipaða þýðingu hefir barnavípur í Laxdœla sögu (Akureyri 1867. k. 32, bls. 80), þar sem segir um Guðrúnu Ósvífrsdóttur, »at í þann tíma þóttu alt *barnavípur*, þat er aðrar konur höfðu í skarti, hjá henni«.

Þá koma nú **bandlistirnar**. Þar er skemtunin optast fólgin í því að koma böndum svo og svo fyrir, eða láta aðra greiða úr böndum sem komið er fyrir á vissan hátt. Annars þekki eg fátt af þessu tægi, nema að eins nöfnin á kunstunum, en það er réttara að tína þau til heldur en ekki.

Það er þá fyrst að minnast á leiki á bandi. Þ. Erl. hefir sagt mér frá þeim, eins og svo mörgu öðru, en þekkir þá því miður ekki nógu vel. Hann segist hafa vitað konu, sem kunni tólf leiki á bandi. Fyrsti leikur á bandi er líka kallaður minsti leikur á bandi og er það orðið að orðtæki syðra. Maður hefir nokkuð lángt band. Stint verður það að vera. Fyrst er það brotið saman í miðjunni, þannig að bandið myndar hliðar í rétthyrndum þríhyrníngi, nema hvað sneitt er fyrir hornið. Þar er bandið líka tvöfalt. Svo er neðri bandálman brotin ofan á hornið. Þá hin álman brotin ofan á þá fyrri og svo koll af kolli, svo leingi sem vera skal eða bandið endist. Eptir alt saman er orðin bandbrotaleingja úr bandinu, sem draga má sundur og saman. Eg þarf ekki að lýsa henni, því hver getur búið hana til sem vill. Eg hefi heyrt þessa leingju kallaða harmoníku fyrir norðan, en hin nöfnin hefi eg alls ekki heyrt. Hinir leikirnir á bandi eru líka nefndir sérstökum nöfnum. Annar leikur á bandi er þannig kallaður starkóngur. J. Ól. drepur á hann, út af fyrir sig, og segir það sé ferstrendíngur úr böndum[1], eins og hnútar þeir eða brögð, sem eru þar sem stúngnir beizlistaumar eru skeyttir saman. Einn leikur á bandi heitir flækja. Þjóðsaga er til um þessa leiki á bandi, sem heimildarmaður minn man þó ekki, en víst er það, að þeir eru komnir til menskra manna frá tröllum.

J. Árn. nefnir að draga band í gegnum hálsinn á sér. G. K. nefnir að bregða bandi í gegnum hálsinn eða stínga nál gegnum hann og bregða bandi gegnum úlfliðinn eða stínga hníf gegnum hann. Jón prestur Ýngvaldsson nefnir líka að stínga hníf gegnum hálsinn á sér (J. Árn.). V. G. nefnir að draga band gegnum úlfliðinn og er það eflaust það sama.

Líka er til að fitja band upp úr greipunum. Bandi er brugðið einkennilega um greiparnar og kvað ekki vera neinn hægðarleikur að leysa[2]. Að binda bola á bás heitir það, þegar maður rennir kakkmellu[3] á bandi um úlflið sér, dregur svo bandendana báðum meginn við laungutaung fram á milli greipanna og bregður þeim yfir þumalfíngur, fer svo með endana aptur sömu leið, beggja vegna við laungutaung, og dregur þá upp í gegnum augað á kakkmellunni. Þegar maður smokkar svo bragðinu ofan af þumalfíngri og kippir í báða enda, á bandið að liggja alveg laust við hendina/og úlfliðinn, ef rétt er að farið, og hefir þá boli verið bundinn rétt á

[1] quadrati in loramentis«. [2] Þ. Erl. [3] Eg hefi altaf heyrt kappmellu.

básinn, en ef eitthvert bragð verður um hendina eða úlfliðinn, »heingir maður bolann[1]«.

Dr. Jón Þorkelsson ýngri hefir sagt mér vísupart þenna:

búinn er eg að binda á bás
bolann hornalausan.

og þykir mér líklegt að hann eigi við list þessa, því sjaldan mun naut vera kollótt.

Að skjóta sel í auga nefnir J. Árn, að eins, en lýsir því ekkert, nema hann segir að bandi sé brugðið um þumalfíngurinn.

Þá er skæraþraut eða að leysa skæri úr[2] bandi. Kappmellu er brugðið um annað augað á skærum, innanvert, og bandendarnir svo dregnir út um hitt augað. Þrautin er að leysa bandið úr skærunum, án þess að hreifa við endunum, sem lausir eru[3]. J. Ól. nefnir að leysa skæri[4] og segir það sé ef til vill sama sem kljádús. Varla.

Þá er að minnast á hnúta, því eg hefi vitað það haft til skemtunar að leysa og hnýta undarlega hnúta. J. Ól. segir líka að únglíngar skemti sér með því að leysa og binda sigurhnúta og sigurlykkjur, sem hann heldur að sé sama sem afbendishnútur og sánkti Péturs hnútur. Hann segir að í honum séu fjórir krossar, en lýsir honum ekki að öðru leyti. Aptur segir hann annarsstaðar að Pétursbnútur muni vera sama sem þýzkur (i) hnútur, en svo muni óbrotinn hnútur, tvöfaldur eða þrefaldur heita öðru nafni. Annars hefir sigurhnútur eða afbendishnútur verið hafður til annars en leikfángs. J. Ól. segir að »fáfróður almúgi setji hann á bak eður limi sjúkra skepna og leysi hann þar innan skamms, í því skyni að þeim batni. Í Þjóðsögum J. Árn. stendur líka: »Ef kona eða skepna getur ekki komizt frá fóstri sínu, þarf ekki annað en að hnýta sigurhnút og sigurlykkju upp yfir henni; það skal gera þrisvar sinnum. Fæðir þá móðirin fljótt og þjánfngalítið«[5].

Sigurhnúturinn er fyrir margra hluta sakir fyrir öðrum hnútum, enda er enn þá minna að segja um þá. J. Ól. nefnir auk hans læsihnút heldur en lásahnút, reipahnút, (hann á að vera svipaður eða sama og þýzki hnútur), rennihnút (af sögninni að renna; getur verið einfaldur, tvöfaldur eða þrefaldur) eða rembihnút, rósahnút valhnút (stytt úr orðinu valskur hnútur; opt á keyrum, hnýttur eða fléttaður úr nokkrum streingj-

---

[1] Eptir hdr. J. Árn. [2] af, Páll heitinn Pálsson. [3] Pálmi Pálsson. [4] Sama nafn er nefnt á blaði frá J. Árn. með hendi séra Jóns Íngvaldssonar.

[5] II; bls. 553. Sbr. Eggert Ólafsson: Reise igjennem Island; 211. Fyrir 12 árum síðan var enn hnýtt sigurlykkja yfir veikri kú, í Gullbringusýslu, skamt frá Reykjavík.

um) endahnút, lykkjuhnút (úr lykkjum, sem brugðið er saman) smérhnút[1], *bókahnút* og *orðahnút*. Orðahnútur er þó ekki verulegur hnútur, heldur orð skeytt haglega saman, og smérhnútur og bókahnútur hafa sjálfsagt heldur aldrei verið hnýttir. Séra Jón Ýngvaldsson getur um nokkra af hnútum þessum, en nefnir auk þeirra *riðhnút*, *nethnút*, *baggahnút*, *spyrðuhnút*, *línhnút* og *tvinnahnút*[2]. Dr. Jón Þorkelsson ýngri þekkir *hestahnút*. Séra Guðmundur Einarsson á Staðarstað nefnir *hnút hins helga Ólafs konúngs* í riti sínu móti Fjandafælu Jóns lærða[3]. Menn áttu að bera hann á sér, á móti öllum freistíngum, svo hann hefir verið nokkurs konar galdrahnútur. Eg hefi heyrt fáeina af hnútum þessum nefnda og svo *línuhnút*, *snærishnút* og *vefjarhnút*, *kappmellu*[4] og *færilykkju*. Um *skutilbragð* er getið fyrir skemstu.

Þetta er orðið sannkallað hnútabasl, en þó væri eflaust lafhægt að búa svo um hnútana, að enn þá fleiri hnútar kæmu í leitirnar ef vildi.

Eg hefi nú talið upp öll leiktól íslenzkra barna, sem eg þekki; en nú er eptir að minnast á ýmislegt annað glíngur og gaman, sem er flest miklu óbrotnara og drep eg á það eitt, sem mér þykir einna einkennilegust fyrir Ísland.

Það eru víst fáir Íslendíngar, sem ekki hafa búið sér til hús í úngdæmi sínu, stór eða smá, vönduð eða óvönduð[5]. Það er ekki ólíklegt, að sveitabörn í útlöndum búi líka til hús. Þó er það óvíst, því þau hafa miklu minna frelsi en börn á voru landi Íslandi, en til þess að búa til vönduð hús þarf mikinn tíma. Í annan stað liggur efnið í húsin, grjót, torf og spýtur ekki á eins lausum kjala og á Íslandi, þar sem víðast er ræktað land, akrar og garðar lángar leiðir alt í kríngum bæina eða býlin.

Aptur segir það sig sjálft, að víðast í útlöndum er ómögulegt að byggja snjóhús, en íslenzk börn leika það að list og vana. Það eru víst eins dæmi að eins vandað snjóhús hafi sézt á Íslandi og það sem skýrt er frá í Norðanfara 1875[6]. Það var búið til um gamlárið 1874 á Espihóli í Eyafirði, og komu Eyfirðíngar þar saman á gamlárskvöld. Þar voru borð og bekkir úr ís og jafnvel ræðustóll.

Ekki mun það heldur tíðkast að únglíngar í útlöndum búi til snjókerlíngar (snjókarla), ekki einu sinni þar sem nóg efni er til í þær. Reyndar er mynd af snjókerlíngu í Myndabók handa börnum[7] og er hún sjálfsagt útlend, en aptur hefi eg máli mínu það til sönnunar, að við Ís-

---

[1] Í Þjóðs. J. Árn. er mynd af smérhnút; I, bls. 432.
[2] Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 55. [3] Hrs. Bmfj. 93. 4to.
[4] Í Lögþíngisbókinni 1646, núm. 9 er nefnd »kookmella«, og er það eflaust sama sem kappmella. [5] Sbr. Piltur og Stúlka. II. útg.; bls. 13 og víðar. Um hús og ýmislegt annað brángs barna er líka getið í Núma-rímum eptir Sigurð Breiðfjörð (Viðey 1835); bls. 28. [6] XIV; bls. 14. [7] I. Kmh. 1853; 4. mynd.

lendíngar höfum nokkrum sinnum búið til snjókerlíngar í garðinum við Regensen (Garð) í Kaupmannahöfn og höfðu eingir félagar okkar meðal Dana séð þvílík teikn og stórmerki úr snjó. Það hefir leingi verið siður, eg veit ekki hvað leingi[1], í Reykjavíkurskóla að piltar hafa feingið frí úr kenslutímum einu sinni á vetri til að búa til snjókerlíngu, þegar snjór var mestur og bezt fallinn til hleðslu. Nú er siður þessi lagður niður og er leiðinlegt, því hann er eitthvað svo íslenzkulegur, þótt hann sé ef til vill ekki mjög gamall. Eg myndi leggja það til að hann væri tekinn upp aptur, ef eg hefði nokkuð að segja.

Þorsteinn Erlíngsson segir mér, að únglíngar á Suðurlandi, skemti sér opt við það að búa til völundarhús. Völundarhús þessi eru hér um bil ferstrend og krókótt mjög, en þó svo að hægt er að þræða frá inngánginum inn í mitt húsið. Stundum segir Þorsteinn að tveir inngángar séu á húsinu. Krökkunum var sagt að tröllskessa ein hefði geymt menn þá sem hún rændi í völundarhúsi (líklega þángað til þeir væru orðnir nógu feitir til slátrunar), og hefði henni haldizt það uppi leingi vel, en loksins hefði einhver komizt út úr húsinu, og kent það svo öðrum sem inni voru, svo skessan hefði gripið í tómt. Optast voru völundarhúsin krítuð á gólf eða borð. Stundum voru þau búin til úr kindarleggjum, leggir lagðir hver við endann á öðrum, en stundum rist niður í sand. Svo voru gaungin prædd með prikum.

Völundarhús hafa þekkzt á Íslandi frá því í fornöld og má marka það af myndum, sem er til af þeim í gömlum handritum íslenzkum, jafnvel frá hér um bil 1300 (AM. 432b 4to). Í AM. 736 III 4to, sem er frá seinna hluta 15. aldar, er líka mynd af völundarhúsi, og saga um hvernig völundarhús séu til orðin. Þar segir að dóttir Sýrlandssoldáns hafi kent Egeasi nokkrum að gjöra völundarhús, til þess að geta drepið ófreskju eina. Egeas átti að fá hennar þegar skrímslið væri dautt. Báðar þessar myndir eru 8 hríngir, hver utan yfir öðrum. Á milli hrínganna eru þverstryk, en öðrumhvorum meginn við þau eru feld svolítil stykki úr hríngunum, svo það er mögulegt að feta sig innum skarðið á yzta hríngnum og alt inn í innsta hríng, en heldur er það villugjarn vegur og krókóttur mjög.

Á Þíngeyri í Dalasýslu er völundarhús. Veggirnir eru úr torfi, hér um bil kvartil bæði á hæð og breidd. Völundarhús þetta er fremur óskipulega gjört. Við Hólmarifsvík í Steingrímsfirði vestur sáust rústir af völundarhúsi á dögum Ólavíusar[2]. Í AM. 213. Svo er þess getið, að völundarhús sé á Bíldudalseyri vestur, sem sagt sé að Þjóðverjar hafi gjört. Í Ny kgl. Samling, nr. 1093. fol. eru tveir uppdrættir af völundarhúsum eptir séra Sæmund Hólm.

---

[1] *um snjókerling, sem skólapiltar* gjörðu í marz 1860, er kvæði í Snót II. útg.; bls. *381—83, eptir Jón Hjaltlín* skólastjóra. [2] Oeconomisk Reise igjennem *Island. Kmh. 1780; bls.* 187.

Önnur myndin segir séra Sæmundur að hafi fundizt á Íslandi, högg á steinstólpa eða steinkross og rúnastafir með. Bæði völundarhús séra S mundar eru kríngló̃tt, og svipuð þeim sem eru í Árnasafni, en þó e alveg eins. Páll Melsteð hefir skrifað mér um völundarhús skamt frá Dr vík í Snæfellsnessýslu: »Það voru steinar ekki stórir, en lagðir á sléttum ba eins og strykin liggja á pappírnum, þar sem eg hefi séð dregið upp völun arhús (Labýrint)[1] Steinarnir voru jarðgrónir, það var ekkert sérlegt vand smíði, en það sýndi þó að einhver vermaður hafði haft hugmynd um sli hluti«.

Kr. Kålund heldur að völundarhúsin íslenzku eigi rót sína að rekja útlanda, og er það mjög sennilegt, því völundarhús voru opt höggvin kirkjugólf í útlöndum í gamla daga, og áttu að benda á það, hve vandrat væri um villustigu veraldarinnar. Ekki er vel ljóst hvað íslenzku völundarhús eiga að þýða úti á víðavángi. Menn hafa líklega að eins gjört þau sér skemtanar. Kålund getur þess líka til að þau kunni að standa í sambai við einhvern leik, en ekki þekki eg neinn leik, sem líklegt er að geti kon þar til greina. Loksins segir Kålund að þau muni vera gjörð á 15—] öld«[2].

Í Hrs. Bmfj. er drepið á völundarhús á tveimur stöðum 138a og 2 4to, en eflaust er hvorttveggja ómerkilegt.

Ekki munu heldur aðrar þjóðir en Íslendíngar búa til kellíngar bauluprjónum eða kellíngarprjónum og höfrum eða baulubeinun í þorskhöfðum. Þremur eða fimm prjónum er stúngið upp í holuna neð á baulubeininu, hverjum sínum meginn. Baulubeinið getur staðið á þe og stendur þá kellíngin bíspert. Eg get ekki skýrt frá hver þessi b eru enda þekkja víst allir þau, því hafur er norðlenzkt nafn en bauluprjó eða kellíngarprjónn sunnlenzkt, eptir því sem séra Jón Ýngvaldsson segi

Það er líka altítt að búa til ýsubeinsfugla eða fugla úr ýsubeinu stærstu þunnildisbeinunum[4] úr ýsu. Stundum er reyndar smíðað ýmisl annað úr ýsubeinunum t. d. ausur eða þá ferfætlíngar en optast fuglar. Eg hefi séð ýsubeinsfugl með tuttugu og fjóra únga utan á og var snilldarverk.

---

[1] Myndir þær sem maður sér af völundarhúsum eru venjulega margstrendar. Eg optast séð ferstrend völundarhús. Efri ummálslínan hefir annaðhvort verið lein eða skemmri en sú neðri, og hliðarlínurnar þá skáhallar. [2] Kr. Kål i Smaastykker. Udg. af Samfund til Udgivelse af gammel nordisk Litera 9—10. Kmh. 1887. Aarbøger for nordisk Oldkyndighed. 1882; bls. 86—88 Bidrag til en hist.-topografisk Beskrivelse af Ísland. I; bls. 495—6 og II; —416. [3] Hrs. Bmfj. 325. 4to; bls. 161, 281. Þess má geta prjónarnir heita radii branchiostegi í beinafræðinni, en hafurinn eða baulube ceratobranchiale að neðan en epibranchiale að ofan, því hann er í raun réttri bein vaxin saman. [4] Clavicula.

eptir því sem honum þykir líklegast. Nú er féð talið. Ef sá sem gat, átti kollgátuna, þá fær hann féð, sem hinn hélt á, til eignar og umráða, en ef hann gat skakt, þá verður hann að greiða hinum eins margar kvarnir og munurinn var á gátutölunni og tölunni í raun og veru.

Lýsíngu J. Ól. ber alveg saman við þessa, en hann kallar leikinn að getrast. Hann segir líka að optast sé getið um skeljar, einkum gimbur-skeljar[1], en nefnir þó líka kvarnir og völur.

G. E. getur um að getrast á en mér er óljóst, hvort hann á við þetta gaman eða gátur um hitt og þetta, sem þegar hefir verið minzt á.

Eg hefi feingið blað frá J. Árn. með hendi Sigurðar heitins Guð-mundssonar, málara. Þar stendur þetta: »Að getrast kallast steina-galdur í Þíngeyarsýslu«, hvort sem getrast er haft hér í merkíngunni að geta margs.

Í þýðíngunni á Crymogæa[2] er nefndur getríngaleikur og er það eflaust sama sem að getrast.

Að leika odda og jafna er sjálfsagt útlend skemtun, en hefir þó tíðkazt upp til sveita á Íslandi fyrir miðja öld, eptir því sem Sigurður L. Jónasson segir mér. Skemtan þessi er mjög skyld »að getast á«, en sá er munurinn, að hér er um að gjöra að geta rétt til þess, hvort tala kvarn-anna, sem hinn heldur á, sé jöfn eða ójöfn. Það er víst komið undir sam-komulagi, hvernig tapi og vinníng er farið. Skemtan þessi er nefnd í orða-bók Hákonar Jónssonar[3].

Loksins má geta þess, að altítt er að búa til ýmsa gripi úr pappír einkum skip og kassa. Eg treysti mér ekki til að lýsa hvernig farið er því, enda kann hvert mannsbarn á Íslandi það. Einkum eru skip úr pappír altíð. Auk þess hefi eg heyrt getið um að hægt væri að búa til buxur, ker, húfur o. s. frv., alt með því að brjóta pappír ýmislega.

Mörg fleiri barnaspil eru til, þótt þeirra sé ekki getið hér.

Flokkur þessi er nokkuð sundurlaus, einkum seinni parturinn af honum, og tek það því til bragðs að hnýta aptan í hann svolitlum pistli um brennur. Eg gat ómögulega komið þeim að annarsstaðar.

Brennur eru haldnar víða á Íslandi á gamlárskvöld[4], þegar veður

---

[1] Jón Guðmundsson lærði nefnir gimburskel líka barnaleik í riti sínu um Íslands aðskiljanlegar náttúrur (t. d. Hrs. Bmfj. Kmh. 171, 4to). Vera má að það standi í sambandi við gaman þetta, en líklegra er að það sé dregið af því, að börn leika sér opt að skeljum, bæði gimburskeljum og öðrum skeljum, eins og allir vita. [2] Ny kgl. Saml. 1281. fol.

[3] Hún er nr. 15 í safni Rasks. Orðabók þessi er latnesk-íslenzk og frá 1805.

[4] Sbr. Magnús Stephensen: Island i det 18. Aarhundrede; bls. 239 og Norðanfari XIV; bls. 14. Sveinn læknir Pálsson getur þess í ferðabók sinni (Hrs. Bmfj. 1 fol.; bls. 42—44 að skólapiltar í Reykjavíkurskóla (eldra) séu vanir að

leyfir, og flykkist fólk að eins og eðlilegt er. Ekki veit eg til að nokkrir sérstakir siðir fylgi þessum brennum og aldrei hefi eg vitað þær hafa nokkrar listir eða íþróttir í för með sér, en V. G. segist stundum hafa vitað menn glíma við þær. Á þrettándakvöld eru líka stundum haldnar brennur, að minsta kosti þegar því hefir ekki orðið komið við gamlárskvöld[1]. Loksins eru dæmi til þess að brennur hafi verið haldnar við sérstaklega hátíðleg tækifæri. Þannig héldu Svarfdælir brennu á þjóðhátíð sinni 3. ágúst 1874 og þótti hin bezta skemtun[2].

---

halda brennu á gamlárskvöld, á hæð skamt frá skólanum, og kalli þeir hana eldfjallið[a]. Enn tíðkast brennur í Reykjavík á gamlárskvöld, en skólapiltar taka nú ekki þátt í þeim fremur en aðrir. [1] Sbr. Þjóðólfur XXVII; bls 32. Þar er getið um brennu við Skólavörðuna. »Skrauteldar voru þá og kyntir á Arnarhól» og hefi eg sjaldan séð getið um slíkt í íslenzkum ritum, sbr. þó Norðanfara XIV; bls. 51. [2] Norðanfari XIII: 102.

[a] »som de kalde Vulkan». Bendingin er tekin eptir hdr J. Sig. (Hrs. Svend Grundtvigs; nr. 66).

# VIÐAUKI.

Hér að framan er þess opt getið, að séra Hallgrímur Pétursson og séra Benedikt Jónsson nefni þessa og þessa list, eða þenna og þenna leik o. s. frv. Eins er á einstaka stað vitnað til taflvísu Jóns biskups Arasonar og Raupkorns, eptir séra Snorra á Húsafelli. Mér þykir fara vel á að prenta hér kvæði þessi og vísur í heilu lagi. Reyndar hefi eg sítérað þau við öll leikjanöfn o. s. frv., sem þar eru nefnd, en á hinn bóginn fer aldrei vel á því að slíta kvæði í sundur, í einstök orð, sitt á hverjum hverjum stað, og tel eg því jafnvel skyldu mína við höfundana, að færa þau hér til, eins og þau eru.

*Leikvísa og taflvísa séra Hallgríms Péturssonar.*

Eg legg til grundvallar útgáfuna, sem prentuð er í æfisögu séra Hallgríms, eptir Gísla Konráðsson[1]. Auk þess hefi eg fyrir mér 5 aðrar útgáfur. Ein er í leikjaritgjörð Jóns Ólafssonar (A). Önnur er í leikjaritgjörð séra Guðmundar Einarssonar (B). Þá þriðju hefir Jón Árnason skrifað eptir konu Jóns Péturssonar (frú Sigþrúði Friðriksdóttur) (C). Séra Jón Yngvaldsson hefir sent J. Árn. þá fjórðu (D). Séra Einar Friðgeirsson hefir útvegað mér þá fimtu (E).

Í Gesti Vestfirðíngi segir svo frá vísum þessum: »Það segja menn, að Hallgrímur prestur væri þá gamall, er hann kvað vísu um leiki þá, er fyrrum voru tíðkaðir, þannig:

Áður mig[2] beygði elli
eingan leik eg sparði,
mér[3] var[4] mentin kríng[5]:
rífa ræfil úr svelli,
reka naut frá garði,
reisa horgemlíng,

---

[1] Gestur Vestfirðingur. V. Kmh. 1855; bls. 81—82. [2] en BCE. [3] mín B. mörg E. [4] fórst B. [5] slýng B, kringt B (J. Árn.)

standa' á höfði og steypa klukku'[1] um vetur,
stika legg[2], og járna rymbutetur,
fara' í strokk og stafa kúrvelskt[3] letur
stömpum velti' eg hverjum manni betur.

E bætir hér aptan við:

Kunni eg kjöl á fara,
kellínguna líka,
á ristum gekk um rann,
konstugum knetti snara,
koss fékk hjá mér píka
saltið vega vann[4] — — — —

Hér hættir E. C. færir að eins til fyrstu línurnar. Hinar útgáfurnar geta alls ekki vísu þessarar.

Gísli Konráðsson eignar líka séra Hallgrími taflvísu þessa:

»Kotru kunni' eg forðum,
[kopar í alin[5] líka
við[6] dánumann tefldi' eg títt.
Það skipti eingum orðum,
eins fátæka og ríka
lék eg stundum lítt;
forkæríng og færitafl[7] að[8] skoða
fæstum mun[9] það alt[10] í minni loða,
ofanfellíng, Ólafstafl og goða,
elta stelpu[11] kalla' eg lítinn voða.

*Ellideilur.*

Þegar Dr. Jón Þorkelsson yngri var í Skotlandi sumarið 1890 fann hann þar meðal annars kvæði, sem ekki hafði þekzt áður. Það var í safni Finns Magnússonar í Advocates Library 80.12mo og hafði Ólafur Gunnlaugsson í Svefneyum, faðir Eggerts Ólafssonar, skrifað syrpu þá, sem það var á, 1712. Dr. Jón segir að kvæðið muni vera eptir Jón Jónsson á Helgavatni, föður Gísla í Melrakkadal, og vera ort um 1630—1650.

[1] klukkur AE. [2] stilla leggi E. [3] kúrels A, kúriskt B. [4] Viðbót þessi er prentuð í Fjallkonunni 1877; bls. 128, en þar vantar þó aðra línuna. [5] kopriálinn CE, pipriálinn D. Kopriálinn er eflaust réttara en kopar í alin, sem virðist að eins vera afbökun úr því orði og eflaust sama sem píprjáll, eins og séra Jón Yngvaldsson hefir það. [6] sleppa CDE og er það réttara, því dánumaður er hér eflaust sama sem dánumannstafl eða dándimannstafl. [7] hærutafl C, en það er eflaust að eins afbökun úr færitafl, færutafl E. [8] rjeð D. [9] vill CE. [10] helzt CE. [11] stelpur C.

Skáldið þykist vera orðið gamalt og koma að »garði einum«. Þar er gleði mikil og allskonar skemtan. Þar er fyrir kona úng og fögur og á hún að merkja æskuna. Í tveimur fyrstu erindunum er ekkert leiklegt, en í 3. erindinu segir höfundurinn:

3. Þessi skein með fegurð og frygð,
fargaði allri mannsins stygð,
seggjum marga sætleiks dygð
sagðist kunna að veita;
dansa og tefla dreingjum bauð.
drós var ekki á það trauð,
gleðinnar efldu allan auð,
sem á kann hjartað leita.

4. Reipagaungu og reyna sund
rekkum kendi þetta sprund,
heiminn bera á hægri mund[1].
hlaupa, spránga og steðja,
ríða í dust og rjóða sverð,
reika marga snildar ferð,
þýða lokka þorna gerð,
þar með holdið gleðja.

5. Bitahlaupum báru sig að,
brögnum felst ei illa það,
uppköstin[2] í annan stað
ýtar með sér reyna;
einnig prófa öflin stór,
afrek þetta víða fór,
söðla spráng[3] og sitja á jór
siður var margra sveina

6. Handahlaupin höfðu þrátt,
hnattleikinn og skinnadrátt.
reyndu faung með megn og mátt
og marga snildarleika,
pönsurum fleygðu[4] af prýði þar.
pípnahljóðið stundum var,
gígjan saung í glugga mar,
gott mun úti að reika.

---

[1] Er það leikur? [2] sbr. bls. 142—143. [3] eflaust reiðmenska. [4] einhver vopnaburður.

7. Streingja rödd sem mátti mest,
mætleg spilin fögur og flest,
salterurnar[1] sungu bezt
saman og harpa í ranni,
sýtur[2] og fiðla, symfón dýr,
samdi organ hljóðin skýr;
sláttugillinn[3] skær og skýr
skemti mörgum manni.

Í 8. vísunni er ekki minzt á neinar skemtanir. Í 9. vísunni stendur þetta:

Steini að varpa var þeim kent
voru þar líka spjótin hent;
skatnar frömdu skólament.

Það sem eptir er af kvæðinu eru deilur milli æskunnar og ellinnar og kemur ekki skemtunum við.

*Um leikfáng*[4]

eptir Hrs. Bmfj. 311. 8vo. A, Ísafold VI; nr. 32. Þar segir að kvæðið sé eptir séra Benedikt Jónsson í Bjarnanesi (1691—1744). B, brot hjá J. Ól. C, Hrs. J. Sig. 130. 8vo.

Fornu aldar man eg menn
mjúka leiki frömdu,
góðan héldu gleðskapenn,
gamanið sig við tömdu,

Bóndaglímur[5], bitahlaup,
bregðast við[6] á hæli:
þetta sá eg, það er ei raup,
þótti mér inndæli.

Hríngbrot, flögur[7], hlaupa' á bak,
hnipur að vefja í dróma,
[berja ál[8] og[9] baggatak,
bezt mér þótti sóma.

Sveiflur, brögð og sveina'-uppkast[10]
sumra voru læti;

---

[1] = salteríum? [2] = gitar. [3] Orð þetta hefi eg hvergi heyrt annarsstaðar. [4] Anno 1600 fornöld. Anno 1700 nýöld B. [5] Bændaglímur AC, Bændaglíma B. [6] viða AC. [7] fljúga [8] álpt AC. [9] brenna nipt og B. [10] köst AC.

finngálkns[1] fylgdi hestreið[1] hast[2],
hoppa á öðrum fæti.

Skjaldmeyjar[1] með fínan[3] fót
fyrri sá eg á gólfi,
liðugar við leikamót,
líkt sem skotið kólfi.

Krækilblindu og lögmannsleik
léku karlar úngu,
geingu á rist[4] og komust á kreik,
kátir nær því sprúngu.

Öld er komin önnur víst,
ellin leika skerði[5],
Úngur dreingur ætlar sízt
að hann gamall verði.

Únga dreingi, [er eins[6] að sjá
sem alilömb á vori;
[nær kemur elli kroppinn[7] á
þeir kvíða hverju spori.

Þetta alt til fyrna fer,
fyrir oss öllum saman;
ellin beygir úngu ker,
aflegst forna gaman.

Ekki get eg únga tvo
augum séð nú glíma
þetta geingur þanninn svo.
Þökkum guði tíma.

*Taflvísa Jóns biskups Arasonar.*

Jón biskup Arason hefir ort margar vísur og er þetta ein, er hann mælti fram einn vetur, er menn komu til hans og hann þóttist ei mjöð eður munngát fyrir hendi hafa, sínum gestum að veita:

Til hefi' eg tafl með spilum,
tölur sem leggi og völur,
skák með sköfnum hrókum,
skjótt og kotru hornótta

[1] Finngálkn, hestreið og skjaldmeyar eru vikivakaleikir, og er þeim því ekki lýst í þessum kafla safnsins. [2] höst AC. [3] fiman AC.
[4] ristum AC. [5] skerðir AC. [6] ætti A.
[7] komin er ellikreppan A, komin er elli kappann C.

hörpu heldur snarpa,
hreysta með girnis neistum
fón[1] með fögrum sóni,
feingið til lykla og streingi[2].

Jón biskup á að hafa kveðið vísu þessa um 1530.

Til samanburðar færi eg hér til tvær vísur, þar sem fornmenn telja upp íþróttir sínar. Önnur er eptir Harald konung Sigurðarson[3].

Íþróttir kann ek átta,
Yggs fet ek lið at smíða,
fœrr er ek hvast á hesti,
hefik sund numit stundum;
skríða kann ek á skíðum,
skýt ek ok rœk svá at nýtir;
[þó lætr Gerðr í Görðum
gollhrings við mér skolla[4].

Hin er eptir Rögnvald Orkneyajarl Kala.

Tafl em ek aurr at efla
iþrottir kann ek .ix.
tyni ek traulla runum
tijd er bok ok smidir.
skrida kann ek aa skidum,
skyt ek ok ræ sua at nytir
huartueggia kann ek at hyggia
harpslatt ok bragþaattu[5].

En eitthvað hlýtur að vera bogið með aðrahvora þessa vísu, eða að minsta kosti eru seinni hlutarnir á þeim grunsamlega líkir.

*Raupkorn*[6].

Eptir séra Snorra Björnsson á Húsafelli.

---

[1] »þ. e. symfón«. [2] Biskupasögur II. Kmh. 1878; bls. 454. 572. Vísa þessi er líka prentuð í Árb. Esp. III; bls. 131. Þar er hún alveg eins nema »lykt« er í staðinn fyrir »lykla« í seinustu línunni. »Lykt« gæti verið afbakað úr »lut«, en lút er einskonar gitartegund, sem tíðkuðust á miðöldunum helzt, hjá riddurunum, sem voru skáld og sem unnu mansaung og ástaæfintýrum. Lút tíðkast enn í dag hjá saungþjóðum svo sem Ítölum og Spánverjum (J. Árn. eptir Sigurði Guðmundssyni málara). Vísa þessa er líka prentuð í Annálum Björns Jónssonar á Skarðsá I; bls. 176. [3] Fornmannasögur VI; bls. 170. [4] eða: hvárttveggja kann ek hyggja
harpsloti og bragþátto
Sbr. seinni hlutann á vísu Rögnvaldar. [5] Flateyarbók II; bls. 440.
[6] Hrs. Bmfj. 125, 8vo.

Loksins tekur að linna raup
leikið fyr á árum,
liðug skoppa handahlaup
og bramma sund á bárum.

Veðrin þegar voðasnör
vildu skvetti gjalda,
kunni eg stýra knör að vör,
köld þótt risi alda.

Fór á lopti fjóra og einn
faðma nokkru sinni;
nú ljær rassinn salts mér seinn
sess í hlóða mynni.

Eg sleppi fjórðu vísunni, því hún snertir ekki íþróttir og er þar að auk mesta ómynd.

Svipaðar vísur eru í mansaungnum fyrir fyrstu rímunni í Bjarkarímum, eða rímum af Böðvari Bjarka, sem eru afgamlar. Þær eru þannig:

Mér er líkt sem manni þeim
minnist á hag sinn góðan,
geinginn er frá gleði og seim,
gjörir af elli móðan.

Reipagángan og reyna sund
rétt að hlaupa og steðja,
alt er þetta á eina lund,
eingan má eg nú gleðja.

Fyrri var eg fagur og fríður,
fimur við leika alla,
nú er einatt öðrum síður,
svo vill heimurinn halla[1].

Ekki er mér ljóst hvað hér er skilið við reipagaungu. Líklega er átt við einhverja list.

Sjálfsagt eru fleiri leikkvæði til og leikvísur, þótt eg hafi ekki komizt yfir þær, og væri æskilegt að þeim væri haldið til haga, því þau eru opt allmerkileg, sýna t. d. opt að listir og leikir eru eldri en flestir halda. Eg þekki að eins eitt leikkvæði, sem hér er ekki tekið upp, eptir séra Stefán Ólafsson[2] og sleppi eg því af þeirri ástæðu, að Bókmentafélagið hefir

[1] Vísur þessar eru teknar eptir: Om Digtningen i Island eptir Dr. Jón Þorkelsson yngra; bls. 152. [2] Únglingaskemtan. Kvæði I; bls. 32—36.

nýgefið það út. Eins er til fjöldi af vísum og kvæðum, sem minnast á leiki og **töfl**[1] og hefi eg sítérað alt af því tægi, sem eg þekti. og tekið upp í textann alt sem var eingaungu um einhverjar skemtanir vorar, en hitt þótti mér ekki þurfa að færa til í heilu lagi, hvorki þar né hér, því margt af slíkum ljóðum nefnir leiki að eins af hendíngu.

Það er annars einkennilegt, að svo margar lausavísur um töfl, **spil** o. s. frv. skuli ekki vera til nema hálfar, eins og svo margar vísur, sem getið er um hér að framan. Reyndar má vera, að sumir kunni vísur þessar heilar, þótt mér hafi ekki tekizt að ná í þær, og hefi eg þó haft Dr. Jón Þorkelsson á næstu grösum við mig og ekki sparað að spyrja hann, en hann er allra manna fróðastur um íslenzkan kveðskap á seinni tímum.

Af kvæðum þeim, sem minnast á íslenzkar skemtanir og alls ekki eru nefnd hér að framan, má geta um taflkvæði í safni Árna Magnússonar[2]. Það er »fornkvæði« og lýsir alls ekkert nokkru tafli, en er þó alleinkennilegt. Kóngsson er að tefla þar við kóngsdóttur, og liggur hvorki meira né minna við taflið en meydómur hennar[3]. Kóngsson vinnur taflið, eins og lætur að líkindum.

Séra Magnús Ólafsson í Laufási († 1638) orti líka tvær dróttkvæðar vísur á latínu um **skáktafl** og sendi Óla Worm. Þær eru prentaðar tvisvar sinnum[4] og fremur ómerkilegar, en vert þótti að minnast þeirra, því latínskar vísur, dróttkvæðar, eru ekki á hverju strái.

Hér má loksins minnast á **heimslystavísur**, því þær eru máli þessu allskyldar. Heimslystavísur eru vísur, þar sem talin eru upp gæði þau (nautnir þær), sem hverjum höfundi fyrir sig þóttu mest hér í heimi. Optast eru að eins nefnd þrenn gæði í hverri vísu, en einstökum sinnum þó fleiri, fern eða fimm. Lángflestar heimslystavísur telja blíðu kvenna, góða hesta og að sigla í góðum byr mestan unað, sem auðið sé að afla sér. Sumar bæta þó við **saung**, **spilamensku**, víndrykkju, eða setja þá öllu optar eitthvað af þessu í staðinn fyrir eitthvað af hinu. Nokkrar heimslystavísur, eru prentaðar í Kvæðum Stefáns Ólafssonar[5] og er einkennilegt við þær, að þar eru prestar taldir með mesta ágæti, sem til eru í heiminum, en vísur þessar kváðu líka vera eptir presta. Allar aðrar heimslysta-

---

[1] t. d. Taflvísur séra Stefáns Ólafssonar. Kvæði. II; bls. 47—50.

[2] AM. 148. 8vo. Sbr. Íslenzk Fornkvæði II, Kmh. 1859—85; bls. 33—52.

[3] Sama kemur fyrir í þjóðsögu sem eg heyrði úngur í Sléttuhlíð og skrifaði þar upp. Þar kemst kóngsson einn með brögðum inn í kastala þriggja kóngsdætra, systra, og teflir við þær allar um meydóm þeirra. Hann vinnur tvö töflin af eldri systrunum, en tapar því þriðja við þá ýngstu, en seinast kvæntist hann henni þótt ólíklega liti út um hríð.

[4] Olai Wormii — — Epistolæ. Hafn. 1751; bls. 356. Dr. Jón Þorkelsson ýngri: Om Digtningen i Island; bls. 470—471.

[5] II; bls. 8—9.

vísur, sem eg þekki, halda sér við »heiminn og hans lystisemdir«. Í nokkurs konar »heimslystakvæði« eptir séra Snorra á Húsafelli[1] eru góðir hestar, glímulistin, dansinn og blíða kvenna, talin »heimslystir«.

Lángflestar heimlystavísur veit eg komnar saman hjá Þorsteini á Upsum (Hrs. Bmfj. 635. 8vo). Þar eru þær 38. Fjarskinn allur er til af heimslystavísum annarsstaðar til og frá á stángli. J. Ól. færir til heimslystavísu undir list, og er hún svo einkennileg, að eg get ekki stilt mig um að taka hana hér upp:

Þrír eru hlutir, það eg veit,
þýða gleðja rekka:
konan feit og kakan heit
og kaldar áir að drekka.

---

[1] Fróðlegt Ljóða-safn. Akureyri 1856; bls. 75—76.

# LEIÐRÉTTÍNGAR OG VIÐAUKAR.

Bls. 1₄ XXIV *l.* XXVI. — 4¹⁵ ár *l.* úr.

— 8₃ númerunumí *l.* númerunum í. — Leikjaritgjörð séra Magnúsar er í Hrs. AM., nr. 968, 4to, en séra Guðmundar í nr. 970, 4to.

— 10³ Dr. Jón Þorkelsson yngri, sem hefir haft handrit þetta undir höndum, segir að það sje mjög ómerkilegt.

— 12⁴ J. Espólín hefir að öllum líkindum villzt á ártölunum 1746 og 1736. 3. júní 1746 er gefin út »Tilskipun um eitt og annað í hjónabandssökum« (Lovsamling for Island II; bls. 602). Þar er bannað að drekka vitabikar í veizlum og ýmsir fleiri veizlusiðir.

— 12₃ Huus-Vitianør *l.* Huus-Vitianer.

— 14₃ Fræðimannatali *l.* Rithöfundatali, því svo heitir handrit þetta réttu nafni. Sama villan er allstaðar í riti þessu, þar sem vísað er til Hrs. Bmfj. 385, 4to.

— 17¹⁷ Svipað kemst Árni biskup Helgason að orði: »Já, jafnvel leikir og spil, með hófi og siðsemi, er hentugt til hressíngar og gleðiauka, og hrósvert þegar skynsamlega er brúkað, og ei látið vera einkaiðja eður einkaskemtan.« Úr prédikun á 20. sunnudag eptir Trinitatis 1814 í Sýnishorni R. Chr. Rasks. Holmiae 1819; bls. 206.

— 21₅ Ekki veit eg hvort það er alls kostar rétt hermt að Þorrablótin eigi upptök sín að rekja til íslenzkra stúdenta í Kaupmannahöfn. Að minnsta kosti skrifar Jón Borgfirðíngur mér, að þorrablót hafi verið haldin í félagi einu í Reykjavík 1867 og aptur 1870. Íslendíngar í Kaupmannahöfn hafa haldið þorrablót optar en 1873. Eg hefi þannig séð kvæði eptir Gísla heitinn Brynjúlfsson, Þorraljóð, sem súngin voru við þorrablót, þorraþrælinn 1877. Séra Eggert Brím skrifar mér að Sigurður Guðmundsson málari hafi komið þorrablótunum á gáng í Reykjavík og muni þorrablót fyrst hafa verið haldið þar 1867. Í Kvæðum séra Mattíasar Jochumssonar séu »Þorrablótsvísur 1863«, en það ártal sé rángt, því vísurnar hafi verið súngnar í þorrablótinu 1867.

— 24⁶ að safna *l.* »að safna. — Fyrsti »klúbbur«, sem menn þekkja til á Íslandi var í Reykjavík um 1838. Að minnsta kosti eru »Love for Reikevigs Klubselskab« prentuð í Viðey 1838. »Klúbbur« þessi mun ekki hafa orðið lángær. Bræðrafélag hét félag eitt, sem stofnað var í Reykjavík 1852. Þá eru lög þess prentuð. Hann hafði svipað mark og mið og Reykjavíkur klúbbur 1881. Sjómannaklúbburinn (1875—7) og Íngólfur (1882—6) voru líka skemtifélög, að minnsta kosti meðfram: bæði í Reykjavík.

Vífill í Vífilsey 157.
Vigfús Jónsson, prestur í Hítardal 138.
Vigfús Jónsson, Högnasonar á Hólmum 235.
Vigfús Jónsson á Leirulæk 82, 162.
Vigfús Thórarensen, sýslumaður 262.
að vígja skolla 104.
vikivakar, vikivakalög 2–3, 5, 8–9, 11, 14—17, 21, 124, 134, 138, 203, 208, 210, 236, 242, 250, 268—69, 362.
Víkverji 47, 94, 246.
Vilmundarrímur 162.
Vínagleði 213, 243.
Vínaspegill 250, 253.
að vinda loptkött 157.
að vinna kotrueið(inn) 302.
vípur 349. Sbr barnavípur.
Vísdómsbók séra Páls í Selárdal 168.
Vísnabókin 1612 210–12. 1748 211.
vísnasópur 223.
vist 337.
vísur 13, 31–32, 41, 48, 61, 68, 79, 93, 100, 103—5, 108–11, 122—24, 145, 152–55, 157, 161—62, 169, 173–82, 184—87, 189—91, 193—200, 211, 213 —14, 217–22, 224–35, 242, 250—53, 255—60, 263, 266, 268–69, 273, 276 —77, 292—95, 302—3, 305–6, 317, 319–21, 324—26, 328–29, 337, 342, 345–46, 351, 354—64, 366.
að vita hvað annar hugsar 192.
að vita hvort einhver er (verður) góður skrifari 172.
vitlaus hundur 336.
vopnaburður (í Vestmanneyum) 94, 97.
vopnaleikur 138.
vopnfimi 96–97.
Vopnfirðíngar 45.
vængjamylna 301.
vökunætur 94, 209.
Völsúngarímur 207.
völuleikur 139.
völundarhús 353–54.
völur 355–56, 362.
Völuspá 183, 249.
vörðuleikur 120–21.

Walther, C. 322.
Wolff 277.
Worm, Kristján 287.
Worm, Ole 295, 365.

Xanthippe 226.
Xeres = Xerxes 226.
Xerxes, Persakeisari 226–27, 231—33.

yfirtök 69.
ýlustrá 273.
ýsubeinsfuglar 354.

Zorgdrager 295—96.

það sem forvitinn má ekki vita 173.
þánkabrot 343—44.
þánkapinni 344.
að þekkja á hverjum af þremur hlutum hefir verið tekið 192.
þeytispjald 343.
þíng 39, 41.
Þíngeyarsýsla 50, 74, 84–85, 253, 269, 356. Þíngeyíngar 95, 347.
Þíngeyrar í Húnavatnssýslu 15.
Þíngeyri í Dalasýslu 353.
Þíngvallasveit 86, 122, 145.
Þjóðhátíð 21—22, 45, 47, 90, 94, 357.
Þjóðhátíðin á Oddeyri (pési) 90.
þjóðkvæði 251.
þjóðlög 242, 249, 251—54.
Þjóðólfur 14, 21–24, 46—49, 74, 79, 86 —87, 94, 96–97, 187–88, 216, 244, 246–47, 254, 267, 271–72, 280, 330, 337, 357.
þjóðsiðir 1, 18, 22, 85, 189.
þjóðsögur 1—3, 29—32, 40, 124, 126—27, 190, 198, 200—201, 251, 326, 331, 341, 347, 350, 365.
Þjóðsögur Jóns Árnasonar 4, 33–34, 42, 270. Sbr. Jón Árnason.
þjóðtrú 1, 29, 82, 89, 92, 95, 132, 165, 186, 222—23, 268–69, 273, 343, 351. Sbr. kreddur, ráð.
þjófaleikur 140.
þjófaspil 334—35.
þjófur 334.
þolinmæði 332.
Þórðar (í Grettlu) 39.
Þórður (í Gunnlögssögu) 42.
Þórður Björnsson, sýslumaður í Garði 153.
Þórður Gíslason, Skagfirðíngur. Sjá Kvæða-Þórður.

Þórður Jónsson frá Hlíðarhúsum 46.
Þórður Þorláksson, biskup 204, 237—39, 244, 254.
Þorgeir Jónsson í Fnjóskadal 217, 262.
Þorgeirsboli 4, 217, 262.
Þorgerður Höldatröll 139.
Þorgrímur byssuskytta 96.
Þorgrímur Tómasson, gullsmiður á Bessastöðum 53.
Þórhallur Bjarnarson, prestaskólakennari 115.
Þórkatla hin meiri 179.
Þorkell Eyúlfsson, prestur að Staðastað 70.
Þorkell Jónsson, lögréttumaður í Hrauni í Grindavík 179.
Þorkell Jónsson sjá Kvæða-Keli.
Þorkell Ólafsson, prestur á Hólum 262 - 3.
Þorkell Ögmundsson í Axarfirði 261.
Þorlákstíðir 236.
Þorlákur Guðbrandsson, skáld 207.
Þorlákur Þórhallason helgi, biskup 124.
Þorleifur Bjarnarson, cand. mag. 64, 168.
Þorleifur, prestur að Reykjum í Skagafirði 270, 273.
Þorleifur Þórðarson, skáld 208.
Þormóður Kolbrúnarskáld 216.
þorrablót 21—22.
þorskhöfuð 354.
Þorsteinn Bæarmagn 139.
Þorsteinn Erlíngsson, cand. phil. 35, 111, 124—27, 140, 164, 167, 169, 174—76, 185—87, 202, 292, 301, 326—27, 331, 334—35, 348, 350, 353, 355.
Þorsteinn Guðmundsson í Krossavík 50, 52, 87.
Þorsteinn Jónsson, prestur á Þóroddstað 49, 52, 66, 87.
Þorsteinn Jónsson, kaupmaður 53, 75, 81.
Þorsteinn Pálsson, prestur að Hálsi 38, 40, 48—49, 54—59, 61—65, 70, 87.
Þorsteinn Pétursson, prestur að Staðarbakka 13—16, 138, 205, 211, 340.
Þorsteinn Sigurðsson, sýslumaður 287.
Þorsteinn í Skjaldartröð 40.
Þorsteinn Víkíngsson 155.
Þorsteinn Þorsteinsson frá Upsum 177—179, 181, 302, 366.
Þórunn á Stokkahlöðum, húsfrú 110, 191.
Þórunn Stephensen, húsfrú 267.
Þorvaldur Ásgeirsson, prestur í Hofteigi 45.
Þorvaldur Magnússon á Sauðanesi 252.
Þorvaldur, fjósakall á Möðruvöllum 255.
Þorvaldur Rögnvaldsson á Sauðanesi 157, 208—9.
þrátefli 285.
þrautarfáng 344.
þrettándakvöld 21, 357.
þriggjamannaalkort 334.
þrúgur 84—85.
að þræða nál á flösku 159.
þrælabrögð, þrælahnykkir 66.
þrælaleikir 160—61.
þrælatak 168.
þrælaupphlaup, þrælauppkast 142.
þræll (í spilum) 340.
þúfuleikur 102.
þulur 1—5, 130, 178—82, 191, 194—95, 251, 317.
þunna nía 328.
Þuríður Hallgrímsdóttir, húsfrú 48.
þussafáng 54.
þussatök 66.
þúsund og ein nótt 32.
þýzkur(i) hnútur 351.
þær þunnu 328.

æfintýri 3, 12, 270, 279. æfintýrasögur 266.
æfisaga Jóns Eiríkssonar 138.
æfisaga Páls Vídalíns 171, 204.
ægir þér smérið hennar móður þinnar? 172.
Ættartölubækur Jóns Espólíns. Sjá Hrs. Bmfj. 9—16, 4to.

Ögmundargeta 214, 329.
Ögmundur Pálsson, biskup 71.
Ögmundur Sivertsen, prestur á Tjörn á Vatnsnesi 214.
Ögmundur sterki í Auðsholti 96.
öggutak 168.
ölkanna 168.
öndurr 85. sbr. andrar, skíði.
Örvar-Oddur 349.

# YFIRLIT ÍSLENZKRA SKEMTANA.


| | | Bls. |
|---|---|---|
| | Inngángur | 1—36. |
| 1. | FLOKKUR; (Afl og áreynsla). | |
| | 1. Grein; Íþróttir | 37—97. |
| | 2. Grein; Leikir | 97—140. |
| | 3. Grein; Listir | 140—174. |
| 2. | FLOKKUR (Orð og umhugsun). | |
| | 1. Grein; Orðagaman | 175—192. |
| | 2. Grein; Lotuleingdarkapp | 193—203. |
| | 3. Grein; Sagnaskemtan | 203—206. |
| | 4. Grein; Rímnakveðskapur | 206—223. |
| | 5. Grein; Kveðskaparkapp | 223—235. |
| | 6. Grein; Saungur og hljóðfæraslåttur | 235—273. |
| | 7. Grein; Töfl | 274—320. |
| | 8. Grein; Spil | 321—341. |
| 3. | FLOKKUR; Leikfáng eða leiktól | 342—357. |
| | Viðauki | 358—365. |
| | Leiðréttíngar og viðaukar | 366—376. |
| | Registur | 377—405. |

# ÍSLENZKAR GÁTUR, SKEMTANIR, VIKIVAKAR OG ÞULUR.

SAFNAÐ HAFA J. ÁRNASON OG Ó. DAVÍÐSSON.

GEFNAR ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

III.

## VIKIVAKAR OG VIKIVAKAKVÆÐI.



KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.

1894.

# ÍSLENZKIR

# VIKIVAKAR OG VIKIVAKAKVÆÐI.

ÓLAFUR DAVÍÐSSON

HEFIR SAMIÐ OG SAFNAÐ.

GEFIÐ ÚT AF

HINU ÍSLENZKA BÓKMENTAFÉLAGI.

KAUPMANNAHÖFN.

Í PRENTSMIÐJU S. L. MÖLLERS.

(MÖLLER & THOMSEN).

1894.

## Formáli.

Þegar Jón Árnason bauð deild hins íslenzka bókmentafélags í Kaupmannahöfn til prentunar safn sitt af íslenzkum gátum, þulum og skemtunum, var ætlazt svo til í fyrstu, að hann skyldi sjá um útgáfu gátnanna og þulnanna en eg um skemtanirnar, að vikivökunum undanskildum, því að Pálmi bókavörður Pálsson í Reykjavík hafði tekið að sér að rita um þá. Gátur þær, sem Bókmentafélagið hefir gefið út, eru líka alveg eins og þær bárust mér í hendur frá Jóni heitnum, en þuluhandritið hefir tekið mjög miklum breytíngum við meðferð mína, eins og eg mun gjöra grein fyrir í formálanum fyrir þeim. Að því er snertir vikivakana hafði Pálmi Pálsson ekki tíma til að ljúka við þá, þegar á átti að herða, því það höfðu bætzt við hann annir við forngripasafnið ofan á ýmsar aðrar annir og fól hann mér það því á hendur; sendi hann mér öll skilríki og skeyti, sem hann hafði safnað um þá, bæði upp úr bókum og handritum, og þar á meðal afskript af mestöllu safni Jóns Sigurðssonar um vikivaka, sem nú er í handritasafni Svend Grundtvigs nr. 66, og hafði eg fult vald til að nota skeyti þessi eins og mér þótti eiga bezt við. Eg hefi haft mjög mikið gagn af afskriptum Pálma, því að þótt eg ætti greiðan gáng að flestum handritum, sem hann hafði notað, þar á meðal aðalheimildarhandriti hans, hrs. Sv. Grv. 66, sparaði það mér mikinn tíma og fyrirhöfn að þurfa ekki að skrifa upp úr þeim sjálfur.

Eg hefi samið ritgjörð þá, sem fer hér á eptir, eptir safninu frá Pálma, en bætt þó mörgu við, sem ekki var nefnt í safni hans, bæði eptir prentuðum bókum og handritum, og að því er snertir vikivakakvæðin, hefi eg safnað þeim einn að mestu leyti og ritað þau upp eptir heimildarritunum. Öll framsetníng á ritgjörðinni og niðurröðun bæði á henni og kvæðunum er eptir mig og yfir höfuð að tala ber eg alla ábyrgð á riti þessu, eins og það kemur fyrir almennings sjónir.

Mjög lítið hefir verið prentað um vikivaka áður og ekkert í samanheingi, sem teljandi er, nema ritgjörð Sæmundar Eyjólfssonar í Þjóðólfi 1887, nr. 9—11, en svo lítur út sem Jón Sigurðsson eða Svend Grundtvig eða líklega þeir báðir í félagi hafi ætlað að semja og láta prenta ritgjörð um vikivaka um 1864, því Sigurður Guðmundsson málari segir í bréfi til Jóns Sigurðssonar frá þessu ári: »Hér sendi eg yður lítið eitt um vikivaka, er eg hefi smalað saman, sem er þó allgóð upplýsíng, ef það kemur ekki ofseint.« Aldrei hefir orðið úr þessu áformi Jóns Sigurðssonar, enda hafði hann ávalt í mörg horn að líta, en frá því mun stafa safn hans um vikivaka, sem áður er getið um.

Þegar Grímur Thomsen var ritstjóri Ísafoldar tók hann upp í blað sitt svolítið um vikivaka og notaði um leið tækifærið til að biðja þá, sem kynnu gamla dansa, stef, viðkvæði, þulur og kvæði frá miðöldunum, að senda það Ísafold (Ísaf. VI. 1879, nr. 1). Hann hefir þó eflaust ekki ætlað sér að rita um vikivaka til hlítar, heldur að eins að taka smám saman upp í blaðið það bezta af því, sem honum kynni að berast, en kunnugir menn hafa frætt mig á, að það hafi verið lítið eða ekkert.

Ritgjörð sú og safn það af vikivakakvæðum, sem kemur hér fyrir almenníngs sjónir, er því hin fyrsta tilraun, sem gjörð hefir verið, til að lýsa greinilega þjóðdönsum vorum, frá því menn hafa fyrst sögur af þeim í fornöld og alt þángað til þeir voru alveg lagðir niður um 1800. Eg hefi haft hinn bezta vilja á að leysa starf þetta sem bezt af hendi, en lýsíngar þær og heimildarrit, sem eg hefi haft við að styðjast, hafa verið svo ófullkomin í ýmsum greinum, að mart er óljóst enn þá um vikivakana og verður það að öllum líkindum ávalt, því að lítil von er til að heimildarrit finnist um vikivaka eptir þetta, sem eg hefi ekki átt kost á að nota, en nú eru allir dánir fyrir laungu, sem verið hafa í vikivökum, og þeim er farið að fækka mjög, sem gátu haft sögur af vikivökum eptir sjónarvottum.

Aðalregla mín hefir verið hér, eins og við Íslenzkar skemtanir, að taka upp í ritgjörðina alt um vikivaka, sem eg þekti, smátt og stórt, en eg hefi aptur hirt minna um, þótt hún yrði sumstaðar nokkuð þur fyrir bragðið. Sama er að segja um vikivakakvæðin; eg hefi tekið öll kvæði, sem eg þekti og þóttist sannfærður um að væru vikivakakvæði, og brot og viðkvæði, þar sem kvæðin voru ekki til heil, en aptur hefi eg slept mesta fjölda af kvæðum, einkum andlegum kvæðum, sem vera má að hafi verið kveðin á vikivökum og hefi að eins látið prenta fáein af þeim til dæmis.

Skilst eg svo við þetta mál og skal eg að lokum taka fram að auk Pálma Pálssonar hefir dr. phil. Jón Þorkelsson ýngri styrkt mig við ritsmíði þetta með ráðum og dáð, bóka láni og handrita. Forseti deildar hins Íslenzka bókmentafélags í Kaupmannahöfn, skrifstofustjóri Ólafur Haldórsson hefir látið sér mjög hugað um ritið og styrkt mig til að semja það með ýmsu móti. Bókavörður við handritasafn Árna Magnússonar á Háskóla-

bókasafninu í Kmh., dr. phil. Kr. Kålund, hefir aldrei þreytzt að gegna kvabbi mínu um handrit og hefi eg þó notað framundir 200 handrit í Árnasafni á nokkrum mánuðum og opt orðið að fá sama handritið fram tvisvar eða þrisvar. Sama máli er að gegna um bókavörð deildar hins íslenzka bókmentafélags í Kmh. cand. jur. Jóhannes Jóhannesson. Eg hefi feingið heim til mín yfir 250 handrit Bókmentafélagsins, sem eitthvað gat verið í um vikivaka eða vikivakakvæði, og hefi eg ávalt feingið þau jafnskjótt og eg bað um þau, þótt það væri ærin fyrirhöfn og tímatöf frá öðrum störfum fyrir bókavörðinn. Dr. phil. Finnur Jónsson hefir farið yfir handritið, einkum vikivakalýsínguna sjálfa, og gefið mér ýmsar góðar bendíngar. Auk þess hefir hann farið yfir aðra prófförk af öllu ritinu. Enn hefir dr. phil. Valtýr Guðmundsson lesið yfir vikivakalýsínguna.

Öllum þessum mönnum er eg mjög þakklátur og þætti mér vænt um, ef þeim og reyndar öllum þeim, sem lesa rit mitt yfir höfuð, þætti það fylla autt skarð í siðsögu Íslands og bókmentasögu.

*Ólafur Davíðsson.*

# Vikivakar.

Orðið vikivaki kemur ekki fyrir í fornritum vorum, svo kunnugt sé, og segir Guðbrandur Vigfússon í orðabók sinni, að það muni hafa komizt inn í málið á 15. öld, en eg efa að orðið sé svo gamalt, því þar sem fyrst er talað um samskonar skemtanir á Íslandi í seinni tíð eru þær nefndar öðrum nöfnum, annaðhvort að eins vaka eða þá vökunótt.

Vaka kemur fyrir í Íslenzkum fornkvæðum I, bls. 14—15 í Elenarljóðum og stendur þar:

2. Elen beiddi föður sinn:
Lofaðu mér til vökunnar inn.
3. Þú skalt þig ei til vökunnar gá;
þig kann margur dárinn sjá.
4. Fari dárinn sem hann kann,
eg skal mig til vökunnar fram.

B.

Elen talar við föður sinn:
Eg vil mig til vökunnar fram.

Vökunótt er aptur nefnd í formála Guðbrands biskups Þorlákssonar fyrir sálmabókinni 1589, aaiiij og í synodale Odds biskups Einarssonar á Kýraugastöðum á Landi 1592; lítur því svo út sem orðið vikivaki hafi ekki verið orðið algeingt um þetta leyti, en þó hefir það þekzt seint á 16. öld, því það er nefnt í Crymogæa Arngríms Jónssonar lærða og lítur svo út, sem það hafi rýmt burt hinum eldri nöfnum á 17. öldinni, enda mun blómatími vikivakanna hafa verið snemma á öldinni, þótt ekki fari ljósar sögur af því.[1]

[1] Dr. Jón Þorkelsson yngri segir í þætti af Birni á Skarðsá (Tímarit Bókmentafélagsins VIII. 1887. bls. 59): »Um 1600 stóðu vikivakar enn í góðu gildi, þótt þeir væri þá ekki eins magnaðir og áður,« en eg get ekki fallizt á þessa skoðan. Fjöldi sá, sem ortur var af vikivakakvæðum á 17. öldinni sýnir meðal annars, að vikivakar hafa þá staðið með hinum mesta blóma.

Vaka, vökunótt og vikivaki eru annars skyld orð, því vaka (vaki), sem kemur fyrir í þeim öllum, er sama orðið, og skal eg nú skýra nokkru gjör frá, hvernig stendur á því. Vikivakar voru haldnir á helgum dögum, annaðhvort á sunnudögum, stórhátíðum eða kvöldinu fyrir þær, aðfaranótt hátíðanna, en þó einkum á jólanóttina og um jólaleytið. Nú er það kunnugt úr pápiskum sið, að vigilíur þ. e. vökur skyldu vera nóttina fyrir hverja stórhátíð og nóttina á undan mörgum helgra manna messum; voru það ýmist kallaðar vökur eða vökunætur, og kent við daginn, sem á eptir fór. Þannig var kölluð Jónsvaka næsta kvöld og nótt fyrir Jónsmessu og jólavaka aðfángadagskvöld jóla og jólanóttin. Á þessum vökum voru súngnar tíðir, að minnsta kosti á jólanóttina, sem hélzt leingi síðan[1] og sótti þá jafnan söfnuður mjög fjölmennur kirkjurnar. Það var og venja, að menn fóru ekki heim frá kirkjunni alla nóttina, sízt þeir sem lángt áttu, fyr en eptir messu á jóladaginn.[2] Ekki var heldur til þess ætlandi, að svo mikill mannfjöldi, sem þá var saman kominn, gæti feingið legurúm á kirkjustöðum þessar nætur. Nú er auðráðið, að mönnum hefði bæði leiðzt að hánga aðgjörðalausum alla nóttina eptir tíðir, og líka orðið hrollkalt, hefðu þeir ekki fundið ráð til þess að bæta úr hvorutveggju. Menn fóru því snemma að búa sig undir það, að geta notið jólagleðinnar óneyddir og með fullum fagnaði. Þeir, sem ætluðu sér að sækja tíðir á jólanóttina og gjöra þá vökunótt, skutu saman matvælum eða ölfaungum eða lögðu fé sér og sínum til mötuneytis, ef heimabóndinn, staðarhaldarinn eða klerkurinn var ekki svo efnum búinn eða veglyndur, að hann veitti vökumönnum gefins allan beina. Vökumenn kusu og forgaungumenn, sem bæði áttu að gánga þeim fyrir beina og sjá um gleðina. Þar sem skemtan skyldi vera, voru fyrst súngnar tíðir, en síðan var sezt að snæðíngi, sem var sannnefndur skytníngur eða samskotsveizla, til að hressa sig undir nóttina, eptir því sem áður er sagt. Þegar staðið var upp frá borðum, tóku menn að sýngja og dansa og skemta sér með ýmsu móti; vöktu þeir við glaum þennan og gleði alla nóttina, þángað til dagur rann, og var því nafnið vaka eða vökunótt sannnefni og það því fremur, sem það féll optast saman við tímann, sem þær voru haldnar á, vökur eða vökunætur fyrir helga daga.

Vaki í vikivaki er samstofna við orðið vaka, eptir því sem flestum kemur saman um og eflaust er rétt, en annars hefi eg séð fjórar skýríngar á orðinu eða réttara sagt getgátur um það, og skal eg nú geta þeirra.

Fyrst kemur Jón Ólafsson frá Grunnavík til sögunnar og er skýríng hans alveg ófær eins og flestar orðaskýríngar hjá honum, yfir höfuð að tala.

[1] Þángað til tilskipanin 29. maí 1744 tók af messuhöld fyrsta sumardag og vetrardag og heitdaginn gamla eða einmánaðarsamkomuna norðanlands, sem haldizt hafði síðan 1470. [2] Eins og sést svo víða í þjóðsögum Jóns Árnasonar, einkum álfasögunum.

Hún er í Orðabók hans við leikur og dans: »Viku vaki, sá sem vakir í viku (per septimanam). Réttara er vika vakki, dregið saman úr vika vakkandi þ. e. tif tíðra hreifínga, en undir er skilið gángur, af því orð þetta er kallkyns. Það þýðir dans eða dansleiki og er sama sem dans.« Eptir skoðan Jóns Ólafssonar er því vikivaki (vikavakki) vakk, hreifíngar til vika, og sjá allir hve hún er fjarstæð.

Jón heitinn Árnason vill láta orðið vera komið af Vítus og vaka og eigi það því, í raun réttri, að vera Vítusvaka eða Vitivaka, ef latneska eignarfallið af Vitus er haft við, því viki vill hann láta vera tillíkíngu fyrir Viti. Vítus var, eins og sést annars staðar í riti þessu, maður sem kom fram á vikivökunum, að minnsta kosti í sumum héruðum landsins. og styður Jón Árnason sig við það. Vikivaki er því eptir skoðan hans vaka sú eða vökunótt þar sem Vítus kemur fram. Ekki gjörir Jón neina tilraun til að sýna hvernig orðið er orðið kallkyns.

Guðbrandur Vigfússon leiðir orðið af vika og vaka í Orðabók sinni og hefir hann eflaust hugsað sér, að vikivakar hafi venjulega verið haldnir á vikufresti, það er á aðfaranóttum sunnudaganna. Hann reynir hvorki að sýna, hvernig vika er orðið að viki, né vaka að vaki.

Eiríkur meistari Magnússon í Cambridge skrifar loksins Pálma Pálssyni: »Vikivaki ætla eg sé ambaga úr vigil-, sem fyrst var snúið í vaka, síðan báðum orðum haldið til að minna á upprunann, vigil-vaka=viki vaka. En kallkynið held eg hafi komið af meðvitundinni um undirskilinn dans (eða slag?).«

Eg fyrir mitt leyti hallast helzt að skoðan Jóns Árnasonar, þótt tillíkíngargetgáta hans sé reyndar nokkuð hæpin, en annars verður hver að hafa þá skoðan um þetta mál, sem hann vill.

Loksins má geta þess til gamans, að séra Björn Haldórsson segir í Orðabók sinni, að vikivaki þýði »Orbis saltatorius, motus pyrrichialis. et Pendul« þ. e. heingill í klukkum.

Þegar kemur fram á 18. öld fer orðið vikivaki að breyta merkíngu, og seinast á öldinni er orðið mestmegnis eða jafnvel einúngis haft um saung eða kveðskap á skemtisamkomum, en sjálfar voru samkomurnar kallaðar gleðir. Í riti þessu eru þó gleðisamkomurnar optast nefndar vikivakar, því það er algeingasta nafnið, en á einstaka stað þýðir vikivaki þó dans, þar sem eg færi til orð annara manna.

---

Vikivakar og dansar tíðkuðust á Íslandi þegar í fornöld, en þó fara ekki sögur af þeim í hinum elztu ritum vorum. Stundum er þó getið um ýmislegt, sem ekki er ósvipað sumum greinum í vikivökum, og skal eg færa til þess tvö dæmi: »Nú koma menn til jólaveizlu til þeirra bræðra. En þá er tólfmenningr var skipaðr til at sitja, ok settir hlutir til, hverr næst skyldi sitja Ástríði dóttur Vigfúss hersis, ok hlaut Eyjólfr ávallt at sitja

hjá henni; en engi maðr sá þau fleira við talaz en aðra menn.« Glúma Ísl. fornsögur I. bls. 10. Hér er karlmönnum skipað hjá konum við gleðisamkomu, og eru fleiri dæmi til þess í íslenzkum fornsögum, svo sem í Eglu (Egils saga Skallagrímssonar. Kbh. 1886—8, bls. 147): »En áðr borð skylldu vpp fara, þá sagði jarl (Arnfinnur jarl á Hallandi), at þar skyldi sæti hluta, skyldi drecka saman karlmaðr ok kona, suá sem til ynniz, en þeir sér, er fleiri veri. Menn báru þá hluti sína í skaut ok tók jarlinn vpp.« Egill hlaut að sitja hjá jarlsdóttur. Þetta gjörðist hér um bil 924.

En fyrst er getið um verulega vikivaka í sögu Jóns biskups helga Ögmundssonar eptir Gunnlaug múnk Leifsson. Gunnlaugur setti saman söguna í byrjun 13. aldar, og var þá hér um bil öld síðan atburðir þeir gjörðust, sem skýrt er frá í sögunni: »Leikr sá var kærr mönnum áðr en hinn heilagi Jón varð biskup, at kveða skyldi karlmaðr til konu í dans blautlig kvæði ok regilig, ok kona til karlmanns mansöngsvísur; þenna leik lét hann af taka ok bannaði styrklega. Mansöngskvæði vildi hann eigi heyra né kveða láta, en þó fekk hann því eigi af komið með öllu.« Biskupasögur I, bls. 237. Hér segir að dans hafi tíðkazt áður en Jón varð biskup, en Jón Ögmundsson varð biskup 1106, og hafa vikivakar því verið farnir að tíðkast á Íslandi fyrir þennan tíma. Tvær aðrar útgáfur eru til af kafla þessum: »Leikr sá var mönnum tíðr, er úfagrligr er, at kveðast skyldu at: karlmaðr at konu, en kona at karlmanni, klækilegar vísur ok hæðilegar ok óáheyrilegar, en þat lét hann aftakast ok bannaði með öllu at gera. Mansöngskvæði eða vísur vildi hann eigi heyra kveðin ok eigi láta kveða, þó fekk [hann] því eigi með öllu af komið.« Biskupas. I, bls. 165. »Leikr sá var mönnum tíðr í þann tíma, er heldr var ófagr, at bera bottatildi. Þar skyldi karlmaðr kveða at konu ok svo kona at karlmanni klækilegar vísur ok ótilheyrilegar með mansöngs sneiðingi ok sámyrði. Þá forneskju lét hann aftakast« o. s. frv. Biskupas., sama stað.

Víða er talað um dansa og þessháttar í Sturlúngu og Biskupasögunum og skal eg nú færa til orðrétt það sem þar segir um þetta mál.

1119 var haldin veizla mikil á Reykjahólum í Reykhólasveit: »Þar var nú glaumr ok gleði mikil ok skemtan góð, ok margs-konar leikar, bæði danzleikar, glímur ok sagnaskemtan. Þar var sjau nætr fastar ok fullar setit at boðinu, af því at þar skyldi vera hvert sumar Óláfsgildi.« Sturlúnga saga I. Oxford. 1878, bls. 19.

»Ok um kveldit eptir náttverð mælti Sturla (þ. e. Hvamm-Sturla) við Guðnýju húsfreyju [Böðvarsdóttur] at vera skyldi hringleikr (eða »slá skyldi hringleik«) ok fór til alþýða heimamanna ok gestir ok var vakat til miðrar nætr eðr meirr.« Þetta var um veturnætur 1171. Sturl I, bls. 63.

»Hann (þ. e. Þorlákur biskup helgi 1178—93) henti skemtan at sögum ok kvæðum ok at öllum streingleikum ok ljóðfærum, ok at hygginna manna ræðum ok draumum, ok at öllu því er góðra manna skemtan var, utan

leikum, því at honum þótti slíkt dvelja ónýtar sýslur vándra manna.« Biskupas. I., bls. 109.

Loptur Pálsson biskups og Kolskeggur hinn auðgi deildu um skóg. Loptur kærði Kolbein um að húskarlar hans hjyggi skóg í landi hans. »Ok hér með færðu Breiðbælingar Lopt í flimtan, ok görðu um hann danza marga, ok margs-konar spott annat.« Þetta gjörðist 1220—21. Sturl. I, bls. 245.

Tafl-Bergur og Dansa-Bergur (1220—25) var einn af þeim, er Sturla Sighvatsson sendi til höfuðs Áróni Hjörleifssyni í Geirþjófsfjörð; hefir honum líklega látið betur dans en vígaferli, þótt hann sé talinn gildur maður í Biskupas. I, bls. 622—23. Dansa-Bergur er líka nefndur í Sturlúngu I, bls. 258, 267—68, II, bls. 332—34.

Guðmundur biskup Arason var á ferð norður í Þíngeyjarsýslu 1229. Hann fór úr Keldunesi »undir Fjöll. Ok um kveldit er biskup var genginn til svefns, ok þeir til baðs, er þat líkaði, þá var sleginn dans í stofu.« Sturl. I, bls. 293. Biskupas. I, bls. 549.

»Fylgðarmenn Kolbeins [Arnórssonar], er verit höfðu ok þá voru með Brandi [Kolbeinssyni á Stað í Skagafirði], fóru með dansa-görðir; ok kom þat til eyrna Þórði [Sighvatssyni], ok líkaði hónum lítt.« Þetta gjörðist 1245. Sturl. II, bls. 68.

»Í Viðvík var gleði mikil (1255) ok gótt at vera, leikar ok fjölmenni mikit. Þat var einn Dróttinsdag, at þar var danz mikill; kom þar til fjölði manna. Hámundr prestr frá Hólum hafði sungit á Miklabæ í Óslandz-hlíð um daginn; ok ríðr hann í Viðvík til danz, ok var þar at leik, ok dáðu menn mjök danz hans. En er hann kom til Hóla rak biskup [Heinrekr biskup Karlsson 1247—60] hann ór kirkju með hrakningum ok vildi eigi sjá hann. En er Þorgils vissi þat, bauð hann presti til sín. En er Hámundr prestr birti þat fyrir vinum sínum, þá tók biskup hann í sætt fyrir bæn manna; en hann var við hann aldri jafn-vel síðan sem áðr.« Sturl. II, bls. 225.

»Þorgils [Böðvarsson] reið til Hrafnagils (1258); var hónum þar vel fagnat . . . . . . Hónum var kostr á boðinn, hvat til gamans skyldi hafa, sögur eðr danz, um kveldit«, en hann kaus heldur sögur. Sturl. II, bls. 245.

»Ek mun drepinn verða« segir Þórður Andrésson »en bræður mínir munu fá grið, ok þá hrökði Þórðr hestinn undir sér, ok kvað danz þenna við raust:

Mínar eru sorgir þungar sem blý.« [1]

---

[1] Sbr. danskt viðlag: »Eya. hvad sorigen du est tung« eða þá eitthvað mjög svipað hjá Sv. Grundtvig í Danmarks gamle Folkeviser II. 1856, bls. 39, 41. 43—45. 52. III. 1862, bls. 795, 806—807. Svipað viðlag: »Sorigen er tung, huem hinde skal enne bere« er enn í II, bls. 396.

Spádómur Þórðar rættist, því daginn eptir, 27. desember 1264. var hann hálshöggvinn í Þrándarholti að vilja Gissurar jarls Þorvaldssonar. Sturl. II, bls. 264.

Árni biskup Þorláksson (1269—1298) meiddi sig einu sinni í hnénu í skinnleik, þegar hann var úngur. »Þaðan af var hann aldrei at þess kyns leik né dansi, hvorki áðr né síðan ok kendi sig í þessu mundu hirtau af óskynsamlegri skemtan.« Biskupas. I, bls. 680. Árna biskups saga, bls. 3 í Sturlúngu 1820.

»Aldrei kom herra Lárentius [Kálfsson, biskup á Hólum 1323—30] inn í staðinn, nema þá stundum sem honum var sagt at dansleikr var hafðr á kvöldum, þá lét hann bera fyrir sér skriðljós inn í stóru stofu fyrirbjóðandi hverjum sem einum at hafa dansleik þar á staðnum.« Biskupas. I, bls. 849 (Lárentius saga, 45. kap.). Árb Esp. 1, bls. 52.

Enn er hríngleikur og dans nefndur á ýmsum stöðum í ritum, sem hafa verið þýdd eða sniðin eptir útlendum ritum í fornöld og þekki eg þetta í þá átt.

»Þeir gerðv kvęði oc kantilior. slogv siþan hringlæik. oc með þess hattar glavm gengv þeir inn i æitt hóf. settvz þar til samdryckiv.« Stjórn. Chria 1862, bls. 400. Kaflinn er úr Dómarabókinni, 9. kap.

»Þa gingv vt konvr af hverri borg Gyðinga oc slogv hringlæika með hvers konar savngfærvm oc fagrligvm ravstvm a mot Saul konvngi. Svmar slogv hörpvr oc gigivr. svmar svngv i pipvr æða með eigenligri ravst. en æitt var sen i allra þeirra sǫng. þat at Saul hefði vvnnið sigr a þvsvnd manna enn Dauid a .x. þvsvndvm.« Sama rit, bls. 466. úr fyrri Samúelsbók. 18. kap.

»Fjórar þúsundir meyja gerðu þar hringleik, klæddar með guðvefjarpellum, hver annarri fegri, ok hélt hver í hönd annarri ok svá sínum unnasta.« Karlamagnus saga. Chria. 1860, bls. 470.

»Ok er menn váru sem glaðastir ok á leið kveldit, var frú Ólif til hvílu fylgt, slógu þá ungir menn fagra danza bæði í hallinni ok í svefnhúsinu.« Sama rit, bls. 52.

»Elis stendr vpp i mot henne (Rósamundu) ok allir þeir, sem inne voro; tekr Elis nv Rosamvndv ok setr a kne ser, enn meyjarnar sla danz ok kveda med agætum Ravstum.« Elis saga ok Rosamundu. Heilbronn. 1881, bls. 134.

»En eptir sigur þann Saul Kongur hafdi unnit á Philistæis, ok David hafdi drepit Goliath risa, ok þeir hurfo aptur ur þeirri herfaur, þá gengu ut konor or borgum ok kaupstadum, ok dansado moti þeim, ok sungo þeim lof fyrir unninn sigur, enn sva var i saung þeirra, at Saul Kongr hefdi unnit sigur á þusund manna, en David a x þusundum.« Kongs-skugg-sio. Soröe. 1768, bls. 705. Kristíaníu-útgáfan 1848, bls. 154.

Enn er nefndur dans í handriti af sögunni af Konráði keisarasyni.

Hrs. Stockh. 7 fol. . . . . . »af leggja hlaatur ok hoppdanzs[1] ok daraskap ok hegomligt herianskit.«[2] Danmarks gamle Folkeviser III, bls. 789b.

Kaflar þessir um dans o. s. frv. úr ritum, sem eru af útlendum toga spunnin, eru að vísu þýðíngarlitlir að því er snertir íslenzka dansleiki, en þó þótti réttara að færa þá til en að sleppa þeim alveg. Víða er getið um dansa í fornöld eptir Sturlúngu og Biskupasögunum svo sem hjá C. Rosenberg í Nordboernes Aandsliv fra Oldtiden til vore Dage II. 1880, bls. 408—9, 437 og í Grönlands Historiske Mindesmærker I, bls. 321—43, en mjög lítið er á því að græða.

Kaflar þeir úr fornritum, sem hafa verið færðir hér til, er alt og sumt, sem menn vita um dansa í fornöld, og er það svo lítið, að mönnum er mjög ókunnugt um þá. Menn vita, að skemtisamkomur hafa verið haldnar, að karlar og konur hafa kveðið þar kvæði hvort til annars og að stundum hefir verið dansað í hríng, en þá nær þekkíng manna ekki leingra. Öllum ber þó saman um, að þessir fornu dansar muni hafa verið mjög keimlíkir vikivökum þeim, sem seinna tíðkuðust. Jón Árnason segir t. d. í vikivakaritgjörð sinni: »Forndönsum vorum var svo varið, að menn og konur stóðu ýmist í röðum gegnt hvort öðru eða hríngum, fetuðu svo fram hvort móti öðru og kváðust á,« og Rudolph Keyser segir í ritgjörð sinni um skemtanir í fornöld: »Svo lítur út sem dans Norðmanna í gamla daga hafi ekki staðið í sambandi við hljóðfæraslátt, að minnsta kosti ekki framan af, en saungur heyrði honum til. Menn dönsuðu eptir lagi vísna, sem dansmenn súngu sjálfir og voru ýmislegs innihalds, ýmist ástakvæði (mansaungsvísur), háðvísur eða jafnvel kvæði sögulegs efnis. Þessi kvæði voru kölluð dansar og það hefir án efa tíðkazt, að þeir sem dönsuðu hafa hagað látæði sínu eptir því, hvernig kvæðið var. Karlar og konur tóku þátt í skemtan þessari. Þegar dansað var eptir mansaungsvísum, lítur svo út sem karlar og konur hafi súngizt á. Vísurnar voru opt klæmnar (sbr. »blaut kvæði og regileg«) og dansinn stundum léttúðigur.«[3]

Jón Árnason segir, að fornu dansarnir muni, ef til vill, hafa verið nokkuð þúnglamalegir. »Á vikivökunum hafi sumsé hvorki verið hoppdansar né snarsnúníngar, heldur eintómir gagndansar (contradansar; sbr. Minuetto alternativo),« og trúi eg því betur en því sem Sæmundur Eyjólfsson segir í Þjóðólfi 1887, nr. 9, að dansinn hafi verið »fjörugur og hvatlegur,« þótt slíkt kunni að hafa komið fyrir.

Sumt af þessu eru getgátur, en þær eru ekki ósennilegar, og þess verður að gæta, að ef menn vilja gjöra sér hugmynd um dansa til forna, verða menn að geta sér til, hvernig þeim hafi verið háttað.

---

[1] Sjálfsagt = hopp, dans. [2] Af Herjann = Óðinn. Herianskit er líklega platþýzka og orðmyndin tekin upp í íslenzkuna. Báðar athugasemdirnar eru eptir Pálma Pálsson. [3] Nordmændenes Forlystelser i Oldtiden. Norsk Tidskr. for Videnskab og Litteratur II. 1848, bls. 238—39.

Eins og sést á Sturlúngu, voru danskvæðin opt kölluð dansar, og er eptirtektavert, að menn höfðu stundum kvæði þessi til að hefna sín á óvinum sínum. Dansar urðu þannig með öðru orsök til fjandskapar og ófriðar milli Lopts Pálssonar og Bjarnar Þorvaldssonar, og eins voru dansar að nokkru leyti orsökin til hins mannskæða Haugsnessbardaga (Sturl. II, bls. 68). Þetta er þó eðlilegt, þegar þess er gætt, hve háðvísur geta verið naprar, og auk þess sagðist á því í fornöld að yrkja níð eða flimt um karlmenn og mansaung (þ. e. ástakvæði) um konur. (Vígslóði 108. kap. V. Finsen, Grág. [Sthb.] 1879, bls. 392—94).

Sögnin að dansa kemur ekki fyrir í Sturlúngu eða Biskupasögunum, heldur er ávalt sagt þar, þegar svo ber undir, að slá dans. Orðið kemur fyrst fyrir í Konúngsskuggsjá þar sem til er vísað. Í Skálholtsútgáfunni af sögu Ólafs Tryggvasonar (I. 1689, bls. 81) stendur reyndar í vísunni um Íngólf Þorsteinsson Íngimundarsonar gamla, sem var vænstur manna norðanlands, Allar vildu meyjar o. s. frv.:

Svá vil ek ok kvað kellíng
með Íngólfi dansa

og sama stendur í Vatnsdælasögu Akureyri 1858, bls. 83, en í öllum hinum betri útgáfum (Fms. II, bls. 13, Flateyjarbók I, bls. 302. Fornsögur. Leipzig 1860, bls. 86) stendur ganga í staðinn fyrir að dansa, og má því fullyrða, að öll hin betri handrit hafi þetta orð. Um slátt og að slá dans er talað annars staðar í riti þessu.

Fátt er nú til af kvæðum þeim og vísum, sem kölluð voru dansar í fornöld. Þó eru nokkrar skopvísur af því tagi í Sturlúngu, og tek eg hér upp tvær til dæmis.

»Hrafngilingar [menn Halls Kleppjárnssonar á Hrafnagili] ortu mart um Kálf [Guttormsson á Grund] ok görðu um hann spott mikit. Þetta var kveðit:

Vetrungs fæðisk efnit eitt;
öllum er þat mönnum leitt;
tvennar liggja til þess bætr,
tveir einir 'ru undir fætr;
höllzti hefir þat lengi lifat;
láti menn þat höndum þrifat;
eigi' er þat sem annarr smali,
engi skapðr fyrir arsinn hali.«

Sturl. I, bls. 225 og víðar eptir henni.

Loptr[1] er í Eyjum,
bítr lundabein;

---

[1] Loptur Pálsson biskups.

Sæmundr[1] er á heiðum,
etr berin ein.

Sturl. Oxford. I, bls. 249 og víða eptir henni.

Enn er til brot af dansi þeim, sem Þórður Andrésson kvað: Mínar eru sorgirnar þúngar sem blý, og lítur helzt út fyrir að lína þessi sé úr viðlagi, enda er enn til viðlag, sem byrjar á orðum þessum og er það prentað seinna í riti þessu, en að öllum líkindum er það ekki eins gamalt og Sturlúnga, þótt það sé alls ekki ómögulegt.

Ekki vita menn, hvernig dansarnir voru fluttir í fornöld, en að öllum líkindum hafa þeir verið fluttir eins og aðrar vísur, sem þá voru ortar eða verið kveðnir. Sbr. Den oldnorske og oldislandske litteraturs historie af Finnur Jónsson. I, bls. 341—43.

Í fornöld fara ekki sögur af neinum vikivakaleikjum, eða neinum leikjum, sem staðið hafa í sambandi við dans og kveðskap á skemtisamkomum, en þó eru í fornöld dæmi til ýmsra skemtana, sem eru í áttina til vikivakaleikja þeirra, sem tíðkuðust seinna, og skal eg nefna til tvö dæmi.

Þess er getið, að Haraldur konúngur hárfagri hafi haft leikara í hirð sinni, og eru um þá tvær vísur í Fagurskinnu (Chria. 1847, bls. 6) úr kvæði Þorbjarnar hornklofa:

At leikurum ok trúðum
hefi ek þik lítt fregit:
Hverr er örgáti
þeirra Andaðar
at húsum Haralds?
At hundi elskar Andaðr
ok heimsku drýgir,
eyrualausum,
ok jöfur hlœgir.
Hinir eru ok aðrir,
er um eld skulu
brennanda spán bera;
logöndum húfum
hafa sér und linda drepit
hældræpir halir.

Hitt dæmið tek eg úr Sverrissögu 85. kap. »En leikarar II voru í stofunni, er laupa létu smárakka yfir háfar stengr fyrir tignum mönnum, ok því hærra sem menn voru tignari. Konungr mælti: finnr þú, Tungli (þ. e. Máni, íslenzkur maður), at leikararnir sjá ekki vel til þín? nú yrkðu um þá vísu, ok má vera at þér verði heldr gagn at. Þá kvað Máni:

[1] *Sæmundur Jónsson* Loptssonar í Odda. Vísan er ort 1221.

Slœgr ferr gaurr með gígju,
ginn es hér komit inni,
meiðr hefir skjaldar skóða
skrípa lát ok pípu;
rekkr lætr rauða bikkju,
rekit skvaldr fyrir aldir,
skolut hlýða því þjóðir,
þat es skaup, of staf hlaupa.

ok enn kvað hann:

Gígjan sýngr, þar es ganga,
grípa menn til pípu,
fœra fólsku stóra
fram leikarar bleikir;
undr es hvé augum vendir
umb sá es þýtr í trumbu,
kníðan lít ek á kauða
kjapt ok blásna hvapta.

Þá varð at mikill hlátr, ok slógu hirðmenn hring um þessa leikara, ok kváðu vísuna, ok æ þat optast: kjapt ok blásna hvapta. Þeim leikurunum þótti nær sem þeir væri í eldi, ok kómust út ór stofunni; en konungr tók Mána til sín.« Fms. VIII, bls. 207—208. Weinhold hefir misskilið þetta í Altnordisches Leben. Berlin 1856, bls. 467, því hann vill láta smárakka þýða dúkkur, en það er fjarstætt.

Dæmi þessi eru reyndar bæði frá Noregi, en eflaust eru vikivakaleikir þeir, sem seinna tíðkuðust, af útlendum toga spunnir, og má vera að trúðleikir þeir, sem tíðkazt hafa í Noregi, séu fyrirmynd þeirra. Aptur hafa trúðleikirnir borizt til Noregs frá útlöndum (Þýzkalandi?), og trúðarnir voru sjálfir útlendir menn.

Á síðara hluta 12. aldar og fyrra hluta 13. aldar lítur svo út sem allir hafi kannazt við, að dansarnir væru saklaus skemtan. Jafnvel klerkar tóku þátt í dönsum (Hámundur prestur). Það kveður jafnvel svo ramt að, að Guðmundur biskup Arason amaðist ekki við dönsum, eptir því sem ráða er af sögu hans, því menn hans dönsuðu og er þess ekki getið, að hann hafi vandað neitt um við þá. Þegar fram liðu stundir fóru ýmsir vandlætíngasamir menn, einkum klerkar, að hafa horn í síðu dansanna (Árni biskup Þorláksson, Lárentius biskup), en þrátt fyrir það tíðkuðust dansar mjög, enda urðu eingir til að veita þeim öfluga mótstöðu fyr en eptir siðabótina.

---

Á 15. öld er hvergi getið um dans og vikivaka, svo eg viti, og á 16. öld fara mjög fáar sögur af slíkum skemtunum, en þó hafa þær eflaust lifað góðu lífi. Þess er getið, að í veizlu þeirri, sem Björn bóndi Guðnason

í Ögri hélt Stefáni biskupi Jónssyni, hafi menn skemt sér með glímum, dansi og annari gleði; var fólkinu skamtað vín milli máltíða, því þá var hér eingelsk siglíng og var mest vín drukkið, en höfðíngjar, sem voru með hvorumtveggjum, sátu við drykkju og skemtan alla daga. Safn til sögu Íslands I, bls. 657—8.

Eins og kunnugt er, tók Jón biskup Arason og synir hans Martein biskup Einarsson fastan, og var hann í haldi hjá Ara lögmanni syni Jóns biskups. »Eitt sinn veitti Ari (1549) og sat biskup Marteinn við borðið. Þá drakk Ari biskupi til og kvað við raust þessa gömlu stöku:

[Svo er mér[1] gott og gleðisamt,
því veldur þú.
Mig lángar út í löndin[2]
með þér[3] jómfrú.«[4]

Biskup tók við staupinu og kvað sama erindi aptur, en sneri nokkurum orðum:

Svo er mér ilt og ángursamt,
því veldur þú.
Mig lángar ekki' í löndin[5]
með þér[6] jómfrú.

Þá þykktist Ari við og mælti: »Burt, burt í sekkinn, í sekkinn; gjört hafa þetta Eyfirðíngar áður.« Hann hefir meint [til] Þorvarðs bónda að Möðruvöllum og Jóns biskups Gerechssonar í Skálholti. Gekk þá biskup Marteinn undan borðunum.« Annálsexcerpt séra Arngríms Jónssonar á Melstað (1643) í safni Jóns Sigurðssonar, bls. 10—11. Annálar Björns Jónssonar á Skarðsá I, bls. 158, og segir hann að atburður þessi hafi gjörzt 1550 um nýár. Jón Ólafsson frá Grunnavík í ÁM, 979b, bls. 1951. ÁM. 148, 8, 21. bl. Hrs. Rasks 52. Vísurnar eru víða til á prenti. Þess má geta, að mönnum ber ekki alveg saman um hvað Ari sagði, þegar biskup svaraði honum, en minnst er að mununum.

Þau Ísleifur Sigurðsson og Þórunn Jónsdóttir biskups Arasonar bjuggu á Grund í Eyjafirði og áttu ekki börn saman. Þórunn var heimskona mikil. Hún lét kveða um Ísleif í vikivaka.

Í Eyjafirði upp á Grund
á þeim garði fríða,
þar hefir bóndi búið um stund,
sem börn kann ekki' að smíða.

---

[1] Mér er svo, J. Ól. [2] Breytt úr lundinn í hdr., lundinn, B. Sk., og er það réttara en »löndin.« [3] þá, 148, B. Sk. [4] júngfrú, B. Sk. [5] löndin *nú, 148, lundinn nú,* B. Sk. [6] Sl. 148, B. Sk.

Biskupasögur, II, 403 og víða eptir þeim. Í Þjóðólfi 1887, nr. 9 segir, að Þórunn hafi látið stúlku kveða vísuna til Ísleifs.

Þessar þrjár seinustu frásagnir eru alt og sumt, sem eg hefi rekið mig á um vikivaka á 16. öld.

---

Elzta lýsing, sem til er á vikivökum í nýrri tíð, er í Crymogæa Arngríms prófasts lærða á Melstað († 1648) og er hún á þessa leið: »Dansar voru hér eptir saung, bæði kyrðardansar (staticuli, menuet) og hríngdansar (orbis saltatorius). Kyrðardansa kalla eg þá, sem fóru fram eptir settu saungsamræmi, þar sem kvæði eða saungvísur voru við hafðar til að dansa eptir. Þar var einn forsaungvari og tveir eða fleiri tóku undir með honum, en hinir dönsuðu á meðan eptir laginu eða fallshættinum í því. En hríngdans eða vikivaki var það, þegar kallar og konur geingu fram á víxl (hvort mót öðru eða á bí við annað), greindust svo aptur eða deildust með nokkrum hætti. Hvortveggja danstegundin virðist bera keim af gríska dansinum (ὅρμῳ hjá Lakverjum), nema að því. að hér stóðu einstakir menn í röð og súngu saungvísur með afmældum þagnarbilum (per certas pausas), hálfa vísuna, en allur danslýðurinn (chorus) tók þær upp aptur og saung í einu hljóði; var svo endurtekið við enda hverrar vísu upphaf eða niðurlag fyrsta erindis með nokkurs konar tvöföldun, en stundum án hennar. Vilji einhver telja fleiri danstegundir, má hæglega heimfæra þær hér undir, en eg tala hér að eins um siðsamlega dansa.« Crymogæa Lib. I, Cap. 6, bls. 57. Þýðing þessi er eptir Jón Árnason og er meginið af henni í vikivakaritgjörð hans í Hrs. Sv. Grv. 66, en niðurlagið í útdrætti Jóns úr riti Skúla Thorlaciusar um íslenzka leiki, sem bráðum verður getið um. Vikivakalýsing Arngríms er tekin orðrétt upp í rit hans: Tractatus de Islandicæ gentis primordiis et veteri republica. Cap. VI (á að vera V.): De moribus seu communi vivendi ratione. Þessi tractatus er prentaður hjá Steph. Stephanius, De regno Daniæ et Norwegiæ insulisq. adjacentibus Tractatus varii. Lugd. Batav. 1629, og er þar um vikivakana bls. 424—25. Enn er um vikivaka eptir Arngrími Jónssyni hjá Engelstoft, Om den Pris Oldtidens Skandinaver satte paa Legemsøvelser. Skandinavisk Museum 1802, bls. 54—56 og P. E. Müller í inngánginum til Lyngbye, Færöiske Quæder. Randers 1822, bls. 37. Kaflinn um vikivakana er prentaður í heilu lagi hjá Joh. Steenstrup: Vore Folkeviser 1891, bls. 80.

Sá, sem þarnæst lýsir vikivökum á Íslandi, er Pétur Resen í Islandiæ nova descriptio 1684, XXV. kap. Í safni Jóns Sigurðssonar er eptirrit af ritgjörð þessari (38 fol.) með hendi Jóns sjálfs og er þar um vikivaka bls. 157. Ritið er líka í Ny kgl. Saml. 1087 fol. og 1088 A fol. og er um vikivaka í fyrra handritinu bls. 183, en 267—68 í því seinna. Lýsíngin er á þessa leið: »[Þar tíðkast] einnig dansar; sýngur þar einn fyrir og aðrir undir, en hinir dansa eptir *fallanda* saungsins. Varla heyrast önnur orð í

saung þessum hjá alþýðunni en [he, he, he, þedidei og þadida,[1] og eptir því sem saungmennirnir brýna meir röddina, eptir því hreifa dansmennirnir líkamann ákafara.« Lýsíng þessi virðist vera bogin í meira lagi, að því er viðkvæðin snertir, því sjálfsagt eiga bögumæli þau, sem færð eru til, að benda til þeirra. Reyndar má gánga að því vísu, að vikivakasaungurinn hafi ekki ávalt farið sem skipulegast fram, en fyr má nú vera en afskræmi það hafi orðið úr honum, sem Resen segir.

Sá næsti, sem drepur á vikivaka alment, er Páll lögmaður Vídalín († 1727). Hann segir: »Hvað má líkara vera þýzkra heiðíngja jólahaldi, kvæðum og dansleikum en vökunætur þær, sem hér á landi vöruðu fram á vort minni með dansleikum og kvæðalátum o. s. frv., sem fyrir utan allan efa voru leifar heiðinna manna hátíðissiða, og voru gleði kallaðar, eins og hjá þeim hétu blótveizlurnar mannfagnaður, sem Snorri vottar.« Skýríngar yfir fornyrði Lögbókar. Rkv. 1854, bls. 268.

Þá kemur Jón Ólafsson frá Grunnavík til sögunnar. Að vísu er mér ekki ljóst, hvenær hann hefir ritað það, sem liggur eptir hann um vikivaka, en telja má þó áreiðanlegt, að það hafi verið skömmu fyrir eða um miðja 18. öld.

Jón Ólafsson minnist á vikivaka og gleði alment á fjórum stöðum í ritum sínum svo eg viti, en vera má þó, að hann drepi á þetta víðar, því ervitt er að leita af sér grun í hinum umfángsmiklu og óaðgeingilegu ritum hans, sem að eins eru til í handriti. Á fyrsta staðnum (Orðabók. leikur) er aðeins um uppruna nafnsins, og er getið annars staðar um skoðan Jóns á því máli. Enn getur hann þess við orðið dans, að til sé tvenns konar dans, kalladans og kvennadans. Kalladansinn sé harðari og ákafari, en kvennadansinn þýðari og blíðari. »Vant er að hafa dansa þessa við í dansleikum þeim, sem kallaðir eru vikivakar, eða öllu fremur í leikum þeim, er menn kalla gleði og fara fram saunglaust. Vikivaki er ávalt hríngdans, þar sem kallar og konur skiptast á; kveða þau og hafa við ákveðnar fótahreifingar, eptir því sem forsaungvarinn vísar til, og dansa í hríng. Að slá dans á hljóðfæri (fiðlu, hörpu o. s. frv.) er að leika danskvæði á hljóðfæri, þótt það sé ekki gefið til kynna með dansi, því viss stilling raddarinnar á við dansinn [eptir því hvers konar hann er]. Dansarnir heita ýmsum nöfnum svo sem álfadans og svæfidans. Stundum er kvæði það nefnt dans, sem leikið er á hljóðfæri, þótt ekki sé dansað, svo sem fjallabóndadans (Fjældbondedans á norsku), eingelskur dans, sverðadans, pólskurdans.« Enn getur Jón Ólafsson þess, að »dansapláss« í leikstofu sé leiksviðið, danssviðið og enn nefnir hann »setupláss fyrirmanna að sjá uppá leiki.« Loksins má geta þess, að Jón segir að

---

[1] *ha, ha, ha. ho. ho.* ho. he. he. he og svipað. 1087 og 1088 A.

orðið dans muni vera komið af fjórum seinustu stöfunum í latneska orðinu saltans (!!).

I Orðabók sinni getur Jón þess við orðið hofmannsupphlaup, að hofmannsupphlaup, sveinaupphlaup og þrælaupphlaup séu »nokkurs konar dansar í leikjum,« en þessu ber ekki saman við það, sem Jón segir annars staðar (Sbr. Íslenzkar skemtanir, bls. 142), og mun það vera áreiðanlegra sem þar segir, því það styðst við skýrslur úr öðrum áttum. Loksins segir Jón í ritgjörð sinni um jól AM. 1011, 4 »Jólagleðir, hátíðabrigði sem fyr meir tíðkuðust um jólaleytið, en nú eru víðast lögð niður; voru leikir þeir, sem þá fóru fram, nefndir jólaleikir.« Þessum frásögnum Jóns Ólafssonar ber að mestu saman við það, sem aðrir segja um vikivaka, en telja má víst, að flestir dansarnir, sem hann nefnir, hafi aldrei tíðkazt á Íslandi, enda benda nöfn þeirra til þess.

1747 kemur út í Hamborg lýsing á Íslandi og Grænlandi eptir borgmeistarann þar, Johan Anderson, merkan mann og nafnkunnan. Bókin var því talin mjög áreiðanleg; komu út af henni tvær útgáfur að minnsta kosti og henni var snúið á ensku og frönsku, en í raun og veru er bókin ekki annað en samsull af ýmsum sögum, sem ómentaður sjómannaskríll hafði sagt borgarstjóranum, og er flest ýkt eða ósatt í henni, en fæst rétt hermt. Í riti Andersons er þetta um vikivaka á Íslandi: »Íslendíngar eru mjög sólgnir í dans, og fer hann fram á fornfálegan og einfeldnislegan hátt. Kallar og konur standa hvort gegnt öðru og lypta sér upp og láta fallast af öðrum fætinum á hinn, til skiptis, án þess að hreifa sig úr stað, annaðhvort eptir saung aldraða fólksins, sem hefir þægilegar endurminníngar um umliðna tímann og styður því æskulýðinn í þessu með mestu ánægju, eða eptir glamrinu í mjóu hlóðfæri með fjórum streingjum, sem menn þrýsta á með annari hendi en leika á (rive) með hinni.«[1] Lýsíng Andersons á vikivökunum er annars ekki svo fjarstæð og að minnsta kosti ekki ósvipuð lýsíngu Eggerts Ólafssonar. Hljóðfærið, sem hann minnist á, er eflaust lángspil.

1748 kom út dönsk þýðíng á riti Andersons, og eru aptan við hana ýmsar leiðréttíngar, meðal annars ritkorn, sem heitir: »Avertissement om den under sal. Hr. Borgemester Andersons Navn i Hamborg udkomne Tractat om Island.«. Þar er athugasemd þessi við vikivakalýsíngu Andersons bls. 291. »Hér (þ. e. á Íslandi) er lítið um dans og er hann mjög lagður niður, svo að það, sem hann (þ. e. J. Anderson) hefir fregnað um þetta mál, er alveg marklaust, og fyrirlíta flestir það nú og hlæja að því.«

Aðalsvarið á móti riti Andersons er þó bók sú, sem kom út eptir Niels Horrebow í Kmh. 1752, Tilforladelige Efterretninger om Island. Þar er um vikivaka bls. 375—76. Fyrst segir Horrebow: »Samt sem áður hefir

[1] Efterretninger om *Island. Grönland* og Straat Davis. Kbh. 1748, bls. 130.

sögumönnum höfundarins (þ. e. J. Andersons) þóknazt að segja svo frá dans Íslendínga« o. s. frv., og tekur hann nú upp grein Andersons. »Af þessu má sjá, að sögumenn höfundarins hafa skemt honum með því að stökkva klunnalega fyrir hann og gefið því það heiðursnafn að heita dans Íslendínga, en þeir hafa eingan dans í raun réttri[1] og því síður er það satt, að þeir séu sólgnir í dans. Það hefir líklega borið við, að kaupmennirnir hafi einstökum sinnum látið kalla saman Íslendínga þá, sem vinna hjá þeim í kaupstaðnum, sér og þeim til skemtanar, látið leika fyrir þá á fiólín og gefið þeim eitthvað að drekka; hafa þeir þá hoppað eptir fremsta megni. En annars fást Íslendíngar ekki við dans og hafa eingan sérstakan dans eins og bændurnir í Noregi. Þegar Íslendíngar verða fyrir veitíngum við eitthvert tækifæri, er það einka skemtan þeirra að garga hátt, með sínu lagi, hin fornu íslenzku kappakvæði[2] og kunna þeir mikið af þeim. Lagið er ófagurt (rude), því hvorki þekkja Íslendíngar saungreglur né hljóðfæri.« Þýðíng þessi er að miklu leyti eptir Jón heitinn Árnason.

Í Íslenzkum skemtunum er getið um Manducus eða Leikafælu eptir Þorstein prófast Pétursson á Staðarbakka († 1785), bls. 14—16, en þar sem rit þetta er beinlínis ritað á móti vikivökum og gefur ýmsar bendíngar um þá, eins og þeir voru um miðja 18. öld, verður líka að geta um það hér og bið eg þá, sem lesa þetta, að hafa hliðsjón af því, sem stendur í Íslenzkum skemtunum um rit Þorsteins prófasts. Það er samið 1757 og finnst nú í safni ÁM. 963,4 (63 blöð) og hrs. J. Sig. 113,8 (Eiginhandarrit séra Þorsteins).

Um og eptir 1750 bjó Bjarni sýslumaður Haldórsson á Þíngeyrum. Hann var sýslumaður í Húnavatnssýslu 1729—1773 og sat á Þíngeyrum frá 1737 til dauðadags (Sýslumannaæfir I, bls. 617—619). Bjarni var ekki við alþýðuskap, en rausnarmaður hinn mesti og höfðíngi í héraði. Svo er að sjá sem hann hafi verið gleðimaður. Að minnsta kosti lét hann halda jólagleði á Þíngeyrum þrjú ár í röð, líklega 1755, 1756 og 1757, og bauð þar til fólki úr nágrenninu og, ef til vill, ýmsum heldri mönnum leingra að úr sýslunni. Ekki fara aðrar sagnir af jólagleði þessari en þær, sem eru í riti Þorsteins prófasts, og munu þær ekki vera sem áreiðanlegastar, en þó eru þær merkilegar að ýmsu leyti.

Um þessar mundir voru harðindi mikil um allan Norðlendíngafjórðung. Þorsteinn prófastur talar í riti sínu (5. bl.) um »aðþreingjandi hallæris og húngurs neyð, sem yfir geingur, ekki einasta þetta hérað, heldur og allan Norðlendíngafjórðung sérdeilislega, svo næstliðið ár hefir hér dáið í sýslunni fult hundrað manna í sveingd og vesöld,« og hefir mannfellir þessi og

---

[1] Sama segir T. Gliemann hér um bil 70 árum seinna í riti sínu: Geographische Beschreibung von Island. Altona 1824, bls. 130.

[2] *Horrebow á hér* eflaust við rímur.

bágindi eflaust meðfram hvatt Þorstein prófast til að rita á móti dansleikjunum á Þíngeyrum, en einkum mun þó hafa vakað fyrir honum, hve dansleikir væru óguðlegir, enda miðar mest alt rit hans til að sanna það. Um leið notar hann tækifærið til að hamast á móti öllum skemtunum, hverju nafni sem nefnast, og eru færð til þess ýms dæmi í Íslenzkum skemtunum, en þessum má bæta við: »Tafl og spil og leikir eru til einskis gagns nema til að útibyrgja allar nytsamlegar meditationes og íhuganir« (Meditatio = hugleiðíng) (29. bl.). Á 31. bl. telur séra Þorsteinn »gleðskap, leiki, dansa, vikivaka, spil, hégómakvæði, tafl, kotru, ónytsamlegar rímur, óleyfilegt eða forboðið í guðs og manna lögum eða kristnum ósæmilegt,« og á 34. bl. talar hann um »dans, spil og annan apaskap, sem altíð er synd í sjálfu sér, en á helgum dögum tvöföld synd.« Sama klausan er á 56. bl., en þar nefnir þó séra Þorsteinn sérstaklega »að tefla, spila og halda gleðileiki.« Á 36. bl. segir prófasturinn: »ludi scenici (gleðileikir), theatra (leikrit), opeia(!) (á víst að vera opera = saungleikur), kómedíur, eru hjá mér undir sömu censura (dómi) og ályktan, því það virðist mér alt vera holdsins verk, en ekki andans, gjörð til að uppvekja syndugar tilhneigíngar, hvar fyrir fólk og flykkist þar að til að skemta augum og eyrum sínum og finna þeim gamla Adam fóstur og viðurværi.«

Séra Þorsteinn byrjar rit sitt á því að tala um uppruna vikivakanna, og rekur hann þá alla leið sunnan úr Egiptalandi[1] úr römmustu heiðni, og má færa það til sanns vegar að því leyti, að heiðnar þjóðir tíðkuðu gleðileiki, en líklega hafa þeir ekki verið mjög líkir vikivökunum á Íslandi, þótt séra Þorsteinn vilji láta þá vera alveg eins og leiki þá, sem Egiptar héldu Bakkusi til dýrðar. »Vorir jólaleikir [eru] haldnir eptir dagsetur við ljós. Vorir jólaleikir [eru] haldnir um skammdegistíma eður með inngaungu janúaríí. Í vorum vikivaka leikur kallfólk og kvennfólk til samans. Þá (við Bakkusarhátíðirnar) var brúkuð hljóðpípa til að pipra upp selskapinn. Nú er dansað eptir pípu Péturs þess jutska bónda frá V[íðidals]túngu. Þá var hlaupið fram og aptur með miklu stappi; svo er og enn gjört og kveðið við raust þess á millum. Bakkushátíðir voru haldnar með sælgætisveizlu öls og matar og áfeings drykkjar. Vorum jólaleikjum fylgir og gildi og gestaboð alt frá jóladeginum sjálfum fram yfir nýársdag, svo sagt er nú næst muni hafa uppgeingið hálf tunna brennivíns og matur að því skapi.« (63. bl.). Þessir »heiðínglegu leikir« (5. og 23. bl.) bárust snemma til kristinna manna, og segir séra Þorsteinn, að kjötkveðjuhátíð eða karneval páfatrúarmanna sé eptirstöðvar af þeim. »Eg kann ekki að neita að

---

[1] Séra Jón Daðason í Arnarbæli segir í Gandreið (Hrs. Bmfj. 35 fol., bls. 134. Hrs. Bmfj. 68. 4): »Ísraelslýður. Exod. (2. Mósesbók) 2 og síðan Bakkus héldu í öndverðu dansa og vikivaka eptir frumfars og tvistfars kríngsólí plánetu. Í Róm sacerdotes salii.«

nokkrar menjar af þess háttar óhófsemi (karnevalinu) hafi á þeim pápisku tíðum borizt híngað í þetta vort fátæka Ísland og við varað inn til vorra daga með nokkurs konar kæti og kjötáti á þriðjudagskvöldið í föstuinngáng,[1] því sá siður hefir vissulega eingin önnur rök eða upptök og svarar það einninn sama tímatali til páskanna; er líka gjört á nóttu. En fyrir því að hjá alþýðu vorri eru hér með eingin sérdeilis óskikkanlegheit framin, svo eg viti,« þá vill prófasturinn ekki orðleingja um þetta (4. bl.) Á öðrum stað (14. bl.) segir séra Þorsteinn, að »hégómlegir gleðileikir hafi færzt híngað til vor í þessa útey sjáfarins með milliferðum« frá Þýzkalandi og Danmörku.

Séra Þorsteinn minnist nú stuttlega á nokkra vikivakaleiki og aðra gleðileiki á Íslandi, og er færður til kafli um það í Íslenzkum skemtunum, bls. 15; kemst prófasturinn þar að þeirri niðurstöðu, að þessir leikir hafi ávalt verið haldnir í laumi, »fyrir utan vilja og vitund bæði andlegs og veraldlegs yfirvalds.« »En eingin veit eg dæmi til þess, að nokkuð kristið yfirvald hér í landi hafi látið halda þess háttar heiðínglega leiki fyrir sér eða autoríserað þá með gestaboðs veizlu um jólatímann, svo sem nú hefir heyrzt í þrjú samfeld ár gjört vera á Þíngeyraklaustri og fara vaxandi, svo varla sé helgidagskvöldum þyrmt þar fyrir« (5. bl.).

»Þyki nokkrum sem eg tali þetta út í tóman heiminn og einginn eigi hér hlut að máli, þá vil eg láta öllum skynsömum mönnum sjálfum eptir að dæma hvort fyrgreindir, svo kallaðir dansleikir á klaustrinu um jólatímann, forþéna ekki slíka critique, nær þeir eru með sinni réttu mynd og líkíngu fyrir sjónir settir, svo sem hér segist frá. Þessi leikur skal vera framinn með glensi og gamni af kallmönnum og kvennfólki til samans, með mörgum snúníngum alt um kríng, með stappi aptur á bak og áfram, með hoppi upp og niður, með hlaupum til og frá. Svo herðir hver sig að dansa eptir útblæstri eða andardrætti ludi magistri (leikstjórans) og þegar suma svimar, svo þeir tumba um koll, þá verða ýmsir undir; fara þá föt og forklæði sem verða má. Þá er og földum kvenna flug og forráð búið. Þessu skal vera hrósað og hlegið að, eptir vonum, af potestate supereminenti (yfirvaldinu). Brennivín er þá og við hendina, til þess að hressa hinn gamla Adam, svo hann þreytist ei né uppgefist, fyr en mælir syndanna er uppfyltur.«[2] (5.—6. bl.).

Leikstjórinn, sem séra Þorsteinn nefnir hér, var Pétur nokkur, bóndi frá Jótlandi, sem eflaust hefir verið feinginn heim til Íslands til jarðabóta og átti heima í Víðidalstúngu. »Jutskur bóndi er hér hafður fyrir forstjóra

---

[1] *Um* spreingikvöld. Þjóðs. J. Árn. II. bls. 573—74.

[2] *Kafli sá, sem hér* er prentaður með gisnu letri. er líka auðkendur í handritinu.

danslátanna, eptir hvers anda krapti og útblæstri og atvikum hinir aðrir skulu hræra bæði sál og líkama« (14. bl.).

Svo lítur út, sem séra Þorsteini sé einna verst við það, að menn dularbjuggu sig í vikivakaleikjunum, og færir hann til ýmsa staði úr biblíunni til að sanna, hve það sé óguðlegt t. d. V. bók Móses, 22. kap. 5. v. »Ekki skal kona taka upp kallmannsbúníng, og ei skal kallmaður fara í kvennmannsföt, því drottinn, þinn guð, hefir andstygð á þeim sem þetta gjöra.« Biblía. Rkv. 1859. Það bætti ekki heldur úr skák, að Sál konúngur dularbjó sig, þegar hann leitaði frétta hjá töfrakonunni í Endor (I. Sam. 28. kap. 8. v.), og því síður, að sú fyrsta skepna, sem sögur fara af að hafi tekið á sig annarlegt gerfi, var djöfullinn sjálfur, þegar hann tók á sig höggormsgerfið (I. Mós. 3. kap.), enda segir séra Þorsteinn, að djöfullinn hafi verið »sá fyrsti forklæddi skelmir.« »Þar fyrir, þeir sem smíða sér tötrabúníng í gleðileikjum og gestaboðsveizlum, þeir eru réttir djöfulsins apar og athlægi, en andstygð einglunum, guði og góðum mönnum« (16. bl.). Á öðrum stað (14. bl.) segir séra Þorsteinn: »Þessi ósómi er heiðínglegur og vondur, jafnvel fyrir ósnotran almúga, hversu miklu framar þá fyrir civiliseraðar og lærðar yfirvaldspersónur og er það undarlegt þær skuli hafa gaman af svoddan heimskulegum ólátum og láta þá hégómlegu fýsn augnanna blinda svo sína skynsemi.« Á 16. og 17. blaði talar höfundurinn um »Grýlu eða grímu ásjónu,« Grýlumann og Grýlumyndir, og á það eflaust alt við dularbúnínginn í vikivakaleikjunum.

Það er annars undarlegt, hvernig séra Þorsteinn fer með Bjarna sýslumann Haldórsson í riti sínu. Sumstaðar talar hann um »civiliseraðar og lærðar yfirvaldspersónur« og á öðrum stað (24. bl.) segir hann að »því miður eigi vitrir menn og lærðir hér hlut að máli,« en á 37. bl. kemst hann að þeirri niðurstöðu, eptir orðum Salómons konúngs, að valdsmaðurinn á Þíngeyrum sé heimskíngi. Auk þess stíngur prófasturinn honum ýmsar sneiðar í riti sínu. Á 50. bl. segir hann t. d. »Það verður ekki með fáum orðum sagt, hversu að klæðadragt, siðferði og ýmisleg óskikkan hefir útbreizt meðal almúgans fyrir apalega eptirbreytni fornemme (tiginna) manna og framandi þjóða, á meðal hvers að er sú gleði, sem hér er allareiðu nóg um talað.«

Það er eins og séra Þorsteinn hafi fundið til þess, að ástæður hans á móti vikivökunum voru ekki sem allra gildastar. Að minnsta kosti segir hann: »Það grunar mig að formaður þessara jóla [leikja] muni vilja kalla þetta saklausa gamanleiki og skemtan þá sem leyfileg sé í samdrykkju og gestaboðum til að fordrífa tíðina og hressa huga sinn, slá frá sér áhyggjunni og gjöra sér glatt í sinni, já til að renommere sig« (gjöra sig frægan), en við þessa eðlilegu afsökun er ekki komandi eptir skoðan séra Þorsteins. Hann kallar vikivakana »skammarlæti og skrímslisleiki« (15. bl.), hégómaleiki (50. bl.), »fánýta gleði og dægrastyttíng« (51. bl.), »ónytsamlega og

ónauðsynlega gleðileiki« (52. bl.), »nauðsynjalausa og gagnslausa gleðileiki« (54. bl.), »hégómlega gleðileiki og gagnslausa dægrastyttíng« (56. bl.). Á 37. bl. segir prófasturinn: »Það er hverjum heilvita manni skiljanlegt, að hégómlegir gleðileikir, glens og gaman, sérdeilis um jólatímann er hvorki justum, bonum, honestum né decorum (rétt, gott, heiðarlegt né sæmilegt), svo sem lögvitrir menn að orði kveða, heldur guði óþóknanlegt, kristnu fólki ósæmilegt og þar til næsta heimskulegt.« Á öðrum stað (35. bl.) vill höfundurinn beinlínis telja vikivakana undir »fýsn holdsins, fýsn augnanna og stærilátt líferni.« »Nú ætla eg að einginn muni kunna að neita því, að girndir holdsins, fýsn augnanna og ofurdáðugheit lífernisins láti sig berlega í ljósi við þessa óþörfu gleðileiki, sem hér er verið um að tala, því þeir kunna ei gjörðir að vera til neins annars en seðja og forlysta svoddan tilhneigíngar, já til að upptendra þær og ljá svo sem limi syndinni og ránglætinu til verkfæra vísvitandi og viljandi, þvert á móti þeim ásetníngi, hvar til þeir skapaðir voru, sem var alleina til nauðsynlegs erfiðis og guðs dýrkunar.« Á 36. bl. segir séra Þorsteinn: »Dans og leikir vilja hafa rúm. Þar fyrir lætur það sig betur gjöra að dansa á þeim breiða vegi heldur en þeim þraunga.« Loksins kemst prófasturinn að þeirri niðurstöðu, að vikivakarnir stríði beint á móti öllum boðorðunum. »Þessir leikir draga hjartað frá guði á móti því fyrsta boðorði, gefa náúnganum hneyxli og ásteytíng og meiða svo hans sál og samvizku á móti því fimta boðorði, vekja til lostasemi á móti sjötta boðorði, eru haldnir með ónauðsynlegum uppákostnaði eður og til ávinníngs á móti því sjöunda boði, fremjast gjarna með fjölyrðum og óþarfa mælgi á móti því áttunda boði, upptendra holdlegar girndir og tilhneigíngar á móti því níunda og tíunda boðorði. Eg mátti og segja, að hér með verður guðs nafn optlega misbrúkað og vanhelgað á móti öðru boðorði, svo og einninn sunnudagar og helgar tíðir á móti því þriðja, og þeim allra hæsta föður og herra himins og jarðar óhlýðni sýnd og óvirðíng á móti því fjórða, já einninn vorum allranáðugasta konúngi og hans lögum« (49. bl.). Og ekki er nóg með þetta, heldur segir Þorsteinn prófastur, að menn hafi afneitað vikivökunum í skírninni, meðal annars. »Þvílík leikspil eru einn partur af þeim hlutum, sem vér höfum afneitað í skírninni, er kallast djöfulsins athæfi, það eru heiðínglegir leikir og hoffrægð þessarar veraldar, svo sem vor catechismus það útleggur. Þetta sama sem nú er haldið hjá oss af mörgum fyrir gamanspil og hégómamál, það hefir þeim gömlu og guðhræddu forfeðrum kristninnar þótt svo mikils um vert, að þeir hafa innfært það í skírnarinnar ceremoniur og ekki dæmt þann með réttu mega bera kristið nafn, sem ekki skildi sig við svoddan dáraskap, sem þeir kölluðu pompam et opera diaboli (glys og verk djöfulsins). Það er að lesa hjá Euphrem Syriaco, bls. 117, að sá sem skírast vildi skyldi segja: abnuntio avaritiæ, rapinis, alearum otio et tabularum lusui, það er: Eg afneita *ágirni, ránskap, kotru*leik og spilum. Því segir og einn merkilegur

theologus berlega, að þessir leikir séu djöfulsins og heiðíngjanna uppáfindíng.«

En þótt séra Þorsteinn hamist á móti dansleikjum eða vikivökum og öllum skemtunum yfir höfuð, er það þó ein tegund leikja og kveðskapar, sem hann virðist ekki hafa óbeit á, en það eru »leikir« þeir »fyrir guði,« sem getið er um í biblíunni. Fyrst nefnir séra Þorsteinn lofsaung Móses, þegar Gyðíngar voru komnir yfir hafið rauða á heimförinni úr Egiptalandi (II. b. Móses, 15. kap.) og því næst vísar hann til hinnar fyrri Kroníkubókar 14. kap., 8. v. og 16. kap., 16. v. »Og Davíð og allur Ísrael lék fyrir guði af öllu megni með saung og hljóðpípum og hörpum og trumbum, bjöllum og básúnum.« »Og Davíð bauð þeim æztu Levítum, að þeir skyldu setja sína bræður saungvara með hjóðfærum hörpum, hljóðpípum og básúnum, að þeir sýngju hvelt og upp hefðu raustina með gleði« (Biblía 1859). »En hvað eiga þeir (dansleikarnir í biblíunni fyrir guði) skylt við holdlega skemtan og heiðna gleði hjá oss, hvar ekkert er talað um guðs kraptaverk, né trúfesti, ekkert um himneskan fögnuð og ekkert um endurlausn Jesú Kristí, heldur þar þvert á móti brúkuð, kann ske, bæði skrípakvæði og skrípalæti, með hávaða, hlátri, sköllum og skimpi« (24. bl.).

Eins og lætur að líkindum, hefir ekki verið haft mikið guðsorð um hönd við vikivakana, enda hefði það ekki átt vel við, og voru þó opt súngin á þeim andleg kvæði, eins og tekið er fram í sumum vikivakalýsíngunum og sést auk þess á vikivakakvæðunum sjálfum, en þrátt fyrir það gátu vikivakarnir farið fram með siðsemi og saklausri skemtan, og er ekki ástæða til að efast um að það hafi átt sér stað á Þíngeyrum, þótt annað hafi orðið ofan á hjá séra Þorsteini. Hann getur þess reyndar, að þar hafi verið drukkin hálftunna af brennivíni, en bæði getur það verið orðum aukið og svo virðist það ekki vera svo geypilegt, þar sem veizlan og gleðin stóð yfir viku, en eflaust hefir fjölmenni mikið verið komið saman á Þíngeyrum um þetta leyti.

Ekki fara sögur af því, hver áhrif rit séra Þorsteins hefir haft, en líklega hefir það orðið til þess, að vikivakarnir hafa verið lagðir niður, og hafa þeir að öllum líkindum verið seinastir vikivakar á Norðurlandi.

Ferðabók Eggerts Ólafssonar og Bjarna Pálssonar, Reise igiennem Island, kom út í Sorö 1772, og er þar lýsíng á vikivökum bls. 351 á þessa leið: »Gleðir eða skemtanir eru nú ekki nærri eins opt haldnar á veturna og áður. Annars eru hér sýndir ýmsir tilteknir hlutir, og ávalt hinir sömu í hverjum leik t. d. hjörtur prýddur ljósum,[1] riddari að temja hest,[2] flokkur af skjaldmeyjum.[3] Milli leikjanna leika gestirnir, sem boðnir eru, vikivaka. Það er eins konar saungur, er kallmaður og kvennmaður sýngja saman; halda þau í hendurnar hvort á öðru og kveða vísur undir ýmsum lögum, sem eiga við ásigkomulag annars hvors eða beggja sameiginlega. Hér er því

[1] Hjartarleikur. [2] *Hestleikur.* [3] Þíngálpsleikur og fleiri vikivakaleikir.

mjög undir minninu komið að geta hitt á og kunnað hinar fegurstu vísur, er bezt eiga við. Meðan þau sýngja vísur þessar, beygja þau sig lítið eitt áfram og aptur á bak (fram og aptur) og láta fallast fram á hægra fótinn, án þess þó að færa sig úr stað. Í byrjuninni og á milli (til Mellemstykker) kveður forsaungvarinn vísu með hárri röddu, og nokkrir þeirra er viðstaddir eru taka undir með honum; hinir svara honum aptur. Vikivaki er kunnur frá fornum tímum, og er hann sumstaðar nefndur dans (t. d. í Sturlúngu), en orðið þýðir á norrænu ekki eiginlega hreifíngu líkamans heldur samsaung eða saung, sem fer fram á vissan hátt, þegar margir sýngja og saungurinn á að sýna einhvern tiltekinn atburð. Þegar á alt er litið, er það trúlegt að slíkir leikir hafi áður verið af betra toga spunnir, þar sem heldri menn voru með í þeim, en nú er það ekki tíðkanlegt.«

Vikivakalýsíng Eggerts er í lýsíngu hans á Snæfellsnesssýslu og virðist það benda til þess, að þar hafi tíðkazt vikivakar fremur en annars staðar á Íslandi um þessar mundir. Yfir höfuð að tala er svo að sjá á ferðabók Eggerts, að vikivakar eða gleðir hafi þá hvergi tíðkazt að mun nema á Snæfellsnesi og Rángárvalla- Árness- og Gullbríngusýslum, helzt Reykjavík; tekur hann fram bls. 977, að gleðir séu haldnar sunnanlands á vetrinn í fiskiverum þeim sem stærst séu, einkum í Reykjavík. Bls. 461 segir Eggert, að gleðir séu alveg óþektar á Vesturlandi, og er það merkilegt, því menn hafa sannar og áreiðanlegar sagnir af fleiri en einni gleði á Vestfjörðum eptir daga Eggerts Ólafssonar. Eggert nefnir ekki gleðir á Norðurlandi, en gefur þó í skyn, bls. 699, að þær tíðkist þar dálítið. Bls. 834 tekur hann fram, að gleðir séu sjaldgæfar á Austurlandi.

Í Brúðkaupssiðabók Eggerts Ólafssonar er talsverður kafli um gleðir og aðrar skemtanir, og færi eg hann hér til stafréttan, eptir handriti Pálma Pálssonar, en hann hafði eptir handritum þeim, sem getið er um aptan við kaflann:

»Leikar og skemtaner ad alþydu-dryckiu.

Med þvi minna forsagnernar eru þennan dag miklu styttre enn vered hafa firerfarande daga þá verdur máltid timanlega úte. Skal þá stytta firer sier stunder med ymisu saklausu gamne, gledum eður leikum, sem lofleg venia var til forfedra vorra. Nú eru slikar skemtaner miken part aflagdar sökum þess ad opt hafa yferbodner af otimabærre vandlætingu þær með öllu bannad og afteked, vegna einhvorrar misjafnra manna vanbrukunar og gárungaskaps, sem hneixle og annan vondan vana hefde kunnad orsaka. Enn ecki vitum vier þess geted ad firermenn hafe teked sier firer hendur ad lagfæra soddan leike, hverier þó sennelega hafa vid sig bundna sina nytseme, miklu stærre enn menn almennelega ætla: Þad má siá af dæmum annara landa hvorsu dofnar þioder hafa vid lystelegar comoediur edur sionarspil uppörfast; samt

þorparalegt folk kurteyslegt og sidlatt orded. ad eg ei tale um hve miog þeim hefir fram fared vid æfing likams hreysteleika, þvi skildu þá ecki sömu medöl tiá oss Íslendingum, sem slenfuller og dofner erum ordner, af þvi vier höfum mist öll tækefære til örfande sidlátlegrar skemtunar og eckert fáum vier ad sia er oss kann ad vera til lærdoms edur aukningar i bæarlegum selskap svo þar er eingen þiod i veröldu (eg undan tek skrælingia og villemenn hins nya heims) jafnhrygg og dauf og þegiande sem vier, hverier eckert hofum ad gamna oss med annad enn hid naganda brennanda olucku-vin, hvers afreksverk vier ofoft siaum; fylger þar af (ad miklu leiti) annar mállaki nefnel. rádleyse, nær finna þarf nockud nytt til gagns þegar hid gamla brestur: framkvæmdarleyse, nær fliott og hardlega þarf ad nockru ad vinda og loksens svefn og dofenleike edur tilfinningarleyse þá einhvor stór og adgiætnesverd tilfelle ske i borgarlegum edur natturlegum efnum. Litum til baka hve miked hinar frægustu heimsþioder unnu vid skemtelegar æfingar salar og likama, og hvern avöxt þad gaf þá ymser merkesmenn unnu rauner þeirra oc þeirra leika frá hvorium þeir hnossum giædder og lofe prýdder heils landslíds geingu örugger til allra mestu afreksverka med hvorium friálsudust lönd og lider. Hversu reyndu sig og vöndu Epaminondas og Alexandar hinn micle? (v. Corn. Nep. in Vita Epam. & Freinsh. Suplem. Curtii). Hversu þeir er vedhlaupen unnu og glimurnar i Gricklande edur hiner er openberlega skilmudust i Rom. — Göngum til skynsemdarleika frá hreysteleikum. Hvorsu ágiætlega sýndu ei comoediæ hiá nefndum þiodum dygder og leste med natturlegum yferlitum? Heiludu þær ecki sem miúkustu læknesdomar ymsa siúkleika borgarlegs likama? Hvad þægelega og under eins nytsama hræring munu ei gjördt hafa Plauti Smidar vid asnakvornena og fleirre soddan merkesmanna á vidsynum sionarflete almennings samkundu. Hvorsu Syrack (c. 33) lofar Musicam i gestabodum þad er adur sagt (conf. C. 5). Hve miog hefur ei saunglysten hrært jafnvel annars ohrærande kletta, þegar Orfeus bifar múrana i borgunum og tren i skógunum hepter elvarstraum og speker hin olmu villudyr hvad alt er i efterlikingum sagt um otrulegar verkaner hans jþrottar. Þegar þegiande Timotheus med einum saman saungtolunum kemur Alexandro til ad hlaupa upp og gripa til vopna og oteliandc eru soddan dæme hve slikir leikar verka hia þiodum vorra tíma eg fortek vanbrukunena oc hennar illa ávexte edur mannanna vonsku enn ei verre hlutena vor til leggiande. Enn ad eg kome til vor Islendinga þá eru bæde hringbrot og glimur, fallega nidurskipadar, agiæter leikar til ad æfa miúkleik og hreyste likamans. I þeim gledum er nú brúkast á lande voru er litel skynseme og enn minne nytseme til nockurs lærdóms; þvi være miklu betra þær ad bæta og taka sier fyrir yms tilfelle úr sögum vorum, hvar af gott má

nemast, illt fordast og sinned til manndoms upphvetiast. Nú þott til slikra skemtana vante samkvæma klædabuninga þá má samt leikuren med litlum efnum lagast nær hinar firerleikande persónur eru æfdar og vel hæfelegar. Sieu leikar um sumartima, þá má flesta þá ute hafa; enn inne um vetur og skamta þa efter húsrúme. Vilie vildesmenn leika þá skulu þeir ei giora virdingu sina so almenna ad hafa adra enn menn betre radar og nockurn vegen sina lika ad leiknum og jafnan er skemtunen því betre sem skickelegra folk er til leiksens teked. Nu meiga menn auk taldra leika hafa sagna og hliodfæra skemtan, kvæde og saungva godskrítna og satyriska, þá er lasta illt og lofa gott sidferde, þeir er þad vilia; skak og verplakast án vedsetninga hiner er þad likar betur, enn þó er fagrast ad aller sieu samt og ahorfe hina somu leike: skal þad vera ádur nidurskipad af sidamanne, med vilia veitenda og rádum hinna skynsomustu manna og bestu gledemanna, þeirra er ádur eru æfder og goda grein hafa á leikum edur annare skemtan.

Um dansa. Dansar marger er brukast i utlöndum eru og falleger samt gagnleger firer hæversklega hræring og æfing likamans, ef nockrer eru sem þá kunnu; enn ei skulu menn fara med þad þeir ecki kunna, so ei verde ur hlatur edur garungaskapur i stad godrar skemtanar allra hellst nær utlender menn eru nærre, því þeir eru grandsærre en sialfer vier i slikum efnum og bera ut af landenu til óhródurs jafnvel þad er i sialfu sier eige er lastsamlegt, nær þad ecki er efter þeirra höfde. Nú skildu því jafnan nockrer þeir vid vera, er utanlands hafa gefed auga og efter teked gledum edur dönsum, svo vel ad þeir vite goda forsögn þar á. Enn þad gamla danslag er hier og vidar a nordurlöndum hefur brukast med kvedande i fyrndenne, af hvoriu efterstödvar eru sá vikevake er enn hier a lande i gledum er brukanlegur, fellur nú sidur enn ecki þessarar aldar grannsæe, sist utlendra manna, þó megu vel Islendsker bruka med hæfelegum danskvædum vikevaka, hellst i sinn hóp, enn ei so þorparalega, sem sumstadar er vane, ad karl og kona kvedast á ymsar visur, efter því sem hvor kann og a hittest, annad hvort um amórsbrögd, bryxl edur klám, edur nockra endeleysu ut i lofted þá er hverke kemur vid efnenu, nie helldur er bunden vid nockra stöduga meining.«

Brúðkaupssiðabók Eggerts Ólafssonar. Eiginhandarrit. Jón Árnason átti það, en nú mun það vera á Landsbókasafninu. Eptirrit í hrs. J. Sig. 224. 4. Kaflinn sem til er færður er 18. kap. í IV. sectio, bls. 63—65 í hdr. Jóns Árnasonar.

Enn nefnir Eggert Ólafsson vikivaka á tveimur stöðum í Kvæðum sínum Kmh. 1832, bl. 33, 119; er reyndar svo sem ekkert á því að græða og skal eg þó færa það til:

Náttúran stígur vikivaka. (33)
Farið þér til vikivaka
vinnunot og hvíld að taka. (119)

Ymsir, sem ritað hafa um vikivaka eptir daga Eggerts, hafa haft stuðníng af lýsíngu hans í Ferðabókinni, en sumir hafa farið eptir henni eingaungu svo sem Eggerz í Philosophische Schilderug der gegenwärtigen Vervassung von Island. Altona 1786, bls. 73 og K. Weinhold í Altnordisches Leben. Berlin 1856, bls. 466.

Næst ritar Uno von Troil, erkibiskup í Uppsölum, um vikivaka á Íslandi. Hann ferðaðist um Ísland 1775 með Jósep Banks og Daniel Solander og gaf, tveimur árum seinna, út bók á sænsku um ferð sína, Bref rörande en resa till Island. Upsala. 1777. Þar er um vikivaka og gleðir bls. 70: »Vikivaki (Wike-vaka). Hann er fólginn í því, að kall og kona halda í höndina hvort á öðru og sýngja ljóð til skiptis, sem eiga vel við hitt, en saungflokkur (kór) tekur stundum fram í. Útlendíngar hafa þó ekki mikla skemtan af þessu, því venjulega sýngja Íslendíngar mjög illa, alveg taktlaust og án allrar fegurðar, einkum af því þeir þekkja ekki hið allraminnsta til yndisleiks þess, sem hin nýjari saunglist hefir í för með sér.« Gleðir segir Uno von Troil að það sé kallað, þegar menn dularbúa sig, og á hann þar eflaust við vikivakaleikina.

Eins og kunnugt er, ferðaðist Ólafur Ólafsson, sem seinna varð tollheimtumaður á Skaga, nyrzt á Jótlandi, (Olaus Olavius), um Ísland í nokkur ár á seinna hluta 18. aldar, eptir undirlagi dönsku stjórnarinnar og Jóns Eiríkssonar, og kom fyrri hlutinn af ferðabók hans, Oeconomisk Reise igiennem de nordvestlige, nordlige og nordöstlige Kanter af Island, út í Kmh. 1780. Þar er talað um afnám gleðanna og hnignan annara þjóðlegra skemtana og íþrótta bls. 184—85, svo sem nú skal greina: »Sund og aðrir fimleikar eru nú lagðir af fyrir laungu, svo sem skíðaferð, dans, saungur og knattleikur eða boltaleikur. Já, andlegrar stéttar menn hafa jafnvel á seinni öldum talið það skyldu sína að leggja niður með öllu slíkar gleðir eða skemtanir, í stað þess að hepta ýmsa ósiði, sem kynnu að læðast inn í leikina, og það þótt þær í sjálfu sér væri alveg ósaknæmar og jafnvel nytsamar, þar sem leikirnir, þótt þeir væru einfaldir og óbrotnir, voru almenníngi til fjörgandi hreifíngar og hressíngar, tvisvar eða svo á ári, eftir hin mæðusömu og sífeldu störf á sjó og landi. En skyldu trúarbrögðin þá hafa bundið manninn við sífelda mæðu og raunir eða neitað honum um alla skemtan og dægrastyttíngu? Eða mun ekki nokkuð af sjúkdómum á Íslandi bæði hjá köllum og konum og einkum þó hjá konunum, koma af hreifíngarleysi og skorti á félagslífi og þeirri hressíngu fyrir hugann, sem leiðir af því?« Eggerz talar í sömu áttina og Ólafur í Philosophische Schilderung, bls. 72—73, að illa hafi verið gjört af klerkunum að rýra skemtanir Íslendínga.

Næst minnist Skúli Thorlacius á íslenzka vikivaka í Borealium veterum matrimonia cum Romanorum institutis collata. Hafniæ 1785, bls. 227—28. Hann tekur upp orðréttan kaflann um vikivaka úr Crymogæa Arngríms lærða. Skúli telur víst, að dans hafi fluzt til Íslands frá Noregi og öðrum löndum með landnámsmönnum. Hann segist vera viss um, að dans Íslendínga hafi verið ruddalegur og ólipur, því Norðurlandabúar hinir fornu muni hafa lagt meiri áherzlu á vopnaburð en fótaburð eptir vissum reglum, og má vera að talsvert sé hæft í því.

Hannes biskup Finnsson minnist á dans og vikivaka í formálanum fyrir Kvöldvökum sínum og fer um þá þessum orðum: »Öllum góðum mönnum má vera gleði, að dans og vikivakar, eins og þeir seinast voru orðnir hjá oss, eru aflagðir, því ef hin fyrtéðu æfintýri[1] eru óheilnæm andarfæða, þá voru þeirra vikivaka skrípalæti siðgæðisins ólyfjan og bráðasta eitur. En mjög svo vantar oss Íslendínga eitthvað það, er gleðji og hressi sál og líkama undir eins t. d. sómasamlegan dans, hljóðfærasaung og gagnsamleg samkvæmi,« og tekur biskupinn því upp í Kvöldvökurnar tvö útlend leikrit svo sem sýnishorn af »útlendra þjóða gleði« og kallar hann þau barnagleðir. Leikrit þessi eru »Sumargjafirnar« og »Góð börn foreldra bezta eign.« Kvöldvökur I. Leirárg. 1796, bls. XXIII. Formáli fyrir Kvöldvökunum. Kmh. 1853, bls. 16—17, en seinni útgáfan af Kvöldvökunum kom annars út 1848.

Magnús háyfirdómari Stephensen drepur á vikivaka bæði í Eptirmælum 18. aldar. Leirárg. 1806 (litla útg., bls. 563—64. Stærri útg., bls. 783) og Island i det 18. Aarhundrede. Kmh. 1808, bls. 226, 230—31. Á fyrra staðnum segir hann: »Asta og ødrum gladværdum lögdu grettir geistlegir kapp á ad eyda, svo engin lystisemd yrdi þeim (Íslendíngum) leyfd, því vóru Vikivakar og Gledir aflagdar, já! afdæmdar — —; en — vera kann ad mis-skilníngur bodordsins: Aukist og margfaldist, eins hér og annarstadar hafi því valdid. Hitt er víst, ad þessum og ødrum gladværdar-Samkomum fæckadi hér algiørlega med þér.« (þ. e. 18. öldinni). Þar sem Magnús Stephensen drepur hér á ótilhlýðilega aukníngu og margföldun mannkynsins, á hann eflaust einkum við Jörfagleði. Auk þess minnist hann á hana annars staðar í Eptirmælunum og verður þess getið þar sem henni er lýst í riti þessu.

Í danska ritinu tekur Magnús það fram, bls. 226, að eingin gleðilög séu til, sem einkennileg séu fyrir landið (Ísland) og einginn dans tíðkist þar. Bls. 230 er þýðíng eða því sem næst á grein þeirri, sem færð hefir verið til úr Eptirmælunum, og hnýtir Magnús þar aptan við: »Gleðirnar voru annars líkar hinum gömlu jólaleikjum eða nokkurs konar grímuleikur og

[1] »Eg hefi opt kvalizt af að vita, að á mörgum bæjum eru lesnar tröllasögur og æfintýri full af ósiðum og hjátrú.« Formálinn, bls. XXI.

vikivakarnir voru að vísu ósmekklegur og ósaunglegur saungleikur, en skemti þó alþýðunni, þángað til klerkastéttin fyltist heilagri vandlætíngu og kom því til vegar, að þeir liðu alveg undir lok.« Enn segir Magnús bls. 231: »Strax eptir byrjun 18. aldar hurfu allar gleðir og allar skemtisamkomur.«

Séra Björn Haldórsson hefir orðin dans, gleði og vikivaki í Orðabók sinni, Lexicon Islandicum 1814, en ekkert er að græða á þýðíngu hans. Aptur er þýðíng hans á orðinu dymbill allmerkileg. Hann þýðir það »Crotalum ligneum, en Klappert, en Trærangle at slaa Takt med til Dans« eða tréskröpur til að slá taktinn í dansi. Dymbill var trékólfur, sem hafður var í kirkjuklukkum á Íslandi í páfatrú í staðinn fyrir málmkólf, um dymbildagana, og er opt getið um dymbil í gömlum máldögum, t. d. Vilkíns máldaga.

Í Nýjum Félagsritum II. 1842 er grein um alþíng eptir Konrad Maurer, og er þar athugasemd um vikivaka neðanmáls bls. 65. Hún er að mestu leyti um Jörfagleði, en þetta er þar um vikivaka alment: »Gleðirnar voru alltíðar skemtanir á Íslandi á miðöldunum. Þar voru haldnir leikar ýmsir og dansar og vikivakar, og er ekki fátt til enn af kvæðum þeim sem kveðin voru og dansað eptir. Stundum kváðust kallar og konur á vísur, og margt annað var haft til skemtunar, en ekki er því að leyna, að stundum fór óskipulega fram og einkum er við brugðið hinni svo kölluðu Jörfagleði.« »Mælt er að prestar hafi geingið hart að að útrýma gleðinni, og var það samkvæmt annari stjórn þeirra tíma, að kasta barninu út með lauginni, banna gleðina, af því þeir kunnu ekki eða nentu ekki að stýra henni svo hún yrði hæfileg. Á Færeyjum og í Noregi haldast gleðirnar við enn og allar siðaðar þjóðir láta sér ant um að halda við og glæða smekk alþýðu á saklausri og fagri skemtan, því þær viðurkenna að það kveiki og glæði fjör og atorku, en skemtanaleysi olli deyfðar og kjarkleysis til allra nytsamlegra starfa.«

R. Keyser talar um vikivaka á Íslandi á fyrra hluta 17. aldar í ritgjörð sinni, Nordmændenes Forlystelser i Oldtiden,[1] og er það sem hann segir ekki fjarstætt í sjálfu sér, en aptur er ekkert á því að græða annað en það sem tekið hefir verið fram.

Guðbrandur Vigfússon minnist á vikivaka á ýmsum stöðum í Orðabók sinni, einkum við orðin dans, gleði og vikivaki. Þess er áður getið hvað hann segir við dans. Við vikivaka reynir hann fyrst til að skýra orð þetta, og er getið annars staðar um skoðan hans á því máli; segir Guðbrandur að vikivakar hafi verið alþýðlegar gleðisamkomur og skemtanir á sunnudagskvöldum og hafi farið þar fram saungur og dans. Því næst getur hann um vikivakakvæði og fornkvæði.

---

[1] Norsk Tidskr. for Videnskab og Litteratur. II. 1848, bls. 238—39.

Grímur doktor Thomsen hefir sett tvær greinar um vikivaka í Ísafold, V. 1878, bls. 128 og VI. 1879, nr. 1; er það notað á ýmsum stöðum í riti þessu sem þar segir. Það má þó taka hér fram, að Grímur segir að einn hafi súngið fyrir, en allir, bæði konur og kallar, viðkvæðið, hvort þeir eða þær stigu dansinn eða ekki (bls. 128). »Á stundum mun hafa verið svo til hagað, að þeir sem dansinn stigu súngu fyrir, en aðrir, sem ekki tóku þátt í dansinum, súngu stefið og stigu á, eins og hér segir:

Hafið nú stef og stigið á« o. s. frv.

Vísuorð það, sem Grímur færir til, er úr færeysku danskvæði, en ekki íslenzku, og yfir höfuð hættir honum talsvert við að blanda saman færeyskum danskvæðum og íslenzkum í þessum Ísafoldargreinum.

Loksins er lipur og laglega samin grein »Um dansa og vikivaka« eptir cand. theol. Sæmund Eyjólfsson í Þjóðólfi XXXIX. 1887, nr. 9—11, bls. 34—5, 38—9 og 43. Eg hefi haft dálítið gagn af grein þessari, því hún er greinilega og skipulega rituð, en alt þekti eg áður, sem í henni er, nema um gleðina á Hjalla í Ölvesi.

Enn má geta þess, að dans er nefndur í kvæði, sem ýmist er eignað séra Stefáni Ólafssyni eða séra Hallgrími Péturssyni, og í Tímarímu eptir Jón Sigurðsson, sýslumann í Dalasýslu. Í kvæðinu stendur:

Dándisvirðir dansinn stíga,
dubl sér temja,
seinna stirðir, síðan hníga,
seinast emja.

Sálmar og Kvæði eptir Hallgrím Pétursson II. 1890, bls. 383. Kvæði Stefáns Ólafssonar II. 1886, bls. 161.

Í Tímarímu stendur:

Nú var á Öfund einginn stans,
öldruð beitti túngu;
hún var kát og kvað við dans,
kauðar undir súngu.

Tímaríma. IV. útg. 1884, 185. er.

Loks má minna á vísuna:

Leiðist mér að liggja hér í ljótum helli.
Betra' er heima' á Helgafelli
að hafa þar dans og glímuskelli.

Jón Ólafsson frá Grunnavík. Orðab. hellir. Þjóðs. J. Árn. I, bls. 305.

---

Nú hefi eg nefnt ýms rit bæði prentuð og skrifuð, sem minnast á *vikivaka meira eða minna*, og er þó fjöldinn af þeim prentaður; hefi eg um

leið fært til hið helzta, sem þau segja um vikivakana eða gleðirnar, og sumstaðar orðrétt. Ekkert af ritum þeim, sem nefnd hafa verið, hefir verið um vikivaka eingaungu nema Þjóðólfsgreinin eptir Sæmund Eyjólfsson. Aptur eru til ýmsar skrifaðar skýrslur, sem eingaungu eru um vikivaka, og skal eg nú nefna þær, sem mér hafa borizt í hendur, en ekki get eg þess við hverja skýrslu, hvað hún segir um vikivakana, eins og prentuðu bækurnar og þessar fáu skrifuðu bækur, sem taldar hafa verið, og er sú ástæða til þess, að efnið í vikivakaskýrslunum er venjulega miklu fjölbreyttara en í hinum heimildarritunum, og varð því að dreifa því innan um alt ritið, þar sem það átti heima.

1. »Niðurraðan og undirvísan hverninn gleði og dansleikir voru tíðkaðir og um hönd hafðir í fyrri tíð.« Frá hér um bil 1800. Hrs. Sv. Grv. 66. Ekki er mér ljóst, hver samið hefir ritgjörð þessa né skrifað hana. Ritgjörðin er mjög merkileg og lýsir, meðal annars, níu vikivakaleikjum.

2. Vikivakaritgjörð Jóns Árnasonar; hefi eg haft undir höndum af henni fjórar útgáfur og er ein þó að eins brot. Ein er í hrs. Sv. Grv. 66, og er hún alveg samhljóða fyllstu útgáfunni, sem eg hefi feingið frá Pálma Pálssyni, að því undanskildu að þar vantar ýms vikivakakvæði og lýsíngu á fimm vikivakaleikjum, sem eru í hinni síðar nefndu.

3. Stutt skýrsla frá séra Guðmundi Einarssyni á Breiðabólstað í safni Jóns Árnasonar, mest um Jörfagleði. Auk þess er drepið á fáeina vikivakaleiki. Svipaður er endinn á leikjaritgjörð séra Guðmundar í ÁM. 970, 4.

4. Stutt skýrsla frá Magnúsi bónda Andréssyni á Kópsvatni, sem hann samdi fyrir Sigurð Guðmundsson málara, og er hún nú í hrs. Sv. Grv. 66; hefir Sigurður sjálfur gjört ýmsar athugasemdir við skýrslu þessa. Þar er drepið á fjóra vikivakaleiki.

5. Stutt skýrsla um vikivaka, einkum Ingjaldshólsgleðina, í safni Jóns Árnasonar eg veit og ekki hver hefir samið hana.

6. Stutt en merkileg skýrsla til Jóns Árnasonar frá séra Einari Jónssyni að Kirkjubæ í Hróarstúngu, að mestu eptir Jóni Sigurðssyni í Njarðvík eystra.

7. Stutt skýrsla um nokkra vikivakaleiki eptir Guðna lækni Guðmundsson í Svaneke á Borgundarhólmi; hefir hann samið hana fyrir Jón Árnason á skólaárum sínum.

8. Stuttar frásagnir um vikivaka á Vestfjörðum í bréfi frá Sigurði Guðmundssyni málara til Jóns Sigurðssonar 23. júní 1863 (hrs. Sv. Grv. 66). Frásagnir þessar eru eptir sögn Eyjólfs dannebrogsmanns Einarssonar í Svefneyjum og Árna biskups Helgasonar 1858.

Í vikivakaritgjörðinni frá hér um bil 1800 í hrs. Sv. Grv. er eingin veruleg lýsíng á vikivökum. Vikivakaleikjunum er lýst mjög ýtarlega, en um vikivakana sjálfa er þess að eins getið, að þegar hlé varð á leikjunum hafi ýmist farið fram *vikivaki*, *þ. e.* saungur, eða dans. Vikivakinn var

ýmist kallmannavikivaki eða kvennmannavikivaki, og dansinn var ýmist kallmannadans eða kvennmannadans. Auk þess er þess getið þar, að tveir hafi verið forstöðumenn fyrir gleðinni, og að gleðimenn hafi klappað af sér gleðina að lokum. Það sem stendur um vikivaka alment í ritgjörð þessari verður annars fært til í niðurlagi lýsíngarinnar á vikivakaleikjunum, því ómögulegt var að skilja það frá skýrslu um röðina á þeim. Þess skal getið hér, að dr. Jón Þorkelsson ýngri segir í þætti af Birni á Skarðsá í Tímariti Bmfj. VIII. 1887, bls. 59, að menn hafi optast sælzt til að hafa hagmælta menn fyrir leikforíngja, því forsprakkarnir í leikjunum hafi venjulega orðið til að yrkja leikkvæðin.

Eins og getið er um við vikivakaleikina, samdi Magnús bóndi Andrésson á Kópsvatni lýsíngu á vikivökum fyrir Sigurð Guðmundsson málara, og er hún í bréfi til Jóns Sigurðssonar 1864 í hrs. Sv. Grv. 66. Magnús hefir frásagnir sínar eptir ömmu sinni Marínu Guðmundsdóttur, sem var fædd 1720 eða 1721 og dó 1805, þegar Magnús var 15 ára. Marínu var ekki um að nefna vikivaka heldur gleðir. Gleðirnar voru haldnar á bæjum »þar sem voru rúmgóðar baðstofur eða svo kölluð baðstofugólf, fyrir neðan pallinn, sem tíðast tók manni í mitti. Á honum voru rúmin, þar sem þau voru ekki í skála fram í bæ. Víða voru pallar í báðum körmum, en stofur voru þá ekki á bóndabæjum og varla á prestssetrum. Baðstofan var uppljómuð með ljósum. Síðan paraði gleðifólkið sig saman, kall og kona, héldust í hendur og stigu dans í hríng með kvæðasaung. Sum kvæði voru klámkendar amorsvísur, en sum líka lýtalaus og svo þar á milli, svo sem t. d.

Hér geing eg í gleðina
svo lág og víð,
og held í hönd á manni
heldur kríkasíð.«

»Ekki er eg vel fróður um það, á hvaða bæjum gleðirnar voru, en það man eg, að amma mín sagðist hafa farið í gleði að Efra-Seli, ekki veit eg hvað opt, þegar hún var heimasæta á Kópsvatni; hefir þó sá bær varla haft bezt húsrúm á þeirri tíð.«

»Þessar gleðisamkomur voru tvær til þrjár á vetri, helzt í skammdeginu, og stóð hver um sig nóttina út. Naumast mun hafa verið laust við samræði kalla og kvenna í rúmum þeirra,[1] jafnvel þótt kellíngarnar léti lítið á því bera, þegar þær með gleðibrosi mintust á slíkar úngdómsskemtanir. Það hefir víst ekki verið víða eins frekt og í þeirri nafntoguðu Jörfagleði.«

Í ritgjörðarkorninu um Íngjaldshólsgleðina er vikivökum lýst á þessa leið: »Vikivakar. Á stórhátíðum voru þessir leikir haldnir, einkum á jólum. Til þeirra var köllum og konum safnað á hina helztu stórbæi og þar haldinn ýmiskonar dansleikur, sem kallaður var bæði Hoffinnsleikur eða tröllkonu-

[1] *Sbr. það sem segir* um ólifnað í gleði einni í Krukksspá.

leikur, og fleira. Menn tóku únga dreingi efnilega og kendu þeim dansleikinn. Í þessum leikjum lék jafnan kall og kona saman, og á meðan súngu saungmenn þau kvæði, er til þess voru feingnir að sýngja þau kvæði, er til vikivakanna voru kveðin, og var dansinn stiginn eptir þeim. Vikivakar voru í mjög miklu áliti leingi fram eptir, þar til mönnum þóttu þeir efla siðleysi og mörg börn koma undir á þeim.«

Frásögn þessi er tekin eptir Guðrúnu Þorsteinsdóttur í Arnþórsholti í Borgarfirði 1860, hálfníræðri, en fóstra hennar, sem var um sjötugt þegar Guðrún var á barnsaldri, sagði henni. Hún hét Ingiríður Ólafsdóttir á Vilmundarstöðum í Reykholtsdal, í tíð séra [Jóns Haldórssonar[1], föður Finns biskups.

Séra Einar Jónsson að Kirkjubæ í Hróarstúngu lýsir vikivökum á þessa leið, að mestu eptir sögn Jóns Sigurðssonar í Njarðvík eystra: »Vikivakarnir voru venjulega haldnir á einhverjum helzta bænum í þeirri sveit, er í það og það skipti skyldi vikivaka halda; komu þar saman bæði giptir menn og ógiptir. Þá er menn voru komnir allir eða flestir, var maður sendur burt, einkennilega búinn; skyldi sá sækja passa til Óðins í Valhöll. Hann kom aptur, að stundu liðinni, með fiskroð, er ekkert sást á ritað; var þá sá feinginn til að lesa á roðið, er bezt þótti til þess fallinn. Þá er passinn var lesinn, settust menn undir borð«, og segir séra Einar í bréfi til Jóns Árnasonar 13. janúar 1877, eptir Jóni Sigurðssyni, að borð hafi verið sett um miðja stofu endilánga, og hafi menn setið að því tveim megin. Nú kemur hjá séra Einari um ljósahjörtinn, sem getið er um við hjartarleikinn, og heldur hann því næst áfram: »Meðan setið var undir borðum, var maður einn látinn gánga á fjórum fótum undir borðunum fram og aptur. Sá var mjög afskræmislega búinn, svo að eingin mannsmynd sást á honum. Hann rak höfuðið þar og þar upp undan borðunum, og mælti eitthvert hnýfilyrði til þess, er þar var fyrir, en því mátti einginn reiðast, er hann mælti; var það venjulegt, að hann lét það koma fram á hlægilegan og hnýttilegan hátt, er einkennilegt þótti við þann eða þann, t. a. m. málsháttur eða orðtak einhvers, eða annað, er einkennilegt var í máli hans; varð opt að því hlátur mikill. Þetta mælti hann eitt sinn til Jens Wíums sýslumanns:

Sýslumaðurinn
signor Wíum,
hann var að bánga
með hamar við steðja,
og kvað gott fleira
en að gefa hjón saman,

og þetta við Gísla bónda Nikulásson á Rángá, er var gildur bóndi en þótti svaðalegur og grófur, einkum ef hann var drukkinn:

---

[1] Í hdr. stendur: *Hannesar.*

Gísli á Rángá,
guð sé oss næstur.
— það var máltæki Gísla —
hann má ei nefna
fyrir hádegi.

— það var siður Gísla, að rísa seint úr rekkju. — þessi maður var kallaður skrímsli.

þá er snæðíngi var lokið, var tekið til drykkju, og var þá borin vínskál inn í veizlusalinn, er kölluð var vítabikar, og var þá súngin vísa þessi:

Bolli víta borinn er inn« o. s. frv.

Séra Einar segir í bréfi til Jóns Árnasonar 13. janúar 1877, eptir Jóni Sigurðssyni, að ljósahjörturinn hafi borið vítabikarinn inn. »Síðan var drukkin skálin, og tóku menn svo að dansa [og leika[1], og stóð dans og drykkja opt til morguns;[2] dönsuðu saman kall og kona; vildi það opt verða, að menn drægjust í smáflokka, og vildi það allopt verða, að þá væri efnað til mannfjölgunar.« Nú drepur séra Einar á Jörfagleði og heldur svo áfram:

»Sumir þeir er héldu vikivakana leystu gesti sína út með gjöfum. Svo gjörði t. d. Hildur í Eyvindarmúla, rausnarkona mikil, á fyrra hluta 18. aldar; gaf hún þá stundum heilar jarðir meðan Múla-auður var að eyðast. það mun annars hafa verið óvanalegt, að nokkur einn maður hafi haldið vikivakana á eigin kostnað, heldur munu menn hafa lagt saman, þeir er skemtanarinnar nutu.«

Meira hefir séra Einar ekki heyrt um vikivaka, eptir því sem hann segir í bréfi því til Jóns Árnasonar, sem getið hefir verið um, en þótt skýrsla hans sé ekki laung, er hún þó að mörgu leyti merkileg, og drepur á ýmislegt, sem menn þekkja ekki annars staðar að.

Eyjólfur dannebrogsmaður Einarsson í Svefneyjum og Árni biskup Helgason hafa gefið Sigurði Guðmundssyni málara stuttar skýrslur um vikivaka árið 1858, og hafa þær borizt mér í safni Jóns Árnasonar. Árni var þá á 82. ári. Hann var alinn upp á Stað í Grunnavík og sá þar vikivaka. Eyjólfur var líka í vikivaka á Vestfjörðum í æsku sinni. þeim ber saman um, að stiginn hefði verið dans eptir vísum, sem súngnar hefðu verið, og hefðu menn haldizt í hendur við dansinn. Enn mundi Eyjólfur, að kosinn hefði verið maður til að sjá um öll ölfaung, sem keypt voru fyrir samskotafé (sbr. skytníngana í sögunum), og hafa eflaust allir gleðimennirnir orðið að taka þátt í þeim, að minnsta kosti kallmennirnir.

Jón Árnason gjörir líka ráð fyrir skytníngum[3] eða samskotsveizlum á

[1] Bréf 13. jan. 1877. [2] Við allan miðkaflann í skýrslu séra Einars, frá því farið er að tala um skrímslið, þarf að bera saman það sem sagt er annars staðar um vítabikar og vítavísur. [3] Í safni Finns Magnússonar í Brit. Mus. eru tvö rit um skytnínga og þess háttar í fornöld, og hefi eg hvorugt séð. Annað er eptir Finn biskup Jónsson og heitir í handritaskránni: Nr. 153, *Disquisitio de variis* veterum Borealium convivalibus sodalitiis, quae nimirum

vikivökum í vikivakaritgjörðum sínum. »Þegar á leið skytnínginn, byrjaði skemtunin fyrst með því, að persóna sú, sem Vítus var kölluð, kom inn að borðum til vökumanna, hvort sem þeir snæddu í kirkjum eða bæjarhúsum, og fann samsætismönnum til sína skömmina hverjum og hnýflaði þá, og lét ýmsum ankríngislátum, líkt og Loki rak sinn ófögnuðinn í hvern af Ásum og Ásynjum í Lokaglepsu eða Ægisdrekku. Um Vítus var þetta kveðið:

Nú er ekki' á verra von,
Vítus [kemr að[1] borðum;
mun því margur meyjarson
mæta þúngum[2] orðum.

Vítus hefir án efa verið kjörinn af vökumönnum til þessa starfa, og valinn til þess sá maðurinn, sem kunnastur var að hvefsni og kýmni. Næst er mér því að ætla, að ekki fáar þulur og þulukaflar, sem Íslendíngar kunna enn, hafi upprunalega verið settar saman og lagðar einhverjum slíkum orðháki í munn, til að mæla þær fram á vikivökum, hafi þeir annars sjálfir ekki verið hagorðir. En sjaldan er neitt ósiðlegt í þulum þessum annað en kýmileg viðurnefni eða nýjar nafngiptir.« Jón Árnason tekur nú Stapadansinn, sem er prentaður seinna í riti þessu, og lítinn kafla úr Þórnaldarþulu, til dæmis uppá munnsöfnuð Vítusar. »Þegar Vítus hafði að skytníngslokum hnýflað vökumenn, fóru þeir á stjá og tóku til annarar skemtanar.« Eitt af vikivakakvæðabrotunum er alveg í sömu áttina: »Hannes sonur Helgi einn«, og má vera að það hafi líka verið lagt Vítusi í munn.

Dr. Finnur Jónsson segir mér, að »Vítus« muni vera gamansamur latínu-tilbúníngur úr orðinu »víti«, og ætti Vítus að þýða, eptir því, vítis- eða víta stjóri, eða eitthvað í þá áttina.

---

Það liggur í augum uppi, að gleðimennirnir hafi þurft allmikið rúm til dansa sinna og leikja, einkanlega þegar margir voru við gleðina, og því munu vikivakar stundum hafa verið haldnir í kirkjum í gamla daga, því þær voru þá mestu stórhýsin á Íslandi, þótt risið væri reyndar ekki hátt, en sagan segir að vikivakar hafi aldrei verið haldnir í kirkjum, eptir að djöfullinn hafði sókt kirkjunum í Hruna og á Bakkastað með öllum söfnuðinum. Eins og nærri má geta, má ekki taka sögur þessar eptir orðunum, því þær eru að eins skýríng þjóðtrúarinnar á því, hversvegna hætt var að dansa í kirkjum, og má ráða af þeim, að siðurinn að dansa í kirkjunum hafi lagzt niður snemma, því sögurnar hafa þurft lángan tíma til að myndast. Nú voru óvíða svo stór bæjarhús, að þau gætu rúmað alla þá, sem áður voru við

---

vocabantur: 1. Gildi. 2. Hvirfíngsdrykkja. 3. Skytníngar. 4. Leizludrykkja. Hitt er nr. 215, 5 og heitir: De atriis convivalibus veterum Scandinavorum.
[1] fer með. [2] leiðum.

vikivaka í kirkjum, og er því líklegt, að dregið hafi úr vikivökunum þegar hætt var að dansa í kirkjunum. Þó hafa menn sagnir af vikivökum eða gleðum á ýmsum stórbæjum, einkum á Vesturlandi, enda héldust vikivakar þar leingst. Eg skal nú fara nokkrum orðum um gleðir á einstökum bæjum, sem eg hefi séð eða heyrt getið um, bæði á Vesturlandi og annars staðar, og eru þó, því miður, að eins óljósar sagnir til um flestar þessar gleðir.

Á þremur stórbæjum vestanlands voru orðlagðastar gleðir. Það var Stapagleðin, Íngjaldshólsgleðin undir Jökli og Jörfagleðin í Haukadal. Um Stapagleðina veit eg ekkert, nema að hún hlýtur að standa í sambandi við Stapadansinn, sem seinna verður nefndur. Íngjaldshólsgleðin var bæði fræg og fjölsótt, og svo mikinn áhuga lögðu menn á þessa skemtan, að únglíngar voru búnir undir hana með því að kenna þeim dansa,[1] til þess að þeir gætu áunnið sér því meira lofsorð á eptir á gleðinni og skemt bæði sjálfum sér og öðrum því betur. En þessari gleði hnignaði eða hún lagðist fyrir óðal, eptir að tveir menn fótbrotnuðu í henni, en aðrir segja að bóndinn á Íngjaldshóli hafi dáið heldur sviplega nóttina eptir eina gleðina, og hafi þeim þá verið hætt.

Bóndinn á Íngjaldshóli, þegar mennirnir fótbrotnuðu þar, var lángafi ömmu Guðrúnar Þorsteinsdóttur, sem var hálfníræð 1860, og var þá að Arnþórsholti í Lundareykjadal. Hann var uppi fyrir rúmum tveimur öldum, og hét Brynjólfur Vilkarsson. Þá var spítali á Íngjaldshóli. Spítalajörðunum var slegið saman við fornar klausturjarðir og var alt saman kallað Stapaumboð; hélt Brynjólfur þessi það. Vilkar faðir Brynjólfs fannst rekinn af sjó í stokk, á úngum aldri; hafði faðir hans farizt í hafi, en veitt sveininum áður þennan umbúnað. Brynjólfur var faðir Haldórs biskups, eptir því sem munnmæli segja, en það kvað ekki vera rétt.

Mest alt um Íngjaldshólsgleðina er tekið eptir sögn Guðrúnar Þorsteinsdóttur, sem nýgetið er um.

Séra Guðmundur Einarsson á Breiðabólstað á Skógarströnd segir í leikjaritgjörð sinni í ÁM. 970, 4, að hann hafi heyrt, að í gleði einni á Íngjaldshóli hafi komið undir 19 krakkar eina nótt, og ruglar hann hér eflaust Íngjaldshólsgleðinni saman við Jörfagleðina.

Í Þjóðs. J. Árn. er getið um aðra jólagleði undir Jökli (I, bls. 541, sbr. bls. 295). Þar er sagt, að það hafi verið gamall siður að halda jólagleði undir Jökli, og hafi hún venjulega verið haldin á Munaðarhóli. Einu sinni sem optar var haldin gleði á Munaðarhóli, og hét bóndinn þar þá Þorvarður; var leikið og drukkið vel um kvöldið, en um nóttina drap Latínu-Bjarni

---

[1] Það er merkilegt, að Íslendíngar skuli hafa búið sig undir gleðirnar, eins og Grikkir undir leikina hjá þeim, einkum ólympisku leikina, því þótt skýrslur *skorti* um þetta annars staðar að, er ástæða til að halda, að það hafi tíðkazt *víðar en hér*.

Jónsson Teit Jónsson, lögréttumanns á Grímsstöðum í Breiðuvík, með göldrum, og er sagt, að síðan hafi ekki verið haldin jólagleði undir Jökli.

Jörfagleðin mun hafa verið einna orðlögðust gleði á Íslandi og fjölmennust, því hana sótti ekki að eins fólk úr öllum Breiðafjarðardölum, heldur og utan af Skógarströnd og vestan yfir Rauðamelsheiði. Sagt er, að úngir menn og konur hafi ekki viljað ráða sig í vistir hjá bændunum nema með því skilyrði, að þeim væri heimilt að fara til gleðinnar, viðlíka og vinnukonur í sveitum hafa nú stundum í skilyrði að fá að fara í kaupstað á sumrin og ríða í réttir á haustin.

Sagan, sem stendur í Þjóðs. J. Árn. I, bls. 225, bendir meðal annars á það, að kvennfólkinu hafi ekki þótt lítið varið í vikivakana. »Einu sinni var vinnukona á bæ. Hún hafði orðið þúnguð, alið barn og borið út, sem ekki var mjög ótítt á landi hér, meðan harðar skriptir, sektir eða líflát voru lögð við slíkum brotum. Eptir það bar svo til eitthvert sinn, að halda átti gleði þá, er vikivaki nefndist og alltíðir voru hér áður á landi, og var þessari hinni sömu stúlku boðið til vikivakans. En af því hún var ekki svo fjölskrúðug, að hún ætti skartföt, er samboði slíkum skemtifundi, sem vikivakar voru á fyrri dögum, en var kona glysgjörn, lá alilla á henni, að hún yrði þess vegna að sitja heima og verða af gleðinni. Einu sinni á málum. meðan gleðin stóð til, var griðkona þessi að mjólka ær í kvíum með öðrum kvennmanni; var hún þá að fárast um það við hina mjaltakonuna, að sig vantaði föt að vera í á vikivakann, en í því hún sleppir orðinu, heyra þær þessa vísu kveðna undir kvíaveggnum:

»Móðir mín í kví, kví,
kvíddu ekki því, því;
eg skal ljá[1] þér [duluna mína[2]
að dansa í,
[og[3] dansa í.«[4]

Griðkona sú, sem hafði borið út barn sitt, þóttist þekkja hér skeyti sitt; enda brá henni svo við vísuna, að hún varð vitstola alla æfi síðan.«

Vísan er auk þess prentuð hjá K. Maurer í Isländische Volkssagen. Leipzig 1860, bls. 59 og hjá Sæmundi Eyjólfssyni í Þjóðólfi 1887, nr. 10. Enn er hún í hrs. Sv. Grv. 66 með hendi Jóns Sigurðssonar, og ræður Jón af henni, að konur hafi dansað í möttli á vikivökum, en það mun vera hæpin tilgáta, eða að minnsta kosti er hvergi getið annars en að konur hafi dansað við gleðirnar á venjulegum fötum, en sparifötunum sjálfsagt.

Það er tekið fram, að Jörfagleði hafi verið haldin á baðstofugólfinu, því jafnan hafi verið heldur stórhýst á Jörfa. Það af fólkinu, sem lék ekki, sat á palli og horfði á. Margt ilt og ósiðlegt hefir verið sagt af gleði þessari og þessvegna »afskipaði« Björn sýslumaður Jónsson hana fyrst 1695. En

[1] lána, Þjóð. [2] *möttul minn, 66.* [3] að, Þjóð. [4] sl. Maur., Þjóð.

hvorki lítur svo út sem þeirri skipan hafi verið neinn gaumur gefinn, né heldur að siðferði manna hafi batnað við það á gleðinni, sem eins var haldin eptir sem áður, enda dó Björn sýslumaður sama árið, og hafði efnum hans hnignað mjög eptir að hann dæmdi af gleðina. Svo er að sjá sem Jörfagleði hafi verið haldin seinast 1706 eða 1707; komu þá undir í henni 19 börn. Sagt er að ein af barnsmæðrum þeim, sem urðu barnshafandi á gleðinni, hafi lýst 18 feður að barni sínu, svo illa gekk henni að feðra. Sagt er að Jón lögsagnari Magnússon, bróðir Árna Magnússonar, sem þá hafði Dalasýslu í umboði Páls Vídalíns, mágs síns, hafi sjálfur verið á gleðinni, en þess er ekki getið, að hann hafi gjört sér neitt far um að halda þar góðum siðum, enda má vera að hann hafi skort til þess lag og áræði. En á eptir greip hann til þess óyndisúrræðis, að dæma gleðina algjörlega af, sökum þessa siðleysis, og hefir gleði aldrei verið haldin á Jörfa síðan. Það hefir líklega verið 1707, heldur en 1708.

Það er annars eptirtektavert, að Jón Magnússon, sem dæmdi af Jörfagleði, var hinn mesti kvennamaður, og því segir Magnús Stephensen í Eptirmælum 18. aldar: »Hefdi Jón Magnússon þá verid vidstaddur í þeirri Gledi (þ. e. seinustu Jörfagleðinni) eru þad undur, ef þessi tilfelli (þ. e. ólifnaðurinn) hefdu knúd hann til ad dæma Gledina af.« Jón Magnússon misti fyrst prestinn og síðan sýslumannsdæmi í Strandasýslu fyrir tvö hórbrot; var hann þá dæmdur til hýðíngar, en konúngur gaf honum upp húðlátið og rak hann úr Skálholtsbiskupsdæmi; fór Jón þá að búa á Ásgeirsá í Víðidal, en síðan á Sólheimum í Sæmundarhlíð; féll hann þá enn í hórdóm á sjötugsaldri og varð líflaus, en konúngur gaf honum líf. Hann andaðist 1738 og var þá hálfáttræður. Ávalt bjó Jón við fátækt eptir að hann lenti í barneignabraski sínu. Auk þess er sagt, að hann hafi mist vænstu kúna sína eða reiðhestinn hvern einasta vetur.

Þegar gleðin var »afskipuð« á Jörfa, í seinna sinni, bjó þar kona sú, sem Þórdís hét. Sagt er að henni hafi þótt svo mikið fyrir því, að gleðin var numin af, að hún hafi flutt sig af jörðunni. En svo bar við næsta vetur eptir, að snjóflóð hljóp fram úr Jörfahnúksgili; það hafði aldrei orðið áður, en opt síðan. Allar þessar ófarir, bæði Jóns sýslumanns og snjóflóðið, hefir verið talið óblessunarmerki og vottur um reiði landvætta og álfa, sem áttu að hafa tekið þátt í gleðinni. Það sögðu skyggnir menn, að ekki hefðu færri verið í Jörfagleði þeir sem ekki sáust, en hinir, sem öllum voru sýnilegir, og þeir ollu allri þessari óhamíngju, sem kom yfir Jón og Jörfabæ, þegar gleðin var numin af með öllu.

Séra Guðmundur Einarsson hefir heyrt, að sá hafi verið nefndur Hoffmann eða Hoffinn, sem stýrði Jörfagleði, en Alfinn, sá sem gekk honum næstur. Þetta hefir þó varla getað átt sér stað, nema þegar um Hoffinnsleik var að ræða. Enn hefir séra Guðmundur Einarsson heyrt, að í Jörfagleði hafi *einkum verið leiknir* Þórhildarleikur og hindarleikur.

Séra Einar Jónsson að Kirkjubæ hefir eptir Jóni Sigurðssyni í Njarðvík, að í seinustu Jörfagleðinni hafi komið undir þrjátíu börn, og sýnir það, meðal annars, hve Jörfagleðin hefir verið alræmd, en á hinn bóginn er ekki að furða, þótt sagan um lauslætið í Jörfagleði væri orðin mjög ýkt, þegar hún hafði borizt í munnmælum hér um bil hálfa aðra öld og var, auk þess, komin austur á landshorn, því þaðan hefir séra Einar hana.

Kafli þessi um Jörfagleði er að mestu leyti tekinn eptir vikivakaritgjörð Jóns Árnasonar, en hann hefir tekið margt úr honum eptir skýrslu séra Guðmundar Einarssonar. Auk þess er um Jörfagleði í Árb. J. Esp. VIII, bls. 48—49, 117. sbr. bls. 120, í Eptirmælum 18. aldar. Leirárg. 1806 (litla útg. bls. 347, stærri útg. bls. 665. Sbr. Island i det 18. Aarhundrede. 1808, bls. 230), Rithöfundatali Hallgríms Jónssonar djákna, bls. 320, Nýjum Félagsritum II. 1842, bls. 65, Ísafold V. 1878, bls. 128 (og segir Grímur Thomsen þar, að Jón Sigurðsson Dalaskáld hafi tekið af Jörfagleði, en það er rángt), Þjóðólfi 1887, nr. 11.

En þótt valdsmennirnir, bæði andlegrar og veraldlegrar stéttar, gjörðu alt, sem stóð í valdi þeirra til að útrýma vikivökunum, vegna þess þá vantaði bæði dug og úrræði til að setja siðleysinu skorður og laga það, sem áfátt var í skemtunum þessum, gátu þeir þó ekki gjört fyrir það, að lífið treindist enn í vikivökunum heila öld. Um miðja 18. öldina lítur jafnvel svo út sem vikivakarnir hafi átt allgóðu lífi að fagna, því þá er getið um vikivaka allvíða, einkum á Suðurlandi. Þá hafa menn sögur af vikivökum í Skálholti, á Efra-Seli í Hreppum, Eyvindarmúla í Fljótshlíð, Reykjavík »hjá honum Jóni Hjaltalín,« Flángastöðum á Garðsskaga og Þíngeyrum nyrðra. Um allar þessar gleðir er getið annars staðar nema Flángastaðagleðina, og hefi eg fyrir mér skýrslu þá um hana, sem nú skal greina:

»Fyrir ofan Garðskaga hefir legið garður einn mikill, sem enn er kallaður Skagagarður, frá túngarðinum á Útskálum, beint yfir á túngarðinn á Kirkjubóli. Rústirnar af garði þessum, sem nú eru að mestu leyti grasgrónar og líta út eins og ávalur hryggur, eru glöggar, nema á stöku stöðum, þar sem mælt er, að hlið hafi verið á honum. Garðurinn hefir verið hlaðinn mestmegnis úr stórgrýti og, að líkindum, afarhár og þykkur, eptir [því] sem út lítur þrjár til fjórar álnir á þykt. Nú geta tveir menn riðið samsíða ofan á rústum hans víðast hvar. . . . . . . . . .

Þessi mikli garður hefir alveg girt fyrir Skagann, og er því varla efunarmál, að hann hafi verið aðalvarnargarður fyrir Skaganum . . . . . . .

Menn hafa og aðra sögn um, til hvers Skagagarðurinn hafi verið, og skal hér segja hana. Flángastaðir er bær suður frá Kirkjubóli. Þar var títt að halda vikivaka, og sóttu menn þá þángað úr allri sveitinni. Garðurinn átti þá að hafa verið til þess, að fara með honum um þvera heiði, fyrir ofan Skaga, svo menn viltust ekki á flatneskju þeirri, sem þar er, og mjög þykir vandrötuð enn í dag, þegar dimt er, því eingin er þar hæð eða hóll,

sem teljandi er; en það er á móti þessari sögn, að garðurinn nær ekki alveg að Flángastöðum, en það getur verið, að þá hafi túngarður tekið við, og getur þannig verið einhver fótur fyrir sögunni.

Vikivakarnir á Flángastöðum héldust við, þángað til séra Árni Hallvarðsson á Hvalsnesi tók þá af; var því þá spáð fyrir honum, að hann mundi hljóta ilt af fyrirtæki þessu, og þótti það rætast, er hann drukknaði 1748, við sjöunda eða áttunda mann, á leið frá messu í Kirkjuvogi, í Ósunum, þannig að skipið steytti á blindskeri nálægt Hestkletti.« Ferðabókarbrot séra Magnúsar Grímssonar (um Garðsskaga). Hrs. Bmfj. 72, fol. Ágrip með hendi Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66.

Enn hefir verið haldinn vikivaki á Hjalla í Ölvesi og bendir til þess máltækið: »Nú er glatt á Hjalla,« eptir því sem Sæmundur Eyjólfsson segir í Þjóðólfi 1887, nr. 11; en vikivaki þessi hefir að öllum líkindum átt sér stað fyrir 18. öld.

Á seinna hluta 18. aldar urðu vikivakarnir eða gleðirnar héraðsrækar leingst vestur á landshorn, og hafa menn sögur af þeim 1780—90 á Stað í Grunnavík og á Þíngeyri við Dýrafjörð.[1] En það var ekki forsjá valdsmannanna að þakka, þótt svo færi. Heldri menn þar vestra höfðu þann sið, að þeir buðu heiðvirðum mönnum, sem áttu nokkuð uppkomin börn, til gleði á stórhátíðum, og hélzt það þá enn, að þetta var um jólaleytið, og því var skemtan þessi eða samkvæmi kölluð jólagleði; var þar stiginn nokkurs konar hríngdans og súngin fyrir annaðhvort rímnaerindi eða önnur kvæði, og leiknir leikir þeir, sem síðar varða nefndir. Þarna skemtu sér úngir menn og aldraðir á svo heiðvirðan, siðsaman og saklausan hátt, sem auðið var, eptir því sem þeir sögðu sjálfir, sem tekið höfðu þátt í gleðum þessum. Og þótt gleðir þessar hafi, ef til vill, ekki verið að öllu leyti ígildi hinna fornu vikivaka, meðan þeir voru í almætti sínu, má ætla á það eigi að síður, að gleðirnar eptir 1700 hafi, án efa, haldið því bezta og nýtilegasta úr vikivökunum og eldri gleðunum.

Ekki verður sagt með vissu, hvað drepið hefir gleðirnar á Vesturlandi til fulls, en geta má þó til þess, að þær hafi lagzt niður með öllu við harðindi þau og eymd, sem áttu rót sína að rekja til Skaptáreldsins 1783 og lágu yfir landinu nokkur ár þar á eptir. Skaptáreldurinn og ósköp þau, sem dundu yfir Suðurland þessi ár, bytnuðu reyndar ekki beinlínis á Vesturlandi, en hafa þó eflaust haft áhrif á það óbeinlínis eins og aðra hluta landsins. Víst er um það, að vikivakarnir hverfa úr sögunni með Skaptárundrunum, eða því sem næst, því eg hefi að eins rekið mig á eina

[1] Guðbrandur Vigfússon segir reyndar í Corpus poeticum II. bls. 389, að vikivakar hafi verið svo algjörlega dánir út fyrir 1800, að menn, sem voru fæddir á Vesturlandi 1762 og 1775, hafi ekkert rámað til þeirra. Þetta hlýtur að vera einhver meinloka úr Guðbrandi eða sögumönnum hans, því *það má sanna,* að vikivakar voru haldnir á Vesturlandi eptir þessi ár.

bendíngu um vikivaka eptir 1790. Páll sýslumaður Briem sagði mér, þegar hann var í Kaupmannahöfn í seinna skiptið, að hér um bil 1841 hefði verið vinnukona hjá móður sinni, húsfrú Íngibjörgu Sverrisdóttur Briem, Guðbjörg nokkur, ættuð að vestan. Hún hafði verið í vikivökum í Vigur um aldamót og kunni að dansa eins og þar tíðkaðist og sýngja danslögin. Guðbjörg átti dætur, og hélt húsfrú Íngibjörg, að þær hefðu numið þessi fræði af henni. Ekki er mér ljóst, hvar dætur Guðbjargar hafa ílenzt, en það má, ef til vill, grafa það upp.

Eptir þetta er hvergi getið um vikivaka og gleðir, og má fullyrða, að þessi góða og gamla skemtan, sem hafði tíðkazt á Íslandi síðan á 11. öld, hafi liðið algjörlega undir lok kríngum 1800.

---

Það sést víða á vikivakalýsíngunum, að þeir voru einkum haldnir um jólaleytið, en »þessi ljóshátíð er þó ekki að eins hjá mennskum mönnum, heldur einnig hjá álfum, því þá voru hýbýli þeirra öll ljósum prýdd, og alt lék þá hjá þeim á allsoddi af dansi og hljóðfæraslætti.« (Þjóðs. J. Árn. II, bls. 569; sbr. bls. 571). Það fara fremur fáar sögur af gleði álfa heima hjá þeim um jólin, en þó fáeinar, enda gafst mennskum mönnum sjaldnast kostur á að kynna sér siði huldufólksins. Sögur fara þó af því, að hirð álfakonúngsins í Seley eystra hafi skemt sér með saung, dansi og hljóðfæraslætti jóladaginn sjálfan (Þjóðs. I, bls. 90). Aptur sældust álfar til þess að dansa í hýbýlum mennskra manna á jólanóttina, og kemur það víða fram í Þjóðsögunum, einkum álfasögunum. Þá stóð svo á hjá bændum, að allir sem vettlíngi gátu valdið, höfðu farið til tíða, nema einhver einn maður, kall eða kona, sem var heima og átti að gæta bæjarins; var því nóg rúm fyrir huldufólkið að dansa í baðstofunum og þessi eina hræða, sem var heima, truflaði sjaldnast gleði þeirra, því optast drápu þeir hana. Þó eru dæmi til þess, að sá, sem gætti bæjarins, kom sér vel við álfana, og þá af þeim góðar gjafir, eins og stúlkan austur í Gnúpverjahrepp, sem getið er um í Þjóðsögunum I, bls. 21.

Álfafólkið kom prúðbúið til dansleikjanna á jólanóttina, og hafði með sér borð, vist og vín. Það át og drakk með glaum og gleði og fór svo að dansa; dansaði það alla nóttina, en aptur varð það að vera farið fyrir dag. (Þjóðs. I, bls. 121 og 522). Á seinni staðnum er þess getið, að gleði álfanna hafi tekið snöggan og sorglegan enda, því Galdra-Leifi var á næstu grösum og hrópaði: »dagur, dagur«, áður en dagur var runninn; varð þá huldufólkið að hafa sig af stað sem skjótast og skilja eptir alla gripi sína og gersemar. Sama trúin kemur víðar fram í Þjóðsögunum, þótt þess sé ekki getið hér.

Álfar dönsuðu annars optar en um jólaleytið og komust mennskir menn opt á snoðir um það. Í Þjóðsögunum er getið um hljóðfærasaung og dans hjá álfum í Þórðarhöfða við *Skagafjörð* (I, bls. 10), hljóðfæraslátt og dans

í Ólafsvíkurenni (I, bls. 24), glaum og danslæti hjá álfum í Mýrdal eystra (I, bls. 632) o. s. frv.

Það eru ekki Íslendíngar einir, sem trúa því að huldufólk og aðrar vættir unni mjög dansi, hljóðfæraslætti og annari gleði. Trú þessi er mjög útbreidd og kemur fram í flestum löndum í Norðurálfu: Rússlandi, Austurríki, Þýzkalandi, Einglandi, Danmörku, Noregi, Svíþjóð og eflaust miklu víðar, enda er trú þessi mjög eðlileg, því eins og flestum mönnum er eðlilegt að leita einhverra skemtana, eins var eðlilegt að menn tryðu, að huldufólk og aðrar samskonar verur gjörðu það, því menn hugsuðu sér þær optast í sömu mynd og með sömu tilhneigíngum og mennska menn.

Jacob Grimm getur um álfagleði og álfadans í Deutsche Mythologie. Göttingen 1844, bls. 438—39, og víða er minst á slíkt í útlendum þjóðsagnasöfnum.

---

Þess er getið áður, að klerkar og aðrir valdsmenn hafi risið upp öndverðir gegn vikivökunum, og skal eg nú fara nokkrum orðum um þetta atriði.

»Það er fyrst eptir miðja sextándu öld, að sú skoðan fer að ryðja sér verulega til rúms, að dansar og vikivakar séu syndsamlegir, og liggja til þess mjög eðlilegar orsakir. Hinar miklu trúarbragðadeilur og hinar ólíku skoðanir, er áttu sér stað um þær mundir, er siðabótin var að ryðja sér til rúms, höfðu þær afleiðíngar, að menn fóru að líta með meiri alvöru á hlutina en áður, og er því eðlilegt, að hugir manna hafi orðið fráhverfari skemtunum en áður. Um það leyti, er siðabótin hafði rutt sér til rúms, tók hið útlenda kúgunarvald að ryðja sér meira og meira til rúms, og afleiðíngar þess urðu eymd og örbirgð, fáfræði og hjátrú, mannhatur og allskonar andlegt volæði .... Menn höfðu þá skoðan, að alstaðar væri fult af illmennum, sem gjörðu sér alt það ilt, er þeir gætu (sbr. draugatrúna og galdratrúna); menn trúðu því, að örbirgð og hallæri og drepsóttir væru refsidómar guðs; menn álitu það, sem vonlegt var, að heimurinn væri táradalur og hér væri ekkert gaman á ferðum, og því væri ekki um neina gleði að ræða í þessu lífi; allar skemtanir væru til þess að leiða menn afvega, og það bæri vott um léttúð og andvaraleysi fyrir hinni andlegu velferð, að gefa sig við nokkru því, sem heimurinn kallaði skemtanir. Það er því ekki að undra þótt dansarnir, svo sem aðrar skemtanir, hættu að eiga upp á pallborðið.«[1]

Frá þessum tíma munu vera sögur þær, sem til eru um það, að kölski

[1] Kafli þessi er tekinn eptir grein Sæmundar Eyjólfssonar í Þjóðólfi 1887, nr. 11, og er eg Sæmundi hér alveg samdóma. Alt hið sama er annars sagt með öðrum orðum í Íslenzkum skemtunum, bls. 11.

hafi sókt tveimur kirkjum á jólanóttina með öllum söfnuðinum af því dansað var í kirkjunum þessa háheilögu nótt, og eru þær vís vottur þess, að menn hafi talið vikivakana syndsamlega, að minnsta kosti á hátíðisdögum. Sögurnar eru á þessa leið:

Bakkastaður. Það er mælt, að Brú á Jökuldal hafi staðið í miðri sveit í fyrndinni, áður bygðin lagðist í eyði á Brúardölum. Hóll átti að hafa verið innsti bærinn, næst jöklum. Þó eru ekki fleiri bæir nefndir, en tvennir Hríngbotnar og Fossnes. Öll þessi bygð átti kirkjusókn að Bakkastað; sá bær var fram og yfir frá Brú fyrir handan ána; þar sjást bæjarrústir enn þá, og vottar fyrir kirkjugarði.

Það bar til eina jólanótt á Bakkastað, að presturinn og alt fólkið, sem kirkjuna sótti, tók til að dansa í kirkjugarðinum, hélzt í hendur með saung og hávaða miklum og ýmsum illum látum, alt í kríng um kirkjuna. Móðir prestsins var inni í bænum og vissi ekki hvað fram fór úti. En þegar hún heyrði hvað um var að vera, fór hún út, og bað son sinn fyrir alla muni, að hætta þessum leik. Hann gaf því eingan gaum. Í annað sinn fór hún út og bað hann með mörgum orðum að gá að sér, og minti hann á tímann sem yfir stóð. Hann sinti því ekki heldur. Í þriðja sinn fór hún út; sá hún þá hvar maður stóð;[1] hann hélt í hrínginn í kirkjuhurðinni og var að raula þetta fyrir munni sér með dimmri rödd:

Held eg mér í hurðarhríng,
hver sem [það vill[2] lasta;
[hér[3] hafa[4] kappar[5] kveðið[6] í kríng;[7]
[kemur til kasta[8]
kemur til minna kasta.

Þegar hér var komið sögunni, var komið að miðri nótt. Móðir prestsins varð hrædd við sýn þessa, og sá að sonur hennar var ær orðinn og fólkið alt. Tók hún þá reiðhest prestsins út úr húsi, lagði upp á Fljótsdalsheiði, og kom að Valþjófsstað fyrir dag og bað prestinn bregðast skjótt við, koma með sér og reyna að hjálpa fólkinu. Prestur brást við í skyndi og fór með henni, og komu þau í dögun að Bakkastað. Sáu þau þá, að utarlega í kirkjugarðinum hafði jörðin sprúngið sundur og fólkið sokkið þar niður. En presturinn og meðhjálparinn voru hálfir komnir í jörð niður, þegar þau komu, og varð þeim bjargað. Leingi heyrðist ómurinn af gleðilátum fólksins niðri í jörðunni. Eptir þetta lagðist Bakkastaður í eyði. En það segja kunnugir menn, að kirkjugarðurinn sjáist enn þá, og í honum utarlega sé

[1] Dr. Maurer hefir heyrt einhvers staðar hér á landi, að það hafi átt að þekkjast á fótunum á þessum kalli, að það var kölski. [2] gjörir að, duna. [3] nú, Maur., duna, kast, 67. [4] eru, 67. [5] fyrðar, duna. [6] komnir. 67. Frá [ þegar alt er komið, ekki er ennþá komið. [7] hríng. [8] sl. Maur., duna, kast, 67, 970.

pyttur einn furðu djúpur. Þjóðs. J. Árn. II, bls. 6—7 eptir Jóni bónda Sigurðssyni í Njarðvík. Sbr. Norðanfara IV, nr. 4—5.

Dansinn í Hruna. Einu sinni til forna var prestur í Hruna í Árnessýslu, sem mjög var gefinn fyrir skemtanir og gleðskap. Var ávalt vani þessa prests, þegar fólkið var komið til kirkju á jólanóttina, að hann embættaði ekki fyrri part næturinnar, heldur hafði dansferð mikla í kirkjunni með sóknarfólkinu, drykkju og spil og aðrar ósæmilegar skemtanir, lángt fram á nótt. Presturinn átti gamla móður, sem Una[1] hét; henni var mjög móti skapi þetta athæfi sonar síns, og fann opt að því við hann. En hann hirti ekkert um það og hélt teknum hætti í mörg ár. Eina jólanótt var prestur leingur að þessum dansleik en venja var; fór þá móðir hans, sem bæði var forspá og skygn, út í kirkju og bað son sinn hætta leiknum og taka til messu. En prestur segir, að enn sé nægur tími til þess og segir: »Einn hríng enn, móðir mín.« Móðir hans fer svo inn aptur úr kirkjunni. Þetta geingur í þrjár reisur, að Una fer út til sonar síns og biður hann að gá að guði og hætta heldur við svo búið en ver búið. En hann svarar ávalt hinu sama og fyrri. En þegar hún geingur fram kirkjugólfið frá syni sínum í þriðja sinn, heyrir hún að þetta er kveðið og nam vísuna:

[Hátt lætur[2] í Hruna,
hirðar[3] (þángað bruna;[4]
[svo[5] skal[6] dansinn duna,
(að[7] dreingir [mega það[8] muna.
Enn er hún Una
og enn er hún Una.[9]

Þegar Una kemur út úr kirkjunni, sér hún mann fyrir utan dyrnar; hún þekti hann ekki, en illa leizt henni á hann, og þótti víst, að hann hefði kveðið vísuna. Unu brá mjög illa við þetta alt saman og þykist nú sjá, að hér muni komið í óefni og þetta muni vera djöfullinn sjálfur. Tekur hún þá reiðhest sonar síns og ríður í skyndi til næsta prests, biður hann koma og reyna að ráða bót á þessu vankvæði og frelsa son sinn úr þeirri hættu, sem honum sé búin. Prestur sá fer þegar með henni og hefir með sér marga menn, því tíðafólk var ekki farið frá honum. En þegar þeir koma að Hruna, var kirkjan og kirkjugarðurinn sokkinn með fólkinu í, en þeir heyrðu ýlfur og gaul niðri í jörðunni. Enn sjást rök til þess, að hús hafi staðið uppi á Hrunanum, en svo heitir hæð ein, er bærinn dregur nafn af, sem stendur undir henni. En eptir þetta segir sagan, að kirkjan hafi verið

---

[1] Aðrir segja, að prestskonan hafi heitið Una. [2] Heyrðist hljóð, 67; Fögur eru fljóð, 66, fljóð, duna; Fögur eru hljóð, J. Árn. [3] höldar, 67, J. Árn. [4] Frá ( mega það muna, 67; mega við una, J. Árn. [5] nú, 66. [6] Frá [ látum, 67. [7] svo, 67. [8] sl. duna. Frá [ fái að, 66, J. Árn. [9] Frá ( *sl. 67, en J. Ól.* og 66 sleppa tveimur seinustu línunum.

flutt niður fyrir Hrunann, þángað sem hún er nú, enda er sagt, að aldrei hafi verið dansað síðan á jólanótt í Hrunakirkju. Þjóðs. J. Árn. II, bls. 7—8 eptir handritum séra Jóns Norðmanns á Barði, séra Jóhanns Briems í Hruna og fleiri sögnum.

Jón Ólafsson frá Grunnavík hefir þekt sögur þessar, og eru báðar vísurnar í Orðabók hans, duna, fljóð, kast. Hann segir að þær séu báðar um Hrunadansinn. Jón færir til ágrip af sögunni um dansinn í Hruna (duna) og bætir því við, að maðurinn sem hélt í kirkjuhurðarhrínginn hafi verið fagur sýnum; hann hafi líka tekið þátt í dansinum og súngið með danskvæðið. Hrunavísan er í Þjóðólfi 1887, nr. 11 og í hrs. Sv. Grv. 66 með hendi Jóns Sigurðssonar, en hin vísan er prentuð hjá K. Maurer í Isländische Volkssagen 1850, bls. 191. Báðar eru vísurnar í hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. með hendi séra Jóns Eyjólfssonar eptir Ágústínu Jóhönnu Eyjólfsdóttur á Stað í Aðalvík, og enn eru þær í báðum vikivakaritgjörðum Jóns Árnasonar. »Held eg mér í hurðarhríng« er enn í hrs. ÁM. 970, 4, í leikjaritgjörð séra Guðmundar Einarssonar, og segist hann hafa heyrt, að djöfullinn hafi komið í Jörfagleði, kveðið þar vísuna og kipt svo húsinu, sem leikið var í, með öllu saman, ofan til neðri bygða. Ágrip er af báðum sögunum í Corpus poeticum II, bls. 389.

Þeir sem ömuðust við vikivökunum hafa óefað haft mikið til síns máls að sumu leyti, því þar mun opt og einatt hafa átt sér stað ólifnaður og óskírlífi, eins og sést á sumum vikivakalýsíngunum og frásögnunum um Jörfagleði; en í stað þess að reyna að bæta siði manna við gleðirnar láta klerkarnir hvert bannið dynja yfir vikivakana eptir annað, og skal eg nú geta um þau, sem eg þekki. Flest bönnin eru prentuð í heild sinni í Íslenzkum skemtunum, og læt eg mér því nægja að nefna þau hér að eins og geta þess, sem þar er beinlínis tekið fram um dans og vikivaka, en aptur læt eg prenta það hér af því tagi, sem ekki er fært til í Íslenzkum skemtunum.

Í formálanum fyrir sálmabókinni 1589 fer Guðbrandur biskup Þorláksson (bls. aaiiij) mjög hörðum orðum um mansaungva, afmorsvísur, brunavísur, háðs og hugmóðs vísur, þ. e. vikivakakvæði. Sami kaflinn er hér um bil orðréttur í formálanum fyrir sálmabókinni 1619. (Íslenzkar skemtanir, bls. 209—10).

Í kvæðinu Heimsádeila eptir séra Sigfús Jónsson á Stað í Kinn († 1597) er fárast yfir dansi, svo sem nú skal greina:

1. Satt er það eg seggjum tel,
sem mig dansa biðja:
ekki [stunda ýtar[1] vel
annað [boðorð og[2] þriðja,

[1] stoðar ýtum BD. [2] *boð og hið E.*

berlega[1] brjóta nú.
Hjartað fyllist heimsku meðr,
hafnar réttri trú,
[saurugt hold[2] í syndum veðr,[3]
sjáðu þig við því frú.

2. Drekka[4] [í kríng[5] og dansa[6] með,
darka[7] á[8] góðum klæðum,
fá sér eina frillu á beð
[með fögrum[9] amorskvæðum,[10]
tala[11] og tefla greitt.
Hversu[12] má[13] sá hreppa gott,
sem hefir [ei þetta[14] neitt;
[hér með[15] líka[16] háð og spott
hverjum[17] manni[18] veitt.

3. Tel eg það fyrst að tildra sér
og tjá svo holdsins blóma,
drekka[19] í kríng[20] sem dönsum[21] vér[22]
[með dygð[23] (og allan[24] sóma
og[25] kátan kvæðatón,
sem Gyðíngasveitin girntist sjálf,
galin um hyggjufrón;
illan vantar Arons kálf,
er það mesta tjón.

AM. 148, 8. 127. bl. (Vigursbók, skrifuð 1676—77). A = ÁM. 104. 8. bls. 220—21. B = ÁM. 436, 12. C = ÁM. 242, 8. 48—49. bl. D = Hrs. Bmfj. 633, 8 (Þórkatla hin meiri). E = Hrs. Bmfj. 238. 8. Fyrsta er. og fyrri hlutinn af 2. og 3. er. prentað hjá Jóni Þorkelssyni: Om Digtningen på Island 1888, bls. 435.

Í sýnódale Odds biskups Einarssonar á prestastefnu á Kýraugastöðum á Landi 9. maí 1592 er þetta um vikivaka: »7 Item að prestar fyrirbjóði hestaþíng, vökunætur og smalabúsreiðir[26] á helgum dögum, og aðra því líka heiðínglega háttu, hvort það sker nótt eða dag.

[1] berlega að B, böl er að E. [2] saurug girnd B. [3] vefr B. [4] Dansa B, Dramba D. Þeir dansa C. [5] frekt E. [6] drekka BCE, dreissa D. [7] og darka D, dreissa E. [8] í D. [9] fróð á B, fróða í CD. [10] mansaungskvæðum BCD. [11] að tala C. [12] Hverninn ABCE. [13] kann E. [14] Ógreinilegt í B. [15] heldur ABCDE. [16] bæði ABCD, meira E. [17] af höldum ACDE, höldum B. [18] mun honum A, verður BDE, er honum C. [19] þeir drekka C. [20] hríng B. [21] digtum B. digtað C. [22] er C. [23] það dæmist C. [24] mest til C. Frá [ með dygðalausum B. [25] með C. [26] Úr því smalabúsreiðir eru nefndar hér, skal eg nota tækifærið til að færa það til, sem Árni Magnússon segir um þær, þótt það komi málinu ekki beinlínis við: »Smalabúsreið var höfð við Eyrarhól nærri Pétursey í Mýr-

En dirfist nokkur að fara á þvílíkar samkomur og finnist þar þeir, sem ekki hafa áður hlýtt guðs orði [á þeim degi], þá skulu þeirra nöfn skrifast í prestsins bók, og skulu þeir enir sömu klagast fyrir sýslumanninum. En allra helzt skulu prestarnir sjálfir varast að gjöra nokkuð að þvílíkri gleði, heldur hitt, með röksamlegum áminníngum að hepta þvílíkan ósóma, svo mikið sem þeim er mögulegt.« Stbhl. II a 25[167] II, c. 7. Jón Pétursson fol. Afskript Páls Pálssonar stúdents, en hér er farið eptir afskript Pálma Pálssonar af henni. Ágrip af synodale þessu er í Historia ecclesiastica III, bls. 337 og Árbókum Espólíns V, bls. 66.

Í formálanum fyrir Vísnabókinni 1612 talar Guðbrandur biskup um brunavísur og afmurskvæði (Ísl. skemt., bls. 210).

Í katekismus þeim, sem Guðbrandur biskup þýddi á íslenzku, er talað um brunakvæði, afmorsvísur, danslæti, kveðskap og mansaungva. Hér er farið eptir III. útg. 1691, bls. 155 (Ísl. skemt. bls. 210).

Í synodale Þórðar biskups Þorlákssonar 1679 er þetta um vikivaka: »Heiðurlegum og vellærðum kennimönnum í Kjalarness þíngi óska eg blessunar. Hér með yður öllum vitanlegt gjörandi, að í sumar á almennilegri synodo að Þíngvelli fram fór, svo hljóðandi, sá 5. póstur þeirra efna, er þar fyrir komu, sem eptir fylgir:

V. var upplesið í synodo virðulegs herra lögmannsins norðan og vestan á Íslandi, herra Magnúsar Jónssonar opið bréf, hvar inni hann af guðlegri vandlætíngu kvartar yfir einum og öðrum ósóma, sem því verr og miður í þessu fátæka landi allvíða tíðkast, hvar til velnefndur herra lögmaðurinn sérdeilis til nefnir Þorskafjarðarþíng, hvar allvíða það vonda óskikk tíðkast, einkum á jólanótt árlega, að fólk saman safnist til dansleikja og annars apaspils með slæmum kveðskap og öðru þvílíku, sem greint herra lögmannsins bréf glöggvast útvísar.

Nú með því að svoddan vont athæfi er andstyggilegt og óliðanlegt, þá er það alvarleg skikkan og áminníng þessara[r] synodi, að það öldúngis afleggist og kennimennirnir gæti síns embættis að áminna söfnuðinn hér um og líði ei svoddan óskikk, hvorki á jólanótt né öðrum helgum dögum.

Veraldlega valdstjórn umbiðjum vér og svo, sína skyldu hér útí að gjöra, og láta þá ei óstraffaða vera, sem h[eilaga] drottins hvíldardaga þanninn vanbrúka, guði til stygðar og náúnganum til stórs hneyxlis,

---

dal. Síðasta smalabú hefir verið undir Eyjafjöllum. það var það sama ár sem Vestmanneyjar voru rændar« þ. e. 1627. ÁM 213, 8, 66. bl. Jón Espólín minnist á smalabúsreiðir í Árbókum sínum IV. bls. 25 og segir, að þær hafi haldizt fram á daga Odds biskups Einarssonar. Jón Árnason talar um smalabúsreið í þjóðsögunum II, bls. 577—78, og hefir hann þar eptir kunnugum mönnum, að þær hafi aldrei lagzt niður með öllu, heldur tíðkist þær jafnvel enn í dag (þ. e. 1862) í Skaptafellssýslu og undir Eyjafjöllum og séu nefndar smalareiðar.

virðist kennidóminum hér við liggja fullkomin helgibrotssekt, vonandi að guðhræddir valdsmenn muni hér eptir alvarlega gánga, eptir skyldu síns embættis. Hrs. Magn. Steph. 33, 28—9. bl. með samtíða hönd. Hrs. Magn. Steph. 56, 173—75. bl.

Bréf er til frá Jóni biskupi Árnasyni til séra Magnúsar Einarssonar í Kaldaðarnesi 13. janúar 1733 og er talsvert þar um vikivaka: »Eg hefi meðtekið yðar vinsamlegt sendibréf, dat. 8. hujus, í hverju þér gefið mér að merkja, að vökunætur og gleðileikir séu í brúki niður í Flóa, í sóknum yðar, hverja þér viljið ekki líða og brúkið vandlæti í svoddan sökum, vegna yðar embættis. Þér viljið og einninn vita, hverja þánka eg hefi um svoddan gleðileiki og yðar fyrirtekt. Eg svara: svoddan vökunætur og gleðileikir eru, að minni meiníngu, svivirðíng, bæði fyrir guði og öllum guðhræddum mönnum og eiga þessvegna eingan veginn að líðast. Þeirra nytsemi er eingin svo eg sjái, heldur eru þeir sæði andskotans í vantrúuðum mönnum, sem eru fullir af gjálífi og vondum girndum og tilhneigíngum, í hverjum djöfulsins ríki hefir feingið yfirhönd. Svoddan leikir koma fram af holds vellyst og elsku til heimsins. En ef nokkur elskar heiminn, í honum er ekki kærleiki föðursins, segir Jóhannes, og alt það í heiminum er, það er ekki annað en fýsn holdsins, girnd augnanna og drambsamlegt líferni; heimurinn forgeingur og hans fýsn, svo og einninn allir þeir, sem dansa eptir hans pípu. Gefum gaum að því, er sánkti Páll skrifar Eph. 5, 3 etc.: Forðist alt sem hefir ilt álit, I Thess 5, 22. Eg þarf ekki að fram færa margar skriptarinnar greinir, sem hér að lúta, hefi ekki heldur tíma til þess að uppleita. Það er oss nóg, að kóngleg majestet bannar útþrykkilega svoddan leiki. sem eru ekki annað en verk myrkranna, því svo stendur NL. lib. 6, cap. 4.[1] art. 11: Al letfærdig og forargelig Legen om Juul elle andre Tider og Fastelavns Löben forbydes strengeligen og bör alvorligen at straffes.« Bréf þetta er tekið eptir afskript Pálma Pálssonar, líklega eptir bréfabók Jóns biskups Árnasonar.

Í 21. erindi í fyrsta upprisusálmi Steins biskups Jónssonar. Kmh. 1743 er þess getið. að guð muni hafa andstygð á dansi (Ísl. skemt. bls. 13).

Í 137. greininni í Ponta, Kbh. 1741 er þess getið. að menn vanhelgi hvíldardaginn með dansi. meðal annars. (Ísl. skemt. bls., 13—14).

Í fororðníngu um helgihald sabbatsins 29. maí 1744, 19. grein, húsvitjana fororðníngunni 27. maí 1746, 18. gr. og húsagafororðníngunni 3. júní 1746, 7. grein eru bannaðir leikir og skemtanir og þá líka eflaust vikivakar, þótt þeir séu ekki teknir beinlínis fram. Amorsvísur eru þó nefndar í seinustu tilskipuninni (Ísl. skemt, bls. 12—13).

Í formála Haldórs biskups Brynjólfssonar fyrir Vísnabókinni 1748 er þess getið, hve Amorsvísur séu ósæmilegar (Ísl. skemt., bls. 211—12).

Í útgáfunni af Ponta 1781[2] er grein þessi bls. 65. »Hvað er hórdómslegt

---

[1] Rángt, sjá bls. 51. [2] E. Pontoppidan, Sannleiki guðhræzlunnar. Hólum.

viðmót? Allrahanda útvortis merki, sem auglýsa það óskammfeilna hjarta, hvort sem heldur er augna eða andlits bragð, líkamans ósæmileg opinberan, klæðadragt ósæmileg, lauslætiskossar, dansar, vikivakar og þessháttar.« Önnur samskonar grein er skömmu seinna, bls. 67: »Hvað er það fleira (en brennivín), sem kann að freista til lauslætis?« »Iðjuleysi, vondur selskapur, æfintýri, amorsvísur, bækur og bílæti, lauslætisleikir, dansar og vikivakar, og það alt, af hverju kviknar fýsn holdsins, fýsn augnanna og drambsamt líferni.«

Einna greinilegust árás á vikivakana er þó Leikafæla séra Þorsteins Péturssonar á Staðarbakka 1757 og er hennar getið áður.

1779 kom út í Hrappsey þýðíng Magnúsar sýslumanns Ketilssonar á Norsku lögum, »Kong CHRISTIANS þess fimta Norsku lög« [1687], og giltu þau fyrir Ísland, að minnsta kosti að nokkru leyti. Þar eru tvær greinar, sem snerta dans og vikivaka II, XI, 14 (bls. 221) og VI, III, 11 (bls. 663): »Þegar einhver andlegrar stéttar maður verður boðinn til nokkurs ærlegs gestaboðs, skal hann eingan veginn láta koma sér til drykkjuskapar, ei heldur til nokkurs annars óhófs, nætursetu, hégómaháttar í tali, dansi eður nokkru svoddan.« »Allir óskikkanlegir og hneyxlanlegir leikir um jól eður á öðrum tímum og föstuinngángshlaup fyrirbjóðast streingilega og eiga alvarlega að straffast.«

Af bönnum þessum sést, að guðsmennirnir hamast að vikivökunum og leikjum yfir höfuð, hver eptir annan, en einginn verður til að taka málstað þeirra fyr en Eggert Ólafsson að nokkru leyti og Ólafur Ólafsson (Olavius). Eg hefi feingið miða frá Pálma Pálssyni í safni Jóns Árnasonar, sem virðist vera afskript af lagagrein: »1748. 12. júlí: Að bændafólki skuli leyft að halda sína gleðileiki á vorum á virkum dögum, sér til hressíngar, á þeim tímum, sem þeir missa mega frá sínu þúnga landyrkjuerfiði, eins og vani hefir til verið, þó fyrir utan ofdrykkju og óstjórn alla,« en eg finn hvergi kafla þennan og í Lovsamling for Island eru eingin lög frá þessum degi.

---

Séra Einar Jónsson á Kirkjubæ getur þess í vikivakaskýrslu sinni, að »þá er snæðíngi var lokið á vikivakanum var tekið til drykkju og var þá borin vínskál inn í veizlusalinn, sem kölluð var vítabikar, og var þá súngin vísa þessi:

Bolli víta' er borinn inn,
bragnar meiga' hann finna,
að skemta þeim í skilnaðinn,
svo skuli þá til hans minna.

Síðan var skálin drukkin og tóku menn svo að dansa.« Séra Einar færir og til brot úr tveimur vísum, sem eru mjög keimlíkar vítavísum og má jafnvel telja áreiðanlegt, að þær séu úr austfirzkum vítavísnaflokki, þótt eg vilji ekki taka þær út úr sambandinu hjá séra Einari.

Þetta er alt og sumt, sem stendur um vítabikar og vítavísur í vikivakalýsíngunum, en til allrar hamíngju er hægt að fylla það með því að kynna sér vítabikars og vítavísna siðinn í brúðkaupum á 17. og 18. öld, því gánga má að því vísu, að sami siðurinn hafi tíðkazt við vikivakana og brúðkaupin og jafnvel við önnur stórhóf.

Það er þá að segja af sið þessum, að þegar liðið var á snæðínginn hjá gleðifólkinu á vökunóttunum, eða þegar lángt var liðið á brúðkaupin, sem opt stóðu í marga daga þegar auðugir menn og göfugir áttu í hlut, og í öðrum brúðkaupum hefir varla tíðkazt vítabikar né verið kveðnar vítavísur, var borin inn vínskál eins og séra Einar segir, eða ef til vill stundum bjórkanna mikil og fylgdi bikar. Forstöðumaður vikivakans eða siðamaðurinn í brúðkaupinu mælti nú fyrir vítabikarnum á þessa leið:

**(Fyrir vítabikar.** Forsögnin.)

Guð himnanna
gefi' oss kanna
gleði lánga,
fyrir iðran sanna
aflausn spanna
og að óskum gánga.

Heyrum sé kunnugt
hágöfugum
herramönnum
og heiðarlegu boðsfólki
gamall orðskviður,
að einginn sé einna hvatastur.
Enn segir
önnur ritníng,
að allir hafi
hrukkur í enni,
vill hér að hneigja það þriðja,
að mjótt sé
meðalhófið,
og munu það fáir rata;
vill það og einnig (því miður) ásjást
í þessu samsæti,
þótt yfirlýst hafi verið góðum brúðkaupssiðum,
hógværri hegðan,
siðsamri skemtan,
varúðarsamri vingan
með varfærri gleðistundan,

og ei hefir orðið
við öllu séð.
Sannast hér það fornkveðna:

Þótt hálært fólk og heiðurslið
hafi sér saman hrannazt,
annar maður ölið við
einatt margur sannast.

Bæði fyrrum, áður og enn,
er það greint með letur,
líka veiktust lærðir menn.
lukka' ef nú fer betur.

Er það í ómerkilegum
sannleika' að segja:
hafa grannskygnir
gaumgæfendur
eptirskygnzt
ölteiti manna,
og því miður fundið stóran brest
og óvarfærni margskonar.
það þó eina upptínt,
er óbærilegt þótti
yfir að þegja
og óljúgfróðum (?) hæfir.
Er nú því góðum mönnum
ills draums það bezt,
að vakna sem fyrst.
og það heillaráð
upp [að] taka,
að sækja iðrunina
til aflausnar.
aflausnina til fullrar kvittunar,
og það því skjótara
sem meðal þar til er fyrir hendinni fljótara,
sem er til þessa bikars,
sem fyrir borð er vendur.
á hvers barmi að iðranin er alvarleg,
í miðjunni aflausnin elskuleg,
á botninum kvittanin fullkomleg,
skír og skörugleg.
staðföst og stundleg —.

hvar fyrir þessi bikar heitir vítabikar,
því hann er tilsettur af þeim valdið hafa,
að skripta syndugum með ábergíngunni,
aflausninni útbýta með ádrykkjunni,
og fulla kvittan veita með afdrykkjunni.
Bikarinn meðtaki nú syndugir með auðmýktinni,
drekki af í einu með hugprýðinni,
og veiti honum verðuga lotníng með reverentsíunni.
Skyldugur er hver maður að heyra sitt víti með hógværðinni,
gremjast ei um of yfir sök sinni,
heldur taka fegins hendi við bikarnum með aflausnarvoninni.
Þó skil eg til, að einginn misvirði fyrir mér alt vel meint í framsögninni,
því oftalað og vantalað skil eg undir orða leiðréttíngunni.

**Vísan fyrir vítabikar gömul.**

Í fornu skríni fann eg kver
fult af saka hrönnum;
ber það niðr á botni sér
bótina synda grönnum.

Hallur heilla bolli,
hann á mann hver spanna,
geldur gildar skuldir
gamansamr að framan,
lýtur[1] lítið votur,
lekur frekr á seka,
lætr á botni ljótum
lið til friðar griða.

**Önnur gömul vísa.**

Bikar víta' er borinn inn,
bragna vill hann finna,
að skripta þeim í skilnaðinn,
svo skuli þá til hans minna.

Bikarinn furðu frekur
frek heimtar gjöld af sekum,
vægir hann vítuðum eigi,
vinnur hrausta' og svinna.

Hrs. J. Sig. 120, 8, og þekki eg ekki þessa forsögn annars staðar að. Hún er tekin hér eptir afskript Þorvalds Thoroddsens, skólakennara.

*Til er þó* bending um það annars staðar, að mælt hafi verið fyrir

[1] *lúta, hdr.*

vítabikarnum. Seinast í brúðkaupssiðabókinni ÁM 438, 12, sem er frá dögum Kristjáns konungs V., stendur: »Áður en menn ríða, á vítabikarinn að gánga. Siðamaður eða kæmeistari segir fyrir honum þá inngefst og tíðin fellur.« (45. bl.).

Áður en þessu fór fram, hafði forstöðumaður vikivakans eða siðamaður í brúðkaupinu feingið einhvern hagorðan mann til að yrkja vítavísur um gleðimennina eða brúðkaupsgestina, að minnsta kosti alla þá, sem nokkuð kvað að; kom hann nú inn í gleðisalinn eða brúðkaupssalinn, sneri sér að gestunum hverjum eptir annan, optast fyrst að þeim, sem tignastir voru og kvað eða las vísur sínar, sem ávalt voru undir fornyrðislagi; að minnsta kosti þekkjast ekki annars konar vítavísur nú. Vísur þessar voru ávalt keskilegar mjög og kátlegar og báru gleðimönnunum (brúðkaupsgestunum) það á brýn, sem þeir höfðu átt að hafast að ósæmilegt undir borðum eða í brúðkaupinu; hlífðu þær hvorki háum né lágum, lærðum né leikum, ríkum né fátækum. Optast munu afglöp þau, sem getið er um í vísunum, hafa verið tilbúníngur einn, en ekki er þó ráðlegt að staðhæfa, að sumt, sem getið er um í þeim, hafi ekki kunnað að koma fyrir er menn gjörðust ölvaðir, sem opt mun hafa borið við, bæði í vikivökum og brúðkaupsveizlum. Einginn mátti reiðast glettum þeim og ónotum, sem vítamaðurinn hreytti í hann, og hefir það þó eflaust borið til, ef laglega hefir verið komið við kaun gestanna, en til þess að fá fyrirgefníng synda þeirra, sem getið var um í vísunum, varð hver og einn að tæma bikarinn í botn, og hefir það opt verið fullervitt, ef bikarinn hefir verið stór, því venjulega mun aðeins hafa verið brennivín á boðstólum, en menn stundum ölvaðir undir. Geingu nú vítavísurnar og vítabikarinn mann frá manni og urðu allir að tæma hann. Seinast orti, að minnsta kosti stundum, einhver af gleðimönnunum eða brúðkaupsgestunum vísu, eina eða fleiri, um vítamanninn, svo honum skyldi ekki vera gjört hærra undir höfði en öðrum, og varð hann þá líka að drekka af vítabikarinn.

Eflaust hefir opt orðið ágæt skemtan, glaumur og gleði mikil yfir vítavísunum, ef þær voru hnittnar, og það eru þessar vítavísur, sem enn eru til, en allur fjöldinn af þeim mun vera týndur því það liggur í augum uppi, að slíkt gaman hafi verið haft við í öllum stórhófum til að auka á gleðina.

Eins og drepið er á, eru nú týndar hér um bil allar eða líklega allar vítavísur, sem kveðnar hafa verið í vikivökum, og leyfi eg mér því að færa hér til vítavísnaflokka þá, sem eg þekki, sem kveðnir hafa verið í brúðkaupum; hafa vítavísurnar sem kveðnar voru við vikivakana, eflaust verið alveg með sama sniði og geta jafnvel ekki hafa verið öðruvísi.

Eg hefi þá náð í fjóra vítavísnaflokka, og er einn og sá leingsti úr Rángárvallasýslu; var hann kveðinn í brúðkaupi Ólafs prófasts Gíslasonar í Odda, sem seinna varð biskup í Skálholti († 1753), og Margrétar Jakobsdóttur. Það var haldið í Odda 1732. Flestar vísurnar eru um presta, en

ekki galsaminni fyrir það. Annar er úr Eyjafirði og hefir verið kveðinn í brúðkaupi, sem haldið var hjá Hans klausturhaldara Scheving († 1782). Sá þriðji er úr Þíngeyjarsýslu, og hefir verið kveðinn í brúðkaupi séra Björns Magnússonar á Grenjaðarstað († 1766) og Elínar systur Jóns sýslumanns Benediktssonar í Norðursýslu. Sá fjórði er úr Eyjafirði og er að eins brot, en af mönnum þeim, sem nefndir eru, einkum lögréttumanni einum, má sjá, að brot þetta er frá 18. öld.

Koma hér nú vítavísurnar sjálfar í röð þeirri, sem flokkarnir eru taldir í:

**Vítavísur kveðnar í brullaupi síra Ólafs Gíslasonar í Odda.**

1. »Gefendur heilir,
gestur er innkominn.«[1]
Það skal upphaf
þessara orða,
sem í fornmælum
furða þótti;
veri það enn
á vorum tíðum.

2. Aðvörun sú
er mér í huga,
í Ragnarökkurs
ritníng stendur:
»Hljóðs bið eg allar
helgar kindir,
meiri og minni
mögu Heimdallar.«[2]

3. »Hvað er með Ásum,
hvað er með álfum?
Gnýr allur jötunheimur,
Æsir eru á þíngi,
stynja dvergar
fyrir steindyrum,
vebergs[3] vísir,
vitið enn eða hvað?«[4]

4. »Einn var enn[5] gestur,
er til verðar kemur,
þunnu hjóði þegir;
eyrum hlýðir,
en augum skoðar,
svo nýsist fróður fyrir.«[6]

5. Heimboð virðulegt
hefir hér verið
haldið á þessum
heiðursgarði,
mannval ágætt
og mætir siðir
í bezta gildi,
svo betur færi.

6. Von er að hér sé
vörun synda,
þar gestir eru
geistlegir flestir,
hvar til fyrst nefni
hálærðan föður
kennidómsins
og kirknanna herra.[7]

7. Á varð honum,
þeim ágæta herra,
allir syndga,
eins hann líka,
við þó margir
vilji hlífast
upp það að kveða,
sem yfir sást honum.

[1] Byrjunin á 2. er. í Hávamálum (útg. Bugges 1867). [2] 1. er. í Völuspá. [3] Veggbergs. útg. [4] 48. er. í Völuspá. [5] Enn vari, útg. [6] 7. er. í *Hávamálum.* [7] Jón biskup Árnason † 1743.

8. Tvær voru sængur
og tjaldaðar báðar,
brúðgumans önnur,
hjá biskupsins hvílu.
Hafi hann vilzt
sá herrann frómi,
fyrirgefníngar
flestir þurfa.

9. Því bið eg fólkið
þegi nú ekki
yfir hans syndum
með öðrum fleirum;
skal sá koma,
sem skriptar honum.
Drekkið þér af
svo dugi nokkuð.

10. Séra Jóhann,
sá var prófastur[1]
og gæt[r]astur haldinn
af gestum hinum;
á varð líka
þeim ágæta manni,
þótt ei feili mér
frá að segja.

11. Í heyranda hljóði
hann aðspurði
ætt hver væri
öfundar;
en faðerni þóttist hann
fullglögt vita,
um móðurættina
maðurinn viltist.

12. Heilu ölstaupi
helti' hann líka
í brúðarinnar
blíða kjöltu,
— synda kvittun
sýnist hann þurfa —
en þó lofaði
af að þurka.

13. Brúðguminn líka —
Blessað sé nafn hans,
hryllir mig við
hans að nefna
syndir ofstórar,
sé eg til þess,
ber honum líka
að biðjast friðar.

14. Sofandi var hann,
þá siðlát brúður
undir hans vánga
arminn lagði;
mjög var leingi;
margan furðaði;
víst kom í orð
að vekja manninn.

15. Með hverju vildir þú
hafa þig vaktan?
eða dreymdi þig nokkuð
til daglátanna?
Hafir þú brotið,
hér er rétturinn.
Á bikarsins botni
bótin er fundin.

16. Séra Franz Ibsson,[2]
signaður maður,
siðlátastur einn
sagður presta,
fárleg má það
furða heita,
að hann syndgar
eins og hinir.

---

[1] Jóhann prófastur Þórðarson í Hraungerði († 1734).
[2] í Hruna († 1739).

17. Heiðursverður
þá hústrúrnar sátu
saman í ranni
svaraði' hann þessu:
»sannlega þættist eg
sérlega ríkur,
ef eg mætti
eiga' ykkur báðar«.

18. Þótt beiddi hann drottinn,
að blessa þær jafnan,
vítafrí ekki
verður að heldur;
í bikarnum hlýtur
bótanna' að leita.
Drektu af! Annars
dugar það ekki.

19. Sóknarpresturinn
séra Stefán[1]
syndugur reynist
og satt er að tarna,
hann sat hjá jómfrú
heiðursverðri,
kveða má svo,
hann kysti hana:

20. Nær hann í verki
nýtu þóttist
og alt var í lagi
eptir geði.
»Þú brauzt fyrir mér
beltið« hún sagði.
»Eg skal bæta það«
ansaði hann henni.

21. Leitað var að honum
leingi um kvöldið,
þá brúðarsængina
blessa skyldi,
háfinn þeinkti
hann helfallinn,
»fiska' eg vildi
fara' að vitja' um«.

22. Séra Þorkell[2]
sést hann hér nærri,
sakadólg mesta
sumir hann kalla;
í búrið hafði hann
blessaður geingið
og klappað með nákvæmd
konu annars.

23. Kóngs þegar minni
kom að borði,
brellið erindi
úr Bósarímum
þuldi hann fram
og það heyrðu fljóðin;
margur brosti,
en meyjarnar ekki.

24. Af því þeim varð
ofbilt við
svoddan óhæfu
sér nálæga.
Ölmóður gamli
má afleysa manninn
hlífðarlaust
með hörðum skriptum.

25. Siðamanninum
séra Bjarna[3]
í samsæti þessu
hefir sómlega farið;
þótt nógu mjög þætti' hann
nærkvæmur vera
þá brúðunum skyldi
til bekkjar vísa.

---

[1] Þorsteinsson á Stóranúpi († 1778). [2] Oddsson í Gaulverjabæ († 1734).
[3] *Séra Bjarni Helgason* á Stóruvöllum († 1773).

26. Einhver heyrði
þau orðin til hans:
»Allir í verinu
ógiptir segjast«.
Við hverja hann talaði
helzt af jómfrúnum
fregnaði' eg ekki
með fullum sanni.

27. Hafi þar fylgt
hugur máli,
má hann ei syndlaus
maður heita.
Drektu af vinur
ef vera skalt kvittur,
hér er annars
hegnarinn nærri.

28. Hafliði prestur[1]
hér nálægur,
guðirnir náði hann
góða manninn;
aldrei þykist
ofmikið hafa,
því svoddan orðin
sögðust af honum.

29. »Mér kann ei nægjast
Katrín mín góða,
við yður fleiri
vildi eg skipta.
Ef ósk sú mætti
eptir gánga,
þætti mér fullvel
í þessum efnum«.

30. Hann má drekka
sá heiðursmaður,
vítabikar,
ef vill hann þiggja
synda frían
fyrir sjálfs síns gjörðir.
Það er bótin
við þessu meini.

31. Séra Illugi,[2]
sést hann ei hérna;
mælt er hann ekki
muni án synda;
vansi í tiltæki
varð honum nokkur,
höfuðfat sitt
nær hugði að finna.

32. Hann kvazt verða
það höfuðfat brúka
helzt, sem næst sér
hendi fyndi,
þótt væri það blómleg
brúðarhúfan,
mundi sér ekki
með það feila.

33. Á sunnudagsmorguninn
sérlegt ónæði
veitti hann mörgum,
var þar um kvartað.
Fyrirgefníngar
fær hann að leita
eflaust fyrir
þær ávirðíngar.

34. Ættgöfugur
Árni Jónsson[3]
siðprýði gæddur
í samsæti lýða.
Hafa þó allir
hrukkur í enni,
einn mun hann finnast
í þeim flokki.

[1] Bergsveinsson í Hrepphólum († 1773).
[2] Sonur Jóns biskups Árnasonar.
[3] Jónsson á Mosfelli († 1768).

35. Orð hefir leikið
á hans handæði
við hjónasængina
að hnupla í burtu;
þótt ei hafi mikið
á því borið
viljann má samt
virða til saka

36. Bikarsins dökkva,
með bræðrum fleirum,
vitja þarf hann
ef vera skal kvittur,
drekka af hreint
og dragi af flekki.
Aflausnin sjálf
er á hans botni.

37. Lærðan, siðprúðan
lókátinn einninn
nefna verður
nálægt hinum;
samkvæmi' í þessu
syndaregistri
hugsast mönnum
hann hafa verði.

38. Hann var tilkjörinn
heiðursjómfrúnum,
að leiða
sem aðrir sveinar;
vært svaf hann þá
og vaknaði' ekki,
fyr en í kyrkju
þær komnar voru.

39. Meiníng hefir
þar margur af feingið
að nóttina[1] fyrir
nákvæmlega
skygnzt hafi eptir
skaranum fljóða.
Aflausnar þarf hann
eflaust leita.

40. Blygðast tek eg nú,
bræður mínir,
frá að segja
frammistöðumanni
monsér Jóhanni
Magnússyni;
sá tekur yfir
í synda þúnga.

41. Altíð var hann
út um hið sama,
ekki vil eg grant[2]
að því kveða.
Úngar meyjar
eru augna reynir,
heyrendur skilja
hvað eg meina.

42. Lögréttumaðurinn
loflegur Jónsson
Grímur að nafni;
get eg hans einninn.
Sá hefir laungum
í solli dansað,
en þótt nú hafi
yfirtekið.

43. Sumir fegra
þá sök fyrir honum,
því hann er við fljóðin
hagkvæmur jafnan;
báru þær hann
því bezta vitni;
syndlaus má þó ei
segjast að heldur.

44. Lögréttumaðurinn
lista mætur
Þorleifsson Jón
er þar næst talinn;
honum er óvært
þeim heiðursmanni.
að konan ei á honum
arma hefir.

[1] *nóttinni, hdr.* [2] grvt, hdr.

45. Um nóttina þrisvar
neyddist á fætur;
náttúruna
er nauð að beygja;
hvar hann fyrir sér
hafi leitazt
vita menn ekki,
það verður að bíða.

46. Gíslason Jón,
góðfrægur maður,
einn er af þeim,
sem ekki' er án víta.
Hann óskaði
þá hornið var borið,
vildi það yrði
að vænni byssu.

47. Sem flytti' uppá víst
faðma sextíu.
»þá skyldi refanna
þrífast einginn
mér í nálægð
mætti eg ráða.«
Sýnast munu þetta
sakir nógar.

48. Andrésson Jón
ágætur maður
velskikkaður
að vitund lýða;
hlýtur þó alt
að hafa sinn máta;
heita má það
um hæversku þegna.

49. Eins og jómfrú
sá ýngismaður
situr hæverskur
og sýtugr ei heldur.
Ávirðíng sú
þarf yfirbótar,
hann skal með öðrum
hér af drekka.

50. Íbi Franzson[1]
einkar siðlátur
haldinn er
og helzt hjá fljóðum;
gott væri' ef allir
gætu það sannað
í þessum selskap,
— en það skeður ekki.

51. Óstöðugt sat hann
undir borðum
frá og til
nær fljóðin geingu;
ekki' eru það kynjar
um ýngismanninn,
en sakfrí er ei
samt að heldur.[2]

52. Þorsteinn Magnússon
þar sat einninn
kænn að merkja
í kvenna samsæti,
kendist að líta
krókóttum augum
á jómfrúrnar,
er jafnt honum sátu.

53. Hóf upp hendur
og háa raustu
í ranni þar
rekkar sátu;
sagðist hann vera
sérlega gamall
og varmans þurfa
í veikleika þúngum.

---

[1] Sonur séra Franz Ibssonar í Hruna.

[2] Híngað hefir ort *Þorsteinn Magnússon* á Hæli í Gnúpverjahrepp.

54. Konur sem meyjar
kysti hann gjarnan
og klappaði mjúklega
kinnum þeirra.
Víti hér nefnast
verða stærstu;
veit eg hann drekkur
af vilja góðum.

55. Margir kannske
það muni vilja
sakir þessar
sannaðar verði,
en hér eru til
heilnóg vitni,
sem heyrðu' og sáu
hvað hér skeði.

56. Ætli' og mundi
ef[1] og þótti
vænti eg, verða má,
vita það allir.
Þetta meiga
þíngvitni heita,
úthverf sannindi
altíð frambera.

57. Fullur bikar
með fyrirgefníngar
borinn er hér
á borði háu,
honum allir
hljóta að lúta
við að mynnast
og vel af drekka.[2]

58. Eptir er nú
sá ekki má gleyma
Þorsteinn Magnússon,
þrifinn bóndi,
sagður af mönnum
siðlátur, hægur,
en hlýðið til vinir
hverninn hann bar sig.

59. Optast talaði' hann
eitt og hið sama
únga við meyju,
er þar sat nærri:
að um nótt næstu
nákvæmlega
sig mundi verma
sólin hrínga.

60. Sagðist hann skyldi
þótt sýndist gamall
eins vel sem úngur
og eingu síður
verða henni' að manni
ef mætti það reyna,
sýnist hann þurfa
syndalausna.[3]

Eptirfylgjandi vísu kvað séra Illugi á Mosfelli við þann, sem vítin bar, Ögmund Ól[afs]s[on]:

61. Margra bresti minnist á
maðurinn sagnafróður;
ef kynni lesti sína sjá —
svo yrði hann góður.

Hrs. Bmfj. 633, 8, 81.—85. bl. (Þórkatla hin meiri, skrifuð af Þórkatli lögréttumanni Jónssyni á Hrauni í Grindavík). 61. vísan er prentuð í Sunnanfara I 1891, nr. 3 og eru þar ýmsar skýríngar við kvæðið eptir dr. Jón Þorkelsson ýngra.

---

[1] *eñ. hdr.* [2] 52—57. erindi eru eptir Runólf Gislason og eru þau talin *þrjú er. í hdr.* [3] 58—60. eptir Jón Gislason.

## Vítavísur.

1. Heilir á húfi
heiðursverðugir
guðs orða kennimenn
og göfugir þegnar,
yður mér inna ber
alúðar kveðju
Valhallar jöfurs
og vel nefndra Ása.

2. Sendi mig Óðinn
með svipleg erindi
til ykkar góðir menn.
Það er nú í fréttum,
að dómr er geinginn
í döglíngs höllu,
að margir hér innanhúss
misbrotið hafa.

3. Færri[1] munu því
frómir að öllu
með réttum sanni
reiknast meiga,
þegar í Alheim
þulið verður
sérhvers ærilegt[2]
syndaregistur.

4. En það væri skrítilegt
ef þeir yrðu' að ansa
úr hábifsuðum
hæversku stólum,
sem steypt hafa dásana
með stórri kunnáttu,
kallaðir meistarar
komplímentanna.

5. Þessara skírnarnöfn
þekki lýðurinn[3]
og reikni þá heimulegs
ránglætis valda;
býður þeim því jöfur,
að birtast skuli
þeirra yfirsjón
alt eins og hinna.

6. En það er áskilið
af þeingli Valhallar,
að allir til betrunar
brota sinna
uppsettan bikar
aldeilis tæmi,
að njóti[4] svo náðar hans
nauðunum sviptir.

7. Forbannað hefir
fyrnefndur sjóli
gjörvöll komplíment
og gjört þar við leggja,
ef mót segði nokkur
mínum framburði,
hann skyldi hundraðfalt
hefndarstraff líða.

8. Mun eg því vafalaust
málunum hreifa
og sérhvers syndaskrá
sýngja' undir nótum.
Miðborðsmaðurinn
misgjörðafrekur
fallegan þorstateyg
fyrstur skal þiggja.

9. Göfugr Hans Skevíng
glaður í máli,
sjálfur húsvertinn,
sélega fór þér;
þú barst það á gómana,
að brúðirnar hefðu
klappað þér allar
með kossagángi.

[1] Fjærri, hdr. [2] ærilegt er sjálfsagt sama sem ærlegt. [3] lýðinn, hdr.
[4] njóta, hdr.

10. Þá hjónaskálirnar
hafðir út sopið
konseptið hlægilegt
kom þér af munni,
haglega báðum
hvolfdir til samans
og birtir það kontrafei[1]
brúðhjónanna.

11. Eitt var kýmilegt,
þá áformað hafðir,
ef hettan úr klæðinu
hefði vel sniðizt,
vítabikarinn
þú vildir að tæmdu
drósir ágætar.
Drektu hann nú sjálfur.

12. Sérlega sælir
séra Þorsteinn
verðugur prófastur
í Vöðlusýslu;[2]
vesælan hefirðu
virðíngartitil,
því guðirnir kalla þig
gamanhatara.

13. Þá brúðirnar áðan
brosa gjörðu
hæverskunettar
með hóglæti sínu,
nefndir þær yglibrún,
en nokkru síðar
sveipaðir allar
í seremóníum.

14. Þín var og yfirsjón
þessari stærri,
þá heiðursmeyjarnar
hófu saungraddir,
þá sagðir að nú væri
nógu hvellar
messuklukkur
á Möðruvöllum.

15. Séra Sæmundur
svinnur prófastur,[3]
brennur yfir þér
bræði Óðins
og allra Ásanna
svo undrum gegnir.[4]

16. Þá biðja léztu
fyrir brúðhjónunum
af andakt stórri,
að allir svo meintu,
þú æptir í klútinn
með ákefðar skvaldri,
en Amors tautaðir
aumlega kveðju.

17. Nú sem hægja tók
hvarma skúrum
lékstu við fíngur
lífiegur nokkuð,
begerðir[5] síðan
brúðar ádrykkju
og sagðir, »sætin góð,
svalaðu mæddum.«

18. Brúðguminn sjálfur,
blessuð ónefnan,[6]
segja muntu þig
sakla[u]san vera,
en hefir[ðu]' ei nýlega
heyrt það, minn kæri,
góður skyldi, sá
grandvar þættist.

---

[1] Controfrej, hdr. [2] Séra Þorsteinn Ketilsson á Hrafnagili 1716—54. [3] Séra Sæmundur Magnússon prestur að Miklabæ í Blönduhlíð 1731—47 og prófastur í Skagafjarðarsýslu frá 1729. [4] Er ekki leingra í hdr. og hefir *aldrei verið.* [5] begjörðir, hdr. [6] ónefninn, hdr.

19. Vinavik voru það
viðundin nokkuð,
þá brúðurin vildi
þig blíðlega kyssa,
þú otaðir skallanum
í Andra móði,
svo margir hugðu þig
mannýgan vera.

20. En eg virði það alt
til vorkunnar,
því mjúklega síðar
svo myntist við kæru,
að broddamumpurinn
bifsaður nokkuð
allan meyjar munn
meinlega særði.

21. Séra Stefán,[1]
siðferðisgóður,
margt er þér listilegt
lánað til frama,
herlega stúdérað
hefirðu laungum,
svo minnið vekur þér
marga bóksögu.

22. Fyrir hjónaskál
furðu valin
rómversk história
rann þér af munni.
Þulan var æðilaung,
en það var innsiglið,
þú sítéraðir
söggugan Plató.

23. Þá ræðuna endaðir
röggsemdarlega,
hestlásinn vildir þú
hafa með réttu;
til drósanna ærið opt
drapstu titlínga,
og hneigðir þeim höfuð
með hæversku stórri.

24. Sölfi Tómasson,[2]
sérlega nettur,
mikill signor,
mannlega fór þér;
þú ræddist vilja
rækja brúðirnar,
og skeinkja þeim öllum
skósvertu' í kampinn.

25. Hitt var þó[3] gamanið
hálfu verra,
þá sprundin til kirkjunnar
spaklunduð geingu,
þú mimpraðir kampnum
og mæltir í hljóði:
»skjótum við eptir
skarpinteinum!«

26. Þegar þú veikst þér
í vífa kransinn
hávigtug komplíment
heyrast máttu,
þú sparkaðir fótum
og spýttir um tennur,
en sagðir til brúðanna:
»sælir kompánar«.

27. Monsér Björn Scheving[4]
málglaður nokkuð,
sérlega skartar
þitt syndaregistur;
þá listugar brúðirnar
leiddust til kirkju,
þú[5] intir þær væru
eins og tóusig.

---

[1] Séra Stefán Einarsson, prestur í Laufási 1738—54. [2] Sölfi Tómasson, klausturhaldari að Múnkaþverá († 1759), faðir Sveins lögmanns. [3] þá, hdr. [4] Séra Björn Lárizson Scheving, prestur að Lundarbrekku 1752—60. [5] þá, hdr.

28. Það var og annað
þitt ránglæti:
þú hvefsaðir þeirra
höfuðprýði,
og sagðir til niðrunar
svinnum sprundum,
að Ása-Þór hefði
þeim öllum skautað.

29. Þriðju yfirsjón
þína má telja,
þá litfögur brúðurin
leidd var til sætis,
þýðri sýndirðu
þvílíka kveðju:
»Eigi þig Óðinn
og Æsir[1] í Valhöll.«

30. Þýður Jón Þorfinnsson
þektur allmörgum,
háborðs skeinkjarinn,
heyrðu mér snöggvast,
einhver heldur þig
íbygginn nokkuð,
búsælan bragðakall,
breytinn næsta.

31. Þú byrlaðir áðan
fyrir brúðina sjálfa
samblandað sortublek
og sjálfrunnið lýsi,
og birtir þar eptir,
að brúðguminn mundi
dæma það deslykt,
þá daunaði' af sætu.

32. Tómas Tómasson,
tel eg þig líka
minna eigi
misbrotið hafa;
þú hermdir, að brúðurin
brúkaði' um enni
einfalda[2] höfuðól
af essinu þínu.

33. Þorvaldur Runólfsson,
þjóðhagi réttur,
í blóðtökulistinni
brögðóttur nokkuð;
þú hreifðir bíldamakt
hér undir borðum,
og vildir brúðunum
vekja blóðrásir.

34. Guðmundar niðjar,
geðugir bræður,
þið eruð dáðamenn,
það skal eg sanna.
Uggur minn er þó,
að aldrei verði
frændræknin ykkur
að fjörlesti báðum.

35. Þið tókuð ráð saman
um tigna brúði,
og ræddust vilja
rifta' hana klæðum,
bera þau síðan,
en binda hana sjálfa,
og hvefsa brúðgumann
með heimildar veldi.

36. Misverknaðurinn
mundi sá stærri;
dæmi eg það með
dýrum réttindum.
Af ærnum móði,
Óðins kompánar,
drekkið bikarinn
dygt í laggir.

37. Eru nú taldir
allir til hópa,
þeir er Óðinn
þetta minni
býður með andakt
af að drekka
sér til náðugrar
synda kvittunar.

[1] Æsur. hdr. [2] einvalda, hdr.

38. Þökk hafi allir
þeir eð sýndu
verðuga hlýðni
Valhallar tiggja;
en hinum, ef nokkrir
hittast meiga,
vík eg til hans.
Vivite salvi.[1]

Hrs. Thotts 489, 8.

---

## Vítavísur í festaröli prófastsins[2] séra Björns Magnússonar.

1. Hljóðs bið eg alla
heiðurs . . . . . .
. . . . . . . . . .
. . . . . minnast
. . . . . . . . . .

2. Skeði svo forðum
það skilst mér . . .
. . . . . . . . . .
. . . . . . . . . .
. . . . . . . . . .
tíðast mönnum
. . . ölið . . .
að annar sé maður.

3. En svo þér iðrist
ávirðínga,
ber eg hér fram
bolla Óðins,
hann . . . . .
. . . . . . . . . .
. . . . . . . . . .
lausa við syndir.

4. [Séra] Þorleifur,[3]
sé eg þig þarna
. . . . . . . . . .
minn heilla vinur,
í gærkvöldi, þegar þú
gjörðir að mæla
háborði yfir,
sem hér eptir kemur.

5. »Óstjórnanlegar
eruð þið stúlkur,
ei get eg haldizt
hérna við leingur;«
af kóngs umboðsmanni
korðanum ryktir,
og faldir hann millum
fóta þinna.

6. Svo meinandi
ef sæir þú lag til,
að forða þér með honum
fljóða nærveru.
En þó fyrst
með amorsvísum
þær að upperta,
það skil eg eigi.

7. Hefirðu kannske
hugsað þér, kallinn
í hettunni seigur,
að hitta þær seinna?
Því leingi er eptir
lagið þeim meður,
góðir sem liðsmenn
gáfust til forna.

---

[1] salve, hdr. Lifið heilir.
[2] Séra Björn er ekki talinn prófastur í Prestatali séra Sveins Níelssonar.
[3] Þorleifur prófastur Skaptason að Múla 1724—48.

8. Náðugi valdsmann
í Norðursýslu
Jón Benediktsson![1]
Jeg vil þig finna;
einginn er bragna
í brúðkaupi þessu,
sem skár hefir geingið
á Skollans vegi.

9. Manstu nú eigi,
mæti herra,
í gærkvöldi, korða
þá gjörðir að rykkja
rétt yfir borðum
reiður og sagðir:
»út býð eg ykkur
í fjandans nafni?«

10. Björn minn, þú sagðir
við brúðgumann sjálfan:
»Leggjum við saman
og lemjum á brúði,
litla morðknífinn
ljá má eg henni,
en brúka þú korðann,
bezt mun það fara.«

11. Hér er ei vottfast
hvað sem við gjörum,
sagðir þú, en fult var
með fólk alt í kríngum;
alla þú meintir þá
ærusljófa,
en fádæmin mestu
nú fylgja á eptir.

12. Í morgun sagðir þú
mitt upp úr svefni:
»Hafið þið stúlkur
hátíðabrigði.
Allar þið naktar
æðið til kirkju,
því einglana sjálfa
það allir meina.«

13. Við brúðgumann sagðir þú:
»Bifsaður ertu,
á þínum augum
það sé eg, kallinn,
í nótt hefir þú
hjá Elinni þinni
kalli og kjólnum
komið vel fyrir.«

14. Brúðguminn sjálfur,
blessi oss drottinn
þótt hann sé vondur,
þori' eg að nefna hann.
Líflegur varstu
á laugardagskvöldið,
hugsandi gott
um hagi þína.

15. Sagðir þú ei? »Elín,
eg þig lögfesti
frá bróður þínum
Benediktssyni;
áfríi' hann seinna
ef hann svo þorir,
eg læt þig eigi
lausa að heldur.«

16. »Nema ef fæ eg
nú upp á tímann
fola brúnskjóttan
frá honum aptur;
Valgarður veit það,
að vil eg þig heldur
hjartað mitt Elín;
hvort tveggja er mikið.«

17. Monsieur Þorsteinn,[2]
má eg þig finna;
fjandans fallega
fórst þér í morgun,

[1] sýslumaður í Þingeyjarsýslu 1734—75. bróðir Jóns sýslumanns f. 1717, † 1805.

[2] Þorsteinn bóndi Benediktsson,

þú sagðir við brúðgumann:
»Séra Björn góður,
dávæna gef þú mér
dóttur þína.

18. Missa ei vil eg
mína systur
fyrir ekkert;
en farðu með hana,
ef að þín dóttir
er aptur í veði,
því einlífi þetta
eg þoli ei leingur.«

19. Þig, Jón Björnsson,
þekki' eg að vestan,
fyrri hefir þú
fallið úr lögum;
manstu ei, kallinn,
af minni og skálum
þegjandi réztu
þamba til grunna?

20. Óðins þá minnið
að þér réð koma,
á alls oddi lékstu,
eins og menn segja,
hrópandi þá
af hjartans fögnuði:
»Þambið þið stúlkur
af þessari skálu.«

21. Þú, sem mátt heita
þénari drottins,
Jón séra Jónsson,[1]
jeg heyrði til þín,
þegar þú sagðir,
það voru ódæmi:
»Hlaupum vér yfir
heilaga minnið.

22. Því eg hefi hér um
annað að ræða,
um Haldóru mína,
heilla barnið,
ónýt hún er mér
til arfa smíðis,
henni eg skila
hér nú með vottum.«

23. Í sveinsstétt varstu
hjá sjálfum brúðguma,
en hvað var það,
sem þig henti' í morgun?
Fötin undir
fórstu hjá brúði
með hendina' og sagðir:
»Hér má sér orna.«

24. Séra Ketill[2] minn,
sé eg þig hérna,
vinur Valföður,
en víst ber þú syndir;
af ölæði sagðir þú
eitt sinn við brúði:
»Púrgátsían
er prýði á snótum.«

25. Þá brúðhjónaskálin
barst þér að höndum,
Fjandafælu
þú fórst að byrja,
og Andrarímur
eptir á síðan,
og sagðir hann væri
sjötti frá brúði.

26. Eiríkur prestur,[3]
ertu nú galinn?
Í dag þegar kendir þú
í drottins húsi,

---

[1] Séra Jón Jónsson á Helgastöðum 1734—1781 † 1784.
[2] Séra Ketill Jónsson að Húsavík 1728—69 † 1778.
[3] Séra Eiríkur Þórðarson að Nesi í Aðalreykjadal 1736—60.

sagðirðu' í stólnum,
satt er það piltar,
að kveisu hafi' eg feingið
af konuleysi.

27. »Og af því hún Guðrún mín
ekki er hér komin,
brúðgumanum
eg býð þessi skipti:
Að hann fái
mér Elíni sína,
en eg gef þá aptur
hann gamla Molda.«

28. Monsieur Sæmundur,
minn vinur gamli,
æ hvaða lýtum
ertu nú hlaðinn?
Í brúðargánginum
brosandi sagðir:
»Farið harðara
í fjandans nafni.

29. Hvar er hún Gróa mín?
Hana mig vantar,
henni þið piltar
hafið burt stolið,
arresti lýsi eg
á ykkar fémuni,
undir kóngs náð
eg kalla ykkur vera«.

30. Monsieur Sigmundur,
— mig furðar á því —
áðan þú sagðir
með aumkunar hljóðum:
»Hjálpið þið stúlkur
hræi mínu,
eg er nú kvillaður
orðinn til skaða.«

31. Æi! Jón góður,
frá Einarsstöðum,
þú munt smiður,
það sé eg á því,
er þú bauzt þig til
við brúði[r] að kveikja,
meydóminn þann,
sem mistan þær höfðu.

32. [Eg] skal fortina
ykkur allar,
útdrífa stimpla
með allskonar myndum.
Á mittisband ykkar
mun eg þá grafa
Buslubæn gömlu
og Brynhildar kviðu.

33. Eiríkur Guðlaugsson,
áðan þú sagðir
við brúðgumann sjálfan:
»Eg býð þér nú, kall minn,
fullan vettlíng
með fúleggjum kría,
láttu mig halda
laxveiði í Ósi«.

34. Þórður Guðlaugsson,
það sér nú á þér,
að þú hefir fyrri
þekt kvenna ylinn,
brúðina þegar þú
beiddir grátandi,
að lofa þér[1] sinna
liggja til fóta.

35. Vigfús á Fjalli,
vel sérðu, kallinn!
Þú sagðir við brúðgumann
svo allir heyrðu:
»Eg sé á henni
Elinni þinni,
að hún vill mig heldur
en hundrað Birni.«

[1] sér, hdr.

36. Frá Haga Þorlákur,
hér ertu kominn,
þú sagðir á dögunum:
»Svi mér inn Elin
svarturinn var inn
sá inn um daginn
fiskurinn, heillin
og fjandinn hann Petinn.«

37. Frá Haldórsstöðum,
hér ertu kominn
Arnþór minn gamli
Illugasonur;
þú sagðir áðan,
seigur í flestu
heila við brúði:
»Heilrifað á eg.

38. Sýlt á eg líka,
og svo er því varið,
en bannaðar heimturnar
bægja mér frá því,
að eg get ekki,
þótt gjarnan vildi,
feingið til kaups
fallega stúlku.

39. Eg ætla samt mér
í Óðins nafni
á ykkur gjöra
allar sýlíngu,
því blóðmarkaðar
bilið þið eigi,
á skarðið skal bíta
í skrattans nafni.

40. Geldmjólkar þó að
gángið að ári
— búsvelta nokkur —
býst eg þó við því,
að til sláturs
heim fái leiða;
til niðurlags ertu
nógu góð Elín.«

41. Þú ert síðastur
í synda registri,
þar fyrir skaltu
— og þar eru lög til —
allra syndir
og þínar líka
í þig svelgja
sem aðra súpu.

42. Ellegar skaltu þær
Óðni færa,
syndanna kvittan
er sú þér bezta,
lítillátan
þar láttu þig finna.
Valete[1] bræður,
og verið í friði.

Hrs. Bmfj. 715, 8. Fyrsta bls. af hdr. er svo máð og óhrein, að hún verður ekki lesin öll.

---

## Brot af vítavísum.

9. . . . . . . . . . .
. . . . . höndina;
sýndist mér það
á sjálfs hans augum.

10. Eina leiddi hann
afvega nokkuð;
eg man nú ei rétt
hvað mærin heitir,

[1] verið þið sælir.

naut hann að annars
náúngasemi,
að ei spilti
embætti sínu.

11. Siðamaðurinn
sjálfur, í hófi,
geingið hefir
á glæpa veginn;
jeg meina til þín
Jón frá Kristnesi;
von er að aðra
vítin hendi.

12. Það var kátleg ósk,
þegar þú mæltir,
að brúðar svunturnar
í bindinu einu
fyrir framan þig
feingir að eiga,
en eigin húsfreyju
efst í rúmi.

13. Það var í annað sinn,
þótti nýmæli,
þá bikar ljósanna
á borðið setti,
tónaði versið,
sem til á að hlýða
nær dauðans skuggi
dregst að mönnum.

14. Nefndarmaðurinn,
nýtur Illugi,
sá er talinn
í syndalogo,[1]
skarkala mikinn
og háreysti hafði,
þá g[uð]s föður minni
gánga átti.

15. Annað var þessu
eingu betra,
við brúðina mælti
bráður í orðum:
»eg kann nokkuð
í Andrarímum,
á við sjálfan
siðamanninn.«

16. Lögréttumanninn
leit eg þar mætan,
Einarsson Jónam
utan frá Hraukbæ.
Undir háborð
sér erindi gjörði,
því á kvennfótum
þreifa vildi.

17. Maðurinn Grímur
frá Möðruvöllum,
díakónus
in definitivo,
frammistandari
fyrir háborði,
sá er siðugur
svo sem Manases.

18. Á kennimanninn
séra Sigfús
höndur lagði
harðúðlega,
eins og soldán
utan landa,
því hann er kunnugur
kyni Dana.

19. Það er skandalum
skelfilegast,
á brúðarsveininn
að bera hendur;
er hann því verður
vítabikar
þennan að drekka
þrisvar sinnum.

[1] af syndalogus, myndað eins og katalogus? Getgáta dr. Finns Jónssonar.

20. Teitur Ásmundsson,
tigugur smiður
og allforsóttur
í snikkara konstum,
smíðatólum
sínum hagræddi,
þegar brúðir
að borði settust.

21. Jón í Gullbrekku,
góður smiður,
þú ert mjög haldinn
þúngum hugsunum,
á h[eilags] anda skál
hélztu leingi,
þar til þig annar
uppvartaði.

22. Enn þá vaknaðir
af þúngum draumi,
vurðu þér þessi
víti að orðum:
»með h[eilagan] anda
hefi' eg ei parið,
en um drifverk mitt
drjúgum hugsa.«

23. Hallgrímur Magnússon,
hann er kvongaður,
ekki þó fjöl við
eina feldur;
inn í brúðar hús
erindi gjörði,
bragð því úr andliti
burt mist hafði.

24. Hallgrímur Skúlason,
hann er glaðlyndur
og undirhugull
í orðgnótt sinni;
brúðinni sjálfri
af berlegri dælsku
folakaup bauð
á föstudags kvöldið.

25. Benedikt Grímsson,
blessi oss drottinn,
nýkvæntur maður
nöðrubáls eyju,
sjálfan brúðguma
bað sárgrætilega,
að selja sér mötu
til suðurferðar.

26. Egill Bjarnason,
artugur maður,
hann ætlar aðra menn
ekki sér líka,
við brúðguma sjálfan
brosandi sagði,
að smíðisgrip
hann selja vildi.

27. Líka eru gestir
við lægri borðin
sakaðir nokkuð,
svo sem hinir.
Víta bikar
velforþéntan
skulu því drekka
skylduglega.

28. En sem útdrekka
þennan í einu
er sjálfgefin
aflausn synda.
Það er glögglega
grafið á botninn:
Nú ertu kvittur,
nóg er til unnið.

29. En vilji nokkur
vítin reingja,
gildi þessi
fyrir þúsund vitni;
hans eru skilríki
í Heklu fólgin;
sæki [þau] þángað
þeir sem vilja.

30. Göfugum fljóðum
gjörum vér þakkir
fyrir heiðarlegt ávarp
og hóflega[1] blíðu,
enn þótt nokkrar
afvega gángi,
heldur kærleikinn
hrundum til góða.

31. Þulið hefi' eg nú
þetta kvæði,
og borðsitjendum
til blíðu samið;
línspángir bæði
og laufa njótar
lifið í guðs friði.
Laungum valete.

Hrs. Sv. Grv. 66, á blaði í 4to, sem er mjög illa út leikið og auðsýnilega rifið upp úr bók. Ekki er alveg víst, að sé að marka erindatöluna hér.

Enn hefi eg heyrt getið um tvo aðra vítavísnaflokka, og er annar í safni Finns Magnússonar í British Museum 180, og segir hann í skrá þeirri, sem hann hefir samið yfir safnið, að vítavísnaflokkur þessi hafi verið kveðinn í einhverju frægu brúðkaupi á 17. öld, og er hann því, ef til vill, eldri en allar aðrar vítavísur, sem nú eru til, en eg hefi, því miður, ekki átt kost á að nota hann.

Hinn flokkurinn kvað vera eptir séra Jón Þórðarson, sem var á Hvammi í Laxárdal (1652—1689). Eg hefi hvergi rekið mig á vísur þessar og eru þær, ef til vill, týndar nú; þekki eg þær aðeins eptir frásögn Jóns Ólafssonar frá Grunnavík í Additamentum Á. Magn. nr. 3, fol., bls. 134, og kallar hann þær Hróksvísur (Vítabikarsvísur).

Þess má geta, að Torfhildur Þorsteinsdóttir Holm minnist á vítabolla í sögunni af Jóni biskupi Vídalín (Draupnir II, bls. 154), en hún virðist hafa misskilið siðinn, og hin alkunna vísa eptir Leirulækjar-Fúsa »Brúðhjónabolli berst að höndum mér« o. s. frv., sem Torfhildur færir þar til og virðist telja vítavísu, er ólík öllum vítavísum, en aptur keskivísa fyrir brúðhjónaskál, því svo var Fúsa tamast að kveða.

Vítabikarssiðurinn var numinn af með lögum Kristjáns konúngs VI. »Anordning om et og andet i Ægteskabssager og mod Løsagtighed m. v. 3. Juni 1746«. Lovsamling for Island II, bls 600—605. Í 6. § (bls. 602) er þverlega bannað að hafa um hönd ofmikið af brennivíni eða öðrum áfeingum drykkjum við trúlofanir, brúðkaupsveizlur, skírnarveizlur, erfisdrykkjur og slíkar samkomur. Líka er boðið, að eptir þetta leggist siður sá niður, sem nú tíðkist, að þegar menn drekki yfir borðum sýngi hver maður sálmvers, því guðrækni þeirri, sem á að eiga sér stað, sé misboðið með því, en í staðinn fyrir þetta megi sýngja sálm bæði fyrir og eptir máltíð, því það sé samboðnara góðum siðum. Allir aðrir siðir og venjur t. d. vítabikar (Viita-Bæger) og annað slíkt, sem tíðkist sumstaðar, er bannað og á alveg að leggjast niður. Líklega hafa menn kunnað illa við að hætta vítabikarssiðnum svona alt í einu og haldið honum áfram í laumi í nokkur ár, en úr

[1] *höyfliga, hdr.*

þessu hefir honum þó eflaust farið að hnigna, og mun hann hafa verið lagður alveg niður fyrir aldamót.

Enn er til bikar á Forngripasafninu í Reykjavík, sem kallaður er vítabikar, og er hann kominn þángað frá séra Guðmundi Sigurðssyni á Stað á Reykjanesi, sbr. skýrslu um Forngripasafn Íslands I. 1868, bls. 119 (nr. 263). Bikar þessi er blárósuð leirkanna. Hún er með hnöttóttri bumbu að neðan, en bein að ofan, með handarhaldi og pípu eða stút fram úr barminum í staðinn fyrir nef eða vör (túðu). Á efra hlutanum eru 32 stór göt, svo að eigi verður drukkið úr henni nema menn þekki á henni lagið, því að ef henni er hallað, streymir alt út um götin. Hún hefir verið kölluð vítabikar. Könnu þessa er mælt að hafi átt séra Haldór Einarsson faðir Björns prófasts Haldórssonar í Sauðlauksdal.

Það er ef til vill rétt, að kanna þessi hafi einhvern tímann verið höfð fyrir vítabikar, en varla munu þó allir vítabikarar hafa verið eins lagaðir, því hætt er við að sumir mundu hafa séð eptir víni því eða öli, sem hefir hlotið að renna út um götin hjá þeim, sem óvanir voru að drekka úr könnunni. Auk þess er líklegt, að menn hafi venjulega valið einhvern sterkara bikar en leirkönnu til að bera gestunum, því í gamla daga var miklu meira slark og drykkjuskapur í veizlum en nú gjörist, og þykir þó sumum að ekki megi ábæta.

Til er annar vikivakabikar á Forngripasafninu, sem séra Eiríkur Kúld í Stykkishólmi hefir gefið því (sk. um Fgrs. Ísl. I, bls. 60). Það er tvímenníngsbikar rendur úr tré, níu þumlunga hár, fimm þumlúngar og þrjár línur þvert yfir opið, og tekur nær því hálfan þriðja pott. Hann er líklega ætlaður til að drekka úr öl, og væri fult svo sennilegt, að bikar þessi hefði einhvern tímann verið vítabikar og leirkannan.

Jón Espólín minnist á vítabikarssiðinn í Árb. VII, bls. 73 og VIII, bls. 89.

Loksins er vert að geta þess, að það kemur þegar fyrir í fornum sögum, að menn voru víttir fyrir ýmsar smáyfirsjónir, svo sem ýms brot á hirðsiðum, og skyldu menn drekka vítin. Sjá t. d. Fms. VI, bls. 240—43, Flateyjarbók I, bls. 507—8.

---

Eins og áður er getið um, er eingin lýsíng til á dansi þeim, sem tíðkaðist á Íslandi í fornöld, en af því sem ráða má af Sturlúngu, þar sem segir, að Þórður Andrésson hrökti hestinn undir sér, og kvað við raust: »Mínar eru sorgirnar þúngar sem blý,« má ráða, að þá hafi verið dansað eptir kvæðum, því vísuorð það, sem haft er eptir Þórði, er eflaust brot, ef til vill viðlag úr einhverju gömlu kvæði, sem nú er týnt, og þar sem sagt er að Þórður hafi kveðið dans, má ráða af því, að um það leyti sem Sturlúnga fór fram og var samin, hafi kvæðin, sem dansað var eptir, verið kölluð dansar. En þegar tímar liðu fram, fóru menn að kveða

rímur við dansinn eða vikivakana, hvernig sem á breytíngu þessari hefir staðið, og á 15. og 16. öld höfðu rímurnar alveg rutt úr sæti hinum gömlu danskvæðum og voru sjálfar seztar þar í staðinn; gleymdust nú gömlu danskvæðin smámsaman, svo nú eru ekki til af þeim nema svolítil brot í viðlögum við ýms ýngri kvæði,[1] og mun það vera keiprétt, sem Guðbrandur Vigfússon segir í orðabók sinni, dans, að viðlögin við mörg fornkvæði, og eflaust ýms önnur kvæði, séu mörgum öldum eldri en kvæðin sjálf, sbr. Corpus poeticum boreale II, bls. 385, því það má telja fullvíst, að ekkert af kvæðum þeim, sem venjulega eru kölluð íslenzk fornkvæði, séu eldri en frá 17. öld, þótt Jón Sigurðsson og Svend Grundtvig væru á öðru máli, og er það því ekki rétt, sem Sæmundur Eyjólfsson segir í Þjóðólfi 1887 nr. 9, að enn sé til allmikið af danskvæðum frá 14. og 15. öld, því hann getur ekki átt við annað en fornkvæðin.

Eptir að farið var að dansa eptir rímum, tóku menn að kalla þær dansa, og skal nú færa til þess nokkur dæmi úr rímum frá 15. og 16. öld, að rímur hafi verið kveðnar við dansa og kallaðar dansar, og mætti þó eflaust tína til mörg fleiri dæmi, ef farið væri vandlega yfir allar gamlar rímur, en það væri handarvik.

Það kemur einna berlegast fram í Sörlarímum, að rímur hafi verið kveðnar við dans og sést það ljóslega á vísum þessum:

4. Dikta eg ekki mansaungs mál,
man eg þó kæru blíða,
því það kann að svíkja sál,
sé eg afla kvíða.

5. Skötnum verðr að skemtan mart,
ef skortir ekki fræði:
sögur og tafl og sund með skart,
skagir með dans og kvæði.

6. Alt er það svo listiligt,
að leikið er með prýði,
sögur og tafl með saungva dikt,
svæfa streingir lýði.

7. Því má eg varla vísu slá,
veit eg það til sanns,
þegar að rekkar rímu fá
reyst er upp við dans.

8. Gapa þeir upp og gumsa hart
og geyma varla sín;
höldar dansa hralla snart,
ef heyrist vísan mín.

[1] Jón Þorkelsson. Om Digtningen på Island 1888, bls. 188.

9. Seggir kunna á slíku skil,
sönn er beizlan mín.
Þegar eg rausa rímu spil,
þá reytir hver til sín.

Sörla rímur I, 4—9 ÁM. 604 g. 4, bls. 18—26.

Nú skal færa þrjú dæmi til þess að rímur hafi verið kallaðar dans:

Fyrri höfðu seggir sent[1]
sögur og dansa fríða,
nú er það alt með illsku ent,[2]
svo einginn vill því hlýða.

Hemíngs rímur V, frá 16. öld. ÁM. 604 a, 4, bls. 39—54. ÁM. 605, 4, bls. 55—86. Ny kgl. Saml. 1696, 4.

. . . . . . . . .

Eitt vil eg inna æfintýr,
er utar var sagt úr löndum.
Koma verðr í klókan dans,
kappasveitin hlýði.

. . . . . . . . . . . . . . . . .

Klerkarímur I, 1—2.

Versa eg aldrei vífum krans
af Veneris látum neinum,
færum heldur fyrðum dans
af fróðum sagna greinum.

Þegninn fær, ef þeim er kær
þakkarorð hið blíða;
hinn er ær, sem ekki slær
allskyns dansa fríða.

Ur Hrómundarrímum eða Griplum eptir Sigurð blinda I, 8 og VI, 2.

Af þessum dæmum sést berlega, að dans hefir verið hafður við rímur á Íslandi á 15. og 16. öld, og liggur því í augum uppi, að það er rángt, sem P. E. Müller segir með skýrum orðum, í inngánginum til Lyngbye, Færöiske Quæder 1822, bls. 37, að eingin merki séu til þess, að rímur hafi verið kveðnar við vikivaka á Íslandi. Eins mun vera mjög vafasamt, hvort það er rétt, sem Kölbing segir í Beiträge bls. 137—8, að sá sem kvað rímurnar við dansinn hafi, að öllum líkindum, leikið undir á hljóðfæri. Þess er hvergi getið, og eingin hljóðfæri hafa Færeyíngar við dansa sína. Yfir höfuð að tala held eg að Íslendíngar hafi annaðhvort alls ekki haft hljóðfæri við dansa sína, eða þá af mjög skornum skamti, fram undir miðja

[1] sett. [2] eytt.

18. öld, þótt Sigurður Guðmundsson málari og ýmsir aðrir hafi verið á þeirri skoðan. Aptur má vera, að menn hafi stundum leikið á hljóðfæri á vikivökum, gleðimönnunum til skemtanar, þegar hljóðfæri var fyrir hendi og einhver af þeim, sem við voru staddir, kunni að leika á það, en það þarf ekki að hafa staðið í neinu sambandi við dansinn.

Ferskeyttur bragarháttur einn, stefjahrun, er kallaður vikivakabragur öðru nafni, eptir því sem séra Helgi Sigurðsson segir í Safni til bragfræði íslenzkra rímna 1891, bls. 36, 207, og fylgir sögunni, að nafnið sé gamalt. Vera má, að nafn þetta sé eptirstöðvar af því er vikivakar voru dansaðir eptir rímum, og hefir þó eflaust verið dansað eptir fleiri bragarháttum en stefjahruni. Séra Helgi tekur vísuna »Biskups hefi eg beðið með raun« o. s. frv. til dæmis uppá vikivakabrag. Vísa þessi er prentuð í Þjóðsögum Jóns Árnasonar II, bls. 252 og hjá Konrad Maurer í Isländische Volkssagen 1850, bls. 215, en á hvorugum staðnum er hún bendluð við vikivaka. Í hrs. Bmfj. 179, 8 er sagt, að »Píkuraunardans« séra Þorsteins Jónssonar sé með vikivakabrag, og er hann þó með alt öðrum bragarhætti en rímnaerindi, en þetta er eflaust aðeins hendíng, því vikivakakvæðin eru með svo margvíslegum bragarháttum, að ekki er hægt að tala um neitt sérstakt vikivakalag.

Þegar komið er fram á 17. öld, lítur svo út sem hætt hafi verið að hafa við rímur í vikivökunum, því þá fara menn að yrkja vikivakakvæði þau, sem enn eru til, og má jafnvel telja áreiðanlegt, að fáein þeirra séu frá seinna hluta 16. aldar,[1] þótt menn viti reyndar um fæst þeirra með vissu, hvenær þau eru ort eða hver hefir ort þau.

Það er allmerkilegt, að dæmi eru til þess frá miðri þessari öld, að fornkvæði og önnur kvæði eru kölluð dansar. Séra Einar Sæmundsen segir þannig í lýsíngu Setbergssóknar (hrs. Bmfj. 20, fol.): »Fornkvæða get eg nefnt algeing kennsl á ýmsum dönsum aðeins t. a. m.

Ása gekk um stræti,
far vel fley.[2]

Ólafur reið með björgum fram.
Sumarið mun líða.[3]

Ása gekk um stræti.
Kurt og bí.

Kellíngin hún Ampa grá.
Um sumarið.[4]

---

[1] Sbr. Jón Þork. Om Digtningen o. s. frv. bls. 119—20. [2] Alkunnugt fornkvæði, sem til eru við ýms skríngileg viðlög, eins og á seinna staðnum. [3] Algeingt fornkvæði, en eg hefi aldrei heyrt þetta viðlag við kvæðið. Aptur er það til við önnur fornkvæði. [4] Jón Sigurðsson segir í hrs. sinu 398. 4, að Kristján Müller amtmaður hafi verið kallaður Ampi, afbakað úr amtmaður,

Gunnarsslagur eða:

Gunnar átti sér dætur tvær.
Sumarið mun líða.«[1]

Jón Ólafsson í Grunnavík segir í ÁM. 975, 4, bls. 129, að:

Ása gekk um stræti.
Far vel fley o. s. frv.

sé alþekt vikivakakvæði, en eins og kunnugt er, er kvæði þetta sannarlegt fornkvæði og er prentað í Íslenzkum fornkvæðum, en vikivakakvæðum og fornkvæðum hefir verið ruglað saman enn þá leingra fram eptir, því í hrs. Sv. Grv. 67, Arch. K, kallar Guðmundur Sigurðsson í Gaulverjabæ (á Loptsstöðum, hér um bil 1850) sama kvæðið og annað fornkvæði: »Stjúpmóðir ráddu draum minn« vikivakakvæði.

Ýms kvæðanöfn eru auk þess kend við dans, og skal eg geta þeirra, sem eg þekki. Tvö fornkvæði eru kend við dans, Magnadans og Ásudans (Íslenzk fornkvæði I, bls. 323—31. II, bls. 234—81). Nokkrar vísur eru líka kendar við dans, af því bragarháttur þeirra fellur saman við danslög, og eru allar slíkar vísur, sem eg þekki, dýrkveðnar mjög og 28 línur. Tvær af vísum þessum eru prentaðar í safni þessu, Meyjardans eptir Eggert Ólafsson og Drósardans; sú þriðja verður prentuð í lánglokunum í þulunum, Drösuldans eptir Svein lögmann Sölfason. Hinar vísurnar eru Öldudans, Skeiðardans og Flöskudans, og eru þær í hrs. Bmfj. 68, 8, og Stokkahlaðabók (hrs. Bmfj. 734, 8). Fjörgynardans í hrs. Rasks 87 er með sama bragarhætti. Danslilja eða Danskylja eptir séra Þorlák Þórarinsson er líka ort undir danslagi. Hún er prentuð í Ljóðmælum séra Þorláks Rkv. 1858, bls. 170—71 og Ísafold VI. 1879, nr. 1, og finnst auk þess í fjölda mörgum handritum t. d. hrs. Bmfj. 327, 8. Dansvísur, »Íslands meyjar, Íslands meyjar«, eru í hrs. Bmfj. 316, 8, og eru þær nýlegt kvæði og virðast standa í sambandi við útlendan dans. Kvæðið Píkuraun eða Píkuraunardans er prentað meðal vikivakakvæðanna.

Flest kvæðin, sem kend eru við dans, standa þó ekki í neinu sambandi við dans eða vikivaka, og eru jafnvel sum guðrækilegs efnis. Kistudans, »Herra einn hélt heiður og makt«, er í hrs. Finns Magnússonar í Brit. Mus. 174, 4. Kvennadans er lángt kvæði (192 er.) eptir séra Magnús Ólafsson í Laufási († 1636). Kvæðið er ort 1619 og finnst í hrs.

---

en kona hans Ampa; er því líklegt, að kvæði þetta sé frá þeim tímum, háðkvæði um amtmannsfrúna og ekki eldra. Í hrs. Rasks 81, bls. 36, eru tvær vísur um Müller amtmann (Ampa) og konu hans (Ömpu), sem haldið var að Heidemann fiplaði. Önnur. »Ampa er komin undir burð«, er eptir Pál Vídalín, en hin, »Varla' er mannvant við hann Ampa«, er eptir Jón biskup Vídalín, Stein biskup Jónsson og Pál Vídalín.

[1] Hér er blandað saman Gunnarsslag um Gunnar Gjúkason eptir séra Gunnar Pálson og Gunnarskvæði eða Ásudansi, sem er alkunnugt fornkvæði.

Bmfj. 105, 4 (Vatnshyrnu) og Einarsbók í safni lærða skólans í Reykjavík. 1. og seinasta erindi er prentað hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island 1888, bls. 469. Þegjandi dans er lángt kvæði eptir Jón varalögmann Eyjólfsson móti Skinnamakaravísum Jóns Eggertssonar, en sumir segja að kvæðið sé ort fyrir hann. Það finnst í hrs. Bmfj. 105, 4. hrs. Bmfj. 13, 8, hrs. Bmfj. í Rkv. 135, Einarsbók í safni lærða skólans og safni Finns Magnússonar í Brit. Mus. 183. Lukkudans heitir kvæði eptir Eggert Ólafsson. Hrs. Bmfj. 439, 8. Kvæði 1832, bls. 64—66. Maríudans heitir kvæði um Maríu mey eptir séra Daða Haldórsson († hér um bil 1724). Dauðadans[1] er kvæði eptir danskan mann, Thomas Lauritzsen Borup, en þýtt úr dönsku af séra G[unnlaugi] S[norra] s[yni]. Kvæðið finnst í safni Finns Magnússonar í Advocates Library 76, 4. Sorgardans og Þjófadans heita tvö kvæði í hrs. Bmfj. 631, 8. Kálfadans heitir kvæði, og er talið að það sé ort 1763. Það er í excerptis séra Stefáns Þorsteinssonar á Völlum (hrs. Bmfj. 340, 8) og í kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum I, nr. 17 (Sbr. hrs. Bmfj. 614, 8). Krummadans heitir vísa eptir séra Snorra Jónsson á Húsafelli í hrs. Bmfj. 125 og 158, 8. Drafnardans er kvæði í kvæðabók Jóns Þorkelssonar, ritaðri í Haukadal vestur 1748, 9 er. Byrjun: Úlfhamur skal með orðaval. Enn nefnir Jón Ólafsson frá Grunnavík Álfadans í orðabók sinni, álfar, og segir hann að það sé lángur bragarháttur, svipaður lánglokum; segir hann að sýnishorn af álfadansi sé í háttalykli þeim, sem hann hafi safnað. Svæfidans nefnir Jón líka í orðabók sinni, dans, og segir að það sé kvæði eða lag til að svæfa með börn. Hann minnist á svæfidans víðar í orðabókinni, dilla, fiðra, hamar, hellir, og segir hann ýmist, að þulan: Heyrði eg í hamrinum eða Ljúflíngsljóð séu kölluð Svæfidans.

Úr því verið er að tala hér um dans, vil eg nota tækifærið til að færa hér til málshætti þá, sem eg þekki í þessa átt.

Dans er gárúnga glys (G. J.)
Dunar lítið þótt ein dúfa dansi (Schev. II)
Ein griðka gjörir eingan dans (G. J.)
Eins og (Eptir því sem) ábótinn kveður, dansa múnkarnir (J. Árn.)
Ekki fagna djöflar dansi, nema darki með (Schev. II.)
Ekki geðjast djöflum dans, nema dýrkist í orðum (drukkið sé með) G. J.
Eptir höfðinu dansa limirnir (G. J.)
Eptir því dansa múnkar, sem ábóti kveður (G. J.)
Far þú í dans, en gættu hvar (við hvern) þú stígur (G. J.)
Fleira þarf í dansinn en fagra skóna[2] (G. J.)

[1] Sbr. »í dauðans dans má þreyja« úr greptrunarsálmi, J. Ól. frá Grv. orðabók, dans. [2] skó, rjettara J. Ól. Grv. orðabók, dans.

Gaktu í dans, en gáðu hvar þú stígur (J. Arn.)
Hann komst í krappan dans[1] (G. J.)
Hygg að með hverjum þú vilt dansa, svo þú hopir ei þér til vansa (G. J.)
Leikarinn dansar fyrir vinníngnum (Schev. II), fyrir varníngiun (G. J.)
Leingi má stíga þar sem laglega er kveðið (J. Árn., Þjóðólfur 1887, nr. 9)
Lítið er þar dun, sem ein dúfa dansar (G. J.)
Lostugum dansi er létt að pípa (G. J.)
Margur dansar meir eptir annara pípu en sjálfs sín (G. J.)
Margur er dapur eptir dansleik (G. J.)
Nú er nokkuð um, nautið dansar (G. J.)
Opt kemst sá í krappan dans, sem ekki leitar fyrir sér (Schev. II)
Svo dansa múnkarnir sem ábótinn kveður. J. Ól. Grv. Orðab. dansa.

Enn er stundum sagt: það datt úr honum dansinu, þegar einhverjum bregður mjög við.

G. J. = Guðmundur Jónsson: Safn af íslenzkum orðskviðum. Kmh. 1830.
Schev. II = Íslenzkir málshættir eptir Hallgrím Scheving 1843.

---

Í Sturlúngu og fáeinum öðrum fornritum kemur fyrir að slá dans í merkíngunni að dansa, og virðist það í fljótu bragði benda til þess, að leikið hafi verið undir á hljóðfæri þegar dansað var, því að slá er að leika á hljóðfæri, og er þá ávalt bætt aptan við sögnina hljóðfæri því, sem leikið var á, optast hörpu (sbr. hörpusláttur, bumbusláttur). Í Biskupasögunum er þannig getið um hörpuslátt í sögu Jóns biskups helga Ögmundssonar 4. kap. og í 8. kap. í sögu hans eptir Gunnlaug múnk Leifsson. Þar er nefnt að slá hörpu, að slá fagurleg hljóð, að stilla [hörpu]streingi til slagar og hörpuslag (Biskupasögur I, bls. 155, 220—21), og miklu víðar er nefnt að slá hljóðfæri, en viss lög, sem leikin voru, voru nefnd vissum slagaheitum, eins og bráðum mun verða sýnt fram á. Aptur mun það ekki vera rétt, sem Sæmundur Eyjólfsson segir í vikivakaritgjörð sinni í Þjóðólfi 1887, að saunglög þau, sem dansar voru stignir eptir í fornöld, hafi verið nefnd slagir, eða að minnsta kosti þekki eg ekkert dæmi til þess, að lag sé eða hafi verið kallað slagur, nema það væri leikið á hljóðfæri. Hinir fornu slagir eru nú annars týndir, og nú veit eg ekki til að menn þekki nokkurn slag nema Tröllaslag frá 17. öld, en bragarhátturinn sýnir berlega, að ekki hefir verið ætlazt til að hann væri súnginn.

En þótt orðtækið að slá dans hafi tíðkazt í fornöld, er mjög hæpið að dans hafi verið stiginn eptir hljóðfæraslætti á Íslandi fyrst framan af, eins og áður er drepið á. Aptur lítur svo út sem annarskonar dans eptir hljóðfæraslætti, sem kipti meira í kynið til hinna nýrri dansa, hafi tíðkazt á Íslandi á 14. öld og ef til vill nokkru fyr, og hefir hann eflaust verið eptirstælíng eptir útlendum siðum. Um dans þennan er getið í sögunni af

---

[1] Sbr. Þjóðs. J. Árn. I, bls. 542.

Herrauði og Bósa, og skal eg nú færa það til, sem stendur þar um hann, en fyrst verður að skýra frá því, með fáum orðum, hver tildrög voru til dans þessa og slaga þeirra, sem nefndir eru í sögunni.

Svo stóð á að halda átti brúðkaup mikið hjá Goðmundi kóngi á Glæsisvöllum. Brúðurin hét Heiður og var systir Goðmundar konúngs; höfðu þeir Herrauður og Bósi, fóstbróðir hans, bjargað henni úr tröllahöndum og færðu hana bróður hennar. Herrauður og Heiður unnust, en Goðmundur konúngur vildi ekki gipta honum hana, heldur einum manna sinna, er Siggeir hét; varð konúngur að ráða og var efnt til brúðkaups þeirra. En þeir fóstbræður Herrauður og Bósi leyndust til brúðkaupsins; drap Bósi Sigurð ráðgjafa konúngs, sem var »svo mikill meistari til hljóðfæra, að hans líki er einginn og mest á hörpuslátt«, tók hörpu hans og lék á hana í brúðkaupinu með þeim undrum, sem nú skal segja frá.

»Sigurður (þ. e. Bósi í nágrímu Sigurðar) sló hörpu fyrir brúðunum og þá að full voru inn borin, töluðu menn að hans líki mundi einginn vera, en hann kvað þar lítið mark að fyrst, en konúngur bað hann eigi af spara, en þá inn kom það minni, er signað var Þór, þá skipti Sigurður um slagina; tók þá að ókyrrast alt það, sem laust var, bæði knífar og borðdiskar og alt það, sem laust var og einginn hélt á, og fjöldi manna stukku upp úr sætum sínum og léku á gólfinu og gekk þetta lánga stund. Því næst kom inn það minni, sem helgað var öllum Ásum; skipti Sigurður þá enn um slagina, og stilti þá svo hátt, að dvergmáli kvað á öllu; stóðu þá upp allir þeir, sem í höllinni voru, nema brúðurin og brúðguminn og konúngur, og var nú alt á ferð og flaug í höllinni, og gekk því lánga stund. Konúngur spurði hvort hann kynni eigi fleiri slagi, en hann segir að eptir væri enn nokkrir slagir, og bað fólkið hvílast fyrst; settust menn þá niður fyrst og tóku til drykkju; sló hann þá Gýgjarslag og Draumbút[1] (Drambuslag) og Hjarrandahljóð, og því næst kom inn minni; það var signað Óðni og lauk Sigurður þá upp hörpunni. Hún var svo mikil, að maður mátti standa réttur í henni; hún var öll sem á rauðagull sæi. Þar tók hann upp hvíta glófa gullsaumaða, og sló þá þann slag, að Faldafeykir heitir; stukku þá faldarnir af konunum og léku þeir fyrir ofan þvertrén; stukku konurnar og allir mennirnir og einginn hlutur var sá að kyr þyldi, en þá þetta minni var afgeingið, þá kom inn það minni, er helgað var Freyju, og átti það síðast að drekka; tók Sigurður þann streing, er lá um alla þvera streingina; hann hafði hann ekki fyr slegið, og bað konúnginn búast við rammaslag, en konúngi brá svo við, að hann stökk upp og svo brúðurin og brúðguminn og léku nú eingir vakrari, og gekk þessu um lánga stund; tók Sigurður nú sjálfur hörpuna, en Smiður (félagi Bósa) tók í hönd brúðinni og lék nú

[1] Af Draumbútur eða, ef til vill, sama sem Draumbót, eins og sumir hafa haldið. Önnur hdr. hafa draumbud (þ. e. drömbuð, af drömbuðr).

allra vakrast.« Harpa Sigurðar var svo stór, að kona komst fyrir innan í henni (»innan í maga hörpunnar«), því Bósi og félagar hans námu að lokum brúðina burt í hörpunni. (Saga Herrauðs og Bósa. Fornaldarsögur Norðurlanda III, bls. 213—23. Kaupmannahafnarútgáfan).

Sagan af Herrauði og Bósa er skáldsaga, eins og kunnugt er, en kafli sá, sem tekinn hefir verið hér upp, er þó allmerkilegur, því bæði sýnir hann, að hljóðfærasláttur og dans hefir tíðkazt á Íslandi þegar sagan var samin eða á 14. öld, og á hinn bóginn að Norðurlandabúar hafa snemma farið að trúa á »saungsins undramátt«, en í Suðurlöndum er trúin eldgömul, eins og sést á sögunni um Orfeifs.

Sænskur háskólakennari Sjöborg hefir gjört tilraun til að skýra slagi þá, sem Bósi sló, en eg hefi ekki séð skýríngar hans á frummálinu. Aptur eru þær teknar upp í ritgjörð eptir Gräter: »Ueber die musikalischen Instrumente der nordischen Vorzeit« og er hún í Idunna und Hermode 1814, nr. 37—39, einkum bls. 148, 151—53. Þeir Sjöborg vilja láta Gýgjarslag vera Adagio, Andante, Grazioso, Amoroso, Dolce, Sotto-voce, Piano, Smorzando. Drambuslag segja þeir að sé sama sem Grave og samsvari líklega jafnvel Allegro moderato, Sforzando, Crescendo, Forte, Fortissimo. »Hérandahljóð« segja þeir að sé, að öllum líkindum, sama sem Vivace, Allegro assai, Allegro con Spirito eða eitthvað slíkt. Faldafeyki vilja þeir láta vera Allegretto, Presto, Prestissimo og auk þess Scherzando, en rammaslag sama sem Fuge þ. e. stökkdans eða hoppdans hinn mikla (der grozze springtanz). Allar heimfæríngarnar eru á mjög veikum rökum bygðar og liggur nærri, að þær séu tómar getgátur, sem aðeins eru bygðar á afleiðíngum þeim, sem sagan segir að hver slagur fyrir sig hafi haft á veizlufólkið.

Getið er um afbragðs hörpuslátt og slagi á öðrum stað í Fornaldarsögunum, en það er í þætti Nornagests: »Tekur Gestur þá hörpu sína og slær vel og leingi um kvöldið, svo að öllum þykir unað í á að heyra, og þó Gunnarsslag bezt, og að lyktum slær hann Guðrúnarbrögð hin fornu; þau höfðu menn eigi fyr heyrt« (Fornaldarsögur I; bls. 318. Flateyjarbók I. bls. 348.), en hér er ekki að ræða um neinn dans.

Minzt er á dans í annari sögu frá sama tíma, eða að minnsta kosti ekki miklu ýngri, sögu Hermanns og Jarlmanns, og skal eg færa það hér til, sem stendur þar um þetta mál:

Þorbjörg, móðursystir Ródents konúngs í Serklandi hinu mikla, var hið mesta tröll. »Þorbjörg sezt nú niður á einn stól og biður fólk, að það skuli hafa nokkuð til gamans; standa þá upp allir álfar og margt fólk annað og skeldi á dansleika, hvert eptir sinni vísu, og þótti það mikil skemtan.« Þá var glímt. »En er lokið var mesta glaumnum, kallar frúin Þorbjörg og bað þá menn uppstanda, sem áður höfðu setið, og dansa líka einninn, til að launa öðrum góða skemtan; var nú aptur upp tekinn dansinn af risum, tröll[um og] flögðum«. Ródent konúngur og Jarlmann, sem þá kallaði sig

Austvestan, horfðu á þetta; vildi konúngur fara heim, en Austvestan segir: Ekki hafa enn kveðið beztu dansmenn; ráku konurnar þá upp mikla hláturskelli og sögðu að ætti að koma til þeirra kasta fyrir alvöru; vill þá konúngur enn heim fara, en Austvestan vill bíða og taka tröllkonur þá til sinna dansláta. Þá þótti þó Austvestan versna fyrir alvöru, en beið samt þess að lokið var. Þær og allir þeir, sem að gleðinni voru, beiddu nú Þorbjörgu sjálfa um að bæta með einhverju móti, ef hún gæti. Hún kvazt svo leingi hafa aflagt að dansa, en sagðist þó ei nenna að synja þeim þess, og var þá hljóð gefið, en hún kvað bæði hátt og snjalt, líka nokkuð digurt við, svo dvergmálaði í hverjum hamri:

Brúsi átti bygð í helli,
opt var hann þó seint á ferli.

Hún teygði á sér augabrýrnar, gapti út að eyrum og sneri um í sér augunum, en skeldi stundum heldur hart á ber lærin, um leið og hún glenti sig; sagði að sér væri óhægt af kvefi, og til að rýma því, leitaði hún sér hægðar með sögðum hætti. Kóngur bað þá heim fara, en Austvestan sagðist vilja bíða svo yndislegra leiksloka; gaf Þorbjörg þá upp að kveða, og lutu henni allir nær staddir um leið og hún hætti.« Hér er farið eptir hrs. Rasks 95, bls. 29—30, og hefir séra Jón Jónsson að Kálfafelli skrifað handrit þetta, en sagan er annars til á skinni frá 15. öld. í safni Árna Magnússonar 529, 4. Ágrip af kafla þessum úr sögu Hermanns og Jarlmanns er í Grönlands historiske Mindesmærker I, bls. 327.

Þegar fram liðu stundir hafa menn ef til vill, leikið undir kveðskapinn á vikivökunum á eitthvert hljóðfæri. Þess er þó ekki getið með berum orðum í neinni vikivakalýsíngu eða nokkrum skeytum um vikivaka, sem eg hefi komizt yfir, að leikið hafi verið á hljóðfæri, nema í Íslandslýsíngu J. Anderson's 1747 og riti Þorsteins prófasts Péturssonar um vikivakana á Þíngeyrum 1757. Þar er nefnd pípa Péturs, bónda frá Jótlandi, sem allir léku eptir. Það er því nokkuð hæpið, sem Sæmundur Eyjólfsson segir í Þjóðólfi, að telja megi víst, að hljóðfæri hafi opt verið notuð við dansa. Á hinn bóginn var ekkert því til fyrirstöðu, að Íslendíngar skemtu sér líka við hljóðfæraslátt á vikivökunum, því þeir áttu að velja um ýms hljóðfæri, eins og sést í Íslenzkum skemtunum, bls. 265—73, og þótt þau hafi, að öllum líkindum, verið fremur vesöl og menn hafi auk þess sjaldan verið leiknir að leika á þau, þá hafa þau eflaust getað skemt Íslendíngum, sem hafa borið mjög lítið skynbragð á saung og hljóðfæraslátt um það leyti, sem vikivakarnir voru í blóma sínum.

Eg læt mér nægja að vísa til kaflans um saung og hljóðfæraslátt í Íslenzkum skemtunum (bls. 265—73), að því er snertir saunglist á vikivökunum og hljóðfæraslátt, sem kann að hafa átt sér þar stað, en leyfi mér að bæta hér við ýmsu þess háttar, sem mér hafði sézt yfir, þegar eg var að *semja Íslenzkar skemtanir.*

Þar sem getið er um hörpu (bls. 270), má bæta því við, að sagan segir, að þegar Jón biskup Ögmundsson var í Danmörku hjá Sveini konúngi, úngur að aldri, hafi hann dreymt, að hann væri í kirkju og sæi Krist sitja í biskupshásæti, en Davíð konúng til fóta honum, leikandi á hörpu. Síðan varð Jón biskup afbragðs hörpuleikari, en kunni ekki áður að leika á hörpu. Biskupas. I, bls. 155. Suhm, Historie af Danmark. IV. Kmh. 1790, bls. 475.

Þar sem talað er um organ (bls. 266), þarf að bæta því við, að séra Arngrímur Brandsson, sendisveinn Jóns biskups Haldórssonar í Skálholti á fund Eilífs erkibiskups 1327—28, »gekk daglega til eins organsmeistara, er var í Þrándheimi, og lét hann kenna sér að gjöra organum«; segir Jón Espólín, að hann hafi komið út með organið. Biskupas. I, bls. 866, 908. Árb. Esp. I, bls. 63.

Þar sem minzt er á saungmenn eða menn sem kendir hafa verið við saung (bls. 261 o. s. frv.), hefir mér skotizt að geta um Bjarna Jónsson, sem kallaður var Saung-Bjarni. Hann var meðal annara manna í fylgd með Guðmundi presti (biskupi) Arasyni, þegar hann fór yfir Heljardalsheiði og manntjónið varð. Biskupas. I, bls. 441.

Þess er getið í Biskupasögunum I, bls. 847, að Lárenzius biskup Kálfsson hafi hvorki viljað »láta tripla eða tvísýngja, kallandi það leikaraskap, heldur sýngja sléttan saung, eptir því sem tónað væri á kórbókum«. Ekki er mér ljóst hvað það þýðir að tripla saung, en orðið bendir á einhverja viðhöfn og jafnvel meiri en tvísaunginn, því triplex þýðir þrefaldur. Líklega hefir triplsaungurinn verið nokkurskonar þríraddaður saungur, en í áttina til tvísaungs. Í saungfræði Þórðar biskups Þorlákssonar aptan við Grallarann[1] er grein, sem bera má saman við bendínguna um triplsaunginn:

»V. Um̃ nockur Teikn i Saungnum.

1. Fyrer utañ Lyklana ſem ædur er umgieted, eru þar nockur Teikn adgiætande i Saungnum, ſo ſem 𝕮 ſetſt optaſt i Upphafe Saungſins. Sie þad 𝕮ʃ þa merker þad, ad Saungureñ geingur ſeint. Eñ ef þad er ſvo 𝕮3 þa geingur Saungureñ fliott, Og ſvo ſem uppa nockurn Dans, hvad ſumer kalla Trippel.«

Í Bretasögum (Annaler for nord. Oldkyndigh. 1849, bls. 100—101) er getið um ýms hljóðfæri á þessa leið: »Þar (hjá Artúri Bretakonúngi) var allzkyns streingleikar: fiðlur oc gígjur, bumbur oc pípur oc simphóníam oc haurpur.«

Björn Jónsson á Skarðsá hefir ort lángt kvæði, sem heitir Vinavísur, og er til í fjöldamörgum handritum. Þar er eitt erindi um hljóðfæraslátt.

---

[1] Sjá Ísl. skemt.. bls. 238.

Organ lét[1] þá[2] ærið[3] hátt
og trómet [með hljóða mátt;[4]
leikarar[5] betur[6] léku[7] dátt
þá listar[8] vínið kenna.
[pípur setja' á góma gátt,[9]
gumnar[10] hvetja simfóns slátt.[11]
Bumban get[12] eg barin[13] sé þrátt[14]
þegar[15] bragnar hornin spenna.

Hrs. Bmfj. 584, 8. A = hrs. Bmfj. 629, 8. B = hrs. Bmfj. 338, 8 (afbakað). C = hrs. Bmfj. 634, 8 (Þórkatla hin minni, skrifuð af Þorkatli lögréttumanni Jónssyni á Hrauni í Grindavík 1743—47). D = hrs. Bmfj. 681, 8. E = hrs. Bmfj. 310, 8. F = hrs. Bmfj. 590, 8 (kvæðið er kallað þar Vinaspegill). G = hrs. Bmfj. 370, 8. H = hrs. Bmfj. 682, 8. I = hrs. Thotts 1837, 4. J = ÁM. 969, 4, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum. K = ÁM. 277, 8. L = ÁM. 148, 8, og í ýmsum fleiri handritum eru Vinavísur til, svo sem safni Finns Magnússonar í Brit. Mus. 196, 4 og safni Salans í Uppsalasafninu, nr. 80 chart.

Í kvæðinu af Gríshildi þolinmóðu (hrs. Bmfj. 657, 8) er líka eitt erindi og kafli af öðru um hljóðfæraslátt:

. . . . . . . . . . . . . . . . . . . . .

51. Flest hið bezta fram var lagt,
feingu streingir láta.

52. Svíar gígjan sinnu kyl,
sorgir organs hljóða skil,
sítur mítur(!) súngu spil,
simfón gleðr og harpa.
bæta, kæta trumbur til,
trómet hljómar þeim í vil.
stundu undir stoðir og þil;
stríði lýðir varpa.

Miklum mun merkilegri er svo lítill kafli um saung á Íslandi í skýrslu um landsins gagn og nauðsynjar, sem Gísli Magnússon, er seinna varð sýslumaður í Rángárþíngi og bjó á Hlíðarenda, sendi til konúngs 1647. Skýrsla þessi er nú í hrs. Thotts á konúngsbókasafni í Kaupmannahöfn 955, fol. (bls. 28—29), og er dagsett 16. september. Hún er á latínu og heitir »Relatio de Islandia«. Gísli var manna lærðastur og

[1] lék AFJK. [2] þar GIJK. [3] yfrið DEFGHIJL [4] við ljóðaþátt J. [5] lýðurinn J. lýður L. [6] jafnan H. [7] leikur J. leika L. [8] listugt F. lista GHIJK. [9] gleðin magnast góðleg brátt L. [10] garpar DKL. [11] drátt K. [12] trúi' IJL. meina' K. [13] börð F. [14] hátt GK, brátt J. [15] en ABCF. þa IJK, *sl. EGHL.*

framfaramaður mikill, eptir því sem þá gjörðist, og vildi kippa ýmsu í lag, sem honum þótti vera í öfugu horfi á ættjörðu sinni, þar á meðal iðnaði og uppfræzlu landsmanna. Hann vildi láta stofna nokkur sjúkrahús til og frá í landinu, og áttu þau jafnframt að vera nokkurs konar mentunarstofnanir, en á Þíngvöllum vildi hann stofna aðalskóla handa börnum heldri manna.

Gísli biður að senda til Íslands ullarvefara, skóara og meðalafræðíng, »og bið eg, að saungfræðíngur sé látinn verða þeim samferða og sendur híngað næsta ár, á minn kostnað; getur hann kent listir sínar við sveitaskólana, sem bráðum ætti að reisa, bæði æskulýðnum og fullorðnu fólki, sem er handlagið. Á meðan verið er að byggja og koma í lag skóla handa hinum helztu ættum á eyju þessari, þar sem áður er getið um, getur saungfræðíngur þessi hæglega verið hjá mér, á heimili mínu, og frætt úngmenni, sem eru í ætt við mig og mér eru falin á hendur, bæði í list sinni, saungfræðinni, og undirstöðuatriðum annara vísindagreina. Því hér heima eru menn, sem eru að minnsta kosti nokkurn veginn vel að sér í flestum fræðigreinum, en öðru máli er að gegna með saunglistina, og þessvegna þurfum vér þessarar listar öðrum fremur. Fyr meir var list þessi tíðkuð og mikils metin, og lagði því fjöldi manna hina mestu stund á hana, en nú er hún nær því gleymd og hugsa eingir um hana.«

Ekki er gott að gizka á hvað Gísli á við, þar sem hann talar um blóma saunglistar og saungfræði á Íslandi, því það sést berlega á kafla þeim, sem vísað er til í Íslenzkum skemtunum, að hvorug listin hefir átt miklu láni að fagna fram á okkar daga, en líklega á hann við messusaunginn katólska, því eptir því sem stendur í ýmsum fornum ritum t. d. Biskupasögunum voru ýmsir klerkar mjög vel að sér í honum. Aptur breiddist hann aldrei út til alþýðu.

Svo lítur út sem skýrsla Gísla hafi haft lítinn byr hjá kónginum og ráðaneyti hans, því ekki voru skólarnir reistir, sem hann hafði beðið um, og einginn kom heim af mönnum þeim, sem hann hafði stúngið upp á að sendir væru til Íslands. Saungkennslan og saunglistin voru þar í jafnaumu horfi og áður, alt fram á daga Péturs Guðjónssonar.

Kaflinn um saungkennsluna úr skýrslu Gísla er tekinn upp í Sunnanfara III. 1893, nr. 2.

Eggert Ólafsson nefnir ýms hljóðfæri í brúðkaupssiðabók sinni sect. II, cap. 5.: hörpu, viole, saungpípu; hljóðfæri í dimmara lagi, horn, digrar reyrpípur, lángspil o. s. frv.; skærraustuð hljóðfæri, clavier, viol, flötur (þ. e. flauta).

Til er skopkvæði um sveitaveizlu frá seinna hluta 18. aldar. »Histórían ein oss híngað bar«, og er það til á fleirum en einum stað í hrs. Bmfj. og svo í Einarsbók dr. Jóns Þorkelssonar, sem skrifuð er í Gaulverjabæ 1780—85 af Hannesi Kolbeinssyni. Þar er ýmislegt um

saung í veizlum og er það reyndar sagt í skopi, en þó vel vert þess, að það sé prentað hér:

8. er. . . . Símon í Höfða bassann bezt
byrjar, það þykir skemtan mest.
Hrosshagabóndinn heitir Jón,
hefir sá iðkað sálma tón;
segja hann flestir þarfan þjón.

10. . . . Símon líka sæmdar kall,
saungmaður haldinn afgamall;
tenór að hefja trúi' eg sé
tamt Jóni' í Haga Grímssyne.

19. . . . kváðu og súngu meyjarnar.
Alt þá á bjáti einu var.

20. Fyrnefndur siða frægur mann[1]
frábæra leiki stipta vann,
spakur því setti spilmenn til,
sprundunum gjörði það í vil.
Margur þar kunni mentaval,
mjúklega' að skemta snót og hal.
Frá þeim eg inna fleira skal.

21. Fundu spilmenn mjög frægan dans,
flettu upp sálmum grallarans,
eingum fannst þar sín æfin laung,
organ, trómet og harpan saung,
blésu í pípur bragna drótt,
bar þetta til um dimma nótt.
Opt verður gaman eptir hljótt.

22. Trómet, pípur og trumbu són
tíðkaði mest Hrosshaga-Jón.
Organið troða Símon sést,
sú er nú listin allra bezt;
harpan, gígjan og symfon saung;
svo léku þeir öll hljóðafaung.
Eingum þótti sín æfin laung.

24. Fullsögð ei verður prýðin prúð,
prúð þjóðin verði ei sorgarlúð.

---

[1] *Jón Trassi.*

lúðrahljóðfæri, leikirnir,
leikir sem voru tíðkaðir;
tíðkanir þær sem tíðkast títt
títt glöddu vel upp meingið frítt;
prýtt virðist það sem vel er frítt.

26. Með saungvaleik og gleðskapsgnótt
gleðja náðu þar spilmenn drótt . . .

36. Brátt þegar máltíð búin var
borðsálm Jón trassi uppkyrjar,
í kúrelsku, svo einginn má
ókendur nokkurn skilníng fá;
þótt lagið væri þúngt og hátt
þá varð ei Trassa orðafátt;
gjörði það margra geði kátt.

37. Glaðir nú borðum geingu frá,
gleyma ei Trassi siðnum má.
Símon kall er að semja tón,
svo og bóndinn Hrosshaga-Jón,
grallara hver þar grípur sinn,
gammanum eptir tvísaunginn
tíðkuðu, bassa' og tenórinn.

38. Brúðhjón þá geingu borðum frá
byrluðust upp að nýu þá
saungvar, leikir og svoddan krans,
súnginn var þar Kellíngardans,
Dofrasaungur og Dínusspjald,
dáfallegt var það messuhald;
siðamannsins var svo gott vald.

43. Graða Mánga með geðlegt fas
góða bæn yfir hjónum las
úr Syrpuversi með ástaryl.
Amen þar flestir sögðu til . . .

Enn er til kvæði, sem heitir Flateyjarvísur, og lítur svo út sem það sé ekki mjög gamalt, varla eldra en frá fyrra hlutar þessarar aldar. Eg hefi aðeins rekið mig á það á einum stað, í hrs. Bmfj. 681, 8. Þar er þetta:

3. Harpa og spil þar hátt saung,
þar heyrðust symphóns dimm hljóð,
um beggja *staðanna* breið gaung,

í blóma' hún Flatey þá stóð,
upp á borðið ölfaung
úngir reiddu fram þjóð
ýngismenn og auðspaung
atvik sýndu þar góð;
æfin var þar ei laung,
með æru' og sæmd gekk fram þjóð.
. . . . . . . . . .

4. Þá var gleði' og dans, dans
dansaður á Flatey,
en fyrir utan vans, vans
var þá eyjan Flatey.
ýngismannanna krans, krans
kransaðist um á Flatey.
. . . . . . . . . . . .

Loksins má geta þess, að þar sem talin eru upp íslenzk þjóðlög, prentuð, í Ísl. skemt., bls. 249—54, hefi eg gleymt að minnast á tvö lög, lag við »Aldrei má eg á æginn ógrátandi líta« o. s. frv., og »Séra Magnús settist upp á Skjóna« o. s. frv. Fyrra lagið er hjá A. P. Berggreen í Danske Folkesange og Melodier. III. útg. 1869, bls. 351, en um hitt er getið í lausavísnakaflanum í þulunum, þar sem vísan er prentuð. Lög þessi eru bæði frá Sveinbirni saungfræðíngi Sveinbjörnsen í Edinborg.

---

Eg hefi nú tínt alt það til, sem eg hefi getað grafið upp um þjóðlega dansa á Íslandi, bæði að fornu og nýju, og er aðeins eptir að færa til stutt yfirlit yfir það, hvernig vikivakar hafi alment farið fram á seinni dögum, því þótt það sé bert af því, sem áður er komið, eptir því sem faung eru á, hefi eg ekki getað komizt hjá því, eptir því sem eg hefi hagað riti mínu, að skýrsla um þetta er ekki á einum stað. Mér hefir þótt hentugast, að skipa yfirliti þessu sæti á eptir vikivakaleikjunum, eða seinast í lesmálinu, en áður en eg skilst við þennan kafla, þykir mér hlýða að fara nokkrum orðum um dansleiki þjóða þeirra, sem skyldastar eru okkur Íslendíngum, einkum dans Færeyínga.

Eins og kunnugt er, eru Færeyíngar okkur Íslendíngum fremri í því, að þeir eiga, enn í dag, þjóðdans, og hefir hann haldizt þar við svo mörgum öldum skiptir, og að öllum líkindum síðan í fornöld. Dans Færeyínga er hríngdans og hefir dans sá, sem getið er um í íslenzku sögunum og jafnvel líka dansinn, sem tíðkaðist á vikivökunum eða gleðunum, verið mjög líkur honum eða jafnvel alveg eins. Þar sem nú eingin lýsíng er til á dansi *okkar Íslendínga í fornöld* og mjög ógreinilegar skýrslur um vikivakadansinn,

skal eg lýsa hér dansi Færeyínga og vona eg, af því sem áður er sagt, að einginn hneykslist, þótt eg gjöri það allýtarlega.

Fyrst hefi eg rekið mig á skýrslu um dans Færeyínga hjá Lúkasi Debes: »Færeyíngar eru ekki hneigðir fyrir óþarfa skemtanir né gáska og skemta sér einkum með því að sýngja sálma, en í brúðkaupsveizlum og um jólin stytta þeir sér stundir með nokkurs konar óbrotnum hríngdansi; taka þeir þá hver í hendina á öðrum og sýngja gömul fornkvæði.« Færoea reserata Kbh. 1673, bls. 251.

Þá er talað um dans Færeyínga í Færöiske Quæder 1822: »Aðalskemtan Færeyínga er dans, og taka bæði gamlir menn og úngir þátt í honum. Dansinn er líka nauðsynlegur fyrir þá, að nokkru leyti, vegna kyrsetnanna og hins raka loptslags. Aðal-danstíminn er frá jólum til föstuinngángs, en auk þess er dansað á helgidögum og við hátíðleg tækifæri. Ekki er dansað eptir hljóðfærum heldur kvæðum. Menn skiptast á að vera forsaungvarar og allir, sem geta súngið, taka að minnsta kosti undir viðkvæðið. Dansinn er fólginn í því, að kallar og konur halda hvort í hendina á öðru og stíga þrjú skref í takt, áfram eða til hliðar, og hreifa því næst efra hlut líkamans svo lítið eða standa kyr svo litla stund. Þeir sem fylgja ekki þessum reglum trufla allan dansinn. Tilgángur saungsins er ekki einúngis að stýra skrefunum, heldur á líka efni þess, sem súngið er, að vekja vissar tilfinníngar. Það er hægt að sjá á þeim, sem dansa, að þeim er ekki sama um saunginn, því þeir kosta kapps um að láta andlitsdrætti sína og látæði sýna það, sem súngið er um, hvað sem það nú er. Þótt dansinn sé tilbreytíngarlaus verður hann svo skemtilegur við þetta, að bæði úngir menn og gamlir halda áfram að dansa kvöld eptir kvöld, án þess nokkurt hlé verði á, sem teljandi er.« Lyngbye, Færöiske Qvæder. Randers 1822. Formáli P. E. Müllers, bls. 8—9 eptir Nyerup, Danske Reiseiagttagelser I, bls. 217.

Þriðja skýrslan um dans Færeyínga er hjá A. P. Berggreen: »Í þessum hríngdansi stíga menn tvö snögg skref áfram, til vinstri handar, og eitt helmíngi hægara aptur á bak, til hægri handar. Annars dansa Færeyíngar með tvennu móti, annað hvort á þann veg, að dansinn byrjar með því, að allir sýngja viðlagið og dansa þá í hríng um leið, en standa kyrrir eða hefja fæturna svo lítið í takt meðan forsaungvarinn sýngur erindið, eða þá að forsaungvarinn byrjar erindið og hefst þá jafnframt dansinn, og heldur áfram í sífellu, en hinir dansmennirnir taka allir undir viðlagið. Fyrri tegund dansins heitir »Tròkjing« (af að »tròka«, standa fast saman) en sú seinni »styjing« (af að »styja«, stíga, gánga [áfram]). Stundum sýngur forsaungvarinn viðlagið tvisvar sinnum, þegar hann kemur ekki jafnskjótt fyrir sig næsta erindi, til þess að dansinn skuli ekki hætta. Sumstaðar dansa menn aptur á bak meðan erindið er súngið, en áfram meðan viðlagið

er súngið.« A. P. Berggreen, Danske Folkesange og Melodier 1869, bls. 367—68, eptir skýrslu frá séra Schröter í Þórshöfn.

Greinilegust og fyllst lýsíng á þjóðdansi Færeyínga er þó hjá séra Hammershaimb: »Ekki eru margskonar þjóðlegar skemtanir [á Færeyjum], og má heita að þar tíðkist aðeins ein aðalskemtan, sem hressir alla, únga menn og gamla, en það er hinn gamli þjóðdans Færeyínga . . . . . .

Skemtan sú, sem færeyski dansinn hefir í för með sér, er einkum fólgin í því, sem honum er samfara, en það er saungur, kvæði, fornkvæði og þjóðkvæði; sýngur einn maður eða fleiri kvæðin, en allir taka undir viðkvæðið seinast í hverju erindi. Allir dansmennirnir taka eptir kvæðinu með mestu athygli, og þegar það getur um eitthvað merkilegt eða hrífandi, kemur það fram í andlitsdráttum og hreifíngum dansmannanna. Þegar orustur standa sem hæst, taka menn fastara í hendurnar hvor á öðrum, en þegar sigur er unninn, hoppa menn upp í háa lopt af gleði. Dansinn sjálfur fer þannig fram, að menn halda í hendurnar hverir á öðrum í hríng, en þegar dansmönnum fjölgar, þá er hríngurinn rofinn og myndaður hríngur innan í honum, og ef dansmenn eru margir og húsakynni eru nógu stór, myndast aptur nýr hríngur innan í honum o. s. frv., en þó eru allir í einni óslitinni röð, svo að hver maður, sem tekur þátt í dansinum, verður að fylgja öllum þessum breytíngum í röðinni, og er ýmist í yzta hríngnum eða inni í miðjunni. Dansmennirnir fara hverir fram hjá öðrum við þetta og snúa andlitunum saman; mætast þeir tvisvar í hverjum heilum hríng (Omgang). Saunglögin eru samin í $^{6}/_{8}$ takt, og er þeim samfara stapp með fótunum, sem fylgir laginu mjög fast, en er tilbreytíngarlaust. Optast er dansinn stiginn eptir »stígingarstev« (sbr. viðlagið »stígum fast á várt gólv o. s. frv.). Því er varið á þá leið, að dansmennirnir stíga jafnt áfram til vinstri handar, svo að sex skref með fótunum svara til hvers heils takts í laginu: 1. vinstri fótur skrefar áfram (til hliðar), 2. hægri fótur skrefar þángað, sem vinstri fótur er, 3. vinstri fótur skrefar aptur áfram, 4. hægri fótur flytur sig fast að vinstra fætinum, 5. hægri fótur skrefar til hliðar eða eitt skref aptur á bak, 6. vinstri fótur flytur sig að hægra fæti, og svona eru skrefin ávalt endurtekin í sömu röð, eptir taktinum í laginu. Ef kvæðið er alvarlegt og súngið hægt, fer dansinn stilt og hægara fram.

Önnur tegund dansins er »trokingarstev« (af »troka«, þyrpast saman, þreingjast saman). Menn halda, eins og vant er, í hendurnar hverir á öðrum í óslitnum hríng, en standa kyrrir eða gánga svo lítið aptur á bak með hinum venjulegu skrefum, meðan kvæðis erindin sjálf eru súngin, en gánga áfram ávalt, með sömu skrefum, meðan viðlagið er súngið. Hér eru einkum höfð við fjörug kvæði. Þessi aðferð er liðin undir lok norðanfjarðar, en eg hefi opt dansað svona á Suðurey, einkum í syztu sveitunum. Yfir höfuð að tala er alt annar keimur að dansinum hér en norðanfjarðar, því *þar leggja menn mesta* áherzlu á hið tilbreytíngarlausa fótastapp. Þriðja

danstegund er »bandadansur«, og eru höfð við hann fjörugar vísur og kvæði eins og við »trokingarstevið«. Menn standa í tveimur röðum, karlmennirnir öðru megin og konurnar hinu megin, og halda á bandi milli sín. Einnar eða tveggja álna bil er milli raðanna. Meðan kvæðið er súngið, standa menn á sama stað og skrefa, eins og venjulegt er, eptir taktinum, en þegar viðlagið byrjar, rétta menn upp hendurnar og halda á böndunum í þeim, og nú beygja menn sig, karl og kona, undir böndin, frá þeim enda raðanna, sem andlitin snúa að, þángað til þau eru komin röðina á enda; snúa þau þá við og hefja aptur böndin yfir þá, sem þau mæta. Þau nema staðar þar sem þau hófu gaungu sína, og er nú haldið áfram á sama hátt, þángað til kvæðið eða vísan er á enda. Þetta er mjög fjörugur en fremur þreytandi dans.« V. U. Hammershaimb í Færöisk Anthologi I. Kmh. 1891, bls. XLI—XLIII.

Flest danskvæði Færeyínga eru samskonar kvæði og fornkvæðin íslenzku, en einstökum sinnum dansa þeir þó eptir sálmum eða andlegum kvæðum. Þá er dansað mjög hægt, og dansinn er svo alvarlegur og stiltur, að prestarnir voru stundum vanir að dansa með hinu fólkinu, í hempunni. P. E. Müller, Fær. Quæder, bls. 9.

Optast dansa Færeyíngar í húsum inni, enda er mest dansað þar um háveturinn, en til ber það þó, að þeir dansa undir beru lopti t. d. á Jónsmessunótt um sumar og á annan hvítasunnudag. Þessir dagar eru hátíðisdagar miklir í Færeyjum og koma eyjaskeggjar þá saman á vissum stöðum, til að skemta sér. Fær. Anthologi, bls. XLIV.

Enn er vert að geta um danssið einn, sem Færeyíngar höfðu og hafa ef til vill enn, þótt eg þekki hann ekki frá Íslandi. Færeyíngum er eins tamt og Íslendíngum að yrkja skopkvæði um náúngann og sættu þeir venjulega lagi, að láta kvæði þessi koma fram við dansinn. Sá sem kvæðið var um átti sér einskis ills von og sótti dansinn eins og aðrir, en þegar minnst vonum varði tóku tveir fílhraustir menn hann, sinn undir hvora hönd, og var kvæðið kyrjað upp um leið og dansað eptir því. Manninum, sem kvæðið var um, hefir eflaust þótt þetta grátt gaman, en ekki voru tiltök til að mennirnir sleptu honum fyr en kvæðið var á enda, en það leið opt á laungu, því flest færeysk danskvæði eru laung.

Enn má geta þess að K. Weinhold og R. Keyser lýsa dansi Færeyínga eptir skýrslu P. E. Müllers,[1] og að í safni Finns Magnússonar í Advocates Library í Edinborg er í nr. 113, 4 lýsíng á minnaforsögn Færeyínga; snertir hún eflaust dans þeirra að einhverju leyti.

Eptir því sem Olaus Magnus segir í hinni frægu Norðurlandasögu sinni, Historia de gentibus septentrionalibus. Veneziis. 1555, lib. XV, c. XXIII,

[1] Altnordisches Leben. Berlin. 1856, bls. 464—65. Nordmændenes Forlystelser i Oldtiden. Norsk Tidskrift for Videnskab og Litteratur II. 1848, bls. 239.

tíðkaðist einkennilegur dans í Svíþjóð í fornöld, og hélzt hann enn um miðja 16. öld. Dans þessi hefir, að öllum líkindum, tíðkazt í fornöld um öll Norðurlönd, þótt ekki fari sögur af honum, og skal eg því lýsa honum stuttlega. Dansinn hét sverðdans. Æfðir kennarar sögðu æskulýðnum til í íþrótt þessari, sem fólgin var í að dansa innan um nakin sverð og brodda, og fór hún fram á þessa leið: Fyrst réttu allir dansmennirnir sverð sín í lopt upp í slíðrum, þángað til þeir höfðu dansað þrisvar sinnum hrínginn í kríng. Þá drógu þeir þau úr slíðrunum og héldu þeim upp; háðu þeir nú nokkurs konar gamanorustu og undu sér hver fram hjá öðrum með léttleik og lipurð. Meðan á þessu stóð, mynduðu sverðin sexhyrníng, og kölluðu þeir hann rósina. Rósin var þó skjótt rofin, og sverðin borin þannig, að ferstrend rós myndaðist yfir höfði hverjum einum. Hreifíngarnar urðu ávalt ákafari og æstari og seinast börðu þeir sverðunum saman af alefli. Á meðan þessu fór fram, var súngið og leikið á hljóðfæri, og seinast endaði dansinn með því, að allir stukku snögglega aptur á bak. Olaus Magnus lætur mikið af hve dansinn hafi verið fagur og kallmannlegur. Sverðdansinn var einkum dansaður um föstuinngángsleytið. Átta daga á undan gjörðu menn ekki annað en að æfa sig og klerklegrar stéttar menn höfðu jafnvel leyfi til að taka þátt í dansinum, því hann fór fram á mjög siðlátlegan hátt. Eptir því sem eg veit bezt eru nú ekki til nein örmul af dansi þessum, og hefir hann eflaust liðið undir lok skömmu eptir daga Olausar Magnusar.

Lýsíng er á sverðdansi eptir frásögn Olausar Magnusar hjá Engelstoft, Om den Pris Oldtidens Skandinaver satte paa Legemsövelser. Skandinavisk Museum 1802, bls. 54—56 og hjá K. Weinhold, Altnordisches Leben Berlin 1856, bls. 466—67.

Á dögum Olausar Magnusar hafa eflaust tíðkazt ýmsir aðrir þjóðdansar í Svíþjóð en sverðdansinn, og enn í dag eiga Svíar ýmsa þjóðdansa og sýngja við þá hin fögru og frægu þjóðlög sín. En bæði er það, að eg er ekki svo kunnugur þjóðdönsum þessum sem skyldi, og svo mundi það verða lángt mál ef ætti að lýsa þeim til nokkurrar hlítar, og leiði eg það því hjá mér. Sama er að segja um þjóðdansa Dana[1] og Norðmanna. Einkum standa þjóðdansar Norðmanna með miklum blóma enn í dag, og eru margskonar.

Um hina elztu dansa Þjóðverja og saunglist þeirra er getið hjá Corn. Tacitus í Annales I, c. 65 og Germania, c. 2—3 (Corn. Taciti libri qui supersunt (Teubner). Ed. C. Halm. Lips. 1883, I, bls. 35, II, bls. 221—22). Dans þessi, sem Tacitus getur um, hefir eflaust verið keimlíkur vikivökunum, en sagnirnar um hann eru ekki mikið ljósari en um vikivakana á Íslandi frá hinum elztu tímum. Enn er um dans Þjóðverja í gamla daga hjá

[1] Um danskan dans á miðöldunum er ýmislegt í riti Joh. Steenstrup's: Vore *Folkeviser fra Middelalderen*. Kmh. 1891.

K. Weinhold, Die deutschen Frauen in dem Mittelalter. Wien 1851, bls. 369—81. Í öðru riti segir sami höfundur: »Stundum var leikið undir á hörpu við dansinn, en saungur var óhjákvæmilegur við hann, því eptir eldgömlum sið var ekki dans Germana, og þá ekki heldur dans Norðurlandabúa, siðlaust hopp og stökk til og frá, heldur hríngdans eða raðardans með hóflegri hreifíngu og voru bæði lögin og orðin í kvæðinu í samræmi við hann.« Altnordisches Leben. Berlin 1856, bls. 464—65. Enn getur K. Müllenhoff um dans á Þýzkalandi í gamla daga, einkum í hinum nyrzta hluta Þýzkalands, í Sagen, Märchen und Lieder der Herzogthümer Schleswig, Holstein und Lauenburg. Kiel. 1845, bls. XX—XXIV.

Um saunglist Breta í fornöld er getið í Agricola eptir Tacitus (útg. Halm's II, bls. 265—66) sbr. Beda, Historiae ecclesiasticae gentis Anglorum libri V. Lib. IV, c. 24. Cantabrigiae 1772, bls. 170—72.

---

## Vikivakaleikir.

Þegar hlé varð á saung og dansi á vikivökunum, voru leiknir ýmsir leikir, og skal eg nú lýsa þeim eptir faungum. Það er einkennilegt við ýmsa af þessum leikjum, eða jafnvel allan þorrann af þeim, að leikmennirnir tóku á sig ýms fáránleg gerfi, en slíkt þekkist ekki í öðrum íslenzkum leikjum, og bendir þessi dularbúníngur ef til vill á, að leikirnir séu af útlendum toga spunnir í upphafi, eða öllu heldur sniðnir eptir útlendum leikjum. Ýmsir af leikjunum eru giptíngaleikir, og kemur það vel heim við, að kallar og konur léku saman á vikivökunum. Ekki hefi eg séð eða heyrt þess getið. að fleiri leikir hafi tíðkazt við vikivakana en eg lýsi, en vel má vera, að ýmsir leikir hafi farið þar fram, þótt sögur fari ekki af því, og séu nú, ef til vill, ýmsir vikivakaleikir týndir og tröllum gefnir. Aptur mun það vera ofsögum sagt, sem Sigurður Guðmundsson málari segir í bréfi til Jóns Sigurðssonar 23. júní 1863: »Það er varla efunarmál, að flestir leikir hafa tíðkazt í vikivökunum, og hafa þeir flestir verið leiknir eptir þulum, en dansað eptir saung og hljóðfærum, og hafa þeir haft hér hörpur, lút, fiðlu, sýmfón, lángspil o. s. frv.« Eins og sést á »Íslenzkum skemtunum«, er öllum fjöldanum af íslenzkum leikjum svo varið, að eingar þulur eru þeim samfara, og getur því ekki skoðan Sigurðar verið rétt.

Lángmerkasta heimildarritið um vikivakaleikina er ritgjörð frá hér um bil 1800 í hrs. Sv. Grv. 66. Bæði er getið þar um flesta leiki, níu, og svo eru lýsíngarnar að öllum jafnaði þær lángbeztu og greinilegustu, sem til eru á leikjunum og stendur margt þar, sem ekki þekkist annars staðar að. Þar er lýst hríngbrotum, *hestleik*, þíngálpsleik, kellíngarleik

hjörtleik, þórhildarleik, Hoffinnsleik, hindarleik og Háu-þóruleik.

Í hinni leingstu vikivakaritgjörð Jóns Árnasonar er talað um þórhildarleik eða þórhildardans, hindarleik, tvo giptíngaleiki, Hoffinnsleik og brúarleik. Í ritgjörð Jóns Árnasonar kveður ekki mikið að leikjalýsíngunum, en aptur eru þar ýms leikkvæði og sum sjaldgæf.

Í ritgjörð Guðna Guðmundssonar læknis er stutt lýsíng á Hoffinnsleik, hindarleik, þórhildarleik, hestleik og hjartarleik.

Í ritgjörð séra Guðmundar Einarssonar á Breiðabólstað er drepið á Hoffinnsleik, þórhildarleik, hindarleik og giptíngaleik einn.

Í skýrslu Magnúsar Andréssonar á Kópsvatni er drepið á kellíngarleik, Háu-þóruleik, hjartarleik og þíngálpsleik.

Í ýmsum af hinum vikivakaritgjörðunum er drepið á vikivakaleiki, einn eða tvo, og verður þess getið við hvern leik.

Í orðabókinni í hrs. Bmfj. 77 fol., bls. 196, er getið um tvo vikivakaleiki, og stendur þetta þar orðrétt: »Orbis saltatorius, vikivaki, dans, bryn(!) eða hest reið, hríngbrot, chorea.«

Enn verður að geta þess, að Páll Pálsson stúdent nefnir þessa vikivakaleiki í leikjatali sínu, Ludorum genera[1]: finngálkn, Háu-þóruleik, hindarleik, hjartarleik, Hofmannsleik, hríngbrot og kellíngarleik. Ýmsa af leikjum þessum mun Páll telja eptir Excerpta Hannesar biskups Finnssonar á Landsbókasafninu, en eingum leiknum lýsir hann.

Ýmsir vikivakaleikir eru nefndir í leikkvæði séra Benedikts Jónssonar í Bjarnanesi († 1744), sem prentað er í Íslenzkum skemtunum, bls. 361—62, og eru hér notuð tvö handrit auk þeirra, sem þar er getið, safn Jóns Árnasonar AV, bls. 38—39 (Bergsbók) og hrs. Bmfj. 639, 8 (Varðgjárkver). Fyrst eru hríngbrot nefnd og svo eru taldir aðrir vikivakaleikir í þessum tveimur erindum:

. . . . . . . . . . . . .
þíngálps[2] feldi[3] hestreið hast
og[4] hoppa á öðrum fæti.

Skjaldmeyjar með fiman[5] fót
fyrri sá eg á gólfi,
liðugar við leikamót,
líkt sem skotið kólfi.

Nokkrir vikivakaleikir eru nefndir í annari rímu af Kiða-þorbirni á Stokkseyri, þar sem segir frá jólagleði á Stokkseyri. Rímurnar eru eptir séra þorstein Jónsson á Dvergasteini (1769—1800) og ortar hér um bil 1790,

---

[1] Sbr. Ísl. skemt., bls. 7—8. [2] finngálkns, útg; þyngalpns, 639. [3] fylgdi, *útg., 639.* [4] sl. útg. [5] finan, útg., 639.

en alt bendir til að frásagan muni vera frá 15. öld, og er það aðalinntak hennar, að Kuflúngur jötunn átti kið þrjú, sem Þorsteinn drap fyrir honum. Rímurnar eru til í tveimur handritum, hrs. Bmfj. 154, 8 og 282, 4, en vísurnar, þar sem vikivakaleikirnir eru nefndir, eru á þessa leið:

Gleði óveika bezt til býr
baðs í stofu ranni
Gefnar reika traustur týr,
til dansleika meingið snýr.

Máttu skjaldar[1]meyja reik
menn og hríngbrot reyna,
hestreið talda' og hjartar[2]leik,
hress[3] er valda þjóðin keik.

Séra Þorsteinn Pétursson á Staðarbakka nefnir hjörtleik, hestreið og kellíngarleik í riti sínu Manducus eða Leikafæla 1757. ÁM. 963, 4, 4. bl.

### Þórhildarleikur

hét einhver helzti giptíngaleikurinn. Hann er nokkurs konar hjónavígsluleikur og er einn af kallmönnunum valinn til þess að vera prestur; var hann kallaður Þórhildarprestur og færður í hempu af einhverri stærstu stúlkunni, sem þar var; barðastóran hatt hafði hann á höfði niðurbrettan og trefil hnýttan um kollinn. Síðan skipa kallar og konur sér í raðir, andspænis hvort öðru, eptir endilángri gleðistofunni eða til endanna. Þá geingur prestur þángað, sem kvennfólkið er, og ávarpar það á þessa leið:

Hér skal heiman reika
í hópinn gullhlaðs eika;
með flýti fram skal kreika
ef frúrnar vilja leika.[4]

Þórhildur þekk[5] frú,
þýð[6] fylgdu mér nú,
[fljótlega' í[7] ferð snú,
fá manninn skaltú.

[Máttu kjósa[8] mann[9] brátt
meyjan, að[10] vilja;
aðra nátt, auðargátt,
eigið þið að skilja.[11]

---

[1] skjala-, 282. [2] hjarðar-, 282. [3] hrifs, 282. [4] vantar í ABC. [5] þessi. C. [6] heim, A. [7] sl. C. Frá [fljótt þinni, AB. [8] Kjósa máttu, C. [9] Kjósa mátt *þér manninn. A.* [10] *af. A.* [11] er. vantar í B.

Síðan tekur Þórhildarprestur hverja stúlkuna eptir aðra, leiðir hana fyrir kallmennina, lætur hana velja sér þann, sem henni lízt bezt á og syngur ýmsar vísur á meðan, sem heimildarmaður vor segist hafa gleymt. En er Þórhildarprestur hefir gefið saman fólkið, sem í leiknum vill vera, kveður hann fyrir kvæði, sem venjulega eru kölluð Þórhildarkvæði, og eru með ýmsu móti, en gleðifólkið tekur undir, þegar við á.

Skýrsla þessi er tekin eptir vikivakaritgjörðinni frá hér um bil 1800 í hrs. Sv. Grv. 66, og færir hann til byrjunina á einu Þórhildarkvæðinu:

Í Þórhildarleiknum þreyttur varð eg núna.
Allir kyssa utan eg,
ekki tel eg það heilsuveg;
það er verst að eg fékk einga frúna.

Segir hann að kvæðið sé lángt og þríkveðið. Hinar vísurnar, sem heimildarmaður vor færir til, finnast á þremur stöðum svo eg viti: í hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Sigríði Árnadóttur á Læk = A, í vikivakaskýrslu Guðna læknis Guðmundssonar = B og í Bergsbók Jóns Árnasonar AV, bls. 131 = C.

Ýms önnur Þórhildarkvæði eru til og skal nú færa þau til með formálum þeim, sem fylgja þeim. Jón Árnason vill láta Þórhildarleik eða tröllkonuleik þann, sem eg set í samband við kellíngarleikinn, vera Þórhildarleikinn sjálfan. Auk þess blandar hann honum saman við hjartarleik og hindarleik. Hann telur líka að fleira eða færra af vökufólkinu hafi tekið á sig dýragerfi, kallmenn hjartargerfi, en konur hindargerfi, og ræður hann það af því, að hirtir og hindur eru nefndar í Þórhildarkvæðunum, en mér virðist þetta ekki hafa þurft að eiga sér stað, fremur en í hindarleiknum. Þar er líka talað um hirti og hindur, en hvergi er þess getið, að menn hafi tekið þar á sig dýragerfi. Kallar og konur hafa eflaust aðeins verið kölluð hirtir og hindur, enda er það altítt í skáldskap, svo að segja allra þjóða, að líkja konum saman við hindur. »Það var ætlunarverk Þórhildar« segir Jón Árnason, »að hún skyldi koma saman hjört og hind, sveini og meyju, gefa þau síðan saman. og þegar hún hafði gipt upp alt fólkið, kvaddi hún það að leikslokum. Hér eru nú nokkur kvæði, máli þessu til skýríngar.

**Þórhildardans.**

Leik skal lítinn hefja,
leingi ei við tefja,
sízt að sorgum vefja
og sinnisgleðina kefja.

Sveinarnir sýngja fyrir framan:

Semjum sónarmundinn
svo það frétti sprundin;

kætist kappalundin,
þá kemur á vífafundinn.

Nú lítur svo út sem formaður sveinaflokksins, hjörturinn, ljúki upp dyrunum, þar sem Þórhildur og meyjarnar eru inni, og kveði til Þórhildar:

Hér sé eg hríngslóð,[1]
hofmannlegt kvendi,
sú trúi' eg svinn glóð[2]
sorgum af vendi.

Lízt mér sómasamur
svanninn dygðaframur,[3]
gleður gumna káta
góðlynd í máta.

Þórhildur svarar:

Fánýt sú ferð er,
ef fæst eingin hind hér.

Formaðurinn:

Hjörtur vill sig hafa' á stað
hind eina' að fánga.

Þá taka allir sveinarnir undir og gánga inn í húsið til meyjanna og Þórhildar, og kveða:

Vita hversu vegnar það
vær skulum gánga.

Þegar sveinarnir eru komnir inn, standa meyjarnar upp og heita á Þórhildi til liðsinnis, hver um sig, að útvega sér mann. Forgángsmærin kveður:

Þórhildur þekk frú o. s. frv.

Þórhildur svarar:

Fá manninn skaltú.
Kjósa máttu mann brátt o. s. frv.

Geingur svo mærin í sveinahópinn og tekur einn. Þá kveður Þórhildur:

Héðan, horskur svanninn,
haf þig burt með manninn,
væn um vizkuranninn,
vora gleður[4] þanninn.

Þannig fær hver meyjanna sér mann, uns alt liðið er lofað.«

Þórhildardansinn er tekinn hér eptir vikivakaritgjörð Jóns Árnasonar og safni J. Árn. AV, bls. 131 = Bergsbók, með hendi séra Ásgeirs Bjarnasonar í Ögursþíngum. Eptirrit Páls Pálssonar stúdents í hrs. J. Sig. 398, 4.

---

[1] hríngslöð. Bh. [2] glöð. Bh. [3] -tamur, Bh. [4] tregar. Bh.

### Að gefa saman.

Þegar Þórhildur sér, að hugir kalla og kvenna (hjarta og hinda) fara saman, hefur hún svo vígsluna:

Vakið hefir víf móð,
vænna leit eg ei fljóð;
sjá þau mig svo mætt,
sízt fæ eg það bætt.

En skal augum renna,
ef eg mætti nenna,
hér sem hýrust kvenna
hjört gjörir spenna.

Hér snýr Þórhildur sér að brúðinni, sem hún kallar sínu nafni, og spyr hana:

Líkar maður þýð þér
Þórhildur meyja?
Mengrundin mæt mér
máttu það segja.

Brúðurin svarar:

Mér líkar mjög vel
mann eiga ríkan,
hans hvergi líkann
í heimi fær slíkan.

Hér segir Þórhildur við manninn:

Grípt u á gólfi niður,
gjör svo, hríngaviður,
það sem þú á heldur,
þá sé eg hvað veldur.

Ef Þórhildi sýnist einhver snúður á brúðinni, kveður hún:

Af þér skal eg taka,
af þér hjörtinn spaka,
ef þú lætur laka
litla skyldu slaka.

Þorir þá brúðurin ekki annað en að bæta ráð sitt, svo Þórhildur kveður:

Hjört þér á hönd fel,
en hratt peníng fram sel;
hafðu til hans heitt þel
og hann kystu mjög vel.

Vikivakaritgjörð Jóns Árnasonar. Bergsbók hans. Hrs. J. Sig. 398, 4.

Enn segir Jón Árnason, að þessar tvær línur muni vera úr vígslu Þórhildar:

Kystu þína kæru
og klappaðu henni með æru.

Til að kveða eptir [vígsluna] í vikivaka.

Þegar Þórhildur hefir gefið saman alla vökumennina og konurnar, kveður hún:

1. Þórhildarleikrinn þykir mér ekki góður:
allir kyssa utan eg,
ekki held eg það heilsuveg.
Ekki er kaupið, [utan að[1] verða móður.

2. Gipt hefi eg nú gumna og hrínga tróður,
þá vikivakinn úti er
allar segi eg þær lausar hér.
Ekki er kaupið, [utan að[1] verða móður.

3. Nema vilji þær sjálfar vináttu festa gróður,
hafi það hver, sem hlotnast hér,
held eg þetta gjört af mér.
Ekki er kaupið, utan að verða móður.

4. Þótt vel þeim gángi, vera skal ekki hljóður:
sumir eiga seggir fyr,
seinna öðrum fellur byr.
Ekki er kaupið, utan að verða móður.

5. Farið í friði, falli svo minn óður;
ýtum giptum ekki' er vert
eg þótt ráfi' um gólfið þvert.
Ekki er kaupið, utan að verða móður.

Vikivakaritgjörð Jóns Árnasonar. Bergsbók hans, bls. 133. Hrs. J. Sig. 398, 4. Fyrsta og annað er. í Þjóðólfi 1887, nr. 10.

Enn eru til tvö kvæði úr Þórhildarleik frá 17. öld í hrs. ÁM. 148, 8, sem skrifað er af Magnúsi Jónssyni í Vigur 1676—77; heitir annað »Fyrir Þórhildarleiki að kveða.«

1. Hér skal heiman reika
í hópinn gullhlaðs eika,
á fæti fram að kreika,
ef frúrnar vilja leika.

2. Köstum kjaldurs móði,
kætumst bræður góðir,
víst fást veiga slóðir,
verum því ekki hljóðir.

3. Nú er von á niptum,
nauðum af oss sviptum,
granna vora giptum,
grundum með oss skiptum.

4. Sé eg hvar ein situr
seima foldin vitur,
fallegt tillit flytur,
fagr er hennar litur.

---

[1] annað en. Þjóð.

5. Þórhildur mín mæt
mér fylg þú ágæt,
hugarins burt hrygð ræt,
af hópi mínum þig kæt.

6. Kjóstu þér nú, mey, mann,
muntu vilja fá hann,
seg þú mér þegn þann
þín samvizka bezt ann.

7. Meira hefi' eg ei með þig,
mengrundin glaðlig,
eg veit þú heldur víst mig
vel hafa gipt þig.

8. Brúðurin rjóða, blíð, svinn,
borga þú fyrir manninn,
greiddu mér nú gjöldin,
ef garprinn vera skal þinn.

9. Mörg er hér nú mær gipt,
mér lízt þú vel skipt;
eflir sorgar auðs nipt,
ef aptur væri því kipt. (338 bl.)

Yfir hinu kvæðinu stendur »Kvæðið honum[1] fylgjandi« og er á þessa leið:

[Á[2] Þórhildarleiknum[3] þreyttur er eg núna,
|margan hefi eg[4] manninn gipt
[og meðal þeirra[5] konunum[6] skipt,
er eg því[7] glaðr, að[8] eina fékk eg frúna.[9]

1. Haft hefi' eg nú fult í fángi,
að framkvæma fyrir mína menn,
stórlega, þótt stopult gángi,
stúlkurnar að fá þeim enn,
helzt er von því heim mig lángi
úr hrakníngssömu kreiki
í Þórhildarleiki,
allmargt þó á móti stángi
með mína túngu lúna;
er eg því glaðr, að eina fékk
eg frúna.

2. Þó að nokkur þar að flissi,
það og líka skil eg til,
að einginn fyrir öðrum kyssi
yndisfesta menja bil,
að sinni brúði sérhver hnyssi,
svo þar frá eingin skeiki
í Þórhildarleiki,
fyrðar seims með fróðri vissi
fremji leika búna;
er eg því glaðr, að eina fékk
eg frúna.

3. Skil eg það á við skorður nýtar,
að skuli sérhver hjálma freyr,
þrisvar kyssi allir ýtar
og optar þó að vilji þeir,
þegna einginn um það ávítar,
þótt hreifi sinni veiki
í Þórhildarleiki.
Báru ljóma bríkur hvítar
brjóti' ei festa trúna;
er eg því glaðr, að eina fékk
eg frúna.

4. Spjalda runnar spari ei kossa,
sprundum auki gleðinnar sið,
þá mun eikin báru blossa
betur unna hjörva við.
Líða verður lindin hnossa
lóðins vín þótt skeiki
í Þórhildarleiki.
Byrgi' eg aptur Boðnar fossa,
bezt mun þagna núna;
er eg því glaðr, að eina fékk
eg frúna. (338—39 bl.)

[1] þ. e. þórhildarleiknum. [2] Í. C, Af. B. [3] vantar í A. [4] eg hefi svo margan, A. [5] og með þeim öllum, A. [6] konum. B. Frá [með þeim leikunum, C. [7] sl. C. [8] sl. BC. [9] Séra Guðmundur Einarsson kallar vísu þessa »niðurlag« (í þórhildarleik).

Viðlagið við kvæði þetta er enn fremur til á þremur stöðum í hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L = A., í handriti séra Guðmundar Einarssonar á Breiðabólstað, í vikivakaritgjörð hans og í leikjaritgjörð hans í hrs. ÁM. 970, 4 = B, og í vikivakaskýrslu Guðna læknis Guðmundssonar = C. Guðni skeytir Þórhildarleikinn saman við hindarleik og virðist blanda þeim saman, því hann gjörir ráð fyrir, að í Þórhildarleiknum sé bundið fyrir augun á kvennfólkinu eins og í hindarleiknum, en þess minnist hvorki vikivakaritgjörðin frá aldamótunum né Jón Árnason. Guðni segir, að meðan bundið var fyrir augun á konunum, hafi verið kveðið erindið:

Þórhildur þekk frú o. s. frv.

en

Í Þórhildarleiknum þreyttur er eg núna o. s. frv.

þegar farið var að dansa.

Sæmundur Eyjólfsson lýsir stuttlega Þórhildarleik í Þjóðólfi 1887, nr. 10.

Lýkur hér frá Þórhildarleiknum að segja, og má taka fram að lokum, að Þórhildarleikurinn mun hafa verið allra vikivakaleikja margbrotnastur og flóknastur.

**Hindarleikur**

er að sumu leyti ekki ósvipaður hjartarleiknum, sem seinna verður talað um. Kallar og konur skipuðu sér í raðir, hvora gagnvart annari, en ein af leikkonunum, sem helzt skyldi vera nokkuð roskin og skörugleg, gekk fram á gólfið og kvað vísur þessar.

1. Hér fer[1] hind af[2] heiði
[og[3] hyggur sér til[4] veiði,
aðra[5] eptir[6] leiði[7]
[og af hjarta[8] beiði.[9]

2. Leið hefi' eg lánga geingið,
og leikhjört[10] ei[11] feingið,
hlaupið[12] hart[13] og runnið,
en[14] hjört eingan unnið.

Þessi kona var kölluð hindarmóðir; víkur hún sér nú að kallmönnunum (hjörtunum), tekur í hönd þeim, hverjum eptir annan, bindur fyrir andlit þeim, leiðir þá því næst fyrir kvennfólkið, og lætur þá kjósa sér blindandi einhverja stúlkuna (hindina), og hefur upp þenna formála í hvert skipti:

---

[1] fór. [2] á. [3] sl. G. [4] hugsar eptir, ABF; hugsar uppá, CDE. [5] önnur. [6] á eg. [7] leiðir, C. [8] og fyrir hjörtinn, D. [9] Frá [hvort einginn fyrir sér greiði, A; og þann veginn greiði BF; einhver fyrir oss greiði, CE. [10] lagshjört, A; legsjörð, C (rángt); leikshjört, DFG; lokshjört. E (rángt). [11] eingan G. [12] hleypt, BDF. [13] sl. G. [14] og AC; sl. DG.

3. Eg sé hvar einn[1] hjörtur situr,
[og svo[2] fagur er hans[3] litur.
Góði hjörturinn[4] gá[5] með mér,
gef eg nú[6] fagra[7] hind þér.

4. Hún[8] er[9] svo[10] miðmjó[11]
og[12] mátulega [vel stór.[13]
runnin[14] upp sem rós klár,[15]
[með rétt fagrar gleðibrár.[16]

5. Vel þeim lófum[17] verði,
sem hár þitt þvoði'[18] og þerði;
sízt þeim[19] sóma[20] skerði,
sem[21] þér kemba gerði,
[og þeim fíngrum smá,[22]
sem þitt kemba[23] gula hár.[24]

6. [Vara þig, vara þig,[25] tak mig ei,[26]
[eg telst[27] í[28] málum[29] vöndum;
kjós þú[30] þá þornaná,
[sem[31] þér er næst[32] höndum.

7. (Eigi þá hina elztu
og eigi þá hina ýngstu,
[kjóstu miðlúngarvíf,[33]
[en móður[34] láttu hlaupa.[35]

8. Hvort hún er gömul eða úng[36]
eg skal með[37] ykkur kaupa.
Lítt fær[38] er eg og lyndisþúng
og[39] láttu mig hjá[40] hlaupa.

9. Hepti'[41] eg hróðrarlínu,
hallar kvæði mínu.
Haldi nú[42] hver á sínu,
[svo[43] held eg á mínu.[44]

Þegar hindarmóðirin hefir lokið þessu starfi, útvegað hjörtunum sína hindina hverjum, þá vígir hún öll hjónin í einu, enda hefði hitt tekið lángan tíma, ef margir (20—30 manns) hafa verið í leiknum. Þegar vígslunni er lokið. tekur hindarmóðirin upp sprota, slær honum á sylgju og segir:

Að vígja saman vegleg hjónin
væri mér skylt:
kæri minn. hofmannskonu þína
kystu þegar þú vilt.[45]

---

[1] sl. G. o. fl. [2] skær og. ACDE. [3] Frá [mér sýnist fagur- BF; sýnist fagur G. [4] hjörtur. B. [5] gjör svo vel og gakk, B (að gá að, að gá með) [6] sleppa hinar útg. [7] væna, D. [8] Hann, AC; Þú, D. [9] ert. D. [10] sig svo, margar útg.; sén svo; þig svo, D. [11] miðmjór, ACD. [12] sl.. ABDG. [13] stór þó, BFG. [14] runninn. ACD. [15] há, BF. [16] rétt fagur. heiðblár, AC; rétt fögur, glerblá. B; rétt fagur, glerblár, D: rétt fögur að sjá F. Er. vantar í E. [17] lófa, AC. [18] þó. AG. [19] þann. hdr, G; þess; þinn, B. [20] sæmd, D. [21] sá, BG. [22] sóma, D (rángt). [23] kemdi. D. [24] Frá [stendur aðeins í ACE. [25] þángað til þú segir, AC; Til mín seg. B (Til þín); Til mín segir, DF; Til eg skil þú E. [26] taktu mig eigi. AC. [27] tefst, ABF. helzt G.; Frá [telst, D. [28] úr. D. [29] raunum, A. [30] taktu, ACE; kjós þér; kauptu, DF. [31] sl. B. [32] nærri, D; nær. Frá [ þénara af. [33] taktu miðaldra mær, AC; heldur miðaldra frú. BFG. [34] móðir G. [35] Frá ( sl. DE. [36] hún er úng, B. [37] við G. [38] litföl. ABCDEF. [39] sl. G. [40] því. ADF o. fl. [41] Hleypti. [42] sl. sumir. [43] því nú. [44] B og ýmsar útgáfur. sem eg veit ekki hvaðan stafa. [45] Prentað í Þjóðólfi 1887, nr. 10.

Þá á hver hjörtur að kyssa sína hind og síðan er stiginn dans, bæði af konum og köllum, en hindarmóðirin sýngur fyrir lángt kvæði, hindarkvæði, og er þetta upphaf á því:

Í hindarleiknum hrepti' eg stóra mæði.
Erfiði og ástin treg,
ekki tel eg það heilsuveg.
Þú mátt kveða kvæðin fyrir okkur bæði.

Úr þessu hindarkvæði er líklega vísa ein, sem séra Guðmundur Einarsson færir til:

Hindarleikrinn hann er að vísu búinn.
Hver ei víkja' að kæru kann,
þá kyssi' hana' einhver fyrir hann.
Þetta segi' eg þó að eg sé lúin.

og lítur svo út sem hún sé einna seinast eða allra seinast í kvæðinu. Þá var hindarmóðirin orðin þreytt, en var þó alt af einlæg við kolann, að laða saman hugi kalla og kvenna.

Þessi leikur getur orðið mjög lángur, enda segir máltækið »svo er margur giptur, að ekki kemst alt[1] í vikivakann í einu og verður það[2] frá að gánga, sem búið er að kveða og er svo bætt í aptur, af því sem ókveðið er.«

Útgáfa sú, sem færð hefir verið til, er tekin eptir vikivakaritgjörðinni frá hér um bil 1800 í hrs. Sv. Grv. 66, en fleiri útgáfur eru til af leiknum. Eptir því sem Guðni læknir Guðmundsson á Borgundarhólmi hefir skýrt Jóni Árnasyni frá, stóð hindarleikur í sambandi við Hoffinnsleik. Þegar þeim Hoffinni og félögum hans var hleypt inn, var bundið fyrir augun á öllum piltunum, en konur geingu um gólf og kváðu:

Eg sé hvar einn hjörtur situr o. s. frv.;

áttu nú piltarnir að kjósa sér hver sína konu blindandi. Að því búnu var leyst frá augunum á þeim, og var nú súngið og dansað um hríð. Því næst var bundið fyrir augun á meyjunum og þá var þetta kveðið:

Hér fer hind af heiði o. s. frv.

Konurnar hafa eflaust líka átt að kjósa sér menn blindandi, og var talið að hjónaleysi þau væru gipt í svipinn, sem lent hafði saman, en þegar sami maðurinn varð bendlaður við tvær stúlkur, eða sama stúlkan við tvo pilta, eins og optast hefir eflaust verið, þar sem tvíkosið var blindandi, þá hefir það verið nokkurskonar tvíkvæni og tvímenni, en ekki mun hafa verið tekið hart á því. Loksins má geta þess, að Guðni læknir skeytir hindarleik saman við Þórhildarleik.

Þriðja útgáfan er í annari vikivakaritgjörð Jóns Árnasonar. Hann

[1] þ. e. öll þau hjón, sem vígð hafa verið. [2] þ. e. þau hjón sem þegar hafa kveðið.

kallar hindarmóðurina Þórhildi. Sveinarnir sitja allir fyrir, en Þórhildur kemur inn á gólfið og leiðir eina meyjuna við hönd sér, en hinar koma allar inn á eptir henni. Þórhildur kveður:

Hér fer hind af heiði o. s. frv.

Meyjan, sem Þórhildur leiðir, kveður:

Leið hefi' eg lánga geingið o. s. frv.

Nú litast hindin (mærin) um. sér hjörtinn og kveður enn:

Eg sé hvar einn hjörtur situr,
mér sýnist fagur litur.

Þórhildur geingur að hirtinum og yrðir á hann:

Góði hjörturinn gakk með mér o. s. frv.

Því næst kveður hún fjórða erindið og gyllir hún hind sína með því, en þegar farið er eptir útgáfu séra Guðmundar Einarssonar, verður erindið lof um hjörtinn sjálfan. Enn kveður Þórhildur til hans:

Vel þeim lófum verði o. s. frv.,

og svo kveður hún 6. og 7. er. honum til leiðbeiníngar. Hjörturinn svarar máli Þórhildar:

Hvort hún er gömul eða úng o. s. frv.

en hindin svarar hirtinum:

Litföl er eg og lyndisþúng o. s. frv.

Hjörturinn fer þó ekki að orðum hindarinnar, heldur geingur hann að henni, tekur utan um hana og kveður:

Hepti' eg hróðrarlínu o. s. frv.

En Þórhildur kveður að lyktum, þegar hún hefir útvegað öllum hindunum hirti:

Hindarleikurinn hann er að vísu búinn o. s. frv.

Jón Ólafsson frá Grunnavík færir til þulu úr hindarleik í orðabók sinni Hindarleikur (leikur). Hann segir að hún sé eptir hinn skarpa lögfræðíng Björn [Jónsson] á Skarðsá, og er þá líklega kvæði það, sem prentað hefir verið, eptir hann líka, því þulunni kippir mjög í kynið til þess, þótt þau séu svo ólík, að ekki var hægt að taka það, sem á milli ber, upp í orðamuninn við kvæðið. Þulan er svona:

Hér fer hind af[1] heiði,
hugsar upp á veiði,
aðra aptur leiðir.
Gá þú hjörtrinn, gá með mér,
gef eg þæga hind þér.

---

[1] á. leikur.

Hjörtrinn vill sig hafa af [stað]
hindina að fánga.
Við skulum til þess þá
þorna gná,
hvert sem má,
mín hindin gá.
Eg skal með ykkur kaupa.
Útföl er eg og lyndisþúng,[1]
lát mig því hlaupa,
til þess er lyklum kvenna kasta á gólf
og spilla,
ef þér líkar illa.
Það fór vel að fljóðið skal svo eyrna[2]þykt.
Kæri minn hoffmann[3]
konuna þína
kystu þegar þú vilt.

Prentað í Tímariti Bmfj. 1887, bls. 59.

Enn lýsir Sæmundur Eyjólfsson hindarleik stuttlega í Þjóðólfi 1887, nr. 10.

Eins og áður er getið um, er útg. af kvæðinu í meginmálinu eptir vikivakaritgjörðinni í hrs. Sv. Grv. 66. A = Uppskript dr. Jóns Þorkelssonar ýngra 1880 eptir Þorbjörgu Jónsdóttur prests Eyjólfssonar, konu Ólafs gullsmiðs Sveinssonar í Reykjavík. B = hrs. Sv. Grv. 67, Arch. D 3, með hendi séra Benedikts Þórarinssonar á Ási í Fellum 1850. C = hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L, með hendi séra Jóns Eyjólfssonar, eptir Sigríði Árnadóttur á Læk. D = handrit séra Guðmundar Einarssonar á Breiðabólstað á Skógarströnd í safni Jóns Árnasonar og ÁM. 970, 4. E = handrit Guðna læknis Guðmundssonar á Borgundarhólmi. Hann var stúdent, þegar hann skrifaði það handa Jóni Árnasyni. F = Jón Árnason í annari vikivakaritgjörð hans G = Þjóðólfur 1887, nr. 10. Auk þess hefi eg haft undir höndum ýmsar útg. af kvæðinu, sem eg get eingan borið fyrir, en flestar munu vera komnar til mín frá Jóni Árnasyni.

### Hoffinnsleikur

var mjög tíðleikinn á vökunóttum, enda voru eingin ólæti eða gauragángur honum samfara. Allir kallmenn, sem í leiknum ætla að vera, fara út fyrir dyr, en kvennfólkið situr eptir inni; velja þeir nú tvo þá helztu úr hópnum til þess að vera riddara og hafa orð fyrir sér og halda svörum uppi, og heitir sá Hoffinnur (Hoffinn, Hofmann), sem aðalforustuna skal hafa á hendi, en hinn Alfinnur (Alfinn, Álfinn, Alsvinn), er næstur honum geingur

[1] eða: lyndisúng. l. [2] firna. l. [3] hofmann. l.

að virðíngu. Allir aðrir eru sveinar þeirra; eru þeir foríngjarnir í bónorðsbraski og svo ætlast þeir til, að sveinarnir fari ekki heldur varhluta, ef vel á til að takast. Meyjarnar velja líka einhverja úr sínum flokki til að verða fyrir svörum. Nú gánga piltarnir til dýngjunnar, þar sem meyjarnar eru, klappa á dyr og kveða:

1. Hér ríður[1] Hoffinnur,
hér ríður[1] Alfinnur,
hér ríða[2] allir Hoffinns sveinar.[3]

Þá segja stúlkurnar fyrir innan:

2. Hvað vill Hoffinnur?
Hvað vill Alfinnur?
Hvað vilja allir Hoffinns sveinar?

Þá svara þeir:

3. Mey vill Hoffinnur,
mey vill Alfinnur,
mey vilja allir Hoffinns sveinar.

Þá segja þær:

4. Hvað býður Hoffinnur?
Hvað býður Alfinnur?
Hvað bjóða allir Hoffinns sveinar?

Þá svara þeir:

5. Grjót býður Hoffinnur,
grjót býður Alfinnur,
grjót bjóða allir Hoffinns sveinar.

Þeim þykir lítið boðið og svara í styttíngi:

6. Skríddu[4] burt Hoffinnur,
skríddu[4] burt Alfinnur,
skríðið burt allir Hoffinns sveinar.

Piltarnir fara í burtu, svo sem til að ráðgast um, hvað nú skuli bjóða meyjunum, en koma þó aptur að vörmu spori og hafa þá bæði kallar og konur upp 1.—4. erindi. Nú bjóða þeir Hoffinnur og Alfinnur ekki grjót, heldur eir, eða eitthvað annað því líkt, með þessum orðum:

11. Eir býður Hoffinnur,
eir býður Alfinnur,
eir bjóða allir Hoffinns sveinar.[5]

Enn þykir meyjunum of lítið boðið, en svara þó miklu mýkra en áður:

[1] er kominn, G. Th. [2] eru komnir. [3] Erindið vantar í Fær. Qv. [4] Skríðið. Fær. Qv. [5] Ekki var ávalt boðið grjót og eir. heldur stundum eitthvað annað ófémætt. sem mönnum datt í hug í svipinn.

12. Ríddu[1] burt Hoffinnur,
ríddu' burt Alfinnur,
ríðið burt allir Hoffinns sveinar.

Piltarnir bregða sér enn burt sem snöggvast, en koma þó aptur og hafa nú enn að nýju yfir 1.—4. erindi, en bjóða nú betri boð en áður og segja:

17. Gull býður Hoffinnur,
gull býður Alfinnur,
gull bjóða allir Hoffinns sveinar.

Þá segja meyjarnar blíðlega:

18. Velkominn Hoffinnur,
velkominn Alfinnur,
velkomnir allir Hoffinns sveinar.

Því næst er dyrunum lokið upp. Riddararnir gánga inn með sveinum sínum, takast höndum við meyjarnar og fara að dansa; eru þá súngin fögur kvæði, helzt ástakvæði og mansaungsvísur. Jón Árnason segir, að þegar dyrunum var lokið upp, hafi allir piltarnir kyst hver sínu stúlku og hafi það verið leikslok.

Útgáfa þessi er að miklu leyti tekin eptir bréfi frá Sigurði Guðmundssyni málara til Jóns Sigurðssonar 23. júní 1863 (hrs. Sv. Grv. 66), og hefir Sigurður þar eptir Árna biskupi Helgasyni í Görðum, að þegar hann var barn, hafi hann séð vikivaka á Vestfjörðum, og hafi þar þá verið leikinn Hoffinnsleikur eða Hofmannsleikur. Árni biskup sagði Sigurði þetta 1858, og fylgdi það sögu hans, að sín konan hefði staðið hvoru megin fyrir innan dyrnar og talað við þá Hoffinn. Í hrs. Sv. Grv. 67 eru tvö handrit af kvæðinu, og er annað þeirra eptir útgáfu frá séra Gísla Thorarensen. Enn er kvæðið í ritgjörð P. E. Müllers, Om de færöiske Qvæders Beskaffenhed og Ælde, framan við Lyngbye, Færöiske Qvæder om Sigurd Fafnersbane og hans Æt, Randers 1822, bls. 37—38. Þar er það eptir Márusi stúdent Mattíassyni, sem seinna varð kennari við latínuskóla í Danmörku. Eptir útgáfum séra Gísla og Márusar er kvæðið prentað hjá A. P. Berggreen í Danske Folkesange og Melodier III. útg. 1869, bls. 350.

Ekki fór Hoffinnsleikur ávalt fram eins og lýst hefir verið, og eru til af honum ýmsar tilbreytíngar. Stundum geingust meyjarnar meira fyrir göfugu ætterni en auðæfum, og spurðu ekki um, hvað þeir Hoffinnur byðu, heldur hvers son hann væri:

Hvers son er Hoffinnur?
Hvers son er Alfinnur?
Hvers synir eru allir Hoffinns sveinar?

[1] Ríðið, Fær. Qv.

Þá svaraði Hoffinn:

Kallsson er Hoffinnur,
kallsson er Alfinnur,
kallssynir eru allir Hoffinns sveinar.

En meyjarnar voru ekki svo mjög áfram um að giptast, að þær vildu taka kallssonum og svöruðu:

Ríð í burt Hoffinnur,
ríð í burt Alfinnur,
ríði í burt allir Hoffinns sveinar.

En Hoffinn vill ekki ríða á burt með menn sína. Meyjarnar spyrja hann nú aptur, hvers son hann sé og þykist Hoffinnur þá vera bóndason og ávalt þykist hann vera kominn af tignari ættum, þángað til hann segir:

Kóngsson er Hoffinnur,
kóngsson er Alfinnur,
kóngssynir eru allir Hoffinns sveinar.

Þetta þykir meyjunum gott að heyra og segja:

Velkominn Hoffinnur o. s. frv.,

er þá hurðinni hrundið upp o. s. frv., eins og áður segir. Útgáfa þessi er frá Jóni Árnasyni.

Eptir skýrslu um vikivaka, sem Jón Árnason fékk hjá Guðna lækni Guðmundssyni á Borgundarhólmi, er kvennfólkið látið velja sér prest, og er hann inni hjá því, meðan þeir Hoffinnur eru í bónorðsbraskinu, og heldur hann uppi svörum af hálfu meyjanna. Þegar þeir Hoffinn berja að dyrum, spyr prestur, hverjir séu úti fyrir. Þeir svara:

Hér er Hoffinn[1],
hér er Alfinn,
hér eru allir Hoffinnssveinar.

Að öðru leyti er leikurinn, eptir því sem Guðni segir frá honum, alveg eins og útgáfa Jóns Árnasonar, nema Guðni skeytir hann saman við hindarleik.

Fjórða tilbreytíngin af Hoffinnsleik virðist líka eiga rót sína að rekja til Vesturlands, því sögumaður Jóns Árnasonar, sem eg veit ekki hver er, hafði hana eptir föður sínum, en honum sagði húsfrú Þórdís, kona Sigurðar prófasts Jónssonar að Rafnseyri, móðir Jóns Sigurðssonar. Þegar hún var milli fermíngar og tvítugs var hún við leik þennan á Þíngeyri í Dýrafirði, og var Anders Steenbach þar þá kaupmaður. Útgáfa þessi er annars mjög lík útgáfu Sigurðar málara. Það er þó að mununum, að hér er leikurinn látinn fara fram í stóru herbergi og eru meyjarnar í öðrum endanum, en

[1] hofmann.

piltarnir í hinum. Báðir flokkarnir gánga nú fram á gólfið og fer alt fram eins og áður. Þó svara meyjarnar þeim Hoffinni ekki eins meinlega í fyrsta skipti og hjá Sigurði málara, heldur eins og í útgáfu Jóns Árnasonar. Leikurinn endar hér með því, að hver piltur tekur sína mey og kyssir hana og hefst dansleikurinn að því búnu.

Enn er drepið á Hoffinnsleik í vikivakaritgjörðinni frá hérumbil 1800 í hrs. Sv. Grv. 66, og í greinarkorni um vikivaka eptir séra Guðmund Einarsson á Breiðabólstað, sem hann mun hafa samið fyrir Jón Árnason. Séra Guðmundur segir, að sá sem stýrði Jörfagleðinni hafi verið nefndur Hoffmann eða Hoffinn, en Álfinn sá sem gekk honum næstur, og hafi allir leikar, sem fóru fram í gleðinni, hvort sem þeir voru margir eða fáir, endað á þessu atkvæði:

Mey vill Hoffinn,
mey vill Álfinn.
mey vilja allir Hoffinnssveinar;

er þá mælt að kallmenn hafi geingið í kvennahópinn, foríngjar fyrst og síðan hver af öðrum og tekið sér konu til fylgilags.

Loksins eru drefjar úr leiknum hjá K. Weinhold, Die deutschen Frauen in dem Mittelalter, Wien, 1851, bls. 208—209.

Leikur þessi er síðan á miðöldunum og hefir leingi tíðkazt hér á landi meðal barna, eptir að vikivakar voru lagðir fyrir óðal. Séra Gísli Thorarensen hefir sagt A. P. Berggreen, að kvæðið væri haft fyrir vöggukvæði á hans dögum. Stundum væri það líka súngið í brúðkaupum. Brúðguminn og félagar hans byrjuðu kvæðið fyrir utan svefnherbergi brúðarinnar og væru dyrnar harðlæstar, en stallsystur brúðarinnar, sem væru inni hjá henni, svöruðu[1]. Þegar kvæðið hefir verið haft um hönd í brúðkaupsveizlum, hefir eflaust ekki verið boðið grjót eða eir eða annað af því tagi, heldur ávalt eitthvað fémætt, þótt það muni hafa verið boðið fyrst, sem ódýrmætast var, en boðið svo hækkað.

Þetta kemur heim við íslenzka veizlusiði, sem tíðkuðust fram á þessa öld. Frú Gytte Thorlacius, kona Þórðar sýslumanns Skúlasonar Thorlacius's, sýslumanns í Suðurmúlasýslu, hefir ritað bókarkorn um Ísland, og er þetta þar um brúðkaupssiði þá, sem standa í sambandi við Hoffinnsleik:

»Brúðkaupskvöldið, þegar veizlunni sjálfri er lokið, fer brúðurin úr sumum utanhafnarfötunum og sezt á brúðarsængina, en nokkrar konur, sem hafa verið kosnar »talsmenn« handa henni, setjast kríngum hana. Brúðguminn kemur nú inn og nokkrir kallmenn með honum, og fara þeir að tala um, hve mikið þyrfti að bjóða til að fá að sofa hjá brúðinni. Brúðguminn býður fyrst, en einhver af félögum hans býður hærra og halda þeir áfram að bjóða, hver í kapp við annan, þángað til talsmönnum brúðarinnar

[1] Hrs. Sv. Grv. 67.

þykir nógu hátt boðið og á brúðguminn ávalt það boð, eins og eðlilegt er. Boðið nær stundum tvö hundruð spesíum, en þeir sem fátækari eru bjóða þó ekki peninga, heldur kú eða nokkrar kindur. Talið er að konan ein eigi fé það, sem boðið var, og er venjulega samið staðfestíngarbréf um það. Þótt húsbóndinn deyi frá skuldum, er aldrei gjörð krafa til [þessarar] eignar konunnar«[1].

Jón Sigurðsson lýsir sama siðnum í skýríngargrein við vísuna »Morgungjöfin:«

> Hér eru' í boði hundar tveir,
> hentug sængurborgun,
> gjarnan skulu greiddir þeir
> góðfúslega á morgun

í ljóðabók Jóns Þorlákssonar II. 1843, bls. 392. »Það var forn siður á Íslandi, að bjóða upp á rúm fyrir brúðguma, þegar hann skyldi gánga til sængur brúðkaupskvöldið; stóðu þá konur í sængurhúsinu og héldu aptur dyrum og var ein fyrir svörum af hendi brúðarinnar, en brúðgumi og kallmenn þeir, sem honum fylgdu, stóðu fyrir utan og bauð einn inn til sængurinnar fyrir hönd brúðguma; var þar boðið ýmislegt, sem mönnum kom til hugar. Þegar boðið var svo mikið, sem til var ætlað að morgungjöfin yrði, var brúðgumanum leyfð inngánga í sængurhúsið.«

Enn minnist Torfhildur Þorsteinsdóttir Holm á siðinn, að bjóða í brúðarsængina, á tveimur stöðum í skáldsögu sinni, Jón biskup Vídalín (Draupnir II. 1893, bls. 95, 120), en lýsir honum talsvert öðruvísi en hér er gjört, því hún lætur boðið vera spaug, sem ekkert hafi að þýða, og minnist alls ekki á morgungjöf. En útgáfa Torfhildar mun vera reingri en mín.

Siðurinn að gefa brúðinni morgungjöf hefir líka tíðkazt í Noregi og verið líkur því, sem lýst hefir verið[2].

Lag er til við Hoffinnskvæði, eptir því sem það var súngið á Íslandi fram undir miðja þessa öld, og er það prentað hjá A. P. Berggreen, þar sem til er vísað. Hann hefir lagið frá séra Gísla Thorarensen 1843, munnlega:




[1] Fru Th.: Erindringer fra Island. 1845, bls. 7—9. Eptir henni hefir J. C. Poestion farið í athugagrein við Jón Thoroddsen, Jüngling und Mädchen. Berlin und Leipzig. 1883; bls. 147.

[2] Sbr. frásögn um brúðkaupssiði í Noregi. Hrs. Thotts nr. 1719, 4.

Hoffinnsleikurinn og Hoffinnskvæðið hefir tíðkazt á Þýzkalandi[1], Danmörku[2] og Svíþjóð[3]. Svo lítur út, sem danski leikurinn hafi verið eða sé mjög líkur þeim íslenzka, en sá sænski er nokkuð öðruvísi. Leikmenn skipa sér í tvær raðir; eru kallmenn í annari, en konur í hinni. Kallmennirnir taka hver í hendurnar á öðrum og dansa á móti kvennaröðinni, en leita aptur undan, meðan fyrsta erindið er súngið. Konurnar fara eins að við annað erindi og svo koll af kolli. Alls er kvæðið 14 erindi, og er mjög líkt Hoffinnskvæðinu íslenzka.

## Hamborgarkaupin.

Kvæði það, sem fer hér á eptir, er auðsjáanlega leikkvæði, en eg hefi hvergi séð lýsíngu á því, hvernig leikurinn hefir verið. Það virðist annars vera nokkurn veginn ljóst af kvæðinu sjálfu. Einhver kallmaður í leiknum læzt vera faðir einhverrar stúlkunnar. Hann þykist ætla að fara verzlunarferð til Hamborgar. Dóttir hans mælist til að hann kaupi sér þar eitthvað. Bóndinn tekur því vel og býzt til að kaupa ýmislegt kvennskart og aðra góða gripi, en dóttir hans vill ekki líta við því. Þá býður hann henni að kaupa henni gull og silfur, en hún vill ekki sjá það heldur. Loksins segist hann munu kaupa henni pilt. Þá hefst brún á heimasætunni, og er henni svo hugleikið að eignast þann varníng, að hún biður föður sinn að kaupa sér þrjá pilta.

Nafnið á Hamborg er eflaust bendlað við leikinn af þeirri ástæðu, að í gamla daga (á 16. öld) verzluðu Íslendíngar mest við Hamborgarbúa, og hefir því íslenzk alþýða talið Hamborg mesta og auðugasta verzlunarborg í heimi.

I.

1. Faðir: »Til Hamborgar ætla' eg mér að ríða í dag.«
Dóttir: »Hvað muntu minn faðir mér kaupa þar?«
Faðir: »Silkið, dóttirin!«
Dóttir: »Gjörðu það fyrir hamíngju skuld
og kauptu það ei.«

2. Faðir: »Til Hamborgar ætla' eg mér að ríða í dag.«
Dóttir: »Hvað muntu minn faðir mér kaupa þar?«
Faðir: »Klútinn, dóttirin!«

[1] Hoffmann und Richter, Schlesische Volkslieder, bls. 119, nr. 98. Eg hefi ekki séð bókina. [2] Frá sveitinni kríngum Gjesing hér um bil 1770. Lyngbye, Fær. Quæder, bls. 589. Önnur útgáfa, »Offer og Ædelig«, er prentuð hjá A. P. Berggreen í Danske Folkesange og Melodier 1869, bls. 304, sbr. H. F. Feilberg, Dansk Bondeliv. Kbh. 1889, bls. 271—72. Sv. Grundtvig, Gamle danske Minder. Ny Saml. 1857, bls. 299—301. [3] Berggreen, Svenske Folkesange II. útg. 1861, bls. 163—64, nr. 164 »Simon i Sälle«.

Dóttir: »Gjörðu það fyrir hamíngju skuld
og kauptu hann ei.«

3. Faðir: »Til Hamborgar ætla' eg mér að ríða í dag.«
Dóttir: »Hvað muntu minn faðir mér kaupa þar?«
Faðir: »Kvennhattinn, dóttirin!«
Dóttir: »Gjörðu það fyrir hamíngju skuld
og kauptu hann ei.«

4. Faðir: »Til Hamborgar ætla' eg mér að ríða í dag.«
Dóttir: »Hvað muntu minn faðir mér kaupa þar?«
Faðir: »Kjólinn, dóttirin!«
Dóttir: »Gjörðu það fyrir hamíngju skuld
og kauptu hann ei.«

5. Faðir: »Til Hamborgar ætla' eg mér að ríða í dag.«
Dóttir: »Hvað muntu minn faðir mér kaupa þar?«
Faðir: »Söðulinn, dóttirin!«
Dóttir: »Gjörðu það fyrir hamíngju skuld
og kauptu hann ei.«

6. Faðir: »Til Hamborgar ætla' eg mér að ríða í dag.«
Dóttir: »Hvað muntu minn faðir mér kaupa þar?«
Faðir: »Silfrið, dóttirin!«
Dóttir: »Gjörðu það fyrir hamíngju skuld
og kauptu það ei.«

7. Faðir: »Til Hamborgar ætla' eg mér að ríða í dag.«
Dóttir: »Hvað muntu minn faðir mér kaupa þar?«
Faðir: »Gullhrínginn, dóttirin!«
Dóttir: »Gjörðu það fyrir hamíngju skuld
og kauptu hann ei.«

8. Faðir: »Til Hamborgar ætla' eg mér að ríða í dag.«
Dóttir: »Hvað muntu minn faðir mér kaupa þar?«
Faðir: »Piltinn, dóttirin!«
Dóttir: »Gjörðu það fyrir hamíngju skuld
og kauptu mér þá þrjá.«

II.

Faðir: »Á torg ætla eg að ríða í dag«
Dóttir: »Hvað skaltu minn faðir mér kaupa þar?«
Faðir: »Eg ætla að kaupa þér hempuna,
mín dóttir.«

Dóttir: »Nei, nei minn faðirinn,
ekki duga ráðin þín.
Gjörðu fyrir guðs skuld
og kauptu mér hann ei.«

AM. 153 V, 8, nr. 22. Frá byrjun 18. aldar. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar og í sama safni 65. með hendi Sv. Grv.

## Giptíngahjal

kalla eg leik einn, sem mönnum var títt að hafa til gamans á vökunóttum. Einhver kallmaðurinn eða einhver konan tók sig til og lézt vera faðir eða móðir einhverrar ýngisstúlkunnar, sem við var og ekki var fráleit því, að fá sér mann, þótt ekki væri nema í orði kveðnu, ef einhver góður væri í boði. Faðir eða móðir bjóða nú dóttur sinni hina og þessa, helzt þá, sem við voru, en nefna þá ekki með nafni, heldur eptir iðn sinni, en eingum átti að geta blandazt hugur um, við hvern átt væri í hvert skipti. Samtalið milli þeirra um þetta efni var jafnan í ljóðum og varðaði þá miklu, að úngfrúin væri liðug að snúa sér út úr svörum, finna einhverjar gildar ástæður bæði til synjunar og jáyrðis og koma þeim vel og fljótt fyrir í ljóðum. Fimm útgáfur eru enn til af þesskonar spurníngum og svörum, og er það líklega aðeins lítill hluti þess, sem menn hafa kunnað til forna af þessu tagi, til þess að hafa á hraðbergi ef til þurfti að taka[1].

I.

1. Móðir: »Ó, mín dóttirin blíða[2],
ætlar þú leingi únga mær,
ógipt að bíða?«
Dóttir: »Bíð eg sem aðrar,
bjóðist mér einginn.«
Móðir: »Viltu eiga prestmann,
mín dóttirin blíða?«
Dóttir: »Ónei, móðir mín,
aum eru ráðin þín.
Þá hann kyrjar í kór
og þykist öllum of stór,
bágt á sú, sem þess á að bíða,
að sofa hjá honum prestmann á síðan.«

2. Móðir: »Ó, mín dóttirin blíða,
ætlar þú leingi únga mær,
ógipt að bíða?«

[1] Nafnið á leiknum og inngángurinn er eptir Pálma Pálsson. [2] fríða.

Dóttir: »Bíð eg sem aðrar,
bjóðist mér einginn.«
Móðir: »Viltu eiga fjósmann,
mín dóttirin blíða?«
Dóttir: »Ónei, móðir mín,
aum eru ráðin þín.
Þá hann kippir mykjuhlass
og þjónar undir baulu rass,
bágt á sú, sem þess á að bíða,
að sofa hjá honum fjósmann á síðan.«

3. Móðir: »Ó, mín dóttirin blíða,
ætlar þú leingi únga mær,
ógipt að bíða?«
Dóttir: »Bíð eg sem aðrar,
bjóðist mér einginn.«
Móðir: »Viltu eiga kaupmann,
mín dóttirin blíða?«
Dóttir: »Ójá, móðir mín,
góð eru ráðin þín.
Þá hann siglir út á lá
og margt er fallegt honum hjá,
gott á sú, sem þess á að bíða,
að sofa hjá honum kaupmann á síðan.«

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. P.

II.

1. Móðir: »Elskulega dóttir mín,
ætlarðu leingi únga mærin,
ógipt að bíða?«
Dóttir: »Bíð eg sem aðrar,
bjóðist mér einginn.«
Móðir: »Viltu ekki fjósmanninn,
og svo alla dagana
mun þér eptir gánga?«
Dóttir: »Ónei, móðir mín,
slæm eru ráðin þín.
Hann mokar mykjuhlass
og þjónar undir baulurass.
Ilt á sú, sem á þess að bíða,
að sofa hjá honum fjósmanni' á síðan.«

2. Móðir: »Elskulega dóttir mín,
ætlarðu leingi únga mærin,
ógipt að bíða?«
Dóttir: »Bíð eg sem aðrar,
bjóðist mér einginn.«
Móðir: »Viltu ekki fjármanninn,
og svo alla dagana
mun þér eptir gánga.«
Dóttir: »Ónei, móðir mín,
slæm eru ráðin þín.
Hann stikar við staung
og styttir sér dægur laung.
Ílt á sú, sem á þess að bíða,
að sofa hjá honum fjármanni' á síðan.«

3. Móðir: »Elskulega dóttir mín« o. s. frv.
»Viltu ekki prestmanninn?« o. s. frv.
Dóttir: »Ónei, móðir mín,
slæm eru ráðin þín.
Hann hrópar hátt í kór,
þykir öllum ofstór.
Ílt á sú« o. s. frv.

4. Móðir: »Elskulega dóttir mín,
ætlarðu leingi únga mærin,
ógipt að bíða?«
Dóttir: »Bíð eg sem aðrar,
bjóðist mér einginn.«
Móðir: »Viltu ekki kaupmanninn,
og svo alla dagana
mun þér eptir gánga.«
Dóttir: »Ójú, móðir mín,
góð eru ráðin þín.
Hann siglir um sjá
og margt er honum fallegt hjá.
Gott á sú, sem [á þess[1] að bíða,
að sofa hjá honum kaupmanni' á síðan.«

Eptir handriti Guðmundar Davíðssonar.

III.

1. Faðir: »Mín, mín, dóttir mín hin fríða,
hversu leingi ætlar þú þér mannlaus að bíða?«

---

[1] slíks náir.

Dóttir: »Bíð eg sem aðrar,
bjóðist mér einginn.«
Faðir: »Viltu eiga fjósamanninn?
Þá mun þér leingi
við gott búið gánga.«
Dóttir: »Ónei, faðir minn,
slæm eru ráðin þín.
Fjósamanninn vil eg ei
og við honum segi' eg nei.
Hann þjónar undir baulurass
og ber[1] saman skítahlass.
Ilt á sú, sem á þess að bíða,
að sofa hjá honum fjósamanni' á síðan.«

2. Faðir: »Mín, mín, dóttir mín hin fríða,
hversu leingi ætlar þú þér mannlaus að bíða?«
Dóttir: »Bíð eg sem aðrar,
bjóðist mér einginn.«
Faðir: »Viltu eiga fjármanninn?
Þá mun þér leingi
við gott búið gánga.
Dóttir: »Ónei, faðir minn,
aum eru ráðin þín.
Fjármanninn vil eg ei
og við honum segi' eg nei.
Hann [styður sig[2] við staung,
og styttir sér dægur laung.
Aumt á sú, sem á þess að bíða,
að sofa hjá honum fjármanni' á síðan.«

3. Faðir: »Mín, mín, dóttir mín hin fríða,
hversu leingi ætlar þú þér mannlaus að bíða?«
Dóttir: »Bíð eg sem aðrar,
bjóðist mér einginn.«
Faðir: »Viltu eiga kórmanninn?
Þá mun þér leingi
við gott búið gánga.«
Dóttir: »Ónei, faðir minn.
Aum eru ráðin þín.
Kórmanninn vil eg ei
og við honum segi' eg nei.

[1] *mokar.* [2] *stikar.*

Hann kyrjar hátt í kór
og þykist öllum of stór.
Ílt á sú, sem á þess að bíða,
að sofa hjá honum kórmanni' á síðan.«

4. Faðir: »Mín, mín, dóttir mín hin fríða,
hversu leingi ætlar þú þér ógipt að bíða?«
Dóttir: »Bíð eg sem aðrar,
bjóðist mér einginn.«
Faðir: »Viltu eiga prestmanninn?
Þá mun þér leingi
við gott búið gánga.«
Dóttir: »Ónei, faðir minn.
Aum eru ráðin þín.
Prestmanninn vil eg ei
og við honum segi' eg nei.
Ílt á sú, sem á þess að bíða,
að sofa hjá honum prestmanni' á síðan.«

5. Faðir: »Mín, mín, dóttir mín hin fríða,
hversu leingi ætlar þú þér mannlaus að bíða?«
Dóttir: »Bíð eg sem aðrar,
bjóðist mér einginn.«
Faðir: »Viltu eiga kaupmanninn?
Þá mun þér leingi
við gott búið gánga.«
Dóttir: »Ójá, faðir minn.
Góð eru ráðin þín.
Kaupmanninn vil eg fá
og við honum segi' eg já.
Gott á sú, sem á þess að bíða,
að sofa hjá honum kaupmanni' á síðan.«

IV.

Faðir: Ketela heitir mín dóttirin fríða.
»Hversu leingi viltu únga, mannlaus bíða?
Viltu eiga hann gullsmið, mín dóttir?
Þá muntu svo leingi
með gott búið gánga.«
Dóttir: »Nei, nei, minn faðirinn.
Aum eru ráðin þín:
það mér þykir hann gullsmiður
ekki nema *tóran* ein.

Sú er aum, sem þess á að bíða,
að sofa hjá honum gullsmið á síðan.«

Hrs. ÁM. 153 V. 8, nr. 23 (Hérumbil 1700). Afskr. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar, og sama safni 65 með hendi Sv. Grv.

V.

1. Dóttir spurði móður sín,
þá hún var heima:
»Hvort vill einginn biðja mín
til yndisgreina?
Láttu mig ekki leingur sofa eina.«

2. Móðir: »Viltu eg fái þér messuprest,
sem úngum stúlkum þénar bezt?«

3. Dóttir: »Ei vil eg eiga þann messuklerk,
því biskups völdin eru svo sterk.«

4. Móðir: »Viltu að eg fái þér einn hagan mann,
sem smíða alt og fella kann?«

5. Dóttir: »Ekki vil eg eiga þann enn haga mann,
Hann gjörir sig jafnan kolugan.«

6. Móðir: »Viltu að[1] eg fái þér kotúngsson?
Þér er aldrei framar von.«

7. Dóttir: »Ekki vil eg eiga þann úr kotinu fer.
Hann kann einga hegðun á sér.«

8. »Hofmanns kvinnan[2] vilda' eg vera,
rauðan kyrtil skyldi' eg bera«

9. Móðir: »Hofmaðurinn slær þig högg á kinn,
hann gjörir það opt um margt eitt sinn,
þá hann er heima.«
Dóttir: »Láttu mig ekki leingur sofa eina.«

10. Dóttir: »Hirði' eg ei þótt hofmaðurinn blaki smátt;
eg hefi svo marga yndis nátt,
þá hann er heima.
Láttu mig ekki leingur sofa eina.

11. Hirði' eg ei þótt hann slái mig fimm eða sex,
skapið minnkar en heiðurinn vex
til yndis greina.
Láttu mig ekki leingur sofa eina.«

Ny kgl. Saml. 1141, fol. nr. 88. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 67, með hendi

[1] *sl. G. Ív.* [2] kvinna G. Ív.

Sigurðar kennara Sigurðssonar. 1. er. í hrs. Sv. Grv. 65 og 67, með hendi hans sjálfs. Kvæðið í heild sinni í kvæðabók Gísla Ívarssonar (hrs. J. Sig. 405, 4). Fyrsta erindi prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 236.

## Fuglaástir.

Kvæði það, sem fer hér á eptir, er auðsjáanlega leikkvæði, en það er eins með það og Hamborgarkaupin, að eg hefi hvergi séð lýsíngu á leiknum. Leikurinn hefir þó verið nokkurs konar giptíngaleikur í sömu átt og Giptíngahjal. Eptir því sem mér skilst á kvæðinu, hefir kallmaður viljað ná sér í konu, eins og ekki er frásöguvert. Nú læzt hann ekki þekkja konuna, sem honum leikur hugur á, en spyr hana þó, hvort hún vilji þýðast sig. Stúlkan er varkár og tekur boðinu ekki fjærri, en vill þó fá nákvæmari sagnir um hagi mannsins. Nú er hann hræddur um, að ef hann segi þegar í stað satt og rétt frá sér og högum sínum, þá muni stúlkan ef til vill neita sér um alla blíðu, og tekur það því til úrræðis, að nefna ýmsa fugla, og spyrja hana hvort hún vilji eiga þá »sér að kalli«. Þetta gjörir hann til að komast að skaplyndi hennar. En þegar stúlkan segist vilja eiga skúminn af því hann sé karlægur kall, en hún sjálf sé komin að falli, þá er tvent til, að maðurinn hafi þótzt bregðast reiður við og hætta við alt saman, eða þá að hann hefir talið sér stúlkuna vísa til fylgilags, þar sem hún var ekki betur innrætt.

1. »Vina mín, viltu nokkuð með mér gánga?«
»Víst vil eg heyra,
hvað þú vilt bjóða.«
»Viltu eiga örninn þér að kalli?«
»Ónei, viti menn,
og svo vil eg mæla.
Ekki vil eg með erninum
únglömbin hremma,
fuglanna verstur.
Farðu' ei leingur með það.«
Ein sefur uglan á kvisti.

2. »Vina mín« o. s. frv.
»Viltu eiga hrafninn þér að kalli?«
»Ónei, viti menn o. s. frv.
Ekki vil eg með hrafninum
augun út kroppa,
fuglanna verstur« o. s. frv.

3. »Vina mín« o. s. frv.
»Viltu eiga máfinn þér að kalli?«
»Ónei, *viti menn* o. s. frv.

Ekki vil eg með máfinum
fiskinum stela,
fuglanna verstur« o. s. frv.

4\. »Vina mín« o. s. frv.
»Viltu eiga fálkann þér að kalli?«
»Ónei, viti menn o. s. frv.
Ekki vil eg með fálkanum
systurbani vera,
fuglanna verstur« o. s. frv.

5\. »Vina mín« o. s. frv.
»Viltu eiga lóuþrælinn þér að kalli?«
»Ónei, viti menn o. s. frv.
Ekki vil eg með lóuþrælnum
eggin mín fela,
fuglanna verstur« o. s. frv.

6\. »Vina mín, viltu nokkuð með mér gánga?«
»Víst vil eg heyra,
hvað þú vilt bjóða,«
»Viltu eiga skúminn þér að kalli?«
»Ójá, viti menn,
og svo vil eg mæla,
því hann er kallinn karlægur
og eg er komin að falli.
Bjúgt nef bæði höfum
og bein loðin.«
og nú sefur uglan ein á kvisti.

## Brot úr giptíngarleik.

Kallmaður kemur inn á vökuna og kveður:

1\.

Konu vil eg mér kjósa,
kinnfagra, ljósa;
væri hún fríð undir faldi,
fimtán vetra' að aldri,
bæri hún gull á höndum,
búið[1] úr öðrum löndum,
kærleiksrík og sparsöm

[1] komin.

og tryggvasta blóð,
tilsýndar viðlík
og sú sem eg þekti,
hefði ekki mitti
yfir hálfa aðra spönn,
hnöttótt um lífið
og útlimagrönn.
Hægra' er að óska sér
en að fá
í henni veröldu
stúlkuna þá.

Eptir handriti Guðmundar Davíðssonar.

II.

Konu vildi' eg mér kaupa,
kynni hún silki' að spinna,
bæri' hún gull á höndum
komið úr öðrum löndum.
[Væri hún fríð und[1] faldi,
fimtán vetra' að aldri.
Finn eg opt fátt á orðum
hjá fögrum baugaskorðum.

Eptir handriti séra Guðmundar Einarssonar og Jóns Árnasonar.

Sjálfsagt hefir verið til svar konunnar í ljóðum, en hvergi hefi eg rekið mig á það.

## Brot úr öðrum giptíngaleik.

Svo lítur út sem maður komi inn á gleðivökuna og sé honum í hug að kvænast, en hafi ekki ráðið hvar hann á að bera niður. Hann virðir nú meyjarnar fyrir sér og kveður:

Hér sitja meyjar í mannhríng
með sinn úngan öðlíng.
Skoða vildi' eg skartshríng,
að skemta mér um kríng.

Einhver stúlkan, líklega einhver forstöðukona, sér þetta hik á manninum og hvetur hann til að vera einurðargóðan við meyjarnar með þessari vísu:

Hvar er vinur hugur þinn,
að hennar leita[r] eigi?
Þig að öllu maður minn
mjög stöðugan segi.

Eptir handriti séra Guðmundar Einarssonar og Jóns Árnasonar.

---

[1] fríða undir.

## Brúarleikur.

Í Íslenzkum skemtunum hefi eg lýst brúarleik eða bandaleik (bls. 122—24) og fært til þulu þá, sem er samfara honum. Þar er þess og getið, að brúarleikur hafi tíðkazt í vikivökum, og víst er, að Árni biskup Helgason sá brúarleik í vikivaka á Vestfjörðum í úngdæmi sínu, eptir því sem hann sagði Sigurði Guðmundssyni málara.

Jón Árnason lýsir þessum vikivakabrúarleik í vikivakaritgjörð sinni svo sem nú skal greina: »Leikliðinu, öllu var fyrst skipt í tvær sveitir og voru konurnar inni á baðstofugólfi, þar sem gleðin var haldin, og sýnist fyrirkonan hafa átt að vera kóngsdóttir, en kallmennirnir fóru fram og voru fyrir framan baðstofudyr. Tveir menn voru inni hjá konunum og stóð sinn hvoru megin baðstofudyra og héldu styttubandi á milli sín fyrir miðjum dyrum«. Kallmennirnir geingu nú með sveit sína inn að baðstofudyrum, þegar alt var tilbúið, og bað forstöðumaður þeirra þeim inngaunguleyfis með fyrstu línunni í þulunni. Bandmennirnir svöruðu annari línunni o. s. frv. Þulan er alveg eins hjá Jóni Árnasyni og mér í Ísl. skemtunum, og þarf því ekki að færa hana til hér, en um leið og bandmennirnir sögðu:

og hann skal í snörunni hánga,

lyptu þeir upp bandinu, svo manngeingt var undir það; »geingu svo aðkomendur inn á baðstofugólfið úr gaungunum og höfðu höfuðin svo þétt saman hver við annan, að bandið kæmist ekki á milli þeirra. Einkum sátu bandmennirnir um þann, sem síðastur gekk, að koma bandinu niður á milli hans og þess, sem næstur honum gekk, og ef þeim tókst það, höfðu þeir unnið og máttu þá aðkomendur einga konu snerta, þeir sem inn komust, en annars lágu konurnar lausar fyrir, og var hér alt komið undir kænsku og snarræði seinasta mannsins, að hann yrði ekki fángaður, og mun því hafa verið hafður til þess valinn maður.«

## Kellíngarleikur

var leikinn á þann hátt, að teknir voru tveir kallmenn og færðir í kvennbúníng; skyldi annar þeirra vera kellíng, en hinn dóttir hennar. Kellíngin var svo búin, að hún hafði loðinn hundsbelg á höfði; var hann troðinn út mel eða heyi og reyrður ramlega niður um kjálkana, en fyrir andlitinu var grímuhetta með gleraugum. Klædd var hún vondri hærusekksdulu, sem náði niður fyrir mjaðmir, og öll þakin meltuskum, leppum og tyrjum. Roðaveski hafði hún á baki og vonda sjóvettlínga á höndum. Dóttir hennar var aptur á móti vel búin með skaut á höfði, »og lafir skottið á hnakkanum«, í kvennhempu góðri og »eru saumuð tröf, annað á brjóstið en annað á bakið; alt þetta með látúnslistum; hún ber og lyklakerfi, sem hún veisar og hrínglar, þegar henni þykir fyrir.« Er til þessa valinn tölugur, ráðsettur og siðprúður maður og stendur hann svo búinn í dyrum gleðisalsins, og er

að spjalla við heimabónda og spyr hann hana spjörunum úr, þegar kellíng kemur að dyrum; fylgja henni tveir þrælar, Kári og Benedikt lángi; spyr dóttir kellíngar þá þegar eptir þeim og þykist vant við þá komin, en kellíng vill ekki heyra þá nefnda og rekur upp úr sér ámáttlegt gól. En er dóttir kellíngar er þess vís orðin, að þrælarnir eru þar, biður hún leyfis að móðir sín megi gánga í gleðistofuna, og er það látið eptir henni með því skilyrði, að hún leggi fram kynníng sína. Þrífur hún þá upp úr poka sínum veski og er þar í vitnisburður hennar. Þessir vitnisburðir voru með mörgu móti. Þetta er upphaf á einum:

Hér er komin
hópinn að prýða
Fleinhildur forna
úr ferðum austan,
bragna alla
beðið hefir
um fyrirgreizlu
á ferðum sínum.

Annar vitnisburður byrjar svo:

Hér er komin
kona öldruð
og dóttir hennar,
dáfalleg píka.

Í einum vitnisburði kellíngar er þessi vísa:

Móðirin hefir
merkilegt heiti,
hún er kölluð Gunnhildur
gríðarsterka,
en dóttirin heitir,
dáfalleg píka,
Eldgríður opin[1],
sem amar henni mikið[2].

Nú er kellíng hefir lagt fram kynníng sína í dyrunum, geingur dóttir hennar að henni og kveður hana inn með þessum orðum:

Skundum við til hallarinnar,
mín móðir,
skundum við til nallarinnar
mín móðirin góða.

---

[1] Sbr. Allra flagða þulu í sögunni af Vilhjálmi Sjóð. [2] Í handriti því, sem vísur þessar eru teknar úr, er þessi vísa látin vera framhald fyrstu vísunnar, en það getur ekki verið rétt.

Þá gjörir kellíng sig reiða og segir mjög ámáttlega:

Hvað þángað?
mín dóttir,
hvað þángað?
mín dóttirin góða.

Þá svarar dóttir hennar og segir:

Kaupum við okkur,
[mín móðir],
kaupum við okkur úngan mann.
móðirin mín góða.

Þá svarar kellíng:

Hversu gamall skal hann?
[mín dóttir],
hversu gamall skal hann?
dóttirin mín hin góða.

Þá svarar dóttir hennar og segir:

Sextugur að aldri,
[mín móðir],
sextugur að aldri,
móðir mín hin góða.

Þá segir kellíng:

Hann er sig fyrir of gamall,
[mín dóttir],
hann er sig fyrir of gamall,
mín dóttir góða.

Þá segir dóttir hennar:

Tvítugur að aldri,
[mín móðir],
tvítugur að aldri,
mín móðir góða.

Þá svarar kellíng:

Hann er sig svo of úngur,
[mín dóttir],
hann er sig svo of úngur,
mín dóttir góða.

Þá segir dóttir hennar:

Þrítugur að aldri,
[mín móðir],

þrítugur að aldri,
mín móðir góða.

Þá tekur kellíng lúður, hrútshorn eða tóma könnu og æpir þar í og segir:

Hann er sig svo mátulegur,
[mín dóttir],
hann er sig svo mátulegur,
mín dóttir góða.

Stundum var breytt til um aldurinn frá því sem hér segir, eptir því hvort menn vildu láta þær mæðgur vera að þrefa leingur eða skemur um það, hve gamall unnusti dótturinnar skyldi vera. En er valinu er lokið og dóttir kellíngar hefir feingið sér mann, taka menn kellíngu og fleyja henni á gólfið, en hún streitist á móti og »lætur öllum látum nema góðum,« þeytir lúðurinn og þrífur í roðabagga sinn og fleygir roðunum framan í hvern mann, en þrælarnir veita henni þá þjónustu, sem þeir bezt kunna. Síðan heldur þetta hyski vikivaka fyrir sig »og kveður þá hvert upp á annað bæði níð og glens«, og síðan fer það að dansa og er þá kveðið fyrir. Tekur þá hver sem vill þátt í dansinum, »og er þá hvert járn á gángi í gleðistofunni;« er þessu haldið áfram þar til, er »skrúði kellíngar tekur að gálmast,« og er nóg þykir komið, dragnast kellíng út úr salnum, en dóttir hennar er eptir og hoppar og steðjar innan um húsið, þángað til hún mæðist og fer líka, og skirpa þá allir eptir henni.

Útgáfa þessi er tekin eptir vikivakaritgjörðinni frá hér um bil 1800 í hrs. Sv. Grv. 66 og er lýsíngin að mestu eptir Pálma Pálsson.

Á aðra útgáfu er drepið í bréfi frá Sigurði Guðmundssyni málara til Jóns Sigurðssonar 1864 (hrs. Sv. Grv. 66), og hefir hann hana eptir Magnúsi Andréssyni á Kópsvatni. Þar er heimasæta að tala við móður sína um giptíngar. Móðir hennar stíngur upp á fertugum manni:

Fertugur að aldri,
mín dóttir,
fertugur að aldri,
mín dóttirin góða.

Þá svarar heimasætan:

Hann er sig svo afgamall,
mín móðir,
hann er sig svo afgamall,
mín móðirin góða.

En þegar heimasætan stíngur upp á aldrinum, þykir gömlu konunni mannsefnið vera of úngt. Loksins koma þær sér þó saman og segir þá heimasætan:

Hann er sig svo mátulegur,
mín móðir,
hann er sig svo mátulegur,
mín móðirin góða.

Enn virðist Þórhildarleikur sá eða tröllkonuleikur, sem Sigurður málari minnist á í bréfi til Jóns Sigurðssonar 23. júní 1863 (hrs. Sv. Grv. 66), eiga skylt við kellíngarleik. Vorið 1858 sagði Eyjólfur Einarsson í Svefneyjum Sigurði, að þegar hann var barn, hefði hann séð vikivaka á Vestfjörðum og hefði þar þá verið leikinn Þórhildarleikur eða tröllkonuleikur. Stærsti kallmaðurinn, sem kom á vikivakann, var klæddur í nokkurskonar kvennbúníng og var honum skautað með gæruskinnum og var þessi kvennstrompur fremur óálitlegur. Meira mundi Eyjólfur ekki. Maður þessi hefir eflaust átt að tákna tröllkonu og því hefir hann verið svona afskræmislega búinn, en þar sem alt æði kellíngarinnar í kellíngarleiknum líkist meir æði siðlausra trölla en mennskra manna, er ekki að furða, þótt leikurinn væri líka kallaður tröllkonuleikur. Nafnið Þórhildarleikur mun aptur stafa frá því, hve Þórhildur lét mikið til sín taka í vikivakaleikjum yfir höfuð, þótt kellíngarleikur sé alt annað en Þórhildarleikurinn sjálfur. Um Benedikt lánga er getið í kvæði eptir Þórð Magnússon á Strjúgi, sem hann orti um deilur þriggja mæðgna og byrjar á þessa leið:

Í myrkri sátu mæðgur þrjár,
margt var gaman að heyra.
Í ljóranum var lítill skjár,
lagði' eg þar við eyra.

Brot af kvæði þessu er í ÁM. 276, 8, með hendi Gísla Konráðssonar. Sbr. Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island 1888, bls. 349 og Arkiv for nord. Filologi IV. 1888, bls. 257.

## **Hestleikur** eða **hestreið**.

Honum er svo háttað, að einhver vel sterkur kallmaður er látinn fara í grind, á stærð við hripsgafl, og skal hún vera svo þraung, að hún sitji föst ofan á mjaðmarbeinunum. Við grindina aptanverða er festur beygður sveigur, vel sterkur og stendur hann aptur og niður á við. Ofan á sveiginn er bundið rautt klæði, svunta eða eitthvað þess konar og er það fjötrað eða saumað rambyggilega niður. Tvö eða þrjú tröf eru látin hánga niður til beggja hliða, en mislitir klútar og einir tíu látúnslistar eru lagðir á yfirklæðið til prýðis. Við grindina framanverða er gjörð einhver líkíng framhluta á hesti með bógum, makka og höfði, ef því varð við komið, og á brínguna er fest lyklakerfi eða bjöllur og hrínglar hesturinn þeim, þegar hann kemur inn í gleðistofuna. Sjálfur er maðurinn færður í mussu eða kjól, sé hann að fá, og er saumaður hvítur trefill aptur um bakið og fram

fyrir brjóstið; hann hefir og niðurbrettan hatt á höfði, um hann er hnýtt hvítu handklæði og ná skúfarnir aptur á lendar.« Í leiknum eru auk þess tvær skjaldmeyjar. Þeim er báðum skautað og að öðru leyti búnar sem kvennmenn og skrautlegar að sama skapi og hesturinn. Þær klappa á dyr í gleðistofunni í leikbyrjan og hlaupa síðan inn með »skríngilátum og kjammaslætti«. Þá kemur hesturinn og taka skjaldmeyjarnar hann og leika með hann fram og aptur, þángað til hann heltist og hefir að lokum ekki nema annan fótinn. Þá taka skjaldmeyjarnar hestinn, velta honum um, »skirpa í hófinn, lemja hann með sínum keflum, þar til hann gjörir sig óhaltan. Nú taka þær hann, steypa honum á höfuðið, færa hann í lopt upp, yfir bita og branda, en hann er að veisa, heilsa, byrsta sig og hrista, hríngla og leika, svo sem honum er mögulegt.« Á meðan þessu fór fram, voru súngin skopleg kvæði, helzt um hestinn, skjaldmeyjarnar og viðureign þeirra, og er vísa þessi upphaf á einu slíku kvæði:

Hvað mun valda gángvara mínum
hann kemur ekki' á grænan völl?
Únga ber hann menjaþöll;
hann rennur á hófunum sínum.

Eigi er þessum leik hætt fyr en alt er »brotið og bramlað af þeim öllum tilbúníngi og viðhöfn, sem til var sett í fyrstu.«

Lýsíng þessi er tekin eptir vikivakaritgjörðinni frá hér um bil 1800 í hrs. Sv. Grv. 66, og er að mestu leyti eptir Pálma Pálsson.

Guðni læknir Guðmundsson lýsir leiknum stuttlega. Hann lætur hestinn hafa sviga um sig miðjan í staðinn fyrir grind. Kertaljós voru fest við svigann. Hesturinn rann nú aptur og fram eptir gólfinu og skjaldmeyjarnar sín á hvora hönd honum; þótti þá hesturinn rétt riðinn, ef ljósin slokknuðu ekki.

Jón Olafsson frá Grunnavík lýsir leiknum stuttlega í orðabók sinni. leikur. Grindina nefnir hann og getur þess, að meðal annars sé fest við hana [hest]höfuð og tagl. Þegar maðurinn sé kominn í grindina, líti svo út sem hann ríði, en í raun og veru gángi hann. Skjaldmeyjarnar nefnir hann valkyrjur og segir að það séu úngir menn í síðum fötum og kvennhempum, sem dansi kríngum hestinn. Á öðrum stað (í orðabók sinni) nefnir Jón leik þenna að ríða hest auk þeirra tveggja nafna, sem þegar er getið um.

### **Hjartarleikur** eða **hjörtleikur**

var leikur einn kallaður; var einn af vökumönnunum tekinn til þess að vera hjörtur og búinn svo skrautlega sem framast mátti verða, en skríða varð hann á fjórum fótum. Á bak honum var fest »blómlegt randaklæði«, »svunta rauð að lit« eða þesskonar og alla vega saumuð tröf löfðu niður til

beggja hliða. Ofan á bakklæðið var festur lítill dúkur hornóttur og var festur í hann trékross og ljóskyndlar eða kerti í hverjum enda krossins. En ef hjartarhorn eða hreinhorn úng voru fyrir hendi, þá voru þau bundin við höfuð honum og kyndlarnir festir við greinarnar, og þótti sá búníngur betri en krossinn. Tvo stafi hafði hann sinn í hvorri hendi. Listar voru saumaðir aptur og fram um bakið og var öllum útbúníngnum hagað sem bezt mátti verða. Lángur trefill var festur í bakklæðið framanvert og hjörturinn teymdur á honum inn í gleðisalinn, en áður var kveikt á kertunum. Hjörturinn var sjálfur látinn ráða ferðum sínum innan um gleðistofuna. Kvennfólkið stóð í röðum fram með veggjunum og bil á milli; ránglaði þá hjörturinn hægt og hægt milli raðanna í salnum og hélt sig helzt þar að, sem kvennfólkið var og leitaðist við að gjöra því ýmsar glettur; varð af því stundum ókyrt í salnum. Meðal annars leitaðist hjörturinn við að komast milli kvennfólksins og veggjanna í gleðistofunni, og þegar honum tókst það, lenti alt í þyrpíngu fram á miðju gólfi. Á meðan hjörturinn var á þessu sveimi var sleginn dans og súngin kvæði; voru þau venjulega lof um hjörtinn og háttalag hans eða þá ástakvæði. Þessi vísa er úr einu slíku kvæði:

Eg sá hjörtinn renna
yfir þá grænu heið;
viltar túngur báru hann
svo lánga leið.

Pálmi Pálsson vill líka láta eina vísuna úr Þórhildarleiknum vera úr kvæði í hjartarleik:

Hjörtur vill sig hafa' af stað o. s. frv.

Þegar hjörturinn hefir farið um allan salinn og leikið svo leingi, sem þurfa þykir, snýr hann til dyra og hverfur út í myrkrið.

Lýsíng þessi er tekin eptir vikivakaritgjörðinni frá hér um bil 1800 í hrs. Sv. Grv. 66, og klykkir höfundurinn skýrslu sína út með þessum orðum: »Kvæðin finnast víða rituð. Þau þarf eg ei framar til að nefna.« Höfundurinn hefir ekki skrifað hjartarkvæðin upp, til allrar óhamíngju, því nú eru þau öll týnd nema brot það eða brot þau, sem færð eru til hér að framan. Í hrs. ÁM. 67, 8, hefir áður verið kvæðið: »Eg sá hjörtinn renna« og annað kvæði, eptir Kolbein Grímsson, »Hjörturinn þyrstir«, sem eflaust hefir líka snert hjartarleik, en nú eru þau bæði glötuð fyrir laungu, og líklega áður en handritið komst í eigu Árna Magnússonar.

Sigurður Guðmundsson málari minnist á hjartarleik í þremur bréfum til Jóns Sigurðssonar; er eitt dagsett 23. júní 1863, annað 1864, en það þriðja ódagsett og aðeins brot. Öll eru bréfin í hrs. Sv. Grv. 66. Í fyrsta bréfinu gefur Sigurður eingar bendíngar um hjartarleikinn, sem eru þess *verðar, að þær séu færðar* hér til, en bendíngar hans í hinum bréfunum

eru merkilegri. Í öðru bréfinu er stutt frásögn um hjörtleik eptir sögn Magnúsar Andréssonar á Kópsvatni, en hann heyrði ömmu sína, Marínu Guðmundsdóttur, segja frá leiknum, í úngdæmi sínu. Marín var fædd 1720 eða 1721, og var dóttir Guðmunds Þorsteinssonar, bónda á Kópsvatni, og dó 1805, þegar Magnús var 15 ára. Lýsíngu Magnúsar ber annars alveg saman við lýsíngu þá, sem færð hefir verið til, en er miklu styttri; er það tekið þar skýrt fram, að hjörturinn hafi verið »vel nærgaungull við kvennfólkið.«

Í ódagsetta bréfinu segir Sigurður sögu um það er djöfullinn birtist sjálfur í hjartarleik: »Eg hefi heyrt, að í Arnarbæli fyrir vestan hafi eitt sinn verið vikivaki, og þegar búið var að klæða hjörtinn, þá varð eitthvað sögulegt, líklega ljótur lifnaður, því Kölski gamli kom þá inn, og hvað þá gjörðist gat eg ei feingið að vita, en endirinn varð sá, að Kölski sökk ofan um baðstofugólfið, og er ekki hægt síðan, að fella [í] það gat.« Ekki er þess getið, að neinum hafi orðið meint við heimsókn Kölska og hafa því Arnarbælismenn sloppið miklum mun betur en Hrunamenn og Bakkastaðamenn, sem áður er getið um í riti þessu.

Í vikivakaskýrslu Guðna læknis Guðmundssonar er stutt lýsíng á hjartarleik; tekur hann það líka fram hér, sem hann nefnir við hestleikinn, að þá þyki hjörturinn leika vel, ef ljósin slokkna ekki.

Séra Einar Jónsson að Kirkjubæ minnist á hjörtinn í stuttri skýrslu um vikivaka, sem hann hefir skrifað handa Jóni Árnasyni, eptir Jóni Sigurðssyni í Njarðvík eystra. Hann segir, að þegar menn voru seztir undir borð hafi komið inn maður einkennilega búinn; einkum hafi hann haft undarlegan höfuðbúnað, því höfuðfati hans hafi verið svo háttað, að á því ofanverðu mátti festa þrjú kerti og var kveykt á þeim öllum. Maður þessi var kallaður Ljósahjörtur. Hann gekk fram og aptur með borðunum þegjandi, alla stund meðan setið var að borðum, en fór brott síðan.

Jón Ólafsson frá Grunnavík minnist á leik þenna í orðabók sinni og segir, að í honum sé líka[1] skrýmsli og er furða, að hann skuli velja hirtinum svo ógöfugt nafn.

Sæmundur Eyjólfsson lýsir hjartarleik stuttlega í Þjóðólfi 1877, nr. 10; segir hann að hjörturinn hafi verið búinn alls konar lörfum og druslum, en það er ekki rétt, því menn lögðu framt á að klæða hjörtinn sem tígulegast, eins og sést á lýsíngunni á leiknum.

Í leikriti W. Shakspeare's, Kátu konurnar í Windsor, er einn aðalmaðurinn í leiknum, Falstaff, látinn binda á sig hjartarhorn um tíma. Sigurður málari setti þetta atvik í samband við hjartarleik, en til þess er eingin ástæða, eptir því sem segir í leiknum sjálfum. Eg hefi farið eptir þýðíngu Edv. Lembcke's (Shakspeare's Dramatiske Værker XV. Kbh. 1879)

---

[1] Eins og í þíngálpi, *Háu-þóruleik* o. s. frv.

og er talað þar um niðurlag Falstaff's í 4. þætti, 4. atr. og 5. þætti, 1. og 5. atr.

## Hríngbrot, hríngleikur.

Til eru tvenns konar hríngbrot á Íslandi. Önnur eru algeing barnaskemtan, og er þeim lýst í Íslenzkum skemtunum, bls. 134. Hin eru vikivakaleikur og hafa þau verið mjög áþekk dansi þeim eða leik, sem enn tíðkast á Færeyjum og kallaður er »bandadansur« og lýst er þar, sem talað er um dans Færeyínga. Vikivakahríngbrotin eru fólgin í því, að menn takast höndum saman í hríng, kall og kona, og gánga svo áfram hægt eða fljótt, eptir því sem kvæðalagið segir til, og reyna svo til, þegar færi gefst, að brjóta hrínginn, með því að komast burt frá þeim, sem næstur er, og taka þá höndum saman við einhvern annan í hríngnum, annað hvort fyrir aptan eða framan eða beint á móti; var það kallað að brjóta hrínginn út, inn eða þvers.[1] Þessar brellur reyndu menn að gjöra, meðan forsaungvarinn saung fyrir, en þess á milli tóku allir undir lagið.

Lýsíng þessi er eptir Pálma Pálsson, en annars eru til ýmsar lýsíngar á hríngbrotum og er mjög erfitt að botna í þeim; sé eg því ekki annað ráð en að færa þær hér til orðréttar, þar sem nokkuð er á þeim að græða.

Í vikivakaritgjörðinni frá hér um bil 1800 í hrs. Sv. Grv. 66, er hríngbrotum lýst á þessa leið: »Hríngbrot. Það er með svoddan móti undir réttað, að sex pör eru látin vera hvoru megin, og sá sem brýtur hleypur að þeim, sem móti honum er, og brjóta báðir á parta, en þegar þeir skilja, tekur annar tvö pör og hleypur aptur fyrir þau og fram aptur, tekur svo önnur tvö fram og aptur, svo tekur hann þriðju tvö, og þá hefir hann brotið sinn arm. Nú tekur hinn til og gjörir slíkt hið sama, að því tillögðu, að hann brýtur alt til enda, svo þá kemst alt í eina bendu. Band er haft á milli hvers manns og sleppa sumir þeim af streitu. Líka fjúka faldar af kvennfólki, einkanlega þá rángt er leikið, og svo er þessu hætt þá allir eru dasaðir. Dans er kveðinn meðan hríngbrotið stendur yfir.«

Eggert Ólafsson lýsir hríngbrotum á þenna hátt: »Enn tíðkast hér á landi mjög snotur leikur, sem er kallaður hríngbrot og líkist hann talsvert pólskum dansi (Polonaise)[2] á að sjá. Tíu eða fleiri kallmenn eru í leiknum. Þeir standa í hríng og halda höndum saman. Yzt standa tveir og á annar þeirra að byrja að brjóta hrínginn. En hríngbrotin eru fólgin í liðugum snúníngum (Sving) út og inn um hrínginn án þess að hendurnar, sem haldið er upp, fari úr skorðum, eða röð sú raskist, sem fyrst er á leikmönnunum.

---

[1] Sbr. það sem seinna segir eptir Jóni Ólafssyni. [2] K. Weinhold segir í Altnordisches Leben. Berlin 1856, bls. 466, að hríngbrotin minni menn á vissa túra í Polonaise og mun hann hafa það eptir Eggerti Ólafssyni. Í Philosophische Schilderung der gegenwärtigen Verfassung von Island. Altona 1786 er líka um hríngbrot eptir Eggerti Ólafssyni. bls. 73.

þegar sá fyrsti hefir lokið ætlunarverki sínu, á hinn að fara að byrja sín megin. þessi skemtan er bæði skynsamlega stofnuð og veitir góða hreifíngu. Auk þess venur hún leikendur á snarræði og fimleika.«[1] Eggert drepur á hríngbrot á öðrum stað,[2] en þar getur hann þess aðeins, að þau séu tíðkuð í Skálholtsskóla ásamt öðrum leikjum og íþróttum.

Skúli Thorlacius lýsir leik þessum eins og eg hefi gjört í Íslenzkum skemtunum, nema hann segir, að leikmenn haldi upp höndunum á víxl, og taki þeir tveir, sem standa næstir hvor öðrum, við hvorir af öðrum. Leikmenn gángi nokkrum sinnum gegnum þessi handahlið. þetta má skilja þannig, að leikurinn sé ekki reglulega á enda kljáður fyr en hverjir tveir, sem eru í leiknum, hafi haldið upp höndum og hinir geingið þar í gegnum. Auk þess segir Skúli að fordansarinn (Fordanser, præsultor) hafi erviðast hlutverk, því hann brjóti hrínginn.[3] Í hríngbrotum þeim sem lýst er í Ísl. skemtunum getur einginn fordansari verið, því ef endilega ætti að kalla þá fordansara, sem brjóta hrínginn, þá hlytu þeir alt af að verða tveir.

Engelstoft segir, að hverjir tveir (hvert par) hafi hvað eptir annað hlaupið undir höndurnar á öðrum tveimur, enda hafi þeir haldið þeim upp. Hann talar líka um fordansara.[4] Annars er lítið að marka Engelstoft hér, því hann hefir, að öllum líkindum, tekið lýsíngu sína beinlínis eptir Skúla og skilið hann svona. Séra Björn Haldórsson segir í orðabók sinni, að hríngbrot séu hríngdans, sem hafi tíðkazt á Íslandi fyr meir.

Magnús Stephensen segir, að hríngbrot séu sá eini þjóðdans, sem Íslendíngar hafi á að skipa og kunni fáir þau, því miður. Þó séu þau enn við lýði í skólanum og sumstaðar við sjóinn.[5]

Þó ruglast nú reiknínguriun fyrst að marki, þegar Jón Ólafsson frá Grunnavík kemur til sögunnar. Hann segir að leiknum svipi til dansa og sé þrenns konar 1. að brjóta út, þegar leikmennirnir skipi sér í hríng og haldi út að innan,[6] 2. að brjóta inn, þegar leikmennirnir haldi inn,[7] 3. að brjóta þvers, að dansa eða hlaupa í hríng um þvert leiksviðið.[8] Svo bætir hann við: Ekki er leikur þessi vandalaus, svo vel getur verið að viðvaníngur, sem ekki hefir lag á að snúa sér nógu fljótt eða hlaupa undir höndurnar á næsta leikmanni, eins og leiklögin skipa fyrir, verði eptir[9] og kyrkist, eins og kallað er í gamni. Loksins segir Jón, að leikmenn geti ekki verið færri en þrír.[10]

Á hríngbrot er líka drepið í Ármannssögu.[11]

---

[1] Reise igjennem Island, bls. 352. [2] bls. 216. [3] Borealium veterum matrimonia. bls. 216. [4] Om den Priis Oldtidens Skandinaver satte paa Legemsövelser, bls. 55. [5] Island i det 18. Aarhundrede, bls. 233–234. [6] »cum ludentes semet in gyrum compellentes foras e domo tendunt.« [7] »cum ludentes in ædes introrsum tendunt.« [8] »per locum transversum circulariter saltare vel currere.« [9] »facile pensilis fieri potest.« [10] Orðabók, leikur. [11] Akureyri. 1858, bls. 29.

Einna greinilegust lýsíng á hríngbrotum er hjá Rudolph Keyser í ritgjörð hans, Om Nordmændenes Forlystelser i Oldtiden.[1] Hann segir: »Hinn svo nefnda hríngleik má, ef til vill, skoða svo sem nokkurs konar dans. Honum er ekki lýst nákvæmlega í sögunum, en hann hefir, að öllum líkindum, verið sami leikurinn, sem annars var kallaður og enn er kallaður hríngbrot á Íslandi. Dansmennirnir halda hver í hendurnar á öðrum og skipa sér í hring, en þó þannig, að endarnir á hríngnum ná ekki alveg saman. Þeir tveir menn, sem standa yztir í hríngnum, eru fordansarar og er sagt, að þeir brjóti hrínginn. Allur mannhríngurinn dansar nú undir forustu annars fordansarans undir hendurnar hver á öðrum, án þess að sleppa hver öðrum, þángað til hríngurinn kemst loksins í sama lag og hann var í í byrjun og er það ekki vandalaust. Nú byrjar hinn fordansarinn á sama hátt og svona halda þeir áfram til skiptis. Mjög mikið ríður á því, að hreifíngar fordansaranna séu liðugar og nákvæmar, og að hinir dansmennirnir haldi fast hver í hendurnar á öðrum, meðan dansað er, því ef einhver þeirra sleppir tökum, þá truflast allur leikurinn.«

Eg get ekki greitt úr þessari hríngbrotaflækju, enda er eg ekki færari til þess en þeir sem lesa þetta, því eg hefi tínt hér til alt, sem eg veit um þau.

Hríngbrot eru gamall leikur og er þeirra þegar getið á 17. öld.[2] Um hríngdans þann og hríngleik, sem nefndur er í Sturlúngu og öðrum fornsögum, er getið áður.

Eins og áður er getið, tíðkast enn á Færeyjum dans, sem er mjög líkur íslenzku hríngbrotunum, og í Danmörku og Svíþjóð er líka til svipaður dans, Munken gaar i Enge. Til er íslenzkt kvæði: »Múnkurinn gekk um stræti«, sem reyndar virðist ekki standa í neinu beinlínis sambandi við vikivakana, en þó má vera að það hafi verið súngið við hríngbrot. Kvæði þetta verður prentað í kvæðakaflanum í þulunum.

## Þíngálp eða Þíngálpsleikur

var mjög tíður á þessum gleðisamkomum. Þíngálpið var nokkurs konar skrýmsli og »tilfansað« á þann hátt, að tekin var hornótt fjöl, hálf alin á leingd, eða því sem næst, og rúmt kvartil á breidd. Á fjölina ofanverða eru negld tvö geldsauðarhorn, eða eitthvað þesskonar í eyrnastað, og þar fyrir neðan gjörð á tvö göt og smelt í gleri; eru það augu ófreskjunnar. Þá eru gjörðar nasir og gin mikið á fjölina og sett í það túnga úr stórgrip, ef til er, en í nasirnar eru settar tvær pípur og í þær skotið kyndlum og

[1] Norsk Tidsskrift for Videnskab og Litteratur II. 1848. bls. 239—40.
[2] bls. 134.

kveikt á um leið og skrýmslið skýzt inn í gleðisalinn; er þá svo sem það spúi eldi út um nasir sér. Staur er rekinn í gegnum fjölina, neðan við augun og er hann hálf önnur alin á leingd, en aptan í hnakka skrýmslisins, við hornin, er fest brekán eða dýrshúð og hausinn, bæði enni og vángar, er vafinn gráum gæruskinnum; lítur þíngálpið út sem versta kvikindi eða »monstur«,[1] þegar það er komið í allan þennan ham. Leikmaðurinn heldur um staurinn og er undir brekáninu eða húðinni. Hefir hann vopn í hendi, ef til er. Stundum var festur fjalarstúfur neðan við dýrshöfuðið og honum »skellir leikmaðurinn upp yfir alla í húsinu, svo þar verður af svo mikið mosk og dusk, að sumir núa augun, en óstyrkvir fara að ýla.« Skrýmsli þessu fylgja skjaldmeyjar, og reyna þær að hafa hemil á þíngálpinu og verja fólkið fyrir ofsóknum þess og ærslum, því að það vill hremma og fá á vald sitt einn eða fleiri af gleðimönnum, helzt þá, sem mestur þykir slægur í vera fyrir fríðleika eða annara mannkosta sakir. Heldur leikur þessi áfram, þángað til mönnum þykir nóg komið, eða þíngálpið hefir náð einhverjum á sitt vald; lætur það þá undan síga og hörfar út.

Lýsing þessi er tekin eptir vikivakaritgjörðinni frá hér um bil 1800 í hrs. Sv. Grv. 66, og er að mestu leyti eptir Pálma Pálssyni.

Sigurður Guðmundsson málari lýsir líka þíngálpsleiknum í bréfi til Jóns Sigurðssonar 1864 eptir Magnúsi Andréssyni á Kópsvatni. María amma hans nefndi skrýmslið líka þíngálp, svo telja má fullvíst, að nafn þetta hafi verið algeingt í gamla daga, en ekki finngálkn. Hún sagði að það hefði skriðið á fjórum fótum, og verið jafnófreskjulegt í alla staði og hjörturinn var prýðilegur. Það var alþakið druslum og ljótum lörfum, svo sem framast var unt, en utan á garmana var hraunglað skeljaklastri, sem skrölti í og hríngl aði. Þíngálpið leitaðist við að fara upp undir kvennfólkið og hristi upp á það öskuryk úr görmum sínum eða skrokknum, þángað til kallmennirnir gjörðu aðsúg að því og ráku það á burt.

Þíngálpsleikurinn er ekki alveg ósvipaður sumum jólaleikjunum dönsku, sem getið verður innan skamms, en á hinn bóginn minnir skeljaklastrið bæði á sjóskrýmsli og skeljakallinn í Bragða-Mágusar sögu.

Leikur þessi er eflaust gamall. Í fyrndinni hugsuðu menn sér ófreskju eina; var hún bæði í dýrslíki og mannslíki, og svipaði í mörgu til Kentáranna hjá Grikkjum. Má vera að menn hafi jafnan hugsað sér hana kvennkyns veru, þótt eigi verði það fyllilega sannað; var hún kölluð finngálkn, og af því orði er þíngálp runnið. Í Fornaldarsögum Norðurlanda er finngálkni lýst á tveimur stöðum, í sögu Hjálmtérs og Ölvis og Örfar-Odds sögu. Á fyrra staðnum stendur: »Hann (Hjálmtér) heyrði mikinn gný með stórum brestum í skóginum, svo að eikurnar bifuðust. Litlu síðar kom fram úr

[1] þ. e. = monstrum, latneska orðið yfir ferlíki, skrýmsli.

mörkinni eitt fingálp, mikið og gildlegt. Það hafði hrossrófu, hófa og fax mikið; augun voru hvít, en munnurinn mikill og hendur stórar. Brand hafði hún í hendi sér vænan, svo eingan hafði hann slíkan séð« (Hjálmtérs og Ölvis saga. Fornaldarsögur Norðurlanda II. Kmh. 1829, bls. 473). Þetta þíngálp var þó mjög meinlaust við Hjálmtér, því það gaf honum dýrindis sverð, en hann varð fyrst að kyssa það, þótt ókyssilegt væri. Seinna komst upp, að þíngálp þetta var kóngsdóttir í álögum (bls. 516).

Í Örfar-Odds sögu segir að Grímhildur móðir Ögmundar Eyþjófsbana varð að finngálkni; »er hún maður að sjá upp til höfuðsins, en dýr niður, og hefir furðulega stórar klær og geysilegan hala, svo að þar með drepur hún bæði menn og fénað, dýr og dreka (Örfar-Odds saga. Fas. Norðurlanda II, bls. 243). »En er áleið daginn, sáu þeir að dýr eitt furðustórt kom fram úr skóginum. Það hafði mannshöfuð og geysistórar vígtennur; hali þess var bæði lángur og digur, klærnar furðulega stórar. Sitt sverð hafði það í hvárri kló; þau voru bæði björt og stór. Þegar er þetta finngálkn kemur fram að mönnum, þá emjar það ógurlega hátt og drap þegar fimm menn í fyrsta atvígi. Sinn hjó hún með hváru sverði, en hinn þriðja beit hún með tönnunum, tvo sló hún með halanum, og alla til dauðs. Innan litils tíma hafði hún drepið sextíu manna« (bls. 244—45). Loksins gat Oddur þó banað þessu ferlíki.

Á líkan hátt lýsir Jón Guðmundsson lærði finngálkninu í »Tidsfordriv« sínu, enda var honum kunn lýsíngin í Hjálmtérs sögu og Ölvis. Jón lærði færir fyrst til mynd af finngálkninu, afskræmislega mjög, og lýsir því svo á þessa leið: »Finngálpnið á heiðum og skógum. Þeir gömlu hafa það afmálað með höndum stórkostlegum og víðum faðmi, líkast sem hesttrjónu framan, með hestlend og apturfótum niður frá nafla. Það skógar »krátijr«[1] vill gjarnan fánga og yfir komast fríða menn vel búna. Þar eptir var gjörður einn leikur á vökunóttum; var maður til feinginn og forklæddur og hinn sem hún fánga skyldi. Eg sá þetta í barnæsku minni.«[2] Því næst getur Jón lærði þess, að þíngálp sé nefnt í Hjálmtérs sögu og Ölvis og heldur svo áfram: »Ein història segir finngálpn dýr svo skapt, að þau hafa mannshendur, nær sem mannshöfuð, þó nokkuð sem hesttrjónulegt og með hræðilegri ásjónu og stórum tönnum, nærri mannsköpun ofan að mitti, þar næst klær sem á ljónum, en apturhluturinn digur og lángur og á lendar sem á hestum og hófar á apturfótum, hala lángan og digran og kleppur á endanum; sem eldur brenni úr augum. Kvenndýrið hafi brjóst sem kvinna; hún hafi skjöld og sverð, en karldýrið svart og hart sem það loðna á tálkni,[3] og kann að vega með tveimur sverðum senn. Þau dýr

[1] = Kreatur. skepna, kvikindi. [2] Jón er fæddur 1574, svo auðséð er, að leikurinn hefir þegar tíðkazt um miðja 16. öld. [3] Jón á hér eflaust við *þurrar þanir*, sem eru optast glerharðar.

komast yfir góð sverð, sem síðan báru fyrri frægðarmenn.« (Tidsfordriv Jóns lærða, samið 1644. Hér er farið eptir hrs. Bmfj. fol. 35, bls. 90—91. Tidsfordriv er líka í ÁM. 727, 4 (eiginhandarrit), Ny kgl. Saml. 76, fol. og hrs. J. Sig. 107, 4).

Í Snorra-Eddu er málslöstur einn nefndur »nykrað« eða »finngálknað« (Edda Snorra Sturlusonar II. 1852, bls. 122—23) og er þar án efa bent til nykra og finngálkna.

Enn þekkir íslenzk þjóðtrú ferlíki eitt, sem kallað er finngálkn, og er saga um það í Þjóðsögum Jóns Árnasonar I, bls. 613—14. »Finngálkn er það dýr kallað, sem köttur og tóa geta saman. Er það grimt mjög og öllum vargi skaðlegra fyrir sauðfé manna, og skotharðast allra dýra. Vinnur eingin kúla á finngálknið og verður það ekki skotið nema með silfurhnapp eða silfurkúlu. Það er og stygt mjög og ákaflega frátt á fæti.« Sjálfsagt er saga þessi yngri en Jón lærði. Hann hefði eflaust minzt á hana, ef hann hefði þekt hana, og honum var trúandi til þess hefði sagan annars verið til, því Jón var bæði mestur náttúrufræðíngur og kreddukóngur á Íslandi á sinni tíð.

Þíngálpsleikur hefir líka verið kallaður tröllkonuleikur, en aptur getur það ekki átt sér stað, sem Jón Árnason hefir getið sér til, að hann væri sami leikurinn og Þórhildarleikur.

## **Háa-Þóra** eða **Háu-Þóruleikur**

var skrípaleikur einn, ekki ósvipaður þíngálpsleiknum, og hafður í hans stað, ef honum varð eigi við komið, og þó sjaldan. Leikur þessi var svo stofnaður, að tekinn var staur, tveggja eða þriggja álna lángur og á borð við rekutind að gildleika; stundum var haft vefjarskapt eða annað því um líkt; síðan var bundið eða neglt þvertré yfir um hann í kross, ofanverðan. Þá var staurnum skautað með ákaflega stórum faldi og ramlega um búið; var hann vafinn tröfum og lafði lángt skott niður úr eða fram úr. Þá var tekin kvennhempa og bundið um kragann og því næst heingd yfir um þvertréð; verða það axlir Þóru. Þá var svunta fest við hempuna, lyklakerfi og mállindi og annað skraut og skröpur, sem til fékkst. Er þá feinginn til efldur kallmaður og látinn fara undir hempuna og halda um staurendann. Þessi útbúníngur er gjör frammi í bæ, og veit gleðifólkið eigi fyr til, en skrýmsli þetta læðist inn í gleðisalinn, leggur staurinn svo flatan, sem verða má og læðist milli fóta þeirra, sem umhverfis standa, svo hægt sem verða má, en eigi stendur leingi svo búið, því að Háa-Þóra réttist bráðum úr ellibeygjunum, teygir sig ýmist upp í rjáfur og rapta, eða hniprar sig saman, stökkur um alt húsið, »pikkar í hallinn eða gólfið, hristir og hrínglar, svo bæði brjálast og brotna lyklar og listar. Skjaldmeyjar leika henni til beggja

hliða. Þær láta öllum látum illum.« Verður af þessum gauragángi valla vært í leikstofunni, sízt kvennþjóðinni, og verða menn að flýja, annaðhvort út eða upp á palla, ef í baðstofu er leikið. En þar er heldur eigi friðland, því að Háa-Þóra ærist æ meir og meir, og »þeytir sér upp á palla, gjörir þar óskunda, svo liggur við meizli«; ekki lætur »hún heldur afskiptalausan dansmanninn. Hann hefir nóg að verja andlitið fyrir hennar drætti og slætti, en þegar hún sefast, snáfar hún út og stíngur öllum reiðanum aptur á milli fóta sér, umsnúnum og sundurflakandi; hafa þá brotnað pör og lyklar úr lagi geingið.« Meðan þessu fór fram, voru súngin kvæði eða vísur og optast einhvers konar níð eða keskni. Þetta er ein vísa, sem á að hafa verið súngin í leik þessum:

Eg sá eina faldafokku,
svo fallega hún spann;
óþokkinn lypti sér upp aptan.

Lýsíng þessi er tekin eptir vikivakaritgjörðinni frá hér um bil 1800 og er að mestu leyti eptir Pálma Pálsson. Á leik þennan er líka minzt í bréfi Sigurðar Guðmundssonar málara til Jóns Sigurðssonar 1864 eptir sögn Magnúsar Andréssonar á Kópsvatni og ber lýsíngunum saman, þótt skýrsla Magnúsar sé miklu styttri. Í sama bréfi segir Sigurður málari að sig minni, að Guðmundur Bergþórsson segi í Skautaljóðum, að Háa-Þóra hafi kent konum að skauta skakt eða illa, en ekki er þess getið í útgáfu þeirri af Skautaljóðum, sem prentuð er í Fróðlegu ljóðasafni II. Akureyri 1857, bls. 109—49. Aptur er lýsíng Guðmundar á skauti því, sem hann var að kveða á móti, ekki ósvipuð því, sem sagt er um skaut Háu-Þóru, og skal eg færa til nokkrar vísur úr Skautaljóðum því til sönnunar:

1. Kátir margir kýma' að því
komin er hér sú breytnin ný,
dentinn láta drósir frí
dánglast þessum sveitum í.

2. Til skemtunar eg skýri merkt,
skrítið ráðkorn, lærdómsvert,
ýngisstúlkum opinbert,
ef þær vilja skauta stert.

4. Kauptu trafið hvítt og hreint,
hirtu' ei um þótt það sé steint,
svo stertrinn geti staðið beint
sem stikill fram, þá til er reynt.

6. Hugsaðu' um að hvirfillinn
að hálfu leyti ber sé þinn,
*byrgður* í innra brotið inn,
*svo beygist áfram* sterturinn.

7. Aptr á hnakkann eins og stall
á að vera reikarfjall;
það er næsta kýminn kall,
sem klúkir framan á einsamall.

8. Heingir þú þar höttinn á,
heiðarlega hann skartar þá,
eins og hángi' á uglu sá,
ofan á nefið beygjast má.

9. Hrútshorn vantar innan í,
artuglega snýst á því,
með hnippi mjóu' um heilabý,
hvítur eins og þokuský.

10. Betra væri þér bauganorn,
að brúka' í faldinn skinnfatskorn
og reka þar ofan í rúmgott horn,
því rækalls lin eru tröfin forn.

11. Áður fyrri fald bar frú,
falleg þótti breytni sú,
en þær vilja, er mín trú,
einhyrníngi líkjast nú.

13. Í Fróðárundrum finna má
fyrirmyndan þar uppá,
þegar sig rétti róan grá
rastarbúa hlaðanum frá.

14. Opt hefi' eg séð hann Ása-Þór
uppmálaðan þá tuskast fór;
hefir hans úr heilakór
hreift sér strýtan mjó og stór.

Jón Ólafsson frá Grunnavík minnist á leikinn í orðabók sinni, leikur, og segir hann að í honum sé skrípildi, skrýmsli, eins og í kellíngarleik og sé hvorttveggja, ef til vill. sami leikurinn, en það er ekki, eins og sést á lýsíngunum. Enn færir Jón til brot úr vikivakakvæði í orðabók sinni (falur, fétönn, tentur); segir hann, að það hafi verið ort í Víðidal hér um bil 1690, og á seinasta staðnum eignar hann Páli Vídalín kvæðið. Brot þetta á, að öllum líkindum, við Háu-Þóru og er á þessa leið:

Pétur fór í dansinn með ansinn(!);
bar hann fagran laufanna kransinn,
minnst var frúin mjóleit um falinn:[1]
málfaðmur, þanspönn og alin.

II.

Frúin hefir fétönn ókalin,
[mergjuð er hún og mikið þykk um[2] falinn:
málfaðmur, þanspönn og alin.

III.

Fljóðið hefir fétönn um salinn,
fregnin sú er mjög sönn og valin,
mittis eigi mjög grönn um falinn:
málfaðmur, þanspönn og alin.

Eigi má vita hve gamall leikur þessi muni vera, en merkilegt er það, að vestan við Þorgeirsfjörð í Suður-Þíngeyjarsýslu er fjallsstrýta mjó og há, sem kölluð hefir verið Þóra eða Háa-Þóra, svo sem segir í vísunni:

Háa-Þóra heitir fjall
hæst í Þorgeirsfirði.
Oddur kjagaði einsamall
á þann háa jöklastall.

Sýnist svo sem einhver skyldleiki sé milli þessara nafna og leikurinn sé, ef til vill, mest tíðkaður eða upprunninn fyrir norðan, en Oddur sá, sem nefndur

[1] þ. e. mittið. [2] *mjó er eigi mær* yfir, mærin er mjó yfir.

er í vísunni, er Oddur Ófeigsson, sem einna mest kveður að í Bandamannasögu; er þess getið þar,[1] að hann hafi geingið upp á hátt fjall í Þorgeirsfirði, en fjallið er ekki nefnt þar nafni.

Í Íslenzkum skemtunum er getið um annan Háu-Þóruleik (bls. 118, sbr. bls. 138), en hann á ekkert skylt við vikivakaleiki.

## Frísadans.

Tvær útgáfur eru til af kvæði með þessu nafni, og er auðséð á kvæðinu sjálfu, að það er leikkvæði, en eg hefi hvergi rekið mig á neina lýsingu á íslenzka leiknum, hvorki í ræðu né riti, en nú vill svo vel til, að kvæðið og leikurinn er líka til á Færeyjum, og má ráða af færeyska leiknum, hvernig íslenzki leikurinn hefir verið, því eflaust er hann týndur. Séra Hammershaimb lýsir færeyska leiknum á þessa leið.[2] »Í leiknum eru tveir flokkar. Annar flokkurinn er mær ein, ættíngjar hennar og vinir, en frískir víkingar hinn flokkurinn, og vilja þeir nema meyna á burt. Mærin heitir á föður sinn og móður, bróður sinn og systur og aðra vini sína (svo leikurinn getur haldið áfram svo leingi sem menn fýsir), að leysa hana undan valdi víkínganna með borgum, kyrtlum og ýmsu, sem mönnum dettur í hug, en þeir hika sér allir við að fá henni það, sem hún biður um sér til lausnar. Loksins heitir hún á unnusta sinn, að leysa sig út með skipum sínum. Hann veitir bænina þegar í stað, og leikurinn endar með því, að mærin dansar við unnusta sinn.« Öll lýsing þessi kemur ágætlega heim við báðar útgáfurnar af íslenzka kvæðinu, og hefir því íslenzki leikurinn eflaust verið alveg eins og sá færeyski.

1. Frísir kvöddu fagra brúði:
Gáðu[3] til strandanna Danamær!

2. Mærin: Bíði Frísir og Frísir bíði,
frændur munu mig leysa.

3. Minn góði faðirinn og góði minn faðirinn,
leystu mig frá Frísum.

4. Faðir: Mín góða dóttirin og góða mín dóttirin,
með hverju á eg þig að leysa?

5. Mærin: Minn góði faðirinn og góði minn faðirinn,
gjaltu þinn garðinn út fyrir mig.

6. Faðir: Mín góða dóttirin og góða mín dóttirin,
betri þykir mér hann en þú.

7. Frísir kvöddu o. s. frv.

---

[1] *Band.* Kbh. 1850, bls. 39—40. [2] Færösk Anthologi I 1891, bls. 269. Kvæðið: »*Frísa vísa*« s. st. 268. Antiqv. Tidsskr. 1849—51, bls. 20—21. [3] = Gáttu.

8. Mærin: Bíði Frísir o. s. frv.
9. Mín góða móðirin og góða mín móðirin,
leystu o. s. frv.
10. Móðir: Mín góða dóttirin o. s. frv.
11. Mærin: Mín góða móðirin og góða mín móðirin,
gjaltu þína skikkjuna út fyrir mig.
12. Móðir: Mín góða dóttirin og góða mín dóttirin,
betri þykir mér hún en þú.
13. Frísir kvöddu o. s. frv.
14. Mærin: Bíði Frísir o. s. frv.
15. Minn góði bróðirinn og góði minn bróðirinn,
leystu o. s. frv.
16. Bróðir: Mín góða systirin og góða mín systirin,
með hverju o. s. frv.
17. Mærin: Minn góði bróðirinn og góði minn bróðirinn,
gjaltu þinn hestinn út fyrir mig.
18. Bróðir: Mín góða systirin og góða mín systirin,
betri þykir mér hann en þú.
19. Frísir kvöddu o. s. frv.
20. Mærin: Bíði Frísir o. s. frv.
21. Mín góða systirin og góða mín systirin,
leystu o. s. frv.
22. Systir: Mín góða systirin og góða mín systirin,
með hverju o. s. frv.
23. Mærin: Mín góða systirin og góða mín systirin,
gjaltu þinn köttinn út fyrir mig.
24. Systir: Mín góða systirin og góða mín systirin,
betri þykir mér hann en þú.
25. Frísir kvöddu o. s. frv.
26. Mærin: Bíði Frísir o. s. frv.
27. Minn góði festarmann og góði minn festarmann,
leystu o. s. frv.
28. Festarm.: Mín góða festarmey og góða mín festarmey,
með hverju o. s. frv.
29. Mærin: Minn góði festarmann og góði minn festarmann,
gjaltu þitt skipið út fyrir mig.
30. Festarm.: Mín góða festarmey og góða mín festarmey,

þótt þau væru tvö eður þrjú,
gjarna skyldi eg þig leysa.

Hrs. ÁM. 151, 8, nr. 20, með hendi Magnúsar Einarssonar. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 67, með hendi Sigurðar Sigurðssonar skólakennara. Samhljóða í kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum II, 200 (afskr. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar), en er kallað þar »vitlaust fornkvæði«. Sömuleiðis í Excerpta séra Stefáns Þorsteinssonar á Völlum XII, 62 (hrs. Bmfj. 340. 8). Þar er það tekið eptir afskript Haldórs Hjálmarssonar og stendur þetta framan við kvæðið: »Vitlaust fornkvæði, hefir þó tekið upp í syrpur sínar, svo sem sá, er öllu vildi halda til haga af þesshátttar og ei glatast láta.« Fyrsta er. í hrs. Sv. Grv. 65. Byrjunin líka á tveimur stöðum í 67, með hendi Sveins.

II.

1. Frísir kalla, kalla Frísir:
Berið til skipanna Danamær.

2. Mærin: Bíði Frísir, Frísir bíði,
frændur munu mig leysa.

3. Ó minn góði faðirinn og faðirinn góði,
leystu mig frá Frísum.

4. Faðir: O mín góða dóttirin og dóttirin góða,
hvað skal eg gefa fyrir þig?

5. Mærin: Ó minn góði faðirinn og faðirinn góði,
gefðu þinn búgarðinn fyrir mig.

6. Faðir: Ó mín góða dóttirin og dóttirin góða,
mér þykir hann betri en þú.

Nú biður hún móður sína um kápuspennsli hennar, bróður sinn um burtstaung hans, systur sína um eyrnagull hennar, og fer alt á sömu leið; getur hver sett þetta inn í kvæðið, sem vill.

Mærin: Ó minn góði unnustinn og unnustinn góði,
leystu mig frá Frísum.

Unnustinn: Ó mín góða unnustan og unnustan góða,
hvað skal eg gefa fyrir þig?

Mærin: Ó minn góði unnustinn og unnustinn góði,
gefðu þinn hest og söðul fyrir mig.

Unnustinn: Ó mín góða unnustan og unnustan góða,
það skal eg gjarnan gjöra.

Frísir kalla, kalla Frísir:
*Fari til* strandanna Danamær.

Mærin: Fari Frísir, Frísir fari,
frændur hafa mig leysta.
Dauður er minn faðirinn og dauð er mín móðir,
dauð er mín systirin og dauður er minn bróðir,
lifir minn unnustinn og glöð skal eg gullið spinna.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. D[2], með hendi séra Benedikts Þórarinssonar á Ási í Fellum 1850, eptir Björgu Pétursdóttur, konu Árna prófasts Þorsteinssonar á Kirkjubæ og er talið þar 6 erindi. Brot af kvæðinu í Arch. D[1], með sömu hendi. Byrjunin í 65, með hendi Sv. Grv. Líka í 67. Byrjunin prentuð í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 20—21. Líka hjá Hammershaimb í Færösk Anthologi I. 1891, bls. 269.

---

Svo er að sjá á sumum heimildarritum, sem eg hefi haft við að styðjast, einkum á hinni merkilegu ritgjörð frá hér um bil 1800 í hrs. Sv. Grv. 66, og skýrslu Guðna Guðmundssonar, að vikivakaleikirnir hafi farið fram í vissri röð og líka, að súngið hafi verið og dansað á vissum tímum, og skal eg nú skýra gjör frá því og lýsa þá um leið, hvernig vikivakarnir fóru fram eptir því, sem segir í ritgjörðinni frá hér um bil 1800.

Fyrst taka tveir menn sig saman og stefna saman gleðifólki um sveitina á tiltekinn stað. Ekki tóku aðrir þátt í gleðinni en úngir menn, kallar og konur. Húsakynni hafa eflaust ráðið því, hve margir gátu verið við gleðina. Þegar gleðifólkið var komið saman á gleðistaðnum, létu forstöðumennirnir kvennfólkið »halda saman« í vikivaka. Konurnar voru fúsar til þess, og súngu nú »heilög kvæði útvalin, af hverjum mörg eru hjá oss að finna, bæði á kverunum og líka loðir eptir hjá ýmsum kvennmönnum.« Þessi kvennmannavikivaki hefir eflaust aðeins verið fólginn í saung og er orðið vikivaki aðeins haft í þeirri merkíngu í ritgjörðinni. Opt voru 12, 14 eða jafnvel 16 konur við gleðina og hefir því ekki skort saungkonur. Eptir vikivakann stofnuðu forstöðumennirnir til hríngbrota. Þegar þeim er lokið, »slæst alt«, það er bæði konur og kallar, í stuttan vikivaka og kveða þá flestir eitt erindi. Nú er haldinn kallmannavikivaki og eru þá kveðin skopleg kvæði t. d.

Þá kom mér í stærstan stans[1] o. s. frv.
Mikinn mat tilreiddi[2] o. s. frv.
Veðráttan er valla hörð[3] o. s. frv.

og önnur slík kvæði. Á meðan kallmannavikivakinn fer fram, er hestleikur búinn undir og því næst leikinn. Þá efna forstöðumennirnir, sem ávalt eru kallaðir gleðimenn í ritgjörðinni, til kvennadans og er hann fólginn

---

[1] Vikivakakvæði. [2] Ýkjukvæði. Prentað í þulunum í ýkjukvæðakaflanum.
[3] Viðlagið prentað í þulunum seinast í lausavísnakaflanum. Vísuorð þau, sem höfundurinn færir *til, eru upphöf á* viðlögunum við þessi þrjú kvæði.

í því, að kvennfólkið alt stígur dans í hríng og er kveðið á meðan »og skrítilega þeim tildrukkið, með þessum og þvílíkum bögum«:

Þegar eg er nú þannig fær,
eg þreifa' að hnjánum leingra,
bannar mér þá brúðurin skær
beint við sig að glíngra.

Ó, minn kæri,
mig kitlar á læri.
kom þú ei þar við mig.
Til herbergja þær halda sig.

Hvort er maðurinn orðinn ær.
Óðinn taki' hans gaman.
Hlaupið þið allir saman.

Snældu tekur stinnan stúf,
stíngur hún mig í framan.
Hlæið þið allir saman.«

Ýmislegt glens og gaman er þá haft í frammi, þótt þess sé ekki getið hér. Eptir dansinn slá konurnar upp í vikivaka, en á meðan er þíngálpsleikurinn búinn undir og leikinn því næst. Þá var haldinn kallmannavikivaki og kvenna, og kváðu þá allir menn hæg kvæði hver til annars, en á meðan hann fór fram var kellíngarleikurinn búinn undir og var hann nú leikinn. Nú er haldinn kallmannavikivaki og kváðu þá margir kellíngakvæði,[1] en eflaust hafa þó stundum verið kveðin annars konar kvæði. Nú var leikinn hjörtleikur, en þá hóf kvennfólkið vikivaka og kvað hin fegurstu kvæði, sem það kunni, og hlýddu allir hinir gleðimennirnir á á meðan. Þá var leikinn Þórhildarleikur. Þegar honum var lokið, var »haldið saman í vænan kallmanna og kvennmanna vikivaka« og því næst hófu sumir kallmannadans, ef tíminn leyfði það, því venjulega var liðið á nóttina, þegar hér var komið sögunni. Kallmennirnir stigu dansinn, svo alt hlúnkaði undir, en dansmaður, þ. e. forsaungvari eða kvæðamaður, sat framan á pallinum og kvað á meðan, og sinn maður til hvorrar handar honum, og kváðu þeir undir. Sbr. fyrsta erindi í þeim hluta Skautaljóða, sem Sigurður Pálsson í Skógarnesi kvað:

Bragarsmiðurinn brúði gleður,
brosir að dansi í ranni;
æ sér betur þá undir kveður
einn eða tveir með manni.

Hrs. Bmfj. 633, 8 (Þórkatla hin meiri).

[1] Kellíngakvæði eru kvæði, sem lögð voru í munn kellíngum, og eru þau opt *kátleg*. Viðlög við nokkur þesskáttar kvæði eru prentuð í þulunum, seinast *í lausavísnakaflanum*.

Nú hófst kallmannavikivaki. Þá var leikinn Hoffinnsleikur og því næst hindarleikur. Þegar hindarleiknum var lokið, var optast komið undir dag, en það sem eptir var næturinnar var haldinn »vænn« kvennmannavikivaki og saung kvennfólkið þá þau kvæði, er það kunni bezt og var nú dansað til dags. Þegar dagur ljómaði var gleðinni hætt; klöppuðu gleðimennirnir af sér gleðina hver upp á annan að lokum. Þeir hafa eflaust klappað á axlirnar hver á öðrum og sögðu um leið: »Þessa gleði klappa eg af mér og á þig N. N.« Líklega hafa gleðimennirnir bent á með þessari klöppun, að ef þeir hefðu hafzt að eitthvað ósæmilegt á gleðinni, þá vildu þeir að það bitnaði á félögum sínum.

Guðni læknir Guðmundsson lætur líka vera samband á milli ýmsra vikivakaleikja. Hann lætur hindarleik vera áframhald af Hoffinsleik en Þórhildarleik áframhald af hindarleik.

Í Danmörku tíðkuðust ýmsir leikir um jólaleytið í gamla daga, og voru þeir ekki ósvipaðir íslenzku vikivakaleikjunum að því leyti, að þar tóku menn líka á sig ýmisleg fáránleg gerfi, ýmist skrautleg eins og hjörturinn eða þá afskræmisleg eins og Háa-Þóra og þíngúlpið, og létu ýmsum ankríngislátum, en einginn af þessum leikjum, sem eg þekki, er þó líkur íslenzku vikivakaleikjunum að marki, nema Hoffinnsleikur. Í einum af leikjum þessum, »Præsten og Degnen«, er þess þó getið, að prestur og meðhjálpari vígja saman hjón á mjög öfugan hátt, líkt og tíðkaðist í Þórhildarleiknum, en einginn kveðskapur eða saungur fylgir danska leiknum. Í öðrum dönskum jólaleik, »Pigelegen«, voru súngin kvæði og er drepið á hjört í einu þeirra, en hvorki er leikurinn þó líkur hjartarleik né hindarleik. Flestir af þessum dönsku jólaleikjum voru pantaleikir og höfðu í för með sér óstjórnlegt kossaflens, eins og leikjaómyndir þær, sem kallaðir eru jólaleikir á Íslandi um þessar mundir.[1] Sbr. Íslenzkar skemtanir bls. 18—20.

Eg hefi farið yfir fjölda rita, sem snerta danska jólaleiki, en hefi hvergi fundið þar neinar bendíngar um íslenzka vikivakaleiki, sem nokkuð er á að græða.

Hið elzta rit um jólaleikina dönsku mun vera eptir Bircherod: Joan. Bircherodii Palæstræ antiquariæ sive disquisitionum curiosarum decas I. De antiquitatibus Juliis. Hafn. 1688; hefi eg ekki rekið mig þar á neitt um íslenzka jólaleiki eða vikivaka og er þar þó kafli eptir Íslendíng, Arngrím Þorkelsson Vídalín, bróður Jóns biskups Vídalíns.

Önnur bók er til um jól og jólaleiki eptir Otto Sperling: De nomine

[1] Um danska jólaleiki er hjá séra H. F. Feilberg í Dansk Bondeliv. Kmh. 1889. bls. 239—41. Svend Grundtvig. Gamle danske Minder i Folkemunde. Ny Saml. 1857. bls. 273—77. 3. Saml. 1861, bls. 176—77. Werlauff, Historiske Antegnelser til L. Holbergs 18 förste Lystspil. 1858. bls. 182—99 og eru nefnd þar *mörg rit, sem lýsa* dönskum jólaleikjum og geta þeirra.

et festo Juel septentrionalium tam antiquorum quam hodiernorum dissertatio. Havniæ (1711). Höfundurinn nefnir íslenzka jólaleiki bls. 27. Hann lýsir dönskum jólaleikjum, einkum Julebuk, bls. 55—64; sést að þeir hafa verið keimlíkir vikivakaleikjunum t. d. hjartarleik og hestleik, en ekki þó alveg eins.

Enn getur Worm í rithöfundatali sínu III, bls. 154, um rit eptir Klyne nokkurn: De gamle nordlandiske Julestuer, fordum usömmelige, nu ærbare. Kbh. 1707, og segir að það sé að mestu tekið eptir Bircherod. Rit þetta er svo sjaldgæft, að það er hvorki til á Konúngsbókasafni né Háskólabókasafninu, en telja má víst, að ekkert sé á því að græða að því er snertir íslenzka vikivaka.

Finnur Magnússon getur þess í Eddu Sæmundar hins fróða III. Havn. 1828, bls. 1056, að Kristján konúngur V. hafi bannað jólaleiki í Danmörku 1683, en ekki eru nein lög um það í lagasafninu frá þeim tímum: Kong Christian den V. Forordninger og aabne Breve. Kbh. 1737, 4. Líklega hefir Finnur þó rétt fyrir sér, enda hefir konúngur vel getað tekið af jólaleikina, þótt hann gæfi ekki út sérstök lög um afnám þeirra. Aptur er til bann á móti dönskum jólaleikjum frá miklu fyrri tímum, siðabótartímanum og er það á þessa leið: »Foruarer eder, at i sidde icke natten offuer oc slemme! Thi alle nattedrick oc wtilberlig nattevect, som er huegehorss, huidebiern, iulebuck, huggetende, daaretende vdi bryllup oc andet saadant er alt sammen afflagt til landsting vnder kongens suerd, huo der findis met.« Biskop Peder Plades Visitatsbog. Udg. af Svend Grundtvig. Kmh. 1872. bls. 130. [30–35]. Það þótti ekki ráðlegt að þýða kafla þenna á íslenzku, því eingin íslenzk nöfn eru til á leikjunum, sem nefndir eru.

---

## Vikivakakvæði.

---

Eg hefi nú lýst vikivökunum og vikivakaleikjunum eptir faungum, en nú er eptir að færa til ýmiss konar ljóðmæli, sem snerta vikivakana, fyrst vikivakakvæðin sjálf og svo ýmsar lánglokur og þulur, sem standa í sambandi við þá.

Eg hefi tínt hér til öll ljóðmæli í þessa átt, sem eg hefi náð í, og jafnvel brot eða viðlögin tóm. Eg þykist vera þess fullviss, að mér hafi ekki sézt yfir nokkurt vikivakakvæði í handritum í handritasöfnum hér í Kaupmannahöfn, en að hinu leytinu mun vera talsvert í öðrum handritasöfnum af þessu tagi, sem eg hefi ekki átt kost á að nota, bæði í söfnum Finns Magnússonar í Einglandi, en einkum í Landsbókasafninu, og hefi eg þó feingið ýmisleg kvæði úr söfnum þessum. Eg vissi jafnvel af fáeinum vikivakakvæðum bæði í Einglandi og á Íslandi, en hefi ekki gjört mér mikið far um að ná í þau í heilu lagi, því bæði er safn það af vikivakakvæðum, sem hér er prentað, svo fult, að það gefur ljósa hugmynd um, hvernig vikivakakvæðin hafi verið, og svo hefði eg, hvort sem var, aldrei getað tæmt söfnin að vikivakakvæðum, úr því eg gat ekki notað þau sjálfur. Annars er það örfátt, sem eg þekti, en ekki er notað hér að einhverju leyti, en eg er viss um að eitthvað er af vikivakakvæðum, sem eg hefi ekki hugmynd um, í söfnum Jóns Sigurðssonar, Páls Pálssonar og Jóns Árnasonar, og ef til vill víðar, en það kunna að vera afskriptir af einhverjum þeim kvæðum, sem eg hefi náð í.

Eitt handrit í þessa átt hefi eg ekki séð og er það líklega týnt nú. Jón Ólafsson frá Grunnavík segir í Add. ÁM. 3, fol. (áður 23 fol.), »Crit. Island. Pars specialis«, bls. 34, að séra Jón Gissurarson á Staðarbakka († 1656) hafi safnað allmörgum vikivakakvæðum í eina bók (fornkvæðabók). Ekki er auðvelt að vita hér hvað Jón á við, þar sem hann talar um vikivakakvæði í öðru orðinu, en fornkvæði í hinu. Líklega hefir bókin verið safn af fornkvæðum, en hvort sem er þekkja menn hana ekki nú.

Hallgrímur Jónsson *djákni segir* í rithöfundatali sínu (hrs. Bmfj. 385, 4),

bls. 271, að Jón bóndi Finnsson á Hundastapa á Mýrum, hafi orkt »snoturt vikivakakvæði, skipt í 20 parta«, og hefir kvæðið því hlotið að vera geysi lángt. Ekki þekki eg kvæði þetta.

Kvæði þau, sem súngin voru við hina elztu vikivaka á Íslandi, munu hafa verið kölluð mansaungskvæði, mansaungsvísur eða mansaungvar, og eru þau nú öll týnd, undantekníngarlaust, nema ef til vill nokkur viðlög, sem geymzt hafa við ýngri kvæði. Það sést berlega á Sturlúngu og Biskupasögunum, að kall og kona léku saman, og er þá eðlilegt, að það voru ástaljóð, sem þau kváðu hvort til annars, og liggur sú þýðíng enn í dag í orðinu mansaungur að nokkru leyti. Opt hafa kvæði þessi eða jafnvel optast verið siðleg og saklaus, en stundum hafa þau aptur verið klámkend, og notuðu klerkar og aðrir, sem vildu vikivökunum illa, sér þetta til að breyta um nafnið á kvæðunum og voru þau nú kölluð afmorskvæði eða amorsvísur, í óvirðíngarskini. Um afmorskvæði og afmorsvísur er getið mjög víða í mansaungum jafnvel fyrir hinum elztu rímum, og skal eg færa til þess tvö dæmi. Annað er úr Geirarðsrímum, V. rímu:

3. Kveði sá ei um kvinnur margt,
köppum vil eg það bjóða,
einginn kennir afmorspart,
er ekki veit til fljóða.

4. Hinn er fær af fljóðum dygð
og fellr í harma stránga,
sá skal ekki afmorsdikt
undan láta gánga.

5. Þeir skulu frygða faldarein
með ferskum afmorskvæðum:
eg mun lifa með látin ein
og leika mér að fræðum.[1]

Hitt dæmið er úr Nóarímum.[2]

Skammfyllist sá skelmir[3] fyrst
á sköpun manns,
eins og þeir, sem að foreldrum hæða,
þá klámvísurnar kveða við dans.

Hér eru reyndar ekki nefndar afmorsvísur, en auðsjáanlega er átt við klámfeingin danskvæði.

Enn minnist Guðbrandur biskup Þorláksson á afmorsvísur í formálanum fyrir sálmabók sinni 1589, aaiiij. Hann segir að bókin sé prentuð, til þess

[1] *Jón Þorkelsson*, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 169. [2] ÁM. 103, 8.
[3] *þ. e. Cham.*

að af mætti leggjast »þeir ónytsamlegu kveðlingar, trölla og fornmannarímur, mansaungvar, afmorsvísur, brunakvæði, háðs og hugmóðsvísur, og annar vondur og ljótur kveðskapur, klám, níð og keskni, sem hér hjá alþýðufólki framar meir er elskað og iðkað, guði og hans einglum til stygðar, djöflinum og hans árum til gleðskapar og þjónustu, en í nokkru kristnu landi öðru . . . . . á vökunóttum og öðrum mannamótum« o. s. frv. Þar sem vökunætur eru nefndar hér, er bersýnilegt, að biskupinn á einkum við danskvæði og mun hann sérstaklega benda til þeirra með orðunum »mansaungvar, afmorsvísur, brunavísur, háðs og hugmóðsvísur«. Annars þarf ekki að færa hér til alt, sem stendur í formála Guðbrands biskups í þessa átt, þótt merkilegur sé, því það er prentað í heild sinni í Íslenzkum skemtunum, bls. 209—10. Ýmsar aðrar fornar bækur, þar sem getið er um amorsvísur o. s. frv., eru nefndar í sama riti bls. 12—13 og 210—12.

En svo lítur út sem orðið afmorskvæði, afmorsvísa hafi brátt mist hina klúru þýðingu sína, því alla 17. öldina og fram á 18. öld eru orð þessi höfð jöfnum höndum við orðið vikivakakvæði, en þó miklu sjaldnar, því vikivakakvæði er þá aðalnafnið á danskvæðunum, svo framarlega sem þau eru annars nefnd nokkru nafni. Guðhræddir klerkar yrkja jafnvel háandleg kvæði undir sömu bragarháttum og gömul afmorskvæði, og skal eg færa til þess eitt dæmi, og það þeim mun fremur, sem eg þekki ekkert vikivakakvæði undir þessum bragarhætti:

**Vísa með bragarlag sem gamalt amorskvæði.**[1]

Heyr þú, sem huginn upplýsir,
herra guð, vitur og dýr,
feginn mig þar til fýsir,
að formist bragurinn nýr.
Þú mína ræðu' og rót
reikna þér ekki' á mót,
vanefnum mínum virztu, minn guð,
að vinna' um síðir bót,
og blíf hjá mér hinn blíði.

Hrs. Bmfj. 8, ótalmerkt. Hvarfsbók (frá Þorsteini Þorkelssyni á Syðra-Hvarfi) I, nr. 30. Ny kgl. Saml. 1899b, 4, bls. 80—81. Kvæðabók séra Ólafs Jónssonar á Söndum og er kvæðið því eptir hann.

Seinast hefi' eg rekið mig á nafnið amorsvísa um vísu eptir Pál lögmann Vídalín í hrs. J. Sig. 260, 4 (Þíngvallabók). Sbr. ÁM. 960, 4. Vísa þessi er aðeins eitt erindi, »Kviklætið keik snótin vekur« og virðist vera ein af hinum algeingu, dýrkveðnu, áttlínuðu manvísum.

[1]) Gömul »ammörz Vijsa«, 1899 b.

Enn er eitt nafn til á vikivakakvæðum, gleðikvæði, og hefir það verið haft jafnhliða nafninu vikivakakvæði síðan á 17. öld, en optast eru vikivakakvæðin nafnlaus í handritunum eða þá kölluð »Eitt kvæði«, »Eitt lítið kvæði«, eða eitthvað þessháttar. Aptur hefi eg hvergi rekið mig á, að vikivakakvæði hafi verið kölluð vikivakar, þótt Jón Árnason taki skýrt fram, að svo hafi stundum verið gjört.

Um aldur kvæðanna er það að segja, að hin elztu þeirra eru frá því hér um bil 1500. Allur fjöldinn af þeim er frá 17. öld og nokkur frá 18. öld, sum jafnvel frá seinna hluta 18. aldar. Fullur helmíngurinn af kvæðunum finnst í handritum frá 17. öld, en það er ekkert því til fyrirstöðu, að kvæði séu frá 17. öld eða jafnvel eldri, þótt þau finnist ekki í eldri handritum en frá 18. öld, og á þetta sér stað með mörg vikivakakvæðin.

Fá vikivakakvæði eru það að tiltölu, er menn vita höfunda að. Eg hefi alstaðar getið höfundanna, þar sem eg hefi vitað þá eða þar sem þeirra hefir verið getið í heimildarritum þeim, sem eg hefi notað. Sum kvæðin eru jafnvel eignuð tveimur höfundum, eins og opt kemur fyrir um gömul kvæði, sem til eru í fleirum handritum en einu, og er þá venjulega mjög erfitt að skera úr því með fullri vissu eptir hvern þau eru, því þótt talsverður mismunur sé á kveðskap skálda á 17. öld yfir höfuð að tala, eru þó vikivakakvæði eptir þá venjulega mjög keimlík.

Um efni kvæðanna er það að segja, að það er mjög misjafnt, en flest eru þau mankvæði, eins og við er að búast, þar sem kallar og konur kváðust á við vikivakana. Kvæði þau, sem konur hafa kveðið, eru miklu færri en þau, sem auðséð er að kallmenn hafa kveðið, en sumum kvæðunum er háttað á þá leið, að bæði kallar og konur gátu kveðið þau. Sum kvæðin eru aptur nokkurs konar heilræðiskvæði og sum eru andleg; kemur það vel heim við vikivakalýsínguna frá hér um bil 1800, því þar er tekið fram með skýrum orðum, að andleg kvæði hafi verið súngin á vikivökum. Flest eru kvæðin alvarlegs efnis, en sum eru þó skopkvæði, og er ekki alveg laust við, að sumstaðar bregði fyrir í þeim klúrum orðum eða orðatiltækjum, en mjög er það óvíða, og er því eínginn fótur fyrir því, sem hefir verið almenníngsálit híngað til, að flest vikivakakvæði væru klúr og klæmin. Fjöldinn af kvæðunum er fremur torskilinn, og er eptirtektavert, að elztu kvæðin eru einna auðskildust að tiltölu, en mörg af hinum ýngri kvæðum eru þó svo létt, að hvert barnið getur skilið þau, og það eru ekki nema örfá kvæði, sem eru svo fornyrt og samanbarin, að hver meðalgreindur maður, sem ekki er alveg ókunnugur kenníngum, geti ekki skilið þau, ef hann hugsar vel um þau. Stirðleiki sá, sem er á mörgum kvæðunum, kemur með fram af því, að þau eru flest ort undir mjög dýrum og erfiðum bragarháttum, og hefir skáldið því opt orðið að hafa við óvenjulega orðaskipan til þess að fullnægja kröfum rímsins. Þau kvæðin, sem eru undir *ódýrri bragarháttum*, eru líka að öllum jafnaði miklum mun auðskildari en hin.

Flest vikivakakvæði eru með viðlögum, að minnsta kosti hin ýngri, því sum elztu kvæðin eru viðlagalaus eða viðlagalítil, en þetta getur komið af því, að viðlögin við þau séu týnd eða meginið af þeim.

Ekki er mjer ljóst um uppruna viðlaganna, en vera má, að Sæmundur Eyjólfsson hafi rétt fyrir sér í Þjóðólfi 1887, nr. 9, þar sem hann segir: »Viðkvæðin, sem eru svo algeing í miðaldakvæðunum, munu þannig vera orðin til, að þau hafa þótt vel löguð til að gjöra tilbreytni í dansinn, enda sést það víða, að viðkvæðið á ekkert við efnið í sjálfu kvæðinu og sumstaðar má jafnvel sjá, að það á einúngis við dansinn; einkum kemur þetta fram í ýmsum færeyskum kvæðum. Sama kemur einnig allvíða fram í íslenzkum æfintýrakvæðum. Mér finnst allt benda til þess, að öll viðkvæði eigi uppruna sinn að rekja til dansleikanna.«

Það eru þó ekki vikivakakvæðin ein, sem eru með viðlögum að fornu fari, því það má telja áreiðanlegt, að helmíngurinn af kvæðum þeim, sem til eru frá 17. öld og frá fyrra hluta 18. aldar sé með viðlögum, hvers efnis sem þau svo eru.

Eptirtektavert er það, að viðkvæðin eru að öllum jafnaði miklum mun skáldlegri en kvæðin, sem þau eru við, og þess eru mörg dæmi, að viðlögin eru ekki eptir höfunda þá, sem ort hafa kvæðin, heldur eru miklu eldri, svo það er ekki fjarstæð tilgáta, að sumt af viðlögunum séu hinar einu leifar, sem nú eru til af hinum elztu danskvæðum. Þar sem viðkvæðin skara svo mjög fram úr kvæðunum sjálfum, liggur nærri að geta sér þess til, að skáldin hafi tekið eitthvert fallegt stef, sem þeir kunnu, eða búið það til sjálfir og reynt svo til að yrkja út úr því kvæði, en þetta getur þó valla átt sér stað, því þess eru mjög fá dæmi, að viðlagið og kvæðið standi í nokkru sambandi hvort við annað, nema þá á einstaka stað, en gömlu skáldin voru ekki meiri klaufar en skáld á vorum dögum, þótt misjafn blær sé á fornum skáldskap og nýjum. Þess eru mörg dæmi, að sama viðkvæðið er við kvæði eptir tvö skáld eða fleiri og sýnir það, að sum viðkvæði hafa verið meira metin en sum. Einkum hafa margir spreytt sig á, að yrkja kvæði með viðlaginu: »Úti' ertú við eyjar blár«, og hefir það tekizt mjög misjafnt.

Þegar vikivakarnir tóku að leggjast niður, fer mjög að fækka kvæðum með viðlögum og bendir það, ef til vill, til þess, að viðkvæðin hafi staðið í sambandi við dansa frá öndverðu og fram eptir öldum, því meðan vikivakarnir stóðu með fullu fjöri, var annaðhvort kvæði, sem ort var, með viðlagi, en þegar kemur fram undir þessa öld, verða kvæði með viðlögum mjög sjaldgæf. Þó yrkir séra Snorri Björnsson á Húsafelli († 1803) ýms kvæði með viðlögum og eru þau í kvæðabókum hans í hrs. Bmfj. 125, 158, 8. Í kvæðabók séra Eingilberts Þórðarsonar í Þíngmúla († 1862), hrs. Bmfj. 328, 8. er eitt kvæði með viðlagi. Séra Erlendur Guðmundsson í Hofteigi, sem drukknaði 1802, orti hvítasunnukvæði með viðlagi. Hrs. Rasks. 95

(seinast). Ólafur Briem á Grund yrkir vísur um Ara Sæmundssen með viðlaginu »Fagurt galaði fuglinn sá« (Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum I, (hrs. J. S. 254, 4) nr. 219 Sbr. hrs. Bmfj. 614, 8). Sama viðlagið er við Drykkjuvísur eptir séra Magnús Grímsson á Mosfelli († 1860), og er kvæðið í kvæðasafni hans í hrs. Bmfj. 523, 8. 1842—44 yrkir séra Guðmundur Torfason á Torfastöðum kvæði um viðureign Grettis og Gísla með viðlagi, og er það í kvæðasöfnum hans í hrs. Bmfj. 157, 541, 8. Hjálmar Jónsson (Bólu-Hjálmar) 1796—1875 yrkir kvæði með viðlögum. Kvæði og kviðlíngar 1888, bls. 69—74, 133—38. Um miðja öldina er að mestu hætt að yrkja kvæði með viðlögum, en í seinni tíð hafa aptur verið ort og prentuð nokkur kvæði með viðlögum og hafa þau öll verið með fornlegum blæ. Grímur Thomsen, Jón Ólafsson, Indriði Einarsson, Valdimar Ásmundsson og ýmsir fleiri menn hafa ort viðlagakvæði, en fremur má þó telja þau fátíð enn í dag. í samanburði við önnur kvæði.

Ekki eru til greinilegar sagnir um, hvernig kvæðin voru flutt á vikivökunum, en líklegt er, að þau hafi fremur verið kveðin en súngin, enda kemur sögnin »að kveða« opt fyrir í ýmsu sambandi við vikivaka. »Eitt sinn á gólfi kveðið« heitir vikivakakvæði eptir séra Ólaf Jónsson á Söndum, og mörg önnur dæmi mætti færa til þess, ef vildi og þyrfti. Vikivakakvæðin eru með svo margvíslegum bragarháttum, að valla er mögulegt, að Íslendíngar hafi haft sitt lag við hvern bragarhátt, ekki meiri saungþjóð en þeir hafa verið; en væri svo, sem ótrúlegt er, að mörg vikivakalög hefðu verið til, þá er því sem næst ómögulegt, að þau væru öll liðin undir lok því fyrst og fremst er ekki svo lítið til af nótum í íslenzkum handritum og svo hefði eitthvað af lögunum átt að geymast á vörum þjóðarinnar; en nú er ekki til nema alls eitt vikivakalag, lagið við Hoffinnskvæði. Eg gjöri mér í hugarlund, að menn hafi mælt kvæðin fram við raust á vikivökunum, eða ef til vill, haft einhverja lagnefnu, að sínu leyti eins og þegar gamlar kellíngar raula Verónikukvæði, Vinaspegil eða eitthvert slíkt kvæði um þessar mundir, þótt kveðskapur þeirra megi valla heita saungur. Eg hefi tekið eptir því hjá öldruðu fólki í æsku minni, að það hafði sama lagið við marga og mjög mismunandi bragarhætti, og sama held eg að hafi átt sér stað á vikivökunum, bæði með kvæðin sjálf og viðlögin. Eg held, að kvæðin hafi verið flutt á líkan hátt, þótt kveðandin væri mjög misjöfn, og að Íslendíngar hafi aldrei átt mörg vikivakalög, þótt margir hafi haldið það, en eflaust hafa þau þó verið nokkur, því ólíklegt er, að fjörugar vísur hafi verið súngnar með sama laginu og andlegu kvæðin. Það er að vísu getið um saung í ýmsum vikivakalýsíngunum, en þetta þarf ekki að hrinda skoðau minni. Það er ekki svo auðvelt, að gjöra greinilegan mun á kveðskap og saung, og kveðskapurinn er í raun réttri ekki annað en nokkurs konar saungur, þegar öllu er á botninu hvolft. *Hlutfallið á milli* viðlaganna og kvæðanna sjálfra, að því er snertir saung

eða kveðskap á vikivökum, sést í vikivakalýsingum Arngríms lærða, Eggerts Ólafssonar og fleiri manna, sem allar hafa verið færðar til hér að framan. Í vikivakalýsingunni frá hér um bil 1800 er þess getið, að ýms kvæði hafi verið súngin á vikivökunum, sem ekki voru veruleg vikivakakvæði, og sama kemur fyrir á öðrum stað.

Í handritasafni Svend Grundtvigs 66 er skrá eptir Jón stúdent Marteinsson (hér um bil 1750) yfir ýms kvæði, sem höfð hafa verið um hönd í íslenzkum vikivökum, og er fyrirsögn hennar á þessa leið: »Skrá yfir nokkur íslenzk gamankvæði, sem höfð eru við skemtanir Íslendínga, þær sem þeir nefna vikivaka, en þeir eru fólgnir í nokkurskonar dansi, ruddalegum og hæverskulitlum. Þar á meðal er hestreið, hjörtreið og hríngreið og ýmislegt annars konar hopp (krumspringe).«

Alls telur Jón 13 kvæði og vísur, en af þeim eru ekki nema þrjú veruleg vikivakakvæði og færir Jón til viðlögin »Ríddu þig undir lundinn«, »Hýr mundi eg hlaðsól« og »Drósin fann Danskinn«. Tvö kvæðin eru um hesta: »Kveð eg óð um Chancho« og »Brúnn af öllum beztum«[1]. Þrjú eru ýkjukvæði: »Í Hollandi eg hatt fékk þann«[2], »Lundúnabragur: Það er lag á Lundún«[3] og »Baukvísa (Boike viise). Minn er baukur mæta þíng«[4]. Þá er önnur »Baukvísa: Bauka brúka ríkir«[5], »Lákakvæði: Sá eg síldar fáka«[6], »Húnkvæði: Hatturinn og hún húa«[7], »Veslíngs pilsið mitt hið forna«[8] og viðlag, sem lítur út fyrir að vera önnur útgáfa af viðlaginu við »Kvæði af stigamanni« eptir Bjarna Jónsson skálda í Bæ. Viðlagið byrjar svo hjá Jóni Marteinssyni: »Mál er komið að sjá að sér, svo svíki' ei myrkra skolli«[9] o. s. frv. Sum af kvæðum þessum eru þó svo fjarstæð vikivökum og vikivakakvæðum, að þau hafa að öllum líkindum ekki verið súngin nema í viðlögum, þegar ekki hefir verið völ á öðrum kvæðum, sem betur áttu við.

Að því er snertir niðurröðun á kvæðunum, þá hefi eg skipað heilu kvæðunum niður eptir efni eða innihaldi, að svo miklu leyti, sem kostur hefir verið á því, en jafnframt hefi eg kostað kapps um, að skipa kvæðunum niður eptir aldri. Brotunum hefi eg leitazt við að raða eptir aldri. Viðkvæðunum hefi eg skipt í tvent. Eg hefi fyrst tekið viðkvæði við íslenzk

---

[1] Eptir séra Stefán Ólafsson. [2] Verður prentað í ýkjukvæðunum í þulukaflanum. [3] Lundúnabragur er eptir Bjarna skálda Jónsson í Bæ og finnst í ÁM. 147, 8, 129—33 bl. og ÁM. 276, 8, í þætti Bjarna eptir Gísla Konráðsson. [4] Eignað séra Hallgrími Péturssyni eða Guðmundi Jónssyni í Litlabæ; verður prentað í ýkjukvæðunum. [5] Kvæði séra Stefáns Ólafssonar I. bls. 333—34. [6] Eptir Guðmund Bergþórsson. Prentað í Nokkrum gamankvæðum. Kbh. 1832, bls. 66 - 71. [7] Kvæði Stefáns Ólafssonar I, bls. 312. [8] Sama rit II, bls. 396. [9] Viðlagið og fyrsta er. af kvæðinu er prentað hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island 1888, bls. 402. Það finnst í mörgum handritum. Auk handrita þeirra, sem Jón Þorkelsson getur um, er það í ÁM. 276, 8, með hendi Gísla Konráðssonar.

**fornkvæði og er eingin ákveðin röð á þeim nema fyrst eru heil viðkvæði og svo brot. Þá koma viðkvæði við ýms önnur kvæði, sem einhver vikivakakeimur er að, og er þeim raðað niður eptir stafrófsröð.**

---

## Andleg kvæði.

### Eitt kvæðiskorn.[1]

Syrg eigi mín sæta
og[2] syrg ei þú;
[eg bið þér guð að[3] bæta
í brjósti nú;
hann lát[4] hug þinn kæta
mín[5] hýrleg[6] frú.

1. Hrygðar þaunkum hritt þér frá,
sem hreldan hug þinn græta,
syrg[7] eigi mín sæta.[8]
Hugsaðu Jesúm heldur á.
[huggarann[9] þinn ágæta,[10]
en[11] syrg ei þú;
eg bið þér guð að bæta
í brjósti nú;
hann lát hug þinn kæta
mín hýrleg frú.

2. Ef syndahræzlan sækir [á þig,[12]
og sig vill inn[13] hjá þér ræta,
syrg eigi mín sæta.
Krists þíns[14] [pína' er[15] kröptuglig
kránkleik þinn[16] að[17] bæta,
því[18] syrg ei þú o. s. frv.

3. Ef boðar lögmálið bölvan þér
og[19] beiskri[20] pínu' að mæta,
syrg eigi mín sæta.
Hana réð Kristr á sjálfum[21] sér
með [sínum dauða'[22] upp ræta,
því[23] syrg ei þú o. s. frv.

---

[1] A. [2] sl. CEG. [3] bið eg guð þér E. [4] mun CD; kann E. [5] vor G. [6] hýrust CD; hæversk EFG. [7] en syrg E. [8] systir G. [9] hjálpara BE. [10] hinn mæta BDEG. Frá [ sl. C. [11] sl. D. [12] að þér A. [13] hún A; sl. F. [14] sl. D. [15] pínan B. [16] þann DF. [17] vill B. [18] sl. D; en EG. [19] í E. [20] beiztri G (rángt). [21] sárum E. [22] sínu blóði BC. [23] *sl. D; en EG.*

4. Ef dauðans kvíði dunar[1] þér að,
[þá dvel[2] ei honum að mæta.
Syrg eigi mín sæta.
Honum er snúið og[3] heyrðu það
í hvíldarsvefninn sæta,[4]
því[5] syrg ei þú o. s. frv.

5. Vilji[6] þér fleiri falla'[7] í hug
freistanir,[8] þig að græta,
þá[9] syrg eigi mín sæta;
með orði guðs þeim ak[10] á bug,[11]
[þeim er svo[12] bezt að mæta,
en[13] syrg ei þú[14] o. s. frv.

6. Ef gjörir þér Satan glettíng þá
um guðs náð við þig að[15] þræta,
syrg eigi mín sæta.
Aldrei skaltu efast [þar á,[16]
að ertu guðs[17] barnið[18] mæta,
því[19] syrg ei þú o. s. frv.

7. Ef þig vill sturla þjáníng sú,
að þjóna með hönd og fæti,
þá[20] syrg eigi mín sæti;
í guðs þíns[21] höndum geymd ertú
hvar[22] geingur fram[23] um[24] stræti,
því[25] syrg ei þú o. s. frv.

8. Haf nú[26] svo þitt huggunartraust
á[27] hjálpara þínum mæta,
en[28] syrg eigi mín sæta.
Hann plagar[29] ei sína[30] að[31] láta laust
né linhjartaða að[32] græta,
því[33] syrg ei þú o. s. frv.

---

[1] dynur BDG. [2] dvel þú DFG. [3] sl. E. [4] mæta A. [5] en C; sl. DE. [6] Ef vilja E. [7] fljúga DEFG. [8] freistíngar DEFG. [9] sl. CFG; en E. [10] aktu DFG. [11] burt E. [12] því er þeim E. [13] því F. [14] B o. s frv. Úr þessu er. eru ekki nema tvær línur i A og þó mjög bjagaðar. [15] vill D. [16] þá C. [17] hans D. [18] barn BC. [19] en C; sl. DE. [20] en E; sl. G. [21] sl. B. [22] nær BCD; hann G. [23] þú fram DEF; þá fram G. [24] þitt BCDEFG. [25] sl. D; en E. [26] þú G. [27] sl. C; í E. [28] sl. CDFG. [29] vill C. [30] síður E. [31] sl. G. [32] sl. C. [33] sl. E.

9. Fyrst góður Jesús, guð og mann,
gleðja vill þig og kæta,
. þá[1] syrg eigi mín sæta.
[Samvizku þína' og sál vill hann
með sínu blóði væta,
því[2] syrg ei þú[3] o. s. frv.

10. Aldrei brestur neinn þann nú
náðina [drottins mæta,[4]
— syrg eigi mín sæta —,
sem fyrir honum í sannri trú
sig vill lítillæta,
því syrg ei þú o. s. frv.

11. Guði friðarins[5] gef eg[6] þig nú
geðfeld[7] lindin mæta.
Syrg eigi mín sæta.
Brag minn þennan brúðrin trú,
í brjósti[8] skaltu' innræta,[9]
því[10] syrg ei þú o. s. frv.

12. Vilji nokkur sturlunar[11]stund
og stríð'[12] þitt hjarta græta,
þá[13] syrg eigi mín sæta.
Skemtu þér hér[14] ljúf í lund
og lær svo ángr að bæta,
en syrg ei þú;
eg bið þér guð að bæta
í brjósti nú;
hann lát[15] hug þinn kæta
vor[16] hýrleg[17] frú.

A = hrs. J. Sig. 257, 8. B = hrs. Bmfj. 70, 4. C = hrs. Bmfj. 376, 4, bls. 283—85. D = Ny kgl. Saml. 139 b, 4, 75. bl. (skrifað 1655). E = Ny kgl. Saml. 1899 b, 4, bls. 150—151. F = hrs. Rasks 42, bls. 299—301. G = ÁM. 240, 8. BCDEFG eru kvæðabækur eptir séra Ólaf Jónsson á Söndum í Dýrafirði († 1627), og er því kvæðið eptir hann. Kvæðið hefir áður verið í ÁM. 67, 8, en er nú týnt þaðan. Í A er mjög mikill ruglíngur á setníngu viðkvæðisins og hefi eg því farið þar eptir kvæðabókum séra Ólafs á Söndum.

[1] sl. FG o. fl. [2] en E; sl. G. [3] Frá vantar í A. [4] guðs ágæta BCDEFG. [5] himneskum E. [6] sl. E. [7] mín g. E. [8] brjóst þitt BC; brjóstið DEFG. [9] ræta B. [10] en CD; og F. [11] sturnunar G. [12] stygð F. [13] sl. CFG. [14] *hér við BCEG.* [15] mun CF. [16] mín BCEF. [17] hæversk BCEFG

**Eitt vikivakakvæði.**

Hæsti Jesús, fyrir helgan þín
hjálpaðu lífi mínu.
Þá er mér ljúft að líða' í nafni þínu.

1. Margt trúi' eg hrelli mína önd
mótlætið og sorgar bönd.
Vertu mér Jesús við hægri hönd,
hjálp og stoð í pínu.
Þá er mér ljúft, að líða' í nafni þínu.

2. Því ekki varir allan tíð
eymdin þessi hörð og stríð,
heldur mun þín mundin blíð
miskunna lífi mínu.
Þá er mér ljúft, að líða' í nafni þínu.

3. Og fyrir sáru sjálfs þíns pín
syndir muntu afmá mín,
því burt er horfin bræðin þín
blóðs fyrir rauða línu.
Þá er mér ljúft, að líða' í nafni þínu.

4. Hér með muntu hjá mér stá,
hjari eg meðan jörðu á.
Blíðar einninn bænir sjá,
þá bið eg af hjartu fínu.
Þá er mér ljúft, að líða' í nafni þínu.

5. Tíginn mun upp teikna þær
þinn tignar fíngur, andinn skær.
Hæfilegt gjör það herrann kær,
mitt hjarta, geðinu þínu.
Þá er mér ljúft, að líða' í nafni þínu.

6. Alt mitt traust það er á þér,
að aldrei munir þú gleyma mér,
sízt þá dauðinn sundur sker
sál frá lífinu mínu.
Þá er mér ljúft, að líða' í nafni þínu.

7. Heldur þegar héðan fer
af húsi því sem bygði' hún sér,
til himna hana hefur með þér,
heims frá allri pínu.
Þá er mér ljúft, að líða' í nafni þínu.

8. Þar plágar mig hvorki sorg né sótt,
sálu minni er þar rótt.
Af helgum vísdóm er hjartað frótt,
hreinsað blóði þínu.
Þá er mér ljúft, að líða' í nafni þínu.

9. Eins og sólin eg þá skín;
eru þú burtu tötrar mín,
rjóðrað er þá mitt rykkilín[1]
rauða blóðinu þínu.
Þá er mér ljúft, að líða' í nafni þínu.

10. Þitt nafnið, Jesús, mun þá mér
mildast lýsa, hvar eg fer,
fæða mig þar á ávalt er
og örkumsl bata pínu.
Þá er mér ljúft, að líða' í nafni þínu.

11. Að heyra er það harla[2] mætt,
hjartað fær það allvel kætt
Jesús, nafnið Jesús sætt,
ilmur í munni þínum.
Þá er mér ljúft, að líða' í nafni þínu.

Brit. Mus. Add. Mss. nr. 11,181, 16, 22—24 bl. Viðkvæðið í hrs. Sv. Grv. 67.

Kver það, sem kvæði þetta er prentað eptir, er í hrs. Finns Magnússonar í British Museum og hafði Finnur keypt það 1837. Höndin er frá fyrra hluta 18. aldar. Hér hefir verið farið eptir afskript Eiríks Magnússonar. M. A.

## Enn fimta kvæðiskorn og hljóðar sem eptir fer.

Veiki mína bæti
verndarinn skær;
sannur guð hinn sæti,
hann sé þér nær.

1. »Hvar hópur þriggja hölda er,
ef hegða þeir með æru sér,
á millum þeirra mitt eg er.«
Mælti herrann kær.
Sannur guð hinn sæti
hann sé þér nær.

[1] rekkju lín, hdr. [2] ávalt, hdr.

2. Mig og þessa menja strönd,
er mér stígur við hægri hönd,
flytji guð á friðar lönd,
svo fylgjumst öll að vær.
Sannur guð hinn sæti
hann sé þér nær.

3. Eigðu kvæðið, auðgrund fín,
ef það geðjast huganum þín.
Herrann sá með heiðri skín
himna gefi þér. skær.
Sannur guð hinn sæti
hann sé þér nær.

4. Lízt það eigi laglegt mér
ef leingra kvæði í dansinn ber,
því skal minnka þundar hver,
en þú skalt eiga, mær.
Sannur guð hinn sæti
hann sé þér nær.

Hrs. J. Sig. 257. 8.

[Þriðja kvæðið.
Eptir Steinunni Finnsdóttur í Höfn.[1]

Fagrar heyrði' eg raddirnar[2]
við[3] Niflúnga heim.
Eg get ekki sofið
fyrir saungunum þeim.

1. Veittu drottinn góður gæði
til[4] gæzku treiskum[5] hyggjuveg;
þrjóta lát ei þolinmæði,
[þótt þrautin græti[6] margvísleg,
knúnum[7] trú svo stöðug stæði,
í stríðið[8] hríðar kvaddir.[9]
Fagrar heyrði' eg raddir.
Iðka bæn og andleg kvæði,[10]
á eingar vertu dygðir spar.
Fagrar heyrði' eg raddirnar.

---

[1] B. [2] raddir C. [3] í. [4] sl. CD. [5] þreiskum BD. [6] þrautin grætir B.
[7] kunnunn A; knúum B; knúin C. [8] stríði ACD. [9] gladdir C. [10] gæði A.

Hvað mikið er heimsku æði,
að hefja[1] krúsar þúnga
við Niflúnga?
Sannan veg þann[2] sérhver þræði,
[að sýngja[3] drottni[4] lofið. —
Eg get ekki sofið —
heilnæm orð svo heyrast[5] næði
af hvers manns raddargaungum.
— sofið fyrir saungum.
Þína[6] veika sauði' á svæði
sannur[7] hirðir geym.
Eg get ekki sofið fyrir saungunum þeim.

2. Hljóminn guðs orðs[8] heyr þú blíða,
hlustir legg og minnið við.
þessi iðkan þig skal[9] prýða,
þar eptir hneig lífernið.
Þeir hér megnan[10] mótgáng líða
með því verða gladdir.
Fagrar heyrði' eg raddir.
Hópurinn[11] sá mun blessan bíða
bæði hér og síðar þar.
Fagrar heyrði' eg raddirnar.
[Sú [er] því mesta[12] sæmd að hlýða,
er[13] sannleiks ræðir túnga
við Niflúnga.
Heilags anda [hjúkran blíða[14]
hjartað vermi dofið.
Eg get ekki sofið —
Samvizkuna[15] sízt lát kvíða[16]
sára[17] dómi straungum.
— sofið fyrir saungum.
Af[18] margra dómi[19] vitnast[20] víða,
að veik[21] er lífsins reim.
Eg get ekki sofið fyrir saungunum þeim.

---

[1] hreifa BCD. [2] að C. [3] sýngjum B. [4] og sýngi guði C. [5] heyra C. [6] Sína AB. [7] sjálfur CD. [8] orða AD. [9] kann D. [10] megin A. [11] Maðurinn B; maður D. [12] sú þeim mest er B; sá fær mestu D. [13] sl. B. [14] hjúkun þýða B. [15] Samvizkunnar AB. [16] svíða B. [17] sár á AB. [18] Til D. [19] dæmum B; dóma D. [20] vitast A. [21] veil D.

3. Allir eigum eitt sinn deyja,
einginn ráð á móti kann;
þótt drottinn gjöri tímann teygja
til betrunar þeinkir hann.
[Að því[1] skulum hjartað hneigja
hvað lítt erum staddir.
Fagrar heyrði' eg raddir.
Verk þar til og viljann beygja
vont[2] að forðast lastafar.[3]
Fagrar heyrði' eg raddirnar.
Mildan biðjum,[4] má ei þegja,
að mýkja reiði þúnga
við Niflúnga.
Hvað opt höfum, satt skal segja,
sáttmálann vorn rofið?
Eg get ekki sofið —
Styrk[5] oss drottinn stríð að heyja,
stýr[6] frá glæpum raungum.
— sofið fyrir saungum.
Frelsarinn, sem fæddi meyja
[finni' og beri'[7] oss heim.
Eg get ekki sofið fyrir saungunum þeim.

4. Nær oss drottinn náðarþyrsta,
næríng sú er hressíng klár,
nær þér fáum nær[8] að gista
[nærumst vér[9] um[10] eilíf ár;
mun oss ei til meira lysta,
af miskunn drottins saddir.
Fagrar heyrði' eg raddir.
Þá er heimsins horfin fyrsta
hrellíng sú, er[11] margur bar.
[Fagrar heyrði' eg[12] raddirnar.
Mýkir[13] föðursins[14] bræði byrsta
borgun sveinsins únga
við Niflúnga.
Hér og í búð himnavista
honum sýngjum[15] lofið.
Eg get ekki sofið —

[1] Hér til D. [2] vort D. [3] lastapar B. [4] biðja D. [5] Styrki B. [6] og stýr B.
[7] finn og ber B. [8] nærri B. [9] og nálægjast D. [10] þar B. [11] sem B.
[12] þar fagrar heyrast B. [13] Mýkti BD. [14] föður B. [15] sýngið D.

Af miskunnar munni kysta
mun oss gleðja laungum
— sofið fyrir saungum.
Hann sem huggar [inn harmyzta[1]
höndum blessi' oss tveim.
Eg get ekki sofið fyrir saungunum þeim.

[Fagrar heyrði' eg raddir
við Niflúnga heim.
Sæla var að sitja
hjá saungunum þeim.[2]

A = hrs. Bmfj. 338, 8. B = ÁM. 146 b, 8, 35—37. bl. C = hrs. Bmfj. 190, 8 (fyrsta er.). D = hrs. Bmfj. 105, 4 (Vatnshyrna) og er eignað þar Steinunni. Viðkvæðið í orðab. J. Ól. Grv., fagur. Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island 1888, bls. 190. Corpus II, bls. 391.

Sama viðkvæðið er við andlegt kvæði í hrs. Bmfj. 159, 8. Það er þrjú erindi og byrjar svona: »Faðir náðar gleði gæða«. Kvæði þetta er eptir séra Snorra Björnsson á Húsafelli, sjá hrs. Bmfj. 125, 8, bls. 125—28. Enn er sama viðkvæðið við andlegt kvæði í hrs. Bmfj. 132, 8. »Fuglarnir um fold og flóð« (6 erindi). Sama kvæðið er í hrs. ÁM. 969, 4 með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum, en byrjar þar öðruvísi: »Huggun er að heyra til«.

## Eitt kvæði að kveða við kvennmann.

Þinn fundinn þorngrund
þeinki eg með mér.
Gleðst lundin gullshrund,
að geingur vel þér.

1. Ekki er efnið annað mín,
ágæt bauga nanna,
heldur en hugbót sanna,
að heilsa og kveðja svanna.
Reisan góðra granna
geðs, af svoddan, vekur und.
Þinn fundinn þorngrund.
Foldin Ófnis[3] fanna
forláti nú mér.
Gleðst lundin gullshrund,
að geingur vel þér.

[1] harmanista D. [2] sl. BD. [3] Fofnis A.

2. Astkær elsku systir,
efnið máls það fyrst er,
heims með gæfu gistir
gleði og náð hjá Kristi,
eins,[1] sem eptir lysti,
yndis lán[2] og fjárins mund.
Þinn fundinn þorngrund.
Hafin í himna vistir,
héðan þá burtu fer.
Gleðst lundin gullshrund,
að geingur vel þér.

3. Vafin góðum gæðum,
guðs á himna hæðum,
firt er fári' og mæðum,
frjáls af illum ræðum,
glöð á sorgar svæðum,
sæl í vöku' og hægum blund.
Þinn fundinn þorngrund.
Mentuð af margskyns fræðum,
mætra dygða ker.
Gleðst lundin gullshrund,
að geingur vel þér.

4. Blessuð lífs á láði,
ljóst af guðdóms ráði,
af jörðu sjó og sáði,
svo sem bragrinn tjáði.
Einn guð eigi' og náði
allra bezt hið dýrsta[3] sprund.
Þinn fundinn þorngrund.
Slíkar dýrar dáðir
drósu kjósa ber.
Gleðst lundin gullshrund,
að geingur vel þér.

5. Hóla[4] bólið húna
og hættu sóttin rúna,
kauns var opnuð krúna,
kramdi[5] jökulbrúna,
landsins blómann búna,
börkur hlés og foldar und.

[1] eitt A. [2] laun B. [3] hýra B. [4] Aula B. [5] kramding B.

þinn fundinn þorngrund.
Fáks við lægið lúna
lagður kauninn er.
Gleðst lundin gullshrund
að geingur vel þér.

A = hrs. Bmfj. 392, 8. B = hrs. Bmfj. 584, 8.

---

Elski þig Jesús
og annist þitt ráð;
gefist þér góðfús
græðarans náð.

1. Þér gefi gleði blíða
guðs son árla og síðar,
ángr og illan kvíða
þig aldrei láti bíða,
frá hreti hrygða hríða
hans þér vængur skýli fús.
Elski þig Jesús.
Það feikna fárið stríða
fái þig aldrei hrjáð.
Gefist þér góðfús
græðarans náð.

2. Þig temji' og til sín laði
túlkrinn náðar hraði,
sál frá synda svaði
í sínu blóði baði.
Á[1] djúpu dauðans vaði
dýrst þig leiði fylgd hans fús.
Elski þig Jesús.
Heiðri og dygðum hlaði.
svo hindri' ei vondslegt ráð[2].
Gefist þér góðfús
græðarans náð.

3. Verndi þig frá vanda
og voðanum allrahanda,
slægum slægðar anda
og sliti vondan[3] fjanda.

---

[1] *og AB.* [2] tál AB. [3] vanda B.

svo brögð hann kunni' ei blanda
þér, beiskan drykk af sorgar krús.
Elski þig Jesús.
Stillir straums og landa
styrki' hann alt þitt ráð.
Gefist þér góðfús
græðarans náð.

4. Hvað sem á vill falla
á [einn guð[1] skulum kalla,
í sorg og sútar galla
sannlega læknar alla.
Þá lífsstund lætur falla
leiði' oss greiður guð í hús.
Elski þig Jesús.
Vér fáum á friðarpalla
föðurnum lofgjörð tjáð.
Gefist þér góðfús
græðarans náð.

A = hrs. Bmfj. 392, 8. B = hrs. Bmfj. 584, 8.

---

## Heillaóskakvæði.

1. Skemta[2] vildi' eg[3] skýrri[4] menja þöllu,
skortir mig [til kvæðalag[5] með öllu;
með[6] blíðum orðum beiddi mig
brúðrin úng að ljóða' um sig,
svo lystilig.
Væri' eg skyldur viljann minn að sýna
og veita beiðni þína.

2. [Hýr og kát sem[7] hæfir menja tróðu,
[hún var borin[8] af ætt og slekti góðu;
hjá[9] föðr og móðr er[10] fljóðið mætt,
fríð og blíð af dýrstri[11] ætt,
sem eg fæ rætt.
Af þeim lærði' hún allar kvennmanns dygðir
eingum[12] [veitti' hún[13] stygðir.

---

[1] eining guðs A. [2] þótt s. B. [3] sl. B. [4] skærri B. [5] því kvæðalyst B. [6] sl. B. [7] Heiðr og æra B. [8] því hún er komin B. [9] sl. B. [10] á B. [11] dýrri B. [12] svo e. B. [13] veitir B.

3. Hvað mun[1] þurfa hennar ment[2] að greina?
því[3] hana skortir ei við kvinnu neina.
[Það sem manni mögulegt er,
mengrund dygð af fljóðum ber,
sem eflaust er;
auðmýkt kalla' eg æzta meyjar prýði,
aldrei frá henni líði[4].

4. [Fæ eg ei meira fyrir þig lagt í orði,
fremri kjör eg þér allra næsta gjörði[5];
haldist við þig hamíngjan[6] betr
en[7] harðast stendr á bókum letr,
[og límið[8] getr.
[Fagrt er nafnið fríðrar menja hildar,
fáar eru svo mildar[9].

5. [Heilræðin' sem hæfir eptirdæmi,
hefir hún rétt, sem við hana sjálfa kæmi[10];
alt það gott, sem auðnan lér
athugar hún með sjálfri sér,
[sem eflaust[11] er;
safnar hún[12] kostum saman á[13] hverju dægri,
sú mun[14] listin frægri.

6. Bið eg hún forðist fár og allan vanda,
svo frúinni skyldi aldrei á móti standa.[15]
Æ því leingur lifir hún hér,
lukkan bið eg að aukist þér,
sem eflaust er;
eptir þetta endaloksins[16] góða
æski' eg yður, mín tróða.[17]

7. Gef eg þig alla guði' í himna sæti,
[gleðji önd[18] og líkamans[19] þar með gæti,
[feli þau undir faðmi sín,
firri þig sút og allri pín,
mín auðar lín.[20]
Boðnar[21] falli bragarins[22] kveykinn stirða,
eg bið yður[23] viljann virða.

---

[1] m. eg B. [2] nafn B. [3] sl. B. [4] Frá [ seinni hlutinn á 5. er. B. [5] Frá [ tvær fyrstu línur á 7. er. B. [6] hálfu B. [7] sem A. [8] sem límast B. [9] Frá [ tvær seinustu línur á 7. er. B. [10] Frá [ sl. B. [11] hvað siðlegt B. [12] sl. B. [13] með B. [14] er B. [15] gánga A. [16] enda loexed A. [17] er. vantar í B. [18] hann geymi þína sál B. [19] líkamann A. [20] vantar í B. [21] þótt bragrinn B. [22] en bogni B. [23] þig B.

— hrs. Stockh. 22, 8, 58. bl. (skinnbók frá seinna hluta 16. aldar).
ptir afskript dr. Finns Jónssonar. B — hrs. J. Sig. 257, 8.

**Eitt kvæði.**

Ber hann af öllum beztan prís
í bókavitinu fróðu,
heiðursprýddur, hygginn, vís,
hlaðinn af góðu,
hlaðinn af mentum góðum.

1. Lukku, gæði' og heillir hár
hljóti mætur leingi,
alt það gott eg mæla má,
mesta' og bezta geingi,
þótt lángt sé á milli sýn að sjá,
samt er gróin trygðaflís,
heiðursprýddur, hygginn. vís,
minn vill þánkinn þángað gá
þagnar geðs af slóðum,
hlaðinn af góðum,
hlaðinn af mentum góðum.

2. Sjálfum guði sel eg þig
sæmdarmaðurinn þekki.
buðlúng mætur minnstu' á mig,
mun það skaða ekki;
gaktu jafnmargt gæfustig
sem grasið á kríuglu foldar rís,
heiðursprýddur, hygginn. vís.
Gefi það náðin guðdómlig.
Gjöri' eg svo lykt á ljóðum,
hlaðinn af góðum,
hlaðinn af mentum góðum.

ÁM. 148, 8, 325. bl.

**Eitt kvæði.**

Yðar frómleg æran kann
aldrei niðr að falla.
Lofs er verður listamann
:,: lands um kringlu alla. :|:

1. Óska ferju auðs af sandi
ýta skal frá þagnar landi,

má það heita mestur vandi
máls að ferma byrðíng þann, —
Lofs er verður listamann —
þá túngan sleppur úr tjóðurs bandi
tóns um ljóða palla.
— :|: lands um krínglu alla. :|:

2. Frægð og sómi, fleina meiður,
fylgi þér, enn stærsti heiður,
minnis ranns í máli greiður,
mesta list yfir flesta kann.
Lofs er verður listamann.
Lukkuvegrinn liggi greiður
fyrir lesti nöðru palla
lands um alla,
lands um krínglu alla.

3. Mæta fáðu menjatróðu,
málmaviðr, með skarti góðu,
sértu kvittur sorgar móðu,
sinnisglaðr um hjartans rann, —
Lofs er verður listamann.
— búinn vel með bragði rjóðu,
bundinn eingum galla
lands um alla,
lands um krínglu alla.

4. Suptúngs skal hér sagður feingur
af Sónar tunnu ekki leingur,
fúinn má heita fræða þveingur,
fyrir það ekki halda kann.
Lofs er verður listamann.
Af kerinu Boðnar gilkrótt(!) geingur,
greitt skal kvæðið falla
lands um alla,
lands um krínglu alla.

ÁM. 148, 8, 327. bl.

### Eitt kvæði.

Alla æfi þína
auðnu muntu fá,
sízt mun sigrinn dvína
og sæmdin há.

1. List og heill sé lánuð þér,
lukkan gjöri' ei dvína
um alla æfi þína.
Æ þér fylgi auðnan fín,
aukist lof og virðíng þín,
sem eg mun tjá.
Sízt mun sigrinn dvína
og sæmdin há.

2. Guð sá leysti garpa drótt
gefi þér miskunn sína
um alla æfi þína;
veitist yður sú virðíng fljótt,
sem verkar prís og frægðar þrótt,
en hverfi þrá.
Sízt mun sigrinn dvína
og sæmdin há.

3. Eilífan fái þér andar frið,
sem aldrei náir að dvína,
um alla æfi þína.
Þér drottins náð og líknar lið
linni ei, yður þess eg bið,
né hverfi frá.
Sízt mun sigrinn dvína
og sæmdin há.

ÁM. 148, 8, 327. bl.

## Eitt kvæði.

Vísu á eg að vanda,
víst einga eg kann.
Falli þér heill til handa
heiðursmann.

1. Mistekst ei af réttum Suptúngs hátt,
að semja nokkurn dýran þátt,
af ljóðasmiðunum lærði eg fátt
lof með nöðru sanda.
Vísu á eg að vanda.
Þig gæfan setji í heiðrinn hátt,
hægt sem verða kann.
Falli þér heill til handa
heiðursmann.

2. Vináttu hljóti vellaþór
og virðíng mesta' af dýrri þjóð;
hafni jafnan hugarins móð
hreytir Fofnis sanda.
Vísu á eg að vanda.
Hóglyndur við hölda' og fljóð,
hvern dag sýnist hann.
Falli þér heill til handa
heiðursmann.

3. Auðnan sé þér ætíð með,
innst af hjartans dygðum léð,
með guðrækninni að græða féð,
gistir heilags anda.
Vísu á eg að vanda.
Óspart hljóttu Ófnis beð,
en aldrei lukkubann.
Falli þér heill til handa
heiðursmann.

4. Óskar þess mín öndin hrein
þig auðnan styrki' í hverri grein,
ángursemi né önnur mein
aldrei megi þér granda.
Vísu á eg að vanda.
Læsi' eg aptur ljóðatein,
og lúkið kvæðarann.
Falli þér heill til handa
heiðursmann.

ÁM. 148, 8, 328—29. bl.

---

Guð geymi blíða,
glaða auðslóð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

1. [E]f vildi Friggjan elda ósa
af mér þiggja stökuna ljósa,
mundi bryggja máls því hrósa,
mærðar versið smíða.
Guð geymi blíða.

Að mun hyggja eðla rósa
illa þótt eg digti ljóð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

2. Dáða sætur drottinn mildi
dygðarmæta hrínga hildi
um dag og nætur vernda vildi
vel fyrir öllum kvíða, —
Guð geymi blíða.
— svo hjartarætur frú[r] upp fyldi
frelsarans náðar ástin góð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

3. Réttvísin með ráði góðu
rúm sér finni auðs hjá tróðu,
ávalt linni[1] ángri móðu,
ánauð hreppi' ei stríða.
Guð geymi blíða.
Vizkan stinn hjá vífi rjóðu
vistfestist um hyggjuslóð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

4. Náðuga·fræði brúki, bjarta,
bezt þau klæði' á yður skarta,
að elska næði' af öllu hjarta
einn guð sprundið þýða.
Guð geymi blíða.
Hann yðar bræði hyggju parta,
heit[t] vermandi ástarglóð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

5. Sálin og allir kraptar kynni,
að klæðast allri ástsemdinni,
glögt svo hallir hugarins finni
hylli föðursins fríða, —
Guð geymi blíða.
— hann ákalla' í hverju sinni
og honum syngja þakkar hljóð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

6. Til náúnga tek eg líka,
trygðar slúngin elskan ríka,
hjarta' og túnga hylli slíka
hegðan láti prýða.
Guð geymi blíða.
Saurugan[2] þúnga synda flíka
sætan kann svo forðast rjóð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

7. Einkum haltu orðin laga,
alla skaltu hvíldardaga
heiðra' ávalt, og í hjarta hafa
hegðan þína sníða.
Guð geymi blíða.
Þar til alt með dygðum draga
dagfar þitt, fyrir utan móð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð

8. Jafnan skyldi[3] ristill rjóður
af ræk[t]ar gildi föður og móður,
greiða mildi honum hróður,
hátt ak[t]a og hlýða.
Guð geymi blíða.
Svoddan snild mun glæstan gróður
gefa úngri auðar slóð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

9. Nokkurt mein ei náúnga vinni
nistilrein á æfi sinni,
[f]jögr og hrein svo forðast kynni,
fram til efstu tíða.
Guð geymi blíða.
Ekki nein[4] svo gullskorð [g]inni
galin heimsins athöfn, óð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

10. Dýrt hreinlífið drós mun prýða.
Drottinn blíður verndi fríða,
yfir [blí]fi árla' og síða(!),
eingu þarf þá kvíða.
Guð geymi blíða.

[1] *svipt af, hdr.* [2] *Saurugum, hdr.* [3] skaltu, hdr. [4] neitt, hdr.

Ágirnd svífi aldrei á þýða,
annars fé svo girnist góð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

11. Rángan drátt úr annars auði
aldrei láttu þínu brauði
veita neitt, þótt vitir kauði
vilji hrekki sníða.
Guð geymi blíða.
Drottinn brátt mun sína sauði
seðja' og klæða, gæzkan góð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

12. Svo er af sneytt, úr annars eigu
ekki neitt vér girnast meigum,
víst ógreitt á veraldar teigum
veitir oss þessu' að hlýða.
Guð geymi blíða.
Lund mín streytt með dygðum deigum
daglega' slíku' í móti stóð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

13. Drottinn veiti dregla þöllu,
að dygg hér breyti eptir öllu,
og framast í leiti, fróns í höllu,
föðursins ráðum hlýða.
Guð geymi blíða.
Forðist hrekki' og glæpa göllu,
guð þess unni auðarslóð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

14. Óþrotnandi æra' og sómi
yfir þér standi svanninn frómi,
með samhljómandi ræðu rómi
ráðsvinnastra lýða.
Guð geymi blíða.
Yðar ilmandi brúðarblómi
ber þau eðla aldin góð.
Lausnarinn lýðanna.
líkni þér fljóð.

15. Tígin [mær] er trygg í lyndi,
trúföst, kær og ljúf í lyndi,
hreinlíf, skær um hyggju strindi,
hógvær, liljan þýða.
Guð geymi blíða.
Sá hennar fær eg hygg að fyndi
það heiðursamasta víf hjá þjóð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

16. [Að yður[1] fljóti gæfa' og geingi,
glöð þess njóti vel og lein[gi].
Aldrei [þrjóti] makt hjá meingi
menjalindi þýða.
Guð geymi blíða.
Með öllu [móti] fögr svo feingi
fyr og síðar [atlot góð].
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

17. Eptir þetta liðið lífið
li[nna] stétta[2] öðlist vífið
landið slétta, kefst þá kífið,
kemur á höfn svo fríða.
Guð geymi blíða.
Alt mun létta starfið stríða,
styður oss eilíf gæzkan góð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

18. Rénar og dvínar Rögnis minni,
ræður mínar falli' að sinni;
ával[t] hlýnar úti' og inni,
eyðist veðrið st[ríða].
Guð geymi blíða.
Brúðir fínar bót á vinni,
bögulega lyk[t]a'(?) eg óð.
Lausnarinn lýðanna
líkni þér fljóð.

ÁM. 149, XV, 8, 1—3. bl. Frá 17. öld.

[1] *Yðar, hdr.* [2] *stéttja, hdr.*

## Eitt vikivakakvæði.

Frið og blessan fái þér
framar en eg kann greina.
Sértu firtur fári allra meina.

1. Sé þín aldrei sæmdin lægð,
sætleiks dygð og sóma nægð.
Um aldir haldist yðar frægð
og auðnu lánið hreina.
Sértu firtur fári allra meina.

2. Vináttan guðs og virða með
verði yður um æfi léð,
við hrekkjum öllum heimsins séð.
Hindran fáið ei neina.
Sértu firtur fári allra meina.

3. Hvar þú sveimar um sjó eður láð,
sjá þú til hið bezta ráð,
að biðja guð um blíða náð,
svo bresti' ei hjástoð neina.
Sértu firtur fári allra meina.

4. Við óvinum gæt þú öllum þín;
auka þeir jafnan sára pín.
Illskan þeirra aldrei dvín,
en elsku hafa ei hreina.
Sértu firtur fári allra meina.

5. Lítist þér einhver vera þinn vin,
vittu hvort það er meir en dyn:
hans á háttum haf það skyn,
hvort trygð hann haldi hreina.
Sértu firtur fári allra meina.

6. Vinur minn góður, við honum þú
varaðu einninn börn og hjú.
Hugsaðu um hvort heldur trú
og hjartans prýði hreina.
Sértu firtur fári allra meina.

7. Voldugur guð yður veiti lið,
svo vélum heimsins sjáir við,
setji' hann yður í sælufrið,
svo kennið eingra meina.
Sértu firtur fári allra meina.

8. Frá hrygðum öllum haldi þig
hæstur guð og sjálfan mig.
Á vondu öllu vinnur svig
verndan hans hin hreina.
Sértu firtur fári allra meina.

Brit. Mus. Add. Mss. nr. 11,181, 16, 1, 95—96. bl. (brot á seinna staðnum).
Byrjun og endir í hrs. Sv. Grv. 67.

## Annað vikivakakvæði.

1. Mitt er þetta þýðast þel
í þánka bundið mínum,
að þú lifir leingi og vel,
svo líki þínum,
svo líki guði þínum.

2. Ósk míns hjarta er það fyrst
ágæta þú lærir list,
í hjartanu þínu að heiðra Krist,
sem hefir oss leyst frá pínu,
svo líki guði þínum.

3. Því upphaf vizku það allrar er,
að óttast guð í heimi hér,
sem að oss mæta miskunn lér
í mörgum gáfum sínum,
svo líki guði þínum.

4. Lifnað sinn að vanda vel
og vera með auðmjúkt hjartans þel,
ávöxt slíkt eg trúan tel
af trygðar sjóði fínum,
svo líki guði þínum.

5. Hreinhjartaðir herrann fá
í himna ríki mætan sjá,
eymdum veraldar öllum frá;
ann þess drottinn sínum,
svo líki drottni þínum.

Sama hdr. 2—3. bl.

## Þriðja vikivakakvæði.

Elski þig Jesús
og anníst þitt ráð;
gefist þér góðfús
græðarans náð.

1. Hvað sem að vill falla,
á einn guð skulum kalla,
sáran sorgar galla
senn hann lætur falla.
Þá hérvist vorri hallar
hjálpi' oss drottinn náðarfús.
Elski þig Jesús.
Vér flýjum á friðarpalla,
föðurnum lofgjörð tjáð.
Gefist þér góðfús
græðarans náð.

2. Öll þau ángurs hót,
þér ama kunna' á mót,
undan láti ljót,
svo linun verði' á fljót,
á bölinu' öllu bót,
beiskum drykk og sorgarkrús.
Elski þig Jesús.
Hans verndarhöndin fljót
þér fægi' af synda gráð.
Gefist þér góðfús
græðarans náð.

3. Þig temji' og til sín laði,
túlkurinn náðar hraði,
af sáru syndasvaði,
í sínu blóði baði.
Af djúpu dauðans vaði
dýr þig leiði í sitt hús.
Elski þig Jesús.
Vér förum í friði glaðir,
föðurnum lofgjörð tjáð.
Gefist þér góðfús
græðarans náð.

Sama hdr. 3—4. Viðkvæðið í hrs. Sv. Grv. 67. Sbr. bls. 164—65.

## Fjórða vikivakakvæði.

Hljóttu seggrinn sóma,
sælu' og himna vist,
þar með blíðan blóma
hjá blessuðum Krist.

1. Kóngrinn dýrðar, kenn þú mér
kvæðasmíð að ljóða.
Hugsaðu' um það, sem hentugt er
heiðurs ráðið góða.
Meistarinn þar til mælsku lér,
mín er á því list,
þar með blíðan blóma
hjá blessuðum Krist.

2. Hamíngju lánið. heiðr og snild
halrinn fá þú fríði,
auðnulán og elsku vild,
að þér sóminn líði,
lyndishægust lukkan gild
lendi hjá þér víst,
þar með blíðan blóma
hjá blessuðum Krist.

3. Hvar sem gár und sólar sal,
sértu frægstur manna
Kurteist fólk og kvenna val
þér kjósi virðing sanna,
svo aldrei verði óhreint tal
um þig buldrað byrst.
Þar með blíðan blóma
hjá blessuðum Krist.

4. Fáðu bæði fjárins nægð,
frið og sóma sannan.
Líf þitt verði víst með þægð
í vináttu guðs og manna.

Ætíð sýndu aumum vægð
af ást í ljúfu list.
Þar með blíðan blóma
hjá blessuðum Krist.
5. Bind eg á enda Boðnar vín,
bragrinn skal svo falla.
Hugsi hver í hjarta sín
á hæstan drottin kalla.
Forði oss Jesús fári' og pín
fyrir vorn herrann Jesúm Krist.
Þar með blíðan blóma
hjá blessuðum Krist.

Sama hdr. 4.—5. bl. Viðkvæði og 3. er. í hrs. Sv. Grv. 67.

## Fimta vikivakakvæði.

Að vísu skyldi' eg vanda óð
vella lund ef kynni.
Hafi þig guð í hendinni sinni.

1. Brotinn Suðra bát um sinn
bæta þótt eg vildi,
ei fæst að honum aðbótin
eins sem haga skyldi.
Njörfi aldrei nokkuð inn
neitt mér lagði í vizku sjóð.
Að vísu skyldi' eg vanda óð.
Bágan þenna braginn minn
bæti hver, sem kynni.
Hafi þig guð í hendinni sinni.

2. Fyrst með mér gekkstu málma týr,
miskunn drottins veitist skýr,
úti' og inni auðnan dýr,
á öllum stundum, hvar þú fer.
Til lausnarans þar ljósið býr
leiði þig guð með sinni þjóð.
Að vísu skyldi' eg vanda óð.
Öll í burtu ángist snýr,
eymd og hörmúng linnir.
Hafi þig guð í hendinni sinni.

3. Miskunnsamur herrann, hár,
haldi þér undir vænginn sín,
svo þér eingin nauðin nár,
nákvæm er það óskin mín.
Mildur guð til með þér sjár,
er miskunn veitir sinni þjóð. —
Að vísu skyldi' eg vanda óð.
— líka' og aðstoð ljúfa tjár,
svo líf eilíft þú finnir.
Hafi þig guð í hendinni sinni.

4. Auðlegð hljóttu, og þess bið,
ástar prýddur dáðum.
Sértu æ með sæmdar sið
svinnr í öllum ráðum.
Heilagr andi leggi lið
og leiði þig á dýrðar slóð.
Að vísu skyldi' eg vanda óð.
Læsi eg aptur ljóða hlið,
lúinn er mærðar tvinni.
Haldi þér guð í hendinni sinni.

Sama hdr. 5.—6. bl. Viðkvæði og framan af 2. erindi í hrs. Sv. Grv. 67.

## Sjötta vikivakakvæði.

Hitta' eg úngan hofmann
með harla góðu sinni;
hefi' eg hann ekki' í hvers dags ræðu minni.

1. Óðreir tímdi ekki mér
af ólinu neitt að veita.
Skáldið hvert, sem skilníng ber,
skal þar eptir leita.
Enn eg hnoða aurinn fer,
eingum þori' eg að bjóða hann.
Hitta' eg úngan hofmann.
Bátur Litars brotinn er
í bragar nausti inni.
Hefi' eg hann ekki' í hvers dags
ræðu minni.

2. Eg veit margan örva grér
af ýngisfólki fínu
leika fagrt um landið sér
og láni hrósa sínu.
Drepi það einginn út fyrir mér
eg þótt nýti máls[hátt] þann.
Hitta' eg úngan hofmann.
Einn er sá af öllum ber
í allri manndygð sinni.
Hefi' eg hann ekki' í hvers dags
ræðu minni.

3. Elsku dygðir allar ber
með ástar kosti sönnum,
geðfeldur hann guði er
og góðum líka mönnum
Allar meyjar óska sér,
að eiga hann fyrir unnustann.
Hitta' eg úngan hofmann.
Ef einhver yrði hans egta ker,
af ástum hjartað brynni.
Hefi' eg hann ekki' í hvers dags
ræðu minni.

4. Öllu trúir, alt umber.
alt hann vonar líka.
Til ills hann ekki egndur er,
og eingan veit eg slíkan.
Kærleik þennan köllum vér,
kveðið hefi' eg það upp á hann.
Hitta' eg úngan hofmann.
Vildi guð hann væri hjá mér
víst í brjósti inni,
og hefði eg hann þá í hvers dags
ræðu minni.

Sama hdr. 6.—7. bl. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 67.

## Sjöunda vikivakakvæði.

Listugt blakta laufin fríð
þar landið fagurt er;
sem sólin skín á sumartíð,
sæmdin fylgi þér.

1. Læt eg út á laxa-hver
Litars bátinn renna.
Mér vill einginn málma grér
ment, sem hentar, kenna.
Aðalkvistrinn ávöxt ber,
er þá rótin góð og þýð,
þar listugt blakta laufin fríð.
Óbreytt þessi orða klíð
um það vitni ber.
Sem sólin skín a sumartíð,
sæmdin fylgi þér.

2. Hljóttu bæði heiðr og sæmd
og hverskyns veraldar blóma.
af öllum lýð um æfi dæmd
með veraldar sóma.
En öll óblíðan frá þér flæmd,
svo firrist bæði hatr og stríð.
Listugt blakta laufin fríð.
Eg óska bæði ár og sið,
að auðnan fylgi þér.
Sem sólin skín á sumartíð,
sæmdin fylgi þér.

3. Guðhræzlan, sem greini' eg fyrst,
er gæfustafrinn meingi,
allan tíma að elska Krist,
að af honum blessan feingi.

Þér skuluð elska þessa list,
þá mun verða æfin blíð.
Listugt blakta laufin fríð.
Um allan heim, sem veröld er víð,
vegsemd drottni ber.
Sem sólin skín á sumartíð
sæmdin fylgi þér.

4. Daufur Kvásis dreyri' er runninn,
drykkjan Ása út er spunnin,
Hvítbergs[1] lás er hvergi unninn,
Hnikars krás eg eingum býð.
Listugt blakta laufin fríð.
Fleinn mun rása fast í grunninn,
sem flaustrið Vestra ber.
Sem sólin skín á sumartíð
sæmdin fylgi þér.

Sama hdr. 8—9. bl.

**Áttunda vikivakakvæði.**

[Þótt gángi eg með þér[2]
gólfið á
gómakvörn að hræra,
hljóttu það sem heiður er og æra.

1. Vináttu bónum varla nei
má veita hverju sinni.
Því mun eg láta Frosta fley
fleyta Ása minni.
Þarf mig þess að iðra ei,
þótt aurinn gelmis mætti' eg fá,
ef geingi eg með þér gólfið á.
Verri er hann en visnað hey
Viðris kveik að næra.
Hljóttu það sem heiður er og æra.

2. Ment og prýði marga ber
maðurinn þessi' enn teiti,
sem hér er næstur hendi mér,
þótt hans ei greini' eg heiti.
Æztur drottinn unni þér
alla sæmd og virðíng fá,
þótt gángi' eg með þér gólfið á.
Hvar sem þú um heiminn fer,
heilræðin að læra,
hljóttu það sem heiður er og æra.

3. Gángi með þér gæfan flest
göfugmennið fína.
Aldrei fá þú auðnu brest
um æfidagana þína.
Mentir prýða manninn mest,
mun það líka til þín ná,
þótt geingi' eg með þér gólfið á.
Snögt mun skerða litla lest,
lögnum Boðnar tæra.
Hljóttu það sem heiður er og æra.

4. Bifars ferjan brostin er,
þótt bragnar að henni hlægi,
um bæti það örfa-grér
þótt ekki falli í lagi.
Borð og reingur bresta hér,
bæði reiðinn, segl og rá,
þótt gángi' eg með þér gólfið á,
allrar lukku óskum vér
afreksmanni kæra.
Hljóttu það sem heiður er og æra.

Sama hdr. 9.—10. bl. Viðkvæði, 2. og 3. erindi í hrs. Sv. Grv. 67.

**Eitt vikivakakvæðiskorn til gamans.**

Blessi drottinn bragna lið
og burðug kvendi.
Heilagur andi híngað til vor vendi.

---

[1] = Hnitbergs. [2] Gáttu með mér.

1. Upphafið er það auðnu fyrst,
ágæt hlýði baugarist,
af öllu hjarta' að elska Krist,
sem ástarfaðir oss kendi.
Heilagur andi híngað til vor vendi.

2. Boðorðum drottins bregð þú ei af,
brúðurin minnstu opt á það,
þá eldur kom hér ofan að,
sá Arons synina brendi.
Heilagur andi híngað til vor vendi.

3. Sæl værir þú seima ná,
ef segðu þar til allir já,
að öðlíng sá, sem alt gott má,
augum til þín rendi.
Heilagur andi híngað til vor vendi.

4. Hreptu hvorki hrygð né fár,
hrínga skorðin fögr og klár,
heldur lukku' um lífsins ár
af ljúfri drottins hendi.
Heilagur andi híngað til vor vendi.

5. Auðnusöm í öllu sért,
auðargrundin, hvar þú ert,
blessuð jafnan brúðurin vert
af blíðri drottins hendi.
Heilagur andi híngað til vor vendi.

6. Af innstum rótum eg þess bið
almáttugan himna smið,
þá skallaz-grundin skilst hér við,
skaplega lífið endi.
Heilagur andi híngað til vor vendi.

7. Sálin hreppi sælu vist
hjá signuðum herra Jesúm Krist,
megtug þessi menjarist
mæt hjá drottni lendi.
Heilagur andi híngað til vor vendi.
Hrs. J. Sig. 257. 8.

## Enn eitt kvæðiskorn til gamans.

Hverfi þér bæði hryggð og óttinn,
eg haga svo orða skrá.
gefi það mætur. mildur drottinn
menja ná.

1. Les eg það fyrst í ljóða greinum,
lausnarinn minn þig svipti meinum,
kendu aldrei á kránkdóm neinum.
kyrtla lindin. héðan í frá,
gefi það mætur, mildur drottinn
menja ná.

2. Lausnarans aldrei líkn mun þverra,
lindin forðist alt hið verra.
mér það veiti mildur herra,
mínar bænir þér hríni á.
Þér gefi það mætur. mildur drottinn
menja ná.

3. Svipti þig frá sorg og móði.
sendi gleðina úngu fljóði
sá, sem helti út sínu blóði,
signaður herrann. krossi á,
það gefi þér mætur. mildur drottinn,
menja ná.

4. Get eg nú ei goldið svanna.
sem geðug kvað mér hrínga nanna,
hýr þig láti hjálparinn manna
heilsuna góða ætíð fá,
þér gefi það mætur, mildur drottinn
menja ná.

5. Læt eg falla ljóð af munni
laufatý og hrínga gunni;
hafi oss guð í hjávist sinni,
til hægri handar himnum á.

Oss gefi það mætur, mildur drottinn
menja ná.
Hrs. J. Sig. 257, 8.

## Enn nínnda kvæði að kveða í vikivakanum.

Meyjarnarbuðu mig til leiks
með meingi,
en eg sagði það sem var,
að eg kynni' ei í gleðinni par,
þó dansaði eg með þeim leingi.

1. Góðra manna gullskorð er
görpum vil eg það inna;
hvergi mega höldar hér
hennar líkann finna.
Dagfar prýðir hríngahrund
hennar og nógar sæmdirnar,
en eg sagði það sem var;
heppinn tel eg í heimi þann,
sem hrínga þöllu feingi.
Þó dansaði eg með þeim leingi.

2. Skartsamlegri og skærri á kinn
skapast í heiminu valla;
hvern dag vaxi heiðurinn þinn
heiðurs vífið snjalla.
Guð minn blíður gefi þér
gæfu lán og heillirnar,
en eg sagði það sem var.
Óska eg þess fyrir auðarná,
henni alt að óskum geingi.
Þó dansaði eg með þeim leingi.
Hrs. J. Sig. 257, 8.

## Enn eitt kvæðiskorn að kveða.

Hér er gott að dansa,
hér er stofan ný.
hún er öll tjölduð
og þakin með blý.

1. Hér hefi' eg fundið eitt
herlegt sprund;
með heiðri prýdd á alla lund,
gæf og hýr er gullhlaðs grund,
með geðsemd gjörir að anza.
Hér er gott að dansa.
Fátækur ei forðist sprund,
þótt fari um bý.
Hún er öll tjölduð
og þakin með blý.

2. Vöxtur hennar víst og skart,
vænt er fljóð og þar með bjart;
hún ber sín klæðin brigðu snart,
á gleði þarf ekki' að stanza.
Hér er gott að dansa.
Athöfn hennar og önnur art
auðnan gjörvöll fylgi því.
Hún er öll tjölduð
og þakin með blý.

3. Heiðurs vífið hreppi sóma,
hér með allan veraldar blóma,
gefi þér Kristur gæfu fróma
og geymi þín frá vansa —
Hér er gott að dansa.
— undir Kristó, elsku blóma,
sem ætíð gjörir af syndum frí.
Hún er öll tjölduð
og þakin með blý.

Hrs. J. Sig. 257, 8. Viðlagið er líka til á færeysku. Lyngby. Færöiske Qvæder, Randers 1822, bls. 551. Hammershaimb, Færösk Ant. I. 1891, bls. 432.

## Annað kvæðiskorn.

Ljóðakver
[lízt mér]
lilju gulls að bjóða;
ströndin rjóða,
stöðug í því hinu góða.

1. Þótt þú gángir á gólf með mér
gjörir það einga minnkun þér.
Sómann hljóttu sem bezt fer,
svipt af ángri móða,
ströndin rjóða,
stöðug í því hinu góða.

2. Árna eg þér elsku' og frið,
eilíf[r] guð þér leggi lið;
af alúð þess eg óska' og bið
ágæt hríngatróða,
ströndin rjóða,
stöðug í því hinu góða.

3. Heilræði eg kann þér kenna
og klárum til þín huga renna.
Æran gjöri þig að sér spenna,
elski þig drottinn tróða,
ströndin rjóða,
stöðug í því hinu góða.

4. Gaktu' ei þar sem geingur bræla,
gjörðu' ei í ósæmd saman að svæla,
hann eða hana' ei heldur bæla;
þér hentar ei ilt að ljóða
ströndin rjóða,
stöðug í því hinu góða.

5. Þig umfaðmi guð á allar síður,
æ þér hjálpi' og veri þér blíður
hans varnaðareingill fagur og fríður
þig [friði auðartróða],
ströndin rjóða,
stöðug í því hinu góða.

Hrs. J. Sig. 257, 8.

## Kvæðiskorn.

Hljóttu marga heillastund
og heiður, um æfi þína.
Blíður guð þá bænina heyri mína.

1. Heilsugjöf og hamíngjugæði
herrann bið eg þér veita næði,
gagnlegt lán og gott hjálpræði;
gjöri' eg þess óska' af hreinni lund.
Hljóttu marga heilla stund.
Ávalt ljós og sómasæði,
svo að þig snerti' ei pína.
Blíður guð þá bænina heyri mína.

2. Erviði þitt og áform blessi
alla stund í gángi' og sessi
hjálparfús vor herrann þessi,
sem hættri lét sig pína und.
Hljóttu marga heilla stund.
Þessi orð, sem þyl eg í vessi,
þau munu á þér hrína.
Blíður guð þá bænina heyri mína.

3. Alt þér gángi að ósk og vilja,
úng sem beiðir nú hrínga þilja.
Vil eg svo máls við verkin skilja,
verður að þorna óðar sund.
Hljóttu marga heilla stund.
Eingin þjái þig ángurs kylja.
Óðrinn skal svo dvína.
Blíður guð þá bænina heyri mína.

ÁM. 152 II. 8. 16. bl. Frá 17. öld.

Svanna kann eg sónarsmíð
senda geðs af slóðum,
mér lízt þessi menjahlíð
manninum góðum,
manninum hæfa góðum.

1. Lag hefi' eg ei á ljóðum,
ljúfum að skemta fljóðum.
hás og dimmur í hljóðum
hlaðs hjá grundum rjóðum.
Af Mímis mærðar flóðum
mér var skamtað alla tíð.
Mér lízt þessi menjahlíð —
Er eg því einn á slóðum
með ángur í hyggju sjóðum.
— manninum góðum,
manninum hæfa góðum.

2. Eingin amorskvæði
yl eg af mærðar svæði,
rétt eg þetta ræði,
ristil trúi' eg það mæði.
Við skulum vífið, bæði,
vanrækja það orðasmíð.
Mér lízt þessi menjahlíð —
Meiri' eru mentagæði
að miðla betri óðum.
— manninum góðum,
manninum hæfa góðum.

3. Lukkulán og friður
lánggæð veitist yður,
slíkt er sómi' og siður,
sætu hamíngjan styður.
Þinn allur ættarliður
öðlist heillagæðin blíð.
Mér lízt þessi menjahlíð —
Farsældanna friður
festist á svanna rjóðum.
— manninum góðum,
manninum unna góðum.

4. Blessan drottins blífi
bæði' á sál og lífi
yfir vænu vífi,
verndi, styrki' og hlífi.
Yfir svo eingin drífi
ógæfan né stórlegt stríð.
Mér lízt þessi menjahlíð —
Á þótt sorgin svífi,
sefist hún aptur óðum.
— manninum góðum,
manninum unna góðum.

5. Aldrei verði endi
á auðlegð þinni kvendi.
Fljóðið að lyktum lendi
í ljúfri drottins hendi,
á móti sálu' hann sendi
sína eingla í dauðans tíð.
Mér lízt þessi menjahlíð —
Þeir víki henni' og vendi
vítis í burt frá glóðum.
— manninum góðum,
manninum hæfa góðum.

6. Hér skal ljóðum linna
lindin silkitvinna,
að virði vel hin svinna,
þótt verði bágt að finna
orðin dýr eður inna
yður, sem hæfir, brúðrin blíð.
Mér lízt þessi menjahlíð —
Beint ef betur eg kynna
breyta skyldi' eg ljóðum.
— manninum góðum,
manninum hæfa góðum.

Hrs. Bmfj. 105, 4; bls. 321—22 (Vatnshyrna). Eignað þar séra Hallgrími Péturssyni. Í Valdimarsrímum eptir Þórð á Strjúgi II, 1 er vísa, sem er mjög svipuð viðkvæðinu:

Öll er höllin fræða fríð,
frjófguð mærðar sáði,
svanna kann eg sónarsmíð
senda geðs af láði.

Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 118, 346.

---

Fold hefir svæfða[1] Fenju-báls
Fundíngs hauka báða;
nú er eg búinn til mærðar máls,
má hún[2] því lindin ráða.

1. Drjúgum fögur dúka eik
[um diktan rækta[3] biður,
[há er gáfan[4] Hnikars veik[5]
hulin, falin niður.
Týs má bjórs[6] ei takast kveik.
[tregr er lögrinn[7] Boðnar áls.
Nú er eg búinn til mærðar máls.
[Þanninn finn eg lakur[8] leik
við ljóðasmíðið[9] bráða.
Má hún því lindin ráða.

2. Krúsar Ása[10] læt eg lút
[leysa nú að sinni,[11]
af ræðu slóðum[12] ratar út
Rögnis [tignar minni;[13]
[hljóða þýðan hnýti eg [knút],[14]
Hlökk[15] fyrir þekka Rí[n]ar báls.
Nú er eg búinn til mærðar máls.
Blíð með gæðum bæti sút
bríkin Kraka sáða.
Má hún því lindin ráða.

3. Náðir bíði skær og skýr
skikkju Hlökkin[16] rjóða,
öðlist[17] siðug, æruhýr,
allan heilla gróða.
Kvásis ljósan dreyra, dýr
dúka taki Niptin, frjáls.
Nú er eg búinn til mærðar máls.
[Að landi banda snekkjan snýr,
snót þá eignist dáða.[18]
Má hún því lindin ráða.

4. Mitt af létta mælir þel,
mens að ansa þrúði,
manninn svinna til eg tel
tignar eignist brúði.
Snáka bliki[19] bólið vel
á björtum, virtum sveigi stáls.
Nú er eg búinn til mærðar máls.
Síðan bæði' í sælu fel,
sóma himins og láða
Má því lindin ráða.[20]

A = hrs. Sv. Grv. 66. B = hrs. Bmfj. 105, 4. (Vatnshyrna) og er eignað þar séra Hallgrími Péturssyni. Viðkvæðið er úr Indriða rímum ilbreiðs eptir Sigurð blinda og er prentað hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 118, 293.

---

[1] svæfðan AB. [2] sl. B. [3] diktan ræktar B. [4] hæfir gæfan B. [5] leik A. [6] bjart A. [7] tregast logar A. [8] þenna finn eg lakan B. [9] ljóða streinginn B. [10] Kvásis B. [11] liða' um tjarnar minni B. [12] stöðum B. [13] hjarnar inni B. [14] [Á] ljóða streingi knýti knút B. [15] Klökk B. [16] þöllin B. [17] eignist B. [18] Kjalars bilar bjórinn rýr, brestur listin þjáða B. [19] blika B. [20] Er. vantar í A.

Hljóti gleði heiðurshá
hrínga lindin fríða.
Listir beztar lilju borða skrýða.

1. Róms af landi renna skyldi
Rögnis bland með orða snildi,
vel í vanda mærðar mildi
mey til handa óms úr brá.
Hljóti gleði heiðurshá.
Ef góms af granda golnis gildi
geingi ei tregt að smíða.
Listir beztar lilju borða skrýða.

2. Gullblaðs lindi gleði veiti
guð með yndi, sorg ei þreyti,
svo lukku fyndi lands á reiti
lauka strind og gleði þá.
Hljóti gleði heiðurshá.
Hyggju lyndi blíð svo breyti,
bezt megi sæmdin prýða.
Listir beztar lilju borða skrýða.

3. Yðar hagur fljóð sé fagur,
fremdar slagur veitist hagur,
svo að dagur sorgar magur[1]
sé ófagur lángt þér frá.
Hljóti gleði heiðurshá.
Gleði dagur gefist hægur
grundu Fofnis hlíða.
Listir beztar lilju borða skrýða.

4. Nú skal ljóða lykta sæði,
líneik fróða hljóti gæði
Virð til góða, víst eg ræði,
vífið rjóða, orða skrá.
Hljóti gleði heiðurshá.
Læt svo óðar[2] falla fræði,
frú það eignist blíða.
Listir beztar lilju borða skrýða.

5. Blómið vallar bragnar líta
og bráðið mjallar þakið hvíta,
til laxa hallar ferðum flýta,
finnist og galla nauðin hjá.
Hljóti gleði heiðurshá.
Ljóða bjalla brast ónýta
bland um Þundar lýða.
Listir beztar lilju borða skrýða.

Hrs. J. Sig. 6. 8 (frá 17. öld). Eptir því, sem skáldið bindur nafn sitt, hefir hann heitið Björn.

---

Bágt er brag að ljóða,
baugagrundin, forlát mér.
Þér hljótið gleði góða,
þá sem gæðum prýdd er.

1. Kvásis plag af dísa drögum
dró sér brag af glósna sögum,
kjósi lag af krúsar lögum
Kjalars, velji tróða.
Bágt er brag að ljóða.
Á ljósan dag því lýsi bögum
Lofnu Fofnis sængur sá.
Þér hljótið gleði góða þá —
Vís, ógagur hróðrar högum
hrósar fríðum kvæðum.
— góða þá með gæðum.
Rís því fagur af rósarlögum,
reisir Ása mjaðar hver.
Þér hljótið gleði góða,
þá með gæðum prýdd er.

2. Í fyrstu boðist beztur yður,
brjóstið stoði, Kristí friður,
hið versta troði víst svo niður
að vaxi[3] dagfar góða —
Bágt er brag að ljóða.

[1] sagur, hdr. [2] orða. hdr. [3] vaxa. hdr.

— ástar ráði, er[1] æzti liður
ættar, dróttum veitti sá.
Þér hljótið gleði góða þá —
Löstu þvoði' í listum biður
leið af himna hæðum.
— góða þá með gæðum.
Hýrast skoði hæstur smiður
himna kóngnum[2] fögnum vér.
Þér hljótið gleði góða
þá með gæðum prýdd er.

3. Sálar kæti' eg vil þér veiti,
vel ágæti sólar skreyti[r]
kvöl svo bæti, böl ei þreyti
bruggan[3] hyggju slóða.
Bágt er brag að ljóða.
Tel eg mæta, mæli' og breyti
mest sem Kristó þóknast má.
Þér hljótið gleði góða þá —
Í sælu sæti sálin neyti
sáð af lífsins hæðum.
— góða þá með gæðum.
Ei kól á stræti heilagt hveiti,
í hlöðu fríða guðs því fer,
þér hljótið gleði góða
þá með gæðum prýdd er.

4. Fyr og síð sért nærri náðum
í nýrri tíð með stærri dáðum,
þverri stríð, á þurrum láðum,
þrekist vökvinn gróða.
Bágt er brag að ljóða.
Kyr því hlýði, hýrri' en tjáðum,
heppnist opnuð dýrðar krá.
Þér hljótið gleði góða þá —
Fyrri lýðir færra spáðu
en fæst á hæstum hæðum.
— góða þá með gæðum.
Dýrri skrýðist kærra' en kváðum,
kóngi himna ber.
Þér hljótið gleði góða
þá með gæðum prýdd er.

5. Ísinn festir, ós mun gista,
æsíng hesta, beisan kvista.
Týslesti(!) að tvisvar rista,
tíðar nauðir hljóða.
Bágt er brag að ljóða.
Kýs eg mest að ljósið lista
lýsi drós, er nafnið á.
Þér hljótið gleði góða þá —
Svo dásemd bezta dagsins yzta
á dómatíma næðum,
— góða þá með gæðum.
. . . . . . . . . . flestir gista
að fánga saung með eingla her;
Þér hljótið gleði góða
þá með gæðum prýdd er.

6. Þótt orðin falli furðu illa
og ferð með galla mærðar villa,
þá virði' hin snjalla virðing hylla
veit eg bætir tróða.
Bágt er brag að ljóða.
Lærði' eg valla gjörðir gylla
í gusti hvestum Freyju tjá.
Þér hljótið gleði góða þá —
Stirðir kalla' í kyrðum dilla
kvinnu senn ef bæðum.
— góða þá með gæðum.
Þurð er halla' ef þurðir stilla;
þrotnað slitnar sónarkver.
Þér hljótið gleði góða
þá með gæðum prýdd er.

AM. 441, 12, 101—103. bls. Frá seinna hluta 17. aldar.

[1] og, hdr. [2] komnum, hdr. [3] bruggar, hdr.

Lifðu sæl og sigri hald,
seima lofnin[1] fríða,
með blessan drottins bæði fyr
og síðar.

1. Tregur er eg að tala' í ljóðum,
til þess heldur mikið og margt,
þorna vör,[2] með þokka góðum,
þú veldur því nokkurn part.
Rauna þótt eg reki' á slóðum,
reyrður stirðum sorgarfald,
lifðu sæl og sigri hald.
Óska' eg þér með huga' og hljóðum
heilla' og náðar tíða
með blessan drottins, bæði fyr
og síðar.

2. Mætust bið eg að menja þilja
minna þeinki treganna til.
Verða þanninn við þig skilja
veit eg þýngsta harma spil,
og elsku teiknin öll að hylja,
öðrum sjá þú gefst á vald.
Lifðu sæl og sigri hald.
Særi þig eingin sorgar kylja,
sért í vingan lýða
með blessan drottins, bæði fyr
og síðar.

3. Forlög högunum flestum ráða
fyrða líkt sem eyja gulls
í heiminum þessum heimsku bráða;
hefi' eg það grundað nú til fulls.
Maríu sonurinn mun oss náða
mildur fyrir sitt lausnar gjald.
Lifðu sæl og sigri hald.
Öllu framar en eg um tjáða
æra[3] og dygð þig skrýða
með blessan drottins, bæði fyr
og síðar.

4. Fel eg á hönd þér faldatróða,
fésjóð minn í leyndum stað,
umgetinn með ástargróða,
allra bezta,[4] minnstu' [á] það.
Vel hann hirði gegn til góða
glögt um vizku sagnar tjald.
Lifðu sæl og sigri hald.
Lukku skrýðist, þóknan þjóða,
þrykkist nauðin stríða
með blessan drottins, bæði fyr
og síðar.

5. Kveðjan bið hjá kvendi úngu
kærleiks finni nokkurn stað;
með geðinu frá þér geing eg þúngu,
geirarapt var lagað það.
Minníng þín skal mér á túngu,
mærðar lítt þótt aukist spjald.
Lifðu sæl og sigri hald.
Við finnumst þar, sem sælir súngu,
í salnum helgra lýða
með blessan drottins, bæði fyr
og síðar.
Við finnumst þar, sem fagurt súngu,
og fylkin eingla prýða,
með blessan drottins, bæði fyr
og síðar.

Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar ýngra, skrifuð í Haukadal vestur 1748.

---

Ein er sú eik fríð,
sem öll gæðin ber;
hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

1. Hennar skart er bezt að
birta,
ber hún mart til kosta virta.
Skinið bjarta sízt mun syrta,

[1] lögunum, hdr. [2] voru, hdr. [3] æru, hdr. [4] beztu, hdr.

sinnu parta gleður þýð.
Ein er sú eik fríð.
Bölið hart ef brjóst vill hirta,
brátt um kvartar, þá nú sker.
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

2. Þá er rata þúngt mótlæti,
þar með glata hugarkæti,
leggur flata steinótt stræti,
stirðleg hatar lukku tíð.
Ein er sú eik fríð.
Hunángs hatar seymur sæti,
sem til matar þjáðum lér.
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

3. Hún er köldum hitaeldur,
hjartakvöldum rósemd veldur,
hrekkjavöldum háðung geldur,
heims óöldum furðu stríð.
Ein er sú eik fríð.
Kristnum öldum friðar feldur,
feikna gjöldum synda ver.
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

4. Hún er snauðum hnossið gæða,
heilsu trauðum læknisfæða,
hjartablauðum hressíng æða,
hamlar nauðum fyr og síð.
Ein er sú eik fríð.
Við eldrauðum vítis glæða
varnar sauðum drottins hér.
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

5. Vilta leiðir veg á góðan,
vanda sneyðir, kætir hljóðan,
hörmúng eyðir, hressir móðan,
hætta greiðir raunaklíð,
Ein er sú eik fríð.
Satans deyðir ofsa óðan,
ei svo meiðir kristinn her.
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

6. Hjartans grunnur,[1] hressíng manna,
henni unna kristnir grannar,
guðhræzlunnar sig hér sannar
sæmd alkunna frómum lýð.
Ein er sú eik fríð.
Af hæstum brunni himna ranna
helg upprunnin þessi er.
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

7. Þessar dygðir altíð eigðu,
innst í bygðir hjartans smeygðu,
með ást og trygðum að þér teygðu,
alt hún hrygða sefar stríð.
Ein er sú eik fríð.
Synda stygðum frá þér fleygðu,
fús með blygðan hegða þér.
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

8. Vertu iðin á það góða,
einninn siðug hrínga tróða,
frá illu sniðin, afbragð fljóða,
elska friðinn, varast stríð.
Ein er sú eik fríð.
Lífs og liðin lof munt kjósa (!)
og lukku miðin öðlast hér.
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

9. Drottins orðið iðin lærðu,
af hans borði sálu nærðu,
sá hollur forði hjarta særðu
um hyggjustorð er lækníng blíð.
Ein er sú eik fríð.
Andarmorði frá svo færðu
faldaskorðin, kvittun þér.
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

[1] greinin, hdr.

10. Heilags anda ást og yndi
yfir standi bauga strindi,
hegðun vandi, hýr í lyndi,
hætt ei grandi lasta níð.
Ein er sú eik fríð.
Súta blandi svo burt hrindi,
á sjó og landi, hvar hún fer.
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

11. Æfin falli öll í stilli,
aldrei halli sæmdar snilli,
ekkert galla kaun né kvilli
kænni spilli gleðitíð.
Ein er sú eik fríð.
Guðs og allra góðra hylli
geðs um palla veitist [illegible].
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

12. Þig og kvendið kvitt frá vanda,
kóngi' afhendi himins og landa,
hjálp þér sendi heilags anda;
hér þá endar lífsins tíð, —
Ein er sú eik fríð.
— í sælu lendir. Svo skal standa
Sigtýs kendi fundíngs hver.
Hún blómgast hvern tíð
og hrósar vel sér.

Hrs. Bmfj. 136, 8, bls. 64—66, og virðist vera eignað þar séra Brynjólfi Haldórssyni í Kirkjubæ.

---

Siðlát og við siði kát,
ljósa ber hún prýði.
Drottinn skrýðir dygðum silki-
hlíði.

1. Að gleðja þýða grundu
spjalda
girnir mig, og orð mín halda.
Hljóti snótin hundraðfalda
heiður og lukkuprýði.
Drottinn skrýðir dygðum silki-
hlíði.

2. Hljóti' og njóti auðmjúk, alla
um æfi, gæfu vífið snjalla.
Hróður og óður hér skal falla
og haglegt orða smíði.
Drottinn skrýðir dygðum silki-
hlíði.

Hrs. Bmfj. 387, 8 (Hæríngsstaða eða Urðabók).

## Vikivakakvæði kallað.

Óska' eg verði' um alla
dagana góða
gæfurík, góðsöm hrínga tróða.

1. Sónarfundi svo eg myndi
silkihrundu, blíð í lyndi,
alla stundu fögnuð fyndi,
framar en nem að ljóða,
gæfurík, góðsöm hrínga tróða.

2. Hljóti frægðir hér með trygðum,
heillanægðir, varni stygðum,
sinnishægðir, safni dygðum,
siðug meðal fljóða,
gæfurík, góðsöm hrínga tróða.

3. Silki heiði[1] sóminn næri,
sigrinn leiði þig frá mæði,

[1] [h]líði, hdr.

framar en beiði fróm, í kvæði,
foldin öldu glóða,
gæfurík, góðsöm hríngatróða.

4. Þegar á líður líf og mæða,
leiði blíður drottinn hæða
þig í fríða gleði gæða,
gullhlaðs þöllin rjóða,
gæfurík, góðsöm hríngatróða.

5. Þitt er heiti svinnleg sæta,
sá sem veitır gæfu mæta
og fáka þreyta, en bið eg bæta
bruggan hyggju slóða,
gæfurík, góðsöm hríngatróða.

Kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum III, 123. Hrs. J. Sig. 257, 4, nr. 27. Afskr. af viðkvæðinu og fyrsta er. í hrs. Sv. Grv., með hendi Jóns Sigurðssonar. Nafnið, sem bundið er í seinustu vísunni, er án efa Guðríður.

**Kvæði lítið.**

Satt mér það sýnist,
svarar margur því.
Fátt ræða fer bezt
fjölmenni í.

1. Um aðra ilt að róma
eykur lítinn sóma,
leggja' í dýra dóma
duglegt meingið fróma.
Það meiga rekkar róma
raunar þetta sést.
Fátt ræða fer bezt.
Vint(!) þótt vasi óma
vítt um hyggju bý.
Fátt ræða fer bezt
fjölmenni í.

2. Það er sæmdin sveina
satt um lýði greina,
annara lýtum leyna,
líka sinna meina,
þeim eiga rekkar reyna,
raunar þetta sést.
Fátt ræða fer bezt.
að hæða' ei hölda neina
né hrundir geðs[1] um bý.
Fátt ræða fer bezt
fjölmenni í.

3. Að vera trúr í trygðum,
týna öllum stygðum,
glaður geðs í bygðum,
gleyma sorg og hrygðum,
sinna' ei ljótum lygðum.
láta' á illu frest.
Fátt ræða fer bezt
Miðla mætum dygðum,
mentaríkur af því.
Fátt ræða fer bezt
fjölmenni í.

4. Guð oss alla geymi,
græðarinn. menn í heimi
frá synda sárum eimi,
og svika ljótum keimi,
svo ei firða feimi,
að finna æðri gest.
Fátt ræða fer bezt.
Linnir ljóðaeimi
lerað um hyggju bý.
Fátt ræða fer bezt
fjölmenni í.

Hvarfsbók I, nr. 39. Ótalið handr. í safni Bmfj. frá Þorsteini Þorkelssyni á Syðra-Hvarfi.

[1] *geims*, *hdr.*

## Heilræðakvæði.

**Eitt kvæði við stúlku kveðið.**

Virðist vera eptir Björn Jónsson á Skarðsá.

Það hafa lýðir lærðir[1] um kvenna æði
kent og skrifað, eg kann að tjá,
þótt kosti hefði marga há,
að helzt þær prýðir hlýðni' og þolinmæði.

1. Hreint guðs orða helgast sáð,
hér rótfest í vizkuláð,
er hið bezta eðla ráð,
að það sálu fæði,
ef hér með prýðir hlýðni' og þolinmæði.

2. Foreldranna hlýðni hrein
er hentugleg fyrir silkirein;
það má heita giptugrein,
að geta hylzt þau bæði,
og hafa við þau hlýðni' og þolinmæði.

3. Frómleg henda foreldra boð,
falleg mun það giptu stoð,
sá er heilla vafinn í voð,
sem veitist þessi gæði,
ef hér með fylgir hlýðni' og þolinmæði.

4. Fékk það boðorð fyrirheit
fram yfir hin, eg gjörla veit,
þar býður drottinn blíðri sveit
þau börnin heiðra næði;
[hér með fylgi hlýðni' og þolinmæði].

5. Lángær skyldu lands um krár
með lukkudrjúgust elliár;
því er það barna heiður hár,
að hepta við þau bræði,
og hafa jafnan hlýðni' og þolinmæði.

6. Þótt ei sé auður mest sem má
meyjar venjist siðsemd á,
gott er hegðan góða' að sjá,
þótt gefist ei beztu klæði,
ef hér með fylgir hlýðni' og þolinmæði.

7. Auður er góður öðru með,
ekki' er sæmdin læst við féð,
drósa' er betra dygðageð
og dægilegt kvennmanns æði,
ef hér með fylgir hlýðni' og þolinmæði.

8. Vænleiks, ríkdóms vera' má án,
vaxtar, ættar, það er ei smá[n];
dygð er betra lukkulán
með listavizku fræði,
ef hér með fylgir hlýðni' og þolinmæði.

9. Linna nauðin, lagarins húð,
lemstrað einnig þángsins búð,
mein únglinga marið og rúð,
manna gleðin á kvæði.
Hafðu altíð hlýðni' og þolinmæði.

10. Leiðast kvæði laung í senn,
ef lagið er stirt og orðgnótten.
Herjans snekkju heim því renn
að hyggjuvarar stæði.
Hljóti ágæt hlýðni' og þolinmæði.

ÁM. 155 a, 8, III. Frá hérum bil 1700. Viðlagið, 1. og 9. er. prentað í Tímariti Bmfj. 1887, bls. 51—52. Nafnið í 9. er. er ef til vill Vigdís.

[1] slærðir, hdr.

## Nokkur hegðanarerindi ýngismanna.

Virðist vera eignað Birni Jónssyni á Skarðsá.

Gamna sér lýðir
í gleðirann.
Þeim hælir hver sem hlýðir,
er hófi ann.
Látgæðið prýðir,
það prýðir hvern mann.

1. Ýngismönnum eg vil hér
erindiskornin bjóða,
þótt ekki falli mærðin mér,
munu halda til góða.
Nýti sá sem næstur er,
nemi hver eð hlýðir.
Látgæðið prýðir.
Láttu hófið þekkast þér
um þagnarrann.
Það prýðir hvern mann.

2. Hægt og lítið hafðu við
hirð[1] ei mikið að láta,
gæt að frómra guma sið,
gegndu' ei þeim, er státa.
Volsaranna snúníngs snið
snýst svo illa' um siðir —
Látgæðið prýðir.
— en kyrlegan leyfir lið,
sem lítið dreissa vann.
Það prýðir hvern mann.

3. Háð og kýmni forðast frekt,
sem fer svo víða' um bygðir,
lát þér ekki þetta þekt,
það veitir opt stygðir.
Keskniskraf er leiðinlegt,
það lið í orðum níðir.
Látgæðið prýðir.
Sá mun æfast sæmdarmekt,
siðgæðum er ann.
Það prýðir hvern mann.

4. Hegðan góð er gæða lán,
að gæta munns og handa;
ætíð firrast alla smán
þeir orð og gjörðir vanda;
lángvinn verður sú tilsján,
er sig með úngur skrýðir.
Látgæðið prýðir.
Hjá sér leiða rugl og rán
ráðvandur að kann.
Það prýðir hvern mann.

ÁM. 155 a, 8. III. Frá hér um bil 1700.

## Eitt kvæði.

Kallinn gamli kendi ráð
kærri dóttur sinni:
Viljir þú lifa með lífsins náð
:: legðu mín orð í minni. :|:

1. Bið þú guð að gæta þín,
gjörðu þetta að ráðum mín;
hugsaðu um það hríngalín
hvort þú ert úti' eða inni.
:: Legðu mín orð í minni. :|:

2. Föðurinn áttu fróman þér,
fljóðið rjóða. hlýddu mér,
mundu hvað eg mæli hér,
minnst þess í hyggju þinni.
:: Legðu mín orð í minni. :|:

3. Auktu hvorki mein né móð
móður þinni, stúlkan rjóð,
vertu bæði gegn og góð,
þótt gjöri sér þúngt í sinni.
:: Legðu mín orð í minni. :|:

---

[1] hirdt, hdr.

4. Minnstu á það, mæta sprund,
að móðir þín bar hrygðarstund,
þegar hún fæddi þig. fríða sprund,
með föður blessan sinni.
: : Legðu mín orð í minni. : :

5. Þegar þú vaknar virðum hjá,
voldugan drottinn kallaðu' á,
þá munt brúðrin blessan fá.
Bæn sú aldrei linni.
:': Legðu mín orð í minni. :.:

ÁM. 148, 8, 325.—26. bl.

## Enn vikivakakvæði.

Vertu' í túngunni trúr,
tryggur og hreinn í lund.
Hugsaðu um það hýr sveinn,
á hverri stund.

1. Eg vil kenna þér óskaráð
auðarlundrinn svinni,
þú forðist bæði fals og háð,
frómur á æfi þinni.
Heilags anda hjálp og náð
hrindi frá þér sorgar skúr.
Vertu' í túngunni trúr.
Ástundaðu með allri dáð,
að elska herrans fund.
Hugsaðu' um það hýr sveinn,
á hverri stund.

2. Við föður og móður frómur sveinn,
fram yfir aðra lýði,
til elsku vertu ekki seinn.
auðarlundurinn þýði,
svo burt fljúgi syndafleinn,
sem sætir opt á hjartans múr.
Vertu' í túngunni trúr.
Óhreins anda illsku fleinn
ei kemur á þinn fund.
Hugsaðu' um það hýr sveinn,
á hverri stund.

3. Fer þú svo sem fleiri menn
að fá þér baugatróðu,
hugsaðu það hýr sveinn enn,
af hjartalaginu góðu.
kvenna góssin þau eru þrenn.
Það mega skilja menn og frúr.
Vertu' í túngunni trúr.
Veit eg það muni verða senn,
þú víkir á þeirra fund.
Hugsaðu' um það hýr sveinn,
á hverri stund.

4. Herrann Jesús hjálpi þér
hríngalundrinn fríði.
Altíð hljóttu auðnu ker,[1]
en aldrei grand af stríði.
Mitt skal á enda mærðar kver,
mjaðarins rennur dreggin súr.
Vertu' í túngunni trúr.
Læt eg þessi ljóð frá mér
um ljúfan hjörfa þund.
Hugsaðu' um það hýr sveinn,
á hverri stund.

ÁM. 148. 8. 329 bl. Afskript af viðlaginu og 1. er. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar.

## Eitt kvæði.

Stíg við mig um stundu
stúlkan úng og blíð,
mín ráðin mundu
menþöllin þýð.

1. Fyrst af öllu góðan guð
gjörðu' að óttast læra,
hans heilög orð og blessuð boð
bezt í nyt þér færa;

[1] = kjör.

til verka góðra vertu' aðstoð.
við þau helzt þér undu.
Stíg við mig um stundu.
Gaktu' ei Satans syndaslóð
svo þú hreppir eingan móð
né raunastríð.
Mín ráðin mundu
menþöllin þýð.

2. Föður og móður faldaná.
með frómleik skaltu hlýða;
þeinktu af þeim því að ná,
sem þinn má lifnað prýða.
Gjörir þú nokkurn glæp að sjá
grand ei af þeim mundu.
Stíg við mig um stundu.
Vondu öllu ven þig frá,
sem veiztu guð þinn styggja má
og fróman lýð.
Mín ráðin mundu
menþöllin þýð.

3. Eigir þú fróma yfirmenn
með æru skalt þá virða.
Þetta eitt þó þarflegt kenn
þeirra gagn að hirða;
vandaðu orð og verk þín senn,
viðfeld þeirra lundu.
Stíg við mig um stundu.
Eðla dygðir að þér spenn,
um þær ætíð þeinkja menn
á lífsins tíð.
Mín ráðin mundu
menþöllin þýð.

4. Hafðu hvorki háð né spé
hrund, á æfi þinni;
með dygðum prýtt þitt dagfar sé,
dragðu mín orð í minni.
Breytir þú vel með brauð og fé,
þú blessast heims á grundu.
Stíg við mig um stundu.
Fyrir föður himnanna fall á kné,
fórnin þín sé þakklæte
og bænin blíð.
Mín ráðin mundu
menþöllin þýð.

5. Ef þér gefast efnin góð
ölmusu skalt veita,
aldrei neina auma þjóð
í orði' eður verkum þreyta,
heldur hreldum mýkja móð,
sem mæðu' og raunir fundu.
Stíg við mig um stundu.
Við ríka og auma, friðsamt fljóð,
frómt svo verðir haldið blóð
um lífsins tíð.
Mín ráðin mundu
menþöllin þýð.

6. Eðla vífið að því hygg,
ör og glöð í máta,
vertu hvorki hljóð né hrygg,
í hófi gjör þig káta.
Við fæsta sértu stór né stygg,
still vel þína lundu.
Stíg við mig um stundu.
Ristill mína ræðu þigg,
reiknast þú þá fróm og dygg
hjá öðrum lýð.
Mín ráðin mundu
menþöllin þýð.

7. Öðrum leiðist eins og mér
ef æðilaung eru kvæði,
dreg eg því ekki dikt í hlé,
né drjúgum fleiri' heilræði;
það heilnæmt er, þú haf með þér
í hægð og við það undu.
Stíg við mig um stundu.
Með öllu fellur orðakver,
einn guð hafi þig hjá sér
um lífsins tíð.
Mín ráðin mundu
menþöllin þýð.

ÁM. 148, 8, 333 bl.

## Eitt kvæði.

Elski þig Guð og öll hans
þjóð,
svo aldrei nái' að dvína.
Þá auðlegð fáðu' um alla dagana
þína.

1. Ráðadrjúgr og réttvís með,
reyndr að góðum dygðum,
alt sé þér til æru léð
með öðrum fleirum trygðum.
Heiðrinn hljóttu, frægð og féð,
fleiri' og önnur mætin góð.
Elski þig guð og öll hans þjóð.
Alt það gott. sem einn hefir skeð,
og aldrei náir að dvína,
þá auðlegð fáðu' um alla dagana
þína.

2. Ef þig girnir fljóð að fá
frítt til yndis náða,
bið þú guð með bænum þá,
bezt mun hann því ráða;
unntu henni með ástsemd há
yfir alla aðra menn og fljóð.
Elski þig guð og öll hans þjóð.
Arfana ykkar þú öðlast sjá
ástkæra, fróða' og fína,
þá auðlegð fáðu' um alla dagana
þína.

3. Girnstú ekki á annars auð
og ei hans lukku ríka.
Drottinn gefur þér daglegt brauð,
dugir þér það líka.
Gættu að því, sem guð þér bauð,
greinilega það boðorðið stóð.
Elski þig guð og öll hans þjóð.
Hann kann að lækna líkamans nauð
og láta sálina skína;
þá auðlegð fáðu' um alla dagana
þína.

AM. 148, 8, 342. bl.

## Eitt kvæði.

Sjáðu glögt hvað sóminn er,
ef sigurinn viltu vinna.
Meyjan svinna,
minnstu ráða minna.

1. Suðra skeið á sónar leið
skal sveima grund, um gómasund,
sendist greið af hyggju heið,
hlaðin á stund, með Yggjar mund.
Óma veið úr skorðum skreið,
skemtan ber til handa þér.
Sjáðu glögt hvað sóminn er.
Leingi beið hjá bauga meið
bragarins lag að finna.
Meyjan svinna,
minnstu ráða minna.

2. Hógvært geð sé meyju með,
mannvitsskýr, við alla hýr,
og sálarféð um sinnubeð,
sóminn dýr sá hvergi flýr,
auðnan téð og lukkan léð
með láni [hér], sem aldrei þver.
Sjáðu glögt hvað sóminn er.
Það eg kveð, mun síðar séð,
um siðuga lindi tvinna.
Meyjan svinna,
minnstu ráða minna.

3. Baugahlíð í huganum þýð,
hrindi móð úr lyndi fljóð;
hressi[1] fríða blessan blíð,
bindi sjóð með yndi fróð;

[1] hressa. hdr.

ást við lýð þá tjást vill tíð,
sem trygðir ber og dygða ker.
Sjáðu glögt hvað sóminn er.
Dæmd sé víða sæmd um síð
siðug heiðurs kvinna.
Meyjan svinna,
minnstu ráða minna.

4. Auðarslóð í geðinu góð
græðir stríð, sem mæðir lýð,
rauða flóð þótt ráði sjóð,
ræðir tíðum gæðin blíð;
bið eg þjóðin, fríð og fróð,
fræði' af mér ei hæði hér.
Sjáðu glögt hvað sóminn er.
Endi' eg óð. því leiðist[1] ljóð
leingur meingi' að kynna.
Meyjan svinna,
minnstu ráða minna.

ÁM. 149, X, 8, 8. bl. Frá 17. öld.

## Enn áttunda kvæðiskorn til að kveða.

Lítið hefi' eg ljóðakver,
lindin, yður að bjóða,
sem þér hæfir hýrust hrínga
tróða.

1. Þú skalt að því, fljóðið, hyggja,
föður og móður aldrei styggja;
þá mun með þér búa og byggja
blíður guð um allar tíðir,
sem þér hæfir hirtug hrínga
tróða.

2. Föður og móður, falda þilja,
fljóðið, veit þú ást og vilja;
víst mun seinast við þig skilja
veitíng guðs og lotníng sveita,
sem þér hæfir hýrust hrínga
tróða.

3. Aumum veit þú aldrei stygðir,
aukast mun þá sæmd og dygðir,
þá þeir hitta þínar bygðir,
þorstann deyf og klæð í frosti,
sem þér hæfir hirtug hrínga
tróða.

4. Haf þú þar með, hrínga Nanna,
hylli guðs og góðra manna,
þá mun ljúfust liljan fanna
lýta böndin af sér slíta,
sem þér hæfir hirtug hrínga
tróða.

Hrs. J. Sig. 257, 8.

## Enn eitt kvæðiskorn dávænt að kveða.

Hverfi þér bæði hrygð og óttinn,
eg haga svo orða skrá;
þér gefi það mætur mildur dróttinn
menja ná.[2]

1. Farðu á morgna, fría snót,
fyr en þú kemur á manna mót,
bið þú guð með blíðu hót,
hann mun til þín sjá.
Þér gefi það mætur mildur dróttinn
menja ná.

---

[1] leiðast. hdr. [2] Sbr. bls. 178.

2. Fall þú fram fyrir föðurnum fyrst
og faðmaðu að þér Jesúm Krist,
voldugur má hann þér veita vist,
verða muntu honum hjá.
Það gefi þér mætur, mildur dróttinn
menja ná.

3. Gáttu þá, svanninn, gott að iðja,
þá guð þinn ertu búin að biðja;
hæstur mun þig herrann styðja;
hann mun til þín sjá.
Það gefi þér mætur, mildur dróttinn
menja ná.

4. Kappsöm vertu í kallan þinni,
kostgæfin bæði úti og inni,
en þótt aðrir að því finni
akta þú [að] eingu þá.
Það gefi þér mætur, mildur dróttinn
menja ná.

5. Vendu þín börn að vinna' og þrífa.
varla máttu þeim við því hlífa,
vöndinn láttu við þau kífa,
svo verði þau þér ekki þrá.
Það gefi þér mætur, mildur dróttinn
menja ná.

6. Til kirkju þinnar kom þú tíðum,
krjúptu þar fram með kristnum lýðum;
bið þú guð með bænum blíðum,
blessan hans [þá] muntu fá.
Það gefi þér mætur, mildur dróttinn
menja ná.

7. Víktu þér hjá voldugu sæti,
þótt virðast kunni þér á því mæti;
fáir vænti' eg um fyrir þér bæti
firðar, þeir þig sjá.
Miskunn drottinn mætur gefi þér
menja ná.

Hrs. J. Sig. 257, 8.

## Enn eitt lítið kvæðiskorn.

Gæfu' og heiður geðleg snótin bíði.

1. Fram úr nausti fræða báturinn líði.[1]
Um þá dýru dregla skorð
dikta' eg nokkur mansaungsorð.
Gæfu' og heiður geðleg snótin bíði.

2. Föður og móður, fram yfir alla lýði,
elska skaltu af allri dygð,
aldrei veita neina stygð.
Gæfu' og heiður geðleg snótin bíði.

3. Göfga skaltu guð með allri prýði,
elska hann svo allra mest,
að aldrei verði á lukku brest.
Gæfu' og heiður geðleg snótin bíði.

4. Ef að þín biðja bragnar þeir með prýði,
kjóstu þér þann, sem kyntur er bezt,
kann til munns og handa flest.
Gæfu' og heiður geðleg snótin bíði.

5. Auðarskorðin elskaðu saung og tíðir.
Hugsaðu meir um herrann Krist
en heimsins prýði og veraldar vist.
Gæfu' og heiður geðleg snótin bíði.

Hrs. J. Sig. 257, 8.

[1] líður. hdr.

## Enn eitt vikivakakvæði.

Eilíf sólin allsvaldandi
æfinlega skín.
Náð guðs yfir þér stöðug standi
stúlkan góða mín.

1. Það var í fyrstu skaparinn
skær
skilníng gaf þér únga mær,
herrans orðið heyr og lær
[hýr auðarlín].
Náð guðs yfir þér stöðug standi
stúlkan góða mín.

2. Foreldra heiðra fljóðið þú,
farðu' að mínum ráðum nú,
húsbóndanum holl og trú
vert hríngalín.
Náð guðs yfir þér stöðug standi
stúlkan góða mín.

3. Heiða tekur himin blá,
hauðrið . . . . gluggann á.
Lesa skaltu ljúfan klár
þitt ljóðavín.
Náð guðs yfir þér stöðug standi
stúlkan góða mín.

4. Lagið dvínar linum dreing,
. . . . . . . . . . snúinn streing.
braginn gelr á Boðnar þveing,
því brestur vín.
Náð guðs yfir þér stöðug standi
stúlkan góða mín.

Hrs. J. Sig. 257. 8.

## Eitt vikivakakvæði.

Herrans orð og hættan sjó
hvern dag festu' í minni.
Hugsaðu' um það heiðursmaðrinn
svinni.

1. Ýta verð eg Austrar fley
orða túns af hreysi,
hæg því blakar hyrjar þey,
heiman vil eg hún geysi.
Sjást mun fögr á sundi ei,
sjó Dvals á þótt rynni.
Hugsaðu' um það heiðursmaðrinn
svinni.

2. Kæri vin, þér kurteis ráð
kenna nokkur vildi,
ef þú að þeim gætir gáð,
gott þar eptir fylgdi.
Heiðraðu bezt með list á láð,
þann líf gaf sálu þinni.
Hugsaðu' um það heiðursmaðrinn
svinni.

3. Hagaðu þér sem hollur sveinn
hneigður á siðina góða,
lastvar sért og lyndishreinn,
letrin helg sem bjóða.
svo hegðan þinni hver sem einn
hrósa góðri kynni.
Hugsaðu' um það heiðursmaðrinn
svinni.

4. Gjörðu hrelda' að gleðja þrátt,
gamla skaltu' ei styggja,
föðurlaus láttu börnin brátt
blessan af þér þiggja.
fæzlu veita aumum átt
af eign og handbjörg þinni.
Hugsaðu' um það heiðursmaðrinn
svinni.

5. Fleiri ráðin, fífu grér,
flyt eg nú ekki' af munni,
má það ske að mörgum hér
mislíka það kunni,
ef lángært þyl eg ljóðakver.
Eg læt svo bíða' að sinni.
Hugsaðu' um það heiðursmaðrinn
svinni.

ÁM. 152 II, 8. 15. bl. Frá 17. öld.

Heilræðum mínum hirtu
ei að farga.
virtu þetta vel fyrir mér,
eg veit ei betur en kenni þér:
veldu þér aldrei vini' í trúskap
marga.

1. Þeinkja margir þetta á,
þeir skuli vini flesta fá,
varla' er hægt við virðum sjá,
sem vilja trúskap farga.
Veldu þér aldrei vini' í trúskap
marga.

2. Þeir láta fagurt í eyrun alt,
annað er þegar reyna skalt,
þig við fróma heldur halt,
hina' eg reikna arga.
Veldu þér aldrei vini' í trúskap
marga.

3. Sumra er svo sinni vart,
sjái þeir og heyri margt,
berst það út með býsnum snart,
fyrir bragna ræðu arga.
Veldu þér aldrei vini' í trúskap
marga.

4. Frómir trúskap halda hreint,
hver við annan, ljóst og leynt,
því þeir góðu gefa sig seint
glögt í hópinn varga.
Veldu þér aldrei vini' í trúskap
marga.

5. Fresta' eg víst að fara með ljóð,
finna mönnum dýran óð.
Í heimi frómri heiðurs þjóð,
henni ætti að bjarga.
Veldu þér aldrei vini' í trúskap
marga.

ÁM. 441. 12, 131. bls. Frá seinna hluta 17. aldar.

---

Gott er þeim, sem glatt hafa
s[inni].
Guð sé með oss öllum hér inni.

1. Gott sé þeim, sem gleymir
hrygð,
og gjörir sér fátt [að] ángri.
Það er kurtug kallmanns dygð,
[að] kvíða' ei hörmúng lángri.
Sinni einginn ljó[tri] lygð,
þótt lýðir margt að finni.
Guð sé með oss öllum hér inni.

2 Rækja skaltu ráðið mitt það
ef rammar bera t[il] sorgir,
að falla til bænar strax í stað,
s[töð]vist hyggjuborgir.
Vertu með slíkri alúð [að],
svo öll sé hrygðin minni.
Guð sé með oss öllum hér inni.

3. Það er mitt hið þriðja ráð,
þú skalt no[kk]uð iðja,
ef þá eflist ángur og þrá,
eilífa[n] guð að biðja.
sá sem hefir nægð af náð,
[svo neyð] og sorgin linni.
Guð sé með oss öllum hér inni.

4. Sá kann ei beizku' að birta frá,
sem ber sér sætt á [munni],
hinn kann ráðið rétt að sjá,
reyna' og skynja kunni,
þennan lán sitt líti á.
Lof sé drottni' á himni.
Guð sé með oss öllum hér inni.

Austanbók Jóns Þorkelssonar, skrifuð 1823.

## Önnur kvæði alvarlegs efnis.

Eig nú kvæðin auðarskorðin
bjarta;
ef ratar heim til þín rauna tíð,
og ræður á brjóstið freistíng stríð,
sýng þau uppá sannan guð af
hjarta.

1. Bera[1] kann til að böl eitthvað
brjóstinu stundum[2] svífi[3] að,
erindin gríp þá[4] strax í stað
og stía[5] burt ángri' af[6] hjarta,
sýng þau uppá sannan guð af
hjarta.

2. Gá að því kvinnan gædd með kurt,
að guðs lýð verður hér misdægurt,
því skal aka böli' á burt
og bræða sorg úr hjarta,
[og sýngja[7] uppá sannan guð af
hjarta.

3. Fyrst að Kristó kær þú ert,
þá kantu' að reyna' sorgar[8] snert,
á hverri stund[9] því[10] viðbúin vert,
ef vill þitt sturlast hjarta,
[að sýngja[11] uppá sannan guð af
hjarta.

4. Ein er stund[12] ei annari lík,
æfidrif vor reynast slík;
ýmist gistir gullhlaðsbrík
gleði' eða sorg í hjarta.
Sýng því[13] uppá sannan guð af
hjarta.

5. Þú skalt þó[14] ei meina' hið[15] skýra
sprund,
eg skapi þér neina[16] raunastund;
eg ann þér feginn[17] með[18] ljúfri lund,
að lifa með glaðvært hjarta,
[og sýngja[19] þau[20] uppá sannan
guð af hjarta.

6. Lif nú í friði' hin[21] ljúfa snót,
lukkan sinn faðm þér breiði' á mót.
Fyrir þín erleg frændsemis hót
fagni þér guð af hjarta.
Sé hann þér ætíð síbúandi í
hjarta.

A = hrs. Bmfj. 70, 4. 75. bl. B = hrs. Bmfj. 376. 4, bls. 303—304. C = hrs. Rasks. 42. bls. 324. Öll eru þessi handrit kvæðabækur séra Ólafs á Söndum, og er því kvæðið eptir hann.

### Eitt sinn á gólfi kveðið.

1. Þó að[22] eg gángi á gólfið fram
og gjöri mér kátt,
[hæverskt fólk[23] í húsi þessu inni
bið eg [það[24] virða'[25] á beztan hátt.

2. Gjarnan vildi' eg góðum til vilja
gjöra sem flest,
og leiða svo fram lífsins æfi[26] mína,
sem guði' og mönnum geðjast[27] bezt.

3. Valla má ærlegum vináttubónum
veita nei,
[því[28] eg vildi[29] þéna hvers manns
sinni,
víst í góðu', en vondu ei.

---

[1] Ef bera C. [2] þinu C. [3] þreingi B. sverfi C. [4] þú BC. [5] stjaka C. [6] úr C. [7] sýng þau B. [8] af sorgum A. [9] stundu A. [10] þú BC. [11] sýng þau B. a. s. þau C. [12] stundin A. [13] þau BC. [14] sl. BC. [15] það B. [16] nokkra B. [17] heldur B. [18] af BC. [19] sýng B. [20] sl. C. [21] sl. B. [22] sl. BCDE. [23] hæversk þjóð BCDEF. [24] að E. [25] virði DF. [26] ætína E. [27] gegnir BF. [28] því að ACE. [29] þó vil eg gjarna C.

4. Margan prýðir mjúk viðfeldnin[1]
mannúðlig.
en trélegleikrinn[2] tálmar[3] góðu
stundum.[4]
Hóf er þó[5] bezt á hvoru' um sig.

5. Óbreytt kvæðið[6] eg þér valdi
ágætt[7] fljóð.
Sú er mín bæn[8] af sönnum hjartans
rótum,
að öll verði þín æfin góð.

A = hrs. Bmfj. 70. 4, 109. bl. B = hrs. Bmfj. 376. 4. bls. 431. C = Ny kgl. Saml. 139 b, 4. 125. bl. (skrifað 1655). D = ÁM. 240. 8. E = hrs. Rasks 42. Öll þessi handrit eru kvæðabækur séra Ólafs á Söndum, og er því kvæðið eptir hann. F = hrs. Sv. Grv. 67. með hendi Finns Magnússonar, og er sagt þar, að kvæðið sé bls. 214 í kvæðabók séra Ólafs, en þetta blaðsíðutal á ekki við útgáfur þær. sem eg hefi haft undir höndum.

## [Kvæði Ástríðar Gísladóttur.[9]

Hverfi til yðar heilsan mín
og hamíngju óskin trú;
mjúklega[10] drottinn minnist þín
og miðli þér, hæversk frú,
elsku sinni, sem aldrei dvín,
annars heims og nú.

1. Þér skal valin þökkin stærst,
þiljan hjartra dúka.
alla tíma og einkum[11] næst,
fyrir allskyns velgjörð mjúka.
Önnur ei hjá mér umbun fæst.
en guð launi ástverk þín —
Hverfi til yðar heilsan mín.
— bið eg hann sé þér björgin[12] fín
og bítalíngshöndin trú.
Elski þig guð, sem aldrei dvín,
annars heims og nú.

2. Blíðan guðs, sem [bezta' eg[13] tel,
og blessan guðs[14] frábæra
lúti að þér leingi' og vel,
ljúfust heiðurs kæra;
í bæn mína' eg einninn fel
alt það gott, sem þörf er þín.
Hverfi til yðar heilsan mín.
Brjóst þitt kvitt af böli' og pín
blíðki[15] óskin sú,
að unni þér guð, sem aldrei dvín,
annars heims og nú.

3. Heimili þitt og húsfreyju[16]stétt
og hvað, sem þér við líður,
láti guð fram leiðast rétt,
með lukku' á allar síður,
svo að[17] eg jafnan fái það frétt,
að friðsamleg sé æfin þín.
Hverfi til yðar heilsan mín.
Asján guðs, sem yfir oss skín,
athugi börn og bú.
Unni þér guð, sem aldrei dvín,
annars heims og nú.

4. Blíðmannlega eg beiði þig
brúður. af góðum huga.
í bænum þínum minnstu' á mig,
[og mun það fult[18] mér duga,
að framför gefist mér friðsamlig,
fyrir vors herra[19] dauða' og pín.
Hverfi til yðar heilsan mín.
Fegin skal yður fyrirbón mín
finnast jafnan trú.
Unni þér guð, sem aldrei dvín,
annars heims og nú.

[1] mannfeldni F. [2] treglegleikinn BDF; tréleikinn E. [3] tapar opt E. [4] á stundum DF. [5] sl. C. [6] kvæði DE. [7] únga E. [8] bón ABEF. [9] B. [10] mildur B. [11] einninn B. [12] borgun A. [13] beztan B. [14] hans B. [15] bliðu B. [16] húsfrúr B. [17] sl. B. [18] mun það fullvel B. [19] drottins B

5. Í forsjá[1] guðs eg fel þig nú
forsótt hríngatróða,
gleðji' hann þig, hin göfuga frú,
og geymi frá öllum vóða.
Nær staðið er af alt starf og lú
og[2] stundin dauðans nálgast þín —
[Hverfi til yðar heilsan mín.[3]
— hafi þig þá strax héðan til sín,
[sem helzt ágirnist[4] þú.
Unni þér guð, sem aldrei dvín,
annars heims og nú.

6. Stefni' eg þessum stuttum brag
strax nú[5] að garði þínum.
Það afl[6] bið eg fylgi[7] ár og dag
óskum þessum mínum.
[að þér gángi alt[8] í hag,
einninn blessist[9] bústjórn þín.
Hverfi til yðar heilsan[10] mín.
Guð, sem bívarar[11] börnin sín,
bindi hann við þig trú.
Unni þér guð, sem aldrei dvín,
annars heims og nú.

A = hrs. Bmfj. 70, 4, 77—78 bl. B = hrs. Rasks 42, bls. 337—38. Kvæðabækur séra Ólafs Jónssonar á Söndum, og er kvæðið eptir hann. Ástríður Gísladóttir, sem kvæðið er ort til, var dóttir Gísla lögmanns Þórðarsonar, en kona Jóns Magnússonar eldra, sýslumanns í Dalasýslu († 1641).

## Vikivakakvæði.

Eptir séra Ólaf Jónsson á Söndum.

Guðs vilji ræður
gjörvöllum hag.

1. Hverfi gjörvöll hrygðarbrögð
hjartans burt úr æðum.
Guðs vilji ræður.
Það stoðar ei rjóðan stálaþund,
að stytta rétta náðarstund
fyrir nefndan dag.
Guðs vilji ræður
gjörvöllum hag.

2. Þótt vífinu ljúfa vilji sjálf
víkja ríkar mæður,
guðs vilji ræður,
faðir, bróðir, frændi, land
ei firra þeirra yndisband
með auðnulag.
Guðs vilji ræður
gjörvöllum hag.

3. Fyrir brúði prúða bragna ma[r]gr
þótt breiði víða slæður,
guðs vilji ræður,
einum mun hún yndisband[s]
unna manni; ei hindrar grand
frá heilla slag.
Guðs vilji ræður
gjörvöllum hag.

4. Svo ansar úr kransi öldin gild:
Auður blíður ræður.
Guðs vilji ræður.
Margra byrgir minnisrann
Mammonshrammur, sinnisbann
og sálarnag.
Guðs vilji ræður
gjörvöllum hag.

5. Að sundra tendrað sinnisljós
þótt Satan leiti skæður,

[1] forsjón B. [2] sl. B. [3] sjái þá guð til systir mín B. A hefir líka þessa útg. [4] helzt þegar girnist B. [5] sl. B. [6] Afl A. [7] feingi B. (rángt). [8] alt þér gángi og A. [9] blómgist B. [10] hugsan B. [11] blessar B.

guðs vilji ræður,
orkan sterk hefir unnið hann,
eingan leingur ginna kann
frá gleðinnar dag.
Guðs vilji ræður
gjörvöllum hag.

6. Þótt margar byrgi mæta braut
manni svinnum hræður,
guðs vilji ræður.
ekki nokkurn ástarbrest
af því hefir, sá treystir bezt
á heilla hag.
Guðs vilji ræður
gjörvöllum hag.

7. Aldrei skyldi maður af móð
mætri snót fjarstæður,
guðs vilji ræður.
né svanninn manni segja nei,
sómafrómum, lukkast ei
það blíðubag.
Guðs vilji ræður
gjörvöllum hag.

8. Yndistónn skal annast tvenn,
svo afmors bremmi' ei glæður.
Guðs vilji ræður.
Veik eru líka vífin ljúf.
Venus þenur á höfuðið kúf
með hrygðarstag.
Guðs vilji ræður
gjörvöllum hag.

9. Gleðjist bæði gullhlaðsþöll
og gildir hildarbræður.
Guðs vilji ræður.
Traustið bezt og trúin má
takra mjúkri lukku á.
Svo lyktar brag.
Guðs vilji ræður
gjörvöllum hag.

Hrs. Sv. Grv. 67. með hendi Finns Magnússonar, og er sagt þar, að kvæðið sé bls. 217 í kvæðabók séra Ólafs, en það er alls ekki í þeim sex útgáfum af kvæðabókinni, sem eg hefi haft undir höndum.

## Eitt kvæði.

Sú er ástin heitust,
sem bundin er með meinum,
er því bezt,
að unna' ekki neinum.

1. Margir áður unnu
úngri hringa nunnu,
fyrir brúði brunnu,
blygðast ekki kunnu,
til hennar tíðum runnu,
trygðin bjó í hjarta föst, —
sú er ástin heitöst.
— þar til geingu' að grunnum
gaddar af dauðans fleinum;
er því bezt,
að unna ei neinum.

2. Einn ef annan þreyir
ástar neistinn beygir,
sorgin hjartað sveigir,
en syndin áfram teygir,
holdið margan hneigir,
að hlaupa djúpt í rauna röst.
Sú er ástin heitöst.
Bjóðast bata vegir
hjá blessuðum drottni hreinum;
er því bezt,
að unna ei neinum.

3. Gæzkufaðirinn góður,
græðarinn þolinmóður,
sendu' oss sálarfóður
sætur kærleiksbróður(!)

Auk þú elskugróður,
er opni vora heyrnarhlust,
sú er ástin heitust,
sá er beztur sjóður,
vér sjálfir þetta reynum;
er því bezt,
að unna ekki neinum.

4. Rastar hestur rúinn,
reistur, dæstur, snúinn,
tvistur, bæstur(!), búinn,
byrstur, hastur, lúinn,
hristur, fastur, fúinn,
festur, pestur(!) læstur just, —
sú er ástin heitust.
— kostaknástur knúinn,
keyrður af mærðar teinum;
er því bezt
að unna ei neinum.

ÁM. 148, 8, 322. bl. (Vigursbók. Skrifuð 1676—77).

## Eitt kvæði.

Það er stríð í þagnar rann,
þulinn sjóðr af vilja,
að missa þann,
sem mikið er við að skilja.

1. Suðra fley á síldar ból
setjist út með skyndi,
um hofmenn únga' og hríngasól,
bratt í gýgjar vindi.
Víða' um þetta veraldar hjól
veit eg margan á minn sann,
það er stríð í þagnar rann,
sumir gista sorgarstól;
sár er harma kylja,
að missa þann,
sem mikið er við að skilja.

2. Hver mun mér þetta geta greint
garpur með túngu sinni,
þeir, sem hafa þetta reynt,
að þýngri mótgáng finni
en að bera ángur leynt,
sem einginn maður bæta kann.
Það er stríð í þagnar rann.—
Er sá hryggur árla' og seint,
eingan kann þess dylja.
— að missa þann,
sem mikið er við að skilja.

3. Betra' er firrast frændur og lönd
með fríðum veraldar sóma,
en skilja við únga skarlats strönd
með skýrum ástar blóma;
eg veit þar er eins á hina hönd
fyrir hríngagrundu, á minn sann;
Það er stríð í þagnar rann, —
reiknast má sá reyrðr í bönd
rekkr og hrínga þilja.
— að missa þann,
sem mikið er við að skilja.

4. Aumt er að lifa eptir í heim
ástvini sína góða,
sem herrann tekur til sín heim
í traustið allra þjóða,
en lángtum þýngra' er lýðum þeim,
sem lifandi skilja heims við rann.
Það er stríð í þagnar rann, —
Þeir sáran bera sorgar keim,
en sútir verða' að hylja.
— að missa þann,
sem mikið er við að skilja.

5. Það má akta þýngsta þrá
að þreyja vini góða,
einginn skyldi öðrum lá
þótt ýta sæi hljóða;
þar má hver sig sjálfan sjá,

sem að ratar yndis bann.
Það er stríð í þagnar rann,—
Læsi' eg aptur ljóða skrá,
lítt vill gánga' að vilja.
— að missa þann,
sem mikið er við að skilja.

ÁM. 148, 8. 324.—25. bl.

## Eitt kvæði.

Sízt er gaman að sorg
og þrá.
segi' eg það fólki mætu.
Hinum er hægra, sem hefir
sig frá.
og harmar einga sætu.

1. Fram skal ferjan hrundin
Fjalars á ljóða sundin,
upp eru seglin undin
og aktaums streingur bundinn.
lands við Lóðins fundinn
leggur hún Yggjar fjörðinn á.
Hinum er hægra, sem hefir
sig frá.
Saman við Sviðris mundinn
Sónar blanda eg vætu.
Harmar sætu,
harmar einga sætu.

2. Bágt vill brögnum veita
blíðufróns um reita
frúna að fá sér teita.
þótt fari menn þess að leita;
kemur til stundum streita
stúlkukornið úngt að fá.
Hinum er hægra, sem hefir
sig frá.
Margan þraut vill þreyta
þrátt fyrir vífin mætu.
Harmar sætu,
harmar einga sætu.

3. Margan mætan lúði
manninn sorgar úði
áður, auðs fyrir þrúði.
sem unni af dygðum brúði.
Gleðin úr geðinu flúði,
gjöra það fornar sögurnar tjá.
Hinum er hægra, sem hefir
sig frá.
Mættu í skilníngs skrúði
skæðra vopna þrætum.
Harmar sætu,
harmar einga sætu.

4. Ef af hrínga hrundum
hægðar lukka stundum
blotnaðist laufalundum,
lángt svo fram vér mundum,
bezt er þorna þundum
þessu' að hyggja' og vel að gá:
Hinum er hægra, sem hefir
sig frá.
og æða' ei eptir sprundum
of mjög kífs með þrætu.
Harmar sætu,
harmar einga sætu.

5. Læt eg hér með lenda,
lifi þær vel án enda,
eikur auðsins brenda,
sem eingan hofmóð senda,
en hinar má það henda,
er heimsins blíðan vill þeim ljá.
Hinum er hægra, sem hefir
sig frá.
Kjassmælin opt kvenda
kveikja hrygðar vætu.
Harmar sætu,
harmar einga sætu.

ÁM. 148. 8, 330. bl.

## Kvæði við gamalt erindi, gjört nær maður reisir frá vinum

Fram í runninn, meðan eg má,
mínum held eg plógi.
Ekki' eru brunnin kolin smá
á Lundúnaskógi.

1. Vestrar skeið af skilníngs hafn
skundi á Sónar víði,
af Boðnar lög við bragar safn
ber þó litla prýði.
Þjóðskáldum að þykjast jafn,
það skal ei mér merkjast á.
Fram í runninn, meðan eg má.
Því aldrei lærði' af Óðins hrafn,
svo orðum vísum lógi
á Lundúnaskógi.

2. Magnast gleði' um minnis brú,
máls því leikur kvarði,
heiðurs veitíng höfum nú
hlotið á þessum garði.
Verðug góðs er virðing sú,
vermist eg af krúsarlá.
Fram í runninn. meðan eg má.
En mest ofdrykkju mun eg um flú
mettur skálar plógi
á Lundúnaskógi.

3. Drjúgum marga dapurt sló
drykkjuvegir hálir,
tíminn líður, tef eg þó,
tæmi krús og skálir.
meinslys af því mörgum bjó,
sú meðtekníng var ófrið sjá.
Fram í runninn, meðan eg má.
Sinnið brjálað seggja dó
í samvizkunnar rógi
á Lundúnaskógi.

4. Hér við drykkju höldum töf,
húsbóndinn mun valda,
því er mín skylda þessa gjöf
þakka' og endurgjalda.
Vellystar mig vermir köf,
vil nú upp frá henni sjá.
Fram í runninn, meðan eg má.
Ef oss heim sækir einlífs knöf
einhver leggst á vogi,
á Lundúnaskógi.

5. Vil eg nú, því veiklast önd,
víkja af drykkju seti.
Þér sé lukkan þýð við hönd,
það sé mitt valete.
Hér legg eg fram haukaströnd,
hafðu þökk fyrir veitíng há.
Fram í runninn. meðan eg má.
Ávaxti guð öll þín lönd
auðnu meður plógi
á Lundúnaskógi.

6. Seggir stígi' á söðlaglað.
sinn hver verður kenna.
svo skulu bragnar beizlanað
um Biflíngs kvendi renna;
greiði veg á góðan stað,
gefi það heilög þrenníng há.
Fram í runninn, meðan eg má.
Lyktast hér af ljóða vað,
lögurinn Ása nógi.
á Lundúnaskógi.

ÁM. 149. XIV, 8, 2.—3. bl. Frá 17. öld.

Nær mun eg þann mann
hér á landi fá,
sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá?

1. Fróðleiksmálin færi eg eigi
frómum lýð, þótt jafnan þegi,
hefi' eg það satt, að margur megi
mætum þéna heims um rann.
Nær mun eg þann mann.
Held eg mig á hverjum degi
heims á lasta bandi.
Manninn á landi.
Ó, hve margan á þeim vegi
eg sá leika mig um kríng.
Sem mér lætur rauðan hríng.
Þetta glögt eg sannleik segi,
svo skal hreifa hróðrar skrá.
Sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá.

2. Hafa þetta hyggnir forðum
hrópað út, með mörgum orðum,
og sig klagað skrafs í skorðum;
skýri eg réttan sannleikann.
Nær mun eg þann mann.
Miklu framar máls af borðum
mælti svo hljómandi: —
Manninn á landi.
— Ó hvað margan myrðir morðum
meinleg þessi illskan slíng.
Sem mér lætur rauðan hríng.
Glæpaverkin þessir þorðu
þrátt að elska barndóm frá.
Sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá.

3. Synda-bönd eru týndar trygðir,
tapaðar mætar kærleiks dygðir,
en aptur komnar illar lygðir,
sem yfir oss leiða straffið kann.
Nær mun eg þann mann.
Heyra má um heimsins bygðir
hróp af kærleiks grandi.
Manninn á landi.
Hrópleg[t] tal og heimsins dygðir
halda margir dýrleg þíng.
Sem mér lætur rauðan hríng.
Þetta eykur alls kyns blygðir,
alls kyns gæðin hverfa frá.
Sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá.

4. Kristnir drottins hér í heimi
hrekjast í þessum synda eimi;
mörg trúi' eg á sturlan streymi,
stopult geingur oss sú reisan.
Nær mun eg þann mann.
Eins og skip á báru beimi
berst af veðra grandi.
Manninn á landi.
Hér og hvar þótt slagi' og sveimi
í sorgar hættum alt um kríng.
Sem mér lætur rauðan hríng.
Þá er svo sem dróttir dreymi
þá dauðans ógnir stríða á.
Sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá.

5. Væntum þess og verum glaðir,
vora reisu höldum hraðir,
á elsku verkin ekki staðir,
á oss sýnum kærleikann.
Nær mun eg þann mann.
Svo á himnum háhuggaðir
með heitu ástar-bandi.
Manninn á landi.
Að vér mættum æ blessaðir
um aldir halda dýrleg þíng.
Sem mér lætur rauðan hríng.
Guð eilífur, góður faðir,
gefi oss slíkri tign að ná.
Sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá.

6. Það mun koma þó um síðir,
að þessir linast stormar stríðir
á oss blíðar[1] blómleiks tíðir
blessan[2] færa í himna rann.
Nær mun eg þann mann.
Þar útvaldir ljóma lýðir
leyst[ir] af öllu grandi.
Manninn á landi.

Sálu og lífi[ð] sjálfur skrýðir
sannur guð með dýrleg þíng.
Sem mér lætur rauðan hríng.
Saung einglanna sætum hlýðir
sólar kóngsins stólnum hjá,
sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá.
Hrs. J. Sig. 257, 8.

**Enn þriðja kvæðiskorn til að kveða.**

Þángað vildi' eg ríða
á þann græna skóg,
sem laufið vex á viðum
og rótin er undir góð.

1. Einvaldsherrann einn sá réð
yfir þeim skógi fríða.
Þángað vildi' eg ríða —
Túngan ei fær talað né tjáð
hans tign og allan dýrðar plóg.
— á þann græna skóg,
sem laufin vaxa á viðum,
og rótin er undir góð.

2. Ein er braut, ei önnur nein,
í aldingarðinn fríða.
Þángað vildi' eg ríða —
Heims vitríngar hata þá grein
hálku stiginn þeir setja í.
— á þann græna skóg,
sem laufin vaxa á viðum,
og rótin er undir góð.[3]

3. Kóngsins ljómi er birtan blíð,
bezt gjörir lundinn prýða; —
Þángað vildi' eg ríða, —
—því hann er sjálfur ljós og líf,
lítur aldrei myrkra dróg.
— á þann græna skóg,
sem laufin vaxa á viðum
og rótin er undir góð.

4. Hrygð og mæðu sviptur er sá,
sorg og öllum kvíða, —
Þángað vildi' eg ríða —
— sem líta þennan lundinn má;
er leystur af neyð og dauðans róg.
— á þann græna skóg,
sem laufin vaxa á viðum,
og rótin er undir góð.

5. Fylgir hér með fagnaðar raust,
fegurð og allskyns blíða.
Þángað vildi' eg ríða; —
Æfinlega og endalaust
er þar heilla tíðin góð.
— á þann græna skóg,
sem laufin vaxa á viðum
og rótin er undir góð.

6. Vegur í þennan væna lund
vel má merkja' og þýða: —
Þángað vildi' eg ríða —
— sá vor græðir sálar und,
og sviptir neyð og dauðans róg.
— á þann græna skóg,
sem laufin vaxa á viðum
og rótin er undir góð.

7. Þessi' hin ljúfa líknar raust
lifnað minn kann prýða
þángað vildi' eg ríða
. . . . . [hlýðni heimurinn
hann hjálpi oss dauðans
á þann rétta lífsins.[4]

Hrs. J. Sig. 257. 8.

[1] þýður. hdr. [2] blessa. hdr. [3] nóg, hdr., og er það eflaust hér og alla upprunalegra *en góð.* [4] *seinni* hlutinn á 7. erindinu er auðsjáanlega mjög svo afbakaður.

## Enn annað kvæðiskorn og hljóðar, sem eptir fylgir.

[Vel sé þeim, sem fátt er
að meini,
þessar vísur að eg nam.[1]
Eg sá leika dverg undir steini.

1. Berlíngs vín skal blanda
brúðunum til handa;
veit það lindin landa,
að lítt eg orðin vanda;
skal í skorðum standa
skýra vín fyrir Ása glam.
Þessar vísur að eg nam.
Læt eg Ýmu anda
orða litlum teini.
Eg sá leika dverg undir steini.

2. Biðjum Krist vorn kæra
með krapti oss að næra;
til synda sízt mun færa
þótt sjái' hann oss glaðværa;
biðjum vorn hug að hræra,
vér leggjum af starf og synda ham.
Þessar vísur að eg nam.
Ljósið skilníngs skæra'
það skemtir þagnar teini.
Eg sá leika dverg undir steini.

3. [Verum ei,[2] virðar góðir,[3]
í viðræðunum hljóðir,[4]
sátt[5] um sinnu slóðir,
sé hver annars bróðir,
kætumst,[6] kappar fróðir,
fyrir krúsar lög og Ása[7] glam.
Þessar vísur að eg nam;
horskar þeinki[8] þjóðir:
þögn opt kemur að meini.
Eg sá leika dverg undir steini.

4. Einn ef annan biður,
að aukist gleðinnar kliður,
honum verður viður
sem væri' hann dreginn niður.
Fyr meir svoddan siður
sást aldrei hann gæti ham.
Þessar vísur að eg nam.
Mér lízt alt að miður,
þótt maður af sorgum kveini.
Eg sá leika dverg undir steini.[9]

5. Aptur fer með æði
orðnótt, sem eg ræði,
löndin, grös og græði
glögt við jarðar sæði;
manneskjuna það mæðir,
mun hún af leggja synda ham.
Þessar vísur að eg nam.
Leikur líf á þræði,
ljóst eg þetta greini.
Eg sá leika dverg undir steini.

A = hrs. J. Sig. 257, 8. B = hrs. Sv. Grv. 67, með hendi Finns Magnússonar. 3. og 4. erindi. Brit. Mus. Add. 11, 181, 12. Coll. Finns Magnússonar (nr. 393) 6 er.

## Enn sjötta kvæðiskorn til gamans.

Gríp eg það mér geingur
bezt
af göfugum Eddu-kvæðum.
Snögt má skæra létta lest.
Lokið er kvæðum,
lokið er mínum kvæðum.

---

[1] þessa vísu að eg nam í leyni B. [2] Veri B. [3] fróðir B. [4] góðir B. [5] svo B. [6] kætist B. [7] skála B. [8] þekki B. [9] Er. vantar í A.

1. Hættan er það helzt fyrir mig,
brundin gulls, að leiða þig,
öfundar lýðurinn einn fyrir sig
opt með þúngum ræðum.
Lokið er mínum kvæðum.

2. Sjái það nokkur í sveitum hér,
seima skorð, eg víki' að þér,
bera þeir það á burt með sér,
og breiða það út með hæðum.
Lokið er mínum ræðum,
lokið er mínum kvæðum.

Hrs. J. Sig. 257. 8.

---

Ólafur kóngur í öllu góðu gildi.
Það [var skrifað[1] í sögunni hans,
þess sæmdarmanns,
hann fékk ekki' að eiga þá hann vildi.

1. Ólafur kóngur, int var mér,
auðarbrekku þráði;
því þann blíðan baugagrér
bölið hugar þjáði;
veröldin honum var svo þver,
hún veik þeim manni' í hrygðar dans.
Það var skrifað í sögunni hans.
Því mun eg láta horna hver
Hárs af minni renna frá.
Hann fékk ekki' að eiga þá —
Verður ekki vel, sem ber,
vandað Golnis gildi.
— hann fékk ekki' að eiga þá hann vildi.

2. Eirík nefna orðin brags
afrekskónga maka,
til Ásu leitaði egtahags
og auðþöll girntist spaka,
brúðkaup vildi byrja strax,
en buðlúngs ætlan varð á stans.
Það var skrifað í sögunni hans.
Beit honum illa benja lax,
hann bjóst því ei í sverða þrá.
Hann fékk ekki' að eiga þá —
Hreytir vildi hökla þaks,
að hríngþöll brenna skyldi.
— hann fékk ekki' að eiga þá hann vildi.

3. Steinólfs arfinn stóra bar
stygð í svölum Gríðar,
branda fimur bendir var
að biðja Ketilríðar.
Hún býtti' honum ei af blíðu par,
brúðarefni annars manns.
Það var skrifað í sögunni hans.
Hans því geðið hrygðin skar,
á hennar prýði jafnan sá.
Hann fékk ekki' að eiga þá —
þiggja varð hann þúngt afsvar
af þeirri baugahildi.
— hann fékk ekki' að eiga þá hann vildi.

4. Af Helga skáldi hrygðar svör
heyra margur kunni,
hans var lukkuhjól á hjör,
hríngs þó Gefni unni,
þráði únga vella Vör,
vært var ekki innanlands.
Það var skrifað í sögunni hans.
Geiknirs[2] stólpa eikin ör
einatt vætti sjónar brá.
Hann fékk ekki' að eiga þá —
Hún bjó sig því á báruknör,
buðlúng finna skyldi.
— hann fékk ekki' að eiga þá hann vildi.

---

[1] er lesið, 67. [2] = Glitnis.

5. Ketil raum, einn kurteis rekk,
kann eg enn að nefna,
bauga skorðu blekað fékk
og blíðu hugði' að efna;
báruljómagrundin gekk
grátin þá til ektabands.
Það var skrifað í sögunni hans.
Sifjar alda brík á bekk
í burtu hvarf hún gleðinni frá.
Hann fékk ekki' að eiga þá —
Þáði gefins þennan hvekk
þegninn reiðifyldi.
— hann fékk ekki' að eiga þá
hann vildi.

6. Ástar frestur æsti hast
innst í brjósti þegna,
lista kostum vist það vazt(!)
verstum þjósti slegna;
hraustum mistist hreystin knást.
hastir gistu' á vistir svans.
Það var skrifað í sögunni hans.
Rastar hestur síztur sást,
seztur Vestra nausti frá.
Hann fékk ekki' að eiga þá —
Frosta kasti' í flestu brást,
fýstist sízt er skyldi.
— hann fékk ekki' að eiga þá
hann vildi.

7. Sorg í margra sinni elst,
sízt er því að leyna,
þjóðin á þessum tíma telst
því trúa, flestir meina.
Bæði nú í friði felst
faldagrund og sveigir brands.
Það var skrifað í sögunni hans.
Út það ei fyrir öllum selst,
eins og vildu kjósa á.
Hann fékk ekki' að eiga þá —
Þanninn mærðar duggan dvelst,
djúpara, fyr en skyldi.
— hann fékk ekki' að eiga þá
hann vildi.

ÁM. 146 b, 8. Kvæðið er eptir Steinunni Finnsdóttur á Höfn í Melasveit. Sama viðlagið er við annað kvæði, eptir því sem Finnur Magnússon segir í hrs. Sv. Grv. 67, og kvað það kvæði aðeins vera tvö erindi. Það er nú í Brit. Mus. Add. 11, 181, 12. Coll. Finns Magnússonar (nr. 393). Kvæði Stefáns Ólafssonar I. 1885, bls. 201.

## Annað gamalt viðkvæði.

Vertu' í túngunni trúr,
tryggur og hreinn í lund.
Hugsaðu' um það hýr sveinn,
á hverja stund.

1. Í góðu þó að þú gildi sért,
gjöri' eg þér það að inna bert,
mjúkur [í] ræðu' og mildur vert
við menn og sprund.
Hugsaðu' um það hýr sveinn
á hverja stund.

2. Þótt hugaður sért sem harðfeingt dýr,
sem hjá þeim sterku vörgum býr,
fyrir sterkum guði þú stendur rýr
á storma grund.
Hugsaðu' um það hýr sveinn
á hverja stund.

3. Þótt berir þú ment og málið snjalt
meir yfir aðra' en þúsundfalt,
þínum guði það þakka skalt
af þýðri lund.
Hugsaðu' um það hýr sveinn
á hverja stund.

4. Lifðu nú sæll, en lukkan fríð
lendi hjá þér árla' og síð.
Dvals svo brotnar drafnar skíð
við drauma fund.
Hugsaðu' um það hýr sveinn
á hverja stund.

ÁM. 152 II, 8, 15.—16. bl. Frá 17. öld.

## Kvæði incerti authoris.[1]

Gunnlaugur háði geira
þíng fyrir brúði,
misti' hann bæði lönd og líf,
lægis bál og þar m[eð] víf.
[Helga' en[2] væna Hrafni
jafnan trúði.

1. Dvalið skal hér dvergafar
af djúpi krj[úpa] Óma,
sezt og lest við Suðrarfar
senda' af endíng(?) góma.
Efnaleysið á henni var,
einginn hafði stú[r]inn stíng.
Gunnlaugur háði geira þíng.
Fljóti bátur Fros[ta] snar,
frekur lekur súði.
Helga en væna Hrafni jafnan
trúði.

2. Áður á láði afreksmenn
ekkann þekkir báru,
seyttu(!) og beittu Sviðrigs tenn,
serkinn kverka skáru;
fáa nefni' eg fyrða enn
um fríðan og víðan heimsins hríng.
Gunnlaugur háði geira þíng.
Ingi kóngur í ástum brenn
fyrir únga silkiþrúði.
Helga en væna Hrafni jafnan
trúði.

3. Flóres[3] stóra fár og neyð
fékk fyrir brekku hrínga,
seld var voldug silkieið
fyrir sefríngs fagra bínga,
hlaut að kanna harmaskeið,
hrepti móð um þagnar bíng.
Gunnlaugur háði geira þíng.
Í Babýlón, þar lenti leið,
ljósri náði brúði.
Helga en væna Hrafni jafnan
trúði.

4. Hollur Apolló harma tár
hreytt og breytt nam þiggja,
þar bríkin ríka' í Barúnáð(!)
brotin sögð nam liggja;
kastað var í karfavað,
kvaldi reyðin þann döglíng.
Gunnlaugur háði geira þíng.
Hamíngjan mátti heita það,
hrepti hann aptur brúði.
Helga en væna Hrafni jafnan
trúði.

5. Duggu kuggur dvalinn skal
dragna' úr þagnar landi,
muggur, snuggur mála hjal
magni þagnar standi,
kreika' og reika' í kjalarsal
keppin heppin óskaslíng.
Gunnlaugur háði geiraþíng.
Endi og lendi alatal,
álku fálkur(!) lúði.
Helga en væna Hrafni jafnan
trúði.

ÁM. 723 a. 4, bls. 23—24. Viðlagið prentað hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 190.

---

[1] þ. e. eptir óvísan höfund. [2] Helgan. hdr. [3] Flórent. hdr.

Víða fellur sjór yfir grundir,
þar [hofmann stár[1] í leynibý.[2]
Alt er laust[3] með elskhuganum
bundið.

1. Ef þú skikkjuskorðin[4] fríða,
skemtan minni vildir[5] hlýða,
[glósuð versin[6] gjöri' eg að[7] smíða,
[gamanið nýtt mun[8] verða' af[9] því.
Þar hofmann stár í leynibý.
Aldingarðinn[10] [eðlis fríða[11]
eitt sinn hefi' eg fundið.
Alt er laust með elskhuganum
bundið.

2. Lundurinn[12] grænn með gróða kendur
[garðs í fögrum velli[13] stendur,
[sá ber plögg[14] og prýði rendur,[15]
pellin rauð þar vaxa ný.[16]
Þar[17] hofmann stár í leynibý.
Ilma grös á ýmsar hendur,
[eins og kjósa mundi.[18]
Alt[19] er laust með elskhuganum
bundið.

3. Þar vex ein[20] sú[21] liljan ljósa,
listíng[22] má ei betri[23] kjósa,
alt í kríng [sú rjóðust[24] rósa
réttir út sín blöðin ný.[25]
Þar hofmann stár í leynibý.
Sínum[26] sigri[27] sætt mun[28] hrósa,
[þá] sólin skín á[29] grundir.
Alt er laust með elskhuganum
bundið.[30]

4. [Þó ber hún[31] ein af öllum sóma
eikin [sú, þar skrýdd er[32] blóma,
hennar gulleg laufin ljóma,
leiptran sú ber hátt við ský.
Þar hofmann stár í leynibý.
Eitt og hið[33] sama um hana róma
einninn maður[34] og sprundið.[35]
Alt er laust með elskhuganum
bundið.

5. Eplin fögur[36] með ilmi hreinum
eru þar[37] föst á hennar greinum,
utan sett[38] með eðalsteinum,
ekki neitt þar sést[39] á glí.
Þar hofmann stár í leynibý.
Lina þau öllum lífsins[40] meinum,
í letri' hefi' eg það fundið.
Alt er laust með elskhuganum
bundið.

6. Lifandi þar á kvistir kvika,
kunna aldrei[41] af[42] að skrika,
alskínandi blakta' og blika
blöðin[43] hennar, forn og ný.
Þar hofmann stár í leynibý.
Þar[44] olíulækir ofan strika[45]
[ört,[46] sem[47] kjósa mundi.
Alt er laust með elskhuganum
bundið.

7. Vínlækirnir víða fljóta,
vel má þeirra fólkið njóta,
hunángs keldur[48] hvergi þrjóta,
hjartað móða[49] gleðst af því.

[1] jómfrú sitr B. [2] leynibý um stundir C. [3] lauf BC. [4] -skorðan C. [5] gjörir B; girnist C. [6] glósar versið AB. [7] sl. C. [8] gaman skal þér B; gaman má þér C. [9] að C. [10] Við aldingarðinn C. [11] ástar þýða C. [12] Lundr er C. [13] í garðsins porti einu BC. [14] mætri prakt B. [15] með ágætt plóm og prýði vendur C. [16] í BC. [17] er C. [18] um allar dagsins stundir BC. [19] Eitt C. [20] inni C. [21] sl. C. [22] lystugri A. [23] fegri C. [24] hin rauða B; — um rauða C. [25] frí C. [26] Sinni C. [27] ilmi B; ilman C. [28] kann BC. [29] um C. [30] tíunda er. í B. [31] Sú ber BC. [32] sem þar stár með BC. [33] það BC. [34] menn BC. [35] sprundin C. [36] væn BC. [37] sl. BC. [38] fest A. [39] sezt C. [40] lasta A. [41] ekki C. [42] þó AC. [43] blómstrin A. [44] sl. C. [45] skrika A. [46] alt A. [47] einsog C. [48] lækir C. [49] mannsins A.

Þar hofmann stár í leynibý.
Blöðin listugt[1] blaka og þjóta,
blærinn fagur[2] [á lundi.[3]
Alt er laust með elskhuganum
bundið.

8. Fugla allskyns flokkrinn mætur
fagurt sýngur, daga' og[4] nætur,
þeirra hljómur listugt lætur,
leika [dýr um[5] völlinn[6] frí.
Þar hofmann stár í leynibý.
Í þeim garði einginn grætur,
ángrið[7] í[8] burtu hrundið.
Alt er laust með elskhuganum
bundið.

9. Ýngismeyjarnar[9] utan vansa,
allar bera þar[10] gylta kransa,
sýngja, spila, digta' og dansa,
döpur er eingin bragði í.
Þar hofmann stár í leynibý.
Hvorki þurfa[11] þær[12] skjöld né
skansa,
[skjólið er trénu[13] undir.
Alt er laust með elskhuganum
bundið.

10. Nú hefi' eg skemt[14] þér þiljan
þráða;
þessa gátu[15] máttu ráða.
Ljóða streingi stilli'[16] eg bráða,[17]
strax og[18] nú til þagnar sný.
Þar hofmann stár í leynibý.
[Á enda'[19] [er lokið efnið tjáða,
það er ei leingra fundið.[20]
Alt er laust[21] með elskhuganum
bundið.

A = hrs. Bmfj. 387, 8. (Hæríngsstaða eða Urða bók). B = hrs. Bmfj. 105, 4. (Vatnshyrna), og er kvæðið eignað þar séra Hallgrími Péturssyni. C = ótalið hr. Bmfj. 8. Hvarfsbók (frá Þorsteini Þorkelssyni) I, nr. 47.

---

Hljóðgóðar hindur
við hönd höfum fest,
þú kyssir þýðast
og kveður ein bezt.

1. Ekki er eg í vikivaka
vanur, rámur, leingi að kvaka,
veldur því að stirð er staka
og stamur hæru vindur,
hljóðgóðar hindur.
Hljómur raddar hætta sakast,
hlýtur það enn líðast.
Þú kyssir þýðast.
Þótt megi ei mig brúður blaka
og byrstast við svo efnalakan
sem eg sést,
þú kyssir þýðast og kveður ein
bezt.

2. Hér er kveðið af list og leikið,
lízt mér fátt sé fólkið vikið
gæfuspor, eg kýs því kreikið
Kristí barna kindur,
hljóðgóðar hindur.
Frá yður óvin fúlan [feykið],
en fágið drottni blíðast.

[1] hennar A; listug C. [2] mjúkt B; mjúkr C. [3] að dundi BC. [4] sem BC. [5] dýrin BC. [6] valin B; sáttu C. [7] ángur B; ángri C. [8] er BC. [9] ýngismeyjar fyrir A. [10] þær BC. [11] bera A. [12] sl. C. [13] skjóli trésins B. [14] kent B. [15] gátuna B. [16] stytti' A. [17] báða AB. [18] eg BC. [19] Ætið B; Alla C. [20] hreptu efling dáða í þeim fagra lundi BC. [21] lauf C.

Þú kyssir þýðast.
Til himnagleði huganum reikið
heims fyrir glauminn sízt það
heykið,
[minnist mest þann faðmið þýðast,[1]
og þjónið mest.
Þú kyssir þýðast og kveður ein
bezt.

3. Enn á hjá mér eitt erendi
erlegt, sem mér fylgir kvendi,
gæfa að henni og gleðin vendi,
sem gráti öllum hrindur,
hljóðgóðar hindur.
Leiði hana' drottinn hægri hendi
og hjúki æ sem þýðast,
þá kyssir hún þýðast.
Líf með yndi og æru endi,
Austrar ferjan lok[s] svo lendi
og vel virðest.
Þú kyssir þýðast og kveður ein
bezt.

Hrs. J. Sig. 6, 8. (Frá 17. öld).

## Kvæði Ólafs Egilssonar, að sögn 12 ára.

Mig hefir lítinn mansaungs
keik
m[ærin] beðið að næra;
geing eg tregur í gleðinnar leik
gómakvörn að hræra.

1. Fjölnis bátur fram sé seyddur,
fróðleiks er sá efnum sneyddur.
Þótt Kjalars sé eg bjó[r] um
beiddur
brigðu lítil máls er kveik.
Geing eg tregur í gleðinnar leik.
Týs er feingur fyrir mér eyddur,
fæ eg því ekki að læra
gómakvörn að hræra.

2. Hnitbjarga eg lög fann læstan,
er lýðum eykur fróðleik stærstan
Gunnlaðar í geymslu fastan,
gaf mér ei af honum matreyk.
Geing eg tregur í gleðinnar leik.
Hver hennar vinskap hlýtur hæstan,
honum eykst mentin skæra
gómakvörn að hræra.

3. Þér vil eg brúðurin bjóða kvæði,
blíð og fróm í lyndi' og æði,
með beztu dygðum guð þig gæði
göfuglegust motrar eik.
Geing eg tregur í gleðinnar leik —
Þín mun vaxa, þetta' eg ræði,
þorngrund, sæmd og æra.
— gómakvörn að hræra.

4. Hygðar góða hríngþöll fremur,
hennar lof því víða kemur,
á siðina góða sig hún temur,
sæmilega að öllum veik.
Geing eg tregur í gleðinnar leik —
Ángursemina á burt nemur
auðarniptin skæra.
— gómakvörn að hræra.

5. Þín mun aukast auðnan fríða,
ef elskar þú guð og vilt honum
hlýða,
með dýrðar mun hann þig skrúða
skrýða
þá skilstu við þenna veraldar leik.
Geing eg tregur í gleðinnar leik —
Þitt þá ryktið rennur víða
röksamlegust kæra.
— gómakvörn að hræra.

[1] Virðist eiga að falla á burt.

6. Naustið dverga knör má keyra,
Kvásis þrýtur fyrir mér dreyra,
allir mega það ýtar heyra,
út er runninn mælsku kveik.
Geing eg tregur í gleðinnar leik —
Basti Austra bát skal reyra,
brag af miði færa.
:,: — gómakvörn að hræra. :,:

ÁM. 67. 8, 88—89. bl. Frá miðri 17. öld. Ólafur Egilsson, sem kvæðið er eignað, er ef til vill séra Ólafur Egilsson í Vestmanneyjum († 1639).

---

Við heims háa glauma
heldur leingi er öldin slíng;
láttu bátinn lauma
þó landið um kríng.
Selur víða sál með gróða,
seljan hundrað kóngleg þíng.
Látum bátinn lauma
landið um kríng.

1. Eina' eg veit hjá vænum snótum,
víntré eitt af grænum rótum,
mín með heitum bæna bótum
blómleg kæri nauma,
við heims háa glauma.
Kæn nú sleit af kveinstaf ljótum,
kvölum breytir sæl, trú, ró.
Látum bátinn lauma þó —
Ímunaðarsveitum mein það hljótum,
mundi vönduð standi
— lauma með landi.
Í raunar reitum reynist njótum,
reynd geingur með trygðar hríng.
Látum bátinn lauma
landið um kríng.

2. Sæl og blíð er sólin rjóða,
sálin víð er skjólið þjóða,
vel við lýði málið móða
mælir, næmis gauma,
við heims háa glauma.
Til sín býður talið ljóða,
tel eg hlýði *á* og *ó*.
Látum bátinn lauma þó —
Böl og kvíði bilar þjóða,
bundið yndið standi.
— að lauma með landi.

3. Heillin góð er holl í ræðum,
hyllist fljóðið öllum gæðum,
snillin móð er snjöll á hæðum,
sniðug nemur tauma
við heims háa glauma.
Fellir[1] flóð og föll á svæðum,
fyrir svo með kærleik dró.
Látum bátinn lauma þó —
Stillíng stóð með galla glæðum,
greindur týndur vandi.
— að lauma með landi.
Allar þjóðir fyllir fræðum,
feingu lángan velgjör[n]íng.
Látum bátinn lauma
landið um kríng.

4. Guðs af hendi gæðin standa,
gleður endi' og eyðir vanda,
í stríði sendir stoð til handa,
styður frómur auma
við heims háa glauma.
Náðin kennir leiðir landa,
láði friðar gæðin bjó.
Látum bátinn lauma þó.
Blíður tendrar boðsins anda
binda af synda grandi.
— að lauma með landi.
Reiði endi, bræði band[a]

[1] Fellur, hdr.

bindi [á] enda klúngurs stíng.
Látum bátinn lauma
landið um kríng.

5. Hjörðin hæsta hirði Kristum,
hæstan gisti[1] orða listum,
til dýrðar hirðir fæst nú fyrstum
framar en blóma sauma,
við heims háa glauma.
Sverðið æst það særði tvistum,
sig brá hvast og álit sló.
Látum bátinn lauma þó.
Sú virðíng næst að kær var kvistum
kyr. vær sendist andi,
að lauma með landi.
Til byrða fæst af borði þyrstu
b . . . . . un ólæstan guðs fulltíng.
Látum bátinn lauma
landið um kríng.

6. Sauði meidda góður græddi,
gleði leiddi', en dauðann hæddi,
sað[n]íng reiddi, síðan gæddi
svinna, slæma strauma,
við heims háa glauma.
Faðminn breiddi', en bróðir blæddi
blessaða hnossið, hátign dó.
Látum bátinn lauma þó —
Nauðin neyddi, náðin gæddi,
nú er týndur vandi.
— að lauma með landi.
Stað til reiddi, stríðið bræddi,
streingir fánga einhyrníng.
Látum bátinn lauma
landið um kríng.

7. Túngur kvenna saunginn sanna
sýngja þenna', en ángur banna,
þó skal grenna[2] þvíngun manna,
þraungan kremur krauma,
við heims háa glauma.
Glíngurs menn, sem gaungin kanna
glæpa' hlaupa' í djúpan sjó.
Látum bátinn lauma þó —
Úngviðsmenn bið eg ýngismanna
yndið sendi' og bandi.
— að lauma með landi.
Túngur reyna saurgan sanna
fagra streingja stúnginn bíng.
Látum bátinn lauma
landið um kríng.

ÁM. 427. 12, 39.—41. bl. Frá 17. öld, mjög afbakað.

## Svo kveður úngur maður í gleðivöku til kvenna.

Að þér fljóti heiðurinn hár
og hamingjulánið þýða,
lífsins bót og lukku ár,
lilju blómið fríða.
lilju blómið fríða.

1. Suðrar nökkvann, súð þótt
bíði,
set eg dökkvan út á víði;
mér ei hrökkva mærðar smíði,
mest því brestur vizkusjár.
Að þér fljóti heiðurinn hár.
Aðrir klökkva óðarsmiði
ýtra þökk af motrarhlíði
bjartri bíða.[3]
:,: Lilju blómið fríða. :,:

2. Hefi' eg í sinni, hæversk tróða,
um heiðurinn þinn og prýði góða,
ef að eg kynni, ljúft að ljóða,
og leyfið gæfir, svanninn klár.
Að þér fljóti heiðurinn hár.
Hugarins minni, hæg og rjóða,
hrærist inni þér að bjóða
lofið lýða.
:,: Lilju blómið fríða. :,:

---
[1] gistir, hdr. [2] greina, hdr. [3] bíði, hdr.

3. Hefi' eg grundað gæfu þína
gullhlaðslindin, snjöll og fína,
lítið blundað, bitur pína
brennir unnum sinnu krár.
Að þér fljóti heiðurinn hár.
brjóstið undað ástir brýna
alla stund fyrir snilli þína,
þiljan þýða.
:|: Lilju blómið fríða. :|:

4. Hvarma grjótið hýru bærir,
harma spjótið nýrun særir,
ástarhótin listug lærir,
lundinn þann, sem hver með gár.
Að þér fljóti heiðurinn hár.
Þjóstinn ljóta flestum færir,
fyrst að snótin sízt þeim tærir
þelinu þýða.
:|: Lilju blómið fríða. :|:

5. Farvel tróðan Fýrisvalla,
fegurðar gróðann þig má kalla,
sem röðullinn góður hæstu halla
í heiði gleður augnabrár.
Að þér fljóti heiðurinn hár.
Detti hróður Suttúngs salla,
sit eg hljóður nætur, alla[1]
æfi síðan.
:|: Lilju blómið fríða. :|:

## Svo kveður stúlkan.

Heims glysið góða
svo geðlega fer,
við það flokkurinn fljóða
svo fast heldur sér.
Sæl er seims tróða,
sú vel gipt er.

1. Veröldin fögur þóknast þjóðum,
þegar hún tærir báruglóðum
feykir gulli' úr sælusjóðum,
og setur upp farfann rjóða,
með heims glysið góða,
stígur dans með háum hljóðum
við hrund og málmagrér.
Sæl er seims tróða,
sú vel gipt er.

2. Öllum færir hún augna glampa,
opt tilreiðir skæran lampa,
skrykkjótt gjörir höldum hampa
í handaburðinum óða,
með heims glysið góða.
Þann gjörir stundum troða' og trampa
er tók hún[2] fyrri' að sér.
Sæl er seims tróða,
sú vel gipt er.

3. Hennar blíðan, hvað sem veldur,
hefir mér geðjast ekki' að heldur;
optlega sá eg einn var feldur,
þá öðrum gjörði' hún bjóða
þ[að] heims glysið góða.
Hann er víst í háfinu seldur,
sem hennar stiginn fer.
Sæl er seims tróða,
sú vel gipt er.

4. Hefi' eg því fast í huganum bundið
a[ð] horfa' á mann og dygða sprundið,
þótt ekki hafi ærinn fundið
auðinn veraldarslóða
né heims glysið góða,
þau sem lukku sætlegt sundið
sætlega stefna hér.
Sæl er seims tróða,
sú vel gipt er.

5. Þetta' er lífið lukku nægra
og ljúfum drottni miklu þægra,

[1] allar, hdr. [2] hann,. hdr.

að eiga sér við arminn hægra
ektamanninn fróða
en heims glysið góða.
Það mun stytta stundir dægra
og stofna heilla ker.[1]
Sæl er seims tróða,
sú vel gipt er.

6. Þótt dómurinn minn sé drósum leiður,
dreg eg ei frá þeim skart né heiður.
Flúrið vænt og farfinn greiður
fyrnist í veraldargróða
og heims glysið góða.
Kýs eg samt í hjúskaps hreiður
holt að víkja mér.
Sæl er seims tróða,
sú vel gipt er.

7. Sný eg óð að úngum manni,
auðnustiginn bið eg hann kanni,
villist ekki' í veraldar ranni
þótt vilji að honum flóða
það heims glysið góða.
Honum fylgi siðugur svanni
í sæng, þá óska fer.
Sæl er seims tróða,
sú vel gipt er.

## Annar kveður svo.[2]

Mörger frúin fögur að sjá,
sem flúr og skartið ber.
Henni kýs eg helzt að ná,
sem hegðar vel sér.

1. Eitt með æztu gæðum
eg hefi numið í fræðum
gefist[3] af himna hæðum,
þeim hlýða drottins ræðum,
linar meini og mæðum;
mun það kvinnan dygðahá,
henni kýs eg helzt að ná;
lífgar[4] í öllum æðum
andlegt heilsu fér.[5]
Henni kýs eg helzt að ná,
sem hegðar vel sér.

2. Hafi hún hylli sanna
hæsta, guðs og manna,
hópinn hannyrðanna,
sem[6] hamíngjustiginn kanna,
lyst til iðjuanna,
og auðsveipt geð við manninn þá
henni kýs eg helzt að ná.
Hvað mun svoddan svanna
samlíkjandi hér?
Henni kýs eg helzt að ná,
sem hegðar vel sér.

3. Sé þá farfinn fríði,
fagur á motrar[7]hlíði:
ást við auma lýði
og alls siðgæðis prýði.
Lundin sterk, þótt stríði
stór mótlætis bylgjan á,[8]
henni kýs eg helzt að ná.
Af þeim[9] fárið flýði,
sem feingi' hana' heim[10] með sér.
Henni kýs eg helzt að ná,
sem hegðar vel sér.

4. Þótt kynni' eg fyrstur[11] fánga
á fegurðar rósum gánga,
lifa við[12] ilm og ánga
um æfina mína lánga,
laus við stríðið stránga
og styðjast heimsins gæðin á,
henni kýs eg helzt að ná;

---

[1] þ. e. = kjör [2] Kvennkosta álit B; Enn eitt vikivakakvæði C. [3] gefst C. [4] hún l. B. [5] = fjör. [6] sl. C. [7] matrar- A; orma BC. [8] há C. [9] honum BC. [10] sl. BC. [11] fyrst að B. [12] með B.

hennar hýran vánga
heldur tek eg að mér.
Henni kýs eg helzt að ná,
sem hegðar vel sér.

5. [Svo skal[1] hróðri halla
um hrundir Fýrisvalla
sem dygða aukníng alla
elska um sinnu palla.
Þær firri[2] fári' og galla
frelsarinn[3] góður[4] himnum á —
Henni kýs eg helzt að ná —
— og[5] leiði' í ljóssins mjalla,
þá lífsins æfin þver.
— henni kýs eg helzt að ná,
sem hegðar vel sér.

Kvæði þetta er enn fremur í hrs. ÁM. 969. 4, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum = B og ÁM. 148, 8. 326.—27. bl. = C. Afskript eptir 148 af viðlaginu og 1. er. með hendi Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66.

## Enn kveður hann.

Geðsamleg gulls lín,
gott ætla' eg þér.
Gjörðu svo vel góðin mín
gaktu með mér.

1. Minnst kann eg um mærðarslag;
þótt mýkja vildi' eg lítinn brag,
kem eg þó eingu kvæði' í lag,
svo kunni' að hæfa prýði þín,
geðsamleg gullslín.
Þó hefi' eg lifað þann lukkudag
ljúf að fara með þér.
Gjörðu svo vel góðin mín
gaktu með mér.

2. Ei kann eg að hegða hljóðum.
þótt hafi eg lyst að skemta þjóðum;
allra sízt hjá fríðum fljóðum,
að fara' í dans með kvæðin mín,
geðsamleg gullslín.
Hefi' eg þó samt í hyggjuslóðum
hróður að vanda þér.
Gjörðu svo vel góðin mín
gaktu með mér.

3. Þig hefi' eg séð af öllum eina
andlitshvíta og prýðihreina,
því ber huganum margt til meina.
má eg ei jafnan ná til þín,
geðsamleg gullslín.
Ástunum kann eg ekki' að leyna;
aumlega þetta fer.
Gjörðu svo vel góðin mín
gaktu með mér.

4. Mér er jafnan hægra' um hjarta.
þá horfi' eg á þig sprundið bjarta;
mjög fyrir sjónir myrkrið svarta
mínar dregur burtför þín,
geðsamleg gullslín.
Hirði' eg ei fyrir öðrum skarta,
þótt ærið haldi af sér.
Gjörðu svo vel góðin mín
gaktu með mér.

5. Hugsaðu til mín hrínga tróða,
þótt hverfi í burtu gamanið ljóða;
farðu nú vel með farfann rjóða,
þótt fái' eg af honum sorg og pín.
geðsamleg gullslín.
Nætur og daga gefi þér góða
græðarinn manna hér.
Gjörðu svo vel góðin mín
gaktu með mér.

[1] Læt eg BC. [2] frá BC (rángt). [3] faðirinn BC. [4] góði C. [5] sl. BC.

## Hér uppá svarar ein.

Svoddan kveðju sýnist mér
að sæma auðarlundinn:
lukkan sigi'' í segl hjá þér
og Salamons gustur
sólvarma bundinn.

1. Mig hefir tekið mætur einn
minnst við kvæðum búna
úngur, fríður sæmdar sveinn
við síðuna aðra núna,
lízt mér fróður og lyndishreinn;
ljúflega fellur þetta mér.
Lukkan sigi' í segl hjá þér.
Þótt minn rámur raddarteinn
rati' ei kvæða sundin.
Salamons gustur
sólvarma bundinn.

2. Svo er nú öld um heimsins hlið
hrekkja vafin í galla,
að meiga nú ekki meyjarnar við
menn í kvæðum spjalla,
því er vikið í vonzku snið,
ef víkur hún honum góðu' af sér.
Lukkan sigi' í segl hjá þér.
Mun eg þó halda mínum sið
mens við frægan lundinn.
Salamons gustur
sólvarma bundinn.

3. Þeirri' upprynni', svo er að sjá,
sól í heiði skæru
fríðri jafnan faldaná,
með flestri heimsins æru,
sem ætíð feingi augum sjá
andlit þitt og prýði ker.[1]
Lukkan sigi' í segl hjá þér.
Henni geingi að högunum þá
hagfeld blíðu stundin
og Salamons gustur
sólvarma bundinn.

4. Þótt forlög vilji ærið aum
okkar fundi skilja,
lukkan ætíð lausan taum
láti' að þínum vilja
Vaknaðu jafnan við þann draum,
vinurinn kær, sem beztur er.
Lukkan sigi' í segl hjá þér.
Hreptu síðan í himnaglaum
heilagan sælu mundinn.
Salamons gustinn
sólvarma bundinn.

Fimm seinustu kvæðin eru tekin eptir hrs. Thotts 473. 4, 126.—27. bl., en það er kvæðabók séra Bjarna Gissurarsonar á Þíngmúla, með hendi hans sjálfs, og eru þau því eptir hann. Yfir kafla þeim sem kvæðin eru í stendur: »Eptir fylgja fánýt kvæði, vísur og ljóð, meir til gamans og dægurstyttíngar en nytsemi.«

## Kvæði um laussinni úngra manna.

Margur geingur gólfið á
að gamni sín;
ekki vildi eg ángra þá
í orðunum mín.

1. Góði vinur gættu' að því
og gleymdu' ei ráði mínu,
hvar þú festir huganum í
hýra ástarlínu

[1] þ. e. kjör.

og ásetur með frelsi' og frí
fljóði blíðu þér að ná —
Margur geingur gólfið á.
— haltu fast við hugarins bý
hrínga mætri lín.
Ekki vildi' eg ángra þá
í orðunum mín.

2. Vífin stundum verða blekt
af vélum úngra sveina;
þeir lofa stundum furðu frekt,
fær það mörg að reyna;
yndishjal er ógurlegt,
svo af þeim meiga þeir varla sjá, —
Margur geingur gólfið á.
— fyrirsjón og mauramekt,
mikið hrósa sín.
Ekki vildi eg ángra þá
í orðunum mín.

3. Bréfin senda breytilig
brúðarefni heima:
Eilífur guð svo eigi mig,
aldrei skal eg þér gleyma,
sálin hreppi heljarstig
ef huganum sný eg þér í frá; —
Margur geingur gólfið á.
— af öllum sá eg eina þig,
sem elskar hindin mín;
ekki vildi' eg ángra þig
í orðunum mín.

4. Handlags öl og brúðkaups brjál
brjótast um að kaupa,
hnífa, spæni, horn og skál
og hópinn drykkjustaupa;
leggja þá við sína sál:
á sunnudaginn skal eg þér ná.
Margur geingur gólfið á.
Alt skal halda utan tál
við únga baugalín;
ekki vildi' eg ángra þig
í orðunum mín.

5. Kögrið, lín og klæðið smátt
kaupa svanna þýðum,
honum lýta finna fátt
hjá fögrum silkihlíðum.
Dálætið um dag og nátt
deyfa eingin skepna má.
Margur geingur gólfið á.
Óvit strángt og hrygðarhátt
hitta', ef skilja' að sýn.
Ekki vildi' eg ángra þig
í orðunum mín.

6. Boðin koma í brúðarstað,
að búa til hús og lýði,
osta, brauð og annað það,
sem ölfaungunum hlýði,
líka' að brytja lömb í spað,
og láta sviðin jukkið fá.
Margur geingur gólfið á.
Alt er gjört, sem biðillinn bað,
búin er hrundin fín.
Ekki vildi' eg ángra þig
í orðunum mín.

7. Nú sem búin veizlan var
og veigalín skal festa,
þá er kvisað hér og hvar
hann muni vilja fresta.
Aðrir segja ekki par
af honum muni snótin fá.
Margur geingur gólfið á.
Hann vill burtu halda snar
með herríngslætin(!) sín.
Ekki vildi' eg ángra þig
í orðunum mín.

8. Upp er brugðið allri trú,
ekki vill hann líta
auganu vinstra öllu nú
auðar Gefni hvíta,
niðrar þanninn baugabrú,
að bæði sé hún heimsk og þrá, —
Margur geingur gólfið á.

— rækslulaus um bæ og bú,
börn og eigu sín.
Ekki vildi' eg ángra þig
í orðunum mín.

9. Síðan reitir af henni alt
það áður gaf hann svanna,
hefir hún[1] eptir háðið kalt
og hrópið vondra manna:
býst hann fljótt með brúkið snjalt,
að blekkja aðra gullhlaðsná.
Margur geingur gólfið á.
Þeirri yndið verður valt,
sem veitti' honum blíðu sín.
Ekki vildi' eg ángra þig
í orðunum mín.

10. Varastú að verði þér
vonzku bragðið þetta,
rausnarlítið lízt það mér
laukaskorð að pretta,
þá sem góð og einföld er.
ekki kann við brögðin flá.
Margur geingur gólfið á.
Sig mun vanda seggja hver,
sagt hefi' eg ráðin mín.
Ekki vildi' eg ángra þig
í orðunum mín.

Hrs. Thotts 473, 4, 125—26. bl. Eiginhandarrit séra Bjarna Gissurarsonar.

## Sólarkvæði.[2]

Hvað er fegra'[3] en sólar[4] sýn,
þá sveimar hún yfir stjörnu rann?
Hún vermir, hún skín
og hýr[5] gleður mann.

1. Þegar[6] [fögur heimsum[7] hlíðir
heilög sólin loptið prýðir,
lifnar hauður, vötn og víðir,
voldugleg er hennar sýn.
Hún vermir, hún skín.
Með hæstu gleði[8] herrans lýðir
horfa'[9] á glampa[10] þann.
Hún vermir, hún skín
og hýr gleður mann.[11]

2. Á fjöllum[12] hennar geislar glóa,
grotnar[13] ís [um holt og flóa,[14]
drífur[15] [varmi'[16] í[17] dalina mjóa,
dýrðar gáfan,[18] eins og vín.
Hún vermir, hún skín.
Allskyns fögur eplin gróa
út um[19] veraldar rann.
Hún vermir, hún skín
og hýr gleður mann.

3. Dýrin leika, laufin[20] hánga,
liljur[21] blakta,[22] en[23] skipin gánga,
til lands og sjóar seggir språnga,
saungurinn fugla [hvergi dvín.[24]

---

[1] hann. hdr. [2] B; Kvæði um samlíking sólarinnar E; Kvæði um samlíking sólarinnar við góða kvinnu F. [3] betra EF. [4] sól að C. [5] hýrt BCE; hún D. [6] þegar að B. [7] fagrar himins B. [8] virðíng EF. [9] horfi EF. [10] lampa BF. [11] Er. vantar í A. [12] fjöllunum BDEF. [13] gropnar ABDEF. [14] á vatni' og flóa BD; á vatnaflóa C; í vötn og flóa EF. [15] drýpur B. [16] vörm CEF. [17] vermir B. [18] dýrðargufan F. [19] utan í B. [20] liljur B. [21] laufin B. [22] blaka ACD. [23] EF. [24] eins og vín D.

Hún vermir, hún skín.
[Loptsins,[1] jarðar yl[2] og ánga
einginn missa kann.[3]
Hún vermir, hún skín
og hýr gleður mann.

4. Öll náttúran brosandi breiðir
blíðan faðm og sig til reiðir,
þegar að[4] veldis[5] hrínginn heiðir,
og hennar [ljóma augnabrýn.[6]
Hún vermir, hún skín.
[Geingur áfram[7] lopts um leiðir,
lýjast aldrei kann.
Hún vermir, hún skín
og hýr gleður mann.[8]

5. Bráðlega sölnar[9] foldin fríða,[10]
farfinn[11] lopts og blóminn[12] hlíða,
þá ofan slær í ægin víða
ágæt sólin[13] geislum sín.
Hún vermir, hún skín.
Allra handa skepnur skríða
í skjól [um veraldar rann.[14]
Hún vermir, hún skín
og hýr gleður mann.

6. Orðið[15] herrans [helgra dóma[16]
og[17] hreinferðugrar[18] kvinnu[19] sóma[20]
[samlíkt er[21] við sólarljóma,
þá situr hún hýr[22] að verkum sín.
Hún vermir, hún skín.
Um hennar dygðir, hefð og sóma
hljómurinn[23] víða rann.
Hún vermir, hún skín
og hýr gleður mann.

7. Guðhræzlunnar geislinn fríði[24]
geðlega[25] skín á [motrar[26] hlíði,[27]
[alls [lifnaðar[28] eðla prýði[29]
út [sig brynjar[30] silkilín,[31]
hún vermir, hún skín.
Drottins handa [dýrðlegt[32] smíði[33]
dáðunum[34] beztu ann.
Hún vermir, hún skín
og hýr gleður mann.

8. [Vín kærleiks[35] að vanda[36] sönnum
voluðum tærir þurfamönnum,
helga[37] bæn í iðjuönnum
ávalt[38] [stundar menjalín.[39]
Hún vermir, hún skín.
Auðurinn krýpur[40] henni hrönnum,
hvert[41] sem líta kann.[42]
Hún vermir, hún skín
og hýr gleður mann.[43]

9. Ektamann í ástum vefur,
(ylinn [svo í[44] hjartað gefur.
Hann í ró og sælu sefur,
sorgum firtur og allri pín.
Hún vermir, hún skín.
Fögnuð lífs[45] og friðinn hefur
fundið[46] beztan[47] hann.[48]
Hún vermir, hún skín
og hýr gleður mann.

---

[1] Lopts og BEF. [2] ilm BEF. [3] vann EF. Frá [ Grösin jarðar ilma' og ánga út um veraldar rann CD. [4] EF. [5] velda C. [6] blómi augna skín C. [7] Elds brennandi CDEF. [8] Er. vantar í B. [9] fölnar CD; lifnar AB. [10] þýða C. [11] fuglar B. [12] blómin B. [13] sól með B. [14] við hitann þann A. [15] Orðin DF. [16] helgidóma BCDE. [17] sl. EF. [18] hreinferðugan F. [19] konu B; kvenna F. [20] blóma CE. [21] samlíkir ADE; samlíkti F. [22] sl. A; kyr BDEF. [23] heiðurinn F. [24] þýði CD. [25] glaðlega B; guðlega F. [26] orma F. [27] auma lýði A. [28] allfagra með B. [29] lifandi eðla viðir A. [30] breiðir B. [31] Frá [ brýtur um hjartans skrín AEF. [32] dýrðar F. [33] dýrðleg prýðin A. [34] dávæn B. [35] Kærleiks verk D. [36] Kærleiks verka varma AEF. [37] helgri ADF. [38] æ sig AEF; út sig D. [39] brynjar silkilín AEF. [40] drýpur E. [41] hvað C; hvar D. [42] vann C. [43] Er. vantar í B. [44] sætan F. Frá ( ilm sætan svo B; ilm mjög sætan CD; ilm disætan E. [45] nóg B. [46] *feingið* ADEF. [47] bezta BEF. [48] kann (rángt) F.

10. Börn og hjúin forsjál fæðir,
fegursta hóf í öllu þræðir;
[trega' og sút[1] [hjá brögnum[2] bræðir,
[blíðu gefur[3] og heilsu vín.
Hún vermir, hún skín;
ángrátt[4] [þel í[5] aumum græðir,
en aldrei hrella kann.[6]
Hún vermir, hún skín
og hýr gleður mann.

11. Hennar ljós þótt halli degi,
hverskyns dygðir[7] fölna[8] megi,[9]
alt er hreint á hennar vegi.
Hún kann vinna[10] ull og lín.
Hún vermir, hún skín.
Hann[11] í raun[12] eg sælan[13] segi,
er sat við ylinn þann.
Hún vermir, hún skín
og hýr gleður mann.

12. Fölt er gull hjá svoddan svanna
og silfurtórur[14] ríkismanna;
hennar láni[15] lofdygðanna
listug hrósi[16] túngan mín.
Hún vermir, hún skín.
Læsi' eg aptur ljóða ranna;
læri[17] hver sem kann.
Hún vermir, hún skín
og hýr[18] gleður mann.

A = hrs. Bmfj. 639, 8. (Varðgjárkver), og er sagt þar, að kvæðið sé eptir séra Bjarna Gissurarson á Þíngmúla. Sama segir J. Ól. Grv. í orðabók sinni hýr, og færir þar til viðkvæðið. B = hrs. Bmfj. 132, 8. C = hrs. Bmfj. 338, 8. D = hrs. Bmfj. 108, 8. E = hrs. Thotts 473, 4. Eiginhandarrit séra Bjarna. F = hrs. ÁM. 969, 4., með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum. Bibl. Bodl. Coll. Finns Magnússonar 6. fol. Ekki notað.

**Eitt kvæði.** Eptir Sigurð Jónsson.

Þú ert inn við eyjar blár,
eg er seztur að Draungum.
Blóminn fagur kvenna klár,
kalla eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

1. Þú ef girnist þá skal vanda,
þöllin snjalla grettis landa,
vínið núna Boðnar blanda,
böguna laga fer í ár.
Þú ert inn við eyjar blár.
Þér ei nái þrautin granda,
þýðast blómið meyja.
Þú ert inn við eyjar.
Breiðist að til beggja handa
bezta hnossið meður frið.
Þú ert eyjar inn við.
Blökkin þekka bráins sanda
blíðust græðir flóða skar.
Þú ert inn við eyjarnar.
Nái hjá þér, niptin, standa
Nílar bála sóminn hár,
blóminn fagur kvenna klár.
Eikin mjúka iðju banda
eyðir harmi straungum,
svinn ef unnir runni randa.
Kalla eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

[1] orðin svell ADEF; orðin snjöll B. [2] með bæjum A; í bænum BEF; í benjum D. [3] byrlar gleði ABDEF. [4] ángráð ADE; ángruð F. [5] hjá BE. Frá [ þela A. [6] vann AEF. [7] dygða AEF. [8] slokknar AE; sölna D; sölnar F. [9] eigi BEF. [10] verka BDEF; verma C. [11] þann DF. [12] ró BCD. [13] sætan F. [14] silfurtölur B. [15] láni' og A; lán og B. [16] hrósar C. [17] lesi C. [18] hýrt E.

2. Sólin ála bríma bezta
bæt þú sútar-efnið mesta,
sem eg hef við sinnið festa,
sorgar fargast láttu fár.
Þú ert inn við eyjar blár.
Þér ei tjáir þessu fresta,
það verð eg að segja.
Þú ert inn til eyja.
Hef(!) að ei skal hjartað lesta
harmurinn, þá veittu lið.
Þú ert inn við.
Gjöri' eg bera geðið hresta,
gefir þú, svo líkar, svar.
Þú ert inn við eyjarnar.
Mundi hrindast mæðan versta,
mætti eg þig kyssa skár,
blóminn fagur kvenna klár.
Síðan næði bölið bresta
beint í hyggju gaungum,
hefði yndishægð svo flesta.
Kalla eg laungum,
kalla eg til þín laungum.

3. Eikin fögur elda flóða,
afbragð heita máttu fljóða.
Æ þig hressi gæfan góða.
gleðibyr og Freyju tár.
Þú ert inn við eyjar blár.
Grundin landa grafníngs rjóða,
gleymdu' ei mig að þreyja, —
Þú ert inn við eyjar.
— ástir fyrst þér blíðar bjóða
brjótur ríta vill með frið.
Þú ert eyjar inn við.
Kættu, veittu gleði gróða,
gef þú ljúfast elsku svar.
Þú ert inn við eyjarnar.
Ála sólar tíðum tróða,
til þín kæla hyrjar gár,
blóminn fagur kvenna klár.
Fjölnis valinn furðu hljóðan
firr þú harma saungum,
björkin merka boða glóða.
Kalla eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar yngra, skrifuð í Haukadal vestur 1748.

## Vikivakakvæði.

Bónar einnar bið eg þjóð,
sem brúkar góða siði,
að láta mig vera ljótlyndan í friði.

1. Eingum tjáir þess að þræta,
þetta' er siður veraldar,
sjái' hún mann og svannann mæta,
segir hún búi undir þar.
Brögnum að því ber að gæta,
brugga' ekki haturs móð, —
Bónar einnar bið eg þjóð.
— til hægra vegar heldur bæta,
og halda góða siði,
og láta mig vera ljótlyndan í friði.

2. Ætíð ágirnd öfund klæðist,
öfund fylgir drambsemin,
drambsemin ei hofmóð hræðist,
hofmóð fylgir stórreiðin,
reiði haturs gnóttin græðist,
getur hatrið þánka móð.
Bónar einnar bið eg þjóð —
Móðgun inn hjá lýðum læðist
á lasta föstu miði
— að láta mig vera ljótlyndan í friði.

3. Kærleikur, sem hógværð hefur,
hógværð getur af sér frið,
friður alla góðsemd gefur,
góðsemd stundar réttlætið,

réttlætið oft von um vefur,
vonin sjálf með trúnni stóð.
Bónar einnar bið eg þjóð.
Trúin veitíng tignar krefur,
talin þraut að liði.
Og láta mig vera ljótlyndan í friði.

4. Heimurinn ef hafnar lýtum,
heldur fast við dygðirnar,
af honum þá nokkuð nýtum,
nú er hann ei skárri' en var;
frá oss slægðar slögin býtum,
sleppum öllum haturs móð.
Bónar einnar bið eg þjóð.
Ótrygð frá oss alla slítum,
æfum dygða siði.
Og láta mig vera ljótlyndan í friði.

5. Kjaptakvis og slaðrið slæma
slétt er bezt að skafist út,
einninn ljóð, sem kvennfólk klæma,
köstum hrygð og allri sút.
Sig skal hver einn sjálfur dæma,
sitt vel temja hold og blóð, —
Bónar einnar bið eg þjóð.
— alla lesti' í útlegð flæma
öflugu með liði
og láta mig vera ljótlyndan í friði.

6. Gyllíngs falli góma straumur,
gestir þyrstir sakna hans,
ama sveimar Ímu naumur
æztur blástur hyggju lands,
fumar rámur framur glaumur.
Finem núna' eg set í ljóð.
Bónar einnar bið eg þjóð.
Heiti skjótur Heima-draumur,
hrund, að enda miði.
Og láta mig vera ljótlyndan í friði.

Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar yngra, skrifuð í Haukadal vestur 1748.

---

Glymur dans í höll,
Danir slógu hríng.
Glaðir ríða Norðmenn
á örfa þíng.

1. Fjölnis flæða hundi
fleyti eg Týs af[1] sundi,
fermdan[2] Óðins fundi
færi' eg hann[3] úngu sprundi.
Bráður að[4] böndum dundi
blærinn Gríðar snarpur enn.
Glaðir ríða Norðmenn.
Óðins eisu lundi
ekki' er mærðin[5] kríng.
Glaðir ríða Norðmenn
á örfa þíng.

2. Norðmenn forðum fróðir,
flæðar hestum, góðir,
héldu hafs um slóðir
og höfðu valdar þjóðir.
Þórs þeir þöktu móðir(!),
þegar hildi vöktu senn.
Glaðir ríða Norðmenn.
[Reyndust skildir[6] rjóðir,
rann þá ör af boganum slíng.
Glaðir ríða Norðmenn
á örfa þíng.

[1] að A. [2] fermdur A; ferjuðum B. [3] sl. A. [4] af A. [5] mentin B.
[6] reyndu skildi A.

3. Bragna duga beiddu,
brjóst og hlífar sneiddu,
óvinunum eyddu,
eldinn Hárs upp reiddu,
fjandmenn drjúgum deyddu,
dýrust skáru[1] plöggin þrenn.
Glaðir ríða Norðmenn.
Til heljar laungum[2] leiddu
lýð[3] frá nöðru bíng.
Glaðir ríða Norðmenn
á örfa þíng.

4. Geystir[4] gjörðu rása,
gjarða fílar hvása,
um Óðins beðju bása
báru [lýði hása,[5]
móðir [tóku' að[6] mása;
[mæðan réði[7] þá sem enn.
Glaðir ríða Norðmenn.
Lýðir á lúðra blása,
ljóst með herbúníng.
Glaðir ríða Norðmenn
á örfa þíng.

5. Unnu Óðins brúði,
óvinurinn flúði,
hlaðnir[8] hildar skrúði,
harðr var[9] vopna úði,
fagur[10] laufinn[11] lúði
[lýð til dauða dæmdi[12] senn.
Glaðir ríða Norðmenn.
Fyrir bjarta[13] þorna þrúði
þoldu[14] benja stíng.
Glaðir ríða Norðmenn
á örfa þíng.

6. Geira gustinu hvestu,
gáfu höggin mestu,[15]
lýði heiðna lestu,
þeir launin feingu verstu;
bogar og steingur[16] beztu
brotnuðu í stykkin þrenn.
Glaðir ríða Norðmenn.
Feingu frægðir[17] mestu
[um fagran[18] landahríng.
Glaðir ríða[19] Norðmenn
á örfa þíng.

7. Þeir[20] feingu sæmd og sóma,
þá sefast gjörði róma,
báru beittan skjóma
og bjartan[21] handar[22] ljóma;
um[23] svoddan seggi fróma
[Sigtýs valnum[24] til eg renn.
Glaðir ríða[25] Norðmenn.
Léttur löguriun góma
lendi máls við bíng.
Glaðir ríða Norðmenn
á örfa þíng.

A = Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum II, hrs. J. Sig. 257, 4, bls. 182—83. B = Kvæðabók frá Sigurði Sverrissen, 8vo, bls. 78—81. Afskr. Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 67. Enn er kvæðið í hrs. Bmfj. Rkv. 214, 8. 7 er., ekki notað.

Séra Snorri Björnsson á Húsafelli hefir ort tvær vísur með viðkvæði þessu: »Dustið Hrugnis hára« í hrs. Bmfj. 125, 8, bls. 224—26. og Bekraraun, »Geltu jóðin garma« í hrs. Bmfj. 125, 8, bls. 293—94. Seinasta línan af viðlaginu í orðab. J. Ól. Grv. átt, sbr. Hammershaimb, Færöiske Kvæder II 1855, bls. 149, Lyngbye, Færöiske Quæder 1822, bls. 552, Hammershaimb, Færösk Anthologi I. 1891, bls. 270, 432.

[1] báru A. [2] lýði A. [3] lífs A. [4] Geyst þér B. [5] liðið Ása B. [6] gjörðu B. [7] mæðast réðu B. [8] huldur B. [9] sl. A. [10] fagurt A; fögur B. [11] laufið A; laufin B. [12] líf til mæðu dæmdu B. [13] blíða B. [14] þoldi A. [15] flestu B. [16] skildir B. [17] frægð því B. [18] með fögrum B. [19] riðu A. [20] sl. B. [21] *bitran B.* [22] hildar A. [23] sl. A. [24] Sigtryggs falnum (!) B. [25] riðu A.

## Eitt kvæði.

Eptir séra Þorlák Þórarinsson.

Úng í dygðum untir mér
auðarláðin bjarta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

1. Vaknar svanur Valgauts iðinn,
vekur saung í ferska mund,
þeygi vanur[1] róms um riðin,
Rögnis faungin, eptir blund,
löndúngs hani, lýr þó biðin,
líneik væn, að skemta þér.
Úng í dygðum untir mér.
Til þess man eg tíma liðinn,
tæpan mig upparta.[2]
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

2. Fann eg sprundið forðum únga
fjallsins hlíðar bygðum nær,
veik um stund af veg yggjúnga,
vissi þýða kveina mær;
megnum undir mæðu þúnga
mátti fljóð ei bjarga sér.
Úng í dygðum untir mér.
Hugul mundi hönd og túnga
hressa vífið bjarta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

3. Þann við okkar fundinn fyrsta
fögur ástin barna tókst,
kærleiks þokka kjör nam gista
kynníng skást, er síðan jókst,
uns eg lokka vann til vista
vífið ljúfa, þar hún er.
Úng í dygðum untir mér.
Hrínga dokkin heiðri lista
hylli nam sér arta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

4. Sinnu skýran svip á kvendi,
sett þótt væri' í barna ráng,[3]
stöðugan, hýran strax eg kendi,
stiltan mærin ól framgáng,
happadýrum hug að vendi
heilög mál að kynna sér.
Úng í dygðum untir mér.
Raktist vírarós að hendi
rygtið æru bjarta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

5. Nú er veiga vaxin þrúði
vizka, náð og aldur gjör,
dafnar fleyg í dygða skrúði
dúka láðin greind og ör.
Sýnast mega sæmdir brúði
sem kvennvali góðu ber.
Úng í dygðum untir mér.
Sé þín eiga svanninn prúði
Sarons liljan bjarta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

6. Náttúrunnar gáfugróða.
gæfuhrós og dygðaskart
hefir sunnu fýris flóða
faðirinn ljósa veitt óspart.
Þornarunni þægðir bjóða
þínar svinnu ráðdeilder.
Úng í dygðum untir mér.
Ærukunnast geð þitt góða
glæðir hylli parta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

[1] stanur A. [2] uppvarta B. [3] = Rang.

7. Holla stundar háttaprýði
hagsöm, þrifin auðargátt,
vís að grundar. virtum hlýði,
við umsvifin, kyrð og hátt.[1]
Hvergi blunda hríngafríði
hreinlífisins kvenndáðer.
Úng í dygðum untir mér.
Metur sprundið mæddum lýði
meðaumkunar parta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

8. Fæst er nistis foldu kærra
fremdarsvinnu trúlyndi,
kippir víst í kynið hærra
kostum þinnar guðrækni;
öllu býðst þér yndið værra
af orði guðs, er[2] títt æfer.
Úng í dygðum untir mér.
Snemma lýsti, lífinu skærra,
ljósið andar bjarta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

9. Rífka snildir vífs án vafa
verkhollustu býtin fín.
Mér náskyldir notið hafa
nákvæmustu dygða þín,
þjónkan milda þeim, án tafa,
þú allsvegar stundaðer.
Úng í dygðum untir mér.
Elsku fyldar öllum krafa
iðjur þínar skarta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

10. Mínum einatt högum hlyntir,
holl, með æru sætan rjóð,
gæzkuhrein og svo mjög sintir
sem eitt værum móðurblóð,
ræðugreinug mig á mintir
marga sæmd og varygðer.
Úng í dygðum untir mér.
Þarfan beina þrávalt intir,
því eg vann um kvarta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

11. Hefir mínar hrínga selja
heillir kærar geðs af rót,
bænir þínar vitnið velja,
vaka þær með ástar hót.
hvergi sínar dáðir dvelja,
drúpa[3] tár af kinnum þér.
Úng í dygðum untir mér.
Fjörs má línu fljóði telja
fjær en hylli parta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

12. Kýs eg drósin kærleiksbýra
Kristí ástar gisti not,
vís. með hrósi, varúð skýra
visti þrást um hyggju lot;
prísinn glósist Vöru víra,
værust eiri kjörin þér.
Úng í dygðum untir mér.
Fýsist rósar fjörið dýra
flest að kostum skarta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

13. Hlíði klæða hrindi grandi
himins ljóma stýrir klár,
síður mæði synda vandi
seima fróma Gerði. Knár,
fríður hæða yndis andi
ali dvöl í brjósti þér.
Úng í dygðum untir mér.
Þýðust gæðin lyndis landi
laði náð hans bjarta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

---

[1] sátt B. [2] sem B. [3] drupu B.

14. Bezta Kristí blóðið rauða
blæði dáð um öndu þín,
mestum þrýsti móði nauða,
mæðu ráðist huggan fín,
fresti byrstu flóði dauða,
forlög dýrleg hæfi þér.
Úng í dygðum untir mér.
Festi' að vistum fljóð í sauða
flokk, án hrukku bjarta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

15. Fyrða hlíf og fundur skjalda,
fagurt klæði, viggs ónáð,
sallinn drífur sunnu tjalda,
sætir mæðum hyggju láð,
heitið blífur fitjar falda,
fest við ljósar bragsmíðer.
Úng í dygðum untir mér.
Sveipi lífið sælu alda
sólu mens hið bjarta.
Unir þér
æskutrygð í hjarta.

A = hrs. Bmfj. 74, 8; bls. 44—48. B = hrs. Bmfj. 544, 8, bls. 1—5 og er bætt þar aptan við vísu þessari:

Hvað eg reyndi, hvað eg sá,
heyrði, þekti bæði,
int er greindri auðarná
ýkjulaust í kvæði.

Nafnið í 15. er. er líklega Sigrún.

## Lítið gleðikvæði.

Kveði nú hver, sem meira má,
menn og seimahrundir,
glatt hjarta því gott veit á um stundir.

1. Gleðina magnar meingi,
mun eg ei þegja leingi,
reynum raddar streingi
rétt fyrir frúr og dreingi.
. . . . . . . . . . . . . .
. . . . Týs við gómalá.
[Kveði] nú hver, sem meira má.
[Alt] að óskum geingi,
[á]ngur og stygð ef liði hjá.
[G]latt hjarta því gott veit á.
Hljóðin hægt samteingi
hver sem kveður undir.
Glatt hjarta því gott veit á um stundir.

2. Hrúngnis orða eyja,
[e]g vil til þín hneigja
Vestra vigg og segja,
vertu siðlát meyja.
Mannorð mun ei deyja,
menn þótt leiðist heimi frá.
Kveði nú hver, sem meira má.
Stjörnu fjarðar Freyja
fróma skemtan láti sjá.
Glatt hjarta því gott veit á.
Heldur en hér að þegja
blaðsól kveði nú undir.
Glatt hjarta því gott veit á um stundir.

3. Prýðir gleðina góða
geðhýr klæða tróða.
Dáða friður fróða
fræði auðarrjóða.

[G]ræðarinn þýður þjóða
[þæ]gðar hegðan á vill sjá.
Kveði nú hver, sem meira má.
. . . . . . . . . . . .
. . . . . . [t]ára Freyju gná.
Glatt hjarta því gott veit á.
[Ef]list iðjan ljóða
[a]ndar reynd um grundir.
Glatt hjarta því gott veit á um stundir.

Hrs. Bmfj. 9, III, 8 (Kvæðabók Jóns Stefánssonar, brunnið).

# Ýmisleg kvæði.

## Eitt kvæði.

Svoddan lit ber silkirein,[1]
sæmdin úngra fljóða,
sem það fegursta fílsins bein,
er fellur á móða,
fellur á eingin móða.

1. Únga meyjan undaflóð
eg vil kæran kalla þig,
stólpinn himins, gýgja glóð,
glansinn ljóss og eggjasvig,
annar himins stólpinn stóð,
stendur þar hjá nauðin ein,
sem það fegursta fílsins bein.
Mæfils stríð og hagalshljóð,
heitir sprundið rjóða.
Fellur á móða,
fellur á eingin móða.

2. Íra dript og ángurskrá,
eg vil nefna þar til nauð,
ristill lista reiði þrá
reynir þar að kaunin snauð.
Dimmrúnirnar dragast á
dýrust snildar málin hrein
sem það fegursta fílsins bein.
Ljóst má það á letri sjá,
líns hvað heitir tróða.
Fellur á móða,
fellur á eingin móða.

3. Valdið halda vill með snild
voldug tjalda silkilín,
kvöldum öld um kalda síld
keldu öldu Sónar vín
vildi foldin falda fyld,
fellur galli' á mærðargrein
sem það fegursta fílabein.
Sjaldan öld ei sjái það gild,
að svinnust hríngs sé tróða.
Fellur á móða,
fellur á eingin móða.

ÁM. 148, 8, 331. bl.

## Eitt kvæði.

Stuttir eru morgnar
í Möðrudal.
Þar eru dagmál
þá dagar.

1. Flaustrið Austra frá vill gá
fróðu[2] óðar landi,
þjakar, blakar þá við rá
þrumu Ímu andi;

[1] lín, hdr. [2] fróða. hdr.

höstug röstin há og blá
hnúði súðir fornar.
Stuttir eru morgnar.
Mæða kvæðin, má það sjá,
m[jög] því sigrar orðaál.
því þar eru dagmál.
Vindólfs hind um háa lá
hröð í löðri vagar,
því þar eru dagmál
þá dagar.

2. Þagnar Agnars alur skal
orða skorða letur,
sinni minnugt salar tal
sónar tóninn hvetur;
hræri' eg skæran Hjalars fal
um hljóða slóðir fornar.
Stuttir eru morgnar.
Orða skorðin alin skal
úng við klúngurs traustan ál,
því þar eru dagmál,
finnst því innst í Fjalars val
frosinn rosinn lagar,
því þar eru dagmál
þá dagar.

3. Mylur, þylur mála stál
manni hrönnum kvæði,
góma róma gala val
geingur leingr úr æði,
Dvalins valin dulin skal
af drykki rykk hún þornar.
Stuttir eru morgnar.
Bresta mest vill Báleygs tál
bundið stundum geðs við ál,
því þar eru dagmál.
Kvæða ræðu Kréláð(!)[1] stal,
kortast fort því baga,[2]
því þar eru dagmál
þá dagar.

ÁM. 149, X, 8, 6. bl. Frá 17. öld, afbakað.

---

Fyrðarnir fróðir
fremja [kv]æða slag.
Þeim unna þjóðir,
sem þylja kann brag.

1. Ymur ómur óms við eim,
aum[ur] þrymur leingi,
glymur hljómur góms við geim,
gaman fremur meingi,
fimur, frómur semur sei[m],
sæmir kvæðum þjóðir.
Fyrðarnir fróðir.
Nauma ymur(!) nam eg hreim,
af næmum kemur rímu slag.[3]
Þeim unna þjóðir,
sem þylja kann brag.

2. Læt eg ýtum leturs bát
lúta', ef snótir vilja;
sætan vitur sitji kát,
sútar þrjóti kylja,
baturs lítinn hljóti grát,
hreyti kæti þ[jóð]ir,
fyrðarnir fróðir.
Ýtum veitir oturs lát
út að býta slag.
Þeim unna þjóðir,
sem þylja kann brag.

3. Skilinn hjala skála yl
skal eg [frómum] þjóðum,
dælu hjal eg deila vil
D[v]alins fel eg móðum;

[1] = Gunnlöð? [2] bagar, hdr. [3] stag, hdr.

vanda m[und]inn vella Bil
vel eg tals um slóðir.
Fyrðarnir fróðir.
Brjálaða, g[ala] þulu' eg þyl,
þvolað sel eg stag.
Þeim unna þjóðir,
sem þylja kann brag.

4. Reistur bestur rastar skauzt
raust úr nausti k[átur].
ljóst úr gusti lézt í naust
lestur Austra bátur,
bezta kosti batzt í traust.
þar brostið sást um slóðir.
Fyrðarnir fróðir.
Flaustur Austrar festi raust
því(?) Frosta misti lag.
Þeim unna þjóðir,
sem þylja kann brag.

AM. 149, XV, 8, 4. bl. Frá 17. öld.

## [Enn eitt kvæðiskorn.[1]

Fagrar heyrði' eg raddirnar
við Niflúngaheim;
eg get ekki sofið fyrir
saungunum þeim.

1. Litars bátur leita má
landi undan græði á,
því á[2] grundu[3] [þorska lá[4]
þeygi vel að[5] eirði.[6]
Fagrar eg heyrði.
[Ölduhrafn um æginn blá
einatt stefnir[7] réttan veg.
Fagrar heyrði eg.[8]
Þessu[9] sögðu fróðir[10] frá,
[sem fremdum[11] voru saddir.
Fagrar [heyrði' eg[12] raddir.
Mörgum þótti hefð sú há,
að hreyta Sónar flóði þar.
Fagrar [heyrði' eg[13] raddirnar.
Búa til gleði og bumbu' [að slá[14]
[bezt það[15] auka mætti klið.
[Fagrar heyrði' eg[16] raddir við.[17]
En[18] ýmsir eru[19] við[20] [eymd og[21] þrá
og[22] allskyns mæðu[23] þúnga.
Við Niflúnga.
Opt[24] sig sýnir glettan[25] grá,
grimman óleik[26] veitir þeim.
Við Niflúngaheim.
Eins [eru þeir og annað[27] strá,
sem á [er kominn[28] hnekkir.[29]
Eg get ekki
mælt að sinni[30] mærðarskrá,
því[31] minnið er orðið dofið.
Eg get ekki sofið.
(Eins [þó fer og[32] úngbörn smá,
sem ekki [geta setið[33] kyr.
Eg get ekki sofið fyr.[34]
Sagt er það að[35] sumra spá
sannast hafi laungum.
Sotið fyrir saungum.
Því[36] eg mínum blundi brá,

---

[1] Kvæði eitt margtekið D. [2] af B. [3] grunni BD. [4] fá AC. Frá [ það má sjá D. [5] eg B. [6] herði D. [7] stefni C. [8] Frá [sl. B. [9] þessir B. [10] fyrðum B, fyrðar C. [11] af fréttum B. [12] heyrðist D. [13] heyrðust D. [14] -slátt D. [15] svo C. Frá [ sem bezt við D. [16] þar fagrar heyrðust D. [17] sl. B. [18] sl. D. [19] lifa B. [20] með C. [21] eymdar D. [22] sl. D. [23] mæðu' og D. [24] Snögt B. [25] grillan B. [26] leikinn B; leik hún CD. [27] misfer og eitt það D. [28] eru komnir BC; er komið D. [29] hnekki D. [30] sönnu B. [31] sl. BCD. [32] eg fer sem D. [33] vilja sitja D. [34] Frá ( sl. BC. [35] í B. [36] Opt B.

[barst það[1] hljóð um víðan heim.
Eg get ekki sofið fyrir
saungunum þeim.

2. Bað mig kátur bendir fleina
bögu fram að senda[2] eina,
þó er ekki því að leyna:
þætti ljóða seyrði.
Fagrar eg heyrði
[þegnar af megni þrátt sig reyna,
þó að listin verði treg.
Fagrar heyrði eg.[3]
Fyrir útþýðíng fróðra greina
fyrðar verði[4] gladdir.[5]
Fagrar[6] heyrði' eg raddir.
Svipar mart fyrir sjónarsteina
sóma búið hér og þar.[7]
Fagrar heyrði' eg raddirnar.
[Óðs uppsprettu ekki[8] neina
að eg fann með hagleiks snið.[9]
Fagrar heyrði' eg raddir við.
Hörpustreingja hljóðið hreina
hressir gamla' og únga.
Við Niflúnga.
Ekki kenna menn þá meina,
meðan[10] heldur[11] gleðinnar reim.[12]
Við Niflúngaheim.
En þegar[13] sárt í eymdum kveina,
ei trúi' eg kæti þekki.
Eg get sofið[14] ekki.
Þeir gjöra þá að vola' og veina
vítt[15] um gumna hofið.
Eg get ekki sofið.
Er þá[16] orðið alt hið[17] seina
[um að hugsa[18] gleðinnar byr.
Eg get ekki sofið fyr.
Rétt skal enda ræðu beina,
raddar tregt er gaungum.
Sofið fyrir saungum.
Eg[19] má ei láta niða[20] neina
nauða[21] bylgju' á[22] súðum tveim.
Eg get ekki sofið fyrir
saungunum þeim.

A = hrs. J. Sig. 257, 8. B = hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. (fyrra erindið). Séra Jón Eyjólfsson eptir Sigríði Árnadóttur á Læk, og segir séra Jón, að hann hafi heyrt, að kvæðið væri þrjú erindi. C = hrs. Bmfj. 734, 8 (Stokkahlaðabók), skrifað af Þorsteini Gíslasyni á Stokkahlöðum, og er kvæðið eignað þar Páli lögmanni Vídalín. D = ÁM. 148, 8. 319—20. bl. (Vigursbók), skrifað af Magnúsi Jónssyni í Vigur 1676—77, svo kvæðið getur tæplega verið eptir Pál fyrir aldurs sakir.

---

Margan villini stig
ríða konúngs menn.
Fram til jómfrúr búðanna
lángar þá enn.

1. Skáldin snildug tal ei tæla,
tvinna sunnu hjala' í vil;
sámuð hljómi Dvalins dæla,
dregur lagar valið spil,

[1] berst þá B; blökt svo D. [2] segja D. [3] sl. A. [4] verða C; urðu D. [5] saddir C. [6] þar fagrar D. [7] hvar C. [8] Ósa sprettur ei svo D. [9] mið C; smið AB. [10] marinn C. [11] halda C; hugsa' um D. [12] eym CD. [13] þá D. [14] sl. CD. [15] víltir C. [16] nú D. [17] um CD. [18] en að hugsa' um D. [19] sl. D. [20] niðja D. [21] sl. C. [22] að C.

bála Nílar Bil að mæla
blendinn þundar úða.'
Fram til jómfrúr búða —
Mána Rínar sólin sæla
svölu Kjalars unnar renn.
— ríða konú[n]gs menn.
Hrindar böndum Báleygs hæla
brennu hrannar kynnir senn.
Fram til jómfrúr búðanna
lángar þá enn.

2. Runnar svinnir elda öldu
áður reiðar vakurt strik
hjörtur snyrti hildar töldu.
handar brendi klaka blik.
söðla nað um veldi völdu.
viku' á fákum súða
fram til jómfrúr búða.
Viðars flóða köldu keldu
kunnu spenna gumnar senn;
ríða konúngs menn.
Sniðuð ljóð um alda öldu
áður gláðir(!) spunnu menn.
Fram til jómfrúr búðanna
lángar þá enn.

3. Bráins móa brík og klaka
brjótar nýtir vala hjóls,
yndis vanda tökin taka,
tæmist rómur kala bóls;
ástar festir vikivaka
víra skærust þrúða.
Fram til jómfrúr búða —
Stíma, hljóma stöku spaka
stjörnu horna runnar senn.
— ríða konúngs menn.
Bifurs sæfar bleikum aka.
báru jóra unnur spenn.
Fram til jómfrúr búðanna
lángar þá enn.

4. Mundar sanda lind í lundi
leikur vakurt hér og þar.
kári byrjar andar yndi.
ýtum kæti lér óspar.
Ástar listug böndin bindi
bríkin snáka flúða.
Fram til jómfrúr búða —
Anar húna önd á sundi,
eyðir skriði spunnin tvenn.
— ríða konúngs menn.
Hæru stý[r]ir vönd í vindi
vörum svara inn úr senn.
Fram til jómfrúr búðanna
lángar þá enn.

Hrs. Sv. Grv. 66 og virðist vera eignað þar Jóni Guðmundssyni lærða; er mjög afbakað.

---

Blaktir segl um báru ljón.
Birnir Hlés þá renna.
vindar þandir voðir og böndin
spenna.

1. Súða önd eg Bifurs bendi,
baug[a] að ströndu þrátt sú vendi,
Gríðar í þöndum gusti rendi,
greiðir skrið um rænu frón.
Blaktir segl um báru ljón.
Silúngs landa lóu hendir
löðurs voðin tvenna.
Vindar þandir voðir og böndin
spenna.

2. Sá eg víða' á svana láði
siglu skíði renna náði.
Kraka bli[ð]u samin sáði,
súða æðir hæna á lón.
Blaktir segl um báru ljón.

Óðinn smíða eg því gáði
auðar hlíði senna(!).
Vindar þandir voðir og böndin
spenna.

3. Svoddan skraut á skeljúngs stræti
skjalda gautum veitir kæti.
hugs úr lautum hrygð burt rætir,
hreyfa ljúfir saungva tón.
Blaktir segl um báru ljón.
Sílda brautum bleikar mætir,
bólin dælu renna.
Vindar þandir voðir og böndin
spenna.

4. Þótti yndi þar við standa
þorna lindi' og reyni branda;
góms af tindi í Gríðar anda
gildan feldu skáldin[1] són.
Blaktir segl um báru ljón.
Bylgju hindir beltið landa
bráðar vaða nenna.
Vindar þandir voðir og böndin
spenna.

5. Víða ljómar glans á geimi,
gefur hana hverjum beimi;
með Þjassa róm og unnar eimi
ýtar bæta ránar spón.
Blaktir segl um báru ljón.
Streingja lómar settir seimi
í saffírs höfnum brenna.
Vindar þandir voðir og böndin
spenna.

6. Rasta hest eg Frosta festi.
fastur sezt hinn listamesti.
dæstur lézt þá hast sig hresti,
hann nam finna rauna tjón.
Blaktir segl um báru ljón.
Læstur sezt hinn listaflesti
af ljóða þý[ð]um penna.
Vindar þandir voðir og böndin
spenna.

Hrs. Sv. Grv. 66. Eptir Jón Guðmundsson lærða. Viðlagið og byrjunin hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island 1888, bls. 486.

## Eitt kvæði.

Eptir Steinunni Finnsdóttur í Höfn.

Hárs eg minni hræddur er
að bjóða,
skylda' eg dýran Dáins mar
dikta þér til skemtanar.
vissa eg þú virtir það til góða.

1. Þulins ála hund eg hrindi
af Hnitborg, metinn leitar út,
beðjar viðjan Blindviðs bindi
betur vitur Litars hnút.
Ýtt er greitt af Andvars strindi
ára dýri sunds á ver.
Hárs eg minni hræddur er.
Erðið Norðra undan vindi,
Austra nestis farminn bar.
Skylda' eg drósin Dáins mar.
Kul ef Fálu kendur fyndi
knúðist súðar Róða.
Vissa eg þú virtir það til góða.

2. Forðum mærðar greiðir gáðu,
glettið veittu Rögnis pel,
tauma skýmu þrúðir þjáðu.
þilju ála Dvalins vel,
tára skúrar trúðir þráðu,
tyrfíng börfa ræmu sker.

[1] skallinn. hdr.

Hárs eg minni hræddur er.
Vikars ok þeir víða háðu,
voða Gríður plátu skar.
Skylda' eg drósin Dáins mar.
Mímúngs stími meður náðu
mestu ástum fljóða.
Vissa eg þú virtir það til góða.

3. Klénust Fenju tæran tára
tíðum biður skemtunar,
Sifjar vefjan hýrust hára
hrostið brestur Dvalins far;
Heimdalls gleymist hjörnum klára
Hvítíngslút að færa þér.
Hárs eg minni hræddur er.
Smeikur baki kúri Kára,
Klóðólfs(!) veiði ræntur var.
Skylda' eg dýran Dáins mar.
Snótin Litars dýra' ei dára
dúfu höfrúngs slóða.
Vissa eg þú virtir það til góða.

4. Mjötviðs snotur ægis eyja
alla snilli fremur töm,
hlaðin dáðum hæversk meyja
hún mun reynast sómafröm.
Í huga flýgur því að þreyja
Þjassa hnossa Eiri mér.
Hárs eg minni hræddur er.
Mæðu riðið fægir Freyja
fögur, þegar gefur svar.
Skylda' eg dýran Dáins mar.
Bilar kulið beygings hneigja
betri snótin rjóða.
Vissa eg þú virtir það til góða.

5. Temsu glansa tróðan fríða
taki spökust óði við,
saminn Naumu sáða hlíða,
sendan kvendi' af ljóða smið;
til hægri vegar það mun þýða
þorna nornin róms af hver.
Hárs eg minni hræddur er.
Sinnu ranna gráðið gríða
grennir svanninn ráðasnar.
Skylda' eg dýran Dáins mar.
Betur snotra bið eg sníða
breytta þráttan ljóða.
Vissa eg þú virtir það til góða.

6. Beltis göltur banda lendi,
betur flotið getur ei,
hjólið ála sandi sendi,
sitji rotið Litars fley,
í reisu flasi klandur kendi,
kjólinn mála örin sker.
Hárs eg minni hræddur er.
Í sátur skútan Vandráðs vendi,
varaknörinn ber ei par.
Skylda' eg dýran Dáins mar.
Stríðið mæðu andar endi
eisu drósin glóða.
Vissa eg þú virtir það til góða.

ÁM. 146 b, 8, 33.—34. bl. Kvæðið er mjög afbakað.

## Annað kvæði.

Eptir Steinunni Finnsdóttur í Höfn.

Fyrðarnir fróðir
frömdu kvæðaslag.
Þeim unna þjóðir,
sem þylja kann brag.

1. Þresti rasta út eg ýti,
örin svara kvíðir við,
glæstir kostum bata býti,
bátinn setji' á reyðarskrið;

flotnar, drotnar, fát þótt lýti,
fylgi' á bylgju slóðir.
Fyrðarnir fróðir.
Dæmin slæmu sútum sýti,
sökkur nökkvinn hlunna,
þeim þjóðir unna.
Hröð af stað á flot sér flýti
fellan höll við lag.
Þeim þjóðir unna,
sem þylja kann brag.

2. Áður fróðir biðu bráða,
brúðar mæðu, frest á ást,
ráðagóðir hríði háða
héldu, sjaldan listin brást.
Einatt seinum æða þráða
iðan niður flóði,
Fyrðarnir fróðir.
Virti skarti gæða gáða
gunna brannar sunna.
Þeim þjóðir unna.
Nutu vitrir lýðs og láða,
lukkan gekk í hag.
Þeim þjóðir unna,
sem þylja kann brag.

3. Aðrir biðu neyðir nauða,
neyddum blæddi sviða með,
hrjáðir liðu háðið snauða;
í hríðarveðri skeði téð.
Þjáðir skriðu þáðu rauða,
þreyttir hættu móði.
Fyrðarnir fróðir.
Böndum reyrðir biðu dauða,
beit þá meitin(!) þunna.
Þeim þjóðir unna.
Á enda stundir kljáðu kauða,
kyrðist sverðajag.
Þeim þjóðir unna,
sem þylja kann brag.

4. Misjafnt glys í metum býtir.
mönnum þanninn lukkan þekk,
sumum gröm í ata(!) nýtir,
yndisstund ei þekkja fékk;
sjónar steina lútin lýtir,
laungum gánga hljóðir
fyrðarnir fróðir;
hörku verkja knútinn knýtir,
keyrir tár í munna.
Þeim þjóðir unna.
Aðra mæðu fljót með flýti
flettir nótt og dag.
Þeim þjóðir unna,
sem þylja kann brag.

5. Haninn kveinar þáttu þreyttur,
að þiggja högg af ægis mey,
dáða fróðum rétti reittur,
ráðum góðum segir nei,
í ljóða smíði lítt er breyttur,
lýtin bæti góðir,
fyrðarnir fróðir.
Hann af grönnum hætti veittur
heyra þeir, sem kunna.
Þeim þjóðir unna.
Af báru stórum þrótti þreyttur
þekkir ekkert lag.
Þeim þjóðir unna,
sem þylja kann brag.

ÁM. 146 b, 8, 34—35. bl.

---

Setjum gullsöðulinn á
gángvarann væna,
vér skulum ríða
í lund þann enn græna.

1. Háfan dansinn hefjum,
hér við ekki tefjum,
mjúkum mærðar stefjum
miðlum þorna vefjum.[1]

[1] veifum, hdr.

Af eikum auðs þess krefjum
ofan þær mega til gleðinnar gá.
Setjum gullsöðulinn á.
Hefi' eg mig hvergi' í skefjum,
hér að gæti menn og sprund.
Vér skulum ríða' í lund, lund.
Gott ei gamanið kefjum.
gleðja skulum vær húsbóndann.
Vér skulum ríða' í lund þann.
Kjáið ei kýmnum nefjum,
komið í leikinn væna.
Vér skulum ríða
í lund þann enn græna.

2. Hóf hæfir dansi,
hver mann í kransi,
svo verði' ei á vansi,
vel sig til fansi,
stigi' ei með stansi,
þó stoðirnar rista kunnið þjá.
Setjum gullsöðulinn á.
Gángvarann greiða
gjörum fram leiða,
sem vill á veg skeiða
með vel búinn reiða.
Þrautin mun ei þreyða
þreyta söðla hund.
Vér skulum ríða' í lund, lund.
Ferð frestum eigi
svo fljótt gánga megi
á vel færum vegi,
þar verði' ekki' á tregi;
fáka taum teygi,
í tempran(?) víða(?) rann.
Vér skulum ríða' í lund þann.
Til hlaups ei sjáum hruma
hesta fullmi(?) . . . . .,
reistir fram fuma,
fóta vex þruma,
lítt kann lýja suma
lipur hitta væna.
Vér skulum ríða
í lund þann enn græna.

3. Auðkenda' af öllum,
öðrum gjörvöllum,
á öldum og fjöllum
ferð vora köllum.
Á handar liðs höllum
hrasa margir greiparsnjá.
Setjum gullsöðulinn á,
Hreyfi hljóðum snjöllum
hver sá einn sem gefst til stund.
Vér skulum ríða' í lund, lund.
Eingum gleðinnar göllum
gegna skulum hér á minn sann.
Vér skulum ríða' í lund þann.
Fákar skeið með sköllum
skundi' um hauðrið væna.
Vér skulum ríða
i lund þann enn græna.

4. Akur ef finnum fríða
þann flest gæði prýða,
vil eg þar við bíða,
veg leingri ei ríða;
hyggi' að þeir sem hlýða,
að hlaðinn mun blóma lundur sá.
Setjum gullsöðulinn á.
Vex þar aldin víða
viðunum á, um fagra grund.
Vér skulum ríða' í lund, lund.
Þá illri nauð ei níða
nokkurn kunna réttvísan,
Vér skulum ríða' í lund þann.
Um það að þeir smíða,
sem orðnótt hafa til kæna.
[Vér skulum ríða
í] lund þann enn græna.

5. Þrjóti ei þagnar streingur
þá sem stíga leingur,
minn því mærðar feingur
mjór til þurðar geingur,
ræmast hljóðareingur,
rómurinn stirður þagna má.
Setjum gullsöðulinn á.

Drós og sérhver dreingur
dást mun ei að Sónar mund.
Vér skulum ríða' í lund.
Stirður þagnar þveingur
þrótt ei máls við grindur kann.
Vér skulum ríða í lund þann.
Fornra fræða steingur
frá mér listum ræna.
[Vér skulum ríða]
í lund þann enn græna.

6. Slagur hrostinn hresti,
hagar lostinn versti,
liðugt frosti festi
Fiðris rosta hesti.
knár enn kosta bezti
senn í vörum hér skal stá.
Setjum gullsöðulinn á.
Kvæða kostur mesti
kann ei renna góms af und.
Vér skulum ríða' í lund.
Hyrjar gjóstur hvesti,
heim því Óma skeiðin rann, —
Vér skulum ríða' í lund þann.
— hvast þá brjóstur lesti
Hvetrúngs(!) bátinn væna.
Vér skulum ríða
í lund þann enn græna.

ÁM. 152 II, 8, 13.—14. bl. Frá 17. öld.

## Kvæði.

Kann eg ei nema erindið eitt,
ekki dyl eg þess meingi.
Hvað skal mér að húsa yfir þessu leingi.

1. Ýti' eg úr nausti Óms á hlé
Yggjar flaustri mínu,
frá eg það ekki full það sé,
fljótt á hlaupi sínu,
að fúin eru' í því flest öll tré,
forna sést með streingi.
Hvað skal mér að húsa yfir þessu leingi.

2. Vin minn, segja vil eg það þér,
viljir þú gá þess nenna,
eitthvað máttu eflaust mér
erind[i] fallegt kenna,
því ekki' er eptir meir hjá mér
mætu af Ímu feingi.
Hvað skal mér að húsa yfir þessu leingi.

3. Vona' eg þú sért vís þar til,
vel sem yður til stæði,
að bæta' um þetta bragarins spil,
því bögulegt er mitt kvæði;
það eg gjarnan þigg og vil,
þetta' ef að eg feingi.
Hvað skal mér að húsa yfir þessu leingi.

4. Einginn lá mun mér það mann
mens né þiljan bleika,
fyrst að eg ekki kvæðin kann
þótt komi' ófús til leika.
Því líkt sem draugur úr dansi rann,
dáraður er af meingi.
Hvað skal mér að húsa yfir þessu leingi.

5. Það er útsagt í þetta sinn,
þar má eg leggja' á eiða,
gildir ei mig til gleðinnar inn
góðu fólki' að leiða.
Lifðu í friði ljúfi minn,
lukkunnar hljóttu geingi.
Hvað skal mér að húsa yfir þessu leingi.

ÁM. 152 II, 8, 16. bl. Frá 17. öld.

## Kvæði.

Stuttir eru morgnar
í Möðrudal.
Þar eru dagmál þ[á] dagar.

1. Brjótur ýta blíðu[r] bað,
bragar lag ef kynni,
njótur(?) nýtur nauða nað
náms úr ljóða inni.
Klóin[1] sló s[vo] kvæðavað
kvarna hyrnu forna.
Stuttir eru morgnar.
Glymur svimun, greiðir svar,
gefur vörum svoddan brjál.
Þegar eru dagmál.
Heilasalinn hróðnum(?) að
hreifan, daufan klagar.
Þegar eru dagmál er dagar.

2. Rustugt naustið ruddu frá
raddar nuddu streingi,
gjóstugan hvesti gustinn há,
gladdi mædda dreingi.
Laungum þvíngar þrautin þrá,
þykir það okið norna.
Stuttir eru morgnar.
Við toppinn uppi teygist rá,
tjalda feldur fíls á ál.
Þegar eru dagmál.
Strokinn, vakur stikar um lá,
með stökuna veiku va[gar].
Þegar eru dagmál er dagar.

3. Þokan fýkur dimm um dal;
drífur yfir leingi,
rokan rýkur rimmu af,
rjóða gleður meingi,
[hvarmar dorma[2] drjóls við hal
. . . .[3] gilið forna.
Stuttir eru morgnar.
Úr djúpi svipað Dv[alins] mál
drekka frukt af þeirri skál.
Þegar eru dagmál.
Sól með ylun sælu sal
svælu kælu lagar.
Þegar eru dagmál er dagar.

4. Ljótur þrýtur leirinn hér
ljóra múrs við eyra,
skjótur þrýtur skórinn þver,
skýrar frúr það heyra,
fljótur flýtur, fer þó ver,
[fær]ist nær þá ornar.
Stuttir eru morgnar.
Bögu d . . .[4] laga bæri mér,
brókar, flekkir svoddan prjá[l].
Þegar eru dagmál.
hrörnar kvarnar hró . . . . . kver,
hljóður, þjáður bagar.
Þegar eru dagmál þá dagar.

AM. 723 a, 4, 23. bl. frá 17. öld. Viðlagið prentað hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island 1888, bls. 190. Kvæðið hefir áður verið í AM. 67, 8, en er nú týnt. Það er mjög afbakað.

---

Hátt flýgur hrafn yfir skóga.
Eg kann ef eg vil,
að slá dans yfir lands múga.

1. Vindólfs sunda[1] af láði ljóða
leikinn fák um vara dyr
læt eg fljóta, flæða slóða

---

[1] Klioen, hdr. [2] úti á spássíu með sömu hendi og kvæðið. Í tekstanum stendur »haarnar darnar«. [3] Hér vantar í hdr. [4] virðist vera ofaukið.

farin spor í hæru byr.
Boðnar iðu greiða gróða
gögnug sagna valin skil.
Eg kann ef eg vil —
Viðris fjaðra veiði góða
vant mun hreint að kúga.
— slá dans yfir lands múga.

2. Kvásis prísar dýran dreyra
dróttin sett, ef hlýðir óð;
hlustar listug, hýru eyra,
hríngaspaung á fræðin góð.[1]
Skírnis horna skár því reyra
skáldin snildar dulinn hyl.
Eg kann ef eg vil —
Litars ýta knör og keyra
kátt með hætti drjúga.
— slá dans yfir lands múga.

3. Fagur lögur runninn rennu
rétt Síðhattar drífi af
spili Kjalars spunninn tvennu
spektar diktur gæfu haf,
gleður prúða svinna sennu
setníng jötna mála Bil.
Eg kann ef eg vil —
Opt réð niptum unnar brennu
ást í brjóst að fljúga,
— slá dans yfir lands múga.

4. Vil eg dælu fákur frekur
Fjalars skjóli uni sín,
borða verður veikur, lekur,
Viðris hveðru raun ei dvín;
heim í tómi hrakinn ekur,
hnigni, þagni talið spil.
Eg kann ef eg vil —
Hnikars spakur haukur tekur
hægt og lágt að fljúga.
— slá dans yfir lands múga.

5. Rasta hestinn fýsti Frosta
fast hugþústur, geystur ljóst,
mastur-lestur misti kosta,
mest að nausta festi dróst.
Glæstra nista ristum rosta
reisti eg must í fálubyl.
Eg kann ef eg vil —
Snýst orðhöstug list af losta,
lízt mál hrist af þrúga.
— slá dans yfir lands múga.

Nokkur Ljóðmæli eptir Hallgrím Pétursson. Rkv. 1885, bls. 60—61.

Kvæði með sama viðkvæðinu er nefnt í hrs. Bmfj. 382, 8, og er sagt þar, að það sé þrjú erindi. Séra Snorri Björnsson á Húsafelli hefir kveðið vísu með viðkvæði þessu og kallað hana Krummadans í hrs. Bmfj. 158, 8; 125, 8, bls. 294. Líka er til eptir hann kvæði (þrjú erindi, ef til vill það, sem drepið er á í 382, 8) með sama viðlagi og byrjar það svona »Ein er funa ránar reyna« hrs. Bmfj. 125, 8, bls. 306—308. Fyrsta línan af viðkvæðinu, orðab. J. Ól. frá Grv. flýg.

---

Mín hafa eingin mektar sprund
minzt í gýgjar vindi;
slæ eg því mjúkan Fjölnis fund
Fofnis dúns um lindi.

1. Dvalins ýti' eg húfa hreini
blunnum raddar fornum af
og Óska fermdum lög ei leyni,
leggur djarft á Sónar haf.

[1] fróð, útg.

Fjalars öldu fákurinn seini
fals í nausti beið um stund.
Slæ eg því mjúkan Fjölnis fund —
Þagnar undan stirðum steini
strýkur í hæru vindi.
— Fofnis dúns um lindi.

2. Margur Svelnis dreifir dóma
diktað hefir mjúkan brag,
sniðug orð af ranni róma
rétt í settum skorðað hag,
Glasis kvista bríkum blóma
búið, svo hýra kæti lund.
Slæ eg því mjúkan Fjölnis fund —
Lista beztu ljóðin hljóma
lángt yfir foldar strindi.
— Fofnis dúns um lindi.

3. Snildar skáldin lýð með ljóðum
laungum styttu dægur þúng,
Yggjar hlaðin farmi fróðum
fleyta Suðra beytilúng.
Lof fær mest af lýðum góðum
list er festi' í hyggjugrund.
Slæ eg því mjúkan Fjölnis fund —
Eins frá hal og tvinnatróðum
trúi' eg sorgum hrindi.
— Fofnis dúns um lindi.

4. Þótt mér varla' í laginu láti,
að líkjast önnur skáldin við,
hrindi' eg stundum Berlíngs báti
Boðnar út á rennu mið.
Samt skal hér með gegndar gáti
gleðja prúða silkihrund.
Slæ eg því mjúkan Fjölnis fund —
Hæfir öllu hóf og máti,
heppinn er sá það myndi.
— Fofnis dúns um lindi.

5. Dýran Suttúngs bjór að blanda
bögulega fellur mér;
veit eg þiljan Sófnis sanda
sannar það, sem verðugt er.
Hýran rénar Ýmu anda,
eyði' eg greiðum Sónar mund.
Slæ eg því mjúkan Fjölnis fund —
Virfis ferjan við má standa,
var hún gjörð í skyndi.
— Fofnis dúns um lindi.

Nokkur Ljóðmæli eptir Hallgrím Pétursson. Rkv. 1885, bls. 61—63.

---

Þiljan dúks dýra
dripthvít og rjóð,
hönd herrans hýra
hepti[1] þér móð.

1. Hleiðólfs karfa' eg hrindi
í[2] hyrjar þarfa vindi,
mærð ef djarfa myndi
[3]menja[4] starfa lindi.
Gyllíngs arfa yndi
eflir[5] mælsku rýra,
þiljan dúks dýra,
að[6] sinn[7] farfa fyndi
fölnað[8] Kvásis blóð.
Hönd herrans hýra
hepti þér móð.

2. Ýmu [andar rísa,[9]
eikin handar ísa;
dýr skal vanda[st] vísa,
vefju banda prísa.
Þjóðir landa lýsa
lofstír þínum skýra,
þiljan dúks dýra.
Sófnis sandaflísa
seljan [landafróð.[10]
Hönd herrans hýra
hepti þér móð.[11]

[1] hún hepti D. [2] úr BCD. [3] um BCD. [4] mynju C. [5] efli B; efldi CD. [6] en A; og CD. [7] sem A. [8] flosnað B. [9] auðar vísa AC; andar ísa D. [10] *mentafróð* B. [11] Er. vantar í C.

3. Silki-þráða þrúði,
þakta[1] dáða skrúði,
bölið bráða flúði;
boðskap náða[2] trúði,
þraut ef þjáða lúði
þýð[3] fékk liðsemd hýra
þiljan dúks dýra.
[Bið [eg[4] ráða[5] brúði,
blessi mildin góð.
Hönd herrans hýra
hepti þér móð.

4. Gríðar vindur að vanda
vill hviklyndur standa;
[ást um[6] girndar[7] granda
geðs[8] er blinduð[9] í anda.[10]
Móins strindin[11] stranda[12]
stökuna virði[13] rýra,
þiljan dúks dýra.
Helsið bindur. banda
Báleygs öldu gjóð.
Hönd herrans hýra
hepti þér móð.

A = hrs. Bmfj. 105,'4, bls. 314—15 (Vatnshyrna). Eignað þar séra Hallgrími Péturssyni. B = Ljóðmæli. Rkv. 1885, bls. 63—64. C = AM. 166 a, 101. bl. D = ÁM. 149 X, 8, 7.—8. bl.

---

Siðug fáðu gleði góð
grundin handarprýði.
Heillir allar hrundin linda bíði.

1. Forna Durnis farið rýra
flýtur út á strauma geim,
laus mun geysa löruð spíra,
lúð af þýðum drauma heim;
iðin dáða Vörin víra,
verð eg stirðan kveða óð.
Siðug fáðu gleði góð.
Rögnis megnuð skúrin skýra
skikkju Hlökku prýði.
Heillir allar hrundin linda bíði.

2. Heiður bíði hrundin spjalda,
hlaðin prýði, sómatöm.
Veiði Óðins skyldi' eg skjalda,
skýr ef væri gómalöm.
Gleði náðu foldin falda;
færi' eg dýrri téðan óð.
Siðug fáðu gleði góð.
Ef að dofinn vildi' ei valda
vísis Ása kvíði.
Heillir allar hrundin linda bíði.

3. Snotur kætir snótin ýta,
snilli alla dýrust ber,
breytinn lætur brjótur ríta
bundinn standa dúra hver;
lét í þrætu lautum flýta
Litars bát um dáða fljóð.
Siðug fáðu gleði góð.
Oturs bóta út réð hnýta
eyðir kvæða smíði.
Heillir allar hrundin linda bíði.

4. Ýti' eg heiti' að Ýmis rjóma
eik og stöku set eg út.
Hljóti vitur frama fróma.
Fjölnis kólnar heita lút.
Sónar eina, sem eg róma,

[1] þakti CD. [2] náðar CD. [3] þeim AB. [4] bliðug CD. [5] hugráða B. [6] og þann C; óðs þeim D. [7] grimdar A; grindur D. [8] sem geðs CD. [9] blindr ED. [10] Frá [afbakað í B. [11] strindir AC; strindur D. [12] standa AC. [13] virða AD.

síldar dældin veiði stóð.
Siðug fáðu gleði góð.
Þrjóta bætur, lem eg lóma,
lendi' óvandað smíði.
Heillir allar hrundin linda bíði.

Nokkur Ljóðmæli eptir Hallgrím Pétursson. Rkv. 1885; bls. 64—65.

---

Öld á kvöldin ann þér
mín úng heiðúrs menþöllin rjóða,
ef þú vildir sofa hjá mér,
framan undir feldinum góða.

1. Ofnis hrafninn út vill leita,
Óma tamur báru jór,
höfn um drafnar hljóta reita,
hvar úr vörum er hann fór;
rifnar um stafninn Ránin feita,
rostúngs brustu tjöldin.
Öldin á kvöldin.
Klofnar jafnan karfa veita,
kjölur mylur laxa höll,
mín úng heiðurs menþöll.
Hafna Vofnis vota þreyta
voðina boðar gildi.
Ef að þú vildir
efna' og stefna, fljótri fleyta
fley um meyfisks grundir.
Og framan undir.
Gefni efnis setra sveita
slóð og ljóða óð vil tróðu bjóða.
Vefnaðs lofn mun nýt ei neita
framan undir feldinum góða.

2. Rastar hestur reikar spakur.
Regins löginn skríður blá,
kastast tekur veikur, vakur.
viðar skaðinn hreysta rá.
Þústur mest að þrýstir slakur,
þar eru Kára völdin.
Öldin á kvöldin.
Þorska raskast ókyr akur,
æðir skeið um reyðar völl,
mín úng heiðurs menþöll.
Festur Austra fákur lakur
foldina snildar myldir,
ef að þú vildir.
Flaustrið Vestra leikur í lakur,
lízt mér skást að stundir.
Og framan undir.
Gustur mestur sízt er slakur
slóðina Óðins móða, fróða bjóða;
klestur brastar Kjalars lækur
framan undir feldinum góða.

Ljóðmæli Hallgríms Péturssonar. Rkv. 1885; bls. 66—67.

---

Pontus þakkar skorðu skjóðs
skrauts[1] fyrir utan vansa,
hrínginn dró á fíngur fljóðs,
fór með henni' að dansa.

1. Íngvars geingur send af sundi
súðin bráða fals úr vör,
bylur svalur að böndum stundi,
blés til rásar ýman snör,
Biflinds anda bandið dundi,
Boðnar yndi . . . . . þrótt.
Pontus þakkar skorðu skjóðs.
Kæti nótum yndið endi,
ei má rómi stansa.
Fór með henni' að dansa.

---

[1] ekki skrúðs.

2. Glöðum hlýðir huga högum,
hrósa fýsir góðum drjúgt,
dregur fagurlegum lögum
lista raust, er öldu[1] mjúkt.
Fundíngs henda plóga plögum,
prýða kvæðin máls af gnótt.
Pontus þakkar skorðu skjóðs.
Tapar djúpum trega slögum
tignan Rögnis fansa.
Fór með henni' að dansa.

3. Þernu kvarna fróða, fríða,
feingi laungum iðju nægð,
glaumi slæmar geðið lýða,
gefur ljúfa sinnishægð.
Kraka svika sáðið blíða
sorgum fargar þýðri drótt.
Pontus þakkar skorðu skjóðs.
Linar raun um láðið víða,
ljósan vísar glansa.
Fór með henni' að dansa.

4. Sturluðum förlast fræða sjóði,
fyldur, kjaldinn(!) maður þreyr,
þrumir, geymir það í hljóði,
þögnin sagnir eyðir meir.
Að öðrum flæðir auðurinn rjóði,
elsku fölskvi dvínar fljótt.
Pontus þakkar skorðu skjóðs.
Ráði siðug auði' og óði
ofnin lofnis kransa.
Fór með henni' að dansa.

5. Akra hnekkir, sumar-sómi
svalar kvölum leiðar byr,
risið vosið rýmir skjómi,
reiðin bráð og speutur ýr,
þegn í rigníng framafrómi
fáki leikur mæddum ótt.
Pontus þakkar skorðu skjóðs.
Á stuttu, hreytta tímatómi
tjáðan óð, án vansa.
Fór með henni' að dansa.

Hrs. Bmfj. 105. 4, bls. 320—21 (Vatnshyrna). Eignað þar séra Hallgrími Péturssyni. Afskript Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66. Málrúnirnar í seinasta erindinu þýða Hallgrímur. Viðkvæðið í Kvæðum Stefáns Ólafssonar I, 1885, bls. 319, Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island 1888, bls. 118. Það virðist vera úr Pontusrímum, en er þó ekki í Pontusrímum eptir Magnús prúða.

---

Fagrar heyrði' eg raddirnar
fljóðanna hér klíngja.
Listug skemtan leiddi mig híngað.

1. Kveðið glaðir hofmenn hafa
hollum gullblaðs þöllum með,
síðan áðan stefin stafa
stíluð vel og blíðu léð.
Viður ljóða lofaðan safa
lítt ei kætast staddir.
Fagrar heyrði' eg raddir.
Mér nú byrjar klifs af klafa
kvæði smíða væri' ei spar.
Fagrar heyrði' eg raddirnar —
En þér sannið ef eg drafa
ærið ríman hljóða.
— raddirnar fljóða.
Ræmist góma rjáfur skrafa,
rödd frá sneyðist fagurlig.
Listug skemtan leiddi mig.
Eingum leingi til skal tafa
trefjast hendíng rínga.
Listug skemtan leiddi mig híngað.

[1] öldin, hdr.

2. Háll með öllu í heimi' er glaumur,
hlátri mætir bitra sút,
runsar eins og streymi straumur,
stálið kæti flýtur út,
svo sem rásar svimi, draumur;
í sorg eru margir staddir.
Fagrar heyrði' eg raddir.
Óðum flaðrar fimur taumur
frakkrar lukku hér og hvar.
Fagrar heyrði' eg raddirnar —
En vér sinnum. sá mun aumur,
er sást þeim treysta góða.
— raddirnar fljóða.
Tæpur svipur, tími naumur
töf er lífs og vegarstig.
Listug skemtan leiddi mig.
Ótta drottins geymi gaumur,
í geingi meingi', ei þvíngað.
Listug skemtan leiddi mig híngað.

3. Snilðugt æði snótir kæti.
snerti kurteis heiðurslýð,
oss í sessi ítrum fæti
á mun sóma leiða tíð.
Lífs ei refsíng mátann mæti
margt vel hér til kvaddir.
Fagrar heyrði' eg raddir.
Friður dáða, lítillæti
listugum Kristí þénara bar.
Fagrar heyrði' eg raddirnar —
Þoli vel í þrautum ætíð,
þéni bænir góðar.
— raddirnar fljóða.
Jesú kýs eg batnan bæti
bresti stærsta fagurlig.
Listug skemtan leiddi mig.
Vor við æru glötun gæti
hans gæzka' og miskunn slínga.
Listug skemtan leiddi mig híngað.

Hrs. Bmfj. 105, 4, bls. 319—20 (Vatnshyrna). Eignað þar séra Hallgrími Péturssyni.

## Eitt kvæði fallegt.

Nær mun eg þann mann
hér á landi fá,
sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá?

1. Heiðurs dáða þjóðin þýð
þreyi nú og hlýði,
Kvásis ljósast blóðið býð,
bragna hyggnin prýði.
Skemtan heimtir skrúða hlíð,
skyldu held eg það með sann.
Nær mun eg þann mann —
Ljótt er þetta ljóða smíð,
lasið, svo sem dreymi.
— þann mann í heimi —
Klám er aumast kvæða smíð,
kennist þanninn horskum hjá.
— mann í heimi fá —
Virðar skorða fræðin fríð
og fúsir lesa' um nætur.
— mann sem mér lætur —
Byrgir dverga boðinn stríð,
brunn ei finn eg auðan.
— sem mér lætur rauðan —
Mærðar stirð því móðu hríð
minn að rennur hug um kríng
— sem mér lætur rauðan hríng —
Guð til náðar leiði lýð
af lasta verstu krulli.
— rauðan hríng af gulli —
Hrannar sunnu hlíðin blíð
hljóti mæta gleðitíð
og friðinn há.
— sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá?

2. Sónar tóna samið kver
sætan mæta eigi.
Drósin ljósa dygðir ber,
dáðum tjáð, eg segi.
Ann eg svanni einum þér,
sem yndis myndar gleði rann.
Nær mun eg þann mann —
Kvinnu svinna kýs eg mér,
kvíða tíð svo gleymi.
— þann mann í heimi —
Brúðurin prúða' ef blíðu lér
bætir ætíð hverja þrá,
— mann í heimi fá —
gleðinni minni gráti ver,
græðast mæðu þrætur.
— mann sem mér lætur —
Tróðan rjóða trúuð hér
sé traust og hraust við dauðann.
— sem mér lætur rauðan —
Visti Kristur víf með sér,
þá vildis heldur yzta þíng.
— sem mér lætur rauðan hríng —
Sýngur og klíngir sálna her
þá sóminn rómast fulli, —
— rauðan hríng af gulli —
— þegar vegur úti er
amasamur, heims um ver
þeim löndum hjá.
— sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá?

3. Gaman framið lýða leið,
lumir sumar á gróða.
sárin dárum svíða breið
særð og hrærð til góða.
Þrælar væla þjáðir neyð,
þeir enn meiri gæði fann.
Nær mun eg þann mann —
Dúfan ljúfa gleði greið,
glæst af hæstum seimi.
— þann mann í heimi —
Sunda grundu súðin skreið,
snakar flaki byrinn þá.
— mann í heimi fá —
Hestar beztir hýða skeið,
hrösla dröslar vætur.
— mann sem mér lætur —
Sorgar dorgar slóðum eyð,
um salinn vala trauðan.
— sem mér lætur rauðan —
Bátur kátur boðum kveið,
ef brestur festa ráin slíng.
— sem mér lætur rauðan hríng —
Ljósi hrósar láða heið,
ljóminn sómafulli.
— rauðan hríng af gulli —
Æsa ræsir óðum reið,
eptir hrepti bráðan deyð
sitt villu stjá.
— sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá?

4. Eyin segir Móins mjalla,
mest og bezt í huga trú,
mætan, sætan mærðarsalla
minnst þér vinnst að auka nú.
Orða borðin hyggju hjalla
heita' og breyta ekki kann.
Nær mun eg þann mann —
Óðar ljóðin óma palla,
ýtar nýtir gleymi.
— þann mann í heimi —
Þorna nornin þreyir valla
Þundar fund að hlýða á.
— mann í heimi fá —
Fræða gæðin klén eg kalla,
kjarninn varnast sætur.
— mann sem mér lætur —
Hrjáðan, smáðan hér læt falla
Hnikars bikar snauðan.
— sem mér lætur rauðan —
Mála brjáli má nú halla,
mist er listin kvæða slíng.
— sem mér lætur rauðan hríng —

Leiðinn eyðir lasta galla
lausnarinn rausnarfulli.
— rauðan hríng af gulli —
Blessi og hressi bragna snjalla
blíður, síðan geymi' oss alla
himnum á.
— sem mér lætur rauðan hríng
af gullinu slá?

ÁM. 441, 12, bls. 99—100. Frá seinna hluta 17. aldar.

## Vikivakakvæði.

([Lýðir áður[1] lista nægð
[létu' og[2] vingan fala.[3]
Þá var metin ment og frægð
:|: meir en álna tala. :|:

1. Andvars hind af óðarláði
öldu gildi Fjalars ver,
sveimar aum í Gríðar gráði,
Gauta þrýtur krúsar hver.
Eik ef síkja glóða gáði,
gjörist hyrjar vindi þægð.
Þá var metin ment og frægð —
Lítt þótt breytt sé ljóð af ráði,
lind skal Þundar ala.
:|: — meir en álna tala. :|:

2. Forðum sverða lundar lyndi
listugt ástar brúði með
hæru skýrum vöndu' í vindi,
valla féll það illa' í geð;
kærleiks hýr frá eg böndin bindi,
blíðan tjáðist síður lægð.
Þá var metin ment og frægð —
Réðu lýðir andar yndi
Ýmu geima kala.
:|: — meir en álna tala. :|:

3. Fagurlega fyrðar gjörðu
frækleik mjúkan stunda á,
við sómatama sverða njörðu
sér ákeru vinskap fá,
með hreysti trausta virða vörðu,
í vakurs fjúki sýndu frægð.
Þá var metin ment og frægð —
Benja sýna forðast fjörðu
frá eg ei um tala.
:|: — meir en álna tala. :|:

4. Beztu listir brjótar hneita
og bríkur dúka prýði með
í hyggju glöggva ræta reita
réðu tíðum; nöðru beð
sintu grant, en haturs heita
hyllin öll var frá þeim bægð.
Þá var metin ment og frægð —
Hnikars gauka vætu veita
víst um gáfu fala.
:|: — meir en álna tala. :|:

5. Litars sæti löndúngs fundi
af láði óðar hreytti fram,
en alllítt Gillíngs synda' á sundi
súða æður Fjalars nam,
um Óma brim í skyndi skundi,
skrið af sníða henni er þægð.
Þá var metin ment og frægð —
Í ástar föstum lendi lundi
liðin af ræðu bala.
:|: — meir en álna tala. :|:

A = hrs. J. Sig. 398, 4, og er sagt þar, að kvæðið sé eptir Sigurð Gíslason (Dalaskáld?). Viðlagið í hrs. Sv. Grv. 66 = B. Það er annars 5. erindi í 1. rímu af Víglundi væna eptir Ásgrím Magnússon í Höfða (d. 1679) = C.

[1] Ljúfir báru C. [2] og létu C. [3] Frá ( vantar i A.

## Kvæði.

Eptir Jakob Jónsson.

Meyjarnar báðu mig til leiks
eg geingi,
en eg sagði það sem var,
eg kynni ekki að kveða par.
Þó dansaði eg með þeim leingi.

1. Gjálfurs álfu fákur fer
Frosta lostinn, knúður,
hæru blærinn líf þeim lér,
ljósa ósa þrúður.
Elína, dvelja ei má hér
um andar landa gráðu.
Meyjarnar báðu —
Kvásisæða varmur ver,
vel sé þeim, sem gjörði þig.
— meyjarnar báðu mig —
Svarts af fróni brátt sig ber
Berlíngs ríða stagað fyl.
— meyjarnar báðu mig til —
Svoldurs banda sólar grér
sést við iðju mærðar kveiks.
— meyjarnar báðu mig til leiks —
Hann kann varla hraða sér.
Hárs með dýra feingi.
— mig til leiks eg geingi —
Sú er ein í minni mér,
eg mjúka ást við lagði.
— en eg sagði —
Hyrjarvinds um hýrnað sker
hefi' eg þessu feingið stað.
— en eg sagði það —
Eg mun greina þetta þér,
þegar við þig ræðu frem.
— en eg sagði það, sem —
Huga vekjast harmarner,
hugsast varla á ljóðum svar.
— en eg sagði það, sem var —
Ef fyrnast skulu fundirner,
fæ eg hrygðar smekki.
— eg kynni ekki —
Meðan varir minni' og fér
og mæta fæ eg séða —
— eg kynni' ekki að kveða —
— við þér taki helgar hér,
hadda prýði seljurnar.
— eg kynni' ekki' að kveða par —
Stundum þótt eg stauti' á kver,
stirð er raustin máls um veg.
— þó dansaði eg —
Fylgdar(?) opt mig flytur kner,
eg fæ þá heldur blíða séð.
— þó dansaði' eg með. —
Máli hugur minn fylger,
mest þér unni' um víðan geim.
— þó dansaði' eg með þeim —
Bróðir dauðans brúnagler
byrgir óðs við streingi.
— þó dansaði eg með þeim leingi.

2. Rennur ferja Rögnis hrjáð
róms á millum hlíða,
út á Sónar glýju gráð,
í glettu vindi stríða.
Varla' er þessi í bragði bráð,
betur flestir kváðu.
Meyjarnar báðu —
Gátu þeirri' eg gat ei náð
að greiða [veg] um raddarstig.
— meyjarnar báðu mig —
Ljúfan góða, legðu ráð,
lítinn vilja' eg sýna vil.
— meyjar báðu mig til —
Mín er lundin mædd og þjáð,
mikið stirð til kvæða reiks.
— meyjarnar báðu mig til leiks —
Þó hefi' eg opt að þessu gáð,
og þar um hugsað leingi, —
— mig til leiks eg geingi —
— hraður skemta hríngaláð,
hýr er sú í bragði.

— en eg sagði —
Ef eg gæti óðinn kljáð,
eptir því sem vífið bað —
— en eg sagði það —
— launa mundi Lofnin þráð,
lífs ef þángað greitt eg kem.
— en eg sagði það, sem —
Huganum optast eg hefi áð,
en ekki víðar hér og hvar.
— en eg sagði það, sem var —
Meyjarinnar signað sáð
sætan, yður þekki.
— eg kynni ekki —
Með fáum orðum fult skal tjáð
fyrst um háttu téða.
— eg kynni' ekki' að kveða —
Aukist þér hin dýra dáð
dygðaríkust geðs um far.
— eg kynni' ekki' að kveða par —
Eigðu Sónar þennan þráð,
þó að lítt sé spunninn még.
— þó dansaði' eg —
Sæti' eg ei um seggja háð,
svoddan einn mér hefir léð.
— þó dansaði' eg með. —
Fjöður góma mín er máð
og mædd að fljúga' um raddargeim.
— þó dansaði eg með þeim —
Eptir kvæðum opt er krjáð
af Íslands kæru meingi.
— þó dansaði eg með þeim leingi.

3. Heiti lýðir fundið fá
Fofnis selju landa.
Veldi hrínga vænu á
vogs réð salur standa;
nú er fallinn niður sá,
nokkrir þessa gáðu.
Meyjarnar báðu —
Víga guð nú varð að ná
var sú reynslan höstuglig.
— meyjarnar báðu mig —
Svölun hæðum fékk ei frá
fyrsta móðir vor með skil.
— meyjarnar báðu mig til —
Þess og líka minnast má,
milli stóð einn trés og fleygs.
— meyjarnar báðu mig til leiks —
Úng svo nefnist auðar gná,
öldin slíkt ei reingi.
— mig til leiks eg geingi —
Í ljóðum skal mitt líka tjá,
leingi fyrst þótt þagði.
— en eg sagði —
Ángist hrafna yfir lá,
áls var skrið á fögrum Glað. —
— en eg sagði það —
— mátann skatna menn ei sjá,
mynd önnúnga þángað lem —
— en eg sagði það, sem —
— björgin Þórs með blómgan há.
Bundið finnst svo nafnið þar.
— en eg sagði það, sem var —
Að þessu máttu, hin góða, gá,
greitt um þagnar stekki.
— eg kynni ekki —
Gæfu hreptu glöð á brá,
greitt um daga léða.
— eg kynni' ekki' að kveða —
Um tíma þótt hér tefjir þrjá,
þig tignar geymi hendurnar.
— eg kynni' ekki' að kveða par —
Þeim æzta vertu' um eilífð hjá
eikin tvinna dægileg.
— þó dansaði' eg —
Yður kveðja eg mun þá,
ángrast þó að megi geð.
— þó dansaði' eg með —
Þigðu kvæða þessa skrá,
þér eg valla í huga gleym(!).
— þó dansaði eg með þeim —
Mæddur er eg máls um krá,
mærð því niður fleingi.
— þó dansaði eg með þeim leingi.

Hrs. Bmfj. 439, 8.

## Eitt fallegt kvæði.

Eptir Bjarna Hákonarson.

Gef eg mitt ekki kærleiks ker
kaups fyrir neinum plógi,
ellegar hindir hendi mér
fyrir hundrað dýr á skógi.

1. Kuggur Yggjar vaggar vígur,
vitra hlýt eg gleðja þjóð,
á dylgju ólgu drjúgum stígur,
Durnis horna býð eg flóð.
Hnikars haukur frægur flýgur,
fjöðrin kvæða berist þver.
Gef eg mitt ekki kærleiks ker —
Litars bátur lagar smýgur
laut, und þrautar plógi.
— fyrir hundrað dýr á skógi.

2. Digtuðu frekt af drjúgum sögur
dreingir laungum, kvæðin fróð;
hátta breyttum haga lögum
haldin skyldi fræðin góð.
Lítið sæta bágum bögum
brjótar vitrir greina hér.
Gef eg ekki mitt kærleiks ker —
Tíðum eyða táraslögum,
týna raunaplógi.
— fyrir hundrað dýr á skógi.

3. Frúnum hreinum fríðir á láði
feingu laungum valið hól,
mest hver listum miðla gáði
mjaldurs falda bóka sól,
mörg því sorgin mæða tjáði,
mætrar vitur laga ber.
Gef eg mitt ekki kærleiks ker —
Stygðar sagðrar stríð af máði,
steypti' ei heiptar plógi.
— fyrir hundrað dýr á skógi.

4. Kólgu ylgur Kjalars mulin
kvæða gisti fast í naust,
dreingja hængur dvalinn, dulinn,
dreginn í hrófið festar traust.
Stakan lokin, hjöluð, hulin.
hornatjörnin[1] Berlíngs þver.
Gef eg mitt ekki kærleiks ker —
Enduð standi þvoluð, þulin
þögn, en sögnum lógi.
— fyrir hundrað dýr á skógi.

5. Ferðin örðug, sumar-sómi,
síldar foldar blæjan mjó,
drjúgum skógar limið ljómi,
lýða neyðin þeygi sljó,
stúnginn laungum strauma drómi,
stofnað nafnið heyrir hér.
Gef eg mitt ekki kærleiks ker —
Hætti stuttum, tíma tómi
tærðum, orða plógi.
— fyrir hundrað dýr á skógi.

»Akbsof Gbinobs rno hefir þetta kveðið«. Hrs. Bmfj. 105, 4, s. 664—65 (Vatnshyrna).

## Eitt kvæði.

Eptir Jón Jónsson í Vattarnesi.

Vítt flýgur valrinn yfir skóga.
Eg kann ef eg vil,
að slá dans yfir lands múga.

1. Ýti' eg óðs af sundi
Austrar dælu hundi,
þar öldin greitt að grundi,

[1] harmat, hdr.

gömlum Lóðins fundi,
hreyti' eg hróðrar mundi,
hljóða stirði salurinn.
Vítt flýgur valurinn.
Ljóða náms hjá lundi
lítið rann þar Sónar spil.
Eg kann ef eg vil —
þar skeiðin hratt að skundi
á ská við fjörðinn drjúga.
— slá dans yfir lands múga.

2. Þeim vil eg bragsmíð bjóða,
sem breytni stunda góða,
hæða' ei fyrða fróða,
sem fögur kvæðin ljóða.
Gefi þér lukku góða
guð, sem óskar halurinn, —
Vítt flýgur valurinn.
— maður og menja tróða,
sem mærðar þáttinn kann og skil.
Eg kann ef eg vil —
Mærðar gyðjan móða
má hún Hvítbjörg súga.
— slá dans yfir lands múga.

3. Mörgum lént er lýðum
með listum harla fríðum,
að gamna bröguum blíðum
og björtum silkihlíðum,
mýkja' að mærðarsmíðum.
Mælsku stirður salurinn.
Vítt flýgur valurinn.
Of seint opt og tíðum
ýtum færði' eg sónarspil, —
Eg kann ef eg vil —
— í gleðinnar gusti fríðum,
þar gyllinisbaukar fljúga.
— slá dans yfir lands múga.

4. Dreggin ástar dvíni,
Durnis hækjum týni,
Fjölnis bjórinn fíni
er falinn í ljóða skríni.
Þurð á Viðriks víni,
vísna stirði salurinn.
Vítt flýgur valurinn.
Austrar bát eg brýni,
brast á hleina sundi myl.
Eg kann ef eg vil —
Mér lízt ei leingur hríni
ljóða heimskan drjúga.
— slá dans yfir lands múga.

Austanbók Jóns Þorkelssonar, skrifuð 1823.

## Ástakvæði.

1. Bóndi á sér dóttur þá
eina og svo mæta,
væn að sjá
veiga ná;
hennar líkann vildi' eg fá.
sú kann harm að bæta.

2. Vilda eg fá þá vella brík
væna og svo ríka,
svo er hún klár
á hörund og hár,
fyrða fár
fljóðið stár.
eg fæ hennar eingan líka.

3. Vilda eg kappann kjósa til
kæru nafn að binda,
svo er hún skýr
svella dýr,
seima skorðin svinn og hýr,
að sútum mætta' eg hrinda.

4. Þó að eg fari' um Ísland alt
eyðisveitir að kanna.
út í heim,
austur um geim
fæðist eingin fegri nein
leynt hjá ljúfum svanna.

5. Hér skal falla fræðaspil
frómust um þig kæra.
kann hún opt
kvæðalopt;
einatt vill hún læra gott.
óðinn læra,
þennan óðinn læra.

Hrs. Stockh. 22, 8, 58. bl. (skinnbók frá seinna hluta 16. aldar). Eptir afskript dr. Finns Jónssonar.

---

1. Hefi' eg ei hróðrar efni
höldum færa nein,
af mætu mærðar stefni
miðla kvæða grein.
Sú er þeim listin lögð
að læra afmors brögð,
sem sefr hjá sei[ma Gefni].

2. Gleður það garpa fróða,
ef grundir eru þeim hjá;
lánið og lukku góða
lýðir af hrundum fá;
þeim hefir lukkan lént,
að læra heiður og ment,
sem sefr hjá [seima Gefni].

3. Þegar að kvendin kunna
kærleiks blíðu hót,
vilja þá vífin unna
vænum hjörfa njót;
honum mun hamíngjan að
hallast fyrst í stað,
sem sefr hjá seima [Gefni].

4. Margir vilja meina,
að mikið er ástar band
fyrir þá frúna hreina
fest í hyggjuland.
Þeim er lysta léð,
lánið og gæfan með,
sem sefr hjá seima lindi.

5. Sá mun ei sorgar kenna
og sinnu létta móð,
er úng vill örmum spenna
og auðar skorðin rjóð.
Hann mun fremdir fá
og frama öllum ná,
sem sefr hjá [seima lindi].

6. Mig hefir beðið hin blíða,
að birta hróðrar skrá,
falda grundin fríða,
fögur, væn að sjá.
Þeim mínkar mein og sorg
af melt(!) um hyggju borg,
sem sefr hjá [seima lindi].

7. Svo skal ljóðum lenda,
að lofi nú allir Krist.
Mun eg svo máli venda
um mæta silkirist.
Honum mun heillin vís
heiður og allskyns prís,
sem sefr hjá seima lindi.

8. Sefur hjá seima lindi
seggur á dökkri nátt,
veitir vænlegt yndi
og verður báðum kátt,
sefr hjá seima lindi,
sefr hjá seima lindi.

Hrs. Stockh. 22, 8, 90. bl. (skinnbók frá seinna hluta 16. aldar). Eptir afskript dr. Finns Jónssonar.

---

1. Ýmu gusturinn greiði
geysa tekur um stund,
lángt frá ljóða leiði
lesið í hyggjulund
um svinna seimalín,
eg segi það er til mín,
að sofa hjá [seima lindi].

2. Aðrir ýtar kunna
auðarskorð að fá,
þegar þeir þetta nunna,
þeim eru sprundin hjá,
þeir gefa til góss og féð,
grund á mjúkum beð,
s[em sofa hjá seima lindi].

3. En þó gjöri' eg að þreyja
únga gullhlaðs ey,
mér vill sjálfum segja
sætan þverlegt nei.
Þeir mýkja mansaungs ment,
mér er það ekki kent,
[sem sofa hjá seima lindi].

4. Aðrir brosandi blíðu
bjóða gullhlaðs skorð,
mjúkir í máli þýðu
makta sónar[1] storð.
Þeir fá til fagurlegt ráð,
af fljóðum gleði og náð,
sem sofa hjá [seima lindi].

5. Ef vífin við mér stugga,
verður sinnan bleik,
sett af sónar skugga,
svo er eg einn á reik
frá vænni vella Bil,
eg veit þar ekki til.
— [sem sofa hjá seima lindi].

6. Ýtar auðþöll kjósa
opt að vilja sín,
sú mun dyggust drósa,
dýrust silkilín.
Heiður og heimsins lyst
þeir hljóta af bauga rist,
[sem sofa hjá seima lindi].

7. Mig má þetta minna,
er mengrund eingri ann,
seint mun sútum linna,
sezt um hyggju rann,
þótt kvinn[an] sé þeim kær,
kem eg því hvergi nær,
[sem sofa hjá seima lindi].

8. Grundin geymi láða,
glósa þanninn spil,
lýðir lindi þráða
lokka fljóðin til.
Bragnar blíðu hót
bjóða úngri snót,
[sem sofa hjá seima lindi].

9. Þarf eg ei leingur að þylja
þeim er hlýðir á,
mega það skatnar skilja
skýrt í hyggju lá;
munar það miklum sann
hver menja grundu ann,
[sem sefr hjá seima lindi].

Hrs. Stockh. 22, 8, 90. bl. (Skinnbók frá seinna hluta 16. aldar). Eptir afskript dr. Finns Jónssonar.

---

[1] klest og óljóst í skinnhdr.

1. Kjalarinss ætla'eg krúsarvirt
kveikja' um silkihrundir,
mér er heldr um málið stirt,
meinin brugga undir.
Yndið mun þeim æ forgá,
sem örlög leggja þúngt uppá
og líður svo lángar stundir,
hittir einga harmabót,
ef honum vill gánga alt á mót,
einatt farast fundir.
Mér byggir dyggust baugalind
í brjósti mér
svo mjúkt á margar lundir.

2. Er eg því optast ekki kátr,
örlög gleðina banna,
mér byggir fast í blíðu látr
baugs en fagra Nanna,
heldur kjör-eg harðan deyð
en hitta í þá kraunku neyð
fyrir þann fríðan svanna.
Þó að eg missi menja hlíð
eg man þig bæði á[r] og síð,
grundin greipar fanna.
Mér byggir dyggust bauga lindin
í brjósti mér,
sú af bar allra manna.

3. Fótr er smár, en fannhvít hönd
á fríðri hríngagefni,
og svo vel til yndis stár,
mér eykur sútar efni;
lifi — eg ei svo lánga stund
mér líði úr m[inni silkihrund]
. . . . . . . . . . . . .
. . . . . . . . . . . . . mitt
veraldarhjól er var[la] . . . . .
hvert eg huganum stefni.
Byggir dygg[ust ba]ugalind
í brjósti mér,
bjarta brúði' eg ne[fni].

4. Björg er fyrst á benjaláð,
brag skal láta standa
heitir sú, sem hróðrinn á
hildi Fofnis landa,
þýð í lund og þussa bæn,
þetta nefnist brúðrin væn,
sem ýtum eykur vanda.
Lifi nú allvel laukahlíð
og lukkan komi til árla' og síð
hverja stund til handa.
Mér byggir dyggust baugalind
í brjósti mér,
frugt af Afmors anda.

ÁM. 714 A. 4. 15. bl. Skinnhdr. frá hérum bil 1600.

---

1. Berlíngs hefir það bannað hér,
sem bragrinn tér,
að byrja óð með sprundum
hinum sem öðrum hamíngjan lér,
og hyggur sér
og hverfur að óskastundum;
mjótt mun verða sund til þess,
að sigla á millum báru' og skers;
hyggi að því hver að less
hvað örlögin banna,
hvað heimsins örlög banna.

2. Þeim mun seggnum sjaldan kátt
við seima gátt,
sem saman vill yndið leggja,
hér á milli hittast þrátt
á hverri nátt
hugirnir þeirra beggja.
Sárt mun gleðinni' í sundur skipt
ef seggrinn skilr og faldanipt.
Heldur tel eg það harða skript
hvað örlögin banna,
hvað heimsins örlög banna.

3. Eg hefi mist þá menja brú,
sem mér var trú
[mæt]um fyrir þegnum.
Glósa. vitr og skýr, eg sk[al]
[ska]rlats . . . . .
. . . . . á . . . . kjósa
átti' eg margan elsk[ufund]
. . . . . . astan auðarlund.
Heldur tel eg það harða stund
hvað örlögin banna,
hvað heimsins örlög banna.

4. Hér(?) hefir báran brostið sundr
í blíðu vind,
og ber eg því þúnga mæði;
harða hlaut eg hrygðar grind
fyrir hrínga lind,
hana trúi' eg einginn græði.
Það hefir hent svo margan mann.
mundángshófið blekkja kann.
Einginn heimskur hyggja kann
hvað örlögin banna,
hvað heimsins örlög banna.

5. Hér hefi' eg bundið bragarins smíð
á bernsku tíð
og brúðar nafn fyrir meingi.
Lindin er sig ljúf og blíð,
fögur og fríð,
finnst hér vænni eingi.
Viðriks drykkr og varga ból
vendir mér af sorgar stól.
Nú er á enda hilmis hjól,
hvað örlögin banna,
hvað heimsins örlög banna.

ÁM. 714 A, 4, 15.—16. bl. Skinnhdr. frá hérum bil 1600.

## Eitt kvæði.

1. Hér verður eitthvert æfintýr
að rísa.
Únga vildi' eg auðargefni prísa;
hún er svo fögr og frygðarlig
fínlega uppá sjálfa sig
sem sýnist mér(!)
Víf er ekki vænna' á mínum dómi
en Vestfirðíngablómi.

2. Gullskorð hefir mér geingið nærri
lyndi,
garprinn þetta einginn á mér fyndi;
sú er mér helzt í hjarta kær
hrínga skorðin firr og nær,
sá er mér sær.
Vildi eg tala við [þig mega í tómi
minn Vestfirðíngablómi].

3. [Skj]al[da Freyr] við skíkkjulindi
fína
ski[lja] varð um lánga æfi sína;
þau eru d[æmi] í dag hjá mér
dreifast tekr nú Viðr[is] hver,[1]
sem bragrinn tér.
Virðum bið eg vaxi heiðr og sómi,
minn Vestfirðíngablómi.

ÁM. 714 A, 4. 16. bl. Skinnhdr. frá hérum bil 1600. Prentað hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island. 1888. bls. 191—92.

---

Hátt flýgur hrafninn[2] yfir
skóga.
Eg kann ef eg vil
slá dans yfir lands múga.

1. Austrar[3] ferju fram skal
hrinda,
[fæ eg[4] segl við rá að binda,
út á sundið[5] Sónar vinda[6]

---

[1] *hér*, hdr. [2] hrafn, B. [3] Litars B. [4] þótt fari ei B. [5] sundin B. [6] funda B

sízt tilreiddan bátinn minn.
Hátt flýgur hrafninn.
Mærðarléttur má vel synda
Móins fríðrar[1] Gefnar[2] til —
Eg kann ef eg vil —
— í hennar brjósti heitt að[3] kynda
hýrleiks eldinn drjúga.
— slá dans yfir lands múga.

2. Hennar lízt mér farfinn fríður,
fagur og vænn á allar[4] síður;
hvarma grjótið hýru býður,
[hönd er fögur, en rjóð er[5] kinn.
Hátt flýgur hrafninn.
Andlit [blítt og[6] þokkinn þýður,
þar [næst fögur[7] orða skil.
Eg kann ef eg vil —
Af ástum brjóstið innan svíður,
ætlar[8] burt að fljúga.
— slá dans yfir lands múga.

3. Hýran stendur af hrínga Gefni;
hún er mér í vöku' og svefni
sannlega mikið sorgarefni,
sízt [má gleyma[9] þánkinn minn.
Hátt flýgur hrafninn.
[Naumu gulls á nafn eg[10] nefni
nú fyrir beztan kærleiksyl.
Eg kann ef eg vil —
Glaður því[11] heim til hennar stefni
og[12] hirði' [ei það[13] að ljúga.
— slá dans yfir lands múga.

A = Austanbók Jóns Þorkelssonar, skrifuð 1823. B = ÁM. 148, 8, 330.—31. bl.

## Eitt kvæði.

Út var geingin einka björt
Jósevæn hin fríða.
Það gat hamíngjan henni gjört,
að hún sá hann Bevus ríða.

1. Eðla vífið ángrið hlaut
ástum meður að kanna,
sjaldan svefns né náða naut
Nauman greipar fanna.
Þreyði hún eptir geira Gaut,
grimmum meidd af sorgar kört.
Það gat hamíngjan henni gjört —
Tíðum vætti tára skaut
tvinna Lofnin fríða.
— hún sá hann Bevus ríða.

2. En þegar gipt var auðargrund
öðrum runni klæða,
stórum fékk hún stygðar lund,
straung var hugarins mæða.
Fann eitt ráð til faldahrund,
þótt flasaði að henni sorgin ört.
Það gat hamíngjan henni gjört —
Bragðalindann burðugt sprund
bráðlega lét sér smíða.
— hún sá hann Bevus ríða.

3. Þá náttúru beltið bar,
sem brúðurin spenti' að lífi,
maðurinn einginn mentasnar
mátti spilla vífi.
Árin sjö með sómapar
svaf hjá kóngi meyjan björt.
Það gat hamíngjan henni gjört —
Óspjölluð því vefgrund var
af voldugum bendi skíða.
— hún sá hann Bevus ríða.

[1] fríðri A. [2] Gefni A. [3] nam A. [4] báðar B. [5] höndin smá en roðin B. [6] vænt en B. [7] með fagurt B. [8] og ætlar B. [9] því gleymir B. [10] Auðs eg fagra naumu B. [11] eg B. [12] því B. [13] eg sízt B.

**4. Heiðin kvinna hún var ein,**
**hulin þó dygða safni.**
**Hvar finnst nú sú hríngarein,**
**sem hennar vera má jafni?**
**Þar bjó ást í hyggju hrein,**
**þótt hrygðar geyfan yrði svört.**
**Það gat hamíngjan henni gjört —**
**Sig með slíkri sómagrein**
**sætur ætti' að prýða.**
**— :|: hún sá hann Bevus ríða. :|:**

**5. Æ, hvað glöð mun vella Vör**
**vorðið í hjarta sínu,**
**þegar hún sá þann dúði dör**
**dauðans kominn úr pínu.**
**Þekti hún varla þorna bör**
**þegar hann reið á beizla hjört.**
**Það gat hamíngjan henni gjört —**
**Hörð því olli harmakör,**
**sem hafði' hann átt að líða.**
**— :|: hún sá hann Bevus ríða. :|:**

**6. Þótt fölnuð væri frægðarmanns**
**fegurð og kinnin rjóða,**
**vildi samt í valdið hans**
**veiga gefa sig tróða.**
**Eðla geislinn ástarbands**
**allan þíddi sorgar kört,**
**Það gat hamíngjan henni gjört —**
**Læt eg því á ljóðum stans,**
**leiðist yður að hlýða.**
**— :|: hún sá hann Bevus ríða. :|:**

ÁM. 148, 8, 334. bl.

## Kvæði fallegt útlenzkt.

1. Hug vekur minn
hvert og eitt sinn
háa daga sem nætur,
eg með mér finn,
sem eingum inn',
umfaðmast hyggju rætur.

2. Eg reista vítt
um hauðrið hvítt,
hjá mörgum fyrst ókendur;
leit þar alltítt
fólkið vel frítt,
hjá frómum varð innlendur.

3. Einn fagran lund
eg fann um stund
frjófgaðan blómstrum góðum,
vaxinn á grund
með grænan mund;
geðfeldur var sá þjóðum.

4. Ungviðargrein
upprunnin ein
á var þeim skógarlundi,
heilnæm og hrein,
hindrandi mein,
hverjum þeim kjósa mundi.

5. Sú stóð með glöð,
blómvaxin blöð
blíðra ilmandi rósa,
í sinni röð
sýnandi hröð
sólbjarta geisla ljósa.

6. Á góðri rót
fest hafði fót,
frjófgan bar margra gæða;
hennar hýr hót
hug mæddu fljót,
harmþrúngna kann að græða.

7. Ávöxtur sá,
sem eg nam tjá,
áður sagða rós prýðir;
dygð marga má
sæmdríka sjá
sérhver, er henni hlýðir.

8. Kærleika, frið,
fögnuð og grið.
fastheldin þolinmæði,
blíðlyndissnið,
hreint hreinlífið,
hógværð, trú, góðgirnd bæði.

9. Þetta er það
þar fylgist að,
þvílík blómstur vel skarta.
Framar en kvað,
fest hafði stað
ferskrar meyjar í hjarta.

10. Mjög stutta stund
það spektar sprund
spakt eg við ræða mátti.
Mín hugarlund
hjá gullhlaðs grund
gistíngu leingri átti.

11. Slíkt hrygðar él
mitt þvíngar þel
þig við þá [hlaut] eg skilja.
Þótt fái' eg hel,
þá farðu vel.
fagurleit hríngaþilja.

12. Slíkt hrygðarkíf
við darradríf
daprar mig hverju sinni.
Það eðla víf
meðan endist líf
ætíð er mér í minni.

13. Um hyggju grind
hríngs ljúfa lind
legg eg í fersku minni.
Fríð faldastrind,
fögur kvennkind,
fast held eg elsku þinni.

14. Hvort okkur er
unnað þess hér
optar saman að ræða,
ráði guð mér
og þar með þér,
það stendur til hans gæða.

15. Hvar sem eg fer
um hauðrið hér
hugleiðíng prýði þinnar,
minnisstæð mér
þeinkíng, ei þver,
þá eg sé brúðir svinnar.

16. Mun þó ráð bezt,
að fátt um flest
fyrir öld eg nú glósi.
Sú hugsan, fest
í mundáng mest,
mér sjálfum bygð hjá kjósi.

17. Lifðu nú vel.
Þig fríðum fel
föður guði, baugs tróða.
Meir en eg tel
og mál til el,
miðlist þér alt hið góða.

ÁM. 148. 8, 337.—38. bl. Sbr. kvæðið »Björt mey og hrein« eptir séra Stefán Ólafsson. Kvæði II. 1886; bls. 38—39.

Það er tekið beinlínis fram, að kvæði það, sem fer hér næst á undan, sé af útlendum toga spunnið, þýtt eða ort af útlendum manni, sem hefir sezt að á Islandi, eins og jafnvel virðist vera drepið á í kvæðinu sjálfu, en auk þess eru til á íslenzku ýmsar manvísur, sem þýddar hafa verið úr

útlendum málum, einkum dönsku, í gamla daga. Nr. 98 í safni Rasks á Háskólabókasafninu í Kaupmannahöfn er nótnahandrit, og eru þar alls 226 lög. Handritið heitir »Melódía. Nokkrir útlenzkir tónar með íslenzkum skáldskap og margir af þeim nytsamlegir til andlegrar skemtanar«. Það er frá miðbiki 17. aldar. Hverju lagi fylgir ein vísa, og eru margar þeirra manvísur. Sumstaðar eru þær ef til vill upphöf á kvæðum, en víðast hefir eflaust ekki verið ort nema ein vísa undir hverju lagi. Eg læt prenta hér til dæmis þrjár vísur, sem mér þóttu einna beztar.

Meyjan mektuglega,
mætust, þiggi ljóð.
Ber eg nú beiskan trega
brúðurin fyrir þig rjóð.
Ef að eg yndi þínu
að mér gæti kipt,
ángri og allri pínu
af mér væri þá svipt. (71)

Lundprúðust, ljúf og fín
lindin gulls amorlig
ber eg í brjósti mín
beiska sút nú fyrir þig.
Kærleiks kylja
kreinkir minnisstig.
Hýrleg hríngalilja,
hugga nú veikan mig. (81)

Kvæðisróm skal kyrja hér
um kvinta auðarbrú,
og svo bragsmíð byrja þér,
að blíðkist þar við þú.
Yrði ætlan mín
yndisrósin fín,
víf mitt seinna verður þú,
ef vild samhlýddi þín. (88)

Auk þess eru þessi númer í bókinni manvísur 9, 34, 60, 68—70, 72, 74—77, 85—88, 210. Allar þessar vísur eru eflaust þýddar úr útlendum málum. Sumstaðar þekki eg jafnvel dönsku vísurnar, sem snúið hefir verið eptir, og víða bera þær alveg með sér, að þær eru þýddar. Undarlegt væri líka, ef vísurnar væru íslenzkar, að ekki skuli vera þar ein einasta manvísa, sem menn þekkja annars staðar að.

En svo eru í Melódíu lög við fjölda af kvæðum eptir séra Ólaf Jónsson á Söndum, og eru þau merkilegri fyrir íslenzk fræði, þótt þau séu útlend.

## Vikivakakvæði.

Síðuga, fríða seimaná
sinnið minnist laung[um].
Út ertu við æginn blá,
en eg er seztur að Draungum.

1. Bátur Litars lakur,[1] veikur
Lóðins slóða veiðir[2] ber.
Heiman sveimar snakurt keikur,
svala Dvalins vilja lér.
Hindin sunda[3] hvikult leikur,
[hyrjar blærinn sveigir rá.[4]
Út ertu við æginn blá.
Haukur kreikar Hnikars bleikur;
hrynur, dynur, stynur hans vinur
á[5] raungum;
flugið Sigtýs fákur[6] eykur.
En eg er seztur að Draungum.

[1] lakrar B. [2] veiði B. [3] Rindar A. [4] Herjans fer um skerja lá B.
[5] í B. [6] fálki B.

2. Fjalars. Kjalars flæða súðir;
feingu leingi eingan byr,
um sinnu ranna síðar búðir
sízt þær hristi gustur fyr;
dreingir streingjum ráða rúðir
renna nenna senn á sjá.
Út ertu við æginn blá.
Hastar rasta reiða flúðir
fyrir rjóða tróðu flóða glóða
laungum;
rýrum stýra róðri lúðir,
en eg er seztur að Draungum.[1]

3. Þegar hæg var þulin[2] kylja,
þanninn renna kunni fley,
féll með snilli vel að[3] vilja,
voðinn lúði geðið ei;
í spöku fjúki fálu[4] bylja
fyrst mig[5] lysti víst að gá —
Út ertu við æginn blá.
— af því bifurs bála þilja
blíðlynd hríðar stríðið þýðir
laungum;
frá brjóti spjóta böl kann skilja.
En eg er seztur að Draungum.

4. Vonar[6] muni veiðar[7] dáða
[vegu trega hugurinn[8] fer,
fýsist ljósa þrúði þráða
[þýðlega laða[9] meður sér;
rúðist [gríðar reiði ráða,[10]
réði[11] geðið keðja[12] að slá.
Út ertu við æginn blá.
[Sorg um borgir[13] blíðu láða
brjóst með[14] gjósti ljóstar[15] þjóstar[16]
[laung]um[17]
og vængi þúnga mæðu[18] máða.
En eg er seztur að Draungum.

5. Siðuga, prúða foldu falda,
fagra drjúgum, [hugur]inn[19] þreyr.
Hógvær, lagleg Hildur tjalda
hraðast eyðir nauða reyr.[20]
Gnóttir oturs g[il]dra gjalda
gefi[21] eflaust refla ná.
Út ertu við æginn blá.
Huggar Friggjan hrelda, kalda,
handar sanda grandar[22] vanda
þraungum.
Friði góðum vildi eg valda.
En eg er seztur að Draungum.

6. Þjassa vessa þýða tróðu
þreyja tjáir [nú[23] mér ei,
[liðleg, fríð[24] með geði góðu
gæði[25] fáðu siðug mey;
auki[26] Kraka sáða sjóðu,[27]
sútar knútur[28] lúti frá.
Út ertu við æginn blá.
[Heiður. fríð,[29] með geði[30] góðu[31]
gisti ristill, hnystan[32] listar[33]
faungum;
sneyði fljóð[34] hjá mæðu móðu.[35]
En[36] eg er seztur að Draungum.

7. Dvalins fjalir fljóta flatar,
framan[37] lamað[38] strauma dýr,[39]
Litars [báti ljótum latar,[40]
landið undir skundar rýr.
[veginn eigi rotinn[41] ratar,
rekur lekan,[42] hrekur lá.
Út ertu við æginn blá.
Skip ónipurt skraut ei batar;
skafna stafna'[43] eg jafna' í hafnar
gaungum;
örmum farmi út af glatar.
En eg er seztur að Draungum.

---

[1] Er. vantar í B. [2] þulnings B. [3] af B. [4] fyrir B. [5] fýsti A. [6] Vonaði B. [7] veiðir B. [8] um vefju trafa hugur B. [9] þýðlegana B. [10] greiðir reiðir dáða B. [11] rýrð í B. [12] = Kedsomhed. Kede. J. Sig; téði B. [13] Sorgum borgar B. [14] af B. [15] ljóstrar B. [16] í þjóstrar B. [17] aungum A. [18] mæði B. [19] hugur B. [20] eir B. [21] gefur B. [22] grandi B. [23] mér nú BC. [24] liðug. þýð B. [25] gæðin B. [26] aukist B. [27] sjóður B. [28] bútur A. [29] heiðurs frið B; heiður og frið C. [30] gleði A. [31] glöðu AC. [32] hnystum A; hnysta C. [33] lista BC. [34] þýð B. [35] og móði B; móð C. [36] Eg er að draungum C. [37] framað A. [38] lamast B; [39] týr B. [40] bátur ljótur latrar B. [41] vakkar, ekki vatur B. [42] veikan B. [43] jafni B.

A = ÁM. 148, 8. 347.—48. bl. Afskript Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66. B = hrs. Rasks 89, með hendi Jóns Stefánssonar faktors að Djúpavogi. Þar er kvæðið eignað Páli lögmanni Vídalín og viðlagið er þar:

Út ertu við eyjar blár,
en eg að draungum,
eg er seztur að draungum.

Kvæðið er líka í hrs. Bmfj. Rkv. 214, 8. Það er eignað þar Páli Vídalín, og er sex erindi. Viðlagið byrjar þar:

Út er hún við eyjar blár.

Útg. þessi er ekki notuð hér. 6. er. í hrs. Lbs. 360, 8, bls. 58—9. Kvæðabók Páls lögmanns, með hendi Jóns Ólafssonar frá Grv. = C. J. Ól. segir: »4. er. af þeim fimm, sem lögmaður kvað 14 vetra, og lét sama innihald í vera, sem þeir Vigfús J[óns]s[on] og Sigurður Gísla[son] höfðu haft í hvors þeirra fimm erindum. Þegar Sigurður Gíslas[on] heyrði kvæðið sagði hann: »Heyri þið dreinginn. Einhvern tíma verður hann skáld««.

## Einn herlegur sálmur nokkuð.

1. Aðr en eg byrja bragarins smíð,
bið eg þig stúlkan góð,
heillir allar á hverri tíð
hreppi það únga fljóð.
Þess innihald og orðin mæt,
á þeim bið eg þú hafir gæt
mín fróð.

2. Einkanlega á alla lund
eg bið þig, trygðar mær,
elsku að veita alla stund
eg þegar kem þér nær;
hjartað mitt girnist feigið fá,
svo fallega mér lízt þig á,
mín kær.

3. Einkum bið eg þess góðan guð
gjætrar(!) að vera þín;
af þér svipti hann ángurs nauð
elskuleg heillin mín,
í augum mínum ertu dýr,
elskan mig jafnan þar til knýr
mæt, hýr.

4. Girnist eg þetta gæfulán,
guð ef að veitti mér.
Ástkær brúður, fyrir utan smán,
unna vilda eg þér.
Feiginn[1] girnist eg faðminn[2] þinn,
fögur ertu á hár og skinn.
Það sver.

5. Gjarnan vilda eg, gullhlaðs[3]grund,
gánga leingur til þín.
Feingist farið yfir foldar und,
fresta mundi þá pín,
mitt[4] auga meðan á þig sér.
Alteins veit eg er fyrir þér
til mín.

6. Girnist eg snótin góðlátleg,
gæfir þú þar til svar;
allan vilja eg á því hef
áður, sem fyr um bað,
misvirða ekki málið mitt,
megi' eg svo koma uppá hitt
í stað.

---

[1] *feinginn. hdr.* [2] fāmiñ, hdr. [3] gullhals, hdr. [4] nú, hdr.

7. Nú vill hann elska aðra frú
og unna af hjarta mest,
binda við hana blíðutrú,
beztum ástum fest;
ein er píkan annari lík,
allmörg finnast til dæmin slík.
Það sést.

8. Læt eg svo lykta ljóðin mín.
Líkni þér drottinn, snót.
Hjartað ber þúnga hugarins pín
helzt fyrir blíðu hót.
Særir mig jafnan ástin, en
einkum þá huganum til þín renn.
Amen.

ÁM. 149, XII. 8. 19—20. bl. Frá 17. öld.

## Eitt kvæði.

Vífinu fríðu verði fátt til
meina.
Þótt mér sé bönnuð baugagrund,
b[eri] hún lukku alla stund.
Mann tregar menþöllu eina.

1. Hlýt eg láta úr nausti nú
Norðrar bi[rt]íng renna,
þótt mig næði[1] þorns fyrir brú[2]
þrautin heit að spenna,
hegða[n] dygða sætan sú
svinnust kynni hýr [í] lund.
Sú er bönnuð baugagrund.
Lagða eg dygð [um] fríða frú.
Frá því verður að grei[na].
Mann tregar menþöllu eina.

2. Mörg er sorgar Frey[ju] fróð
foldin mild í æði,
snotur, [vitur, g]egn og góð,
glögg sem hyggin [bæði],
siðug í ræðu', en sjaldan hljóð,
. . . . fremur á hverri stund.
Sú er bönnuð baugagrund.
Hjartað spennir mæðan móð,
m[una] það hinir, sem reyna.
Mann tregar menþöllu eina.

3. [Fy]r á láði frægðarmenn[3]
festu [ást] við brúði.
Margan sorgin mæddi senn
fyrir menja væna þrúði.
Þeirra gjöri eg þrautir enn
þrátt að [ka]nna' á hverri stund.
Sú er bönnuð baugagrund.
[Ás]tar fölnast teiknin tvenn,
tjáir því [ekki' að] leyna.
Mann tregar menþöllu eina.

4. Finnum enn ef gjör[um að] gá,
greitt þótt lítið sæmi,
mundi [ei] reyndar margur lá
maðurinn [þv]ílíkt dæmi,[4]
fyrir það sízt mér . . . . . . . .
þótt laungum feingi eg sorgarmu[nd].
Sú er bönnuð baugagrund.
Lifi með gæfu láði á
[la]uka eikin hreina.
Mann tregar menþöllu eina.

5. [Lit]ars þrjóta gjöldin greið
gjörn [m]ér, runni skjóma.
Hlýtur að snauta [hei]m á leið
Heimdalls snekkjan Óma.
[M]an eg væna menja reið,
mærðar [st]irð þótt kólni und.
Sú er bönnuð baugagrund.
[Þr]ýtur hin litla Þundar veið.
Það [m]á þegar reyna.
Mann tregar menþöllu eina.

ÁM. 149, XV, 3. bl. Frá 17. öld.

[1] mæði, hdr. [2] fru, hdr. [3] frægar-, hdr. [4] dæmir, hdr.

Sú mér eykur sorgarþel
svinnust auðarná,
kát í máta' og kann sig vel,
kæra hefi' eg þá.

1. Ein er mér í minni þrátt
mætust hrínga tróða,
hún laungum að mér lætur dátt
ljúf með bragði rjóða,
því er eg skyldur af góma gátt,
að greiða henni orðin vel.
Sú mér eykur sorgarþel —
Fræðin, kvæðin fetar smátt
fram af orða krá.
— kát í máta og kann sig vel,
kæra hefi' eg þá

2. Við þá fyrstu festi eg trú
fljóð á æsku minni,
því býr mætust menjabrú
mér í þagnar inni.
Á hún kapal og eina kú,
auðinn þennan fyrst eg tel.
Sú mér eykur sorgarþel.
Með henni reisa býst eg bú,
bl[í]ðri auðarná.
Kát í máta' og kann sig vel,
kæra hefi' eg þá.

3. Minn öfundar margur[1] mann,
[m]á eg fyrir það finna,
að eg þýðri auðgrund ann,
ekki' er bölið að [m]inna.
Orða kvis ei akta kann,
[a]uðar skorðu hjá þó dvel.
Sú mér eykur sorgarþel.
[A]f föður og presti fékk eg bann
fljóði nærri' að stá.
Kát í máta' og kann sig vel,
kæra hefi' eg þá.

4. Sefast mundi sorgin heit,
sút og ángurs mæði,
hvar eg arka' um [Í]slands reit,
ef eg til hennar næði.
[Fe]r eg því opt í eptirleit,
ángur [stríngt í] sundur mel.
Sú mér eykur sorgarþel.
Út í veri og austur í sveit
ef mér væri hjá,
kát í máta og kann sig vel,
kæra hefi' eg þá.

5. Út er drukkið Óma öl,
endar lítið kvæði.
Brúðrin heitir barna böl
og blönduð jóra mæði,
talinn röðull Týs við dvöl,
á tjarnar flóði stirðnuð skel.
Sú mér eykur sorgarþel —
Þar til legg eg þegna kvöl, —
þýði hver sem má.
— kát í máta' og kann sig vel,
kæra hefi' eg þá.

ÁM. 149. XV, 4.—5. bl. Frá 17. öld. Nafnið sem bundið er er Kristín.

---

Ann eg dýrust drósa,
með dygðum þér.
Mér sú mærin ljósa
í minni er,
ef hún vill hýr mig kjósa
til handa sér.

1. Hvar eg fer um lystug lönd,
lög og vatna ósa. —
Ann eg dýrust drósa —
— elskan til þín auðar strönd
aldrei náir að frjósa.
— með dygðum þér o. s. frv.

[1] margan, hdr.

2. Hennar andlit er svo skært
eins og lilju rósa.
Ann eg dýrust drósa —
Allar stundir verði vært,
vil eg jafnan hrósa.
— með dygðum þér o. s. frv.
3. Burðug hreppi bauga grund
það bezta eg kann glósa.
Ann eg dýrust drósa —
Einglar drottins alla stund
aðstoð veiti ljósa.
— með dygðum þér.
Mér sú mærin ljósa
í minni er,
ef hún vill hýr mig kjósa
til handa sér.

Á eptir kvæðinu stendur vísa þessi með sömu hendi:

Sjáðu veiði Óðins enn,
ægis funa lundur,
fáðu heiðurs sjóði senn,
s[æfar] bruna þundur.

ÁM. 149. XV. 9. bl. Frá 17. öld.

## Eitt kvæði.

1. Leitar mín í ljóðum frekt
lindin fræníngs palla.
Fögur orðin fá mann blekt,
fjarlægur er eg því valla,
að unna þöllin þér.
Þar bið eg víki þjóðir að
þær, sem heyra' og sér,
hvort eg má reiða mig upp á það,
að unna viljir þú[1] mér.

2. Þótt mér gángi gleðin til alls,
gaman er okkur báðum,
þekki' eg valla kvenna kals,
klókar eru þær í ráðum,
en úngur að eg er.
Eg hefi' ekki átt að venjast því
hún veitti blíðu' af sér,
er eg því orðinn efaður í,
hvort unna viltu mér.

3. Það er fapur(!) munnsins mart,
sem mjög er hjartanu fjarri;
verða má það vífið bjart,
að vera mun annar kærri
í þánkanum á þér.
Út er geingin einhvern stað,
annar með þér fer;
orðafjöldinn þá er það,
að þú viljir unna mér.

4. Sæmilegana silkilín
segi' eg það eptir vanda.
Það er næsta meiníng mín,
að muni svo eiga' að standa,
alt hvað kalsað er.
Hýra fel eg á herrans vald,
hverninn sem það fer.
Þú munt öðrum ástar hald
ætla heldur en mér.

ÁM. 149, XV, 10. bl. Frá 17. öld.

---

Gaungum á gólf fram,
berum fagurlega fót
um borg og hallir;
vér erum jómfrúinnar menn allir.

1. Mig bað lundur fálka fanna
fróður, að smíða dverga skeið,
ófróðastur allra manna
eg fram þuldi Suttúngs[2] neyð.

---

[1] þu vilier vnna, hdr. [2] sviptunz. hdr.

Því skal meðal góðra granna
Gyllíngs[1] skeinkja horna damm.
Gaungum á gólf fram.
Óskikkan eg alla banna,
úng er mörg í dansi snót.
Berum fagurlega fót.
Horskir runnar Heimdalls fanna
hreyfa orða spjalli.
Vér erum jómfrúinnar menn allir.

2. Siðmannlega og sett í máta
sérhver stigi fljóðið við,
af því Friggjan Freyju gráta
fögur er sín á hvora hlið.
Þar á eggja eg þegna káta,
þær ei fremja spott né glamm.
Gaungum á gólf fram.
Ei skal sig hjá stúlkum státa,
strax þær slíku tala á mót.
Berum fagurlega fót.
Annars styggjast, er mín gáta,
úngar silki-þallir.
Vér erum jómfrúinnar menn allir.

3. Hæversklega hver í dansi
hefji kvæðið sitt sem ber;
fyrri einginn orði anzi,
en út sá kveða búinn er.
Honum samhljóði hölda kransi
hreyfi[2] raust fyrir utan vamm —
Gaungum á gólf fram.
— svo það eingum verði vansi,
virðum heldur gleðibót.
Berum fagurlega fót.
Sætur fagrar sig á stansi
snotru vísna spjalli.
Vér erum jómfrúinnar menn allir.

4. Hýrar gleðji einn sem annar
amors fögrum kvæðum með
grundir úngar öglis fanna,
sem opt er dygð og prýði léð;
þó mér leingur þorngrund bannar
að þeyta[3] ör af golnis gamm.
Gaungum á gólf fram.
Huguriun minn það sjálfur sannar,
mér sýnist drykkjan Ása ljót.
Berum fagurlega fót.
Lifi í friði ljúfir grannar
líns og bjartar þallir.
Vér erum jómfrúinnar menn allir.

Hrs. J. Sig. 257, 8.

---

Ekki kann eg erindið neitt
að finna nú;
þó mun eg sjálfur sætta mig við
jómfrú.

1. Það var fyrri, þiljan spánga,
að þú varst treg um gólf að
gánga;
vísaðir þú mér veguna lánga,
að víkja að annari auðarbrú.
Þó mun eg sjálfur sætta mig við
jómfrú.

2. Yfirlætið, úngur svanni,
ekki dugir neinum manni,
þau eru mætin sízt með sanni,
sjálfur leggur á sig nú.
Þó mun eg sjálfur sætta mig við
jómfrú.

3. Stórlega varstu stolt í sinni,
stríð bjó mér við hjartað inni,
að eg skyldi maður að minni
miklu heita heldur en þú.
Þó mun eg sjálfur sætta mig við
jómfrú.

---

[1] grellings, hdr. [2] eða hefji, hdr. [3] eða þreyta, hdr.

4. En þótt þú eigir aðstoð góða,
ekki skaltu þér meira bjóða;
vendu þig á það vífið rjóða,
að vera til orða dygg og trú.
Þó mun eg sjálfur sætta mig við
jómfrú.

5. Fleiri leit eg foldir bríka,
er fullvel máttu mönnum líka,
þótt ekki hafi auðlegð slíka;
undir guði er veitíng sú.
Þó mun eg sjálfur sætta mig við
jómfrú.

Hrs. J. Sig. 257, 8.

---

Mentarík er menjabrík,
margt fer vel fyrir fljóði;
eigandi væri önnur slík,
að una sér við í hljóði,
að una sér við í hljóði.

1. Fekk eg með mér frúna
fram í dansinn núna,
seljan Sófnis dúna
sú er vel af kostum rík.
Eigandi væri önnur slík, —
Ef gæfi hún görpum trúna,
get eg þeir hrindi móði.
— að una sér við í hljóði,
að una sér við í hljóði.

2. Má því eptir máta
menþöll lofa káta,
eptir því eg játa,
þá er hún rétt af dygðum rík.
Eigandi væri önnur slík, —
Það er ein gjörðargáta,
gat þess halurinn fróði.
— að una sér við í hljóði,
að una sér við í hljóði.

3. Hreinhjartaðri hæfir
heiður um alla æfi,
en hin trúi' eg heillir kæfi,
sem henni er ekki að dygðum lík.
Eigandi væri önnur slík, —
Þótt hún áfram þæfi,
þá býr samt í sjóði.
— að una sér við í hljóði,
að una sér við í hljóði.

4. Dvel eg ei leingur dansinn,
dregst á kvæða vansinn,
þótt vænn sé vífa kransinn
virðar koma með harðan strýk.
Eigandi væri önnur slík, —
Hér skal hljóða fansinn
hverfa úr minnis sjóði.
— að una sér við í hljóði,
að una sér við í hljóði.

Hrs. J. Sig. 257, 8.

---

Heitið hefi' eg að halda trú,
helzt fyrir breytni slíka;
þýða kyssi eg þorna brú,
þessi má mér líka,
þessi má mér líka.

1. Óms af orða gildi
upp eg vekja vildi,
svo fer sízt sem skyldi
um svinna baugahildi,
mín er mærðar snildi

minnst, sem yður heyrir nú.
  Þýða kyssi' eg þornabrú.
Kend af mætri mildi
mektug dándis píka.
  Þessi má mér líka,
  þessi má mér líka.

2. Kvennmanns listir kærar
keptu við að læra,
að vísu vífið kæra
þér veitist heiður og æra.
Það skal hróðurinn hræra,
ef, hrundin, vildir þiggja nú —
  Þýða kyssi' eg þornabrú.
— Fjölnis gildi að færa
um faldaþöllu ríka.
  Þessi má mér líka,
  þessi má mér líka.

3. Lagleg lízt mér tróða,
lindin ægis glóða,
hýr með hegðan góða
huggar hún sorgarmóða;
það ertu, fremdin fljóða,
fríð, að öllu dygg og trú.
  Þýða kyssi' eg þornabrú.
Ristils foldin rjóða,
rétt fæ valla slíka.
  Þessi má mér líka,
  þessi má mér líka.

Hrs. J. Sig. 257, 8.

## Enn annað kvæði að kveða uppá stúlkuna sem (!).

Sú er mér í minni
sú mæt drós, klén snót;
um alla mína lífs tíð
ljósa man eg þá drós.
Hún er mér í minni,
hún er mér í minni.

1. Fýsir mig með fræða val
Formóðs drykk að blanda,
um eina brúði ástar tal
af innstum hjartans anda;
kær er mér í sinnis sal
sú dýrasta menja hlíð
  um alla mína lífs tíð;
hvergi eg þekki vífa val,
að við hana jafnast kynni.
  Hún er mér í minni,
  sú er mér í minni.

2. Eðalborin, ágæt snót
æðst er allra kvenna,
af sér veitir hugleg hót,
huggun veitir tvenna.
Hún vinnur á hverju böli bót,
björg nauðstöddum veitir blíð;
  Um alla mína lífs tíð —
uppkveykjandi elsku rót
í guðs barna sinni.
  — hún er mér í minni,
  sú er mér í minni.

3. Að ásýnd fögur er auðþöll skær,
eygð sem fegurst dúfa,
ullarhvítt er henna hár;
hefir sú lindin ljúfa
andlit fagurt og augnabrár,
alt græðir hún andarstríð.
  Um alla mína lífs líð —
Munnur og kinnar mætrar stár
mentum prýddur, eg inni.
  — sú er mér í minni,
  hún er mér í minni.

4. Gimstein hefir í gulli smelt
göfug á sínu brjósti,
hver, sem við hana ást fær felt,
hann hrindir öllum þjósti;
sá fær dauða og djöful felt,

sem dygðuga rækir baugahlíð.
Um alla mína lífs tíð —
Menn og kvinnur siðugar sjá,
satt er það eg inni.
— hún er mér í minni,
sú er mér í minni.

5. Af klæðnaði er kæran rík,
komin af himna hæðum,
í heimi hvergi hittist slík,
hvorki að lit né gæðum;
prúðum eru þau purpura lík,
prýdd með rósum, farfa-fríð.
Um alla mína lífs tíð —
Von er þess fyrir auðar eik
þótt innri maðurinn brynni.
— hún er mér í minni,
sú er mér í minni.

6. Vil eg allir viti nú
vífi hverju' eg hæli;
heitir sætan heilög trú,
á hennar dygð eg mæli;
komin af guði sannlega sú,
er synda heptir grimdar kvíð'.
Um alla mína lífs tíð —
þrenníng heilög það veittú,
að þessa gáfu eg finni.
— hún er mér í minni,
og sú er mér í minni.

Hrs. J. Sig. 257. 8.

**Fjórða kvæðiskorn.**

Svoddan lit ber silkirein,
sæmdin allra fljóða,
sem það fegursta fílabein,
fellur á móða,
fellur á eingin móða.

1. Stytti eg fyrir mér stundir mínar,
sturlast tekur mín hyggjan veik,
þótt sjái' eg aðrar sætur fínar,
sinni' eg lítt um þeirra leik.
Eg þeinki' á dýrar dygðir þínar
drós, og allan góða.
Fellur á móða,
fellur á eingin móða.

2. Mig lángar eptir lyndi þínu
liljan fögur og amorslig,
fyrir það kenni' eg kalt á dýnu,
kvinnan eingin vermir mig;
feingi' eg að sofa' í fángi þínu,
faðminn mundi' eg bjóða.
Fellur á móða,
fellur á eingin móða.

3. Eins og snjór er hörundið hvíta
hárið er eins og baldinbrá,
augun fögur sem ljós að líta,
ljóminn stendur af hríngana.
Samvizkuna sárt mun slíta,
að sjá það sprundið rjóða.
Fellur á móða,
fellur á eingin móða.

4. Jafna' eg þar við jarðargæði
og jurtir, sem spretta landi í
Óma kliður og [aldin]sæði,
apaldur í fögrum bý,
þar laufið blaktar á ljósum þræði
lifanda fögnuð bjóða.
Fellur á móða,
fellur á eingin móða.

5. Kattakot(!) skal kvinna heita,
kemur þar ár og lögurinn til.
lítið skal af ljóðinu breyta
. . . . . . . . mærðar gil.
Þeir mega ljóst á letrið líta,
sem lesa þitt nafnið tróða.
Fellur á móða,
fellur á eingin móða.

Hrs. J. Sig. 257, 8. Á eptir þessu kvæði er brotið: »Ljóða vildi' eg litla skrá«, og er það seinast vikivakakvæði í handritinu.

## Vikivakakvæði, að kveða við kvennfólk.

Þýðust bíði þorna ná
þokka af geði sínu.
Fríður líður svanninn sá
seint úr geðinu mínu.

1. Mörgum er það manni ljóst
minn lék hugur á vífi;
um mitt hjarta elskan bjóst
með ángurspentu lífi,
síðan með okkur sundur dróst,
því sín fyrir hvoru leiðin lá.
Fríður líður svanninn sá —
Hundraðfalt að blindar brjóst,
ber því margur megnan þjóst
með sorgar línu.
— seint úr mínu,
seint úr geðinu mínu.

2. Eitt sinn hitta' eg auðar grund
á æsku forðum minni,
sú er prýdd með ljúfri lund
og lista frómu sinni.
Við mig ræddi víf um stund,
Venus elsku til mín brá.
Fríður líður svanninn sá —
Okkar bægðist elsku fund
örlögs pílan fór á sund
með spentri línu.
— seint úr mínu,
seint úr geðinu mínu.

3. Henni fylgir hýran góð,
hefir hún fleiri gæði,
lærð á ment það listar fljóð,
ljúf í sínu æði,
yfirbragðs og andlits rjóð,
augun fögur, en höndin smá.
Fríður líður svanninn sá —
Ágætleg er auðar slóð
hjá annari mætri landsins þjóð
í lyndi sínu.
— seint úr mínu,
seint úr geðinu mínu.

4. Biðja skal fyrir bauga hlíð,
þótt bægt sé elsku fundi;
hljóti' hún hvorki hatur né stríð
hvar hún gár hjá sprundi.
Þegar að linnir lífsins tíð,
lendi sálin drottni hjá.
Fríður líður svanninn sá —
Þá drífur hvorki dögg né hríð,
dásamleg er auðnan blíð
með sólar skínu.
— seint úr mínu,
seint úr geðinu mínu.

Hrs. Sv. Grv. 66.

---

Eg óska horskri auðarhlíð
eingin[1] þvíngi mæða.
Hljóti vitur heillir allra gæða.

1. Norðra[2] fjarðar fákur strjúki
fyrst úr nausti þagnar gegn,
orða svarðar brákið[3] brúki,
bezta [traust að[4] sagnar fregn;
storðar[5] mærðar stjákið fjúki,
ströndin linda gleðjist blíð.
Eg óska horskri auðarhlíð —
Skorð mun jarðar Drákons dúki
dygða sögð sig klæða.
— hljóti vitur heillir allra gæða.

[1] að eingin B. [2] Norðrar B. [3] brakið B. [4] traustið B. [5] storða B.

2. Veit eg mæt hvar foldin falda
fríð á láði byggir ein;
í hófi gæf er Hildur spjalda,
henni sinnir lista grein;
traust mun kostum vildis valda,
vitur, lítillát og þýð.
Eg óska horskri auðarhlíð —
Guði hlýðin, gild mun halda
góðu ráðin fræða.
— hljóti vitur heillir allra gæða.

3. Grundar banda glysa[1] ljósa
Gefnin safnar dygðum skær,
mundar sanda má sú hrósa
mæta [fitin[2] trygðum kær.
Hrund mun vanda eisu ósa
orð sem gjörðir fyr og síð.
Eg óska horskri auðarhlíð —
Sprund frá grandi kýs eg kjósa,
kvendi' ei hindri mæða.
— hljóti vitur heillir allra gæða.

4. Guði hlýðug,[3] glöð á láði,
góð, vel siðug[4] auðarslóð,
heiðurs prýði hróður tjáði,
hlýða bið[5] á kvæðin[6] fróð.
Brúður fríð[7] að greinum[8] gáði
gæða, tíðum rjóð og þýð.[9]
Eg óska horskri auðarhlíð —
Þjóða lýður það mér jáði,
þrátt sé flutt sú ræða.
— hljóti vitur heillir allra gæða.

5. Faðir og móðir falda Hildi
flestar listir kendu þær,
sem hýr með æru halda skyldi,
í hófi göfug, kurteis mær.
Yfirjöfur[10] alda mildi
unni svanna fyr og síð.
Eg óska horskri auðarhlíð —
Suttúngs[11] krapta gjalda gildi
gullhlaðs þöll ef næða.
— hljóti vitur heillir allra gæða.

6. Verði jarðar grafníngs Gefni
gefin æfitíðin góð,
linna fanna Lofn eg nefni,
ljúfa gæfu fáðu fljóð.
Stutta [háttu stofnar[12] efni,
styttist þetta óðarsmíð.
Eg óska horskri auðarhlíð —
Klastrað [Austra klofni[13] stefni
á[14] kuggi Yggjar flæða.[15]
— hljóti vitur heillir allra gæða.

7. Flugu sveigur, þjáníng[16] þýja,
þrisvar flasað sama sár,
höggvinn gluggur[17] hranna dýja,
heiðurs[18] prýði, börkur ár,
ýta kæti, æið skýja,
okið fáka' og mæðin stríð;
Eg óska horskri auðarhlíð —
þjáníng minni þó að drýgja,
þöllin kallast klæða.
— hljóti vitur heillir allra gæða.

A = Nokkur Ljóðmæli eptir Hallgrím Pétursson. Rkv. 1885, bls. 67—69. B = ÁM. 149 X, 8, 5.—6. bl.

---

[1] glasi B. [2] fit í A. [3] hlýðin B. [4] siðuð B. [5] bið eg B. [6] fræðin B. [7] þýð B. [8] greiðum B. [9] fríð B. [10] Yfirjöfurs B. [11] Syptuns B. [12] hættu stofnað B. [13] austrar klofnar B. [14] í B. [15] fæða B. [16] þráin B. [17] gluguð(!) B. [18] huā B.

Mikið eykur mér það þrá,
man eg til þín[1] laungum.
Út varstu[2] við æginn blá,
en eg er seztur að Draungum.

1. Læt eg bátinn [ýtast eita,[3]
út með flýti [set. eg hann,[4]
lekum[5] þykir þraut að fleyta,
þar ei sjófær vera kann;
[flóð á[6] súðir fljótt vill leita,
flaustrið Austra [barst inn á.[7]
Út varstu við æginn blá.
[Þver andvara,[8] þraut má heita,
þreyttur, sveittur fleytti' eg skreytt um[9] raungum,
[æði móður orku að neyta.[10]
:|: Eg er seztur að Draungum. :|:

2. Einginn[11] þúngi eður mæða
áður náði[12] buga mig,
vökur strauk þá voðum klæða
Vífers(!)[13] reifuð dúfa á svig,
vonaði muni veiðir[14] gæða,
valur Kjalars falur[15] lá.
Út varstu við æginn blá.
Vos nú Kvásis blóðug[16] blæða,
bundin undir fund [óstundar[17] laungum.[18]
[ángri meinguð[19] er sú ræða.[20]
:: Eg er seztur að Draungum. ::

3. Þegar[21] dagar þeir nú vóru,
það[22] eg víðar[23] gáði[24] meir,
í veðri[25] Gríðar væru fóru
vakrir haukar Óðins tveir,
[í Austra, Vestra[26] starfi[27] stóru,
ströndu handar banda[28] ná.
Út varstu við æginn blá.
[Eiða blíðir[29] særa sóru,
sínum fínum mínum týna' ei faungum
af göfugu efni fjóru(!).[30]
:: Eg er seztur að Draungum. :|:

4. Sjáldurs, vilda' eg senda sprundi,
[sljófguð höfga,[31] Ýmis bein,
lokka frökku landi undir
léttum[32] ýtti' eg þessum stein;
vasaði fús og vendi[33] blundi,
vildi milda hildi sjá.
Út varstu við æginn blá.
Þángað laungum hind að hrundi,
hallaðist allur fallinn skallats spaungum;
hvergi bjarg það eins[34] vel undi.
:|: Eg er seztur að Draungum. :|:

5. Aldrei fold mér oturs bóta
úr kann renna[35] hugar slóð.
vildi' eg heldur vitra hljóta
en Vóðins [meður auði[36] fljóð,
[en ef svinnrar[37] ei fæ njóta.
ángurs fánga' eg[38] lánga þrá.
Út varstu við æginn blá.
Sú vill valla sútin þrjóta,
sem mig kremur, lemur, temur laungum
opt því kraptar eitt[39] [hið ljóta.[40]
:: Eg er seztur að Draungum. ::

---

[1] hennar B. [2] er hún B. [3] atriðs ítra B. [4] setja þann B. [5] leikinn A. [6] Flæði' um B. [7] laust við rá B. [8] þuran verja B. [9] skreyttan B. [10] B. [11] Ekkinn A. [12] réði A. [13] vifurs B. [14] veiðar A. [15] falinn B. [16] blóði B. [17] um stundir A. [18] straungum A. [19] ángurmögnuð B. [20] mæða B. [21] þegar að B. [22] þá A. [23] víða A. [24] jáði A. [25] veðurs A. [26] austur, vestur B. [27] starfi i B. [28] sand að B. [29] Eiðar reiði B. [30] fóru B. [31] böfga A. Frá [sljófgar höggin B. [32] léttara A. [33] vendi í B. [34] eitt B. [35] fara B. [36] bæði auð og A. [37] elf sunnmarar(!) B. [38] sl. B. [39] ást B. [40] vantar í B.

6. Ei [mér tjáir[1] auðarslóði
únga leingur þreyja mær,[2]
vitur, snotur, fríður, fróði
fáðu gæði, ristill kær.
Sneiði þýð frá[3] mæðu móði,
mín ei dvíni, hríni spá.
Út varstu við æginn blá.
Mildri haldist heiðursgróði,
hamíngjusamur frami, gaman laungum,
betur en ritast[4] um í óði.
:|: Eg er seztur að Draungum. :|:

7. Litars bátur ljótur, þrotinn,[5]
lotinn ýtist[6] flatur heim,
svikull, lekur, bitabrotinn,
[borð eru seyrð[7] og rifa' á þeim,
hverfur [gjörvall, háttur[8] lotinn,
hánga rángir,[9] lángbönd frá.
Út varstu[10] við æginn blá.
Vörum[11] hér að vara[12] flotin
veikust reikar[13] eik frá leiki straungum.
[Ekki hrökkva yndis notin.[14]
:|: Eg er seztur að Draungum. :|:

A = Nokkur Ljóðmæli eptir Hallgrím Pétursson. Rkv. 1885, bls. 69—71. B = hrs. J. Sig. 402, 4., og er kvæðið eignað þar Sigurði G[ísla]s[yni Dalaskáldi].

## Kvæði.

Eptir Vigfús Jónsson á Leirulæk.

Út ertu við eyjar blár,
en eg [er seztur[15] að draungum.
[Blóminn fagur kvenna klár,
kalla eg laungum,
kalla eg til þín laungum.[16]

1. Hnikars spakan haukinn vekur
hljómur ímu vinda þrátt,
valur Báleygs vakinn tekur
veifa daufum fjaðra slátt,
vængi þúnga veikur skekur,
víða hrúður, fjaðrasár.
Út ertu við eyjar blár.
Él-drif Fálu ákaft hrekur
út að leita' að faungum.
Kalla eg laungum,
kalla eg til þín laungum.

2. Huguriun flýgur að veiðum víða,
vindsvals undir bygða hvel,
súg ef draga fjaðrir fríðar,
ferðin yrði greiðfær vel.
Hjarnar stjörnur liðugar líða
linda rindar glýju um[17] krár.
Út ertu við eyjar blár.
Mikið þrekast mæðu kvíða
muninn einatt straungum.
Kalla eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

3. Hvaða stöðvar kunnið kynna
Kjalars val um hvílu grið?
Hvar mun vera hann að finna,
er hugarins vegum setur mið?
Utan skjótan enn nú tvinna[18]
eikin speki lyndis klár.

[1] mun tjá nú B. [2] nær B. [3] hjá B. [4] getur B. [5] rotinn B. [6] flýtist B. [7] borðin stirð A. [8] gjörvi, hallur A. [9] ránga B. [10] er hún B. [11] Vörunum B. [12] var nú A: varla B. [13] kreikar B. [14] Er nú farinn og útaf þrotinn B. [15] sl. A. [16] Eg er seztur að draungum A. [17] glýjum AB. [18] minna A.

Út ertu við eyjar blár.
Hnikars gaukar henni sinna
hrumir að sveima laungum.
Kalla' eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

4. Mætti' eg hitta blíða brúði
brjóstið mest er fyrir þreyr,
ángurs þúnginn óðum flúði,
aldrei skyldi' eg sorga meir.
Bata oturs tróðu' eg trúði,
tók að mýkjast hrygðar fár.
Út ertu við eyjar blár.
Svinnri ann eg þráða þrúði,
þótt eg segi það aungum.
Kalla' eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

5. Rjóðust hlíðin ránar funa
rétt mér þótti samlíkjast
hjarnar urnis hreinum bruna,
hæst þar lýsti manna bast.
Hlýt eg ætíð hana' að muna,
hvað mig skeður lífs um ár.
Út ertu við eyjar blár.
Hennar kann eg án að una
ekki baugs hjá spaungum.
Kalla' eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

6. Hauðurs skrýða heila[1] þilja
hafi lífsins beztu[2] frægð,
gángi úngri vel að vilja
víst með stærstu sóma nægð.
Af því víf að skulum skilja
sker mig sárast rauna fár.
Út ertu við eyjar blár.
Hvað mun stoða hulinn dylja
hugarins tregann laungum.
Kalla' eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

7. Lif með gæfu lystíng hæsta
lauka eikin fyr og síð.
Gleði, auðlegð, gistu stærsta
göfugt víf, um lífsins tíð.
Mótgángs bætur mistu fæstar
moturs fitin, dygða klár.
Út ertu við eyjar blár.
Bát eg Litars brotinn læsta
bifurs hrófi laungum.
Kalla' eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

A = hrs. Rasks 89 a, með hendi Jóns faktors Stefánssonar á Djúpavogi.
B = hrs. Bmfj. Ísl. 214, 8. Þar er viðlagið öðruvísi:

Hríngaspaung með hýrar brár
hugur tregar laungum.
Úti' ertu við eyjar blár,
en eg er seztur að draungum.

## Kvæði.

Eptir Guðmund Bergþórsson.

Jón Stefánsson faktor á Djúpavogi, sem hefir skrifað útgáfu þá, sem eg fer eptir, segir, að hér sé sama »viðdrag« og við kvæði Páls Vídalíns »Bátur Litars lakur, veikur«, en það getur ekki verið, eins og kvæðið ber sjálft með sér.

---

[1] heilu B. [2] mestu B.

1. Gælumála gil eða svalur
greitt upp sprettir ræðu sjóð.
Dvalins hulinn dælu valur
dikar strokinn þaðan á flóð.
Kalinn Fálu kælu valur
kröptugt eptir þvervind stár.
Út ertu við eyjar blár.
Kjalars falinn þulinn þvalur
þýtur út á sagnar sker.
Við eyjar blárin eg bý hér.
Skal því brjála skilníngs dalur
skemta, krimta Sónar vín.
Kalla eg til þín —
Bilorms bála hæli halur
hýrri, dýrri, skýrri, nýrri af faungum,
tal óskilið telur falur.
— til þín laungum
til þín kalla' eg laungum.

2. Hnikars gaukur hrjáður víða
hefir keifað víst mér næst,
græðis meðal glóða blíða,
gæt[a] að snótum flestum læzt,
ervitt starf má lúður líða
um lilju velja geisla ár.
Út ertu við eyjar blár.
Eina væna, fróða, fríða
finnur hann, sem af þeim ber.
Við eyjar blárin eg bý hér.
Siður góður prúða prýða
pella þöll, og dygðin fín.
Kalla eg til þín —
Lund vel reynda, liðuga, þýða
ljósrar drós, sem glósar hrósa faungum,
af hennar minníng kendi kvíða.
— kalla eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

3. Hugsan vex um hýra kæru,
harma stormur tendrar lund,
bölið kælir byrinn hæru
Börs nú fyrir stranda hund;
meiníng rauna marin snæru
mínar reynir blíðu krár.
Ut ertu við eyjar blár.
Brúðar geði býr óværu,
bitur sút því fjarstæð er.
Við eyjar blárin eg bý hér.
Sigþórs flugan sér torfæru,
svanna' að finna. nenníng dvín.
Kalla eg til þín —
Fljóði prúðu, skýru, skæru,
skyldug. vildug snild með gildis faungum,
kurteis skartar, kjörin til æru.
— kalla eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

4. Nær mig ber til nýtrar sveitar
í nánd eða grend[1] við yðar stað
hjarnar stjörnur læt eg leita,
liðugur, þýðu fljóði að.
Forka jarka fetin þreyta,
falur halur ráðasmár.
Út ertu við eyjar blár.
Sinnu rann því sút vill neyta,
sætu' að líta bannast mér.
Við eyjar blárin eg bý hér.
Nær mun harma brot sér breyta?
bætt svo styttist ánauð mín.
Kalla eg til þín —
Greindri mundi gauta hneita
glóðar[2] móðu[3] slóð með ljóða saungum
tíðum gleði titil veita.
— til þín laungum,
til þín kalla' eg laungum.

[1] grand, hdr. [2] glóðrar, hdr. [3] móðrar, hdr.

5. Ýkju rökum eikin dúka
ekki nokkur sést, mér lízt;
rækir spakur mök við mjúka,
mundi' eg henda ástir víst;
vöku' ómakið brík mun brúka
blíðrar, þýðrar vegna Gnár.
Út ertu við eyjar blár.
Hnikars gaukur hikaðir strjúka
hvíld útvaldra kjósa sér.
Við eyjar blárin eg bý hér.
Laukabrík má líka hjúkra
lundi randa, væn og fín.
Kalla eg til þín —
Stöku lokið strik skal strjúka
staldra skvaldrið hald hjá falda spaungum,
kviku þrotinn krók af rjúka.
— kalla eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

6. Ýtrar skrítinn bát skal brjóta
Boðnar skeiðin. Hvað er að?
Litars skútu' eg læt því fljóta,
ljóð mig smíða fróður bað.
Gætir heitir gátu Sóta
glöggur, tryggur: hagall, ár, —
Út ertu við eyjar blár.
— hver[irn]ir[1] tveir með þyt upp þjóta,
þar í sáru örin sker.
Við eyjar blárin eg bý hér.
Saman straumar setra nóta,
sveima tauma dýrin fín;
Kalla eg til þín —
atið gauta út vill hrjóta
agað,hagað lag með bragar faungum,
kvæða sáða kátir njóta.
— kalla eg laungum,
kalla' eg til þín laungum.

Hrs. Rasks 89 a. Hrs. Bmfj. Rkv. 214, 8. 6 er. Ekki notað.

Enn hefir Bjarni skáldi Sigurðsson ort kvæði með sama viðlaginu:

Út ertu við eyjar blár o. s. frv.

Kvæðið byrjar svo:

Úr Fálu kælu Fjalars mulin o. s. frv.

Kvæðið er 7 er., og er í hrs. Bmfj. Rkv. 214, 8.

---

1. Gumnar hafa hér gaman í kveld,
get eg að það sé bannað.
Eg mun þegja og þylja í feld
og þeinkja um nokkuð annað.
Horfinn gjörist eg heimi í hug.

2. Horfinn gjörist eg heimi í hug,
og hrygðin á mig kallar,
þær hinar stæltu stolts jómfrúr
stuggast[2] við mér allar.
Gefi þeim heiður og hamíngju lán.

3. Gefi þeim heiður og hamíngju lán
himna kóngurinn mæti,
bíði hvorki böl né smán
brúður í sínu sæti.
Aldrei hefir hið væna víf.

4. Aldrei hefir hið væna víf
(v)orðið mér að yndi.
Heima skal eg, þótt hrygt sé líf,
halda mínu lyndi.
Köppunum hefir hún kastað á braut.

[1] hvernr. hdr. [2] stugga AB.

5. Köppunum [hefir hún kastað[1] á
braut,
kann[2] vel línið að[3] falda,
[nú er komið[4] á höfuðið skaut,
og hvað mun slíku valda.
Vaknar einn af rekkum Njáls.

6. Vaknar einn af rekkum Njáls,
þanninn brá honum við[ur],
þanninn eykur, þanninn leikur,
lagðist síðan niður.
Menjaþöll í máli snjöll.

7. Menjaþöll í máli snjöll,
mun eg ei[5] verða að inna?
blíðu leikur og brögðin öll.
Bezt mun óði linna.
Hvíta vilda eg hlaðsól finna.[6]
Ekki má,
[mein er[7] á
menjalindi[8] tvinna.
Hvíta vilda' eg hlaðsól finna.

ÁM. 147, 8, nr. 46, með hendi Gissurar Sveinssonar 1665. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar. A = Ny kgl. Saml. 1141, fol. nr. 43, bls. 235—36. B = Brit. Mus. Coll. Finns Magnússonar 174, 4. Fyrsta er. í hrs. Sv. Grv. 65, með hendi hans sjálfs. Enn er kvæðið í Kvæðabók Gísla Ívarssonar (hrs. J. Sig. 405, 4), og er fyrsta er. prentað, eptir henni, í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 227.

## Eitt kvæðis erindi.

Meyjarnar báðu mig til leiks
eg geingi,
en eg sagði það, sem var,
að eg kynni' ekki' í gleðinni
par;
þó dansaði eg með þeim leingi.

Herjans knör á hafið blá
heldur lasinn núna,
voga skal úr vizku lá
væna' að gleðja frúna.
Þegar eg stóð við sagnar sá,
sætu leit við eyjar.
Mig báðu meyjar —
Kann eg einga kvæðaskrá,
kveðið orð mér tjáðu.
— meyjar báðu —
Gekk í hönd mér gæfan þá
gullas þöll, nær fann eg þig, —
— meyjar báðu mig —
— en ekki vita af því má,
að opt hefir geingið mér í vil.
— meyjar báðu mig til —
Því skal ýtum erindið tjá,
ef eingum grandar gufan reyks.
— meyjar báðu mig til leiks —
Einatt nam eg að því gá,
þar um gekkst eg hjá meingi —
— mig til leiks eg geingi —
— hríngs kann þiljan, hýr á brá,
holl að gleðja dánumenn.
— mig til leiks eg geingi, en —
Stillir allskyns stóra þrá
stúlkan hýr í bragði;
— en eg sagði —
Ílt sú gjörir æ forsmá,
ángurs slítur sérhvern vað.
— en eg sagði það —

[1] er hún kastaði A. [2] og kann A. [3] sl. A. [4] henni' er nú komið A. [5] sl. B. [6] A sleppir þessu orði og byrjar nýtt erindi á »Hvíta vildi eg hlaðsól« o. s. frv. [7] meinin. hdr. [8] menjalindin A.

Af því gleði eg mun fá,
að eg þinn á fundinn kem.
— en eg sagði það sem —
Aðra fíra opt eg sá,
ei þó veiktist hugur par.
— en eg sagði það sem var —
Þíng ef rjála þrátt við tá,
þig eg betur þekki.
— það sem var eg ekki —
Það sem lýðir ljúfast sjá
leingst er þeim í minni.
— að eg ekki kynni —
Andlit skært og augu blá
auðþöll ber af sprundum því —
— að eg kynni' ekki í —
— þá sólin skín á skygðan skjá
skatnar augun draga' í hléð.
— að eg kynni ekki' í gleð' —

Af því segja einn eg má,
augun mín það fyrir bar.
— að eg kynni' ekki' í gleðinni par—
Þér ef aðrir þegnar ná,
mér þykir mestur skaði.
— þó dansaði —
Ástin vermir yndiskrá,
ei er snót til lista treg, —
— þó dansaði eg —
— ef þú vildir um það spá,
að elsku þína feingi' eg séð.
— þó dansaði' eg með —
Nær æfin líður okkar frá,
einglar drottins fylgi heim.
— þó dansaði eg með þeim —
Sigurinn þann að sjá og fá
segi' eg mesta geingi.
— þó dansaði eg með þeim leingi.

Hrs. Bmfj. 634, 8 (Þórkatla hin minni, skrifuð af Þórkatli lögréttumanni Jónssyni á Hrauni í Grindavík 1743—47).

---

Þig man eg laungum
menja fögur hrund,
eg sá þig við æginn blá
um eina stund.
Muntu seint úr mínum huganum
líða.

1. Kjalars fram eg knörinn keyri,
kurteis brúðurin á það heyri,
gömlum hreyfi' eg golnis leiri
góms af vizkutaungum.
Þig man eg laungum.
Eins fer eg og aðrir fleiri
óðs sem tína kornin smá.
Eg sá þig við æginn blá.
Þótt aðrir vilji maktarmeiri
meyjuna gleðja fríða,
muntu seint úr mínum huganum
líða.

2. Hjá fljóðunum er hún fríð að líta
með fagrar brár og holdið hvíta,
augun skær ber niptin nýta,
nóg bjart hár með vaungum; —
Þig man eg laungum.
— rauð er kinn sem rós að líta,
randir hvítar nefinu hjá.
Eg sá þig við æginn blá.
Ei mun gott úr geðinu slíta
gullhlaðs þöllu blíða.
Muntu seint úr mínum huganum
líða.

3. Gæfu fær sá geymir ljóma,
er gullhlaðs þöllu eignast fróma.
Svo er vífið vafið sóma,
hún vefst í skugga aungum.
Þig man eg laungum.
Lýist fyrri laufið góma
en ljósrar skýri' eg dygðum frá.

Eg sá þig við æginn blá.
Hennar jafnan lof mun ljóma
lands um bygðir víða.
Muntu seint úr mínum huganum
líða.

4. Heiðurinn hljóttu dýr af dygðum
dreiglalindin vafin trygðum;
eikin dúka eyðir stygðum
og öllum sorgartaungum.
Þig man eg laungum.
Geingur aldrei geðs úr bygðum
grundin fögur, hýr á brá.
Eg sá þig við æginn blá.
Burt hún öllum steypir stygðum,
stillir sorg og kvíða.
Muntu seint úr mínum huganum
líða.

5. Fjaðra þanninn lögur líði,
lukku hrundin auðar bíði.
Rögnis vín af raddar skíði
reitta' eg til af faungum.
Þig man eg laungum.
Ferjan Hárs af svo ljóða líði,
læst hún skorðast naustum hjá.
Eg sá þig við æginn blá.
Herjans festi' eg hafnar skíði,
hlíði snótin fríða.
Muntu seint úr mínum huganum
líða.

ÁM. 969, 4, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum.

## Vikivakakvæði.

Væn má því valda
og vort bæta ráð.

1. Áður á láði úngir menn
þeir unna kunnu fljóði,
frömdu og sömdu fyr og enn
þann fagra slag með óði.
Ætti' eg, ef mætti' eg, sónar sund
sætu mætri gjalda.
Væn má því valda.
Fríð og blíð er falda hrund,
framar við alla mannsins lund
en fæ eg tjáð.
Væn má því valda,
og vort bæta ráð.

2. Ef að eg hefði orða nægð
að inna af hennar prýði,
skyldi' eg mildrar fremd og frægð
fyrir frómum róma lýði
Borin og kjörin af beztu ætt
er burðug skorðan spjalda.
Væn má því valda.
Af flestum listum, fæ eg það rætt,
og ferskri vizku hefir að gætt
með dyggð og dáð.
Væn má því valda,
og vort bæta ráð.

3. Eg leit um sveitir víða væn
víf með lífi skæru,
af flestum bezta brúðurin kær
ber þó kvennmanns æru.
Hann sem ann það bjarta[1]blóm
fær blessun hundraðfalda.
Væn má því valda.
Hún klæðist bæði fögur og fróm,
fríð og blíð að mínum dóm,
sú lauka láð.
Væn má því valda
og vort bæta ráð.

[1] hjarta, hdr.

4. Giptu skipti guðs son dýr
grundu' og lundi spjóta.
Auðnan styður þann örfatýr
með æru fær þín njóta.
Heillin öll með heiður og auð
hverfi að lindi spjalda.
Væn má því valda.
Lifi nú allvel listar fljóð,
liðhent bið eg að minnist ljóð
og mærðar sáð.
Væn má því valda,
og vort bæta ráð.

Bmfj. 629, 8, með hendi séra Einars Hálfdánarsonar.

---

Mér er tamt
að miðla Hveðrúngs fljóti.
Gullskorð samt,
þín gæfan aldrei þrjóti.

1. Heillum fullust hríngaFreyja,
hvað á eg nú við þig að segja?
Alsendis eg ætla' að deyja,
mér er svo kalt á fóti (!),
af því farinn er eg að beygja[st].
Gullskorð samt,
þín gæfan aldrei þrjóti.

2. Veit eg að þú ert valið fljóða,
vil eg því mína hönd þér bjóða,
ornaðu henni hríngatróða
með hýru ástar móti.
Koss í staðinn kann eg bjóða.
Gullskorð samt,
þín gæfan aldrei þrjóti.

3. Fáng mitt býð eg falda Þrúðu,
faðmin[um] að mér líka snúðu,
svo skoða fái' eg blíða brúðu,
þótt bros af munni þjóti.
Fyrir þinni trygð mér trúðu.
Gullskorð samt,
þín gæfan aldrei þrjóti.

4. Eg get til muni gaman á ferðum,
með gætni mig ef uppá sérðu,
að þessu okkur hríngsól herðum,
horfa skal eg á móti,
við samdóma víst þá verðum.
Gullskorð samt,
þín gæfan aldrei þrjóti.

5. Mjúklega leggjum munna saman,
magnast af því okkar gaman,
úr brjósti mér að brúði framan
blærinn hyrjar þjóti.
Hug svo stillum reiðiraman.
Gullskorð samt,
þín gæfan aldrei þrjóti.

6. Úr máli þessu máttu skera,
munum við eitthvað hljóta að gera,
til skemtanar það skal þó vera,
með skikkanlegu móti.
Ekki' eru margir út að bera.
Gullskorð samt,
þín gæfan aldrei þrjóti.

7. Gaman máttu þetta þekkja,
þarf ei ræðan víf að blekkja,
okkar sæmd eg ei vil svekkja
með illu lasta sóti.
allra sízt þig, auðgrund þekka.
Gullskorð samt,
þín gæfan aldrei þrjóti.

8. Lifðu' í friði Lofnin spánga.
Lyktan skal svo kvæðið fánga,
orðinn þreyttur er eg að gánga
axlar sleptu spjóti.
Auðnu hljóttu' um æfi lánga.
Gullskorð samt,
þín gæfan aldrei þrjóti.

Hrs. Bmfj. 629, 8., með hendi séra Einars Hálfdánarsonar. Virðist vera eignað séra Jóni Guðmundssyni.

1. Út á foldu fús í æsku minni
furðu glaður reikaði' eg einu sinni;
eins og að lá mín leið,
leingi dags eg áfram reið
og ei við beið,
þar til eg sá eikur margar standa
mér til beggja handa.

2. Í lundi einum leit eg eik mjög fríða,
lysti mig þar nokkra stund að bíða.
Hún var fögur og harla skær,
kvíslir af henni dreifðust tvær,
eg horfði' á þær;
viðarins blóma virti' eg fyrir mér
leingi,
var henni fegri eingi.

3. Faðmaði' eg hana með fögrum
blóma sínum,
fróaði þetta nokkuð huga mínum;
stutta stund með ljúfri lyst
eg lék mér við þann aldinkvist
eg fann þar fyrst.
Vildi' eg hefði verið allar stundir
þeim eikarkvisti undir.

4. Við þessa eikina þó hlaut eg að skilja,
þúngan harm í brjósti verð að dylja.
Eikin sú sem annað tré
í æzta kóngsins valdi sé,
þess óska eg.
Þekki' eg hana þó að stundir líði.
Bragurinn þannig bíði.

ÁM. 960, 4, með hendi séra Arnljóts Ólafssonar á Sauðanesi. Eikin, sem höfundi kvæðisins fannst mest til um, bendir eflaust til konu.

## Gamankvæði.

### Eitt kvæði.

Ágæt auðar tróðan
allar listir kann.
Gullhrínginn góðan
geymir sú ann.

1. Ætla' eg réttan óðarfund
upp að vekja' í samri stund,
séð hefi' eg ei þann seimalund,
sem sætan þessi ann.
Gullhrínginn góðan
geymir sú ann.

2. Samið[1] klæðið[2] af silki er,
sérlegana vel það fer;
skilda húfu' á höfði ber,
sú hárið flétta kann.
Gullhrínginn góðan
geymir sú ann.

3. Af laufaprjónunum ótal er
utan um höfuðið nælt á þér,
kopar líka kræktur er,
sú kross og festi ann.
Gullhrínginn góðan
geymir sú ann.

4. Sauminn allan sætan kann,
á sunnudaginn lærði' hún hann,
tefla skák og máta mann,
mentað hefir sú þann.
Gullhrínginn góðan
geymir sú ann.

[1] Samin, hdr. [2] klæðin, hdr.

5. Sveina hefir sú ferna fimm,
fylgja þeir henni út og inn;
burðugur er sá blóminn þinn,
bærast hvergi kann.
Gullhrínginn góðan
geymir sú ann.

6. Eingelskir með ærna þrá,
af henni mega þeir varla sjá,
flytja þeir hana fram á sjá,
fiska djúpan rann.
Gullhrínginn góðan
geymir sú ann.

7. Silfurlindann sætan á,
síður er hann, sem líta má,
átján spennur eg á honum sá,
en eina vantar hann.
Gullhrínginn góðan
geymir sú ann.

ÁM. 148, 8, 326. bl.

---

Sokkaböndin lafa[1] niðri' um hæla,
þó[2] fara skórnir hálfu ver.
Það kann[3] eingan ýngismanninn tæla.

1. Í upphafi vil eg óðinn hnýta
og erindiskornum frúnum býta.
Það mega einhver vífin víta,
að virða mig fyrir starfið hér.
Þó fara skórnir hálfu ver.
Þær mega allar á lán sitt líta,
meðan lesin er mærðargæla.
Það kann eingan ýngismanninn tæla.[4]

2. [Trafið er blakt[5] á heila húsi,
hatturinn trúi' eg aptan[6] á dúsi,
[álíkt[7] er sem[8] blakkur brúsi;
bera þær flest[9] alt dökt á sér.
Þó fara skórnir hálfu ver.
Lýður[10] einginn fremdarfúsi
freklega mun[11] því hæla.
Það kann eingan ýngismanninn tæla.

3. Hálstrefjan[12] er blökk sem bikið,
burt úr görmum[13] fýkur[14] rykið,
þá[15] þær taka stóra strikið,
um strætin þegar[16] þær gamna sér.
Þó fara skórnir hálfu ver.
Ekki [vanda alt of[17] mikið
ennishnött að kæla.
Það kann eingan ýngismanninn tæla.

4. Litur er gulur á leiðum sokkum,[18]
[líkt er pilsið[19] buxnasmokkum.
Þær vagga[20] [kollien.[21] veifa lokkum,
voðalega það til ber, —
Þó fara skórnir hálfu ver.
— gárúnganna fremst í flokkum,
að[22] flissa' og gjöra sig skæla.
Það kann eingan ýngismanninn tæla.

5. Leistar[23] valla tolla' á tánum,
tekreisvintan[24] ofan að hnjánum.
Þótt þær [reiti ull[25] af ánum
aldrei vettlíng prjóna sér.
Þó fara skórnir hálfu ver.

---

[1] liggja BC. [2] en þó C. [3] þarf BC. [4] Er. vantar í C. [5] Blakt er traf C. [6] ofan B; þar ofan C. [7] álits B. [8] hárið er eins og C. [9] sl. A. [10] Lýðurinn C. [11] má A. [12] Hattsflíkin A [13] lörfunum BC. [14] dustast BC. [15] þegar C. [16] þá C. [17] er vandað altjafnt C. [18] hlökkum A. [19] lík eru pilsin C. [20] vaggra C. [21] kollinn A. [22] sl. C. [23] Ristur(!) A. [24] svuntan C. [25] ráði ullu C.

Lepparnir eru líkir skánum,
[loða neðan[1] við hæla.
Það kann eingan ýngismanninn
tæla.

6. Galjárnin(!)[2] úr görmum[3] hánga,
gjörir að síga hár við[4] vánga.
Þegar[5] hlaupa, hlæja og språnga[6]
hristist [alt, hvað[7] á þeim er.
Þó fara skórnir hálfu ver.
Á [lærin gjöra bæði' að[8] bánga,
[og bannsett ruglið þvæla.[9]
Það kann eingan ýngismanninn
tæla.

7. Hver þá hleypur yfir um aðra,
upp úr sumum sprettur blaðra,
ámátlega díngla og daðra,
við dansinn larfatötrarner,
en þó fara skórnir hálfu ver.
Heimsklega þær flissa' og flaðra
framan í sultar þræla.
Það þarf eingan ýngismanninn
tæla.[10]

8. Þegar þær sjá að garði gánga
göfuga menn og þiljur spánga,
[upp í veggina[11] spjátra' og språnga,
spara[12] þá ei[13] að gamna[14] sér.
Þó fara skórnir hálfu ver.
Út þær teygja [álku lánga[15]
inni' [hafa dans[16] og hæla.
Það kann eingan ýngismanninn
tæla.

9. Þess vil eg biðja' öll frómlynd fljóðin,
að færa sér ekki af því móðinn,
þótt eg þennan inni óðinn
um óþrifana', að gamna mér,
en þó fara skórnir hálfu ver.
Þær eiga' eingar þennan hnjóðinn,
sem þokka gjöra sig sæla[r].
Það þarf eingan ýngismanninn
tæla.[17]

A = hrs. Sv. Grv. 67, með hendi Finns Magnússonar. Viðlagið og nokkuð af 2. og 3. erindi í Skýrslu um Forngripasafn Íslands II. 1874, bls. 24 = B. C = ÁM. 148, 8, 332—33. bl. Brit. Mus. Add. 11, 181, 12. Coll. Finns Magnússonar (nr. 393), 7 er.

## Kvæði.

Eg hefi róið um allan sjó,
en[18] ekki fiskað parið.
Landfallið[19] bar mig heim í varið.

1. Glaður burt frá gullhlaðs-
nönnu
gekk eg niður í kaupmannshús,
dansaði þar hjá dándismönnum,
drukkið var mér til af krús.
Sumir báru bjór á könnu,
brytjuðu hinir tóbök mjó.
Eg hefi róið um allan sjó.
Réðust hjá mér rekkar hrönnum,
réttar höfðu aðfarir.
Landfallið bar mig heim í varið.

---

[1] og lappast niður C. [2] Galíon(!) C. [3] geglum C. [4] með C.
[5] þá þær C. [6] gánga C. [7] flest það C. [8] bæði lærin brúðir A.
[9] brosandi sig skæla C. [10] C. [11] innst í dyrunum C. [12] og spara C.
[13] ekki C. [14] flýta C. [15] álkur lángar A. [16] dansa' C. [17] C. [18] og 979.
[19] landfarið, orðab.

2\. Söffren skikka' eg sætið fyrstum,
sértu í austrúminu þar;
þú ert mörgum lagaður listum,
líka fisk að gogga snar.
Drjúgum gefur að drekka þyrstum
dropann öls og vínið þó.
Eg hefi róið um allan sjó.
Opt vér hjá honum heima gistum,
hvergi tóbak sparir.
Landfallið bar mig heim í varið.

3\. Þorgils Jónsson miðskipsmaður
mín skal vera . . . . . dar reyn,
beitur að skera bezt hentaður,
og beri upp annan lóðastein.
Þar með er hann gegn og glaður,
gamnar sér, í máta þó.
Eg hefi róið um allan sjó.
. . .[1] árina mun sá braður
meðan lífið hjarir.
Landfallið bar mig heim í varið.

4\. Þá skal Brynjólf Erlíngs arfa
í andþófið þar skikka næst,
árar að vakta oss til þarfa
og aðgæta, ef nokkuð fæst;
aðkall mitt skal annars djarfa
auka þínu geðinu' óró, —
Eg hefi róið um allan sjó.
— en að þér kasta ýsu eður karfa
ef einga liðsemd sparir.
Landfallið bar mig heim í varið.

5\. Haldór Guðmundsson þann sagta
sæmdarmann eg kýs þar til
fram í barka róður rækta,
ráðgóður sé mér í vil.
Hálfa lóð skal verka' og vakta,
vinda hana upp í klofa þó, —
Eg hefi róið um allan sjó.
— en kvöld og morgna má sig agta
ef margur aungull garir(!)
Landfallið bar mig heim í varið.

[1] Ólæsil.

6\. En mín skikkun ei við tefur,
öðru borði gætum að,
af því Jónas af mér krefur,
í austrúmið sig setja bað;
út skvetti(?) þá inn á gefur,
athugi' á lopti vind og snjó.
Eg hefi róið um allan sjó.
Beiti lóð þá búið hefur
beint mín hönd, sem þar er.
Landfallið bar mig heim í varið.

7\. Hans Davíðsson hýr og glaður,
hann skal róa á miðskipskeip,
skikka eg að sé skiphaldsmaður,
skal svo vagta festarreip.
lóðastein upp láti hraður
líka fram, þá veður af dró; —
Eg hefi róið um allan sjó.
— ámálgi hver ekki er hraður,
ei það heldur sparir.
Landfallið bar mig heim í varið.

8\. Göfgan aldrei elskar hatur,
opt veitir í húsum sín
akkevíti' og anísvatur,
ölið, mjöð og spanska vín;
andþófsmaður ekki latur
á að vera' á bátnum þó.
Eg hefi róið um allan sjó.
Hann skal bera' upp hlunna klatur,
hér til góðu svari.
Landfallið bar mig heim í varið.

9\. Guðmund Björnsson virðar valla
vilja missa', eg held það rétt;
liðsemd hans mun lítið halla,
líka' hefi' eg móts við Haldór sett.
Eg held það mína háseta alla,
hvað mér fyr í sinni bjó.
Eg hefi róið um allan sjó.
Á heimili sitt skal hvern einn kalla,
hugsun á það starir.
Landfallið bar mig heim í varið.

10. Mats Jensson ef mætti vera
með oss út á síldar rann.
eg mun fá honum eitthvað gera,
yfir skipa flytjum þann,
tendra eld og tóbak skera,
taki' upp flösku' og segi halló.
Eg hefi róið um allan sjó.
Að hverjum einum buðk skal bera.
Bræður verið snarir.
Landfallið bar mig heim í varið.

11. Fyrst til skiljum formann viður,
fram þá erum á landa reim,
eingum má hann auka viður
eptir að Söffren kallar heim.
Þetta ef honum þykir miður
það skal verða að halda þó.
Eg hefi róið um allan sjó.
Brátt svo hlér við borðin skríður,
bili ei Suðra skarir.
Landfallið bar mig heim í varið.

ÁM. 149, XIV, 8, 1.—2. bl. Frá 17. öld. Viðlagið hjá J. Ól. Grv. Hrs. ÁM. 979 a, 4. bls. 788, 901, orðab. fall og getur Jón þess þar, að það sé viðlag í vikivakakvæði.

## Eitt kvæði.

Íngimundur öldujór
út á sund vill láta.
Heita má hann höfðíngi báta.

1. Fyrst í gusti' hann fer á stað
á fyrða kalla[r] sína,
ei er sagt hann óttist það,
þótt öldur gjöri' að hrína.
Bragnar hrinda borðaglað
breiðum fram á karfa kór.
Íngimundur öldujór.
Geira stýrir greiðir vað,
þar garpar ofan láta.
Heita má hann höfðíngi báta.

2. Láta kátir lægisdýr
um laxavöllu renna,
bátnum aldrei bylgjan snýr,
þá bragnar erðin spenna.
Öld er ekki ráðarýr,
þótt rjúki hrönnin eins og snjór.
Íngimundur öldujór.
Sterkur aldrei stormur lýr
stála ru[nna] káta.
Heita má hann höfðíngi báta.

3. Vestarlega rendi' í röst
runnur drákons heiða,
jafnan tók þá knörinn köst,
kólgu varð að s[ke]iða;
stjórnar réði fjölin föst,
flaust[ri] aldrei rendi sjór.
Íngimundur öldujór.
[Blíð] varð jafnan bylgjan [höst]
. . . . . . . . . . . . . . . .
Heita má hann höfðíngi báta.

4. En þótt fýsi Formóðs son
í frost, og rægða(!) [f]júki,
alt þótt fram af Öðlíngs kon,
[a]ur og sandur rjúki,
samt[1] þó aldrei [l]ætur lon,
lóðar bíði streingur mjór.
Íngimundur öldujór.
Þegnar kváðu þess væri von
þótt honum bættist áta.
Heita má hann höfðíngi báta.

5. Aptur leggur enn sem fyr
eyðir nöðru skíða,
þótt fljótt um loptið fljúgi hyr

[1] sam. hdr.

fær þó eingan kvíða.
Ef þá blygðast öldin kyr
upp sig hressir hugarstór.
Íngimundur öldujór.
[Enn] vill beita Ímu byr,
og ei vill af því láta.
Heita má hann höfðíngi báta.

6. Margan dró á gýgjar gamm
geiraviðurinn rjóði,
þorskum vaskur fleygði fram.
fimur á Ýmis blóði.
Ránar fíll við [dæ]lu damm
dárlega þá hlaðinn fór.
Íngimundur öldujór.
Gufan flaug af Hræsvelgs hramm,
hror(!) [m]un illa láta.
Heita má hann höfðíngi báta.

7. [S]kunda lét um skeljúngs tún
skerja [hj]örtinn breiða.
Heima situr hún björt [á] brún
bríkin nöðru teiga.
Skerja [su]ndið skall við hún,
þá skíðið hlés [a]ð höfnum fór.
Íngimundur öldujór.
[Va]r þá flæðar vaxið tún
víst í mestan máta.
Heita má hann höfðíngi báta.

ÁM. 149, XV, 5. bl. Frá 17. öld.

## Eitt lystilegt ýngismannskvæði, að kveða til gamans.

Í Naumudal lét gullhlaðs[1]grund
glæsta turna smíða.
Meykóng bar þá blómakinn svo fríða.

1. Skatt af ríkjum skarlats brú
skipaði lýðum gjalda,
lángvel kunni líneik sú
lögum við makt að halda.
Misjafnt reyndist mönnum trú,
mæki báru við fleina fund.
Í Naumudal lét gullhlaðs grund —
Kæran átti kónglegt bú,
og kappa hirð svo fríða.
— glæsta turna smíða.
Jarlar margir fríðri frú
fylgdu bæði út og inn.
Meykóng bar þá blómakinn.
Hennar líki' um heiminn nú
hittist ekki víða.
Meykóng bar þá blómakinn svo fríða.

2. Bónorðs fékk hún bréfin þá
buðlúngs, sona' og jarla,
l[a]s hún bréf og litum brá,
lífið stózt það varla;
var þeim öllum vísað frá,
varma hrygðar báru lund.
Í Naumudal lét gullhlaðs grund —
Kurteis lét og kyrtla Ná
um kroppinn suma hýða.
— glæsta turna smíða.
Kríngum skemmu linni[2] lá,
lýða sveit þar vakti stinn.
Meykóng bar þá blómakinn.
Fornum bókum fannst það á,
fyrðar um hana stríða.
Meykóng bar þá blómakinn svo fríða.

3. Fyrir þann spádóm þorna þöll
þá lét til sín kalla
fjóra dverga' úr Fjölnis höll,
fullvel haga alla.

[1] gullas, hdr. [2] linna, hdr.

Ljótleg þessi töfratröll
töluðu margt við hrínga hrund.
Í Naumudal lét gullhlaðs grund —
Hún bað þá af handarmjöll
herlegt belti' að sníða.
— glæsta turna smíða.
Loðbrók . . . . . óttast öll,
eins bar til í þetta sinn —
Meykóng bar þá blómakinn.
— svo forðast gæti' hún betur . . . .,
sem ber sig á að stríða.
Meykóng bar þá blómakinn svo
fríða.

4\. Á einum degi djásnum klædd
drottníng sat að tafli,
hirðin kom af hlaupum mædd,
hreysti rúin[1] afli,
af hafinu sögðu þeir herskip brædd
hundrað sigldu' á þeirra fund.
Í Naumudal lét gullhlaðs grund —
Drottníng bænar gæðum gædd
gekk til sinna tíða.
— glæsta turna smíða.
Hún segist aldrei hrygg né hrædd,
hrotta brá um lærlegg sinn.
Meykóng bar þá blómakinn.
Af Óðni kvazt hún um það frædd:
undir mörgum svíða.
Meykóng bar þá blómakinn svo
fríða.

5\. Í hafnir lagði herinn snar
hröfnum kembíngs sveita,
tveir fóstbræður fylgdust þar.
Frosti' og Jökull heita.
Til meykóngs Frosti bónorð bar,
bréf var skráð í samri stund.
Í Naumudal lét gullhlaðs grund —
Þá ristill leit hvað ritað var,
reiði æðar svíða.
— glæsta turna smíða.
Rekkum sendi rannar svar
refla skorðin úng og svinn.
Meykóng bar þá blómakinn.
Örfarboðin upp því skar
um sín ríkin víða.
Meykóng bar þá blómakinn svo
fríða.

6\. Lið dreif þángað margt sem mý,
mæki láta sýngja,
kólfi stáls lét klénust því
klukku sinni hríngja,
himininn[2] allur skalf og ský,
skiptist víða sær í sund.
Í Naumudal lét gullhlaðs grund —
Stundu dvergar steinum í,
steyptust björgin víða.
— glæsta turna smíða.
Lömuðust múrar lands um bý,
þá lúður þeytti drottníng sinn.
Meykóng bar þá blómakinn.
Unnarfalda eikin blíð
út þá vildi ríða.
Meykóng bar þá blómakinn svo
fríða.

7\. Drottníng feldi Dofra kall,
Drótt sem Fal og Sóta,
Arngrímssyni og Agða jarl,
Andra, Þránd og Ljóta.
Þráinn í haug af vonzku vall,
varð þó kanna dauðastund.
Í Naumudal lét gullhlaðs grund —
Á Harald blóta hjörinn skall,
hlaut því bana' að bíða.
— glæsta turna smíða.
Ubba og Hrólfi undin svall;
afgáng hrepti Heljarskinn.
Meykóng bar þá blómakinn.
Ragnar loðbrók feigðarfall

---

[1] rúðin, hdr. [2] hunenn, hdr.

fékk og Björn járnsíða.
Meykóng bar þá blómakinn svo
fríða.

8. Hríng sem Tryggva' og Högna
þá,
Héðinn og Starkað gamla,
Hjarandasyni feldi' hún frá,
feigð má eingum hamla;
lét hún Sörla' og Gautrek gá
götu mitt í heljar sund.
Í Naumudal lét gullhlaðsgrund—
Ísúngs sveinar allir fá
af henni dauðann stríða.
— glæsta turna smíða.
Grími[1] ægi með galdra há
grýtti' hún mitt í helpyttinn.
Meykóng bar þá blómakinn.
Röndólf hjó hún rumpinn á,
rann nú dreyrinn víða.
Meykóng bar þá blómakinn svo
fríða.

9. Eins lét hún og aðra þjóð
alvöld goðin deyja.
Baldur gegnum brandurinn óð,
bana hlaut drottníng Freyja.
Með hnefa laust hún Magna' og
Móð',
mæki brá á sjálfan Þund.
Í Naumudal lét gullhlaðsgrund—
Heyrnarguðsins hjartablóð,
Heimdalls, rann þá víða.
— glæsta turna smíða.
Hinn máttki Þór sturlaður stóð,
stýfði hún Frey líka hinn.
Meykóng bar þá blómakinn.
Loka segja það letrin fróð,
sem lesa má hjá honum víða.
Meykóng bar þá blómakinn svo
fríða,

10. Brúnskjóttum reið blakki með
brúðar undirtylla.
Húsgángs-Skíða hún af réð,
við heiminn skildist illa.
Ölmóður fékk þann afgáng séð,
eins þó svæfðist feigðar blund.
Í Naumudal lét gullhlaðsgrund—
Æra-Mánga banabeð
brúðurin nam að sníða.
— glæsta turna smíða.
Kempan Skotti kraup á knéð,
um kverkar batt hún leiðum hvinn.
Meykóng bar þá blómakinn.
misti Bírok(!) fjör og féð
og féll í éli gríða.
Meykóng bar þá blómakinn svo
fríða.

11. Meykóng hefi' eg frétt það frá,
Frosti hjó með teini,
svo drottníng settist dentinn á,
dróst því hold frá beini.
Fylkíng hennar féll í strá,
fékk ei grið af heiðnum hund.
Í Naumudal lét gullhlaðsgrund—
Í staðinn Frosti' ei stíga má,
því sterkleg varðhöld prýða.
— glæsta turna smíða.
Þar drottníng sjálf í sárum lá,
sækja lét þá geldínginn.
Meykóng bar þá blómakinn.
Heiðnir lögðu' í hafið þá
hernum Sónar(?) skíða.
Meykóng bar þá blómakinn svo
fríða.

12. Geldíngurinn græða kann
gullhlaðs lindi sára,
um benin dreyrug balsam rann,
brúðar klipti nára.
Þegar heilsu holla fann

[1] Gríma, hdr.

herör skar upp mektar sprund.
Í Naumudal lét gullhlaðs grund—
Hertogadæmi hún þá vann
það heitir njals sveif(!) fríða.
— glæsta turna smíða.
Eið sór staðarins yfirmann,
hjá Ara kleyk(!) þá frásögn finn,—
Meykóng bar þá blómakinn.
— að skatta gjalda skyldi hann
skörúngi silkihlíða.
Meykóng bar þá blómakinn svo
fríða.

13. Minnið, hljóð og mælskan er
mærðar tjóðri bundið.
Eg hefi fróðast efni hér.
yrkishljóða fundið.
Vona' eg góðu gjaldi mér
gullskorð rjóð á Sónar sund.
Í Naumudal lét gullhlaðs grund—
Ljúfri þjóð lagfæra ber,
sem lesa óð og hlýða.
— glæsta turna smíða.
Um afdrif tróðu alt hvað sker
ekki hróður skýrir minn.
Meykóng bar þá blómakinn.
Kvásis blóðið þanninn þver
í þagnar sjóð má bíða.
Meykóng bar þá blómakinn svo
fríða.

ÁM. 149, XV, 8, 6 b.—9. bl. Undir kvæðinu stendur fángamark s[ɜ og ártalið 1672. Afskript með hendi Magnúsar Magnússonar í Ny kgl. Saml. 1894. 4, bls. 68—80.

---

Einginn vesall maðurinn má
mikið bjóða sér;
þó mun eg byr[j]a braginn þann,
sem býðurðu mér.

1. Kominn er eg í þúnga þraut
þorns hjá vænum Gerðum,
ef eg skal héðan brölta braut
með byrði stóra' [á] herðum,
sem bjó mér nú til baugalaut,
enn bratta veginn með hana'[1] að gá.
Einginn vesæll maðurinn má.
Mitt því stirt er mærðar taut
og mælskan lítil[2] er.
Þó mun eg byrja braginn þann,
sem býðurðu mér.

2. Allur skjögra' eg undir þeim
ógna mikla þúnga,
búið er fallið, baugarein,
en brosir að drósin únga;
með þann þilsíng(!) hökti' eg heim,
því honum vill einginn af mér ná.
Einginn vesæll maðurinn má.
Allur bogna' í ö[x]lum tveim,
á eg það víst að þér.
Þó mun eg byrja braginn þann,
sem býðurðu mér.

3. Hraklega bagginn hefir mig þreytt,
svo hlaut eg byltu stóra,
fyrir það skröltið fékk eg meitt
fætur og ilja bjóra,
upp að standa ei varð greitt,
svo ofan í poll eg veltist þá.
Einginn vesæll maðurinn má.
Eingan hljóðið áður neitt
út lék þanninn hér.
Þó mun eg byrja braginn þann,
sem býðurðu mér.

[1] hann, hdr. [2] litill hdr.

4. Kjagsaði'(?) eg leingi klyfina við,
svo komst á fætur valla,
þá var svimur, ryk og rið
á[1] randabrjótnum snjalla,
gjörvalt hló því gumnalið,
að gaungulagið ei fínt var þá.
Einginn vesall maðurinn má.[2]
Af lúanum eingan fékk eg frið,
svo forþreyttur eg er.
Þó mun eg byrja braginn þann,
sem býðurðu mér.

5. Borin til þrautar byrðin datt
burt af mér um síðir,
lamaður eptir, ljóða' eg satt,
lángar var eg um tíðir.
Bar þar upp á bakkann flatt
Berlíngs flaustrið lendíng hjá.
Einginn vesall maðurinn má.
Verð eg glaður að hvílast hratt,
og hróðrar enda kver.
Þó mun eg byrja braginn þann,
sem býðurðu mér.

ÁM. 152 II, 8, 8. bl. Frá 17. öld.

## Eitt kvæðiskorn fallegt þetta.

Dansinn undir hlíða
hann er sig svo seinn;
átján voru konurnar
en kallinn einn.

1. Gullhlaðs þallir gamanið leingi
gjörðu sér, sem hermir meingi,
einga trúi' eg þær fyrða feingi,
að fara með sér til glímunnar.
Átján voru konurnar.
Einn trúi' eg með þeim garpurinn geingi,
gjörði hann þrautir líða.
Dansinn undir hlíða.

2. Dönsuðu þær svo daga sem nætur,
drósir gáfu að eingar gætur,
lúðist af því maðurinn mætur,
mestar þrautir fyrir það bar.
Átján voru konurnar.
Æðilétt í orðum lætur
ástar geðið þýða.
Dansinn undir hlíða.

3. Viljagóður var hann að líta,
þá varð með þeim í dansinn tríta,
við þær eingu vildi býta,
var hann heldur á blíðu spar.
Átján voru konurnar.
Um hann vófu arma hvíta,
eigi var koss að bíða.
Dansinn undir hlíða.

4. Nauðguðu honum niptir spánga,
og neyddu hann sína blíðu að fánga,
tregur af því tekur að gánga,
tekst hann ekki við þær par.
Átján voru konurnar.
Vil eg ei af því meira mánga
hvað mæddi hal hinn þýða.
Dansinn undir hlíða.

5. Blóðugur á báðum fótum
bograði hann í leik með snótum,
kímilega komst að nótum,
á kvæðum var hann þó ei spar.
Átján voru konurnar.
Stundum mætti' hann hörkuhótum,
hann varð það að líða.
Dansinn undir hlíða.

6. Loksins varð hann lúinn og móður
í leiknum, þessi hjörvarjóður,

[1] þá, hdr. [2] hér stendur í hdr. »þeir mega slíkum«, en það virðist ekki eiga *þar heima.*

dreingnum þótti ei dansinn góður,
drógu þær hann um gólfið þar.
Átján voru konurnar.
Af því varð hann ærið hljóður,
ofsókn varð að líða.
Dansinn undir hlíða.

Hrs. J. Sig. 270. 4; 272, 4. Viðlagið hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 191.

## Kossa kvæði.

Drósin [við Danskann[1]
dulmælin[2] jók.
Hún kysti' hann Hermann
þá húma tók.

1. Int var mér að auðar Ná
eitt sinn gjörði ríða,
úr dal einum, við djúpa á
drösulinn lét hún skríða;
hún skundar þar að, sem skipið lá,
skal eg ei ljúga aðburð þann.
Hún kysti' hann Hermann.
Kokkurinn þegar kvendið sá
kryddum matinn jók.
Hún kysti' hann Hermann
þá húma tók.

2. Beykirarnir báðir senn
brúði á móti renna,
buðu þeir til tröfin tvenn
tróðu gulls að spenna;
fleiri kvazt vilja finna menn,
sem færðu sér út mjaðarkann.
Hún kysti' hann Hermann.
Ei kann gegna öllum senn,
því er sú nokkuð klók.
Hún kysti' hann Hermann
þá húma tók.

3. Litli Michill móti gekk
með ölkönnu í hendi,
silkinönnu sæti fékk,
sá hann ei vænna kvendi,
menþöll setti á miðjan bekk,
mjöður á hennar varir rann.
Hún kysti' hann Hermann.
Vífi gaf hann varníngs sekk,
þótt væri í mjórri brók.
Hún kysti' hann Hermann
þá húma tók.

4. Lángi Michill leiddi fljóð
í loptið inn að sofa,
kæru vildi kveikja jóð,
svo kvendið mætti lofa.
Aldrei hefi' eg, kvað auðar slóð,
augunum litið þvílíkan.
Hún kysti' hann Hermann.
Svo var hún af ölinu óð,
að ýmsum höfuðið skók.
Hún kysti' hann Hermann
þá húma tók.

5. Henrik sá, sem hellir öl
fyrir herramenn á könnu,
halur ei lánga hafði dvöl,
að hitta silkinönnu.
Þýzkur segir það sé böl
ef þetta fljóðið öðrum ann.
Hún kysti' hann Hermann.
Var sú rjóð en varla föl,
er virðum gamanið jók.
Hún kysti' hann Hermann
þá húma tók.

6. Búðarlokari beið þar hjá
berhöfðaður leingi,
en skipherra skeiðum frá

[1] fann Danskinn, J. M. [2] þá d., J. M.

skundar með sitt meingi.
Bragnar vildu brúði sjá,
bátsfólkið í huganum brann.
Hún kysti' hann Hermann.

. . . . . . . . . . . . . . . . .
á henni var þá mók.
Hún kysti' hann Hermann
þá húma tók.

7. Mælir hún þá til manna sín,
mér er nú skást að ríða.
Hana studdi Hans Sobín,
hún þurfti ekki að kvíða.
Stýrimaður gaf staup með vín,
stundum bjór á hella vann.
Hún kysti' hann Hermann.
Máluð var þá menja lín
á miðja landa bók.
Hún kysti' hann Hermann
þá húma tók.

8. Ís og nauð í óðar skrá
eg vil heitið greina,
stúnginn Týr þar stendur hjá
stundum ár[1] eg meina.
Stelpan eignist stökuna þá,
er stráklega um mig ræða vann.
Hún kysti' hann Hermann.
Fleiri stafi finna má
í frúinnar nafnabók.
Hún kysti' hann Hermann
þá húma tók.

Ám. 615 M, 4to. Frá 17. öld. Afskript Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66. Viðlagið með hendi Jóns stúdents Marteinssonar (hérum bil 1750) í hrs. Sv. Grv. 66. Orðab. J. Ól. Grv. húma. Viðlagið og 1. er. prentað hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island 1888, bls. 192.

## Vikivakakvæði.

Kveðið í gleði á Stórusandvík í Flóa á 17. öld.

Sighvatur á sér sæmdar fljóð,
hún syngur eins og fiðla.
Hún er glöð og heitir Gunna riðla.

1. Sæmd er að hitta[2] svoddan mær,
satt vil eg það spjalla,[3]
hún svo hljóðin hefir skær
sem háttklíngjandi bjalla.
Hver sem situr henni nær
hann vel una má sér.
Sighvatur á sér —
Út á hliðar ristill rær
róms og orða hvatur.
— sér á Sighvatur —
Upp svo bæði lyptast lær,
í leyndar þingin allir sjá.
— Sighvatur sér á —
Heppinn er sá hana fær
og hamíngjunnar rammar slóð.
— Sighvatur á sér sæmdar fljóð.
Mun sú reiknast[4] manni kær
með sitt kvæða glíngur.
Sæmdar fljóð hún syngur.
Ógleðinni af hún slær,
ei svo verður neitt til meins.
Sæmdar fljóð hún syngur eins —
Hýrnar þeirra hyggju[5] blær,
sem höfðu áður kala.
— eins og fiðala.

[1] Málrúnirnar í seinasta erindinu eru í, n. d. a. [2] hreppa B. [3] kalla B.
[4] reynast B. [5] hyrjar B.

Á fróðleiks listir frekt frábær.
finnst hún hvergi á þær stöð,
hún er svo hýr og[1] glöð.
Fólkið að þeim hljómnum hlær,
hljóðum þegar[2] hún breytir.
Hún er glöð og heitir —
Menn á flestar tyllast tær
tróðu hríngs að unna.
— glöð og heitir Gunna.
Heyrnar margur ljórann ljær,
þá ljóðum gjörir að[3] miðla.
Hún er glöð og heitir Gunna riðla.

2. Líkast er það svana saung,
svo að eyrun skefur
við þá kvæðin spjalda spaung
spreitíngs lagið hefur;
risið[4] fá þeir strax við staung,
sem stóðu ei[5] upp að knjá sér.
Sighvatur á sér —
Aukast við það elsku faung,
eyðist stygð og hatur.
— sér á Sighvatur —
Rekka nokkur þraut ei þraung,
þessu segir[6] gamni frá.
— Sighvatur sér á —
Fagurt klíngja góma gaung
sem girnilegasta simphons hljóð.
Sighvatur á sér sæmdar fljóð.
[Hún ei lögin hefir raung
hvar sem uppá stíngur.
Sæmdar fljóð hún syngur.[7]
Eingum þykir æfin laung;
eggjar deyfast hlífar fleins.
Sæmdar fljóð hún syngur eins —
Hugarglaðir hefja spraung,
heyrnar girnd að svala.
— eins og fiðala.
Hrellíng burtu strýkur straung,
stefnir[8] beint á gleymsku vöð.
Hún er svo hýr og glöð.
Ráðaleysis bossu[9] baung
bragna einga þreytir.
Hún er glöð og heitir —
Skepna eingin sést þá svaung,
sökkur neyð til grunna.
— glöð og heitir Gunna.
Meðan liðug máls er taung,
marga fær hún biðla.
Hún er glöð og heitir Gunna riðla.

3. Huldufólkið heims um bý,
þá heyrir svoddan læti,
hleypur upp[10] með glens og glý,
svo glymur í hverju stræti.
Bergþursana ber við ský,
bráðlega þeir slá sér.
Sighvatur á sér —
Þegar kemst á þetta stí
þykist einginn latur.
— sér á Sighvatur —
Óhemjur[11] með hvim og hví
hvirfilvindum líkjast þá.
— Sighvatur sér á —
Flögðin skunda flokkum í
flasandi, sem væru óð.
— Sighvatur á sér sæmdar fljóð.
Vofur, draugar, vonzku þý
við sinn leika fíngur.
Sæmdar fljóð hún syngur.
Hrækvikindin hræzlufrí
hoppa upp og gá ei neins.
Sæmdar fljóð hún syngur eins —
Moldin, steinar, slabb og slý
slettist yfir bala.
— eins og fiðala.
Veggjahnísur, maðkar, mý,
moldverpur[12] og dýrin stöð —

[1] sl. B. [2] þá B. [3] hún B. [4] reyna A. [5] sl. A. [6] bægir B. [7] Frá [ vantar í B. [8] og st. B. [9] bössu B. [10] að B. [11] Ótemj[u]r B. [12] moldarv. A.

Hún er svo hýr og glöð.
Dansar alt með hopp og hý,
háska eingum skeytir.
Hún er glöð og heitir —
Liðnir aptur lifna á ný,
líka hlýða kunna.
— glöð og heitir Gunna.
Rögnis staupa rénar dý,
ræmist[1] mærðar fiðla.
Hún er glöð og heitir Gunna riðla.

A = hrs. Sv. Grv. 67, Arch. K. 3, með hendi Guðmundar Sigurðssonar í Gaulverjabæ. B = Einarsbók dr. Jóns Þorkelssonar, skrifuð á Gaulverjabæ 1780—85 af Hannesi Kolbeinssyni.

## Vikivakakvæði.[2]

[Sveigir geira sagði' ei alls
fyrir laungu:
Nú hefi' eg tekið[3] nýjan mann,
sem nógar listir veit og kann.[4]
Hann Steinn er að farfa[5] stelpuna'
hennar Maungu.

1. Upp hefir málað hann á hana
himin, jörðu, vötn og sjó,
frelsið, þrælkan, fjör og bana,
frostið, hita, [eld og[6] snjó,
að opna, byggja, auka, vana,
æpa, hlæja, týna, fann, —
Nú hefi' eg tekið nýjan mann.
— hjörtinn, refinn, hrafninn, svana,
hal og menja slaungu.
Hann Steinn er að farfa stelpuna
hennar Maungu.

2. Gullið, eirinn,[7] [grjót og[8] grundir,
grafir, hóla, dali, fjöll,
[suðrið, norðrið, yfir, undir,
austrið, vestrið, menn og tröll,[9]
árin, vikur, eyktir, stundir,
ástin, reiðin, fraus og brann, —
Nú hefi' eg tekið nýjan mann.
— þögnin, mælskan, fjarvist, fundir
og feingið nýtt fyrir laungu.
Hann Steinn er að farfa stelpuna
hennar Maungu.

3. Báða landsins biskups stóla,
Breiðafjarðar eyja hríng,
vötn á Skaga, Vatnsdalshóla,
Vaðlasýslu,[10] Múlaþíng,
kvikfénaðinn tveggja[11] tóla,
[timbur-reit og[12] snöggvan rann,—
Nú hefi' eg tekið nýjan mann.
— og alla þá, sem ríða og róla
í rúmu plássi og þraungu.
Hann Steinn er að farfa stelpuna
hennar Maungu.

4. Birtu, myrkur, nauð og næði,
naumt og mikið upp hann dró,
hita, kulda, húngur, fæði,
heilsu, sjúkdóm, kvöl og ró,
fjarlægt, komið, frið og bræði,
frjálst og stolið, hrygð og gann,
Nú hefi' eg tekið nýjan mann.
Sannleik, lygi, sálma, kvæði,
svart og hvítt fyrir laungu.
Hann Steinn er að farfa stelpuna
hennar Maungu.[13]

---

[1] rámast B. [2] A. [3] feingið B. [4] Frá [ vantar í A. [5] mála C. [6] regnið B. [7] eirið BC. [8] grjótið B. [9] Frá [ vantar í C. [10] Vöðlusýslu A. [11] talið C. [12] timburreiti B. [13] Er. vantar í B.

5. Eingla, djöfla, ylgi, héra,
úlfa, sauði, van og of,
drepa, lífga, draga, bera,
drottna, þrælka, níð og lof,
illsku, gæði, þúa, þéra,
þurka, vökva, hinn og þann, —
Nú hefi' eg tekið nýjan mann.
— ógjört láta, einninn gera,
eins úr[1] réttu og raungu.
Hann Steinn er að farfa stelpuna
hennar Maungu.[2]

A = hrs. J. Sig. 398, 4. B = hrs. Bmfj. 9, 8. (brot, með hendi Jóns Stefánssonar á Djúpavogi. Kvæðið er kallað þar Maungubragur, og eignað Bjarna djöflabana, sem líka var kallaður Latínu-Bjarni). C = hrs. Bmfj. 388, 8. (Nokkrar gamanvísur). Kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum III, bls. 213—14. (Hrs. J. Sig. 256, 4. 5 er.). Ekki notuð.

---

1. Hústrú sat á bergi
með tygin til,
leit hún hjá sér hvergi,
að gjöra henni skil.
Lát hana leika sem hún vil.

2. Hún sá mann einn ríða,
riddarasoninn fríða.

3. Gæfi það guð minn kæri,
að minn biðillinn væri.

4. Snemma um morguninn upp hann stóð.
Þá var hún eingum manni góð.

5. Tekur hún fólk og setur í hríng,
lyklakerfið, gár í kríng.[3]

6. Sumum gaf hún eitt högg, sumum tvö,
hann geldi bóndi fékk vel sjö.

7. Sæll kominn biskup frændi,
geldan mann hefi' eg feingið.

8. Eg skal fá þér úngan mann,
sem alla blíðu veita kann.

9. Seint um morguninn upp hún stóð.
Þá var hún hverjum manni góð.

10. Tekur hún fólk og setur í hríng,
eggjakistan gár í kríng.

11. Sumum gaf hún eitt egg en sumum gaf hún tvö,
en úngi bóndinn fékk vel sjö.

12. Öllum vildi' hún nokkuð gefa
með tygin til,
geldan sló hún fast með hnefa,
er eigi gjörði henni skil.
Lát hana leika sem hún vil.

Ny kgl. Saml. 1141, nr. 90. Fyrsta erindið í hrs. Sv. Grv., með hendi hans. Kvæðið er líka í kvæðabók Gísla Ívarssonar (hrs. J. Sig. 405, 4), og er fyrsta erindið prentað eptir henni í Antiqvarisk Tidsskr. 1852, bls. 236—37.

---

1. Hvar skal sekkurinn standa?
Vér kyrjum með þann jólasaung.
Þar músin má ekki granda.
Melíor, melíor.
Stattu' upp nirfill, kirfill, tyrfill,
axin, vaxin klundur jól.

---

[1] í C. [2] Er vantar í B. [3] hríng, hdr.

2. Settu' hann hjá minnar dóttur sæng.
Vér kyrjum með þann jólasaung.
Þar er sá minnsti músagángur.
Melíor, melíor.
Stattu' upp nirfill, kirfill, tyrfill,
axin, vaxin klundur jól.

Ny kgl. Saml. 1141, fol., nr. 185. Afskript í hrs. Sv. Grv. 65, með hendi Sigurðar skólakennara Sigurðssonar, og Sveins sjálfs í 67. Líka í kvæðabók Gísla Ívarssonar. (hrs. J. Sig. 405, 4). Fyrra erindi prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 255 eptir henni.

---

Þótt kuldinn sé,
þá kvelur mig eingin pína,
ef leik eg fyrir
með lafahúfuna mína.

1. Ef keyri' eg hana' að kjálka-
rótum
kalt mér ei er heldur á fótum.
Saumuð er hún og sett með bótum,
segja' hana allir fína,
ef leik eg fyrir
með lafahúfuna mína.

2. Þótt ægir rjúki eins og mjöllin
og undir taki hæstu fjöllin,
og bylgjur gjöri' að bátum sköllin,
bugar mig ei sú pína,
ef leik eg fyrir
með lafahúfuna mína.

3. Þótt eldið frjósi' úr flestum kindum
með firna snjó og höstum vindum,
þá er mér nógu heitt með hindum,
höldum vil eg það sýna.
Leik eg fyrir
með lafahúfuna mína.

4. Þótt eg sé utan freðinn af frosti,
frá eg hún beri þá líka kosti,
kaldur bráðnar klaka rosti
og klömbruð heiptar blína,
ef leik eg fyrir
með lafahúfuna mína.

5. Ekki heldur eg kann hræðast
undrin nein eður veðrið skæðast,
svo ei heldur á sundi mæðast,
sjós þar meyjar hrína.
Leik eg fyrir
með lafahúfuna mína.

6. Tröllin þó með undur og óra
mig æra vilji', bíta og klóra,
flýja þau burt með bera bjóra,
belja upp og hrína,
þá leik eg fyrir
með lafahúfuna mína.

7. Þótt stórfiskar [í hrannar[1]höllum
hreifi sér með verstu sköllum,
þeir hverfa strax af flæðarfjöllum,
fargast gjörvöll pína.
Leik eg fyrir
með lafahúfuna mína.

8. Við átta ræ eg á ægisljóni
ef á er húfan svarðar[2] fróni,
við seytján presta' [er | sagt eg tóni,
sendir eisu rína.
Leik eg fyrir
með lafahúfuna mína.

Hrs. Bmfj. 169, 8.

---

[1] á himna-, hdr. [2] snauðar, hdr.

**Kvæði af einni jómfrú (hennar búníngi).**

Von er þótt þú veisir þér,
virðar til þín ríða.
um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

1. Hróðra blíðan hreifir kvæðum,
heiðurs meyjan, prýðin stærst;
ristill þakinn Rínar glæðum
reigsar hér með trafið glæst,
línið grænt með linna svæðum
lindin gulls um ennið ber.
Von er þótt þú veisir þér.
Með sextán öðrum silkislæðum
sig gjörir ætíð prýða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

2. Trefil brúkar tróðan fína
úr Trójuborg er fluttur sá,
í honum glansar drágons dýna;
dýrgrip þann bar Hekúbá[1];
treyju hefir tvinna lína
tvílagða með orma sker, —
Von er þótt þú veisir þér.
— af gimsteinum hún gjörir skína,
hann Göndull réð hana smíða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

3. Bæði er kraginn blár og rauður,
ber hann Rósa menta slíng,
spyrst nú hvorki um haf né hauður
í heiminum vera svoddan þíng,
rýr er hjá honum rekka auður,
rauða gulli skrýddur er.
Von er þótt þú veisir þér.
Seima týr ef sér hann snauður
sorgar missir kvíða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

4. Svuntu brúkar svanninn frómi,
sú er komin Grikkjum frá,
það bar þíng með þjassa rómi
þeingils dóttir Heleuá;
á henni framan ætla eg ljómi
alskínandi stjarna her.
Von er þótt þú veisir þér.
Mundir þú við mér taka' í tómi
til þín ef eg flýða?
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

5. Upphlut á sér eikin dúka,
er kominn úr Rómaborg.
Niptin dúka náir að brúka
niðurhlut með ormatorg.
Sextigi hefir sætan mjúka
saumnálanna þúsunder.
Von er þótt þú veisir þér.
Frú þá gjörir sinn fald að strjúka,
flýr burt ángrið lýða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

6. Fína sokka á fljóðið skýra,
flutta sunnan úr Affríká,[2]
ef þeim klæðist auðgrund hýra,
afmeyjuð ei verður þá.
Gylta skó ber grundin dýra,
er gjörðu sextíu Finnarner.
Von er þótt þú veisir þér.
Á þeim glansar verkið víra,
ver það meinum hríða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

7. Fatið brúkar falda reina,
fagurt, glæst með jötna skraf,
fjórlagt er með flugjels steina,
Freyju þetta Óðinn gaf.
Háleistar með hegðan hreina
halda menn séu eingelsker.
Von er þótt þú veisir þér.
Ertu allra ýngissveina

[1] Hekúlá, hdr. [2] Affýrika, hdr.

eptirlæti og blíða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

8. Mállinda ber meyjan ljósa,
Marmoría átti hann;
allir munu þig ýtar kjósa.
ef þeim sýnir dýrgrip þann.
Saffrejus þar sér kann hrósa
og Sýríaveldis kóngarner.
Von er þótt þú veisir þér;
er þar líka Áki að frjósa,
inn þá vildi hann skríða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

9. Hempu klæðist hríngatróða
hún[1] er sett með Freyju tár;
sextán kvennmenn, satt skal ljóða,
saumuðu hana' í fjórtán ár.
Þetta átti þíngið góða
þrjátíu tröll og óvætter.
Von er þótt þú veisir þér.
Með svoddan gripum sætan rjóða
sig gjörir ætíð skrýða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

10. Klúturinn trúi' eg kvendi sæmi,
kominn er hann úr Paradís,
hann kostar fjögur keisaradæmi,
er kappar halda beztan prís;
búinn er hann með bragða næmi,
birtu skæra í myrkri lér.
Von er þótt þú veisir þér.
Menja grund ef með hann kæmi
munda' eg glaður bíða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

11. Laufaprjóna skartið skæra
skín á fríðri silkilín,
gjöra þeir af sér geislum tæra,
glæst sem sól í heiði skín.
Ennisspaung ber artug kæra,
er átta steyptu gullsmiðer.
Von er þótt þú veisir þér.
Allar gjört hefir listir læra
lindin brendra ríða (!).
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

12. Ermahnappar átján klíngja
auðartróðu handlegg við,
fagurt eins og fuglar sýngja,
fékk hún þá hjá silfursmið;
sem Arons bjöllur ætíð hríngja.[2]
ó, hvað vel þeir hrósa sér.
Von er þótt þú veisir þér.
Svoddan fögur Fáfnis dýngja
finnst nú ekki víða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

13. Þín er festin fljóðið teita,
Frýgíu landi smíðuð í;
fallegir þín lýðir leita,
létir þú þá vita af því.
Ertu prýðin Íslands sveita,
af þér frægðin víða fer.
Von er þótt þú veisir þér.
Þótt öllum gjört hafir ýtum neita,
eg því glaður trýða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

14. Hrínga tólf á tvinna nanna,
er Tekla forðum á sér bar;
grundin fögur greipar fanna
glæst er öll með jötna skar.
Allir munu það ýtar sanna,
er það líka skyldugt [mér].
Von er þótt þú veisir þér.
Efnaleysið ljóst mun banna
leingur óð að smíða.
Um fríðleik þinn að fjórir kóngar
stríða.

[1] *sú, hdr.* [2] klíngja. hdr.

Hrs. Rasks 39, 4to; bls. 385—87. Skrifað 6/12 1788. **Afskript í hrs.** Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar.

## Píkuraunardans.[1]

Eptir séra Þorstein Jónsson á Dvergasteini († 1800).

[Gamlir og úngir gipta sig
gautar rómu[2] tjalda;[3]
einginn vill þó[4] eiga mig;[5]
eitthvert skollans[6] ólán[7] má því
valda.

1. Mörg í heimi mæðan stángar
margir girnast hjúskap fánga,
aumt má heita einlíf stránga
æfinnar um gjörvalt stig.
Einginn vill samt eiga mig.
Um það kvarta eik réð spánga
úng, með lyndi' ókalda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.[8]

2. Fyrst þá hvolpa fékk eg vitið,
fannst mér svoddan ástand skitið,
[með kvöl að[9] hafa[10] kröptum[11]
slitið,
kallmannslaus um[12] æsku[13] stig.
Einginn vill þó[14] eiga mig.
Fáar með[15] þeim beizlum bitið
bríkur hafa falda.[16]
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

3. [Fyrst þá eg var[17] fjórtan ára
flaug[18] mér strax[19] um gríðar kára,
[hve[20] góð[21] [að væri giptíng[22] klára,
og[23] [geyma mann[24] fyrir framan sig.
Einginn vill þó eiga mig.
Hugsan þá eg held[25] mjög[26] dára.
Hvers á eg að gjalda?
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

4. Nú er eg til þess alfær orðin,
aðrar[27] reisa[28] mjórri um sporðinn,
að[29] [uppreist[30] væri[31] brúðkaups-
borðin
og[32] byðist giptíng heiðarlig.
Einginn vill þó eiga mig.
Því[33] nógur er hjá mér forstands-
forðinn
(flestu'[34] [í lagi[35] að halda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

5. Einginn ber mér óræksluna,
eptir flestu gjöri' eg að[36] muna;
alsveitt laungum áfram[37] bruna,
eptirleifarnar[38] sýna[39] sig, —
Einginn vill þó eiga mig.
Ár og síð með áhyggjuna
öllu[40] saman að halda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

---

[1] Píkuraun BCDEFGH. [2] rögnis CG. [3] skjalda AB; falda CG. [4] eða: samt D. [5] Frá [ sl. B. [6] skrattans CG; sérlegt E. [7] ólag CG. [8] B. [9] að kræla' og CDG; að þræla' og E. [10] krælt að hafa' og B. [11] kroppnum E. [12] við CG. [13] æfi- DE; elli- G. [14] samt B (sumstaðar). [15] mjög G. [16] faldað E (rángt). [17] þá fullra var eg CG. [18] fló CG; féll E. [19] slíkt CG. [20] hvað G. [21] góð hvað BDE. [22] þeim væri giptan G. [23] sem G. [24] gæfumann ABC; gæfi mann G; eiga mann E. [25] hélt B. [26] mig BG. [27] áður A; aðra' að DE. [28] reisa upp B; vefja DE. [29] ef DE. [30] uppsett BD. [31] upp hér tækist E. [32] mér CG. [33] sl. CDEG. [34] á flestu G. [35] kann eg CG. Frá ( fénu saman BE; framsýnin eg eða: þeir framsýna mig D. [36] sl. G. [37] ávalt B. [38] eptirleifar G. [39] birta CG; votta D. [40] ættu A.

6. Ekki þarf þá[1] frá mér[2] fæla
fasið[3] ilt[4] og[5] lund[6] ódæla.
Aldrei gjöri' eg andlit skæla,
augun[7] hýr[8] og góðmannlig.[9]
Einginn vill þó eiga mig.
Mín [því gjörði[10] móðir hæla
mér [þá tók[11] að[12] falda.[13]
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

7. Rjóð er eg sem rós á vánga,
rauðleitir[14] að belti hánga
hárlokkar af heyrnar tánga,
helzt má furða' [á slíku[15] sig.
Einginn vill þó eiga mig.
Aðrar[16] núna[17] út þó[18] gánga
eikur síðri[19] spjalda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

8. Krepta [fyr þeir[20] kellíng festa,
kalda, stirða, heilsulesta.[21]
Það er aumleg umsjón presta
ekki[22] gefa' að slíku[23] sig.
Einginn vill þó eiga mig.
[Visnar svo í bygðum[24] bezta
brúðarefnið talda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

9. [Fyrir það vil[25] eg flest alt[26] byggja,
sem frá mér kynni[27] biðilinn styggja.
Eingan hjá mér læt eg liggja
lausahrappinn[28] geðs um stig, —
Einginn vill þó eiga mig.
utan[29] þann[30] hvers hreinlynd
hyggja
hjónasæng vill[31] tjalda.[32]
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

10. Þótt eg sé í þjóðbrautinni
það er[33] ei bót á [lukku[34] minni,[35]
hleyp eg út í [hvert eitt[36] sinni
þá hundar gelta' og ýgla sig; —
Einginn vill þó eiga mig.
— í meyjarbón[37] ef koma kynni
kvistir[38] rómu[39] tjalda.[40]
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

11. En þeir[41] fram hjá allir geisa,[42]
einginn vill um hlaðið[43] þeysa.[44]
miklu síður mál þau[45] reisa
minn við föður, tignarlig,[46]
[að þeir vilji[47] eiga mig.
Ekki þarf hann [út að[48] leysa
[49]aura[50] gjaldið[51] talda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

12. Ber eg mig sem bezt að skauta,
býst eg um í ranni nauta,
ef einhver kynni að mér snauta
auðar[52]lundur fíls[53] um stig.
Einginn vill þó eiga mig.
Sést eg meðal[54] silkilauta
svinn á klútum halda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.[55]

[1] það B. [2] að D; mig(!) G. [3] falsið CG. [4] eða: ljótt D [5] né CDEG. [6] geð D. [7] ætíð D. [8] glöð CG. [9] mannúðlig BCG. [10] þótt gjörir A. [11] þótt takið A. [12] sl. A. [13] halda D. [14] eða: rauðgulir D. [15] þessu D. Frá [ þar á CG. [16] Alment G. [17] nú samt D. [18] hér DE. [19] síður AB; síðra G. [20] heldur B. [21] -blesta D. Frá [ hræsa. blesta E. [22] þeir ekkert CG; að ekkert DE. [23] þessu D. [24] Eg snáfa svo um bygðir B. [25] vildi CG. [26] Flest alt gjöri' eg fyrir DE. [27] gjörir DE. [28] laufa njótinn D. [29] heldur BDE. [30] kýs E. [31] nam AB; er D; að E. [32] halda B. [33] ræður AE. [34] reynslu D. [35] ólukkunni DE. [36] vantar í A. Frá [ hverju CG. [37] bónorðsför DE. [38] kundur CG; kvistur D. [39] oturs D. [40] skjalda CEG; gjalda D. [41] þar B. [42] þeysa E. [43] sl. B. [44] geysa E. [45] þá E. [46] venjulig ACG; sóma eða heiðarlig D. [47] Einginn vill þó ABDE; að þeir vilja' ei C. [48] úr því CG. [49] né CG. [50] ára E. [51] *greiða* ABCG; gróðann E. [52] örfa- E. [53] geðs E. [54] millum E. [55] DE.

13. Þegar þeim[1] gánga giptumálin
gleðina vekur[2] hjónaskálin,
af drekka sem ein sé sálin,
una gjörir[3] þá hvort[4] um sig.
Einginn vill þó eiga mig.
Eg [er þá[5] með pontu'[6] og pálinn
að pikka[7] upp[8] vatnið kalda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

14. Þegar koma á kirkjufundinn
kvæntir[9] menn og ektasprundin,
konurnar[10] leiðir klerksins mundin
í kvennasætin[11] tignarlig.[12] —
Einginn vill þó eiga mig.
— en[13] mig þá[14] ekki meira' en
hundinn
meta runnar skjalda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

15. Við kirkjudyrnar kreppast má eg,
kvennsæti[15] því[16] ekkert á eg,
[úti' á[17] glugga[18] líka lá eg,
[og[19] lánið það[20] er[21] fyrir sig.
Einginn vill þó eiga mig.
Margan ýngismanninn[22] sá eg,
[má þó[23] eingum[24] halda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

16. Yfir mig þau[25] ósköp falla
þá úng sér hjón [á koddann[26] halla,
haldið fæ eg vitinu valla,
[væri það ekki[27] mér um svig.[28]
[Einginn vill þó[29] eiga mig.
[Eg vildi[30] gefa veröld alla
við fyrir úngan skjalda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.[31]

17. Í hug þá kemur mér[32] hvílu
vinnan
hjartverk [fæ eg mikið[33] stinnan,
[mér finnst eg loga[34] öll að[35] innan
af[36] óslökkvandi[37] píslar rig.
Einginn vill þó eiga mig.
Harðara [ber sá[38] brjóst en tinnan,
[sem böl ei óttast[39] talda.[40]
Eitthvert skollans ólán má því
valda.

18. Öll þótt vilji ágæt vífin
af mér draga sútarkífin,
[þess sárari[41] ber eg sorgar-[42]
knífinn,
sem að sker í kríngum sig.
Einginn vill þó eiga mig.
[Sætara mjög[43] er sér við lífin
sverðabrjótum halda.
Eitthvert skollans ólán má því
valda.[44]

---

[1] sl. D. [2] eykur BE; eflir CG. [3] gjöra B; má CG. [4] hver A. [5] geing þá út B. [6] prik DE. [7] pjakka' CDEG. [8] sl. A. [9] kátir B. [10] konuna CG. [11] konusætin B; kvenna sætið G. [12] hæversklig CG; heiðarlig D. [13] sl. D. [14] þar CG. [15] kvennsætið G. [16] fyrst D. [17] upp við B; upp á CG; út við DE. [18] gluggann BD. [19] sl. DG. [20] lukkan sú B. [21] var D [22] -mann þar D. [23] mátti' eg E. [24] eigum G. [25] gjöra BDE; stundum CG. [26] eða: að koddanum D. [27] verða gjörir það D. [28] rig B. [29] að einginn vill G. [30] Vilda eg CEG. [31] Er. vantar í C. [32] sl. CDEG. [33] nógu CG; yfrið D; ærið E. Frá [ sl. B. [34] er sem logi' eg DE. [35] þá CG. [36] með BCDEG. [37] ólíðandi CG. [38] berst þá D. [39] aumkar CDEG. Frá [ böl það eykur B. [40] kalda BCG. [41] því sárara E. [42] sútar- E. [43] sæturnar þá E. [44] DE.

19. Vonarlaus nú[1] orðin er eg,
óspilt[2] mey í garðinn[3] fer eg,
stó[r]an[4] lífsins bölmóð[5] ber eg,
bóndalaus, um[6] elli[7] stig,
[því einginn vill enn[8] eiga mig.
[Harða sorg í hjarta[9] ber[10] eg
[af harmi[11] áðurtalda.[12]
Eitthvert skollans ólán má því valda.

20. Illa kafna'[13] eg undir nafni,
[14]ömmu minnar [varð ei[15] jafni,
giptist hún með gripa safni
góðum[16] bónda, heims[17] á[18] stig.
Einginn vill þó eiga mig.
Mínum trúi'[19] eg heillum hafni
hrakleg mótgángs alda.
Eitthvert skollans ólán má því valda.

21. Mér [er ei gagn[20] að mögla' um þetta
né meiru' úr ausublaðinu skvetta;
ást[21] af mér eg[22] ætla' að sletta,
[ángri vafin geðs um[23] stig.
[Einginn vill þó[24] eiga mig.
Píkuraunardans má[25] detta,
dofni[26] Sigtýs alda.
[Bögurnar lesi[27] [bríkur úngar skjalda.[28]

A = hrs. Bmfj. 179, 8 (skrifað 1856). B = hrs. Bmfj. 160, 8, bls 93—97 (skrifað 1847—48). C = hrs. Bmfj. 9, III, 8. (kvæðabók Jóns Stefánssonar; brunnið). D = hrs. Bmfj. 340, 8 (skrifað af séra Stefáni Þorsteinssyni á Völlum). E = ótalið hr. Bmfj., 8. Hvarfsbók (frá Þorsteini Þorkelssyni á Syðra-Hvarfi í Svarfaðardal) II, nr. 125. F = viðlagið, hrs. Bmfj. 614, 8, eptir kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum, nr. 181. Þar aðeins 9. erindi. G = hrs. Rasks 46 a, bls. 32—33, með hendi Rasks sjálfs. Enn er kvæðið í kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar í arkarbroti, sem skrifuð er af Páli Hjaltalín í Stykkishólmi, 14 er.

Þess má geta að kvæði þetta er eitt af þeim 59 kvæðum, sem Bókmentafélagið ætlaði að gefa út um árið. Hrs. Bmfj. 26, 4 = H.

---

Það er sú mesta hugarins pín
fyrir hrundunum þar á Eyri,
allar vilja þær eiga hann Grím;
er sú meiri,
er sú lukkan meiri.

1. Kemur sú fyrsta kyrtlabrú,
klagar hún ánauð sína:
»Við mig er hann búinn að binda trú
og blíðuna kanna mína;
allra fyrst var aðferð sú

[1] því B. [2] ógipt DE. [3] eða: gröfina D. [4] margan B; nógan DE; nunnu- G. [5] blómann DE. [6] við CG. [7] æfi BDE. [8] Einginn vill þó G [9] af mannleysinu mæðast B; til lítils meydóm leingur C; minn til einskis meydóm DE. [10] fer B; ver EG. [11] böli A. [12] meyjar vita taldar B; lundum rómu tjalda C; meiðum hildar tjalda eða: má fyrir satt það halda D; meiðar(?) róma tjalda E. [13] kafnaði G. [14] þá D; að E. [15] var eg E. [16] geðugum B. [17] hjals CG. [18] um BCE. [19] frá B. [20] gaman B; hægt E. Frá [ ei tjáir D. [21] út BCDEG. [22] því G. [23] ángurvær um hyggju CG. [24] því einginn vildi CG. [25] skal BCG. [26] dofnar CDEG. [27] Eitthvert skollans B; atriðs skálka CG. [28] falda DE. Frá [ ólán má því valda B; ólag má því valda CG.

áður en sprakk út þetta prím.
Eg ætlaði mér að eiga Grím.
Hafi nú eingin hrínga brú
hugann á honum fleiri.«
Er sú meiri,
er sú lukkan meiri.

2. Þegar önnur heyrir hér,
að hrundu tekur að sinna,
hugsar hún með sjálfri sér,
sitt skuli' ekki minna,
reiðisvip út skakkan sker:
»Skal hann eingin draga til sín.
Eg ætlaði mér að eiga' hann Grím.
Eingin dregur hann ein frá mér,
en þótt séu fleiri.«
Er sú meiri,
er sú lukkan meiri.

3. Þriðja svaraði þiljan bands:
»Það mér eykur pínu.
Þegar getið er þessa manns
þreingir að lífi mínu,
því ber eg jafnan hug til hans,
hvort sem úti' er dögg eða hrím.
Eg ætlaði mér að eiga' hann Grím.«
Gjörir því opt á gleðinni stans,
á grundum illa eiri[r].
Er sú meiri,
er sú lukkan meiri.

4. Fjórða svaraði falda hnoss:
»Fyrðar meiga það heyra,
veitt hefi' eg honum varanna koss;
vel ef ekki meira,
því ber eg jafnan hugar kross
þá hrundir gjöra hjá honum slím.
Eg ætlaði mér að eiga' hann Grím.
Einhverja á hann eina' af oss,
ekki þarf hann fleiri.«
Er sú meiri,
er sú lukkan meiri.

Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar í arkarbroti, með hendi Páls Hjaltalíns í Stykkishólmi († 1876).

»Vænna góðmentra, velskikkaðra meyja fars og fríðindis virta niðrenda **vítaslagur** í kvæðismynd.«[1]

Eptir séra Þorlák Þórarinsson.

Það er nokkuð meingað mál
og múkavilla,
jeg má ekki jómfrúnum dilla.
ef að drósin úng og fróm
ei skal hópinn fylla.
Jeg má ekki jómfrúnum dilla.

1. Sætan kjósa eyrun[2] óm.
Augum lystíng færa
geislar, rósir, runnar, blóm
og rauðagullið skæra;
getur[3] hrós í gumna róm
gjörvalt náttúrunnar prjál.
Það er nokkuð meingað mál

2. Foldar ekki fæðist jurt
fegri' en liljan[4] hýra,
nokkrir segja' að Ammons[5] urt
ilman færi[6] dýra.
Þó er meyjar mynd og kurt
meira verð, ef helg er sál.
Það er nokkuð meingað mál.

[1] B. [2] eyrum C. [3] glæðir E. [4] meyjan C. [5] Amoms AB. [6] gefi BCE.

skuli'[1] eg reigja þelið þurt
[við þeim, og[2] hýru[3] spilla.
Jeg má ekki jómfrúnum dilla.

3. Kærust býður kjörin þrenn
kurteis mærin únga,
ef hana prýðir alt í senn
álit, geð og túnga.
Margt ei níðir mundángenn,
mær ef hatar eðlisbrjál.
Það er nokkuð meingað mál.
Hrósan[4] þýða, heyri menn,
hjá mér tekst upp illa.
Jeg má ekki jómfrúnum dilla.[5]

4. Sumir látast leggja fín
líknarráð og segja:
Hafðu gát á högum[6] þín,
horfðu sízt til meyja,
þær með káta klæki[7] sín
kunna þér að vinna tál.
Það er nokkuð meingað mál
ef sjálfir játa silkilín
sér geðfelt að hylla,
en[8] jeg má ekki jómfrúnum dilla.

5. [Skal það[9] vera nokkuð næmt
nauðbeygjunnar[10] efni,
verði mér að mynnast dræmt
mens við únga Gefni?
Þessum er svo það viðkvæmt,
þeirra líf sem pikki nál.
Það er nokkuð meingað mál.
Þeir[11] aka sér með úr og kjæmt
og út í höttinn grilla.
Jeg má ekki jómfrúnum dilla.

6. Ef eg sögu ber í ljós,
bauga lindi gefna,
eða sögu inni drós,
eintal má ei[12] nefna,
þá er jögun, jafnvel[13] skós
jeg sé uppá kvennarjál.
Það er nokkuð meingað mál.
Gott ef[14] fögur gullhlaðsrós
grunaðist[15] ei mín frilla.
Jeg má ekki jómfrúnum dilla.

7. Hvorki[16] má eg brosa blítt,
bjóða koss né varma,
skrúðið[17] á þeim skoða frítt[18]
né[19] skrautið[20] munns og hvarma.
Hönd ef brá um herðar lítt,
hlaupið var[21] í sánkti Pál.
Það er nokkuð meingað mál.
Fyrir mér, já er furðu títt
fixeruð hver átylla.
Jeg má ekki jómfrúnum dilla.

8. Alla finn eg orsök mér
út í Franz að hlaupa,
kveðja tvinna[22] hrundir hér,
helgan stein þar kaupa,
setjast inn og sýngja á kver
signaðan Ronsívalsannál.[23]
Það er nokkuð meingað mál.
Þá munu hinna[24] hugrauner
Haki' og Óðinn stilla.
Jeg má ekki jómfrúnum dilla.

9. Annars[25] mun eg fresta för
fyrst um árið térna,[26]
skaps við una skárri kjör

[1] skyldi D og byrjar hér. [2] og þeirra DE. [3] blíðu D. [4] Hrós um C. [5] Er. vantar í D. [6] huga CE. [7] kæti D; kæki E. [8] B. [9] það má B. [10] nauðbeygingar C. [11] D. [12] það A. [13] jöfn og D. [14] að ABE; er D. [15] grunist C. [16] Ekki D. [17] skartið D. [18] nýtt D. [19] sl. D. [20] skartið C. [21] er D. [22] svinnar D. [23] Rúnsivals- D; Rúnsevals- E. [24] sinna A. [25] Heldur D. [26] = hjerna.

og skemta meyjum hérna,
þefgautunum þakkarsvör
þeygi velja góms af ál.
Það [skal ekki[1] meingað mál.

[Víkja stunum, viðra[2] fjör[3]
og virt á svönnum gylla,
já, með æru jómfrúnum dilla.[4]

A = hrs. Bmfj. 567, 8. B = hrs. Bmfj. 74, 8, bls. 66—68. C = ..jóðmæli eptir Þorlák Þórarinsson. Rkv. 1858, bls. 160—63. D = hrs. ..mfj. 407, 4. E = hrs. Rasks 87, 41.—43. bl.

---

Það er saga þó fyrir sig
þægileg sem beri.
Það hefi' eg veri,
það hefi' eg frétt í [veri].

.. Úngar vilja eikur spj[alda]
ágætar sér manninn fá,
fríviljugar fram því halda,
ferðugt, svo sem von er á.
Þótt lítist máske lund með kalda
láta þær ei heptast þig.
Það er saga þó fyrir sig.
Valla gjörir vizkan valda
viljanum sem geri.
Það hefi' eg veri,
það hefi' eg frétt í veri.

:. Klúta, treyjur, föt og fal[da]
frábærlegum blóma m[eð]
tilreiða, sem traust það hal[da],
trúi' eg við það hressist geð,
að það fríðleik vildi val[da]
vorkennir, þótt nuddi sig.
Það er saga þó fyrir sig.
Í nárann kippir niptin spj[alda]
nauð sem að þeim beri.
Það hefi' eg veri,
það hefi' eg frétt í veri.

. [Eikur hrínga a]morslega
[ýngismönnum] standa hjá,
[með hæ]versku og hjartans trega
[ho]rfa einhvern dreinginn á,
hornauga svo hýrt þær gera.
[Hva]ð þær hugsa grunar mig, —
Það er saga þó fyrir sig.
— [að] hjá honum vildu vera,
[valla] á þótt beri.
Það hefi' eg veri,
það hefi' eg frétt í veri.

4. [Ef] þær eignast einhvern strókinn
[ánæ]gðar sig kalla þá,
[þó e]i sé nema einföld brókin
[ofan] til hans lærum á,
[dig]rar hafa dreingja krókinn
[dáv]ænar, sem grunar mig.
Það er saga þó fyrir sig.
[Má]ske sætan lángi' í . . . . . .
[líti]ð á þótt beri.
Það hefi' eg veri,
það hefi' eg frétt í veri.

5. [Það] er til á mannamótum,
[me]njur gulls, eg hefi það séð,
hænast gjöra' að hríngabrjótum,
he[fja] má ske orðin téð,
[falle]ga með fríðum hótum,
[fleygi]r skjalda', að horfa' á þig.
Það er saga þó fyrir sig.
. . . . . . . . . . . .
. . . . . . taka' á beri.
Það hefi' eg veri,
það hefi' eg frétt í veri.

---

[1] er nokkuð D. [2] vigra E. [3] og víkja stundum Vestra knör D. [4] að dilla E.

6. Alt er til um efnið þetta,
ástin veldur menjalín,
innst í hjarta upp nam spr[etta],
orsökin er þetta fín.
Þó ei tala' um þær, sem pretta,
með þánkabrotin ýmislig.
Það er saga þó fyrir sig.
Margt eg gjöri' af mörgu frétta,
meining er sem geri.
Það hefi' eg veri,
það hefi' eg frétt í veri.

Hrs. Bmfj. 9, II, 8. (Kvæðabók Jóns Stefánssonar; brunnið).

**»Eitt sunnlenzkt vikivakakvæði**
ort á Múnkaþverá eptir relation eins kaupamanns.«

Hjá honum Jóni Hjaltalín
hoppa menn sér til vansa.
Allan vetrinn eru þeir að dansa.

1. Þar er ekkert utan gleði
æfinleg[1] á sunnudags kvöld,
yndi þar hver öðrum léði
unz þeir fá sín makleg gjöld,
leggja niður loks að beði
lúin og máttlaus beinin sín.
Hjá honum Jóni Hjaltalín —
Sá það vissi, sem mér téði
satt frá þessum glansa.[2]
— allan vetrinn eru þeir að dansa.

2. Þeir eru' að drekka og dómínera,
duga því að leika bezt;
sig að hjörtum sumir gera,
sumir fara að ríða hest
eins og vilji þeir ásýnd bera
annara kinda heldur en sín.
Hjá honum Jóni Hjaltalín —
Hvell og snjöll upp hljóðin skera,
hvergi vanir að stanza.
— allan vetrinn eru þeir að dansa.

3. Þar er farið í vikivaka,
vita bæði frúr og menn,
sínum höndum saman haka,[3]
síðan[4] byrja dansleikenn;
eptir þetta kveða og kvaka,
kvennfólkið í silfri skín.
Hjá honum Jóni Hjaltalín —
Eins og fórn,[5] sem af skal taka
út búnir með kransa.
— allan vetrinn eru þeir að dansa.

4. Frá þeim vetrar fyrstu nóttum
fram það geingur undir jól,
liggi ei menn í sárum sóttum,
svo sem skildir heims við ból;
hartnær alt að hana óttum
[háreystið ei fyrir þeim dvín.[6]
Hjá honum Jóni Hjaltalín —
Þar er ekki haft mjög hljótt um,
þá höldar sig til fansa.
— allan vetrinn eru þeir að dansa.

5. Nóttina fyrir[7] nýjárs daginn
nokkuð trúi' eg haft sé við,
fellur mönnum flest í haginn
fullum upp með gamanið;
þá er á ferðum einginn aginn,
allir ráða gjörðum[8] sín.
Hjá honum Jóni Hjaltalín —
Fagur kyrtill, fullur maginn,
fallega þeir sér anza.
— allan vetrinn eru þeir að dansa.

[1] æfinlega C. [2] vansa B. [3] taka B. [4] sumir A. [5] börn C.
[6] hegðan sú má kallast fín C. [7] eptir A. [8] ferðum C.

6. Annars dags kvöld eins í jólum
og aðfaranótt þrettándans
leika menn sem hlaupi' á hjólum,
hvergi verður gleðinnar stans.
Hætt er við þeir hríngi tólum,
hegðun sú má kallast fín.
Hjá honum Jóni Hjaltalín —
Gaman er að svoddan sjólum,
sér þótt stofni vansa.
— allan vetrinn eru þeir að dansa.

7. Hafa menn[1] þá hjátrú sterka,
hvenær sem það fellur úr,
að eitthvað muni ilt þeim verka
óhamíngju bylgjan súr.
Slíkt fyrir utan kenníng klerka
komið er þeim í hyggju skrín.
Hjá honum Jóni Hjaltalín —
þar með skútu Litars lerka
læt eg þagnar skansa.[2]
— allan vetrinn eru þeir að dansa.

A = Handrit það, sem nefnt er í Catalogus librorum quos reliquit Finn Magnussen. Hauniæ 1857, bls. 12 (nr. 176). Það er nú á Landsbókasafninu. B = hrs. Landsbókasafnsins B, nr. 220 a. C = Afskr. Jóns Árnasonar eptir kveri, sem Páll alþíngismaður Vídalín átti, og Jón Salómonsson á Reykjarfirði hafði ritað. Afskrift Jóns Sigurðssonar (eptir 176) í hrs. Sv. Grv. 66, 4, og segir Jón þar, að kvæðið sé eptir séra Gunnar Pálsson. Þegar Gunnar var djákni á Múnkaþverá hefir sunnlenzkur kaupamaður sagt honum frá vikivökum hjá Jóni Hjaltalín, sem var sýslumaður í Gullbríngu og Kjósar sýslu († 1754). Gunnari hafa líklega þótt skemtanir þessar léttúðugar og ósæmilegar, og hefir því ort skopkvæði þetta. Jón Hjaltalín var giptur konu frá Jótlandi, sem, að öllum líkindum, hefir verið gefin fyrir dans og annan leikaraskap. Jón sýslumaður Hjaltalín var lángafi Jóns Hjaltalíns landlæknis.

[1] þeir C. [2] stansa C.

## Brot.

. . . . . . . lén
aldregi kynni að líða.

2. Fénga eg með frómleik nú
frygðar kvinnu eina,
vilda eg víst að væri sú
vella grundin hreina
að öllu sem mér þykir þú
fyrir þýðleik þeima.
Þú ert elskandi blómið bjart,
burðug kvinnan sköpuð í skart.
sá eg ei slíka neina.

3. Mér hefir sezt í sinnu past
bölið, með eingu gamni.
Það bægði mér frá brúði fast,
með blíðum yndis karmi.
Það hefir mitt ljóst
þvíngað brjóst
sárum sútar harmi;
sef eg því aldri sætan blund,
nema hin mæta menjagrund,
á mjúkum þínum armi.

4. Mér hefir sezt í sinnu reit
sorg um lángan tíma,
sítz eg, kurteis kvinnan, leit
kærlega ásjón þína;
eingi mann í veröldu veit
alla þeinkíng mína;
bætt er ei það beizka stríð
nema björtust komi til baugahlíð
með væna vizku sína.

5. Faðir og móðir, framandi drótt,
fast haldandi kvíða
síð og árla, svarta nótt,
sjálfan dag sem tíða;
vakti bæði hátt og hljótt,
hvergi mátti bíða.
Fyrir þá heitu hrygðargrein
eg ber því nauð og margföld mein
fyrir auðar lindi hvít[r]i.

6. Þó að eg lifi vel þúsund ár
þiljan Ófnis landa,
mér það aldri úr minni gár,
er mig bar þá til handa.
Yðvart líf og æran stár
oss til ætinlegs vanda,
eðla lindin, rósin reyð,
Eg lofa þitt nafn í lífi' og deyð,
líkt að svo megi standa.

ÁM. 155 b, 8. Skinnblað frá hér um bil 1500.

---

1. Vil eg um væna vella nipt
vanda mansaungs kvæði.
Þessi hin fríða faldadript,
er frygðar hjörtun bæði,
búkinn minn og brjóstið þitt
í burt frá ángr og mæði,
í huga kemur mér hverja stund
hennar blíða og kærleg lund,
stjórn og staðlegt æði.

2. Má eg því einga óðarsmíð
ýngispíkum færa;
hreykjast[1] upp á hverri tíð
og hirða ei slíkt að læra.
Eg svo fángnar(!) árla' og síð,
að eingin fylgir æra.
Gjarna vildi' eg gleðja þá
er gaman[2] þykir að hlýða á,
hvort það er kall eður kvinna.

3. Einginn skyldi ýngismann
elska konur úr máta,
veröldin fær svo viltan hann,
vopna lundinn káta.
Frygðir eingar forðast kann,
ef fljóðin vilja játa;
hættur er þeim harmurinn sá,
hvergi . . . . . . . . fá,
eð þeim vill ekki láta.

4. Hennar fæ . . . . . . hjarta mér
hrundið aldri dygðum;
kallmanns hjartað kemur af sér
með klóksköpum og lygðum.
Þennan hefir eg þúngan af þér
og þínum amors dygðum;
veit eg hitt eð vonda stríð,
vefur mig bæði árla' og síð
í böli' og beiskum hrygðum

5. Rjóður og klár er ristill mjór
og runninn upp með sóma,
jörðin öll með jurtum stár
og allskyns veraldar blóma;
höndin er svo hvít sem snjár
og hár sem plantin plóma.
Hver tér alla meyjar makt?
Miklu framar en eg fær sagt
er[3] víf með virðíng fróma

6. Veit eg ei nema verði það
fyrir Venris sañ hennar,
að brjóstið spríngi af bölinu í stað,
en búkurinn mun þess kenna,
fyrir það ljósa liljublað
að lífið manns mun brenna,
og er ei hægt að hyggja af því
eð harmurinn kemur hjartað í
fyrir ástir ýngiskvenna.

7. Ekki gjörði mér það mein
mættig frúnnar líta,
særðist hvorki hold né bein,
hörund í sundur slíta,
fyrir þá mætu menja rein
mundi á mig bíta
hvorki járn né eldrinn heitr
ormar né það kalda eitr,
ef fèngi' eg fljóðið hvíta.

8. Þó að eg nú fyrir þornagrund
þegar í eldi brenni,
kenda eg hennar kærlegan fund,
kátur eg það til ynni,
búin með sína blíðu lund,
búkurinn hvergi rynni;
þó að eg væri á bálinu brendr,
broddum skotinn og sviðanum rendr
og laminn með ljótum þyrni.

9. Og er það ei vón að vikni sá
eð vill hún ekki unna,
hverja stund hann hyggr að fá
hennar elsku brunna;
er mér sagt að júngfrú sjá
muni æfu bezta kunna;
og er ei kyn þótt kallmannsbrjóst
kveikni upp af sárum þjóst
fyrir skilníng skjalda runna.

10. Frændur vildu fýsa nú
fundi okkar að skilja,
hvort gaf öðru sína trú
hjörfa Týr og lilja
mundi eg leingur . . . . .
. . . . . . . . . . . .

ÁM. 155 b. 8. Skinnblað frá hér um bil 1500.

---

[1] Kreyggiazt, hdr. [2] gamat, hdr. [3] Stendur í hdr. á undan eg.

## Kvæði við ölsköp.

Virðist vera eignað Birni Jónssyni á Skarðsá.

Því fór eg híngað,
hugði gleðina sýna;
öllu skulum vér ángrinu týna.

1. Gott eg votta' að gamna sér
hjá góðum, fróðum mönnum,
kunna gunnum gegna hér
með gleðikveðjum sönnum,
svo gætum mæta vísum vér
vænlegt borðið hríngað,
því fór eg híngað.
Sorgar förgun ölið er,
eyðist neyð og pína.
Öllu skulum vér ángrinu týna.

2. Mér ef gera góðir menn
gistíng vistar neita,
skemtan heimta skulu senn
með skytt . . . . .
. . . . . . . .

ÁM. 155 a III, 8. Frá hérum bil 1700. Prentað í Tímariti Bmfj. VIII. 1887, bls. 52—53.

## Eitt kvæði.

Brotin og þrotin er beint
í hlé
Bónar[1] Sónar dugga;
rennur enn þótt rámur sé
rómur af góma skugga.

1. Óma syndi[2] ferju far
fyrst úr nausti ljóða;
set eg út á Sónar mar
snekkju hnakkinn góða;
undan landi byr mig bar,
bezta reisti siglutré.
Rennur enn þótt rámur sé —
Bylgju ylgjan barðist. skar;
birtir skýrt á glugga.
— rómur af góma skugga.

2. Kvásis ljóð eg bragníng býð,
blómasömum þegni,
mitt þótt stutt sé mærðarsmíð
mála tálmun gegni;
af höndum sendist fregnin fríð;
faðirinn góður láti' í té —
Rennur enn þótt rámur sé —
— ærlegt vanda orða smíð.
ýta nýta hugga.
— rómur af góma skugga.

3. Til svars ei maður svinnur kann,
sagður dyggur í æði,
mælir vel um mansaungsrann,
mínka þánkabræði.
Fríðum lýðum færi' eg sann,
flest og skásta að honum hné.
Rennur enn þótt rámur sé —
Heldur snildum heiðurs mann,
hreina sjónar glugga.
— rómur af góma skugga.
. . . . . . . . . . . . . .

ÁM. 723 a, 4, 20. bls. Frá 17. öld.

---

[1] = Boðnar? [2] sunde, hdr.

. . . . . . . . . . . . .
hún græðir mein, en gleð[ur] lund,
gráts og rauna hefi' eg þá mist,
þar l[aufið] g[ræer] á l[ilju]k[vist].
Allmörg verður yndis-stund,
æfin mun svo líða,
og l[aufið] v[ex] á l[iljukvist víða].

2. Hrínga lindin hýr og rjóð
haldi mér til bezta,
þótt kólna taki Kvásis blóð,
því kann til efnin bresta.
Lukkan fylgi lilju slóð,
lands um álfur hvar sem gár,
a. þ. s. k. s. a. k.
Öll sé hennar æfin góð,
eptir lífið himna vist,
þar l[aufið] g[ræer] á [liljukvist].
Hörga grams skal hornaflóð
hárs af landi líða,
og l[aufið] v[ex] á l[ilju]k[vist] v[íða].

ÁM. 149, XIII a, 8, 1. bl. Frá 17. öld.

## Lítið kvæðiskorn.

Klókar eru konurnar á samfundum,
af mér ginna erindin mín,
en launin góð mér lítil gjalda' á stundum.

1. Mér þykir það manna dæmi,
að mun sá lítið hugsa' á heim,
hver sem í þær kröggur kæmi,
að kvendin gjörðu' að hlæja' að þeim;
hafa má sá hug og næmi,
sem harmar ekki þvílíkt par.
Klókar eru konurnar.
Sú heims óblíðan frá mér flæmir
frygðar lát. en[1] eykur pín.
Af mér ginna þær erindin mín.
Ekki kveð eg afmorskvæði
öllum silkihrundum.
Litlu góðu launa þær mér stundum.

2. Sín á milli seima tróð[ur]
. . . . . . . . . . . . . .

ÁM. 149, XV, 10. bl. Frá 17. öld.

## Eitt kvæðiskorn við gamalt erindi.

Enn hefi' eg fundið eina,
þótt ei sé stúlkan rík.
Þessi þiljan hreina
þykir mér goðum lík.

1. Dáins ferju' á ljóðalind
læt eg úr nausti skeiða,
á henni verður eingin mynd,
þótt ýtar gjöri þess beiða;
kjaggar hún í köldum vind
og kannar leið svo beina.
Enn hefi' eg fundið eina o. s. frv.

2. Þótt vífið með mér gjöri að gá
á gólfið fram með sveinum,
einga mun hún mér elsku ljá
með yndis nokkrum greinum.
Veit eg að hún mér víkur frá.
. . . . . . . . . .

ÁM 152 I, 8, 9. bl.

[1] er. hdr.

## Eitt kvæðiskorn.

Kveðið af Jóni Guðmundssyni.

Hætt er við föllum,
hatrið margfalt;
heims er því öllum
hjólið jafnvalt.

1. Nú skal setjast niður til þess
niðjum mínum að bjóða
ljótt að forðast lastavess
og læra siðina góða;
eg held þann vera í hættum sess,
sem hafnar dygðum öllum.
Hætt er við föllum.
Verið í eingu vondu hress,
á veginum gángið hjálpræðess,
það boða' eg snjalt.
Heims er því öllum
hjólið jafnvalt.

2. Í fyrstu skuluð þér forðast það,
fólk að styggja' í orðum;
hegðan yðar í hverjum stað
haldið bezt í skorðum,
hógværðina hyllist að,
hafið ei gys með sköllum.
Hætt er við föllum.
Lygi' og róg um lyndis vað
lausnarinn alla forðast bað;
það þeinkja skalt.
Heims er því öllum
hjólið jafnvalt.

3. Hafið ei klám né heiptarþras.
. . . . . . . . . . . . .

ÁM. 152 I, 8, 10. bl.

---

Stríðir straumar falla,
stundum er flóð;
förum í nafni drottins
á fiskanna slóð.

1. Úr nausti þagna[r] Norð[r]ar kugg
nú er mín girnd að leiða
fullan upp með Fjölnis[1] brugg
Fjalars á djúpið breiða;
arnar véls hið gamla grugg
gómsætt þykja mun valla.
Stríðir straumar falla.
Af því dreg eg efa' og ugg,
að einninn girnist Sónar brugg
af mærðar þjóð.
Förum í nafni drottins
á fiskanna slóð.

2. Mun eg þó lítið mærðar smíð
máls í landi teiga,
ef einhver vildi öldin blíð
um stund . . . .
. . . . . . . . . . . .

ÁM. 152 I, 8, 11. bl.

---

[1] fenlers, hdr.

Drósin við danska[n]
dulmælin jók,
hún kysti Hermann
þá húma tók.

1. Maðurinn fróður mig hefir
beitt
mærðar kveik að snúa,
Fals því rennur flaustrið eitt
fult með orða grúa
Durnis út á djúpið breitt;
dustað(?) hefi' eg til kugginn þann.
Hún kysti Hermann.
Þilja bryggian þykir mér leitt,
hann þryktur var fyr á bók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

2. Óðar heyri' eg efnið það
einni þulið af kæru,
sem heiman reið á geystum glað,
en glóaði' í mundar snæru.
Kaupstað nokkrum æðir að,
úti fyrir sér kokkinn fann.
Hún kysti Hermann.
Greitt sá með sér gullskorð bað
gánga' og virðíng jók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

3. Gru[n]dar ar[m]inn greip hann skjótt,
en gleðin í brjóstið dundi;
inn til kaupmanns flasaði fljótt.
og fær honum greint af sprundi.
Þessi svaraði öllu ótt
og út með skyndi reika vann.
Hún kysti Hermann.
Vel leizt honum á vífið mjótt,
hans voru því tillit klók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

4. Brosa[n]di uppá baugahlíð
hann brúna rennur hjóli,
drafnar eisu Friggjan fríð
því fáguð var nöðru bóli.
Læsti brjóstið logandi stríð,
þá leiddi' inn með sér sprundið
hann.
Hún kysti Hermann.
Aptur veitti' hún atvik blíð
þeim í var silkibrók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

5. Blíð þegar sest var bekkinn á
bauga Lofnin hvíta,
fumaði hver sem meira má
[mo]trar skorð að líta,
hálsbrjóta sig lýðum [við] lá,
en lyndið kokksins mest þó brann.
Hún kysti Hermann.
Sínum nefjum saman þeir kjá
og sögðu' hún væri klók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

6. Kaupmaðurinn heimtir hratt
hvítavín ef feingis[t];
einn um annan dreingurinn datt,
þeir dvelja ei vildu leingi;
allir vilja', eg segi það satt,
seimgrund færa drukkinn þann.
Hún kysti Hermann.
Hennar lífið gjörist þá glatt,
hún gleðinnar viðmót jók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

7. Skipherrann þá fregnað fær
fríðu' af stoltar kvendi,
alt hans brjóstið ángrið slær
og ofan í bátinn rendi;
með fumi og köllum, fréttum vær,
fólki sínu skipaði hann —
Hún kysti Hermann.
— með afli að benda árar tvær

því [ekki] tjár oss mók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

8. En þegar lýðir landi ná
og leitaði knör að grunni,
strýkur hann fyrstur stafninn á
og stiklar fljótt sem kunni;
í fjörunni byltu fékk hann þá,
svo fóturinn nær og brotna vann,
Hún kysti Hermann.
Nóg vann hann til sætu' að sjá,
því sína vætti' hann brók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

9. Hinir af bátnum hlaupa strax
og höfðu' ei flaustrið minna,
einginn hirti' um öldulax;
þeir ætluðu brúði' að finna,
hnossir beztu hafa til taks,
ef hlökkin auðs þá blíðka[st][1] kann.
Hún kysti Hermann.
Menjan bar sú móðu dags
margan silfurkrók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

10. Heim að kaupmanns húsum gá,
þar harðlega einn við knúði;
leizt þeim ekki' að ljúka upp þá,
því lángaði[2] ei frá brúði;
stýrimaðurinn strjúpann á
stráklega féll, þegar hurð upp rann.
Hún kysti Hermann.
Eptir í svima leingi lá,
svo limina einga skók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

11. Með kviðbugtina' og kurteisið
kvöddu þeir hrínga þrúði;
þoldu' í huganum valla við.
því vel leizt þeim á brúði;
fýsir ei neinn um frúinnar kvið
að fipla, þótt til [lángi] hann.
Hún kysti Hermann.
Af því eingum gafst þar grið
gleiða buxnahrók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

12. Einn réð annan hrekja og hrjá,
því heyrðist kliðurinn strángi;
olbogaskot voru' ekki smá,
svo alt var á reiðigángi.
Bezti mjöður er borðum á,
þeir báðu hana' að smakka drukk-
inn þann, —
Hún kysti Hermann.
— en hún lézt við fyrða fá
og frá sér kerunum ók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

13. Þar svaf einginn þessa nátt,
en þegar af morgni lýsti,
heim vill ríða brúðurin brátt;
bíða' ei leingur fýsti;
trómetarnir tóna hátt
svo tekr að lífast hlýrnis rann.
Hún kysti Hermann.
Heyrðist gjörla' í hverja átt
þá harpan kalla tók.
Hún kysti Hermann
þá húma tók.

14. Kaupmennirnir baugabil
báðir saman með tukti
hýra leiddu hestsins til
hævers[k]legir með bugti,
rendu á stau[p] . . . .
. . . . . . . . . . .

ÁM. 152 II, 8, 11.—12. bl. Frá 17. öld.

[1] *blygða*, hdr. [2] lañgadstū(?). hdr.

## Eitt kvæðiskorn.

Sprunda lundin gleður geð
góð í allan máta.
Þá er eg drukkinn, þegar eg kveð.
Það bið eg forláta.

Herjans knör úr gljúfrum góma[1]
get eg að brjótist óðs á leið,
verju bör því búinn með sóma
bað mig að smíða ljóða skeið.
Ferjan snör með farminn Óma
fljótt ei drattar, það er út séð.
Sprunda lundin gleður geð.
Nerist úr vör með nauman blóma
Norðrar hindin (?) káta.
Það bið eg forláta.

Vífin göfug, víða góðum
viðmótsgæðum miðla af sér.
Sómi og gaman að fríðum fljóðum
fyr það bæði var og er.
Fögrum kargar hlýða hljóðum
[2]hrundir banda fróðar með.
Lundin sprunda gleður geð.
Enn kann eg eigi klæða slóðum
kærleiks svörum að játa.
Það bið eg forláta.

Títt hafa gáttir eisu ósa
af sér gefið kætihót,
vottar þetta vísan ljósa,
vinna kunna' á þrautum bót.
Lýðir fróðir lýsa og hrósa
lærdóm, prís(?) og heiðri með:
sprunda lundin gleður geð.
Freku slíku fasi' að glósa
fæ eg, þó í máta.
Það bið eg forláta.

4. Kætir sveitir vínið væna,
víst það flestir skilja vel;
snótin vitur, klén, hin kæna
kveikir líka sturlað(?) þel;
rótin bata reynist græna,
ræmist fróm, það víða' er téð.
Lundin sprunda gleður geð.
Heitra njót[i] hún ..... bæna.
hrein sú mín er gáta.
Það bið eg forláta.

5. Ljós í húsi, svinn að sönnu,
sínu' er hreinlynd vella þöll;
svoddan hadda' að sinna Nönnu
segjast má vel heillin snjöll,
líka ef blikar í linna fönnu
lauka eikin blíðu með.
Lundin sprunda gleður geð.
Mínu treinar minni grönnu,
að meta þá sætu káta
Það bið eg forláta.

6. Handa kvendin grjóta' af gautum
gleðileg bíða yndishót.
þar sárum eru' í sútaþrautum
seggjum glöggust lyndisbót;
slíkum dúka lýtur lautum
lukkan þekk sem heiður og féð.
Lundin sprunda gleður geð.
Hamíngju blóma hvítum skautum
hrósa í vísan máta.
Það bið eg forláta.

7. Ætíð veita aumum beimum
ástar bezta trygðar lund,
góðum miðla sóma seimum
sauðum guðs á hrygðar stund,
sinna' ei nenna svíma eimum,
sem að ófrómar skrýðast með.

[1] góða. hdr. [2] Á undan »hrundir« o. s. frv. stendur í hdr. »það er oss téð« og svo viðkvæðið, en þessu er ofaukið.

Lundin sprunda gleður geð.
Forprís þeirra' í tíma teymum
til vor skulum í máta.
Það bið eg forláta.

8. Sína vini hryggva huggar
hlökkin skikkju ráðagóð,
drjúgum sorgar dögg þá muggar
deyfir hún hrjúfan nauða móð,
ekki nokkra styggva stuggar
stöðug í ræðu, það [hefi'] eg séð.
Lundin sprunda gleður geð.
Í listir flestar glöggast gluggar
gjöra . . . . . . . . . . .
. . . . . . . . . . . . . .

ÁM. 152 II, 8. 31.—32. bl. Frá 17. öld.

---

Bíddu mín við bóndaból,
bauga lofnin svinna.
Þar er skjól
og þar vil eg þig finna.

Þjassa vessa þulið tal
þundur reyndar kendi,
skýrt, ódýrt nú skilið skal,
skarlats þöllu sendi.
Kætist mæta kvenna val.
. . . . . . . . . . . .

Hrs. Sv. Grv. 66.

---

Vítt flýgur valurinn yfir skóga.
Eg kann ef eg vil
slá dans yfir lands múga.

1. Hægt er höldum góðum, o. s. frv.

2. Glaum og gleðskap lýða
gott mér þykir hlýða;
í hófi hegðan blíða
hafa vill fólkið fríða.
Þar gumar gánga' og ríða
grænkar jörð og skógarner.
Vítt fljúga valirner.
Þar fuglar fljúga víða,
flokkum sitja' á vatna hyl.
Eg kann ef eg vil —
þeir kvaka' og eingu kvíða,
kvilla né sorgar þrúga.
— slá dans yfir lands múga.

Hrs. Sv. Grv. 67, með hendi Finns Magnússonar., 2. er. Brit. Mus. Add. 11, 181, 12. Coll. Finns Magnússonar (nr. 393), 3 er.

---

Setjum gull-söðulinn á
gángvarann væna.
Við skulum ríða
í lund þann hinn græna.

1. Byrjast lítil Bifurs skeið.

4. Blíður skal eg um baugagrund
báðum höndum spenna,
ef vildi til mín víf[1] um stund
vináttu augum renna.
Eptirlætið gullhlaðs grund
gjarna skyldi af mér fá.
Setjum gull-söðulinn á.
Lif í náðum ljúfast sprund,
lukkan þinni æfi ann.
Við skulum ríða í lundinn þann —
Frosta verður flæða hund
fjöðrin máls að spæna.
Við skulum ríða
— í lund þann hinn græna.

[1] *getgáta* F. M. fyrir »nýt«.

Hrs. Sv. Grv. 67, með hendi Finns Magnússonar, 4. er. Brit. Mus. dd. 11, 181, 12. Coll. Finns Magnússonar (nr. 393). Fimm erindi. Sama ðlag hefir verið við kvæði eptir »sáluga Pétursson«, sbr. ÁM. 67, 8. Enn kvæði með sama viðlagi í hrs. Bmfj. Rkv. 214, 8, 6 er. og byrjar svo:

Eg hefi hugað að efna mér o. s. frv.

iðkvæðið í orðabók J. Ól. frá Grunnavík gángvari, og segir þar, að þetta ı úr barnakvæði. Stef þetta er líka í ÁM. 979 b, 4; bls. 1507, og segir Ól. þar, að það sé úr fornkvæði. Hrs. Sv. Grv. 66, hönd J. Sig.

## Kvæði til góðrar kvinnu.

Ljúflát og lastvör,
leynt forðast háð.
Góðkát og greiðsvör,
guðs hljóttu náð.

1. Ferjan stála týnd með trausti
o. s. frv.

4. Heillir allar hýrust kæra
hljóttu rétta guðs og náð.
. . . . . . . . . . .

Hrs. Sv. Grv. 67, með hendi Finns Magnússonar. Brit. Mus. Add. 1, 181, 12. Coll. Finns Magnússonar (nr. 393), 6 er.

## Kvæði um góða kvinnu.

Hvar sástu það dýr
renna með þeim plógi?
Gull bar það undir sínum bógi.

1. Hér skal fljóta Frosta skeið
o. s. frv.

Hrs. Sv. Grv. 67, með hendi Finns Magnússonar; segir hann, að kvæðið : fjögur erindi. Brit. Mus. Add. 11, 181, 12. Coll. Finns Magnússonar ır. 393), 5 er.

---

Man eg til þín laungum
mín menja hrund,
eg sá þig við æginn blá
um eina stund.

Mun hún seint úr mínum huga
líða.

1. Fjaðrasnauður flugið teygir
o. s. frv.

Hrs. Bmfj. Rkv. 214, 8, 7 er.

---

Meinbugir bægja mér
frá brúði,
því er eg hryggur, en sjaldan
glaður,
sinnulaus sem sofandi maður.
Sorgin mig lúði,
sorgin mig[1] lúði.

1. Ljóða vildi' eg litla skrá
ef lýðir vildu hlýða á;
laglega mundi laufaná
mér launa vilja hróðrarkver.
Meinbugir bægja mér.
Mart kann stríða mann þann á,
sem mæta elskar brúði.
Sorgin mig lúði,
sorgin mig lúði.

2. Víst hefi' eg orðið var við það,
að vífin auka' á sorgar bað,
þeirra ást hefir eingan stað,
undarlega' hún stundum fer.
Meinbugir banna mér.
Þeir koma þar að með . . . . . .
þótt klæddir séu skrúði.
Sorgin mig lúði,
sorgin mig lúði.

3. Lausnara minn og ljúfan Krist
um líkn eg bið og . . . . . . . .

Hrs. J. Sig. 257, 8, og hefir ekki verið skrifað meira af kvæðinu. Viðkvæðið í hrs. Bmfj. 614, 387, 388, 8. Á tveimur seinni stöðunum viðlag við »Kvæði af einum greifasyni«. Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar, skrifuð í Haukadal vestur 1748, viðlag við lángt kvæði: »Kvæðis þetta efnið er« o. s. frv.

II.

Meinbugir bægja mér frá brúði,
neyðist eg því á næturnar vaka laungum.
Sorgin mig lúði,
sorgin mig lúði.

III.

Meinbugir bægja mér frá brúði
og er því hryggur, en sjaldan glaður.
Sorgin mig lúði,
sorgin að mig lúði.

Viðlag við »Sonarharmur«. Íslenzk fornkvæði I, bls. 150. Corpus II, bls. 391.

---

Samt skal eg unna þeim
svanna
alla mína dagana,
:,: á meðan eg man til manna. :,:

1. Rögnis gæða rignir veiði,
reiðum kvæða mærðar heiði,
lögs ástæða loks hér reiði,
að líma saman greina skamt.

[1] *heit* mig, 387, 388, 614; æ mig, Haukb.

Unna skal eg samt.
Berlíngs flæða byrlar eiði
Bölverks vínið þunna.
Samt skal eg unna.
Kvásis flæða krúsar heiði
kveikjast tekur máls af reim.
Samt skal eg unna þeim —
Hrúgnis svæða hnignum meiði
hverju ber eg sanna.
— unna þeim svanna —
Dvalins fæða dulin freyði
diktinn spekt að spjalla.
— um mína alla —
Gjálfar skæða gúlpa leiði
glymur við strauma sína.
— um alla mína —
Hróður fræða sniðugt sneyði
snótum lítinn baga.
— um alla mína daga —
Ángurs mæða eingin meiði
Óska horskan van.
— á meðan það eg man —
Orðum klæða-gerður greiði
goldnum skuldar snjöll með skil.
— á meðan það eg man til —
Opt því ræða eptir þreyði
únga hildi' eg gleðja vildi mundar-
fanna.
— :|: á meðan eg man til manna. :|:

Hrs. Bmfj. 105, 4, bls. 666—67 (Vatnshyrna). Þrjú erindi, hvert öðru meiri leirburður. Afskript Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66. Viðlagið, Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island 1888, bls. 190.

---

Setjum gullsöðulinn á
þann gángvarann væna.
Við skulum ríða
í lund þann hinn græna.

1. Hildi vildi' eg hrannar
bruna
hýrri færa hróðrar smíð,
og svo til þín meyjan muna
meðan lifir lífs um tíð,
fold ef vildi Freyju bruna
fyrst mér lystug ástir ljá.
Setjum gullsöðulinn á.
Týrs skal enn af túni bruna,
tvinna gunni skemtan ann.
Við skulum ríða' í lund þann.
Víst má nistils nipt við una
ef næðist sprundið væna.
Við skulum ríða
í lund þann hinn græna.

Kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum III, nr. 26. (hrs. J. Sig. 256, 4.). 6 er.

---

Fagrar heyrði' eg raddirnar
við Mimmúngaheim;
eg get ekki sofið fyrir
saungunum þeim.

1. Fjölnis virt að færa
fróm mig biður kæra,
því skal námið næra,
nokkur ef vildi læra;
Boðnar sjá að bæra
ber þeim, opt til kvaddur var.
Fagrar heyrði' eg raddirnar.
Iðka skemtan skæra
skatnar vítt um heim.
Eg get ekki sofið fyrir
saungunum þeim.

Kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum III, nr. 58, 5 er.

Þá kom mér í stærstan stans,
eg stóðst þau hljóðin varla;
þuldi dansinn þöllin grettis mjalla.

Bar mig þar að breyttum dans[i],
sem blíðan þuldi menja gná,
að mér kom sá orða stans[i],
enn um stund eg hlýddi á;
svo lystilega í ljóða krans[i]
lék hún fyrir múga manns:
þá kom mér í stærstan stans.
Á snildar rómi var ei vans[i],
víst með bera skalla
þuldi dansinn þöllin grettis mjalla.

Kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum III, bls. 178—80, 16 er. Afskr. af viðlaginu og 1. er. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar.

---

Því situr þú svo utarlega í kirkjunni
Oddný, kona mín?
Eg hefi' einga hempuna
séra Brandur selstrútur,
bóndi minn.
Taktu hana af henni bleikálu
hríngalín.
Hafðu það fyrir hempuna
Oddný, kona mín.

ÁM. 153 V, 8, nr. 66. Frá byrjun 18. aldar. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar, og í sama safni 65, með hendi Sv. Grv.

---

Sú er ein frúin út í lönd,
hana' eg prísa vil;
sínum klæðum gefur hún nafn
við noss og nei.
Hennar líkann veit eg ei.

ÁM. 153 V, 8. nr. 28. Aðeins fyrsta erindi. Afskr. Sv. Grv. í hrs. hans 67.

---

Það var eina jólanótt,
— svo breyttu þeir forðum —
fólkið alt til tíða fór,
alt með gamans orðum.
Eg sá þar á.
Léttir harmi laungum við,
ljósa vér minnumst á.

ÁM. 153 V, 8, nr. 15. Aðeins fyrsta erindi. Afskr. Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv., afskr. Sv. Grv. í nr. 67.

## Kvæði um stúlkuna í Drángey.

Eg kann að segja af einni ágætri mey;
allvel stýrði hún öldusjó í Drángey.

1. Í Drángey norður drós var ein,
dregla lindin þýða,

mætri hélt hún meydóms grein,
og margar dygðir fríðar
sú bar svinnust silkirein,
sæmd í vizkuþey;
allvel stýrði hún öldusjó í Drángey.
. . . . . . . . . .
. . . . . . . . . .

Ef af kappi ausið er,
ansaði blóminn kvenna,
í gegnum boða, skafl og sker
skal skútu stafninn renna,
svo hvern dag sjáið og heyrið þér
eg hræðist dauðann ei;
allvel stýrði hún öldusjó í Drángey.
. . . .

Aldrei verður ofsagt frá
afbragði slíku fljóða.
Lukkaðist allvel laufaná
og lendíng fékk hún góða.
Læsi eg aptur ljóða skrá
um ljúfa heiðursmey;
allvel stýrði hún öldusjó í Drángey.

JÁ B XIX, bls. 97—98 frá Brynjólfi Jónssyni á Minna-Núpi, eptir Gunnhildi Jónsdóttur, niðursetukellíngu. Sagt er að kvæðið sé ort um túlku, sem fæddist á skipi á Drángeyjarsundi.

---

[Eg sá] þá[1] ríða
riddarana þrjá.
[Þeir] vildu[2] mínum
fundinum [ná].

. [Han]nes sonur Helgi einn
[ha]nn kellíngar gleður.
[Ar]ni Jónsson, úngur sveinn,
[ef]lir garða, teður.
[Ás]mundur er ekki seinn
[af s]ér lýsnar hýða.
Eg sá þá ríða —
[Sigur]ður er sóði' óhreinn,
[sér] æruna hrakti frá.
— ríða, ríða þrjá.
[Leiðól]fur hefir litla heyrn,
[leku]r úr hans skrínum.
Þeir vildu mínum —
[Odd]ur var sem annar steinn,
amaði gjarða hundi.
— þeir vildu mínum fundi —
[Ber]gs er laungum beittur fleinn,
[bra]llar lygi sá.
— þeir vildu mínum
fundinum ná.

2. [B]úsinn Þorkell, Bessa þjón,
[b]ýr á Skriðufelli.
[M]órauður með matarsón
[m]urrar Rúnki' á Velli.
. . . . . . . . . . . . .
. . . . . . Gvendur . . .
. . . . . . . líkur sínum.
Þeir vildu mínum —
[Bré]famann með bjarta sjón
beiníng vill sér fá.
— þeir vildu mínum
fundinum ná.

3. Gildur bóndi Gvendur er,
[ga]mall böðuls arfi;
[h]ans vaski sonur víða fer,
vinnumaðurinn þarfi.
Þórður húsgángs bagga be[r],
biður um sveitir víða.
Eg sá þá ríða —
Arni Jónsson illa sér
að reiðskjóta forðum sá, —
— ríða, ríða þrjá. —
— fult ber drjúgum fólsku ker,
feitur af strjúgi sínum.

[1] sl. sumir. [2] vilja.

— þeir vildu mínum —
Ferjumanni fellur smér,
fleytir bát á sundi.
— þeir vildu mínum fundi —
Haldóruson hettu der
hausinn setur á.
— þeir vildu mínum
fundinum ná.

4. Böðull Magnús, brúðatál,
ber hann æru klesta.
Kviðmág Einars, Kúa-Pál,
[k]appann tel eg mesta.
. . . . . . . . .

8. . . . . . . . . . . . . . .
. . . . . . . . . . . [j]afni.
[Hefrí]ngs veginn Hjörtur fer,
[hnu]pli tamur víða.
Eg sá þá ríða —
[Sum]arliða son upp ber
[sóm]a Strandabændum hjá.
— ríða, ríða þrjá.
[Sörl]i bóndi sat við ker,
[silfr]i eyddi sínu.
Þeir vildu mínum —
Kauðinn[1] Magnús klippíngsmer
[kla]ppar sínu spundi.
— þeir vildu mínum fundi —
[Gunnars]arfi. grettur, smér
[gi]nti Páli frá.
— þeir vildu mínum
fundinum ná.

9. [Hú]sgángsveginn hleypur Jón,
[há]tt og mikið syngur;
[tu]ggum Brandur tóbakssón
[tö]nnur[2] undir stíngur.
[Ri]ddarinn með rekaprjón
[rei]ð frá Melnum víða.
Eg sá þá ríða —
[Rey]kti forðum rímnaþjón
[rí]kur þar með efnin smá.
— ríða, ríða þrjá.
[Dó]lgur svartur dregst um frón
[dryk]kju nálægt svínum
þeir vildu mínum
ærist . . . . . .

10. . . . . . . . son Þórður hríngj[arann]
. . . ir sá á Bolla.
[Bú]ssinn Fúsi bréfamann
[bei]níng þiggur holla;
[ka]ppinn Gissur kúga vann,
[kl]erkur dreing nam hýða.
Eg sá þá ríða —
Arfi Siggu austfirzkan
ákaflega réði flá.
— ríða, ríða þrjá.
Marteinn kjöt í mélsekk fan[n],
munni rétti sínum.
Þeir vildu mínum —
Sinni Ketill sælu ann,
snoppúng hlaut af sprundi.
— þeir vildu mínum fundi —
Kallinn Árni kúarann
krumpinn hreinsa má.
— þeir vildu mínum
fundinum ná.

11. Hlúnkur sótti húfu' í ker,
hafði geitna polla,
við stallinn Vati stóð með smé[r];
steindauð lá hún Kolla.
Ekkju keypti Ormur sér
Ásu dóttur fríða.
Eg sá þá ríða —
Gísli líka giptur er,
gamall prófasts smali sá.
— ríða, ríða þrjá.
. . . . . . . . . .

[1] kauðum, hdr. [2] tönnum, hdr.

Hrs. Bmfj. 9, II, 8. (Kvæðabók Jóns Stefánssonar; brunnið). Sama viðlag er við Kappakvæði eptir Guðmund Bergþórsson og Steinunni Finnsdóttur í Höfn. Hrs. Bmfj. 629, 8. 220, 4 (brot), 370, 8 (brot, aptan af, og er seinast vísa eptir annan höfund), ÁM. 146 b. 8. 24.—31. bl. Viðlagið prentað hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 190.

---

Hér komst ekki gleðin á,
því nóttina syrtir;
vér skulum dansa betur þegar birtir.

Þeir sem sitja í húsi hér
og hlýða á ræðu mína
bið eg virði vel fyrir mér,
ef viljann minn skal sýna.
Í litlu þetta lagi fer,
lýðir meiga það heyra' og sjá.
Hér kemst ekki gleðin á.
Lasti ekki ljóða kver
lundar mikils virtir.
Vér skulum dansa betur þegar birtir.

Kvæðabók á Landsbókasafninu frá Sigurði Sverrissyni 8, bls. 115. 6 er. Afskript af viðlaginu og 1. er. í hrs. Sv. Grv. 66.

---

»Þegar Vigfús sýslumaður Thorarensen bjó á Gufunesi, var teingdamóðir hans, frú Rannveig Skúladóttir, hjá honum. Elzta dóttir sýslumanns, Ragnheiður, lærði mörg kvæði af ömmu sinni, þar á meðal það, sem upphafserindið af fylgir hér á eptir. Það erindi ásamt viðkvæðinu lærði frú Steinunn, móðir hennar, af barninu, en meira ekki, því ekki tókst leingi til, þar eð barnið dó fjögra ára, en amma þess undi þá ekki leingur og fór burtu. Madama Kristín Vigfúsdóttir lærði þetta erindi síðar af móður sinni, en eptir henni er það hér upp skrifað.« Br[ynjólfur] J[ónsson frá Minna-Núpi].

Brúðanna blóminn
er baugarist;
svinnri aukist sóminn
af sjálfum Krist.

Auka vildi' eg Óska flóð
um únga silkihlíði.
Heiðarlega hrundin rjóð
hagar sér með prýði.
Hún er bæði hýr og góð,
hefir almannaróminn.
Brúðanna blóminn.
Ljúf og glöð er laukaslóð,
lítillát sem virðist þjóð,
en aldrei byrst.
Svinnri aukist sóminn
af sjálfum Krist.

---

Ólafur nokkur, bóndi, í fyrnd, á Höfða á Höfðaströnd hafði mist laup í veðrið. Þar um var þetta kveðið:

Kári voðir þandi,
kom hann mér svo nær.
Láfi situr í landi,
en laupurinn rær.

Hásetana hafði' hann fjóra
brausta bæði' og nógu stóra,
hann hræddist hvorki ógn né óra,
þótt usli brim að sandi.
Láfi situr í landi.
Ýmsir gjörðu' í ennið klóra,
eingum þótti sjórinn fær.
Láfi situr í landi,
en laupurinn rær.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Ólafi Einarssyni í Þverdal. Séra Jón segist hafa heyrt, að kvæðið væri fjögur erindi.

## Eitt kvæði hvernig ýngismenn hrósa sér fyrir stúlkum.

Því kom eg híngað.
Heiðursvífið, hvernig lízt þér á mig?

Hettu á eg hér með bláa,
heldur víða og stafnaháa,
ýmsir borðar á henni gljáa;
alt er það til þíngað.
Því kom eg híngað.
Góðan hlut af glitinu smáa
gaf mér faðir minn eptir sig.
Heiðursvífið, hvernig lízt þér á mig?

Tinhnapparnir treyju hrósa,
tapa þeir aldrei litnum ljósa,
undir peisa rauð sem rósa,
reimar gegnum stínga.
Því kom eg híngað.
Ullar skyrta', ef alt skal glósa,
sú aldrei lætur falla' á sig.
Heiðursvífið, hvernig lízt þér á mig?

Þrennar buxur þar fyrir neðan,
þegiðu, frá eg segi' á meðan,
alt frá mitti' og ofan héðan,
undir hverjum pýngja.
Því kom eg híngað.
Hefi' eg búníng hvergi léðan,
hirði' eg ekki að dára þig.
Heiðursvífið, hvernig lízt þér á mig?

Skýrsla um Forngripasafn Íslands II. 1874; bls. 11, 158, 162.

## Ýngismeyja hrósan um vinfeingi og gjafir unnustanna.

Hann hefir gefið mér svo margt,
hann hefir gefið mér svo margt úr máta.

1. Skærafóður og nálhús nýtt
nú gaf hann mér í vetur,
glóir á það sem gullið hvítt,
grafið alt með letur;

listarpúngur með tiglum títt,
troðinn út með silkið svart.
Hann hefir gefið mér svo margt.
Hann hefir þann meðskrauti skrýtt,
því skuluð þið sjá mig káta.
Hann hefir gefið mér svo margt
úr máta.

2. Hatt gaf hann mér og herlegt skaut,
hvað rétt var í hæfi.
. . . . . . . . . . . .

3. Niðurhlut með fóðrið frítt,
frábær eru þau gæði,
garpurinn þetta gaf mér nýtt,
og geðlegt hempuklæði,
lausakraga með lérept hvítt;
leiðist upp að telja snart.
Hann hefir gefið mér svo margt.
. . . . . . . . . . .

4. Geðuga sylgju gaf hann mér,
grafna með hjálma böndum,
. . . . . . . . .
. . . . . . . . .
tampél sín hann til mín ber,
trefla og svo skartið bjart, —
Hann hefir gefið mér svo margt.
Silfurhnappa og sjónargler;
sannlega eg það játa.
Hann hefir gefið mér svo margt
úr máta.

Skýrsla um Forngripasafn Íslands II. 1874, bls. 6, 24, 24—25, 33.

---

Dagurinn líður,
nóttin kemur.
Dimmir á jörð svo fríða
Á morgun söðlum
hesta [vora]
dist að ríða.

Hafið nú stef og stigið á,
meðan eg geing í dans.
Kveð eg um Virga Velentsson
og vígfrækni hans.

Grímur Thomsen í Ísafold VI. 1879, nr. 1. Bæði viðlagið og kvæðið er færeyskt og hefir aldrei tíðkazt á Íslandi svo eg viti. Sbr. Hammershaimb, Færöiske Kvæder I. 1851, bls. 105.

---

Hrundir keikar [handar jaka[1]
[henda ósmeikar[2] mundar klaka,
venda og reika, vinda' og taka o. s. frv.

»Úr vikivakakvæði« J. Ól. Grv. ÁM. 979 b, 4. B = orðabók J. Ó. keikur.

---

[1] henda' og taka B. [2] hirða' og geyma B.

Hrosshár í streingjum og holað innan tré,
eigi átti' hann fiðlúngur[1] meira fé.

Jón Ólafsson frá Grunnavík. Orðab. fiðlúngur, og segir hann, að þetta sé úr vikivakakvæði. Prentað í Íslenzkum skemtunum, bls. 269.

---

Hirði' eg aldrei hver mig kallar vondan,
heldur kyssi' eg húsfreyjuna' en bóndann.

»Í vikivakakvæði«, »í gömlu vikivakakvæði« J. Ól. Grv. Orðab. koss, hús.

---

Furðu hárri fjalls á gnýpu[2]
frú Venus með boga stóð;
setti þrætu' í krappa klípu,
kreystist mjög um hugarslóð,
fór úr hlíðinni foss rennandi,
fljótt sig útbreiddi um landið
Veneris makt er mér of þúng,
máske því valdi jómfrú úng.

»Byrjun á vikivakakvæði« J. Ól. Grv. Orðab. frú, jómfrú, klípa, gnýpa, hlíð, fjall.

---

Kveði nú hver sem meira má
móins jarðar[3] lindin.
Segja þær allar: [dó, dó[4] kindin!

Orðab. J. Ól. frá Grunnavík dó. Afskript Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66. Kvæðið, 5 er. í kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum I, bls. 272—73 (áður hrs. Bmfj. 272, 4. Nú hrs. J. Sig. 254, 4). Viðkvæðið eptir henni í hrs. Bmfj. 614, 8. Í Skuggabjargabókinni byrjar kvæðið svona:

Horna straumur Fjalars og Frosta,
fram sem áður boðinn var þjóð o. s. frv.

---

»Þar er höndin mín«:
Hann Hein fór að þakka,
þegar hann drakk hið dýra vín
með dálætinu' á Bakka.

»Úr vikivakakvæði um Hein nokkurn«. J. Ól. Grv. Orðab. dálæti.

---

[1] = fiðlari, sá sem leikur á fiðlu. [2] brekku, sumstaðar hjá Jóni, en það er auðsjáanlega rángt. [3] fjarðar, G. J. [4] dó, dó, þér, G. J.

Meyjar báðu mig til leiks
eg geingi,
en eg sagði það sem var,
eg kynni' ei að dansa þar.
Þó dansaði eg með þeim leingi.

Á fögrum degi fyrir mig ber
fjöldi valdra meyja,
glöð með heiðri hver ein er,
hreinskipt, dans að þreyja.
Sviðris mjaðar hræra hler
hlíðir Fróða kvarnar.
Báðu meyjarnar.
. . . . . . . . .

J. Ól. Grv. Orðab. dans, fagur kvæði, leikur, viðkvæði, þreyja, og segir hann, að kvæðið sé eptir séra Jón Grímsson á Hjaltabakka. Brot af vikivakakvæði með sama viðlagi í Brit. Mus. Add. 11, 181, 12. (Coll. Finns Magnússonar, nr. 393).

---

Meyjarnar báðu mig til leiks
eg geingi,
en eg sagði svo sem var,
eg kynni ekki' að kveða par.
Þó dansaði eg með þeim leingi.

1. Þér til gamans, löndúngs lá,
lindin Fáfnis dúna,
hlýð þú ljóðin örðug á
af stað fara núna;
ert þú rjóð um brún og brá,
ber þú nóglegt hrannar skar.
Mig báðu meyjarnar
af þeim góða Sviðris sá
. . . . . . . . . . . . . . . . .

J. Sigurðsson í hrs. Sv. Grv. 66, eptir kvæðabók á Landsbókasafninu I. XIV. Kvæðið er heilt í kvæðabók frá séra Stefáni Þorvaldssyni í sama safni, með hendi séra Eingilberts Jónssonar. Kvæðið kvað vera eptir séra Jón Grímsson á Hjaltabakka (1679—1723). Sbr. næsta brot hér á undan.

---

Margrét sló og Marteinn kvað,
en Magnús var að stíga dansa.

J. Ól. Grv. Add. ÁM. 3 fol., bls. 2. Jón segir hér, að sig minni, að svona sé viðlag við vikivakakvæði, sem Guðmundur Andrésson hafi ort um bændafólk í Miðfirði.

---

[Veldur það vökunum
vart gekk í ker.[1]
Stytti' eg með stökunum
stundirnar mér.

1. Muna Ónars mein ef pína
munu ljónar kveinan sýna,
á unan sjónar beina blína,
bruna' í rauna kvökunum, —

[1] vantar í 360.

Veldur það vökunum.
— funa lóna meiníng mína
muni rein hjá sér.
Stytti' eg með stökunum
stundirnar mér.

2. Vindólfs sunda önd ei undi
yndis grunda bönd þótt stundi.
Blindviðs funda blöndin skundi
bend með skyndistökunum.
Veldur það vökunum.
Mynduð þundar lind í lundi
lenda andar fer.
Stytti' eg með stökunum
stundirnar mér,

Úr vikivakakvæði eptir Stein biskup Jónsson. Hrs. Lbs. 360, 8, með hendi Jóns Ólafssonar frá Grunnavík. Viðlagið heilt í Þjóðsögum Jóns Árnasonar I, bls. XVI. Jón Guðmundsson lærði segir, að huldufólk hafi ort vísuna. Hrs. Stockh. 64 fol.

---

Tvisvar sinnum til hefi' eg reynt
við tróðu gulls í vetur,
í þriðja sinni þá fór lángtum betur.

1. Ef að eg má seggjum segja
seims hvað lék mér kyrlát eyja,
bið eg fljóð og fyrða' að þegja
frá því meðan eg hermi beint.
Tvisvar sinnum til hefi' eg reynt.
Last vil eg ei að svönnum sveigja,
en sver að rétt er letur.
Í þriðja sinni þá fór lángtum betur.

2. Einhvern dag lá eg í skála
upphaf skal það þeirra mála.
Hjá gekk lindin lægis bála,
lilja gulls bar skartið hreint.
Tvisvar sinnum til hefi' eg reynt.
Við það réði' eg blundi' að brjála
brjóstið ástin hvetur.
Í þriðja sinni þá fór lángtum betur.

Brot úr kvæði eptir séra Brynjólf Haldórsson að Kirkjubæ. Hrs. Lbs. 360, 8, með hendi Jóns Ólafssonar frá Grunnavík. Viðlagið í Add. ÁM. 3 fol. (áður 23), bls. 118.

---

Litars bátur heim að hýði
hríngaspaungin það um líði,
sízt misvirði svanninn fríði
samið illa hróðrar kver.
Öll á kvöldin ann eg þér.
Frosta skeiðin flaut á víði
fimtán sinnum rifin öll,
mín úng heiðurs menþöll,
af alvöru þótt eg ekki kvíði
að enn nú vel hún héldi,
framan undir feldi.
Norðri' í skutinn nagla smíði[1]
en Niði skal þá hnjóða
framan undir feldinum góða.

---

[1] sníði B.

A = hrs. Rasks 81, bls. 2—3. Þar er sagt að vísan sé úr kvæði eptir Pál lögmann Vídalín. Viðkvæði hefir ekki fylgt útgáfu þeirri, sem Rask hefir skrifað, eða ef til vill verið skammstafað og segist hann hafa tekið það eptir kvæði séra Hallgríms Péturssonar »Ófnis hrafninn út vill leita«. Þrjár seinustu línurnar af er. í orðabók J. Ól. frá Grunnavík hnjóða. Hrs. Lbs. 360, 8. 59. bls. = B, kvæðabók Páls lögmanns Vídalíns, með hendi Jóns Ól. frá Grv. »Það ætla sumir« segir Jón«, að Páll lögmaður muni hafa aukið þessu erindi aptan við kvæðið, sem í voru 14 erindi áður«.

---

Fast er nú um fljóðaást,
fæst hér eingin píka.
Þær vilja' ekki þar til ljást.
Það má vera' svo líka.

J. Ól. Grv. orðab., og segir hann, að Páll Vídalín hafi kveðið vísuna á vikivaka. Í hrs. Lbs. 360, 8 segir J. Ól. öðruvísi frá: »Þegar hann (þ. e. Páll Vídalín) var skólameistari, var haldin gleði í Skálholti. Gísli Magnússon og hann sátu á palli og horfðu á. Til hans kom einn skólapiltur og laut að eyra honum, en þá hann kom aptur í gleðina kvað hann:

Ef að þú vilt unna mér
eikin nöðru teiga,
svo skyldi' eg láta sætt að þér,
að þú þættist eingum segja meiga.

Þá sagði Gísli Magnússon: »Ó, ó, þetta barn hefir geingið í skóla«, og meðgekk pilturinn það þá. Næst áður hafði kveðið Brynjólfur Haldórsson (nú prestur á Kirkjubæ):

Fast er nú um fljóðaást o. s. frv.

Þótti skólameistara betur fallið, að hafa sitt kvæði hæverskara.«

---

Öld[1] á kvöldin ann[2] þér,
mín úng heiðurs menþöllin rjóða,
ef þú vildir sofa hjá mér,
framan undir feldinum góða.

1. Drakons vakran dælu val
dreka makinn fæla skal
úr bleikum speki býlis sal,
sem brúkar vöku höldinn.

Öld á kvöldin —
Gauki flikar gælu pal.
Gríðar veðri stýrir hér.
— öld á kvöldin ann þér —
Sekur strikar súlu dal,
þar syngur túngan raddarsnjöll.
— mín úng heiðurs menþöll —
Strókinn kvikur stælir hjal,
sem stökur mjúkan gildir,

---

[1] Öll J. Ól. [2] ann eg J. Ól.

— ef að þú vildir —
Sprækum blikan selur sval
á síldar köldu veldi.
— framan undir feldi —
Haukur Nikars hælir tal,

þar hikaðan skekur mála fal,
minn fundinn þundar sprundi' um
stund að bjóða,
haukur Hnikars elur skjal.
— framan undir feldinum góða.

Hrs. Bmfj. 634, 8 (þórkatla hin minni). Fimm erindi, en kvæðið er svo stirt og samanrekið, að ekki þótti vert að prenta nema 1. erindi. 1., 2. og 4. lína af viðkvæðinu í orðab. J. Ól. Grv. feldur. Líka minzt á kvæðið við hnjóða.

## Viðlög.

---

Þau svoru börnin brigðu smá,
sér báru horn að munni;
drósin dillaði þeim hún unni.

Íslenzk fornkvæði I, bls. 239.

---

Viðurinn vex,
en völlurinn grór
í lundi.
Harpan er mín hugarbót.

Íslenzk fornkvæði II, bls. 218.

Við skulum mæla með okkur mót,
munu þá hittast fundir;
jómfrúin gleður menn allar stundir.

---

Úngan leit[1] eg hofmann
í fögrum runni.
Skal eg í hljóði
dilla þeim mér[2] unni.

Íslenzk fornkvæði I, bls. 337, 340, 343, 346, 360, 362. Corpus II, bls. 391.

---

I.

Úngan hitti' eg hofmann
suður við ána Rín;
undir Lundúnabergi
bíður hún mín.

Viðkvæði við fornkvæði á kveri í 8, á Landsbókasafninu frá Stað á Reykjanesi. Afskr. J. Sig. Hrs. Sv. Grv. 66.

II.

Væntir frúin þín.
Suður við Lundúnaborg
þá bíður hún mín.

Íslenzk fornkvæði I, bls. 77. Corpus II, bls. 391.

---

[1] hitti'. [2] eg.

Svo er hún fögur sem sól í heiði renni;
augun voru sem baldinbrá,
bar þar ekki skuggann á,
og er sá sæll, sem sofna náir hjá henni.

Viðlag við Tristramskvæði. Íslenzk fornkvæði I, bls. 194.

---

Svanurinn sýngur víða,
alla gleðina fær.
Blómgaður lundurinn
í skógi grær.

Viðlag við Bóthildarkvæði. Íslenzk fornkvæði II, bls. 22.

---

I.

Skipin liggja hér við sand,
þar er á fjöldi kalla.
Dagur fagur prýðir veröld alla.

Íslenzk fornkvæði II, bls. 224.

II.

Dimt er í heiminum, drottinn minn,
deginum tekur að halla.
Dagur fagur prýðir veröld alla.

Viðlag við kvæði um þann síðasta dag, eptir séra Einar Sigurðsson í Eydölum († 1626). Vísnabók 1612 og 1748. Íslenzk fornkvæði II, bls. 225 eptir orðabók Jóns Ólafssonar frá Grunnavík fagur, hallar. Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island 1888; bls. 444.

---

Skín á skildi
sól og sumarið fríða.
Dynur[1] í velli
þá dreingir burtu ríða.

Viðlag við kvæði af Vallara systrabana. Íslenzk fornkvæði I, bls. 110. Corpus II, bls. 391.

---

Ljúfan mann leit eg þann
við borgir;
hvar hann er
bíður hann eingar sorgir.

Íslenzk fornkvæði I, bls. 365. Viðlag við Ólöfar kvæði.

---

[1] dunar.

Leggjum land undir fót
á[1] Danamót.
[og dans vill hún heyra.[2]

Íslenzk fornkvæði II, bls. 2, 3, 5, 7, 9. Corpus II, bls. 391.

---

Gulli ber hún bjartan skó,
hlaðinn með Ófnis bíng.
Ein ber hún ángur fyrir þann öðlíng.

Viðlag við Ásbjarnar kvæði. Íslenzk fornkvæði II, bls. 211.

---

Grætr hin bjarta bauga rist
um kveld og morgna.
Hvað bar þá til
þýð mín lindin þorna?

Viðlag við Eiturbyrlunarkvæði. Íslenzk fornkvæði II, bls. 82.

---

Garparnir geingu
um grundir hratt
Ljós brennur yfir henni
liljunni glatt.

Íslenzk fornkvæði II, bls. 83.

---

Framan[3] eptir firðinum
sigla fagrar fleyr.
Sá er einginn glaður
eptir annan þreyr.

Viðlag við Eljakvæði. Íslenzk fornkvæði II, bls. 116. Þýtt í Danmarks amle Folkeviser V. 1877—90.

---

Fagurt sýngur svanurinn
um sumarlánga tíð;
þá mun lyst að leika sér
mín liljan fríð!
Fagurt sýngur svanurinn.

Viðlag við Draumkvæði. Íslenzk fornkvæði II, bls. 55. C. Rosenberg, Jordboernes Aandsliv. II. 1880, bls. 437. Corpus II, bls. 391.

---

[1] um. [2] dansinn heyra, dansinn vill hún heyra. [3] Utan.

Blítt lætur veröldin,
fölnar fögur fold.
Lángt er síðan yndið mitt
var lagt í mold.

Viðlag við stjúpmóðurkvæði. Íslenzk fornkvæði I, bls. 74. Corpus II, bls. 391.

Austan blakar laufið á þann linda.
Alt er óhægra að leysa en binda.

Viðlag við kvæði af Ribbald og Gullbrún Ny kgl. Saml. 1141, fol., bls. 296. Íslenzk fornkvæði I, bls. 129, sbr. bls. 14.

Stígum fastara' á fjöl,
spörum ekki skó;
ráði guð hvar við lendum
önnur jól.

»Viðkvæði frá einhverju fornkvæði, sem var til fyrir vestan. Eg hefi hvorki heyrt né séð meira af kvæðinu« Jón Sigurðsson á miða í hrs. Sv. Grv. 66. Viðkvæði þetta er auðsjáanlega sama og viðlagið við færeyskt fornkvæði. Sbr. Lyngbye, Færöiske Quæder 1822, bls. 555. Hammershaimb, Færösk Anthologi I. Kbh. 1891, bls. 188, 433.

Lystir únga sveinana út að gá
meðan hrím fellur á,
troða þann stiginn til búðanna,
troða þann stiginn til búðanna lá.

ÁM. 151, 8. Afskript Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66.

Heyrði' eg hörpunnar hljóð
suður undir ey;
sveinn úngi leikur
við þá vænu mey.

ÁM. 151, 8. Afskr. J. Sig. í hrs. Sv. Grv. 66.

Svo fagurt fellur hún Rín,
og dável geingur dansinn.

Hrs. J. Sig. 405, 4, nr. 62 (kvæðabók Gísla Ívarssonar),

Lystilega rennur sig
jórinn undir ey;
þó ber riddarinn vald
yfir þá vænu mey.

Hrs. J. Sig. 405, 4, nr. 74 (kvæðabók Gísla Ívarssonar). Viðlag við æði af Sigmundi. Ny kgl. Saml. 1141, fol., bls. 392.

---

Ólafur reið með björgum fram.
Ör snör flýgur sig.
Hitti hann fyrir sér álfarann.
Með örina á hendi,
riddarinn temur folann sinn með vendi.

Viðlag við Ólafskvæði. 20 er. Bibl. Bodl. Coll. Finns Magnússonar :0, 4.

---

Enn eru til brot af fjölda af viðlögum við ýms fornkvæði, og skal eg ıa til hið helzta af því tagi.

(Frúin sitr í ríkinu,)[1]
fögur sem rós;
(hennar báðu riddarar tveir)
með ástarhót.
Drósin dillaði þeim hún unni.

ÁM. 151, 8. Afskr. J. Sig. í hrs. Sv. Grv. 66.

---

(Seztu niður hjá mér)
ljós og rjóð að sjá,
(meðan eg segi sorgir þér)
sem verða má.
Leikur lind í bandi.

AM. 151, 8. Afskr. J. Sig. í hrs. Sv. Grv. 66.

---

(Sína spyrja systur vann)
undir viðinum væna:
(Viltu ekki mærin mann?)
undir lundi í þeim runni græna.

Ny kgl. Saml. 1141, fol., bls. 333.

---

[1] Línurnar, sem eru í hríngklofum eru úr kvæðinu sjálfu, en hinar eru viðlag.

(Heyrðu það mæta móðir):
Svo fagurt fellur hún Rín —
(Mundi eg eingan eiga bróður?)
Dável geingur dansinn.

Ny kgl. Saml. 1141, fol., bls. 327.

---

Riddarinn herlegur og vel,
hún dansar.
Sú ber gull og klæðin brún,
og dansar vel með.

Íslenzk fornkvæði I, bls. 17.

---

Ekki er dagur enn.
Vel dansa vífin.

Sama rit II, bls 102. Sbr. viðlag hjá Svend Grundtvig, Danmarks gamle Folkeviser IV. 1883, bls. 84: »Saa vell thaa gangis ther dantzen«. Svipað viðlag er bls. 90.

---

Sumarið mun líða.
Þá var sleginn dans undir hlíða.

Sama rit, bls. 237, 246, 254, 262, 270, 276.

---

A mína[1] trú,
og enn er hún jómfrú.

Sama rit I, bls. 41, 44, 133, 137, 317, 320.

---

Þó er enn sami
viljinn minn til hennar.

Sama rit II, bls. 65.

---

Sefur hin ríka
rós[2] á hans armi.

Sama rit, bls. 124, 127, 283. Sbr. Viðlag hjá Svend Grundtvig, Danm. gamle Folkev. II. 1856, bls. 425 »y lader eder myndis, y soffuer saa gierne y skøne fruer deres arum«. Svipuð viðlög bls. 427—8, 31—2, 34, 37, 39—40, 43, 47. IV. 1883, bls. 233.

---

Og undir hlíða
vel mátti' hún hans bíða.
Grænt og fagurt aldin undir hlíða.

Sama rit I, bls. 222.

---

[1] heiðna. [2] Rósa.

Fellur dögg
á fagra eik í lundi.

Sama rit, bls. 353. II, bls. 295.

---

Þegar á únga aldri.
Lifi eg enn
og leik eg mér aldri.

Sama rit, bls. 352, 355, 358. Sbr. það, sem stendur í Sturlúngu I. 1878, ls. 255—6; Áron Hjörleifsson lá sár í þarabrúki í Grímsey norður 1222. Eyjólfur Kársson kom til hans og spurði: Hvort lifir þú mágur? »Hann ㇑zt lifa og leika ekki«.

---

Fýsir mig á fjall að gá,
og grór fögur lindin á.

Sama rit, bls. 366. Sbr. viðlag í Danm. gl. Folkev. IV. 1883, bls. 32: men lienden groer«.

---

Um sumurin,[1]
þar allir fuglar sýngja[2] vel.

Sama rit II, bls. 38, 42, 44, 47. Sbr. Danm. gl. Folkev. IV. 1883, ls. 470: »Om Sommeren, da alle Fugle synge vel«. Svipað viðlag bls. 72—73.

---

Af rauðu gulli
eru streingirnir snúnir.

Sama rit, bls. 65.

---

[Mitt hjarta[3] grór svo gjarna,
sól og hin ljósa stjarna.

Sama rit, bls. 149. ÁM. 153, 8.

---

Hún er ein eðla rósa.

Sama rit, bls. 199, 203.

---

Vill hún jómfrúin mín (að) bíða
meðan eg þeinkti rós undir hlíða.

Sama rit, bls. 213.

---

Farvel fley
við Sikiley.
Fögrum tjöldum slógu þeir[4] undir Sámsey.

Sama rit, bls. 229, 230.

---

[1] sumarið. [2] súngu. [3] Lundurinn, 153. [4] þau.

Ljós var loginn sá,
hinn væni,
þar lundurinn brann hinn græni.

Sama rit I, bls. 15.

[Leika dýr á[1] skógi.
Frúinnar[2] sómi,
vel frúinnar sómi.

Sama rit, bls. 113, 116, 119, 122, 124.

Hún er það vænsta
vífið hann unni.

Sama rit, bls. 159.

Undir hlíða
situr hún jómfrú blíða.

Sama rit, bls. 173.

Eg var úng í græna lund geingin.

Sama rit II, bls. 83.

Eg man vel orðin þín.
Mjúklát er menskorð,
og minnstu mín.

Sama rit, bls. 87.

Þó kann vera' hann finni sína frúna.

Sama rit, bls. 306.

Vel má minn gángvarinn söðul bera,
bitil og þófa,
sjálfan mig til hófa.

Sama rit I, bls. 52. Sbr. Lyngbye, Færöiske Quæder 1822, bls. 552—53. Hammershaimb, Færösk Anthologi I. 1891, bls. 433 og viðlagið »Sielv var æg til Hova« í Danm. gl. Folkev. IV. 1883, bls. 690.

Það voru menn
og heiðarlegir hofmenn.

Sama rit, bls. 253.

Öldin man til hófa.
Það kostar svo margan
gullpeníng í lófa.

Sama rit II, bls. 80.

[1] Leikaradýr í. [2] Frúarinnar.

A þingi
betur unni Brynhildur Hríngi.

Sama rit, bls. 132.

---

Þann blíða,
vér skulum til hófa[1] ríða.

Sama rit. bls. 155, 161, 167, 171, 176, 183.

---

Hann plagar sig út að ríða.
Sprettur eitt laufið
í lundinum svo víða.

Sama rit, bls. 188—89. Sbr. viðlag í Danm. gl. Folkev. III. 1862, ls. 62: »Saa wyde som løffuen vdsprenger«.

Ýmislegt af viðkvæðunum úr íslenzkum fornkvæðum er prentað bæði í orpus poeticum II, bls. 391 og í Om Digtningen på Island. 1888, bls. 90—91. þótt þess sé ekki getið hér við hvert viðlag.

---

Viðkvæðunum við dönsku þjóðkvæðin eða fornkvæðin svipar á einstaka :að til þeirra íslenzku og hefi eg fært til þess nokkur dæmi, en víðast eru au alt önnur að orðunum til, þótt hugsunin sé stundum ekki ósvipuð. Eg ɛal nú færa hér til fáein dönsk viðlög til frekari samanburðar við þau lenzku, eptir Svend Grundtvig, Danmarks gamle Folkeviser:

Mig lyster udi lunden ad ride.

II. 1856, bls. 480. Svipað viðlag bls. 481.

Thi det er saa favrt om Sommeren.

II. 514. Svipað viðlag 515. IV. 1883, bls. 154, 58, 160—61.

Lad Dandsen gaa saa let, saa let i Lunden.

II. 663. Svipað viðlag bls. 664. IV. bls. 835—46, 848.

Under saa grön en Lide.

III. 1862, bls. 7—8.

I fører sa weell worre runer, y-meddens wy ey maa.

IV. 1883, bls. 55. Svipað bls. 56, 58—60, 62, 73.

Saa faur da falder den Rhin
vdi Brynje alle.

IV. bls. 76.

Hun bæhr unnder skoffuen y-saa grønnen.

IV, bls. 115. Svipað 116—17.

Der mynn fuolle render igienell skuoffue.

IV. bls. 199, 218.

---

[1] hófanna.

Der springer ud løffuen i-saa grøn.

IV, bls. 378. Svipað bls. 379—81, 83—84, 86—87.

Op under saa grøn en lide.

IV, bls. 500.

Eg hefi gjört mér far um að taka viðlög þau, sem keimlíkust voru þeim íslenzku, og sér hver maður, að ýmislegt er að mununum. Enn er sá aðalmunur á íslenzkum viðlögum og dönskum, að dönsku viðlögin eru hér um bil aldrei til heil, en það eru íslenzku viðlögin optast til allrar hamíngju. Í Danmarks gamle Folkeviser er aðeins eitt einasta heilt viðlag, fjórar línur.

---

Að mínum vilja mærin ljós
mig ef faðma næði,
fögur liljan loga sjós,
þá skylda' eg þylja þér kvæði.

»Í vikivakakvæði eptir Pál Vídalín.« J. Ol. Grv. Orðab. a ð. Hrs. Rasks 81, bls. 34. Hrs. Lbs. 360, 8. Kvæðabók Páls Vídalíns, með hendi Jóns Ólafssonar frá Grunnavík, og segir Jón þar: »Einginn hefir kveðið undir þessu viðkvæði nema Þorlákur Guðbrandsson eptir bón lögmanns, yfrið myrkt kvæði, svo lögmaður sendi honum það aptur og kvazt valla skilja og taldi óvíst, að nokkur mundi skilja og efandi hvort hann mundi alt hafa rétt kent, ergó væri það ónýtt. Í því kvæði kendi hann stúlkuna mardægrafjöl.«

---

Afreksmanna frægðin fríð
forðum var í heimi.
Nú er orðin önnur tíð;[1]
er sem dreymi,
er sem til þess dreymi.

Viðlag við Kappakvæði eptir Jón Þorsteinsson »Möndals lómur masturtrés« í hrs. Rasks 88 a (seinast).

---

Aldnar undir blæða,
augun fella tár;
mörg er heims mæða
og mannraunin sár.

Viðlag við Ellikvæði eptir Bólu-Hjálmar (Hjálmar Jónsson). Kvæði og kviðlíngar. 1888, bls. 133—38.

---

[1] öld. hdr.

I.

Ángantýr og Hjálmar
[hjuggust þeir[1] í ár.
Sundur var í brynjunni
hríngurinn blár.

Viðkvæði við Kappakvæði í ÁM. 148, 8, 348.—50. bl. »Rollant snemma reyndi vigur« 14 er. Hrs. Bmfj. 656, 8; 154, 8. **Viðkvæðið** hjá J. Ól. Grv. ÁM. 979 a, 4, bls. 736. 929, ÁM. 979 b, 4, bls. 1665, ÁM. 429, fol., bls. 1461 og hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island 1888, bls. 190.

II.

Allmargur ber ángurs mein
og andar hættleg sár.
Sundur er í brynjunni
hríngurinn blár.

Viðlag við andlegt kvæði í hrs. Bmfj. 572, 8.

---

Ástin mörgum eykur neyð,
er einni játast kunna.
Þó er mannlegt meyjunum að unna.

Viðkvæði við Hugraun eptir séra Í[ngjald] J[óns]s[on]. Ótalið hdr. Bmfj., 8. Hvarfsbók (frá Þorsteini á Syðra-Hvarfi) I, nr. 37. Þar eru talin ýms hjón og hjónaleysi og ástaraunir þeirra, Jakob og Rakel og Dína, Davíð og Michol, Helena (ekki nefnd með nafni) og Hektor, Odýsseivs og Penelópe, Ólafur helgi og Íngigerður, Haraldur harðráði og Zóe (ekki nefnd), Kjartan og Guðrún, Loptur ríki og Kristín. Dr. phil. Finnur Jónsson bendir mér á. að seinasta línan er og í vísu eptir Björn á Skarðsá: Þeir hafa nú sektir sett.

---

Blessi drottinn berin á því lýngi.
Hart og leingi harpan mín sýngi.

ÁM. 148, 4. Jónsbók o. fl. á skinni frá hér um bil 1500. Á spássíu, bls. 178, með mjög viðvæníngslegri hendi frá hér um bil 1600. Prentað í Diplomatarium Islandicum I, bls. 158 og hjá Jóni Þorkelssyni í Om Digtningen på Island 1888, bls. 189.

---

Blindsker og boða
ber vel að sjá,
fær þar liggur leiðin við
í landið inn hjá.

Viðlag við andlegt kvæði lángt »Skal á skilníngs blunni« í ÁM. 440b, 12.

---

[1] þeir börðust, bls. 929, 1665, 1461.

Bóndans dóttirin til Róma
hún vildi' ekki þann,[1]
sem henni gjaldið bauð,
þegar þeir ríku riddararnir kómu.

Viðlag við æfintýriskvæði í Einarsbók Jóns Þorkelssonar.

---

Brúðir stiltar
blíðlega þegnum ansa;
heyrið piltar
hverninn stúlkan dansar.

ÁM. 152 II, 8, 8. bl. Kvæðið sjálft vantar.

---

Dunar lítt þótt dansi' hin hvíta dúfan ein.

J. Ól. Grv. Orðab. dunar.

---

Eg gekk að vanda
geðs með hyggju nýta;
eg leit standa
eikina svo hvíta,
hún bar gullleg laufin að líta.

Viðlag við kvæði. eignað séra Hallgrími Péturssyni »Af því byrjast óðar skrá« 10 er. Brit. Mus. Add. 11, 181, 12. Coll. Finns Magnússonar nr. 393.

---

Eg sá framan undir hlíða
einn fola búinn með gull;
hann bar míns elskuga nafn svo víða.

»Gamalt« viðkvæði við andlegt kvæði í hrs. Bmfj. 136, 8.

---

Eg sá þann sóma,
silki og fötin blá.
Þær vilja mínum
fundinum ná.

Viðkvæði við kvæðið Sprundahrós eptir séra Í[ngjald] J[óns]s[on]. Ótalið hdr. Bmfj., 8. Hvarfsbók (frá Þorsteini Þorkelssyni á Syðra-Hvarfi í Svarfaðardal) I, nr. 35. Þar eru taldar ýmsar merkiskonur og lýst mannkostum þeirra, fyrst María mey, þá Ester, Debóra, Rahab, Rut, Naomi. [María] Magdalena, Abigael, Alexandra, sem »hafði umdæmið yfir Júðum«. Zenobia, kona Pílatusar, Tabita, Tomiris, Þyri Danabót. Lovise (líklega ein-

---

[1] þá. hdr.

hver dönsk drottníng), Arlogia drottníng í Garðaríki, Margrét Norðurlandadrottníng. Elizabeth Einglandsdrottníng, Ástríður, kona Sigvalda, Auður djúpúðga, Lángholts-Þóra, Haldóra úr Glúmu, Ketilríður úr Víglundarsögu og Guðrún Ósvífursdóttir.

Eg vafraði út á skóg,
eikin stóð þar góða;
sást þar leingi sóma blóminn fljóða.

Viðkvæði við erfiljóð eptir Íngibjörgu Bjarnadóttur í Kalmannstúngu, kveðin af séra Snorra Björnssyni að Húsafelli. Hrs. Bmfj. 125, 8, bls. 85.

Eg var mig í[1] útlöndum[2] leingi;
mér gaf ekki[3] byrinn á braut.
[Þreyir[4] mín lund[5]
og[6] það hlaut eg af henni.

Viðlag við andlegt kvæði eptir séra Ólaf Jónsson á Söndum. A = hrs. Bmfj. 70. 4, 47. bl. B = 376, 4, bls. 212—13. C = Ny kgl. Saml. 139 b, 4 57. bl. skrifað 1655. D = 1899 b, 4. E = ÁM. 240, 8. F = hrs. Rasks 42. G = ÁM. 151, 8. Aðeins viðkvæðið.

Eingelskir mínir
þeir gáfu mér rauða reim,
líka bjór á kagginn minn
þegar eg kem heim.

Orðab. J. Ól. frá Grunnavík kaggur. ÁM. 979 c, 4, bls. 2542. Afskript Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66.

Er í valdi einskis manns
ætlun guðs afvenda;
fel eg mig í hendur hans
hvar sem það vill lenda.

Viðlag við kvæði eptir Kolbein Grímsson »Fyrirhyggjan föðursins blíða« 3 er. Brit. Mus. Add. 11, 181, 12. Coll. Finns Magnússonar, nr. 393.

Fagurt galaði fuglinn sá
forðum tíð í lundi.
Listamaðurinn leingi sér þar undi.

Viðlag við Lysthúskvæði eptir Eggert Ólafsson. Kvæði 1832, bls. 219—20. Sama viðlagið er við Einsetumannskvæði, sem prentað verður í fuglakvæðunum. Enn fremur viðlag við brot af vikivakakvæði í Add. Brit. Mus. 11, 181, 12. Coll. Finns Magnússonar, nr. 393.

[1] á BDFG. útá E. [2] Upplöndum G. [3] aldrei G. [4] þreyi E.
[5] vantar í ACG. [6] sl. D.

Fagurt var
hvað fyrir þá bar
á fjallinu því.

Viðlag við kvæði um forklárun Kristí á fjallinu Tabor í hrs. J. Sig. 260, 4 (Þíngvallabók). Sbr. ÁM. 960, 4.

---

Farðu svo þú fallir ei,
fögur mær;
ekki skyldir þú falla,
fögur mær, um síðir.

Viðlag við kvæði eptir séra Stefán Olafsson. Kvæði II. 1886, bls. 232—35.

---

Fátt er mér til fljóða,
fer eg víða' um heim;
ónáttúran bannar það
eg unni þeim.

Hrs. Bmfj. 614, 8, eptir kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum, nr. 256.

---

Finn eg æskan farin er nú
með fögrum blóma sínum.
Kólnar mér á kinnvaungunum mínum.

Viðlag við Ellikvæði eptir Jón Guðmundsson í Rauðseyjum (um miðja 17. öld) Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 487, eptir safni Jóns Árnasonar A. I, 8. nr. 3.

---

Flaut með streingjum flæðar hestur
furðu margur á ægi;
þó var einn af öllum mestur
öldu jór á lægi.

Viðlag við kvæði í ÁM. 67. 8, 75.—76. bl. Frá 17. öld miðri: »Þótt fylkis arfinn frægi« 9 er. og annað kvæði, nokkurs konar kappakvæði í ÁM. 148. 8, 320.—22. bl.: »Girnist sólar grindin« 21 er. Viðlagið í orðab J. Ól. jór.

---

Fuglarnir sýngja
fagurt á aldinkvist.
Lukkan ber mann lángt í burt frá ángist.

Orðab. J. Ól. frá Grunnavík aldin. Afskr. Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66.

---

Fölnar fold,
fyrnist alt og mæðist;
hold er mold
hverju, sem það klæðist.

»Byrjun á gömlu vikivakakvæði« J. Ól. Grv. orðab. fold. Corpus II, ls. 391. Þetta er annars viðkvæði við kvæði eptir séra Hallgrím Pétursson í rs. Bmfj. 242, 8. Andlegir sálmar og kvæði. Rkv. 1857, bls. 194—96.

---

Gaktu hægt um gleðinnar dyr
og gá að þér;
einginn veit sína æfina fyr
en öll er.

Viðkvæði við kvæði eptir séra Hallgrím Pétursson: »Mæðan ekki geðið latt« 6 erindi; í hrs. Bmfj. 43. 8. Sama viðkvæði hefir verið við kvæði ptir séra Einar Guðmundsson. Sbr. ÁM. 67, 8, og hafa verið þar mörg ikivakakvæði, sem nú eru flest týnd.

---

Gefið ljóð frúvur,
karl er kominn í dans.
Guð gefi eingin júngfrúin
gjaldi hans.

Gr. Thomsen í Ísafold VI. 1879, nr. 1, en eg veit ekki betur en stef etta sé rammfæreyskt. Sjá Hammershaimb, Færöiske Kvæder I. 1851, bls. 86.

---

Gjöri eg opt að gá til þín,
gefnin ægishlíða;
hægja mun það hugraun mín.
Heyrðu mig Ríða,
heyrðu mig stóra Ríða.

Viðlag við Ríðukvæði í hrs. J. Sig. 257, 8.

---

Góður þykir mér grautur méls,
girnist eg hann laungum,
ef mér skemtir skjaldmeyin á Draungum.

Viðlag við Skjaldmeyjarkvæði eptir Eggert Ólafsson. Kvæði 1832, bls. 18—19.

---

Gröfin skilur okkur að
eina stund á láði —
senn er feingin sú eg leingi þráði.

Viðlag við Ekkilsgælu eptir Bólu-Hjálmar (Hjálmar Jónsson). Kvæði g kviðlíngar 1888, bls. 69—74.

---

Gullhornið góða
girnist margur fá.
Hæversk hríngatróða,
hlustaðu þar á.

Viðlag við kvæði eptir séra Eingilbert Þórðarson í Þíngmúla. Hrs. Bmfj. 328, 8.

---

Gullrauður púlir svo mikið vel,
hristir hann bæði væng og vél
í skinn for rottinn bel.

Thotts safn 489. I, 8.

---

Hátíð fer að höndum[1] ein,[2]
[hana vér altíð[3] prýðum;[4]
lýðurinn tendri ljósin hrein;[5]
líður að tíðum,
líður að helgum tíðum.

Orðab. J. Ól. frá Grunnavík tundur, tendra, kvæði. Afskr. Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66. Prentað í Tímariti Bmfj. XII, bls. 118.

---

Heims hrörna gæði,
hnignar alt og þver;
leikur líf á þræði,
en lukkan völt er.

Viðlag við kvæði eptir Hallgrím Pétursson. Andlegir sálmar og kvæði 1857, bls. 287—89.

---

(Heims [og heims[6]
[hlýt[7] eg nokkuð að[8] inna.[9]
Margur[10] heldur mikið af sér,
[má það einatt finna.[11]
Það er maður þótt hann láti minna.

»Viðlag í vikivakakvæði« J. Ól. Grv. ÁM. 979 c. 4. bls. 2863 = A. Viðkv. við kvæði eptir séra Hallgrím Pétursson: »Margt býr stundum mér í sinni« í hrs. Bmfj. 132, 8 = B. Prentað í Sálmar og kvæði II 1890, bls. 367—75 = C. Andlegir sálmar og kvæði. Rkv. 1857, bls. 198—205 = D.

---

[1] Að höndum fer nú (kemur) hátíð. [2] blíð. [3] allir. Tr. Bmfj. [4] hrindum sorgakvíðum, eða: harmi bægjum stríðum. [5] frið. [6] af keim CD. [7] hygg CD. [8] sl. CD. [9] Frá ( sl. A. [10] Hvað margur CD. [11] misjafnt þótt það reynist hér BCD.

Á skinnbók í hrs. ÁM. 151. 4 stendur þetta neðanmáls á bls. 17:

Hind á skógi,
riddarinn veiðir hind á skógi.

andritið er af Jónsbók og frá hér um bil 1450, en vísuorðin eru með hendi á 16. öld, og virðast vera brot úr viðkvæði.

**Heilræði.**

Hirðið stúlkur aldrei um þá illu kalla.
þeirra trútt er þelið valla.

Hrs. Sv. Grv. 67. Frá Pétri Guðjónssyni til A. P. Berggreens.

---

Hlúnkar[1] í palli,
píkan er hún enn;
allir eru [þeir steingeldir[2]
Staðarmenn.

›I vikivakakvæði‹ J. Ol. Grv. Orðab. geldur, hlúnkar. ÁM. 979 b, 4, s. 1302. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N., með hendi séra Helga Sigurðssonar Melum.

---

Hugurinn minn er hjá þér
[mín hýrust hringa brú.[3]
gjörðu svo vel góðin mín
og gegndu mér nú.

Viðlag við kvæði um tvö vöggubörn eptir séra Hallgrím Pétursson: Nú má heyra nistilhrund‹ 26 er. í hrs. Rasks 89 a, með hendi Jóns ktors Stefánssonar á Djúpavogi. Séra Bjarni Gissurarson á Þíngmúla ‹fir líka ort lángt kvæði, Kvonbónakvæði, undir viðlagi þessu. Það er í ‹s. Bmfj. 656, 8.

---

Hvað mun sorgin vilja mér?
Hún vill mig yfirbuga,
hún leikur jafnan leynt við minn huga.

Viðlag við raunakvæði: ›Verður hróðrar voða stríði‹ 5 er. í ÁM. 149, X. Frá 17. öld.

---

Hýr gleður hug minn
hríngagátt,
þegar eg þig finn,
og þá er mér kátt.

›Upphaf á vikivakakvæði‹ J. Ól. Grv. Orðab. hýr.

---

[1] Pumpar, 67. [2] steingiptir. 67. [3] hýrleg auðarbrú, 656.

Hýr mundi' eg hlaðsól,
heitt unna þér
[ef þú létir í dúninum
dilla mér.[1]

Jón stúdent Marteinsson (hér um bil 1750) í hrs. Sv. Grv. 66. Páll Vídalín segir í æfisögu Hallgríms Péturssonar, hrs. Thotts 1150 fol., að sumir segi að kvæði þetta sé eptir Hallgrím Pétursson, en hann kvezt efast um að svo sé.

---

Í þessu veraldar veldi
veit eg að líður á;
komið er að kveldi,
kveykja vel má.

Viðlag við andlegt kvæði: »Synda myrkrið særir lýð« 6 erindi í Austanbók Jóns Þorkelssonar, skrifaðri 1823.

---

Kallinn bar kvíða
fyrir kellíngar bann;
leitar lángt og víða,
lind hvergi fann.

Viðlag við brot af ýkjukvæði: »Kveykir margur Kvásis glóð, þar kallinn hryggur eptir stóð« 8 er. í ÁM. 551 d α, 4, 78 bl. Frá 17. öld. Endinn á kvæðinu er í ÁM. 723 a 4, bls. 19—20. Frá 17. öld.

---

Kæri vinur kem eg enn,
kýs eg næturvist hjá þér.
Guð launi yður góðu menn
það gjörðuð þér mér.

Viðlag við kvæði eptir Sigríði Jónsdóttur (Siggu skáldu á 17. öld). ÁM. 276, 8; í þætti um Siggu eptir Gísla Konráðsson. Prentað í Ísafold IV. 1877, nr. 29.

---

Lilja' er blá, en rauð er rós,
rétt mega allir skilja;
gaktu í valið, giptu kjós;
gæfan mun það vilja
Dygðir ylja
eins og rós og lilja.

Hrs. Bmfj. 629, 8.

---

[1] vantar í 1150.

Lukkan styrki lindir þær,
að ljúflætið mér sýna.
Blíðar stíga brúðir tvær
við báða arma mína,
við báða arma mína.

Erindi þetta virðist vera viðlag við vikivakakvæði og stendur aptan við það:

Leingur skrifa lízt ei nú
hjá lýðum fínum.
Sértu firtur sút og pínu[m]
seggur, á öllum vegum þínum.
[Vale in domine bonus frater.[1]

Hrs. J. Sig. 257, 8.

---

Margur prísar[2] sumarið[3]
fyrir fagran fuglasaung,
[en eg hæli vetrinum,[4]
því nóttin er laung.

Viðlag við kvæði í hrs. Bmfj. 717. 8. skrifað med hendi Haldórs onrektors Hjálmarssonar. ÁM. 148, 8, 262—65. bl.: »Af vetri og sumri il eg nú hér« 27 erindi. Viðlagið á spássíu á skinnbroti af Sverrissögu Stokkhólmi. Sturlúnga I. Oxf. 1878. Prolegomena, bls. CLIX.

---

Mig þótt biðji mærin að dansa
kann eg ekki' að kveða par;
kent mér aldrei þvílíkt var.
Fríuð vertu fári, sorg og vansa.

Viðkvæði við Barnakvæði í hrs. J. Sig. 130.

---

Mínar eru sorgirnar
þúngar sem blý.
Brunnar eru borgirnar,
böl er að því.

Eptir sögn húsfrúr Karólínu Jónsdóttur.

---

[1] Í guðs friði bróðir góður. [2] Margir prísa, 148. [3] sumurin, 148.
[4] ýmsir heiðra vinturinn, 148.

Mýkir móð
[mjúklynd ein[1] sæta,
þýð og fróð,[2]
þess má öldin gæta.
Kvinnan[3] góð
kann um[4] hrygð að bæta.

Viðkvæði við »Eitt kvæði um rétta elsku hjónanna« í hrs. Bmfj. 633, 8 = A. B = hrs. Bmfj. 329, 8. Á tveimur stöðum, í bæði skiptin með hendi Jóns Jónssonar garðyrkjumanns (bókabéusar). C = hrs. Bmfj. 382, 8 (í registri yfir kvæði).

---

Ríddu þig undir lundinn
og bittu þar þinn hest;
trúðu þínum stallbróður,
en sjálfum þér bezt.

Jón stúdent Marteinsson (hér um bil 1750) í hrs. Sv. Grv. 66. Kvæðið hefir áður verið í ÁM. 67, 8, en er nú týnt.

---

Raddir nam eg nýjar
í Niflúngaheim.
Sælan[5] var að sitja þar
í saungunum þeim.

Viðlag við kvæði, »Um art og eðli guðs barna og veraldarinnar barna«, eptir séra Bjarna Gissurarson í Þingmúla. Hrs. Thotts 473, 4. Eiginhandarrit. B = Austanbók Jóns Þorkelssonar.

---

Sat eg undir fjallinu fríða;
heyrði' eg fagran fuglasaung
um dægur laung,
ekki reikaði hugur minn þá víða.

Viðlag við kvæði eptir séra Hallgrím Pétursson Ljóðmæli Rkv. 1885, bls. 56—58. Sálmar og kvæði II. 1890, bls. 386—89. Andlegir sálmar og kvæði 1857, bls. 285—86. Tvö kvæði með viðlagi þessu hafa verið í ÁM. 67, 8, en eru nú týnd.

---

Séð hefi' eg marga seimabil
sitja' á bekknum þaðra;
af kynníng okkar kemur það til
eg kýs þig heldur en aðra.

Guðmundur Andrésson, Lexicon Islandicum. Hafn. 1683, bls. 261. Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island 1887, bls. 189.

---

[1] sl. C. Frá [menjahrundin B. [2] rjóð B. [3] Kvinna A. [4] hún BC. [5] Sæla B.

Sérhvað hefir sína tíð,
svo er að hlæja' og gráta.
Hóf er bezt,
[hafðu' á öllu[1] máta.

Viðkvæði við kvæði eptir séra Hallgrím Pétursson í hrs. Bmfj. 105, 4, s. 316—17. B = 242, 8. Kvæðið er prentað í Ljóðmæli. Rkv. 1885, s. 58—59. Sálmar og kvæði II. 1890, bls. 322—24 = C. Andlegir lmar og kvæði. Rkv. 1857, bls. 185—86 = D.

---

Sérhver jafnan sínu ann,
sízt má undur kalla;
ástin fer að álitinu valla.

Viðkv. við kvæði eptir Jón Guðmundsson lærða »um samtal össu og umma«. ÁM. 152. 8.

---

Árið 1680 í Saurbæ eða á Kalastöðum hafði maður dáið. sá er vakandi fði sjaldan ókveðandi verið, en þegar hann lá á líkbörunum hafði hann tta erindi hátt kveðið:

Sefur hind á heiði
stúngin[2] svefnþorn.
Skal hún ekki vakna vilja
veiga norn.

Hrs. Bmfj. 253. 8. með hendi Þorkels lögréttumanns Jónssonar á auni í Grindavík, skr. hér um bil 1750—60. Huld I. Rkv. 1890. bls. 71. Aðrir segja að manns beinagrind hafi fundizt á grasafjalli og hafi verið eðið i henni í tvö dægur. Út af þessu orti séra Gunnar Pálsson kvæði jú erindi) og hafði fyrir viðlag upphafið af því, sem kveðið var í beinandinni, en það er vísa sú, sem prentuð er hér að ofan.

---

Skemman gullinu glæst,
glóir[3] hún öll að sjá.
Þar leikur[4] jafnan
minn[5] huguninn á.

Viðkvæði við andlegt kvæði eptir séra Jón Guðmundsson í Felli (Stærra' skógi 387, 8) í hrs. Bmfj. 388, 8: 387, 8; 656, 8; 657, 8; 194, 8; 213, 8; 3, 8; 67, 8. Þar er tekið fram, að viðkvæðið sé gamalt. Hrs. Bmfj. 614. 8. eins viðlagið. Hrs. Thotts 473, 4, 60. bl. Kvæðið er eptir séra Bjarna surarson á Þingmúla, því 473 er alt eptir hann og eiginhandarrit. Hrs.

[1] að hafa' á öllum BCD. [2] stúngið. [3] glóar 473 og víðar. [4] leiki 473. [5] þinn 473.

Bmfj. 379, 8. ÁM. 969, 4, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum; er kvæðið kallað þar »Eitt fagurt kvæði um herrans gæzku við oss«. Líka viðkvæði við kvæði eptir séra Brynjólf Haldórsson í Kirkjubæ í hrs. Bmfj. 136, 8.: »Ála svalur minn frá manna« 6 erindi. Viðlagið í Om Digtningen på Island 1888, bls. 196.

---

Svei því að eg syrgi' hana,
sjáðu hvernig fer.
Einhverja dyrgjuna
ætlar guð mér.

Orðab. J. Ól. Grv. dyrgja.

---

Sú er ein höll með gulli glæst,
glóir hún jafnt að sjá;
er þeim eingum apturlæst,
sem henni vilja ná.

Viðlag við andlegt kvæði: »Stiltu raddar streinginn bleika« í kvæðabók Jóns Þorkelssonar ýngra, ritaðri í Haukadal vestur 1748.

---

Svo skulum við til gleðinnar gá
að góðu eingu týni.
Guð oss fylli gleðinnar víni.

Viðlag við »Gleðikvæði«: Hljóma læt eg gleðinnar góma«. 4 er. Bibl. Bodl. Coll. Finns Magnússonar 6. fol.

---

I.

Taki sá við dansi,
sem betur kann og má.
Látum herinn brynjaðan
borgunum ná.

Viðlag við andlegt kvæði í Austanbók Jóns Þorkelssonar: »Náðin guðs er brynjan bezt« 5 er. Safn Páls Pálssonar, nr. 36, bls. 136. Lambastaðabók Jóns Árnasonar. Afskript Jóns Sigurðssonar af viðlaginu og 1. er. í hrs. Sv. Grv. 66.

II.

Taki sá við dansi,
sem betur kann og má.
Hér víkur allur
minn hugurinn frá.

Jón Ólafsson frá Grunnavík. Orðabók dans.

---

Taktu þitt í tíma ráð,
temdu holdið balda;
æskunnar má ellin tíðum gjalda.

Viðlag við Knapavísu. Fyrsta erindið í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi ns Sigurðssonar og hefir hann efalaust tekið það úr ritum Jóns Ólafssonar Grunnavík. Þíngvallabók, hrs. J. Sig. 260, 4, og er sagt þar, að kvæðið eptir séra Magnús Ólafsson í Laufási. Sbr. ÁM. 960, 4.

---

Úti' ert þú við eyjar blár,
en eg er seztur að Draungum.
Blóminn fagur kvenna klár,
kalla' eg til þín laungum.

Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 190. Sbr. Bólu-álmar, Kvæði og kviðlíngar 1888, bls. 114.

II.

Út ertu við æginn blá;
eg er að Draungum,
eg er seztur að Draungum.

J. Ol. Grv. orðab. kvæði.

III.

Út ertu við æginn blá;
eg er hér á draungum.
Blómi fagur kvenna klár,
kalla eg laungum,
kalla eg til þín laungum.

Viðkv. við kvæði eptir Eggert Olafsson. Hrs. Bmfj. 734, 8 (Stokka-aðabók). Kvæði 1832, bls. 116—18. Corpus II, bls. 391.

Sæmundur Eyjólfsson segir, að Galdra-Leifi (Þorleifur Þórðarson) hafi t vísu þessa til álfkonu, sem hann var í kunníngsskap við (Sögusafn óðólfs II, 2. útg. 1891, bls. 26). Jón Guðmundsson lærði segir aptur í s. Stockh. 64, fol., að ljúflíngur hafi ort vísuna. Sbr. Þjóðs. Jóns Árnaðar I, bls. XV.

---

I.

Vatnið rennur af háum fjöllum
eptir hvössu grjóti.
Ilt er að leggja ást við þann,
sem einga leggur á móti.

Grímur Thomsen í Ísafold VI. 1879, nr. 1. Sbr. Hammershaimb, ɘrðiske Kvæder I, bls. 117.

II.

Að stöðva lax í strángri á
og stikla' á hörðu grjóti.
eins er að binda ást við þá,
sem einga leggja' á móti.

Sagt er að vísa þessi sé úr Pontusrímum Magnúsar prúða, en hún kvað ekki vera þar. Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island 1888, bls. 117.

III.

Laxinn stökkur strauminn á
og stökkur á hörðu grjóti.
Ilt er að leggja ást við þá,
sem einga kunna' á móti.

Jón Ólafsson frá Grunnavík. Orðabók lax.

---

Við norðanveðri' í Höfn er hnítt,
hvirflar hann upp úr sænum;
kellíngunum kemur það lítt,
þær kreppa sig inn í bænum.

Viðlag við kvæði eptir Steinunni Finnsdóttur i Höfn. ÁM. 146 b. 8, 32.—33. bl.

---

Víða logar Vignis bálið hreina,
málma Þundar Mímis plögg
meiða þá i sára dögg;
hjálma gautar Héðins brúði reyna.

Viðlag við kvæði eptir Steinunni Finnsdóttur frá Höfn. ÁM. 146 b. 8.

---

I.

[Viltu ekki[1] eiga mig
með [kolli mínum[2] brúnum,
heldur en annar[3] villi þig
með rúnum.

Olaus Wormius, Literatura runica. Hafniæ. 1651, bls. 14. Ettmüller, Völuspá 1830. Inngángur, bls. VII. Sbr. bls. LV. Hrs. Thotts 773, fol., bls. 16 = B. Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 189.

[1] Betra er þér að B. [2] mínum kolli B. [3] aðrir B.

II.

(Sigmundur fyrir austan borg,)
í túnum.
Einginn þeirra villir hana
með rúnum.

Viðlag við kvæði af Sigmundi. Ny kgl. Saml. 1141, fol., bls. 47. Íslenzk ›rnkvæði I. bls. 66. Sbr. Viðlagið: ›Saa herlig kunde hun raade de runer‹ Danm. gl. Folkv. III, bls. 111. Sbr. bls. 117.

---

Væri brandur minn búinn með stál,
skyldi' eg ekki flýja löndin
fyrir þau kvennamál.

Tímarit Jóns Péturssonar IV, bls. 29—30, og segir Jón þar, að stef ɔtta sé haft eptir séra Guðbjarti Ásgrímssyni á Bægisá, föður séra Þorkels uðbjartssonar í Laufási. eða gert undir hans nafni. Séra Guðbjartur hafði ɔrið kvennamaður mikill og dansleikari. Í hrs. Sv. Grv. 66 er aptur iði með hendi Jóns Sigurðssonar, og hefir Jón Sigurðsson þar eptir nafna num Péturssyni, að vísustefið sé eptir Vermund kögur frá Færeyjum. Jón orkelsson, Om Digtningen på Island 1888, bls. 189, 253.

---

Völt er veraldar blíða,
en vorin köld að sjá;
sumartíðin sólfögur
sefar kul þá.

Viðlag við ›Kvæði um öfgun lands og lýða‹ eptir séra Bjarna Gissarson á Þíngmúla. Hrs. Thotts 473, 4, 127. bl. Eiginhandarrit.

---

Þá var glatt í kóngsins höllu,
dreingir drukku vín;
þá báru fuglar eld í borg
með vængjum sín.

Viðlag við kvæði um Harald harðráða: ›Harald nefni eg hilmi þann‹ er. Bibl. Bodl. Coll. Finns Magnússonar, 6, fol. Finnur Magnússon ɡir í skrá þeirri, sem hann hefir samið yfir handritasafn sitt í Bodleyanska kasafninu í Oxford. að í 6, fol. sé ›sjaldgæft og gamalt kvæði, óútgefið, n eitt af hernaðarbrögðum Haralds konúngs harðráða; hafi það, ef til vill, rið haft við í vikivökum.‹

---

Það er list að tala' í tíð
og taka því hygginn segir.
Sá er vitur, sem að í tíma þegir.

Viðlag við hálfandlegt kvæði í ÁM. 149, X, 8: »Lánið prýðir. þénar þjóðum« 7 erindi. Frá 17. öld.

---

Þar þykir mér
vænt að vera,
er drottinn dansar
með dreingjum.

Gaukurinn gall
í grænni hlíð
og fuglar fagrir
fljóta vængi skaka.

Stef (viðkvæði) í vikivaka. Grímur Thomsen í Ísafold VI. 1879, nr. 1.

---

Þó að maður og menja grund
mæti nokkri stygð,
þolinmæði' og þýðleg lund,
það er hin bezta dygð.

Viðlag við »Eitt kvæði til gamans«: »Nú skal láta Fjölnis fley« 22 er. Hrs. Rasks 94.

---

Æzt allra eika,
eitt tréð, ber skjól.
Þar vildi' eg leika
þríhelg öll jól.

Viðlag við andlegt kvæði í ÁM. 440 b, 12. »Sál mín vel við skyldum skoða.«

# Tröllaslagir.

Eg hnýti hér aptan við ýmsum tröllaslögum og risaslögum, því það er ;inginn efi á því, að þeir eru dansar, eða, að minnsta kosti, sniðnir eptir lönsum í upphafi, og sumir þeirra virðast jafnvel bera með sér, að dansað ıafi verið eptir þeim, eins og Tröllaslagur hinn forni: »Fer her í fótspor«, Endinn virðist jafnvel helzt benda til þess, að fimtíu konur, fimtán segja ıðrir, hafi stigið dans eptir tröllaslag þessum »undir Skjaldbreiðarskúta«, ef il vill á Hofmannafleti, en valla mun þó vera ráðlegt að trúa því.

Grímur Thomsen segir í Ísafold VI. 1879, nr. 1., að tröllaslagur þessi, ;em hann kallar litla tröllaslag, hafi verið nokkurs konar Hallingdans[1] eptir ıragarhættinum og stuðlatölunni að dæma, en »Hríð gríðar hörð reið«, sem ıann kallar stóra tröllaslag, sé auðsjáanlega stökkdans (Springdans) »Hefir ıér eins og enn í Noregi verið ætlazt til, að dansinn væri stiginn af tómum :allmönnum og fótatakið sem harðast og tíðast.« Þetta kemur vel heim 'ið það. sem segir í vikivakalýsíngunum, þar sem talað er um kalladans og :vennadans. Kallmenn hafa dansað eptir lögum þeim, sem voru hörð og ›þjál og heimtuðu sterka og ákafa hreifíngu, en konur einar. eða ef til vill ›æði konur og kallar eptir lögum. þar sem stuðlafallið var blíðara og þýðara.

Grímur Thomsen hefir þannig heyrt (Ísaf. VI, 1), að eptir lánglokunni Við í lund[2]« hafi konur stigið dans með köllum og sé því bæði hugsanin, tuðlafallið og lagið blíðara en t. d. í tröllaslögunum. Sama máli mun vera .ð gegna um ýmsar af ástalánglokum þeim, sem eg færi til.

Tröllaslagir eru ekki eldri en frá 17. öld,[3] en úr því fara skáld þau, em kveða háttalykla. að taka þá upp í háttalykla sína, og mun standa ›annig á sumum tröllaslögunum. sem eg hefi tínt til. Eg hefi þó ekki viljað leppa þeim. því ervitt er að greina í sundur tröllaslagi þá, sem dansað .efir verið eptir, eða dansað kann að hafa verið eptir, og tröllaslagi þá, sem agyrðíngar hafa aðeins ort til að sýna, hve þeir gætu klambrað saman ýrum bragarháttum, en aptur hefi eg ekki borið við að taka ýmsa aðra ínglokubragi, sem heita reyndar öðru nafni en tröllaslagur, en eru þó mjög eimlíkir þeim. Slíkt gæti ært óstöðugan. því af þeim er til mesti urmull ptir hina og þessa, og eru flestar vísurnar mesta klúður, eins og von er il, þar sem bragarhátturinn er jafndýr og erfiður.

---

[1] Þ. e. dans, sem tíðkast til sveita í Noregi. [2] Eptir Þorlák prest Þórarinsson á Ósi og prentað í Ljóðmælum hans. Lánglokan er auk þess til í fjölda af handritum. [3] Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island. Kmh. 1888, bls. 199.

### [Rammaukinn tröllaslagur með lángloku fleygum.[1]

Erindi smíða eg vil breytt,[2]
ekki sneitt,
þó er það leitt.[3]
Eigi kvíða skulum vér neitt.
Mát[4] þótt greitt
verði veitt,
víst mætti líða
og bíða,
sólin skikkju fríða,
málþýða,
meðan greitt
væri veitt
veizlan Sigtýs hríða
munnvíða;[5]
látum svíða
gjöf[6] gríða
gjarða stríða
[ángurs tíða.[7]
Svo súngu fuglar Týs
á fjallinu hlíða.[8]

Hrs. Bmfj. 105, 4 (Vatnshyrna). Úr háttalykli Þorláks Guðbrandssonar Vídalíns. A = hrs. Bmfj. 165, 8. B = hrs. Bmfj. 37, 8, bls. 107.

### Tröllaslagur hinn forni.

I.

Fer her [ei fótspar,[9]
flokkum[10] vér[11] brokkum með stokkum,[12]
undir grund[13] og yfir lönd[14]
[á eykjum[15] [svo feykjum[16] [vér reykjum.[17]
Vindur[18] blindar[19] vogsund.[20]
vökum[21] [vér tökum[22] [við rökum,[23]
hryllir[24] illa,[25] hríðgöll
hreppum,[26] [vér sleppum[27] [af greppum.[28]
Gull er grams múta,
geymdu[29] það[30] Rúta,[31]
[látum slúta
leingi lúta.[32]
[Svo[33] kváðu meyjar[34] undir[35] Skjaldbreiðarskúta.[36]
[Fimtíu[37] í flokki saman
frömdu þetta gaman.[38]

[1] sl. B. [2] greitt B. [3] breitt B. [4] mót B. [5] mun víða A. [6] gröf A. [7] sl. B. [8] fríða A. [9] í fótspor ABCDEFJ. [10] fokkum Lex. run. GHJ; með flokkum B. [11] sl. G. [12] strokum B; vér rokkum G. [13] lund AF; lönd B; land GJ. [14] lund H; grund ABF; sund D; sand CEG. [15] eykjum ACDEFJ; vér eykjum B. [16] feykjum AF; og feykjum B; reykjum CDE; þá feykjum J. [17] með reykjum ABFJ; vér feykjum CD; feykjum E. [18] vindar GJ. [19] blindi F; blinda GJ. [20] vogs und F; vaksund G; vogssund H. [21] vér vökum B; í vökum J. [22] og tökum B; rökum CDE; tökum FG; með rökum J. [23] með rökum ABFJ; vér tökum CD; tökum E; vér rökum G. [24] heillir AF; herðir B; hrellir CD; hrella E; hylli J. [25] villir AFH; alla DG; illa E; sylli J. [26] vér hreppum B. [27] ei sleppum AJ; með greppum BC; vér kreppum E; greppum F; skreppum DG; af sleppum H; þeim greppum I; af greppum J. [28] greppum A; og sleppum B; sleppum C; af greppum D; ei sleppum EFJ; vér sleppum G; vér greppum H. [29] gáðu EF; gættu G; gá þú A. [30] þar B; að þér E; að F; þess G; að því A. [31] hrúta B. [32] DG. Frá [ Í vindi virðar lúta, verða stúta J. [33] þetta BCDE. [34] meyjarnar BCDEF. [35] við BCDEF. [36] Skjaldmeyjarskúta E. Frá [ þetta kváðu systurnar *undir Sælíngsdalsheiði* G. [37] Fimtán CE. [38] Frá [ vantar í Lex. run. BHJ

Specimen lexici runici a Magno Olavio (séra Magnús Ólafsson í Laufási) niæ M. DC. L, bls. 88, og segir hann, að fornmenn hafi kallað vísuna aslag, af því tröll hafi fyrst kveðið hana. Prentuð eptir sama riti hjá Þorkelssyni, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 199. Í Lex. run. 89, er önnur útgáfa af tröllaslag þessum, en hún er miklu reingri en sem færð er hér til. A = ÁM. 148, 8. 25. bl. B = ÁM. 160, 8, II, 9. C = hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Frá séra Jóni Eyjólfssyni. D = ɔld VI. 1879, nr. 1. E = hrs. J. Sig. 237, 8. F = hrs. Bmfj. 165, 8. = Útgáfa frá Jóni Árnasyni að vestan. H = Safn Magnus de la Gardie ɔpsölum, nr. 54, 4. Afskr. í hrs. J. Sig. 406, 4. Prentað í kvæðum íns Ólafssonar I, bls. 324. I = Útgáfa frá Jóni Árnasyni að norðan. › hrs. Rasks 86.

II.

hér ei fótspor,
um, vér brokkum með stokkum,
r lund og yfir grund
ım vér feykjum með reykjum.
lur blindar vogsund,
m, vér tökum, þeim hrökum,
ir illa, hríðgöll
pum, ei sleppum þeim greppum.
ımenn gjörðu nakt sverð
, og hrista til lista,
brátt og hart með sæði ótt;
örðugir börðust á jörðu;
á hólmi ólmir höfðu skálm,
hrafni að tafna að safni.
Gull er grams múta.
Gættu þess Rúta.
Þetta kváðu meyjar
undir Skjaldbreiða skúta.
Fimtíu í flokk saman
frömdu þetta gaman.

Frá Pálma Pálssyni. Ein lína úr innskotinu kemur fyrir í útgáfunni Jóni Árnasyni að norðan: »Örðurigir(!) börðust á jörðu«.

## Tröllaslagur.

ð gríðar hörð reið
num svo tönnum að mönnum
.i nistin[1] gulls hast,
íngur var[2] lángur og strángur.
ng spaungin seims grund
ır heims álfur þá skjálfa.[3]
lu[4] undir dverglönd
ır við glósur[5] á Ósi —
ıaði fansinn ós unns
svo öllum lá tröllum við föllum.[6]
Sá dagur er mér í minni
meður þjáníng sinni;
hestar sprúngu
af harki þúngu,
heitur, sem þeim[7] brynni
eldur í nösum inni
þá Eyvör sprakk í skinni.

[1] niptin B. [2] varð B. [3] vantar í A. [4] dundi B. [5] glósu B. [6] vantar í A. [7] að B.

A = Miði frá J. Árn. Eignað séra Brynjólfi Haldórssyni í Kirkjubæ. Prentað í Ísafold VI. 1879, nr. 1 og kvæðum Stefáns Ólafssonar II, bls. 117—18, eptir Pálssafni, nr. I, 8. XXII. b. og hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. frá séra Jóni Eyjólfssyni. B = kvæðabók Jóns Þorkelssonar ýngra, skrifuð í Haukadal vestur 1748.

### Tröllaslagur.

Í Vík var aukið[1] vopna brak,
vinnumann stinnur hét Finnur,
djarfur veifar[2] Dáins leif,
dreingur með steingur fram geingur,
í lopti skiptust[3] leingi og[4] opt
[leikvinur gildi með[5] skildi,
Skjaldvör gild í skálma[6] sálm
skjótráð á móti, með spjóti
sig vildi höggum verja,
vanur í kífi[7] að berja,[8]
kylfu henti hver sem má,
[9]holdið mátti merja
[og ærslum[10] erja
þar[11] öll hjúin sverja.

A = hrs. Bmfj. 194, 8. B = kvæðabók Jóns Þorkelssonar ýngra, skrifuð í Haukadal vestur 1748.

### Tröllaslagur minni 1769.

[Ljósa] að prísa lófa íss
lilju, minn [vilji' er, og þylja
línu eina', ef la[uk]a rein
í lyndi sér findist það yndi.
Klæða fríð er þæg, þýð
þöllin, sem mjöllin óspjölluð;
rjóð sem blóð er reima slóð,
eg ræði' um þau gæði án mæðu.
Sólu ála svinn Bil
sómans í blómanum ljómar.
Hrundu hrannar glóða
hjá er blíðan góða.
Alls kyns gleði,
eg sem téði,
og einatt fleinarjóða
ástar eflir gróða
ágæt refla tróða.

Hrs. Bmfj. 278. 8.

### Tröllaslagur.

Orustu örvar
áður á láði ódáða,
þar sem Kári' og kríngsknör(!)
knefahögg gefa óefað
dustað, hvestum dug hast,
dólgur bólginn af ólgu;
hrökk þó ekki hart svak,
hrundi á grundu við slundur.
Þundur Þjassa mála
þá í kjálkaskála,
haukaslóð af hjörvarjóð
hreif, sem grettin fála,
niðurflóði' af benjum blóð;
brögð eru þetta gála.
Taki Týr af stála
tröllaslag óbrjálað.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Gesti bónda Helgasyni á Sæbóli.

---

[1] aukar B. [2] veifaði B. [3] skiptist B. [4] sl. B. [5] með leikfima gildi og B. [6] skálmar B. [7] stríði B. [8] herja B. [9] sem B. [10] arslum A. Frá [ *Agnsleðum B.* [11] en B.

**Tröllaslagur Jóns Guðmundssonar í Rauðsey.**

Rýkur, strýkur, fram flaut
í fjöllum öllum með sköllum
geitar sveitar grimm þraut,
geymast[1] því beimar[2] nú heima.
Nölta, tölta' um hörð holt
jarðir, því jarðir nú skarða[r];
restur flesta búkost,
baulur í þaula sígaula.
Blikna bönd-vinda,
byljirnir afmynda
flyðrubarna fagran völl,
Fjölnis vífs binda
foldar fjalltinda,
fljúgum í neyð vinda.

Hrs. Bmfj. 634, 8 (Þórkatla hin minni). Stockh. nr. 64, fol., bls. 38. Hrs. J. Sig. 404, 4. Prentað hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på sland. 1888, bls. 488.

**Aldýr risaslagur hinn mesti eða kimla banda slitur stakkhent.**

Slóð nöðru hæða
hlýði kvæða óð;
hagyrt lag stirt
birtist gagurt.
Reyn funa lín
lóns væna ljóð mín
góð, fín;
rjóðust þöll,
gulls þöll,
stáls þrjóta horna fljót
forna skap norna.
Valda falda fold mild
fáðu mér,
gáðu' að þér,
smáðum,[3] hönd þína;
sprund spræna bruna,
spaklát mærin káta,
skær í máta,
þá mun eg láta
Gefnar gráta
grund við Fals báta.
Viljir þú
baugs brú,
nýtust nú,
fríðust frú,
tryggust, trú,
trútt mér elsku játa,
eg spjátra mig, státa,
hvað sem á vill bjáta.

Hrs. Bmfj. 572, 8.

**Tröllaslagur.**

Sónar lón eg seint mun
svanna banna að kanna.
Keldu elda fín fold,
fleira meira má heyra.
Kann til vanta mig ment
mæta að kæta, ágæta.
Ekki fékk eg einn drykk
óma góma, til sóma.
Stirður stofnast bragur,
stundum þeygi fagur,
því er þetta' á ragur
þánki minn óhagur.
Hvort að vessa
háttur þessi
heiti tröllaslagur
greppar gjörla vita,
sem[4] gamlar vísur rita.

Hrs. Bmfj. 9, III, 8 (kvæðabók Jóns Stefánssonar. Brunnið). 734, 8 Stokkahlaðabók).

---

[1] geymist, hdr. [2] beymast, hdr. [3] smáður, hdr. [4] þeir, 734.

### Tröllaslagur [hinn forni.[1]

Strind[2] linda[3] Fjölnis fund
færum, vér tærum síðbærum;
svinn ef sinnir[4] seims Gunn
sveitum Gríms heitum, ófeitum;
huga[5] buga[6] hríngs lág[7]
hljótum vér móti þér fljótum;
[festu beztu[8] frú ást.
förum, vér gjörum, frið spörum,
undir land[9] og yfir sand[10]
örkum á mörkum með björkum.
Missum mergð súta.
mótgangs klúta
látum lúta,
leingi slúta;
bíðum svo byrjar undir forlaga skúta.

A = hrs. Bmfj. 372. 8. B = 105, 4 (Vatnshyrna). Úr háttalykli Þorláks Guðbrandssonar. C = hrs. Bmfj. 165. 8.

### Tröllaslagur.

Sætan lætur sinn fót
slángra við Lánganesstánga;
skorð norður um Skagafjörð
skyggnist um tignarmenn hyggna;
skundar sprund á Skarðsströnd;
skeiðin breiðist til leiða,
síðan ríður sína leið
að setri vetra fram betur.
Þorleif hún þreyði.
þetta lángleiði.
Svo samdi Silva
undir Sælíngsdalsheiði.
Nú er hálfur horfinn greiði,
úr höndum veiði.

Hrs. Bmfj. 634, 8 (Þórkatla hinn minni).

### Tröllaslagur.

Títt hittan trölls hátt
til Mánga, leið lánga, læt gánga;
fann eg hann
en ei orðréttan, né léttan samsettan.
Bón og von er blíð mín
bragsyrða vel virðir[11] ment stirða.
vel virða.
Senn brenni óðurinn í eldi,
laus héldi, þér seldi;
öll til samans orð eg feldi
á einu kveldi.
Magnús magt og veldi
má eg sjá(?) að héldi.

Hrs. Bmfj. 165. 8.

### Tröllaslagur.[12]

[Þetta finnst ort af tveimur ferðamönnum til tröllanna.[13]

Tryllist[14] tröll í helli hvellum
[hljóða kvæða[15] [grimm mjög dimmum.[16]
[rymja, glymja.[17] þrymja, þruma
þrúngið[18] laungum[19] grjót með[20] róti,[21]
orða birgðum[22] jötuns[23] játum.[24]

[1] BC. [2] Stund A. [3] lindis C. [4] sinnis C. [5] hugar A. [6] bugar A. [7] lag. hdr. [8] festum bezta C. [9] lund BC. [10] land BC. [11] virða. hdr. [12] Aldýr risaslagur hinn mesti BCD. [13] sl. BC. [14] Tryllast B. [15] hljóðkvæða dyn C. [16] grimmum C; sl. 132. [17] rimis glíma C. [18] þrúngin BCD. [19] lúngum B. [20] á B; að CD. [21] róta D. [22] byrðum. hdr. AE; birðu B; *byrðar C; birða* D. [23] jötun. handritin. [24] játu B; játa CD.

jörð óstirða[1] hötum[2] gátum,[3]
(Óðins átu
ei vér[4] gátum
sverðs að[5] sátrum,
þótt þrúði flæða
[þjóttu æða[6]
þéttra glæða
þar[7] í té látum,[8]
mikið kátum svanna
snjáfanna,
fégranna;[9]
[fagra[10] nanna[11]
situr[12] undir mátum
kviðranna
kóngsmanna
klifin[13] banna
[hrein eljanna[14]
elds[15] í [geðs gátum.[16]
Búinn spreingur
berst ei leingur,
dýrstur dreingur,
snúinn streingur,
svo geingur
silkispeingur,
með [fögrum geðs gátum.[17]

Hrs. Bmfj. 132, 8. A = Austanbók Jóns Þorkelssonar. B = hrs. 3mfj. 105, 4 (Vatnshyrna), og er talið þar í háttalykli Þorláks Guðbrandsonar. C = hrs. Bmfj. 165, 8. D = hrs. Bmfj. 572, 8. E = hrs. 3mfj. 172, 4.

Þetta kváðu tröllin á móti.
'röll öll í Týs höll
aki nú hrakið tóbakið,
inn[18] strönd linna Fjölnis fund
erum, vér ærum,[19] síðbærum,
vinnum sinna seimsgrund
veitum Gríms heitum, ófeitum;
uga buga hríngs gná
ljóti þér, njóti, vér fljótum;
ıstum beztu fáum[20] ást,
ɔrum, vér gjörum, frið spörum,
ndir grund og yfir land
ér eykjum, vér feykjum með reykjum;
rellir illa hríð göll,
ér hrökum, vér brökum með stökum,
indur blindar vogs und,
vér vökum, vér tökum með rökum;
undir grund og yfir land(!)
vér hreppum, vér sleppum þeim grepp-
um;
undir grund og yfir land
vér örkum og mörkum með björkum;
missum mergð súta,
mótgangs knúta;
látum lúta
leingi slúta.[21]
Gull er grams múta.
Gættu þess Rúta:
Þetta kváðu meyjarnar
undir Skjaldbreiðar skúta.
Fimm í flokki saman
frömdu þetta gaman.

Hrs. Bmfj. 132, 8, skrifað af Sigurði Magnússyni í Holtum. Austanbók óns Þorkelssonar = A. Sbr. Kvæði Stefáns Ólafssonar. I. 1885, bls. 23—24. Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 199 og tvo öllaslagi, sem eru komnir hér á undan: »Fer her í fótspor« og »Strind nda Fjölnis fund«.

[1] þó stirða BCE. [2] hati C. [3] gátu BD. [4] meir C. [5] af D. [6] sl. C. [7] það CE. [8] granna BC. [9] Frá ( vantar í 132. [10] fíngra BC. [11] fíngragranna. [12] kveðju BC; kviðu D. [13] kliðinn BCD. [14] hraungranna A; raunghranna BCD. [15] eld D. [16] bátum B. Frá [sl. C. [17] fagra goðs grátum BCD. [18] því A. [19] tærum A. [20] frú A. [21] eða stúta.

## Tröllaslagur.

Tröllin öll í Týs höll
taki það hrakið, tóbakið,
nýt ýta opt sveit
ælir og brælir þá svælu,
pípu grípa súrt saup,
sjúga og kúga sig bjúga,
nasir kvásast, nóg hnos,
nudda af sudda og rudda.
Reykur stórum strýkur,
strax af munni fýkur,
svoddan æði svælu gæði
segir margur ríkur;
leikmenn, presta, píkur
púkinn til þess svíkur.

Hrs. Bmfj. 194, 8. Prentað í kvæðum Stefáns Ólafssonar I. 1885, bls. 323—24, eptir fyrri útg. af Stefáni, hrs. Bmfj. 639, 734, 8, hrs. Thotts 489, 8, hrs. Rasks 83, 8, Bergsbók Jóns Árnasonar, hrs. J. Sig. 82, 8 og Hálfdánarbók Jóns Þorkelssonar sjálfs, en þó nokkuð öðruvísi en hér.

## Tröllaslagur.

eptir séra Jón Sigmundsson í Álptanesi.

An canam carmen
carum, rarum, præclarum?;
sane manet si non
sono, tono, compono.
Arte partem adfert
imam, primam, sub limam
usus musæ in nos
olens, solens, recolens.
Illi deæ datus
discet informatus,
omnigenæ atque venæ
adhibet conatus,
poeta paratus
pangit versus gratus.

Hrs. J. Sig. 299. 8.

Eflaust eru margir fleiri tröllaslagir til í ýmsum háttalyklum og hefi eg ekki gjört mér far um að leita þá uppi. Í kvæðum Stefáns Ólafssonar II. 1886, bls. 10—11 er tröllaslagur, manvísa. Í Stokkahlaðabók (hrs. Bmfj. 734, 8) er tröllaslagur um hest: »Gámur fámar fótstím«. Séra Snorri Björnsson á Húsafelli († 1803) hefir ort ýmsa tröllaslagi, einkum um hesta og hefir hann kveðið tröllaslagi seinastur manna, svo eg viti. Í kvæðabókum hans, hrs. Bmfj. 125, 158, 8 eru þessir tröllaslagir: Aldýr risaslagur, »Fram má þramma forgrimm« og Tröllaslagur hinn forni, »Bleikur sleikir mýrarmauk«. Loksins má geta þess, að í Varðgjárkveri (hrs. Bmfj. 639, 8) og í hrs. Rasks 89 a, er lángt kvæði, 120 er., eptir Hallgrím prófast Eldjárnsson og heitir Tröllaslagur. Kvæðið er ort 1750, en 89 segir 1756. Bragarhátturinn á ekkert skylt við bragarháttinn á venjulegum tröllaslögum. Kvæðið er nokkurs konar heimsádeila um sögulestur á kvöldvökum, hrossaketsát o. fl. Utgáfan í 89 er með hendi Jóns Stefánssonar faktors á Djúpavogi. Í kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum I, nr. 116 er vísa: Ályktun um Tröllaslag (sbr. Hrs. Bmfj. 614. 8), og er hún líklega um Tröllaslag séra Hallgríms.

## Man-lánglokur.

Eg hefi tekið hér upp allar man-lánglokur, sem eg hefi náð í, og ber vent til þess. Fyrst og fremst er mjög sennilegt, að dansað kunni að hafa erið eptir einhverjum af lánglokum þessum, þar sem þær eru ortar undir vipuðum lögum og tröllaslagirnir, og á hinn bóginn er ekkert sennilegra n lánglokur hafi verið kveðnar eða mæltar fram á vikivökum, eins og ikivakakvæðin, þótt það sé hvergi tekið fram beinlínis.

---

Ala sólar blíð Bil,
bjóða ljóð eg þér vil;
leiki kvik á lángspil
lög þrástöguð mín,
geðug, fín
gulls lín,
glöð í sinnu lundi,
stef stundi,
reist raung,
leyst, laung,
læst í ást við hrínga spaung;
dverga faung
um dægur straung
drýgja fíóls streingja saung.
Dygðarík
dúkabrík,
dægilega fríð,
græðir stríð,
geðþýð,
glansar eins og sólin blíð;
skorðar værðir,
forðast flærðir
fljóðið siðugt þels um vík.
Moturs gátt
setur sátt,
sútar bætir þéttan slátt.
Fella skal
trega tal
trygðir ala' í hrygðar dal;
gleður hal
og vífaval,
vekur mjúkar þægðir,
hughægðir.
Hýr í lund
hrínga grund,
hvenær mun eg eina stund
trega bundinn
fá þinn fund
fram við glamma strindi?
Mens lindi,
með yndi,
trygð svo bindi,
böli hrindi,
Beslu vindi
ljáist ró.
Æðisgóð,
gæðafróð,
glaða, blíða klæðaslóð,

bægja mér
burt frá þér
bráðar nauðir þó;
sárt mig sker
sútar gler,
síður fer,
horfin er
kæran mittismjó;
bíð eg hér,
blíðu þver,
beygður í hrygðar þró.
Í ofurkofum
élja fálu,
selja bála
skelja skála,
mundu þann sem mærð til bjó.

Hrs. Rasks 87, 62. bl.

---

Áls ljóma
eik fróma
alin er talin og valin;
hlýði fróð
hríngaslóð
hljóðum og ljóðum ófróðum.
Fríða, blíða fold þýð,
ferðir[1] vér herða[2] sem verður
fram í lund
fyrst um stund
fáum, og gáum ef náum;
liljurós,
ljúfust drós
lítum og nýtum, oss flýtum.
Grundu orms landa,
glaður að vanda,
gætir randa
gefur ljós handa.
Þess vegna látum við þuluna standa.

Hrs. Bmfj. 439, 8.

---

Ber eg móð,
harmahljóð,
heitir fljóð
hyggin trú.
Hugur tér,
hjörvagrér,
hvað er þér,
hver er sú
harm, sem hefir gjört?
Sú er rjóð,
rjóð sem blóð,
baugaslóð,
falleg, fín og björt,
snotur, dygðadýr;
sómann ber,
siðug er,
sýnist mér,
glaðlynd, hógvær, hýr,
mittis nógu nett,
holl og góð,
hæglát, fróð,
hyllist þ[j]jóð,
lempin, siðug, sett,
þrifin, þekk og fróm,
yndið hér
heimsins lér[3]
hrínga ver,
fegri en fióls blóm.
Listug drós
linar harðri þrá,
af auðnu gróð
safnar sjóð,
sú á ljóð,
hafni hnjóð,
hún er ljós;
hana vil eg fá.

Hrs. Rasks 88 a, 39.—40. bl. Frá 18. öld.

[1] ferðum. hdr. [2] herðum. hdr. [3] hér, hdr.

Bæti brag
bragslíngust mér í hag;
auðarslóð
mýkir móð,
mér er hún góð,
ástblíð,
þelþýð
þundum og sprundum.
Kjalars bát temur
og klæðin vel semur,
mér kemur í stans
inndælið hans,
um álfurnar lands
sem Orpheus dans,
streingi stillanda,
fögnuð fyllanda,
fæðir gyllanda
skáldmæla skans.
Gleður mig
geðs um stig
gullinn streingur ljóða.
Ágætlig
sýnir sig
Suttúngs láin góða.
Armslóða
eik rjóða,
bezt mér nær að bjóða
birgðir Ásaþjóða.
Sýngja undir
grónar grundir,
gleði hjörnuðu stundir.
Áls glóða
úng tróða,
fjörið ássins fróða
flæddi' um rænu sjóða,
sú er til löndúngs lagar
lundhaga
mærð stagar,
stærð kraga,
stilt með Kvásis gróða,
fremd fljóða
fær tróða.
Æ, Jesú,
annast þú
ætíð þessa hríngsbrú,
hún því nú
hefir á þér sterka trú.
Dýr hrundin
hýr, skír í lundu,
flýr stundin
fýrs mýra grundu,
ýr lundin,
lýr mundin
á Týrs fundinn
frír víra sprund.

Svo lítur út, sem eitthvað sé bogið við lángloku þessa, einkum seinast.

---

Drósin vísa, þýð þér
þundar fund eg nú ber,
Suttúngs flutt er klént ker
með Kvásis rása mjöð.
Æruhröð,
geðglöð
grundin orma hlíða
þelþýða.
Vetrar tíð
straung og stríð
storðu byrgði; élja hríð
ár og síð
lemur lýð,
leggur bregg um frón,
og víða vinda són,
líkt og ljón,

löndum sendir mein.
Sorgartjón
um land og lón
leikur tón
sem sýmfón,
elur vol og vein.
Um lúðufrón
ferju þjón
frá sjón
báran ber ósein.
Allir fyllist gæðum góðum,
fræðum fróðum.
Kristur bæti kvöl og kvein.

---

Fáðu heiður fríðust auðartróða,
[f]ljóta bót þú hljótir móti skjótum
[v]anda, reynd, þótt vendi sprund um strindi,
[v]eitist teitri, neyt, um sveitar reiti.
[G]æfa' og, yfir göfuga, lofið svífi,
[ga]gnið fagnaðar, hagnaðar magni bragn[ar];
[þr]jóti grátur, þraut og vítin súta.
[Þann]inn ann 'eg mannvitsgrannur svann[a].
. . . . . . . . . . . .
. . . . . eina,
hyggju hrein[a],
[hja]rtans leyna,
mýking mein[a],
motnrs fagra lín,
[y]ndið bezta,
eyðist versta
ángrið mesta.
Í hug festa,
opt af elsku þín.
Lyndis góða
liljan rjóða,
lægis tróða,
fegurst fljóða,
falleg stúlkan mín.
Njóttu gæða
niptin klæða,
nú er ræða
þessi kvæða
ort að eðli sín.

Hrs. Bmfj. 9, I, 8 (Brunnið).

## Dægrastytting 1768.

Fíngra snjós
fold ljós
finni hrós
og bál ós.
Siðug drós,
sæmd kjós;
sóla víðis hlíða
prýðin fríða
ávalt nái
auð nú sjá,
einninn fái
lukku h[á],
auðar gnáin
andlits glj[á]
öllu stríði' og kvíða
frá [sney]ðist, sú þýða.
Græðis sýn . .
ljúf lín
sem ljómi Rínar
fróm skín.
Aldrei dvíni
yndis vín,
en ángurs tíða hríðir
frá hýði
svo lýða.
Huggist lóð

ggju móð
hvarma glóða
rrist flóð.
á Ýmis blóðs
ssa slóð
nn byr Gríðar bíði,
o smíðist
ðr blíða.
óða unnar fróða sunnu, svinna,
að sinni vil eg þig finna,
og óð úr ljóða inni
með orðum fróðum spinna,
ef vinnast kynni
vefjan tvinna
vil eg til þín minnast,
ei þig ginna,
ást né grynna,
uns þó að æfin gjöri linna.

Hrs. Bmfj. 278, 8.

---

ldin fríð í runni,
ri' en gullið hreint,
ðr eg þýðast unni,
tt það verði seint.[1]
ldin fríð,
k mér stríð;
ri' eg henni mærðarsmíð.
uðgrund blíð
a' og síð[2]
lrei líður[3] úr minnishlíð.
amíngjan styðji hverja tíð
rska hríngagrund.[4]
tt [farið sé um veröld[5] víð'
enna finnst ei[6] sprund.
amíngjan fylgi' á hverri tíð
rskri veigagrund.
enni má
iður ljá,[7]
hárið er gult sem humall að sjá,
fíngursmá,[8]
björt á brá,
[betur mikið en eg kann[9] tjá.
Fölt er gullið frúnni hjá
fagurt með skæran lit;
[líkt sem blandist blóð[10] við snjá
[björt er[11] falda fit.
Ef[12] dregur önd
dregla strönd,
drjúg man eg þín ástarbönd;
[mýkir grönd
og meinin vönd,
að júngfrú gaf mér hjarta' og hönd.[13]
[Nú meiga kappar[14] kljúfa rönd
[kæru nafni' að ná [15]
[Lúti henni lýður[16] og lönd.
Lifi[17] vel gullhlaðs ná.

B = hrs. Sv. Grv. 118. Afskript Pálma Pálssonar eptir hrs. J. Sig. 5, 4to.

[1] sl. B. [2] Brúðurin blíð B. [3] geingur B. [4] sl. B. [5] fari eg svo lángt sem veröld er B. [6] fæ eg ei vænna B. [7] Heiður að tjá hrínganá B. [8] augun smá B. [9] miklu fremur en eg skal B. [10] það er sem blandað B. [11] á bjartri B. [12] sl. B. [13] sl. B. [14] Sá er kænn að B. [15] sem kæru efnin sá B. [16] Að þér lúti lopt B. [17] Lifðu B.

**Um jómfr[ú] Sigr[íði] Jóh. d[óttur].**

Eptir séra Guðm[und] E[rlends]s[on].

Fríðust lindin Fróða sanda
finnur og spinnur, samtvinnar
lystilegustu ljóð.
Þýðust hindin, þjóð gleðjandi,
þinnar æ minnist eg svinnu,
þótt fái' ei litið fljóð.
Blíðust myndin, móð eyðandi,
minni Týs sinnir, því linnir
Kvásis blæða' ei blóð.
Tíðast yndi' að rjóði randa
rynni, þeim kynnist, því inni' eg,
kléna klæðaslóð.
Síðast vindær(!) vóð að landi,
vinnunni kvinnur að hlynni,
svo hana þiggi þjóð.
Glæða flæða fljóðið, óð,
fræða sæða móða þjóð,
græðir bæði góð og rjóð,
gaman semur þeim.
Flæðir, blæðir flóð sem blóð,
fæð af bræðir ljóðasjóð
gæða æða frjófgun fróð,
frama nemur hrein.
Kvæða að hlæða hróðji(!) hljóð,
hæðir mæði gróða slóð,
læðist ræða' í tjóður-tróð,
tamin lemur heim.

Hrs. Bmfj. 319, 8.

---

Funa ægis fold blíð
með gæði,
fróm auðar Gná,
fögur úng og hugþýð,
svo bæði
hlýði höldar á,
dygðum vafin dáfríð,
eg ræði
og dikta satt í frá;
drottni kær og hans lýð
um svæði,
gjörla gæfuhá.
Að unna úngri auðshlíð
án mæði
og una henni hjá,
eg held bezt um lífstíð,
þeim næði
slíka frægð að fá.
Manns hún linar mart stríð
og bræði,[1]
mein og alla þrá.
Mærðar fellur svo smíð
og kvæði;
hverfi óðarskrá.

Hrs. Bmfj. 639, 8 (Varðgjárkver). Kvæði Stefáns Ólafssonar II. 1886, bls. 9—10, eptir hrs. J. Sig. 265, 8, 271, 4, hrs. J. Árn. B IV, 8. og Bergsbók hins sama. Sumir eigna vísuna séra Benedikt Jónssyni í Bjarnanesi.

---

Gleður tíðum mjúk mær
mann í ranni, frábær,
hrindir vanda holl, skær,
heiðurs greiðir svör.
Mærð óspör,
mensvör,
mín til þín skal venda
að enda.
Snildarfljóð
mildar móð,
mjaldurs foldar elda slóð.
[Þiggðu ljóð[2]

[1] græðir. útg. [2] Eigðu ljóðin B.

gæzkan góð,
[gamansöm, af[1] hjörfarjóð.[2]
Eg bið þig
elska mig,
allra kvenna blóm,
sniðug, fróm
með snjallan róm,
snót ágæt að mínum dóm.
Innir greiða,
linuir leiða
lundum[3] handar mjalla brík.
Sætan hér,
mætust mér
mestu ást og trygðir lér.
Styður ró,
frið og fró,
fagnað bjó
og[4] hagnað þó.
Æ[5] hve glóir
mittismjó
meyjan sú hin skýra,[6]
dáhýra.
Varnar pín,
man mín,
muninn unun hefir sín
auðs hjá lín,
en ángur dvín;
eyðir [neyð og[7] kvíða[8]
hin þýða
hugþýða
sólin fríða
fræníngshlíða,
[fáguð prýði,
glöð í[9] lund.
Brúðar glans
lýðir lands
ljósan prísa auðs[10] í krans.
Margir stá
senn að sjá
svanna þann á grund.
Hana þá,
hrínga Gná,
hratt ef má
eg vil á
æ[11] þinn komast fund.
Segðu: »já,
helzt[12] mér hjá
halur, dvel[13] um stund«.
[Svarafár
eg fel[14] þér hjalið.[15]
vel út valið,
dægilegast[16] dygðasprund.

Eptir munnmælum. A = hrs. Bmfj. 656, 8. B = hrs. Sv. Grv. 67, 4rch. F (mjög afbakað).

---

Glóðar móðu, fáðu fjáð
fljóðið rjóða, dáða bráð,
óðsmíð slóðar áður skráð
innist tvinna Bil.
Blóðrautt Fróða sjáðu sáð,
sjóðnum góða náðu' um láð,
hljóðin þjóða háð, ósmáð
hinna finna vil.
Lóðins gróðri ljáðu tjáð
ljóða, tróðan, ráðin stráð,
hróðrar tjóðurs þráðan þráð
þinn, brags, kynni, spil.

Hrs. Bmfj. 734, 8 (Stokkahlaðabók, og er eignað þar Árna Böðvarssyni).

---

[1] gamansömum B. [2] höklabjóð A. [3] ljósust. [4] en B. [5] Ó B. [6] dýra AB. [7] neyða B. [8] nauðakvíða A. [9] færir prýði' á gleði- B. [10] eins A. [11] einn A. [12] haf AB. [13] dvöl AB. [14] sel A. [15] Svarið fæ eg B. [16] dægilegt um AB.

## Sumar-danslilja

til Íngibjargar Gunnarsdóttur 1820.

Góins móa grund rjóð,
greiða heiður listfróð,
þér að bera lök ljóð
mig lystir systir góð.
Af ástar yl
bauga Bil
beztu ósk eg vanda
til handa.
Þakka ber
þýðast mér
þínar veittu velgjörðer.
Unni þér
alt hvað er
elskuríka mín syster.
Sumar nýtt
sést nú blítt,
sólartjaldið blóma skrýtt,
hvolfið vítt
himins prýtt,
hreggið vetrar liðið strítt;
gróðann rétta
fróðir frétta
fyrðar alla heims um bygð;
vermir alt
áður kalt
yndi mynduð sól ávalt;
fuglar sýngja fold kríng;
falleg þíng
í sæðis bíng
sjálf í hríng
með sóma slíng
setur alvaldshöndin,
um löndin.
Þennan ljóma,
bezta blóma,
bragnar jafnan
skyldu róma;
með heiðri' og sóma
að degi dóma
drottins lofgjörð vandi.
Í standi
lifandi
sál og andi
sídansandi,
að sinnulandi
hverfi stygð.
Geðið kæt,
gleði' innræt,
góðar dygðir æ við tæt.
Elskhugann
ástkæran
efli drottinn þinn,
guð og mann,
geðs um rann,
gleðibann[1]
stilli hann
þitt í sérhvert sinn,
líkamann,
eins andann,
algjörfan
hefji' í himininn.
Litars bátur lendi kendur,
kvendi sendur
vendi' í hendur,
víneik fínu kærkominn.

Hrs. Bmfj. 310, 8.

---

[1] gleði vann, hdr.

## Dínusspjallið.

Hér skal pavis pinna
pastur(!) lítinn spinna
um þá elju tvinna,
sem að vill mærðin linna.
Hrínga slóð
hugargóð
hún kann sæmd að finna;
eyðir móð
elsku jóð
allra rauna sinna,
sorgartárum kinna
heldur þetta heiðursfljóð,
jafnar kífis linna
lymsku slægðar slinna
sem tinna
kjalar slóð
Kvásis blóð
kvæðamentin minna.
Er þá gnár sjóð
þessi ljóð
þá skal reiði stöðva njóð
þeim stinna.
Orða lok skal inna
skálda skjals hvinna;
mæli' eg svo til minna
máls kunníngja þinna
og hinna
hin svinna,
safala sifjan tvinna,
sælar dándis kvinna.

ÁM. 148, 8, 16. bl. (Vigursbók). Afbakað mjög.

## Vísa.

Heyrði' eg hlátur og óra
um heila tíma fjóra
út um auðan ljóra
upp í fjallsins kóra.
Um karska frú
var kætin sú,
konan er eingin lóra.
er og nú
sú auðarbrú
ekki kend nein hóra;
virða teita'
hún vill ei reita,
við þá títt þó slóra.
svinnri neita
sæmd að veita,
sín sé tillukt fóra.
Mikið er gaman að menjagátt,
meinlauslega' hún gjörir sér kátt,
um miðja nátt
mjög vel temur jóra;
sízt mun sætan klóra
eða nóra
til blóra.
Það sem þrýtur,
það er ei flýtur
þekkust silfurtóra,
erend með æru stóra
eignist svanninn Þóra.

ÁM. 723 a, 4, 73. bls. Frá 17. öld.

---

Hlés glóða
hrund rjóða,
hýr ertu' á brá,
fögur og fríð,
björt og blíð,
ber því sómann há;
eingin fróð
auðarslóð

er sem þú að sjá,
ljós rós,
ljúfust drós,
þér lifi hugurinn hjá.
Meðan til er tíð
eg trega þig ár og síð

bauga-blómleg strind.
þú ber svo fagra mynd;
ángursfrí
æ því
hæversk hrínga sól,[1]
hjá hæstum findu skjól.

Hrs. Bmfj. 439, 8.

## Ein vísa sneydd og alhent 1769.

Hljót borða hvít Gerður mæti,
hýr, yndisdýr, lyndisskýra.
Guð veiti þráðs kátri þrúði
þægð téða, nægð gleði hægða.
Kost fáðu Krists blíðu ástar
kær, hótuð, mær bótaskærust,
rúms hvala reim bála sæmi
ráðs, sjóli láðs sólar, dáðum.

Auðsþöllu aðhyllist gæði;
öll rými spjöll, stím og föllin.
Hlíð sauma hröð gaman veiði,
en hríð eymda stríð gleymd sé þýðri.
Sút lini', en sæt léni býti
sjós elda rós, keldu ljósa.
Friðsamin, fríð sóma kvæði,
fljóð snjalt, mín ljóð halt til góða.

Hrs. Bmfj. 278, 8.

---

Hrannar sunnu spök spaung,
spila vil[2] eg þér saung,
ef[3] styttast mætti stund laung
stefja [vef eg[4] klíð.
Siðug, fríð
seims hlíð.
[sjáfar eisu[5] hrundin,
gulls grundin,
frómleg,[6] sett,
sómanett[7]
semur gaman frítt og rétt,
firrist[8] prett
og falsið þétt,
forðast[9] stirðan[10] lastablett.

Falleg þú
faldabrú,
finnst[11] ei líkinn þinn.
Liljan svinn,
ljós á kinn
lífgar[12] [geð og[13] huga minn.
Kætir[14] vitur
[sæta' er[15] situr
sjónarsteinum fyrir nú.
Elskar[16] frið
og sómasið,
situr jafnan góðsemd[17] við.[18]
[Hríngþöll rjóð,[19]
hýr og góð[20]

[1] slóð. hdr. [2] til A. [3] að B. [4] vel eg þér B. [5] hrannar A. Frá [sjóareikin B. [6] fróð og A; frómleik B; blið og C. [7] siðug nett. [8] forðast A; flýr því B. [9] firrist A. [10] stríð en B; illan C. [11] fæst A. [12] liðug B; liðugt C. [13] gleður B. [14] Með kæti A; Gætin B. [15] sætan A; sæt er BC; sætust. [16] Iðkar BC. [17] góðsöm B. [18] bið B. [19] Hríngaslóð A. [20] rjóð A.

hrindir[1] móð
úr lyndisslóð;[2]
vizkusjóð
her fríðan[3] fróð,[4]
flestir kostum[5] unna,
sem kunna.
Dægilig
dirfir mig
drósin ljósa,
að kveða um[6] þig.
Máls um stig
hér ryðst á[7] rig
ræðusmíð[8] til handa
[eik banda,[9]
[að vanda.[10]
Mærð kveðanda
má svo[11] standa
[mér[12] að blanda[13]
Sónar vín.[14]
Geingur smátt
galið[15] hátt;[16]
[gleymi' ég Sónar[17] breyttum þátt.[18]
Hadda Gná
hýr á brá,
heyrðu orðin mín!
Þig[19] að ná,
sæla'[20] að[21] sjá,
sú hér má
reiknast há
gæða gjöfin fín.
Eg skal þá
eptir á,
ójá,[22]
öll nær[23] hrellíng dvín
ála sólar ærudýrust,[24]
skærust,[25] skýrust[26]
niptin bjarta, njóta þín.

Hrs. Bmfj. Ísl. 139, 8, bls. 202—204, og stendur þar aptan við lánglokuna. »Þessa dýrðlegu lángloku orti Pétur Jakobsson á úngdómsárum sínum um jómfrú Þorbjörgu Stefánsdóttur, sem þá var heimasæta á Presthólum, en giptist síðar herra Stefáni Schevíng, presti sama staðar.« A — hrs. Bmfj. 39, 8, bls. 23—24 (skrifað af séra Vigfúsi Reykdal). B — hrs. J. Sig. 408, 4, 7 (frá séra Jakobi Finnbogasyni á Melum 1853: »Hans ítograf«, hvort sem hér er bent til þess eða ekki, að útg. séra Jakobs sé skrifuð með hendi Péturs Jakobssonar). Afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. C — Ísafold VI. 1879, nr. 14 og er lánglokan kölluð þar vikivaki.

---

Ítrust Nistis Nanna,
nú senn fær þú kanna
ölið Rögnis ranna
og ríkdóm ásmeyjanna.
Þér skal bjóða Þundar flóð
þöllin fríð klæðanna;
af innsta blóði milda móð
Mistin handar fanna.
Að þér streymi gæfan greið
Góins eima fögur heið;

[1] hrindi C. [2] yndis lóð A; yndisslóð C. [3] fríð og A; fríðast B. [4] fljóð BC. [5] listum A. [6] við B. [7] af B. [8] ræðusmið A; réðist mér B; ræðan smeik. [9] sl. A. [10] sl. B. [11] við ABC; ei. [12] meira'. [13] mjög að vanda B. [14] Sónar þátt C. [15] galinn AC. [16] þrátt ABC. [17] sóma C. [18] hátt ABC. Frá [ geymir skjóma breyttum A; greiðir sóma frítt og B; gleymir kvæði á breyttan. [19] þér ABC. [20] sæl C. [21] og A. [22] sl. B. [23] þá C. [24] ærudýra ABC. [25] skær og A; hýra B. [26] skýra ABC.

hér í heimi lífs á leið
lánið fylgi svanna.
Klæðareim þótt reyni deyð
og raunakeim sem mótgángsskeið,
öndu geym frá sorgarseið
sonur kóngs hæðanna.
Mein þótt reynist manna
margt í sal raunanna,
lindorms branna
ljúfum svanna
gefist fagur
gleðidagur
og gæði' um frón einglanna;
þá er sælan sanna
súngin guðs dýrðanna.

---

Klæða geðleg góða hrundin
gæða téðan ljóða fundinn
skeinkti skást;
mér með hærum, hýr til drekkur,
hér má æru dýri smekkur
fríður fást.
Blíðum, rjóðum það eg þakka,
þýðum, fróðum, glaður sprakka
af allri ást.
Kveð svo glóða græðis heiði,
úr geði móði kvæði eyði,
að megi' afmást.

Séra Guðm[undur] E[rlends]s[on] til jómfr[úr] Sigr[íðar] Jóh. d[óttur], sem hafði ort til hans vísu undir sama bragarhætti. Hrs. Bmfj. 319, 8. Sbr. bls. 370.

## Vísa Þórðar Thorl. S[onar][1]

1. Kransvefur mig last lands,
landsvaninn hvers manns,
spaki vottur speki spans(!)
spans röðull trúbands,
stillir hirðir ríks ranns
ranns veðra til sanns,
á var aldrei stór stans
stans góða herrans.

2. Minn hugur minn, minn,
minn hugsa skal þinn,
þinn blóma, kinn, kinn,
kinnfögur hvert sinn.
Þá eg þig finn, finn,
finn eg, svo vinn, vinn,
vinn eg þá inn, inn,
innleikinn hinn, hinn.

3. Silvæn er mín, mín,
mín kæra frú fín,
sú heilla lín, lín,
lín heldur orð sín.
Hárs hana rín, rín,
rín fagurt, skýrt skín.
Það Þundar vín, vín,
vín drekk eg til þín.

Hrs. Bmfj. 169, 8.

[1] Á eflaust að vera Þorleifs Þórðarsonar.

### Meyjardans.[1]

Leikur lipurtá,
lauguð[2] sveimar
snotur, vitur, vösk,
eykur pip[3] er á
augum[4] heima,
í koti situr körsk.
[Hátt lítur[5]
höddu ljóma lína
sóma sína.
Blóma blína
bragnar á.
Moturs fit er fljót og rösk.[6]
Orðum vert að eyða
er [ei meir[7] í þetta sinn
Kvenna rart er [artist art,[8]
enna skart ei þarftu margt,
nema þig sjálfa,
ljósálfa
liðskjálfa.
Hjóla sól á bóli vil eg beiða:
Virtu verknað[9] þinn[10]
fagur[eyg, fatthent,[11]
fleyi' er meyjan ólík ei
með rá og reiða.
Gulli búnum húnum hún
með hagleg segl og mösturin
brunar vön til veiða.
Lag er heygt,[12] hætt, ent.

Hrs. Bmfj. 68, 8. A = 734, 8 (Stokkahlaðabók). B = Kvæði Eggerts Ólafssonar 1832, bls. 226. C = hrs. Bmfj. 439, 8. D = hrs. Rasks 82, 276—77. bls.

### Drósardans.

Ljómar baugabrík
blíðu meður
voldug, aldrei veik,
blóma lauguð, lík,
lýður kveður,
foldar aldineik.
Heitt skína hjarna kletta ljósin.
nett er drósin,
rétt sem rósin,
rjóð og rík.
Svoldur spjalda' er sjaldan bleik,
græðir bæði' og gleður
glossinn, blossinn kærleiks ör.
Skrauti býr
sig skýr og hýr,
skauti snýr
að víra týr;
munnur er nipur,
mund, svipur,
ljós, lipur.
Ljúf sem dúfa skúfar móði, meður
myndug yndis kjör.
Svarið blítt, sæt raust,
hár og brár
sem eldur ár,
brúðar skrúð og beður;
glansar þá,
og gljáir á
glysið ljósa Hlés hjá vör,
kvæðið um kveður;
barið, hnýtt læt laust.

Hrs. Rasks 87, 61. bl.

[1] Meyjadans, sýnir hvað útheimtist til fullkominna kvennkosta með ókendu danslagi C. [2] löguð B. [3] fip ABCD. [4] augun BCD. [5] Hárlitur A. [6] vösk A. [7] mér BC. Frá [ mér D. [8] arti skart CD. [9] verkann B; verkin CD. [10] þín C; mín D. [11] eyg- fætt- hent B. [12] hæft C; hent D.

. . . . . . . . . . . . . . . . .
. . . . . lægð og frá sér bægð,
bægð og stygðir flýja fljótt,
fægðar dygðir nýjum þrótt,
því að drótt um dag og nótt
dansar
án vansa.
Heillum ansar,
hvergi stansar,
hatar ótt
alt ljótt.
Úr svara tótt
með sagna gnótt
sáldurs gróttu Baldur hljótt
sæmdar fansa;
sigur kransa
sunda glansa grund mannsleg
greiðir stundum þér,
Gifarsfundinn(!)
fífuþundur
fríðu sprundi lér,
á því ber
og sá það sver
sunnu kunnur láar grér;
um hyggjuver
ei hæfa sér
hrósun dylja
ljósrar lilju
ósa ylja,
of klæða þilja
kvæðin skilja,
kát í máta, næði' að vilja;
þá mun bjáta
þrátt að láta
Þundar státa átu,
miðjúngs hlátra
mildust sáta
mun því játa
án gátu.
Einatt rúna ránar funa
rætti' og bætti þráar stjá,
um greina túnið mána muna
mætti' og ætti' eg sjáfar Gná.
Gnáin banda fróð og fín
fái blandað Óðins vín,
góins móa góða lín
glóir mjó sem fljóða sýn.
Lóðins rín eður ljóðin mín
linna' að sinni, það er pín.
Hjá þjóðum Gínars gróði dvín,
grynnist minni Baldurs
um aldur,
því mun taldur
Þundar tjaldur,
þrauta galdur,
valda ær, því aldrei fær
er til skærar(!) gleðja mær,
hann þó kærar hafa þær,
heimsku særíng slíka ljær.
ljær hann nú
og tærir trú
tundurs ála skýrri brú.
buldurs grú
á Biflinds[1] frú,
það bóla grettis sól veizt þú.
Þú skalt hreppa þýða
þægð, en sleppa kvíða,
svo það menn
sjái enn
sólin skikkju blíða;
böls skal þræla
burtu fæla,
er brugga ánauð stríða,
grómið bræla
beint og svæla,
sem bauga ró vill níða
dáfríða.
Gæfudaga
greitt í lagi
gefist hagur.

[1] biblings. hdr.

varð að saxi
snótar spýta
og nam undir hendi
öðlíngs sonar.

60. Gekk úngur mögur
út úr skemmu,
en að litlu
Æsa síðar;
réð að skunda
á skóg þaðan,
varð fyrir brúði
blóðmerkt gata.

61. Lá hún ein saman
út hjá viðum,
dökkvar grímur,
fjarri bygðum,
unz að líða nam
ljós af skógi,
sá víf þaðan
vænar bygðir.

62. Varð fyrir henni
hús alllítið.
Þar réð auðarbil
inn að gánga:
sú kunni að kveðja
ena kóngbornu,
er í ranni var
refiþöll fyrir.

63. Réð hin eldri
eld að kinda,
þótti brúður vera
beina þurfi.
»Hvert er heiti
horskrar meyjar?
Hefi eg ei fljóð séð
fatsnauðara«.

64. »Nefndu Æsu mig
en ekki man
fljóð þér segja
hvað minn faðir heitir;
hef eg svo leingi
legið á skógi
alt þar til húsa
hitti þinna.

65. Yður vilda eg
eptir spyrja,
ef mér kona
kynnuð að segja,
eg sé þig í kvöld
einatt gráta,
vildi snót vita[1]
hvað til saka væri«.

66. Ílt er undrum
eptir að frétta,
þó er enn verra
að vita sinna,
því ef fóstri vor
fer af heimi,
þá skulum andast
öll með honum.

67. Það hefur fyrirmælt
fláráð kona
sú er döglíng skóp
dapra æfi,
skyldi fjölmenni
með fylki andast,
nema í Álfheima
Æsa kæmi«.

68. Spurði en gegna
allbráðlega
orðsvinn að því
aðra brúði:
»Hvað er þessu vorðið
á ýta[2] hag,
að ei mega lýðir
lifa þó hann andist?«

[1] BC, segja A. [2] Hér endar D.

69. Þá leiddi hún hana
út til skemmu,
þar er vissi siklíng
sjúkan liggja;
réð úr sári
slíðurvönd draga
þann er allnær hjarta
á Gullkár stóð.

70. Heill varð fylkir
af fundi Æsu,
græddi hann en horska
hilmis dóttir.
Það var á einu
augabragði,
að hann manna varð
mestur[1] undir sólu.

71. Feginn varð hilmir
fundi Æsu
og þótti fljóð komið
með fagnaði;
þótti lofðúngur
þegar lífvænn
af böli því,
er brott var komið.

Hrs. Thotts 489, 8vo = *A*. Skrifað á 18. öld. Ny kgl. Saml. 1141, fol., bls. 522—43 = *B*. Ny kgl. Saml. 1873, 4to, bls. 109—29 = *C*. Fyrsta erindið í hrs. Sv. Grv. 65. Kvæðið er líka í kvæðabók Gísla Ívarssonar (hrs. J. Sig. 405, 4to) og er fyrsta er. prentað eptir henni í Ant. Tidskrift 1852, bls. 253. Hrs. Bmfj. 9, I, 8 = *D* (kvæðasafn Jóns Stefánssonar. Brot, brunnið). Tidsfordríf Jóns Guðmundssonar lærða (samið 1644), hrs. Bmfj. 35, fol., bls. 45 (fyrri hlutinn af 1. er. og fyrri hlutinn af 13. er.). Líka hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island, 1888, bls. 202—203. Enn er kvæðið í Advoc. Libr. Edinb. Coll. F. Magn. 41, 4to. og í hrs. J. Sig. 231, 4to. Í hrs. Á. M. 154, 8vo, voru í gamla daga tvær útgáfur af Gullkársljóðum, en eru nú týndar. Sbr. Kr. Kålund, Katalog over den Arna-magnæanske Håndskriftsamling II, bls. 420. Enn segir Jón Ólafsson frá Grunnavík (hrs. Á. M. 979, 4to, bls. 129), að sig minni, að Gullkársljóð séu í kvæðabók þeirri, sem séra Jón Gizurarson á Staðarbakka (um 1600) hafi safnað. Þessi bók mun vera týnd nú.

## Bryngerðarljóð.

1. Það fregnað hefi eg
að forðum sat
gramur fyr að landi,
sá Gauti hét.
Menn réðu það
margir mæla,
það hann kónga
kappi væri.

2. Gnótt átti hann,
gullið rauða,
lönd allmikil
og lýða fjölda;
var til erfðar
einn sonur getinn,
þeim er Hálfdáni
heitið gáfu.

3. Þann frá eg barna
bráðskynjugastan
og flest vita
til frama mesta,
því að alla
ættmenn taldi
þá þeingill var
þriggja vetra.[2]

[1] C. mesti A. [2] vetara. hdr.

4. Kall hefir búið
í kóngs veldi,
sá er eiga lézt
eina dóttur.
Þá frá eg meyju
miklu skýrsta,
en þá Bryngerði
bragnar nefna.

5. Þá var fimtán vetra[1]
fylkis arfi,
að hann únga mey
ástum leiddi
og eptir viti
við jóð kellíngar:
›Kantu nokkuð ljós brúður
við mig kong mæla«.

6. »Hvað mun ólíklegt
heldur vera
en eg við milding[2]
mæla kunni«.
»Gott er úngri
til unaðs þokka,
þó með úngum mér
úti leiki«.

7. Dró hann sér af hendi
hrínginn rauða
og fríðri gaf
Fálka dóttur.
»Betur sómir þér
baugur á hendi
en kellíngar
kýr heim að reka«.

8. »Gef heill bauga,
eða hvað skal eg segja
minni móður
að mig dvalið hafi;
uggir mig að hennar
heipt verði nóg;
mun eg síð koma
snót að hitta«.

9. »Satt skaltu segja,
svinn seimabil,
mær mildhuguð,[3]
móður þinni.
Hirtu aldrei, ljós brúður,
lygar á að venjast,
láttu æ vera
uppi hið sanna.

10. Satt skaltu segja,
svinn seimabil,
að Gautason
gæfi bauga;
muntu á þér
mitt gull bera,
ef lofðúngur heldur
lífi sínu«.

11. »Hér sit eg hjá þér
og sjá þykjunst,
að þú eiga munt
aðra brúði;
þeirri muntu unna
af öllum hug,
mildur kongur,
en mér ekki«.

12. »Ekki er gott
að gangi (þetta),
gulls hrínga ná,
að getu sinni.
Eg mun eingri úngri
auðargefni
jafnt unna
sem (einni) þér«.

13. Mær mætti þá
móður sinni,
er hún geingin var
úr garðhliði.

[1] vetara, hdr. [2] öðlíng, hdr. [3] hugguð hdr.

»Hvert varstu fífla
farin í morgun,
að þú geymdir ei
geita minna?«

14. »Eg var geingin
grams til funda;
mig hefir Gautason
gulli reifða.[1]
Þig bað hann heima
hjarðar gæta,
en mig gánga
hvert gaman þætti«.

15. »Víst ertu alin
vondu[2] heilli,
að þú vælar mér
vinna skuli(r);
hyggur þér hlífa
að haga þér þanninn,
skjökta úti
með skjöldúngi«.

16. Karl réði að spyrja
hvað konur sögðu:
»Viltu vænni mey
fyrir mein gjöra?
Þér skal bresta
bagall í höfði,
ef viltu af meyju
metorð hafa«.

17. Mær vaknaði
morgun snemma,
fór fljótlega
fljóð í klæði,
var þá báðum
bifur á leiki,
kerlíngar mær
og kóngs syni.

18. Fundust bæði
börn að tafli,
þegar sól í bý
sækja náði,
undu úti
um allan dag,
unz sjá(l)fur kóngur
að sveini leitaði.

19. Þar kom Gauti að
gángandi,
sem börn saman
að baugi léku.
»Hver er sú en hvíta
hilmis dóttir,
að með Hálfdáni
hreytir gulli?«

20. »Hæð þú ei að mér
þó eg sé hér
alls ein komin
til yðar í morgun.
Karls er eg dóttir
af kyni litlu,
sá býr hjá þér
bauga deilir«.

21. »Heldur hygg eg það,
að þig átt hafi
kynstór kóngur
með konu heimskri;
þinn trúi' eg fóstra
Fálka heita,[3]
dýrlunduð mey,
en Dag föður«.

22. »Veit eg ekki,
því að eg leynd er
frændum mínum
þeim er framir þykja.

---

[1] reifða gulli. hdr. [2] vondri, hdr. [3] heiti. hdr.

Hildur segir það
hverjum manni,
að Fálki heiti
faðir minn, kóngur«.

23. Gekk burt þaðan
bauga deilir,
bað hann Há(l)fdan
henni skemta,
lagði síðan
sinn hug við gram
mild gjarna mey
miklu betur.

24. Það réði mæla
móðir fylkis:
»Áður hann einskis manns
annar(s) gáði:
Lát þú af tali
við aðrar brúðir
og ertu þeingill
þræll ættar firða«.

25. »Hvað mun eg heimskast
af hyggindum?
Hún er mærin mér[1]
margsnotrari;
hún hefir kynni
kvenna hygginna
og orðalag
af jöfurs dætrum«.

26. »Mun hún víst ekki
vinna kunna
þó hún skuli, fylkir,
fat þitt búa,
og ertu lítill
ættarbætir,
ef þú Bryngerði
ber í sjóði«.

27. »Því var þér Bryngerður,
brugðið í morgun,
að þú ei vífið
vinna kunnir.
Mál er þér brúður úng
borð(a) að rekja,
fæ eg þér sjálfur
sauma efni«.

28. »Veit eg ei mína
móður kunna
borð(a) að rekja
né bú(a) að gulli,
og ei fimlegt
að eg fái að nema,
utan það kenni mér
kona þíns föður«.

29. Risti hann fyrir brúði
borða fagran,
mjög hin únga
eptir saumaði.
Svo lét hún fylkis
fat hvert búið
glóandi gulli,
svo glóa þótti.

30. Enn nam að mæla
móðir fylkis:
»Þú skalt fýsast
með föður þínum.
Mál er þér, lofðúngur,
í leiðir fara
lönd að verja
og liði að safna«.

31. Frá[2] eg að eigi[3]
eina dóttur
mildur af mentum,
sá[4] er Máni heitir;

[1] eg. hdr. [2] Fái. hdr. [3] eiga, hdr. [4] sú. hdr.

hann frá eg ríkan
að auðæfum,
gulli, jörðu
og geðsveinum.

32. Þá skyldir þú döglíng,
dóttur eiga,
ef þú viljugur mín ráð
mundir hafa.
Þú göfgast,
ef þú geta næðir
framráða þér
fylkis dóttur«.

33. »Þér mun ekki
betra í brjósti
þó þú þornabil
þessu ráðir.
Viltu Bryngerði
bregða sælu,
en mér efla
til unaðsleysis?«

34. Bar hún honum að höndum
horn mjaðar
flóðs oddvita.
og fyrir mælti:
»Svo hverfi hugur öðlíngs
sem að hann muni
einga mey
nema Mána dóttur«.

35. Dreif dreingjalið
á dreka gyltan,
mjög var grams för
glæsilega búin;
sigldu síðan
í svölu veðri
unz að lýðir
landfastir urðu.

36. Þá fór ambátt
segja svo fallið
kafrjóð[1] í skemmu
— — — — —[2]
»Hvert munu ætla
úngir dreingir,
að skjöldúngur
til skipa renni?«

37. »Vel skal mæla
fyrir lofðúngi,
skundað hefir skjöldúngur
til skipa sinna.
Vera mun nokkuð
nýtt í fréttum
að mig fylkir
fór að finna«.

38. Nú er hinn göfgi
Gauta arfi
örlyndur kominn
austur[3] í Garða;
vildi hann mæta
Mána dóttur
úngur liðskati
auði kaupa.

39. Ósk spurði þá
einu sinni
kyrlát í sal,
svo kóngur heyrði:
»Hverninn mun líka
ljósri brúði
ef þér föstnuð er
fylkis dóttir?

40. »Veit eg einga[r]
auðar seljur.
mildari meyjar
þar hjá mínum föður.

[1] lafljóð, hdr. [2] Hér vantar í línu. [3] vestur í hdr.

að hirði það
horskar brúðir,
hvar eg mér á fold
fastna brúði«.

41. Þar frá eg þeingil
þann vetur vera
úngan að aldri
austur í Görðum;
unni hann horskri
Haralds systur,
vel kom ei buðlúngi
Bryngerður í hug.

42. Þá varð fylkir
firður[1] gamni,
er hann lönd síns föður
líta náði.
Mjög mintist þá
móður ráða,
að Bryngerði
brugðizt hafði.

43. Sér lét skyldara
en skipa að gæta
fljóð að finna
það í skemmu sat.
Hún hvíslaði
herjar stjóri,
þá var fyrir brjósti
bölharður tregi.

44. »Þér hefi' eg ekki
neitt að segja
það okkur, mær, má
að munum verða;
mjög reiti eg
guðvefs snörur[2]
gulli gæddar
af Gautalandi.

45. Kemur eigi dagur
sá mér duga þykir
né nótt heldur
sú að náir yndi;
dreymir mig ekki það
að dygð beri,
veit eg fátt til þess,
verð eg fegin eg vakna.

46. Jafnt[3] er okkar
ást í milli
sem hús standi
halt á brekku,
svigni súlur,
sjatni veggur,
sé vanviðað[4]
völdum bæði.

47. Áttu mig ekki
um að kunna;
mér var öl borið
unaðsleysis.
Skal eg einga mey
aðra né síðan
gulli gæða
þó mér göfug lítist.

48. Ósk spurði þá
einu sinni:
»Því er fylkir
fákátur laungum?
Hefir þú, hilmir,
hugað um nokkuð,
að þú við lýði
leikur sjaldan?

49. Dreymir mig opt
að hér muni koma
drós dýrlunduð
í döprum[5] huga,

[1] færaðr að. hdr. [2] þannig. hdr. [3] svo, Snót. [4] vandviðað, hdr.
[5] döpurum. hdr.

húa hefir, mær, á mér
mesta[1] raun
er að hún leiðir þig
laungum ræktum«.

50. »Hirtu ei að dylja
drauma vora;
það mun víti
vænt ráð vera.
Munda eg leggja
líknir nokkurar
fögru[2] fljóði
ef hún fyndi mig«.

51. Ósk sendi þér
orð í morgun,
kvaðst hún mart við þig
mæla vilja;
hirtu ei að brjótast
við boði hennar,
færðu ei brúður,
betri málvini«.

52. Ósk spurði þá
únga brúði:
»Með hverju móti
er mærin komin?«
En þær svöruðu,
sem séð höfðu:
»Hún vill finna þig
Fálka dóttir«.[3]

53. Kvöddust síðan
kyrtla lindir,
síðan spurði
sæta fróma:
»Segðu hið sanna til,
hvar þér sút gjörir
reist hefir
rínar gulli«?

54. »Var eg á leiki
með lofðúngi,
þá hann gæddi mig
gulli sínu;
hef eg síðan
af syni Gauta
glaumspjöll tekið
en gaman ekki«.

55. »Vorkunn var þér,
að þið opt sáust,
ást að leggja
við öðlíngsson;
vilda eg vera
að vinds skotum
maður aldreigi
á millum ykkar«.[4]

56. Það var einn morgun
að móðir Bryngerðar
sakna gjörði
sinnar dóttur,
svo heyrði háan
hrin kellíngar
að hátt mál (nær)
var níu rasta.

57. »Mitt veit eg miklu
meira stríð vera,
svinn seimabil,
enn eg segi þér;
mín er dóttir
í (burt) numin
blíð frá borði
og er það böl mikið«.

58. »Sittu í sal
og segðu oss nokkuð,
hér er hin bjarta
Bryngerður fyrir.

[1] mista, hdr. [2] fögur, hdr. [3] dóttur, hdr. [4] ukkur, hdr.

Láttu oss heyra
áður en héðan förum
forlög[1] firða:
hver er faðir hennar?«

59. »Faðir hennar
trúi eg Fálki heiti,
þó henni sé brugðið
á burtu héðan,
þori eg ei annað
þar til að segja
um fríða mey,
hér er nú komin«.

60. »Víst hugða eg það,
þegar eg heima sat,
af búkarli mundi ei
borin mér kænni.
Segðu hið sanna til,
því eg sjá þykist
ekki er Fálka mynd
á frómu vífi«.

61. »Dags er hún dóttir,
þó eg dyldi þess,
því hin fagra var
fylkis dóttir;
hefi ei með meinum
áður né síðan
byrðíngs boða
á beð stigið«.

62. »Þú gjörðir betur,
brúður, að þú sagðir;
hann var fóstri minn
en faðir hennar.
Svo skal eg gjöra,
gullsrein, við þig,
sem okkur ein kona
átt hafi báðar.

63. Þér skal kostur
að koma hín(g)að
dag hvern er þú vilt
döglíng að sjá;
þér skal eg vera
æ þess betri
dýrlunduð kona,
sem þér duga þykir«.

64. »Mér hefir drottníng
dauða heitið,
ef eg við mildíng mart
mæla beiðist;
vildi eg ei verða
fyrir vasi hennar;
ein vil hún við mig
öllu ráða«.

65. »Þann á eg bróður,
sem bilar aldrei
fólk að fella,
þegar firðar berjast.
ber hann brynju
í brákar málmi
blóði á dreifða
og brandroðna.

66. Gjöri eg eingan mun
manna tveggja
tíginborinna[2]
tvegg(j)a jöfra,[3]
og það annað
að mér þykir
þú (víst) ei síður
með vífum en eg«.

Niðurlagið á kvæðinu er hvergi til. Hrs. Á. M. 154, 8vo, XVI, skrifað hér um bil 1700. Afskript Ny kgl. Saml. 1894, 4to, bls. 167—92, með hendi Markúsar Magnússonar. 46. er. prentað í Snót 1865, bls. 191. Byrjunin prentuð hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island, 1888, bls. 202.

[1] fjörlög. hdr. [2] tíginbornara, hdr. [3] jöfara, hdr.

# Þóruljóð.

1. Heyrt hafa þjóðir
Þorleifs getið;
sá hefir dreingur búið
í Danaveldi;
hann var manna
mestur í heimi,
þó eg auki það ei
út í hauga.[1]

2. Átt hafði hann sêr
enn fyrir laungu
búmaður konu
brigðu vænni;
sú var Íngerður
lendra manna;
nefnd var hin þýða
Þorgerðr fyrir mér.

3. Upp gátu þau
einn að fæða
son sælgetinn
sér til yndis;
þótti þjóðum
Þorkell vera
í fornum sið
frægur snemmendis.

4. Tólf vetra var
tiginn glöggvaður,
þá hann herskip
hafði úti,
fylgdi að vetri
föður síns búi
og þótti allmikill
ættar bati.

5. Haldin var þar
veizla að jólum,
(og) þá var boðið
almenni til;
gekk í skála
skrautmanna lið;
þar var glæsilegur
gólfhjörtur skipaður.[2]

6. Heyrðu höldar
á hurð barið,
þá var bragna lið
undir borð geingið,
kvaddi Þorkell
þræl til hurðar:
»Bjóddu síðkomnum
og set til drykkju«.

7. Þræll réð að hlaupa
þegar frá hurðu
og bar með ópi
inn þá sögu:
»Komin er gýgur
með grimmum hug,
sú vill, Þorkell,
þinn fund hafa.

8. Skaltu um greipur
gánga hvergi,
þó að þess beiði
þursa móðir,
en ef að arkar
inn flagðkona,
skulum víghvatir
verja allir«.

9. »Út mun eg gánga
frá yður héðan
og vita hvað mér hefir
mengrund hugað,

---

[1] heima C. [2] Sbr. Kötludraum.

hræddumst eg ekki,
er eg yngri var,
háfar brúðir
heldur en lágar«.

10. Drós leit hann standa
fyrir dyrum skála,
hún var að öllu
hærri en karlmenn;
fyrr nam hann háfa
hlaðgrund kveðja
en nýta mey
nafns að spyrja.

11. »Mær muntu vera
manna stórra,
þú hefir drjúgmikið
á degi vaxið,
mig hafa höldar
háfan kallað,
en eg trauðlega þér
tek undir linda«.

12. »Ætt mína kann eg þér
aungva að telja,
því eg fundin var
fjarri bygðum,
hefir víf verið
á vegum leingi,
leitaði eg húsa
hér fyrst þinna.

13. Hefi eg víða
með vesöld geingið
og hvumleið verið
hverjum manni;
hræðast margir
mig, þeir er líta,
og er því mín ekki
þraut að minni.

14. Vildi eg Þorkell
þiggja það af þér,
þú lögleiddir mig
leingra hóti,
þá mundi á Þóru
þjóð vel lítast,
ef vist í vetur
veita gerðir«.

15. »Vist skal þér verða
veitt til sumars,
af því að miklu
máli varðar;
fljóð skal fara
í friði manna,
hér eru allmikil
mín ráð í bæ«.

16. Gekk digur og há
drós í skála,
þeirri fylgdi
Þorkell konu;
fékk ei af brögnum
blíðar kveðjur,
henni gerði einginn
að heilsa af meingi.

17. Þorkell bað móður
þegar sína:
»Þú skalt brúði
beina vinna,
skaltu hjá þér snót
sitja láta,
hún er þurfi mjög
þinnar hylli«.

18. Réð af fári
fullmektug[1] svara
óviðfeingileg
arfa sínum:
»Sef eg aldri
með urðbúum,
sem furðu mjög
flagðheill hafa«.

[1] fullvitug C.

19. Það skal ei Þóra
þitt gjald vera,
þótt að hún láti sér
lítt vel takast.[1]
Gaktu í öndvegi
og æðra sæti,
eigðu við mig
át og drykkju«.

20. Sjálfur vill hann brúði
beina vinna
og hoskri mey
handlaug bera,
höfuðbúníng
henni fékk góðan;
situr snót í sal
með silkifaldi.

21. Rúm þurfti hún
rekka þriggja,
þar er snót í sal
sitja skyldi;
flúðu átta
úr öndvegi
seggir sæti
sakir Þóru.

22. »Mær taktu yfir þig
mína skikkju,
þann tel eg góðan
guðvef sóma;
leið af öxlum
allskamt mani,
skýrt var fyrir mér
hún skamt ofan tæki.

23. En sem liðu
af höndum jól
hver fór sinna
heimkynna til,
en þeir spurðu,
sem eptir voru:
»Hvað muntu, víf úngt,
vinna kunna?«

24. »Segl kann eg gera
yfir gjálfur-mara
miklu frægra enn
þér fyrr hafið.
Víst værir þú
verðugur granni,
vistarlauna
verður stórra«.

25. Réð hún Þóra
Þorkeli að selja
segl gullofið
fyrir sumar litlu,
en einginn þóttist
af ýta kindum
slíkar hnossir
síð né átt hafa.

26. »Þú munt sigla
seggur í rómu
og vera fremstur í för
flestra manna;
hal skal aldrei
hamíngjn skorta
meðan sú hin bjarta
byrvoð þolir«.

Kvæðið er hvergi til heilt, svo menn viti. Hrs. Thotts 489, 8vo. Frá 18. öld = *A*. Ny kgl. Saml. 1141, fol., nr. 45 = *B*. (Hönd Þorleifs Aðaldals). Hrs. Á. M. 147, 8vo = *C*. Kvæðabók Gizurar Sveinssonar 1665, 73.—76. bl. Afskript af 1. er. í hrs. Sv. Grv. 65. Á öðrum stað er og byrjunin á fyrsta er. Þórukvæði er líka í hrs. Finns Magnússonar í Brit. Mus. 174, 4to. Sbrs. hrs. Sv. Grv. 67 á tveimur stöðum, og í kvæðabók Gísla Ívarssonar (hrs. J. Sig. 405, 4to); er fyrsta erindið prentað eptir henni í Ant. Tidskr. 1852, bls. 228. 1. er. prentað hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island, 1888, bls. 209. Orðabók Jóns Ólafssonar: bera. Enn er kvæðið í kveri í 12mo. sem J. Sig. hefir feingið frá Ingimundi Grímssyni í Miðhúsum.

---

[1] taka A.

# Galdur og forneskja.

## Blóð(stemma).[1]

(Þessa blóðstemmu máttu senda hvert er þú vilt, þegar er þú veizt nafn manns eður til kvikindis:

[Stöðvist blóð þitt ✠ in nomine patris f[ilii] et s[piritus]. Amen.[2]

Stöðvist[3] blóð þeim, er blæðir,
blóð féll af guðs róðu,[4]
almáttigur bauð ótta,
önd[5] þeir sárlega píndu;
stattu fyrir [dyr þar er[6] dreyrir,[7]
dreyri guðs sonar heyri,
unda lögur þar er ægir,
fyrir oss vartu píndr á krossi.

Drottinn minn, stöðva þú blóð þetta ✠ in [p. Libera me domine, sanguinis uñda, sicut stetid Jordanis p̊um qꝫð' jn Jordanis baptizatus. Consumatum est. Lokið er pínu, lúkist saman undir, stöðvist blóð þitt |–o, svo sem þú stöðvaðir, drottinn minn, úr sárum sjálfs þíns lánga frjádag að nóni.

Stöðvist blóð o–, hvort sem er heiptarblóð eður nasadreyri, og alt blóð stöðvist hvaðan sem rennur, í nafni föður og sonar og anda heilags.

[Stöðvist blóð rautt
er eg renna sé,
blóð brennanda,
blóð rennanda,
stattu blóð,
stóð flóð,
þá er drottinn dó.
Haltu aptur banablóði þínu.

Með þessari blóðstemmu stöðvaði Pétur postuli drottni vorum, og blæddi hvorki út né inn. In nomine.[8]

---

[1] Blóðstemmuvers BC. [2] sl. A. Frá ( Les sjö sinnum með guðrækni og hald fíngrinum á beninu eða nefinu B, sl. C. [3] stemmist C. [4] æðum B. [5] und B. [6] dýrðnafn B; dýrðarnafn C. [7] drottins BC. [8] Frá [ nomine patris. Stöðvist blóð þitt. H. krus. þre ✠ veres ✠ res ✠ repex ✠ in n(omine) p(atris) et f[ilii] et s[piritus] s[ancti]. A[men] A, les þrisvar og hald fyrir nefið með fíngrinum C.

Hrs. Á. M. 434, A, 12mo, 2.—3. bl. Skinnbók frá hér um bil 1500. *A* = útgáfa séra Gottskálks Jónssonar í Glaumbæ í Add. Mss. Brit. Mus. 11, 242, 4to, 48. bl., skr. 1543—93. Prentað í Zeitschrift des Vereins für Volkskunde I, 1. Berlin 1891, bls. 102—103. *B* = Hrs. Bmfj. 646, 8vo. *C* = safn Páls Pálssonar nr. 10, 8vo, bls. 231, eptir handriti Jóns bónda Jónssonar á Öndverðarnesi, síðar á Stapa.

Ef þú vill hljóta úr kasti, tak teningana þína og graf þá niður fyrir norðan garð kirkju þrjár nætur, aðrar þrjár fyrir sunnan og þrjár fyrir austan; síðan lát á altari undir dúk þrjár messur; síðan kasta upp í hendi þér með þessum orðum:

Eg særi þig **Þór** og **Óðinn**, fyrir Krist enn krossfesta, að þið þversynjið á teninga þessa, og í annað sinn kasta upp, og seg svo: Eg særi þig fyrir Enok og Helíam, og í hið þriðja sinn: Særi eg þig fyrir Frigg og Freyju, Þ[ór] og Ó[ðinn], og fyrir helgu mey frú sancte Maríe, að þú, Fjölnir, falla látir það er eg kasta kann.

AM. 434a, 12mo, 6. bl. Skinn frá hérumbil 1500.

Margt er úngum mönnum fritt að fremja gaman. Þessa eptirfarandi list hafa þeir gömlu brúkað, þótt nú fáir kunni.



Sæll í b[ölvan],
segðu mér fréttir,
eg N. son
á þig kalla,
upp, upp stattu,
eg vil finna þig,
láttu mig sjá
þú li[ggir] h[ér] í.
Upp, upp stattu,
þá eg er í sve[fni].
meinlauslega
við mig skaltu tala.
Ef þú dauður ert
ei fyrir laungu,
ljáðu til eyrun
og láttu mig sjá þig,
eg skal prísa þig
upp frá þessu,
og í atvikum
öllum blíður,
ef þú unnir mér,
og frá segir
flestum hlutum,
sem eg frétta vil.
I. I. níu s[innum] s. h. cro.
Særi eg þig í eða á

fyrir allra k[ónga] nöfn ✠
s[em] og verkan allrar
ver[aldarinnar?].
Upp, upp þú standir,
þá eg er sofnaður,
í hógværð við mig talir.
Ve[ri] s[vo] s[em] s[agt er].



Hrs. Á. M. 434, d, 12mo, 1.—3. bl. Skinn frá 16. öld.

**Andastefna Sæmundar hins fróða.**

Ego, ego, Nói Nóason stefni ykkur, (ef fleiri eru, skal svo segja), þér. (ef einn er, skal svo segja), úr hverri helzt fylking, sem vera kann af tólf hundrað þrjátíu og tveimur, frá fimtu festíngar himins útþenju, til neðstu ráðandi fylkíngar fyrir ofan jörð, nefndum og ónefndum, eldandi, sólarandi, dagsandi, næturandi, saungandi, hljóðsandi, andi skruggu, andi óðamælgis, andi eptirhermu, andi eða þar í millum, nefndum anda eða ónefndum. Far nú svo hart sem ör flýgur eða örvaboð óstöðvanda, eða sem hugur manns hvatar. Með heilu ráði særi eg þig, fyrir alla helga krapta himins og jarðar, að þér einginn staður heimill verði utan helvíti, að vitni þeirra minna sömu heilögu stefnuvotta. Amen. sannarlega. vissulega. sela.

Hrs. Á. M. 247, 8vo, 1.—2. bl. með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa.

**Varnarstefna eignuð Sæmundi fróða.**

Eg Nói Nóason stefni þér, (ef einn er skal svo segja, ef fleiri eru, ykkur, skal svo segja), hvort þú ert af lopti eða jörð, af skýjum eða skini, austri eða vestri, norðri eða suðri, eða þar í millum, af sól eða mána, ljósi eða leiptríngum, af stjörnum eða stormviðri, skruggum eða skýfari, af hagli eða hretviðri, af moldu eða mauri, straum eða steini, af blómi eða baðmi, af ís eða eli, af vatni eða vogföllum, af húð eða hári, af sjón eða sinum, af holdi eða hjarna, af þvagi eða þjóhnöppum, af tali eða tilfinníngu, af helju eða helvíti, eða þar í millum, nefndum eða ónefndum frá mér og mínum, óðali og ættmönnum í níunda lið, kviku sem dauðu, úti og inni, uppi og niðri, nefndu og ónefndu. Far nú hart sem vatn rennur, leiptring líður, snæljós sindrar, valur flýgur vorlángan dag með beinum vind, eða sem vötn til sjós, blóð til benja, mögur til móður, maður til meyjar, far til foldar, feigur til heljar, og svo hreki þig þessi mín orð sem vindur hrekur ský, einglar ára, ljón lömb, ljósið myrkur. Kraptur drottins og allar hans höfðíngja stéttir hreki þig og hrjái frá dómstóli drottins og í helvítis afgrunn. Að vitni þeirra minna heilögu undirskrifaðra stefnuvotta:

Selatíels, Ragúels,
Samgíels, Rafaels,
Sókratíels, Mikaels.

Hrs. Á. M. 247, 8vo, hér um bil 1850.

### Tóustefna.

Stefni eg þér, melrakki, lambastefnir eða sauðaþjófur, að þú gjörir mér eingan skaða á lömbum mínum eða sauðum eða nokkrum mínum kindum. Særi eg þig fyrir krapt Þórs og Óðins, og hvar þú kemur nærri kindum mínum, sé það sem satan gamli rífi þig utan og innan, ær og óður, öllum mætti, risti þig og meiði, gorrefur hinn leiði, kvölum. Bölvuð sért og sit, sauðbítur, vertu bölvaður utan og innan og í innstu æðar hjartans, og bannfærður sértu af öllum logandi vindum, og liði þig í sundur. Þú skalt, refur, rifna í sundur og rotna og allur máttur brotna formælum þeim, sem flestir spá, festist þér á, bölvuð, fá; innvortis veitist þér þrá. Haf þú hvergi ró fyr en eytt hefir öllum kindum og fénaði þess, er af stað sendi, ef af mannavöldum er heim til mín rekin, mér og mínum kindum að skaða, en sértu sjálfkrafa, þá kom ei nær mínum kindum en 70 faðma þá næst kemur. Hér með sendi eg þér mína helguðu stafi, sem eru svolátandi:

Stefnuna skal rista á eikarkorn eða kefli af hríseik og láta undir dyraþrepskjöld á fjárhúsi sínu eða binda hana á elzta sauð og láta geyma það síðan í þrjá daga fyrir og eptir.

Hrs. Á. M. 247, 8vo, hér um bil 1850.

### Tóustefna eptir Þórð á Strjúgi.

[Óð kveð eg[1] kvæða
kolsvíni reftrýnis,
sárbeittum sauðskratta
særíng í kveðlíngi,
stegld, sviðin, húð hroðin,
helreifuð, ró sneyðist,
stirð[2] drafni, steinsofnuð
stælingur fenhrínga,
flæmd, drifin fold ofar,
fælin, án heims sælu,
öllum sneidd heims heillum,
hrakbölvuð af skaðist;
sem duft hjaðni dauð stattu.
Dvína læt bæn mína.

Hrs. Á. M., (247), 8vo, hér um bil 1850.

**Dýrastefna.** Eptir lærða Gísla í Melrakkadal.

Stefni eg þér [(ef ein er[3], skal svo segja); stefni eg ykkur (ef fleiri eru, skal svo segja) vargur, vemma, svemma, sauðbítur, suga,[4] blóðsuga, rebba, refur, refkeila, [leppa, lánghala[4], tæfa, týfa, týr[4], dýr, ætla[4], lágfætta[5], ófríð tóa[6], ótryggjandi

[1] Kvið kveður. hdr. [2] blind. hdr. [3] Frá [ fyrir kyn þitt B. [4] sl. B. [5] lágfóta B. [6] belgtóa B.

meinúlfur[1] [manns
mörk yfir þvera,
í morðstað meintan
við munna jarðinnis.[2]
Stattu þar límd
meðan stál er uppdregið,
öllu numin frá
eðli náttúru;
stund hafi hver
í stefnublett téðan,
dæmdar til dráps.
þá dunar harðmunna.
Stiknið annars
[sem strá í loga,
ull í eimyrju,
aska í matglóðum,
fræ í funa,
belgur í báli,
kol fyrir afli,
kvistur í gusti,
hár skyndi af skinni,[3]
húð af holdi,
hörund af beinum;
blóð þorni,
bein drafni,
augu úthverfist,
en túnga teygist
[utan strax arkir
yfir mörk þvera
sex meðan sólir
setjast á himni.[4]
Elti ykkur andi sá,
er andskoti er nefndur,
[blindur sem rási[5]
í bæli forgefins.
Sæmdur skalt verða
með sex eður fleirum
dettidropum
af dupti láðorma.
Steiki þeir þig,
ef smalar þú dýrum,
að vitni þínu og þinna.

Afskript dr. Jóns þorkelssonar ýngra eptir tveimur útgáfum í hrs. J. Sig. 406, 4to. Aðalútgáfan er með nokkuð gamalli hendi, en hin útgáfan (B) með nýlegri hendi.

**Tónstefna** lærða Gísla í Melrakkadal; er til að stefna ref að skothúsi. Eg Nói Nóason, stefni þér refur, lánghali, dýr, dunda, rebba, víghnöttur, vemma, vembla, melrakki, lánghala, lágfætla, sauðbítur, sverta, svemla, svínhöfða, blóðdrekkur, blóðsuga, ótryggjandi meinvargur, grenlægja, urðardís ófriðhelg, hræbjörn, hræbítur, holuvættur,

hvar sem þú helzt
um hauður ert
fótum standandi,
fjær eða nærlendis,
fótum standandi
yfir fjórðúng heilan,
komin skalt vera
fyrir sólarroð næsta
á Skyrpustað,
nefndan Skarpinheim.
Annars hold drafni af þér,
heljar refur,
húð losni,
hár sviðni,
eyru afskræmist,
augu úthverfist,
nasir tillykist,
blóð þorni,
bein smeltist,
innýfli

[1] úlfur B. [2] Frá [ sl. B. [3] sem stráklega vildi; | er það mín | ósk af huga. | Fyrst fúni belgur af skrokki B. [4] stattu nú dæmd til dráps | sól meðan | sést á himni B. [5] blauður sem refur B.

öll um snúist,
öllu numin frá
eðli náttúru.
Elti þig andinn
sá Andskoti er nefndur,
bleyðu sem ref
í bæli foreinist.
Stattu þar límd
meðan stál er uppdregið
öllu numin
frá eðli varygðar.
Sæmdur skaltu verða,
ef sækir þú rebbu,
með sex eða fleiri
dettidropum.
Afr deysti Eodomna.

Hrs. Á. M. 247, 8vo, hér um bil 1850.

Önnur **tóustefna** eptir lærða Gísla á móti stefnivargi.

Nitrum, hoc, hoy, eg, ego.

Stefni, særi, formæli, forbanna, ragna, bölva, bannsýng með heiptarhug þér, þú vargur, af fjandans krapti, fól andskotans, híngað flúinn frá fjandanum, mér og mínum mein að gjöra. Heyr þú nú, bölvuð, mín heit ummæli, framtöluð strax í stefnuvætti, heyrðu nú orðin mín, heljar meinskratti, flæmd burt héðan með fjandans krapti, úr landamerkjum mínum öllum, fyrir sólarroð næsta, til hjarðar þess, þig híngað sendi. Vinn þú hans hjörðu hundraðfalt, sem mátt framkvæma, hundraðfalt meira brun í sauðdrápum Rotnaðu annars hár frá hári, stiknaðu bölvuð, bein frá beini, smelti þinn heili sem smér í skini, drafnaðu, bölvuð, sem dupt eða sindur, utan þú undir eins á burt dragnir. óvættur argasti alls tryggleika. Hreki þig allir helvítis árar. Undirskrifaðir árar tvítvennir eptir þér reki með æði ferlegu.

| | |
|---|---|
| Sverkur, | Kolhremmir, |
| Sviðrar, | Kiynur, |
| Súgnor, | Rótvölur, |
| Sugandi, | Kignan. |

Hrs. Á. M. 247, 8vo, hér um bil 1850. Fjöldi er til af tóustefnum bæði í bundnu máli og óbundnu. Lángelzt er tóustefna sú, sem finst í Uppsala-Eddu (skinnbók frá hér um bil 1300), prentuð í Småstykker, udg. af samf. til udg. af gammel nord. literatur. 1884—91, bls. 189—90.

Hér skrifast στεφνυρ. 1. στεφνα.[1]

Fyrir magt guðs föður, guðs sonar og guðs h[eilags] anda og fyrir alla himneska krapta, í þessara allra áðursagðra krapta nafni, særi eg þig i burtu, þú illi fjandi, hvers ills kyns, sem þú ert eða hvaðan sem þú ert að kominn, eða sértu blásinn neðan úr afgrunni helvítanna, af sjálfum fjandanum útrekinn, til þess að skaða þennan mann á lífi eða limum, eignum eða peningum, eða sé þessi ónáðan djöfulsins af fjandans illum verkum og hafa af þessari ónáðan helvítis eða skaðsemda til leiðar komið,

[1] stefnur, stefna, með grísku letri.

að skaða þennan mann, særi eg þig í burtu, þú illi fjandi, sem skaðað hefir eða vilt skaða þennan [mann]. Nú særi eg þig ofan í helvíti eða þann stað, sem þú ert burt úr kominn. Verði þér alt að sáru eitri, ef þú dirfist að dratta hér leingur ofan á jörðunni, að þú ýfir ei né rífir þennan mann. Hver sem þú ert, þér tala eg til. Heyr þú til mín, hvar sem þú ert staddur, hátt eða lágt, djúpt eða grunt, fjarri eða nærri. Plági þig allir himneskir kraptar, bæði á himni og jörðu, þig niður þrykki og hreki til neðstu afgrunna ofan í fjandann, fæði þinn, eður til þess, sem þig hefir sent, en við þér taki allir helvítis kraptar og þér þar haldi um allar eilífar aldir, svo þú kunnir ei leingur þann mann að skaða, ei heldur hans ættfólk, föður eða móður, systur eða bróður. Nú særi eg í þig hræðslu og ótta, fyrir öll píslarárin Jesú Kristí, svo þú aldrei aptur vitjir, skaða að gjöra þessum optnefnda manni. Nú bið eg, af innsta grunni míns hjarta og af öllum líkamans kröptum báða kraptana, þá hærri og þá lægri, eptir því sem hver er frekast að kominn, að halda þessum optnefnda djöfli í skorðum eða við þann, sem hann sendi eða híngað stýrði. G[uð] f[aðir], g[uð] s[onur] og g[uð] h[eilagur] andi, bæði á himni og jörðu, láti þessi mín orð verða órjúfanleg, svo sem guðs föður, þá hann skapaði himin og jörð. Bið eg alla þessa krapta, hér fyrir ofan skrifaða standa, sem eg hefi um áður sagt efni beðið, að gjöra þennan mann, sem þessu hefir ollað, svo hræddan fyrir mér og duglausan, sem Lúsifer varð fyrir g[uði] f[öður], þá hann varð útsnaraður af hæðum himnanna, að hann eða neinn hans lifa skaðlaus kunni, ei neina minnstu stund, hvorki á limum eða lífi, fyrir grasa eða galdra náttúru og þeirra, sem standa og þiggja og ráða þessum, sem eg nú á sit. Bið eg þá nú til segja, sem öflugan krapt hafa, svo að mín orð fái öflugan framgang, sem eg nú mæli á þessari næturstundu. Nú bið eg allar þessar áður nefndar verur mér fullkomlegt lið að leggja, svo að mín orð stöðug standi sem guðs föður, þá hann skapaði himin og jörð. Hér til þessara minna bænarorða styrki allir þessir kraptar, sem hét að hníga og mínu máli mesta stoð gjöra og þeim er ei á móti, sem hér undir búa og byggja. Endir.

2. στεφνα.

Eg særi þig, þú bölvaði andi, í h[eilagrar] þ[renningar] n[afni], að segir mér eða sýnir hver þig sent eða til búið eða upp vakið hefir. Framar særi eg þig við alla krapt[a] himins og jarðar, að þú segir mér, hvaðan þú ert, af lopti eldi, jörðunni, undirdjúpunum eða helvíti, og viljir þú ei þetta gjöra, þá særi eg þig í burt frá mér og öllum mínum. Hafðu aldrei meiri ró nærri mér né fjarri heldur en þinn bölvaður og fordæmdur herra Lúcifer hafði af píslarsárum Jesú Kristí á krossinum. Farðu frá mér, bölvaður, í heitasta helvíti

hvar um þig leikur
logandi eldur
eilífra kvala
eilíflega.

Sé mín rgczmx[1] svo heyrð af guðdómlegri þrenníngu, svo sem Kristí bæn á krossinum. Amen. Endir.

3. στεφνα.

Eg særi þig, Belsibub, fyrir allar himneskar og jarðneskar árásir og alt hvað á himni og jörðu lifir og krapt hefir, það gángi þér á móti. Þig særi eg fyrir hold og blóð Jesú Kristí þess krossfesta, að þú burt farir frá mér og öllum mínum. Sittu fastur í signuðu Jesú nafni, svo leingi sem myrkranna hlekkir halda þér. Bindi þig þrenníng heilög. Bindi þig alt hvað laust og bundið er. Sértu með bölvan bundinn. Bind eg þig með bæn þessari. Bænheyri mig blessuð þrenníng, bæði þá og hér nú. Signi eg mig með öflugri signíng nú í krapti Jesú pínu, nú héðan af og að eilífu. Amen. Endir Fines(!).

Hrs. Bmfj. 663, 8vo, með mjög einkennilegri og forneskjulegri hendi.

## Þjófastefna.

Þjófur, eg stefni þér með svo sterkri stefnu eins og þá guð stefndi djöflinum úr himnaríki forðum, niður til helvítis, að þú hafir eingan frið á sál eða lífi, nema þú mér aptur skilir stuld þeim, sem þú stalst frá mér, bölvaður, í svefninum,

nema þú mér aptur skilir stuld þeim, er þú stalst frá mér, bölvaður, í vökunni,

nema þú heim færir stuld þann, er þú stalst frá mér, bölvaður, á sjó og landi,

nema þú heim færir stuld þann, er þú stalst frá mér, bölvaður, úti og inni,

nema þú heim færir mér stuldinn.

Sof þú aldrei og ekki vak með friði eða rólegheitum, nema þú heim færir mér stuld þann, sem þú stalst frá mér, bölvaður.

Verði allar þínar útréttíngar til sjós og lands [þér til bölvunar], nema þú heim færir stuld þann, er þú stalst frá mér, bölvaður, í hafi eða á hestbaki,

nema þú heim færir stuld þann, sem þú stalst frá mér, bölvaður, sitjandi og gángandi,

nema þú heim færir stuld þann, sem þú stalst frá mér, bölvaður.

Þá þú vilt gott gjöra og af því farsæll verða, verði þér alt að illu, nema þú heim færir mér stuld þann, sem þú stalst frá mér, bölvaður og blessunarlaus, í guðs húsi.

Hvað gott þú vilt þeinkja, gángi þér það alt illa, nema þú skilir mér aptur því, þú hefir frá mér stolið.

Bölvuð verði öll þín verk, þánkar, orð og gjörðir, nema þú skilir mér eign minni, sem þú stalst frá mér, bölvaður, í tímanum og eilífðinni.

Guðslaus og allslaus gángi þér alt til ills og ama lukkulega og eilíflega.

Vertu til alls góðs bölvaður, nema þú skilir mér heim til mín eign minni.

---

[1] þ. e. stefna.

Eg hefi bölvað þér, en eg bið guð að bölva þér og það eilíflega, því það get eg ekki.

Þú ert þjófur. Það verður þér að eilfri fordæmíngu, nema þú heim færir mér stuld þann, sem þú stalst frá mér yfir alt.

Vertu eilíflega bölvaður fyrir guði og mönnum, alls góðs þurfandi, en eilíflega synjandi, nema þú skilir mér heim til mín eign minni, sem þú hefir frá mér stolið.

Verði þér það alt til eilífrar fordæmíngar, nema þú skilir mér nú öllu aptur, sem þú hefir frá mér stolið.

Hér eptir fylgir stafurinn, sem vera skal:



Þú skalt rista hann á surtarbrand eða flaskaeik, og lát fyrir innan bæjardyra hurðina, [þar] sem allir geta gengið undir, en þá þú stefnir, skaltu [stefna] með fullu túngli og flóði sjáfar. Þú skalt rista hann á skíði og haf í bæjardyrunum þá þú stefnir, og haf uppi í þér mannsístrubita undir eins og þú stefnir. Bezt af öllu aldrei(!) á Þórshamarinn, með því honum til heyrir. Þú skalt steypa hann á Hvítasunnu milli pistils og guðspjalls úr stolnum klukkukopar, hamarinn, steðjann og stínginn, slá svo hart og sem þér sýnist. Þótt nú sé ekki til er stefnan dugleg samt, sem eg hefi fyr sagt.

Hrs. Bmfj. 651, 8vo, með hendi Ívars Jónsonar á Vaði í Skriðdal, hér um bil 1850.

## Særíngarvers

eptir Kálfar á Eiðum. Á að skrifast með dvergrúnaletri.

Eg Nói Nóason særi til þess allar kindur, ills tegundar, sem eru og verið hafa frá fyrnefndu heimsaldurs hlaupi eptir flóðið, sem hér greinir: draugadísir, vættvölvur, seiðmenn, svartálfa, nornir, álfa, bjargbúa, bergrisa, hrímþussa, gýgi, gángl, með áheyrandi

öllum áraher
útsnöruðum,
að öll mín orð
á þér hríni,
til formælíngar
og fullkomins
álagakraptar,
að þú héðan
ekkert spor
alheill gángir

um þrepskjöld þveran
þíns heimilis.
Hold þitt hrörni,
heilsa hjaðni,
blóð burtnemist
öllum frá æðum;
karlægur skaltu
kúra svo leingi
sem skamtaðist heilum
skapaldurs dægur.

Orð mín þessi, af rót grimmustu og kraptahræríngu, magnist.

Verði æ yfir þér
vesæld þessi
þar til beinhús þitt
brotlama kennir.

Fylli nú ósk mína,
með fjandans krapti
áður upptalinn
Einherja lýður.

Standi nú hvert orð
sem á stein sé grafið,
með aðhlynníngu
orðlegastri,
að vitni þeirra
verstu fyrnefndu.

Þetta særíngarvers má ei neinn tala utan lífsnauðsyn í sé kominn af óhlutvöndu illskuvarmenni.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N. Með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörva.

## Stórfiskavers
eptir Kálfar á Eiðum.

Spiritus sanctus grafis geng Tuf Elemaus Enus Etur bóra Nostra sunt dominus drás. Jesús Kristur, og fyrir þessa þrjá parta í föður, son og heilögum anda rennið þið burt og rýmið frá mínu skipi. Í nafni föðurs sonar og heilags anda. Amen.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N. Séra Helgi Sigurðsson á Jörva.

## Að stúlka unni manni.

Skrifa í lófa þinn hægri með blóði þínu og tak það ofan af þumalfíngri á vinstri hendi, og mæl þessi orð yfir, og hald í hönd henni:

Legg eg lófa minn í þinn lófa, minn vilja í þinn vilja. Verði þér í beinum sem þú brennir öll, nema þú unnir mér sem sjálfri þér. Svo heit verði þér orð þessi, svo megn og sterk, sem eilífðin er. Allir töfrar og fjölkýngi fjandans villi vit þitt til ástar og elsku við mig. og allar þær vættir, sem í jörðu búa séu mér liðsinnandi á þessa leið:



Hrs. A. M. 247, 8vo, hér um bil 1840.

## Ef maður vill ást stúlku fá.

Hald í hönd hennar og seg: Eg lít hér á þig og þú lítur á mig. Eg legg hönd í þinn lófa og það undir'fel, er eg áskil. að þú elskir mig og unnir mér af öllu hjarta þínu. Verði þér svo í hug og beinum, að þú brennir öll af meinum, en í holdinu hálfu ver. Verði þér hvorki fritt né rótt, hvorki dag né nótt. Hati þig allir og hljóttu ógiptu, nema þú elskir mig og unnir mér af öllum hug og hjarta þínu. Svo sem mér er vilji til. In nomine patrici(!) et filii et spiriti(!) sancti.

Þenna staf staf skal maður á sér bera:



Eptir blöðum, sem Guðmundur Davíðsson, bróðir minn, á.

## Að deyfa reiði óvinar síns.

Þvæ eg af mér í dag reiði allra manna, ríkra og óríkra, svo þeir hlæjandi augum mig líti, og glaðlega mér í móti gángi. Lít eg fjörsakir, lít eg fjársakir, lít eg hinar minnstu manna sakir. Guð líti mig og góðir menn. Sjái hver á mig sældaraugum fyrir þann ægishjálm, er eg á milli

Ɯ
brúna ber: Ǝ—¦—E Holl sé mér veröldin. Vík eg að vinum mínum;
Ш

vildi eg tala það sem mér til sigurs og frelsis verða mætti. Signi eg mig fyrir bræði, signi eg mig og mín klæði, signi eg mig upp að ♁Tꝺ[1] og niður að Ꝥꝺ.[2] Sigur sé mér í höndum og fótum og öllum liðamótum. Bak mitt verði að ıuɹɐʞ, brjóst mitt að ıןɐʇs, höfuð mitt að hörðum ıuıǝʇsnןןǝq. . Einginn verði mér svo reiður í dag, að mig í glímu felli, granda kunni, eður nokkurn skaða gjöra. Svo vel verði eg signaður sem jómfrú María, er hún stóð hjá krossinum, og tók sinn son Jesúm sér í fáng. Ó, Jesús Maríuson, geym þú mig fyrir öllu skaðlegu: eldi heims og himins, lopts og lagar, byssu, boga og steinum og öllum voðameinum. Í nafni föður, sonar og anda heilags. Nú signi eg mig með rennandi dögg drottins míns, þenna dag og alla tíma fyrir öllum óvinum mínum, sýnilegum og ósýnilegum. Eg deyfi nú öll vopn og verjur allra manna, galdra og gjörnínga, sem verið hafa síðan Jesús var fæddur; verði mínir óvinir mér ekki framar til meins máls eður gjörða, en Heródes varð syni guðs lifanda. Mál þeirra skelfist, minnið hjaðni, hefndin eyðist, og sjónin svitni. Svo eyði drottinn öllum þeim, er mér ílt vilja. Komi mér hjálp af himni, heill af jörðu, sigur af sólu, sæla af túngli, styrkur af stjörnum, stoð af öllum góðum öndum. Í nafni föður, sonar og anda heilags. Amen. Þegar maður vill reyna þetta skal hann gánga að læk, sem rennur frá austri til vesturs, halda höndum í

Ɯ
læknum og lesa svo þetta áður skrifaða og gjöra svo þenna staf: Ǝ—¦—E
m

á milli augna sér með fíngri, sem næstur er litla fíngri á hægri hendi. Hann skal ætla svo til, að hann sjái á bakið á óvin sínum, meðan hann les bænina og bíða svo til þess að óvinurinn snúi sér móti honum, en eigi skal hann láta sjá sig. Síðan skal lesa þetta:

Eg N. N. bind þitt höfuð N. N. við guðs orð. Eg bind þínar hendur við guðs krapt. Eg bind bindandi fjötur um þitt líf og sinni með fimm píslarsárum Kristí. Í nafni föður, sonar og anda heilags. Amen.

Les og þetta: Vertu mér svo feginn, þegar þú sér mig, sem jómfrú María varð sínum blessaða syni, þá hún fann hann á meðal lærifeðranna. Í nafni föður, sonar og anda heilags. Amen.

Tekið eptir blöðum, sem Guðmundur Davíðsson bróðir minn á.

## Hverninn maður skal koma þeim manni heim aptur,

er frá manni hefir rgoilb[1] og maður hefir tsymxnxmm,[2] hvað að kallast að rtczmx[3] honum heim og hljóðar svoleiðis:

---

[1] þ. e. stá. [2] þ. e. gá.

Olþzys[4] eg Rgczml[5] þér heim aptur með rgyib[6] þinn, er þú rgxirg[7] frá mér, með svo sterkri rgczmy[8], guð rgczmbl[9] fjandanum úr Paradís í helvíti, nema þú heim færir stuld þann, þú rgxirg[7] frá mér, [dæiyxbys, yxhxmbi[10], nema þú heim færir dæi [11], rþzxmbl[12], nema þú heim f. s. þann, er þú stalst frá mér dæi.[11], á rlþ[13], nema þú heim f. rgyib[6] þinn dæi.[11], á ixmbl[14], n. þú heim f. s. þann, er þú s. f. m dæi.[11], txmtömbl[15], n. þ. h. f. st. þann, er þ. s. f. m. dæi.[11], rgxmbxmbl[16], n. þ. h. f. o. s. frv. dæi.[11], rlglxmbl[17], n. þ. h. f. o. s. fvr. dæi.[11], ilttixmbl[18], n. þ. h. f. o. s. frv. dæi.[11]. cgxmbl[19], nema þú heim færir o. s frv. dæi.[11], bschhxmbl[20], nema þú h. f. o. s. frv.

Svo á maður nú upp að telja með hverju móti hann kann á jörðunni vera og segja hann dæiuxbxmm[21], hvar sem hann er, nema hann heim færi rgyib[6] þann, er hann [rgxi zsx[22] þér, og mun hann þá verða að koma með það, aptur, sem hann hefir tekið frá þér, svo framt, sem ei er glatað, en sé það, þá mun hann segja til þess. Þrisvar skal maður rgczmymml[23] rgczmx[3] á hann.

Hrs. Bmfj. 663, 8vo. Skammstöfunum og villuletri hdr. er haldið með vilja, enda er mjög hægt að komast fram úr hvoru tveggja, en þó skal eg færa hér til með venjulegu letri orð þau, sem prentuð eru með villuletri: [1] stolið. [2] grunaðan. [3] stefna. [4] þjófur. [5] stefni. [6] stuld. [7] stalst. [8] stefnu. [9] stefndi. [10] bölvaður, vakandi. [11] böl, styttíng fyrir bölvaður. [12] sofandi. [13] sjó. [14] landi. [15] gángandi. [16] standandi. [17] sitjandi. [18] liggjandi. [19] etandi. [20] drekkandi. [21] bölvaðan. [22] stal frá. [23] stefnunni.

## Formáli, ef eldur logar ekki.

Tröll blása í taðeld,
Tyrkir í spóna' eld,
kristnir í viðareld,
smiðir í kola' eld.

Logaðu eldur, logaðu vel,
logaðu ef þú getur,
einginn lofar þig eins og eg
eða hann Sánkti-Pétur.

Safn Jóns Árnasonar af óprentuðum þjóðsögum.

...... lasni ei; bindi þig þrenníng heilög, bindi þig alt hvað læst og bundið er, sértu með bölvan bundinn; bind eg þig með þessari bænheyríng, blessuð þrenníng, bæði þá og hér nú. Signi eg mig með öflugri signíng í krapti Jesú pínu nú, héðan af og að eilífu. Amen. zxrgys ttrgy zlæg syn sc lrgx sc dlr gys yn kol kcilxs du dergx nlrgy zs circ þtzsu zircrgrilrgy kb (heldur en xb) sóm oyu.

Hrs. Á. M. 246, 8vo, 93. bl. Frá 18. öld. Eg hefi ekki getað komizt fram úr villuletrinu með neinni vissu.

## Kvæði.

Hér er Emanúel minn við síðu,
Jesús kallast heitið hans.

hann er lausnarinn syndugs manns.
Haf þig á burtu heljarár, og flýðu.

1. Farðu á burtu með freistni
þína,
framar ei gjör mig, Satan, pína;
öflugur með eingla sína
allan deyfir kraptinn þinn.
Hér er Emanúel minn.
Þig mun, djöfull, plága' og pína,
á píslunum verður aldrei stans.
Jesús kallast heitið hans.
Honum þá bæn eg birti mína,
brátt þér höggið ríður.
Haf þig á burtu, heljar ár,
og flýðu.

2. Svei þér á burtu, Satan leiði,
sárust eg þér höggin greiði,
því að þú mig þar til neyðir,
þrífættur guðlastarinn.
Hér er Emanúel minn.
Hann þinn allan hausinn meiði,
treysti eg guði og einglum hans.
Jesús kallast heitið hans.
Hann þig kremji' og kreistan
deyði
í kvalanna víti stríðu.
Haf þig á burtu, heljar ár,
og flýðu.

3. Farðu í burtu, forni fjandi,
fljótt úr mínu hjartalandi,
héðan þig reki heilagur andi,
svo hvergi nái Satan inn.
Hér er Emanúel minn.
Hræðist þú fyrir bitrum brandi
blessaða þess guðs og manns.
Jesús kallast heitið hans.
Víst mun þér það verða að grandi,
ef við stímist og bíður.
Haf þig á burtu, heljar ár,
og flýðu.

4. Orðið guðs þig færi' á flótta,
frá mér Satan, burt með ótta;
ofan til vítis verstu drótta
vertu hrakinn sérhvert sinn.
Hér er Emanúel minn.
Eins og magnlaus mygluþjótta
muntu verða í augum hans.
Jesús kallast heitið hans.
Burtu hrífur særíng sótta
og sorg úr lyndi blíðu.
Haf þig á burtu, heljar ár,
og flýðu.

5. Náðar ráðin sonar guðs sæta,
syndir mínar bezt kann bæta,
hjartans róta heillin stræta,
hjástoð hans eg jafnan finn.
Hér er Emanúel minn.
Þegar þú gjörir þessu að mæta
þá mun úr þér detta dans.
Jesús kallast heitið hans.
Viljir þú mig veikan græta,
þá veri mér guð við síðu.
Haf þig á burtu, heljar ár,
og flýðu.

Hvarfsbók (frá Þorsteini Þorkelssyni á Syðra-Hvarfi í Svarfaðardal) II, nr. 84. Hndr. þetta er í áttablaðabroti og er í safni Bmfj., en það er ekki skrásett á prenti, enn sem komið er. Mesti fjöldi er til af svipuðum særíngakvæðum, og er kvæði þetta tekið til dæmis, því ógjörníngur var að taka öll slík kvæði upp í safn þetta, þó þau eigi þar heima að réttu lagi.

## Allra flagða þula.

1. Líttu upp leikbróðir,
og láttu fólk þegja,
meðan að eg nefni
níutigi tröllа,[1]
Öll skulu þér standa
[sem við stjaka bundin[2],
unz að eg hefi út kveðið
allra flagða[3] þulu.

[1] tröll í helli þínum D. [2] Frá [ K. [3] trölla HIK.

2. Fyrst situr Ysja[1]
og Arinnefja,
Flegða, Flauma[2]
og Flatsokka,[3]
Skrukka,[4] Skinnbrók,
og Skitinkjapta,
Buppa,[5] Blætanna[6]
og Belgiygla.[7]

3. [Hér er Surtur[8] og Haki,[9]
Hrymr[10] og Skotti,[11]
Þrymr[12] og Sökkvir,[13]
Hrotti og Móði,[14]
Glámr[15] og Geitir[16]
og Gortanni,
Grímnir,[17] Brúsi,
Dröttr[18] og Hölvir.[19]

4. Þá er[20] Glossa[21]
og Gulkjapta,[22]
[Gjálp, Grípandi[23]
og Greppa [hin fimta[24]
Drumba[25] og Klumba
og Dettiklessa,
Syrpa og Svartbrún[26]
og Snarinnefja.[27]

5. Slöttr[28] [er hinn fyrsti,
Slángi annar,[29]
Hundvís,[30] Grubbi[31]
og Hraktanni,[32]
Slinni og Slángi.[33]
Snoðvís,[34] Krabbi,
[Iði, Auðnir
og Ángurþrasi.[35]

6. Fenja og Menja,
Frusk[36] og Tuska,[37]
Hnyðja og Bryðja
og Holuskroppa,[38]
Flaska og Flimbra[39]
og Fláskjapta,[40]
Eldríðr,[41] Opingeil,[42]
Ísporta[43] og Sinortur.[44]

7. Súlki,[45] Slammi,[46]
Síðhöttr,[47] Hnikar,[48]
Bjálki,[49] Beinskafi,[50]

---

[1] Issa DHJ. Yrsa IK. [2] Fláma GK. [3] Flotsokka BCDEF, Flórsokka GHK. Flórskrokka I. [4] Skráma K. [5] Buffa G. [6] Blátanna BDEFHIK. Blátönn G. [7] Belgsylgja CF, Belgygla G, Belgángla I, Belgselja J. [8] Settur I. Frá [ Höttur H. [9] Hákur J, Halli K. [10] Hrímnir D. Hrimir G, Hrumur JK. [11] Skottur D. [12] Börkur I. [13] Sörkvir BCDEFGHIK. [14] Myrðir D. [15] Glaumur C, Glúmur D, Gaur J. Glói K [16] Geltir D. [17] Grimur DI. [18] Surtur K. [19] Hösvir BCEFK, Hjassi G, Hösnir H, Hnossnir I. [20] sitr K. [21] Glosa D. Glosta H. [22] Gullkjapta DGHIJK. [23] Gjálpríður J. [24] sl. GH. [25] Trumba G, Drumbak H, Dumba JK. [26] Svartörn J. [27] Svarinnefja CFJ. sl. D, Snarnefja G, Svarfnefja H. Svarnefja I, Saurnefja K. [28] Snöttur C. Slotti H. Slötti I, Snittur K. [29] og Slángi H. [30] Hundís D. Hundi J. [31] Skundi K. [32] Hrolltanni HI. [33] Slængi D, Slettir G Slammi H. [34] Sjóðvís DE, Snauðvís HI. [35] Fángur, þrasi C. Ángurþjassi DHI. Ángar. þjasi K. Frá [ Randver. Rángur. þjassi og þrumur G. Á eptir þessu erindi stendur í A: Ora pro nobis = Bið þú fyrir oss. [36] Frausk CF. Fruska DGIK. Frusla H. [37] Taska CGK. [38] Holukjapta G. Holskruppa HI. Holustrippa J. Holskreppa K. [39] Ferlimbra DH. Flumbra IJ. [40] Flákjapta CFR. Fláskjapta D. Fláhvopta G. Fleiginkjapta H. Flýa. Kjapta I. [41] Eldgríður GHJK. [42] Opingjá K [43] Ísperta C. Ísprotta G, Bispert K. [44] Smortur BEG. Annar Snortur CF. Snortur D. Smorti HI. Surtur J. Svartur K. [45] Skúlki G. Súlk og H. [46] Slanni H, Sláni I, Gulli K. [47] Höttur og G. [48] Brúki HI. [49] Bjálfi DEFGHK. [50] Beinskafinn BDEHI. Beinskafl J.

Baraxli[1] og[2] Ljótur.
Hrúngnir,[3] Haltángi,[4]
Hrauðnir,[5] Vagnhöfði.
Stórverkr,[6] og Stálhaus,
(Stritsamr[7] [og Völsi.[8]

8. ([Grani,[9] Skolli[10] og Gríður,[11]
[Gerðr[12] og Fiskreki,[13]
[Kampa[14] og Kolrosti,[15]
[Kjaptlángr[16] og[17] Flángi[18]
Dumbr[19] í dag springi,
og drepi hvert annað.
[Illur sé endi[20]
áðr[21] þér deyið.

9. [Þúngar hefir þú mér
þrautir[22] feingið,
leiðr loddari,
lymskur í orðum.[23]
Þú munt sjálfur
Svelnir heita;
hefir móðir[24] þín[25]
mig um það fræddan.[26]

10. Hrærist[27] heimar,[28]
hristist steinar,[29]
vötn við[30] leysist,[31]
villist dísir;
öll ódæmi
æri þursa,
helveg troði
heimskar tröllkonur.[32]

Hrs. Á. M. 343a, 4to, 38. bl. = *A*. 577, 4to, 21. bl = *B*. Skinnbækur frá 15. öld. Afskript af 343 í Á. M. 948 k, 4to, bls. 45—60, en hún nær ekki svo lángt, að þulan sé þar. Á. M. 182, fol., skrifað af séra Jóni Erlendssyni = *C*, og stendur þar milli 1. og 2. er.: »Svo verður að skrifa sem aðrir hafa fyrir skrifað, þótt brauk mikið sé, og þarf ekki þessi leiðu nöfn tröllanna að lesa fyrir gárúngum«. Hrs. Á. M. 599, 4to, 17.—18. bl. = *D*. Skinnbók frá hér um bil 1600. Hrs. Á. M. 548, 4to, 17. bl. Skinnbók frá miðri 16. öld = *E*. Hrs. Á. M. 527, 4to, bls. 117—18 með hendi Jóns Gissurarsonar = *F*. Að mestu samhljóða 182, fol., og hefir sömu klausuna milli 1. og 2. er. Hrs. Rasks 28, 108—9 bl., frá fyrra hluta þessarar aldar = *G*. Hrs. Rasks. 32, 55.—56. bl., frá sama tíma = *H*. Hrs. Bmfj. 139, 8vo, skrifað 1824 = *I*. Hrs. Bmfj. 148, 4to = *J*. Mjög afbökuð útgáfa, og er því ekki tekinn nema helzti orðamunur. Hrs. Bmfj. 228, 4to = *K*.

Prentað í ritgjörð dr. O. Jiriczek's »Zur mittelisländischen Volkskunde« í Zeitschrift f. deutsche Philologie XXVI, 1893, bls. 6—8 (eptir 343 og 577). Tvö fyrstu erindin prentuð í Sunnanfara II, 1893, bls. 36. Sbr. ennfremur Pál Vídalín, Skýringar yfir fornyrði lögbókar 1854, bls. 512.

[1] Barðaxli BE, Barðagli D, Bráðaxi HI, sl. K. [2] annar CF. [3] Hrúngvir D, Hrúgnir GH, Hríngur I. [4] Hálftángi G, Heltángi J. [5] Hraðnir C, Hrandvir H, Hröðvir IK, Hrogni J. [6] Stórvirkur CFIK, Stórverpur G. [7] Stritramur DEHIK, Stritrammur CF, Strithamur J. [8] og Slammi C, Volsi EH, Volsgrani I, Krani K. Frá ( vantar í G. [9] Hinn granni H. [10] Gramskolli BDE. [11] Góður DE, Girðir H. Frá ( Skalli, Girðir I, Girðir og Skolli K. [12] Garðar I. [13] Fiskreki og Flentur K. [14] Kamba D, Klumba H, Kampi IJ. Frá ( Fráni, Skalli, Bambi G. [15] Kolfrosti CDEFG, Kolfrosta H. Frá [ Gríður, Gerður, Gumpa og Frosta K. [16] Kjaptalángr I. [17] [og Kjaptalángur H. [18] Slángi B. [19] Drumbur HI. [20] endadagur J. [21] Ill verða undur G. [22] sl. D. [23] Frá [ sl. G. [24] mögur C, mellan K. [25] þinn C. [26] Frá [ vantar í D. [27] Hræðist J. [28] hamrar D, himnar J. [29] geimar JK. [30] út DEGIK, víð DF. [31] strjálist K. [32] Er. vantar í G.

þulan eða kvæðið er í sögunni af Vilhjálmi sjóð, og stendur svo á henni sem nú skal greina:

Vilhjálmur hafði sett höfuð sitt undir tafl við risa einn og tapað taflinu. Hann átti nú að koma til hellis risans innan þriggja vetra og nefna með nafni öll tröll, sem byggju þar, en láta lífið að öðrum kosti. Ekki vissi hann hvert hann átti að leita risans. Loksins hitti hann þó konu eina, sem vísar honum veg til hellisins, en hann var í landinu Eirs. Konan leggur líka á ráð, hvernig hann eigi að komast eptir nöfnunum. Hún sagði, að sjöunda dag jóla mundi tröllkona koma að brunni einum, sem hún tók til, til að þvo föt. Hún mundi hafa með sér barn í vöggu. Vilhjálmur átti nú að laumast að barninu, svo skessan vissi ekki, og koma upp í það gulli, og mæla svo fyrir um leið, að barnið gæti ekki lint gráti fyr en móðir þess hefði nefnt öll tröll, sem bjuggu í hellinum, en þau væru níu tigir að tölu. Meðan flagðið taldi nöfnin átti Vilhjálmur að hafast við í gryfju og taka sem bezt eptir nöfnunum, svo hann gæti numið þau. Þegar tröllbarnið biður skessuna að segja sér nöfnin, grunar hana að ekki sé alt með feldu og segir: »Ei er þér nú sjálfrátt veslíngur, en ei má eg sjá á harmkvæli þín eður heyra þessi hin illu læti, en þá læt eg það um mælt, ef sá er nokkur fyrir ofan jörð, að til vildi heyra, að dralni af honum hold og skinn, og bráðni svo í sundur sem tjara í eldi og missi bæði vit og sinnu, mál og minni«. En það kom henni ekki til hugar, að sá mundi niður í jörðunni, sem heyra vildi. Því tók hún til og nefndi tröll öll og varð tvisvar eður þrisvar að nefna, áður það þóttist skilja, en Vilhjálmur reist eptir á kefli«.[1] Þegar Vilhjálmur hafði numið þuluna, fór hann til hellisins og hafði hana yfir uppá hellisglugganum; brá svo við það, að tröllin réðu hvort á annað og drápu hvort annað, en jafnframt gjörðist landskjálfti mikill og umhverfðist alt tröllalandið, svo þau drápust af grjótflugi, sem ekki höfðu unnið hvort á öðru; kemur sú trú víða fram í íslenzkum fræðum þjóðlegum, bæði fornum og nýjum, að tröll og aðrir óvættir megi ekki heyra nafn sitt, því þá drepist þau, eða missi að minsta kosti vald sitt yfir mönnum.

[1] 577. 21. bl.

## Grýlukvæði og því um líkt.

Grýla hét norn ein gömul. Hún var tvígift. Bóndi hennar hét Boli. Þau bjuggu á Arinhellu. Þau áttu mörg börn, eins og segir í Grýlukvæðum. Þau voru bæði hroðalegar mannætur, en þó þótti þeim barnaket ljúffengast, eins og drepið er á í vísunni:

Boli og Grýla bæði hjón,
börn er sagt þau finni,
þau er hafa sætan són
til sorgar mömmu sinni.

Ávalt þókti meira koma til Grýlu en Bola. Hann andaðist fjörgamall af ellilasleika, en hafði áður legið í kör. Eptir lát Bola giptist Grýla aptur og átti gamlan mann, sem Leppalúði hét.[1] Þau áttu 20 börn. Seinast áttu þau tvíbura, Sighvat og Surtlu. Þau dóu í vöggu. Grýla var liðlega fimtug þegar hún átti þau. Hún lifði báða bændur sína og varð leingi að amla fyrir þeim karlægum, enda er sagt að henni hafi verið óleitt að betla. »Sagt er í fornum fræðum að lið Grýlu hafi verið 32000 í einum hala, en karlslið »c þúsund 20 þúsund 6 þúsundir, 527 menn«. (Hrs. Bmfj. 169, 8vo). Karl þessi er ef til vill bóndi Grýlu.

### Grýlukvæði.

Eptir séra Guðmund Erlendsson á Felli í Sléttuhlíð († 1670).

I.

1. Hér er komin Grýla
og[2] [gægist um[3] hól.
Hún mun vilja hvíla
sig hér um öll jól.

2. (Hún mun vilja hvíla sig,
því [hér eru[4] börn;[5]
hún er grá um hálsinn[6]
og blakkar eins og örn.

---

[1] Grýla átti líka mann, sem Gustur hét. Sbr. 20.—21. erindi í Grýlukvæðinu eptir séra Jón Guðmundsson. [2] á CDcDdFb, úr EGI. [3] Gægis- CDcDd EFFbGI. [4] hana vantar BCDcDdEI. [5] Frá ( vantar í F. [6] hausinn F.

3. Hún er grá um hálsinn[1]
og hleypur ofan í fjós.
Hún vill ekki horfa' í
það hátíða ljós.

4. Hún vill ekki heyra[2]
þann[3] hátíðasaung;
kvartar hún um ketleysi
og kveðst vera svaung.

5. Kvartar hún um ketleysi
og kjökrar við þá:
[bað hún mig um[4] barnið mitt[5]
í belginn sinn[6] grá.

6. Bað hún mig um [barnið eitt,[7]
sem brekin hefði nóg,
sem ýlunum og ærslunum
ekki koma í lóg.

7. Sem ýlur hefðu og ærslin
og æpi svo þrátt,[8]
sýngi ei sín fræði
sífelt[9] og hátt.[10]

8. Er sýngi ei sín fræði
sífelt og vel.
Bíta kvaðst hún börnin
og blæða láta í skel.

9. [Bíta kvaðst hún börnin,[11]
[bað hún mig um eitt.[12]
[Svo gegndi eg henni Grýlu,
eg gæti það ei veitt.[13]

10. Svo gegndi' eg henni Grýlu:
»Góð börn á eg;
[ekki hafa þau ærslin,
né ýlurnar[14] mjeg.

11. Ekki hafa þau ærslin.[15]
og ekkert þeirra hrín;[16]
kostulega kunna[17] þau
kvöldfræðin sín.[18]

12. Kostulega kunna þau
[kyrlæti og spekt«.[19]
[Reiddist hún Grýla
sem rumsvínið[20] frekt.[21]

13. Reiddist hún Grýla
og rumdi við hás:
»Hér ætla eg að hvíla
í heitum moðbás.

14. Hér ætla eg [að hvíla,[22]
[23]að hlusta[24] til þess,
hvort ekki hrín hún Herdís
né hin dóttir[25] prests«.[26]

15. »Ekki hrín hún Herdís,
hátt sagði eg þá.
Vel sýngur hún Valgerður,[27]
víktu þér frá.

16. Vel sýngur hún Valgerður[28]
og víktu þér út«.
Beit hún mig í brjóstið,
batt eg þar um klút.

[1] hausinn F. [2] hlýða F. [3] þeim F. [4] Lánaðu mér, seldu mér BCDcEI. Gefðu mér DdF. [5] barnkorn BCDcDdEFGI. [6] minn BCDcDdEFGI. [7] barnkorn BCDcDdFbG. [8] hátt ADG. [9] siðugt G. [10] þrátt A, dátt DI. lágt G. [11] Ekki er hér aflögu AD. [12] úngbarnið neitt AD. bað eg hana um grið F. [13] Frá [ Eg gaf henni silúng og selbita við F. AD hafa báðar útgáfurnar af 9. er., þá sem tekin er upp í meginmálið á eptir 19. er. og fara þar á eptir erindi þau, sem hér eru 10.—17. í röðinni. [14] æpa þau ABCDDc. [15] ýlur ABDE. [16] hvín G. [17] kyrja CDc. [18] Hér endar CDc. [19] **Frá** [ kyrlát og sett DdEG. [20] runsvínið ADd. runusvínið E. [21] grett BDdEGI. **Frá** [ sýngja hvern dag fræðin og signa sig rétt. sbr. 89. er. [22] á Höfða(num EIG. [23] Híngað vantar í Fb frá 1. línu í öðru er. að undanskildu 6.—9. er. [24] hugsa Fb. [25] móðir ABDEFbG. [26] Hér hættir Fb. [27] **Valka** D. [28] Valka mín A.

17. Beit hún mig í brjóstið,
bað eg hana um grið.
Eg gaf henni silúng[1]
og selbita[2] við.

18. Eg gaf henni silúng
og síldrekasporð,
tölti hún suðr[3] að Tjörnum
og talaði ekki orð.

19. Tölti hún suðr að Tjörnum
og talaði við hann Stein:
[»Eru hér ekki afgángs[4]
úngbörnin nein?«[5]

20. »Ekki hefi eg þau aflögu«,
anzar hann Steinn.
[»Sýngja þau hér öll[6]
sálminn sinn einn.

21. Sitja þær[7] og sauma[8]
[og sýngja versin[9] vönd.
[Far þú út[10] að Felli
og findu' hann séra Gvönd.

22. Far þú út að Felli
og findu hann um leið«.
Þá varð hún Grýla
svo grimmlega reið.

23. Þá varð hún Grýla
svo grimmlega ær,
hún beit hann Stein [í brjóstið[11]
og blóðgaði nær.

24. Hún beit hann Stein í brjóstið,
bað hann þá um grið.
Hann gaf henni fisk einn
og flotbita við.[12]

25. Hann gaf henni fisk einn
og fæddi auman gest,
[komst hún út á[13] kórbak
og kallaði' á prest.

26. [Kastaði hún[14] á[15] kórbaki
[16]kjánkyrðum[17] þeim:
»Seldu mér hana Sólveigu,
eg sæki þig heim.[18]

27. (Seldu mér [hana Sólveigu,[19]
svaung er eg nú,[20]
(ekki hefi' eg ástæðu[21]
nema einspena kú.

28. (Ekki hefi eg ástæðu[22]
nema einspena geit,
skert er mitt skökuhorn
sem Skeggi minn veit.[23]

29. Skert er mitt skökuhorn
og skeinktu mér barn.
Þú átt að vera
svo gustukagjarn.

30. Þú átt að gjöra[24]
það gustukaverk.
Varla er þér vorkennandi,
vel metnum[25] klerk.

---

[1] fisk einn ABDEI. [2] flotbita ABDEI. [3] út í öllum hndr., en það mun vera rángt. [4] aflögu ADEG. [5] Seldu mér barnkorn, eg sæki þig heim DdI. [6] þær sýngja allar DdEGI. [7] tvær [8] sýngja Dd. [9] sálmversin DdI. [10] Flýttu þér G. [11] á barkann E. [12] 18.—24. er. vantar í B. 20.—24. er. vantar í AD. [13] kastaði hún því á B. [14] Komst hún út að AD. [15] að I. [16] með AD. [17] kánkyrðum ABDdEGI. kránkyrðum D. [18] 6.—26. er. vantar í F. [19] barnkorn EDdEI. [20] Frá ( vantar í F. [21] ástaði BDdG. Frá ( eg hefi ekki á búi F. [22] Eg hefi ekki á búi F. [23] Hér endar F. [24] vinna BDdI. [25] vitrum ACdG, metnum B, lærðum EI

31. Varla er þér vorkennandi,
veit eg þú átt
keipótta dóttur,[1]
hún kveinar svo hátt.[2]

32. Keipótta dóttur,
þá komstu hér með;
sá eg hana í Sandvík[3]
með sviplundað geð«.

33. »Sástu hana í Sandvík?«
svaraði eg þá.
»Við súngum þar bæði[4]
sálmversin smá.[5]

34. Súngum við í Sandvík.[6]
[sálma[7] fögur[8] vess.
Þú hefir heyrt í Hólana
hljóðin til þess«.

35. »Þú [hefir heyrt í Hólana;[9]
höltraðu[10] á stað.
[Skundaðu[11] yfir að Skálá.
Eg skipa þér það.[12]

36. Skundaðu[11] yfir að Skálá,
skrímslið forblakt.[13]
Ekki færðu úngbörnin,
af er þér sagt.[14]

37. Ekki færðu úngbörnin
af mér um sinn«.
Grenjaði[15] hún Grýla,
sem gauðrifið[16] skinn.[17]

38. Grenjaði[18] hún Grýla,
[greip þá í[19] prest.
Hann var kominn í hökulinn,
það hjálpaði bezt.[20]

39. Hræddist hún [þá hökulinn[21]
og[22] hátíðasaung;
skeinkti hann henni hann Skeggja
[hún skauzt[23] inn í gaung.[24]

40. Skeinkti hann henni hann Skeggja
[og skauzt[25] hún þá á stað,[26]
([yfir um til hans Egils,[27]
vér athuguðum það.

41. Yfir um til hans Egils.
[Úti þar hann stóð,[28]
dregið hafði hún dreinginn
og drukkið hans blóð.

42. Dregið hafði hún dreinginn
í dökkum bjargserk;[29]
óttaðist hann Egill
þau ódáðaverk.

43. Óttaðist hann Egill
augun helblá,[30]
hafði hún þau í hnakkanum,
horfði eg þar á.

44. Hafði hún í hnakkanum
horn[31] eins og geit;
eyrun lágu á öxlunum,
Egill það veit.

---

[1] móður ABDE. [2] þrátt A. [3] Saltvík Dd (rángt). [4] bænir og BEG. [5] Er. vantar í DdI. [6] þar bænir BEG. þar bæði AD. [7] s. og AD. [8] [og sólfögur BDd. [9] átt hús í hólunum BDdEGI. [10] haltraðu G. [11] skröltu E. [12] Frá [ Ekki færðu úngbörnin, af er um það DdI. [13] kolblakt E. [14] EG. Vantar í hin handr. [15] Reiddist E. [16] gagnrifað DdG. gatrifað EGI. [17] 35.–37. er. vantar í AD. [18] Reiddist AE. Hræddist D. [19] hún hrópaði á D. [20] mest A. [21] Grýla AD. [22] þann AD. [23] þau skruppu E. [24] Hér endar A. [25] skrölti E. [26] Frá [ skerjan var þá óð D. [27] alt yfir að Skálá E. [28] Frá ( vantar í D [29] hársekk Dd. hærusekk E. bjórserk G, bjórsekk I. [30] kolgrá E. [31] hæru E.

45. Eyrun lágu á öxlunum,
[áföst við nef.[1]
Svo var hár um hökuna
sem hnýtt garn á vef.

46. Svo var hár um hökuna
og hángdi við bót;[2]
eins voru tennur
og ofnbrunnið[3] grjót.

47. Eins voru tennur
í óhreinum kjapt.
Óttaðist hann Egill
hennar járnskapt.[4]

48. Hræddur varð hann Egill
og hljóp inn í dyr;
aldrei veik sér undan
af óttanum fyr.

49. Aldrei veik sér undan
ódýri því.
Bað hún hann um barnkorn
að beina sér í.

50. Bað hún hann um barnkorn
að beina sér í sekk.
»Sjáðu«, sagði' hann Egill,
»þau sitja innar í bekk«.

51. »Sjáðu«, sagði' hann Egill,
»þau sitja við ull;
lítt eru þau í látunum
leiðindafull.

52. Lítt eru þau í látunum,
leggja þau ei af«.
Reiddi þá hún Grýla
sinn rauðbrota staf.[5]

53. [Reiddi þá hún[6] Grýla
sína rauðbrota[7]staung,[8]
höggið kom í Hnúkinn,
því hún var svo laung.

54. Höggið kom í Hnúkinn,
hrökk þar úr skarð,
átján[9] stóru steinarnir
stukku ofan[10] í[11] garð.

55. [12]Átján[13] stóru steinarnir
stukku ofan[14] í tún,
en þau fóru að yrðast
hann Egill og hún.

56. En þau fóru' að yrðast.
upp reif[15] hún gin;[16]
gaf sig fram að gleypa
þann góðlynda[17] vin.

57. Gaf sig til að gleypa
þann góðlynda[18] mann;
feitan átti hann færleikinn.
fékk hann henni hann.

58. [Þennan feita[19] færleikinn
[feldi hún og skar,[20]
[og svo alla átuna
á öxlunum bar.[21]

59. [Og með alla átuna
æddi hún á burt,[22]
[yfir um stökk[23] hún ána
[og upp á[24] þurt.

[1] upp reif hún gin D. [2] fót E. [3] ónbrunnið DdEI. [4] 37.—47. er. vantar í B. [5] 48.—52. er. eptir E, vantar í hin hndr. [6] Þá tók hún B. [7] rauðbleikuB. [8] Frá [ Óttaðist hann Egill hennar járnstaung DdI. [9] átta EG. [10] heim G. [11] undir BE. [12] Hér byrja Db og H. [13] Átta BE. [14] heim BDEG. [15] þandi DII. [16] Seinna hlutann af 45. 46.—55. er. og fyrra hlutann af 56. er. vantar í D. [17] góðvilda E, hóglynda H. [18] góðvilda BE. [19] Feitan átti hann D. [20] fór hún svo á braut D og svo kemur þar seinni hlutinn á 61. er.. en það sem er á milli úr D er annarsstaðar. Sjá 67. er. [21] Vantar í D. [22] Frá [ vantar í D. [23] strauk BDbEGH. [24] Frá [ ófæra að sjá D.

60. Yfir um stökk[1] hún ána,
ófæra þó.
[Hennar kaldi hláturinn[2]
[heyrðist út á[3] sjó.

61. [Hennar kaldi hláturinn
heyrðist út[4] á braut[5].
Barði' hún þá á Bræðrá[6]
sem beljandi naut.

62. Barði' hún þar á Bræðrá[6]
svo börnin urðu hrædd;
hún var þá af hlaupunum
svo hræðilega[7] mædd.

63. Hún var þá af hlaupunum
svo hræðilega þyrst.
Bað hún þá hann Nikulás
að beina sér vist.

64. Bað hún þá hann Nikulás
um börnin hans þrjú.[8]
(Öllum hennar ókvæði[9]
ógnuðu nú.

65. Öllum hennar ókvæðum[10]
[afhenti' hann svar:[11]
[»Lærðu[12] bæn í baðstofu
af[13] börnunum þar«.[14]

66. »Einga bæn í baðstofu
buldra[15] eg né sýng.
Hlýt eg fyrst að hugsa um
þau Höfðhóla þíng.

67. Hlýt eg fyrst að hugsa' um það[16]
[hverju mér er beint.[17]
Betra þykir mér barnaket
blóðugt en hreint«.[18]

68. Bið þú ei um[19] barnaket
á bænum hjá mér.
Farðu«, segir hann Nikulás,
»því framorðið er.[20]

69. Farðu«, segir hann Nikulás,
»til fjandans á burt«.
Hrein hún þá svo hvalirnir
hlupu[21] upp á þurt.

70. Hrein hún þá svo hvalirnir
hræddust[22] þann róm;
blóðgaði' hún þá hann Nikulás
með biksvörtum[23] góm.[24]

71. [Blóðgaði hún[25] hann Nikulás
og[26] börnin hans fimm[27]
af því hún var orðin
svo ódáða grimm.

72. (Af því hún var orðin
svo uppfylt með dramb.[28]
Hann gaf henni hrútskrof
og hálfvættar lamb.[29]

73. Hann gaf henni hrútsmör
svo hún yrði fylt.[30]
Reikaði hún til Róðhóls[31]
með ráðlagið spilt.[32]

---

[1] strauk BDbEGH. [2] hrein hún svo að hvalirnir D. [3] Frá [ hrukku upp úr D. [4] ofan BEG. [5] Frá [ vantar í D. [6] Bræðraási DbI. Bræðrás H. (Hvorttveggja rángt). [7] hraklega BD, hraklegana H. [8] fimm BDbH. [9] uppkvæði DDdEG. [10] uppkvæðum DEGI. [11] Frá [ af vent svo var G. anzaði hann þurt I. [12] Sýngdu E. [13] hjá E. [14] Frá [ Ekki færðu úngbörnin. af er það spurt I. [15] busla I. [16] sl. D. [17] Frá [ hagina þá D. [18] 66. og 67. er vantar í I. [19] [Ekki færðu E. [20] 65.—68. er. vantar i Dd. [21] hrukku DdE. [22] heyrðu E. [23] blóðugum Df. [24] klóm DdEG. [25] [Bað hún þá E. [26] um E. [27] Í BDbH vantar híngað frá ( í 64. er. [28] svo ódáða ær E. Frá ( Upp var hún blásin með ógæfudramb BDbDdHI. [29] lær E. [30] firt DbH. [31] Roðólfs Db. Rólólfs H. Raðhóls I. (Alt rángt). [32] stirt DbH, trylt E, stilt G.

74. Reikaði hún til Róðhóls[1]
rétt heim á hlað.
Foxið það[2] hann Eirík
[finna sig[3] bað.

75. Foxið bað hann Eirík
að fylgja sér heim.
[Ekki eru nú[4] búin[5]
[brögðin öll með þeim.[6]

76. Ekki' eru nú búin
brögðin þeirra öll;
hann gekk á stað [með gaglinu
Gægis[7] [að höll.[8]

77. Hann gekk á stað [með gaglinu,[9]
gaf hann henni mjöð;
virtist honum hún verða þá
svo viðbrigða glöð.

78. Virtist honum hún verða þá
svo viðbrigða kát,
bauð hún honum í hólinn,
að borða með sér át.

79. Bauð hún honum í hólinn,
bar hún hann svo inn.
Ekki var þá orðmargur
Eiríkur minn.

80. Ekki var þá orðmargur,
út vill hann gá.
Hún vill ei [slyng í slægðunum[10]
sleppa honum' þá.

81. Hún vill ei [slyng í slægðunum,[10]
sleppa honum út,
nema' hann vilji beina'[11] henni
brennivínskút.

82. Nema' hann vilji beina' henni
bjórtunnu með.
Þessu lofar[12] Eiríkur
þvert um sitt geð.

83. Þessu lofar[12] Eiríkur.
þá varð hún hýr,
en hún lagðist afvelta
[alt eins[13] og kýr.

84. En hún lagðist afvelta
af því hún drakk.
Hafði sig þá Eiríkur
hvatlega' á flakk.

85. Hafði sig þá Eiríkur
hvatlega' á fót,
byrgði[14] hann aptur hólinn
og bar fyrir grjót.

86. Byrgði[14] hann aptur hólinn
og bar fyrir við.
[Reykur[15] varð[16] í hólnum,
hún rumdi[17] sinn kvið.

87. [Reykur[15] varð[16] í hólnum,
hún rumdi'[18] ekki smátt.
(Bezt er fyrir börnin
að breka' ekki hátt.

---

[1] Róðólfs Db. Rólólfs H. Ráðhóls I. (Alt rángt). [2] þekti DbH. [3] [fylgja sér Dd. [4] [Hann gekk af stað með DdI. [5] gaglinu Dd, Grýlunni I. [6] [Gægis að beim DdI. [7] og gægist DbH. [8] [á völl E. Er. vantar í Dd. [9] Grýlunni I. Frá [ gagnlinur H. Seinna hlutann á 67. er., 68.—76. er. og fyrstu línuna á 77. er. vantar í D. en í staðinn hefir þessi útgáfa seinni hlutann á 59. og 60. er. og: Hrein hún svo að hvalirnir | hrukku heim á tún. | en þau tóku' að yrðast | hann Eiríkur og hún. En þau tóku að yrðast. [10] slæg í slýngjunum DbH. [11] bríngja EG, bergja H. [12] játar BDdEGI. [13] ámóta E. [14] batt Dd. [15] Rykið DbDdEGHI. [16] [Rjúka tók B. [17] ruddi BDbDdEGHI. [18] rumskaðist G.

88. Bezt er fyrir börnin
að byrgja sín hljóð.
[Varist þau að vekja' hana,[1]
[hún verður þá óð.[2]

89. Varist þau að vekja' hana
og veri heldur sett,
sýngi [hvern dag[3] fræðin
[og signi sig[4] rétt.

90. Sýngi hvern dag fræðin: —
og svo endum vér
diktinn hennar Grýlu,
sem dragmæltur er.

Handrit frá Jóni Árnasyni, líklega eptir hrs. hans A, XII, 8vo, bls. 689 o. s. frv. Tvær afskriptir í hrs. J. Sig. 398, 4to. Handriti þessu er fylgt að mestu, en vikið þó frá því á einstaka stað. Hrs. Á. M. 147, 8vo, bls. 118—121, skrifað af séra Gizuri Sveinssyni 1665 = *A*. Brot. Afskript Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 65. Tvö fyrstu erindin í sama hndr. með hendi Sveins sjálfs. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch E² = *B*. Á öðrum stað í 67 með hendi Sveins sjálfs = *C*. Útgáfu þessa hafði Pétur Guðjónsson sent A. P. Berggreen. Prentuð í Danske Folkesange 1869, bls. 349. Hrs. J. Sig. 282, 8vo. Fimm útgáfur alls = *D*, *Db*, *Dc*, *Dd*, *E*. Afskript af þeim öllum í hrs. Sv. Grv. 118, með hendi Pálma skólakennara Pálssonar. *Dc* er að mestu samhljóða *C*. *E* er afskript af hrs. Á. M. 960, 4to, en sú útgáfa er með hendi séra Daníels Halldórssonar á Hólmum, eptir Guðrúnu Jónsdóttur vinnukonu á Syðra-Krossanesi 1847. Tvö lítil brot í hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum = *F*, *Fb*. Hrs. Bmfj. 109, 8vo, skrifað af Gunnlaugi sýslumanni Blöndal 1859 = *G*. Hrs. Bmfj. 327, 8vo = *H*. Seinni hlutinn aptan við Grýlukvæði séra Stefáns Ólafssonar. Sama á sér stað með *Db*. Hrs. Á. M. 277, 8vo, 90.—95. bls. = *I*. Hrs. Finns Magnússonar í Brit. Mus. 174, 4to. Ekki notað. 1. er. hrs. Sv. Gv. 67. 2 fyrstu línurnar í Orðabók Jóns Ólafssonar (gægist).

II.

(51). Ekki var þá orðmargur
Eiríkur þar,
sofna gjörði Grýla,
gaf honum ekki svar.

(52). Sofna gjörði Grýla,
gekk hann burt frá snót,
byrgði' hann aptur hólinn
og bar fyrir grjót.

(53). Byrgði' hann aptur hólinn,
og burt gekk sína leið.
Vaknar Grýla af svefni
og var þá hrygg og reið.

*D*, og er kvæðið þar alls 61 err. þessar þrjár vísur, sem færðar eru til, svara til 80.—90. er. í aðalútgáfunni.

Viðauki.

1. Vaknar Grýla' af svefni
og vildi þá af stað,
: ei er hægt að útmála
ástandið það. :

2. Ei er hægt að útmála
það ástand og sút,
: knýr hún á dyrnar
og kemst ekki út. :

[1] Frá [ Ef hún verður vakin H. [2] Frá [ veri heldur góð. Db sleppir hingað frá ( í 87. er. [3] [hvert á B. [4] [sífelt og B.

3. Knýr hún á dyrnar
og kvartaði [um það[1] mest,
: að hún hefði innleitt
þann óhappagest.[2] |:

4. Að hún hefði innleitt
þann óþokkapilt,
: af hans komu þángað,
hún hlyti svo ilt. |:

5. Af hans komu þángað
hún hafa kvaðst það stríð,
: að sitja inni í hólnum
um sína lífstíð. |:

6. Að sitja inni í hólnum
og sjá aldrei börn;
:| hún ygldi sig og æpti,
því eingin fanst vörn. |:

7. Hún ygldi sig og æpti
og enti sína tíð.
:| Úti er hennar æfi,
sem ekki var blíð. |:

8. Úti er hennar æfi,
þó einginn gréti fljóð;
:| en minníngin varir
og merkileg ljóð. |:

Handrit frá Jóni Árnasyni. *D.*

## Grýlukvæði.

Eptir séra Bjarna Gizurarson á Þíngmúla (1648—1712).

Hlustið þið til hýr börn,
hvað eg kann að tjá:
Trölla móðir tólfræð
trýtir nú hjá;
sitjið þið siðlát,
segi eg ykkur frá,
þríhöfðuð þjófs dóttir
þessi' er að sjá,
faxmikil flagðkonan
flugþykk og há,
augun líkt sem eldshnettir.
eyrun sem gjá,
kinnarnar sem kýrvömb
kolsvört og grá,
kann eg ekki að kynna ykkur
kjaptinum frá;
geingur fram úr grönunum
gufan helblá,
túngan er sem teigs vídd
og tekur bríngu á,
hefir keing á herðum sér,
hærra þó en Múlann ber,
breiðskeggjuð,
biteggjuð,
beisklunduð,
flá,
varaflegin flórsokka
flekkótt og grá,
klettaþöllin krumfeingin,
kroppar í skjá,
kartnögluð, kviðmikil,
keingbogin lá,
hefir maga hrísvaxinn,
harðan sem gljá.
Hrosstaglið hristir um kríka;
hún segist fullorðin píka,
tvítóluð læst hún
á leikvöllinn víkja
hrossteglan,
hræskeglan,
hvað vill hún þá?
Börnin vill hún bíta
og berja þau í strá;
skollamóðir skakkmynt

---

[1] D. [2] óþarfagest D.

skreppu heldur á;
út um sveitir æðir,
því öllu vill hún ná.
Á Sandfellum situr hún
og sauði rekur heim í tún,
hræðist Egill hennar brún
og hvergi þorir að bíða,
hún kann að ríða
í haglvindinn stríða,
fælist ekki fjúk nein
né fannbylinn hríða.
Í Eyrarteigi elti Jón
inn í miðjan baðstofu ón,
gjörði honum geysitjón
og gleypti hrossið rauða,
hryggbraut hún hestinn,
en hræddi þar gestinn
til dauða.
Ei vill hún við Ása hrjá,
einatt víkur honum frá,
hann fælir hana
með hundanna gá.
Stefnir hún á Steinmóð
með Starkaðar hljóð,
eltir hann að Ormatjörn
með eldsskíða glóð;
bjargar honum bæn heit
og blessunin góð,
hann keppist við að komast heim
á kirkjunnar lóð.
Til Hallbjarnarstaða
hratt tók að vaða,
hún elti Hall þar
með hörðum járnspaða;
flýr hann þá og forðar sér
með fótgaungu hraða,
lukkan studdi laufagrér
og lét hann ekki skaða;
heim strauk þá hyrjan á völlinn,
hló svo að tóku eptir fjöllin.
Siggu-Kela sá hún þar
og síðan af honum höfuðið skar,
honum fékk ekki hjálpað par,
því hún er næsta glettin,
svo gánga sögurnar
og sannborin fréttin.
Skjöktir hún á hjarninu hála,
heima var hann Stígur í skála,
hans tók hún hrútinn
og hafði með sér bútinn,
seint mun hún leysa af honum
sorganna hnútinn.
Helzt vill hún hestinum ríða,
hefndunum sætir ekki lýða,
kom hún heim til Borgar
með kampana síða,
maldaði á gluggann
um miðnættis skuggann,
bað þar um bruðníngs uggann;
hún drap þar hundana alla,
hefir sig síðan til fjalla;
hálsamótin hástiguð
hægt kann að lalla.
Ólaf hitti í öðrum sokk
austan undir fjalli;
hann vill geyma hesta flokk
með háreystu kalli;
hamar tók og hníf sinn
og hljóp svo af palli,
hamraþöllin hælagleið
hleypti þá á gönuskeið,
blánefjan blóðreið
í bölvunar galli,
hleypti niður Hátúnafjalli.
Öll dóu hrossin undir Heljarhlíð,
hún var ekki það sinn á brúnina frið,
girnist þó í Geirdal að nátta,
gjöra vill þar skinnrauðar átta,
kyrkti þar kúna,
en kom ei að hátta.
Graðúnginn í fjósinu feldi,
fleigði svo í heykumlið eldi,
barði um skálann

með breiðu hrútspeldi.
Fann hún Teit í fjóskrá,
feykilega hló þá,
honum í sinn belg brá
og brokkaði þar frá
um kvöldið;
hún ætlar hartnær að skina;
hve nær skal hún ferðunum lina?
Munda syni mætti
í miðjum heyslætti,
hann átti hross brún
og helzt þeirra gætti;
hún elti, en hann strauk
af hæsta lífsmætti;
bænahúsið brendi hún hans
Mánga,
braut í sundur kistuna lánga,
hún skyldi hánga
á hörðum járntánga,
alla sína æfidaga
úrtöku lánga.
Ei vill hún hernaðinn hepta,
hamrana tekur nú að skepta;
fór hún út að Flögu
og fann þar sílþvögu,
fjárhundinn fleingdi
með fáheyrða sögu,
hún stal þaðan hráviðar drögu.
Á Mýrarnar mjög vill hún herja
mega þær bændurnir verja,
að húsabaki, hnjástór,
hræðilega þá fór
á búrstafninn berja.
Sýrutunnu sá hún þar,
saup hún það, sem í henni var,
soðgraut úr sextunna keri,
þrjár vættir þaðan bar
af þrífornu sméri.
Til Geirholtsstaða gekk hún
en geysilítið fékk hún,
heima var þar húsbóndinn ekki,
sýndi hún þar hrekki
og sanna þjófshvekki,
brauzt inn í bæinn
og bar þaðan hlekki,
nítján marka nautshúð
og nokkra mjölkekki,
fimtán vætta flothnúð
og fjóra mörsekki.
Glettan þessi galstygg
Gísla fann á Skerhrygg,
upp sló hún ilskunnar blaði,
út bað hann fylgja sér að Vaði,
rennur þó á reykinn
af römmu sauð[a]taði,
kennir brennu kola hún
og kemur þar að,
yptir Jóki augnabrún
og ætlar af stað.
Hún kallar: »Heimdallur,
heyrðu nú það«;
út á Sanda elti Jón
upp í fjall og suður í Lón,
hann geingur
berspreingur,
hástöfum kvað,
upp að vörpum alla skó
og íleppana trað;
loksins gat hún höndlað hann
við Hríshólmavað.
Henni leiðist húsgángssníkja
hún vill til barnanna víkja,
lá hún nótt á Leiðvallareyri,
lýsast munu tíðindin fleiri.
Bárðar son þar bar að
með brugðið járnkeyri.
Hún rauk þá á hreystimann
í hráblautum leiri,
móður varðist heldur hann,
hægra fótinn lesta vann,
blóðið út úr benjum rann
og blárauður dreyri;
bárust þau í bergshylinn víða,
beint mun þar strillunni svíða,

af henni sleit hann höfuðin tvö
og handleggina síða;
sveimar hún að landi,
ein lá hún á sandi,
upp leit þá augnasúr
í illu fótbandi.
Helgríður heitir
sá hryðjurnar veitir,
kjaptvíður kallinn,
í körinni streytir;
skinnstakk ber skessan á skála;
er hann af hellum blá,
fimm hundruð flagðbörnin
flakka þar í hjá,
ekkert lægra en álnanna sjö,
upp þó að hún á,
mikið er að metta
meinhyskið pretta,
hún sýður hvern dag
hrossakjöt til rétta;
læt eg ljóð detta,
læri fólk þetta.

Hrs. A. M. 148, 8vo (Vigursbók), 240.—42. bl. Afskript í hrs. J. Sig. 398, 4to.

## Grýluþula.

Eptir séra Brynjólf Halldórsson í Kirkjubæ († 1737).

1. Það er hjákátleg
hýbýla skikkan,
þar fólk alt þegir
sem fiskur í vatni,
eins og þeim væri
ekkert mál gefið,
eða þeim stæði
steinn í kverkum.

2. Skár lítur hitt út,
að skrafa spaklega
og stytta sér dægur
með stellegri skemtan,
sem gaman kann
og gleði auka,
en sé þó hneykslislaust
hverjum manni.

3. Lángt er skammdegi,
en skemtan mjög lítil;
það er nauðsynlegt
að nýta, hvað fást kann;
grunnsópað hefi' eg
gjörvallar hirzlur,
og fann þetta síðast,
sem fylgir hér eptir.

4. Það er máltæki
meir en alkunnugt:
fýsir opt eyrun
ílt að heyra,
en svo verður hverja
sögu að greina
sem í öndverðu
er hún tilgeingin.

5. Heyrið þér, börn mín,
sem hrinur og ærsli,
með hvimleiðum keipum,
hafið[1] á kvöldin,
kanske hér megi
koma í leikinn
einhver, sem getur
af ykkur dregið.

6. Veit eg þið hafið
heyrt fyrri getið
grálundaðrar
Grýlu kerlíngar,
því svo er hún nafnfræg
í sveitum þessum,
að vona eg flestir
við hana kannist.

[1] hafa. hndr.

7. Tveir hafa áður
æruverðir klerkar,[1]
hagorðir báðir,
í héraði þessu,
útmálað hennar
ófríða sköpun
og lýst henni svo
með lit og auðkenni.

8. Þarfleysu held eg
þar við að bæta
né ítreka það,
sem öllum er kunnugt,
verða mér líka
vís svör fundin,
að skamt mun eg feta
í fótspor þeirra.

9. Nú er hún orðin
níu' hundruð ára
gömul að aldri
og grá af hærum;
þó er hún matheil
og málhress líka,
furðu fótvökur,
full af trölldómi.

10. Eptir þá síð[u]stu
umför, hún gjörði
á Útmannasveit
endilángri,
labbaði hún yfir
Lagarfljót norður,
og reisti sér bústað
í Rángárhnúki.

11. Síðan hefir hún
setið að nægtum
og búið við faung þau,
sem bændur tigluðu;
nú er upp sóað
ölmusu þeirri,
lystir því kerlíng
að leita sér bjargar.

12. Það er almæli,
eptir sem heyrist,
að lítið um batni
lunderni hennar,
því gjörzt hefir hún
svo grimm við ellina,
að hún þyrmir nú
eingum vætta.

13. Rauk hún héðan
í reiðisvip miklum,
keifaði að Rángá
og kvaddi Orm þannig:
»Heill sértu nágranni;
nú er eg hér komin.
Hvar er beiníng mín?
Burt vil eg héðan«.

14. »Farðu til hunda,
herjans kerlíng,
ekki' er eg skyldur
að skaffa þér vistir;
mér er fullstéttað
með hana Gunnu,
þótt ekki aukist þar
ofan á meira«.

15. Rumdi í Grýlu,
hún reigðist við nokkuð:
»Þú ert ei, Ormur,
ofur gestrisinn;
ei varð mér fésöm
ferð á bæ þennan.
Sanna það skaltu
ef sjáumst í einrúmi«.

16. Drattaði hún út að
Dögunargerði,

---

[1] Séra Sefán Ólafsson (Kvæði I. 230—244) og séra Bjarni Gizurarson.

hitti Guðrúnu,
og heilsar þurlega:
»Þú ert nóg, kona mín,
af krökkum auðug,
fáðu mér eitthvað,
og flýttu þér að því«.

17. »Grýla mín«, sagði' hún,
gefðu mig kvitta,
eg er einmana
og úrræðalítil;
það er ei gustuk,
að gjöra mér ángur;
þarna er lambspeji,
eg læt þér hann eptir«.

18. »Það er raunsannast«,
þá sagði Grýla,
»ei mun gagn vera,
að ángra þig, skepnan;
eg má vel lúta,
að lambspeia þínum,
því stórlætið hefir mér
steypt aldregi«.

19. Veik hún burt þaðan
að Vífilsstöðum,
heilsar Finnboga,
og hóf ræðu þannig:
»Þú átt dætur tvær
dáfallegar,
legðu mér aðra,
mig lángar í ketið«.

20. »Ertu svo væntin«,
anzar Finnbogi,
»að eg gefi barn mitt
í greipar þínar?
Fyr skaltu, bifsuð,
barin til heljar;
hér er öxi mín.
Haf þig á burtu«.

21. »Hvað skal þetta?«,
Helgríður sagði.
»Finnbogi, þú ert
firna djarfur.
Gættu' að því, kall minn,
gegndu mér, segi' eg,
ekki hræðist eg
axarkjak þetta.

22. Fái' eg ei barn þitt,
þá færðu mér híngað
fjóra geldsauði
feita' og gamla«.
»Ettu þá«, kvað hann,
»eg er vel sáttur,
því völt eru jafnan
völubeinin«.

23. Heim kom hún Grýla
á Heykollsstaði.
»Sæll vertu«, kvað hún,
»Siggi minn góður.
Gefðu mér barnkorn
að bíta úr hnefa;
stuttur er tíminn,
eg stend hér ei[1] leingi«.

24. »Hvað segir hún,
hrakið að tarna?
Fái þér barn sitt
fjandinn sjálfur.
Ertu forblinduð
og óskammfeilin?
Maklegast væri
þú mistir húðina«.

25. »Heyrið þið Sigga;
hann er góðvikinn,
þig má eg prísa
og þínar viðtektir.
Einginn hefir mér
anzað fyr þannig;

[1] eg. hdr.

bíð þú við, kompán,
og bjóð svo fleirum«.

26. Hleypti hún brúnum
á hökustall miðjan,
og óð að Sigurði
með öskri fáheyrðu;
hann var skozkari
og skauzt inn í dyrnar,
lokaði bænum
og lofaði drottinn.

27. Öslaði hún þaðan
í illfeingu skapi,
trað svo jörðina,
að tók henni í kálfa;
stygglunduð kom hún
að Straumi um kvöldið;
var þá dimt orðið
um dagseturs leitið.

28. Bað hún um gistíng,
en bóndi neitaði,
og sagðist ei vilja
svoddan ónáðir.
»Eg hefi nóg
við öðru að snúast,
þótt ekki hýsi eg
óvætti slíka«.

29. Þá var kerlíngu
þjóstur í geði,
og sagði að von sú
væri að honum,
»en ekki hefðir þú
út við það farið,
þótt eina nótt hýst hefðir
aldraða skepnu.

30. Það var mál sannast,
eg þurfti aldregi,
að biðja þig húsa,
þótt bæri mig að þér;
hér mun eg gista
hvað sem þú segir,
og aðsjón gjöra
í eignum þínum.

31. Það er ei betra
þótt berist í hauga
af myglu kafloðnir
maurar þínir,
en þeirra njóti
einhver þurfandi;
skal eg því sjálf mér
skamta kvöldverðinn«.

32. Þá sagði Árni:
»Það má nú heyra,
að aptur fer mér
undra mikið,
að þú, skráman þín,
skalt mig[1] kúga,
og hafa með skyldu
hvað sem þig lystir.

33. Mætt hefi eg fyrri
mönnum göfugri,
og hluta mínum
haldið óskertum,
því skal mig aldrei
skömm sú henda,
að þú hundgömul
hrekir mig þannig«.

34. Tók hann í hönd sér
torfljá nýdeingdan,
og kvað[2] hún skyldi
koma ef þyrði,
en hún glotti við,
og greip um skammorfið;
fann þá Árni sér
aflfátt verða.

35. »Ei vil eg Grýla
við glímum hér leingur,

[1] mér, hdr. [2] sagði, hdr.

eg á nautkrakka
nokkuð þriflegan.
Eigðu hann, kerlíng«.
Þá anzaði Grýla:
»Svo fór nú betur,
og sæll vertu Árni«.

36. Út fór hún þaðan
að Steinsvaði,
kallaði' á gluggann,
en Grími varð bilt við:
»Hvar er Hólmfríður?
Heyrðu mig bóndi,
fær þú mér hana
í fángi þínu«.

37. »Grýla mín«, sagði
Grímur kjökrandi,
»Hólmfríður er mín
einkadóttir;
alt skal þér heimilt
í útlausn hennar,
þá er eg barnlaus,
ef bítur þú hana«.

38. »Það má svo vera
eg þyrmi Hólmfríði,
þér fer veslíngur
vel í andsvörum«.
Fékk hún hjá honum
fimm sauði gamla;
feginn varð Grímur.
Hún fór svo burt þaðan.

39. Áfram hélt Grýla
árla morguns
heim að Kirkjubæ.
Klerkur stóð úti.
Sæll vertu, prestur,
svaung er eg núna.
Þeir verða' að biðja,
sem þurftugir eru«.

40. »Hvað er þér kerlíng
helzt munntamast?
Það hefir leingi
leikið orð á þér,
að þú sért kynleg
og kostavönd nokkuð;
ekki stoðar slíkt
umferðakindur«.

41. »Ekki' er eg klerkur,
svo úrtöku matvönd,
að mér þar fyrir
ámæla þurfi.
Svo geingur öld nú
yfir í landi,
að fæstu' er af brögnum
á betra veg snúið.

42. Sú er mér beiníng
bezt í té látin,
sem ætla eg flestum
óþægasta,
það eru börn þau,
sem belja' og gráta,
með dælsku og keipum,
daga sem nætur.

43. Sagt er mér, prestur,
að synir þínir
vanir séu,
að venda upp hljóðum,
með hrinum og ærslum
og hávaðagángi,
svo móður þeirra[1]
sé meira' en nóg gefið.

44. Leingi hefi' eg þó
lagkæn verið,
að hugga og þagga
hrinubörnin;
fáðu mér Ólaf
eða þá báða,

[1] þeirri. hdr.

þá skal mér nægja,
og þakki hvort öðru«.

45. »Djörf ertu, Grýla,
og dælsk úr hófi,
að beiðast svo
eptir börnum mínum.
Ei mun eg láta
Ólaf né Haldór,
sé eg heilvita,
í hendur þínar.

46. En svo þú farir
ei synjandi héðan
fæ eg þér klárhest
feitan til nestis;
hann stendur í húsi
við stall þriflegur,
skýfðu upp skrokk hans,
en skila járnunum«.

47. »Eigðu nú sjálfur
syni þína,
mér er hann Rauður
miklu hentugri;
fáir hafa mig
fætt ríflegar,
full ríð eg héðan
og farðu vel, Brýnki«.

48. Út gekk hún Grýla
að Gunnhildargerði.
Teitur leit hátt upp
og hræddist sýn þessa.
»Jeg vil strax hafa
Jón þinn«, hún sagði;
»fæ eg þar eflaust
feitan munnbita«.

49. Glúpnaði Teitur,
og gegndi svo henni:
»Ei má eg, hjarta mín,
af honum standa;
kjóstu þér heldur
kálf okkar Gunnu,
sem ólum með þrantum
á öndverðum vetri«.

50. Hún gleypti kálfinn,
en kvaddi Teit eigi.
Með sér í hljóði
mælti hann þannig:
»Tarna er, hjarta mín,
heimskur óvættur,
farðu til skrattans
í skínandi víti«.

51. Nölti hún Grýla
að Næbjarnarstöðum,
mættust þau Gvendur
á miðju hlaði;
hönd fyrir augu
hélt hún og sagði:
»Komdu sæll, vinur,
vel líst mér á þig.

52. Heyrðu mig«, kvað hún,
»hvað geingur að þér?
Ætlar þú aldrei
að eiga barnkróga?«
Hástöfum Gvendur
hló þá og sagði:
»Dreptu mig aldrei,
ólukku níðið«.

53. »Gaman er að þér,
Gvendur kunníngi;
ei gjöri eg mér
alla menn jafna;
frí skaltu vera
fyrir beiníngum,
við munum seinna
sjást ef lifum«.

54. Út gekk hún Grýla
að Geirastöðum,

þá var þar hnigin
hurð í klofa.
Hún barði á dyr,
en bóndi útgægðist;
starsýnt var honum
og stóð þegjandi.

55. »Sæll vertu, Jón minn«,
sagði Eldgríður,
»hefi' eg þig aldrei
heimsókt fyrri;
láttu mig sjá hana
litlu Þórdísi,
því það er mín skemtan,
að skoða börnin«.

56. »Ei er mér þannig
af þér sagt, Grýla,
að hent muni börnum
í hendur þínar;
hitt mun ráðlegra,
að hafa þig af sér
með beiníngarkorni,
og bíð þú á meðan«.

57. Strax kom hann aptur
að stundu liðinni
með súrgrautarbolla
og bruðníng á fati.
»Settu þig niður«,
sagði húsbóndinn,
»á meðan þú etur
málsverð þennan«.

58. Hjáleit [varð] þá Grýla
og hló í skríkjum:
»Þú ert höfðíngi
heim að sækja.
Nær sástu borna
bruðníng á fati
svo stásslegu kvendi,
og standi hún í þér«.

59. Í húmi fór Grýla
að Húsey um kvöldið,
og sagðist nauðþurftug
fyrir næturgreiða.
Guðmundur Jónsson
gegnir svo henni:
»Nóg er dags eptir
til næsta bæjar«.

60. Þá sagði Grýla:
»Gefðu mér nokkuð,
því flestir þig kalla
fornbýlan, Gvendur«.
Færði hann henni
fimm ára hvalþjós,
ferna selhreifa
og fjórðúng af tólgi.

61. »Þökk fyrir, bóndi,
það var vel gefið,
en hvað mun nafni þinn
nú frambeina?«
Gvendur Þorvaldsson
gall við og sagði:
»Þú ert velkomin
að vera í nótt, Grýla!

62. Komdu inn veslíngur,
því kalt er úti,
þótt ekki sé boðlegt
í bæ þennan«.
Þá varð hark mikið,
svo hús titruðu,
þegar hún Grýla
í gaungum við spertist.

63. Felmtri[1] sló
yfir fólkið í bænum,
og sögðu Guðmundi
ei sjálfrátt orðið,
að hýsa þvílíka
heljar tröllskessu,
sem öllum stæði af
ótti og hræðsla.

[1] Felmtur, hdr.

64. Grýlu var matur
gefinn um kvöldið,
sauður að[1] kjötum
og selur fullorðinn,
hálftunnuketill
með heitar ábristur.
Bóndi hélt fast að,
og bað hana pata.

65. En þegar kerlíng
var komin til sætis,
sagði Guðmundur:
»Sástu' ekki tóu?
Sá skollans vargur
skemtir nú eigi;
hún ætlar gjöra
oss alla sauðlausa«.

66. »Ekki' er eg vön því,«
ansaði Grýla,
»að grenslast að löppum
hennar Lágfætlu.
Hyggið þið sjálfir
að hjörðu yðvarri,
því fátt gef eg mig
um fjármissi ykkarn.«

67. Árdegis fór hún
á burtu þaðan,
gekk svo rakleiðis
að Galtastöðum;
kom þar út Gvöndur
og krossar sig framan,
er sá fyrir dyrum
drós hávaxna.

68. Honum varð orðfátt,
en Eldgríður sagði:
»Fá vil eg hjá þér
frúkost, Gvöndur!
legðu fram barn þitt,
ef líf viltu þiggja,
því mér bregður mjög
við morgunsultinn.«

69. »Seint munu börn mín
seðja þitt húngur,
því fleira' er munntamt
en mannakjötið.
Hjá mér er kerlíng,
hundtík afgömul;
hún er mátuleg
í morgunskattinn.«

70. »Tröll hafi þína
tík og þig sjálfan;
aldrei heyrði' eg
þau ódæmi töluð.«
Hljóp hún að Gvendi,
en hann tók til fóta;
herti svo að sér
hvort sem bezt kunni.

71. Sá varð skilnaður
um síðir þeirra,
að Grýla mæddist
og gekk heim aptur,
illfygli, hljóp hún
inn í baðstofu,
og hafði út með sér
Hugbjörgu þaðan.

72. Ólafur brást við
eins og flugdreki,
hljóp eptir Grýlu,
og hrópaði þannig:
»Taktu ei Hugbjörgu,
heillabarnið,
því annars grána
okkar viðskipti.«

[1] af, hdr.

73. »Hættu,« kvað Grýla,
»eg hræðist þig eigi.
Hugbjörgu skal eg nú
hafa í dagverð.«
Þá varð Ólafur
óðamála,
ræður á Grýlu
og reif í kjapt hennar.

74. Reif hann svo kjaptinn
út undir eyru,
að skein þar í jaxla
á Skorpinteglu;
lét hún þá rakna
höndur af Borgu;
lögðust í faðmtök
Láfi og Grýla.

75. Sá var aðgángur
undra mikill,
svipti hvort öðru
og sóttust knálega.
Ólafur setti þá
undir kvið hennar
kné svo harðlega,
að kerlíng viknaði.

76. Kostaðist Grýla
og kvað við hástöfum;
hljóp svo æpandi
til Hrærekslækjar.
Bjarni stóð úti,
og bauð henni' að sitja,
en hún sagði sér
óglatt nokkuð.

77. Þá sókti Bjarni
brennivínsflösku,
og sagði hún skyldi
sig þar á hressa.
»Mér gefðu þetta
manna heppnastur.
Þig má af öllum einn
eg fyrirláta.«

78. Enn sókti Bjarni
aptur Helgríði
geldsauðarkrof
og gildan mörfjórðúng;
þakkaði' hún bónda
beiníng mjúklega,
og lappaði síðan
að Litla-Bakka.

79. Óbeðinn Þórður
út færði henni
af fínu vaðmáli
fullar tólf álnir
sér í nærfóður.
Svaraði Grýla:
»Það sé eg bóndi,
að þú ert nærgætinn.

80. Öll er eg skinnlaus
orðin á kríkum,
því opt hefur pils mitt
af mér tekið;
nú skulu lær mín
ei leingur sárna.
Hafðu sæll getið
og sértu'[1] í guðs friði.«

81. Stikaði' hún fram
að Stóra-Bakka,
heilsaði Gissur,
en hann varð ókvæða.
»Legðu fram, bóndi,
beiníng samstundis,
því ei vil eg vera
vonbiðill hennar.«

[1] sérðu, hdr.

82. Ygldi sig Gissur,
en Ásný svaraði:
»Gaktu út í skemmu,
og gefðu henni nokkuð.«
Fjóra grunnúnga
færði hann henni,
hálfan magál
og hákallsstykki.

83. Ekki fanst Grýlu
til útláta slíkra,
og sagði véllega
væri tilráðið.
»Skyldi' eg maklega
skripta þér, Gissur,
ef þú ei nytir
Ásnýar þinnar.«

84. Heilsaði' á Eirík
Hrokkinskinna:
»Viltu ei fá mig
fyrir barnfóstru;
ei mun þér vera
það svo óráðlegt«,
en hann svaraði:
»Ei núna þarf eg.«

85. »Hvað mun mér bætast
í Blöndugerði?
Hér kem eg, Jón minn,
að heimta ölmusu.
Ekki er þér missir
að einum barnkróga,
því þar er annars von,
sem einn er dreginn.«

86. »Það er kátlega
að kerlíng lætur!
Ekki áttu, Grýla,
að gjöra' að tarna.
Eg skal gefa þér
geðugt oststykki,
feitan mörbita
og bjúgakrínglu.«

87. Bæði varð Grýla
brosleit og ybbin,
og sagði hann mætti
sjálfur upp maula
sínar kvikindis-
krásir og leifar,
því ei væri hún komin
upp á hans bita.

88. Fram að Hvammseli
hljóp hún með skyndi,
og sagði Jón mætti
játa' af sér nokkru.
»Ei mun þér, karl minn,
annað stoða,
en láta mig hafa
hvað sem eg girnist.«

89. »Eg vil sanna það,«
sagði Jón aptur,
»hver hefir sent þig
hvimleiðust Grýla?
Þú ert sannkölluð
seggja blóðdrekkur
og argast kvikindi
allra sveita.«

90. »Það sé eg, karl minn,
að þú ert króktentur;
vel kantu' að stýla
vitnisburði.«
Lagði hún í við hann
löðrúng fallegan,
svo lygndi Jón augum
og lá í ómegin.

91. Þaðan fór Grýla
þvert um Lágheiði,
kemur til Bótar
og barði' að dyrum,
biður sér orlofs
inn að gánga.
Einar fylgdi henni
út í baðstofu.

92. »Heil og sæl,« kvað hún
»húsfreyja vegleg,
vön ertu jafnan,
að víkja þeim góðu,
sem þig heimsækja
hjálpar þurfandi,
nú vil eg beiðast
næturgistíngar.«

93. Þá sagði Íngunn:
»Þér er til reiðu
greiði og gistíng,
gaktu til sætis.«
Þar fékk hún Grýla
góðar viðtekjur,
og arkaði þaðan
árla morguns.

94. Að Galtastöðum
gekk hún snemmindis,
og bað Jón gefa sér
barnkorn til sláturs;
kvað hann þar nei við,
en kom út til hennar
með firna stórt kjöttrog
og flotskál djúpa.

95. Brá sér upp Grýla
að Brennuseli,
kvaddi út Sigurð,
og kallar svo til hans:
»Þú mátt, veslingur,
verða því feginn,
að á þér létti
einum barnkróga.«

96. Siggi varð ráðlaus,
og svaranna þrotinn.
Magnús tók undir
og mælti til Grýlu:
»Þótt veikt sé í búri,
vittu það, kerlíng,
að ei þurfum við með
aðstoðar þinnar.«

97. Fór hún svo jafnnær
að Fremra-Seli.
Svo snart sem Guðmundur
sá hana áleingdar,
greip hann upp lambhrút,
og gekk brosandi
og færði þann Grýlu
í fángi sínu.

98. Gleypti hún hrútinn
og gekk svo kíngjandi,
að Hallfreðarstöðum
í harðri frostnæðu.
Ekki brá Jón sér við
aðkomu hennar,
en sagði hugprúður:
»Sæl vertu Grýla.

99. Mikið hefir þeim
missýni orðið,
er segja þig vera
svipilla skessu,
en mér virðist þú
mesta góðkvendi,
og svo skyldu fleiri;
satt er að tarna.«

100. »Alt skyldi, Jón,
þér að óskum gánga,
því eingir hafa mér
unt svo sannmælis,
mér er það betra
en mikil auðæfi.
Farðu vel ætíð,
félagi góður.«

101. »Nú kem eg híngað
Högni, kunníngi.
Viltu' ei fá mér
að fóstri hann Eirík;
þótt leingi hafi eg
lagt af að dansa,
þá kanske mér bregði
í barnæsku nokkuð.«

102. »Vel mun þér fara,
ef við lægi nokkuð,
því opt er það gott,
sem gamlir kveða,
og trautt munda' eg neita
tilboði þínu
væri það barn mitt,
sem býðir þú fóstur.«

103. Hann gaf henni' í skilnað
gilda vætt fiska
og til ljósmatar
lýsiskvartil.
Kærlega þakkar
kerlíng ölmusu,
og býr sig til ferða
að Brekku, fagnandi.

104. Odd fann Helgríður
og ávarpar þannig:
»Þú ert forríkur
af fólkinu únga.
Láttu nú sjá til,
og legðu af við mig
eina barnskepnu
undir gemlur.«

105. Þá sagði Oddur:
»Það er sannmæli,
börn á eg nokkur,
og ber það ei af mér.
Hitt skaltu vita,
þinn heljar óvættur,
seint mun þeim kastað
í kjapt þinn, Grýla.«

106. Tók hann úr róti,
til barnlausnar,
skammrif og bæxli
og skeinkti það Grýlu;
bruddi hún alt upp,
bein, skráp og sinar,
svo einginn sást örmull
eptir af þessu.

107. Keifaði' hún ofan
að Kleppjárnsstöðum
og heilsar svo
upp á húsbóndann:
»Sælir, hreppstjóri,
seldu mér barnkind,
þú saknar ekki
eins í, Þórður!«

108. »Heyrðu« kvað Þórður,
»hver hefur leyft þér,
að flakka hér um
í Flata-Túngu?
Ertu svo væntin,
þín afgömul skrukka,
að munum vér þola þér
þau rángindi.

109. Ofan á þetta
ertu svo dristug,
að heimta með skyldu
hvað þig lystir,
ei viltu nægjast
með almannafæðu,
en skikkar foreldrum,
að færa þér börn sín.

110. Ei fer þú heldur
sem aðrir fátækir,
boðleið rétta
bæja á milli.
Vertu strax burtu,
viljirðu ei mæta
refsíngu fyrir
rángindi þessi.«

111. Þá kom í leikinn
Þóra og sagði:
»Ei áttu, Þórður,
að áreita þannin
bæði fjörgamla
og fátæka skepnu;
legðu henni nokkuð,
og láttu svo fara.«

112. Kættist hún Grýla
og komst svo að orði:
»Þú mátt vel kallast
kvennval, Þóra,
bæði góðhjörtuð
og gegn í tali;
þinn skal eg heiður
á hvert land bera.«

113. Þórður gaf henni
þrjá lambhrúta,
og bað hana síðan
búast til ferðar,
»upp til hans Skúla
arkaðu héðan
og fáðu hans leyfi
um Fellin að róla.«

114. Eg vil nú ráða
úngum börnum.
að hafa ei keipa
hrinur og ærsli,
svo þau ei grípi
sú gamla kerlíng,
sem liggur í felum.
Eg lykta svo drápu.

Hrs. Rasks 46a, 13—17. bls. með hendi Rasks sjálfs. Aptan við kvæðið eru svolitlar orðaskýríngar á dönsku.

## Grýlukvæði.

Eptir séra Jón Guðmundsson á Skeggjastöðum, seinna á Hjaltastað (1815—1856).

1. Sögu skal eg segja ykkur,
setjist niður börn;
:,: leggið við eyrun
og lærið námsgjörn. :,:

2. Leggið við eyrun
og aðgætið vel
:,: meðan fyrna fyrirburðinn
fram eg ykkur tel. :,:

3. En þann fyrna fyrirburðinn
fælist ekki par.
:,: Það var fyrir jólin,
að þetta til bar. :,:

4. Það var fyrir jólin,
þegar eg út leit.
:,: Kona gekk að garði
geysihá og feit. :,:

5. Kona gekk að garði
grimmileg og svört.
:,: úr hreinbjálfum hafði
hún sér klæði[1] gjört. :,:

6. Úr hreinbjálfum hafði' hún
sér húfu á kollinn sett,
:,: með stóran staur í hendi
og stikaði ekki nett. :,:

7. Með stóran staur í hendi
og stökk á honum lángt,
:,: fæturnir sneru
á frú þessari rángt. :,:

8. Á fótunum sneru
ferlegar aptur tær,
:,: hælar fram vissu,
en hvopturinn var sem bær. :,:

9. Hælar fram vissu;
í hausnum miðjum stóð
:,: augað sem kerald
alt eins litt og glóð. :,:

10. Augað sem kerald
ekki féll í vil,
:,: þó mér á liggi
það eg vinn ei til. :,:

---

[1] kápu.

11. Þó mér á liggi
það að faðma tröll;
:,: hún var svo þrælsleg
og þvegin blóði öll. :,:

12. Því hún var svo þrælsleg
og þúngan kimbil dró,
:,: alt hristist undir,
er hún mælti og hló. :,:

13. Alt hristist undir
er hún hósta fékk,
:,: alt rembíngs æði
á fyrir henni gekk. :,:

14. Alt rembíngs æðið
ógna gjörði mér.
:,: Hún tók til orða
og hristi byrði af sér. :,:

15. Hún tók til orða:
»Heill þú sterki Jón,
:,: nú á eg til þín
nokkuð stóra bón. :,:

16. Nú vildi eg til þín
nokkuð sækja lán,
:,: gauðið, sem grenjar
gefðu mér, Stefán.« :,:

17. »Gauðið, sem grenjar
gef eg aldrei þér.
:,: Hermdu mér þitt heiti
og hvaðan þig að ber. :,:

18. Hermdu mér þitt heiti,«
hún þá ansa vann:
:,: »Nefnd var eg Grýla
getin frjáls í rann. :,:

19. Nefnd var eg Grýla,
grimm við keipótt jóð,
:,: í Hágángi [á] heima,
og held þar bú og lóð. :,:

20. Í Hágángi heima
hrum og ellileg.
:,: Karlinn minn Gustur
gekk alþjóðar veg. :,:

21. Karlinn minn Gustur
í kröminni þá lézt,
:,: eg varð ofurfeigin,
því af honum fékk mig hrest. :,:

22. Eg varð ofur feigin
um hans naga bein;
:,: heiman að eg tölti
fyrir hátíðina, ei sein. :,:

23. Heiman að eg rölti
til hátíðar að fá,
:,: austur að Viðvík
eg mér snöggvast brá. :,:

24. Austur að Viðvík
auðsöm ferð ei var,
:,: úngbörnin eingin
öðlaðist eg þar. :,:

25. Úngbörnin eingin
átti bóndinn Jón;
:,: upp bar eg fyrir ærumanni
yfrið smáa bón. :,:

26. Upp bar eg þannig
erindi mitt við hann.
:,: »Gefðu mér Þórarin,
því hann skælum ann.« :,:

27. »Eg gef þér ekki' hann Þórarin,
það var fyrri nei,«
:,: er eg orði slepti,
eins fyrir því eg dey. :,:

28. Er eg orði slepti
aptur bóndinn kvað:
:,: »Haldóru minni
mun ei stórt um það. :,:

29. Haldóru minni
hann því mikið ann,
:,: hún ei síður honum;
hvort við annað kann. :,:

30. Hún ei síður honum,
því henni' ei leiðast börn;
:,: eg á hann heldur ekki;
er það lögmæt vörn. :,:

31. Eg á hann heldur ekki,
ætla mundi sízt,
:,: að við hann Syrpu seljum,
svo sem þú mér lízt. :,:

32. Að við hann Syrpu seljum.«
Svo til hins eg fór,
:,: Jóns og bað um beina;
bauga mælti Þór. :,:

33. »Jón ei biddu' um beina,
barn ei nema eitt
:,: á eg hjá mér heima
og hefir þú ei neitt. :,:

34. Eg á hjá mér heima,«
en höldar báðir þó
:,: gæddu kerlíng gjöfum;
greitt á stað mig bjó. :,:

35. Gæddu kerlíng gjöfum
gekk eg svo að Höfn;
:,: hitti menn á hlaði
og heilsaði þeim við nöfn. :,:

36. Hitti menn á hlaði
hjá þeim bóndinn stóð,
:,: að bæta nú í bagga,
bað eg klæða rjóð. :,:

37. »Bættu nú í bagga,
því bjargarlaus eg er,
:,: gefðu mér hana Önnu.«
Hann gegndi reiður mér. :,:

38. »Að gefa þér hana Önnu
guðs þökk sízt eg finn,
:,: eða bera í þig börnin
þitt bölvað húðarskinn. :,:

39. Að bera í þig börnin«
og byssuhólkinn þreif,
:,: hér með högl og púður,
því heldur á karlinn sveif. :,:

40. Hér með högl og púður,
en húsfreyjan kom að,
:,: bað hann bægja reiði;
bognaði hann við það. :,:

41. Bað hann rýra reiði
og ræddi alvarlig.
:,: »Það er þér að segja,
hvað þetta snertir þig. :,:

42. Það er þér að segja
þá[1] á hendur mín,
:,: hún Anna fæddist forðum
og fer aldrei til þín. :,:

43. Anna fæddist forðum,
fær hana ei tröllkerlíng
:,: hún Margrét mun ei ætla
mér þá svívirðing. :,:

44. Hún Margrét mun ei vilja
þú molir hana í pott«;
:,: fór eg svo þaðan
og fékk ei þurt né vott. :,:

45. Fór eg svo þaðan
og fram að Bakka strax:
:,: einginn stóð úti,
því áliðið var dags. :,:

46. Einginn stóð úti
en eg við hurðu sló,
:,: bifaðist bærinn,
af brúðum gaman dró. :,:

[1] það, hdr.

47. Bifaðist bærinn
barsmíðis við glamm;
:,: út vogaði einginn.
Oddur kom þó fram. :,:

48. Út vogaði einginn
Oddur nema karl;
:,: sá þorði' að sjá mig,
við sömdum ræðu spjall. :,:

49. Sá þorði að sjá mig
og segir: »hver ert þú?«
:,: »Eg heiti Grýla
og geymi í Hágáng bú. :,:

50. Eg heiti Grýla
og góðbúana finn;
:,: reikaði eg hingað,
að reyna dreingskap þinn. :,:

51. Reikaði eg híngað,
og réttu nú að mér
:,: barnkorn í bagga,
því barngírug eg er.« :,:

52. Barnkorn í bagga«.
Bóndi svarar þá:
:,: »Eg á þau, blessuð! ekki.
nema Eyjólf mér í hjá. :,:

53. Eg á þau, blessuð! ekki:
og er hann fullorðinn,
:,: útslitinn af erli
og ekki matur þinn. :,:

54. Útslitinn af erli
og annað til eg finn,
:,: skömm er þér mikil,
að skrölta um húsgánginn. :,:

55. Skömm er þér mikil
svo skessuleg og hraust,
:,: að vinna ekki fyrir þér
vel og tregðulaust. :,:

56. Að vinna ekki fyrir þér
en vera þæg og dæl,
:,: eg hefi' nú úttalað,
og hana, vertu sæl. :,:

57. Eg hefi nú úttalað«
og hafði sig í bæ.
:,: Hljóp eg svo þaðan
í hörðum gríðarblæ. :,:

58. Tölti' eg svo þaðan
og taldi ei mín skref,
:,: hérna fyrir neðan,
og hljóp yfir tánganef. :,:

59. Hérna fyrir neðan
og heim á næsta ból;
:,: Sveinn var hjá sauðum
og sefaði mitt ról. :,:

60. Sveinn var hjá sauðum;
við segginn nam eg tjá:
:,: »Gjarn ert þú að greiða
og gef mér börnin smá. :,:

61. Gjarn ert þú að greiða,«
hann gaf nú hljóð af sér:
:,: »Eingin á eg börnin,
að beina, kerlíng, þér. :,:

62. Eingin á eg börnin,
en bekra skaltu fá.«
:,: »Hafðu þökk fyrir«
og honum tölti' eg frá. :,:

63. »Hafðu þökk fyrir,«
og heim að Djúpalæk.
:,: Reikaði eg að hurðu
og rak upp stóran skræk. :,:

64. Reikaði eg að hurðu
og kalsaði við Jón:
:,: »vertu nú við mér
vel og minni bón. :,:

65. »Eg verð ekki við þér,
'veit eg áform þitt,
:,: að þú eignast hyggur
einkabarnið mitt. :,:

66. Að þú ætlar Gunnu
í þinn·belann grá.
:,: Belzebub sjálfur
börn þér skeinki smá. :,:

67. Belzebub þarna,
bið þú aðra en mig.
:,: Hávarður kannske
hjálpi upp á þig.« :,:

68. Hávarður heyrði
við hinn eg ræðu sleit.
:,: eg bað manninn ásjár,
en út í hött hann leit. :,:

69. Eg bað manninn ásjár
en það dugði lítt,
:,: þeir gáfu mér báðir
gagnsyrði títt. :,:

70. Þeir gjörðu mér báðir
greiða fínan samt;
:,: eg stökk á stað og kvaddi
en stikaði ekki skamt. :,:

71. Eg stökk á stað í humi;
eg stefndi á Miðfjörð,
:,: bænum var lokað;
og barði þilin hörð. :,:

72. Bænum var lokað,
í bragna skelkur flaug,
:,: allir inni héldu
úti vera draug. :,:

73. Alt sem inni í húsunum
ekki bundið var,
:,: með ljós að hurðu læddist
og leit um rifurnar. :,:

74. Með ljós að hurðu læddist;
eg lauk upp munni fljótt:
:,: »Vildi eg mig hvíla
og vera hér í nótt. :,:

75. Vildi eg mig hvíla;«
en við mig Grímur tér:
:,: »Eg er svo hræddur
hús að leyfa þér. :,:

76. Eg er svo hræddur
við örlögs trölldóm þinn.«
:,: Flýtti eg mér þaðan,
að finna Gísla minn. :,:

77. Flýtti eg mér þángað,
fram kom hann að gátt;
:,: bað eg um gistíng
en Gísli svarar hátt: :,:

78. »Þú biður um gistíng,
en Grýla skoðaðu nú,
:,: hús eru lítil,
en heldur gild ert þú. :,:

79. Hús eru lítil,
hefi eg grun þar á,
:,: að ofvaxin þeim yrðir
svo asnalega há. :,:

80. Að ofvaxin þeim yrðir
en úti máttu þó,
:,: undir húsum hýrast,
ef hafa kant þú ró.« :,:

81. Undir húsum hýrðist
húngruð, fraus og kól.
:,: Labbaði svo leiðir
laungu fyrir sól. :,:

82. Labbaði svo leiðir
lasin, ferðasár,
:,: að Miðfjarðarnesi,
náði strax í ár. :,:

83. Að Miðfjarðarnesi
maður úti var,
:,: eg heilsaði Pétri
og hóf upp bænirnar. :,:

84. Eg heilsaði Pétri:
»hjálpaðu mér nú um
:,: Guðrúnu og Gunnar
með geysihljóðunum. :,:

85. Guðrún og Gunnar
gjöra ónáð mér
:,: í Hágáng glymur undir
þá gráta og skæla fer. :,:

86. Í Hágáng glymur undir
svo get eg sofið ei.«
:,: Greindi hann í gremju:
»Eg gjöri það lángt frá, nei! :,:

87. Greindi hann í gremju:
»Mig gildir alt að eins,
:,: þó börn mín þig æri
og orgi þér til meins. :,:

88. Þó börn mín þig æri,«
beindi hann þó mér.
:,: Fátt varð nú af kveðjum
mig fýsti ei bíða hér. :,:

89. Fátt varð af kveðjum;
eg fetaði Árbæ að.
:,: Jón gaf mér gemling,
sem góður er í spað. :,:

90. Jón gaf mér gemlíng
og gekk á stað með mér.
:,: Altillegur er hann,
aldrei hjá því fer. :,:

91. Altillegur er hann;
eg að Felli gekk,
:,: en hann hvarf heim aptur;
heiðurinn fylgdi rekk. :,:

92. Hann hvarf heim aptur;
í harla tóman sekk
:,: Benedikt eg bað um
börn, sem voru' óþekk. :,:

93. Benedikt bað mig,
að biðja ei um slíkt:
:,: »Börn átti' eg aldrei
eða því um líkt. :,:

94. Börn átti' eg aldrei;«
bar hann svo út á hlað
:,: þorskahöfuð þrettán;
þrammaði eg svo á stað. :,:

95. Þorskahöfuð þrettán,
þó mér væri ei um.
:,: Hljóp eg til reynslu
hrepps að endanum. :,:

96. Hljóp eg til reynslu
heim að Gunnólfsvík.
:,: Eg heilsaði Jóni
þar hófst upp ræða slík. :,:

97. Eg heilsaði Jóni;
hann tók ei mjög blítt:
:,: »Gefðu mér Grím þann,
sem grenjar ótt og títt.« :,:

98. »Eg gef þér ekki Grím þann,
góða dreinginn minn,
:,: af því hann Magnús á hann,
það er nú hluturinn.« :,:

99. Af því hann Magnús á hann,«
en hann bauð mér þó,
:,: haus af jörpum hesti,
hryggjarpart og þjó. :,:

100. Haus af jörpum hesti;
honum eg þakka vann.
:,: Gísla fór að finna,
mig fýsti að biðja hann. :,:

101. Gísla fór að finna
og frétti hann um börn,
:,: »eg ét þau«, sagði' eg, »jafnan
jarganlegar en örn. :,:

102. Eg ét þau, sagði' eg, jafnan,
eg vil biðja þig,
:,: at kæta nú með krakka
kerlínguna mig.« :,:

103. At kæta nú með krakka
kvaðst hann geta sízt.
:,: Þú sérð hana Þuríði,
þessleg ei hún lízt. :,:

104. Þú sérð hana Þuríði,
það er gjörla reynt,
:,: að dauð hún er úr æðum
og frá barneign hreint. :,:

105. Dauð úr öllum æðum;
ekki geingur mér,
:,: til þess nokkur nízka
að neita Grýla þér. :,:

106. Til þess nokkur nízka,
nú skaltu það sjá.«
:,: Hann gaf mér síðan
svið af gamalá. :,:

107. Þá hafði hlotið þetta
hélt eg strax á braut;
:,: stikaði eg híngað
í hríð með lúa þraut. :,:

108. Stikaði eg híngað
heim að kvöldi nú.
:,: Ætli eg nái ekki
eða hvað heldur þú? :,:

109. Ætli eg nái ekki?«
»Ójú það held eg,
:,: ef þú bíður ekki
og arkar fram þinn veg.«

110. »Eg skal bíða ekki,
enn er að tala hitt,
:,: mig lángar svo klerkur
í keipabarnið þitt.« :,:

111. »Þótt lángi þig kerlíng
í lítið barn óspakt,
:,: þú færð það ekki,
eg hefi það áður sagt. :,:

112. Þú færð það ekki,
en eigðu fjallasprund,
:,: og tek eg í mein mér,
tvítugan smalahund. :,:

113. Eg tek hann í mein mér,
meðan vottar sig.
:,: Njóttu hans í náðum,
nú er eg laus við þig.«

114. »Njóttu hans í náðum.«
Nauðljótt sagði víf,
:,: »óþökk alla fyrir,
þitt arma nirfilslíf. :,:

115. Óþökk alla fyrir;
eg er ei bakmálsgjörn,
:,: en þú ert járnsál
og öll þín sveitarbörn.

116. En þú ert járnsál,
og eptirdæmi þeim
:,: eins í þessu og öðru,
illan gefur keim. :,:

117. Eins í þessu og öðru.«
Eg ansaði bjargalín:
:,: »Orðsjúkur er eg
ekki dúfan mín. :,:

118. Orðsjúkur ekki:«
inn í bæinn fór.
:,: Hún stökk á hálsa,
hana' eigi Loki' og Þór. :,:

119. Hún stökk á hálsa,
heilla börnin góð!
:,: Varizt þið að keipa,
svo vökvi' ei ykkur blóð. :,:

120. Varizt að keipa,
því vísast er hún sé,
:,: ekki lángt á burtu:
annað eins má ske. :,:

121. Ekki lángt í burtu;
enda eg minn saung,
:,: góð börn sín gæti,
því Grýla er jafnan svaung. :,:

122. Góð börn sín gæti
og gamni sér hljótt,
:,: að búa hjá henni Grýlu
bía það er,
að búa hjá henni Grýlu,
bía það er ljótt. :,:

Hrs. J. Sig. 398, 4to.

## Grýlukvæði.

Grýla kallar á börnin sín,
þegar hún fer að sjóða:
»Komið híngað öll til mín,
Leppur[1], Skreppur, Láng-
leggur[2] og Skjóða.«

1. Nú skal seyðið sækja
Skreppur,
sízt því hjá þér vizkan þver,
en þú sjóðir lízt mér Leppur
og láttu það til, sem matlegt er;
sjálf er eg eins og silakeppur,
svo er líka hún Skjóða mín.
Hún Grýla kallar á börnin
sín.
Ef mér fótur öfugt sleppur
upp þá gjöri' eg hljóða.
Leppur, Skreppur, Láng-
leggur og Skjóða.

2. Brytjaði Leppur bóg af nauti,
bjarndýrslær og þjó af kú,
kapalhryggurinn býsna blauti,
bríngukoll og lenda bú,
sauðarkrof og selurinn feiti,
af svíni skammrif nokkuð fín.
Hún Grýla kallar á börnin
sín.
Af þessu öllu þó ei veitir
í þrauta máltíð góða.
Skreppur, Leppur, Láng-
leggur og Skjóða.

3. Nú skal Leppur sjálfur sjóða,
sá það verkið allvel kann;
ketilinn Skreppur hóf til hlóða,
og helti á barma staðfullan;
undir kynda átti Skjóða,
með úlfgrátt hár og svartar
brýn, —
Hún Grýla kallar á börnin
sín.
en Lángleggur átti að bjóða
öllu liðinu fróða.
Leppur, Skreppur, Láng-
leggur og Skjóða.

4. »Skreppur standa skal fyrir
borðum;
Skinnvefja sé klefanum í;
virðir hún gesti vel með orðum,
væntir mig þeir gleðjist því
og svo standi alt í skorðum,

[1] Greppur. [2] Lángleggur, Skreppur, P. Víd.

um það sjáðu Skjóða mín.«
Hún Grýla kallar á börnin sín.
Barna brýtur bein með sporðum,
breiðir á steininn hlóða.
Skreppur, Leppur, Láng-leggur og Skjóða.

5. Alt var sem á augabragði,
að boðsfólkið þusti heim.
Grýla leingi þá ei þagði,
þó gekk út á móti þeim
og velkomna seggi sagði,
síðan bauð í húsið fín.
Grýla kallar á börnin sín.
Sérhver þakkir ljúfar lagði
og lofuðu vinsemd góða.
Skreppur, Leppur, Láng-leggur og Skjóða.

6. Klóalángur, Bjálfi og Boli,
ber þá ei kulda andlit sveitt.
Leppalúði, Vakur, Voli,
vílar ekki hann Surtur neitt,
Giljagaur þar sat og Svoli,
Surtur og Belgur eyddu pín.
Grýla kallar á börnin sín.
Stafur og Vöndur vænti eg þoli
virðum gaman að bjóða.
Leppur, Skreppur, Láng-leggur og Skjóða.

7. Veizlan stofnast vegleg næsta,
var á borðum flesk og brauð,
söddu búka dreingir dæsta,
drykk af kappi Leppur bauð;
þá kom Grýlu strympan stærsta,
staðfull rétt, með bjór og vín.
Grýla kallar á börnin sín.
Alt til lagga numu þeir næsta,
nú tók alt að hljóða.
Skreppur, Leppur, Láng-leggur og Skjóða.

8. Þá nam Grýla gánga um beim
geðstór mælti Lúða við:
»Eg vildi þú ættir hjá mér heima,
heillakarl með alt þitt lið;
skyldi eg víða sjálf þá sveima,
sækja börn og taka til mín –
Grýla kallar á börnin sín.
Þau sem ýlur gjöra að geyma,
grenja upp og hljóða.«
Skreppur, Leppur, Láng-leggur og Skjóða.

9. Við þau orðin Leppalúði
lifna tók og hýrnar geð,
síðan Grýlu sér fyrir brúði
á samri stundu fastna réð;
aldrei liðið frá þeim flúði,
flestum leizt sú virðíng fín.
Grýla kallar á börnin sín.
Hvert þar öðru eflaust trúði
og iðkuðu vinsemd góða.
Skreppur, Leppur, Láng-leggur og Skjóða.

10. Heil fimm þúsund ára aldur,
er mér sagt að lifðu þau,
síðan dróst að dauðinn kaldur,
dísir[1] að þeim reistu haug;
lifa þar [á miði[2] sem mjaldur,
magnlaus rétt þá sólin skín –
Grýla kallar á börnin sín.
En þegar sveipast Suðrafaldur,
sízt meiga börnin hljóða.
Skreppur, Leppur, Láng-leggur og Skjóða.

[1] dísur, hdr. [2] í miðið, hdr.

11. Skinnvefju réð Skreppur festa,
Skjóða átti Stekkjarstaur,
en hún Titja, afbragð mesta,
átti lag við Giljagaur,
umsjón hafði Bjálfi bezta,
búa til mat og vakta skrín.
Grýla kallar á börnin sín.
Upp á tólf og átta hesta
á hvern dag lét sjóða.
Skreppur, Leppur, Láng-
leggur og Skjóða.

12. Þeirra börn og barnabörnin
björguðust með gott tilstand,
út dreifðist sú ættarkvörnin
alstaðar um þetta land,
og að aldri eins og örnin,
álfum lík í skikkan sín.
Grýla kallar á börnin sín.
Hlupu í jörð og var það vörnin
við aðgáng menskra þjóða.
Skreppur, Leppur, Láng-
leggur og Skjóða.

13. Hljóp þá sumt í hóla og steina,
hirti ei þar um menska drótt,
jarðarskrímsli og jólasveinar
jafnan sjást þá dimm er nótt,
elta börn, sem ýla og veina,
ekki er sú hegðan fín.
Grýla kallar á börnin sín.
Þá fótalánga flestir meina,
fátt hafa gott að bjóða.
Skreppur, Leppur, Láng-
leggur og Skjóða.

14. Ut af liði Lúða og Grýlu
ljúflíngsfólkið heita má;
yfir þá sveipar skuggaskýlu,
skygnir menn það jafnan sjá,
í jarðarfylgsnum hefir sér hvílu,
húsakynni og efnin fín.
Grýla kallar á börnin sín.
Þeim sem tíðka töfra fýlu
til sín gjörir að bjóða.
Skreppur, Leppur, Láng-
leggur og Skjóða.

15. Flúði í sjóinn Frosti og Drífa,
flestum þykir það undarlegt,
að sæfólkið sézt hefir síðan,
svo og nautin mjög auðþekt,
þegar hann Boli burt réð skríða,
bygð sér fann í ánni Rín, —
Grýla kallar á börnin sín.
og með honum Blaðra; mun
svo bíða
mærðar vers að bjóða.
Skreppur, Leppur, Láng-
leggur og Skjóða.

16. Klóaláng nam keyra í dróma
Kollur, er nam Vesturland,
venur hann börn á siði' og sóma
sízt kann líða ilt tilstand,
illum strákum eg svo róma,
auka gjörir sára pín.
Grýla kallar á börnin sín.
Undan honum með ákefð tóma,
opt þeir gjöra að hljóða.
Skreppur, Leppur, Láng-
leggur og Skjóða.

17. Góðar konur gjöra hann geyma,
geðstóran hjá rúmum sín,
á hverju býli hann á heima
og hlustar til þá barnið hrín
og með upsum sést hann sveima,
svipþúngur að ætlan mín.
Grýla kallar á börnin sín.
Aldrei sjást kann á honum feima,
átekt hefir ei góða.
Skreppur, Leppur, Láng-
leggur og Skjóða.

Safn J. Árn. B. XXI, bls. 232. Afskr. Páls Pálssonar í hrs. J. Sig. 394, 4to. Viðkvæðið hjá Páli Vídalín í Skýríngum yfir Fornyrði Lögbókar, bls. 495. Corpus poeticum II, bls. 415. Hrs. J. Sig. 282, 8vo. Afskrift Pálma Pálssonar í Hrs. Sv. Grv. 118. Seinasta línan af viðkvæðinu í Orðab. J. Ól. Grv. jólasveinar.

---

Ýms önnur Grýlukvæði eru til og eru ástæður til, að þau eru ekki tekin hér upp. Grýlukvæði séra Stefáns Ólafssonar í Vallanesi († 1688) er prentað áður í Snót 1850, bls. 206—15 og 1865, bls. 186—195 og svo í Kvæðum Stefáns I. 1885, bls. 230—44. Auk handrita þeirra, sem þar eru nefnd, hefi eg rekið mig á þessi handrit af kvæðinu: Hrs. Sv. Grv. 118, afskript Pálma Pálssonar eptir hrs. J. Sig. 282, 8vo. Aptan við kvæðið er hér endinn á Grýlukvæði séra Guðmundar Erlendssonar. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L, með hendi séra Jóns Eyjólfssonar eptir Ólafi bónda Jónssyni á Atlastöðum, Arch. C, með hendi séra Brynjólfs Árnasonar í Lángholti 1848, brot. Hrs. Bmfj. 327, 8vo og vantar mikið í, en aptan við það, sem þar er af kvæðinu, er skeyttur endinn á Grýlukvæði séra Guðmundar Erlendssonar og haldið áfram erindatölunni. Útgáfan í 327 er alls 61 er. og eru 32 úr kvæði séra Stefáns, en hin (33.—61. er.) úr kvæði séra Guðmundar. Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum. Hrs. Á. M. 960, 4to, 52 er. Eingin af þessum útgáfum er fyllri en útgáfan í kvæðum Stefáns, en orðamunur er þar nokkur.

Grýlukvæði Eggerts Ólafssonar er prentað í Kvæðum Eggerts 1832, bls. 141 og Snót 1865, bls. 295—297. Það er fremur pólitískt kvæði en verulegt Grýlukvæði. Í handriti hefi eg rekið mig á það í hrs. Bmfj. 639, 8vo (Varðgjárkver), 734, 8vo (Stokkahlaðabók), hrs. Rasks 82 og 88a.

Séra Gunnar Pálsson í Hjarðarholti († 1791) orti Grýlukvæði, 23 er., og hefi eg fundið það í hrs. Bmfj. 387, 4to með hendi Geirs Vigfússonar, er hann tók eptir hndr. Daða Níelssonar fróða. Kvæði þetta er aðvörun á móti því að hræða börn með Grýlu og öðrum óvættum, og er því ókeimlíkt öðrum Grýlukvæðum. Það er allmerkilegt í raun réttri, en ekki þótti eiga við að taka það upp í safn þetta.

Grýluþula eða Grýlukvæði eptir Hallgrím Jónsson Thorlacius er prentað í Ljóðabók Jóns Þorlákssonar II. 1843, bls. 383—384 og Snót 1865, bls. 298. Hún er eignuð Jóni Þorlákssyni á báðum stöðunum, en það er rángt. Þula þessi er til í mörgum handritum: Einarsbók dr. Jóns Þorkelssonar ýngra, skrifuð 1780—1785. Hrs. Bmfj. 734, 8vo (Stokkahlaðabók). Hrs. Bmfj. 633, 8vo (Þórkatla hin meiri). Hrs. Sv. Grv. 118, afskript Pálma Pálssonar eptir hrs. J. Sig. 231, 4to (Þíngeyrabók). Þar er þulan eignuð séra Hallgrími Péturssyni. Hrs. Bmfj. 310, 8vo og er kölluð þar Samhendur. Hrs. Rasks 46a, og heitir þulan þar Samstæður séra Jóns Þorlákssonar.

Jón Ólafsson frá Grunnavík segir í Orðabók sinni jólasveinar, að [Ás]-Grímur Magnússon í Höfða á Höfðaströnd hafi ort Grýlukvæði, en ekki þekki eg það.

---

I.

Grýla kallar á börnin sín,
þegar hún fer að sjóða:
til jóla.
Komið híngað öll til mín,
ykkur vil eg bjóða.

Kleppur hann skal sjálfur sjóða,
sá þau verkin fullvel kann,
en hún Skjóða á að bjóða
öllum lýðum þjóða.
Nýpa[1], Típa[2],
Næa[3], Tæa[4],

---

[1] Ípa. [2] Grípa. [3] Næin. [4] Læa.

Nútur, Pútur[1]
Nafar, Tafar,
Láni, Gráni,[2]
[Leppur, Skreppur,[3]
Loki, Poki,
Leppatuska,[4] Lángleggur[5]
og Leiðindaskjóða.[6]
[Vølustallur og Bóla.[7]

Jón Ólafsson, Stafrofskver 1889, 1891, 1892, bls. 39. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N., með hendi séra Helga Sigurðssonar á Melum. (Brot), Arch. C., með hendi séra Brynjólfs Árnasonar í Lángholti (tvær útgáfur). Arch. F. Þjóðs. J. Árn. I, bls. 219. Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum. Hrs. Á. M. 960, 4to, með hendi séra Jóns Þórðarsonar á Auðkúlu.

II.

»Komið híngað öll til mín:
Leppur, Skreppur, Láng-
leggur og Skjóða
Knútur og Taska,
Kyllir og Flaska
Jónar tveir og Þóra.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Sigríði Oddsdóttur, prestkonu á Stað í Aðalvík.

---

I.

Grýla[*] er að vísu[8]
gömul herkerlíng,[9]
bæði' á hún bóndann
og börn tuttugu.
Eitt heitir Skreppur,
annað Skjóða[10].
Þriðji Þröstur,
og Þrándur hinn fjórði,
Botni[11], Brýnki,
Böðvar, Höttur[12],
[Strútur, Stefnar[13],
Stikill, Flaska,
Ausa, Askur,
[Koppur, Kyppa[14],
[Musull[15], Mukka[15b].
Ól hún í elli
enn tvíbura:
Sighvat[16] og Surtlu[17],
sem sofnuðu bæði.

Eptir minni mínu. Hrs. Bmfj. 656, 8vo. Hrs. J. Sig. 282, 8vo, afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E[2].

II.

Þrándur hinn fjórði,
Böðvar og Brýnki,
Bolli og Hnúta,
Koppur og Kyppa.
Strokkur og Strympa,
Dallur og Dáni,
Sleggja og Sláni,
Djángi og Skotta.
Ól hún í elli o. s. frv.

Þjóðs. J. Árn. I, bls. 219. Hrs. Á. M. 960, 4to, með hendi séra Jóns Þórðarsonar á Auðkúlu.

---

[1] Hnútur, Tútur, Bútur, Kútur, Knútur. [2] Sláni. [3] Lápur, Skrápur. [4] sl. J. Ól. [5] Lánleggur. [6] Skjóða. [7] Sigurðr og Sóla. [8] sönnu. [9] kerlíng. [10] Leppur. [11] Bokki. [12] Stútur. [13] Stefnir. Frá [ Loðinn og Lúpa, Ljótur og Skráma, Stampur og Stefna. [14] Átján eru talin. [15] Mösull. [15b] Hnútur, Hnyðja, Hnýfill, Bikkja. [16] Sihvat. [17] Syrpu.

I.

Grýla reið [fyrir ofan garð[1];
hafði hala fimtán,
en á hverjum hala
hundrað belgi,
en í hverjum belg
börn tuttugu.
Þar vantar í eitt.
Þar skal fara' í Tyrra,
tíkin sú í fyrra.
Inga litla kom þar út;
boraði' á gat með skæri,
tók sér band og hnýtti á hnút,
hleypti öllum börnum út.
So trúi' eg það færi[2].

Þjóðs. J. Árn. I, 218 (Eptir Sigurði málara) Brot. Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar á Loptsstöðum. Hrs. Bmfj. 656, 8vo. Safn J. Árn. B, XXI, bls. 262. Afskr. í hrs. J. Sig. 398, 4to. Jón Ólafsson, Stafrofskver 1889, 1891, 1892, bls. 38—39. Hrs. J. Sig. 282, 8vo, afskr. Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. C, með hendi séra Brynjólfs Árnasonar í Lángholti. Sama hdr. Arch. E[2]. Séra Brynjólfur segir, að barn það eigi að fara í pokann, sem óþekt er í það og það skipti. Á sama er drepið í 969, því þar er niðurlagið: »og þar á að láta . . . . . í.«, og er eyðan fyrir nafninu.

II.

Hér fer Grýla
í garð ofan,
og hefir á sér
hala fimtán.

Sturlúnga. Oxford. I, bls. 246.

---

Grýla reið með[3] garði,
gekk með henni Varði[4].
Hófar voru' á henni,
hékk toppur úr enni.
[Dró[5] hún belg með[6] læri,
þar frá eg börn í væri.
Valka litla kom þar út,
[krukkaði á gat með skæri[7].
[Svo trúi' eg hún færi[8].

Safn J. Árn. B. XXI, bls. 162, afskr. í hrs. J. Sig. 398, 4to. Hrs. Sv. Grv., Arch. N, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Melum. Þjóðs. J. Árn. I. bls. 218.

Grýla reið fyrir ofan garð,
vildi finna Þorvarð,
með skorpinn fisk og skötubarð
skauzt hún ofan í Þorvarð.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo.

---

[1] í garðshorn. [2] og þar skal fara í barnið leitt, og það skal vera óvanda barnið leitt, það fæst ekki neitt, og það skal heita Gunnsteinn. [3] úr. [4] Stytting fyrir Guðvarðr, Þorvarðr og öll nöfn, sem enda á »varðr«. [5] Bar. [6] skollabelgur á.

[7] hana beiddi' að hnýta hnút
og hleypa öllum börnum út.
eða: og hafði með sér snæri,
tók hún band og hnýtti' á hnút
og hleypti öllum börnum út.

[8] svo trúi' og það væri
og færi.

Grýlan á glugga;
vill 'hún taka úngbörnin.
Ekki skal hún þau fá.
Fari 'hún út í Túngu,
bíti þar börnin úngu.
Veri' 'hún þar um helgina,
bíti' 'hún börn í belgina.
Hvað ætlar hún mér af því?
Lifur og lúngu.
Stakk hún mig í túngu.

Grýla situr gáttum í
og gáðu' að því.
Börnunum stíngur hún belginn í
og bíum bí.
Grýla á sér lítinn bát,
rær 'hún út með sandi;
þegar 'hún heyrir barnagrát
dregur hún sig að landi.
Grýla kemur á hverjum vetri,
hún er í loðnu skinnstakks tetri:
sú er ekki sagan betri,
sinn í belg hún fá vill jóð[1],
Valka litla vertu góð.
[Valka litla vertu góð,
vendu þig af að ýla.
Senn kemur að sækja þig[2] hún Grýla.

Frá [ Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Margréti Bjarnadóttur, vinnukonu á Sléttu.

Hlupu börnin fram á pallinn,
feldu niður pípudallinn,
greip þá í þau Grýlukallinn,
grár og loðinn inn við ón,
Grýla og Boli bæði hjón.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. F. Eflaust að eins brot.

Grýla[3] fór á fjöll og bjó,
var hún í burtu leingi.
[Börnunum gaf hún brúna[4] skó,
hnappagull[5] og þveingi,
lambsleggin lítinn að leika sér að.
Þetta gaf hún börnunum
[áður] hún fór af stað.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. F.

Grýla gamla gekk um gólf,
gafst í för með örnunum;
hafði' í hendi klukkukólf,
í kollinn sló á börnunum.

Eptir handriti Guðmundar Davíðssonar.

Hún er suður í hólunum,
hefir gráa skýlu;
meira veit eg ekkert um
ættina' hennar Grýlu.

Sá eg Grýlu sitja' á sjávar-
bakka;
var 'hún þar á saltmörnum að smakka,
þar að þrúska' í poka sinn og pjakka,
plöggum mörgum gjörði' hún saman
akka.
Ásýnd hafði' hún ákaflega blakka,
aðra vörina kækjótta og skakka.

---

[1] fljóð. [2] þig heim. [3] Móðir. [4] Færði börnum nýja. [5] hnappakorn.

Syrpan réð með sjómálinu svakka
síðan fann hún grámórauðan rakka;
hún gaf honum hákarlssneið að hakka.
hún hugði sér að láta' hann púla'
og pjakka.
Kom hún þar sem karlmenn voru'
að hjakka,
í krumlum hafði' 'hún átján barna-
krakka,
átta' 'hún tók og uppá sig nam
hakka,
á öllum hinum gjörði þó að smakk
Í bæinn hljóp og braut þar alla
hnakka.
með beittri öxi höggva tók og pjakk
bað hún mig þá bréfseðil að lakk
sem berast skyldi suður á Eyrar-
bakka.
Eg spurði því hún færi svo að flakk
fyrir það kvaðst hún engum mann
þakka.

I registrinu yfir Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum I (hrs. Bmfj. 61·8vo) er sagt, að þar sé (nr. 131) Grýlukvæði eða Samhendur.

Kerlíng heitir Grýla,
hún er grá og loðin,
horn hefir hún úr hausi
álnarlaung, að kalla.
Tennur hefir hún stórar,
ná þær ofan á bríngu,
en túngan ljóta og leiða,
hún er eins og skrápur.
Grýla hefir augu fjögur,
eitt er stærst í hnakka,
hnútur á hennar baki,
hann er eins og sáta.
Hún hefir lángar hendur,
býsna ljótar neglur.
Öll er hún óskööp lotin,
illileg til muna.
Hún stendur í horni,
þar sem börnin stafa,
ef þau æpa og hrína
eða ekki nenna að lesa'
kemur gráa Grýla,
grípur þau í poka,
flytur svo til fjalla.
fer þá mikið illa.
En ef þau iðni stunda
og eru þekk og hlýðin,
fælist fúla Grýla,
fær hún aldrei góð börn.

Stafrofskver handa börnum, útg. Jónas Sveinsson. Akureyri 1873, bls. 3—34. Þula þessi er mjög nýleg, líklega búin til í Stafrófskverið.

## Leppalúðakvæði.

Eignað Guðmundi Bergþórssyni.[1]

1. Þegið þið börn mín,
og hafið ekki hátt,
hérna er hann Leppalúði
heima í nátt.[2]

2. [Hérna er hann Leppalúði[3]
[lángur og[4] stór.
Einn var hann staddur
við kirkjunnar kór.

3. Einn var hann staddur,
og [horfði eg þar á,[4]
svipillur[5] á bragðið
sýndist mér hann þá.[6]

[1] Hallgrími Péturssyni CD. [2] Er. vantar í BC. [3] Hér kemur B, Hér er kominn C. [4] hræðilega D. [5] kom hann þar að B. [6] þar B.

4. Svipillur[1] var hann
í sjón og í hátt,
með skósíða kampa
og skeggið kolgrátt.

5. Með skósíða kampa
[kreikar hann hér,[2]
það var það[3] fyrsta
hann heilsaði mér.

6. Það var það[3] fyrsta,
heyrði eg það,
beiddi hann mig um barnkorn,
að brytja sér í spað.

7. Beiddi hann mig um barnkorn
og belginn sinn skók,
undir það, [með fyrsta,[4]
eg ekki vel tók.

8. Undir tók eg þannig:
»Ekki eru þau hér,
[ekki þarftu um börnin,
að biðja hjá mér.

9. Ekki færðu[5] börnin,[6]
því annað fæst nóg,
þú mátt vel hjálpast
við kútmaga og slóg.

10. Þú mátt vel hjálpast
með höfuðin[7] hörð.«
Þá grenjaði hann Lúði,
svo glumdi við[8] jörð.

11. Þá grenjaði hann Lúði
og svarið gaf sitt:
»Sjálfur máttu [sleikja í þig[9]
sjófángið þitt.

12. Sjálfur máttu [sleikja í þig[9]
hrognin þín hrá;
karlæga kerlíngu
heima eg á.

13. Karlæga kerlíngu
kannastu við,
hún heitir Grýla
með gráloðinn[10] kvið.

14. Hún heitir Grýla
og er grá eins og örn,
farið hefir hún víða,
að fala sér börn.

15. Farið hefir hún norður
og fundið séra Gvönd,
[upp bar hún við hann
málefnin[11] vönd.[12]

16. Upp bar hún við hann
bónorð um barn,
ekki var presturinn[13]
gustuka[14]gjarn.

17. Ekki var klerkurinn
örsnauður[15] þó,
[nógu vel[16] í þann tíð[17]
[að börnunum[18] bjó.

18. [Nógu vel þóktist hann[19]
[gjöra þá til,[20]
skeinkti hann henni skikkju[21]
skýra eg þér vil.

---

[1] Sviplegur BC. [2] og skinnstakkinn með CD. [3] hans hið BCD. [4] í fyrstunni C. [5] þarftu D. [6] Frá [ vantar í B. [7] þorskhöfuð þín C. [8] undir BC. [9] eta G, eiga D. [10] grálegan B. [11] efni sín D. [12] Frá [ vantar í B. [13] þá klerkurinn BCD. [14] guðsþakka D. [15] orðsnauðr B, örbirgur CD. [16] allvel CD. [17] tíma BD. [18] börnin til D. [19] Allvel í þann tíð C. [20] Frá [ hann þóttist gjöra C. [21] hann Skeggja BCD.

19. Skeinkti hann henni skikkju,[1]
skrímslið[2] það,
[laust hann[3] hana í lærið,[4]
þá lötraði hún á stað.

20. [Laust hann[3] hana' í lærið,[5]
svo liggur hún veik,
fýsti mig á fund þinn
og fór eg því á kreik.

21. Fýsti mig á fund þinn,
að fala mér barn,
mér er sagt þú sért nógu
gustukagjarn.[6]

22. Mér er sagt þú fæðir[7]
gángandi[8] gest.
Í leiðindabörnin
lángar mig mest.[9]

23. Í leiðindabörnin«
hann Leppalúði kvað.
»sagt er mér þú eigir eitt
og seldu mér það·[10]

24. Mér er sagt hún litla Steinunn[11]
hríni svo hátt,
hún banni henni móður sinni
svefninn um nátt.

25. Hún banni henni móður sinni
vinnu og værð,
opt [er hún (með ærsli[12]
[og ólæti[13] kærð.[14]

26. Opt er mér fyrir eyrum
ólætin slík«.
[Þá fór hann Leppalúði[15]
og [skeldi á[16] sinn krík.[17]

27. Svo kvað hann Lúði:
»Hann Eyjólfur þinn,
skapfellegur þykir mér hann
í skinnbelginn minn.

28. Skapfellegur þykir mér hann
og skilur okkur eitt,
sýngur hann á saltarann,
og það er mér leitt.

29. Sýngur hann á saltarann.
og situr í kór,
mér þykir hann Gvendur
mátulega stór.

30. Mér þykir hann Gvendur
mér haga bezt,
latur er hann að læra,
og les heldur tregt.

31. Latur er hann að læra;
las hann í gær,
heyrða eg í skotinu,
skamt var eg fjær.

32. Heyrða' eg í skotinu
hann hossaði sér;
hann má í belgnum
heim fylgja mér.

33. Hann mér í belgnum
heim fylgja má,
kreistir að honum krumlurnar
kerlíngin grá.

34. Kreistir að honum krumlurnar
og kastar í sekk«.
Út af þessum orðum
óttann hann fékk.

---

[1] hann Skeggja BCD. [2] skrýmslistetrið D. [3] lesti BD. [4] lærinu CD. [5] Frá [ vantar í B. [6] guðsþakkagjarn D. [7] alir C. alir bæði D. [8] g. og CD. [9] 22. er. vantar í B. [10] 23. er. vantar í B. [11] Steinka C. [12] eru mér fyrir eyrum B, ærslin og óvandann D. [13] Frá ( fyrir ýlurnar. ólætin C. [14] Frá [ þau ólætin skær B. [15] svo kvað hann Lúði C. [16] kló sér C. [17] Hér hætta A og B.

35. Út af þessum orðum
óttinn hann sló.
Öll voru börnin
siðlát og góð.

36. Öll voru börn
siðlát og sett,
[reiddist hún Grýla
sem rumsvínið grett.[1]

37. Reiddist hún Grýla
og greip hún þá prest
hann var kominn í hökulinn,
það hjálpaði bezt.[2]

Safn J. Árn. I, V, 4to, bls. 311. = *A*, Afskript Páls Pálssonar stúdents í hrs. J. Sig. 398, 4to. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. C, með hendi séra Brynjólfs Árnasonar í Lángholti. = *B*. Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum. = *C*. Kvæðabók Jóns Þorkelssonar í arkarbroti, með hendi Páls Hjaltalíns í Stykkishólmi († 1876) = *D*.

II.

D. hefir:

5. Ekki hefi' eg sýnina
aumlegri séð.

6. Ekki var hann fríður
til augnanna þar,
kafloðinn belginn
á bakinu bar.

7. Kafloðinn belginn
hann kreikaði með.
það var hans hið fyrsta o. s. frv.

Í staðinn fyrir endann á kvæðinu, 27.—37. er. hefir sama útgáfa:

29. Þetta sagði Leppalúði,
veik hann sér þá inn:
»Skapfellegur þótti mér
hann Eyjólfur þinn.

30. Skapfellegur þætti mér,
en skilur okkur eitt,
hann þylur fram úr bókunum
og það er mér leitt.

31. Hann þylur fram úr bókunum
og þrásýngur í kór.
Mér þætti litli Gvendur
mátulega stór.

32. Mér þætti hann litli Gvendur
mér haga bezt,
latr er hann að læra
og leikfullur mest.

33. Latr er hann að læra
og les heldur tregt,
stendur í honum stampurinn
og stamar heldur frekt.

34. Stendur í honum stampurinn
og stamar heldur frekt.
Kreppir að honum krumurnar
kerlíngin grett.

35. Kreppir að honum krumurnar
kerlíngin þá,
brytjar hún hann ofan í
belginn sinn grá.

36. Brytjar hún í belginn
og býr til fyrir sig.«
Út af þessum orðunum
óttaði mig.

37. Út af þessum orðunum
ótti mér stóð.
»Öll á eg börnin
athæfisgóð.

38. Öll á eg börnin
blíðlynd um sinn.
Kostulega les hann
litli Gvendur minn.

[1] sjá 12. er. í Grýlukvæði séra Guðmundar Erlendssonar. [2] sjá 38. er. í sama kvæði.

39. Kostulega les hann
þá ljósið kemur inn.
Farðu út til Íngu.
þú færð þar vilja þinn.

40. Farðu út til Íngu
ókunnugrar[1] þér,
hún á þann dreinginn,
sem ópsamur er.

41. Hún á hann Símon,
sem hrín eins og dýr.
þá ætla' eg hún Sigga litla
sé ekki hýr.

42. þá er hún Katrín
með úngbörnin þrjú;
ekki hefir hún ástæðis
nema einspena kú.

43. Ekki hefir hún mjólkina
mörgum að ljá.
Vittu hvort hún vill ekki
hann Jón litla þá.

44. Vittu hvort hún Valka litla
verður ekki föl.
það má verða' hún þuríður
þiggi þar dvöl.

45. það má ske hún þuríður
þýðist þig bezt.
Farðu norður til landa
og findu þar prest.

46. Farðu norður til landa
og flýttu nú þér.
Hann Bergur og hún Mánga,
í belginn þörf er.

47. Hann Bergur og hún Mánga
bíða þín þar.
ekki færðu' að sinni
hjá prestinum par.

48. Ekki færðu' að sinni
þitt erindi hér«.
Hamaðist þá Lúði
og hljóp inn að mér.

49. Hamaðist hann Lúði
og hugðist mér að ná.
Eg var kominn í hökulinn
það hlífði mér þá.

50. Eg var kominn í hökulinn
og hýrði með mak.
hann rasaði á hellunni
og hausinn niður rak.

51. Hann rann til á hellunni
um hálfa fimtu spönn,
ball hann í kórslá,
svo brotnaði úr honum tönn.

52. Ball hann í kórslána
og beljandi upp stóð.
Út hljóp hann úr kirkjunni
með ofsamikil hljóð.

53. Út hljóp hann úr kirkjunni
en eg fór þá heim.
Ekki vil eg gestinum
optar mæta þeim.

## Leppalúðakvæði.

I.

1. Hér er kominn Leppalúði
ljótur og grár,
sofið hefir samfleytt[2]
í sjö og tuttugu ár.

2. Sofið hefir samfleytt,[3]
sveingir hann því.
Bað hann mig um barnkorn
belginn sinn í.

[1] ókunnugri, hdr. [2] sífelt D. [3] drjúgum E.

3. Bað hann mig um barnkorn,
benti' eg honum á tal.
»Eg lallaði[1] híngað
ofan úr Laugardal.

4. Lallaði eg híngað
að líta þín börn;
mér [þykja þau heldur[2] nokkuð[3]
hávaðagjörn.

5. Mér þykja þau kjörin,
eg kaupi þau nú«.
Leysti' hann ofan belg einn
af ljósgrárri kú.

6. Leysti' hann ofan belg einn,
loðna sjóðinn þann,
Gvendur austr á Apavatni
gaf honum hann.

7. Gvendur austr á Apavatni
gaf honum hann, því
ekkert átti' hann úngbarnið
bænum sínum í.

8. Ekkert átti' hann úngbarnið.
Anza gjörði' eg þá:
»sex eru hér börnin
býli[4] mínu á.

9. Sex eru hér börnin
og á eg af þeim þrjú;
ekki hefi' eg hugað þau
handa þér í bú.

10. Ekki hefi' eg hugað þau
handa þér í sjóð;
sitja þau á pallinum
siðlát og góð«.

11. »Sitja þau á pallinum?
segir hann þá.
Aptur honum Leppalúða
ansaði og þá.

12. Aptur honum Leppalúða
ansaði og til:
»Einasta son minn
þér ei selja[5] vil.«

13. »Einasta son þinn
þótt ei seljir[6] þú,
aðra hvora stelpuna,
[ætla eg[7] mér nú.

14. Aðra hvora stelpuna,
sú eldri'[8] er hér nær,
nóg heyrða' eg af leiðindunum
hennar í gær.

15. Nóg hefir hún leiðindin
þá lesið er«.
[»Heimskur ertu Leppalúði«,
hugsaði eg með mér.[9]

16. [»Heimskur ertu Leppalúði,
að hugsa slíkt með þér,[10]
föðurmóðurnafnið mitt
fljóðið hún[11] ber«.

17. »Föðurmóðurnafn þitt
fælir mig ei þar,
hyggjulítill[12] um það,
hvað heita stelpurnar.

18. Hyggjulítill[13] um það
þótt hýrleg þyki börn.
Seldu mér hana Borgu,[14]
að seðja á mína görn.

---

[1] labbaði E. [2] er sagt þau séu D. [3] en ekki E. [4] búi E. [5] gefa DE. [6] gefir DE. [7] ætlaðu D. [8] ýngri D. [9] Aptur honum Leppalúða ansaði eg hér D. [10] Frá [ vantar í D. [11] úngt DE. [12] hirði eg lítið D. [13] Hirðulítill DE. [14] Vilborgu E.

19. Seldu mér hana litlu Borgu.«
Sagða' eg við því nei.
»Einginn er þér forðinn
í ársgamalli mey.

20. Einginn er þér forðinn
í úngkindum smá.«
[»seldu mér hin þrjú,«
sagði karl þá.[1]

21. »Hvorki sel eg þér Hannes
né Þorbjörgu, því
bæði eru þau móðurlaus,
og láttu þau vera frí.

22. Bæði eru þau móðurlaus.«
»Bið eg« segir hann, »þig
legðu hana Íngu
af Mörk[2] við mig.«[3]

23. [»Seldu mér[4] hana[5] Íngu,[6]
ódráttarlaus,
brokkar[7] hún úr bæli[8] sínu
bænagjörðarlaus.

24. Brokkar[9] hún um bæinn
sem ótemjan ein,
týnir hún af sér svuntunni,
og treður undir stein.

25. Týnir hún af sér öllu[10]
trappar[11] eins og svín.
Hún væri [betur komin[12]
í híbýlin mín.

26. Hún væri betur húðstrýkt[13]
[og hnept í minn mal[14]
(ósómann umbuna[15]
[allan því[16] skal.

27. Ósóminn úngmenna
olli því mest,
sem löt eru' í æskunni
og líða síðan brest.«

28. »Löt eru'[17] að sönnu
sem lagfæra má.«[18]
Aptur honum Leppalúða
ansaði eg þá.

29. Aptur honum Leppalúða
ansaði' eg í stað:
»Komir þú að Brúsastöðum,
bani þinn er það.[19]

30. Komir þú að Brúsastöðum,
blótar hann Einar þér,
takir þú hann Sæmund,
trúa máttu mér.

31. Takir þú hann Sæmund
í töskuna grá,
við máttu búast
að verja þig þá.

32. Við máttu búast
að víkja héðan frá;«
arkaði hann Lúði[20]
að[21] Almannagjá.[22]

---

[1] Aptur honum Leppalúða ansaði eg þá E. [2] Mörkum E. [3] D. Vantar í B. en í A vantar 3.—22. er. [4] Sel eg þér A. [5] Legðu af við mig E. [6] Íngunni B. [7] bröltir BC. [8] bóli E. [9] Bröltir B. [10] svuntunni BCD. [11] og trampar BDE. og traðkar C. [12] horfin C. Frá [ nú mátuleg B. [13] komin D. [14] í minn pokann grá D. [15] allan BE. [16] eg umbera henni B. [17] er hún E. [18] Í D vantar frá ( í 26. er. [19] D. Vantar í B. [20] síðan DE. [21] í D. [22] 28.—32. er. vantar í A.

33. Arkaði[1] hann Lúði[2]
upp[3] eptir sveit;
[einga skepnu með augunum[4]
[eg ófríðari[5] leit.

34. Eingan hefi'[6] eg förukarlinn
[feilnari[7] séð[8] en hann,
Heyri þetta börnin
og hati óvanann.[9]

35. Heyri[10] þetta börnin
og hugsi[11] slíkt með sér:
Aldrei skal hann Leppalúði
eiga ráð á mér.

36. Aldrei skal hann Leppalúði
eiga börnin mín,
ef þau lesa[12] bænir
og boðorðin sín.

37. Ef þau læra siðgæði,
séu þar með góð.
Blessunin þeim aukist
og bíði hér ljóð.[13]

Hrs. Sv. Grv. 66, eptir Jóhönnu Jónsdóttur = *A*. Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum = *B*. Brot af annari útg, í sama hdr. með sömu hendi, 1., 2., 23. og 25. er. = *C*. Hrs. Á. M. 960. 4to = *D*. 32 erindi. Kvæðabók Jóns Þorkelssonar í arkarbroti, skrifuð af Páli Hjaltalín í Stykkishólmi († 1876) = *E*.

II.

Í staðinn fyrir 5.—11. er. hefir D.

5. »Mér er sagt hún Steinunn
hríni eins og dýr.
Þá vænti' eg hún Sigga litla
sé ekki rýr.

6. Veit eg hann Þorkell
er vanur að bregða' á leik,
því fljótlega úr rúminu
fer hann á kreik.

7. Fljótlega [úr rúminu[14]
og fæst ei þrátt um kver.
Hann væri nú mátulegur
handa mér.

8. Hann væri nú mátulegur
[í minn[15] pokann grá.«
Aptur honum Leppalúða
ansaði eg þá.

III.

Í staðinn fyrir 11. er. hefir E.

»Sitja þau á pallinum?«
segir karl þá.
»Veit eg ei hverju
eg víst trúa má.«

og svo 6., 7. og 8. er. í II.

## Leppalúðakvæði.

1. Hér er kominn hann Leppa-
lúði
leiðinlega stór.
:,: Einn var eg staddur
innar í :,: kór.[16]

---

[1] Labbaði A. [2] síðan D. [3] út AE. [4] einginn förukallinn fríugtari(!) A. [5] með augunum eg A. [6] sá E. [7] fimari D. [8] fylgnari sér E. [9] óvandann DE. 34. er. vantar í A. [10] BDE. [11] BDC. [12] læra BDE. [13] hljóð A. [14] hann hleypur E. [15] að hafa í E. [16] Sbr. 2. er. í Leppalúðakvæði Guðmundar Bergþórssonar.

2. [Einn var eg staddur,
og þá kom hann þar,[1]
:,: kafloðinn belginn
á bakinu :,: bar.

3. Með kafloðinn belginn
kom hann þá hér.
:,: [Það var hans hið fyrsta
hann heilsaði :,: mér.[2]

4. Það var hans hið fyrsta
hann beiddi mig um barn.
:,: [»Þú átt að vera mér
svo gustuka :,: gjarn.

5. Þú átt að gjöra
það gustukaverk.
:,: Varla' er þér það vorkennandi
velmentuðum :,: klerk.[3]

6. Varla' er þér vorkennandi,
að veita mér þá bæn.
:,: Gefðu mér hana Ólöfu.
Ekki' er hún svo :,: væn.

7. Gefðu mér hana Ólöfu
í gráa belginn minn.
:,: Ekki et eg meira
einsamall um :,: sinn.

8. Ekki et eg meira,
og er það nógu frekt.«
:,: Þá hló hann Leppalúði,
og það var skríti-:,: legt.

9. Þá hló hann Leppalúði,
og þá hræddist eg.
:,: Grettist hann allur
grimmilega :,: með.

10. Grettist hann allur
og gjörði svo að tjá:
:,: Ekki' ætla' eg að snópa hér
alt í :,: frá.

11. Ekki' ætla' eg að snópa hér,
þú eyðir frá mér;
:,: tíundina á eg,
að taka hjá :,: þér.«

12. »Tíundina áttu' ekki,«
talaði hinn það.
:,: »Hafa máttu heldur
hundana í :,: spað.

13. Hafa máttu heldur,
hvað sem þú vilt.
:,: Gefa skal eg þér Björn litla,
geðugan :,: pilt.

14. Gefa skal eg þér Björn litla,
gott áttu þá.«
:,: Ærðist hann Leppalúði
og ólmaðist :,: þá.

15. Ærðist hann Leppalúði.
Eg fór þá á burt;
:,: aldrei hefi' eg litið
argari :,: furt.

16. »Aldrei hefi' eg hræddari
orðið en þá;
:,: elti hann mig leingi,
og ætlaði mér :,: að ná.

17. Elti hann mig leingi,
mér óttaði það mest;
:,: komst eg í kirkjuna
og kallaði' í :,: prest.

[1] Sbr. 3. er. í sama kvæði. [2] Sbr. 5. er. sama kvæði. [3] Frá [ Sbr. 29. og 30. er. i Grýlukvæði séra Guðmundar Erlendssonar.

18. Komst eg í kirkjuna,
og kom hann þá inn;
:,: kallaði prestur
í kórdjákna :,: sinn.

19. Kallaði prestur:
»Komdu nú hér.
:,: Hríngdu nú Gísli minn,
og hraðaðu :,: þér.«

20. Hríngdi' hann þá Gísli,
eg heyrði það sagt.
:,: Hljóp hann inn í Búrfell
með höfuðið :,: skakt.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Ríkey Eiríksdóttur, vinnukonu á Atlastöðum.

Jón Ólafsson segir í Orðabók sinni: jólasveinar, að sagt sé, að séra Hallgrímur Pétursson hafi ort Leppalúðakvæði, en ekki þekki eg það.

## Skröggskvæði.

Eignað Guðmundi Bergþórssyni.

1. Eitt vil eg kvæði
kveða til gamans mér,
skemta með því börnunum,
sem skeð nú hefir hér.

2. Skemta með því börnunum,
svo skilji þau nú.
Út gekk eg eitt sinn,
mín ætlan var sú.

3. Út gekk eg eitt sinn,
ætlaði ofan í fjós;
fínt var þá veður,
og fagurt túnglsljós.

4. Fínt var þá veður
og frost nokkuð hart;
sá eg hvar hann Skröggur
skundaði snart.

5. Sá eg hvar hann Skröggur
skrítilegur[1] fór,
ærið mjög var ýgldur
og yfirburða stór.

6. Ærið mjög var ýgldur,
mig óttaði þann segg,
með kafloðna kjálka,
en kolsvart var skegg.

7. Með kafloðna kjálkana,
kampa þandi út;
nasirnar víðar,
og nefið sem á hrút.

8. Nasirnar víðar
og nóg kinnbeinin há;
alt eins voru augun
og það sæi' í skjá.

9. Alt eins voru augun,
eg þetta sá,
hundsbelgur loðinn
var höfðinu á.

10. Hundsbelgur loðinn
[á höfðinu var;
harla stóran klakksekk
á herðunum bar.

11. Harla stóran klakksekk;[2]
heilsaði upp á mig,
með kurteisi nóga,
og knjábugtar sig.

[1] skyndilega. [2] Frá [ vantar í B.

12. Með kurteisi nóga,
og kveður svo til mín:
»Nauðstaddur kem eg,
núna til þín.

13. Nauðstaddur kem eg,
náðaðu mig fljótt;
vildi eg fá að vera
að vísu í nótt.

14. Vildi eg fá að vera
og veittu það mér,
kalt er mér næsta,
og kvölda mjög[1] fer.

15. Kalt er mér næsta,
eg kemst ei leingra nú,
segi eg þér sannleikann
og sver það við trú.«

16. »Þó segir þú mér sannleikann,«
svaraði eg honum þá,
»hermdu fyrst þitt heiti
og hvaðan ertu frá.

17. Hermdu fyrst þitt heiti,
og hver er þín ætt,
ef eg hefi áður heyrt
um hana rætt.

18. Ef eg hefi áður heyrt.«
Ansaði hann þá:
»Skröggur er mitt heiti,
eg skýri þér frá.

19. Skröggur er mitt heiti,
skrafa eg nú um hitt,
hérna upp í hyrnunni,
er heimilið mitt.

20. Hérna upp í hyrnunni,
hefi eg til þess von;
lýstur hefi' eg verið
Leppalúða son.

21. Lýst hefir verið
Lúpa móðir mín,
dáfögur næsta,
dygðug og fín.

22. Dáfögur næsta,
dróst það svo til nú,
giptur var hann Leppalúði;
Grýla hét hans frú.

23. Giptur var hann Leppalúði,
Grýla lagðist sjúk,
heilt lá hún árið
og hrærði ei sinn búk.

24. Heilt lá hún árið,
hlaut minn faðir þá,
biðja sér styrktar
um búið að sjá.

25. Að biðja sér styrktar,
því börn hann átti mörg;
þau voru bæði
þrálynd[2] og körg.

26. Þau voru þybbin
og [það var án[3] stans,
þá fékk hann Lúpu
að þjóna krökkum hans.

27. Þá fékk hann Lúpu,
þæg[4] var honum sú,
furðu mjög var framsýn
og forstóð hans bú.

28. Furðu mjög var framsýn,
[það frétta sérhver má[5],
hann gekk í sæng með henni,
og gjörðist eg þá.

[1] nú. [2] þybbin B. [3] þá var á B. [4] þekk B. [5] féll það svo til þá B.

29. Hann gekk í sæng með henni,
en hún Grýla þar,
fór á fætur aptur,
þá fullbatnað var.

30. Fór á fætur aptur
með fólskulegt geð,
varð hún næsta ybbin,
þá vissi hvað var skeð.

31. Varð hún næsta ybbin
og ýgldi þá sig,
út rak hún Lúpu
og einnig líka mig.

32. Út rak hún Lúpu
ærið lángt sér frá,
ekki vildi hún okkur
með augunum sjá.

33. Ekki vildi hún okkur
unna neins góðs,
þá varð honum Leppalúða
þetta til móðs.

34. Þá varð honum Leppalúða
þrautamikið bann,
eitt fékk okkur eyland
til uppeldis hann.

35. Eitt fékk okkur eyland,
[unnum við svo[1] þá,
og bátskip eitt lítið,
að bjarga okkur á.

36. Og bátskip eitt lítið,
bjuggum við svo þar,
alt til þess að ára tólf
orðinn eg var.

37. Alt til þess að ára tólf,
upp á féll þá,
misti eg hana móður mína
mér í burtu frá.

38. Misti' eg hana móður mína,
mest það harma' eg nú,
einn var eg þar eptir
um árin heil þrjú.

39. Einn var eg þar eptir
[enn svo bar til þá,[2]
herkóngur nokkur,
hélt [Álfheimum frá.[3]

40. Herkóngur nokkur
hélt [Álfheimum frá,[4]
eg vék í ferð með honum
og varð eg glaður þá.

41. Eg vék í ferð með honum,
víst eg um það get,
heyrði eg það skrafað,
að Hángur hann hét,

42. Heyrði eg það skrafað,
að Hángur væri' hans nafn,
við flesta þótti að frægðunum[5]
fremur en jafn.

43. Við flesta þótti að frægðunum[5]
með fjárafla von,
giptur var hann Hángur
og Gnýpa hét hans kvon.

44. Giptur var hann Hángur
gildur höfðíngsmann;
listirnar margar
lét mér kenna hann.

45. Listirnar margar
lærði eg honum hjá,
dávæna dóttur
sá döglíngur á.

[1] til uppheldis B. [2] eitt sinn svo til bar B. [3] að eynni þar B. [4] að eynni þá B. [5] listunum B.

46. Dávæna dóttur,
dygg var hún og trú,
skröfuðu það margir,
að Skjóða héti sú.

47. Skröfuðu það margir,
eg skrökva ekki má,
að drjúga legði eg elskuna
dóttur kóngsins á.

48. Drjúga lagði eg elskuna;
dóttur kóngs eg bað,
eg meinti mér vel geingi
málefnið það.

49. Eg meinti mér geingi,
að mægjast við hann hér;
reiddist þá kóngur,[1]
og réði varla sér.

50. Reiddist þá kóngur;[1]
ráð eg annað tók,
kent hafði hann mér mentir,
en kunnáttuna eg jók.

51. Kent hafði hann mér mentir,
kólna tók mitt geð,
dóttur kóngs eg náði
dimmrúnum með

52. Dóttur kóngs eg náði,
drós mér unni blíð;
vildi eg þaðan halda,
þá hentug var tíð.

53. Vildi eg þaðan halda,
því heitt hún unni mér,
þó heimanfylgju einga
hefði með sér.

54. Þótt heimanfylgju einga
hafa með sér má.
Eptir það héldum við
Álfheimum frá.

55. Eptir það héldum við
Eyrarhyrnu að.
höfum við hér svo verið
híngað til með það.

56. Höfum við svo hér verið
með harla lítinn auð;
meðan við gátum unnið,
okkur veittist brauð.

57. Meðan við gátum unnið
og vorum bæði úng,
við áttum þar börnin,
en ómegðin var þúng.

58. Við áttum þar börnin
tuttugu og tvö,
af þeim dóu[2] fimtán
en eptir lifðu sjö.

59. Af þeim dóu[2] fimtán;
upp ólust hin,
eptir það kom bólan,
sem ekki þótti lin.

60. Eptir það kom bólan
öll þau dóu þá,
síðan af þeim missinum
eg segja víst má.

61. Síðan hefir kerlíngin
karlæg legið mín.
ei kemst hún á fætur,
mér eykur það pín.

62. Ei kemst hún á fætur
eins erum bæði við
[örvasa orðin,
um ölmusu því bið.

---

[1] Hángur B. [2] deyðu B.

63. Örvasa orðin,
af því fýsti mig,[1]
fór eg því híngað,
að finna ætlaði eg þig.

64. Fór eg því híngað
að frétt hafði eg enn,
hvað góðsöm þú værir
við gustukamenn.

65. Hvað góðsöm þú værir
og gustukagjörn,
heyrði eg líka skrafað,
að hér væri börn.

66. Heyrði eg líka skrafað
hér væri piltar tveir,
Guðmundur og Egill
greindir eru[2] þeir.

67. Guðmund og Egil
girnir mig að fá,
[Heyri' eg þeirra hrinurnar
og hljóðin svo há.[3]

68. [Heyri eg þeirra hrinurnar
hvern dag sem nátt[4].
Skrafa það margir,
að Skröggur sé í gátt.

69. Skrafa það margir
eg skríði' gluggum á,
hlusta eg til barnanna,
hvort þau ýli þá.

70. Hlusta eg til barnanna,
og heyri þeirra són,
seldu mér hann Guðmund,
sú er mín bón.«

71. »Eg sel þér ei hann Guðmund«
svaraði eg í stað,
»heimskur ertu Skröggur,
og halda skal eg það.

72. Heimskur ertu Skröggur,
[að hugsa slíkt um sinn[5],
eg gefi þér hann Guðmund,
gæzku soninn minn.

73. Eg gef þér ei hann Guðmund,
því gott barn hann er,
eins er um hann Egil,
aldrei gefst hann þér.

74. Eins er um hann Egil,«
til orða svo eg tek,
»þótt heyra þykist þeirra
hljóðin og brek.

75. Þó heyra þykist þú þeirra
hljóðin svo há,
þá eru þeir að sýngja
Saltarann á.

76. Þá eru þeir að sýngja
sín bænarvers,
[ekki þarftu[6] Skröggur,
að ætlast[7] til þess.

77. [Ekki þarftu[6] Skröggur
að ætlast[7] slíks af mér,
þú ert ei svo haltur
sem hínkrarðu hér.

78. Þú ert ei svo haltur
og haf hér einga dvöl;
musla máttu' í fjörunni
maríkjarna[8] og söl.

[1] Frá [ vantar í B. [2] heita A. [3] B. [4] B. Í A. er seinni hlutinn á 67. er. og 68. er. og fyrri hlutinn á 69. er. úr Grýlukvæði séra Guðmundar Erlendssonar (seinni hlutinn á 5. er., 6. er. og fyrri hlutinn á 7. er.) og á því ekki heima hér. [5] ef hugur er það þinn B. [6] heimskur ertu B. [7] hugsa B. [8] um murukjarna B.

79. Musla máttu' í fjörunni
maríkjarna[1] um sker,
grásleppuskinnin
gefast nóg þér.

80. Grásleppuskinnin
gefast þér í plóg;
í Hyrnunni[2] er hjá þér
af hrafnseggjum[3] nóg.

81. Í Hyrnunni er hjá þér,
heyra máttu það,
þá máttu brytja
þér alla í spað.

82. Þá máttu brytja,
svo þú sért nokkru nær,
ekki þarftu að svelta,
ef alt þetta fær.«

83. »Þó ei þurfi eg að svelta,«
ansar hann þá,
»það er ekki af þínu,
þótt þetta megi' eg fá.

84. Það er ekki af þínu
og þá espaði' hann sig;
þá gjörðist hann svo reiður,
að gleypa ætlaði' hann mig.

85. Hann gjörðist svo reiður
gegndi eg honum þá:
»Lifur og lúngu
úr lambi skaltu fá.

86. Lifur og lúngu
láttu lynda þér.«
Gladdist þá Skröggur
og gjörði þakka mér.

87. Gladdist þá Skröggur
og gekk sig svo á burt:
hefi eg ekki síðan
af honum neitt spurt.

88. Hefi eg ei heyrt síðan
hvar hann heldur sig.
Virði menn til góða,
sem um vísu báðu mig.

89. Virði menn til góða,
vísna stirðan són.
Blessuð veri börnin.
Bragar hverfi tón.

Hrs. J. Á., A XII, 537. XX, 353. = *A*, afskript Jóns Sigurðssonar í hrs. J. Sig. 398, 4to. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. P. = *B*.

## Skröggskvæði.

1. Heyrði' eg í skinnunum
skurk mikið var.
Eitthvað skauzt innum
og út um dyrnar.

2. Eitthvað skauzt innum
og út læddist fljótt;
komið var í dyrnar
kvikindi ljótt.

3. Komin var í dyrnar
kátleg ósýn,
allan mig firnar,
hún æddi til mín.

4. Allur var hann utan
eins og loðið skinn.
Lét hann þar við lafa
leðurbelginn sinn.

---

[1] murukjarna B. [2] = Eyrarhyrna B. [3] hrafnsúngum B.

5. Lét hann þar við lafa
laung eyru' og síð;
mér sýndist hann hafa
mórauð augu' og víð.

6. Mér sýndust nasirnar
vera sem önnur gjá;
hékk þar úr hordíngull,
hylgrænn að sjá.

7. . . . . . . . . . . . . .
. . . . . . . . . . . . . . .
Heyrðist mér hann heilsa,
hræddur varð eg þá.

8. Heyrðust mér börnin
hljóða belgnum í.
»Hvað heitir maðurinn?«
Honum gegndi' eg því.

9. »Skinnskröggur nefnist eg,
skjaldan[1] þess dyl.
Hver eru börnin,
sem heyrði eg til?

10. Hver eru börnin
sem hljóðuðu még?«[2]
»Ekki veit eg af þeim,«
ansaði ég;

11. »ekki' eru hér inni
nein ólátahljóð.«
»Heyrði' eg«, sagði' hann Skröggur,
»á hleri eg stóð.

12. Heyrði' eg sagði' hann Skröggur
hljóðalag mest.
Hann Bernharður ber sig
af börnunum verst.

13. Hann Bernharður ber sér
á báðum höndum kló;
mest við hana móður sína
marglátur þó.

14. Mest við hana móður sína
marglátur er,
hann vil eg bera
í belginn með mér.

15. Hann má vel fara
á höfuðið þar inn,
og hafa fyrir hettuna
húfubelginn minn.

16. Hafi' hann fyrir hettuna
hráan folaldskeip.
Annmarka börnin
allmörg eg greip.

17. Annmarkabörnin
eru þau líka hér.
Seldu mér eitt þeirra,
svángur eg er.

18. Seldu mér eitt þeirra
svo sem upp á frest.
Um það barnið bið eg,
sem brekin hefir mest.

19. Um það barnið bið eg,
sem brekin nógleg kann;
heyrist mér 'hann Haldór litli
hafa vanann þann.

20. Skýzt eg fram úr skugganum
þá skunda börnin út;
bregð eg þeim í belginn minn
og bind fyrir ofan hnút.«

---

[1] = sjaldan [2] = mjög.

Skröggur skekur sinn hala,
skundar hann heim til dala,
veflir hann hvoptinn vala,
vill hann börnin fala.
Um það er hann að mala
inni' ef að nokkur skepna hrín.
Þegiðu blíðust barnkind mín.
Ítar um það tala
þá úti' er kafalds mugga,
þegar hann teygir trjónuna fram
úr skugga.

Skröggur í gátt er geinginn,
grimmari finnst mér einginn,
rekur upp kryppukeinginn
og kallar á litla dreinginn,
bæði með hatt og heingi.
Hann er kominn að vitja þín.
Þegiðu blíðust barnkind mín.
hristir hurðarþveinginn,
úr hvoptinum hángir[1] tugga
þegar hann teygir trjónuna fram
úr skugga.

Báðar vísurnar eptir sögn Sigurðar kaupmanns Sæmundsens. Seinni vísan í hrs. Sv. Grv, 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Margréti Magnúsdóttur, prestkonu á Snæfjöllum.

## Dúðadurtskvæði.

Eptir Hallgrím prófast Eldjárnsson á Grenjaðarstað († 1779).

1. Hér er kominn Dúða-
durtur,
digur bæði og hár,
bíður hann fram í bæjardyrum,
bröndóttur og grár.

2. Bíður hann fram í bæjardyrum,
bar hann þar fyrir mig.
Hann spurði' eg að heiti;
þá hristi hann allan sig.

3. Hann spurði' eg að heiti,
því hafði hann ei fyrri séð;
skældi hann sig og skrækti,
og skrafaði reiði með.

4. Skældi hann sig og skrækti:
»skrítilegt það er
ef mig þekkir ekki,
alkunnugan hér.

5. Ef mig þekkir ekki
af honum föður mín,
Leppalúða heitnum,
sem laungum kom til þín.

6. Leppalúða heitnum,
sem líkur er eg þó,
og Grýlu móður minni,
sem með honum leingi bjó.

7. Og Grýlu móður minni,
sem margan krakkann fékk,
þá belginn bar hún gráan
og bæja milli gekk.

8. Þá belginn bar hún gráan,
[á bæ kom opt[2] til þín,
en aldrei nema illa
erindin gengu sín.

9. En aldrei nema illa
við aumingjann þér fór,
þó hrini' í hærra lagi
hópurinn barna stór.

---

[1] góflar. [2] að Bægisá kom BC.

10. Þó hrini í hærra lagi
hann Eldjárn og hann Jón,
Þorsteinn líka þótti [bjóða
þjösnalegan tón.[1]

11. Þorsteinn líka þótti
og þær systurnar hans,
Snjálaug og hún Ólöf
slæman[2] höfðu dans,

12. Snjálaug og hún Ólöf,
með snöktinu[3] sín,
passlegar þær þóttu
í poka móður mín.

13. (Passlegir [þóttu[4] henni[4],
og[5] piltarnir[6] þar í,
en þú máttir[7] ekki,
eyða hyski[8] því.

14. En þú máttir[7] ekki
af því neinu sjá,
fáum fórst miður,
þá fátækum lá á.

15. Fáum fórst miður
við foreldrana mín;
von er á tánganum
verði getið þín.

16. Von er á tánganum
verði þitt nafn,
ekki sem fegurst;
þú fæstum er jafn.

17. Ekki sem fegurst
þótt það sé þar;
híngað kom[9] eg áðan,
því húngraður eg var.

18. Híngað kom[9] eg áðan,
eg hugsaði svo margt,
ef[10] hún Rósa ærist
og æpir svo hart.

19. Ef[10] hún Rósa ærist
eins og talað er,
bezt er þér að beina
barni þessu mér.

20. Bezt er nú að beina mér
og bæta svo þitt ráð,
[þó aldrei verði hið umliðna
alveg afmáð.[11]

21. Þó aldrei verði hið umliðna
afskafið slétt,
bætir þó talsvert,
að breyta síðan rétt.

22. Bætur tel eg góðar,
ef börnin fæ eg þrjú;
eg trúi ekki öðru en pokinn minn
taki það nú.«

23. »Eg trúi helzt þú farir með hann
tóman núna heim,«
það hrópaði eg í bræði
yfir bolakarli þeim.

24. Eg hrópaði í bræði:
»Burt með þig, þitt svín;
hugsaðu ei þú fáir
heilla börnin mín.«

25. Hugsaði sér Dúðadurtur
dávænast þá,
að halda sig sem bráðast
húsum mínum frá.

---

[1] Frá [ þá með leiðum són C. [2] BC, saman höfðu í dans, A. [3] BC, skröltinu. A. [4] voru þeir C. Frá ( Passlegar voru þær B. [5] sl. C. [6] píkurnar B. [7] tímdir BC. [8] pakki BC. [9] hljóp C. [10] af því C. [11] seint hefir margur að sómanum gáð C.

26. Hélt hann niður af tánganum
og tautaði af móð,
að brátt hann kæmi aptur,
ef barna heyrði hann hljóð.

27. Svo kom hann aldrei aptur,
öll voru börnin góð;
dvína þannig læt eg
mín Dúðadurts ljóð.

Handrit frá Jóni Árnasyni = *A*. Hrs. Bmfj. 605, 8vo = *B*. (Þorsteini Þorsteinsson á Upsum, eptir séra Baldvini Þorsteinssyni á Upsum, sonarsyni séra Hallgríms, en hann nam af föðursystur sinni Snjólaugu, móður Hallgríms Schevings). Hrs. J. Sig. 282, 8 með hendi séra Daníels Halldórssonar á Hólmum = *C*. Afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118.

## II.

21. »Seint hefir margur
sitt betrað ráð.
Gef mér hana Rósu,
því girnd mín er bráð.

22. Gef mér hana Rósu,
með grátkjökrið sitt,
píkan er passleg
í pokatetrið mitt.

23. Píkan er passleg
í pytluna[1] mín;
svo verður á jólunum
soðníngin fín.

24. Svo verð eg á jólunum
sæll; það eg veit.
Hún er svo þrýstin
og herlega[2] feit.

25. Hún er svo þrýstin,
að hrósa skal eg þér
út um allan Aðaldal,
ef ei neitar mér.

26. Út um allan Aðaldal.«
Ansaði' eg þá:
»Hér verður hún Rósa,
hana skaltu' ei fá.

27. Hér verður hún Rósa,
en heilsaðu frá mér
klerknum í Nesi,
hann kann að bjarga þér.

28. Klerkurinn í Nesi
á kostulegt barn;
örlátur er hann
og ölmusugjarn.

29. Örlátur er hann,
en að því skyldir gá,
kauðinn hann Keli,
hún klerk föður á.

30. Kauðinn[3] hann Keli[4]
kann að hitta á;
nær húsvitjun er haldin
hvar lendir þá?

31. Nær húsvitjun er haldin,
honum væri bezt,
vingott að eiga
við gestinn, hann prest.

Handrit frá Jóni Árnasyni C.

[1] pínklana C. [2] þriflega C. [3] Kauðann C. [4] Kela C. Keli, húsgángur sem börn voru hrædd á.

III.

16. Veit eg á tánganum
verður þitt nafn,
því klerkurinn í Nesi
á kostulegt barn.

17. Því klerkurinn í Nesi
kann það að sjá,
fororðnínga fróður
finnst maður sá.

18. Fororðnínga fróður
[fyrst hann svo er,
sveiar hann Grýlu,
Leppalúða' og þér.

19. Sveiar hann Grýlu,
segir svo skraf,
að Kristján hafi sjöundi[1]
klárt tekið af.

IV.

21.—25. erindi eins og í II.

26. »Ut um allan Aðaldalinn.«
Ansaði eg þá:
Hirði' eg ekki' um hrós þitt,
því hana skaltu' ei fá.

27. Hirði eg ei um hrós þitt
úr hræsnis orða geip;
sagt er að eg sitji
samt við minn keip.

28. Sagt er að eg sitji,
og syrgi ei par,
hvað sem á tánganum
hjalað um mig var.

29. Hvað sem á tánganum
heyrist um mig.
Hér verður hún Rósa,
en hafðu' í burtu þig.

30. = 27 í II.

31. = 28 í II.

32. Örlátur er hann,
að því skal gá;
fororðníngafróður
finnst klerkur sá.

33. = 18 í III.

34. = 19 í III.

35. Kristján ekki sjötti
Kela minnist á,
sem pjakkar út að garði
með pokann sinn grá.

36. Sem pjakkar út að garði
þar prestsdóttirin
þykir vera þrýstin
og þrifleg á kinn.

38. Þykir vera þrýstin,
þar að skal gá,
kauðinn hann Keli
klerk föður á.

38—39. = 30—31 í II.

[1] sjötti C.

## [Kóngulóarkvæði].

1. Hafi þið börn mín heyrt um það
hvað hér kom um daginn.
Þið farið ýmist út á hlað
ellegar fram í bæinn.

2. Eg hefi bannað ykkur fyr
út í kulda að reisa,
skal það ei satt þið sitjið ei kyr
eða séuð leingi að geisa?

3. Komin er hér kind ei sein,
kynja fljótt sem andi,
hefir sú læðzt úr hólunum ein
hér að Brúarlandi.

4. Hún er kölluð Kónguló,
komin frá Snjólfi mínum,
enn man hann til ykkar þó
út í kofanum sínum.

5. Hún er altíð hverja nátt
hérna í stofu minni,
hana hefir hann eflaust átt
við henni Grýlu sinni.

6. Hornin hefir hún tvíllaust tvö
og trjónu upp úr herðum,
ánga og fætur einn og sjö.
Ekki' er gaman á ferðum.

7. Aptan er vömbin ofsa stór,
eingin í henni görnin,
túngan grá sem gjall eða mór;
gleipir hún í sig börnin.

8. Hennar er líka húðin grá,
heldur á laungu skapti,
tennur sterkar og stórar að sjá
standa þvert í kjapti.

9. Alt nær horinn ofan á skó,
sem út um vitin geingur,
sífellt froðu fellir þó;
fæturnir eins og þveingur.

10. Þeir eru hærri þó en hún
með þremur hvössum krókum,
ógna mikil undir brún
eins með sneplaflókum.

11. Í vor þá úti vatna tók
vóf hún sér gráan poka,
ofan ryktan eins og brók
og fyrir stór járnloka.

12. Millum tveggja hóla hann
hátt upp festi' á færi;
börnunum safnar í belginn þann,
svo burt sig hvergi hræri.

13. Hvenær sem þau hafast að
hvað sem þeim er bannað,
alt veit Snjólfur einninn [það],
og svo fleira annað.

14. Hann vill að þau séu sett,
sýngi vel og læri,
venji sig að signa rétt
sem þeim skipað væri.

15. En þegar þau gjöra ekki að
og eru með forgáng réttum,
sannlega heyrir og sér hann það,
þótt sé á bæjar klettum.

16. Það var um daginn þegar hann sá
þið voruð úti hérna,
reiddist hann og ræddi þá
raun er mér að térna.[1]

[1] = tarna.

17. »Kæra dóttir Kónguló«,
kallinn þá svo orkti,
»meðan hún Grýla móðir þín
bjó,
mat oss aldrei skorti.

18. Vön var sú að veiða börn,
verka síðan og sjóða.
Hún kramdi þau sem kánkvís
örn,
en krakkarnir voru að hljóða.

19. Ellimóð er orðin sú,
en eg farinn af lúa.
víst er það að verður þú
vegna okkar að búa.

20. Ertu bæði úng og hraust
okkur að veita fóður,
á þig set eg alt mitt traust,
að annast föður og móður.

21. Farinn er eg fótum í
fram í dali að gánga,
bilast eg að bera því
börnin leið svo lánga.

22. Þú hefir fjölda fóta hér,
sem frekt þig kunna' að styðja,
aldrei hefi' eg átt á mér
utan hálfan þriðja.

23. Flýttu þér og farðu' á stað,
færðu' oss nokkuð sjóða;
þá skal brytja börn í spað
og búa til veizlu góða.

24. Hrinurnar þau sem hafa enn
Höfðarepp í kríngum,
eyða skaltu öllum senn
eins og smátitlíngum.

25. Á Nýlendu fyrst taktu til
þar tómlát börnin eru,
þau gjörðu sér tíðum gaman-
spil
þá Gvendur og Sveinn minn
reru.

26. Séu þeir ekki heima hjá
hættu þær að þjóna,
leika sér og letjast þá
að lyppa, spinna og prjóna.

27. Gánga skaltu um Grinda hlað,
gættu að Björgu minni;
hlustaðu til og hygðu að
hvort hrín hún í bænum inni.

28. Ef hún hagar ekki sér
sem önnur dándipíka,
láttu' hana fá að fara með þér,
og færðu mér hana líka.

29. Þaðan skaltu ferðast frá
fram að Brúarlandi,
börnin úti [þramma] þá,
sem þeirra er gamall vandi.

30. Hremdu þau í þína vömb,
þegar þú kemur á hlaðið;
þau eru feit sem fjallalömb
og færðu mér þau í spaðið.

31. Íngu og Jóni allra bezt
eg bið þig að halda,
því eg á báðum þessum mest
fyrir þrautagrátt að gjalda.

32. En varast skaltu vondan prest
að viti' ei komu þína;
er honum lánuð illskan mest
uppá síðu mína.

33. Bera má til í bræði hann
byssuna taki sína,
og skjóti þig, sá skemdarmann,
svo skuli þig dauðinn pína.

34. En þótt grandi' hann þér með
geðið ramt
og gjöri' í stykki' að skjóta,
þú aptur skríður saman samt;
svoddan er gott til bóta.

35. Á Skuggabjörgum skjóztu
inn,
og skundaðu um allan dalinn,
tíndu börn í belginn þinn,
bæði feit og valin.

36. Í Unudal og út um Strönd[1]
alla skaltu geisa,
hremdu börn í hvora hönd
hvar þú gjörir að reisa.

37. Að Garðshorni þá beygðu
brátt,
og beittu' ei sinni körgu,
vertu þá með geðið grátt
og gríptu' hana Íngibjörgu.

38. Jón Gíslason þekki þar,
þér á móti tekur,
vífinn stundum við stúlkurnar,
með straumunum nógu frekur.

39. Í pokurs nafni mundu mig
þó miðli' hann brögðum sínum,
heilladóttir, hugsaðu' um þig,
og haltu meydóm þínum.

40. Gröf um leið þín liggja skal,
í leyni skaltu þig fela,
þar er bezt á börnunum val,
berðu þig þeim að stela.

41. Ragnheiði skaltu' ei minnsta
mein,
mæta dóttir, vinna,
því ber það nafn sú baugare
sem bezt er góðs að inna.

42. Þorlákur hefir þúngan mó
til þín og fólkið fleira,
kannske hann láti klukkuhlj
koma þér við eyra.

43. Vertu ei sem töfra tröll,
taktu ráðið betra,
fyltu vaxi eyrun öll,
eldra en fárra vetra.

44. Utan að og inn í Hlíð[2]
allan neðra veginn,
gaktu þá, með grimdar stríð
og gættu' að beggja meginn.

45. Þar eru börnin mörg sem n
eða mest þá fellur drífa,
hönd í bagga hafðu því,
og hirtu þeim ekki hlífa.

46. Högg á vatni sízt mun sjá,
þótt sækir byrði þína,
fæðu nóga fæ eg þá
fyrir Grýlu mína.

47. Kampar hún, þá þú kemur
heim,
ketið alla morgna,
því leingi' er eptir lag hjá þeir
sem liðsmenn voru til forna.

48. Veri því börnin siðuð og sett
signd með marga krossa
hendina framan í höfuðið rét
helgra gæti hnossa.

49. Að fræðum og bænum gæti
grant,
gott er slíkt að læra.

[1] = Höfðaströnd. [2] = Óslandshlíð.

Snjólfi er þá í eingu ant
ykkur til sín færa.

50. Stillilega stafi[1] á bók,
starfa gæti sinna;
maðurinn sjálfur í mál ei tók
mein þeim börnum vinna.

51. Aldrei kemur Kóngúló
kyndug þeim að granda,
liggur opt í leynum þó
ljót að sínum vanda.

52. Hennar þáttur því skal nú
þennan enda hafa.
Börnin bið eg trygg og trú
að treysta því eg skrafa.

Hrs. Bmfj. 464, 8vo.

## Ókindarkvæði.

1. Það var barn í dalnum,
sem datt ofan í gat,
en þar fyrir neðan
Ókindin sat.

2. En þar fyrir neðan
sat Ókindin ljót.
Náði hún því naumlega
neðan í þess fót.

3. Náði hún því naumlega
neðan í barn;
hún dró það út um dyrnar
og dustaði við hjarn.

4. Hún dró það út um dyrnar
og dustaði við fönn;
ætla eg að úr því hryti
ælítil tönn.

5. Ætla eg að úr því hryti
augað blátt.
Hún kallaði með kæti
og kvað við svo hátt.

6. Hún kallaði með kæti:
Kindin mín góð;
þetta hefir þú fyrir
þín miklu hljóð.

7. Þetta hefir þú fyrir
þitt breka stát,
maklegast væri
eg mínkaði þinn grát.

8. Maklegast væri
eg mínkaði þinn þrótt,
og Ókindin lamdi það
alt fram á nótt.

9. Og Ókindin lamdi það
í þeim stað,
þángað til um síðir,
þar kom maður að.

10. Þángað til um síðir
þar kom maður einn.
Upp tók hann barnið,
ok ekki var hann seinn.

11. Upp tók hann barnið
og inn í bæinn veik,
en Ókindin hafði sig
aptur á kreik.

[1] stafa, hdr.

### Vísa um Jólasveina.

Teista, Freista telja ber,
Tumás, Magnús eptir fer.

Jólasveinar gánga um gólf
[með gyltan[2] staf í hendi.
Móðir þeirra sópar gólf

Þorláksdagur þrifinn er,
þá [kemur' hann Aðfánge.[1]

og strýkir[3] þá með vendi.
[skarpan hafa þeir skólann undir hendi.[4]

Helgi Sigurðsson, Safn til bragfræði íslenzkra rímna 1891, bls. 71 = *A.* Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Sigríði Oddsdóttur, prestskonu á Stað í Aðalvík = *B.*

Jólasveinar einn og átta
ofan komu' af fjöllunum;
í fyrra[5] kvöld[6] [þá fór eg[7] að hátta
þeir[8] fundu' hann Jón[9] á Völlunum.
Andrés[10] [stóð þar[11] utan gátta,
þeir ætluðu að gefa[12] hann tröllunum,
[en hann beiddist af þeim sátta,
óhýrustu[13] köllunum,
og þá var hríngt öllum jólabjöllunum.[14]

AM. 969, 4. með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum. Hrs. Bmfj. 340, 8 = *B.* Fyrri hlutinn. Þjóðsögur Jóns Árnasonar I, bls. 220. Sbr. Tímarit Bókmentafélagsins XII, bls. 123. Jón Ólafsson, Stafrófskver 1889, 1891, 1892, bls. 31 = *C.* Þess má geta, að J. Ól. Grv. segir í orðabók sinni, jólasveinar, að jólasveinar heiti meðal annars Jólaskó-dóli og Skinnsokka-brokkur, en hér hefir hann eflaust ruglazt í ríminu og ruglað saman nöfnum jólasveinanna við vísuna, sem tröllkonan mælti fram við Árum-Kára í Selárdal, sbr. Þjóðs. J. Árn. I, bls. 505—508. og hrs. Á. M. 970, 4to, Saga um Árum-Kára frá séra Ólafi Sívertsen. Enn er um jólasveina í ritgjörð Jóns Ólafssonar um jól í hrs. Á. M. 1011, 4to.

Af Hugsvinns ráðum hafið þið fátt,
að hjala svo margt í skugga.
Eg hefi' heyrt í alla nátt
andardrátt á glugga.

Eptir hrs. Á. M. 276, 8vo. Hönd Gísla Konráðssonar. Sbr. Ark. f. nord. Filologi IV. 1888. (Jón Þorkelsson, Íslenzk kappakvæði).

Við skulum ekki hafa hátt,
hér er maður á glugganum,
hann er vanur að henda smátt
og hylja sig í skugganum.

Hrs. Bmfj. 340, 8vo, með hendi séra Stefáns Þorsteinssonar á Völlum.

---

[1] er soðið alt ketið. [2] hafa A. [3] hýðir A. [4] Frá [ B. [5] fyrri B. [6] nótt B, dag. [7] þeir fóru C. [8] og. [9] Eyða fyrir nafninu A, Bjarna B. [10] Eyða fyrir nafninu A, Ísleif B. [11] hittu þeir C. [12] færa C. [13] óvægustu C. [14] Frá [ Margir góla úti' á völlunum A.

Við skulum ekki hafa hátt.
Hér er margt að ugga.
Eg hefi heyrt í alla nátt
andardrátt á glugga.

Sbr. vísu úr kvæði eptir Þórð Magnússon á Strjúgi, sem nú mun vera týnt að mestu:

Karlinn [upp í[1] klöppunum
klórar sér með löppunum,
baular undir bökkunum,
og ber sig eptir krökkunum
á kvöldin.

Um Grímseyjarkallinn í Grímsey. Þjóðs. J. Árn. I, 221, eptir hdr. séra Jóns Norðmanns.

Karlinn upp í klöppinni,
keipabörnin hrekur,
lemur þau með löppinni,
litla Jónka tekur.

Breytt er um nafnið eptir því hvað barnið heitir, sem vísan er kveðin við. Hrs. Bmfj. 605, 8vo, með hendi Þorsteins Þorsteinssonar á Upsum.

## Dillir og Dumma.

Foríngjar Heródesar hétu Dillir og Dumma og stóðu þeir fyrir barnamorðinu í Betlehem. Þessvegna verður börnum ekki betra gjört en þegar þeim er sagt lát þeirra og þetta raulað fyrir þeim:

[Dillir dó[2] og Dumma.
Sástu[3] hvergi hvítan blett
á bakinu á honum krumma?
[Dillir dó[2] og dumma.

AM. 277, 8vo, með hendi séra Páls Erlendssonar á Brúarlandi 1846.

II.

Dó, dó og Dumma.
Dagur er fyrir sunnan.
Kalt er honum krumma;
kúrir hann á fönnunum.
Það má gjöra góðan sták,[4]
og gefa hann ríkismönnunum.

Þey, þey og haf ei hátt,
hér dunar undir;
er stigið ekki smátt
um fold og grundir.

Boli litli' á balanum
býsna rámur er hann;
hefir hvítt í halanum,
heim á bæi fer hann.[5]

Boli kemur og bánkar á
hurð
og biður upp að ljúka.
Við skulum ekki skyrinu öllu
úr Skagafirði ljúka,
segir hún Gunna kjúka.

Boli, boli bánkar á dyr
með bandinu sínu lánga.
Láttu ekki' hann Hóls-bola
heyra til þín Mánga!

---

[1] undir. [2] Dillidó, Dó, dó. [3] sérðu. [4] Gælunafn á strák. [5] hafið þið piltar séð hann?

Boli litli baular lágt,
býsna rámur er hann.
Eitthvað á hann ofurbágt
innan húngrið sker hann.

Boli bánkar á dyr,
ber hann á með staungum;
berja[1] vill hann börnin þau,
sem belja fram í gaungum.

Boli, boli bánkar á dyr,
ber hann á með hnalli.
Hann vill eiga börnin þau,
sem gráta undir[2] palli.

Hrs. J. Árn. BXXI, bls. 163, afskript í hrs. J. Sig. 398, 4to.

Boli frammi baulaði,
Bleikur heyið maulaði,
golan úti gaulaði,
glugganum á raulaði.

Hættu' að gráta Mángi minn,
margt er nú á slóðum;
boli kemur í bæinn inn
og bregður upp sínum hljóðum.

Kuldaboli gjörir gat,
gægist inn á barnið.
Við skulum gæzkan fara' í fat
og fæla 'hann í burtu skarnið.

Boli kemur bánkandi,
börnum eptir lángandi,
gaungin framan gángandi,
með gaddakylfu stángandi.

Boli bánkar á hurð,
biður upp að lúka.
Þegar hann sér á bæjunum rjúka
[lætur hann yfir] steinana strjúka.
Gott er að ríða sandana mjúka,
það gjörir ekki hestana sjúka.

AM. 241, 8vo, 120. bl., með nýlegri hendi.

---

[1] bíta. [2] inn á.

# Þulur og þesskonar.

## Þornaldarþula.

[1]Hlýði [menn fræði mínu[2]
meðan eg segi [sök mína í sleða[3].
Það var [fyrir sann[4]
faðir minn bjó;
[hann átti sér það greni[5]
sem aðrir melrakkar áttu sér [í seli[6].
[Er Þornaldur[7] bóndi á þíngi?
[Já, hér mig, son minn og eg[8]
og hér stöndum vær þrír Þornaldarnir.
Eigi veit eg eptir hverjum Þornaldi þú spyr.
Eg spyr eptir Þornaldi Þornaldarsyni[9]
[Valnafarsyni,[10]
[austanhalt[11] úr Vopnafirði.
[[12]Hér máttu hann sjá
[teitan og heitan
ómúsétinn, ómelskorinn,[13]
[Þorgautur níðíngur.[14]
Svo [er mér í minni[15]
sem við [munum sézt hafa.[16]
Hvar [sáumst[17] við?
Við [sáumst[17] á landi,
og ekki á landi,
það var á miðjum Þjórsársandi.
Hvað hafðir þú til [merkis, hvort þú sást mig
heldur en[18] annan mann?
Þú hafðir bróklindann brasaðan,
[járnhattinn[19] tinaðan
kápu kollótta,
[reiddir krókaspjót um öxl þér,[20]
reiðst alsvörtum uxa,
[brynjuðum[21] að bógum fram

---

[1] Í Hα er byrjunin þannig: það var fyrri hann faðir minn bjó, hann átti sér það að seli, sem aðrir melrakkar höfðu sér að greni, eða mun Þórnarður bóndi á þingi? Hér skaltu hann sjá, teitan og feitan, (ó)maðksmoginn og moldfreðinn (ómaltryðinn). Hér stóðum við þrír þórnarðarnir, etc. [2] [fólk fræði minni B. [3] sekt mína á slóða, C; sögu mina E. [4] eitt sinn, B. [5] [og átti sér grensmunna, B. [6] v. B. [7] Er nokkuð þórnaddur, C. [8] Hér stend eg og sonur minn, B. [9] þórnaðarsyni. C, þórnafars. D. [10] Valnarðarsyni, BC. [11] austan alt, B. vestan alt, C. vestanhalt, G. [12] C bætir inn í: Heyr þú mig, son minn. [13] eigi teitan né reitan, eigi músétinn eigi melsk., B. Hβ. óreittan, óteittan. ómaðkétinn, ómúsfretinn. þorn. níðíngur, þú ert mér í minni, G. [14] v. B. ómúsétinn, ómoldfretinn úr þorgerði niðíngi, C. þorgerður níðíngur, F. [15] var mér í munn kennt, C. [16] sézt höfum fyrri, B. [17] sáustum, B. [18] marks (auðkennis, C) um það þú þektir mig fram yfir, B. [19] björnhattinn, B; bjarnh. CD. [20] v. B. [21] brynjaður. B.

[lézt svo[1] brokka á [þíngið[2]
[Þornaldur bóndi.[3]
Fleiri menn voru í ferð með mér.
{Hvað hétu þeir?[4]
[[Hann hét Dummkeli Dalason;[5]
ei var mér kenníngarnafn hans
kunnugt.[6]
Móður mundi [hann sér þó átt hafa;[7]
Hvað hét hún?
Hún hét mús og más,
hlöður fjórar,
Tungltýfa, Tréfríður hét hún.[8]
[þó borð bæði
Bauthildur gauta;[9]
[[verður því að leingja nafnið meyjarinnar,
að dauður var faðir hennar og móðir
fyrir tíu árum
áður mærin kom í heiminn.
{Hún varð að heita
Höppum, Skjöppum,
Þórtöppum, Höfuðöppum[10]
fyrst Restella[11]
þá Rumbansystir eða hvað hún
heitir
Belginhvopta,
Flasingása,
Apturskvetta,
Andarnefja
Skarfur og Skyrfullur[12]
Velskrifaður.[13]
[Barnsgrátur í bæ,
blæðir undir rúmstokkum,[14]
[silfurþræðir þrír
og slefu gerði.
Ambátt átta eg mér eina;
hún gekk næst þeirri beztu[15] og
verstu.[16]
Móðir lofaði [mundelyrði,[17]
mokaði hún með reku stirðri,
vann hún allt það sem bú bætti,
[barn gjörðir þú þeirri,[18]
Þórnaldur bóndi.
[Hverju ætlar þú að launa mér[19]
fyrir bauginn hinn tvítelta[20]
[þá þú laugst upp á mig[21]

[1] léztu, B. [2] þíng fram, B. [3] v. B. Ha bætir við: skauzt úr loga rauðum, og satt var það. [4] Eigi var kunnugt nafn þeirra, B. [5] Það hétu Dummkeli og Dalási, C. [6] Ekki voru mér kenníngarnöfn þeirra kunnug, D. [7] Dumkela Dalaása sér, C. Dumkerin Dalaást sér, D. [8] Frá [[

Ása átti sér,
hvað hét hún?
Dulkurinn Dala.
Músa og Mása
Túntýfa, Tréfríður
og töðuhlöður fjórar. B.

[9] átti börn bæði etc., seinna í B. [10] höfuðöppum og þórtöppum, D. [11] Fisrisla og rún, D. [12] Skarnhala og Skinnfullur, D. [13] Frá [

Verður hún því að heita
hoppum og skoppum,
jafndoppum og stórtoppum
Austurskota og Arinnefja,
Rumbansystir, Flakingása,
eða hvað hún heitir.
Átti börn bæði
Bauthildur gauta. B.

[14] seinna í B. [15] Gekk næst þeirri helztu móður, E. [16] Frá [ vantar í B. [17] undir niðri, B. Mundilyrði, D. Frá [[ Verður þá að leingja nafnið meyjarinnar, því foreldrar hennar voru bæði dauð 14 árum áður en meyjan var fædd: Fyrst er Ristill rása, svo Mánar-kvása, svo er Belgjan hvopta, svo er Attur-skotta, svo er Randanefja, svo er Skarfur skýfugl, Velskrifandi, silfurþræðir þrír að slögu gjörðir, og satt er það. Móðirin talaði mögur-yrði o. s. frv. H. [18] Brandur á Sýrlandi, fjórar slefugjarðir, barn gaztu við henni, B. [19] Barnsgrátur er í bæ, blæðir undir rúmstokkum, hverju viltu o. s. frv., B. [20] bauginn tvítólfta, B. Þornaldur bóndi, hverju ætlarðu að bæta mér í bauginn Títo, G. [21] fyrir lygina þá, sem þú laugst á mig, B.

algjörðri sök á þíngi,
[Þórnaldur bóndi?
Eigi ræði eg um það.[1]
Hvar er sök?[2]
[Sökin[3] er í sjóði,
sjóður er í [belgi.[4]
[belgur er í bandi,[5]
[bandið[6] er í keri,
[kerið er í jörðu,
jörðin er í búri,
búrið er í lási.[7]
[Lyklar munu þar að gánga[8]
[Þórnaldur bóndi.[9]
Hvar hánga þeir?[10]
Þeir hánga [á kíngunni
á bríngunni
hjá Þórnaldsdóttur,[11]
þar Bessi brann í grautarkatlinum
[fyrir sjálfa Jakobsmessu.[12]
Hvað [skal eg hafa[13] til merkis um það,
[hvort eg kenni hana heldur en aðra
konu?[14]

Kenna muntu[15] konuna,
sem keinginn[16] hefur á bríngunni,
valbrána á kinninni,[17]
vörtuna á styrslunni,[18]
há og mjó [er rennlan,[19]
[rennt í rauðu aptan,
svo muntu flestar vita manninum
gefnar.[20]
Satt er það.
[Út ríður Arngerður hnúka,[21]
önnur kona Þorgerður stúka,
þriðja var þar [Geirlaug glyðra,
þar var dregin flyðra.[22]
Götur látum vér gaungla,
Gunnlaugur ríður í þaungla[23]
hefur hann kápu felda,
[fetar stórt[24] sem klerkar;[25]
[þá buldi á brúnum,
þá vér bjuggum með bændum vorum.
Brandur er á Sýrlandi.[26]
Öðruvísi var þá í heimi vorum.

[1] v.. B. ekki er hægra, ei er hjá mér silfur, C. [2] silfur, C. [3] sök, B. silfur, C. [4] bandi, BC. bígli DEF. [5] v. B. Band er í bígli, C. Bígl er í bandi, D. [6] band, B. bígill C. [7] Ker er í búri, búr er í lási, B. [8] þar munu lyklar að gánga, B. [9] v. B. Sagði Þórnaddur bóndi, C. [10] Hvar eru þeir? Sperðilhalda á konu þinni. Hvar er hún? Hún er uppi í Ugludölum, að græða konu Bessa. Hvað er henni að meini? Hún hefur alla sótt níu þumlúngum fyrir neðan nafla, há og mjó er grennlan, og rennt rauðu í aptan. Svo eru flestar meyjar manni gefnar, G. [11] austur á Ingunni, Kíngunni, bringunni, hja henni Þórunni Þorvaldsdóttur, B; austur á bríngunni hjá Kingunni, hjá Þórgunnu Þorbergsdóttur, sem brendi sig o. s. frv. C. Þórgunnu Þorbergsdóttur, henni Þórunni Þorvaldsd. D. norður á Bringum, hjá henni Ingunni Guðrúnu Þorbergsdóttur, sem Bessi brendi á grautarkatli, Hα. [12] Jakobsmessu um sumarið, B. [13] hef eg, B. [14] að eg þekki hana fram yfir aðra konu, B. [15] máttu, B. [16] krínginn, C. kinginn D. [17] vörinni, C. [18] stirtlunni. B. stritlunni. D. [19] sem trelna. B. [20] rauðu og rennt í attan, svo er um flestar manni gefnar, B. — mönnum heiman gefnar, C. [21] Úti situr Hallgerðr hlúnka, B. [22] Hjá bætir í: þá var dregið gullið með síðum þegar Valhöll dansaði af brúðum. [23] Frá [ Gelliglyðra, þá var dregin flyðra, þá var dregið gullið með súðum, valur dansaði fyrir brúðum; griðkur láta golna. Gunnlaugur ríður í þolna, B. — gjótum létum vér gönla, C. — látum griðkur gönla, G. ríður í þönla, D. [24] smátt. B. [25] Frá [ ferðaðist út um klerka, E. [26] Frá [ Látum árum brokka, Brandur á Sýrlandi, B. Þá var Böllur á Brú. Brandur á Sýrlandi, hafði eg svimlega

[Hafði hann alla Sumarliðasýslu.[1]
Öðruvísi var þá í heimi vorum,
vér lyptum upp lærum vorum
létum vér ganga dreing.[2]
[Óðinn réð fyrir Ásum þeirra,
en þeir réðu fyrir öllum töðuhlöðum
vorum.[3]
Hestur er mér horfinn,
hömóttur[4] um brárnar,
baksár [á bógum,[5]
bundinn kjaptur [í[6] ól,
haltur á hægra auga,
hríngeygður á vinstra fæti,
[7]fótur [úr[8] fitleika,
[fallið höfuð[9] úr tönn.[10]

Hér er lagt til grundvallar handritið AM. 148. 8vo (= *A*) skrifað um miðja 17. öld; stendur að þulan sé þar samantekin af Magnúsi Jónssyni að Vigur við Ísafjarðardjúp. Elzta útgáfa sem til er af þulunni. Orðamunur er tilfærður úr AM. 154. 8vo XII (= *B*), XIII (= *C*), XIV (= *D*). Þessar útg. eru allar frá því um 1700. Afskript af *D* í Ny kgl. Saml. 1894, 4to bls. 216—24, með hendi Markúsar Magnússonar. Ennfremur eru tekin hér til samanburðar handritin Hrs. Sv. Grv. 66 (= *E*), frá hér um bil 1830, Hrs. Sv. Grv. 67; Arch. C (= *F*) með hendi séra Brynjólfs Árnasonar í Lángholti 1840, Hrs. Bókmfj. 176, 4to (= *G*), vantar mikið í, og AM. 960. 4to a og b (= *Hα* og *Hβ*). Enn er þulan til í Hrs. J. Sig. 282. 8vo með hendi dr. Hallgríms Schevings, í Hrs. Sv. Grv. 118. (afskript Pálma Pálssonar). I 282. og 118. er enn ein útgáfa með hendi séra Jóns Norðmanns og segir hann þar, að þulan muni vera eyfirzk sérstaklega, en það er ekki, því hún er algeingari en flestar aðrar þulur og geingur um allt land Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. séra Jón Eyjólfsson. Hrs. Á. M. 960, 4to, með hendi Jón prests Þórðarsonar í Auðkúlu, sama hdr., með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa (brot). Hrs. A. M. 247, 8vo, með hendi sama manns. Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar yngra, með hendi Jóns Egilssonar að Vatnshorni.

Það er sagt að Þórnaldarþula sé orðin þannig til, að einu sinni hafi átt að lífláta mann á alþíngi, fyrir það að hann hafði barnað systur sína. Vinur hans einn. en aðrir segja kerlíng eða jafnvel tröllkona eða álfkona, hafi þá tekið það til bragðs, að þylja þuluna til þess að menn skyldu síður taka eptir sakamanninum. Þetta hafi líka tekizt, því allir hafi hlýtt á meðan þulan var flutt, en sakamaðurinn komizt undan á meðan ríðandi.

Séra Jón Eyjólfsson segir aptur frá tildrögum þulunnar á þessa leið: Þorgerður var ekkja ein auðug Son átti hún er Gunnlaugur hét. Hann hafði orðið í sökum fyrir barneign í meinum. En er dómur skyldi út fara, ok Þorgerður til þíngs og hóf þegar upp þuluna í sleðanum og lét dæluna gánga til þess er úti var, var þá Gunnlaugur horfinn og hafði hún skotið honum undan á hesti á meðan þau áttust við Þórnaddur lögmaður, sá er dæma skyldi málið, en Gunnlaugur komst í skip og fór utan. Geta mætti til að Þórnaddur lögmaður, sem séra Jón bendir til, eigi að vera Þorvarður lögmaður Erlendsson (lögmaður s. og au.

sýslu, sat eg á smjörstokki, C. Nú bylur á brú, DE. Lætur Brún brokka Brandur á Sýrlandi, Hβ. [1] Sumar réði sýslu. E. [2] Frá [ þegar vér bjuggum með bændum vorum, lyptum upp lærum, létum dreingi inn ganga, B. — létum vaða dreingi G. — létu dreingi sína kæfa, Hα. [3] v. B. [4] hámóttur. G. [5] um bægi. C. [6] við, BCD. [7] Hα bætir við: tannsljór á tagli, tugginn á snoppu. [8] er á, B, á D. fótur úr fetli, G. [9] fallinn hófur, D. [10] F bætir við: og nú er sagan sönn.

1499—1512) og það því fremur, sem ýms önnur munnmæli eru bendluð við hann. Annars er mjög hæpið að nokkur fótur sé fyrir sögusögnunum um uppruna þulunnar.

Leit eg upp til himna,
sá eg tólf hestana renna,
tók eg þann hinn blakka,
reið honum út í slakka.
Þá kom tóa trítlandi
með sinn hala rítlandi,
bað mig að geta gátu sinnar.
Illa gat eg hana.
Tröll tóku frá mér
huppinn þann hinn feita,
eg var ekki maður til að leita.
Eg átti mér brúnskjóttan hest,
þá reið eg alla manna mest.
Eg átti mér strútóttan hund;
hann hljóp með mér um stund.
Kom eg þar að kveldi,
sem kerlíng sat að eldi.
Eg heilsaði henni.
Hún tók sinn[1] bínginn[2]
og hugði[3] mig að stínga;
(þá tók eg[4] lurkinn minn[5] lánga
og lagði' hann undir[6] kerlíngar vánga.
Hún vildi' ekkert[7] gott orðið[8] heyra
með sínu bölfaða,[9] bannsetta,[10] krókótta, [kindótta, krínglótta[11] kerlíngareyra,
Eg tók mér þá lítið[12] skip[13]
og sigldi[14] út á haf,
en kerlíng tók sitt öskutrog
[og þar sökk hún á[15] kaf.[16]

II.

— — — — kerlíngareyra.
Fór eg inn í búr,
át eg lítið úr,
fann eg fyrir mér dall,
skaut eg honum lángt út um glugga,
þar má hann hugga.
fékk eg af honum fall,

Og svo drefjar úr þulunni: »Poki fór til Hnausa.«

Hrs. Á. M. 960, 4to. Séra Jón Þórðarson á Auðkúlu.

III.

Kerlíng tók sitt öskutrog
og setti út á haf.
Eg tók mér þá lítinn bát
og sigldi hana' í kaf.

IV.

Hljóp[17] eg allra manna mest,
átti eg [þó[18] eingan[19] hest.

[1] sína, sér, upp. [2] pínga, píng, pínginn, lánga pínga, bínga, pínkil, stínginn, pýngju. [3] ætlaði, beiddi. [4] mér, hellustein og. [5] Frá ( og herkinn sinn. [6] u. krókóttan. [7] því aldrei mátti hún, svo hún skyldi aldrei neitt, því ekkert vildi hún, svo ekkert mátti hún, aldrei kvaðst hún. [8] o. af mér. [9] bifsaða, blótaða, bifsetta, fjandsetta. [10] kolsvarta. [11] kríngótta, kríngjótta, krækjótta, kinduga biðukollu. [12] lítinn, stóran. [13] bát. [14] setti. [15] eg sigldi hana í.
[16] Sumir bæta aptan við:

Svo er eg skilinn við þá illu ólukku kerlíng,
sem aldrei mátti eta nema heitan graut og vellíng,
sú illa kerlíng.

[17] Gekk. [18] mér. [19] alhvítan.

Hrafn flaug að austan
með[1] egg[2] í nefi.
af þeim eggjum
andar nefjum,
settist á bekkinn
og dró fram sekkinn.

V.

— — — kerlíngareyra.
Út setti hún bytturnar tómar,
aldrei kvaðst hún þurka sína góma.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo.

VI.

Stóð eg við stoð,
studdi mig við gullvegg.
Sá eg til himna
tólf hesta renna;
tók eg þann hinn blakka,[3]
reið [eg út í slakka.[4]
Hvað gjörði [goðið, goðið?[5]
Slátraði bekra[6] sínum.
Hvað gaf það [mér af?[7]
Lifur og lúngu
[og stakk mig í[8] túngu;
reið eg eptir því um stund,
átti eg mér strútóttan hund:
hljóp[9] eg allra manna mest,
eingan átti[10] eg hest.
(Sat eg undir stofuvegg,
strauk eg mitt gullskegg.

Hrs. Sv. Grv., með hendi Jóns Sigurðssonar. Guðmundur Davíðsson, eptir sögn Odds bónda á Ásláksstöðum. Hrs. J. Sig. 282, 8vo (með hendi séra Jóns Norðmanns), afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Jóhönnu Jónsdóttur í Vigur.

VII.

Mumpur situr á palli
braut nef á kalli.
Arnór stendur úti,
ærist og kallar:
Unna mundi' eg
kerlíngunni gömlu.
Gekk eg til sjáfar
og saltaði netju:
þar kom að mér itrandi
með sína trönu titrandi o. s. frv.

Hrs. J. Sig. 282, 8vo (dr. Schevíng).

VIII.

Hvað varstu' að slátra
í helli þínum í fyrra?
Eg var að slátra
uxanum mínum feita
og gyltunni minni góðu.
Hundar tóku frá mér
huppinn þann hinn feita,
fór eg eptir að leita.
Kom eg inn um kveldið o. s. frv.

[1] ber. [2] högg. [3] glæsta. [4] upp til æzta, honum til slakka. [5] goði; goði. goði gott? [6] bikar. [7] þér. [8] brendi' eg mig á. [9] Gekk. [10] hafði.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Málfríði Brynjólfsdóttur í Þverdal.

Sat eg undir fiskihlaða
föður míns og móður;
átti' eg að gæta
bús og barna,
svíns og sauða.
Menn komu að mér,
stúngu[1] staf í hnakka mér,
[2]gjörðu mér svo mikinn skaða,
lögðu eld í bónda hlaða.
Hlaðinn tók að að brenna.
Eg tók að renna
upp á sand,
upp á land,
upp á biskupsland.
Biskup átti gott í bú,
gaf mér bæði uxa' og kú.
Uxinn tók að vaxa,
kýrin tók að mjólka
[og fylti upp alla hólka.[3]
Sánkti María gaf mér sauð,
[hann varð mér að miklum auð.[4]
Annan gaf mér Freyja,
hann kunni' ekki að deyja.
Faðir minn átti þá kú,
Lurína hét sú;
Hún var allra kúa feitust
feitust í vor,
en samt dó hún úr hor.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo, með hendi Sigmundar Mattíassonar. 605, 8vo Þorsteinn Þorsteinsson frá Upsum. Hrs. Sv. Grv. 66 (4 útgáfur) með hendi Jóns Sigurðssonar. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. D[3], með hendi séra Benedikts Þórarinssonar á Ási í Fellum. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E[2]. Hrs. J. Sig. 282, 8vo. Tvær útgáfur, önnur með hendi séra Jóns Norðmanns. Afskr. Pálma Pálssonar í hrs. 118. Kvæði Jóns Þorkelssonar, með hendi Jóns Egilssonar að Vatnshorni.

II.

Hann kunni' ekki' að deyja.
Hljóp eg upp í lágar
og leit eg gulltágar.
Gott þótti mér út að líta
undir skinninu mínu hvíta
og skikkjunni grænni.
Sofa, sofa hjónakornin bæði
undir [einum blámerktum[5] þræði.
Það voru soðin skammrif á bænum;
duttu þau ofan í ketilinn bæði,
svo ekki stóð upp úr nema bógurinn
og hálft annað lærið,
og nú er lokið Lundúnakvæði.

Brot í hrs. Bmfj. 656, 8vo, með hendi Sigmundar Mattíassonar. Sigmundur sleingir saman báðum útgáfunum og ýmsum öðrum þulum og segir að altsaman sé »eptir Þ. Magnúsd.« Jón Ólafsson, Stafrófskver 1889, 1891, 1892, bls 36—37 og svo ýmsir af þeim sem bornir eru fyrir I. AM. 960, 4to, með hendi séra Jóns Þórðarsonar á Auðkúlu. Þess má geta hér að í Gl. kgl. Saml. 2873, 4to er latínskt kvæði eptir Jón rektor Þorkelsson († 1759), sem byrjar eins og þula þessi: Sat eg undir fiskihlaða.

Opt eru ýmsar aðrar þulur skeyttar aftan við þulu þessa, einkum: »Leit eg upp til himna« og er bætt við einni eða fleirum línum á milli svo sem:

---

[1] ráku. [2] sumir bæta inn í: ristu mér rúnir
og rökuðu mér krúnir.
[3] mjólkaði fulla mjólkurskel. [4] síðan lá hún (eða: hún var stokk- og) steindauð. [5] hvítum guðvefjar, blágráum veftarins.

[Þá fór[1] eg [út á sjó[2]
(og saltaði [netjur mínar.[3]

eða þá:

Eg átti mér tvo hesta,
annan rauðan, annan brúnan,
tók eg þann brúna
og reið heim til túna.
Hvað gaf bóndi þar?
Lifur og lúngu,
tönn og túngu
og alt innan úr.
Svo fór eg suður til vers
og saltaði niður.
Þá kom tröllið trítandi o. s. frv.

III.

. . . . . , miklum auð
Fór eg upp til láfa
gjörði' eg gullskráfa.
Litlu börnin léku sér
og það var þeirra æði,
duttu þau ofan í soðketilinn bæði,
þá var eptir bógurinn og læri
bundið upp með bláum veftarþræði.
Fór eg til sjáfar,
saltaði netju,
þar kom að mér tröllskessa,
stal frá mér feitum hupp og vænum,
elti' eg hana um stund
— eg átti mér strútóttan hund. —
Eg kom þar að um kveld,
sem kerlíng sat við eld,
Hún var að kroppa bríngu sína
og hugði mig að stínga o. s. frv.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. F. og er köllnð þar »Ágæt þula«.

IV.

Undir einum grábláum veftarþræði.
Barnakornin leika sér,
það er þeirra æði.
Þegar þau kunna' að gánga' um gólf
bera þau skarlatsklæði.
Lögðu þau í ketilinn
skammrif og bægina bæði
og brendu sig á lærunum bæði.
Drottinn minn blessi þau bæði.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Ágústínu Jóhönnu Eyjólfsdóttur á Stað í Aðalvík.

V.

Hún var stokk- og stein-dauð.
Börnin hennar litlu Laugu
léku sér með æði.
Þau duttu ofan í soðketilinn bæði,
svo ekki varð eptir nema bógurinn og lærið
bundið saman með bláum veftarþræði.
Svo er lokið Lundúnakvæði.

Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum.

---

[1] Rann eg. [2] niður að sjónum. ofan til sjáfar. [3] net mitt. netju. Frá ( að salta mér nytjar. niður fiskinn.

VI.

Nú er lokið Lundúnakvæði.
Hjónin sofa bæði
undir bláum veftarþræði,
gulu og rauðu dregnum, í næði.

Hrs. Á. M. 960, 4to. Aptan á bréfi til Íngimundar hreppstjóra Grímssonar á Skerðíngsstöðum 1837.

VII.

**Ein gömul þula.**

Sat eg undir fiskihlaða föður míns.
Menn komu að mér,
ráku staf í hnakka mér.
Hlaðinn tók að brenna,
eg fékk að renna
upp á biskups land.
Biskup átti gott bú,
gaf mér uxa og kú;
uxinn tók að vaxa,
kýrin tók að mjólka
sánkti María gaf mér sauð,
það varð mér að miklum auð o. s. frv.

Hrs. Sv. Grv. 66, afskr. prófessors George Stephens' eptir Stockh. 64. fol. Þetta er lángelzt útgáfa, sem til er af þulu þessari, og er brotið því prentað hér í heilu lagi.

Gekk eg upp á hólinn,
horfði' eg ofan' í dalinn,
sá eg hvar hún lánghala
lék sér við sauðinn.
Kýr keifaði,
kálfur baulaði,
hestur hneggjaði,
hundur geyjaði.
Haninn gól
fyrir miðja morgunsól.
Suður á mýri að sækja lömb.
Lét eg koll detta koll af kolli.
Magnús kattarvalinn,
Ásbjörn í salinn,
Sigurður sultur
og Sveinn rángalinn.
Ekki er lángur hali minn
hvar sem eg kem inn;
hundurinn, kötturinn
og hann Jón bakskinn.

Hrs. Bmfj. 605, 8vo, Þorsteinn Þorsteinsson frá Upsum. Hrs. J. Sig. 282, 8vo. Brot. Afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Margréti Magnúsdóttur, prestskonu á Snæfjöllum.

II.

lék sér við sauðinn.
Dýr grenjaði.
kálfur baulaði,
ær jarmaði,
hrútur kumraði,
kolur kvakaði,
kisa mjálmaði,
örn skrækti,[1]

[1] kallaði. argaði, blakti.

[hani fnæsti,[1]
hundur[2] hoppaði,

hrafn skoppaði.[3]
Haninn gól o. s. frv.

III.

fyrir miðja morgunsól.
[Vatn í veðranesi,[4]
vondur skýjablesi.[5]
(Úti [stóð hann[6] Arnþór[7]
og ærðist[8] að kalla:[9]
Mál er að koma til kirkju
og mæta helgum tíðum.
Uppi' á stól, stól
stendur mín kanna.

Níu nóttum fyrir jól,
þá kem eg til manna
[og þá dansar hún[10] Anna.
Hvar er matselja mín?
hún er [inn á palli;[11]
spennir fót
upp í rót
og annan ofan í þiljumót.

Hrs. Thotts 489, 8vo (byrjunin). Hrs. Bmfj. 605, 8vo, (partur). Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E². Hrs. AM. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum. Kafli, uppi – manna. Þjóðs. J. Árn. II, bls. 570, Tímar. Bmfj. XII, bls. 123. Hrs. Bmfj. 605, 8vo.

III.

fyrir miðja morgunsól.
María gekk til messu;

hafði lykil á linda,
lauk upp himnaríki.

Sbr. Hestur minn á Haugi.

IV.

Situr ein
silkirein,
sól undir hóli.

Það er hennar mesta mein
að missa féð af bóli.

V.

dansar hún Anna.
Dansar hún Dýrborg,
drósin hún Herdís,
meyjan hún Margrét

og mærin hún Ólöf.
Liggur hér sú ljóðaskrá,
lúsaponta Hólum frá,
og hana nú þá.

Hrs. Bmfj, 605, 8vo.

---

[1] úlfinn hrakti. [2] krummi. [3] krúnkaði. [4] Vaknaður á Nesi. [5] skinnablesi, skjónablesi, skinablesi, frá [

Segir hann Björn poki
og hann Þórður Loki.
móðir hans af Nesi
með kollótta blesu.

[6] stendur. [7] Frá ( þá kallar Arnór 969, og hættir þar. [8] ærist. [9] Hér hættir 489. [10] dansaði jómfrú Anna. [11] inni' í baðstofu.

VI.

fyrir miðja morgunsól.
Móðir þeirra sópar gólf
og strýkir þá með vendi;
hefir hún skinn
og skálm undir hendi.

VI.

fyrir miðja morgunsól.
Kveiktu' upp eldinn Tobba,
sæktu vatnið Vigga
og skerðu sauðinn Jón.
Nú liggur kýrin á bás,
tíkin í túninu,
hesturinn í haganum.
[Hvaðan ertu[1] boli minn
[heimkominn?[2]
rauður af leiri
og rótar upp mold,
berst við bokka[2]
bandkollóttur.
Sokkaplöggin lafa ofan' á hæla.
Það mun flesta únga mennina
tæla.

VII.

berst við bokka,
ber lángan kjapt.
Nú er vel sagt
og fimlega frá sagt.

VIII.

Rauður í[3] mýri
rótar upp mold,
[bil fyrir bakka[4]
beljar kýrin.[5]
Hér stendur uxi undir brekku
með gapanda munni.
Hvað mun hann vilja?

XI.

Kerlíng lá í dyrunum dauð,
hafði' hún ost í barminum,
hún gat ekki étið hann
fyrir ofurmiklum harminum.
Hundur setti upp gól
fyrir miðja morgunsól.
Þá kallar Arnór:
Suður á Mýrar
að sækja lömbin.
Þau vilja[6] bíta
börn og kerlíngar.
Kerlíng á eptir
með krókstaung[7] í hendi.
Fylgja henni fast fram
allir hennar menn:
Ívar, Dúti,
Marteinn Lúti,
Lampara Pe
og Fótame.
Gollur geispaði.
Guðný skáld til orða tók:
Þetta er mikið gjálfur,
segir hann Björn poki
og hann Þórður Loki.

[1] Hvað viltu. [2] þú ert heimkominn. [3] bakkann. [4] vestan við bakka. [5] dýri. [6] munu. [7] krókstaf.

Lambið beit í fíngur minn,[1]
skórinn datt í árgil.
[Hvern sem finnur skóinn þann[2]
[gef eg saman við[3] Þorfinn.
Koma [munu fleiri[4]
gestirnir,
prestirnir,[5]
lestirnir
austan af löndunum
að rífa sér tágar.
Prestur sat á hyllu
hafði [upp í[6] sér fyllu;[7]
hver sá biti, sem hann át,
honum varð að illu.
Prestur kallar skip sitt
og hrip sitt,
nafarinn[8]
[og tafarinn.[9]
[Standa þeir[10] [upp á[11] stokkunum
og stela[12] ofan[13] bjúgunum,
[mata svo í[14] mörvana[15]
(og [mæna upp í[16] keppina,[17]
)blása svo í belgina,[18]
bera [svo í[19] byrðirnar.[20]
og binda[21] fyrir ofan.
Betra væri brýnt nef
bora með járnnef;
stínganef!
man eg hann gunn-nef.
Ræð eg þér við róður minn
Réttnefur,
sléttnefur,
brettnefur.
[Því tókstu'[22] hann Narfa?
[Hann kunni' ekki'[23] að starfa,
því hann hafði belti breitt,
búinn kníf,[24]
kálfskinn og klippíng,
ullarreifi'[25] og vettlíng,
þindikamb[26]
og þeytikamb.[27]
gullkamb og augun þrjú.
[Þar með fór hann upp á fjall[28]
með gullpenínga marga.
Ekki skal hann það fá,
þó honum leiki hugurinn á;
taki' hann aptur Þuríði sína
og fái mér aptur mágkonu mín
[Úti stendur tíkin þar í[29] túni.
Norður reka nautin þeir að garð
Enn er dottin kýrin þar á Mýri
Sækið henni mennina;
margir henni bjarga.
Úti' er kominn Kolbeinn hinn stó
og keisararnir fjórir.
Jón Auðunnarson
og strákurinn þar í Hvammi
trutta út úr' túni,
tríta eptir[30] mýri.

Drefjar í hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E[2].

---

[1] mér. [2] ekki skyldi skórinn þinn. [3] komast fram fyrir. [4] mundu. [5] fres irnir. [6] með. hjá. [7] frillu. [8] nafar þinn. [9] tafar þinn. [10] stendur sv [11] í. [12] stelur. [13] niður. [14] metast á um. mætast þær með. matar sv [15] mörvunum. [16] mikið stóru. [17] míga svo í keppinn sinn. [18] býðin( [19] fyrir. [20] Frá ) ber svo inn í beðinn sinn. bera svo í bú sín, bera svo býfum sér. [21] bindur. [22] Að því spurðu. [23] Hvað hann kunni. [24] brugð hnífi. [25] ullarkamb. lambsreifi. ullarreipi. [26] gullkamb, kembi kum [27] kymbi kumb. [28] Síðan fór hann suður á þíng. Eitt sinn hljóp hann up á land. [29] Titún í. [30] þrítept er.

## II.

Lambið beit í fíngur minn,
skórinn[1] datt í árgil.
Hvernig mundi skórinn fara
ef ekki [fleira kæmi?[2]
trit[3] eptir túni,
trit[3] eptir mýri.
Ekki skyldi einn nefur
arka með trénef.
Kolbeinn ætlar suður í ver
með fjórtán marka kæsisker,
rauða kyppu Rannveigar;
raka þar Signýjar,
tíu [Margrétir
og Þórunn karlsdóttir.[4]
Hverjir voru sveinar þeir,
sem henni fylgdu fram?
Úlfur og Álfur
og Jón bóndinn sjálfur.

## III.

Lambið beit í fíngur minn,
skórinn datt í árgil.
Hvernig kunni skórinn þinn
að koma í veg fyrir Þorfinn?
Hvernig kunnu[5] prestarnir,
gestirnir
norðan[6] af löndunum,
ströndunum[7]
[8]færa þeim[9] mágunum
tágarnar?
[Mundi oss þykja[10] meira gaman
(ef [þeir hlypi[11] allir[12] saman?
[Jón Kár,[13]
[karlinn þar[14] á Bakka,
gjarnan[15] vill hann gott fá að
smakka;
[hrópar hann
og kallar hann,[16]
[þess á milli[17] sefur;
yfir um ána ætlar hann
þegar honum gefur.
Ekki skaltu það fá
þótt þér liggi hugur á.
[Eigðu sjálfur[18] Þuríði þína,
[eg skal eiga mágkonu[19] mína.
Hann var þar um helgina
að tína börn í belgina,
lakastykki' og lúngu;
brendi' hann sig á túngu.
Lambið hún litla Móra
leingi' á hún að tóra,
þar til hún fæðir fjóra
fallega hrúta' og stóra.
Hætt er hljóðakolla
hvít, sem drýgir bolla.
Veik og vesæl rolla!
varastu hundasolla;
hætt er á huldupolla,
hafðu ei neitt við skolla.

---

[1] spóinn. [2] kæmi fleiri? [3] trítla. [4] Þorbjargir Lygi-Kolbeinn, Steinn, Svefnaður. [5] Hvenær munu. [6] koma. [7] söndunum. [8] og. [9] okkur. [10] Ekki kann eg. [11] vér hlypum. [12] frá ( meðan við lágum bæði. [13] Fjósstrákur, Hljópstrákur. [14] kallar. [15] jafnan. [16] ýlir hann og æpir hann. [17] milli þess hann. [18] taktu aptur. [19] en fá mér aptur Valgerði.

## IV.

Paurildi[1] í þorriró.
Lamb beit í fingur minn.
Skór minn datt í árgil.
Svona[2] skyldu prestarnir,
gestarnir
[koma eptir[3] löndunum,
ströndunum,
með[4] sína mágana,[5]
[færa okkur[6] tágarnar.[7]
[Kalla skyldi[8] rif[9] sitt[10]
stif sitt,[11]
nafar sinn.[12]
Allar [frændkonur vorar.[13]
Heill, heill bróðir!
Hverjum[14] muntu skýra[15]
frá[16] bestinum dýra?[17]
Af baki muntu falla,
þá muntu kalla.
Dauð liggur kýrin í mýri.
Kona gekk fyrir[18] kirkjudyr,[19]
hafði í hendi lifrarbita,
beit hún í bitann sinn
bað [svo að geyma sig,[20]
[Drekkum vér[21] af[22] drumb, druml
Þórarinn [á kamb, kumb.[23]
Vala[24] flýgur vestan[25] að,
[ber[26] egg[27] í nefi;[28]
[kallar hann á konu sína
mylsnu og fylsnu
settist á[29] bekkinn,[30]
togaði[31] fram sekkinn:
greip[32] fyrir [Gnípu og[33] trípu.
Titlíngur tarriró!
Nú er vel súngið;
[papi nisi pipi korn[34]
og kann eg ekki meira.

Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar. Hrs. Á. M. 960, 4to Aptan á bréfi til Bjarna Brynjólfssonar á Hafrafelli 1835. Hrs. Á. M. 247 8vo, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa.

## V.

Viltu' eg kveði yfir þér
[maurildadrápu?[35]
Paurildi parriró.
Lambið beit í fingur minn o. s. frv.
Senn munu koma
mennirnir að norðan
og færa okkur náir og tágir.
Ekki' er þetta Þorvaldur
það er maðurinn Norðvaldur;
mildur og svo matargóður,
mörgum gefur úr sinni skjóðu.
Sumum gefur hann eyrbót,
sinn skó á hvern fót.
Klukkan sat á porti
en kveikjan hljóp á stað
yfir um ána hoppaði,

[1] Paurildur. [2] Koma. [3] austan af, utan af. [4] miss. [5] máfana. [6] mé[r] [7] Frá [ páfana, tágana. [8] Viltu kalla. [9] drif, skip. [10] þitt. [11] mit[t] [12] minn. [13] voru frændkonur. [14] hverju. [15] stýra? [16] sl. sumi[r] [17] fríða. [18] í, að. [19] kirkjudyr, kirkju, kirkjudyrum. [20] guð að launa, sv[o] fyrir sálu sinni, sig guð að signa. [21] Drekka þeir. [22] Drekka segir hún [23] kamphund. Frá [ katur [24] Valur, Hrafn. [25] austan. [26] hefir. [27] ugg[s] hauk. [28] n. sínu. Frá [ með svo laungum spaungum. [29] í. [30] vegginn [31] dró. [32] og bað. [33] Rípu. [34] Paternoster pipukorn. [35] Paurhildar drápu.

en einginn vissi það
að bjór og brennivín
bruggaði auðarlín;
lagleg var sú lindin kát,
lukkan er komin til mín.
Fjögra tunna fat
færir einatt ölstíng.
Nú er kalt í kór
kendur við Ása-Þór.
Nú er kvæðið komið á enda,
köppum vil eg það senda.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo.

VI.

[Úti er sloppin[1] kýrin í mýri.
Sækið þið mennina marga
henni til að bjarga.
Hér er kominn Kolbeinn hinn stóri
og keisararnir fjórir,
Hólkur og Hallur
og hann Jón Paurhildarson
og mánaðarstrákurinn gamli.
Hér kallast flest alt á bramli.
Því tókstu ekki' hann Narfa?
Hann kunni' ekki að starfa,
og hann hafði vettlíng,
kálfskinn og klippíng
og með það gekk hann upp á land,
með hornhögld og hárband
og eyrun[2] þrjú
og hvernig skemti' eg þér nú?

VII.

kálfskinn og klippíng.
Síðan reið hann upp á land
með gullpenínga marga.
Þjófastrákur karlinn[3] þar á Bakka,
aldrei skal hann gott fá að smakka o. s. frv.
Fari hann ofan í Túngu,
taki' hann börnin úngu,
éti lifur og lúngu
og brenni sig á túngu.

VIII.

Kona kom til kirkjudyra,
hafði í hendi lifrarbita,
beit hún í bita sinn
og bað guð að [blessa sig:[4]
signdi hún í nafni,
sat eg í stafni.
Enda af úri
át eg með súri.
Þar kom fram diskur,
á var lítill fiskur,
kálfskinn og klippíngur,
ullarreifi og vettlíngur.
Margt má eg að þér tína.
Aldrei færðu vettlíngana þína.[5]

Hrs. J. Sig. 282, 8vo. með hendi dr. Schevíngs, afskr. Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118.

[1] Úti liggur. [2] augun. [3] þjófastrákurinn. [4] signa. [5] Frá [ Hanann gól. fyrir miðja morgunsól, hdr. og endar hér.

IX.

Titlíngur
Tanaríngur![1]
Nú er vel súngið.
[Kantu ekki[2] meira gaman
[þá við leggjum[3] bæði saman?[4]
Sveinn var eg lítill[5]
og svo[6] mjög lítill.
Suður vildum[7] róa
á Hvalströndu.[8]
[Fleiri vildu gestirnir koma
utan af löndunum,
ströndunum.
Jagaði,
kjagaði;
hún lézt kunna að moka hús;
hún var ekki stærri en lús.
Komdu fram í eldhús,
þar liggur dauð mús;
baukar hún þar í baunapoka kerl-
íngarinnar.
Veiztu hvað þar býr fyrir innan?
Meyjarnar mínar,
má eg þær telja,
allar mér líkar
og allar snjóhvítar.[9]

Hrs. Á. M. 247, 8vo, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa (Brot).

X.

Kýrin í mýrinni,
keifar hún upp á hnöttóttan stein.
Vildi eg hann smali minn
væri kominn heim
að vísa mér á hnágana,[10]
tágana.[11]
Kantu að nefna hníf minn,
tíf minn,
nafarinn,
tafarinn? o. s. frv.

Hrs. J. Sig. 282, 8vo, með hendi dr. Schevíngs. Endar hér. Afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118.

XI.

Kona stóð í kirkjudyrum,
hafði í hendi lifrarbita,
beit hún í bitann sinn
bað [að signa sig í nafni.[12]
Köttur situr á stafni
en eg á hyllu.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo, Þorsteinn Þorsteinsson.

XII.

Ekki skyldi Einnefur
arka með Trénef.
Afbragð væri ef einhver hefði
lygina Gunnsteins,

---

[1] toginfíngur. [2] manstu nokkuð, ekki kann eg. [3] er við lágum, en þau lágu. [4] til samans. [5] úngur. [6] hann. [7] skyldum við, vildi hann. [8] fjallsenda, Hvalsandi. [9] Frá [ Sá hann hvar titlíngar léku sér. [10] hagana. [11] tagana. [12] sig guð að signa.

leikmæli Þorsteins.
Súngu Þorbjargar,
tvær Margrétar.
Þetta' eru margir sveinarnir,
þeim fylgja fram.
Þeim fylgir Úlfur,
Erlendur og Hjálmar,
Þórarinn og Skeggi,
það eru öskuseggir.

## XIII.

### Paurhildardrápa.

Paurhildur porriró,
lambið beit í fingur minn,
spóinn datt í árgil,
haninn gól
fyrir jól,
séra Björn í gröfunum.

J. Ól. frá Grunnavík Orðabók þula.

## XIV.

[Hvar hánga lyklarnir þínir?
Norður á bríngunum, kríngunum
hjá henni Jórunni, Þórunni.
Hún er lág á stirzlunni,
valbrá á vörinni,
háa og mjóa rennluna
rent í hana aptan[1].
Prestur sat á hyllu,
hafði yfir sér fyllu,
fjórar krásir,
kálfskinn rotið.
Konan gekk til kirkjudyra,
bar í hendi lifrarstykki,
gaf hún fyrir sálu sinni,
stakk í hendi á þurfamanni.
Drógu þeir svo daladrumb,
Þórarin kambhund,
sem hér er um stund.
Hann er upp í Djúpadal,
dalurinn er svo lángur,
lúskrar hann steníngs
og speníngs
Steingrímur stikuklár
og lángt er í nesið út.

Hrs. J. Sig. 245, 4to, afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118.

## XV.

Lambskrofið Mánga,
láttu það gánga;
sjóddu það í dreingina svánga
út alla vikuna svo lánga.
Koma skyldu gestirnir —
binda fyrir ofan.
Traustur í túni
Trítill í mýri,
[myndi þykja[2] meira gaman
ef þeir kæmu[3] allir saman
níu undan Bjargi,
tíundi hann Kolbeinn

---

[1] Kafli þessi er úr Þórnaldarþulu og er hann því prentaður hér, að þetta er hið eina dæmi, sem eg þekki til þess, að Þórnaldarþulu hafi verið ruglað saman við aðrar þulur. [2] mörgum þætti. [3] hlypi.

og hann matmáli[1] Sveinn
og veftarlausi.
Að því spurðu hann Narfa —
gullpenínga marga.
Fjósstrákur kallar á bakka —
mágkonu mína.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Margréti Bjarr dóttur á Sléttu.

XVI.

á fjallsenda (sjá IX).
Tíu[2] voru kýrnar,
tólf[3] voru ærnar,
[þrettán sauðir veturgamlir[4]
[og brúnskjóttur hesturinn.[5]
Ilt er mér í minni tá,
sama lætur í hverri krá.
Dönsum og dönsum.

(Nú er brot úr Vikivakaþulunni: Úngarnir biðja mig um lúnga).

Kundur hoppaði,
kálfur beljaði,
bað mig að geta gátu sinnar.
Ekki gat eg hennar.
Brendu mig í lifur og lúngu,
brendu mig í túngu.
Nú er lokið olbogunum öllum.
Riður hún blá,
hún silkitá.
Hvað vill hún þá fá?
Hún fór á lýngmó
og rjúpurnar elti
með daggarð og dunshníf
og dandalabelti.

Sama heimild, eptir Þuríði Hallgrímsdóttur í Vigur.

XVII.

skórinn datt í árgil
og hvað kemur nú til?
Koma skyldu prestarnir,
gestirnir
norðan undan ströndunum
kalla kalla
hripsetinn,
skipsetinn,
nafarinn,
tafarinn o. s. frv.

Brot úr ýmsum útgáfum. Hrs. Sv. Grv. 67. Arch. L. Séra Jón Eyjólfss

XVIII.

Hestur hljóp um hyllu,
hafði fyrir sér syllu,
kálfskinn þrotið,
múgabrotin.
Birgja heitir kona mín,
Agnes snekkja,
Heiðitá og Silkitá,
vel máttu þær fá.
Vel sýngur hún Una
þegar hún fer að bruna
með alla sína menn,
sem henni fylgja senn.
Henni fylgja Úlfur og Álfur
og Erlendur sjálfur.
Þetta er mikið gjálfur.
Segir bóndi Ragnar,

[1] mettmæra. [2] Átta. [3] níu. [4] átta marka sauðirnir. [5] brúnskjó hestarnir.

brátt um málin þagnar.
Vigmundur og Vigga,
Sæmundur og Sigga,
Hástika, Mánga,
pránga,
Tóa töppin eina,
allar í skógnum utan eg ein.

Hrs. Á. M. 969, 4o, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum og skeytir hann hér aptan við: »Heyrði eg í hamrinum«.

XIX.

nú er vel súngið.
Sástu hvergi vorar meyjar
framan undir fjöllum?
Fimta mann í flokki.
Ein heitir Guðfinna,
ber lyklana í púng.
Þorkell maðurinn,
kirkjusmiðurinn,
hann spurði mig að,
hvort eg vildi vænar
dýnurnar grænar.
Hundur hoppaði,
kálfur beljaði.
Þú átt að geta gátu minnar.
Ekki get eg getið hennar.
Lifur og lúngu
brendi' eg mig í túngu.
Upp er lokið olboganum öllum;
ríður hún blá
silkiná.
Hvað vill hún fá?

Hrs. Á. M. 960, 4to. Aptan á bréfi til Mr. Bjarna Brynjólfssonar á Hafrafelli 1835. Þess er getið að vanti aptan við.

Jón Ólafsson frá Grunnavík minnist á Paurhildardrápu í hrs. Á. M. 979b, 4to, bls. 1746, og segir að »haninn gól fyrir sól« sé úr henni, en það er ekki.

Poki[1] fór til Hnausa,
kunni margt að rausa.
Að því spyr hún Finna
hvað hann kunni' að vinna.
Eg kann vel að moka hús.
Þú ert ekki stærri' en lús,
[skríddu inn í eldhús[2]
og fá þér skyr og mjólk í bolla.
Poki[1] varð svo feginn þá,
að hann smaug inn í hverja krá.
Hvað var þar fyrir innan?
Kerlíng sefur í sinni sæng,
sefur og hrýtur.
Einginn hennar nýtur.
Sjá: Leit eg upp til himna.
Bóndi minn kemur
heim að kveldi.
Hvað er kuðlúngur[3] að gjöra?
Hann er að slátra
[kolabikru sinni[4]
niður á miðjum velli.
Hvað gaf hann þér?
Lifur og lúngu,
svo eg brendi mig á túngu.
Fór eg ofan til sjáfar
[að salta mínar nytjar.[5]
Þá kom maður rítandi
með sinn hala trítandi,
Tröll tóku frá mér o. s. frv.

---

[1] Loki. [2] Poki farðu innar í eldhús (eldahús). [3] kuðúngur. [4] bekra sínum. [5] og seldi mína netju.

## II.

Hann smaug inn í hverja krá.
Veit eg eingan kvenna-Poka,
að betur kunni hús að moka
en Eiríki og Gjálfi
og Sumarliði sjálfi.
Það er svo gott að bíta við hann
Jón á Bjargasteini.[1]
Honum [er aldrei[2] að meini.
Milli fjöru og fjalla
hann altíð kallar.
Ari sat á felli[3]
[og akaði[4] hrísi[5];
þá[6] kom ormurinn lángi
og [rak fram gánginn,[7]
út fyrir fjós
og sagði að dagur væri ljós.
Einn var þar pottur brotinn,
annar var kúluskotinn.
Þriðji [kom þá[8] ryðgaður
í sundur um síðir.
Á sunnudaginn skulum við
til Skjaldborgar ríða.
Ljós brennur yfir oss
í Hildarsal.[9]
Hver er sá á þínginu,
sem þjóna[10] skal?
Það er hann Sigurður Jónsson.
Hann kann að veltast[11]
í krókinn og krínginn
og í meyjahrínginn.[12]
Jón smár[13]
smellir á,
ríður tryppi sínu grá,
[lætur skoppa[14] dindil,
og flautakopp í hendi;
hefir[15] reipi og reiðíng á
ríður brúnskjóttum klár
alla sína æfina til fjár.
Honum fylgir[16] Úlfur og Alfur
og ósóminn[17] sjálfur.

Hrs. J. Sig. 245, 4to, afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118.

## III.

Honum fylgir Úlfur og Álfur.
Jón krækir sjálfur,
Sigurður og Sigga
og sambornar ærnar.
Þú er kominn þarna
Þórarinn stjarna,
förum við ofan í fjöruna
og fáum okkur kjarna.
Opt hefir hún kona þín
kent á því arna.

## IV.

Þórarinn stjarna.
Farið þið ofan í fjöruna
og sækið þið henni kjarna.
Takið þið barnið hans Bjarna
og berið það til hrafna.

---

[1] Bjarkarsteini. [2] verður ekkert. [3] hellu. [4] okaði. [5] grísi. [6] þar [7] hratt fram gángi. [8] var þar. [9] húsasal. [10] koma, ráða, dæma. [11] velt sér. [12] miðjan hr.. meyjabínginn. [13] smá. [14] hefir skakkan. [15] leggur [16] fylgja. [17] Jón kraki.

V.

Poki veltur ofan hlíð,
ofan lángt til Hnausa.
Að því spyr hún Gunna:
»Hvað kantu að vinna?«
»Eg kann að moka hús,
er þó ekki stærri' en lús.«
»Hlauptu inn í eldhús.
Eg skal gefa þér skyr og mjólk
í bolla.«

Poki varð svo feginn þá,
að hann hljóp inn í hverja krá.
Gunna litla brotintá
hún kom ekki að raka ljá,
ekki' að vinna' á velli.
Þórunn heitir þornagná,
sem þar býr undir Felli.
Betra' er heima' á Helgafelli,
að hafa þar dans og glímuskelli.

VI.

Að því spyr hún Finna
hvað eg kunni að vinna.
»Eg kann ekki annað
en moka[1] fjós,
kveykja ljós,
skoppa[2] út í eldhús
og vera þar eins og mús,
færa börnum mat sinn,

fleingíngu á rassinn,
snoppúng á kjaptinn,
lánglegg í hausinn
og selbita á nasirnar.
[Eg skal halda mig vel[3]
og bíta[4] kokkinn[5] í hel,
og þá fer alt vel, vel.

VII.

Út vil[6] eg róa
á Hjalla sanda.
Hvað kantu að vinna?
»Eg er ekki stærri' en lús;

eg kann vel að moka hús.«
»Farðu innar í eldhús o. s. frv.
Sbr. I.

VIII.

Hvað kant þú að vinna
baggalútur minn?
Þráðarkorn að spinna,

elta lítið skinn,
kveykja ljós o. s. frv.

IX.

og Jón kraki sjálfur.
Förum við ofan í fjöruna,
fáum okkur kjarna.
Ekki hefir hún kona þín

kent á því arna.
Ekki' eru nema átján vættir
undir honum Bjarna.

---

[1] fara' í. [2] skotta. [3] það er bezt að halda sig vel um jólin. [4] éta. [5] kött-inn. [6] vildi.

Hrs. J. Sig. 245, 4to, afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118.

X.

hrýtur og drítur
stattu' upp hennar gamli bóndi,
únga manninn gef eg þér.
Hó, hó,
aldrei verð eg af elli þúng.

Hrs. Á. M. 960, 4to (Séra Jón Þórðarson á Auðkúlu).

XI.

Poki varð svo feginn þá
hann hleypur inn í hvert horn
og hverja krá.
Gaungum glaðir út á völl
með sveinum moð og ugga
skal hún karla að biðja,
það mega allir smaladreingir iðja.

Kvæðabók Jóns Þorkelssonar í arkarbroti, með hendi Páls Hjaltalíns.

Heyrði eg í hamrinum,[1]
hátt [var þar[2] látið
og sárt [var þar[2] grátið.
Búkonan[3] dillaði
börnunum öllum.[4]
Íngunni, Kíngunni,
Jórunni, Þórunni,
Ísunni,[5] Dísunni,
Einkunni, Steinkunni,
[Sölkunni, Völkunni,[6]
Siggunni, Viggunni,
Aðalvarði[7] í Ormagarði,
Eiríki og Sveini
[og dillaði Steini.[8]
Ekki heiti' eg Eiríkur
þótt þú kallir mig það.[9]
Eg er sonur Sylgju,
[sem bar mig[10] undan[11] bylgju.
Bylgjan og báran[12] þær
brutu[13] mínar árar tvær
lángt fram á sjó.
Hafði eg í hægri kló
hornin bæði laung og mjó.
Skipin skullu' og árar,
skall í hafi bára.
Ekki fæ eg matinn minn á málum
fyrir sjóarbárum.
Eg sökti mér í sjó,
einguin varð að grandi;
tók eg sitt í hvora kló
og keipaði upp að landi.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. $D^3$, með hendi séra Benedikts Þórarinssonar á Ási í Fellum 1850. Hrs. J. Sig. 282, 8vo. Tvær útgáfur, önnur með hendi dr. Schevings, en hin með hendi séra Jóns Norðmanns (Brot), afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Hvarfsbók (frá Þorsteini Þorkelssyni á Syðra-Hvarfi í Svarfaðardal) II, nr. 102. Handrit þetta er í áttablaðabroti og eign Bókmentafélagsins, en ekki skrásett enn á prenti. Útgáfa þessi er víst hin elzta, sem

[1] hamarinn. [2] vera. [3] barnkonan. [4] báðum, átta. [5] Ásunni. [6] Ölkunni. Sölkunni. [7] Eðalvarði. Eirík. er áður var. [8] þetta kváðu stúlkurnar í steini. [9] Eirík. [10] borinn. [11] út á. [12] Bylgjan hún bára. Bylgjurnar báðar. [13] braut.

til er af þulunni, frá hér um bil 1810. Hrs. Á. M. 969. 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum. Hrs. Á. M. 277, 8vo (Byrjunin). Hrs. Á. M. 247, 8vo með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa.

II.

Úti' á miðjum sjó.
Skildi' eg eptir skóna mína
og skauzt upp á sker.
Eggið brýtur báran,
því brimið er.

III.

brutu mínar árar.
Allar mínar sorgirnar
batt[1] eg undir skó.

IV.

brutu minar árar.
Gunna fór á berjamó.
Láttu ekki smaladreinginn
ginna þig gó.

V.

brutu mínar árar;
lagði ljómann af
lángt út undir haf.
Þar sat maður undir vegg
og var að kemba rautt skegg.
Leit eg upp til himna o. s. frv.

VI.

fyrir sjóarbárum.
Týnt hefi' eg hnífi,
troðið hefi' eg skó;
hallast eg á hestinum
og ríða verð eg þó,
og enn dilla eg þér dó!
eða
og bind á fætur gullskó.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson.

VII.

brutu mínar árar,
svo ljómann af þeim lagði
lángt út á haf.
Heiti eg Hallvarður,
Hallvarður Tindsson,
Tindur Torfason,
Torfi Hríngsson,
Hríngur Hreiðarsson,[2]
Hreiðar Garðsson,
Garður Gunnarsson,[3]
Gunnar Refsson,
Refur Ráðfinnsson,[4]

---

[1] bind. [2] Hreiðúlfsson, Heiðvarðsson, Hreivarðsson, Hreiðarðsson. [3] Gunnarðsson. Gunnvarðsson. [4] Ráfinnsson Ráfeingsson, Ráðsvinnsson, Háfinnsson.

Ráðfinnur[1] Kolsson,[2]
Kolur Kjörvaldsson,[3]
Kjörvaldur[4] Bjórsson,
Bjór Brettíngsson,
Brettíngur Hakason,[5]
Haki Óðinsson,
Óðinn er kóngur
allra trölla
illra faðir í helli.
Upp er kominn dagur,
bæði ljós og fagur.
Guð gefi mér gaunguveður
þó eg sé magur.
Úti stendur tíkin í túni,
týndi' eg honum Kampa-Jóni,
þar trúi eg hann fúni.

VIII.

[Teldu, teldu[6] föðurfrændur[7]
þína!
Skarfur Skæríngsson,
Skæríngur Brandsson,
Brandur Björgólfsson,[8]
Björgólfur[9] Hríngsson,
Hríngur Hreiðarsson o. s. frv.
Óðinn faðir allra
illra trölla' í helli.
eða
Óðinn er faðir
illra trölla í helli.

IX.

fyrir sjóarbárum.
[Þau báru með sér[10]
bitilinn rauða.
Kambur Skæríngsson o. s. frv.
Óðinn illi,
hann var mestur maðurinn,
allra trölla faðir í helli.

Frá Þorsteini Erlíngssyni ritstjóra.

X.

Brettíngur Tindsson,
Tindur Tirfíngsson,
Tirfíngur Hakason,[11]
Haki Óðinsson.
Óðinn kóngur allra trölla faðir;
ekur hann eptir sér
öllum tröllum
á fjöllum.

XI.

lángt fram á sjó.
Þar tók eg sem mátti.
Kerlíng situr í klefadyrum,
kallar á sína hunda:
[Spaug, Spaug,
Geir, Geir,
Gár, Gár![12]
Viljið þið ekki hvílast í nótt

---

[1] Ráfíngur. [2] Kolason. [3] Kerfíngsson, Kjáviðarson. Kjalvarðsson. Kjarvaldsson, Kervarðsson, Kjörvatsson. [4] Kjörvalur. [5] Hallason. [6] Telja mattu. [7] mundu frændurna. [8] Brynjólfsson. [9] Brynjólfur. [10] Báru þeir á sér, og báru mig upp á sinn. [11] Ákason. [12] Laung, Spaung,
Gat. Ílaung.

milli karls og kerlíngar?
Hvíli Steinn,
hvíli Slóði,
hvílist ei,
hvílist þó.
Heiðvarður Garðsson,
Garður Gunnarsson o. s. frv.
Óðinn kóngur allra
illra trölla faðir,
og nú er búinn bragurinn.

Hrs. Bmfj. 605, 8vo, þorsteinn þorsteinsson.

XII.

sem skipin skára
skall í hafnir bára.
Ekki fæ — bárum.
[Muna mundu frændurnir mínir.[1]
[Heita Hallvarður,[2]
Hallvarður Kambsson,
Kambur[3] Skæðíngsson,
Skæðíngur Brandsson o. s. frv.
Óðinn var allra
illra trölla faðir í helli.
Upp eptir fjöllum,
ofan eptir fjöllum,
eitt tröll
taki við þeim öllum.

Hrs. Á. M. 277, 8vo (Brot).

XIII.

Óðinn var Illugason
og Illugi faðirinn
að tröllunum
í fjöllunum,
og nú er liðinn dagurinn.

XIV.

Óðinn kóngur var illur á velli,
allra trölla faðirinn,
og mestur var hann maðurinn.

XV.

Óðinn kóngur
allra trölla.
Hann ræður öllum
tröllum í fjöllum.

XVI.

Óðinn allra
illra trölla faðir.
Nú er kominn dagur
bæði hýr og fagur.
Gjarna vildi' eg mér geingi vel
þó eg sé magur.

XVII.

Óðinn hinn illi
allra tröllra faðirinn.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo, og er þulan þar kölluð ættartala.

---

[1] Hvar eru' allir frændurnir okkar? Hvað mundu mínir frændurnir segja? [2] Heiti-r Hallvarðsson. [3] Skambur.

XVIII.

brutu mínar árar
lángt fram á sker
þar sem skip skára
skundandi fer.
[Muna máttu[1] kerlínguna[2] dauðu,
sem dró eptir sér skikkjuna rauðu.
[Muna máttu frændurna[3] okkar[4]
hann hét Björn Hríngsson o. s. frv.
Óðinn [kóngur illi[5]
allra trölla faðirinn
og sá var mestur maðurinn.
Og heyrði eg í hamrinum.

Hrs. Sv. Grv. Jón Sigurðsson, eptir fröken Elinb[orgu][6] 20/12 1861 og Sigríði Magnúsdóttur úr Skáleyjum 23/2 60. Hrs. Á. M. 247 8vo, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa. Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar í arkarbroti, skrifuð af Páli Hjaltalín í Stykkishólmi.

XIX.

sem bar mig undan bylgju,
fluttu mig út á miðjan sjó,
ekki drukknaði eg þó.
Telja muntu föðurfrændur mína,
er báru með[7] sér bitilinn rauða.
Kambur Skæríngsson o. s. frv.
Óðinn kóngur illi
allra trölla faðirinn.
Hann var mestur maðurinn
í hellinum sínum.

Hrs. Sv. Grv. 66, eptir Guðríði Magnúsdóttur í Reykjavík 1860.

XX.

Lítil horn og mjó.
Lætur sem hann sofi
en vakir þó.
Telja skaltu[8] föðurfrændur þína.
Fyrst er Tindur Tjaldsson,
Tjaldúlfur Hríngsson o. s. frv,
Óðinn illi
allra trölla faðir í helli.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. $E^2$.

XXI.

Óðinn hinn illi
allra trölla faðirinn
[í hellinum þeim[9] bjó.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. F. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum.

XXII.

Haki Óðinsson
Óðinn kóngur einn var fyrstur
allra trölla faðirinn;
sá var mestur maðurinn.

[1] sástu hvergi. [2] það kerlingunni. [3] það frændunum. [4] Frá [ mundu það bræðurnir forðum. [5] var Ills son. [6] Frú Thorberg. [7] yfir. [8] máttu. [9] sem í hellinum.

Heyrði eg í hamrinum,
og nú er búinn bragurinn.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Önnu Kristínu Ebenezardóttur í Vigur.

XXIII.

brutu mínar árar
þar sem báran ber á land
silfurbelti' og búinn kníf.
Sigurður skundar
skjótt til fundar
sína leið,
fram með öllu Ísalandi
rann á reið.

Hrs. Á. M. 960, 4to. Aptan á bréfi til Íngimundar hreppstjóra Grímsonar á Skerðíngsstöðum 1837.

XXIV.

Óðinn sjálfur allra trölla faðirinn
og sá var mesti maðurinn,
sem í höllinni bjó.

Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar í arkarbroti, skrifuð af Páli Hjaltalín í Stykkishólmi † 1876.

Jón Ólafsson minnist á þulu þessa í Orðabók sinni dilla, hamar, hellir, og segir að hún sé kölluð Svæfidans, en við fiðra færir hann til línu úr Ljúflíngsljóðum, og segir að hún sé úr Svæfidansi. Jón hefir ruglast hér í ríminu, eins og svo opt endrarnær.

[Gekk eg upp á hólinn[1] að brýna mér ljá.
Ekki bannaði hann Jakob börnunum að slá.
Þurar eru þúfurnar, [það vil eg tjá.[2]
Brattar eru brekkurnar og Brönugrösin á.
Skáir[3] eru hólarnir og snjóskðfin[4] á;
votar eru veiturnar svo veð eg upp í knjá.
Bratta reið eg Brekkugjá,
brött og breið var hún að sjá,
Skeiðará og skaflinn há,
skaðsamlegt var út að sjá.
Vel konurnar kunna' að klá
karlmönnunum undir tá.
Mjúkan koss og meira, já,
mér vill eingin stúlkan ljá;
vildi mér því góðs að gá
góði faðirinn, minn er sá,
en ís liggur á
Straumá,
Staðará
og Hjaltadalsá.

Hrs. Á. M. 960, 4to. Séra Jón Þórðarson á Auðkúlu (Brot).

---

[1] Fór eg upp á völlu. [2] og þær vil eg sjá. [3] háir. [4] snjóskömmin — snjóskafið.

II.

— — — — svo veð eg upp í knjá.
Hljóp eg yfir um á
braut eg í mér tá,
bilaði stakkur minn,
fór eg suður hjá.

III.

Fór eg upp á völlinn að brýna minn ljá,
ekki mun hann Jakob banna mér að slá,
votar eru veiturnar og veð eg upp að knjá,
brattar eru brekkurnar og brenna grösin á.
Hvar á að ríða sunnan yfir á?
Ríddu [með henni[1] Laxá,
Laumá, Straumá,
Karlmannarenna.
Djúp er hún Dalasveit,
leingri er hún ljósaleit.[2]
Hennar beiddi Úlfur og Kúlfur.
Heimurinn hálfur,
hann Erlíngur sjálfur.
Það er mikið gjálfur,
sem bóndinn hefir sjálfur
Jón bóndi rella,
brátt [mál að stella.[3]
Lúsía laung,
þar til bullustaung,
Járngrímur og Loki,
og hann Björn poki,
Þorbjörn og Þrúða
með allan sinn skrúða.
[Þá var mikið[4] val,
þau voru upp[5] í Dal.
Eg á móskjótta meri
niðri á Steinsstöðum.
Eg kalla hana tryppu,
þó eg verði slyppur,
eingin morkin[6] fæða.
Ilt er mér í minni tá,
svo lætur í hverri krá.
Dúnkonan[7] bannar mér að dúnka
það skal eg ávalt gjöra,
sem mér er bannað,
hlaupa [austur og vestur[8]
[um Hvanngarða[9] manna.
Sástu hvergi vorar meyar
sunnan undir firði?
Sá eg þær sátu sjötíu[10] í hring.
(ráku þær[11] allar drottníng.
Ein hét af þeim Dýrfinna.
Hennar beiddi Árni
kirkjumaðurinn[12] í Túni.
Pípir á penínginn
og rennur á teníngin.

Hrs. Á. M. 969, 4to með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum
Lítið brot hjá séra Guðmundi Jónssyni, Safn af íslenzkum orðskviðum 1830
bls. 300.

---

[1] yfir hana. [2] ljósleit. [3] nála snegla. [4] það var kallað. [5] út. [6] mörkin
[7] Búkonan. [8] út og suður. [9] til feingsælla. [10] sextán. [11] og rökuðu allar. [12] kirkjusmiður.

IV.

Gekk eg upp á hólinn að
brýna mér þar ljá.
Ekki bannar hann sánkti Jakob
mér að slá.
Votar eru vætur, veð eg upp að
knjá,
þurar eru þúfur, þar vil eg slá,
brattar eru brekkur, brenna
grösin á.
Ekki get eg skyrið gjört, því mjólkin
er svo smá.
Drífur döggin þá dreingir slá.
Hvar á að ríða fyrir sunnan á?
Laxá, Laumá,[1] Strángá,[2]
Hornafjarðará, Staðará.
Hver kallar á?
Kvalinn er sá karlmaður
er kóngsdóttir á.
[Henni fylgir[3] Úlfur og Álfur[4]
Erlendur gjálfur,
Jón bóndi sjálfur,
[Sigurborg, Ragna.[5]
Senn er mál[6] að þagna.
Vilmundur,[7] Vigga,
Sigmundur,[8] Sigga,
Ásgrímur,[9] Loki
og hann Björn[10] poki,
Þórarinn á Nesi,
kollóttur Blesi,
Þórarinn og hann Skeggur
það eru vaskir seggir.

Svipuð útgáfa í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar. Hrs. Á. M. 960, 4to, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa (brot).

V.

Fór eg upp á hólinn að brýna
mér[11] ljá.
Ekki bannar hann Jakob mér að
slá.
Brattar eru brekkurnar, svo brenn-
ur grasið á,
votar eru veiturnar, svo veð eg
upp í knjá.
Laxá, Leirá,
Laufá, Straumá.
Kvalinn er sá karlmann
sem konúngsdóttir ann.
Allir þeirra hermenn
fylgja þeim fram.
Honum fylgir Ólfur
og Kólfur,
Jón bóndi, Rella,
Brekkumaður og Svella,
Sæmundur á Loki,
þar með Björn poki,
Lús og hún Laung
þar með bullustaung;
setti' eg hana leingst út um
glugga.

VI.

Kvalinn er sá karlmaður,
sem Klannsdóttir ann.
Allir hennar vermenn
þeir fylgja henni fram.

---

[1] Dalsá. [2] straung á. [3] Hennar beiddi. [4] Kúlfur. [5] segir bóndinn Ragnar.
[6] að mál sé. [7] Vígmundur. [8] Sölmundur. [9] Sigurður. [10] Bjarni. [11] minn.

Henni fylgir Úlfur og Álfur
og Jón bóndinn sjálfur,
Staðarborgarbragnar.
Brátt er mál að þagna.
Vilmundur og Vigga,
Sæmundur og Sigga,
Ásmundur, Loki
og hann Björn poki,
Pétur, Páll og Halla
milli fjöru og fjalla.
Austan koma hvalirnir og selirnir.
Mér er ilt í minni tá,
[það liggur[1] í hverri lág.[2]
Hlúnkarnir beiddu mig að dúnka.
[Eg skal ekki gjöra það,[3]
sem mér er bannað,
að hlaupa austur og vestur
til Hvanngarða manna.
Árni býr á Strönd.[4]
Þá skal eg mitt skip fleygja
og sigla suður um lönd.
Pípir[5] hann peníngin,
jaskar[6] hann grenínginn.[7]
Svo er enn sem í gær.
Kaupakonan misti
hnífinn, tífinn,
kampinn,[8] skærin.
Refur, refur, roðskinn!
rotinn er nú belgur minn.

Hrs. Bmfj. 605, 8vo. Brot frá Þorsteini Þorsteinssyni frá Upsum.

VII.

Fyrst gekk hann Loki,
svo hann Björn poki,
svo hljóp hann Lúsin laung,
svo hann Bjarni bullustaung.
Það er býsna[9] gjálfur
sem bóndinn hefir[10] sjálfur;
honum fylgir Úlfur og Kúlfur
og Erlendur sjálfur,
Erlendur sem ána beit.
Hann var bróðir Bjarna.
Ofan í hann örnin skeit.
Ekki veit eg að tarna.
Jón bóndi og Vigga,
Sæmundur og Sigga,
maður úr hverju húsi
og hann Kvæða-Fúsi,
Haggastaung,
Bárulaung,
Skarkaladóttir.
Vigga, Sigga,
Valka, Salka
draga á stein.
Allar eru' úr skóginum
utan eg ein.

VIII.

Árni bjó á Strönd,
átti skipið Fley.
Skipið kallast Gálmey,
norður undan Málmey.

Og svo grautur úr: Lambið beit í fingur minn.

IX.

Fyrst hljóp hann Loki
og hann Björn poki
og hann Jón lúsin laung
og hann Björn bullustaung.

---

[1] svo lætur. [2] krá. [3] það skal eg gjöra. [4] Ströndum. [5] Nartar. [6] klípur.
[7] tenínginn. [8] kambinn. [9] mesta. [10] á.

Hvert skal Jón flakka
með kvartil á hnakka
og kút öðrum meginn?
Lukku má þakka
ef lendir á Bakka
þá lýsir af degi.

X.

Allir hans menn fylgdu honum fram,
hann Úlfur
og hann Álfur
og Jón bóndinn sjálfur.
Segir bóndi Ragnar,
að mál sé að þagna.
Vigmundur, Vigga,
Sigmundur, Sigga,
Sigurður, Loki
og Bjarni poki.
Ekki' er lángur hali minn
hvar sem eg kem inn,
hundurinn, kötturinn
og hann Jón bakskinn.

Hrs. Bmfj. 605, 8vo frá Þorsteini Þorsteinssyni á Upsum.

Stígum við stórum
stundum til grunda,
belg ber eg eptir mér
[til barnanna funda.[1]
Hér [læt eg[2] skurka
fyrir skáladyrum.
Vaknaðu Gýgur!
[Ei vill Gýgur[3] vakna.
Er orðið framorðið?
Sól á milli augna þinna,
sofa máttu leingur,
einn dúrinn dreingur!
Farðu' á fætur Dísa,
úti er kveðin vísa!
Hver er kominn úti?
Björn á brotnu skipi.
Hvað [vill hann Björn?[4]
Biðja[5] um nálar.
Hvað [er að nálum?[6]
Sauma að segli?
Hvað er að segli?
Slitið af veðri.
[Hvað gjörðirðu af nálunum,[7]
sem eg fékk þér í fyrragær?
Eg fékk Hala bróður.
Hvað gjörði Hali bróðir af.
Hann kastaði út á miðjar götur
og sagðist skyldi brenna
á baki þeim sem ætti,
en ekki sér.
Hvað ertu að gjöra núna?
Eg er að telja tölur mínar
og taldi ekki rétt,
eg er að binda skóbönd mín
og batt þau ekki rétt.
Gott barn í kvöld,
heilagt er á morgun.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. D[3], með hendi séra Benedikts Þórarinssonar á Ási í Fellum, Arch. E[2], F. Hrs. Bmfj. 605, 8vo, með hendi Þorsteins Þorsteinssonar frá Upsum. 4 fyrstu línurnar í hrs. Sv. Grv., Arch. N, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa. Hrs. J. Sig. 282, 8vo, afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson. Tvær út-

[1] barnanna fullan. [2] lætur. [3] Ígulgýgur. [4] er hann að fara? [5] Hann er að b. [6] um nálar; vill hann með n. [7] Frá [ Hvar eru nálar.

gáfur, önnur eptir Málfríði Brynjólfsdóttur í Þverdal, en hin eptir Margréti Bjarn dóttur á Sléttu. Hrs Á. M. 960, 4to, aptan á bréfi til Mr. Bjarna Brynjól sonar á Hafrafelli 1835. Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar yngra í arkarbr með hendi Páls Hjaltalíns.

II.

Hvað ertu' að segja núna?
Eg er að sýngja tölur mínar,
bind eg upp á mig skótytjur mínar,
er í skorpnum skinnstakk,
sem skrollir upp á bakinu,
sjóskó á fótunum
og sýng ekki hálfvel.
Eg skal sýngja betur á morgun
ef betur liggur á mér.

III.

Eg er að binda skóþveingi mína,
eg batt þá ekki vel í gær.
Eg verð að binda þá betur á morgun.

IV.

Eg skal sýngja betur á morgun
þegar tíðafólkið kemur fleira
þann gleðisaung að heyra.

Hrs. Sv. Grv. 66. Jón Sigurðsson, eptir Sigríði Magnúsdóttur frá Skáleyj um 1860.

V.

á baki þeim, sem ætti.
Sástu hvergi hann Svart son minn?
Sá eg hann,
arma þjófinn þann;
hann var uppi' á alþíngi
og stal bæði nautum og sauðum
með hlandkopp á hausnum,
títuprjón í augunum,
grenispýtu' í eyrunum,
svælistækju í nösunum,
eldibrand í rassinum,
skyr í annari klónni
en skarn í annari;
kastaði niður skyrinu
en át skarnið.

Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum.

## Draumur.

Draum dreymdi mig
fyrir dag lítið.
Af þeim draumi
drjúgt er að segja.
[Hafur[1] heyrðist mér
á hæðum belja,
Af þeim beljum
brunnu seljur.
Að þeim seljum
sátu rekkar.

---

[1] hvalur.

Af þeim rekkum
runnu dreyrar.
Af þeim dreyrum
drukku hrafnar.
Af þeim hröfnum
hriktir í vindi.
Af þeim vindi
veður[1] í skýjum.
Af þeim skýjum
skall einn máni.
Af þeim mána
mjög fagur himinn.
Af þeim himni
heiðar stjörnur.
Á þeim stjörnum
stóðu laukar.
Að þeim laukum
léku meyjar,
um lönd og eyjar,
löndin öll og eyjar.

Hrs. Thotts 489, 8vo, skrifað 1752, og skeytir hér aptan við byrjunina á Gekk eg upp á hólinn. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E². Hrs. J. Sig. 282, 8vo. Þrjár útg. Ein með hendi dr. Hallgríms Schevíngs, önnur með hendi séra Jóns Norðmanns. Afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Sigríði Oddsdóttur, prestskonu á Stað í Aðalvík. Hrs. Á. M. 969, 4to. Á umslagi til Bjarna Brynjólfssonar á Hafrafelli. Hrs. Bmfj. 605, 8vo, með hendi Þorsteins Þorsteinssonar á Upsum. Hrs. Á. M. 960, 4to, með hendi séra Jóns Þórðarsonar á Auðkúlu. Steingrímur Thorsteinsson, Isländische Volkslieder. Kolozvár 1879, 8—11. Þar með þýzk þýðing.

II.

Af þeim laukum
léku Óðins þrælar,
fimm og fjórir
og farinn er draumur.

Hrs. J. Sig. 282, 8vo útg. Schevíng, mjög afbökuð.

III.

Af þeim laukum
um lönd og eyjar.
Sástu hvergi vorar meyjar?
Fimtán í flokki sá eg þær.

Dr. Jón Þorkelsson ýngri eptir Guðrúnu Guðjónsdóttur 1879.

IV.

löndin og eyjar,
leir og fjöll;
lífinu týndu menn og tröll.

Sv. Grv. 67, Arch. F. Hrs. Bmfj. 605, 8vo.

V.

á þeim laukum
lék Óðins mær;[2]
féll flóð fyrir dyr
og farinn er draumur.

Isl. Volkslieder.

---

[1] vakir. [2] niður.

VI.

Um lönd og eyjar,
fimtíu[1] og fjórar
[og nú er úti[2] draumurinn.

Sumir segja að stúlku hafi dreymt draum þenna fyrir Vestmanneyjaráninu 1627, en sumir segja aptur að stúlku hafi dreymt hann fyrir kristniboði á Íslandi

Jón smár[3]
smellir á,[4]
ríður tryppi sínu til fjár;
lætur skaka rindilinn,
dindilinn,
með flautakopp í hendi.
Viltu nokkuð úr koppnum þeim,
sem hér fannst á heiði?
Þar var niðri' í:
þjalahnífur Þórnýar,
[rekan hennar[5] Ragnhildar,[6]
rassaskefill Signýjar,
þjófahnífur Þuríðar,
þénari Hallgerðar,
broddahrífa', er bóndinn átti,
Kompu-Júði, er Kolbeinn átti,
og annar hans Bjarna
og satt er að tarna.

II.

Jón smá
smellir hár;
mátti' eg ríða tryppi
mínu til fjár
með flautakollu í hendi
og [smérbita ofaná.[7]

Sbr. ennfremur: »Poki fór til Hnausa«.

III.

Viltu' eg segi þér nokkuð
af stokknum þeim hinum græna?
Þar var inni þver . . . . og þél
og súrsaður rass af sel,
keppahnífur,
Kolbeinn breddahnífur,
bóndinn bjúgahnífur,
Þuríður,
þénari Hallgerðar,
buxnahnífur Ólafs
og annar hans Bjarna.

IV.

Það er þarfara þél,
þú hefir soðið rass af sel,
fimtán marka kæsisker
og Kolbeinn ætlar suður í ver.
Bredduhnífinn bóndinn átti
Lúseyjar laungum.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E².

V.

Jón skjá
skellir á,
ríður brúnskjóttum klár
alla sína dagana til fjárins.

---

[1] fimm. [2] falinn er svo. [3] skjá. [4] smellisár. smellhár, skellirár.
[5] rauður koppur, Rauðakyppa. [6] Rannveigar. [7] fingur niðri' í þrjá.

Honum fylgir Úlfur og Álfur,
Jón kraki sjálfur,
Sigurður og Sigga,
sambornar ærnar.
Þúka mín þarna,
Þóra mín stjarna,
förum ofan í fjöruna
og fáum okkur kjarna.
Ekki er minna 'en átján vættir
undir honum Bjarna.
Ekki hefir hún kona þín
kent á því arna.
Gullsalín,
dóttir mín
allan tollinn tók hún upp á svuntu sín,
gestlíng
og gemlíng
og grátt gæruskinn,
vatt hún upp á þollinn,
samt tók hún tollinn.
Sigurður gaf henni silúng
og setti hana upp,
annar gaf henni náttúng
og nellingabupp.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. **Séra Jón Eyjólfsson, eptir Vígdísi Jónsdóttur í Vigur.**

Hestur minn stendur á Haugi;
veit eg hann heitir Baugi;
með brennfögru beizli
brauzt hann fram á heiði.
Heyrði' eg uglu æpa,
enn í kórnum sýngja.
Hvort varst þú Guðrún
að gánga inn,
glaðleg mær undir sól?
Eg sat undir öxlinni háu,
hvítt nam letur líta.
Þar lá blíður á bóli
Brunnólfur hinn þrái,
rekkur í rauðri skyrtu
ríkur í Bjarnar ríki.
Stendur alfögur og keik,
mikillát og kyr
fyrir kirkjudyr;
leggur ljómann af
lángt út á haf,
og í hverja vík,
sú er fæstum lík.

II.

Hestur minn á haugi
heitir veit eg Baugi,
með bandfögru beizli,
beygist niður á vegi;
þá kemur karl hinn gamli,
klappar Baug í haugi;
hvað smíðarðu þjóðar
þópti gamall með hamri?
»Ketil smíða eg,« sagði karl,
»úr kerlíngar hríngju;
rusla eg í smíðunum mínum,
þá presturinn hríngir í klukkunum sínum.
María gekk til messu,
mætir helgum dómum.
Hafði sér lykil á lynda,
lauk upp þessu ríki;
súngu á bækur báðir,
Pétur og Jakob annar.
Við skulum suður að sumri
að sækja helga dóma.«

## III.

Hestur minn stendur á
haugi.
Eg veit[1] hann heitir[2] Baugi,
með bandfögru beizli
[eg beitti' honum fram á[3] heiði;
fór eg upp til þínga,
bar mér brátt að sýngja.
Upp stóð eg einnig,
en allir menn sváfu.

Hvert varstu geingin Guðrún
glöð undir sólu?
Eg sat undir eikinni háu,
að leita launa' og að letri;
þar lá brauð á bala
og brunaormurinn fráni
líkur Bjarna naf,
og alt út á haf.

**Frá Guðmundi Davíðssyni.**

## IV.

Hvert er hún Guðrún mín geingin,
gott víf undan fjalli?
Þar lá blíður
í blóði sínu,
sem bana fékk,
Ormur hinn sterki,
rekkur í rauðri skyrtu
ríkur í Bjarnarríki.

**Frá Guðmundi Davíðssyni.**

[Ræ eg á[4] róður þinn
Réttnefur, Sléttnefur,
að þú berir betur fram
Brattnefur, Flatnefur.
[Einn ef þú villist[5]
[Vínnefur, Krínnefur.[6]
Róðu á bak betur
Bjúgnefur, Drjúgnefur.[7]
Stýrum í straum betur
Stafnnefur, Hrafnnefur.
Eigi vildi Eirnef[8]
arka[9] [fyrir Tinnef.[10]
Betra væri Blýnef[11]
[borið fyrir[12] Járnnef.[13]
Mjótt[14] Messíngarnef,[15]
[man eg enn[16] Gullnef.
[Heilt Hornnef,
og hvað segir segir þitt nef?[17]
Eigulegt er mitt nef
og trúlaust er krumma nef?

---

[1] hygg. [2] heiti. [3] beygir upp á. [4] Ræði' eg um. [5] þótt þú lítir á bak aptur. En ef þú vilt ekki það. [6] Innnefur, Brimnefur; Krimnefur, Kinnnefur. [7] Strjúgnefur. [8] hann Eirnefur, Trénefur. [9] etja. [10] með honum Trénef. með eitt nef, við Koparnef. [11] Brimnef, Brýnnef, að Brýnnefur. [12] að bora heldur en, bera heldur, að berjast ei við, bæri heldur. [13] Stálnef. [14] m. er. [15] missýningarnef. [16] manaði.

[17] Heill heill Hornnefur.
Hvað gjörir Tinnefur?
eða Heill sæil minn Hornnefur!
Hvað segir Spýtnefur?
eða Heilt, heilt er Hornnef!
Hvar sástu hann Trénef?

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E[2]., Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Margréti Bjarnadóttur á Sléttu.

II.

Hvað segir Spýtnefur?
Frostið er í fjöllunum,
margrænt hey í stöllunum,
pikur sitja á pöllunum
prýddar linna mjöllunum.
Skarkali með sköllunum
skemtir baugaþöllunum.
Virðar glíma á völlunum,
ver sig margur föllunum.
Dreingir éta' úr döllunum,
dautt er flest af tröllunum.
Hér brokkar faðir þinn.
Ekki skal hann hér brokka.
S[t]íga þeir á stokkana
stela þeir ofan bjúgunum
metast þeir um mörvana
míga þeir í keppina.
Karl hljóp út frá Lóni,
bar stóran birkilurk á bakinu,
kom heim aptur kollvotur á nóni.

Hrs. J. Sig. 245, 4to, afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118.

Bokki[1] sat í brunni,
hafði blað í munni,
hristi sína hrínga,
bað [fugl[2] að sýngja.
Grágæsamóðir![3]
ljáðu mér vængi,
svo eg geti flogið
upp til himin[4]túngla.
Túnglið, túnglið taktu mig
og berðu[5] mig upp til skýja,
þar situr hún móðir mín
og kembir ull nýja.
Þar sitja nunnur,
skafa gulltunnur.
Þar sitja systur,
[6]skafa gullkistur.
Þar sitja karlar,[7]
skafa gulldalla.[8]
Þar sitja einglar
og skafa gullteina.
Þar sitja Jónar,
skafa gullprjóna.
Þar sitja sveinar
skafa gullteina.
Þar sitja Freyjur
skafa gulltreyjur.
Þar sitja mágar,
skafa gulltágar
Þar situr faðir minn
og skefur gullhattinn sinn.

Hrs. J. Sig. 262, 8vo, með hendi dr. Schevings, afskr. Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island 1888, bls. 196.

II.

skafa gullprjóna.
Þar sitja prestar,
og skafa gullfestar.
Þar sitja Valdar
og skafa gullfalda.
Þar sitja afar
og skafa gullnafar.
Þar sitja Ólar

---

[1] Brokki, Blokki, Djákni, Poki. [2] fugla. [3] hjala sem móðir. [4] fagra. föður. [5] flyttu. [6] að o. s. frv. [7] lallar. [8] -palla.

og skafa gullkjóla.
þar sitja allir
og skafa gullhallir.
þar sitja fleiri
og skafa gull með eiri.

Á undan: »þar situr faðir minn« má bæta inn í svo miklu, sem vill, svo þulan er opt höfð miklu leingri en hún er hér.
Frá Boga Melsteð, cand. mag.

III.

skafa gulltágar.
sæll er sá sem sofa má
bæði vel og leingi
undir einni drottníngarhendi.

Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar.

IV.

## Eitt lítið æfintýri.

það er sagt að eitt sinn hafi tvö börn verið úti um kvöldtíma í glöðu túnglsskini, sem fyrir skömmu höfðu mist móður sína og þá hafi þau sagt:

Túnglið, túnglið, túnglið mitt,
taktu mig upp til skýja,
þar situr hún móðir mín
og kembir ull nýja,

en börnin hefðu átt að hverfa og var ímyndað sér, að þau hefðu farið í túnglið, og sæjust þar þá túngl er fult sem tveir dökkir dílar, og væri ullartunna á milli þeirra.

Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum.

Karl fór[1] yfir um á,
bar á baki skyrsá,
kú kollótta,
hest hríngeygðan,
fola þrevetran,
lömb þrjátíu,
kálfa tólf
og þórólf.
Stóð hann upp og hélt um hlein,
brotnaði í honum síðubein
og annar mjaðmarspaði.
Hallur[2] á vaði,
Hallur[2] á Breiðavaði.

II.

Karl óð yfir um á,
bar á baki skyrsá,
nafarinn,
nýtt skinn,
nestið
og hestinn o. s. frv.

---

[1] gekk. [2] Allur.

uxann rauðan
og annan svartan,
nær fimm hundruð lamba.
Þetta bar hann Helgi kallinn Snæfellsás.

III.

Karl óð yfir á;
bar á baki sínu þá
nafar og nýtt skip,
árar og stýri,
[hauk[1] og héra,[2]
hest og sleða.
Tólf börn og kerlíngu sína.
Hvar sástu þann karl,[3]
sem meira mátti[4] bera?
Eg sá hann á alþíngi.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo.

Hann kastaði gullkambi,
kembdi sér með hornkambi,
var í þeirri verri brók
og kastaði[5] þeirri betri.
Hann át skarnið,
snaraði skyrinu.
með hlandkopp á höfðinu,
eldibrand í augunum,[6]
grenispýtur í nösunum,[7]
og flotbita í munninum.[8]

IV.

Maður gekk upp með á,
bar á baki skyrsá,
nafar og nýtt skip,
naustrið og klaustrið,[9]
hauk og héra,
vagn og sleða,
herklæði og skötubarð,
hökul og smérdall.
Hvar sástu[10] þann karl,[11]
sem meira mátti[12] bera?
Meira bar hann Helgi.
Barn[13] bar hann Helgi

og á svarta,
kú kálffulla,
konu þúngaða,[14]
hest hríngeygðan,
[bola hjálmóttan,
fola þrevetran.[15]
Þetta bar hann Helgi
og hundrað lömbin,[16]
alsvartan uxann,
öskutrog og ónýtt hrip
og átján barna ruggur.
Þetta bar hann Helgi.

V.

Þetta bar hann Helgi
í buxnavasa sínum.
Veiztu nokkurn þann karl,
sem meira gæti borið?

Elti' eg hann á Spreingisandi;
mikið var veður á Austurlandi;
strauk hann þá með sterku bandi,
stefndi vindi rétt á mót.

---

[1] hund. [2] pál og skera. [3] mann. [4] kann að. [5] snaraði. [6] rassi. [7] auga.
[8] kjapti. [9] naustur og klaustur. [10] sérðu. [11] mann. [12] kann að.
[13] Belg. [14] afgamla. [15] þrjú naut þrevetur, þrettán geldinga. [16] lamba.

Hér skulum við hafa fót.
Ef hann festist hér við land
þá skal honum ná.

Hattur minn
höfðinu frá.

Frá Guðmundi Davíðssyni.

VI.

sem meira kann að bera.
Eg sá hann í afdölum.
Hann bar langtum meira,

hann bar sext
og hundrað h

. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, ep
Rekavík bak Höfn.

Karl tók til orða:
(Mál [er að fara[1] að borða
og bera fram forða.[2]
Þar kom [inn einn[3] diskur,
var á [smér og[4] fiskur,
keralda[5]rætur[6]
og fjórir[7] sauðar[8]fætur.

[Upp tók hann
ekki var hann
gjörði [sér úr
Grettir heitir
[smáleitur, sv
seggur ekki b

Hrs. Bmfj. 605, 8vo, með hendi Þorsteins Þorsteinss
J. Sig. 282, 8vo, með hendi séra Jóns Norðmanns, afskript
Sv. Grv. 118. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjó
Jóhönnu Eyjólfsdóttur á Stað í Aðalvík. Hrs. Bmfj. 651,
mundar Mattíassonar.

II.

Grettir heitir hann.
Hvað[13] kann[14] hann Grettir vel
að vinna?
Þráðarkorn að spinna.
Hann[15] [á að fara[16] í[17] eyjar

og kaupa[18] sé
kýr og kálfa
og [keisarann
[Margt lætur
hann svæfir p

III.

Grettir heitir hann.
Fór hann út í eyjar,
að fala sér þar meyjar.

Þegar hann k
þá var ekki p

[1] er, mun, væri. Frá ( þótti mál. [2] sporða. [3] innar.
[5] kjammi, kjammar, keröld, hvannir, kálfsket og silúngu
[8] sviða. [9] Karlinn greip. Tók eg mér, Tók, Bóndinn tó
mér, þar af. [12] og nú ríður hofmanna hópur í rann.
[15] Grettir. [16] róa fram. [17] fór út í, fór á, fór í, fer út
svæfa, festa, svæfir. [19] þær, þar. [20] konurnar sjálfar,
ínguna sjálfa. [21] og páfann í Róm.

Hrs. Bmfj. 605, Þorsteinn Þorsteinsson. Jón Ólafsson Stafrofskver 1889' 1891, 1892, bls. 37—38. Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar.

I.

Karl og kerlíng
riðu[1] á alþíng,
fundu[2] titlíng,
stúngu í vettlíng.
Þegar[3] [þau komu[4] heim
einginn sinti þeim.
Þeim var gefið[5] brunnið bein,
[þau brutu það[6] niður[7] við stein.
Tíkin tók það af þeim,
en titlíngurinn flaug út um allan heim.

Hrs. Bmfj. 605, 8vo, Þorsteinn Þorsteinsson. Jón Ólafsson, Stafrofskver 1889, 1891, 1892, bls. 37. Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Ágústínu Eyjólfsdóttur á Stað í Aðalvík.

II.

Tíkin hún Toppa, hún tók það af þeim,
og titlíngurinn flaug út um allan [heim og geim.[8]

III.

en titlíngurinn flaug úr vettlíngnum þeim.
Andarbliki[9] og öndin ein[10]
úti liggja' í flóa.
[Mýrifuglinn[11] kallar[12] á[13] hann[14] kjóa.[15]
Hvort viltu heldur sigla eða róa?
Utan[16] yfir hafið flýtur báran mjóa.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo, með hendi Sigmundar Mattíassonar.

IV.

út um allan heim og geim
og eg með þeim.
Börnin ráku nautin[17] ofan[18] í móa
og eg með þeim.
Bífuglinn kallar á hann kjóa.

V.

Það var karl og kerlíng,
þau riðu á alþíng,
höfðu með sér titlíng,[19]
stúngu' honum í vettlíng;
fundu brunnið bein,
brutu það við stein
og svo fóru þau heim?

Eptir sögn Þorsteins Erlíngssonar, ritstjóra.

---

[1] fóru bæði. [2] f. fyrir sér. [3] Síðan, Svo. [4] komu þau. [5] boðið. [6] brotið. [7] út. [8] himingeim. [9] æðarbliki. æðikolla. [10] hrein. [11] Mífuglinn, Refsi, Bósi. [12] rekur. [13] nautin heim. [14] um. úr. [15] móa. [16] austan. [17] lömbin. [18] út. [19] kettling.

VI.

Karl reið á alþing
fann fyrir sér titlíng,
stakk honum í vettlíng.
Allir ríða Norðmenn á alþing.
Börnin ráku o. s. fr.

Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar.

VII.

Karl — vettlíng.
Þó var hann ekki fuglinn smár,
býsna digur á baki grár
bröltir hann í snöru,
fuglinn í fjöru.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N. Séra Helgi Sigurðsson í Jörfa.

Karl [fór á[1] kolskóg[2]
[keipaði reipum,[3]
vildi fá sér það tré,
sem viðbogið[4] væri;
væri [bugur við bug[5]
og buga[6] hríngur um kríng.
[og þann vill hún öðlíng.[7]

Hrs. Bmfj. 605, 8vo, þorsteinn þorsteinsson frá Upsum. Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Ágústínu Eyjólfsdóttur á Stað í Aðalvík. Jón þorkelsson, Om Digtningen på Island 1888, bls. 196.

Karl bjó í húsi,
átti kú bleika,
kapalinn mórauðan,
hattinn litaðan
og húfuna græna,
brækur blárönd óttar
og bröndótta skó;
stakk skakk
stranda randa,
stuttkápu
og hann bjó.

II.

Karl bjó og átti sér
meri mórauða,
möttul stuttan,
hatt og litla
húfu græna,
brækur blárendar
og bröndótta[8] skó;
[þetta fyrir mig fló;[9]
stakk skakkstrendan,[10]
stutta kápu og hann bjó

[1] reið í. [2] skóginn. [3] keip um að leita, að (höggva) kaupa sér eikvið. [4] þribogið. [5] baugur við baug. [6] bauga.
[7] Glaður reið hann Ármann á örfaþíng.
Glaðir riðu Norðmenn á örfaþing (alþing).
það þótti karli vel viðivaxið.
[8] röndóttan B. [9] sl. B. [10] skakkstrendrendan B.

Breytilega búinn var
bóndinn þó til verka snar,
margháttaðan búníng bar,
sem birtir þetta sónarkver,
karl bjó og átti sér.
Hélt hann beztan hófamar,
hvergi sagði trauða,
meri mórauða.
Á höfði aldrei hafði dar,
heldur greini' eg yður satt:
litla græna húfu og hatt.
Kindugur átti krókapar,
því kræktust honum um lendar
buxur blárendar.
Snyrtið hafði fótafar,
fagrar hosur á sig dró
og bröndótta[1] skó.
Skartsamlegur þótti þar
þetta fyrir mig fló,
stakk skakkstrendan,[2]
stutta kápu og hann bjó.

Hrs. J. Sig. 398, 4to. Hrs. Thotts 489, 8vo = *B*. Þulan er eptir Sigurð Pálsson í Skógarnesi († 1715).

Dreingurinn Dólinn[3]
hvar [varst þú[4] um jólin?
Eg[5] var norður[6] á Helgafelli
að [sníða minn[7] kjólinn.[8]
Hvað fékkstu[9] í kaupið?
Það var meira' en raupið.
Gimbur og gelda á,
[þrjár álnir[10] vaðmáls.
Hvað gjörðirðu[11] með[12] þær?[13]
(Eg[14] sneið [mér[15] úr þeim[16]
stakk og stutthempu[17]
og stángaða brók,[18]
konu[19] minni[20] pils[21] og treyju,[22]
kettinum kjálkahatt,[23]
músinni möttul.
Þó[24] gekk af alin,
[hana fékk[25] smalinn.
Datt[26] hann ofan í dalinn
[og þá varð hann galinn,
hann Jón smalinn.[27]

Hrs. Bmfj. 656, 8vo, 605, 8vo, Þorsteinn Þorsteinsson á Upsum. Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 197. Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum.

Táta, Táta
teldu dætur þínar!
Hægt er að telja.
Ein er í búri
borð að reisa
tvær [í helju,[28]

[1] bröndóttan B. [2] skakkstrendrendan B. [3] Dóri, Drjólinn, hann Dóli. [4] var hann. [5] Hann. [6] suður, upp. [7] kaupa mér í, hrista minn, hrista sinn. [8] hrista mín tólin. [9] fékk hann. [10] tvær voðir, stikur. [11] gjörði hann, varð þér, sneiztu. [12] við, úr. [13] þeim. [14] Hann. [15] sér. [16] Frá ( sínum syni. [17] stórhempu.
[18] frá [ þær upp handa bónda mínum,
stakk og stuttkjól
og stángaðar buxur,
mér pils og hempu.
[19] móður. [20] sinni. [21] fat. [22] hempu. [23] kjálkaskjól. [24] þá, þar. [25] við henni tók. [26] Hljóp. [27] þar liggur hann kalinn,
vesalings (óhræsis) smalinn.
[28] mat (matt) selja (mala, melja).

þrjár [salt[1] selja[2]
fjórar (í fjósi[3]
[í fötu að toga,[4]
fimm á fjöllum[5]
fífil[6] að grafa,
sex á sandi,
sjö á landi,
átta í eyjum
eld að kynda,
níu í nesi
nauta' að geyma,
tíu í túni
töðu að hirða,
tuttugu heima.

Fátt er nú talið,
telja mátti betur.
Áttatíu[7] hlaupa
eptir ömmunni gömlu
[hundrað á húsabaki.[8]
[Hálft er þá talið[9]
liðið hennar Tátu[10]
og heil sé hún Táta.
þrjár eru[11] þórur,[12]
þórgunnur fjórar,
átta[13] Ólafir,
ellefu Tóur,
þrjátíu þuríðar,
þrettán Gróur.[14]

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. D[8]. með hendi séra Benedikts þórarinssonar á Ási í Fellum 1850. Arch. F. Hrs. J. Sig. 282, 8vo, með hendi dr. Schevings, afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Hrs. Sv. Grv., Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Ketilríði Bjarnadóttur í þverdal. Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum. Hrs. Á. M. 247, 8vo, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa.

Tafra[15] gleypti tuttugu hafra,[16]
torfið alt og ljá með[17] orfi,
Haukadal og hundrað stráka,
hesta tólf og átján presta.
Át hún flot og feitt ket,
feykilega[18] sér[19] lét,
kapalinn[20] og kaupskip,

kálfa tólf og þórólf.
Sumaði'[21] hún í sig [sextán hundruð,[22]
svellin öll úr Bjarnarfelli,
ruddi hún í sig Rángárvöllum
(og reppnum þeim í [Holtum heitir,[23]
hundrað sauðum þar að auki,

[1] mél, mjöð, fé. [2] gjöra, mala, drekka, smala. Frá [ matseljur. [3] eldhúsi. fjöru. [4] flór að moka, graut að gjöra, fóru til sölva, fiskinn að slægja. Frá ( korn mala, mjöð drekka. [5] fjalli. [6] fífla, fuglana. [7] Níutíu. [8] hurðarbaki. Frá [
hundrað vestur á húsabaki
og sextíu í hellinum.

[9] þó er ekki hálftalið. [10] Frá [
Hálft er talið Tátulið
og þar máttu bæta við.
Hálft hefi' eg talið.

[11] á eg. [12] þórunnir. [13] áttatíu. [14] róur. Frá (
og sextán í hellinum.
þá er hálftalið
Tautulið.

[15] Tóa, Nefra, Tíkin. [16] tefra, hamra. [17] í. [18] feigðarlega. [19] svo. [20] kapla tvo. [21] Svelgdi. [22] hundum. Frá [ Svartárvelli, sætan völlinn. [23] Holtaheiði. Frá ( Reykjanesi' og Bakkanum öllum.

[Bæjarsveit og bygðum öllum
Borgarfirði' og öldu teitri,[1]
Íngólsfelli[2] og öllum[3] Flóa
[og aptur lét þá kjaptinn Tóa.[4]

Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar. Hrs. Bmfj. 651, 8vo, með hendi Sigmundar Mattíassonar, og kallað þar gáta. Hrs. Á. M. 960, 4to, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa (brot).

II.

aldrei varð hún full hún Tóa.
Springi nú sá sem fyllstur er,
sagði hún Tóu-dóttir.
Þá sprakk hún eldri Tóa.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E².

Tíkin hennar Leifu,[5]
[tók hún frá mér[6] margt,
löð[7] og skaflaskeifu,
skinn og vaðmál svart,
[níu' álna[8] língan naglatein,
nú er það komið í vísnagrein,
tíkin sú var ekki ein,
því Óðinn var með henni.
Fái' hún skömm og margfalt
mein,
molist í henni hvert eitt bein
eitraðan við eggjastein;
eptir það hún brenni.
Át hún frá mér sauðarsvið
og síðu af gamalá,
huppinn, sem að hékk þar við,
og hálfróustykkið frá,
forna skó af fótum mér
færri varla en þrjá.

Frá Guðmundi Davíðssyni. Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar. Að eins byrjunin. Hitt eru drefjar úr Tafra gleypti o. s. frv.

Gagga gó!
Hver kallar þar?
Karl á sandi.
Hvað vill hann?
Yfir' um ána[9]
Fari hann þar, sem víðast er og
strángast,
því kerlíngin braut í sér lærlægg-
inn í fyrragær.
Hvar fer þú?
Á tíðavaði.
Þar skal eg fara.
Þar skaltu ekki fara.
Sæl mín sól!
Það er ekki þín sól.
Hvar er hin þá?
Hún er uppi' á Dýngjum
að spinna þar lín.
Hverjum til handa?
Ekki þér hinn armi karl.

---

[1] Borgarfjörð og brautir margar
Bæjarsveit og eldíng heita.

[2] Ísafirði. Íngólfssveit, Íngólfsfjall, Íngulfjöll. [3] alla, allan. [4] en aldrei varð hún full hún Tóa, ekki var samt nema hálf á henni róan, ekki varð hún full að heldur. aptur lét hún kjaptinn mjóa, aptur lagði' hún kjaptinn tómann, þó var ekki Tafra hálf, þó er hún ekki hálffull, þó var hún ekki hálfkviða. [5] Laugu minnar. [6] hún át. [7] ljá. [8] nýjan. [9] á fara.

Hefirðu ekki barnkorn að selja
mér?
Hvað viltu fyrir gefa?
Smér og slátur feitt á vori.
Eigðu hann (hana).
Hvað gaf karl þér?
Mörbita blá,
selbita hrá
og sjóinn að drekka,
kaun í kollinn,
lús í barminn,
hvorttveggja nokkuð.
Eg skal bezt á honum hefna,
þeim herjans karli.
Stakkur er þar og steinn er þar
og hvergi finn eg Árna karl.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo, með hendi Sigmundar Mattíassonar.

Konan mín í kofanum
vísar hún mér til stofunnar.
Eg vil ei til stofu gá.
Eg vil heim til Hóla
að finna[1] konu bónda.
Konan[2] gekk til brunna,[3]
vagaði, kjagaði,
[lét hún gánga[4] hettuna, smett-
una,
[róuna, tóuna,
rítuna, trítuna.[5]
Dínga[6] litla[7] dumma dó,[8]
sofðu nú í nótt.
Nú er dauður Egill og Kegill í
Skógum[9]
og korriró.[10]

Jón Ólafsson, Stafrofskver 1889, 1891, 1892, bls. 37. Hrs. Sv. Grv. 67 Arch. D[3]. með hendi séra Benedikts Þórarinssonar á Ási í Fellum 1850. Hrs Bmfj. 656, 8vo, með hendi Sigmundar Mattíassonar.

II.

Kerlíngin í klefanum
hefir ost í hnefanum,
fylgdi hún mér til stofunnar.
Ekki vil eg til stofu gá.
Eg vil heim til Hóla
að hitta konu bónda.
Konan ber inn mann sinn
á fíngrum og fótum.

[Selur spurði[11] sel:
»sástu hvergi Þorkel?«
[»Eg sá hann
áðan
róa með landi fram.[12]
Hann hafði skutul
í skipi sínu.[13]
Hann mun okkur báðum
að bana verða.
Það[14] skal rista reipi' af sel

---

[1] hitta. [2] kona bónda. [3] brunns. [4] setti' upp á sig. [5] reyjuna, treyjuna [6] Ínga. Díngi. Deingi. [7] litli. [8] Sumir bæta hér við: dillinilli. [9] Skógi [10] opt eru herlegir menn í Hólum. [11] Talar selur við. [12] Frá [
Sá eg mann,
sagði hann,
sigla með landi fram.
[13] miðju. [14] þá.

og reyra sundur Þorkel,
höggva fast í hausaskel
svo hrynji blóð um Þorkel.
Það skal brýna [breddu vel[1]
og brytja sundur[2] Þorkel.

[Við skulum róa út í[3] haf,
sækja okkur stóran staf,
stínga[4] Kela þar á kaf
og [leggja hann síðan[5] út af.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo, með hendi Sigmundar Mattíassonar. Hrs. J. Sig. 282, 8vo. með hendi dr. Schevíngs, afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Hrs. Sv. Grv. 67. Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Vigdísi Jónsdóttur í Vigur.

[Ría, ría, hó, hó[6]
til Laugalanda.[7]
»Hvað [skal þetta[8] gott fólk
til matar hafa?«
»Músamilti,
magál af lúsum,
fót af fiðrildi,
flugugarnir,
kjálkastykki[9] af kettinum
og kyllirinn undan hrúti.
Það skal vera maturinn þess
þegar það liggur úti.

II.

til matar hafa?
»[Rauðmaga, riklíng,[10]
rauðseyddan drafla,
[átján æðaregg
og öltunnu hálfa.[11]
Sætur hafa sama sið,
setja upp pottinn hlóða;
eg fæ ekki' að vera við
að vita hvað þær sjóða.
Það var hálfur hali kálfs,
hrútlambs maga[12]kjarni,
gamall[13] rjúpu gildur[14] háls
og gollur úr titlíngsbarni.
Milti hálft og meira til,
móðir gulfætlinga;
gott[15] eg ekki greina vil.
Guð láti eingan sprínga.

Báðar útg. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar 1862. Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar ýngra í arkarbroti, með hendi Páls Hjaltalíns.

Duggan sigldi á hafinu;
hún var ekki hlaðin nema leðr-
unum einum.
Þar var á brúnt leður,
bleikt leður,
blesótt bolaleður,
flekkótt folaleður,
grátt griðúngsleður;
fór eg svo leður af leðri;
kom eg svo niður á miðju hests-
ins prestsins reiðhestsleðri
og flettist svo hempan prestsins
fram yfir makkann hestsins.

---

[1] broddaþél, bredduhvel. [2] strákinn. [3] á. Frá [sveima út á siglu-. [4] síðan s. [5] halla honum. [6] Ríðum, ríðum, við skulum ríða, Ríðum til tíðanna. [7] Hálogalanda, meginlanda, Laga landa. [8] mun þar, mundi. [9] krókasteik. [10] riklíng og rætur. [11] soðið sauðaket saltaða osta. [12] marar-. [13] gildrar, gamal-. [14] gamall. [15] glögt.

II.

Skip kom af hafi,
það var ekki hlaðið
nema tómum leðrum.
Þar var á hestleður,
gestleður,
prestleður
fífilbleikt folaldsleður,
rautt runsvínsleður,
grátt griðúngsleður,
svart svínsleður.
Hljóp eg leður af leðri,
kom eg niður á miðju
hestsins,
gestsins,
prestsins
fífilbleiku folaldsleðri.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Margréti Magnúsdóttur prestkonu á Snæfjöllum.

Hvað heitir hundur kalls,
sem í afdölum bjó?
Sækjandi, Sígandi,
Sópur og Kópur;
hlupu þeir að Grána
yfir um ána.
Kýrin heitir Slettikló,
ófært var henni úr heyrauf.
Lítil verður mjólkin
í hólkinn.
Hvað var gjört með tólginn?
Hann var sendur fram í fjörð,
fór þá mikið spaðið
af stað.
Hvað var gjört við það?
Það var haft til nestis
í prestinn;
sté hann upp á hestinn.
Hleypir hann með pöllunum,
dettur upp úr döllunum
smérið á þúfunum,
gúfunum,
malurinn,
hvalurinn,
út um alla móa
og flóa.
Hvar er pokinn hans þá?
Hann er niðr í Kiðagjá,
sveltur hann á hendinni
lendinni;
kemur ofan' í djúpan dal,
fær hann þarna fólkatal,
geingur hann inn gaungin
laungu,
laungu og þraungu,
með hítinni svaungu,
matar sig með skeiðinni,
dettur svo í draumadá.

---

Róum við í selinn,
rostúngs út á melinn;
skjótum og skjótum,
skreipt er undir fótum;
við látum brokka
vel geingur okkur;
förum svo að halda í land,
kærum okkur ekki grand.
Hér situr Nonni
hátt upp í stafni,
ofurlítili Jonni,
eg nefni hann með nafni:
röskloga rær hann,
rekkum stærri nær hann,
fiskiafla fær hann,
fljóðum yndi ljær hann,
byssu fagra ber hann,
birtíngs heiði fer hann.

Selina þegar sér hann
sízt ólipur er hann,
um leið hæfir á hann
af því hann vill fá hann,
margur lofa má hann
meyja vininn smáan.
Höldum leið að landi,
lítinn bát setjandi;
eg fer að fjörusandi,
faðminn útbreiðandi.
Vininn minn af fleyi
velkominn eg segi,
einatt því eg þreyi
þig að líta megi
af hraðfara fleyi.

Eptir handriti Guðmundar Davíðssonar, eptir stúlku úr Fljótum nyrðra.

Skilmálar við þann, sem rífur fyrir mann þorskhöfuð.

Rífðu fyrir mig kinn,
hjartasauðurinn minn,
gefðu mér úr henni
innfiskinn, kinnfiskinn,
bógfiskinn, bjöllufiskinn,
krummafiskinn, kjálkafiskinn,
öll roð og allar himnur
og eigðu svo það, sem eptir verður.

Frá frú Katrínu Þorvaldsdóttur í Reykjavík.

II.

Rífðu fyrir mig kinn,
fáðu mér aptur innfiskinn,
kinnfiskinn
lángfiskinn,
drángfiskinn,
kjálkafiskinn,
krummafiskinn,
koddafiskinn,
búrfiskinn,
refinn,
augað, roðin,
björn.
kisu
og kerlíngarólina,
átta leingjur af þönum,
en eigðu það, sem eptir er.

Frá Ólafi Sigurðssyni dannebrogsmanni í Ási.

III.

Rífðu fyrir mig kinn,
fáðu mér aptur innfiskinn,
kinnfiskinn,
búrfiskinn,
bjöllufiskinn,
krummafiskinn og skeiðafiskinn,
sluprin tálkn og augun bæði,
en eigðu það, sem eptir.

Frá Sigmundi Mattíassyni, »eptir gamalli konu úr Múlasýslu«.

IV.

Rífðu fyrir mig kinn,
fáðu mér aptur innfiskinn, kinn-
fiskinn,
bógfiskinn og bjöllufiskinn,
koddafiskinn, kerlíngarsvuntuna.

Frá frú Ingibjörgu Schulesen í Khöfn.

Mánudaginn, þriðjudaginn
kerlíng sat og spann.
Miðkudaginn, fimtudaginn
bar hún verkin[1] fram.
Föstudaginn, laugardaginn
[hvildi' hún lúin bein,[2]
og á sjálfan sunnudaginn
[var hún hýdd við stein,
þoldi mikil mein
og hrein.[3]

Kalt var mér á minni hendi' á mánudaginn,
mátti' eg róa[4] suður [á land[5] á þriðjudaginn;
hafði með mér hettu grá[6] á miðkudaginn;
[hvergi fékk eg að[7] sauma hana' á fimtudaginn;
saltaði' eg niður fiskinn á föstdaginn;
rauðseyddi eg mjólkina á laugadaginn;
[sykur bar eg[8] sperðilinn á sunndaginn.

Á sumardaginn fyrsta
var mér gefin kista
styttuband[9] og klútur
og móhosóttur hrútur.
Á sunnudaginn annan
var mér gefin kanna.
Á sumardaginn þriðja
var mér gefin hnyðja.
Á sumardaginn fjórða
[var mér gefið að borða.[10]

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N. Séra Helgi Sigurðsson á Jörfa.

Burt er dáin mín, mín
mæt frá herra sín, sín,
í dýrðinni hún skín, skín,
skín sem annað skoffín;
skín hún þar á skoðunardegi,
skín hún þar í moði og heyi
og skín hvort hún vill eða eigi
Vilji' hún ekki skína
skal hún heita Gína
og þá tek eg aptur meinínguna mína.

Frá Guðmundi Davíðssyni.

II.

Margréta mín hét,
hennar að eg get,
hún var ríkismönnum skyld,
það gekk eptir minni vild;
skín hún á skoðunardegi o. s. fr

Frá Soffíu Sigurðardóttur í Borgarfirði.

Föstudaginn fyrstan í honum Þorra
sálaðist hún systir allra vorra.
Hennar móðir til orða tók,
þar við jók,
hristi brók

[1] rokkinn. [2] blés hún í sín kaun. [3] drakk hún út sín laun. [4] ríða. [5] u lönd. [6] blá. [7] einginn vildi. [8] þríbrotinn. [9] sokkabönd. [10] fékk eg silki borða

og kampinn skók.
Bleikur hét sá hesturinn,
sem barnið bar
til greptranar.
Honum mitt barn
á hendur fel,
með himnaþel;
alla dagana fari hún vel
í brandaél.

Frá Soffíu Sigurðardóttur í Borgarfirði.

II.

Sunnudaginn þriðja í þorra
þá dó móðir allra vorra,
með hnútinn aptan á.
Svartur var sá hesturinn,
sem hana til kirkju bar,
bjartur var sá presturinn,
sem saung yfir henni þar
með hnútinn aptan á.

Ólafur siglir að austan,
hefir sinn hest í festi,
undir skránni og skrauti
skekur sinn bitilinn vakra;
hefir í hægri hendi
hvassan geir og öxi
gyrður góðu sverði,
glæstan hjálm á höfði.
Þórður er röskur dreingur,
þegninn sér hvar hann geingur,
seigur er sútar þveingur;
sjást mun á boðunum streingur,
skipinu rær og reingur,
opt er í afli feingur,
kálfur og kryppilskeingur,
keyrir hann niður á leingur.
Þórður nauts á veldi.
Íngjaldur Úlfar feldi,
Sveinn er ráðin seldi
hélt eg hann út úr skeldi.
Karlamagnús kappa valdi.
Þórodd þrautin tafði.
Gunnar geirinn vafði;
get eg hann Jón við lafði.

Í fyrra vetur fyrir jólin
fann eg hann Pál minn Bjarnarson.[1]
Þá var[2] mitt í suðri sólin,
setti' eg á hann mína von
Karskur var hann ket að brytja,
kátur bauð hann mér að sitja,
lítillátur hann lækkaði sig
og lagði sessuna undir mig.
Upp tók baukinn eyðir spánga
og í nefið tók hann sér,
þá fór eg að masa og mánga,
maðurinn gaf ei parið mér,
[ofann í vasann hann þá keyrði,
illa með mér þetta eirði.
Eg flenti' upp augun furðu fort
og fékk þó eigi í nasaport[3].
Síðan var mér sent á diski
sölvakorn[4] og lúngablað,
[þind úr kind[5] og [framan af[6] fiski;
fékk eg þetta [út á hlað;[7]
[viljahnúturinn[8] var að auki
velgdur[9] upp úr sýrumauki,
þá var iðrið orðið kalt;[10]

[1] Bjarnason. [2] skein. [3] Frá [ sl. B. [4] sölvahnefi. [5] sauð. Frá [ augakall B. [6] fön úr B. [7] innan úr stað B. [8] vélahnúturinn. [9] velktur. [10] Frá [ vantar í B.

[fýsti mig í fjós að[1] róla,
full stóð þar af soði skjóla;
brendi eg allan munninn minn,
því[2] engan hafði' eg eysilinn;
eg fékk svo mikla iðravippu
það ætlaði' að vita á uppkippu;
eg fékk svo mikinn magaverk.
mér var fæðan ofursterk,[3]
og þá fór eg að góla
út um alla hóla.

Hrs. A. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum = B

Helga bredda reið á skóg
og reið brúnskjóttum klár,
hafði reipi' og reiðíng á;
flaut hún frameptir á
alla dagana þrjá.
Þar komu bæði krummar og máfar
kátir eptir vanda;
sá eg fljúga fugla þrjá,
fórum við að veiða þá,
hér í rúmi standa.
[Jón bóndi stóð í[4] bás
[og hélt í eyra á[5] kú.
Hvar er hún Helga bredda?[6]
Hún kemur aldrei nú.[7]

## Afgamalt erindi.

Úti var eg í Ási,
öll voru hús í lási,
þar var eg allur hefraður
og befraður
sem eg var í Danastofu
diktaður,
siktaður.
stóð eg upp á Uppsalaþingi,
vildi eg að mín dentan hún gíngi
ó, hó, mín dentan,
fögur er þín skemtan;
rauðagull gef eg þér
ef þú dentaðir mér.

Jón Þorkelsson: Om Digtningen på Island, bls. 196. eptir Stockh. nr. 60A fol. bls. 58 og B, bls. 5. Afskr. eptir sama hndr. í hrs. Sv. Grv. 66 = B með hendi J. Sigurðssonar.

Viltu eg gefi þér
mjólksopa í koppi,
súran og saltaðan?
Hann skaltu bíta
í belginn þinn hvíta.
Sonurinn minn sæli,
hann tók sér næli;
gángi svo sem guð vill
góðu þessu barni.
Hvar er matselja þín?
Hún er innar í baðstofu;
sperrir fót
upp í rót
annan ofan í fjalamót.
Hvað gjörði góði, góði?
slátraði bekra sínum,
saltaði netju,
rann til sjáfar.

---

[1] út í fjósið fýsti mig B. [2] sl. B. [3] Hér endar B. [4] Karl sat á bás. [5] hél á hvítri. [6] Hvað mun valda Helgu breddu. [7] Þulubrot er til, sem byrjar á: »Helga bredda rífur sig á eldiviðarskógi«, en annars kippir því miklu meira í kynið til: »Dansað var á Stapa' í gær.« Sbr. Íslenzka vikivaka 1895, bls. 390.

Fram í fjósið fara,
finna kýrnar má eg ei,
við því skaltu þig vara
verði Ránka ei;
kalla' á kúa hara
kann eg ekki, nei, nei, nei;
vondu verð eg að svara,
vífið mælti: svei.

Vitlaus Bogga verður þá,
vaggar Stína slánni á,
öllu er snúið öfugt þá,
það eflaust játa mætti' eg nú, já,
Kálfinn litla kara,
kussa verður ræfilsgrey.
Burtu búast fara
bráðla verður mey.

[Við skulum[1] ríða[2] sandana
mjúka,
það gjörir ekki hestana sjúka.
Þegar [við sjáum[3] á bæjunum
rjúka

[þá skal[4] yfir steinana strjúka.
[Konur bera [mat[5] á borð[6]
og breiða niður dúka;
ekki skulum við skyrinu öllu
í Skagafirði lúka.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N, með hendi séra Helga Sigurðssonar. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Ágústínu Jóhönnu Eyjólfsdóttur á Stað í Aðalvík. Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar.

Sigríður sæla,
sjónin inndæla,
henni vil eg hæla,
af hjarta' og túngu mæla.

Haldóra hyrja
hún er óbyrja,
syndanna syrja
sú ólundar yrja.

Eptir hdr. Guðmundar Davíðssonar.

Ríðum og rennum
gullspor og spennum.
Eg var eingin jella

utan gömul kella,
sat og hrærði vella.

Jón á Múla
skapaði Skúla
og skírði hann einusinni
úti' í veri
úr osti og sméri
allan með hári' og skinni.

En hann Helgi
húðarbelgur
hann blés í hann anda,
svo hann mætti upp standa;
mælti af móði þúngum
málið ljótt af lúngum.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Þóru Jónsdóttur í Vigur.

---

[1] Gott er að ríða. [2] Látum fjúka' yfir. [3] þeir sjá. [4] láta þeir. [5] Við skulum nú bera. [6] innan mat.

Séð hefi' eg sokk á prjónum
[sauðarhorn á slónum.[1]
Út gekk eg að ánni,
í hana stakk[2] eg tánni.
þar lá selur á[3] gjánni,
svartur var hann á bránni,
riklíngur á ránni,
rauðklædd[4] kona á slánni,
fagur hestur í[5] hánni,
hart [var brim[6] í lánni.

Hrs. Á. M. 247, 8vo, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. F6. = *B*. Kvæðabók Jóns þorkelssonar í arkarbroti, skrifuð af Páli Hjaltalín = *C*.

Ólafur gaf mér öxi,
ólík var hún króki.
Eg feldi' hana niður í frosti,
fannst hún að eingum[7] kosti.
Vappar hann vinur minn eptir,
veit eg hann fer að leita.
Nú [hefir frægur[8] fundið
[9]fróðöxina góðu.

Hrs. Sv. Grv. 67, með barnshendi Einars Jafetssonar. Hrs. Á. M. 247, 8vo, með hendi séra Helga Sigurðssonar. Kvæðabók dr. Jóns þorkelssonar yngra í arkarbroti, með hendi Páls Hjaltalíns í Stykkishólmi. [Er og með litlum orðamun pr. í orðabók Guðm. Andrj. form. 7—8 og þar sagt frá tilgöngum. F. J.]

Ríðum og ríðum
hart, hart á skóginn,
laung er leiðin,
löt eru tryppin.[10]
Týnt hefi' eg hníf mínum,
troðið niður[11] skó,
hallast eg á hestinum
og ríða verð eg þó.

Sbr. Heyrði eg í hamrinum.

Jón þorkelsson, Om Digtningen på Island 1888, bls. 196.

Trítillinn lítill,
hleypur hann eptir gólfinu svo lítill.
Þegar hann sér að fólkið hrýtur,
endikólfinn ofan brýtur,
glettist við gollur,
glímir við íspen,
þreifar á þæri
og þá finnur grjúpán;
veit hann af vinstrum
vænum í róti.
Láttu gánga valina
alt fram á dalina.
Brattar eru heiðarnar,
berja sér rjúpurnar
og bíum þér Valdimar,
og bíum þér Valdimar.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo.

Eitt sinn var eg að þæfa brók
uppi á palli háum,
ráð mitt alt á reiki skók,
rétt sem léki á þræði,
en þegar nóttin nálgast tók,
býsna brókin gánga fór,
ólmaðist svo allur pallur,
hrundi, dundi
ofan á grundu,
meiddi eg mig á hausa hlundu.

---

[1] vantar í B. [2] drap B. [3] í C. [4] rauðfætt B. [5] á C. [6] la brimið C. [7] með litlum. [8] er fræðið. [9] um. [10] hrossin. [11] af mér.

Handrit dr. Jóns Þorkelssonar yngra eptir sögn Hannesar Hafsteins sýslumanns. Sigurður L. Jónasson segir mér, að vísa þessi eða þula muni vera eptir Eirík Ólsen.

Móðir mín gaf mér roðbita,
stakk eg honum í lárinn minn.
Kötturinn tók hann frá mér,
hljóp með hann austur í mýri,
setti upp á sér stýri,
smérið rann,
roðið brann,
og sagan upp á hvern mann.

Hrs. Á. M. 969, 4to, 49. bl. Hönd Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum. Sbr. niðurlagið á Kríngilnefjukvæði.

I.

Þá var öldin önnur
er Gaukur bjó í Staung.
Þá var ekki leiðin
til Steinastaða laung.

II.

Önnur var þá æfi
er Haukur bjó í Staung.
Þá var ei til Steinastaða
leiðin laung.

Hrs. Sv. Grv. 66. Jón Sigurðsson eptir Jóni Péturssyni háyfirdómara. Sbr. Þjóðs. J. Árn. II, bls. 100 og K. Maurer, Isländische Volkssagen 1850, bls. 225. Hrs. Á. M. 213, 8vo, 112. bl.

## Útburðarstef.

Útburðurinn:

Kalt er úti veður;
eg er sonur Oddnýjar, sem bezt kveður.

Oddný segir þá að sig vanti möttul til að dansa í á jólunum.

Þá segir hann:

Móðir mín í kví, kví,[1]
kvíddu ekki því, því,
eg skal ljá þér möttul[2] minn
að dansa í.

Hrs. Á. M. 247, 8vo, sbr. Þjóðs. J. Árnas. I, bls. 225, hdr. Á. M. 968, 4to, Þjóðsagna safn séra Magnúsar Grímssonar, og K. Maurer, Isländische Volkssagen, bls. 59. Líka, dálítið öðruvísi, í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar, og 67, Arch. L = *B*. Séra Jón Eyjólfsson, eptir prestskonu Sigríði Oddsdóttur að Stað í Aðalvík.

Veggjasleggja heitir hún
dóttir Geirs og Gunnu;
út var hún borin í tunnu.

---

[1] útburðurinn hafði verið látinn í kvíavegginn. [2] kyrtil B.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Margréti Bjarnadóttur á Sléttu. Sbr. Þjóðs. J. Árn. I, bls. 226 og Á. M. 968, 4to, Þjóðsögusafn séra Magnúsar Grímssonar.

### Útburðarvísa.

Gaular í holu gauðið auma:
»Gáðu' að pápi, hér
hvernig Vala vann að sauma
vonda dulu að mér.«

Frá dr. Jóni Þorkelssyni yngra.

### Ólafur muður.

Ólafur hét maður, er fór suður Kerl[íngarskarð], og er hann kom á skarðið, sá hann tröllkonu. Hún kvað, er hún sá Ólaf:

Ólafur muður[1],
ætlar þú suður?
[Vel mun þér veita
með kapalinn[2] feita.
(Lángt finst mér lángdegi,
ljóst finnst mér skammdegi.[3]
Ræð eg þér það rángkjaptur,
að þú snúir heim aptur.«[4]

Ólafur svarar og kvað:

[»Sit þú heil[5] á hófi[6]
Hallveig[7] á berfjalli.«[8]

Kerlíng svarar og kvað:

Fáir kvöddu mig svo forðum,
og far þú vel [ljúfur hinn ljúfi.«[9]

Ólafur kvað enn:

[»Líttu í austur
ljósum er riðið.«[10]

Í því rann dagur upp og varð hún þá að steinstólpa, er þar stendur enn á skarðinu og er sem líti við til að sjá.

Hrs. Á. M. 276, 8vo, með hendi Gísla Konráðssonar. Jón Rugmann á spássíu í ísl. hdr. í Uppsölum, nr. 80, 8vo, 74. bl. = *B*. Eg hefi haft fyrir mér afskript dr. Jóns Þorkelssonar yngra. Hrs. A. M. 960, 4to = *C*, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa, en þar eru vísurnar hér um bil eins og í Þjóðs. J. Árn. I, bls. 158—59. Aptur er sagan talsvert öðruvísi. Eins í hrs. A. M. 979b, 4to, bls. 1521—2 = *D*. Páll Vídalín, Skýríngar yfir Fornyrði lögbókar 1854, bls. 511—12 = *E*. Brot. Orðabók Jóns Ólafssonar Bláfell = *F*. Brot.

---

[1] snuður. [2] meri þina DE. [3] Frá [ sl. B. Frá ( sl. CDEF. [4] Hér endar E. [5] sitið þér heilar C. [6] Frá [ Heil vertu hin háa DF. [7] Hallgerður BCF. [8] Bláfjalli CDF. [9] ljúfinn, ljúfinn B, ljúfinn ljúfi D. [10] sl. BCDF.

Leiðist mér lángdegi,
hvergi finn eg skammdegi
síðan eg var í Miðfirði
í síðasta sinni;
segðu það minni,
segðu það móður minni.

Eptir sögn húsfrúr Karólínu Jónsdóttur.

---

Svo er sagt að eitthvert sinn hafi púkinn[1] viljað apa sig og kveða eptir bragarhætti þessum,[2] sem þá var mjög afhaldinn alstaðar almennilega, og Máríuvísur, Krosskvæði og Lilja víða tíðkað í húsunum að sýngja og kveða.[3] Hann kvað svo:

(Vinduteinninn fyrðar fundu,[4]
fór sú grein af vinduteini,
vinduteinn lét aldrei undan,
einatt hvein í vinduteini.

Afskr. Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66 eptir Stockh. 64 fol. E., bls. 85. Hrs. J. Sig. 271, 4to. Orðabók J. Ól. frá Grunnavík grein. J. Þorkelsson: Om Digtningen på Island, bls. 77 = *B*. Helgi Sigurðsson: Safn til bragfræði 1891, bls. 177 = *C*.

---

Þetta kvað álfkonan:

Leggur er kominn í loðna skó
frá Lumbárvöllum,
grasið grær yfir öllum.

Álfmaðurinn:

Út allar kempur á víðan völl;
eg veit ekki vænna fólk
en vér erum öll
í grænum kyrtli hríngaþöll.

Hrs. Á. M. 723a, 4° bls. 75. Frá 17. öld. Prentað áður í: Om Digtningen på Island, bls. 200.

## Loki.

Það var trú kvenna, að ef loki drægist á nálþráð, færi hann af, væri þessi ættartala hans mælt fram.

Loki sezt á stokka
kembir sína lokka.
Fíll hét hann faðir þinn,
Skónál hét hún móðir þín,
Ágirnd hét hún amma þín,
Öfund hét hún systir þín.
Rekist nál í rassinn á þér loki minn
og losnaðu nú.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. A³. Hönd séra Jóns Þórðarsonar á Auðkúlu.

---

[1] = andskotinn. [2] Það sem næst er á undan er Krosskvæði: »Heill heilagur kross«. Vísan er hrynjandi (Liljulag). Athgr. Jóns Sigurðssonar. [3] Aðrir segja að Kölski hafi fundið upp Liljulag og kveðið undir því vísu þessa. [4] hafa fyrðar fundið B. Frá ( Vinduteinn á fyrða fundi C.

Bárður minn á Jökli,
leggstu á þófið mitt;
eg skal gefa þér lóna
innan í skóna,
[mél á disk
og barinn fisk,
naglabrot í bátinn þinn;
láttu gánga Bárður minn.[1]

II.

méldisk,
barinn fisk,
fjórar ýsur harðar,
skeifur undir hestinn þinn,
naglakorn í hófinn,
og ríddu svo Bárður minn.

Sbr. Þjóðs. J. Árn. II, bls. 580.

Mann á Skaga dreymdi fyrir manndauðanum á Kaldrana af loðsilúngsátinu þessar vísur:

Vandi er að veiða,
voði' er á ferðum;
lax yfir huldu heiða
hálfblindir draga verðum.
Mál er upp að ana,
eg því segi bana,
liggur lífs andvana
lýður á Kaldrana.

Hdr. dr. Jóns Þorkelssonar ýngra, eptir Jóni Jónssyni garðyrkjumanni 1884; sagði Jón honum, að manndauðinn á Kaldrana hefði gjörzt í tíð Bjarnar Jónssonar á Skarðsá.

Klukkan slær,
tíminn fjær,
eilífð nær
en var í gær.

Á klukkukassa á Þóreyjarnúpi í Víðidal, sem Sigurður L. Jónasson sá í æsku sinni. Stef þetta er reyndar þýðíng úr dönsku, en er þó tekið hér upp, því sjaldgæft mun vera að sjá íslenzk ljóð á klukkukössum eða öðrum búsgögnum.

Griðka (eða svunta) sat á steini. Séra Jón Íngjaldsson nefnir þulu þessa í bréfi til Fornfræðafélagsins 1847 (Hrs. Sv. Grv. 67). Hún er alkunnug, en er svo klæmin, að hún þykir ekki prentandi. Úr henni eru línur þessar, sem prentaðar eru í Om Digtningen på Island eptir Jón Þorkelsson, bls. 229:

Synti hún um allan sjá,
svo kom hún til Máríá,
átján vikur í hafinu var,
svo kom hún til Nóreyjar.

Samskonar þulukorn er þetta:

Upp upp minn úngi.
Hvað er í þínum púngi?
Steinarnir tveir.
Hvað heita þeir?
Dínus og Dúlcifer,
og þá er hinn þriðji
harður eins og hinir.

[1] Frá [ naglabrot í skipið þitt
ef þú leggst á þófið mitt.

Tveimur línum er slept aptan af vegna klæmni. Enn er ein þula af sama tagi og byrjar:

Fagurt sýngja fuglarnir í eyjunum.

Sögusmetta, rægiróa
hleypur út um alla móa[1]
með flotmola í kjaptinum,
styttuband í rassinum,
skítinn á tánum.[2]
— — — — —
— — — — —

Hrs. Sv. Grv. 66. Hönd Jóns Sigurðssonar.

Séra Jón Íngjaldsson kannast við þulu, sem byrjar svo:

Varaðu þig Vattarvinur.

Bréf til Fornfræðafélagsins 1847 í hrs. Sv. Grv. nr. 67.

Þula kvað vera til í Múlasýslum þar sem getið er um

yklaskelli,
ásasmelli
koppaþyt
og . . . .
. . . . . .

[1] Jón Ólafsson frá Grunnavík í hrs. Á. M. 979b, 4to. bls. 1386. [2] þessi lína er ekki í hdr. Jóns, en eg man eptir henni frá æsku minni.

# Dýraþulur.

## Kúaþula.

Þegiðu heilla
sonur minn sæli,
þángað til kýr okkar
koma' ofan' af fjöllum.
Heim gánga[1] þær
háttbaulandi
[hún Hyrna' og hún Stjarna;[2]
gánga þær [drynjandi[3]
hún Drafna'[4] og hún Hríngja,[5]
Íla[6] og Ála[7]
ofan úr skála,
[Flekka' og hún Fræna[8]
[fylla þær skjólur,[9]
Geita og Grána
gánga í helli.
Hvað[10] er[11] í helli?
Hornanna skellir,[12]
[Geitur tíu

og hún Gull
hrísbítandi[14]
Hamramóðir,
[Lykla og Lí
og hún Láng
[Dúfa og Da
[þær duna h
[19]Kýr með k
[komin[20] er
(Gánga [fram
Gaungulhyrn
[aldin Skjald
Brók[25] og B
og hún Bjar
með kolsvört
komin heim
Heyrði það
handan af m

---

[1] renna. [2] Hildarstjarna. [3] eptir dölunum. [4] Dumb
[6] Níla. [7] hún Nála. [8] Flæna. Frá [ Geit og hún A
þær á dalinn, g. fram til stekka, fara eptir helli. [1
[12] Hofmanns skellir, Hornaskella, Hornnaskella, Horn
skellir. [13] Gullsvört (Gullsvart-) mana; komu þær h
heitir hún og Gerinhyrna . [14] sídrynjandi, þríspýtandi
móðir. [16] Lykkja, Lygna. [17] Dúða, Díla. [18] þ
reknar saman, drynja þær. [19] Hér er. [20] borin.
Hver spyr að því? [22] d. miðjan. Frá [ þær eptir
gánga dalinn, Geingur upp í dali. [23] Gaungulhryggi
[25] Bróka. [26] Bjarnar-. [27] Kýr, kýr kellíngar eru að

Ekki eru kýr kerlíngar
komnar allar enn.
Vantar hana Sokku[1]
og hana Dokku[2]
[og hana Kyrtil-Rokku.[3]
[Heima er hún Hjálma
og hún Hofmannshyrna.[4]
Gullinhyrna[5] geingur fyrir þeim
öllum,
[en Mjóhyrna hún mjólkar bezt
í kútinn handa keipóttum börnum.[6]
[Þar brokka' á eptir:[7]
Skörúngur, Skinnbrók,
[Skolamaki' og Hnífill,[8]
Stikill, Vífill,
Vegill, Spegill.
Stúfur og Stóri Velbrokkandi.

Hrs. Sv. Grv. 66. Tvö brot með hendi Jóns Sigurðssonar. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. F. og er kölluð þar »Ein merkileg þula«. Hrs. J. Sig. 282, 8vo. Tvær útg. Afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Í einni útgáfunni er þulan kölluð Sigríðarþula, eða réttara sagt þula sú, sem þessi þula er brot af, en hún er samsoll af »Gekk eg upp á hólinn«, »Sólin skín á fossa« og »Hér kom hún Skána«. Sjá vikivakana. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Tvær útgáfur frá séra Jóni Eyjólfssyni. Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum. Hrs. Á. M. 960, 4to, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa. Hrs. Á. M. 277, 8vo frá miðri 19. öld.

II.

Hér koma kýr mínar[9]
ofan af fjöllum o. s. frv.
Bjarna-Reyður
með kolsvörtum hala.
Kolla kemur þar næst,
önnur Kolla á eptir.
Boli fer síðan
seint á leið.
Birgit heitir kona mín.
Hér stend eg
og minn piltur mér hjá
með gulli á hverjum fíngri
og laufið á.

III.

handan af mýrum.
Dúfa' og hún Dalla
bera saman halla.
Kýr með kálfi,
Hofmannshyrna,
Gullinhyrna.
Greppinhyrna
gánga þær fyrir öllum o. s. frv.

Hrs. Bmfj. 605, 8vo, með hendi Þorsteins Þorsteinssonar frá Upsum.

---

[1] Smokku. [2] Brokku, Doppu. [3] Ekki get eg sagt þér af henni Ketil-Rokku. [4] Rokka hljóp í hvanngarða manna, sem maðurinn vildi banna. [5] Kryppilhyrna, Gullintoppa. [6] Hún mjólkar fulla kúpuna handa börnum,
Hún mjólkar bezt í askinn (stútinn) handa börnum.
[7] Þverbrók er á eptir, þar hleypur eptir á. [8] Rassgala-maki. [9] karlsins.

IV.

Eg skal [dilla syni mínum
sælum og ljúfum,[1]
[þángað til[2] kýr mínar
koma ofan' af fjalli o. s. frv.
Hornaskellir,
[Geitir og Tiginn[3]
[gaula í bandi,[4]
Vegill og Spegill
vel brokkandi;
Grön og hún Gígja
og hún Hamramóðir.
Bylur á sandi
kemur grenjandi[5]
ofurbeljandi.[6]
Ekki eru taldar upp
karls kýrnar allar.
Vantar hana Sokku
og hana Smokku[7]
og hana Æsintoppu.[8]
Æsintoppa hún kann vel að stim(
en hún Gullinhyrna
geingur fyrir þeim öllum,
hún mjólkar bezt í kútinn han(
börnum,
í kútinn handa keipabörnum.

V.

Seztu niður sonur[9] minn,
súp þú úr eysli,[10]
meðan[11] kýr kerlíngar
koma af fjalli o. s. frv.
[Eigi eru kýrnar
allar taldar.[12]
Það vantar hana Rokku
og hana Smokku;
kveð eg um hana Ketil-Rokku.
[Ein er sú í helli,
sem hornunum skellir.
Geit heitir sú arma móðir.
Gullinhyrna geingur
undan kúnum öllum.
[Mjóahyrna[13] mjólkar fullan
stútinn handa börnum.[14]

Hrs. Sv. Grv. 67, eptir Guðrúnu Magnúsdóttur í Reykjavík 1860.

VI.

Kýr mínar allar
komi ofan' af fjöllum;
hrundin Stjarna
heimgángandi[15]
hún Rót og hún Ríta,
Reyður beljandi,
hún Flekka' og hún Fræna
með fulla spena.
Dóra' og Dalla
reka saman kýr kerlíngar allar.
Gullinhyrna geingur fram með
fjöllum
og mjólkar . . . . í kanana
handa börnunum öllum.

---

[1] Frá [ gefa barni mínu mjólksopa' að drekka. [2] þegar. [3] Geit tíu. [4] og hún Gilinhyrna, (Gígilhyrna). [5] drynjandi. [6] Reyð beljandi. [7] Doppu. [8] Eysintoppu, Ærintoppu. [9] Labbi. [10] aus [11] þángað til. [12] Kýr kerlíngar, Kreppilhyrna. [13] Mjóinhyrna. [14] Hún mjólkar bezt handa börnunum öllum. [15] hrei gángandi.

VII.

Rauðka og Kolla
róta þær við sátum.
Eptir fylgir Stúfur og Stikill,
Egill og Beygill
Velbrokkandi.
Dúfan og hún Dalla
deingja saman allar.
Með eru kýrnar allar.

VIII.

en hún Gullbríngja mín
hleypur á undan öllum.
Hún mjólkar bezt
handa börnunum öllum.

Hrs. Sv. Grv. 66. eptir Jóhönnu Jónsdóttur. Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum.

IX.

Endinn:
Nú eru upptaldar kýr karls
komnar eru þær allar.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Ketilríði Bjarnadóttur í Þverdal.

X.

Þar hleypur eptir á:
Egill og Beygill,
og Velbrokkandi,
Reyður og Rjúphali
og Rigilhyrna.

Sama heimild.

XI.

Hornaskellir.
Hver spyr að því?
Kýr kerlíngar.

Og svo brot úr »Leit eg upp til himna«. Hrs. Á. M. 960, 4to. Séra Helgi Sigurðsson á Jörfa.

XII.

Kýr mínar
koma' ofan af fjalli,
Hyrna og hún Stjarna
heimgángandi
Róta' og hún Hryggja
ráfa drynjandi,
Íla' og hún Ála
ofan frá skála.
Flekka' og hún Flæna
fylla þær upp skjólur,
Velbrokkandi,
Vegill, Beygill,
Lykla, Lína,
Lángspena,
Geit og hún Grana.
Hvað er í helli?

Hornaskella,
kýr kellíngar,
Greppinhyrna,
Dúðra og hún Dalla.
Upp eru taldar
karls kýrnar allar.
Vantar mig Roppu, Snoppu.
Rauða-Kolla
rótar í sátu.
Ekki' eru kýrnar allar.
Gullinhyrna geingur með þeim öllum,
mjólkar bezt í stútinn handa börnum.

Hrs. Á. M. 247, 8vo með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa.

XIII.

Seztu niður sonur minn
og súptu úr ausu,
vantar hana Dokku
og hana Lyndis-Sokku,
Brók og hana Brynju
og hana Bjarnar-Reyður,
Flekku' og hana Frænu,
fylla þær skjólur.
Hérna kemur boli minn bráður
Óskar reiður;
fylgir honum Flekka
fram til stekkja
og aðrar tvær,
Reyður og Kolla
eptir á drolla,
róta þær sátum.
Lína, Dúfa' og Dalla,
drynja þær saman allar.
þá eru taldar
kýr karls allar.

Sama heimild.

Kusi kallar á morgna:
komin eru dagmálin,
mál er að mjólka laungu,
mundu kálfinn þinn.
Mjótt þú mælir mér,
magalítill eg er;
metur þú meira börnin þín,
má eg það sanna hér.
Kem eg heim frá kúnum,
kalla eg hátt til þín,
hreifi' eg hatti brúnum,
heyra læztu ei til mín;
sneypist inn í búr,
fötunni helli úr,
bíð eg eptir beiníng minni
býsna lángan dúr.
Ei trúi eg auðgrund kjósi
orð úr hálsi mér;
þegar eg losna í fjósi
launa skal eg þér;
leik mér lítinn kann,
lærði eg úngur hann,
hart skal eg þig hnybba,
með hausinn kollóttan;
hefði' eg horn í vánga,
harðara skyldi eg þig stánga.

## Nautamál á nýjarsnótt.

Sólin skín[1] á fossa,
segir hún Krossa.
[[2]»Hvar á að[3] tjalda?«
segir hún Skjalda.

---

[1] Eg sá skína sól, snjóa tekur, snjórinn drífur í. [2] Í þjóðs. J. Árn. byrjar þulan hér. [3] Við skulum.

[»Suður[1] við ána,«
segir hún Grána.
»Eg skal snjónum spyrna,«
segir hún Hyrna.
»Eg skal eta' [í mína[2] hít,«
segir hún Hvít.
»Eg skal mjólka minna,«
segir hún Dimma.
»Eg skal [standa innar,«[3]
segir hún Kinna.
»Eg skal mjólka svo freyði,«
segir hún Reyður.
»Mér þykir góður ruddi,«
segir hann Tuddi.
»Eg skal éta sem eg þoli,«
segir hann stóri Boli.
»Eg skal éta sjálfur,«
segir hann litli kálfur.
»Eg þoli illa húngur,«
segir vetrúngur.
Boli bánkar á dyr
og spyr að Skjöldu sinni.
Segðu mér það Mángi minn,
hvort hún er hér inni.
Boli bánkar á dyr
með bandinu lánga.
Láttu ekki griðúnginn
stánga þig Mánga.

Hrs. Sv. Grv. 66, brot, með hendi Jóns Sigurðssonar. Hrs. J. Sig. 282, 8vo, brot. Þjóðs. J. Árn. I, bls. 611—12. Hrs. Á. M. 960 4to, með hendi Jóns Þórðarsonar á Auðkúlu. Sama hndr., með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa (brot).

II.

segir vetrúngur.
Þar sefur bolabarn
á bássteini
með moð fyrir múla
og manngi[4] það svæfir.

Þjóðs. I, 612.

III

»Rýkur á Eiði,«
segir hún Reyður.
»Hulin er þúfa,«
segir hún Húfa.
»Eg vil yfir ána,«
segir hún Grána.
»Eg vil fjósið finna,«
segir hún Kinna.
»Eg vil töðuna tyggja,«
segir hún Friggja.
»Eg vil fylla mína hít,«
segir hún Hvít.
»Eg vil éta sem eg þoli,«
segir hann boli.
Eg skal aka Steinmóði til Staðar,
ef hann getur ekki þagað.

Frá Sofíu Sigurðardóttur í Borgarfirði. Steinmóður er nefndur af því hann lá í krossgaungum um nýjársleytið.

Gullbúinn gimbill í grænk-
unni lá,
hleypur hann um hlíðarnar og
hefir horn upp á.

---

[1] Niður. [2] úr minni. [3] fjósið finna. [4] einginn.

Faðir þinn er flekkóttur og móðir þín er grá;
Gimbill eptir götu rann,
hvergi sína móður fann;
þegi þú fífilkollur, hver sem þig á.
þá jarmaði hann
[eptir hlíðunum fram.[1]

Hrs. J. Sig. 282, 8vo, með hendi dr. Schevings = *A*. Afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. = *B*. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Sigríði Oddsdóttur, prestskonu á Stað í Aðalvík.

## Gimbilsraun.[2]

Gimbillinn mælti,
og grét við stekkinn:[3]
Nú er hún móðir mín[4]
mjólkuð heima
[Því ber eg svángan
um sumar[5] lángan
(munn minn og maga
á[6] mosaþúfu.[7]
Tölumst við betur,
tökum ráð saman,
hrís að bíta,
í hraun að fara;
[eg á mér í húsi
heykorn lítið.
Það skal eg finna
þá fjúk er úti,[8]
bíta gras
þá gott er úti.
Þetta mælti hann
gimbill hrúti.

Fyrra erindið hjá Steingrími Thorsteinsson í Isländische Volkslieder. Kolozsvár 1879, bls. 8. Þýzk þýðing bls. 9 = *A*. Sömuleiðis í hrs. J. Sig. 282, 8vo, tvær útgáfur með hendi dr. Schevings = *B*. Afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Enn í hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. = *C*. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Sigríði Oddsdóttur.

## Smalaþula.

Vappaðu með mér Vala,
verð eg þig að fala;
komdu' ekki að mér kala,
keyrðu féð í hala.
Nú er dögg til dala,
dimma tekur á víði,
fjármannahríðin,
þú átt að elska smala
sem þitt eigið blóð.
Fjármannahríðin
er full af bölmóð.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. 16. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Ágústínu Eyjólfsdóttur á Stað í Aðalvík.

---

[1] Frá [ sl. AB. [2] A. [3] steina B. [4] okkar B. [5] sumardag AC. [6] við C. [7] Frá [ brönum við báðir og berum þá saman B. Frá ( maga minn og munnkorn og me segir gimbill C sem lesmun. [8] Eg á mér heykorn
í jötu minni.
það skal eg eta
þegar ilt er úti.

Bopp heyrði eg
á bala einum;
það var að heyra
sem þjófur hóstaði,
en fyrir sunnan
svakk var að heyra;
fór þeim á milli
fjöldi kapporða
þar var hunáng á steini
og hákarlsbiti;
sá var mér maturinn
mjög sjaldfeinginn.
Þar var makki
af meri feitri;
þar var fornmeti
falið í horni.
Hjó hann augun
úr heimskri tóu,
svo hún boppaði við
og bað hann aldrei þrífast.

Hvað er upp á bænum, bænum?
Blessuð lömbin, lömbin,
[bíta stráin grænu, grænu[1]
svo gildni vömbin, vömbin.

Hrs. Bmfj. 605, 8vo, með hendi Þorsteins Þorsteinssonar frá Upsum.

Lömbin éta lítið hér,
lömbin feta vegi,
lambasetan leiðist mér
en lambaketið eigi.

Lambið hún litla móra,
leingi á hún að tóra,
þar til hún fæðir fjóra
fitjadilka[2] stóra.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N (síð. vís.), með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa.

I.

Kisa fór[3] á lýngmó,
rjúpurnar elti,
setti hún' upp sinn daggahatt
og dynfjaðrabelti.
Utan[4] eptir tröðunum[5]
dindilinn dró,
með fattan[6] hnakkann[7]
og flókana þó;[8]
býsna mikinn bræddi snjó,
svo lækir runnu ofan[9] í sjó.
Hún var í rauðum skarlatsstakki
á berjamó
með tinbelti föður síns
og tvenna skó.

II.

Dimmir í dölum,
dregur skýflóka.
Þar[10] ríður hún Jóka
með alla sína króka.
Framan eptir tröðunum o. s. frv.
Hljóp hún út í mýri
hún Dilliró,
setti' upp á sér stýri
hún Hægimó,
enda bomsaði hún við,
og sagði lililó.

Frá dr. Jóni Þorkelssyni ýngra, eptir Þorgeiri trésmið á Ísafirði. — [Hvaðan orðamunurinn sé, skýrir hdr. ekki. F. J.]

[1] leita að stráum grænum, grænum. [2] fallega hrúta' og. [3] gekk. [4] ofan. [5] dölunum. [6] flatan, uppbrettan. [7] halann. [8] dró. [9] fram. [10] Hér.

III.

Kisa reið á lýngmó,
rjúpurnar elti;
fann hún fyrir sér tinkamb,[1]
tinbjöllu' og belti;
reið[2] á rauðum skarlatskyrtli
föður síns á berjamó,
framan[3] eptir tröðunum
rindillinn fló.
Stökk[4] hún[5] undir stélið[6] á þei
stakk[7] þær[8] upp og hló,
(en [þær mumpuðu[9] við[10]
og sögðu[11] lilló.[12]

Eptir hdr. Guðmundar Davíðssonar. Sbr. hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E[2].

IV.

Faðir minn er út á sjó að róa,
móðir mín er í brekkunum að hóa.
Hleypur Gvendur eptir á
eins og önnur tóa.
Dimmir í dölum — króka.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L.

Hjartason í hnappatreyju
hugsar upp á væna meyju,
gjörið ekki' úr honum bóndabeygj
því blíða á hann sér húsfreyju.
Ofan eptir dölunum o. s. frv.

Séra Jón Eyjólfsson, eptir Þóru Jónsdóttur í Vígu

Kisa margan kætir,
kisa mýsnar grætir,
kisa bæinn bætir,
bezt sín kisa gætir.
Hárið þétt og hér með slétt
hún sitt sjaldan vætir.
Með [nipra] róu og netta brá
um nætur allvel kann að sjá.
Ofrið brá sér öllum frá,
eru það kostir mætir.
Þótt tíðum gangi til og frá,
tifar nett í hverja krá,
svo hennar má ei heyra stjá
hún þótt mýs uppræti.
Ekki grætir
ei tætir.
Tíðum sprángar
leiðir lángar,
leitar vítt um stræti,
[ef] fugla fángað gæti,
svo forðist sultarlæti.

Kisa gluggann kom upp á,
konur báðar opna skjá
Einhver vöndinn þreif upp þá,
þrisvar gjörði' í hana slá.
Henni illa hér við brá,
hvesti augun græn og blá,
titlíngsveiða stirð við stjá,
stökk á burt og sagði: »Mjá«.

Kisa kemur úr fjósi,
kosin til mosaposa,
vappar mjög veiðiheppin,
veldur sér yfir keldu;
lágfætt með loppur nettar
laumast hjá skorðum sauma,
státin þá stendur úti,
stökkur þá kemur rökkur.

[1] tannkamb. [2] hún var. [3] utan. [4] stakk. [5] henni, sér, hann, þeim. [6] véli
[7] stökk. [8] hún, hann. [9] hún leit. [10] Frá ( Með það bomsaði í honui
[11] sagði. [12] hlilhó.

## Fuglaþulur og fuglastef.

Fór eg á fuglastefnu
fram á nokkurn vǫll,
í þessari þáttarhöll,
það eru heitin öll.
Fyrstan fönix eg leit
fram á nokkurn reit,
þar með prúðan pelikan,
sem prýðir ástin heit,
svölur og svanir ljósir,
svo að eg fleira glósi.
Kom þar og kónguriun fugla
kynjadigur að sjá,
þar næst álpt og ugla
einnig dúfa smá,
skeglur og ryta, skúmur, gæll;
skarfurinn segir sæll.
Fóellan og hænan
hafa öndina væna.
Þar var í fylking miðri
þyrnikofan stór,
dólgur í dökku fiðri
með dávænt stefnujóð.
Lundi, lóa há
lönd og grönnum smá;
Steindepillinn stoltur er
og státaralegur að sjá.
Fálki og fýlúngs arfi
fram í svæfíngs starfi.
Máfur og músarbróðir
mikið létu af sér,
runnu réttar slóðir
rjúpan þar sem fer;
tjaldurinn trénamjór,[1]
titlingur, papagó,
himbriminn og helsínginn
með hörku þángað fló.
Einnig eg má líta
æðarblikann hvíta.
Þar er kominn kjói,
kría' og smirillinn,
strútfugl, stelkur, spói
með státaraskapinn sinn.
Geingu grandann fram
gaukur og svartfuglan.
Skrofa' og kráka skröfuðust við,
sem skriðu með lækjum fram.
Hani og hængisúlan
hafa jarðrekan með.
Örk og plógfugl fljúga,
eg fæ það líka séð.
Brimönd og toppönd
brjótast fram;
biður sólskríkjan
að sjá sandlóur
og sveina alla.
Svo skal kvæðið falla.

[1] = trjónumjór?

**Fugl sat á kvisti**
sitt nefið hristi,
æður sat á sandi,
hún sá þá blikinn kom að landi.
»Hvert ætlar þú æður mín,
svo fallega þú vappar?«
»Eg ætla' upp í skorarnar,
að verpa okkur eggjum.
Börnin okkar bliki minn,
bæði eigum við þau.«
»Ekki á eg þau.«

**Rauðfættur fuglinn í fjörunni,**
hann kann[1] ekki að[1] kreppa sig í körinni,
eingan ber hann ótta fyrir örinni,
ekki heldur tekur hann á tjörunni.
[Í sjómálinu[2] situr hann nærri fjörunni.[3]

**Fuglinn í fjörunni,**
hann heitir tjaldur.
Það er svo gott að verja það,
sem maður er ekki valdur.
Fuglinn í fjörunni.

**Fuglinn í fjörunni,**
hann heitir lundi.

»Hver á |
»Skarfi e
»Aldrei e
skurmúng
Títt flýgu
fyrir norð
á söltum
Systur m
sú bið eg
og æfinle
svo aldrei

Í hámálir
heyrast n
[þar sem
lángan h
Nefið rau
nú er þe
Þulubörni
að þessu

**Fuglinn**
hann heit
Svo skal
og barnin

Koppurin
svo barni

Eptir sögn Lárusar stúdents Árnasonar frá Vestma

**Fuglinn í fjörunni,**
hann heitir már,

silkibleik
og gulllit

J. Ól. Grv. Orðab. fugl, bleikur, hrs. Á. M. 4
Sv. Grv. 67, Arch. N., með hendi séra Helga Sigurðss

[1] vill. [2] á sjómálunum. [3] svo snillilega sneiðir hámálunum, í hámælunum.
[5] svartan kufl á baki ber
blóma dreginn faldur.
[6] og. [7] gult undir, hnept undir, h. u. gult.

II.

Silkibleik er húan hans
og hnept undir gullhár;
er sá fuglinn ekki smár,
ærið[1] digur og fótahár,
um brjóstið[2] hvítur og bakið blár,[3]
bröltir hann opt í snörunni,
fuglinn í fjörunni;[4]
fjaðraveikur flýgur um sker,
fæðu getur ei tekið sér
því hann er sár.
Silkibleik er húan hans
og gult undir hár.

Hrs. Sv. Grv. 66 = *A*, með hendi Jóns Sigurðssonar.

Fuglinn í fjörunni
hann er bróðir þinn.
Ekki get eg stigið við þig
stuttfótur minn.

Hrs. Sv. Grv. 67. Arch. N. Séra Helgi Sigurðsson á Jörfa.

Fuglinn í fjörunni
fullur er hann með galdur.
Skjóttu' hann ekki' á helgum degi,
því hann heitir tjaldur —
þar sem öðlíngar fram ríða.

Hrs. Bmfj. 340, 8vo XII, 51. bl., skrifað af séra Stefáni Þorsteinssyni á Völlum 1836—37. Vísan er í kvæði, sem heitir Fuglheillaljóð og er eignað séra Gunnari Pálssyni, en hún er nokkuð forneskjuleg til þess að hún sé eptir hann. Fuglheillaljóð eru líka í Kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum 4to I, nr. 96. Sbr. hrs. Bmfj. 614, 8vo.

I.

Maríatla mín mín!
Hvar er hún svala systir þín?
Eg skal gefa þér faldinn blá,
ef þú vísar mér á,
hvar eg vera á
í vor og í sumar
og í vetur og í haust.

Hrs. Á. M. 968, 4to. Þjóðsögusafn séra Magnúsar Grímssonar. Sbr. Þjóðs. J. Árn. I, bls. 624—625.

II.

Heil og sæl jatla mín!
Lifir hún svala systir þín?
Eg skal gefa þér möttul blá,
ef þú vísar mér á,
hvar eg á að vera í sumar.

Þegar márjatla kemur á vorin, á maður að kasta skó af hægra fætinum í hana, svo hún fljúgi upp, og segja þetta. Þá verður maður í þeirri átt, sem hún flýgur, það sumar.

Hrs. Sv. Grv. 66. Hönd Jóns Sigurðssonar.

[1] bæði. [2] á brjóstinu. [3] grár. [4] Hér endar A.

III.

Maríatla mín!
Hvar er móðir þín?
Hún er í Danmörk
og drekkur gott vín.

Frá húsfrú Karólínu Jónsdóttur.

Í austri auðugs manns gaukur,
í suðri sæls manns gaukur,
í vestri vesæls manns gaukur,
í norðri náðugs manns gaukur,
niðri nágaukur.

Orðabók Jóns Ólafssonar frá Grunnavík gaukur. Hrs. Sv. Grv. 66. Hös Jóns Sigurðssonar; sbr. Þjóðs. J. Árn. I, bls. 623—24.

Dúfan í Danmörk
hún er hlaðin baugum;
gull er hennar nefi á
alt upp undir augum.

Frá húsfrú Karólínu Jónsdóttur.

Titlíngsvísa.

Titlíngur talnahríngur,
nú er vel súngið.
Upp er kominn dagur
bæði ljós og fagur.
Guð gefi mér gaunguveður,
þótt eg sé magur.

Hrs. Á. M. 960, 4to, með hendi séra Jóns Þórðarsonar á Auðkúlu.

Titlíngur í mýri
tínir hann berin rauð,
kemur hann heim á kvöldin
og klagar sína nauð.

Frá húsfrú Karólínu Jónsdóttur.

Titlíngur í mýri
tínir hann berin blá,
kemur hann heim á kvöldin
og kúrir mér hjá.

Sama heimild.

Krummi situr á kirkjubust
og segist vilja sjá
börnin litlu smá
með gullhnappana framaná.

Eptir hdr. Guðmundar Davíðssonar.

II.

Krummi situr kirkju á,
segist vilja sjá
börnin úti blíð og smá,
sem gullþörin eru framan á.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E[2].

Krumminn á skjá, skjá,
skýrt mælir sá, sá:
»Eru hér inni börn, börn
óvandagjörn, gjörn?
Mæli' eg á mína trú:
mun það hann Siggi nú?
Hann er skrækjanna skrín
og skal í buddu mín.«

Eptir handriti Guðmundar Davíðssonar.

I.

Krumminn[1] á skjá, skjá,[2]
[skekur belgi[3] þrjá, þrjá,[2]
(hristir hala grá grá.[2]
Hvað mun hann vilja [fá, fá?[4]
Bíta[5a] börnin smá, smá,[2]
bera þau inn[5] í [krá, krá,[6]
[liggja[7] lömbum hjá, hjá,[8]
leiður er krummi sá, sá.[9]

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E[2], Arch. L = *A*. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Sigríði prestkonu Oddsdóttur á Stað í Aðalvík. Hrs. Á. M. 969, 4to = *B*, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum.

II.

Skekur hann belgi þrjá, þrjá.
Hann vill börnin smá, smá,
en aldrei skal hann þau fá, fá.

Svei honum krumma!
Hann tók frá mér bréf,
já svo fallegt málað bréf;
þrífist aldrei krummanna nef.
Guð fyrirgefi mér
að blóta honum krumma.
Svei honum krumma!
Hann tók frá mér hníf;
þrífist aldrei krummanna líf.
Ekki vil eg þó tala
illa um krumma.

Svei honum krumma!
Hann tók frá mér skæri,
spáný, hárbeitt skæri;
þrífist aldrei krummanna læri.
Ekki skal eg tala
illa um krumma.
Svei honum krumma!
Hann tók frá mér þél,
svo fallega spánýja þél;
þrífist aldrei krummanna vél.
Ekki' er gott að skrökva á hann krumma.

Krummi situr [á kvíagarði,[10]
kroppar hann á sér tærnar;
aldrei[11] skal hann matinn fá,
fyr en hann finnur ærnar,
[og tólf vantar ærnar.[12]
Krummi situr á kvíagarði,
kroppar hann á sér brýrnar,
aldrei skal hann matinn fá,
fyr en hann finnur kýrnar,
og tólf vantar kýrnar.
Krummi situr á kvíagarði,
kroppar hann á sér kviðinn;
aldrei skal hann matinn fá,
fyr en hann finnur kiðin,
og tólf vantar kiðin.[13]

---

[1] Krummi situr. [2] sl. A. [3] skellir belgina A. [4] sl. A. Frá [ þá, þá. Frá ( vantar í B. [5a] bítur hann B; bítur A. [5] upp A. innar. [6] sl. A. Frá [ berr (og ber A) þau ofan í á, á B, rá, rá. [7] lúra. [8] sl. A. Frá [ vantar í B. [9] sl. A. [10] kirkjugarði, kvíavegg. Frá [ kvíum á. [11] eingan, ekki. [12] Frá [ sl. sumir, og hýðing á klærnar. [13] Er. vantar í AB.

Krummi situr á kvíagarði,
kroppar hann á sér búkinn;
aldrei skal hann matinn fá
fyr en hann finnur kúkinn.[1]
Krummi situr kvíum á,
kroppar hann af sér böndin.
Aldrei skal hann matinn fá
fyr en hann finnur lömbin.[2]
Krummi situr á kvíavegg,
kroppar hann á sér trýnið,
hann skal eingan matinn fá
fyr en hann finnur brýnið.[3]

Hrs. Sv. Gv. 67, Arch. L. — *A*. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Sigríði dóttur á Stað í Aðalvík. Hrs. A. M. 969, 4to = *B*, með hendi Guðmundar Sigsonar á Loptsstöðum.

II.

fyr en hann finnur ærnar.
[Þá[4] fann hann[5] fjórar ær
fyrir handan á.
Gef mér legg af gamalá,
sem gott er að vinda þráðinn á.
Upp í fjallið fer
þegar hann lömbin sér,
rekur heim og sker,
fljótt og hnífinn ber.
. . . . . . keppinn
og gollurinn með.
Ekki rær hann daginn þann
sem slátrað er.

Frá Guðmundi Davíðssyni. Sbr. hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E[2].

Krummi situr á kirkjubust,
kroppar hann á sér tærnar,
napran veit á norðangust,
nú finnast ei ærnar.

Orðabók Jóns Ólafssonar frá Grunnavík veit. Hrs. Á. M. 979 4to, *a*, 521, *b*, bls. 1483.

Krummi situr á kvíavegg,
kroppar hann sér lítið egg,
þar kemur hún kisa grá
með spýtuna og hrognið á.

Frá dr. Jóni Þorkelssyni yngra.

I.

Krá, krá.
Hrafnarnir fundust við Almannagjá.
»Hefirðu nokkur ný tíðindi að segja mér frá?«
»Já, já!
kýr er dauð við Laxá.«
»Hver á?«
»Árni minn á Króki, vesal mennið smá
Þar vaða mörinn má,
alt upp að hnjá.«
»Komum þá og kroppum,«
segja hrafnarnir þá.

---

[1] Er. vantar í AB. [2] A. [3] B. [4] Nú. [5] Frá [ Eg fann.

II.

**Hrafnasamtal.**

Hrafnarnir fundust við Almannagjá.
»Hvað er í fréttum?« sagði einn þá.
»Hross er dautt.« »Hver á?«
»Ormur á Þverá.«
»Er feitt?« sagði hinn þá.
»Ójá,
vaða má
mörinn upp að hnjá.«
»Komum þá
og kroppum á.«
»Þá skalt ekki neitt fá,
ef þú segir nokkrum frá.«

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. C. Hönd séra Brynjólfs Árnasonar í Lángholti.

Krummi krúnkar úti,
kallar á nafna sinn:
»Eg fann höfuð[1] af hrúti,
hrygg og gæruskinn.
[Komdu nú og kroppaðu með mér
krummi, nafni minn.[2]

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E[2].

Krummi krúnkar[2b] úti' í for,
kallar á Kela' í hljóði:
»Eg hefi' ei séð þig síðan í vor
sæmdarmaðurinn[3] góði.«

Hrs. Á. M. 969, 4to, með hendi Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum.

Krummi fló
kátur um[3b] sjó,[4]
kænlega sína vængi dró;
[setti'[5] í mó
sultarkló;[6]
sá hann nú hvar skipin ró.
Lakann eptir klakanum
til vakarinnar dró,
með tinbelti föður síns
og tvenna skó,
stakk þeim[7] undir stélið á sér,[8]
stökk svo[9] upp og hló.
[Hann dansaði við[10]
og sagði lulló.[11]

II.

sá hann nú hvar skipin ró;
alvotur af sjó
kyndir hann í ofninum
bæði kvöld og morgna
og lætur sig þorna.

III

alvotur af sjó
dindilinn dró;
hafði gular skinnbuxur
og grænan kjól
og enn dilla eg þér þó.

Hrs. Bmfj. 656, 8vo.

---

[1] haus. [2] Frá [ kroppaðu í það nafni minn 67. [2b] situr 969. [3] sæmdarvinurinn, 969. [3b] með. [4] mó. [5] settist. [6] sultarkló situr í mó. [7] stiklaði hann. [8] henni. [9] hún. [10] þá bomsaði í honum, en hún vék sér við. [11] og sagði dillidó, hann sagði lilló, dillidummaði dó.

Krummi situr á kirkjubust,
kallar hátt með sinni[1] raust.
Vetur sumar vor og haust
vappar hann út um berjamó
með tinbelti föður síns
og tvenna nýja skó.

II.

með gullhempu[2] föður síns
og svarta skó.

III.

vel stígur[3] gó, gó
með gullhempu' og svarta skó.

Krumminn í hlíðinni,
hann er að slá,
en hún lóa lipurtá,
hún er að raka ljá,
en hann spói spíssnefur
[rak hana þar frá[4].
Hann gaf henni hnappa þrjá
og bannaði henni að segja frá.
Þá var ljóma lagið á
lýsa þótti víða.
Svo var dimt að döglíng sá
drógu varla' að ríða;
fundu þó eina fjallsins hlíð,
funa sá hann brenna.
Þángað lætur
þeingill mætur
þófa hjörtinn renna.

II.

og bannaði henni' að segja frá.
tur svaraði' hún lóa,
hélt á rauðum hríng:
»Það er hann spói spíssnefur,
sem kemur svo seint á þíng.«
Rjúpan lagði reiðina,
rekkar kalla' á spóa.
Æðurin og öndin smá
úti liggja' í flóa.
Mýfuglinn, bífuglinn
kallar á hann kjóa.

III.

Lóa, lóa lítiltá,
fór hún út að raka ljá;
einga hafði' hún hrífuna
og þó gekk henni á.
Þá kom spói spítnefur
og rak hana lóu frá;
en því svaraði titlíngur,
helt á rauðum hríng.
»Hvar er hann spói spítnefur?
hann kemur svo seint á þíng.«

Krummi hvar hann flýgur,
fram fer klúr, ótrúr í búr,
skjöl hann finnur skild sér,
skoppar hann í huppinn hér niðri,
þar brúðir snúa baki við,
bar hann fram hvað hann fann,
honum ofan í háls rann.
Berfættur í búri kúrir,

[1] kveður hann þar með hárri. [2] sjóvetlinga. [3] mín dansar. [4] hann ríður ofan á.

beint vill hann á hillu stilla,
grípur kopp og greppur sleppur,
getur patað mat úr fati,
skömmunum ljótum skraut ....
vald hans er rjúpan
þó rám sé hún mjög.
Ofan eptir leirunni rindillinn fló,
með fattan halann, og flókana dró,
skinnbeltið hans föður síns og
þrenna skó.

stakk hann undir stélið á henni,
stökk hann upp og hló,
hvumsaði við og sagði: lilló.
Vel sýngur klári klerkur í ríki sínu,
Ránhildur, Neka, Teka, tó,
einginn í steini utan eg einn,
Ásgrímur og Mángi,
Steini, Björn og Snorri.

# Manþulur.

I.

**Fór eg til berja**
**fyrra sunnudag,**
**fann eg fyrir mér stúlkukorn,**
**í bláu pilsi' hún var;**
**léði eg henni liljublað**
**að leika sér að.**

**Elti' eg han**
**alt upp í l**
**upp í sel**
**og ofan á**
**Alla daga í**

**Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, ept.**
**Vigur.**

II.

Eg fór til berja
einn sunnudag.
Þá kom til mín lítill dreingur,
smáfættur var.
Hann bauð mér einn lítinn leik;
ekki vildi' eg það.
Sjálfur mátti' hann eiga

sitt ljósa li
Elti' hann
og alt upp
fram í flóa'
fari' hann
í hvern dal

III.

Stúlkan í steininum,[1]
hún kemur ekki heim í kvöld
að borða[2] fyrir sveininum[3]
[með bláa spæninum.

Hún er sto
og upp í m
Alla daga

**Frá Guðmundi Davíðssyni. Hrs. Sv. Grv. 66, hönd**
**Árni Magnússon í hrs. Á. M. 226, 8vo = *B*.**

---

[1] steinum B. [2] gánga. dansa A. [3] sveinum B. og l steininum A.

Pilturinn og stúlkan
tðluðu með sér gaman.
Hverju eigum við að fæða' oss á
þegar við komum saman?
Eg skal taka mér staf í hönd
og stikla upp með á,
veiða nokkra smásilúnga
að fæða okkur á.

Dreingurinn[1] minn, minn
mér lízt á hag þinn,
kom þú á kvöldin
klaklaust yfir fjörðinn,
þig kátan þar finn,
þreyttu' ekki hestinn;
[annað kvöld sveit svinn
sér þig kominn hér
í dúninu að dilla mér.
Þá mundi hlaðsól heitt unna þér,
ef þú vildir í dúninu dilla mér.[2]

Sbr. Þorleifur minn minn og Hýr mundi eg hlaðsól í Íslenzkum vikivökum 1894, bls. 383, 348.

Mey fríð, munblíð,
mjúklát. mjög kát,
tarmbær, trund(!) mær,
telst mín drós fín.
Það fær, þú mær,
þýð gjört, blíð, björt,
ef ljós, ljúf drós
lætur já mig fá.

Eg vildi' eg ætti mér konu,
kynni hún ekki at vinna,
væri löt og laung,
langbeinótt og snúin;
væri há sem strympa
og svo hvell sem bjalla,
óþekk mönnum öllum,
konum bæði og körlum
og svo úngum sveinum
utan karli einum.

Dr. Jón Þorkelsson ýngri, eptir Þorbjörgu Jónsdóttur.

---

[1] Jón litli. [2] Frá [ Jón litli minn, minn.

## Barngælur og barnavísur.

### Ljúflíngskvæði.

Ljúflíngskvæði eru kvæði, sem huldufólk kveður yfir börnum mennskra manna; ber það opt við, og liggja til þess margar orsakir. Það er til dæmis opt, að huldukona kemur til barnfóstra og biður þær að hjálpa móður sinni, eða einhverri annari huldukonu í barnsneyð, en meðan barnfóstran er í burtu, er huldukonan hjá barninu, og huggar það og kveður Ljúflíngskvæði yfir vöggunni, sem ávalt er fult af hamíngjuóskum; jafnan verður það að áhrinsorðum, þegar barnið eldist. Þannig er sagt, að huldukona hafi kveðið yfir vöggu Galdra-Leifa (o: Þorleifs Þórðarsonar) og því hafi hann orðið slíkur undramaður sem hann var talinn. Flest Ljúflíngskvæði eru þó þannig til orðin, að stúlka getur barn með huldumanni, og er henni því ekki unt að feðra barn sitt; verður hún þá opt fyrir ámæli ættíngja sinna, en þegar hún situr með barnið hrygg í huga og getur ekki huggað það, þá kemur huldumaðurinn, faðir barnsins, á gluggann uppi yfir stúlkunni og kveður Ljúflíngskvæði yfir barninu og verður það þá jafnan gæfusamt.

Menn ættu því að forðast að ámæla nokkurri stúlku fyrir það, þótt hún geti ekki feðrað barn sitt, því hver veit nema huldumaður sé faðir að barninu, og hann komi svo einhvern góðan veðurdag og kveði Ljúflíngskvæði yfir því, og það verði síðan mesti ágætismaður. Hér hefi eg nú eina sögu, sem sýnir að þetta getur átt sér stað.

Einhverju sinni ól stúlka barn, og gat ekki feðrað það; fyrir því lögðu vandamenn hennar fæð á hana. Einhverju sinni grét barnið mjög og gat stúlkan ei huggað það, hvernig sem hún reyndi til þess, og fór þá fólkið að ámæla henni mjög fyrir það, að hún gat ei huggað barnið, og hallmælti henni jafnframt fyrir það, að hún hefði ekki getað feðrað það; fór þá stúlkan að gráta; heyrði fólkið þá, að maður kom á gluggann uppi yfir rúmi því, er stúlkan sat á, og kvað kvæði það, sem fer hér á eptir.

Inngángur þessi er frá Jóni Árnasyni. Sbr. Þjóðs. hans I, bls. 64 og Konrad Maurer, Isl. Volkssagen 1860, bls. 18, 319.

## Ljúflíngsdilla.[1]

1. Sofi, sofi sonur minn;
sefur selur í sjó,
[svanur á báru,[2]
már í hólmi,
manngi þig svæfir,[3]
[þorskur í djúpi.[4]
[Sofðu, eg unni þér.[5]

2. Kýr á bási,
kálfur í[6] garða,[7]
[hjörtur á heiði
en í hafi fiskar,[8]
mús undir steini,
maðkur í jörðu,
[ormur í urðu.[9]
[Sofðu, eg unni þér.[5]

3. Bjór hjá vötnum,
í björgum skarfur,
refur í hreysi,[10]
reyr[11] í tjörnum,
álpt á ísi,
önd í bökkum,
[otur í gljúfrum.[12]
[Sofðu, eg unni þér.[5]

4. Selar[13] á flúðum,[14]
en í sundi[15] murtur,[16]
[björn í[17] híði[18]
með breiða bramma,[19]
vargur í viði
en í vatni gedda,
[áll[20] í iðu.[21]
[Sofðu eg unni þér.[22]

5. [23]»Nú hefi eg svæfðan
son þinn kona,
ljúflíng okkar[24]
í[25] litlu[26] bragði,[27]
alinn til elli,
[allan í hvílu,[28]
heill hann veri,
en hálfan á eg.

6. [Heill hann vakni[29]
og horskur í mörgu,
ör [og auðugur,[30]
almannavinur,
gjarn góðra verka,
guðs fulltrúi,
hóflyndur[31] við hvern
og hollur veslíngum.

7. Skurðhagur við skip,
og skjóti manna bezt,
upphár[32] að eikum
þar er aldin glymur,
[tafls fulltrúi,[33]
[tíður[34] hörpusláttur,[35]
vakur á velli,
vinur höfðíngja.[36]

[1] Ljúflíngsljóð DEFLMN. Ljúflíngsmál G. Ljúflíngsvísur H. Ljúflíngsþáttur I. Ljúflíngsbarngælur A. Ljúflíngskvæði B. [2] Frá [ sl D. [3] G. [4] Frá [ sl. GHI. [5] Frá [ sl. DFGHILMN. [6] Hér hættir M. [7] stíu C. [8] Frá [ sl. DFGLN. [9] Frá [ sl. D. [10] reysum G. [11] en reyður K. [12] Sl. H, Lína þessi er á ýmsum stöðum í handritunum. [13] seyði DFLN. [14] flúrum ADFGHIL. [15] sandi F. [16] urta I, urtir K. [17] á N. [18] heiði ACDLN. [19] Frá [ sl. G. [20] álpt AC. [21] veisu DFGLN, eisu AHI. Frá [ hjörtur í heiði, hreinn í mosa G. [22] Sl. ADGI. Einn, einn herra eg bið FHLN. [23] Hér byrjar B. [24] okkarn N. [25] þó að ADFHKLN, og BI. [26] leti CDFLN; letrið A. [27] bregði ACDFHKLN, brugðið BI. [28] Frá [ til allra heilla C. [29] Frá [ sl. DI. [30] á auðæfum A. [31] hæglyndur DFLN, hóglyndur G. [32] upp fari (þar A) H. [33] Frá [ sl. D. [34] tamur A. [35] Frá [ sl. D. [36] Er. vantar í I.

8. Ljúfur, heill,
[1]lög segjandi,[2]
svinnur um saktal,
[sýn bókamál,[3]
[réttur í skyldum,[4]
ríkmennum þekkur;
gjör gagn ef þú mátt
grönnum þínum.[5]
9. Gæt[6] þess[7] sonur minn,
hvað gjörist á þíngum;
vertu fámálugur
[þar er fífl[8] geipa;[9]
varastu[10] geiplur[11]
þar virðar[12] drekka;
vertu vinur vina,[13]
en varastu pretti.[14]
10. [Veit aumum[15] mat,[16]
[voluðum hvílu,[17]
[18]hús [og heimili[19]
þeim er hafa þurfa;
[þigg þú af eingum
nema þegar launir;[20]
sá er vinur flestra,
er sig varar glöggvast
11. Sporna[21] [við illu,[22]
[spar í[23] umgeingni;[24]
opt eyðist fé
[þeim ei varir.[25]
[Gef[26] ei til fjölda
þó farir þú víða,
fremstur af öllum
þeim er framir heita.[27]
12. Enn eru vísur
[ef viljið[28] hlýða[29]
[þér og heyra
þátt hinn fjórða.[30]
Klæjar mér túngan
ef kveða skal eg leingur;
þess mun þörf vera
[meðan þegja aðrir.[31]
13. Víða[32] liggja[33] vatnsgötur,[34]
vindur er torrænastur,[35]
öl er annar maður,
[eldur er[36] [viðar fura,[37]
sæt er syndaást,
svipul er sjóargjöf,
létt falla lostverk,
(lángur er konúngs morgun.
14. [Örn er ófælnastur,
aldur misjafnastur,[38]
(vit er vinsælast,
vænstur er litur gæfa,
vindur er veðra galli,
valur er hvatfleygastur,[39]
[gleða[40] glöggskyggnust,[41]
guð er beztur allra.[42]

[1] um CGK. [2] CG. [3] L. 1—4 sl. A. [4] Frá [ Leiður illmönnum A. [5] Er. vantar í DFILN. [6] Grát ADFLN. [7] ei ADFLN. [8] firðar H. [9] gabbar C. gapa DFK. tala H. gana eða gjálfra I, gala. [10] sjá þú við DFLN. [11] geyflur C, gislum DN. [12] galdir DFLN, glaðir CGHI. Frá [ vantar í A. [13] manna FN. [14] Línan tvítekin í H. [15] blindum ACDFLN. [16] stoð A. Frá [ sl. I. [17] Frá [ en björg þurfandi A. [18] Lát AH. [19] heimil A. [20] Frá [ sl. I. [21] Spjátrum DFLN. [22] ýta DN. [23] spara DN. [24] umgaungu CGH. Frá [ við einu skaltu forðast I. [25] þó eigi viti A. [26] Gakk ADFLN. [27] Frá [ vantar í I. Hér endar H. [28] þær eg vil AC. [29] greina A, gegna C. [30] Fra [ vantar í A. [31] þá aðrir sofa C og endar hér. Er. vantar í DFGHILN. [32] Viðar EGI. [33] eru AEGK. [34] eða vaðs N. [35] torfærastur DN. tornæmastur EGI. [36] eldurinn E. [37] viðinn fuðrar E. [38] Frá [ sl. I. Frá ( sl. E. [39] hvassfleygastur AG. Frá [ eldur er misjafnastur LN. Frá ( vantar í DEFI. [40] glaður er DN. [41] glöggskyggnastur DLN, glöggskygnin K. [42] Laun koma sum seinna E.

15. Hirðum um háð eigi,
höfum Péturs vísu;[1]
[það veitir lið lítið
ljótu að svara hrópi;[2]
fyrirgefum gjarnan
[grimmar bakslettur,[3]
öll mun einn dæma
orðin hin sögðu.[4]

16. [Veri nú[5] allir
vinir Ámunda
[og um líf léttara,
sem læra[6] kvæðið.[7]
[Hljóti þeir allir,
sem hlýtt hafa
góðar heillir
af guði sjálfum.[8]

Ny kgl. Saml. 1894, 4to, bls. 275 o. s. frv., með hendi Magnúsar Magnússonar = *A*. Útgáfa þessi er skrifuð eptir hrs. Á. M. 154, 8vo, en nú er frumritið týnt og enn önnur útgáfa af kvæðinu úr sama handriti, svo nú er þar ekki nema ein útgáfa; er tekinn úr henni orðamunur í *A*. Árni Magnússon hafði feingið *A* frá Haldóri Þorbergssyni, en 1699 hafði Haldór skrifað Árna um kvæðið: »Þér minnist um Ljúflings barngælur; þær hafða eg, en kann ekki þær hjá mér finna og mun einhver hafa þeim náð og ei kunna þær margir nú svo eg viti, nema ein stúlka og er hún á Skagaströnd, en ekki hér. Þó skal eg viðleita að ná þeim. En svo hefi eg heyrt þær tilkomið hafi, að ljúflíngur eða álfamaður (semihominem að sumir kalla) hafi átt að geta barn við mennskri stúlku og fyrir óspektar sakir hafi hann kveðið þær yfir þeirri barns vöggu og í endíngu þeirra kveður hann svo að orði:

Enn guð er beztur allra.«

Yfir kvæðinu stendur: »Þetta eru Ljúflings barngælur svo nefndar, sem eg heyrt hefi af gömlum mönnum«, en aptan við það: »Leingra hefi eg ei heyrt þetta fornkveðna Ljúflingsmál«. Ny kgl. saml. 1837, 4to = *B*. (5. er. og annað til: III). Hrs. Á. M. 154, XVII, 8vo = *C*, skrifað hér um bil 1700. Kvæðið heitir hér »Ljúflíngs eða ljúflyndra diktur. Dillukvæði.« Aptan við kvæðið stendur »Endir Ljúflíngsóðs«. Viðlag er hér við kvæðið:

Sofðu, eg unni þér.
Mörg sofa þau börn
mér eru leiðari.

Hrs. Bmfj. 13, 8vo = *D*. 35 fol., bls. 239—40 = *E*. (13. og 14. er.). Ny kgl. Saml. 1873, 4to = *F*. Íslenzk æfintýri Rkv. 1852, bls. 103—105. Sbr. innganginn, bls. V = *G*. Fjögur fyrstu er. í útg. enda á »Sofðu, eg unni þér«. Otalið hdr. frá Jóni Borgfirðing í safni Bmfj., brot á tveimur blöðum, skrifað með rauðu bleki eptir útgáfunni Hrs. Á. M. 738, 4to, 129. bl. = *H*, skrifað 1680. Því sem hér er af kvæðinu er skipt í 12 er. Aptan við 1. er. stendur »m[angi] [þig] s[væfi]«, aptan við 2. er. »a[ð] þ[ig] s[væfi]«, aptan við 3.—11. er. S[ofðu] eg u[nni] þ[ér«, en ekkert aptan við seinasta erindið. Ny kgl. Saml. 1892, 4to, afskript af hrs. Á. M. 738, 4to, Hrs. Á. M. 151a, 8vo = *J*. Frá byrjun 18. aldar með hendi Magnúsar Einarssonar á Jörfa. Mjög raung útg. Magnús sleingir sumstaðar inn í kvæðið: »Sofðu eg unni þér«, á sjö stöðum alls. Hrs. Á. M. 441, 12mo, bls. 155—57 = *K*, frá seinna hluta 17. aldar. Hrs. Á. M. 166a, 8vo, 63. bl. = *L*, frá 17. öld. Hrs. Á. M. 166b, 8vo, 48. bl. = *M*, byrjunin, frá 17. öld. Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar yngra með hendi Jóns Egilssonar að Vatnshorni = *N*, skrifuð 1748.

[1] vitni ADFGIKLN. [2] Frá [ sl. D. [3] Frá [ sl. D. [4] Frá [ sl K. [5] [illegible] séu L. [6] lofa K. [7] Frá [ sl. DFLN. [8] Frá [ vantar í A.

II.

1.—4. er.
5. Sauðir á flæðum,
sá eg þá áðan,
ylgju í skógi
með únga sína,
lýður og lundi,
lánga úr grunni,
guðlax í geimi
gállaus(!) segi eg o. s. frv.
6. Dúfa á flaugi[1]
og dóttir Njörfa,
mær til móður,
minnist eg þeirra,
álfar í eiðum,
álki á ísi,
hafur í hamri
og í hellum búar o. s. frv.
7. Hestur í haga,
haukur á brauðum,[2]
maður í hvílu
og mey þjóðkóng[s],
kráka með hettu
í kolli svarta,
arnsa í bjargi.
Ei tel eg fleira.
8.—12. er. = 5—9.
13. — Fyrri hlutinn af 10. er. og
fyrri hlutinn af 11. er.
14. — Seinni hlutinn af 11. er. og
seinni hlutinn af 10. er.
15. — 12. *C.*

III.

Gættu að sonur,
hvað gjörist á þíngi,
að þú margs spyrjir,
en fátt leysir;
trúa þjónustu
trygð og hagnað
sendi þér guð þinn
svo þér vel nægi.
*B.*

IV.

## Barngælur gamlar.

Sofðu með sæmdum
sæll í dúni
sem vín á viði,
vindur í skýi,
svanur á merski,[3]
már í hólmi,
þorskur í djúpi,
[þerna á lopti,[4]
kýr á bási,
kálfur í garði,
hjörtur í[5] heiði
en í hafi fiskar,
mús undir steini,
maðkur í jörðu,
ormur í urðu
[alvanur lýngi,[6]
hestur í haga,
[húnn í fjöllum,[7]
seyði á flúrum
en [ [í] sandi[8] murta,
björn á heiði,
vargur í viði,

---

[1] = flugi. [2] = bráðum. [3] báru B. [4] sl. B. [5] á B. [6] sl. B. [7] sl. B.
[8] á sundi B.

vatn í keldu,
áll í[1] veisu
en maur í moldu,
síl í sjó
og sundfuglar,
fálkar í fjöllum,
fílar í skógum,
ljón í bæli,[2]
[lamb í mói,[3]
lauf á limi[4],
ljós [á haldi.[5]
Sofðu eins[6] sæll
og sigurgefinn.

Hrs. Bmfj. 639, 8vo (Varðgjárkver). Hrs. Bmfj. 35, fol., bls. 239—240 = *B*, og skeytir aptan við 13. og 14. er. í I. Hrs. Bmfj. 638, 8vo = *C*, með hendi Geirs Vigfússonar. Virðist vera afskript af 639. Prentað hjá Jóni Þorkelssyni, Om Digtningen på Island. 1888, bls. 199—200.

V.

DFHILN skjóta inn kafla þeim, sem fer hér á eptir, eptir fyrra hlutanum af 9. er. í I.

Hafðu' ei orðsendíng[7]
um ætlan þína
[það eg fyrirbýð,
það er gæfusamlegt.[8]
Þú fréttir að mörgu,
en fátt segir
[þar þú hölda finnur.[9]

Sofa urtu börn
á útskerjum;
veltur sjór yfir þau
og einginn þau svæfir.
Sofa kisubörn
á kerhlemmum;
murra og mala
og einginn þau svæfir.
Sofa Grýlu börn
á grjóthólum,
urra og ýla
og einginn þau svæfir.
Sofa bola börn
á báshellum,
moð fyrir múla
og einginn þau svæfir.
Sofa manna börn
í mjúku rúmi;
bía og kveða
og babbi þau svæfir.

Prentað hjá Steingrími Thorsteinsson í Isländische Volkslieder. Kolozsvár 1879, bls. 4. Þýzk þýðing bls. 5.

Lömbin í mónum
leika þau sér.
Selurinn í sjónum
syndir upp á sker.
Vetlíngana á prjónum
vinnukonan ber.
[Samlyndi með hjónum
silfri[10] betra er.

Isländische Volkslieder, bls. 6—7.

[1] selar B. [2] leyni B. [3] lömb á lýngi B. [4] viði C. [5] í lopti B. [6] sl. B. [7] orð(s)hending DFLN, orðtak slíkt I. [8] gæfan sönn H, gæfa svinn. Frá [ vantar í D. [9] Frá [ vantar í D. [10] gott samlyndi hjóna, eða góð eining hjá hjónum gulli. Stgr. Th.

»Eg sá sauð suður í mó,«
sagði þumalfíngur.
»Því tókstu' hann ekki með þér?«
sagði sleikifíngur.
»Betra er að stela,«
sagði lángataung.

»Eg vil fa
sagði græði
»Eg vil sit
sagði litli
vesalíngur.

Gunna litla lá við horn,
leikur hún sér sem barnakorn,
verður ekki vinnan holl
veltir hún sér á pöllum;
týnt hefi eg öllum

kvæðunum
Gjarna sky
ef eg kynn
í vor og í

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, epti
Þverdal.

[Stúlkan ein
stökk upp á hann herra Stein.[1]
Hún vissi' ekki hvert hún átti að
horfa

hún [stökk

[Eltu hana
stökk hún[3]
[og þar da

Hrs. Sv. Gv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson,
prestkonu á Stað í Aðalvík. Hrs. Bmfj. 656, 8vo = *B.*

Mín kindin mjó
hún kann ekki' að róa á sjó,
ekki' að vinna' á velli,

ekki' að gj
ekki' að fy

Hrs. Bmfj. 656, 8vo.

Úti' er kominn maður
og ætlar að biðja þín.
Hann er hár og fagur

og heilsar
Vindu vel
Vallarkolla

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, ep
á Sléttu.

Það var á einu kveldi
að hann stuttfótur
stökk fram að eldi.

Lonza kom
úr Lundún

Hrs. Sv. Grv. 67. Hönd séra Daníels Haldórssonar
J. Árn. I, 52. Jón Þorkelsson, Om Digtningen på Islan

---

[1] Mín kindin ein
ætlaði í séra Svein B.

[2] hljóp framaná B. [3] Hún hljóp bæði út og inn, og

Fagurt er á tjörnum
þá fult túnglið sér,[1]
líka' á hólhjörnum
þar halllendið er,
þá líkar börnum
er[2] þetta svo fer.
Tunnustafir, trogið og slóðinn
talinn er sá hinn mesti gróðinn.
. . . . . . . . . . . .
Ægir saman í einu hljóði
ærsli og skrækirner.
Þá líkar börnum
er þetta svo fer.

Orðabók Jóns Ól. frá Grv. agi, fagur, hjarn, ægir. Hrs. Á. M. 979b, 4to, bls. 59. Hrs. Sv. Grv. 66. Hönd Jóns Sigurðssonar.

Sofðu blíða barnkind mín!
byrgðu aptur augun þín,
[friðarins guð þér frelsi bjó,
fyrir það sofðu í góðri ró.
Geymi þín drottinn dýrðarhæstur
og dillidó.[3]

Isländische Volkslieder, bls. 6—7.

Sofna þú í friði guðs,
vakna þú í ljósi;
svo bið eg fyrir þessu barni,
að Kristur minn á himnum það kjósi.

Steingrímur Thorsteinsson: Isländische Volkslieder. Kolozsvár 1879, bls. 6—7.

Við skulum ekki gráta
og ekki tala ljótt,
þá verðum við svo stór
og vöxum við svo fljótt.
Við skulum lesa bænirnar,
þá sofum við svo rótt,
guð og allir einglarnir
þeir vaka hverja nótt.

Eptir húsfrú Karólínu Jónsdóttur.

Guð blessi börnin
bæði úng og smá,
vís er þeim vörnin
voðanum frá,
sæl eru þau þá,
þegar þau fá sinn guð að sjá,
heilaga eingla að horfa upp á
og með þeim sýngja glóríá.

Litlu börnin leika sér,
það er þeirra æði,
þegar þau kunna að gánga um gólf,
bera þau skarlatsklæði;
drottinn minn blessi þau
bæði úti og inni
og í vöggunni sinni.

Eptir handriti Sæmundar heitins Eyjólfssonar, cand. theol.

---

[1] er. skín. [2] ef. [3] Frelsarinn sem fyrir þig dó
firri þig sorg, en gefi þér ró. Stgr. Th.

Sævarelda sólin!
senn eru komin jólin.
Klæðast menn á kjólinn,
kviknar gleðisólin.
Drýgist drykkjuskólinn,
dúnka kverkahjólin,
tappa tóbaksrólin,
tölta út um hólinn.

[Þá skal gefa börnum brauð
að bíta í á jólunum,
kertaljós og klæðin rauð,
svo komist þau úr bólunum,
væna flís af feitum sauð,
sem fjalla gekk á hólunum.
Nú er hún gamla Grýla dauð;
gafst hún upp á rólunum.

Frá [ Hrs. Bmfj. 605, 8vo (Þorsteinn Þorsteinsson á Upsum). Sbr. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa. Prentað í Þjóðs. J. Árn. II, bls. 570—71 og Tímariti Bmfj. XII, bls. 118.

Móðir góð í fjörðinn fór,
var í burtu leingi;
börnum gaf hún brúna skó,
hnappakorn og þveingi.
Að því var hún leingi.

Bíum, bíum bamba,
börnin litlu ramba[1]
fram um[2] fjallakamba
[að leita sér[3] lamba.

Margt er gott í lömbunum
þegar þau koma' af fjöllunum:
gollurinn og görnin,
og vel stíga börnin.

Fjórar fyrstu línurnar hjá Jóni Ólafssyni í Stafrófskveri 1889, 1891, 1892, bls. 13. Seinni hlutinn bls. 19; 5. og 6. línan hjá Guðmundi Jónssyni í Safni af íslenzkum orðskviðum 1830, bls. 225.

II.

Bíum bamba,
bændurnir frá skjamba,
þeir þeysa og þamba
og þurfa margt til vamba.

Bí, bí og blaka,
álptirnar kvaka,
(vindar[4] ský skaka,
[skúmar hræ[5] taka.[6]

Láttu sem þú sofir,
samt skaltu[7] vaka.
bí, bí og blaka.[8]

Isländische Volkslieder, bls. 6—7. Jón Ólafsson, Stafrófskver 1889, 1891, 1892, bls. 13. Jón Thoroddsen, Piltur og Stúlka. II. útg. Rkv. 1867, bls. 125.

Bí, bí og blaka,
blessuð litla mín.
Álptirnar kvaka
og Jesús gæti þín.

---

[1] þamba. [2] á. [3] fara' að leita, fús að leita. [4] hrafnar. [5] skúmarnir. [6] kvaka, klaka [7] muntu. [8] Frá („Eg læt sem eg sofi,
en samt mun eg vaka.

III.

Bí, bí og blaka o. s. fr. — taka.
þegar piltar (stúlkur) koma
og á þér vilja taka.
Láttu o. s. frv.

Hrs. Á. M. 960, 4to, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa.

IV.

Bí bí og blaka
álptirnar kvaka,
ágæt hafa þær hljóð.
Vífin þau vaka
og verða þér svo góð.

Sama hdr. og heimild.

Sefur, sefur, sefur, í
svörtum poka og liggur þar,
bíum bíum bíum bí,
barnið hennar Ragnhildar.

Seinasta orðinu er breytt eptir atvikum og Sigríðar, Margrétar, Guðnýjar o. s. frv. sett í staðinn.

Eptir sögu þorsteins ritstjóra Erlíngssonar.

Sefur, sefur, sefur í
svörtum poka þetta fólk,
bíum, bíum, bíum, bí
börnunum, sem drekka mjólk.

Frá húsfrú Karólínu Jónsdóttur.

[Við skulum róa rambinn,[1]
rétt út á kambinn,[2]
sækja[3] okkur fiskinn,
sjóða[4] hann upp á diskinn.
Rafabelti og höfuðkinn,
[þetta fær hann faðir þinn[5]
í hlutinn sinn.[6]
það gefur guð minn.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa — *B.*

Róum við, róum við
fram um fiskisker,
þar er lúða, þar er lúða,
sem um botninn[7] fer.
Halla mín, Halla mín
hún er býsna[8] þrá,
kelli mín, kelli mín
hún vill [karl sinn[9] þjá.

Afskript dr. Jóns þorkelssonar ýngra eptir hrs. J. Sig. 406, 4to.

---

[1] Róa, róa rambinn. [2] Faðir minn er róinn
lángt út á sjóinn B.
[3] að sækja B. [4] að færa B. [5] minn. [6] frá [ berum við í bæinn inn B. [7] miðið.
[8] stríð og. [9] bóndann.

Við skulum róa
því[1] við erum fjórir:
báturinn og státurinn,
stýrimaður og stjóri.

Sbr. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa.

Við skulum róa suður í ver,
svo veit einginn hvert eg fer
og Siggi litli með mér.

Við skulum róa Rúnki minn
og róa suður að Tjörnum.
Feingið hefir hann faðir þinn
fylli sína af görnum.

Við skulum róa sjóinn á
og sækja okkur ísu.
En ef hann krummi kemur þá
og kallar á hana Dísu.

Róðu mikið Rúnki minn,
éttu smjör og gráða,
láttu vömbina þína ráða.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa.

Róa róa rambinn,
rétt út á kambinn,
þaðan út á þorskamið
og þar tekur keilan við.

Frá Þorsteini Erlíngssyni, ritstjóra.

Róðu, róðu Rúnki minn
og fiskaðu vel.
Hladdu fullan bátinn þinn
og sjóddu' í skel.

Hann rær og hann slær,
hann eltir lambær
[í allan dag og eins[2] í gær,
en ekkert í kaupið fær
nema[3] tvær, tvær
tannlausar gamalær.

Stígur hann Lalli
lángt innar[4] á palli.
Fjórar hefir hann fjalirnir
fótanna á milli.
Stígur hann með snilli
og hefir allra hylli.

Mikið rær sú mey frábær
meðan fær ei labba,
situr á læri mínu mær,
mömmu kær og pabba.

Stígur hann Lalli
lángt innar á palli
Honum var gefin hákarlssneið
skorin ofan úr hjalli,
sem átti bóndinn Halli
og hann býr á Fjalli.

Frá Guðmundi Davíðssyni.

---

[1] fyrst. [2] allan daginn. [3] utan einar. [4] inn.

Stíga börnin[1] kunna,
þegar þau hafa á fótunum
lambskinnsskóna[2] þunna,
[hann Gvendur[3] og[4] hún Gunna

Stígur hún við stokkinn,
stuttan á hún sokkinn,
ljósan ber hún lokkinn
litli stelpuhnokkinn.

Jón Ólafsson, Stafrófskver 1889, 1891, 1892, bls. 19.

Stígur nokkuð stuttfóta
[með státna sokka rauðleita;[5]
hrínga[6] dokkin hýrleita[7]
hárs ber[8] lokka fallega.

Vel stígur Lalli
við hana Dísu.
Hann gaf henni smáfisk,[9]
rafabelti'[10] og ísu
[hann Lalli henni Dísu.[11]

Sv. Grv. 67, Arch. N., með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa = *B.*

Stígur,[12] stígur stúlkan með snilli;
fjórar hefir hún fjalirnar
fótanna[13] á milli.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa.

Vel stígur Lalli
innar á palli;
lokulaus er brókin hans
og lítil þíng í hjalli.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. N., með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa.

Við skulum þreyja
þorrann og hana góu
og fram á miðjan einmánuð;
þá ber hún Grána.

Frá húsfrú Karólínu Jónsdóttur.

Börnin eru bezt komin,
þó bráðgjör séu' og vel gefin,
hyggin, fríð og hagfeldin
hjá þér Jesús, fóstri minn.

Hrs. Bmfj. 665, 8vo.

Allir fuglar út með sjó
eggjum verpa sínum,
dilla eg þér dúfan góð,
[drottins únga[14] mínum.

Eptir sögn húsfrú Karólínu Jónsdóttur.

---

[1] þ. dansinn þá þau. [2] kálfskinnsskóna. [3] Jón. [4] sem krotaði, krotað hefir. [5] vellita. Frá [ stáss með sokka röndótta. [6] línu. [7] dálitla. [8] drós á. [9] silúng B. [10] smáfisk B. [11] sl. B. [12] Vel. [13] fóta sinna. [14] dúfuúnganum.

Vaki einglar vöggu hjá,
varni skaðanum kalda,
breiði Jesús barnið á
blessun þúsundfalda.

Sama heimild.

Litla góða ljúfan mín,
láttu hljóðin dvína,
kannske móðir kalli þín
á keipaskjóðu sína.

Kveða skal við kindina
kvæðis litla myndina,
sú mun forðast syndina,
sjáðu' í gluggagrindina.

Góða barnið er hann,
aldrei hjá því fer hann,
blómanafnið ber hann
og bæjarprýðin er hann.

Vertu kyr[1] og gráti gleym
grundin fögur tvinna;
bráðum kemur babbi heim
barnið sitt að finna.

[Við hann afa vertu frýn,[2]
virtu þína ömmu,
kystu[3] hann pabba, kindin mín,
og klappaðu henni mömmu.

Hættu' að gráta litli Láfi
ljósið kemur senn,
fólkið er á ferðastjái
fram um bæinn enn.

Eptir sögn Bjargar Guðmundsdóttur í Kaupmannahöfn.

Dreingurinn í dvölinni
dugir ekki' að róla,
[skamtað var í skolinni
á skærri hátíð[3] jóla.

Sigga litla systir mín
situr út í[4] götu.
[Ærnar sínar auðarlín[5]
[er að mjólka' í[6] fötu.

Jón Ólafsson, Stafrófskver 1889, 1891, 1892, bls. 13 = *B*.

Góða mamma gefðu mér
góða mjólk að drekka.
Eg skal vera aptur þér
elsku barnið þekka.

Hann er að róa hýr á kinn,
hans er móa burtvikin,
kemur Jóa ekki inn
upp hann góa' að taka sinn.

Frá dr. Jóni Þorkelssyni yngra.

---

[1] kát. [2] Vertu afa væn og fín. [3] Frá [ Honum var gefin hörpuskel á hátíðinni.
[4] við B. [5] er að mjólka ána sín B. [6] í ofurlitla B .

Gómakvörnin geingur mín
gamni meður sénu,
sómabörnin sitja fín
sitt á hvoru hnénu.

Helgi Sigurðsson: Safn til bragfræði o. s. frv. bls. 75.

Margrét litla mærin góð
mikla brúkar snilli,
stundum ill og stundum góð,
stundum þar á milli.

Eptir sögn Guðmundar Magnússonar læknis í Reykjavík.

Klappar saman lófunum,
rekur hann féð úr móunum,
töltir eptir tóunum,
og tínir undan spóunum.

Eg skal kveða[1] við þig vel
viljirðu[2] hlýða kindin mín,
pabbi[3] þinn er að sækja sel,
[sjóða fer[4] hún mamma þín.

Litli Jón á litlu kistu situr,
lítið volar, lítið kann,
lítinn mola fá vill hann.

Hrs. Á. M. 241, 8vo, 120 bl., með nýlegri hendi.

Dreingur einn með dalli[5] rann
dripthvítur á hár og skinn,
litlar flautir fyrir sér fann,
fingri drap í munninn sinn

Corpus poeticum II, bls. 413.

Björn er nefndur baukur,
brosa margir að,
er hann ættarlaukur,
allir vita það.

Frá dr. Jóni Þorkelssyni ýngra.

Litli Jón er þarfur þjón,
þiggur hann lítinn greiða,
farinn er hann fyrir nón
fiðrildin að veiða.

Sama heimild.

Lambið og ljúfan,
líneikin fín,
dygðanna dúfan,
[dóttir góð[6] mín.

Góðu börnin gjöra það
guð sinn[7] lofa og biðja,
læra' að skrifa[8] og lesa á blað
líka nokkuð[9] iðja.

---

[1] stíga. [2] viltu. [3] faðir. [4] senn kemur. [5] Dreingurinn með dallinn. [6] dálítil. [7] að B. [8] stafa B. [9] margt gott B.

Illu börnin iðka það,
æpa, skæla' og hrína,
hitt og þetta hafast að,
heimta, brjóta' og týna.

Fyrri vísan er prentuð í Nýju stafrófskveri, sem er útgefið af Friðbirni Steinsyni Akureyri 1877, bls. 48, 1881, bls. 48 — *B.*

Góður dreingur geðugur
geingur út á daginn,
úngur maður Ólafur
ekki vill í bæinn.

Hrs. Bmfj. 638, 8vo, með hendi Gísla skólakennara Magnússonar.

Dreingurinn minn er kominn á kreik,
kann hann vel að ríða.
Eg skal ljá honum litla Bleik
og láta keyri smíða.

Frá húsfrú Karólínu Jónsdóttur.

Vertu góður við hana móður þína
kvæða fróði kvisturinn,
kátur og rjóður Helgi minn.

1. Úngu börnin iðka sig
opt í lestri kvera.
Þórey litla, mundu mig
minni þeim ei vera.
2. Litlu börnin leika sér
og láta vel í máta,
fá sér það, sem fallegt er,
en fara ei að gráta.
3. Vænu börnin vilja þrátt
vera iðin að þjóna,
sitja kyr og hafa' ei hátt,
horfa í kver og prjóna.
4. Góðu börnin gá að því
góðlynd jafnan vera,
góðum fylgja góðu í,
gott svo mætti' uppskera.
5. Mundu' að stunda ment og list
meður prýðidáðum.
Hafðu með þér herrann Krist
helzt í öllum ráðum.

Hrs. Bmfj. 387, 8vo (Hæringsstaða eða Urða bók).

## Kvöldvísur.

Kvölda[1] tekur, [setzt er[2] sól,
sveimar[3] þoka um[4] dalinn;
komið er heim á kviaból
kýrnar féð og smalinn.
Dagurinn líður, dimma fer,
dregst að nóttin svala,
myrkrið gjörir mér og þér
marga byltu fala.
Kvöldúlfur[5] er kominn hér
kunnugur innan gátta,
sólin rennur, sýnist mér,
senn er[6] mál að hátta.

Almanak 1870. Fyrsta og þriðja vísan í Corpus poëticum II, bls. 412 = *B.* Fyrsta vísan hjá J. Ólafssyni í Stafrófskveri Rkv. 1889, 1891, 1892, bls. 19.

[1] Dimma. [2] að B. Frá [ sér ei. [3] sígur B. [4] á B. [5] Kveldúlfur B. [6] mun B.

Barnavísur eptir séra Sigurð Jónsson á Ökrum († 1799).

Sígur í brjósti[ð] svefninn skaptur,
sjatnar vit og minni,
nú eru komin augun aptur
á henni telpu minni.

Í neðri loptum ljósið skín,
lifna gleðibætur,
nú er yndiselskan mín
aptur komin á fætur.

Hrittu móð úr hyggju slóð,
hreldu' ei þjóð og sýng þér ljóð,
varast hnjóð og vamma hljóð;
vertu góð mitt elskublóð.

Hvarfsbók (Frá Þorsteini Þorkelssyni á Syðra-Hvarfi í Svarfaðardal) II nr. 114.
Hdr. er í áttablaðabroti og eign Bmfj., en ekki skrásett á prenti, enn sem komið er.

Bæði góla börnin hér,
blessuð sólin vermir gler;
í rokknum hjólið ónýtt er
upp í stólinn Gulur fer.

Ríður fríður rekkurinn,
rjóður móður velbúinn,
keyrum blakar klárinn sinn,
kvikar vakur fákurinn.

Hvað á eg að gera?
Taka lamb og skera.
Hvað á það að vera?
Flekkur eða' hún Fera.

Eg[1] skal taka[2] strákalíng,
stínga honum ofan' í kolabíng,
loka' hann úti' í landsynníng[3]
og láta hann hlaupa[4] alt um kríng.

II.

Eg[1] skal taka[2] stelpuna,
stíngi henni ofan í mykjuna,
loka' hana úti' og lemja hana
og láta hann bola éta hana.

Eina dóttur á eg mér,
eins og dúfa dygðir ber,
hefir húfu á höfði sér,
hundaþúfu líkust er.

Illur dreingur er hann Jón,
ei vill meingi sjá hann,
herðir leingi hljóðatón,
hrísi fleingja má hann.

Ekki hefi' eg á því vit
hvað á eg þér að bjóða,
lifir bæði lús og nit
í lambinu mínu góða.

Frá Guðmundi lækni Magnússyni.

---

[1] það. [2] strýkja. [3] landnyrðíng. [4] róla.

Þegiðu barn og bíttu skarn
úr horni;
eg get ekki huggað þig
fyr en á miðjum morgni.

Frá Einari Hjörleifssyni ritstjóra.

Skrítilega lætur þú
litla hríngaströndin,
eg held eg verði' að hafa nú
hjá mér stóra vöndinn.

Frá húsfrú Karólínu Jónsdóttur.

Illa liggur á lúru minni,
veldur hún því sjálf,
hún hefir látið sofa hjá sér
róulausan kálf.

Eptir Gísla lækni Brynjólfssyni.

---

# Fræðiþulur og stef.

I.

Það er gamalla manna mál, að svo sé háttað fólki í fjórðúngum landsins: fyrir vestan sé vísindamenn, fyrir norðan hofmenn, fyrir austan búmenn, fyrir sunnan mángarar og kaupmenn. Vestan vita mest, vilja verst. Norðan ríða upp á hest, og raupa mest. Austan búa bezt, og bjarga verst. Sunnan svalla mest og sízt hýsa gest.[1]

Hrs. Á. M. 193 III, 8vo, 11. bl. Frá fyrra hluta 17. aldar.

II.

Það er austfirzka, að lasta prest, og lofa á frest, en rétt norðlenzka, [að] ræða um hest, og raupa mest. Vestfirðíngar lofa sinn brest, og ljú[g]a[ flest. Sunnlenzkir um sig tjá verst, og seðja ei gest.

Hvarfsbók frá Þorsteini Þorkelssyni á Syðra-Hvarfi í Svarfaðardal. Hdr. er í áttablaðabroti og er eign Bmfj., en ekki skrásett á prenti ennþá.

Reiddu þig upp á Norðlínginn,
það er ekki valt;
hann lofar öllu fögru
og svíkur svo alt.

Eptir sögn dr. Jóns Þorkelssonar ýngra.

**Gamalla manna máltæki[2] um[3] athöfn mannsins lífdaga.[4]**

Fyrstu tíu ár[5] stendur[6] mögur[7] fyrir móður knjám,
aðra tíu vetur aflar maður sér góss[8] og gjafar,
þriðju tíu vetur temur maður mar,
fjórðu tíu vetur gumi geði[9] safnar,
fimtu tíu vetur [heldur gumi geði,[10]
sjöttu tíu vetur [er hann þegn og þíngfari,[11]

---

[1] eða signa sig bezt. [2] orðtæki A. [3] A. [4] mannsaldrarnir Alm. Um mannsins art og eðli B. Um aldur mannsins C. [5] vetur A. [6] er C. [7] maður BC. [8] gjalds B. [9] gleði B. [10] garpur gleði heldur B. [11] Frá [ sleppir A, en lætur það, sem stendur í 7. línunni eiga hér við, það, sem stendur í 8. l. eiga við þá 7., það, sem stendur í 9. l. eiga við þá 8., það, sem stendur í 10. l. eiga við þá 9., en hefir ekkert um hvernig manni líður hina tíundu tíu vetur. C hefir aptur víxl á 6. og 7. l.

sjöundu tíu vetur er hann höldur[1] í búi,
áttundu tíu vetur er hann túnvörður og trosberi,[2]
níundu tíu vetur er hann arinhaukur[3] og eldskari,
tíundu tíu vetur er hann kararmaður og krýpur til heljar[4]
[og vefur sig í ormshala líki.[5]

Hrs. Á. M. 416, 4to, 12. bl., hönd séra Jóns Jónssonar á Melum (dó 1663). Hrs. Á. M. 193 III, 8vo, frá fyrra hluta 17. aldar = *A*. Hrs. Rasks 110, 15. bl., frá 1756 = *B*, afskript Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66. Hrs. Bmfj. 278, 8vo = *C*. Prentað dálítið breytt í Almanaki þjóðvinafélagsins 1877, bls. 39.

## Enn um aldur mannsins.[6]

[Virgilius segir að mannsaldur sé 96 ár, en ritníngin segir 70 ár og eptir það mæða og erfiði. En svo segja fróðir menn í gömlum b[ókum] og málsháttum:[7]

Fyrstu tíu vetur:[8] barn,
tuttugu ára: úngur,
þrjátíu ára: fullorðinn,
fjörutíu ára: í sínum blóma,
og þá hvorki aptur né fram,
fimtíu ára: athugaaldur,
sextugur:[9] með aldri,[10]
sjötugur:[11] færist aldur á,
áttræður:[12] fellur minnið frá,
níræður:[13] þarf staf að fá,
hundrað ára: náði guð þá.

Hrs. Á. M. 193 III, 8vo, 12—13. bl. Hrs. Á. M. 416, 4to, 12. bls. = *A*. Hrs. Bmfj. 278, 8vo = *B*.

Fyrst er hver maður ómáli, því næst leikur hann í ljóðæsku, piltúngsmaður (7 til c. 14 vetra), afiræskjandi ýngismaður og meyjarmuni (til 25), ráði og reynslu safna[n]di (til 30), þreks og þroskafullur (til 40), stendur í stað til fimtugs, frá 50—60 rýrna kraptar flestra, frá 60—70 inn geingur hann ellidyr, og þyrpast að kvillar og kveinstafir, frá 70—80 þvíngar hann þreyta, sóttir, mein og mæða, frá 80—90 örvasa aldur.

Orðabók Jóns Ólafssonar aldur. Afskript Jóns Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 66. Útgáfa Jóns virðist vera eitthvað bogin. Því sem er í svigum hefir hann eflaust bætt við sjálfur.

Sá eigi er vænn tvítugur, röskur þrítugur, vís fertugur, ríkur fimtugur, þeim mun optast verða um þetta alt.

Hrs. Á. M. 226, 8vo, með hendi Árna sjálfs.

---

[1] hollur B. [2] torfberi C. [3] örnhaukur B, arinhúkur C. [4] jarðar B. [5] bæta BC aptan við. [6] Enn aptur með öðrum hætti B. [7] Frá [ sl. A. [8] ár AB. [9] sextiu ára AB. [10] aldurdóm AB. [11] sjötiu ára AB. [12] áttatíu ára AB. [13] níutiu ára AB.

Barndómurinn líður fram í leikaraskapnum, æskan í hégómanum, karlmannsaldurinn í erfiðinu, ellin hnígur aptur til hins fyrra.

Orðabók Jóns Ólafssonar frá Grunnavík aldur.

I.

[Hrísaldur[1] þrír[2] vetur.[3]
[þrír hrísaldrar[4] í hunds aldri,
hundsaldrar þrír í hests aldri,
hestsaldrar þrír í mannsaldri,
mannsaldrar þrír í arnaraldri,
arnaraldrar þrír í elgsaldri,
elgsaldrar þrír í eikaraldri,
eikaraldrar þrír í [öld enni gömlu.[5]

Hrs. Á. M. 194, 8vo, 28. bl. Skinn frá 15. öld öndverðri. Hrs. Á. M. 67, 8vo, 83. bl., frá 17. öld = *A*. Hrs. Bmfj. 35, fol., bls. 180, Gandreið séra Jóns Daðasonar = *B*. Hrs. Bmfj. 68, 4to = *C*. Ny kgl. Saml. 67, fol. Hrs. Rasks 88a = *D*. Ark. f. nord. Fil. XII, bls. 66 eptir hdr. Gottskálks prests Jónssonar frá Glaumbæ, sem er skrifað 1554 = *E*. Almanak hins íslenzka þjóðvinafélags 1877, bls. 39.

II.

Þrír hests aldrar í einum mannsaldri,
þrír manns aldrar í einum elgsaldri,
þrír elgs aldrar í einum arnaraldri,
þrír arnar aldrar í gömlu öld.

Orðabók Jóns Ólafssonar frá Grunnavík aldur. Hrs. Sv. Grv. 66, hönd Jóns Sigurðssonar. Af þulu þessari eru þrjár útgáfur í orðabókinni, svipaðar mjög. Á einum staðnum drepur Jón á, að þrír aldrar einhvers séu taldir í krákualdri.

III.

Hrafnsaldur 900 ár.
Arnaraldur 1200 ár.

Hrs. Bmfj. 321, 8vo, skrifað af Eiríki Bjarnarsyni 1855.

IV.

Hrafnsaldur níu hundruð ár.
Arnaraldur tólf hundruð ár.
Elgsaldur fimtán hundruð ár.

Eikin er að vaxa í hundrað ár, en stendur fimm hundruð ár þar til hún fellur aptur.

Hrs. Bmfj. 317, 8vo, skrifað 1800.

---

[1] Grísaldur E. [2] tveir A. [3] Frá [ sl. BCD. [4] Grís(a)aldrar þrír BCDE. [5] gömlu öld ABCDE. D bætir þar aptan við: »sem er 532 ár«.

### Fæðíngardagar.

Sunnudagur til sigurs, mánudagur til mæðu,[1] þriðjudagur til þrifa,[2] miðvikudagur til moldar, fimtudagur til frama,[3] föstudagur til fjár, laugardagur til lukku.

Hrs. Á. M. 968, 4to. Þjóðsögusafn séra Magnúsar Grímssonar. Sbr. Þjóðs. J. Árn. II, bls. 558. Hrs. Á. M. 276, 8vo með hendi Gísla Konráðssonar = *A*.

Sextán eru bitar í Sólheimaskála,
Sextán hanar á hverjum bita,
sextán hænur hjá hverjum hana,
sextán úngar hjá hverri hænu.

Ark. f. nord. Fil. XII, bls. 64.

Eg sá fyrir landi átján báta.
en á hverjum bát átján skutla,
en á[4] hverjum skutli átján seli,
en á hverjum selnum átján leingjur,
en á hverri leingjunni átján stykki,
en á hverju stykkinu átján bita.

Hrs. J. Sig. 282, 8vo, með hendi dr. Schevíngs = *A*., afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118.

Tólf á eg úti báta,
tólf menn á hverjum báti,
tólf hefir skutla hver maður,
tólf seli hæfir hver skutill,
[í] tólf parta skiptist hver selur,
[í] tólf stykki sker eg hvern partinn.
Þá eru tveir um todda
og er þá hálftalið hyskið.

Séra Jón Daðason í Gandreið, hrs. Bmfj. 35, fol., bls. 139, afskript í hrs. Sv. Grv. 66 með hendi J. Sig. Ny kgl. Saml. 76, fol., bls. 308. Sbr. Þjóðs. J. Árn. I, bls. 165, Huld I, 1890, bls. 20, Ark. f. nord. Fil. XII, bls. 65—66.

I.

Karl kom inn á hallargólf,
hafði í hendi stafina tólf,
en[5] á hverjum stafnum kvistirnir tólf,
en á hverjum kvistinum laufin tólf,
en[5] á hverju laufinu púngarnir tólf,
en[5] í hverjum púnginum teníngarnir[6] tólf,
en[5] á hverjum teníngnum[7] augun tólf.

---

[1] minnis A. [2] þrautar A. [3] frægðar A. [4] hjá A. [5] A. [6] kornin A. [7] korninu A.

Hrs. Á. M. 193, 8vo, IV. Frá fyrra hluta 17. aldar. Hrs. Á. M. 1013, 4to, 3, með hendi Jóns Ólafssonar frá Grunnavík = *A*. Í báðum handritunum er reiknað, hve augun eru mörg og hafa talfræðíngar þessir komist að mjög ólíkri niðurstöðu. Ekki þykir þurfa að færa hér til neinar tölur, en þess má geta að við hliðina á þulunni stendur þetta í A: »stafur, grein, hrísla, kvistur, lauf, púngur, korn, agnir, augu«, og bendir það á, að þulan hafi líka verið höfð leingri, enda getur hver sem vill sett það af orðum þessum inn í hana, sem vantar. Sbr. Ark. f. nord. Fil. XII, bls. 65, Íslenzkar gátur 1887, nr. 782, Samtíníngur handa börnum eptir Jóhannes Sigfússon II. 1891, bls. 66—67.

II.

Maður [kom inn[1] á hallargólf,
hafði' í hendi stafi tólf,
en á hverjum stafnum greinarnar tólf,
en á hverri greininni kvistina tólf,
en á hverjum kvisti blöðin tólf,
en á hverju blaðinu [laufin tólf,
en á hverju laufinu smápúngana tólf,
en á hverjum smápúngnum[2] teníngana tólf,
en á hverjum teníng teníngsaugun[3] tólf.

Hrs. Bmfj. 605, 8vo, með hendi Þorsteins Þorsteinssonar frá Upsum. Hrs. J. Sig. 282, 8vo, með hendi dr. Schevíngs = *A*. Afskript Pálma Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118.

---

[1] gekk A. [2] Frá [ sl. A. [3] augun A.

## Þulukvæði.

### Húsfrú reið til tíða.

I.

Húsfrú reið til tíða,
hitti' upp og stytti' upp.
Týndi hún af sér pilsinu,
og tók það ekki upp.
Hennar bóndi eptir reið,
hann Karvínus með birkilurk.
Hann tók hennar pilsið upp
og sprángaði með svo víða,
en hún smá, smá
smellir á að ríða.

Svo er vísunni breytt þannig, að t. a. m. »hattinum« og »hattinn« eða »keyrinu« og »keyrið«, eða þá »höfðinu« og »höfuð« er sett í staðinn fyrir »pilsinu« og »pilsið«. Þannig má teygja úr kvæðinu, þángað til alt hefir verið talið upp á kvennmanni, sem nöfnum tjáir að nefna.

Eptir sögn Davíðs prófasts Guðmundssonar.

II.

Hústrú reið til tíðanna,
hitt upp og stytt upp.
týndi hún af sér hempunni,
hún tók ei upp.
Eptir reið hennar bóndinn
hann Carvínus.
Hann tók hennar hempuna upp.
og sprángaði með svo víða,
og svo smellir hún á að ríða.

Hrs. Á. M. 153 V, 8vo, nr. 46. Frá byrjun 18. aldar. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar og í sama safni 65, með hendi Sv. Grv.

III.

Frúin reið í akurgarð,
hitt upp og stytt upp,
týndi' hún af sér húfunni.
og tók ei upp.
Eptir ríður hennar bóndi Karvínus.
Hann tók hennar húfuna upp,
og sprángaði með hana víða.
Með það skellir hún á að ríða.

Svo týnir frúin af sér peysunni, beltinu, svuntunni, pilsinu, böndunum og skónum, og er vísa um hvert fyrir sig, eins og fyrsta vísan að sínu leyti. Seinast týnir frúin sokkunum:

Frúin reið í akurgarð,
hitt upp og stytt upp,
týndi' hún af sér sokkunum,
og tók ei upp.

Eptir ríður hennar bóndi Karvínus.
Hann tók hennar sokkana' upp,
og sprángaði með þá víða.
Með það skellir hún á að ríða.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Hildi Jóhannsdóttur í Vigur.

## Hann talar við frúna sína.

Eptir handriti Jakobs Sigurðssonar, sem dó í skóla 1880.

I.

1. Hann tók upp og hann tók
niður,
hann tók þá á frúinni.
Hann tók upp á hennar tá.
»Hvað heitir þetta, mín ljúfa?«
»Heitir tátoppur,[1] minn ljúfi.«
»Blessaður veri tátoppur.«
[Hann talar við frúna sína.[2]
2. Hann tók upp og hann tók niður,
hann tók þá á frúinni.
Hann tók upp á hennar rist.
»Hvað heitir þetta, mín ljúfa?«
»Heitir ristkambur, minn ljúfi.«
»Blessaður veri ristkambur,
tátoppur.«
Hann talar við frúna sína.
3. Hann tók upp og hann tók niður
o. s. frv.
Hann tók upp á hennar legg.[3]
»Hvað heitir þetta mín ljúfa?«
»Heitir pípustokkur,[4] minn ljúfi.«
»Blessaður veri pípustokkur,
ristkambur,
tátoppur.«
Hann talar við frúna sína.
4. Hann tók upp og hann tók niður
o. s frv.
Hann tók upp á hennar kné.
»Hvað heitir þetta, mín ljúfa?«
»Heitir knjápúngur, minn ljúfi.«
»Blessaður veri knjápúngur,
pípustokkur« o. s. frv.
5. Hann tók upp og hann tók niður
o. s. frv.
Hann tók upp á hennar lær.
»Hvað heitir þetta, mín ljúfa?«
»Heitir aðalstyrkur,[5] minn ljúfi.«
»Blessaður veri aðalstyrkur,
knjápúngur« o. s. frv.
6. Hann tók upp og hann tók niður
o. s. frv.
Hann tók upp á hennar daus.[6]
»Hvað heitir þetta, mín ljúfa?«
»Heitir rubbaríkur,[7] minn ljúfi.«
»Blessaður veri rubbaríkur,
aðalstyrkur« o. s. frv.
7. Hann tók upp og hann tók niður
o. s. frv.
Hann tók upp á hennar líf.[8]
»Hvað heitir þetta. mín ljúfa?«
»Heitir dúnbeður,[9] minn ljúfi.«
»Blessaður veri dúnbeður,
rubbaríkur« o. s. frv.

---

[1] tábert. [2] og tel eg fram. [3] fót. [4] pípuleggur. [5] lángleggur, lærleggur. [6] rass. [7] viðfall. setuhnakkur. rumburíkur. [8] kvið. [9] sældarbrekka.

8. Hann tók upp og hann tók niður
o. s. frv.[1]
Hann tók upp á hennar brjóst.
»Hvað heitir þetta, mín ljúfa?«
»Heitir mjólkurhús, minn ljúfi.«
»Blessað veri mjólkurhús,
dúnbeður« o. s. frv.

9. Hann tók upp og hann tók niður
o. s. frv.[2]
Hann tók upp á hennar munn.
«Hvað heitir þetta, mín ljúfa?«
»Heitir málhús, minn ljúfi.«
»Blessað veri málhús,
mjólkurhús« o. s. frv.

10. Hann tók upp og hann tók niður
o. s. frv.
Hann tók upp á hennar nef.
»Hvað heitir þetta, mín ljúfa?«
»Heitir andhús,[3] minn ljúfi.«
»Blessað veri andhús,
málhús« o. s. frv.

11. Hann tók upp og hann tók niður
o. s. frv.
Hann tók upp á hennar auga.
»Hvað heitir þetta, mín ljúfa?«
»Heitir sjónhús,[4] minn ljúfi.«
»Blessað veri sjónhús,
andhús« o. s. frv.[5]

12. Hann tók upp og hann tók niður.
Hann tók þá á frúinni.
Hann tók upp á hennar hár.[6]
»Hvað heitir þetta, mín ljúfa?«
»Heitir hárflötur,[7] minn ljúfi.«
»Blessaður veri hárflötur,
sjónhús, andhús, málhús, mjólkurhús, dúnbeður, rubbaríkur, aðalstyrkur, knjápúngur, pípustokkur, ristkambur, tátoppur.«
Hann talar við frúna sína.

## II.

Blessaður veri hárvöllur, heyrnarhús, sjónarhús, vindhús, málhús, hökustallur, burðarstallur, mjólkurhús, matarhús, sældarbrekka, setuhnakkur, lángleggur, pípuleggur, ristkambur, tábert og tel eg fram.

## III.

Benedikt heitinn Friðriksson frá Miklabæ í Óslandshlíð hefir sagt Guðmundi Davíðssyni enn annan enda á þulu þessari:

»Vel verði þínu sjóngleri, andhúsi, munnholu, hökustalli, bríngukolli, mjólkurhúsi, gullhöllu, dúnbeði, lærleggi, hnjápúngi, ristkambi, tátoppi, og að þeim fót fríða«.

## IV.

Hann tók upp og hann tók niður
svo tók hann á frúinni.
Hann tók upp á hennar il.
»Hvað er það, mín júngfrú?«[8]

[1] Hér láta sumir hann taka upp á hennar vömb (maga). Hún segir hún heiti matarhús (silkidúkur). [2] Hér láta sumir hann taka upp á hennar herðar og höku Hún nefnir það burðarstall og hökustall. [3] vindhús. [4] sjónarhús. [5] Hér láta sumir hann taka upp á hennar eyra. Hún segir það heiti heyrnarhús (heyrnhús). [6] hvirfil, enni [7] hárbaugur, hárvöllur, heilhús. [8] sæta B.

»Það kallast ilvegur,
[ljúfurinn minn ljúfi.«[1]
»Heill sé þinn ilvegur.«
Aðalstyrkur[2] á minn fót.
[Jarlinn reið á Danamót[3] o. s. frv.
Heilt sé þitt heilhús, heyrnhús,
sjónhús,[4] andhús, málhús,[5] höku-
stallur, mjólkurhús, silkidúkur,
dúnbeður,[6] rumburíkur, lærleggur,
hnjápúngur,[7] pípustokkur, rist-
kambur, tátoppur, ilvegur.
Aðalstyrkur á minn fót.
Jarlinn reið á Danmörk.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Vigdísi Jónsdóttur. Hrs. Á. M. 247, 8vo, með hendi séra Helga Sigurðssonar á Jörfa = *B.*

## Fúsintes.[8]

I.

1. [Í miðjum[9] garðinum[10] [hann axlar sín skinn[11] hann Fúsintes.[12]
Síðan gekk hann í höllina' inn fyrir [kónginn Kes.[13]
»Heilir og sælir,[14] [kóngurinn Kes,«[15] segir Fúsintes.
»Skarkala[16]konúngur sendir yður háar[17] og góðar gáfur;
hann vill yðar dóttur fá og [heita[18] mágur.
Fyrir húsfrú sér svo blíða[19] frú vill kaupa fríða.«
»Hafið þér [spurt mína drottnínguna að því, Flagikes?«[20] segir kóngurinn Kes.
»Það skal gjört, segir Fúsintes.«
2. Í miðjum garðinum hann axlar sín skinn hann Fúsintes.
Síðan gekk hann í höllina inn fyrir Flagikes.
»Heilar og sælar, Flagikes!« segir Fúsintes.
»Skarkala[16]konúngur sendi yður háar[17] og góðar gáfur.
Hann vill yðar dóttur fá og heita[18] mágur.
Fyrir húsfrú sér svo blíða frú vill kaupa fríða.«
»Hafið þér spurt [minn manninn[21] að því, kónginn Kes?« segir Flagikes.
»Það hefi' eg gjört,« segir Fúsintes.
»Hafið þér spurt [minn soninn[22] að því, Longintes?«[23]
»Það skal gjört,« segir Fúsintes.
3. Í miðjum garðinum hann axlar sín skinn hann Fúsintes.
Síðan gekk hann í höllina inn fyrir Longintes.

---

[1] ljúfur B. [2] Alstyrkur B. [3] sl. B. [4] sjónhús ljúft B. [5] málhús ljúft B. [6] hjávík ljúft (þ. e. lífið) B. [7] hnépúngur B. [8] Fontinteskvæði. [9] úti. [10] dyrum. [11] ærslast innan. [12] Pontintes, Fontintes, og þykist nú hress. [13] Kónginkes. [14] Sitjið þér heilir, Lifið þ. h. [15] Kónginkes. [16] Skagala-, Skagla-, Skafala-, Skála-, Safala. [17] fé, orð. [18] verða. [19] Frá [ sl. Arch. L. [20] Hafið þér sagt hennar móður það (móðurinni til) henni Magnhildes? [21] hennar föður minn kónginn. [22] hennar bróður. [23] Lóngintes.

»Heilir og sælir, Skagrates,« segir Fúsintes.
»Skarkalakonúngur« o. s. frv. (Eins og næst áður).
»Hafið þér spurt minn bróðurinn að því, Longintes?«
»Það hefi eg gjört,« segir Fúsintes.
»Hafið þér spurt mína systur að því, Ragnhildes?«[3]
»Það skal gjört,« segir Fúsintes.

5. Í miðjum garðinum hann axlar sín skinn hann Fúsintes.
Síðan gekk hann í höllina inn fyrir Ragnhildes.
»Heilar og sælar, Ragnhildes,« segir Fúsintes.
»Skarkalakonúngur« o. s. frv.
»Hafið þér spurt minn bróðurinn að því, Skagrates?«
»Það hefi' eg gjört,« segir Fúsintes.
»Hafið þér spurt mína systur að því, Magnhildes?[4]
»Það skal gjört,« segir Fúsintes.

6. Í miðjum garðinum hann axlar sín skinn hann Fúsintes.
Síðan gekk hann í höllina inn fyrir Magnhildes.
»Heilar og sælar,« Magnhildes,[4] segir Fúsintes.
»Skarkalakonúngur« o. s. frv.
»Hafið þér spurt mína systur að því, Ragnhildes?«
»Það hefi' eg gjört,« segir Fúsintes.
»Hafið þér spurt mína systur að því, Gunnhildes?«[5]
»Það skal gjört,« segir Fúsintes.

7. Í miðjum garðinum hann axlar sín skinn hann Fúsintes.
Síðan gekk hann í höllina inn fyrir Gunnhildes.
»Heilar og sælar, Gunnhildes,« segir Fúsintes.
»Skarkalakonúngur« o. s. frv.

»Hafið þér spurt [hana sjálfa að því,[1] Breiðunes?«[2]
»Það skal gjört,« segir Fúsintes.

8. Í miðjum garðinum hann axlar sín skinn hann Fúsintes.
Síðan gekk hann í höllina inn fyrir Breiðunes.
»Heilar og sælar Breiðunes,« segir Fúsintes.
»Skarkalakonúugur sendir yður háar og góðar gáfur,
hann vill yðar sjálfrar[3] fá og [heita mágur.[4]
Fyrir húsfrá sér svo blíða frú vill kaupa fríða.
»Hafið þér spurt minn föðurinn að því, kónginn Kes?« segir Breiðunes.
»Það hefi' eg gjört«, segir Fúsintes.
»Hafið þér spurt mína móður að því, Flagikes?«
»Það hefi' eg gjört,« segir Fúsintes.
»Hafið þér spurt minn bróðurinn að því, Longintes?«
»Það hefi' eg gjört,« segir Fúsintes.
»Hafið þér spurt minn bróðurinn að því, Skagrates?«
»Það hefi' eg gjört,« segir Fúsintes.
»Hafið þér spurt mína systur að því, Ragnhildes?«
»Það hefi' eg gjört,« segir Fúsintes.
»Hafið þér spurt mína systur að því, Magnhildes?«
»Það hefi' eg gjört,« segir Fúsintes.
»Hafið þér spurt mína systur að því, Gunnhildes?«
»Það hefi' eg gjört,« segir Fúsintes.
Já. já. Þá skal taka gángvarann grá, [leggja gullsöðul á.[5]
[Fyrst skal ríða[6] kóngurinn Kes, Flagikes, Longintes, Skagrates, Ragnhildes, Magnhildes, Gunnhildes, Breiðunes, kúturinn lági, kúturinn hái, kúturinn víði, kúturinn síði, kúturinn nipt,[7] kúturinn dript,[8] kúturinn lángi, kúturinn strángi, kúturinn blá, kúturinn grá, og Fúsintes aptan á.

Hrs. Bmfj. 89, 8. Frá séra Jóni Ýngvaldssyni, og er kallað þar »Fornkvæði«. Kvæðið er þar að mestu leyti eins og hér, en seinast segir þar, að sumir telji bræðurna þrjá og systurnar þrjár og sleppi þá Gunnhildes. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. P. Sama hdr., Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Ágústínu Eyjólfsdóttur á Stað í Aðalvík. Handr. frá Boga Melsteð, cand. mag., og enn eitt frá Jóhanni Péturssyni frá Hákoti. Fúsinteskvæði hefir verið til í byrjun 18. aldar, því Árni Magnússon skrifar í Á. M. 153 V, 8vo, 7. bl., nr. 14: »Fontinteskvæði hefir Grímur.«

II.

Kúturinn nipt, Bramlalútur, baggalútur, allemand og átvagl og alt fauk aptur af rófunni.

Bogi Melsteð. Hann lætur brúðina heita Ragnhildes, og sleppir öllum systrunum og svo öðrum bróðurnum Skagrates.

---

[1] mína systur. [2] Breiðanes. [3] sjálfa. [4] verða maður. [5] og leggja forgyltan söðulinn á, og setja gullbúinn söðulinn þar upp á. [6] þar sté upp á. [7] vigt. [8] digt.

III.

Kúturinn nipt, Skagalakútur, Brimlarabútur, alı alt aptur af rófu.

Jóhann Pétursson.

IV.

Þar sté upp á kóngi Kes, Magnhildes, Lángintes, kúturinn Nipt, kúturinn Tipt, kjallarakútur, braumł kyrnan víða og kyrnan síða. Kát skulum við ríða.

Arch. P. Hér er drottníngin látin heita Magnhildes Bróðir brúðarinnar er hér aðeins einn, Lángintes, en syst

V.

Þá er að taka kapalinn grá og setja þar upp á s

Þar settist upp á kóngurinn Kes, Gunnhildes, (d (bróðir), Ragnhildes, (systir), Matthildes, (brúðurin)

Arch. L.

## Hríngill Kríngill.

Eptir handriti Guðmundar Davíðssonar.

1. Út kom Busi bóndi,
setti[1] hönd fyrir auga,
og hljóðaði svo:
»Hver er sá hrókur,
sem á hestinum situr?«
»Eg heiti Hríngill,
Kríngill,
vinnukonufrændi,
kominn að biðja Bjargar
Birtiltoppu,[2] döttur þinnar.
»Viltu gefa mér jáorð til.«
»Eg vil ef [Halla kona vill.«[3]

2. Út kom Halla kona,
setti hönd fyrir auga,
og hljóðaði svo:
»Hver sá hrókur,
sem á hestinum situr?« o. s. frv.
(eins og áður).

»Eg vil ef
»Nú vill l
»Eg vil e

3. Út kom vi
setti hönd
og hljóðað
»vinu« st
»dóttur«.
»Eg vil ef
»Nú vill l
»Eg vil ef
»Nú vill l
»Eg vil ef

4. Út kom E
setti hönd
og hljóðað
hér er sag

---

[1] helt. [2] Bittiltoppu. [3] húsfreyja Hellubrella

»Eg er komin að biðja þín,
viltu gefa mér jáorð til?«
»Eg vil ef Busi bóndi vill« o. s. frv.
»Eg vil ef vinnukonan vill.«
»Nú vill vinnukona.«
»Eg vil ef Gunnar götutrítill,[1] bróðir minn vill.«
5. Út kom Gunnar götutrítill,
setti hönd fyrir auga,
og hljóðaði svo: o. s. frv. nema »systur« stendur í staðinn fyrir »dóttur«.
»Eg vil ef Busi bóndi vill.«
»Nú vill Busi bóndi« o. s. frv.
»Eg vil ef Þorsteinn kvíaskítur, bróðir minn vill.«
6. Út kom Þorsteinn kvíaskítur,
setti hönd fyrir auga,
og hljóðaði svo:
»Hver er sá hrókur,
sem á hestinum situr?«
Eg heiti Hríngill,
Kríngill,
vinnukonufrændi,
kominn að biðja Bjargar
Birtiltoppu, systur þinnar.
Viltu gefa mér jáorð til?
»Eg vil gefa ef Busi bóndi vill.«
»Nú vill Busi bóndi.«
»Eg vil ef Halla kona vill.«
»Nú vill Halla kona.«
»Eg vil ef vinnukonan vill.«
»Nú vill vinnukona.«
»Eg vil ef Björg Birtiltoppa systir mín vill.«
»Nú vill Björg Birtiltoppa.«
»Eg vil ef Gunnar götutrítill bróðir minn vill.«
»Og þá vil eg.«

I.

1. Eg sá þann mann, sem fleskið bar.
Eg sá þann hund, sem manninn beit,
sem fleskið bar.
2. Eg sá þann kepp, sem hundinn sló,
sem manninn beit,
sem fleskið bar.
3. Eg sá þá öxi, sem keppinn hjó,
sem hundinn sló,
sem manninn beit o. s. frv.
4. Eg sá það brýni, sem öxina brýndi,
sem hundinn hjó,
sem manninn beit o. s. frv.[2]
5. Eg sá það berg, sem brýnið [lá á,[3]
sem [öxina brýndi,[4]
sem hundinn hjó o. s. frv.[5]
6. Eg sá það vatn, sem [úr berginu spratt,[6]
sem brýnið lá á,
sem öxina brýndi o. s. frv.
7. Eg sá [þann uxa,[7] sem úr vatninu drakk,
sem úr berginu spratt,
sem brýnið lá á o. s. frv.
8. Eg sá þann mann,[8] sem uxanum stal,
sem úr vatninu drakk,
sem úr berginu spratt o. s. frv.

---

[1] Götuskítur. [2] 4. er. vantar í B. [3] af var A. [4] bergið í stóð A. [5] 5. er. vantar í B. [6] sem sú öxi sökk í B. [7] það naut A. [8] þjóf AB.

9. Eg sá þann gálga, sem maðurinn[1] hekk,
sem uxanum stal,
sem úr vatninu drakk o. s. frv.

10. Eg sá það blóð, sem úr manninum[2] rann,
[sem í gálganum[3] hekk,
sem uxanum stal o. s. frv.[4]

11. Eg sá [þann hana,[5] sem [úr blóðinu varð,[6]
sem úr manninum[2] rann,
[sem í gálganum[3] hekk o. s. frv.[7]

12. Eg sá þá fjöður, sem úr hananum flaug,
sem úr blóðinu varð,
sem úr manninum rann o. s. frv.

13. Eg sá það vatn, sem úr fjöðrinni varð,
sem úr hananum flaug,
sem úr blóðinu varð o. s. frv.

14. Eg sá þá borg, sem við vatnið stóð,
sem úr fjöðrinni varð,
sem úr hananum flaug o. s. frv.

15. Eg sá þann kóng, sem í borginni bjó,
sem við vatnið stóð,
sem úr fjöðrinni varð o. s. frv.

16. Eg sá það sverð, sem kónginn hjó,
sem í borginni bjó,
sem við vatnið stóð o. s. frv.

17. Eg sá það bál, sem brendi það sverð,
sem kónginn hjó,
sem í borginni bjó,
sem við vatnið stóð,
sem úr fjöðrinni varð,
sem úr hananum flaug,
sem úr blóðinu varð,
sem úr manninum rann,
sem í gálganum hekk,
sem uxanum stal,
sem úr vatninu drakk,
sem úr berginu spratt,
sem brýnið lá á,
sem öxina brýndi,
sem hundinn hjó,
sem manninn beit,
sem fleskið bar.

Tekið eptir minni. Jón Sigurðsson í hrs. Sv. Grv. 66, eptir Þorvaldi lækni Jónssyni 1860 = *A*. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Margréti Magnúsdóttur, prestskonu á Snæfjöllum = *B*.

II.

Svo vissi' eg þann guð,
sem skapaði þann kóng,
sem biskup sá krýndi,
sem vígði þann prest,

[1] þjófurinn AB. [2] gálganum A. [3] þar þjófurinn B. [4] 10. er. vantar í B. [5] þá jurt A, þau grös B. [6] spratt A. Frá [ undir gálganum voru B. [7] Hér endar A, og það, sem eptir er. er alt öðruvísi í B. Þar sker hnífur grösin, brýni brýnir hnífinn, kaupmaður selur brýnið, prestur skírir kaupmanninn, biskup vígir prestinn og krýnir kóng:

Eg sá þann kóng,
sem biskup sá krýndi,
sem vígði þann prest o. s. frv.

og guð skapaði kónginn. Eg færi til niðurlagsromsuna eptir B, og er hægt að laga kvæðið eptir henni ef vill.

sem skírði þann kaupmann,
sem seldi það brýni,
sem brýndi þann hníf,
sem skar þau grös,
sem undir gálganum vóru,
þar þjófurinn hekk,
sem stal þeim uxa,
sem drakk það vatn,
sem sú öxi sökk í,
sem hjó þann kepp,
sem sló þann hund,
sem beit þann mann,
sem fleskið bar.
*B.*

## Brúsaskeggur.

I.

Einu sinni voru hjón á bæ. Bóndinn hét Brúsaskeggur,[1] en ekki er getið um nafn kerlíngar. Bóndi átti naut[2] og ætlaði hann einu sinni að slátra því. Hjónin leggja nú af stað með nautið, en þegar þau koma þángað sem þau ætluðu að drepa nautið, vantar þau sleggju til að rota það með. Karl sendir nú kerlíngu til at útvega sleggju, og segist skuli halda í nautið á meðan. Kerlíng arkar af stað og geingur leingi leingi, þángað til hún hittir járnsmið. Kerlíng heilsar honum og segir við hann:

»Járnsmiður mér sleggju;
stendur í brekku Brúsaskeggur
og bíður mín þar.«

Járnsmiðurinn sagðist skyldi ljá henni sleggju, ef hún útvegaði sér kol. Kerlíng geingur nú leingi leingi, þángað til hún hittir mann, sem er að brenna kol. Kerlíng heilsar honum og segir:

»Kolamaður mér kol.
Eg kol járnsmið.
Járnsmiður mér sleggju;
stendur í brekku Brúsaskeggur
og bíður mín þar.«

Hann kveðst mundi gjöra það, ef kerlíng útvegaði sér arnarfjöður. Kerlíng geingur nú leingi leingi, þángað til hún hittir örn á háum kletti. Hún yrðir á hana og segir:

»Örn mér fjöður.
Eg fjöður kolamanni.
Kolamaður mér kol« o. s. frv.

Örnin kvaðst mundi láta hana fá fjöður, ef hún útvegaði sér hvolp. Kerlíng geingur nú leingi leingi, þángað til hún hittir tík, sem liggur á hvolpum. Kerlíng yrðir á hana og segir:

---

[1] Brúsanskeggur. [2] sumir segja, að það hafi verið átta vetra gamalt.

»Tík mér hvolp.
Eg hvolp örn.
Örn mér fjöður« o. s. frv.

Hún kvaðst mundi gjöra það, ef kerlíng útvegaði sér rjómatrog.[1] Kerlíng geingur nú leingi leingi, þángað til hún hittir konu, sem er að renna trogum. Hún heilsar henni og segir:

»Kona mér trog.
Eg trog tík.
Tík mér hvolp« o. s. frv.

Konan lofaði henni mjólkurtrogi, ef hún útvegaði sér selskinnsskæði.[2] Kerlíng geingur nú leingi leingi, þángað til hún hittir sel, sem liggur uppi' á steini. Kerlíng yrðir á hann og segir:

»Selur mér skæði.
Eg skæði konu.
Kona mér trog.
Eg trog tík.
Tík mér hvolp.
Eg hvolp örn.
Örn mér fjöður.
Eg fjöður kolamanni.
Kolamaður mér kol.
Eg kol járnsmið.
Járnsmiður mér sleggju;
stendur í brekku Brúsaskeggur
og bíður mín þar.

Selurinn kvað henni þau heimil, ef hún gæti náð þeim af sér, án þess hann fyndi til. Það gjörði kerlíng.

Konan fekk skæðin.
Tíkin trogið.
Örnin hvolpinn.
Kolamaður fjöðrina.
Járnsmiður kolin,
og kerlíng öxina.

En þegar hún kom í brekkuna þar sem Brúsaskeggur beið, sá hún þar eingin vegsummerki nema tvær mosahrúgur. Brúsaskeggur og nautið voru þá bæði orðin að mosa. Svo lángt var síðan kerlíng hafði lagt af stað; tók hún það nú til bragðs að leggjast útaf í brekkunni, því þreytt var hún orðin, og varð hún þá jafnskjótt að þriðju mosahrúgunni.

Eptir sögn Árna prófasts Jónssonar að Skútustöðum.

II.

Heyjamaður mér hey.
Eg hey mjólkurkú.
Mjólkurkýr mér mjólk.
Eg mjólk hvolpatík.
Hvolpatík mér hvolp o. s. frv.

III.

Krummi sat hjá brunni,
helt á skeljabroti í munni.
Sjór gef mér sel.
Eg sel húsfreyju.
Húsfreyja mér rjómatrog o. s. frv.

---

[1] Mjólk úr þrílitri kú. [2] Hey hjá heyjamanni.

IV.

Kom eg að Eyri.
Kæpa[1] gaf mér skæði.
Eg skæði húsfreyju o. s. frv.
Eg kol gullsmið.
Gullsmiður mér gull.
Eg gull barsmiði.
Barsmiður mér sleggju.
Stendur í brekku Brúsaskeggur
og bíður mín þar.

V.

Það var eitt sinn karl, sem átti að slátra nauti. Hann leiddi það í brekku og batt það við stein á meðan hann sótti sleggju til gullsmiðs að rota það með. Hann sagði til gullsmiðsins:

Gullsmiður minn,
ljáðu mér sleggju;
stendur í brekku Brúsaskeggur
og bíður mín þar.«

»Ekki gjöri' eg það,« sagði gullsmiður, »nema þú sækir mér kol til kolamanns.«

»Kolamaður minn,
gefðu mér kol.
Eg kol gullsmið.
Gullsmiður mér sleggju« o. s. frv.

»Ekki gjöri eg það,« sagði kolamaður, »nema þú sækir mér epli til eikarinnar.«

»Eik mín,
gefðu mér epli.
Eg epli kolamanni.
Kolamaður mér kol.
Eg kol gullsmið« o. s. frv.

»Ekki gjöri' eg það,« sagði eikin, »nema þú sækir mér fjöður til arnar.«

»Örn mín,
gefðu mér fjöður.
Eg fjöður eik.
Eik mér epli.
Eg epli kolamanni« o. s. frv.

»Ekki gjöri eg það,« sagði örn, »nema þú sækir mér hvolp til hvolpatíkur.«

»Hvolpatík mín,
gefðu mér hvolp.
Eg hvolp örn.
Örn mér fjöður.
Eg fjöður eik« o. s. frv.

»Ekki gjöri' eg það,« sagði hvolpatík, »nema þú sækir mér mjólksopa til kýrinnar.«

»Kýr mín,
gefðu mér mjólksopa.
Eg mjólksopa hvolpatík.
Hvolpatík mér hvolp.
Eg hvolp örn« o. s. frv.

»Ekki gjöri eg það,« sagði kýrin, »nema þú sækir mér heytuggu til bónda.«

[1] selur.

»Bóndi minn,
gefðu mér heytuggu.
Eg heytuggu kú.
Kýr mér mjólksopa.
Eg mjólksopa hvolpatík« o. s. frv.

»Ekki gjöri eg það,« sagði bóndi, »nema þú sækir mér rjómatrog til húsfreyju.«

»Húsfreyja mín,
gefðu mér rjómatrog.
Eg rjómatrog bónda.
Bóndi mér heytuggu.
Eg heytuggu kú« o. s. frv.

»Ekki gjöri' eg það,« sagði húsfreyja, »nema þú sækir mér sel í sjóinn.«

»Sjór minn,
gefðu mér sel.
Eg sel húsfreyju.
Húsfreyja mér rjómatrog.
Eg rjómatrog bónda.
Bóndi mér heytuggu.
Eg heytuggu kú.
Kýr mér mjólksopa.
Eg mjólksopa hvolpatík.
Hvolpatík mér hvolp.
Eg hvolp örn.
Örn mér fjöður.
Eg fjöður eik.
Eik mér epli.
Eg epli kolamanni.
Kolamaðr mér kol.
Eg kol gullsmið.
Gullsmiður mér sleggju;
stendur í brekku Brúsaskeggur
og bíður mín þar.

»Ekki gjöri' eg það,« sagði sjórinn, »nema þú gefir mér þig,« þá fór hann í sjóinn.

Hrs. Sv. Grv. 66. Blað frá Sigurði Guðmundssyni málara, úr Skagafirði 1854.

VI.

Þetta er ort um Brúsaskegg heitinn:

Í brekku þóttist Brúsaskeggur bíða' of leingi,
líkaði' eigi lands við meingi
loks þó sleggju væna feingi.

## Karlinn í bergi.

1. Nú [er að ræða'[1] um karlinn,
karlinn sem í bergi[2] bjó,
pottinn braut, eldinn sló,
timbrið hjó,
([tálið smó,
hrísið[3] dró.
Vantar mig á fótinn skó,
[þó skal eg gefa þér grösin Gró[4]
[Sá var smiður,[5] sem tágarhúsið tilbjó.

2. Nú [er að ræða[1] um kerlínguna sem karlinn átti,
karlinn, sem í bergi bjó,
pottinn braut, eldinn sló o. s. frv.[6]

[1] skal kveða B. [2] Björgholti [3] stálið. [4] hann skal eg fá þá grösin gr. Frá ( vantar í B. [5] það var maður B. [6] 2. er. vantar í B.

3. Nú er að ræða um kapalinn,
sem kerlíngin átti,
kerlíngin, sem karlinn átti,
karlinn sem í bergi bjó o. s. frv.
4. Nú er að ræða um folaldið, sem
kapallinn átti,
kapallinn, sem kerlíngin átti,
kerlíngin, sem karlinn átti o. s. frv.
5. Nú er ræða um hundinn þann,
sem folaldið beit,
folaldið, sem kapallinn átti,
kapallinn, sem kerlíngin átti o.s.frv.
6. Nú er að ræða um vöndinn[1]
þann, sem hundinn hýddi,[2]
hundinn þann, sem folaldið beit,
folaldið, sem kapallinn átti o. s. frv.
7. Nú er að ræða um eldinn þann,
sem vöndinn brendi,
vöndinn þann, sem hundinn
hýddi,
hundinn þann, sem folaldið beit
o. s. frv.
8. Nú er að ræða um vatnið það,
sem eldinn slökti,
eldinn þann, sem vöndinn brendi,
vöndinn þann, sem hundinn hýddi,
hundinn þann, sem folaldið beit,
folaldið, sem kapallinn átti,
kapallinn, sem kerlíngin átti,
kerlíngin, sem karlinn átti,
karlinn, sem í bergi bjó,
pottinn braut, eldinn sló,
timbrið hjó,
tálið smó,
hrísið dró.
Vantar mig á fótinn skó,
þó skal eg gefa þér grösin Gró.
Sá var smiður, sem tágarhúsið
tilbjó.

Eptir sögn Árna prófasts Jónssonar á Skútustöðum. Viðkvæðið í hrs. Bmfj. 605, 8vo, með hendi Þorsteins Þorsteinssonar á Upsum. Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar = *B*.

II.

[Við skulum tala um steininn,[3]
[steininn þann,[4] sem brýnið braut,
brýnið það, sem öxina brýndi,
öxina þá, sem klafann hjó,
klafann þann, sem kúna kyrkti,
kúna þá, sem vatnið drakk,
vatnið það, sem eldinn slökti o. s. frv.

Þulan hefir því verið leingri eptir þessari útgáfu. Samskonar viðbót er í hrs. Sv. Grv. 67, Arch. E[2].

III.

Útgáfa Jóns Sigurðssonar er líka nokkru leingri en I, því hann lætur kú drekka vatnið, klafa heingja kúna, og öxi höggva klafann. Útgáfa þessi endar því svona:

Nú skal kveða um öxina þá, sem
klafann hjó,
klafann þann, sem kúna heingdi,
kúna þá, sem vatnið drakk,
vatnið það, sem eldinn slökti o. s. frv.

---

[1] sópinn. [2] fleingdi. [3] Nú er segja af steininum. [4] steininum þeim.

## Fúin-Trana.

I.

1. Fúin-Trana fann fjögur þorskhöfuð undir einum malarbakka,
og skyldi sjóða ef eldur væri.
2. Fúin-Trana fór þángað, sem eldakona var.
»Eldakona mín, gefðu mér eld!«
»Hvað hefir Fúin-Trana með eld að gjöra?«
»Fúin-Trana fann fjögur þorskhöfuð undir einum malarbakka,
og skyldi sjóða ef eldur væri.«
»Gefðu mér þá tað,« segir eldakona.
3. Fúin-Trana fór þángað, sem fjármaður var.
»Fjármaður minn góður, gefðu mér nú tað!«
»Hvað hefir Fúin-Trana með tað að gjöra?«
»Tað gef eg eldakonu.
Eldakona mun mér eld gefa,
því Fúin-Trana fann« o. s. frv.
»Gefðu mér þá hvolp,« segir fjármaður.
4. Fúin-Trana fór þángað, sem tík var.
»Tíkin mín góð, gefðu mér nú hvolp.«
»Hvað hefir Fúin-Trana með hvolp að gjöra?«
»Hvolp gef eg fjármanni.
Fjármaður mun mér tað gefa.
Tað gef eg eldakonu« o. s. frv.
»Gefðu mér þá mjólk,« segir tíkin.
5. Fúin-Trana fór þángað, sem kýr var.
»Kýrin mín góð, gefðu mér nú mjólk.«
»Hvað hefir Fúin-Trana með mjólk að gjöra?«
»Mjólk gef eg tík.
Tík mun mér hvolp gefa.
Hvolp gef eg fjármanni« o. s. frv.
»Gefðu mér þá hey,« segir kýrin.
6. Fúin-Trana fór þángað, sem sláttumaður var.
»Sláttumaður minn góður, gefðu mér nú hey.«
»Hvað hefir Fúin-Trana með hey að gjöra?«
»Hey gef eg kú.
Kýr mun mér mjólk gefa.
Mjólk gef eg tík« o. s. frv.
»Gefðu mér þá ljá,« segir sláttumaður.
7. Fúin-Trana fór þángað, sem smiður var.
»Smiður minn góður, gefðu mér nú ljá.«
»Hvað hefir Fúin-Trana með ljá að gjöra?«

»Ljá gef eg sláttumanni.
Sláttumaður mun mér hey gefa.
Hey gef eg kú« o. s. frv.
»Gefðu mér þá kol,« segir smiðurinn.
8. Fúin-Trana fór þángað, sem kolamaður var.
»Kolamaður minn góður, gefðu mér nú kol.«
»Hvað hefir Fúin-Trana með kol að gjöra?«
»Kol gef eg smið.
Smiður mun mér ljá gefa.
Ljá gef eg sláttumanni« o. s. frv.
»Gefðu mér þá fjöður,« segir kolamaður.
9. Fúin-Trana fór þángað, sem örn var.
»Örnin mín góð, gefðu mér nú fjöður«.
»Hvað hefir Fúin-Trana með fjöður að gjöra?«
»Fjöður gef eg kolamanni.
Kolamaður mun mér kol gefa.
Kol gef eg smið,« o. s. frv.
»Gefðu mér þá hval,« segir örnin.
10. Fúin-Trana fór þángað, sem hvalur var.
»Hvalur minn góður. gefðu mér nú hval«.
»Hvað hefir Fúin-Trana með hval að gjöra?«
»Hval gef eg örn.
Örn mun mér fjöður gefa.
Fjöður gef eg kolamanni.
Kolamaður mun mér kol gefa.
Kol gef eg smið.
Smiður mun mér ljá gefa.
Ljá gef eg sláttumanni.
Sláttumaður mun mér hey gefa.
Hey gef eg kú.
Kýr mun mér mjólk gefa.
Mjólk gef eg tík.
Tík mun mér hvolp gefa.
Hvolp gef eg fjármanni.
Fjármaður mun mér tað gefa.
Tað gef eg eldakonu.
Eldakona mun mér eld gefa,
því Fúin-Trana fann fjögur þorskhöfuð undir einum malarbakka,
og skyldi sjóða ef eldur væri.
Hvalurinn sagði: komdu þá. og gleypti hana.

Hrs. Bmfj. 605, 8vo. Þorsteinn Þorsteinsson á Upsum, eptir sögn Eiríks Pálssonar.

II.

Frúin Trana sótti eld.
»Heill og sæll karl minn!
Eg ætla' að biðja þig að gefa mér eld.«
»Ekki færðu eldinn nema þú sækir fjöður til arnarinnar.«
Þá kom hún þar sem örnin var.
»Heil og sæl örn mín!
Eg ætla að biðja þig að gefa mér fjöður.«
»Ekki færðu fjöðrina, nema þú sækir mjólk kýrinnar« o. s. frv.

Kýrin vill fá hey frá sláttumanni, sláttumaður vill fá ljá frá smiðnum smiðurinn vill fá kol frá kolamanni, kolamaður vill fá skó frá skóara, skóar vill fá mak frá reyðinni (reyðarhval). Hún spyr frúna Trönu:

»Hvað skalt þú með mak?«[1]
»Mak skal eg skóara gefa.«
Skóari skal mér skó gefa.
Skó skal eg kolamanni gefa.
Kolamaður skal mér kol gefa.
Kol skal eg smið gefa.
Smiður skal mér ljá gefa.
Ljá skal eg sláttumanni gefa.
Sláttumaður skal mér hey gefa.
Hey skal eg kú gefa.
Kýr skal mér mjólk gefa.
Mjólk skal eg örn gefa.
Örn skal mér fjöður gefa.
Fjöður skal eg karli gefa
Karl skal mér eld gefa.«

III.

Sumir láta örnina biðja um hvolp frá tíkinni, tíkin vildi fá mjólk frá kúnni o. s. frv. Smiðurinn vildi fá járn frá kaupmanninum, kaupmaðurinn vildi fá hval frá hvalnum. Hvalurinn spurði:

»Hvað skalt þú með hval?»
»Hval skal jeg kaupmanni gefa.
Kaupmaður skal mér járn gefa.
Járn skal eg smið gefa o. s. frv.
Mjólk skal eg tík gefa.
Tík skal mér hvolp gefa.
Hvolp skal eg össu gefa.
Assa skal mér fjöður gefa« o. s. frv.

## Titlíngurinn og karlinn.

I.

Eptir því sem eg heyrði úngur í Eyjafirði.

1. Karl sat við stokk sinn,
var að berja fisk sinn.

[1] Hvað? Viltu makið?

Þá kom til hans titlíngur.
Karl hjó af honum nefið,[1]
sagði honum að fara til kerlíngar
og biðja um rauðan spotta um nef sitt.
2. Titlíngur fór til kerlíngar
og bað um rauðan spotta.
»Ekki gjöri' eg það,« segir kerlíngin.
»Eg skal láta melinn eta vef þinn,« segir titlíngur.
»Ekki gjörir melur það,« segir kerlíngin.
3. Titlíngur fór þángað sem melur var,
og bað hann eta vefinn.
»Ekki gjöri' eg það,« segir melurinn.
»Eg skal láta músina bíta[2] þig,« segir titlíngur.
»Ekki gjörir músin það,« segir melurinn.
4. Titlíngur fór þángað sem músin var,
og bað hana' að bíta melinn.
»Ekki gjöri' eg það,« segir músin.
»Eg skal láta köttinn eta[3] þig,« segir titlíngur.
»Ekki gjörir köttur það,« segir músin.
5. Titlíngur fór þángað sem köttur var,
og bað hann að eta músina.
»Ekki gjöri' eg það,« segir kötturinn.
»Eg skal láta hundinn rífa þig,« segir titlíngur
»Ekki gjörir hundur það,« segir kötturinn.
6. Titlíngur fór þángað, sem hundur var,
og bað hann að rífa köttinn.
»Ekki gjöri' eg það,« segir hundurinn.
»Eg skal láta vöndinn flengja[4] þig,« segir titlíngur.
»Ekki gjörir vöndur það,« segir hundurinn.
7. Titlíngur fór þángað,« sem vöndurinn var,
og bað hann að hýða hundinn.
»Ekki gjöri' eg það,« segir vöndurinn.
»Eg skal láta eldinn brenna þig,« segir titlíngur.
»Ekki gjörir eldur það,« segir vöndurinn.
8. Titlíngur fór þángað, sem eldur var,
og bað hann að brenna vöndinn.
»Ekki gjöri' eg það,« segir eldurinn.
»Eg skal láta vatnið slökkva[5] þig,« segir titlíngur.
»Ekki gjörir vatnið það,« segir eldurinn.

---

[1] hálft nefið. [2] eta. [3] rífa. [4] hýða. [5] kæfa.

9. Titlíngur fór þángað, sem vatnið var,
og bað það að slökkva eldinn.
»Ekki gjöri' eg það,« segir vatnið.
»Eg skal láta kúna svelgja þig,« segir titlíngur.
»Ekki gjörir kýrin það,« segir vatnið.
10. Titlíngur fór þángað, sem kýrin var,
og bað hana' að svelgja vatnið.
»Ekki gjöri' eg það,« segir kýrin.
»Eg skal láta klafann kyrkja þig,« segir titlíngur.
»Ekki gjörir klafi það,« segir kýrin.
11. Titlíngur fór þángað sem klafi var,
og bað hann að kyrkja kúna.
»Eg skal gjöra það,« segir klafinn.
Klafinn kyrkti kúna.
Kýrin svelgdi vatnið.
Vatnið slökti eldinn.
Eldurinn brendi vöndinn.
Vöndurinn hýddi hundinn.
Hundurinn reif köttinn.
Kötturinn át músina.
Músin beit melinn.
Melurinn át vefinn
og titlíngur fekk rauðan þráðarspotta um nef sitt.

Prentað hér um bil eins í Samtíníng handa börnum eptir Jóhannes Sigfússon I. 1890, bls. 51—54. Hrs. J. Sig. 282, 8vo, með hendi séra Jóns Norðmanns. Afskript Pálma Pálssonar í Hrs. Sv. Grv. 118.

II.

Í annari útgáfu segir að karl hafi farið út á skóg, að höggva við. Þá hafi komið titlíngur undan hríslu. Karl hafi höggvið af honum nefið og vísað honum svo til kerlíngar. Þessari útgáfu ber saman við I lengi vel. en klafinn vill þó ekki kyrkja kúna. Karl hótaði honum að hann skyldi láta öxina höggva hann. Öxin lét til leiðast: »Það verð eg að gjöra. fyrst eg hjó af þér nefið,« sagði hún. Endaromsan byrjar því svona:

Öxin hjó klafann,
klafinn kyrkti kúna o. s. frv.

III.

»Kerlíng mín gefðu mér
þráðarkorn um nefið.«
Karl hjó af mér nefið.
»Ekki gjöri eg það,« segir kerlíngin.
»Músin skal þá narta ofan vefinn þinn,« segir titlíngurinn.

Hann kom þar sem músin var.
»Mús mín, nartaðu vefinn kerlíngar.
Kerlíng vill ekki gefa mér
þráðarkorn um nefið,
en karl hjó af mér nefið.«
»Ekki gjöri eg það,« segir músin.
»Kötturinn skal þá eta þig,« segir titlíngurinn.

Þessi útg. er annars mjög lík IV. Þó fer titlíngurinn hér til klafans og biður hann að kyrkja bola. Klafinn vill ekki. Titlíngurinn hótar að hann skuli láta öxina höggva hann og fer til axarinnar. Öxin vill ekki. Titlíngurinn hótar að hann skuli láta smiðinn deingja hana.

Hann kom þar sem smiður var.
»Smiður minn, deingdu öxi.
Öxi vill ekki höggva klafa.
Klafi vill ekki kyrkja bola.
Boli vill ekki drekka vatn« o. s. frv.
»Eg skal gjöra það,« segir smiðurinn.
Smiður deingdi öxi.
Öxi hjó klafa.
Klafi kyrkti bola.
Boli drakk vatn o. s. frv.
Mús nartaði ofan vefinn kerlíngar.
Kerlíng gaf mér þráðarkorn um nefið,
og nú er gróið nefið.

Hrs. Sv. Grv. 66. Hönd Jóns Sigurðssonar.

IV.

1. Karl skar kú sína. Þá kom fugl og kroppaði í ketið, en karl þreif öxi og hjó nefið af fuglinum. Kerlíng karls var að vefa rauðan vef og bað fuglinn hana að gefa sér rauðan spotta um nefið.

»Ekki gjöri' eg það,« segir kerlíng.
»Bíddu, bíddu. Hér skal koma hefnd«.

2. »Mús mín, rífðu vef kerlíngar.
Kerlíng vill ekki gefa mér rauðan spotta um nefið.
Karl hjó af mér nefið«.
»Ekki gjöri' eg það,« segir músin.
»Bíddu, bíddu« o. s. frv.

3. »Köttur minn, ettu[1] mús.
Mús vill ekki rífa[2] vef kerlíngar,
kerlíng vill ekki gefa mér [rauðan spotta[3] um nefið.
»Karl hjó af mér nefið«.
»Ekki gjöri' eg það,« segir kötturinn.
»Bíddu, bíddu« o. s. frv.

4. »Hundur minn, bíttu[4] kött.
Köttur vill ekki eta mús.

---

[1] bíttu, 66. [2] narta ofan, 66. [3] þráðarkorn, 66. [4] rífðu, 67.

Mús vill ekki rífa vef kerlingar« o. s. frv.
»Ekki gjöri' eg það,« segir hundurinn.
»Bíddu, bíddu« o. s. fr.
5. »Vöndur minn, fleingdu[1] hund.
Hundur vill ekki bíta kött.
Köttur vill ekki eta mús« o. s. frv.
»Ekki gjöri' eg það,« segir vöndurinn.
»Bíddu, bíddu« o. s. frv.
6. »Eldur minn, brendu vönd.
Vöndur vill ekki fleingja hund.
Hundur vill ekki rífa kött« o. s. frv.
»Ekki gjöri' eg það,« segir eldurinn.
»Bíddu, bíddu« o. s. frv.
7. »Vatn mitt, slöktu eld.
Eldur vill ekki brenna vönd.
Vöndur vill ekki fleingja hund« o. s. frv.
»Ekki gjöri' eg það,« segir vatnið.
»Bíddu, bíddu« o. s. frv.
8. »[Kýr mín,[2] drektu vatn.
Vatn vill ekki slökkva eld.
Eldur vill ekki brenna vönd« o. s. frv.
»Ekki gjöri' eg það,« segir kýrin.
»Bíddu, bíddu« o. s. frv.
9. »Hnífur minn, stiktu kú.
Kýr vill ekki drekka vatn.
Vatn vill ekki brenna vönd« o. s. frv.
»Ekki gjöri' eg það,« segir hnífurinn.
»Bíddu, bíddu,« o. s. frv.
10. »Brýni mitt, brýndu hníf.
Hnífur vill ekki stínga kú.
Kýr vill ekki drekka vatn« o. s. frv.
»Ekki gjöri' eg það,« segir brýnið.
»Bíddu, bíddu,« o. s. frv.
11. »Steinn minn, brjóttu brýni.
Brýni vill ekki brýna hníf.
Hnífur vill ekki stínga kú.
Kýr vill ekki drekka vatn.
Vatn vill ekki slökkva eld.
Eldur vill ekki brenna vönd.
Vöndur vill ekki fleingja hund.

[1] hýddu, 66, 67. [2] Boli minn, 66, 67.

Hundur vill ekki bíta kött.
Köttur vill ekki eta mús.
Mús vill ekki rífa vef kerlíngar.
Kerlíng vill ekki gefa mér rauðan spotta um nefið.
Karl hjó af mér nefið«.
»Það skal eg gjöra,« sagði steinninn.
Steinninn braut brýnið.
Brýnið brýndi hnífinn.
Hnífurinn stakk kúna.
Kýrin drakk vatnið.
Vatnið slökti eldinn.
Eldurinn brendi vöndinn.
Vöndurinn fleingdi hundinn.
Hundurinn beit köttinn.
Kötturinn át músina.
Músin reif vef kerlíngar.
Kerlíng gaf titlíngnum rauðan spotta um nefið.
Karlinn græddi nefið.

Eptir handriti Brynjólfs Kúlds, cand. phil.

V.

1. Karl fór að brytja ket.
Þar kom að honum titlíngur.
Karl hjó af honum nefið.
Þá sagði titlíngur.
»Karl hjó af mér nefið,
kelur mig í nefið.
Eg get ekki bjargað
mér né mínum börnum.
Karl minn,
gefðu mér rauðan þráð um nefið,
svo eg geti bjargað
mér og mínum börnum«.
»Farðu inn til kerlíngar minnar
og biddu hana að gefa þér
rauðan þráð um nefið,
svo þú getir bjargað
þér og þínum börnum«.

2. Titlíngur settist á vefinn kerlíngar og mælti:
»Karl hjó af mér nefið,
kelur mig í nefið.
Eg get ekki bjargað
mér né mínum börnum.
Kerlíng,
gefðu mér rauðan þráð um nefið,
svo eg geti bjargað
mér og mínum börnum«.
»Ekki gjöri eg það,«
segir kerlíng.

3. »Mús mín,
rífðu niður vefinn kerlíngar.
Kerlíng vill ekki gefa mér
rauðan þráð um nefið« o. s. frv.

eins og IV. Hér biður titlíngurinn klafann að kyrkja bola — klafinn vill ekki —, öxina að höggva klafann — öxin vill ekki —, steininn að brjóta öxina,

»Eg skal gjöra það«, segir steinninn.
Steinn braut öxi.
Öxi hjó klafa.
Klafi kyrkti bola.
Boli drakk vatn.
Vatn slökti eld.
Eldur brendi vönd.
Vöndur hýddi hund.
Hundur reif kött.
Köttur beit mús.
Mús reif niður vefinn kerlíngar.
Kerlíng gaf titlíngnum
rauðan þráð um nefið,
og þá greri nefið,
svo að hann gat bjargað
sér og sínum börnum.

Hrs. Sv. Gv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson, eptir Guðrúnu Finnbjarnardóttur á Sæbóli.

VI.

Séra Jón Yngvaldsson minnist á þulu, »Karl fór í skóg og klauf nef af titlíngi« í bréfi til Fornfræðafélagsins 1847 (Hrs. Sv. Grv. 67), og á hann eflaust við kvæði þetta.

---

1. Komdu til mín fyrsta kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér einn fisk.
og alt upp á einn disk.
2. Komdu til mín annað kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér tvö hænsni,
einn fisk
og alt upp á einn disk.
3. Komdu til mín þriðja kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér þrjár kökur,
tvö hænsni o. s. frv.
4. Komdu til mín fjórða kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér fjögur föt,
þrjár kökur o. s. frv.
5. Komdu til mín fimta kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér fimm feit,
fjögur föt o. s. frv.
6. Komdu til mín sjötta kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér sex svín með grísum,
fimm feit o. s. frv.
7. Komdu til mín sjöunda kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér sjö sáðsæði,
sex svín með grísum o. s. frv.
8. Komdu til mín áttunda kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér átta geitur upphyrndar,
sjö sáðsæði o. s. frv.
9. Komdu til mín níunda kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér níu hrúta hríng-hyrnda,
átta geitur upphyrndar o. s. frv.
10. Komdu til mín tíunda kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér tíu kýrnar tíð-bærar,
níu hrúta hríngbyrnda o. s. frv.
11. Komdu til mín ellefta kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér ellefu kapla ífylja,
tíu kýrnar tíðbærar o. s. frv.
12. Komdu til mín tólfta kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér tólf hesta með gyltum söðlum,
ellefu kapla ífylja o. s. frv.
13. Komdu til mín þrettánda kvöldið jóla.
Eg skal gefa þér þrettán akneyti,
tólf hesta með gyltum söðlum,
ellefu kapla ífylja,

tíu kýrnar tíðbærar,
níu hrúta hríngbyrnda,
átta geitur upphyrndar,
sjö sáðsæði,
sex svín með grísum,
fimm feit,
fjögur föt,
þrjár kökur,
tvö hænsni.
einn fisk,
og alt upp á einn disk.

1. Kerlíngarkindin hún hoppaði svo hátt
um sumarið;
hún hoppaði upp á prestsins garð.
Svo lángt fram á veturinn.
2. Kæri minn prestur, skriptaðu mér,
níu laxhausa gef eg þér.
3. Eg kann ekki' að skripta þér,
því prófasturinn er yfir mér.
4. Kerlíngarkindin hún hoppaði svo hátt
um sumarið;
hún hoppaði upp á prófasts garð.
Svo lángt fram á veturinn.
5. Kæri minn prófastur, skriptaðu mér,
níu laxhausa gef eg þér.
6. Eg kann ekki' að skripta þér,
því biskupinn er yfir mér.
7. Kerlíngarkindin hún hoppaði svo hátt
um sumarið;
hún hoppaði upp á biskups garð.
Svo lángt fram á veturinn.
8. Kæri minn biskup, skriptaðu mér,
níu laxhausa gef eg þér.
9. Eg kann ekki' að skripta þér,
því sjálfur páfinn er yfir mér.
10. Kerlíngarkindin hún hoppaði svo hátt
um sumarið;
hún hoppaði upp á páfans stól.
Svo lángt fram á veturinn.
11. Kæri minn páfi, skriptaðu mér,
níu laxhausa gef eg þér.
12. Eg kann ekki að skripta þér
um sumarið,
nema þú gefir mér góðan grip.
Svo lángt fram á veturinn.

1. Eitt sinn kom eg að Stórhóli
dúfan mín góð.
Þar stóð úti maður
dúfan mín góð.
2. »Sæll vertu«, sagði eg
dúfan mín góð.
»Guð blessi þig,« sagði hann
dúfan mín góð.
3. »Hvað heitir þú?«, sagði hann
dúfan mín góð.
»Guðríður heiti eg«, sagði eg
dúfan mín góð.
4. »En hvað heitir þú?«, sagði eg
dúfan mín góð.
»Guðmundur heiti eg«, sagði hann
dúfan mín góð.
5. »Er það sjálfur sýslumaðurinn?«, sagði eg
dúfan mín góð.
»Eg trúi það«, sagði hann
dúfan mín góð.

6. Leit undan og brosti,
sneri sér við og hló,
brúkaði græna floshúu
dúfan mín góð.

Eptir hndr. Guðmundar Davíðssonar.

## Konukaup.

### I.

1. Eitt sinn fundust þeir Þorsteinn manni, konuræfillinn og hann Þorleifur skjanni.

2. »Hvað hefir þú að baki þér?«,
segir Þorsteinn manni.
»Konutetrið mitt það er«,
segir Þorleifur skjanni.
3. »Viltu nokkuð selja hana?«,
segir Þorsteinn manni.
»Vel má það vera«,
segir Þorleifur skjanni.
4. »Eru konur dýrar?«,
segir Þorsteinn manni.
»Níu fyrir nýra«,
segir Þorleifur skjanni.
5. »Eg skal fá þér gæru grá«,
segir Þorsteinn manni.
»Láttu fæturna vera á«,
segir Þorleifur skjanni.
6. »Eg skal fá þér sauðarhaus«,
segir Þorsteinn manni.
»Fullborgnð er þessi taus«,
segir Þorleifur skjanni.

Þorleifur Þórðarson, Galdra-Leifi, var kallaður »skjanni«. Sögusafn Þjóðólfs II. 2. útg. 1891, bls. 123.

### II.

1. »Eru konur dýrar?«,
spurði Þorsteinn manni.
»Níu fyrir nýra«,
segir Þorleifur skjanni.
2. »Er hún kona þín dýr?«
»Hún er fyrir níu kýr«.
3. »Viltu mér hana selja?«
»Eigi' eg um að velja«.
4. »Viltu gæru grá?«
»Láttu fylgja fætur þá«.
5. »Viltú fiska fjóra?«
»Láttu þá vera stóra«.
6. »Viltú höfuð af hrúti?«
»Kaupum við þá úti«.
7. »Viltú silúnga þrjá?«
»Láttu þá vera höfuðin á«.
8. »Oddný geingur upp með vík«,
segir Þorsteinn manni.
»Henni fylgir lítil tík«,
segir Þorleifur skjanni.

K. Maurer, Isländische Volkssagen, 1860, bls. 117—18.

### III.

1. »Viltu fiska fjóra?«,
segir hann Þorsteinn manni.
»Láttu þá vera stóra«,
segir hann Þorleifur tanni.
2. »Viltu rikling á rá?«
»Vantar viðmetið þá«.
3. »Viltu skyr og rjóma?«
»Það er svo gott fyrir góma«.

4. »Viltu mör úr hrúti?«
»Þá er kaupið úti«.
5. »Hvað ber þú á baki þín?«
»Það er hún Oddný kona mín«.
6. »Því læturðu hana ekki gánga?«
»Það gjörir hana svo svánga«.
7. »Því læturðu hana ekki ríða?«
»Það gjörir hana ófríða«.
8. »Eru konur dýrar?«
»Níu fyrir nýra.«
9. »Er hún dýr hún kona þín?«
segir hann Þorsteinn manni.
»Hún er fyrir níu kýr«,
segir hann Þorleifur tanni.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Guðmundi bónda Snorrasyni í Hælavík. Presturinn hefir heyrt, að kvæði þetta væri til leingra.

---

Eg hnýti hér aptan við þremur kvæðum, sem reyndar eru ekki þulukvæði, en þó alíslenzk að uppruna, en of fá til þess að vel fari á að skipa þeim í sérstakan flokk.

1. »Hvert hefir þú geingið
snör mín hin snarpa,
og dillildó«.[1]
[»Eg gekk mig á dalinn fram,[2]
hár[3] minn Kári,
og korriró«.[4]
2. »Hvað sástu þar nýlyndara,[5]
snör mín hin snarpa?,
og dillildó«.
»Meyjarnar margar,
hár minn Kári,
og korriró«.[4]
3. »Kjóstu mér af eina,
snör mín hin snarpa,
og dillildó«.
»Allar voru þær manni gefnar,[6]
hár minn Kári,
og korriró«.[4]
4. [»Fagur er nú[7] fóturinn þinn,
snör mín hin snarpa,
og dillildó«.
»Sjaldan[8] hefir hann [leirinn[9]
troðið[10]
hár minn Kári
og korriró«.
5. [»Fögur er nú[11] höndin þín,
snör mín hin snarpa,
og dillildó«.
»Sjaldan[12] hefir hún gólfið[13]
sópað,[14]
hár minn Kári,
og korriró«.
6. [»Fögur er nú[11] kinnin þín,
snör mín hin snarpa,
og dillildó«.
[»Sjaldan hafa tár um runnið,[15]
hár minn Kári,
og korriró«.[16]
7. [Fagurt er nú[17] auga þitt,
snör mín hin snarpa,
og dillildó«.

---

[1] dillinndó B, dillidó C. [2] Út um stræti B. [3] ári C. [4] Er. vantar í C nema viðkvæðið. [5] fagurt B. [6] lofaðar B. [7] Fallegur er B. [8] Aldrei C. [9] saur C. [10] vatn vaðið B. [11] Falleg er B. [12] aldrei C. [13] flórinn B. saur C. [14] mokað B. [15] Hún hefir sjaldan á hörðu legið B. [16] Er. vantar í C. [17] Fallegt er B.

[»Lítt er það grátið,[1]
hár minn Kári,
og korriró«.
8. [»Nú rennur dagur[2] í austri,
snör mín hin snarpa,
og dillildó«.
[»Stattu svo þú springir,
hár minn Kári,
og korriró[3]«.

9. [»Nú verð eg að[4] steini,
[snör mín hin snarpa,
og dillildó[3]«.
»Eingum samt að meini,
hár minn Kári,
og korriró«.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Guðrúnu Þorkelsdóttur, ekkju á Sléttu = *A*. Þar er líka fyrsta er. með hendi Sv. Grv., og í n. 65 á tveimur stöðum. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. F. Frá hér um bil 1840 = . skrifað með mjög viðvaníngslegri hendi. Hrs. Á. M. 968, 4to, með hendi séra Magnúsar Grímssonar = *C*. Alveg samhljóða í Þjóðs. Jóns Árn. I, bls. 209, Íslenzkum æfintýrum 1852, bls. 122—23, K. Maurer, Isländische Volkssagen, bls. 53 og Tímariti Bmfj. XII, bls. 106. Fyrsta er. prentað eptir B í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 23, en eptir útgáfu séra Jóns í sama riti, bls. 258.

II.

»Hvert varstu geingin
snör mín hin snarpa?
korriró«.
»Eg var geingin upp í lund,
ári minn Kári«.

Hrs. A. M. 153 V, 8vo nr. 21. Frá byrjun 18. aldar. Aðeins þetta fyrsta erindi. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar, og í sama safni 65, með hendi Sv. Grv.

I.

1. Dilla eg dreingnum mínum,
drjúgum vekur blund;
er hann með ýlum sínum
ángurvær um stund.
Dilla eg mínum,
og dilla' eg dreingnum mínum.
2. Vel verði því auga blá, —
Ann hver sínum —
er eg út um gluggann sá,
og dilla' eg dreingnum mínum.
3. Bóndinn situr á palli.
Ann hver sínum.
Heima eru hér allir,
og dilla' eg dreingnum mínum.
4. Mér kom ekki til hugar í kvöld —
Ann hver sínum —
drumbinn upp að reisa,
og dilla' eg dreingnum mínum.

[1] sjaldan hefir í regni verið A. Það hefir sjaldan tár felt B. Aldrei hefir það ilt séð C. [2] Dagur er BC. [3] Frá [ vantar alveg í C. [4] Stattu og vertu að C.

5. Farðu í burt og forðaðu þér —;
Ann hver sínum —
komdu ekki nærri mér,
og dilla' eg dreingnum mínum.

6. Komdu heldur annað kvöld.
Ann hver sínum.
Þá verður komin önnur öld,
og dilla' eg dreingnum mínum.

Þetta er sagt að bóndakona nokkur hafi ort og kveðið við barn, sem hún helt á um kvöld, en það bláa auga, er hún sá út um gluggann, var í manni, sem átti vingott við hana og var á öðrum bæ, en drumbur sá er henni kom ekki til hugar að reisa upp það var .......[1] brúkaður, upp reistur í heygarði, til að gjöra manninum vísbendíng, hvenær hentugast væri að koma, en þörfin bar nú bráðara að. [Sama efni er í norrænu þjóðkvæði, og eflaust þaðan komið. F. J.].

Hrs Sv. Grv. 67. Frá miðri öld.

II.

Bóndi sefur hjá seimagná.
Vel verði því auga blá,
sem eg út um gluggann sá.
Hestar standa við stallinn
og korriró;
heima er þeir
og dillidó.
Ei kom mér til hugar í kvöld
drumbinn upp að reisa.
[Korrumbí, korrumbí.
Hér er nokkuð niðri' í.[2]

1. Sá eg hjá sauðum
seggur var í nauðum,
á hörðum hjarðarflótta;
hrútlambið bíldótta.

2. Sá eg sjós á reiki,
hvar sat fuglinn keiki,
þar sem sker skafla skáru,
skarfur á hafsbáru.

3. Sá eg seims hjá gunni,
segg er fljóði unni.
Bröltir á breiðum hlunni
báturinn kjölþunni.

Sauðamaður hjá presti einum var jafnlega að reyna til að yrkja, en kom aldrei saman nema hendíngum þeim, sem auðkendar eru, en prestur orti við. Sauðamaður lagði hug á eina vinnukonu prestsins.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. Séra Jón Eyjólfsson eptir Friðriki Jóhannessyni í Efri-Miðvík.

---

[1] Ólæsilegt. [2] Dilla eg þér sonur minn.

# Ýkjukvæði.

## Öfugmæli[1]

eptir Bjarna Jónsson skálda († kríngum 1625), en þó má telja fullvíst að marg af vísunum sé ýngra og sumt jafnvel frá okkar dögum.

I.

1. Dvals úr nausti dvergafar
drjúgum læt eg rása,
þó hafi mér ekki hlotnazt par
af hreina mjöðnum Ása.

2. Rifa' er mörg á Kjalars kugg,
kólgan þúngt að svellur,
þó mun eg láta Golnis grugg
gánga í allar fellur.

3. Fljóta læt eg fley'[2] um straum
fljóðum skemtun tæra,
þeir[3] meiga þar að gefa gaum,
[sem gjöra sumt[4] lagfæra.

4. Hér er mælt í huldum stað
hróðrar versið skráða;
þó lýðir dæmi lygi það,
læt eg fólkið ráða.

5. Þar fæ eg til sagna sezt
og Suðra ferju reisi.
Í upphafi er allra bezt
umhugsunarleysi.

6. Bezt er að vera bráður í raun[5]
og [býta ilt[6] við marga,
[véla' af öðrum verkalaun[7]
og voluðum lítið bjarga.

7. Fljúgandi eg sauðinn sá,
saltarann hjá tröllum,
hesta sigla hafinu' á,
hoppa skip á fjöllum.

8. Vikurkol í vaðstein bezt,
vatn til ljósa brúka,
á grjótinu vex grasið mest,
gildir steinar fjúka.

9. Smérið[8] er í skeifur skást,
skurnið[9] ljónum heldur,
í lífkaðal má fífan fást,
frýs við potta eldur.

10. Séð hef eg páska setta' um jól,
sveinbarn fætt í elli,
myrkur bjart en svarta sól,
sund á hörðum velli.

---

[1] Öfugu vísur C. [2] fleira B. [3] þær A. [4] og gjöra mig A. [5] nauð F. [6] breyta verst A, breyta ilt B. [7] vilja af öðrum vinna auð F. [8] Blýið F. [9] skurmurinn E.

11. Séð hef eg kapalinn eiga egg,
álptina folaldssjúka,
úr reyknum hlaðinn vænan vegg,
úr vatninu yst var kjúka.
12. Í eld er bezt að ausa snjó,
eykst hans log við þetta.
Gott er að hafa gler í skó,
þá geingið er í kletta.
13. Nálykt bezt til heilsu' eg held,
hér með [sveigju' í[1] glerum.
Fundið hefi' eg opt frosinn eld
og fiskiveiði' í hverum.
14. [Fundizt hefir opt[2] fífan græn,
við frost trúi' eg kopar renni.
Heilaga held eg Buslubæn,
því blessun er nóg í henni.
15. Heiðbjart[3] lopt í hreggi sést,
hátt trúi' eg þorskur sýngi,
skarn á líni skartar bezt,
skást[4] trúi' eg leiran klíngi.
16. Bezt úr tjöru blekið er,
breytta' að rita stafi.
Á hafinu sést opt hrafnagor,
helzt í miðju kafi.
17. Gaungutóu[5] grönnu[6] hár
gerðu' [í net að[7] skubba,
búðu til úr blýi[8] flár
en beyki þunt[9] í kubba.
18. Fljóta burtu flæðisker,
fljúga upp reyðarhvalir;
blágrýtið er blautt sem smér,
blý er hent[10] í þjalir.
19. Í undirdýnu eitrað[11] sverð
eingan held eg tæla,
herralega húsgángsferð
og [hyggna mammons[12] þræla.
20. Hland og aska' er hent í graut,
hreint fer[13] verst á drósum,
[innst í[14] kirkju opt er naut,
en ölturu sjást í fjósum.
21. [Örnina leit eg[15] synda' á sjó,
svanurinn hræið[16] etur,
kisa' á djúpi karfa dró,
en kýr rær öllum betur.
22. Eitur er bezt í augna rann
ýrt með dropa feitan,
það er holt fyrir þyrstan mann
að þamba kopar heitan.
23. Logandi ís og líta fekk
og ljóma' af hrafni standa,
hrækja dauðan heyrði' eg rekk,
hljóminn sönglyst granda.
24. Selshár leit eg sauðum á,
silfur í mýrarbleytum;
brýni' í penna brúka má,
bezt er ull á geitum.
25. [Við gólfið er í húsum haf,[17]
[hátt trúi' eg aurslá[18] rísi,[19]
bezt er að þvo úr bleki traf[20]
og bera' í hákallslýsi.
26. Blýið er í borinn[21] hent,
brennisteinn til veiða,
trúi' eg opt sé túnglið brent,
tjörunni maðkar eyða.
27. Tjara' er góð í tröf og sót,
taglhár bezt í skyrtu,
heyrt hefi' eg í borðsálm blót,
en blíð orð töluð í firtu.

---

[1] sveig úr A. [2] Í fjörunni vex CF. [3] Heiðblátt B. [4] skært A. [5] Gaungurófu A. [6] grana A. [7] einatt A. [8] borðum [9] þurt A. [10] skást B. [11] eggjað F. [12] heppna manna F. [13] er A. [14] innan A. [15] Hrafninn kann að A, Séð hefi eg hrafninn C. [16] hrossin C. [17] Í grenjum eru helztu höf A, Séð hefi eg hrafninn synda um haf F. [18] hæst trúi eg gólfið A, sagt er hann þjóðir F. [19] frísi F. [20] tröf A. [21] bólur A.

28. [Hunda elskar hrafninn mest,
hleypur jarðföst þúfa,[1]
tóa er í trygðum bezt,
tálsömust er dúfa.
29. Lambið er grimt en ljónið spakt,
leti upphaf dygða,
húsgángsmenn hafa hæstu akt,
en höfundur rógur trygða.
30. Aldrei reynist saltur sjór,
sízt er frost á heiði,
opt er bál í blossa kór
en blíðmælin í reiði.
31. Fiskurinn hefir fögur hljóð,
finnst hann opt á heiðum.
Ærnar renna eina slóð
eptir sjónum breiðum.
32. Hrafninn talar málið manns,
músin flýgur víða,
ketlíngurinn kvað við dans,
kaplar skipin smíða.
33. Gott er að taka grös í mó
með garmvetlíngi loðnum,
einnig leggja línu' í sjó,
laxi beita soðnum.
34. Allra bezt er ull af sel,
æðardúnn í þvöru,
maðkar sýngja mikið vel,
mýsnar eta tjöru.
35. Kisa spinnur bandið bezt,
baulur kunna' að saga,
hrafninn opt á sjónum sést
synda' og fiskinn draga.
36. Silúngurinn sótti lýng,
svalan hrísið brendi,
flugan úr gulli gjörði hríng,
geitin járnið rendi.
37. Kattarskinns eg kerti sá,
koparhúfu væna,
meðalaglas af mjúkum snjá
og mjöll á jörðu græna.
38. Blý er gott í beitta þjöl,
boginn stein má rétta,
á fjöllunum vaxa frábær söl,
í fjörunum berin spretta.
39. Tjaran hvergi tollir við,
tinið heitt má beita,
sætur tæta selshárið
saman við ullu geita.
40. Í eldi miðjum einatt frýs,
einginn viðnum kyndir,
á flæðiskeri' eru flestar mýs,
fallega hrafninn syndir.
41. Örnin smíðar ægisdýr,
álptin járnið rekur,
hvalir mjólka hross og kýr,
hákall grösin tekur.
42. Geitur hafa góða ull,
í galli er mesta sæta,
í krumma nefi' er klára gull,
í klónum silfrið mæta.
43. Grjótið er hent í góða lóð,
úr glerinu nagla smíða,
í hörðum streingjum helzt eru vöð,
hundi er skást að ríða.
44. Gott[2] er að láta[3] salt í sár,
og seila fisk með grjóti,
bezt er að róa einni ár
í ofsaveðri' á móti.
45. [Opt er í klettum álpta[4] gren,
einatt kjóinn[5] jarmar,
aldrei dettur asni' í fen,
einginn maður harmar.
46. Við hita sólar hauðrið frýs,
harkan járnið bræðir,
í eldinum brennur ekkert hrís,
aldrei vatnið flæðir.

[1] Hveravatnið kælir flest, í kirkjum brúkast húfan CE. [2] Bezt E. [3] bera E.
[4] Álpt í klettum á sér A. [5] spóinn A.

47. Aldrei bítur brýndur fleinn,
betra' er stríð en friður,
í vatninu syndir sérhver steinn,
sekkur greniviður.
48. Sauðurinn stóran hefur hóf,
hestar á klaufum gánga,
allir hafa elsku' á þjóf,
sem iðkar breytni ránga.
49. Af þyrnum vínber fyrðar fá,
fíkjur á þistlum standa,
vatni' og sméri hverjum hjá
holt er saman að blanda.
50. Svanurinn fjaðrir svartar ber,
situr hann opt í klettum,
hrafninn býr til hreiður sér
á hrannar bárum sléttum.
51. Leirsins aldrei lamast krús,
þó lömd sé hörðu stáli,
aldrei brenna eikarhús
þó umgirt séu báli.
52. Í eldi sviðna eingin hár,
ísinn logar vatna,
eitur er gott í öll þau sár,
sem eiga fljótt að batna.
53. Vissi' eg marga veiga gná
úr vatni smérið strokka,
hunángið líka hver einn má
af hellusteinum kokka.
54. Úr glerinu seigan gjöra má vír,
og grjótið í prjóna draga,
músin mjólkar meira' en kýr,
maðkar viðinn saga.
55. Kuldi' á vori kemur vel fé
og krapafjúkið þétta,
eðla beztu aldine
á eyðijöklum spretta.
56. Blindir dæma bezt um lit,
bárur í vindi þegja,
í kálfunum er kóngavit,
kýrnar frá mörgu segja.
57. Rjúpuna sá eg ráða draum,
rauðkembínginn hlæja,
stokköndina stíma taum,
stelkinn ullu tæja.
58. Sá eg krabbann sýngja' á bók,
silúngana kemba,
hafgígjuna binda bók,
bjarndýr ærnar lemba.
59. Lóan hefir lipra hönd,
leysir marga hnúta,
selur vefur sokkabönd,
svínið vefur klúta.
60. Á botni vatna búa' eg sá
bændur ríka' og snauða,
aldrei sjatnar ólga' í sjá,
einginn kvíðir dauða.
61. Bannfæríngu bezta' eg leit,
búðir standa' á sjónum,
einatt jörðu ekur geit,
ekki' er gras í tónum.
62. Svínið tíðum saung á bók,
sett er verst að gánga,
ilt er í blíðum aldinkrók
ullu fyrir spánga.
63. Skinnið sníður skatan bezt,
skíðum ljón á þeyta,
hunángið er haldið verst
og haft úr bæli geita.
64. Heyrt hefi' eg baulu[1] hörpu slá,
hestinn organ troða,
fílinn smíða fínan ljá,
flærnar brauðið hnoða.
65. [Róla' um jörðu sauð[2] eg sá,
synda rjúpu' í kafi,
Geirreið skrafa görpum hjá,
en grasafólk á hafi.

[1] asnann F. [2] Um jörðu labba sól D.

66. Brunnin skel er bezt í prjón,
bilar ei stoð[1] úr gleri,
[skurn úr[2] tjöru skerpir sjón,
skít vil eg framar sméri.
67. Séð hefi' eg hvalinn[3] sitja' á stól,
selinn strokka' og renna,
skötuna' gánga' á grænum kjól,
gráan hest með penna.
68. Séð hefi' eg hestinn sjónum á,
sigla og renna færi,
hákallinn er heima' að slá
en hrafnar snúa snæri.
69. [Optast nær[4] er álptin brún,
en hann krummi hvítur,
[skundar fé[5] um skeljúngstún,
sko hvar blýið flýtur.
70. Klaufum mjólka kýrnar úr,
kálfar sjálfir mæla,
úr hörðu stáli stökkur skúr,
stelkar vefinn hræla.
71. Laxinn hefir lánga hönd,
lýðum vil eg það greina.
Ýtar þurfa eingin bönd,
ef ótemju skal reyna.
72. Úr eitri' er bezt að eta graut,
af aurnum lýsið bræða,
moka í sjóinn breiða braut,
brauð af steinum snæða.
73. Hamar úr klaka hafa má,
hestajárn úr gleri,
úr hrossataði harðan ljá,
hvella klukku' úr sméri.
74. Stóran má hafa stein í dufl,
standa' á járni heitu,
úr þokunni gjöra þykkan kufl,
[þurka traf í bleytu.[6]
75. Vænt er að sækja[7] vatn í meis,
vani' er það hjá lýðum,
[með selanót hann[8] upp í eys,
eg hefi séð það tíðum.
76. Í bróðerni við borð eg sá
bíta' af sama diski
krumma, örn og ketti þrjá,
kom vel saman hyski.
77. Krumma sá í krambúð eg
kaupa varníng nýjan,
út á borðið elskuleg
að honum rétti krían.
78. Skepnu eina' eg úti sá,
sem elskar litinn hvíta:
grátandi eg svínið sá
sínar lappir kríta.
79. Horfði' eg sverðfisk hissa á,
hann til kirkju vendi,
á Eintali helt sálar sá
sinni undir hendi.
80. Séð hefi' eg hegrann synda' á sjó,
súluna' á fjöllum verpa,
álptina sitja við ullartó,
örnina' í eldi snerpa.
81. Séð hefi' eg köttinn sýngja á bók,
selinn spinna hör á rokk,
skötuna elta skinn í brók,
skúminn prjóna smábandssokk.
82. Séð hefi' eg flóna flóa mjólk,
fallega lúsin[9] hey upp bar,
kýrnar bræddu kertatólk.
Ketið sjóða[10] rjúpurnar.
83. Séð hefi' eg hundinn herlega slá,
háfinn skrifa lítið bréf,
hákall láta skæni' á skjá,
skollatóu festa' upp vef.
84. Séð hefi' eg skötuna skrýdda kjól,
skrifandi' ýsu henni hjá,
hámerina stíga' í stól,
steinbít sýngja[11] glóríá.

[1] löð CE. [2] skúm af E. [3] hrútinn E. [4] Allajafna F. [5] skeiða má F. [6] þorstadrykk af keitu E. [7] hafa C. [8] hann með neti F. [9] músin C. [10] steikja F. [11] kyrja F.

85. Séð hefi eg marhnút mjólka geit,
magran þorskinn sníða kjól,
karfann fara' í kúaleit,
kömpúng[1] smíða skriptastól.
86. Séð hefi' eg hrútinn salta fisk,
sitja kúna innst í kór,
graðúng eta grjón af disk,
graðskötuna moka flór.
87. Hrútinn sá eg hríngja' í kór,
hestinn gráa albrúnan,
laxinn flá af blautan bjór,
bitran ljá úr spýtu fann.

---

88. Hafa þeir dún í hafskipin,
hreina gler í möstrin stinn,
elta þeir steininn eins og skinn,
í ólar rista fuglsbeinin.

---

89. Séð hefi' eg glíma sel og hest,
silúnginn spinna allrabezt,
hrafninn synda' á hafið út,
hákallinn drekka úr brennivínskút.

---

90. Hlunna [varga Hleiðólfsbrú[2]
hlaupin[3] er upp til grunna,
ekki dugir aðferð sú
að [ausa' upp[4] mærðar brunna.
91. Sundur brýt eg Suðra far,
Sviðris vara flæði,
en piltar læri' og píkurnar.
Poks[5] nú ent er kvæði.

---

92. Séð hefi' eg köttinn renna' og róa,
rykling smíða fley,
á stalli álinn, kríu' og kjóa
og hvalinn eta hey.
93. Skatan á að skrýða prest,
skrifað er það í bókum,
krummi opt í kórnum sést,
kálfur á við stýrið bezt.
94. Séð hefi' eg valinn synda' á ál,
selinn smala hjörð á fjalli,
hrafninn tala manna mál,
moðið hvalinn eta af stalli.
95. Eldinn gjósa' úr svelli sá,
saman frjósa glæður heitar,
skugga af ljósi líta má,
laxar kjósa sig til beitar.
96. Lóminn smíða leit eg skrá,
lóu fríða hrafni makast,
rakka skíðum renna á,
reyr í blíðu veðri skakast.

Sagt er að maður nokkur hafi verið dæmdur til dauða, en átt kost á að leysa líf sitt með því að yrkja svo og svo margar vísur, sem eingin setníng væri sönn í. Gísli Konráðsson nefnir til tuttugu vísur, en séra Brynjólfur 19. Sumir segja að það hafi verið skilið til, að þrjár setníngar væru sannar í kvæðinu og hefi eg heyrt nefnda til þess vísuna:

Hrafninn skilur málið manns,
músin flýgur víða,
ketlíngurinn kvað við dans,
kappar skipin smíða,

því hér áttu 1., 2. og 4. setníngin að vera sannar. Maðurinn orti kvæðið eins og kveðið var á og leysti með því líf sitt. Sbr. Þjóðsögur Ólafs Davíðssonar 1895, bls. 188—189.

---

[1] konupúng CE. [2] vargur Hleiðólfs nú A. [3] hlaupinn A. [4] yrkja A
[5] Þegar orð þetta er lesið aptur á bak, verður úr því »skop« og á það við »kvæði«. S. L. Jónasson hefir tekið eptir þessu fyrstur manna svo eg viti.

Kvæðið er prentað áður hjá Jóni Þorkelssyni í Om Digtningen på Island, bls. 405—412 eptir handritum þeim, sem nú skal greina: Hrs. J. Sig. 130, 4to, hrs. Bmfj. 13, 194, 634, 8vo, hrs. Bmfj. Ísl. 82, 8vo, hrs. J. Árn. B. III, X. XV, 8vo og svo eptir handritum frá ýmsum einstökum mönnum. Orðamunur er tekinn þar eptir öllum þessum handritum og er hann því ekki tekinn hér upp, en aptur er tekinn helzti orðamunur úr handritum þeim, sem eg hefi komizt yfir, en Jón Þorkelsson hefir ekki notað. Þau eru: Hrs. Á. M. 276, 8vo, með hendi Gísla Konráðssonar = *A*. Þar eru alls 33 vísur og eingin, sem Jón hefir ekki. Hrs. Sv. Grv. 67, Ark. C, nr. 3, með hendi séra Brynjólfs Árnasonar í Lángholti 1846 = *B*. Þar eru 15 er. og eitt, sem ekki er hjá Jóni. Hrs. Bmfj. 656, 8vo, tvær vísur og vantar aðra í útgáfuna. Kvæðabók Jóns Þorkelssonar í arkarbroti, skrifuð af Páli Hjaltalín í Stykkishólmi = *C*. Hrs. Bmfj. 651, 8vo. = *D*, með hendi Sigmundar Matthíassonar, 5 er. alls. Kvæðabók í fjögrablaðabroti, sem dr. Jón Þorkelsson ýngri á, skrifuð í Snæfellsnesssýslu 1870, 42 er. = *E*. Kver með hendi Guðmundar Guðmundssonar á Svarta-Núpi, sem dr. Jón Þorkelsson ýngri á = *F*. 73 er. Þrjú er. (11., 31., 81.) eru prentuð í Corpus poeticum II, bls. 416.

II.

Bréfin eru í brækur skást,
birki er fínt í penna,
úr viðarlaufum sjóskór sjást,
úr sandinum disk má renna.

*B.*

III.

Hákallarnir tíu' og tólf
taka sig í flokka,
allir þeir í efra hólf
upp á móti brokka.

*656, 8.*

IV.

1. Hesti' óbryddum hleypa má
hálu eptir svelli,
haltan mann eg henda sá
hreindýr uppi' í felli.
2. Miskunsemi mesta á hrafn,
mörgum tóan bjargar,
á hafísnum er sauðasafn,
sjást þar baulur margar.
3. Farðu' og gaktu fótalaus,
fleygðu steini' án handa,
talaðu maður túngulaus,
taktu úr dauðum anda.
4. Séð hefi' eg á sjónum hest,
selinn bíta' á hánni,
illfiskanna vaðan verst
vagaði' upp úr gjánni.

*CE.*

V.

1. Séð hefi' eg hákall hlíðum í
hlaupa uppi gráan ref,
hafur fljúga hátt við ský,
hávelluna festa' upp vef.

2. Heyrt hefi' eg silúng æpa opt,
úlfa lömbin geyma,
geitur sveima greitt um lopt,
graðhestana breima.

*D.*

VI.

Hákallinn á hafinu rann,
hár og digur júturinn;
inn í kórinn vasa vann
vondur rekabúturinn.

*E.*

VII.

1. Séð hefi eg naut á selskinnsskóm,
sauðatúngu rækta blóm,
storkinn rita stóradóm,
storkna gull í arnarklóm.

2. Séð hefi eg rjúpur veiða val,
vánkakind að skutla hval,
dauða kerlíng ydda al,
ostinn reka upp hanagal.

3. Hákallinn í hnakk eg sá
hesti gröðum ríða,
flugu og eldfjall fljúgast á,
fálka kurla og svíða.

4. Golþorsk sá eg grafa staf,
gaungulóna skrifa bréf,
svínið stífa táhreint traf,
taka úr bauk í nefið ref.

5. Kjóa hampa ketti eg sá,
krumma af flösku víni ná,
húð af ljóni hreindýr flá,
hest að veiða sel úr á.

6. Eg sá flugu eta söl,
eg sá snjóinn verða að möl,
eg sá hrafninn mala mjöl,
úr mold og fiðri gjörða þjöl.

7. Byggkorn heyrði eg sýngja sálm,
sandló beitta reiða skálm,
krumma hafa kattarmjálm,
kóngulóna spinna hálm.

8. Eg sá túngl í eldhúskrók,
eg sá lúðu vaða í brók,
hörpudiskur höfuð skók,
hrímið var með draumamók.

9. Í austri hníga sól eg sá,
silúng leit eg smíða ljá,
höfð var sauðaskán í skjá,
skipið spratt þá túni hjá.

10. Eitt sinn fljúga sá eg svín,
sá eg stjörnu drekka vín,
eg sá kuðúng elta brák,[1]
eldinn sá eg tefla skák.

11. Klettar fara kláms með orð,
kvæðin læra og muna,
fjöllin hoppa um haf og storð,[2]
hvergi kyr sér una.

12. Sunnudagar detta í poll,
drukkna prestar allir,
hver ein kirkja fer um koll,
fjúka í lopt upp hallir.

---

[1] brók, hndr. [2] jörð. hndr.

13. Skýin verða opt að ull
og á rokka spunnin;
drafúldið er sviljasull
sætast fyrir munninn.
14. Opt í eldi ísinn frýs,
einatt kýrnar veiða mýs,
dauður maður drepur lýs,
dauðinn sjálfur bregður hrís.
15. Stálið svignar blautt sem blý
barnahöndum veikum í;
hrafntinnan er dilludý,
dúnmjúk til að sökkva í.
16. Hljóðlaust fossinn hendir sér
hamars fram af röndum;
bæði slétt og afllaust er
ólgubrim með ströndum.
17. Aldrei hefir opinn hvopt
illa vaninn dreingur,
öll er skepnan upp í lopt,
alt á höfði geingur.
18. Heyrði eg geispa hnykilinn,
hnerra pípulykilinn,
stela í nefið stikilinn,
stjáka fjöllum prikilinn.
19. Séð hefi eg kýrnar vinda voð,
veiðibjöllu steikja roð,
lóminn þamba sjóðheitt soð,
selinn eta úr básum moð.
20. Eg sá hest með orf og ljá
úti' á túni vera að slá;
hátt í lopti heyrði eg þá
hund og tóu kveðast á.
21. Bræða sá eg geldíng grút,
gamalbelju fæða klút,
gánga á túnum grænan kút,
gleypa smyril flöskustút.
22. Þeir hafa í skyrtu háfsroðin,
hákallslýsi í sleðann sinn,
hrærigraut í hamarinn,
hundaskít í naglbítinn.

23. Upp frá sjónum ofan í fjöll
ár og lækir renna;
hrafnsúngar með hlátrasköll
hárið af sér brenna.
24. Kött og tóu eg kyssast sá,
keldusvínið brýna ljá,
eingil klifra upp úr gjá,
ær með byssum skjótast á.
25. Aldrei sofið er um nótt,
en um daga svarta;
þá er alt svo hægt og hljótt,
hvergi um neitt að kvarta.
26. Eg sá kveykt af eingu bál,
ísbjörn sá eg bræða nál,
heyrði eg skötu hafa mál.
úr húnángi var soðið kál.
27. Sá eg hund með silfurhóf,
sjálfs míns leit eg hnakkagróf,
hestbraut mátti á himni sjá
og hrossatöðu út í frá.
28. Einginn valur er með klóm,
illur reynist sómi,
í vetrarblotum vaxa blóm,
verður brimið rjómi.
29. Dún eg hestinn hreinsa sá,
hámerina brýna ljá,
hnísur liggja eggjum á,
urðarkött að beita ljá.
30. Heyrt hefi eg kálfinn kveða ljóð,
kvíguna sá eg brosa,
völuna í vargamóð
vera að tína mosa.
31. Rétt er öfugt, öfugt rétt,
eins er lygin sanna;
sannleikurinn sýnir prett
og svik til allra manna.
32. Glæpi drýgja er gæfa mest,
gott er illur vera;
trúa illu[1] um alla er bezt,
ilt er loforð bera.

[1] ilt, hndr.

33. Voðirnar þeir vefa úr snjó,
vatninu þeir kynda;
við þorsta er bezt að þamba sjó,
með þara sætið binda.
34. Það er fyrir skatna skást
skipi á hvolfi róa,
og við ref að ala ást,
ull með sög að tóa.[1]
35. Hnífar skepta sjálfa sig,
sokkar vetlíng prjóna;
fjöður hesti færir slig,
fríð er galtar trjóna.
36. Til altaris eg úlfinn sá,
asnann prestinn skrýða,
örn og smyril arni á
af sér fiðrið svíða.
37. Skaflajárna kann eg kött,
úr kerti reiptagl snúa,
úr brendu sindri búa höll,
beizla flóagrúa.
38. Músin skrifar manna bezt,
merkust allra dýra.
Asninn sækir allra mest
eptir skipi að stýra.
39. Gullið hefir ljótan lit,
ljósið myrkur glæðir,
heimskur[2] skarpast hefir vit,
húngrið stránga fæðir.
40. Þeir gefa kúnum gullið tómt
að gleypa í sig á málum;
þjófahyski það er frómt,
þeygi laut í skálum.
41. Úr logninu þeir lífga vind
og láta sjóinn hlýða,
búa úr hvölum mennska mynd,
marbendlum þeir ríða.
42. Kvöld og morna krummi les
kærleiks heitar bænir
og um himna hrossanes
halastjörnum rænir.[3]
43. Tóa er jafnan trygg og spök,
töm að elta manninn;
holt er að fara af hesti í vök
og hitta botninn þanninn.
44. Eingir drýgja optar hór
en einglar himins sala,
ekkert logar eins og snjór
eða lindin svala.
45. Dauðinn eingan deyðir mann,
dauðinn fjörgar alla,
á gráum kufli geingur hann
og girnist meyjar fjalla.
46. Biskuparnir þæfa, þvo,
þvæla, mjalta og skaka,
ávalt vinna á við tvo,
en aldrei neitt þó vaka.
47. Úr arnarklóm er grautur ger,
úr golujeljum strokkað smér,
úr beitilýngi búið gler,
úr bríngukollum eingifer.
48. Tuttugu sama og tíu er,
telur árið vikur sex;
aldrei neinn af öðrum ber,
öll er speki heimskupex.
49. Svefninn aldrei veitir værð,
verst er hann að lifa,
en í hríð og illri færð
úti er bezt að skrifa.

*F.*

---

[1] = tæja. [2] heimskan, hndr. [3] halastjörnur ræna. hndr.

## Geirlaugarsjónin.[1]

1. Æpti hún Geirlaug
þá út í tún kom;
sýndist henni kýr sín
gliðna á svelli.
Þá var þetta fýsisveppur
fastur í velli.
Svo var hún heimsk
sem heyrast mátti.

2. Æpti hún Geirlaug
þá út í tún kom;
sýndist henni Ólafur kóngur
að garði ríða.
Þá var þetta titlíngur
á torfuköggli.
Svo var hún heimsk o. s. frv.

3. Æpti hún Geirlaug
þá út í tún kom;
heyrðist henni helgi maður
hríngja klukku.
Þá var þetta trítill,
sem hristi brók sína.
Svo var hún heimsk o. s.

4. Æpti hún Geirlaug
þá út í tún kom;
sýndist henni kaupskip
koma að landi.
Þá var þetta krákuskel
og kurraði að sandi.
Svo var hún heimsk o. s.

5. Æpti hún Geirlaug
þá út í tún kom;
sýndist henni Breiðifjörð
allur í loga.
Þá var þetta maurildi
í mykjuhlassi.
Svo var hún heimsk,
sem heyrast mátti.

Hrs. J. Sig. 282, 8vo, með hendi dr. Hallgríms Schevings. Afskript P Pálssonar í hrs. Sv. Grv. 118. Hrs. Sv. Grv. 66. Hönd Páls Pálssonar stúd Iðunn VII. 1889, bls. 314—15.

## Vísur um fugla.

1. Séð hefi' eg svaninn víða
sauðunum veita dauða,
örnina toga[2] ærnar,
æðarfugl sauma klæði,
stelkurinn steypir tólkinn,
steindepill hvetur fleina,[3]
valurinn varníng selur,
vín bruggar keldusvínið.

2. Hrafnarnir hafa út stefnu,
helsíngjar ríða[4] á þíngið,
gæsirnar fara í fjósin,
fýlúngur bréfin stílar,
tjaldurinn til býr snældu
tranan upp setur lanir,
skúmurinn skilur drauma,
skeglan mart saman negli

3. Kjóarnir kíla brúa,
kríán er töm á lygi,
máríátlan mart bréf klóra
máfarnir [ríða háfa,[5]
rjúpurnar selja sápu,
svartbakar lúður flaka,
skarfurinn sker upp torfið
skónálar smíðar lóa.

---

[1] Geirlaugarsjónir A, Geirlaugarvísur B. [2] kvía B. [3] steins
[4] hýða AB [5] róið hafa B.

4. Lángvían lömbin heingir,
lómurinn drekkur rjóma,
hafsúla á heli[1] lifir,
húsar á vorin brúsinn,
storkurinn einatt yrkir,
álkurnar fletta bjálkum,
teistarnir temja hesta,
tóbakið etur spói.
5. Haukurinn flussi flíkar,
fjallgjörn er veiðibjallan,
sólskríkjan græðir gulu,
granda hundunum andir,
hænurnar brenna baunum,
býr til smirillinn skyrið,
fastlaga[2] þæfir þröstur,[3]
þíng setja grátitlíngar.
6. Urtin er æði firtin,
úfinn burt skera dúfur,
krákan opt sauði sækir,
svala í fjöllum smalar,
presturinn[4] reiðíng ristir,
ruglar um margt náttuglan.
Leiðist mér leingur ræða[5]
léttvægt mun virðast[6] þetta.

Hrs. Bmfj. 338, 8vo = *A*, 194, 8vo = *B*. Kvæðið mun vera frá 18. öld.

## Gestaósk.

1. Brennivíns þumlúng,
bita af öli,
sopa af brauði,
sneið af víni,
tóbaks skál eina,
teig af osti,
begerðu gestir
á Bessastöðum.
2. Krús af smjöri,
könnu af flautum,
staup af skyri,
stamp af hrosshári,
ljós af leðri,
og lauk af járni,
flösku af fiðri,
og forstand af blýi.
3. Tunnu kapal,
og tryppi áttkantað,
kú kríngiótta,
og kálf áttstrendan,
hest vel þéttan,
og hund gel[d]mjólkan,
kött á kýrvexti,
og kið með ullu.
4. Sæng þrívetra,
svæfil sköllóttan,
álnar þykk línlök
með ábreiðu hærðri,
sparlök sívöl
og sprund fullmála,
yrkjumann hyrndan
með Aðalsteins[7] höfði.
5. Strokk af járni,
steðja af fífu,
taung af taglhári,
tól af haustullu,
skip af grápappír,
með skreið af hraungrjóti,
árar af fjöðrum,
en akker af korki.

---

[1] heyi B. [2] frísklega B. [3] þorskur B. [4] prevírinn A. prísurinn B. Prestur = lundi. [5] kvæða B. [6] þykja A. [7] eðalsteins?.

6. Stýri af striga,
stjórnbönd af sandi,
segl af selanót,
sakka af floti,
mastur af sperðli,
með bjúgna stellíng,
neglu tvítugri
og næfurs ambera.

Hrs. Á. M. 441, 12mo, bls. 38—9, frá seinna hluta 17. aldar. Afskript hrs. J. Sig. 398, 4to.

---

1. Fjórir tvennir föluðu Brún eg frá því greini,
fæst hann ei hjá fríðum sveini,
þó firðar beiti undateini.
2. Einn bauð honum átján hross og eitt kúgildi,
hjálm og spjót með hörðum skildi,
hinn kvaðst ei það nýta vildi.
3. Annar bauð honum fjölda fjár og fjórtán dali,
einhver trúi eg hann optar fali,
aukast má af slíku kali.
4. Þriðji bauð honum þrjú lángskip með þrifnum reiða,
alt skal eg það ört fram greiða
ef hann vildi Brún fram leiða.
5. Fjórði bauð honum fína jörð og fríða píku,
en hann neitaði öllu slíku
þó aldrei fengi' hann menja bríku.
6. Fimti bauð honum fjórtán kýr með fóðri góðu,
segir hann þá með sinni hljóðu:
eg sinni því eins og tómri skjóðu.
7. Sjötti bauð honum sautján lömb með sögðum greinum,
kú og hest með kostum hreinum,
krof og skammrif alt með beinum.
8. Sjöundi bauð honum sextán koppa setta' af hlandi,
einginn trúi' eg á Íslandi
ætla' eg boðið betur vandi.
9. Áttundi honum ærnar hundrað á réð nafna,
slysinn gjörði slíku að hafna,
slóst það eigi því til jafna.

Hrs. Á. M. 277, 8vo, hér um bil 1850.

## Kvæðiskorn um lítinn bauk.[1]

I.

1. Minn er baukur mæta þíng,
margur vill hann af mér fá;
ekki er [alt þó[2] komið í kríng,
kannske eg honum loði á.

2. Fyrðar bjóða feikn[3] í hann:
fiskasporð og úldinn grepp,
keilutálkn[4] og kútmagann,
karfakinn[5] og fýsisvepp.

3. Einn bauð mér af osti sneið,
augakall og krummabein,
brenda köku og báruseið,
blindan hvolp og lausnarstein.

4. Gjörði annar gys að mér,
gamalt naut eg skyldi fá,
vættir þrjár[6] með vetrarsmér;
var mér ekki um kosti þá.

5. Þriðji bauð mér þrettán ær
og þrjú hundruð af lömbum smá,
fjögra manna far í gær
og fjóra laxa úr Hellisá.[7]

6. Fjórði bauð mér fiska tólf,
færðist í mig geðsins rán;
bauð eg honum benjakólf,
borga vildi eg þessa smán.[8]

7. Fóvetinn þar fyrst kom að,
frægur náði bauksins til,
beneficii bauð mér stað,
[Belsholt[9] skyldi aukast[10] til.[11]

8. Sýslumanninn sá eg þá;
sagt er hann dæmi lögin rétt;
hæfir öllum höldum sá,
sem hefir embættisins stétt.[12]

9. Lögmanninn eg líka fann,
[lyktaði hann[13] úr mínum bauk;
frægur bauð mér fyrir hann
fjóra dali [og söðulhauk.[14]

10. Þrjátíu sauði og þrettán kýr,
þetta bauð mér biskupinn.
Ansaði eg honum, ekki rýr:
»Eigðu það sjálfur herra minn«.[15]

11. [Víst mér þykir[16] vænt[17] um hann,
verð eg því að meta hann dart[18];
fá vildi eg fyrir hann
fimm hundraða jarðarpart.

12. Bygður upp með brattan kjöl
bústaðurinn skyldi sá
með rauðstrikaða reisifjöl
og rauðum[19] súðum utan á.

13. Fansaður[20] með fjalagólf,
fagurt hlaðinn alt um kríng;
vinnuhjúin tíu og tólf,
[til valin úr[21] bygðarhríng.[22]

14. Hagsmunir[23] og hyggjan klók
hér til mundi stoða mig,
hokinn[24] karl í brendri brók
bússinn[25] mundi halda sig.[26]

15. Til góða haldi garpar mér
gamanræðu mína þá;
að skemta með þessu skötnum ber,
skulu ljóðin dvína þá.

---

[1] Bauksbragur BE. Vísur um tóbaksbauk C, Baukvísur F. [2] CD. [3] feigð AB, fegnir C. [4] -nef BE. [5] -tálkn B, -skinn CF. [6] sex B. [7] Ellerá BE. [8] Er. vantar í B. [9] og Bjólholt B. Bolholt E. [10] bætast A. Frá [ og bolahöllu auka C. [11] Frá [ bar mér ekki það í vil F. [12] C. [13] CF. [14] söðul og hauk B. [15] F. [16] BCEF. Mikils þyki mér A. [17] EF, vert A. [18] djarft CF, en það er rángt. [19] rendum F. [20] Fágaður F. [21] E, taki vakt á BC. [22] Er. í BCEF. [23] Ef hugvitið E. [24] F, boginn BCE. [25] bústinn CF. [26] Er. í BCEF.

Hrs. Thotts 489, 8vo — *A.* Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar yngra, 1780—1785 — *B.* Nokkur ljóðmæli eptir síra Hallgrím Pétursson. Bes... bls. 116—117 — *C.* Fyrsta er. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns M... sonar — *D.* Hrs. Bmfj. 160, 8vo — *E.* Hallgrímur Pétursson, Sál... kvæði II. 1890, bls. 410—412 — *F.* Kvæðið er líka í Þingeyrabók, hrs. 231, 4to, og er eignað þar Guðmundi Jónssyni í Litlabæ.

II.

14. [Tæra vín og tóbaksmauk
tæki eg ekki af skamti þá.[1]
Hér skal enda bragur [um bauk.[2]
Börnin [litlu segi frá.[3]

*BCEF.*

III.

6. Fjórði bauð mér fallegt fley,
er flaut á straum við laxahyl.
Dóttir hans er dávæn mey,
drós á mér að bætast til.

*E.*

Kvæðið er að vísu prentað áður tvisvar sinnum, en mjög óvandlega e... er það prentað hér. Auk þess er vísað til þess í Íslenzkum vikivökum 1... bls. 153.

I.

[Mikinn mat[4] heim[5] reiddi
maður [sá er[6] bjó;
kerlíngin eyddi,
en[7] karlinn að dró.

1. Karl réð einn með kerlíng búa,
kraunk[8] voru þau af elli og lúa,
ótal fjárins áttu grúa,
undrum niður deyddi,
kerlíngin eyddi;
hálft hið fjórða[9] hundrað kúa
hann [til skurðar[10] niður sló[11];
kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.

2. Naut og geitur niður feldi
nærri þúsund[12] fimm[13] að v...
af þeim höfuðið öllum skeldi
og til bús heim reiddi,
kerlíngin eyddi.
Þegninn beitti þundar eldi,
það[14] [í spaðið[15] niður hjó;
kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.[16]

---

[1] Frá [ Gamall karl í horni hrauks | hættir nú við ljóðin smá E. [2] bauk... [3] úngu hlýði á F. [4] mal E. [5] Frá [ Margt til matar D. [6] C. [7] því E. [8] kreinkt E. [9] sjötta B, fimta CE. [10] í spaðið C. [11] hjó... [12] hundruð CE. [13] þrjú E. [14] CE. [15] til sláturs C. [16] Er. vantar í...

3. [Sextíu[1] áttu[2] seli að veiða
[og sjötíu[3] líka[4] hvali að deyða;
hundrað vættir[5] harðra skreiða
hann til búsins reiddi,
kerlíngin eyddi.
þau áttu [af smjöri[6] örk svo breiða
eins og hæsta[7] bjarg við sjó.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.

4. Á sjötíu hesta sækja létu
suður á fjöllin grasafletju;
af því gefa eingum hétu
um þó nokkur beiddi;
kerlíngin eyddi.
Þó volaðir af vesöld grétu
vorkunn einga fundu þó.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.[8]

5. Kát þau voru[9] í kotinu bæði
þá[10] komið höfðu saman fæði,
þó er greint í þessu kvæði
að þúsund silúngs[11] veiddi,
kerlíngin eyddi.
Í brjósti einga báru mæði,
bjuggu svo með spekt og ró.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.

6. Í kaupstaðinum kynja geingi
karlinn hafði furðu leingi,
lausúng fékk hjá lýða meingi,
lof og þakkir greiddi,
kerlíngin eyddi.
Af mjölinu eg meinti hann feingi
meira en hundrað tunnur þó.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.

7. Í búið[12] margt[13] þeim barst að höndum
bezt og mest úr öðrum löndum,
vistir[14] þáðu af vegfaröndum;
víl og sorg ei meiddi[15];
kerlíngin eyddi.
Þau höfðu bæði á haukaströndum[16]
hrínga prýdda góins[17] mó.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.[18]

8. Grásíðurnar Grikkir senda,
gáfu Þýzkir vínið brenda,
en kúrlenzkir korn afhenda
[karlinn svo sem[19] beiddi;
kerlíngin eyddi.
Sem pikkuð væri í portið[20] lenda
pellaþöll af fylli spjó.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.

9. Gáfu[21] Danskir krydd í kerin,
komu Spanskir með vínberin,
skeinktu Franskir skreið og[22] smérin,
skjótt það karl heim reiddi;
kerlíngin eyddi.
bretti[23] [snót upp[24] brúnaglerin
brosandi[25] í skríkjur[26] hló.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.

---

[1] Sjötíu CE. [2] Sex þúsund nam B, Sextíu þúsund E. [3] sextíu CE. [4] Frá [ sjötíu þúsund E. [5] lestir E. [6] BC. [7] E, stæði A o. fl. hndr. [8] C. [9] sátu CE. [10] CE. [11] CE. [12] eða búrið E. [13] flest C. [14] E, veizlur A o. fl. hndr. [15] neyddi CE. [16] -löndum C. [17] golnis C. [18] Er. vantar í A. [19] E. [20] CE. [21] Greiddu E. [22] CE. [23] E. [24] hún sundur E. [25] Eða bráðurin E. [26] kampa CE.

10. [Frá Indíum[1] komu öl og kútar,
Egyptalandi[2] svín[3] og hrútar,
[sínum gáfum[4] sérhver mútar;
[sig út rausnin[5] breiddi;
kerlíngin eyddi.
[Konan kvaðst ei[6] kenna[7] sútar,[8]
[kokka náði í vatni[9] og sjó.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.[10]

11. [Kerla þurfti ketil að vanda,[11]
kaus hún Kötlu[12] sér til handa,[13]
[þar til líka við þvott að standa[14]
um Þíngvallavatn beiddi;
kerlíngin eyddi.
[Mörg kvað ekki mein sér granda
mætti hún þess njóta og hló.[15]
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.[16]

12. [Gáfu Eingelskir[17] grjón til grauta,
[grásalt, hundrað[18] knýtilskauta,
fleskið svína og flotið nauta,
[fisk hann sjálfur veiddi[19];
kerlíngin eyddi.
í maurum kerlíng mátti stauta,[20]
til[21] margra ára [vist þeim bjó.[22]
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró[10].

13. Jórsalalai
mikið lík
hundrað[2]
og hreine
kerlín
Auðargru
upp á sí
Kerlí
en ka

14. Herra pá
af hundr

þáði karl
[þetta all
kerlín
Seimagru
seðja hu
Kerlí
en ka

15. Tyrkinn
tólf þúsu
kjarnhafı
[karlinum
kerlín
(Bendir s
[blíðkuðu
Kerlí
en ka

---

[1] Af Sýrlandi E. [2] C, ótal þúsund E. [3] lömb E.
[5] E. [6] Karl það alt í CE. [7] ketilinn C, kotinu
[10] Er. vantar í A. [11] Á ketilinn kvað sig kerlíng
[13] panta E. [14] þurfti líka þvottastampa E. [15]
vanta, verður að fá henni hálfan sjó E. [16] Er.
Babylon komu C, Frá Spaníu fekk hann E. [18] gild f
um karli greiddi E. [20] CE, skauta A. [21] CE. [22]
[23] Jórsalaborgar E. [24] sl. E. [25] eptirlæti E
[27] skeinkti CE. [28] Er. vantar í A. [29] hann sk
fyrir greiddi C. [31] -hrundin E. [32] gaf C. [33]
[34] hyggjukró E. Frá [ CE. Frá ( vantar í A.

16. Tröll og blámenn töldu[1] af losta
tólf þúsundir merarosta;
mætra þóttist kenna kosta
karl, þá upp á sneiddi;
kerlíngin eyddi.
Vífið svelgdi [vín[2] við[3] þorsta;[4]
velgju[5] fyrir brjóstið sló.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.

17. Víða[6] svo að straumum stukku,
strax í þurt upp sjóinn drukku;
til undirdjúpa ofan sukku
og allar násir sneyddi;[7]
kerlíngin eyddi.
Af sér átu alla lukku,
en aldrei höfðu nægtir þó.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.[8]

18. Fjandanum varð þá fúlt í sinni
og fyrirbauð þeim sitt heimkynni;
sagði þeirra girnd[9] ei grynni
þó gleypti sig og sneiddi;
kerlíngin eyddi;
[hjá sér feingju þau ekki inni,
öll væri sín þá horfin ró[10].
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.[11]

19. Himintúnglin hafði í bita,
höldar fróðir þar um rita,
af þeim rann þó eingin fita
af því þau ei seyddi;
kerlíngin eyddi;
hún fekk af sólu feikna hita
frúin svo upp öllu spjó.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.[12]

20. Þau [settu saman[13] með sína útvegi
á sánkti Mattías[14] heiðursdegi;
sögðust kvíða sulti eigi,
[sárt þó[15] húngrið neyddi;
kerlíngin eyddi;
en á jólum, satt eg segi,
svo var næríng orðin sljó.[16]
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.

21. Fram kom þorra fjúkið éla,
[frostið hart og mikil[17] héla.
Karlinn neyddist kosti að stela,
með kukli margt heim seiddi:
kerlíngin eyddi.
Þau[18] sátu opt[19] með svángan bela
soltin, mögur, streingd[20] og mjó.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.

22. Matlaus urðu í miðja góu,
mjög svo áttu skylt við tóu,
með[21] sultarböndin seigu[22] og mjóu;
sárlegt húngrið neyddi;
kerlíngin eyddi.
Um vorið bæði í vesæld dóu,
var það ekki [að líkum[23] þó.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.

---

[1] tíndu A, tigla CE. [2] vatn AC. [3] C. [4] AC. Frá [ vökvann rosta E. [5] CE. [6] Síðast C. [7] deyddi C. [8] Er. vantar í AE. [9] grimd A. [10] Frá [ Hún kvað sér mun að máltíðinni | ef mætti hún honum(!) neyta þó B. [11] Er vantar í CE. [12] Er. vantar í BCE. [13] settust að BC. [14] Marteins B, Matteus E. [15] sig ei B. [16] mjó CE. [17] E, frost og snjóar og hrím- A. [18] B. [19] krept E. [20] ʒeingd C. [21] CE. [22] sáru B. [23] E, í hæfi (hófi, hndr.) A.

23. Erindi fjögur[1] upphafsversa,
endi líka kvæðis þessa
maður snjall[2] í mærð nam pressa[3]
[og máli[4] fyrir greiddi;
kerlíngin eyddi;
annar gjörði í miðið messa
í Mævils far, er[5] nagla sló.
Kerlíngin eyddi
en karlinn að dró.

Hrs. Sv. Grs. 67, Arch. L, með hendi séra Jóns Eyjólfssonar eptir Ólafi bónda Jónssyni á Atlastöðum = *A*. Hrs. Bmfj. 633, 8vo, Þórkatla hin meiri skrifuð af Þorkatli lögréttumanni Jónssyni á Hrauni í Grindavík = *B*. Hrs. Bmfj. 734, 8vo, Stokkahlaðabók, skrifuð af Þorsteini Gíslasyni á Stokkahlöðum = *C*. Viðkvæðið og nokkur hluti úr 15. er. í Orðabók Jóns Ólafssonar frá Grunnavík kjöt = *D*. Hrs. Bmfj. 340, 8vo, skrifað af séra Stefáni Þorsteinssyni á Völlum 1836—1837 og er sumstaðar færður til orðamunur = *E*. Séra Stefán kallar kvæðið »gamalt kvæði«. Kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum I, nr. 260 og er eignað þar Jóni presti Þórðarsyni [á Hvammi í Laxárdal † 1689], sbr. hrs. Bmfj. 614, 8vo. Enn hefir kvæðið verið til í hrs. Bmfj. 150, 8vo, og eignað þar séra Jóni Hjaltalín, en handrit þetta er nú týnt.

II.

Sum erindi í kvæðinu eru varla jafngömul og kvæðið sjálft og hefir þeim verið bætt við seinna. Ekki er þó hægt að vinsa þessi erindi úr, en hér eru tvö er., sem telja má víst að séu viðbót seinni manna.

Náði hann þúsund fimm af flyðrum
fimm hákalla og laungu sliðrum,
í bagga þetta batt[6] með hryðjum,
búsins heim til leiddi;
kerlíngin eyddi.
[Girnd] tók sult úr grön og iðrum,
gjörði að eta þar til spjó.
Kerlíngin eyddi
því karlinn að dró.

Drósin vilt í drykkjurússi
deildi á karl með höfuðfússi,[7]
var hann samt með vissu stússi.
veizlur henni reiddi;
kerlíngin eyddi.
Lék hann sér þá linti pússi,
lífið, brjóst og huppa kló.
Kerlíngin eyddi
því karlinn að dró.

*E.*

## [Malpokakvæði].

Sorg er nú að segja frá
svinnum bauga línum
hvað maðurinn misti[1] úr malpokanum sínum.

1. Einn fekk frískur örfa grér
með æði mikinn baga,
gjóstu veðrið gekk þá hér
gjörðist af því saga.

---

[1] nokkur C. [2] snjalt E. [3] C. [4] C. [5] tólf B. [6] eða braut. [7] eða ofsasnússi.

Alkunnugt það orðið er
alt hvað misti' hann ofan í á.
Sorg er nú að segja frá.
Til bar þetta, trúðu mér.
Teiknað er það í línum
hvað maðurinn misti' úr malpokanum sínum.

2. Fiskurinn allur fell í fljót
fimtán heilar vættir,
valið þar með vefjargrjót
og vetlíngarnir bættir,
leðurskæði' og léreptsbót,
lifur í burt úr geldri á,
S. e. n. a. s. f. —
skorpinn þar með skötufót,
skarlats sagði línu
— h. m. m. ú. m. s.

3. Vaðsteinarnir voru þar
víst að hyggju minni
hundruð fimm, sem helt að mar
halur á æfi sinni,
kistur átján kalkaðar
kostulega með S. og Á.
S. e. n. a. s. f. —
Ekki segist á því par
þótt öfugt standi á línu
— h. m. m. ú. m. s.

4. Int er mér að ostar tólf
þar innarlega væri
harðir eins og hallargólf
og hundrað tunnur af snæri;
askur einn með endakólf
innst í horni þar var hjá,
S. e. n. a. s. f. —
hnappur einn með herlegt hvólf
hagleik meður fínum.
— h. m. m. ú. m. s.

5. Þar voru' inni þrjátíu ær
og þúsund mjaðarkútar,
lýsistunnur tíu' og tvær,
tuttugu' og fjórir hrútar,
artugt líka uxalær
innst í horni þar var hjá,
S. e. n. a. s. f. —
öskjur fimm með odda rær(!)
og ok í burt af svínum.
— h. m. m. ú. m. s.

6. Herlegar voru þar húðir þrjár
hagldir sex og níu,
ullar vindill ekki smár
og einglar[1] nær þrjátíu.[2]
Hæru[3]sekkur hekk þar grár
hestar tólf og baldinbrá,
S. e. n. a. s. f. —
stórkostlegur stóð þar lár[4]
stappaður upp af brýnum.
— h. m. m. ú. m. s.

7. Sængurklæðin sagt er mér
að silkidregin væri,
á Ísafróni eingin hér
ætla' eg finnist stærri,
með rúnastöfum rituð er
rausnarstór úr Affríkú.
S. e. n. a. s. f. —
Stafngólf átta stóðu með smér
og streingjum búin[5] fínum.
— h. m. m. ú. m. s.

8. Níutíu nornir kall
náðu saman að kritja
bríða(!) höfðu breiða pall
brúðunum á að sitja.
Eitt það ker af eitri svall,
ýta bið eg að því gá.
S. e. n. a. s. f. —
Hvarf það kveinið heims um hjall[6]
og heyrðist org með pínum.
— h. m. m. ú. m. s.

[1] eingli, hndr. [2] fimtíu B. [3] hæri-, hndr. [4] sár B. [5] búnum, hndr. [6] fjall, hndr.

9. Þar var inni þegninn Þór
og þussar margir fleiri,
sem vafrað höfðu um vinda kór
og varið sig með geiri,
Brúsi jötunn brigðu stór
og brúðurin Þorbjörg honum hjá.
S. e. n. a. s. f. —
Styrjöld hyskið stofna fór,
stríðs var lokið pínu.
— h. m. m. ú. m. s.

10. Heyra mátti hróp og sköll
hestahljóðs og manna,
bifuðust[1] líka björgin öll
af braki hrímþursanna,
róluðu þar með riðu tröll
og rifnuðu þá mest á lá.
Sorg er mér að segja frá.
Ljóðin gjörvöll linni snjöll,
lokið er kvæðunum mínum.
Misti hann það úr malpok
um sínum

Kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum I. Hrs. J. Sig. 254, 4
nr. 255; Rask 86, 8vo, bl. 66—68.

## Hattvísur.[2]

1. Til skemtunar eg skýri frá
[ef skatnar vilja hlýða,[3]
höfuðklæði eitt eg á,
ei fæst þvílíkt víða.
2. Hattur er það með hagleiks art,
herlega umvendaður;
bæði er að honum skjól og skart,
eg skrökva það ekki maður.
3. [Hver hann setur höfuð[4] á,
hér skal rétt um bera,
í manna tölu meiri sá
mun þá[5] haldinn vera.[6].
4. Ýtum geri eg á því skil,
eingan svo það villi,
í Rómaborg[7] var[8] búinn til
[með beztu hagleiks[9] snilli.[10]
5. Meistarar þrír, eg mæla kann,
með manndóms orku freka
í þrjú ár voru að þæfa hann,
því mun hann ekki leka.
6. Þeir hafa eflaust, þess er von
þegið ómakstollinn.
Borðinn kom frá Babýlon,
sem bundinn var um kollinn.
7. Svoddan þíng ei þénti par
þeim sem voru á snáfi,
um alla sína æfi hann bar
Adrianus[11] páfi.
8. Er hann nú kominn á Ísafró
eign eg mína kalla;
þá er uppi annar són,
á honum helzt mér valla.[12]
9. Amtmaðurinn, eg vil tjá,
við ærna makt sig styður,
hattinum mínum hann vill n
hvað mér geðjast miður.[13]
10. Fógetinn vill fá sér hatt,
mig furðar[14] á því skvaldri;
þeinki eg víst og það er satt,
þenna fær hann aldri.[15]

---

[1] bifaðist, hndr. [2] Hattkvæði D. [3] B. [4] D. [5] CD. [6] Er. vantar í
[7] Baldack C. [8] CD. [9] beint með hefð og A. [10] Er. vantar í
[11] Andrés herra B. Adrianus = Hadrianus mun þó vera réttara. [12] E
vantar í BD. [13] Er. vantar í B. [14] C; firnar AD. [15] Er. vantar í B.

11. [Nú er lögmann[1] Níels Kjær[2]
[nógu harður aðgaungu;[3]
samt mun hann ekki setja af mér
svoddan þíng[4] með raungu.[5]
12. Herra Sigurð[6] heyri eg nú
hattinn vilja eiga;
falla mun honum flísin sú,
furða skal mig mega.[7]
13. Landskrifarinn lista hreinn
litast opt um bekki,
hann vill af mér hattinn einn
hafa, en fær þó ekki.[8]
14. Af herra Oddi[9] hefi eg beig,
hann er sagður frekur;
þykir mér hann gera geig,
ef góða hattinn tekur.[10]
15. Lögmaðurinn Lauritz[11] ber
listakosti sanna;
hann mun vilja hafa af mér
hattinn fyrstur manna.[12]
16. Hræddur er eg við herra Pál,[13]
hann kann margt að tala;
þú sannar þó það sýnist prjál[14]
samt mun hann hattinn fala.[12]
17. Herra biskup[15] Hólum frá[16]
höldum bannar pretti,[17]
[veit eg hattinn vildi fá
víst ef til hans[18] frétti.[19]
18. Þá vicelögmann valinn hatt
veit mig slíkan eiga,
kemur hann hér, eg kveð það satt,
og kaupa læzt hann mega.[20]
19. Sýslumenn að sagt er mér
silfrið fyrir hann bjóði,
prestagrúinn[21] allur er
í því sama hljóði.
20. Stúdentarnir stara þó,
stundum slíkt ei dylja,
að klausturhaldara kemst eg mó,
þeir kaupa hattinn vilja.[22]
21. Lögreglumenn ljóst eg finn
látast mig nú þéra;
hreppstjórar fyrir hattinn minn
hafa nóg að bera.
22. Sel eg hann aldrei, segi eg það enn,
að[23] sjálfs míns [eigin losta;[24]
þó mega[25] heyra hyggnir menn
hvað hann [á að kosta.[26]
23. Hann skal kosta hafskip bezt,
heilfraktað[27] af dölum,
Skriðuklaustur, skreiðarlest
og skák af tönn úr hvölum.
24. Þó vil eg hafa í þokkabót
þetta rétt með sönnu:
[sexrætt skip með[28] selanót
og sjöfjórðúngapönnu.
25. Samt er hann ekki seldur dýrt,
segi eg það hver sem biður;
hjá honum þetta reynist rýrt
ef reiknað er það niður.[29]

---

[1] líka D. Frá [ Ná vill honum C. [2] Níels Kjær varð varalögmaður 1717, en lögmaður var hann 1728—1730. [3] í næsta harðri gaungu D. [4] hatt C. [5] Er. vantar í B. [6] Sigurður Björnsson var lögmaður 1677—1705, en dó ekki fyr en 1723. [7] Er. vantar í BCD. [8] Er. vantar í BCD. [9] Oddur Sigurðsson lögmaður 1715—26. [10] Er. vantar í D. [11] Lauritz lögmaður Gottrup 1695—1714, dó 1721. [12] Er. vantar í BCD. [13] Páll Vídalín lögmaður 1706—1727. [14] brjál A. [15] Gísli D, rángt að öllum líkindum. [16] þ. e. Steinn biskup Jónsson, dó 1739 [17] hrekki D. [18] Hattinum hefir hugann á helst því til hans C. [19] Frá [ hattinum mínum hann vill ná | hvað mér líkar ekki D. Er. vantar í B. [20] Er. vantar í BCD. [21] prestamúgurinn B. [22] Er. vantar í BCD. [23] B. [24] vilja eigin C. [25] B. [26] kosta megi C. [27] háfarmað B. [28] sexæríng og BC. sexræðing og D. [29] Er. vantar í B.

26. Einhver kannske meini mér
mál sé nú að þagna.
Ljóðin þanninn lyktast hér.
Lukkan styðji bragna.

Einarsbók dr. Jóns þorkelssonar ýngra, skrifuð í Gaulverjabæ 1780—1785 af Hannesi Kolbeinssyni = *A*. Hrs. J. Árn. B XIX, 8vo, frá Brynjólfi Jónssyni á Minna-Núpi, eptir minni Gunnhildar Jónsdóttur = *B*. Hér er farið eptir afskript dr. Jóns þorkelssonar ýngra eptir afskript Jóns Sigurðssonar. Hrs. Bmfj. 19, 8vo = *C*. og segir þar, að kvæðið sé eptir séra þ. J., þ. e. þorstein prest Jónsson að Dvergasteini. og getur það þó varla verið tímans vegna. Fróðlegt Ljóðasafn II, bls. 83—85 = *D*. Kvæðið er gefið þar út hraksmánarlega, og vantar, meðal annars, átta erindi. Kvæðið mun vera ort um 1720.

## Hattkvæði.

Einn er hattur í eigu mín,
þó ekki sé eg ríkur,
yfir um hafið einginn siglir slíkur.

1. Á Eyrarbakka út kom hann,
að mér dreg eg málsháttt þann:
hann sem heiðrar hamíngjan
hefir flest á valdi sín,
einn er hattur í eigu mín;
fyrir lítið verð mér lánaðist hann
og léntist feingur ríkur;
yfir um hafið einginn siglir slíkur.

2. Fyrir hvíta sokka og hraðan hest,
hundrað sauða og skreiðarlest;
eptir stendur upp á frest
átján pör með sokkalín;
einn er hattur í eigu mín.
Hann hæfir bezt fyrir höfðíngsprest
og horskar dándispíkur;
yfir um hafið einginn siglir slíkur.

3. Hákon smiður smelti hann,
sem smíðaði margan kóngarann.
þorbjörg digra þæfa vann
þó fyrir Rúdent[1] bróður sín;
einn er hattur í eigu mín.
Loki og Lúpus lituðu þann
með logandi Fofnisbríkur;
yfir um hafið einginn siglir slíkur.

Afskript dr. Jóns þorkelssonar ýngra eptir Bergsbók Jóns Árnasonar, með hendi séra Ásgeirs Bjarnasonar.

## Hattskvæði.

Í Hollandi eg [hattinn fekk,[2]
hann[3] hagar[4] mínu lyndi,
forðar hann hríðum, frosti, snjó og vindi.

1. [Hugur er mér[5] að hefja óð
af hatti einum, nokkur ljóð,
svo skynja mætti skýrleg þjóð
hvað skilur þíngin ill og góð:

---

[1] þorbjörg digra og Rúdent koma fyrir í sögunni af Hermann og Jarlmann.
[2] hatt fekk þann B. [3] sem B. [4] hagar vel B. [5] Held eg þörf.

lukkan mér svo liðug stóð,
að láníð alt að höndum dró;
forðar hann hríðum, frosti, snjó.
Hug minn furðar í hyggju slóð
hvað hamíngjan til mín myndi.
Forðar hann hríðum, frosti, snjó
og vindi.

2. Upp skal telja af honum það
sem eg kem nokkrum[1] orðum að;
skilur svo maður skjótast það
hvað skrafast um hann í hverj-
um stað,
af álögum þeim, sem undirtrað,
ef aðkast nokkur að honum dró;
forðar hann hríðum, frosti, snjó.
Forlíkunar fólkið bað,
eg fyrirgaf svoddan blindi;
forðar hann hríðum, frosti, snjó
og vindi.

3. Skapfeldlegur, skilja má,
skartar vel á höfði sá,
því hann er eins og þyrill að sjá
eða þykkvan bolla' úr eikislá.
Hvaðan sem veðrið veifar á,
eg veit það gjörla' um lönd og sjó,
forðar hann hríðum, frosti, snjó,
í lóna á honum leggur þá
sem lítið fjúk á dyndi;
forðar hann hríðum, frosti, snjó
og vindi.

4. Ekki eru' á honum ýkja börð,
alt er þar í máta;
húfan er af gulli gjörð,
geysiþykk sem pláta;
lafa á honum laufaskörð,
leiptur ber um fold og sjó;
forðar hann hríðum, frosti, snjó.
Vinna' ei á honum veðrin hörð,
hann vermir mannsins lyndi;
forðar hann hríðum, frosti, snjó
og vindi.

5. Þó detti hann ofaní djúpan hyl,
dynur í fossi saurugt gil,
hann er þá sem heflað þil
eða hagkvæmlegasta málað spil;
ef óvart hann eg eptir skil
að eingri skemtan verður ró;
forðar hann hríðum, frosti, snjó,
eg hrín þá upp í hverjum byl
og hleyp svo heim með skyndi;
forðar hann hríðum, frosti, snjó
og vindi.

6. Hver ein meyjan sem mig sér
í sínum huga þeinkja fer
af alúð strax að unna mér,
af öllum kostum þessi ber,
á hattinum þeirra hugurinn er,
þær hafa varla fyrir því ró;
forðar hann hríðum, frosti, snjó.
Ljómar á hann sem logi gler
eða leiptur af sólu dyndi;
forðar hann hríðum, frosti, snjó
og vindi.

7. Seytján dvergar sex og þrír
settu á hann öll lifandi dýr,
sem gánga í kríng með gull og vír,
gjörist sú ekki listin rýr,
með saumletur og silfrað flýr
af sveitum þeim, sem áður dó;
forðar hann hríðum, frosti, snjó.
Sagan mörg af skötnum skýr
skráð er þar með yndi;
forðar hann hríðum, frosti, snjó
og vindi.

[1] eða réttum.

8. Rollants saga er rend á hann
og ritað um sérhvern afreksmann,
trygðalið það Tróju vann,
um Tryggva, Hring og þeirra
bann
og Karlamagnús þeingil þann,
sem þjóðir margar heiðnar sló;
forðar hann hríðum, frosti, snjó.
Alt er ritað upp á hann,
sem innst á bókum fyndi;
forðar hann hríðum, frosti, snjó
og vindi.

9. Kónganöfn eru' á honum hæst
herdátum, sem þar er næst,
löndin öll, sem fregn til fæst,
fögru letri skorið og glæst,
hurðin hver með loptum læst
límd við kollinn eins og þró;
forðar hann hríðum, frosti, snj
Opt hafa tröllin um það þræt
hvað á honum kosti fyndi;
forðar hann hríðum, frosti, snj
og vindi.

10. Í hann unnu um árin þrjú
Arinnefja og Lúpa frú,
Andramóðir og Ígrá sú,
sem Alba forðum reyndist trú
Aspar risi og öll hans hjú
með öflgri[1] sinni þæfði kló;
forðar hann hríðum, frosti, snjó
Þorbjörg digra reitti rú
með röskri sinni hendi;
forðar hann hríðum, frosti, snj
og vindi.

Afskript dr. Jóns Þorkelssonar yngra eptir Bergsbók Jóns Árnasonar, bls 105—109. Líka í hrs. J. Sig. 231, 4to (Þingeyrabók), bls. 368—71. Við kvæðið í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns stúdents Marteinssonar (hér um bi 1750) — *B.*

## Hettusálmur.

1. Heyri lýðir hróðurs efni,
hettu vantar sauðamann,
átti að hirða auðargefni,
álma bendis þjónustan
— — — —
nokkuð hafi leitað hann.

2. Bæjardyrnar allar innan
einninn loptin kanna fór.
Aumkast margur yfir svinnan
út af slíku hjálma Þór.
Flestra trúi' eg vetrarvinnan
væri þessi leitin stór.

3. Baðstofuna, búrið og skálann
bæði port og steikarahús
ljóst um gjörði lundur stála
leita, nóg til þessa fús,
eins og vildi vírnum nála
vinsa eður færilús.

4. Krór og hirzlur allar inni
uppi' og niðri, hvílubeð,
bragnar rétt að beru skinni
buðu honum leita með;
síðan þiðast að eg inni
utan bæjar skoða réð.

5. Hesthús, fjósið, heygarð, smiðju,
hjallinn, skemmu, fjárhúsin,
tóptarbrot í túni miðju,
teiga, völl og björgin stinn,
kannaði alt með kalda iðju
kendur sauðahirðirinn.

6. Landeign alla leita náði,
líka bygð og heraðeð,
sjó, afrétt með sveita láði,
sýslur, fjórðúng, lögdæmeð:
bæði' um fjöll og botna gáði,
biskups stólar fylgdu með.

[1] efldri.

7. Ísland gjörvalt, um eg spjalla,
eptir hettu spyrja vann,
huld[u]fólk og álfa alla,
einninn dverga steins í rann,
tröllin með á fróni fjalla;
fundið hvergi getur hann.
8. Síðan út í sent var Kína
sagðar meður lýsingar;
Hottentottur hver einn sína
hettuskömm á höfði bar.
Ei vill þessi ánauð dvína,
ekki var hún fundin þar.
9. Múspells synir, mjög sem herja,
meður hnoss(!) miða ljá,
glaðir vilja sögðust sverja
sína fyrir bræður já.
Þeirra trú er til að verja,
tölum við ekki neitt um þá.
10. Einherjar í Ásgarðs höllu,
Æsir tólf og valmeyjar
glaðir meður gjallars bjöllu
gáfu fyrir þingheim svar,
sögðu' að væri af með öllu,
að hún skyldi finnast þar.
11. Ginnúnga um gapið breiða
gjörð var leitin Hárs á mey,
berserkirnir buðu eiða
brátt, að fyndist hjá þeim ei.
Skrælingjar með skikkun leiða
skörulega sögðu nei.
12. Til Nástranda meður móði
mætur hirðir senda svar(!).
Bæði Hel og Baldur hinn góði
blikandi og Niflúngar
önsuðu í einu hljóði,
að eingin hetta væri þar.
13. Út lét gá til Affrí[k]ana
örfafleygir [boðskap] sinn.
Katólskur með kíminn vana[1]
og Kalvínista þjóð ósvinn
sögðust ekki hafa hana
heldur en sjálfan pokurinn.
14. Tartarar af túni léttu,
troglodýtar[2] fylgdu með,
Finnar vanir galdra glettu,
Gyðíngar og sæfólkeð
þóttust eingir þessa hettu
þar um bygðir hafa séð.
15. Kardínála kynstur stóru,
klerka mergð og páfi' í Róm
afneitandi víst að vóru,
viljugir í einum hljóm;
múkar viður margir sóru
mítur sín og helgidóm.
16. Mahómets[3] var könnuð kirkja,
kapellur og goðið Freyr,
síðan út til sent var Tyrkja,
sögðu eins og hinir þeir.
Leiðast tekur um að yrkja
ófögnuðinn slíkan meir.
17. Eg nú vendi Ása minni,
einkennunum greini frá,
víðri ef í veröldinni
væna hettu feingi sjá,
svo að smalinn síðar kynni
setja mítur höfuð á.
18. Löguð var í löskum fjórum
listavel sem greinir hér,
illa lit með stakki stórum,
stóð eitt upp á henni der,
hlífði allvel heyrnar ljórum,
hálsinn var þó ætíð ber.
19. Allra mesta þíng var þetta,
þokkasamlegt sparifat.
Vænni aldrei vetrarhetta
virða neins á höfði sat;

[1] vánga, hndr. [2] tróglódýer, hndr. [3] Macatmets. hndr.

ef að höfð var ofanfletta,
eingum sálgað kuldinn gat.
20. Haraldur sem hermir letur
hafði einn af gulli strút,
margir segja miklu betur
máluð þessi sé í lút.
Kæmi hún til vor í vetur
verða mundi boðið út.
21. Læt eg alla lýði frétta
ljúfa[1] nú hvað geingur á hér.
Nokkrum árum eptir þetta
áðurnefnda höfuðker
þjónustan með návist netta
nam að finna undir sér.
22. Sampleðjist með sverðarunni,
sína hettu finna vann,
lángt yfir skamt þó skygnast kunni
skörulegur sauðamann,
því uppundir þjónustunni
þeygi gáði' að leita hann.

Hrs. Bmfj. 372, 8vo. Hettuljóð (45 erindi) eru í Kvæðabók Gunnlaugs Skuggabjörgum I. nr. 91, sbr. hrs. Bmfj. bls. 614, 8vo. Í sömu bókinni (n: 241) er líka hattkvæði með þessu viðlagi:

Áður á tíðum einn var sá,
aldrei lof hans dvín,
hann stikaði hamarinn
með hattinum sín.

## Húfukvæði.

Eina húfu á eg mér,
er hún úr prjónabandi;
veit eg einga vænni hér á landi.

1. Í hana er spunnið hý og rokkur
hér með líka skíða lokkur,
mig þá lítur meyjaflokkur
margur varla þetta sér;
eina húfu á eg mér;
ef einginn finnur að henni nokkuð,
er eg þá síbrosandi;
veit eg einga vænni hér á landi.
2. Krotuð öll með krystalssteinum,
kóngi var það gjört af einum,
letruð og með ljósum greinum,
ljómar öll með grábaks[2] sker;
eina húfu á eg mér.
Í eldi trúi'eg sá aldrei brenni,
er hana' á höfði þandi;
veit eg einga vænni hér á landi.
3. Bethanía borg á henni
baldérað var framan á enni,
Indíafólkið alt þar kenni
og alla[n] þúsund skipa her;
eina húfu á eg mér.
Þeim kann verða minnst að meinum.
sem með hana er farandi;
veit eg einga vænni hér á landi.
4. Herkúles og Ektor er
efst á hennar kolli,
Alexander og hans her,
einninn heimski Bolli,
Ólaf kóng og Ólífer
albrynjaða sjáið þér;
eina húfu á eg mér.

---

[1] lófinn. hndr. [2] grebags, hndr.

Já[t]mund sterka sveitin sér
sínum veifa brandi;
veit eg einga vænni hér á landi.
5. Þér munuð kappa Þiðreks tólf
þar með fá að skoða,
gamla Hreggvið og Gaungu-Hrólf,
geta þeir eingan voða,
Eirík rauða og Íngólf,
Ísaland sem bygðu hér;
eina húfu á eg mér;
Otúel með sinn andakólf
upp í Lángi standi;
veit eg einga vænni hér á landi.
6. Babylon við annað eyra
og öðrumegin nokkuð meira,
ríkin öll og runnar geira,
réði fyrir konúngur hver;
eina húfu á eg mér.
Hvað viljið þið nú hafa það meira?
Um hana er sítalandi;
veit eg einga vænni hér á landi.
7. Fyrst mig eingin fljóðin hata
flestir munu það halda bata
að hafið þið til höfuðfata
henni líkt að sýna hér;
eina húfu á eg mér.
Hún er líka hál sem skata,
höndlar einginn andi;
veit eg einga vænni hér á landi.
8. Astronomia, Elína fína,
Alba litla, Valintína,
hafa sett á húfuna mína
hundrað þúsund skipa her;
eina húfu á eg mér.
Þar fyrir má á höfði hlýna
hart þó norðan andi;
veit eg einga vænni hér á landi.
9. Hennar upp við hnakkann bindur
húsin, fjós og allar kindur
keröld, trog og klápa, grindur,
koppar hlands þar fullir er;
eina húfu á eg mér,
haglið, drífa, votur vindur
og vatnið framgeysandi;
veit eg einga vænni hér á landi.
10. Þar á kvikar kálfur blauður,
kapall, hestur, galti, Rauður,
hundur, köttur, hafur, sauður
og hverskyns líka fuglarner,
eina húfu á eg mér,
hákarl, skatan, hvalur dauður
og hafgýgjan kveðandi;
veit eg einga vænni hér á landi.
11. Merkt er á hana meistara setur,
myndin Krists og sánkti Pétur,
loptið, sjórinn, löndin betur,
líf og dauði og alt hvað er,
eina húfu á eg mér,
syndin, frelsi, sumar og vetur,
svartur vítis andi;
veit eg einga vænni hér á landi.
12. Orma deyðir, endíng strauma,
ángursama virðín[g] nauma
við herjans ferju gjörði glauma;
gái þið nú hverninn fer;
eina húfu á eg mér.
Hér er eg laus við hennar sauma,
hefir þökk kveðandi;
veit eg einga vænni hér á landi.
13. Fjalars valur falur skal
falla á arnar heiði,
Kjalars malað kalið tal
kafna og hafuir eyði,
balið Dvalins fýla fal
falli og halli þar hún er;
eina húfu á eg mér.
Endi eg lendi alið hjal
Óma róms af blandi;
veit eg einga vænni hér á landi.

Afskript dr. Jóns Þorkelssonar ýngra eptir hrs. J. Sig. 398, 4to.

Eina húfu á eg mér,
er hún úr prjónabandi.
Veit eg einga vænni hér á landi.

1. Kómentuð með kristalssteinum,
kóngi var [hún gjörð[1] hjá einum,
letrið stóð með ljósum greinum,
ljómar eins og grábaks sker:
Eina húfu á eg mér.
Metast [kann] ei af manni neinum
á mold eður þrimlíngs bandi.
Veit eg einga vænni hér á landi.

— — — — — — —

Hrs. Bmfj. 43, 8vo. Í hrs. Bmfj. 150, 8vo, hefir verið húfukvæði með þess viðlagi, hvort sem það hefir verið þetta kvæði eða »Í hana er spunnið hý o rokkur«. Handritið er nú týnt.

Eg hnýti hér aptan við tveimur kvæðum, sem ekki eru nein veruleg ýkjukvæði, en þó keimlík þeim.

1. Bændurnir brúka borðahatt,
bændurnir gjalda kóngi skatt,
bændur í orfið binda ljá,
bændur gæðíngum fljúga á,
bændurnir húsin byggja ný,
bændurnir ríða kaupstað í.
2. Prestarnir hafa parruk hvítt,
prestarnir kenna orðið títt,
prestarnir opt á pelann fá,
prestarnir skíra börnin smá,
prestar samteingja pilt og mey,
prestar afleysa hvinn og grey.
3. Biðillinn brúkar borðahatt,
biðillinn ríður hesti glatt,
biðillinn finnur blómarós,
biðillinn leiðir með sér drós,
biðillinn ber upp bónorðsskrá,
biðillinn stendur fattur þá.
4. Brúðguminn sækir bráðan hest,
brúðguminn finnur mætan prest,
brúðguminn segir: »Býð eg þér
brúðargestur þú sért hjá mér,
brúðhjónin saman bánga nú,
brúðarsængina krossar þú.«
5. Ýngismenn hafa annan sið,
ýngismenn tala stúlkur við,
ýngismenn kyssa úngar frúr,
ýngismenn sofa hjá þeim dúr.
ýngismenn barmi opnum slá,
ýngismenn prýða fötin blá.
6. Húsfreyjur skamta hollan mat,
húsfreyjur bæta rifið fat,
húsfreyjur skattinn hjúum fá,
húsfreyjur kefla tröfin smá,
húsfreyjur skyrið hleypa nýtt,
húsfreyjur stunda búið títt.
7. Askana bera úngar frúr,
askarnir komast fram í búr,
askarnir drafla öðlast skyr,
askana skafa spænirnir,
askana lauga ágæt fljóð,
askana bakar mjólkin góð.

[1] það gjört. hndr.

8. Mjólkin útþenur meyjarkvið,
mjólkina drekkur húsgángslið,
mjólkin úngbörnin metta kann,
mjólkin nærir vel dauðþyrstan,
mjólkina sumir meta' ei par,
mjólk gjörir píkur stélvisnar.
9. Draflann eldsúran dýrka fljóð,
draflinn er svaungum hressíng góð,
drafli rauðvelgdur dámar vel,
draflinn meyjanna þéttir stél,
draflann ei húsgangs dónar fá,
draflakjúkunni reknir frá.
10. Meyjarnar eyða matnum lítt,
meyjarnar prjóna lesið hvítt,
meyjarnar hafa mjúkan kvið,
meyjarnar elta sveina lið,
meyjarnar herða mittisbönd,
meyjarnar raka slægjulönd.
11. Karlarnir berja krumpinn sláp,
karlarnir brúka mikið ráp,
karlar þæfa með kampinn grá,
karlarnir egg í launin fá,
karlarnir flétta kúabönd,
karlarnir moka fjósalönd.
12. Rassvisinn töglar roðin hörð,
rassvisinn herðir náragjörð,
rassvisinn drekkur rjóma ei,
rassvisinn aldrei kyssir mey,
rassvisinn vísur raulað gat,
rassvisinn opt í myrkrí sat.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. H, hönd Guðmundar Sigurðssonar á Loptsstöðum.

## Hanns vísur.

1. Hann er að draga hníf á stein,
hann er að saga timbur,
hann er að naga hryggjarbein,
hann er að laga mærðargrein.
2. Hann er að skera haus af kú,
hann er að bera' inn slátur,
hann er að þéra heiðursfrú,
hann er að gera' á keldu brú.
3. Hann er að gala hátt um frón,
hann er að smala kindum,
hann er að mala hafurgrjón,
hann er að ala beizlaljón.
4. Hann er að kríta' á hurðirnar,
hann er að víta meingi,
hann er að líta hér og hvar,
hann er að skíta' í buxurnar.
5. Hann er að mala heyrist mér,
hann er að fala baunir,
hann er að tala, helzt um smér,
hann er að ala stálagrér.
6. Hann er að amla, hrumur þó,
hann er að svamla víða,
hann er að damla hægt í snjó,
hann á gamla svarta skó.
7. Hann er að smala hestunum,
hann er að mala grjónin,
hann er að gala' í húsunum,
hann á tal með piltunum.
8. Hann er að spinna' í hosurnar,
hann er að tvinna bandið,
hann er að vinna hér og þar,
hann er að finna stúlkurnar.
9. Hann vill gróðahöppin fá,
hann [vill] fljóðin kyssa,
hann er að bjóðast hér að slá.
hann er að sóðast til og frá.
10. Hann er að brjóta harðan ljá,
hann er að móta köku,
hann er að skjóta hrafna þrjá,
hann er að þjóta til og frá.

11. Hann er að tinda hrífurnar,
hann er að vinda' af snældu,
hann er að binda hófamar,
hann er að synda móðurnar.

12. Hann er að skrýðast herklæðum
hann er að kvíða eingu,
hann er að prýðast Hárseldum
hann er að stríða í bardögum.

Hvarfsbók frá Þorsteini Þorkelssyni á Syðra-Hvarfi í Svarfaðardal II, nr. 14
og er kvæðið með hendi hans sjálfs. Hndr. þetta er í áttablaðabroti og er eign
Bmfj., en ekki er það skrásett á prenti enn sem komið er. Í innihaldi bindisins
eignar Þorsteinn vísur þessar Benedikt og Kristjáni Hvassafellsbræðrum, en rétt-
ara mun að trúa að vísurnar séu eptir marga menn eins og »Finnavísur«, »Gríms-
vísur« og fleiri slíkir bragir.

II.

1. Hann er að pínast hólnum á,
hann er að grína' í skárann,
hann er að brýna harðan ljá,
hann er að sýnast við að slá.
2. Hann er að skella hólinn á,
hann er að fella grasið,
hann er að vella' út hrákum grá,
hann er að smella brýni' á ljá.

3. Hann er að greiða' um hólinn stjá
hann er í gleiðarmáti,
hann er að reiða höggs til ljá,
hann er að sneiða sundur strá.
4. Hún er að spinna hraust og ótt,
hún er að grynna' á kembum,
hún er að tvinna' af hörðum þrótt,
hún er að vinna dag og nótt.

Hrs. Bmfj. 637, 8vo, Vísnakver Sigfúsar Jónssonar á Laugalandi í Eyjafirði,
og eru vísurnar eptir hann.

---

# Fuglakvæði.

Þetta kvæði heitir **fuglakvæði**, hvert að framanverðu ort hefir Þorleifur h[eitinn] Þórðarson.

Furðu kann eg fátt af skemtaninni
Ísalands þó fuglanöfn eg finni,
eptir því sem mitt er mál og minni.

1. Óðinshaninn, örn og hrafn
er það þriggja fugla nafn,
valur og smyrill veiða tafn,
vill þeim hegrinn heita jafn;
reisi eg upp þann reglu stafn
í ræðu minni,
eptir því sem mitt er mál og minni.

2. Enn eg nefna skrofu skal,
skúm, geirfugl og svarbakal
skarburinn málar skerjafal
en skríkjan herðir gómagal.
Herjans þanninn horna sval
hef eg í ræðu minni,
eptir því sem mitt er mál og minni.

3. Súlan, tildran, svanur og már
sýngja vel þá gott er ár,
firna er stelkur fótahár,
en fýlúngurinn er einninn grár,
rindillinn trúi eg reiknist smár
og rýr í gagnsemdinni,
eptir því sem mitt er mál og minni.

Hér fellur Þorleifur frá, en karlinn Jón Guðmundsson bætir við og segir:

4. Igðan, kofan, ört og önd
jafnan þvo sín fitja bönd,
og brimmáfur á báru rönd,
en brúkar spóinn mýrar lönd,
selníngur með sjávar strönd
sést þó lítið vinni,
eptir því sem mitt er mál og minni.

5. Byggir álkan björgin hörð
þá býr hún sína hreiðurs gjörð,
lángvíginn um lón og fjörð
lætur upp sín góma skörð,
lundinn grefur loðna jörð
og leynir sér þar inni,
eptir því sem mitt er mál og minni.

6. Blákollur við báru grand
brúkar stundum vatn og land,
straumkrákan þar stár í bland
og steindepill með sitt forstand,
þá menjan treður mjúkan sand
meina eg fjúkum linni,
eptir því sem mitt er mál og minni.

7. Ræði eg lóm og rosagauk
róma hátt þá hríðin rauk,
margt fer kjóinn mýrar slauk
þá myndar hann sér heiðurs bauk;
viðarkorn og vetrarlauk
vona eg rjúpan finni,
eptir því sem mitt er mál og minni.

8. Tjaldur, gæs og toppönd grá
tríta jafnan eyjum á,
en heimbriminn við hrannar lá
hljóðar helzt þá vindum brá;
þúfutitlíng þekkja má
því hann er flestum minni,
eptir því sem mitt er mál og minni.

9. Hávellur um humra mið,
helsíngjar með annan sið,
þar sem svalan þolir ei bið
þjónar rytan sínum klið,
þeyló elskar þurlendið,
en þrestir um skóga inni,
eptir því sem mitt er mál og minni.

10. Æðurin reytir af sér dún,
þá eggjum sínum verpir hún,
hatar ei sorpið hænan brún,
en heimgæsirnar bíta tún,
maríetlan þó minki lún
meina eg Ísland finni,
eptir því sem mitt er mál og minni.
11. Pelecanus prýðir flest,
en páfuglinn ber skrautið mest.
halkion á hafinu sést,
hirðir tranan sumarið bezt,
optast dúfan einföld tést
í náttúru sinni,
eptir því sem mitt er mál og minni.
12. Út í löndum nægt er nóg
af náttuglum og papagó,
mér er sagt hún mæli þó
og mönnum hjá sér hreiður bjó.
Efnið máls og sónar sjó
sýnist mér um grynni,
eptir því sem mitt er mál og minni.
13. Um hana og blika hermi eg minnst,
því hvor með sínu perinu[1] finnst.
fleira ekki í fræðið bindst,
það fylgist meðan veröldin vinnst;
rjúpkerranna rómur innst
rómar úti og inni,
eptir því sem mitt er mál og minni.
14. Dygðir fugla og dásemd þá
dugi eg lítt að inna og tjá,
því maktin guðs er mikil og há,
sem myndaði alt hvað einginn sá,
sólu, túngl og himininn há
og hvað þar byggir inni,
miklu framar en mitt er mál og minni.
15. Sjór og fiskar sýnist mér
og svo það alt, sem um vötnin fer,
ferfætt dýr og fuglarner
það færi prís og vegsemd þér.

[1] = parinu.

Manneskjunni mest þó ber
að miðla lofgjörðinni,
miklu framar en mitt er mál og minni.
16. Dásamlegur drottinn minn,
dýrki nafn þitt hvað eg vinn,
hafið, jörð og himininn
heiðri krapt og vísdóm þinn.
Lof sé þér í sérhvert sinn
sagt, svo aldrei linni,
miklu framar en mitt er mál og minni.

Afskript dr. Jóns Þorkelssonar ýngra eptir hrs J. Sig. 401, 4to, skrifað hér um bil 1650—60. Viðlagið og byrjunin á 1. og 4 er. er í Om Digtningen på Island, 1888, bls. 487, sbr. bls. 485. Jón Ólafsson frá Grunnavík minnist víða á kvæðið í ritum sínum, í Orðabókinni hegri, igða, hrs. Á. M. 975, 4to, 979, 4to og hrs. Á. M. 429, fol., bls. 1367, 1371 (1363), 1374, 1379, 1383, 1384, 1385, 1389.

## Fugla útvegur
kveðinn af Gissuri Jónssyni.

Fólkið hlýði' og hlusti á
hljótt í þánka sínum,
eg er að skikka skipa útveg mínum.

1. Flestir eru farnir til sjóa
fuglar loptsins, sjá má það,
von er þó þeir vilji róa
vetrar eptir stórkostnað,
því skal ýta flóðs á flóa
ferjum ála sem eg má,
fólkið hlýði og hlusti á,
tilfæríngar þarf að þróa
þrótti eptir sínum;
eg er að skikka skipa útveg mínum.
2. Verbúðirnar vil eg standi
veglegar fyrir allra sýn
tvíllaust inn á Tjaldholtslandi,
trúi eg þar sé lendíng fín;
þó kári ofan kveði' af landi,
kólgu birni lenda má,
fólkið o. s. frv.;
nóg er eins gott þó norðanandi
nuddi' af skýja línum;
eg er o. s. frv.
3. Svartbakinn yfir sævar skríni
set eg fyrstan formanninn,
honum piltar fylgja fínir:
fýlúngi og skarfurinn,
már og ritur röskleik sýni,
reyna skúm og dyrðil má,
fólkið o. s. frv.
lángvían ei lagi týnir,
hún leynir ei hraustleik sínum;
eg er o. s. frv.
4. Set eg enn á síldar býli
sjálfan tjaldinn yfir skeið,
þó vargur skýja í voðum ýli,
veit hann rétt af hafnarleið;
með honum séu á kólgu kýli

kjói, spói og lóan smá.
Fólkið o. s. frv.
Karri og stelki dáðir drýgi
á dælu vagni sínum.
Eg er o. s. frv.
5. Sendlíngurinn sé þar líka,
sá hefir marga bratta af þreyð,
kofan, teistan, krían ríka,
kalla eg menta þessa skeið,
hvar skulu finnast hetjur slíkar,
sem hlunna fýlum ýti á lá,
fólkið o. s. frv.
þó í frosti kólni kríkar
þeir kvíða ei dauða sínum;
eg er o. s. frv.
6. Rindil þriðja í röð eg nefni
ramman yfir streingja mar,
sá hefir bæði burði og efni
boðana' að sneiða hér og þar,
þiljur gaukur og þrestir stefni
þúfutístir og játlan blá,
fólkið o. s. frv.
þrællinn lóu hinn listagefni
lalli á róðrardýnum;
eg er o. s. frv.
7. Depill og skríkjan fái að fljóta
frænda músar undir náð,
Máriprompan með skal þjóta,
mörg sú kennir heilnæm ráð,
segi eg þennan sigluhnjóta
sæmilega mentan þá,
fólkið o. s. frv.
þeir munu reyna róðrar klóta
með róstuskorpum sínum;
eg er o. s. frv.
8. Lóminn bið eg að láta flakka
líka út á síldarbeð
þann hinn fjórða ránga rakka
rauðbrystíng og flórinn með,
til grunnúngs skrofa og gæsin blakka
gángi lóan sands þeim hjá,
fólkið o. s. frv.
helsíngjinn með höttinn blakka
hnykki á róðrar dýnum;
eg er o. s. frv.
9. Smirilinn hefi eg beðið að brúka
bókina landa og kompásinn,
þann eg vann með málsnild mjúka,
mér því gagnast hetjan stinn,
þessir skulu hjá honum húka
hrafninn, súla og klumban smá,
fólkið o. s. frv.
Hegrinn vakti drafnar dúka
dýr með þrifnað sínum;
eg er o. s. frv.
10. Geirfugl með þeim gángi á farið
þó gagni honum sjónin lítt,
keldusvín sé bukkað og barið,
ef bátnum getur það ekki ýtt,
blikann heldur enn hafi ei parið
hlýt eg að láta flutníng ná,
fólkið o. s. frv.
Hefi' eg ei fleiri fuglum varið
á fáguðum hafnarskrínum;
eg er o. s. frv.
11. Allir mæltu á móti krumma
mest til lögðu hans óstilt geð,
þjófnað, rán og svika summa
segja þeir honum dratti með,
í þakkarleysi eg læt hann dumma,
ef lafrast gæti smirli hjá,
fólkið o. s. frv.
Trosið mun hann glaður gumma
úr grunnúngunum sínum;
eg er o. s. frv.
12. Örninn sjálfur yfir segi
öllum fuglum dóm og lög
svo þeir rétt sinn sækja megi,
ef sérhver öðrum veitir slög,
stokkhálsaða streingi eg beygi

en stilli í kyrðum málin smá,
fólkið o. s. frv.
Hans ef skikkun hlýða eigi
hels þeir mæti pínum;
eg er o. s. frv.
13. Helgur lundinn hefir að kenna
hópnum fugla lærdóm sinn.
Í umgeingni þeim undan renna
á hann að vera presturinn,
helgan tóninn tempra nenna,
talað getur úr stólnum sá,
fólkið o. s. frv.
flestir virði fuglinn þenna
og fleygi húfum sínum;
eg er o. s. frv.
14. Svanurinn má yfir söngnum ráða,
sá hefir numið tenórinn,
hreifist glaumur heyrnar láða,
hafi bassann gorborinn,
í verinu lífgar lýðinn þjáða
listug röddin tals úr krá,
fólkið o. s. frv.
Eg er ei hræddur um þá báða
eptir nótu línum;
eg er o. s. frv.
15. Torfgrafarálptin telji upp alla,
trúlegur kóngsins skrifari
þá í synd og sektir falla
sínum herra ávísandi,
svo fylkir nái fyrir sig kalla
framsegjandi réttinn þá,
fólkið o. s. frv
Honum held eg vorkun varla
að vaka í standi sínu:
eg er o. s. frv.
16. Fálkinn harði frónið verji
fyrir öllum meinvættum,
upp á það hann eiðinn sverji
einvalds fugla kónginum
að hann stíngi, brjóti og berji
bæði heima og niður við lá.
fólkið o. s. frv
til annara landa ei þó herji
óður í háttum sínum.
Senn er skikkað skipaútveg mínum.
17. Til hópa alt skal andakynið
útvegs þjóna fólki beint,
skuli það kóngsins vera vinir
vakta að þrífa ljóst og leynt;
nóg eru fljótir fuglar hinir
að finna að því er óhreint sjá,
fólkið o. s. frv.
þykjast þeir ei lista linir,
nær lalla á stokkum sínum.
Senn er o. s. frv.
18. Heimbrimann læt eg síðast svalla,
svo er talið á skip mín flest,
lemur hann áfram lestina alla
í Litars knör sem hefi eg fest;
bragar stofn má bútinn kalla,
börnum kvæðið vil eg ljá,
fólkið o. s. frv.
Lagfæri þeir líta á galla
listum eptir sínum.
Nú er o. s. frv.
19. Kenni eg nafn mitt kýli fúið,
keldu lás og sólir tvær,
hraðfelt tár af hlýrnirs rúi
og hesta komna dauða nær,
þar má kalla það sé búið,
þeir hafi sæmd er spélaust sjá,
fólkið o. s. frv.
Málsnild hefir frá mér flúið
og fer að munum sínum.
So er o. s. frv.

Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum J. Sig. 254, 4to, bls. 179—82 (eptir afskript Jóns Jónssonar frá Mýrarhúsum). — J. Sig. 55, 8vo, bls. 88—94.

Kvæði Jóns Guðmundssonar eður **samtal fugla.**

Stígðu' á bátinn stalli minn,
stöðugur er hann á flóði,
megirðu nokkuð miðla' úr þínum sjóði.

1. Stelkur eitt sinn stóð á sandi
stífarlegur sem hans er vandi,
rekka sér hann róa' að landi,
reisir hann þá upp nebbann sinn.
Stígðu á bátinn stalli minn.
»Hver á að stýra hlunna brandi
heilla vinurinn góði?«
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

2. Formann skipsins stóð í stafni,
stoltur þóttist fugla jafni:
»Titlíng hefir mig nefnt að nafni
nærri og fjarri öldin svinn«.
Stígðu' á bátinn stalli minn
»Framgjarn er eg í fugla safni
fersku' að hella' út blóði«.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

3. »Undarlegt mér þykir þetta
þú mig gjörir að nafni frétta.
Hefirðu ekki, hjala' eg rétta,
heyrt opt nefndan titlínginn?«
Stígðu' á bátinn stalli minn.
»Settur er eg til stórra stétta,
stýri' eg ránar gróði.«
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

4. »Fá vil eg af þér far yfir sundið,
fansinn hefi' eg til allan bundið,
gæti' eg kónginn fugla fundið
frétta skyldi' hann örleik þinn«.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
»Völdin há um Viðris sprundið[1]
víst frá eg hann þér bjóði«.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

5. »Þú skalt ekki, þekkur meingi.
þurfa að biðja' um farið leingi.

[1] strundið. hndr.

Sæmd er að flytja svoddan dreingi,
sértu mér nú velkominn.«
Stígðu á bátinn stalli minn.
»Eingan toll þó ferjan feingi
fram skal boðin þér góði«.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

6. »Megum við reisa' upp mastrið hæsta,
með það hafa ráðið stærsta,
lángur ertu á leggjum næsta,
láttu mig sjá hraustleik þinn«.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
»Hásetana hefi' eg kræsta,
hliðrun þó eg þér bjóði«.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

7. »Býsna(!) syni[1] og depla dætur
dubbað hefi' eg«, kvað fuglinn mætur,
»skógarþrösturinn líka lætur
lagast hjá mér dreinginn sinn«.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
»Sit eg úti' um svartar nætur,
þá sefur hann borginmóði«.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

8. Stelkur var á stakki síðum,
sté hann á skip með titlíngs lýðum,
burgeislegur á buxum víðum
bar hann þá heingi' og daggarðinn.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
Þótti' hann ekki þegnum fríðum
þá vera líkur sóði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

9. Þá nam hann um þiljur gánga,
þrjár strútsfjaðrir hafði' úr vánga,
á bláum stakki og bjöllur hánga,
ber hann þá tignar skrúðann sinn.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
Stelkinn sessinn strax lét fánga
stýrimaðurinn góði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

10. Stórlega dúðist stafninn viður,
stelkurinn þegar settist niður

[1] synir, hndr.

aptur í skut, og bragna biður
binda' á segl og aktauminn.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
Á undirdánum ýfðist fiður,
þeir áttu von á móði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

11. Þá flaustrið var til ferðar búið
fram var því á æginn snúið;
átti' að róa arma krúið,
árarspaðann hver tók sinn.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
Hægt var á þeim herðadúið
hverju þó spilti flóði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

12. Hnálega kólgu hnörinn velti,
hrannar bylgjur á streingja gelti,
ötull stundum inn á helti,
ausa tók þá lýður hinn.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
Ferlegt varð um foldar belti
flasið á hlunna stóði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

13. Alt var það á úlpum gráum
undirlið, vér þetta tjáum,
kvikuðu sínum kollum bláum,
á krúnum báru þeir lagðhattinn.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
Dreingur þrösts í bjálfa bláum
bar sig að ryðja' út flóði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

14. Árarlagið einginn kunni
utan sá, sem þröstur unni,
hjálminn snýr að hallar munni,
þeir hala upp segl og grunnstreinginn.
Stígðu á bátinn stalli minn.
Skunda tók þá skerja klunni,
skvetti' hann af sér flóði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

15. Fuglakóngs á frónið hitta,
ferjan gjörði sitt hlaup að stytta:

þar stíga' á land, en stöðina hitta,
stelkurinn borgar flutnínginn.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
Úfinn varð hann þá eins og strytta,
af fór svipurinn góði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

16. »Hnoðradaus úr hálsi mínum
hafa skaltu með piltum þínum,
flutníngskaupið fram vér tínum,
færðu ekki meira' um sinn«.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
»Lyklana hefi' eg læst í skrínu,
lítill fæst því góði«.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

17. Þeygi líkaði fugla(!) týni
þetta gjald, sem stelkur sýnir.
»Haldast ei við höldar mínir,
þú hraklega borgar flutnínginn«.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
Hvert á annað hyskið blínir,
hörðum spent er móði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

18. Titlíngurinn sinn byrstir bjálfa,
báða' út sína steytir kálfa.
»Eg skal finna örnsu sjálfa
ójöfnuð að votta þinn«.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
»Aleigu þína' og æru hálfa
af þér trúi' eg hún bjóði«.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

19. Fljúga þeir svo frá humra höllu
og heilsa fugla kóngi snjöllum.
Veldissprotann, vér sem köllum,
veglega bar hún þetta sinn.
Stígðu á bátinn stalli minn.
Situr hún þar með sveinum snjöllum
siðug beint hjá flóði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

20. Titlíngur sinn birtir baga,
biðst af henni rétts og laga,

og svo það[1] hann ætlar að klaga
af þeim stelki glaðníng sinn.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
Þóknast honum þessi saga,
þeinkir hann nú í hljóði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

21. »Eingan gjöri eg þér réttinn«,
ansar hún, »þó há sé stéttin;
þú hefir gjört mér brunablettinn
blendinn opt með piltskapinn«.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
»Undir vél mitt grár og glettinn
gjörir þú fljúga' af móði«.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

22. »Nenni' eg ekki' að láta þig lemja
þó laungum gjörir þú ilt að fremja;
hæfir þó að kreysta' og kremja
kropp og allan hausinn þinn«.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
»Þú nýtur þess eg náð vil fremja,
næst ei böðullinn óði«.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

23. »Um hann stelk mér er ei heldur,
ósannsýnin hans því veldur,
þrjóturinn, aldrei þú mér geldur
þeingils skatt og gjaftollinn«.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
»Maklegt(!) væri þótt herjans eldur
hleypti' út úr þér blóði«.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

24. »Skríðið þið í burtu báðir
beldnir mér og of harðráðir,
ellegar missið allar náðir,
á eg það helzt við titlínginn«.
Stígðu' á bátinn stalli minn.
Þeir í burt og þóttust smáðir,
þá hló borginmóði.
Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

25. Gekk fram valsi' í gráum lörfum
gjarn og fús að illum störfum,

---

[1] svo það hitt, hndr.

undir kufli þeygi þörfum
þrjá bar vendi' og stikkhnífinn.
        Stígðu' á bátinn stalli minn.
Eptir fuglum dygðadjörfum
deingdi' hann ofan að flóði.
        Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.
26. Sitt í hverja sundrúng lagði
synda lítið þegar að bragði,
vildu' ei hljóta' af fjaðra flagði
fleiri' eða meiri lastmælin.
        Stígðu' á bátinn stalli minn.
Hægan vinskap, sem eg sagði,
Suttúngs skyldi á flóði.
        Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.
27. Fer álíkt fyrir fuglum þessum,
sem fram er talið í gjörðum vessum,
um lítilmagnann lágan í sessum
líða verður hákyrðin.
        Stígðu' á bátinn stalli minn.
Stjórnarlegur í störfum hressum
stíngur út á því móði.
        Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.
28. Látum tarfinn þreyttan þagna,
Þundar ka[r]finn heim skal dragna,
sígur larfinn siglugagna,
sezt því skeið í naustið inn.
        Stígðu' á bátinn stalli minn.
Ekki' er þörfin mærð að magna
meira' af titlíngs óði.
        Megirðu nokkru miðla' úr þínum sjóði.

Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar yngra, með hendi Jóns Egilssonar á Vatnshorni, skrifuð 1748.

## Eitt fuglakvæði.

1. Alls hins bezta óska eg þér
af einlægð presti mínum.
Fréttir nokkrar færi' eg þér
framar í þessum línum.
2. Hér er á ferðum þrauta þras,
það er yður að segja.
Mér er ekki' um mikið mas,
má þó varla þegja.
3. Frásögn yður færi þá,
fyrst nú þessu hreifi:
Hér eru tveir að togast á
titlíngur og Leifi.

4. Hann er að troða túnið mitt
og tæta sundur heyið,
næsta fix með nefið sitt,
nýlega sér hann slegið.
5. Ber hann líka burt með sér
býsna hey í kippum,
miður líkar mjög það mér
að mæta slíkum vippum.
6. Eg bað hann hætta svoddan sið
og sýna mér ei þann usla,
en hann skipaðist ekki við
og afgæðíng nam rusla.
7. Eg lögfesti þá lauf og hey
og lagði' á fimtarstefnur,
að sóknum laga' hann sig gaf ei
né sakarformi gefnu.
8. En eg hafði samt ásett
sigri' að hampa hressum,
stefndi' eg fyrir stelksins rétt
stórbokkanum þessum.
9. Sagði hann sem samt[1] er skrum
sér að stefna ætti
sjálfan fyrir sýnódum,
svo þar verjast mætti.
10. Stelkurinn honum sagði satt:
»Settu þig af því arna;
hjá geistlegum muntu fara flatt,
fástu' ei við að tarna.
11. Fyrir mínum dómi muntu því
mál þitt verja hljóta
og dóm þola fyrst með frí,
en frestar máttu njóta«.
12. Að þíngdeginum þokar senn.
Þá nam stelkur kalla
eptirskrifaða átta menn
einbeitta og snjalla.
13. Hrossagauka fjóra fyrst
fá til þíngsins valið
og skógarþresti þrjá með list
að þeinkja' um réttarskjalið.
14. Lóuþræll kom þar með þeim
þíngsvitnið að fylla.
Þessir drógu daufan seim
dómsorðið að stilla.
15. Við prótókollinn ört sat einn
ófeilinn í svari
óðinshani ekki seinn
artugur þíngskrifari.
16. Hefði' hann ekki peníngaplögg
prófoss skyldi' hann hýða;
að vísu fjögur vandarhögg
verða mundi' hann líða.
17. Smirillinn þángað beint sér brá
brosandi með vöndinn,
honum er tamt að hýða' og slá
og herða' á sekum böndin.
18. Að titlíngnum ótti fló,
af því hinn var glettinn,
ærulaus þá smirillinn smó
og smokkaðist inn fyrir réttinn.
19. Rataði hann í rauna garð
refsíng átti' að líða,
buxur sínar væta varð
að vaða hræðslu' og kvíða.
20. Fuglinn seki kominn í kál
kænt fann ráð í tómi,
hann appelleraði alt sitt mál
undan stelksins dómi.
21. Inn fyrir spóann er nú sett
úr því máli' að skera,
honum fellur laungum létt
lagadóm að gera.
22. Stelknum hefir hann stefnt á ný,
það stendur sem eg segi.
Sextugasta septembrí
sagt er þínga eigi.
23. Veit eg það er vogunarspil,
vísan á hann skelkinn,
gamli krummi gaf sig til,
að gánga' í rétt við stelkinn.

[1] þó, hndr.

24. Fyrir titlíngstetrið þó,
svo tapaðist ei hans réttur.
af því illa í honum bjó.
að yrði strax húðflettur,
25. er það betra' en ekki neitt,
eitthvað mun hann klifa,
mér er sagt hann innlegg eitt
ört sé búinn að skrifa.
26. Eflaust fær það einhver frétt,
undan mun þó hrökkva,
þegar krummi kemur í rétt
á kjólnum sínum dökkva
27. Á honum verður fáséð fas
fram þegar skjölin drífur,
þá má heyra krúnk og kras,
þá krummi í vasann þrífur.
28. Titlíngurinn sögðum segg
sagt er hugnast eigi,
hann á að gefa' honum öll sín egg
upp frá þessum degi.
29. Af Fjölnis gruggi[1] fekk og kút,
fór þó hálfpart niður,
spillist svo mín Lóðins lút.
Lukkan fylgi yður.

Hér endar Þorleifur en byrjar Eyjólfur.

30. Skemtun byrjast skötnum títt,
skrítin orð sá velur,
helzt þá fréttir nokkuð nýtt,
næstu grönnum selur.
31. Því skal þjóð til þóknunar
þanninn hefja kvæði,
heyrði' eg nú til nýlundar
nokkuð lítilræði.
32. Þjóðin bragna þykkjutrauð
þessu' er gaman að hreifa,
trássugt þegar titlíngsgauð
traðkaði málum Leifa.
33. Þér hafið heyrt um sök og svar,
sem að barst til eyrna;
einu þíngi uppsagt var,
annað stóð til seinna.
34. Prótókolls í sannleik sjálfs
segir um efnið framan;
eru það fyrstu upptök máls
þá allir komu saman.
35. Saman flykktust þeir með þys,
þrætumálin kanna,
allir sátu umhverfis
innan vébandanna.
36. Spóinn skal með hefðarhátt
hyggja' að dómi' og ráða,
kallar því af megnum mátt
málspartana báða.
37. Hoppar krummi snúðugt. snart,
snefsinn, þrár og byrstur.
klagaði stelkinn heldur hart.
hóf því róminn fyrstur.
38. »Ólöglegan ljóst eg má
lýsa dóm þinn stelkur,
þér skal bitna eflaust á
útlát, straff og skelkur.
39. Þú hefir dapran dygða fugl
dæmt í sekt og pínu.
Fyrir þitt ramlegt raus og rugl
skal refsa holdi þínu«.
40. Orða varð ei stelknum stans,
í stórri neyð þó dummi,
gaf í skyndi aptur ans:
»Ertu þetta krummi?
41. Heita má að hæfi þér
helzt að reingja dóma,
vel forsóttum virðíng ber
með vizku hefð og sóma
42. Líka muntu lesinn karl,
leystu úr því arna,
hvort er heldur gor eða gall,
sem glyttir í á þér þarna.

[1] fruggi, hndr.

43. Tvílað hefði' eg þetta þá
þegar áztu köttinn
ótæpt mundir ýtum hjá
inn fyrir gánga réttinn.
44. Sé eg ei hvað þér sjálfum skal
svoddan heimsku tetur,
á klettunum í Kálfadal
kantu þig lángtum betur.
45. Hitt kom aldrei í huga mér
híngað mundir vitja,
ofaukið þér einum er
þar allir frómir sitja.
46. Öðruvísi' en ætlað er
opt kann margt til bera,
sanna skal eg þetta þér,
það læt eg svo vera.
47. Leingst af haldinn lýðum hjá
lumpinn hrekkja gáli,
af er því með öllu frá
eg ansi þínu máli«.
48. Í báðar fætur stífinn stóð
stelkur og sig við reigir.
Gamli krummi gaf þá hljóð:
»Gáðu' að hvað þú segir«.
49. Stelkurinn krumma vonzku vamm
veit sér hægt að finna,
bauzt hann því að færa fram
forsvar orða sinna.
50. Slúnginn rétt á slægðar mók
stoltugur þessu hnekti,
hlífa vildi sinni sök
sitt því markið þekti.
51. Skensi' og hroka skiptast á
skjótt vinst illum betur,
kallaði stelkinn þrávalt þá
þræl og fanta tetur.
52. »Öllum leiður, einkum mér,
ertu' og verið hefur.
síglamrandi heyrðu hér
hver þér vitnið gefur«.
53. Óðamála eins og flagð
ærist nú og springur,
stelkurinn þagnar bljúgt með bragð
bánginn vesalíngur.
54. Dómarinn gaf þá dristugt svar
djarfr í ræðu sinni
hreldum stelk til huggunar,
ef hrafninn bifsast kynni.
55. »Þú ert krummi kynja knár
kapps með ræðu búna
gjörist hljóða heldur hár,
hættu þessu núna.
56. Stelknum þó sé tíðum tamt
að tyggja upp hið sama,
finnst hann jafnan frómur samt,
fæstir við honum ama.
57. Úr flestum sveitum fúlt og slæmt
frá þér rykti geingur,
er þér víða illa ræmt
óþóknunar dreingur.
58. Loksins gjörist ræðan römm
rétt með orðstír téðan,
þú ert koldökk(!) sveitar skömm,
svei þér burtu heðan«.
59. Varð þá krummi láta lon,
lét þá sitt hið minna;
uppreisnar sér einga von
aulinn þóttist finna.
60. Aptur á bak sér úfinn leit,
efnið visnar frétta,
skauzt út og í dyrnar dreit
déls óhræsið þetta.
61. Sveið þá grimd í svörtum vom,
sviplega burtu vendi;
aldrei síðan aptur kom,
einga kveðju sendi.
62. Eptir þetta einginn fannst
á aðra hönd til svara,
málið stelknum vel því vannst.
sem vildi hann láta fara.

63. Dómarinn gaf þá örðugt ans,
úrskurð þann réð vanda,
skrifuðum dóm á hendi hans
hvert orð skyldi standa.
64. Höfðíngjarnir honum þá
harðan rétt þó skaffi,
slúnginn vatt sér skjótt á ská,
skauzt hann enn frá straffi.
65. Birta dóminn síðan senn
sekum dólg í vanda;
hann mun krafla eitthvað enn,
ei má þanninn standa.
66. Vildi láta döglíngs dóm
djarfur úr málum skera,
fallinn skal með frægðarróm
fyrir hann prótoklera.
67. Mun sá bera ment og kunst
málasóknum tamur,
fuglakóngs í góðri gunst
gætinn, heillasamur.
68. Grundar málin, leitar lags,
lagaði alt með ráðum,
fyrir kónginn stefndi strax
stelk og spóa báðum.
69. Skipti þá um lukkulag,
lék svo gæfan viður,
hossaði einum hátt í dag,
hinum þrykti niður.
70. Lagði sjóli úrskurð á
eptir réttarlínum:
stelkurinn skyldi straffið fá
stallbróður með sínum.
71. Þeim mun hlotnast hefnd um háls,
hlutur þeirra talinn.
Illa er prófað efni máls,
einninn dómur galinn.
72. Dómarasæti' um æfiár
ei skal spóinn halda,
tunnur drafla tvær og þrjár
trúi' eg hann eigi' að gjalda.
73. Stelkurinn fyrir réttarrán
refsíng þeirri mæti:
titlíngs eymdar, ómaks án,
allan kostnað bæti.
74. Ber honum og með beztu skil
börnum hans ef næði,
að kenna þeim með spektarspil
spurníngar og fræði.
75. Stílaðist þessi kvittan klár,
kljáðist það svo niður,
hlýðugur gjaldi öll sín ár
alt hvað hinn um biður.
76. Stúrandi kvöddu stólkónginn
stelkur og spói digri;
titlíngs eymdar öreiginn
unnum fagnar sigri.
77. Þulu frétta sagða seint
sónar fruggið letur,
julu kletta bunu[1] beint
bylgjan hátt uppsetur.

Handrit í tólfblaðabroti sem dr. Jón Þorkelsson ýngri á og skrifað er hér um um bil 1823.

---

[1] eða búna.

## Krummabragur.[1]

I.

1. Lángvíinn[2] hefir þann listanna brest
:,: lætur[3] honum[4] það verst[5] :,:
að liggja við sjó,
leiðist[6] honum[4] vertíð en ferjan er mjó.
2. Norðvestan[7]golurnar mæða hans megn,
:,: mæðir[8] hann[9] stór[10]regn : :
(og [mæðir hann[11] fár,
[mest þegar grenjar ægirinn blár.[12]
3. Talar hann þá hryggur við trú[13]bræður sín,
:,: töpuð eru ráð mín :,:
eg tvíla um líf,
[týnast þá[14] fuglar við sorganna kíf.
4. [Svara þá allir samhuga[15] bert:
:,: þar sem að þú ert :,·
þar eru vor ráð,
(þig [brestur aldrei dygðin[16] né dáð.[17]
5. Ef eg má ráða öllu til sanns
:,: reikum[18] þá til lands :,:
og reynum bænda geð,
reikna eg mig tapaðan[19] fylgjurum með.[20]
6. Síðan þeir allir til sunds[21] leggja[22] fót
:,: og setja þann pílót :,:
sem dóminn út gaf
svo [fellur niður[23] [ráðagjörð og[24] skraf.
7. Veðrið[25] á eptir vélunum stár,
:,: verður sjór of hár :,:
þeir veltast um koll,
vill þá lítið batna um kulda og hroll.[26]

---

[1] Kvæði af lángvíinum og hrafninum B. Lángvíubragur CF. Lángvíukvæði D. [2] Lángvían ADE. [3] leiðist E. [4] henni AE. [5] mest E. [6] laung er E. [7] austan BD. [8] meinhríð D. [9] og D. [10] þúngt B. [11] meiðslanna B. Frá ( mælir hann þá D. [12] Frá [ mikið tekr að ólga upp æginn blá D. Er. vantar í C. [13] teiss- A, túlk- B, trés- D. [14] tumba niður C. [15] Ansa náði lángvíinn aptur þá D. [16] skortir hvorki hugur C. [17] Frá ( því að þú kant veita dugnað og D. Er. vantar í A. [18] höldum C. [19] tapaða B. [20] Er. vantar í AD. [21] sands D. [22] hefja A, færa D. [23] var niður slegið alt D. [24] ráðagjörðar D. [25] Vindurinn BC. [26] Er. vantar í D.

8. Þessu næst við sandinn[1] þeir heyra hvim,[2]
:,: það er þá svo þúngt brim :,:
að þora hvergi nær;
þar bíða þeir úti um stundirnar tvær.[3]
9. Þegar nú ángistin[4] þreingir að stinn
:,: þá kemur hrafninn :,:
og þeinkir með sér,
það færi betur þið hlotnuðust[5] mér.
10. Eg skyldi kenna ykkur kauðarnir, það
:,: að kraksast[6] á minn stað :,:
með kollkasti þó[7]
kafni þið, drepist þið allir í sjó.[8]
11. Flátt[9] mælir krummi við foríngjann það:[10]
:,: »Flýttu þér upp að[11] :,:
og fáðu þér lag,
fast ólgar sjóinn dag eptir dag.[12]
12. [Kvíðinn að höndum kemur með[13] grand,[14]
[:,: komdu því á land :,:[15]
[og kepstu[16] til mín;
krummarnir[17] fleiri bíða hér þín.
13. Eg skyldi hjálpa þér halurinn vel,
:,: hefði eg mín stígvél :,:
hjá mér búin nú«.
Hinn greiðir andsvörin: »Hvað heitir þú?«
14. »Eg heiti krummi kátur með vas.
:,: Mál mitt er krúnk kras :,:
og kunna það hér
kapparnir mínir,[18] því látínskt það er«.
15. »Þér trúi eg aldrei«, þá mælti hinn,
:,: »þinn flýgur tónninn :,:,
að þú sért með prett
þrálega reyndur[19] í hverskonar stétt.
16. Svaraði krummi og síga lét brýn:
:,: »Svoddan er til mín :,:
svarað með þjóst;
sannferðug dæmin reka það ljóst.[20]

---

[1] landið C. [2] hrin C. [3] Er. vantar í AD. [4] neyðin BCD. [5] heppnuðust A. [6] kássast B, kaksast C, kafsast D. [7] þá A, smá C. [8] strá A, sjá C. [9] Fljótt A. [10] þá AB. [11] hjá AB. [12] Er. vantar í D. [13] Flýttu þér upp á sandinn og forðaðu þér (firtu þig) BCD. [14] smán BCD. [15] kom á land kompán BCD. [16] kátur C. [17] kapparnir BC. [18] fleiri BCD. [19] fundinn ABD. [20] Er. vantar í BCD.

17. Hefði hann gamli Nói minn heyrt nú til þín,
:,: hann þekti dygð mín, :,:
því hans var eg sveinn,
hann sendi mig af örkinni allsendis einn.
18. Eg átti að leita landið upp þurt
:,: og vita hvort vatn burt :,:
væri af heim þá;[1]
hann valdi mig þar til [öðrum skepnum frá.[2]
19. Mína fyrir hreysti[3] og mannprýðisþel
:,: misti eg mín stígvél, :,:
og mælti eg þá
[að aldrei skyldi eg hann aptur[4] [með augunum sjá.[5]
20. En af því merki svo um snerist það
:,: að ört gat hann vitað, :,:
að alt væri þurt
[og flóðið vatnanna farið í[6] burt.[7]
21. Annað hefi eg vitnið[8] upp á minn sann
:,: hann Elíam spámann, :,:
[þá að þreingdi[9] nauð
[eg færði[10] honum þá ketið og brauð.
22. [Sýngur hann[11] Davíð sjálfur af mér,
:,: satt segi eg þér, :,:
[svo trúðu[12] nú,
svoddan afbragðs vitni [rekast ei[13] þrjú.[14]
23. En ef þér nægir ei þrefaldleg skil
:,: þá er hann Job til. :,:
Það er góður mann;
það vita allir að mig lofar hann.[15]
24. Mér verða að gánga málefni frí
:,: einkum og af því :,:
í úngdómi mín
ákalla eg herrann um miskunn sín.[16]
25. Aumínginn um síðir áhlýðist það
:,: og leitar landi að :,:
lúinn af pín;
[labbar krummi móti á[17] buxunum[18] sín.

---

[1] sl. D. [2] af fuglunum þeim D. [3] atburði BC, vizku D. [4] D. [5] BCD.
[6] landa og vatna lögurinn á BC. [7] Er. vantar í D. [8] dæmið AC.
[9] er eg firti B. [10] afhenti eg BCD. [11] svoddan tér C. [12] BCD. [13] bregðast aldrei C. [14] Hér endar C. [15] Er. vantar í AD. [16] Er. vantar í D.
[17] krummi lallar á móti kátr í B. [18] buxum BD.

**26. Kippir hann brókum[1] og kallar nú hátt:
:,: »Komum vér nú brátt :,:
og kætum[2] hjartarann,[3]
kyrkt hefi eg lángvíinn,[4] dauður er hann«.
27. Hrafnarnir skipta nú herfángi sín,
:,: hreppandi gleðst brýn, :,:
[því hátíð er[5] stór.[6]
[Hver og einn fyllir sinn innýflakór.[7]
28. Lángvíinn þannig lífið fekk mist,
:,: [látum vér svo fyrst[8] :,:
ljóðanna tal
líða af vararanni í þagnar[9]dal.[10]**

**Kvæði þetta er prentað í Nokkrum Ljóðmælum eptir Hallgrím Pétursson, Rkv. 1885, bls. 92—95 = *A*, en útgáfan er hræmulega óvönduð, og því er kvæðið prentað hér. Meðal annars vantar 4 er. í prentuðu útg. Hrs. Bmfj. 108, 8vo = *B*. Handr. Bmfj. í áttablaðabroti, með hendi Sigmundar Mattíassonar = *C*. Hndr. þetta er ekki skrásett enn sem komið er. Kvæðabók dr. Jóns Þorkelssonar í arkarbroti, með hendi Páls Hjaltalíns = *D*. Hrs. Sv. Grv. 66, miði með hendi Jóns Sigurðssonar, eptir sögn Magnúsar Eiríkssonar = *E*, að eins fyrsta er. Kvæðið er nefnt í hrs. Bmfj. 382, 8vo = *F*; hefir sú útgáfa verið 25 er., en ekki heil.**

II.

1—5. = 1., 2., 3., 9., 10. er. í I.
6. Honum réð krummi heilsa með list
:,: hins þótt lund væri byrst :,:
»Heill sértu nú«.
Hinn svarar aptur: »Hvað heitir þú?«
7. = 14.
8. = Fyrri hlutinn af 13.
sem góður mér gaf
guðhræddur Nói þá örk fór eg af.
9, 10 = 18, 19.
11. Nói minn var harðbýll og naumur á skamt,
:,: nóg hafði hann til samt, :,:
þó naumt væri veitt,
af því var mér orðið það alt ofurleitt.
12—14 = 15, 17, 21.

---

[1] upp buxum B. [2] könnum B. [3] bygðarrann D. [4] lángvíann D. [5] þá hvim eru B. [6] Frá [ þeir hyggja nú að D. [7] að dauður er lángvíi, satt segir hann það D. [8] læt eg nú skotizt A. [9] þarma- AB. [10] **Er. vantar í D.**

15. Fyrri hlutinn af 22
og sú er mentin fín,
að ákalli eg drottin í úngdæmi mín.
16. Ekki hefi' eg helmínginn út af því lagt,
:,: sem get eg satt sagt. :,:
Seinni hlutinn af 22.
17—20 = 4, 12, 25, 6.
21. Áðan þú mintist á alþýðuróm
:,: sú er ekki sögn fróm :,:
og sannast það má
sízt er um það brugðið, sem snillin er á.
22. Þér vil eg greiða þar fyrir gjald
:,: þú ert kominn á mitt vald :,:
og þrífur til fast
þar til út af lángvíu höfuð vatzt.
23. Kallar nú krummi á kompána sín:
:,: »Komið híngað til mín«. :,:
Seinni hlutinn af 26.
24. Ótal af hröfnunum ofan að sjó
:,: allir fljúga þeir þó, :,:
og fæðu sér fá;
fljótir um sandana sáust þeir þá.
25. = 27.
26. Hlut hafði mestan hröfnunum hjá,
:,: sá honum vann á. :,:
Það krumma fekk kætt;
kyrkjaranum guldu þeir níundu vætt.
27. Læt eg nú loksins lenda minn brag;
:,: leiðist mér stirt stag. :,:
Stökuna hér
stúlkurnar geymi og hafi hjá sér.

*D.*

## Eitt kvæði.

Hrafninn í hlíðum
hann fór að slá,
en hún lóa lítiltá
fór að raka ljá.
Hrafninn í hlíðum,
hrafninn sló í hlíðum.

1. Eitt sinn krummi átti' að slá,
orfið bar hið þúnga,
hafði með sér lángan ljá,
léttir veðradrúnga,

æddi hann því sem óðast má
á þeim velli víðum,
hrafninn í hlíðum,
hrafninn sló í hlíðum.

2. Mikinn hafði múgaslátt,
mátti ljárinn renna,
stakkinn gamla stytti' upp hátt
og steytir út kálfa tvenna,
hvirfilbylur úr hverri átt
hreytir af ljánum tíðum,
hrafninn í hlíðum,
hrafninn sló í hlíðum.

3. Brýnukoppinn bar með sér,
brátt nam orfi veifa,
tóa líka framgjörn fer
fögru skapti' að hreifa,
hrífu stóra í hendi ber
og hleypur að teignum víðum,
hrafninn í hlíðum,
hrafninn sló í hlíðum.

4. Tóu þótti ei taka af vel
og töðunni kvað það spilla,
baulur trúi' eg húngri' í hel
ef hefir þú sláttinn illa,
munu þær ekki mjólka skel
ef mæta sulti stríðum,
hrafninn í hlíðum,
hrafninn sló í hlíðum.

5. Skatturinn krumma þótti þá
þeygi koma snemma,
bæði kastar brýni' og ljá,
beygir hann sultar remma,
böðulinn ragan biður að slá
og burt hljóp þá á skíðum
hrafninn í hlíðum,
hrafninn sló í hlíðum.

6. En þá heyið hirða á,
sem hafði krúnkur slegið,
vetlíng fullan vantar á,
var þó flest til dregið,
en ekki var þar eptir strá
á þeim velli víðum.
Hrafninn í hlíðum,
hrafninn sló í hlíðum.

7. Árgalinn fekk eingan prís
og ekki heldur hún tóa,
fái þau bæði' á hrygginn hrís
og hlaupi svo út í móa.
Boði' að Suðra bátnum rís,
brags því hætti' eg smíðum.
Hrafninn í hlíðum,
hrafninn sló hlíðum.

Hrs. AM. 148, 8vo, 339. bl., skrifað af Magnúsi Jónssyni í Vigur 167(
—1677.

## Krummakvæði.

1. Eitt sinn var eg út á fróni
staddur;
kom þá til mín kisa' og hrafn
kímilegt með orðasafn.

2. Krummi heilsa kisu þannig náði:
»Sælar verið þér systir góð«.
Svaraði hann með eingan móð.

3. Aptur kisa orðum þannig hagar:
»Komið þér sælir krummi minn
kæri, af hjarta velkominn.

4. Verið þér herra velkominn ti
bæjar;
veglega skulu þér veizlu fá
og virðíng þiggja mér í hjá«.

5. »Þakka eg yður þetta boð«, hani
téði.
»hefir þú nokkuð handa mér?
Hvernig líður nú hjá þér?«

6. »Í bezta máta«, beint hún aptur sagði,
»Matinn hefi eg meir en nóg,
eg má honum varla koma í lóg«.
7. Krummi hlakkar kátur í hyggju ranni;
hoppar svo með hennar hlið,
hvergi höfðu lánga bið.
8. »Húsið þitt er heiðarlega til búið,
veit eg hvergi vænna þíng
vera til um foldar hríng«.
9. Kisa leiddi krumma þá til sætis,
en hann téði: »Ekki er
ofaukið sem sagt er mér«.
10. »Má eg ekki mat til yðar færa?
Berðu þig að því bróðir minn,
að borða nokkuð nú um sinn«.
11. »Ekki er eg«, ansa krummi náði,
»gírugur að gleypa mat«;
gekk þá kisa inn með fat.
12. Eina mús hún upp á diskinn lagði,
en hann krummi ansa vann:
»Einn er réttur«, sagði hann.
13. »Svei þeim mat í mínum bæ er annar
utan þetta eina hró,
eingu skal eg víla þó.
14. Af því það hefir aldrei lund mín verið
um bjargræðið að breka frekt,
þó bresti nokkuð tímanlegt
15. En þú ert eins og þitt er hyskið fleira
ærulaus á allan hátt,
eingum býður heila sátt«.
16. Krummi stökk á kisu þá með æði,
beit hún sundur barkann hans,
bilaði sverðið góma ranns.
17. Misti fuglinn fjörið happa-snauður;
kisu veittist krásin þá
krummi þegar dauður lá.
18. Krummabragur kvæðið það skal heita.
Sæmdarmenn og siðug fljóð,
séuð í friði lyndisgóð.

Afskript dr. Jóns Þorkelssonar ýngra eptir hrs. J. Sig. 406, 4to.

## Krummakvæði.

1. Æfintýrið eitt eg leit
upp málað í línum,
þar krummar tveir í kátum reit
krúnkuðu nefjum sínum.
2. Annar sagði: eg í gær
var út við sjó að synda,
leit eg fagrar lúður tvær,
lángaði mig til kinda.
3. Eg stakk mér þá ofan í sjó
sem ekki væri' að grandi,
helt eg á sinni' í hverri kló
og hafði mig upp að landi.[1]
4. Hoppar krummi hinn og tér:
hreystiverk er þetta.
Eg vil segja aptur þér
æfintýrið rétta.
5. Eg var suður við ósa' í haust
ölgaður lítt í kolli,
sæta heyrði eg svanaraust,
þeir súngu' á einum polli.
6. Setti' eg mig með sæmd og kurt
á sjóinn hjá þeim niður,
það er um ýmsar álfur spurt,
eingu saung eg miður.

[1] á landið. hndr.

7. Þetta skrafa skrumnar(!) tveir,
skrökva bæði' og ljúga.
Öllu þykjast orka þeir,
upp í loptið fljúga.

Kvæðabók Gunnlaugs Jónssonar á Skuggabjörgum I. Hrs. J. Sig. 254. 4to nr. 205.

## Krummabragur.

1. Út um bygðir Ísa hæða,
á Eyrarbakka bar til mæða,
kvít til jóla keyptist fæða,
kjötið er á förum [hér],
en trygða vinur trúðu mér.
2. Heitir krummi halurinn skæður,
höllu sem að borgar ræður,
vífi Fofnis veitir glæður,
vel[1] hjá gumum unir sér.
Trygða vinur trúðu mér.
3. Vífið tér við veiti spánga:
»Vítt um frónið máttu gánga,
ef kind til jóla kynnir fánga,
og krónupúnginn tak með þér«.
Trygða vinur trúðu mér.
4. Fór á stað með feikna kæti,
feta náði vítt um stræti,
mörgum trúi' eg manni mæti,
mæðin brjóst og hjarta sker.
Trygða vinur trúðu mér.
5. Hjá Beingarð herra(?) blessan náði,
býsna væna kind þar þáði,
fór hann þá sem flýfi'(!) á láði,
ferðast heim og barkann mer.
Trygða vinur trúðu mér.
6. Á stað fór í öðru sinni,
ei var þessi reisan minni,
fór um löndin sem frá eg kynni
fyrðum þeim, sem hlýða hér.
Trygða vinur trúðu mér.
7. Mýrland(!),[2] Skotland, Frísland, Frakka
fala náði gimbrarkrakka,
krónur bauð sem kunni snakka
við kinska'(!) og Tyrkjann rét sem ber.
Trygða vinur trúðu mér.
8. Bónapart[e]' í bragði snöggu
— — — — — — —
hljóp hann þá og hælum höggum
hafið, grund og foldarver.
Trygða vinur trúðu mér.
9. Fall af hrúti fekk til jóla,
fýsti marga af því hóla,
sótti' hann það í Svarta-skóla.
Sæmilega núna fer.
Trygða vinur trúðu mér.
10. Aptur komst úr ferða flani,
firða er það gamall vani,
bilast hann þó böl að gani,
býsna lasinn eptir er.
Trygða vinur trúðu mér.
11. Úr aug[n]aköllum öllum snúinn
er það vert að lækni frúin,
burtu lokin, brókin lúin,
beina gögtir grindin ber.
Trygða vinur trúðu mér.
12. Um krofið hrúts nam kroppa svona,
krummi náir til þess vona,
að sér í liði[nn] kippi kona,
kænt því listir margar ber.
Trygða vinur trúðu mér.
13. Hann nótéra kút sár(!) kalla
kappar þeir sem um það spjalla,

[1] vil. hndr. [2] = Um Írland(?).

þegar náði þjóð til fall[a]
þetta, sem eg greini hér.
Trygða vinur trúðu mér.
14. Krummabragur kann að heita
þó kæt[i] veki ótal sveita.
Bæti við þeir bragar leita
og báðu um ljóðin [h]anda sér.
Trygða vinur trúðu mér.

Hrs. Bmfj. í áttablaðabroti frá Jóni Borgfirðíngi. Hndr. er ekki skrásett enn á prenti.

## Kvæði
eptir Steinunni Finnsdóttur í Höfn.

Digtuð þar um dæmin ljósast greina:
Vertu forsjáll vinur minn;
fögur túnga fölsk er opt að reyna.

1. Fram vill Dvalins ferjan ana,
furðu lasin þó hún sé,
ætlar eptir annra vana
út að draga' á þorskahlé;
eg spái' henni það bráðan bana,
brotin aptur kæmi.
Digtuð þar um dæmi.
Ræða skal um ref og hana,
rýr mun verða framkvæmdin.
Vertu forsjáll vinur minn.
Hygnra glóðum(!) fram að flana
fremd sér bernskir meina.
Fögur túnga fölsk er opt að reyna.

2. Veðurköldum vetur neyða
voðamyrkur fjúks með gný,
vill þá margra vistum eyða,
varð hún tóa' að kenna' á því;
búin var sitt býli' að sneyða,
þó bragnar eingir sæmi.
Digtuð þar um dæmi.
Til fóta tók hin ferðagreiða,
að fremja nám og vana sinn.
Vertu forsjáll vinur minn.
Bansoltin vill bráð sér veiða
af brögðum fornra greina.
Fögur túnga fölsk er opt að reyna.

3. Bóndagarð einn frá eg hún fyndi,
frétt hefi' eg með sanni það,
hún í frosti' og hvössum vindi
á hússins þekkju nam sér stað.
Haninn gól með hýru lyndi
og hafði einga ræmi.
Digtuð þar um dæmi.
Hún við lagði heyrnarstrindi
og heilsan flutti' um gluggann inn.
Vertu forsjáll vinur minn.
»Aukist yðar æra' og yndi,
elska frúr og sveina«.
Fögur túnga fölsk er opt að reyna.

4. »Hvar fyrir minn herrann hýri,
hafi þér svo fagran saung,
allra fugla drottinn dýri,
dimm og köld er nóttin laung,
hygg eg margur hefðarrýrri
hægan svefn framkvæmi«.
Digtuð þar um dæmi,
»Yðar maktin skilníngsskýri,
skundar víða' um heruðin«.
Vertu forsjáll vinur minn.
Henni ansaði hana hlýri
hlýrnis ljóss við beima(!).
Fögur túnga fölsk er opt að reyna.

5. »Dagurinn er nú næsta nærri,
náttúran mér boðar það,
manna hugar mun ei fjærri,
merki' eg það í annan stað«.

Fekk þá refurinn furðan stærri
fram þó orðum kæmi.
Digtuð þar um dæmi.
— — — — — — —

Hrs. Ám. 146 b, 8vo, 37.—8. bl.; hefir aldrei verið meira í hndr.

Séra Jón Ýngvaldsson í Húsavík »þekkir kvæði um arkarkrumma, en hefi þó aldrei samstætt heyrt«, eptir því sem hann segir í bréfi til Fornfræðafélagsins 1847 (hrs. Sv. Grv. 67).

## Gamankvæði.[1]

I.

1. Það var einn myrgin[2]
er haninn tók að gala,
húsfreyja[3] vakti bónda sinn
og sagði[4] honum mál að mala.
Það[5] trúi eg hann sofi lítið.

2. Þegar hann hafði malað
[heila tunnu[6] korns,
þá tók hann sér hríslukvist[7]
og kynti í ofn.
Það trúi' eg hann sofi lítið.

3. [Glaðlegana eldur
í ofni[8] brann,
þá tók hann sér snældukorn,[9]
settist niður og spann.
Það trúi' eg hann sofi lítið.

4. Þegar hann hafði spunnið
tímana[10] tvo,
þá tók hann sér[11] fatabagga,
og fór til ár[12] að þvo.
Það trúi' eg hann sofi lítið.

5. Þegar hann hafði þvegið
og gjört fötin hrein,[13]
þá tók hann [sinn fatabagga,[14]
og fór til [hallar heim.[15]
Það trúi' eg hann sofi lítið.

6. Hreinsar hann stofuna,
og sópar hann gólf;
alt hafði hann þetta unnið
áður en upp rann sól.[16]
Það trúi' eg hann sofi lítið.

7. Stattu upp Ingigerður[17]
nú er stofan hrein.
»Hvort vilt heldur eg leiði þig
eður [þú gángir[18] ein?«
Það trúi' eg hann sofi lítið.

8. »Ekki þarftu bóndalyrfa[19]
að [vera svo stimamjúkr.[20]
[Þú mundir ekki[21] leiða mig,
[hefði eg verið[22] sjúk.
Það trúi' eg hann sofi lítið.

---

[1] Kvæði þessi munu flest vera af útlendum toga spunnin, en þau hafa verið löguð eptir íslenzkum hugsunarhætti í meðferðinni og því eru þau tekin hér og það því fremur, sem þau eru öll af betra tagi. [2] svo blíðan dag B. eina jólanótt DE. [3] hústrú B, húsfrú E. [4] kvað BE. [5] því E. [6] tuttugu tunnur E. [7] hríslukvísl A. [8] En við hverja hrísluna, sem í eldinum E. [9] E. [10] á teinana E. [11] E. [12] lækjar E. [13] alt hreint E [14] sér staf í hönd E. [15] húsa beint E. [16] vantar í E. [17] húsfrú mín E. [18] E. [19] herjansson E. [20] tala við mig svo mjúkt E. [21] ekki þarftu að E. [22] sem legið hafi eg E.

9. Haltu [upp tjaldinu[1]
meðan að eg geing inn;
falli dupt á [höfuð mitt[2]
[þá færðu á kjaptinn þinn«.[3]
Það trúi' eg hann sofi lítið.

10. Hann helt upp tjaldinu,
meðan hún gekk inn.
Hún sló honum heingipústur
undir hvora kinn.
Það trúi' eg hann sofi lítið.

11. Húsfreyja á palli situr
og terrir[4] fótinn fram,
bóndi innar við ofninn[5] stendur,
og strokkar sem hann kann.
Það trúi' eg hann sofi lítið.

12. Húsfreyjan á palli situr,
og kembir hár úr lokki;
bóndinn innar við ofninn[5] stendur
og tekur smjör af strokki.
Það trúi' eg hann sofi lítið.

13. Bóndinn upp á ofninn[5] fór
og átti að sækja salt,
greip hann ofan í öskupoka
og skemdi smjörið alt.
Það trúi' eg hann sofi lítið.

14. Húsfreyjan af palli stökk,
í mikilli manna þraung,
braut hún á honum bónda sínum
bullustaung.
Það trúi' eg hann sofi lítið.

15. Húsfreyjan af palli stökk,
mikið var þá þjark;
braut hún á honum bónda sínum
birkirapt.
Það trúi' eg hann sofi lítið.

16. Í óvit fell hann bóndi,
hinn vesæli mann.
Húsfreyjan tók sér drykkjarask
og dreypti á hann.
Það trúi' eg hann sofi lítið.[6]

17. Tólf[7] á eg hænsnin
úti undir vegg;
aldrei skaltu matinn fá
fyr en þau eiga[8] egg.
Það trúi' eg hann sofi lítið.

18. [Bóndinn ofan um mýrar hleypr,[9]
[og tínir eggin[10] saman.
[Úti standa grannar hans,[11]
og henda að honum gaman.
[Það trúi' eg[12] hann sofi lítið.

Ny kgl. Saml. 1141, fol. nr. 80 = *A*. Afskr. Sigurðar skólakennara Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 67. Fyrsti er. í hrs. Sv. Grv. 67 og 65 með hendi hans sjálfs. Líka í hrs. Á. M. 153 V, 8vo. (frá byrjun 18. aldar), nr. 35, 63 = *B*. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 65 með hendi hans og í 66 með hendi Jóns Sigurðssonar. Kvæðabók Gísla Ívarssonar = *C*. Fyrsta er. prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 235. 2 fyrstu línurnar í hrs. Bmfj. 382, 8vo = *D*, og hefir útgáfa sú, sem þar er drepið á, verið 13 erindi. Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. D[2], með hendi séra Benedikts Þórarinssonar á Ási í Fellum 1850 = *E*. Útgáfa þessi er höfð eptir Björgu Pétursdóttur, konu Árna prófasts Þorsteinssonar á Kirkjubæ. »Hún var fróð kona minnug og óskreytin«. Fyrsta er. í 67, Arch. D[1] með hendi séra Benedikts og í 65 og 67 með hendi Sveins sjálfs; prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 21. Sama kvæðið er til á dönsku, en þó talsvert öðruvísi en íslenzka kvæðið. Rask, Morskabslæsning for den danske Almue I, bls. 539 Grundtvig. Gamle danske Minder i Folkemunde, Ny Saml. 1857, bls. 288—92 og heitir þar »Den stakkels Ægtemand«. Grundtvig getur þess, að kvæðið sé til á ýmsum fleiri málum.

---

[1] nú upp hurðinni E. [2] klæði mín E. [3] svo gef eg þér pústur á kinn E [4] teygir C. [5] óninn C. [6] 10.—16. er. vantar í E. [7] Níu E. [8] verpa E. [9] Bóndi hljóp um allan garð E. [10] að reka hænsnin E. [11] Nú koma þeir tiðamenn E. [12] því trúi' eg að E.

II.

Snerist hann á hæli,
og brant í sér tá,
fyr skal táin sundur gánga
en falli klæðin á.
Því trúi' eg hann sofi lítið.

En fyrir framan stofudyr
þá voru gaungin þraung,
húsfrú lamdi bónda sinn
með átján álna staung.
Því trúi' eg hann sofi lítið.

*E.* Erindi þessi eru í staðinn fyrir 10.—16. er. í aðalútgáfunni.

I.

1. Eilífur er sig gamall karl,
hann siglir suður með sandi;
heima situr hún Úlfhildur,
hún kann að rjóða randir.
Vel kann hún að rjóða rönd,
og sjálf ber hún sín ástarbönd,
meðan ekki er bóndinn heima.

2. Eina átti hún þernuna,
hún trúði henni' alt hið bezta.
»Þú skalt fara í býinn, víf,
og fánga mér þar presta;
fángaðu mér hann Gunnar prest,
hann skal vera minn næturgestr
meðan ekki er bóndinn heima.

3. Þernan fór sem boðið var,
og fann hún prestinn Gunnar.
»Úlfhildur sendi boðin þér
og bað þig snúast í ferð með mér.
Vill hún gjörast vinur þinn,
eg vona það sannleik, klerkur minn,
meðan ekki er bóndinn heima.

4. Gunnar tók sinn gángvarann
og bjó hann alt hið bezta,
hann sté á sinn hvíta hest
og reið nú alt hið mesta,
hann kom þar sem Úlfhildr var;
gull og silfur að hún bar
meðan ekki er bóndinn heima.

5. »Sæll nú kominn Gunnar minn,
þigg þú gull og hesta,
viljir þú gjöra mína kvöð
og láta henni ei fresta,
sænga í minni hvílu skjótt,
það styttir nú dag en dimmir nótt«,
meðan ekki er bóndinn heima.

6. »Vara þig, vara þig, sæta mín,
stefn mér ei til voða.
Þegar kemur þinn bóndinn heim,
þá er eg fánginn þegar í stað.
Mér er varla mikið um slíkt,
mér að stofna í þvílíkt
meðan ekki er bóndinn heima«.

7. »Ekki þarftu, Gunnar minn, að ugga.
Eg skal leggja ráðin á,
að byrgja dyr og glugga;
ljós skal brenna í rjáfri glatt,
en við skulum leika mjúkt og margt
meðan ekki er bóndinn heima«.

8. Lögðust þau í sængina niður,
og tóku svo margt að rausa,
svo brá honum séra þar viður,
að sætu lét hlutlausa.
Gunnar sneri sér fram í stokk,
en Úlfhildur kysti hann títt og opt
meðan ekki er bóndinn heima.

9. »Illa fór það öl og matur,
er eg gaf þér að drekka.
Þú kant eingin blíðubrögð«,
svaraði menjabrekka.

»Eg er lítill amorsmann,
ekki vil eg svíkja hann,
meðan ekki er bóndinn heima«.

10. Margt er kvikindið klókt að sér,
eg kann það ekki að ugga.
Úlfhildur tekur að aka sér
þá Eilífur kemur á glugga.
Bóndinn stendur í dyrunum þá,
með listum plokkar hann lokur
í frá,
og nú er bóndinn heima.

11. Úlfhildur upp í sænginni sezt,
hún bar honum kveðju sína.
Gunnar liggur í sæng hjá mér,
vér skulum hann nú pína.
Eg hefi varizt í alla nótt,
einatt hefir hann á mig sótt,
en nú er bóndinn heima.

12. Eilífur stígur af gólfi án frest,
og tekur sér lurk til handa,
lemur hann allan Gunnar prest,
og horfist nú til vanda.
Mörg fekk höggin messu þjón,
merkilega hann saung við tón,
því nú er bóndinn heima.

13. Gunnar upp í sænginni sezt,
með svo mikilli mæði,
svo komst hann á skóginn án
frest
í einu silkiklæði.
Með þá sút og með þá sorg
síðan komst hann heim í borg.
Og nú er bóndinn heima.

Ny kgl. Saml. 1141 fol., nr. 89, bls. 427—31. Fyrsta er. í hrs. Sv. Grv. með hendi hans sjálfs. Kvæðabók Gísla Ívarssonar. Fyrsta erindi prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 236.

II.

Eilífur er sig gamall karl,
siglir suður með landi.
Heima situr hún Úlfhildur,
hún kann að róa ram[b]inn.
Úlfhildur kann að róa ramb,
sjálf ber hún sitt tignarband
meðan ekki er bóndinn heima.

AM. 153 V, 8vo, nr. 42, frá byrjun 18. aldar. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar og í sama safni 65, með hendi Sv. Grv.

## Ísúngskvæði.

1. Það er fært í frásögn:
Ut í Fenedí,[1]
kaupmaður sigldi af landi burt,
konan bygði bý,
sem vitríngar frá skýra.

2. Þrjú ár var hann í leiðángri,
sigldi í heiðindóm,
eptir lánga burtuvist
heill heim aptur kom.

[1] = Venedig.

3. Þá sá hann einn úngan svein
með svo fagurt hár,
hljóp hann þar um stofugólf
heldur fótafrár.

4. Kaupmann spurði sína frú:
»Hver á þenna væna svein?«
Kvinnan svarar: »einginn annar
utan eg allein.

5. Þar er nokkur saga til.
Árla eg út gekk;
það var um vetrar há-myrgin,
ís á veggjum hekk.

6. Hugsaði' eg þá til yðar fast
með fullum elsku smekk,
lagði ísinn mér í munn
og þar af getnað fekk.

7. Því kallaði' eg Ísúng hann,
það er hans rétta nafn,
að léttleik bæði og litarhætti
einginn er honum jafn.

8. Því er sveinninn glóbjartur
bæði á hár og skinn,
af ísdínglinum einsömlum
eg fekk getnað minn«.

9. En þá svaraði' hann kaupmann:
»Þetta' eru' undur stór«;
hann lézt ekki skilja kunna
hvernig þetta fór.

10. En því svaraði' hann kaupmann,
brá honum hér við lítt:
»Mart hefir skeð í fyrndinni
það nú þykir nýtt«.

11. Vildi hann ekki ófrægja
sína hjónastétt,
því hann hafði fjarvistir
frúnni lángar sett.

12. Óx hann upp hann Ísúngr,
varð einn gildur dreingur,
því vildi ekki kaupmaður
hafa hann hjá sér leingur.

13. Það var einn tíð að kaupmann
talar við sína kon:
»Eg vil koma honum Ísúngi
í góða hlutar von.

14. Hann skal fara í siglíngar
lángt í Austurveg,
svo hann verði kaupmaður
ríkur eins og eg«.

15. Kaupmaður dró upp atkeri
eptir sínum vilja.
Þannig varð hann Ísúngur
við sína móður skilja.

16. Kaupmaður seldi sveininn burt
útí þrældóms stétt,
tók í staðinn peninga,
þóttist gjöra rétt.

17. Svo kom hann úr siglíngu,
heilsar sinni kon.
»Hvar er hann nú Ísúngur
okkar kæri son?«

18. »Það er að segja af Ísúngi,
hann fór undarlega;
forlög manna skipta sér
opt á marga vega.

19. Það var einn blíðan veðurdag,
heiðið var svo skært,
hann sat úti' á þilfari
með sitt höfuð bert.

20. Eg hafði honum bannað
berhöfðuðum að vera,
en hann vildi' ekki annað
en vild sína gera.

21. Eingi maður veit dæmi slíks
en þó hann sé vís:
Ísúngur varð að vatni,
og bráðnaði eins og ís.

22. Hann var kominn af ísjaka
og af köldum snjó.
Sólin gjörði að vatni hann
og rann svo út í sjó«.

23. Þar kom skrum í móti skrumi,
skimp kom fyrir skimp,
firn á móti fádæmum;
fer svo títt og opt.

24. Því verður mörgum,
að flúkalega[1] fer.
Sjaldan verður yndi að því
illa stofnað er,
sem vitríngar frá skýra.

**Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. G. með hendi Gísla Konráðssonar. Prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 18—19. Kvæðið er líka í Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum III, bls. 117—19. Sbr. miða í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar og fært þar til fyrsta erindið.**

## Kvonbónakvæði.

1. Gamall höldur í búi
vill sér kvonfángs leita,
honum varð ekki til kvenna gott,
[allar tóku að neita.[2]
Völt er veraldar blíða.

2. Um síðir fekk hann viðhrifur
í einum góðum stað,
þó heldur væri þar orð á gjört,
hann ætti ei til margt.

3. Hann bauð frúinnar foreldrum
báðum heim til sín,
líka sjálfri meyjunni,
að drekka mjöð og vín.

4. Bjó hann svo til veizlunnar,
tók að láni flest,
silfur, klæði, húsbúnað,
vín og mikinn kost.

5. Lagði hann undir við sinn svein,
ef eg í hirzlur sýni,
seg þú alt sé meira til
heldur en eg fram tíni.

6. Fólkið kom til boðsins heim,
þeim var fagnað vel,
sýndi' hann þá alt upp og niður,
einninn kost og mél.

7. Þegar hann hafði í kjallarann sýnt,
þar var nógur drykkur.
Sveinninn segir: »Meira er öl
en hann sýndi ykkur«.

8. Bóndinn lauk upp hirzlum mörgum,
þar voru dýrðleg klæði.
Sveinninn mælti: »Hér er alltnóg
silki og flauel bæði«.

9. Höldum sýndi' í kokkhús sitt,
þar voru pytlur af eiri.
Drengurinn segir: »Hér eru til
eldsgögn lángtum fleiri«.

10. Höldurinn opnaði stóran skáp,
þar voru silfurkönnur.
Sveinninn segir: »Hér eru enn fleiri
skálir og borðker önnur«.

11. Um kvöldið þegar veizlan þraut
þá tók fast að nátta,
mæddur lagðist höldrinn niður;
hann varð feginn að hátta.

12. Varð honum heldur fljótt í svefn,
hann tók illa að láta,
snörlaði eins og skorinn hrútur.
Það gekk alt úr máta.

13. Eingum kom þar á auga dúr;
frúin greip fyrir eyru.
Ekki er gott hryðjukarls
frísíngar að heyra.

14. En þegar höfginn af honum rann
hann talar við hríngagefni.
Aldrei hefir mig fyrri hent,
að láta svo í svefni.

[1] flókalega v. l. í hndr. [2] 66.

15. Dreingurinn með sitt sama svar
geingur inn fyrir frúna:
»Opt lætur hann tvöfalt ver
í svefni heldur en núna«,

16. Þannig spiltust brúðarmál.
Frúin talar af skæti:
»Óðinn eigi þann hryðjukarl,
sem hefir svo ill svefnlæti«.
Völt er veraldar blíða.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. G, með hendi Gísla Konráðssonar. Fyrsta er. eptir Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum III, bls. 119, í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar. Líka í hrs. Sv. Grv. 65, með hendi hans sjálfs. Fyrsta er. prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 18.

## Um matargeymslu.[1]

1. Nokkur gildur bóndi bjó,
átti góða aura,
þar með [féð á[2] kvikum kvist[3]
[fæðu mikla[4] maura,
og hugðist vel að geyma.

2. Læsti hann sína matar maura,
vegna vargs og frosta,
inni í einum læstum skáp,
þar átti hann marga osta,
og hugðist vel að geyma.

3. Þar átti hann marga osta í,
ekki' er það til gátu.
Mýslur komust í skápinn inn,
og skarð í ostinn átu,
og þá tókst ei að geyma.

4. Átu þær skarð og átu þær tvö,
átu þær þrjú og fjögur.
Þá bóndinn sá nú frágáng þeirra
orð hans voru ei fögur,
[honum tókst ei[5] að geyma.

5. Orð hans voru ei fögur,
í svo feldan máta:
»Ekki skulu mig svo leingur
þær [gráu mýslur[6] skjáta.
[Eg skal betur[7] geyma.

6. Þær [gráu mýslur (títtlur)[8] skulu' ei skjáta mig,
eg skal búa þeim prísu«.[9]
Fer og lauk upp matarskáp
og læsti þar inni kisu,
og hugðist betur[10] geyma.

7. En þá kisa þar var læst
mýslur kunni hún drepa;
eptir á át hún ostinn upp,
og lét hann ekki sleppa,[11]
[og tókst þá ei[12] að geyma.

8. Það er satt sem talað er,
vitið er verði betra,
sumir verða aldrei hyggnir hér,
þótt séu sextíu vetra,
og [kunna aldrei[13] að geyma.

9. Á það lítt við karlmannslund,
að fara með matarmaura.
Opt og tíðum ber það við,
að það hefir farið í gaura.
Látum konurnar geyma.

---

[1] Nokkur skemtiljóð eður bragleysur með fornkvæðahætti B. [2] fé í B. [3] kistli B. [4] og ærið(?) B. [5] því honum tókst ekki B. [6] þær grátízlur mig so lengr B. [7] og hugðist nú að B. [8] tízlur B. [9] pressu B. [10] nú vel að B. [11] slepja B. [12] svo þá tókst ekki B. [13] læra ekki B.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. G. Hönd Gísla Konráðssonar. Fyrsta er. í sama safn 66, með hendi Jóns Sigurðssonar eptir Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum III, 115. það er líka í nr. 65, með hendi Sv. Grv. Prentað er það í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 17—18. Hrs. Á. M. 243 r. fol., bls. 28 — *B*. Frá 17. öld strikað vendilega út, en má þó lesa.

## Heimskukvæði.

1. Það er fornt gamanspil.
   Falleg er fróð sögn.
   Í fyrndinni bar svo til.
   Heimskum er bezt þögn.
2. Úngur maður þreyði
   þá hans faðir deyði.
3. Þar kom fólk að grafa hann,
   vildi hugga úngan mann.
4. Meðan greptrun yfir stóð
   fylgdin öll var drjúp og hljóð.
5. Sonurinn grét hinn gamla mann,
   fólkið var að hugga hann.
6. Guð hann gleðja báðu
   og góðs honum spáðu.
7. Sumir lögðu efnið út,
   sögðu ei gilti sorg og sút.
8. Allir semí[1] aumkuðu
   og góðs honum árnuðu.
9. Hinn úngi maður fyrir utan kals,
   ansaði ræðu fólksins alls:
10. »Eg vildi eg mætti ráða því,
    allir menn í þessum bý,
11. Mínir vinir og bræður
    mistu feður og mæður.
12. Eg skyldi' í allan máta
    hjálpa yður að gráta«.
13. Þá tók fólkið að stansa,
    einginn vildi ansa.
14. Flestir gjörðu að fussa
    fávísum við þussa.
15. Allir á burt reru,
    og við honum baki sneru.
16. Hugsvinnur við horskan lýð
    ræða kann í réttri tíð.
17. Heimskir heiðri glata, —
    Falleg er frásögn.
    fala sér ábata.
    Því hagar þeim þögn.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. G, með hendi Gísla Konráðssonar. Fyrsta er. í hrs. Sv. Grv. 65, með hendi Jóns Sigurðssonar. Kvæðið er líka í Kvæðabó Gunnlaugs á Skuggabjörgum III, bls. 120. Sbr. miða í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi J. Sig. Fyrsta er. prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 18. Í 67 er kvæðið talið 9 er., en hitt mun réttara, að telja það 17 er., eins og eg hefi gjört.

---

[1] sem. hndr.

## Múnkskvæði.

1. Múnkurinn gekk um stræti,
Heyrið hér,
hafði eingin æti,
sem opt við ber.
Þar krókur mætir bragði fallega fer.
2. Múnkurinn matarfúsi
gekk svo hús af húsi.
3. Alstaðar hann sníkti,
í honum húngrið hrikti.
4. Hann kom í harðan skóla,
lángan dag varð róla.
5. Gegnum borgina alla
vesall varð að lalla.
6. Litla rífð þar reyndi,
einginn honum beindi.
7. Múnkur í matarskorti
gekk að klukknaporti.
8. Hann þóttist kominn í hrukku,
fór og hríngdi klukku.
9. Prestur var þar nærri,
spyr hver dauður væri.
10. Múnkurinn magri ansar:
»Allan mig nú stansar.
11. Eg held hann dauðan vera,
sem vanur er gott að gera.
12. Kærleikur er geinginn,
hér fæst ölmusa eingin«.
13. Þá múnkurinn hríngdi ei leingur,
klerkur að klukku geingur.
14. Þetta' eru eingin ýki,
hann hríngdi sem fyrir líki.
15. Kallar á djáknann fróða:
»Sýngjum yfir þeim dauða«.
16. Þá spyr múnkurinn snauði:
Heyrið hér.
»Hver er sá hinn dauði,
sem meinið þér?«
17. Klerkurinn múnknum ansar:
Heyrið hér.
»Allan mig nú stansar,
sem opt við ber.
18. Þol þitt þrotið að hörku;
Heyrið hér.
kominn er dauður til kirkju,
sem opt við ber.
19. Yfir þér á að sýngja.
Heyrið hér.
Þá fór eg að hríngja,
sem verðugt er«.
20. Múnksins mælgi þagnar.
Heyrið hér.
Soltinn burtu dragnar,
hann innan sker.
21. Lötraði lasinn af pínu —
Heyrið hér.
heim að klaustri sínu,
og upp sig ber.
22. Hrumur og húngurmorða, —
Heyrið hér.
bað að láta sig borða,
og bjarga sem opt við ber.
Þá krókur mætir bragði fallega fer.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. G. með hendi Gísla Konráðssonar. Líka í Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum III, bls. 121. Sbr. miða í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi J. Sig. Fyrsta er. prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 18. Það er ennfremur í hrs. Sv. Grv. 65, með hendi hans sjálfs.

I.

1. Þar var einn kirkjuklerkur[1] —
Allmargt hefir skeð —
heldur til hljóða sterkur.
— á fyrri tíð.
Andhælið er auðþekt hjá öðrum lýð.
2. Alt jafnt í stólinn barði,
hönd og fót ei sparði.
3. Eitt sinn þegar hafði hátt,
kona sat við kirkju gátt.
4. Þegar endað messu fekk
klerkurinn [fram á gólfið[2] gekk.
5. »Hvað veldur þeim mikla[3] grát,
þú hafðir í dag með þursleg lát?«
6. »Ó minn sálugi ektamann,
áður en [kvaddi heiminn[4] hann,
7. Á nauðsyn mína hann þeinkti,
því fola[5] mér hann skeinkti.
8. Hann hafði blesu gráa,
róm svo harla háan.
9. Það var folans venja
eins og yðar að grenja.[6]
10. Hans var annar háttur
hark og hófasláttur«.[7]
11. [Klerkinum þótti miður,[8]
hann tók að hjaðna[9] niður.
12. Hann [þeinkti á svinnu[10] sína —
Allmargt hefir skeð —
og lagði af að hrína.
— á fyrri tíð.
Andhælið er auðþekt hjá öðrum lýð.

Hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar, eptir Kvæðabók Jóns Stephensens nr. VI, 17. Eptir sömu bók í hrs. Sv. Grv. 65, með hendi Sveins sjálfs og fyrsta er. áður með sömu hendi. Fyrsta er. í hrs. Sv. Grv. 65, eptir Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum I, nr. 10, með hendi Jóns Sigurðssonar = *A*. Tvær fyrstu línurnar í hrs. Bmfj. 382, 8vo = *B*. Útgáfa sú, sem þar er minzt á, hefir verið 12 erindi. Hrs. Sv. Grv. 67, frá séra Einari Sæmundssyni í Stafholti, eptir gamalli konu í Stafholtssókn = *C*.

II.

1. Klerkurinn eitt sinn hafði hátt,
Allmargt hefir skeð —
konan grét við kirkjugátt. —
í fyrri tíð.
Aðhlæið er auðþekt frá öðrum lýð.
2. Hún setti sér óp á kinn,
að því gáði klerkurinn,
og svo 4. er. o. s. frv. *C*.

1. Kóngurinn átti synina þrjá, —
Alvara í gamni.
sjúkur bjóst að falla frá.
Það var nærri sanni.

---

[1] úngur klerkur B. [2] til konunnar C. [3] sára C. [4] dauða kendi C. [5] asna C. [6] vantar í C. [7] Alt eins var hans hljóðalag | eins og yðar nú í dag C. [8] klerkurinn kendist viður C. [9] bráðna C. [10] Hann sá ósvinnu C.

2. Heimti hann til sín alla senn:
Alvara í gamni.
»Eg vil gjöra eitt testament«.
Það var nærri sanni.

3. »Sá skal stýra ríkjum hér« —
Alvara í gamni.
»latastur[1] sem allra er«.
Það var fjarri sanni.

4. Svaraði einn af sonunum hans:
Alvara í gamni.
»Mér skiptzt hefir sá veldis krans«.
Það var nærri sanni.

5. »Því letin er svo meðfædd mér,« —
Alvara í gamni.
»þegar til svefns og hvíldar fer«,
Það er nærri sanni.

6. »Þó mér drjúpi í augu ögn« —
Alvara í gamni.
»ligg eg kyr í þánka og þögn«.
Það var fjarri sanni.

7. »Opt þó eg misti heyrn og sýn« —
Alvara í gamni.
»hræri eg aldrei hendi mín,
þó ei sé fjarri sanni«.

8. Annar sonurinn svaraði þá: —
Alvara í gamni.
»Ríkið eg með réttu á«.
Það er nærri sanni.

9. »Letin er mér harla kær«.
Alvara í gamni.
»Þó eg sitji eldi nær«,
hermi eg nærri sanni.

10. »Þó loginn brenni hæl eða tá«, —
Alvara í gamni.
»aldrei vík eg fæti frá«.
Það var fjarri sanni.

11. Þriðji svaraði og sór við trú:
Alvara í gamni.
»Faðir minn, gef mér ríkið nú«.
Það er nærri sanni.

12. »Letin er svo við mig föst« —
Alvara í gamni.
»þó snæra lögð sé mér um hóst«,
Það var fjarri sanni.

13. »Þótt eg hafi í hendi kníf« —
Alvara í gamni.
»frelsa eg ekki sjálfs míns líf«.
Það er fjarri sanni.

14. »Fyr eg upp í gálga heing« —
Alvara í gamni.
»en eg bregði kníf á streing,
þótt ei sé nærri sanni«.

15. Lata kalla eg þessa þrjá.
Alvara í gamni.
Málahlut þann margur á,
þótt ei sé nærri sanni.

16. Sá hann umflýr ærlegt starf —
Alvara í gamni.
sult og armóð tekur í arf.
Það er nærri sanni.

17. Soddan ríki' og regiment —
Alvara í gamni.
er tilgángslítið testament,
þénar eingum manni.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. G., með hendi Gísla Konráðssonar. Fyrsta er. í hrs. Sv. Grv. 65, með hendi Jóns Sigurðssonar. Líka í hrs. Sv. Grv. 66 eptir Kvæðabók Gunnlaugs á Skuggabjörgum III, bls. 116—17, með sömu hendi. Fyrsta er. prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 18.

---

[1] kátastur, hndr.

I.

1. Bjó einn bóndi upp með á,
[í panser og í Plátrey,[1]
átti óskadætur þrjár,
í hofin og í stússin reið,
hökulsmokkinn
voknarokkinn
reyrðan rei,
og ríttu, ríttu rei rei.]
2. Þar kom boð fyrir bónda inn,
í burt er elzta dóttir þín.
3. Bóndi stökk undan borðum fram,
rauða mjöð um gólfin rann.
4. Bóndi gekk í hestahús,
brúnan fola leiddi út.
5. Hann reið þá á skóginn fram.
Lítil stúlka fyrir honum varð.
6. »Heil og sæl mín stúlkan fríða,
sástu hvergi hoffólk ríða?«
7. »Eg sá undir hlíða[2]
sextíu hoffólk ríða.
8. Hún var þar í miðjum skara,
rauða gull á fíngrum bar«.
9. Hann reið þá svo leingi,
í panser og í Plátrey,
að brúnan fola spreingdi,
í hofin og í stússin reið,
hökulsmokkinn,
voknarokkinn
reyrðan rei,
og ríttu, ríttu rei rei.

10. (vantar. Efnið er að bóndinn gekk heim og fann hvergi dóttur sína. »Svo segir þulkonan«).

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. O. Jón Árnason eptir Málfríði Jónsdóttur. »Hún fór um með manni sínum veturinn 1850. Hún var ættuð austan úr Múlasýslu (úr Loðmundarfirði), og sagðist hafa lært kvæðið af móður sinni, Þorbjörgu Pétursdóttur, en hún hafði aptur lært það af móður sinni, Snjófríði Jónsdóttur, systur Hermanns í Mjóafirði«. »Stússin« sagði hún að þýddi drykkju eða samsæti við drykkju. Átján árum áður en Jón Árnason skrifaði kvæðið upp eptir Málfríði, hafði Málfríður »plátru« í viðkvæðinu, í staðinn fyrir »Plátrey«.

II.

1. Hér býr einn bóndinn upp
með á
í pansara' og í plátu;
veglegar á sér dætur þrjár
í skusseli og með strútinn breið.
Með hökulsmokkinn,
vopnarokkinn
hann burt reið.
2. »Heil og sæl«, mín lítil stúlka,
»Sástu hvergi hoffólk ríða?«
3. »Eg sá undir hlíða
fimtán hofmenn ríða.
4. Eg sá undir hlíða
eina mey svo fríða«.
5. »Lifðu vel mín lítil-kvinna; —
Í pansara' og í plátu.
eg skal þetta hoffólk finna
í skusseli og með strútinn breið.
Með hökulsmokkinn,
vopnarokkinn
hann burt reið.

---

[1] = i Panser og i Plade. [2] hlíðar, hdr.

Ny kgl. Saml. 1141, nr. 70. Afskript með hendi Sigurðar skólakennara Sigurðssonar í hrs. Sv. Grv. 67. 1. er. í hrs. Sv. Grv. 65 og 67 með hendi Sveins sjálfs. Líka í kvæðabók Gísla Ívarssonar. Fyrsta er. prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 233.

III.

Bjó einn bóndinn upp með á
í pansal og í plátus;
hann átti sér dætur tvær
í stutzil og rutinreið,
hökulsmokkinn reiðan / vokna rokkinn
reið hann einn.

Hrs. Á. M. 153 V, 8vo 7. bl., nr. 13. Frá byrjun 18. aldar. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar og í sama safni 65 og 67 með hendi Sv. Grv. Prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 259.

IV.

Bjó einn bóndi upp með á
í Panselo við Pláturey;
átti' hann óskadætur þrjár
í hofinu' og í Stúsinrei,
hökulsmokkinn,
vopnarokkinn
reyrðan rei.
Ríddu, ríddu rei rei.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch. L. séra Jón Eyjólfsson eptir Guðrúnu Jónsdóttur í Vigur. Auk þess eru hér 3 önnur erindi, 2., 5. og 9. Úr I. Fyrsta er. af útgáfu séra Jóns í hrs. Sv. Grv. 65 og 67, með hendi Sveins sjálfs, prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 259.

1. Gyrðir vaknar vesæll og aumr,
Audían,
valdían.
settist upp og sagði sinn draum.
Seint koma þeir sekúlum og remí,
ess í dé
og emm í bé.
óbí nóbí renere,
forsíón og remí.
2. Eg sá eina stóra örn,
einga hafði eg á mér vörn.
3. Krækti hún klónum í mitt hold,
flaug hún með mig vítt um fold.
4. Flaug hún með mig lánga tíð;
við komum að helli um síð.
5. Kastaði hún mér á hellisgólf,
brytjaði hún mig í stykki tólf.
6. Brytjaði hún mig í stykkin stór,
síðan alt í ketilinn fór.
7. Sauð hún mig svo lánga stund,
að svíða tók mig sára und.
8. Færði hún mig svo síðan upp,
skar hún bita af mínum hupp.
9. Nú hefi eg sagt þér drauminn minn; —
Audían,
valdían.
ráddu' hann, ráddu' hann vinur minn.
Seint koma þeir sekúlum og remí,
ess í dé
og emm í bé,
óbí nóbí renere,
forsíón og remí.

Hrs. Sv. Grv. 67. Arch. D[2], með hendi séra Benedikts Þórarinssonar á Ási í Fellum 1850, eptir Björgu Pétursdóttur konu Árna prófasts Þorsteinssonar á Kirkjubæ. Fyrsta er. í 67. Arch. D[1] og 65 og 67 með hendi Sveins Grundtvigs. Í sama nr. eru tvær fyrstu línurnar af kvæðinu á öðrum stað. Byrjunin á kvæðinu líka í hrs. Sv. Grv. 66, með hendi Jóns Sigurðssonar. Fyrsta er. prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 21.

Jófreyr kompán fell af bát.
Hans varð skyrta og línbrók vát.
Hann fór til grunns
og stóð vel pund,
lá þar í millum steina.
Eingan klerkinn heyrðum vér svo fyrri láta,
ínglar og dínglar
um þann kalda sjá.
Það mun hún damma gráta.

Ny kgl. Saml. 1141, fol., nr. 186. Afskr. í hrs. Sv. Grv. 65. Kvæðabók Gísla Ívarssonar. Prentað í Ant. Tidsskr. 1852, bls. 255.

Ólafur reið með björgum fram.
Mig syfjar.
Hitti' hann fyrir sér Abraham
með klyfjar,
með fjalldrapaklyfjar.

# Lánglokur.[1]

## Þula um firrur og fjarskalæti heimsins barna.[2]

Í mistækum mannanna dómum
minstan eg jöfnuð skil;
stundum [er úr kastað ómum,[3]
þá ýmsum er talað í vil,
vana glóría vasar
vænni um bríngu en bak,
heyrist hennar brak;[4]
tekur hún vatnið Væni
og vegur það saman við Fjölmóðar vilið,
sækir hval í hafið út
og smeygir inn í smátjarna sílið.
Orðin gjörir eins að vikt
elefant og mýið,
blaðkornið og blýið,
koparinn og kúafroðuna,
klettana og slýið.[5]
Skapa vildi í skrumi,
skyndi fljótu fumi.
Nokkrir hella[6] hála svell
hjá fordildar brumi.
Þagna eg [brátt og[7] þrumi
hjá þysi[8] og hennar gumi.

Afskript dr. Jóns Þorkelssonar yngra eptir kvæðasafni Páls Pálssonar stúdents I, bls. 272. Eignað þar Birni Jónssyni á Skarðsá. Hrs. Bmfj. 629. 8vo = *A*. Hrs. Bmfj. 35, fol., bls. 91 = *B*. Tidsfordriv Jóns Guðmundssonar lærða og er þulan því líklega eptir hann. Ny kgl. saml. 76. fol. = *C*. Á. M. 727, II, 4to, 22 bl. Eiginhandarrit Jóns lærða = *D*.

## [Önnur um frú Vild.[9]

Frú Vild altíð[10] holt gjörir halda,
hennar dætur ráðin svo kenna:
Játið fyrir eingum lesti ljóta,
látið kyrt hvað á hefir bjátað;
jöfnuð aldrei nokkurn nefnið,
nú er það búið, sem hver skal trúa;
synd er dauð, en sigraður fjandinn,
[sjálfráð löndin,[11]

---

[1] Hér eru að eins teknar nokkrar lánglokur til sýnis, og voru valdar þær beztu, sem voru fyrir hendi; þótti ekki þörf að taka fleiri, því flestar lánglokur eru mjög aumur og ómerkilegur skáldskapur og standa lángt á baki öllum öðrum flokkum í þessu safni. [2] B. [3] úrkast á dómum BC. [4] kvak ABC. [5] skýið BCD. [6] hitta BCDE. [7] þrátt af BC. [8] þér BC. [9] sl. C. [10] alfríið BD. [11] öndin C, londin D.

óhrædd öndin.
Fordild fundin
altíð óbundin,
þitt gagn skal mitt
en mitt ekki þitt
[þó kvitt,[1]
fagurt frítt[2]
næmt[3] nýtt,
því verður hlýtt;]
lystinga lýður
leikandi bíður
vel má þar skrölta,
sem vegurinn er víður,
heimurinn þykir þýður,
þá hann er dáblíður.

Safn Páls Pálssonar I = *A*. Hrs. Bmfj. 35 fol., bls. 91 = *B*. Ny kgl. Saml. 76, fol. = *C*. Hrs. Á. M. 727 II, 4to 22. bl. = *D*. Öll eru hndr. þessi Tidsfordriv Jóns lærða Guðmundssonar (samið 1644), og er þulan því að öllum líkindum eptir hann. D. er eiginhandarrit Jóns Í C og D er sviga kaflinn endurtekinn á eptir þulunni. Í BCD stendur stef þetta aptan við þuluna:

*Flest förlast með elli og ángran ómildra*
sá sanngjarni og vísi mun vorkenna.

Byrjunin á báðum lánglokunum hjá Jóni þorkelssyni, Om Digtningen o. s. frv., bls. 487. Sbr. Tímarit Bmfj. 1887, bls. 59—60

## Munnvarp.

Upphaf og einninn kvöld
af leið á gömlu öld,
vindöld, vargöld,
skeggöld, skálmöld,
veröld, vosöld,
verri öld,
vesöld, maröld.
Gæfan vann góss og völd,
guð fann heppnishöld,
töpuðust trygða tjöld,
tókust fyrir það gjöld,
verði ný vörm og köld,
vel eg Jesúm vorn skjöld.
Máð munu minnisspjöld,
meiningin leynist margföld.

Hrs. Bmfj. 35, fol., bls. 239. Hrs. Bmfj. 68, 4to.

Karlamagnús mætti
mörgum eggjaslætti,
vopn í dreyra vætti
vígs með fremdar[4]hætti;
hraustum, beztum helt í safn
herliðs samandrætti;
kostamest fyrir keisarans nafn
sá kristna reglu bætti.
Rollands fall í Runsíval,
sá reyndi brandinn Dýrumdal,
en hinna[5] átal,
er hristu fal,
hildi[5] tíðum grætti.
Karlots[6] hjal
[þá komst í fal[7]
klárleg[8] orðin þvætti,
friðnum stal
úr sjóla sal,
en sízt fyrir verkið þrætti.
Landstjórn, lögmál bætti,[9]

[1] Sl. A. [2] knýtt C. [3] nám BD. [4] frægðar B. [5] hilding B. [6] Carlots B. [7] þeim kom í pal B. [8] þá klúrleg B. [9] tætti B.

en lofðung ríkja gætti,
með mætti[1]
sveit kætti;
ýmsra landa
yfirgáng fjanda
upp svo rætti.
Aldur hans elli mætti
sem Olgeirs stár í þætti.

Hrs. Bmfj. 370, 8vo. Hrs. Rasks 87 — *B*, og eru þar fimm aðrar lánglokur út af Karlamagnússögu.

Víst var Brana væn, kæn,
með veldi burt skeldi frá eldi,
harða barði helskorð
þá hljóp inn í hópinn með sópinn.
Burðug, virðug víst varð,
hún veitti, afls neytti, [sig þreytti[2],
ráðin dáða dýr, góð,
drósin sú ljósa réð kjósa,
gæfustund,
var ljúft í lund
lýtin í burt að sníða.
Vináttu lánga lýða
lét ei snótin bíða.
Hálfdán með hegðan fríða,
hann kann vel að prýða
ástarfund
um eina stund
og elskubandið þýða.
Um Vinólfs[3] völlinn
vöguðu[4] tröllin,
[varð þeim þó að svíða.[5]
Fremd með fegurð dýra
og funann neista hýra
brögnum sendi
og blíðast kendi
bezt og mest að stríða,
flögðin brendi
vargavendi,
varð þeim þá að svíða.
Við skemdarsköllin
skulfu fjöllin.
Skoðaðu málið víða.
Hestar dafna,
holdum safna,
hlökkum til að ríða
velli snákar sníða
snotra götu, fríða.
Rekkar[6] bruna' og ríða,
þá reisa þeir til tíða.
Svo skal bragsmíð bíða,
búið er þátt að sníða.

Hrs. Sv. Grv. 67, Arch L. = *B*. Séra Jón Eyjólfsson eptir Margréti Magnúsdóttur, prestskonu á Snæfjöllum.

Opt þver eptirlæti,
eykst það tíðum grætir;
fuglasafna sæti
sést nú ei um stræti,
sumarblíða sæl ei meir
né saungfuglanna kæti.
Urtablóminn dapur deyr,
dugir ei þó þræti.
Fölna grundir, frjóvgast ei
frón og daprast Óðins mey;
burt af eingi hirt er hey,
hrörnar gleði mæti.
Hræsvelgs örvast garma gey,
gránar jörð en sorgarvei

[1] sætti B. [2] svo breytti. [3] Gröndólfs B. [4] vösuðu B. [5] við versta' og mesta kvíða B. [6] Renna B.

heyrist opt um ....
ei sjást lömb á fæti;
haustið setzt í sæti,
sorg þó fárra bæti;
flest ágæti
á burt tætir
og mæti.
Smáfuglanna
um Sviðris svanna
sést nú ekkert kæti.
Vonar glaðni glæti,
gleði fast innræti.

Pontan heitir, pína,
prýdd með ljósi Rínar,
komin framan úr Kína;
kappar á hana grína.
Baukinn þenna brúkar spök
borða ferðug lína,
finn eg þar til fleiri rök
fyrir hlýra mína.
Hún er væn og hvít sem dript.
Hver sem rænir bauga nipt,
illar bænir skapa skript,
skal það á honum hrína.
Henni', af svanna opt er ypt
og um ranna tíðum lypt;
fljóðin granna' og fólkið gipt
með furðu á hana blína.
Heiður er hana' að sýna,
hér því af henni skína,
ei dvína,
miklir glampar.
Mengrund hampar
menjagripnum fína.
Fleira til má tína
um tóbakshirzlu þína.

Sést ei duggan Dana
á dýi stökkuls flana?
Eitthvað hindrar hana
hafs og fleiri svana,
máske ekki megni rýr
máttur húsabana
áls um bekki ægis dýr
áfram láta gana;
ellegar fala ömun ljær
alheims sala voðin glær,
svo hún ei fær
hér fróni nær
á fríðar hafnir brana.
Ó að svalur austanblær
um eingi hvala blési vær
og seglaklær
út þendi þær,
sem þóptu drífur grana;
örugt upp sig spana
álptir hyggju-rana
ef ana
einmana,
ei stjana
í nokkru verki.
Nefið á klerki
næring brestur vana.
Senn fyrir sól mun glana
og sjást hin danska trana.

Eitt sinn fór eg út að slá.
er þar margt að segja frá,
vildi skemtan verða fá,
vildi' eg þetta lýðum tjá.
Sól var gengin suðrið á,
sofna vildi' eg nokkuð þá.
Í rjóðri einu litlu' eg lá,
lítinn draum eg merkti þá.
Eg þóttist staddur höllu' í há,
hún var breið og víð að sjá.

ótal manns þar inni sá,
alskipað í hverri krá.
Á miðju stræti mey var kná,
mislitum var kyrtli á
andlitsfögur, augnablá,
alt svo nam á hörund gljá.
Sat á stóli seima gná
settum neðan hvolfum...
— — — nefnist nornið þá
nauðug — — — — gjá.
Þó fleingd sé hún með fork af trjá
fer hún seint að vefa' og kljá;
töm er ei að tölta' í snjá,
tómlát eins við ullartá.
Hún mig gjörir þvínga' og þjá,
eg þykist henni hlýðni ljá.
Skáldin bið eg að skrifi' uppá,
skynsamlega bæti' um já!

Út á flóa einir tveir vér róum,
eingin sést af sumar- fögrum -lóum.
Sauðafjöldinn sefur þar í móum;
vér sjáum enga ferð á skollatóum;
flýgur hjá oss flokkur einn af spóum,
fýrug heyrum hljóðin vér í kjóum;
gliðna taka göt á vorum glóum,
góðum þeim til ónýtis ei sóum;
veiðarfærin verkum upp og króum,
verðug þorna yfir öskustóum.
Hestinn sækjum hrísið á, sem hjóum,
heiðurskvinnum okkar með því fróum.
Einatt heita . . . . undir góum.
Allir vér að þessari vellu hlógum.

Yndisstundin að ber,
óð eg bjóða þér fer;
vorið dýra hefst hér,
hrindir yndi nær.
Fegrast bær,
frónið grær,
fágast tága grundin.
Vorstundin
yndi lér
mildust mér;
mæt að kæta vortíð er.
Lifnað er,
frjófgast fer
fríðust, blíðust urtaker.
Gleðisaung
geðs um gaung
græðist mæðustríð.
Sumartíð
björt og blíð,
blasir rós í grænni hlíð.
Um svæðið væna
glóir græna
gras hjá mosa vors við fund.
Kaupför heim
hafs um geim
hlaðin meður auð og seim
að landi gá;
fagnað fá
fingursmáu auðargná.
Einnig láar ljóma á

lundar fundu kæti
með mæti.
Þófahund
þeysa' um grund,
þúnga fánga mæðustund,
hlaupa mundi' um svæði sund,
svángir húngur líða
hið stríða.
Búð í síðan
seggir skríða,
súpa tíðum ágætt vín;
gleðja sig,
grunar mig,
glymur í sumra raddarstig.
Heim á leið
skella' á skeið.
Skunda' um stund að bygðum.
Undur kveið
rekka reið,
röndin breið,
reyndi neyð;
í skrykkjum skreið
skollvaldsbeðjan fín;
Fjörgyn meiðir gyllis greið
gángan þúng svo dvín.
Við þagnar hreiður
þarna beið
þula' án dvalar,
þigg þú skjalið,
er Jón nam klastra Jódís mín!

Villíngur var vakur klár,
vel nipur í fótunum,
styggur svo sem annar ár,
eg tel það með bótunum.
Það var vatnahestur hár,
hentugur í fljótunum,
nettur, þýður, fagur og frár
farar beztur af skjótunum;
bleikur fákur, í framan grár,
fallegur handa snótunum,
strýkur ylgur þófa þrár
þegar á eyktamótunum,
næst hann ekki og er það fár
utan á streingja nótunum;
eins og píla æðishnár
er hann í þessum hótunum
eða sem andi fítons flár,
að fara að honum með spjótunum.
Margur verður við hann sár
og veltir upp úr sér blótunum,
en fyrst hann er svo kostaknár
og keyrir upp jörð með rótunum.
fer því nær eg felli tár,
ef finnst hann undir þrjótunum.

Afskript dr. Jóns Þorkelssonar ýngra, eptir hrs. Bmfj. Rkv. 139, 8vo, bls. 226—27, með hendi Bergs Strandalíns. Lánglokan er eptir séra Sigurð Ketilsson á Skeggjastöðum á Lánganesströndum.

Gjarna vildi eg giptíng minni hvata,
og gáng til minnar brúðarsængur rata,
en prestur gjörir gjörníng þann að lata
og gegnir því, sem hreppstjórarnir pata.
Hjá brúði að leggjast banna þeir mér til fata;
betur gengur félagssonum[1] Snata.

[1] Fílat og honum.

Svo er líka' um sjóvarbotninn flata,
selur parast, þorskur, ýsa, skata.
Sjái þeir til sem sambúð okkar hata,
að sálunum ekki vinnist þeim að glata.
Sé eg ráðið, sem mig kann að bata,
að sigla' út fyrir kónginn með honum Vata.
Helg er mönnum hjónabandsins gata;
hafa skal eg þig, trúss þeim öllum, Kata!

Ræðu ruglið staka
ritað lét eg kvaka,
orðum saman að aka
um Olgeir hetjumaka.
Brand í höndum bar sá títt
og brúsum þorði að raka,
fjanda' á löndum fólkið strítt
fell og dreif til baka,
háði víða [hjörfa þund(r)[1]
hraustur byrstan eggja fund,
reyndi mund um Rögnis sprund
og ríkin mátti taka,
rasta hund þá rendi' á sund
rauna kendi svaka,
þá[2] öðlings kund um æfistund
uppá gjörði saka;
úr launum lét ei raka[3]
við[4] liðsmenn fylgispaka,
með[5] klaka
kífsvaka,
hneita bendir
sveitum sendir
sáðið Kraka;
gildum gjörði þjaka
greipar [vatns og klaka.[6]

Hrs. Bmfj. 370, 8vo. Hrs. Rasks 87 — *B.*

Fækkar féð á fjörunum,
fann eg einn á þörunum,
þeir báru' hann heim á börunum,
bundinn fast í snörunum,
allan þakinn örunum,
uppblásinn af mörunum,
kúrir hann þar í körunum,
kafnaður undir skörunum.
Vargurinn át með vörunum
af veslíngs fornu pörunum,
dreingir lyptu dörunum
dauflegir í svörunum,
hertu snæri' að hörunum.
Hugsaðu eptir kjörunum.

Dr. Jón þorkelsson ýngri eptir þorbjörgu Jónsdóttur.

---

[1] heims um grund B. [2] þó B. [3] laka B. [4] B. [5] B. [6] von(!) svo jaka B.

## Drösuldans

eptir Svein lögmann Sölvason.

Blikar frár um fold
[fagurleitur,[1]
stjarna enni í.
Kvikar hár og hold,
haga feitur,
kjarna kennir því.
Stálbryddur
staunglið[2] gatna treður.
Skatna meður
vatnið veður
mjúkt sem mold.
Bjarnar rennur fleyginn frí
gotinn otureygði,
etið getur mélin hörð.

Beztur alinn, hala hjal,
hesta val ei falur skal.
Dillar pipur,[3]
dálipur
dýrgripur.
Skjótur[4] grjóti fótum undan fleygði,
flagar græna jörð.
Fríð er lend, fax, tagl,
fauk sem haukur loptið[5] strauk,
er agnið[6] eygði.
Skeiðið hvört sem[7] hjörtur ört
hríngjum[8] leingir búna gjörð
og taumgrímu teygði.
Líður ent[9] bragsbagl.

Hrs. Bmfj. 567, 8vo. 49, 8vo = *B* og segir þar að vísan hafi verið í bréfi til séra Péturs Björnssonar (»Vulg. sertent Sr. Haldórssonar«), sem var á Breiðabólsstað í Vesturhópi. Hrs. Bmfj. 68, 8vo = *C*. 734, 8vo = *D*. 353, 4to = *E*.

Í C og D eru fjórar aðrar svipaðar vísur, með sama bragarhætti, Öldudans, Skeiðardans, Meyjardans og Flöskudans.

---

[1] fagurt leikur C. [2] stánglið BE. [3] nipur C. [4] fljótur C. [5] lopt um D. [6] þannig BCDE. [7] fer D. [8] hríngum C. [9] enn eða enda B.

## Eftirmáli

*Með þessu hefti (15—24. örk) er lokið til fulls prentun þess safns af lum og þjóðkvæðum", er Ólafur heitinn Davíðsson bauð Bókmentafjelags-dinni hjer til útgáfu, og var það síðasti hluti hins mikla safns hans af fræðum þeim, er hann hafði um lángan aldur til safnað. Deildin fal 5 ma nefnd að rannsaka hið nýja safn og segja álit sitt um það. Hún gerði og lagði til, að allmiklu yrði slept og að flokkaskipun yrði nokkuð önnur eðlilegri, og tók Ólafur flest eða alt til greina. Er nú safn þetta prentað g eins og hann að síðustu gekk frá því, nema registrið hefir cand. jur. Jón mannsson samið. Ólafur las ekki prófarkir af þessu safni, því að hann heim alfarinn til Íslands 1897; það hafa aðrir gert, og jeg hef litið yfir (aðra) próförk af 14 fyrstu örkunum; en þetta síðasta hefti hef jeg að leyti sjeð um, það er, lesið allar prófarkir af því; jeg hef borið textann vœmlega saman við öll þau frumrit, sem hjer eru í söfnum, en þann hlut-, sem prentaður er eftir öðrum handritum (t. d. í landsbókasafninu eða dr.safni Bókm.fjel.), hef jeg aðeins getað borið saman við handrit Ólafs fs; jeg hef litlu sem engu breytt og ekki viljað breyta til, en þar sem mál orð var óskiljanlegt og auðsjáanlega afbakað, hef jeg leyft mjer að setja ki (!) við, eins og Ólafur sjálfur gerði alloft.*

*Er jeg hitti Ólaf Davíðsson í sumar, fór jeg þess á leit við hann, að semdi almennan eftirmála um safn sitt í heild sinni, gerði grein fyrir að-sinni og meðferð kvæðanna o. s. frv. Hann aftók þetta ekki, en bar fyrir annríki. Í september fjekk jeg brjefspjald frá honum, ritað 30. ágúst og lur þar m. a. svo: „Illa líst mér á, að eg geti samið nokkurn inngáng, og við töluðum um, en eg skal reyna með fyrstu ferð. Eg er á einlægu alagi og önnum hlaðinn á sumrin". Viku síðar en þetta var skráð var fur liðið lík. Hann druknaði í Hörgá að kvöldi dags þ. 6. september, og þar með lokið ævi þess manns, sem einna fjölfróðastur hefur verið af hinum i Íslendingum og einna mestur safnandi allskonar þjóðfræða — „enda hugsa [segir dr. Jón Þorkelsson (í Þjóðólfi 2. október), er best mun hafa þekt ], að aldrei nokkurn tíma hafi verið lærðari maður, hvorki fyr nje síðar íka hluti en hann var". Þetta mun varla ofsagt. Þetta safn Ólafs alt vott um afarmikla elju og ástundun, og hafi hann lesið handritin rjett og*

*skrifað rjett upp eftir þeim, er safnið að öllu samtöldu mikils virði. Jeg get ekki borið um, hvað mikla nákvæmni safnarinn hafði, nema að nokkru leyti. Jeg hef rekið mig á, að hann hefur lesið (eða skrifað) nokkurum sinnum rángt, enda eru mörg af þeim handritum, er hann notaði, oft ógreinileg og örðug aflestrar. En meðferð Ólafs á textanum er stundum óneitanlega nokkuð sjálfræðisleg, og það er oft ilt eða ómögulegt að sjá, hvaðan ýmislegt af orðamuninum er tekið, eða hvernig með þau handrit er farið, er notuð hafa verið til samanburðar; hjer hefur safnarinn eflaust ekki sýnt nógu mikla nákvæmni. Að hve miklu leyti safn þetta megi telja fullkomið, svo að ekki sje meira til í söfnum er vert sje að prenta af samkyns fræðum, get jeg ekki borið um til hlítar. En svo mikið má óhætt segja, að hjer sje samankominn í eina heild svo mikill fróðleikur, að stórbót er í því að hafa hann þannig prentaðan og öllum aðgengilegan. Tel jeg það víst, að safnið muni eigi aðeins verða haft til skemtunar heldur og muni fræðimenn af ýmsu tagi sækja í það margskonar fróðleik, er þeir þykjast þurfa á að halda. Og það er víst, að efni safnsins er afarmerkilegt fyrir menníngarsögu Íslendínga á liðnum öldum.*

*Ólafur Davíðsson var fæddur 26. janúar 1862, varð stúdent árið 1882 og tók heimspekispróf við háskólann árið eftir; en embættispróf tók hann aldrei. Hugur hans hneigðist mjög að náttúruvísindum, einkum grasafræði, og stundaði hann hana ekki síst síðustu árin heima á Íslandi. Hann hafði afarglögt auga fyrir öllum sjerstökum tegundum og fann mjög margt af nýjum. Hann sendi híngað til Hafnar alt er hann fann nýtt, og svo hafa danskir vísindamenn sagt mjer, að það sje aðdáanlegt, hve mikið hann fann, safnaði og sendi. Hann hefur því og að þessu leyti reynst hinn nýtasti. Hann samdi ritgjörðir um ýmisleg efni bæði í innlend og útlend tímarit.*

*Kaupmannahöfn 1. nóvbr. 1903.*

**Finnur Jónsson.**

# REGISTUR.

Línur þær, sem eru einkendar með stjörnu, eru upphöf á kvæðum, þulum, stefjum eða formálum.


Abraham 374.
Aðaldalur 166—67.
Að deyfa reiði óvinar síns 104.
Aðfánge 172.
Að stúlka unni manni 104.
*Á Eyrarbakka út kom hann 326.
Afgamalt erindi 226.
*Af Hugsvinns ráðum hafið þið fátt 172.
Ágústína Jóhanna Eyjólfsdóttir á Stað í Aðalvík 182, 214—16, 227, 240, 281.
Alba 328.
Alexander 330.
Álfheimar 36, 38, 83, 159—60.
Álfhildur Dagsdóttir, drottning 65, 75.
Alfvör (Alvör) 7—9, 12, 17, 20—25.
*Allir fuglar út með sjó 265.
Allra flagða þula 107.
*Alls hins bezta óska eg þér 346.
Almannagjá 154, 249.
Álþrúður 39.
Alþrúður drottning 46, 47, 56—58.
Andastefna Sæmundar hins fróða 97.
Andramóðir 328.
Andrés 172.
Anna í Höfn 136.
Anna Kristín Ebenezardóttir í Vigur 201.
AntiquariskTidsskrift 16, 38, 45, 54, 64, 84, 94, 302, 362, 364, 366—69, 371, 373, 374.
Antiquitates Americanæ 29.
Apavatn 153.
Árbækur J. Espólíns 16.
Árbær 139.
Ari Mársson 10, 13—14, 16, 23, 25, 28.
Arinhella 111.
Arinnefja 328.
Arkiv for nordisk Filologi 172, 273—75.
Árni á Króki 248.
Árni á Straumi 125—26.
*Árni bjó á Strönd 204.
Árni Jónsson, prófastur á Skútustöðum 286, 289.
Árni Magnússon, prófessor 15, 16, 38, 76, 252, 257, 272, 281.
Árni Þorsteinsson, prófastur á Kirkjubæ 362, 374.
Árum-Kári 172.
Ásgeir Bjarnason 326.
Ási 120.
Askur 145
Ásmundur 26.
Ásmundur Gunnarsson, konúngur á Gautlandi 71—74.
Ásmundur kóngsson 41—43, 45.
Ásmundur konúngur 49.
Ásný á Stóra-Bakka 131.
Aspar risi 328.
*Á sumardaginn fyrsta 224.
Ausa 145.
Austurland 213.
Austurvegur 365.

Babylon 331.
Bakki 136.
Baldvin Þorsteinsson, prestur á Upsum 166.
Bárðarson 121.
*Bárður minn á jökli 232.
Barnagælur og barnavísur 254—70.
Barnagælur gamlar 258.
*Barndómurinn líður fram í leikaraskapnum 273.
Beingarður herra 358.
Belgur 142.
Belsholt 317.
Belsibub 102, 138.
Benedikt á Felli 139.

Benedikt Friðriksson á Miklabæ í Óslandshlíð 278.
BenediktMagnússon Bech, sýslumaður 16.
Benedikt og Kristján Hvassafellsbræður 334.
Benedikt Þórarinsson, prestur að Ási í Fellum síðar að Heydölum 29, 181, 196, 205, 218, 220, 362, 374.
Berggreen, A. P. 118.
Bergsbók Jóns Árnasonar 326, 328.
Bergur 152.
Bergur Strandalín 380.
Bernharður 163.
Bethanía 330.
Betlehem 173.
*Bí, bí og blaka 262.
*Bíum, bamba 262.
*Bíum, bíum, bamba 262.
Bjálfi 142, 143.
Bjarga 169
Bjarnarfell 218.
Bjarni á Hrærekslæk 130.
Bjarni Brynjólfsson á Hafrafelli 188, 193, 206, 207.
Bjarni Gissurarson, prestur á Þingmúla 119, 123.
Bjarni Jónsson skáldi 304.
*Bjó einn bóndi upp með á 372, 373.
Björg Birtiltoppa 282—83.
Björg Guðmundsdóttir í Kaupmannahöfn 266.
Björg Pétursdóttir, húsfrú á Kirkjubæ 362, 374.
*Björn er nefndur baukur 267.
Björn Gíslason 38.
Björn Jónsson á Skarðsá 232, 375.
Blaðra 143.
*Blikar frár um fold 382
Blóðstemma 95.
Blöndugerði 131.
Bogi Melsteð, cand. mag. 212, 281.
*Bokki sat í brunni 211.
Bóla 145.
bolakarl 165.
bólan 160.
*Boli bánkar á dyr 174.
*Boli bánkar á hurð 174.
*Boli, boli bánkar á dyr 173, 174.
Boli, bóndi Grýlu 111, 142, 143, 147 (173).
*Boli frammi baulaði 174.
*Boli kemur bánkandi 174,
*Boli kemur og bánkar á hurð 173.
*Boli litli á balanum 173.
*Boli litli baular lágt 174.
*Boli og Grýla bæði hjón 111.
Bolli 145.
Bolli heimski 330.
Bónaparte 358.
*Bóndi sefur hjá seimagná 303.
*Bopp heyrði eg 241.
Borg 120.
Bót 131.
Botni 145.
Bragasaga 16.
Breiðifjörður 314.
Breiðunes kóngsdóttir 281.
Brekka 133.
*Bennivíns þumlúng 315.
Brennusel 132.
Brúarland 168, 169, 173.
Brúsaskeggur bóndi 285—86, 288.
Brúsastaðir 154.
Bryngerðarljóð 84—91.
Bryngerður Dagsdóttir konúngs 85, 87—90.
Brynjólfur Árnason, prestur í Lángholti 144—46, 151, 178, 249, 309—10.
BrynjólfurHalldórsson,prestur í Kirkjubæ 122, 127.
Brynjólfur Jónsson á Minna-Núpi 326.
Brynjólfur Kúld, cand. phil. 297.
Brýnki 145.
Bræðrá 116.
Búrfell 157.
*Burt er dáin mín, mín 224.
Busi bóndi 282—83.
Buslubæn 305.
*Bæði góla börnin hér 269.
*Bændurnir brúka borðahatt 332.
Böðvar 145.
*Börnin eru bezt komin 265.

Carvínus. Sjá Karvínus.
Corpus poeticum 267, 268, 310.

Daði Níelsson fróði 144.
Dagur konúngur 65, 67, 70, 86, 91.
Dallur 145.
Danaveldi 92.
Dáni 145.
Daníel Halldórsson, prestur á Hólmum 118, 166, 260.
Danmörk 246.
Davíð 353.

Davíð Guðmundsson, prófastur 276.
*Diktuð þar um dæmin ljósast greina 359.
*Dilla eg drengnum mínum 302.
*Dillir dó og Dumma 173.
Dillir foringi Heródesar 173.
Dillir og Dumma 173.
Dillukvæði 257.
*Dimmir í dölum 241.
dimmrúnir 160.
Djángi 145.
Djúpilækur 137.
*Dó, dó og Dumma 173.
*Draum dreymdi mig 206.
Draumur 206.
*Dreingur einn með dalli rann 267.
*Dreingurinn Dólinn 217.
*Dreingurinn í dvölinni 266.
*Dreingurinn minn er kominn á kreik 268.
*Dreingurinn minn, minn 253.
Drífa 143.
Drösuldans 382.
Dúðadurtskvæði 164.
Dúðadurtur 164—66.
*Dúfan í Danmörk 246.
*Duggan sigldi á hafinu 221.
Dumma foringi Heródesar 173.
Dýrastefna 98.
Dýraþulur 234—42.
Dýrumdalur 376.
Dögunargerði 123.

Ef maður vill ást stúlku fá 104.
*Eg fór til berja 252.
Eggert Ólafsson 144.
Egill 114—15, 161.
Egill á Sandfellum 120.
*Eg lít hér á þig 104.
*Eg Nói Nóason 103.
*Eg Nói Nóason stefni þér 97.
*Eg Nói Nóason stefni þér refur 99.
*Ego, ego Nói Nóason 97.
*Eg sá fyrir landi átján báta 274.
*Eg sá sauð suður í mó 260.
*Eg sá þann mann, sem fleskið bar 283.
*Eg skal dilla syni mínum 236.
*Eg skal kveða við þig vel 267.
*Eg skal taka stelpuna 269.
*Eg skal taka strákaling 269.
*Eg særi þig, Belsibub 102.
*Eg særi þig Þór og Óðinn 96.
*Eg særi þig, þú bölvaði andi 101.
*Eg vildi' eg ætti mér konu 253.
Eilífur bóndi 363—64.
*Eilífur er sig gamall karl 363, 364.
*Eina dóttur á eg mér 269.
*Eina húfu á eg mér 330, 332.
Einar á Brúsastöðum 154.
Einar Hálfdánarson, prestur að Kirkjubæjarklaustri 38.
Einar Hjörleifsson, ritstjóri 270.
Einar í Bót 131.
Einar Jafetsson 228.
Einarsbók Jóns Þorkelssonar skjalavarðar 16, 29, 144, 318, 326.
Einar Sæmundsen, prestur í Stafholti 370.
Ein gömul þula 183.
Einherjar 103.
*Einn er hattur í eigu mín 326.
Eintal sálarinnar 308.
Eiríkur 131, 132.
Eiríkur Bjarnason 273.
Eiríkur í Róðhól 117.
Eiríkur konúngur á Grikklandi 76, 79, 80, 82.
Eiríkur Ólsen 229.
Eiríkur Pálsson 291.
Eiríkur rauði 331.
Eirs 110.
Eitt kvæði 355.
Eitt lítið æfintýri 212.
*Eitt sinn fór eg út að slá 378.
*Eitt sinn fundust þeir Þorsteinn manni 300.
*Eitt sinn kom eg að Stórhóli 299.
*Eitt sinn krummi átti' að slá 355.
*Eitt sinn var eg að þæfa brók 228.
*Eitt sinn var eg út á fróni staddur 356.
*Eitt vil eg kvæði 157.
*Ekki hefi' eg á því vit 269.
Ektor 330.
Eldjárn Hallgrímsson 165.
Elías spámaður 353.
Elínborg Thorberg, frú 200.
Emanúel 106—7.
Enn um aldur mannsins 272.
Enok 96.
*Eru konur dýrar 300.
Eyjafjörður 292.
Eyjólfur 348.
Eyjólfur Oddsson á Bakka 137.
Eyrarbakki 148, 326, 358.
Eyrarhyrna 160, 162.
Eyrarteigur 120.

*Faðir minn er út á sjó að róa 242.

*Fagurt er á tjörnum 261.
*Fagurt sýngja fuglarnir í eyjunum 233.
Fálki fóstri Bryngerðar Dagsdóttur 85, 86, 91.
*Farðu á burtu með freistni þína 107.
Fellin 134.
Fell í Skeggjastaðahrepp 139.
Fell í Sléttuhlíð 111, 113.
Fenedí 364.
Finnbogi á Vífilsstöðum 124.
Finnur Jónsson, prófessor, dr. 228, 241, 303, 384.
*Fjórir tvennir föluðu Brún eg frá því greini 316.
Fjölnir 96.
Flaga 121.
Flagikes drottning 279—81.
Flata-Túnga 133.
Flatey 16.
Fljót nyrðra 223.
*Fólkið hlýði' og hlusti á 338.
*Fór eg á fuglastefnu 243.
*Fór eg til berja 252.
*Fór eg upp á hólinn að brýna mér ljá 203.
*Fór eg upp á völlinn að brýna minn ljá 201.
Formáli, ef eldur logar ekki 106.
forneskja 95—100.
Fornkvæði 281.
*Fram í fjósið fara 227.
*Fram vill Dvalins ferjan ana 359.
Freyja 96.
Friðbjörn Steinsson 268.
Friðrik Jóhannesson í Efri-Miðvík 303.
Frigg 96.
Frosti 143.
*Frúin reið í akurgarð 276.
*Frúin Trana sótti eld 292.
Fræðiþulur og stef 271—75.
Fuglakvæði 335—60.
Fugla útvegur 338.
Fuglaþulur og fuglastef 243—51.
Fuglheillaljóð 245.
*Fuglinn í fjörunni 244, 245.
*Fugl sat á kvisti 244.
Fúin-Trana 290.
*Furðu kann eg fátt af skemtaninni 335.
Fúsintes 279—81.
*Fyrir magt guðs föður 100.
*Fyrst er hver maður ómáli 272.
*Fyrst gekk hann Loki 204.
*Fyrst hljóp hann Loki 204.
*Fyrstu tíu ár stendur mögur fyrir móður knjám 271.
*Fyrstu tíu vetur: barn 272.
Fæðingardagar 274.
*Fækkar féð á fjörunum 381.
*Föstudaginn fyrstan í honum þorra 224.

*Gagga gó! Hver kallar þar 219.
Galdra-Leifi. Sjá Þorleifur Þórðarson.
Galdur og forneskja 95—110.
Galtastaðir 129, 132.
Gamalla manna máltæki um athöfn mannsins lífdaga 271.
*Gamall höldur í búi 366.
Gamankvæði 361—74.
Garðar í Garðaríki 88—89.
Garðshorn 170.
*Gaular í holu gauðið auma 230.
Gaulverjabær 326.
Gauti konúngur 84, 86.
Gautland 56, 58, 65, 66, 75, 89.
Geirastaðir 127.
Geirdalur 120.
Geirholtsstaðir 121
Geirlaugarsjónin 314.
Geir Vigfússon 144, 259.
*Gekk eg upp á hólinn 183, 207, 235.
*Gekk eg upp á hólinn að brýna mjer ljá 201.
*Gekk eg upp á hólinn að brýna mjer þar ljá 201.
Gestaósk 315.
Giljagaur 142, 143.
*Gimbill eptir götu rann 240.
*Gimillinn mælti 240.
Gimbilsraun 240.
Gísli 121.
Gísli Brynjólfsson, læknir 270.
Gísli í Gunnólfsvík 139—40.
Gísli í Miðfirði 138.
Gísli Ívarsson 362, 364, 373, 374.
Gísli Konráðsson 172, 230, 274, 309—10, 366—69, 371.
Gísli lærði í Melrakkadal 98—100.
Gísli Magnússon, skólakennari 268.
Gissur á Stóra-Bakka 130.
Gissur Jónsson 338.
Gissur Sveinsson, prestur 15, 38, 44, 118.
*Gjarna vildi eg gipting minni hvata 380.
Gnýpa kona Háugs herkonúngs í Álfheimum 159.
*Góða barnið er hann 266.

*Góða mamma gefðu mér 266.
*Góðu börnin gjöra það 267.
*Góður drengur geðugur 268.
*Gómakvörnin gengur mín 267.
Gorvömb 54.
Gottskálk Jónsson, prestur í Glaumbæ 96, 273.
Gráni 145.
*Griðka sat á steini 232.
Grikkland 76.
Grimsey 173.
Grímseyjarkallinn 173.
Grímur á Steinsvaði 126.
Grímur í Miðfirði 138.
Grímur Magnússon á Höfða á Höfðaströnd 144.
Grímur Magnússon í Gunnólfsvík 139.
Grindahlað 169.
Grísaldur 273.
Grundtvig, Svend 118, 362, 364, 367—70, 373, 374.
Grýla 111—15, 118, 122—35, 137, 138, 140—49, 151, 158—64, 167, 168, 170.
*Grýla' er að vísu 145.
*Grýla fór á fjöll og bjó 147.
*Grýla gamla gekk um gólf 147.
*Grýla kallar á börnin sín 141, 144.
*Grýla kemur á hverjum vetri 147.
*Grýlan á glugga 147.
*Grýla reið fyrir ofan garð 146.
*Grýla situr gáttum í 147.
Grýlukallinn 147.
Grýlukvæði 111, 119, 134, 141.
Grýlukvæði og því um líkt 111—74.
Grýluþula 122.
Gröf 170.
Grönlands historiske Mindesmærker 29.
*Guð blessi börnin 261.
Guðmundur 161.
Guðmundur Andrésson 228.
Guðmundur Bergþórsson 54, 148, 155, 157.
Guðmundur Davíðsson á Hofi í Hörgárdal 104, 105, 147, 180, 210, 214, 219, 223, 224, 227, 242, 246—48, 252, 264, 278, 282, 300.
Guðmundur Erlendsson, prestur á Felli í Sljettuhlíð 111, 113, 144, 151, 156, 161.
Guðmundur Guðmundsson á Svarta-Núpi 310.
Guðmundur Jónsson á Húsey 128.
Guðmundur Jónsson í Litlabæ 318.
Guðmundur Magnússon, læknir í Reykjavík 267, 269.
Guðmundur Sigurðsson á Loptsstöðum 118, 144—46, 151, 172, 182, 184, 193, 197, 200, 202, 206, 212, 217, 218, 226, 229, 235, 237, 247—49, 333.
Guðmundur Snorrason, bóndi í Hælavík 301.
Guðmundur Þorvaldsson á Húsey 128—29.
Guðríður Magnúsdóttir í Reykjavík 200.
Guðrún Finnbjarnardóttir á Sæbóli 298.
Guðrún Guðjónsdóttir 207.
Guðrún í Dögunargerði 124.
Guðrún Jónsdóttir í Vigur 373.
Guðrún Jónsdóttir, vinnukona á Syðra-Krossanesi 118.
Guðrún Magnúsdóttir í Reykjavík 236.
Guðrún Pétursdóttir í Miðfjarðarnesi 139.
Guðrún Þorkelsdóttir, ekkja á Sléttu 302.
*Gullbúinn gimbill í grænkunni lá 239.
Gullinhöfða 39—41, 43—44, 46.
Gullkár(i) 77—82, 84.
Gullkársljóð 76—84.
*Gullsmiður minn 287.
Gunna á Rángá 123.
Gunna í Gunnhildargerði 127.
Gunna Jónsdóttir á Djúpalæk 138.
*Gunna litla lá við horn 260.
Gunnar götutrítill 283.
Gunnar konúngur á Gautlandi 65—66, 71, 75.
Gunnar Pálsson, prestur í Hjarðarholti 144, 245.
Gunnar Pétursson í Miðfjarðarnesi 139.
Gunnar prestur 363—64.
Gunnhildargerði 127.
Gunnhildes kóngsdóttir 280—82.
Gunnhildur Jónsdóttir 326.
Gunnlaugur Blöndal, sýslumaður 118.
Gunnlaugur Jónsson á Skuggabjörgum 44, 148, 245, 322, 324, 330, 340, 358, 366—71.
Gunnlaugur Þorgerðarson 178.
Gunnólfsvík 139.
Gustur maður Grýlu 111, 135.
Gvendur 151, 169.
Gvendur á Apavatni 153.
Gvendur á Galtastöðum 129.
Gvendur á Næbjarnarstöðum 127.
Gvöndur prestur 149.
*Gyrðir vaknar vesæll og aumur 373.
Gægishöll 117.

Göngu-Hrólfur 331.

*Hafið þið börn mín heyrt um það 168.
Hágángur 135, 137, 139.
Hákon smiður 326.
Haldóra í Viðvík 135—36.
Haldór 163.
Haldór Brynjólfsson prests í Kirkjubæ 127.
Haldór Kroyer 17.
Haldór Þorbergsson 257.
Háleygir 30, 37.
Hálfdán 377.
Hálfdán Gautason konungs 84—88, 90.
Halla húsfreyja 282—83.
Hallbjarnarstaðir 120.
Hallfreðarstaðir 132.
Hallgrímur Eldjárnsson, prófastur á Grenjaðarstað 164, 166.
Hallgrímur Jónsson, djákni 16, 64.
Hallgrímur Jónsson Thorlacius 144.
Hallgrímur Pétursson, prestur 144, 148, 157, 318, 354.
Hallgrímur Scheving, dr. 166, 178, 180, 189, 190, 196, 207, 211, 218, 221, 240, 274, 275, 314.
Hallur á Hallbjarnarstöðum 120.
Hálogaland 58.
Handritasafn Árna Magnússonar 182, fol. 109. — 243 r, fol. 368. — 429, fol. 244. 338.
Hrs. ÁM. 343 a, 4° 109. — 416, 4° 272. — 527, 4° 109. — 548, 4° 109. — 577, 4° 109, 110. — 599, 4° 109. — 622, 4° 16. — 723 a, 4° 231. — 727 II, 4° 375, 376. — 738, 4° 257. — 948 k, 4° 109. — 960, 4° 16, 38, 118, 144, 145, 178, 181, 183, 188, 193, 196, 201, 203, 206, 207, 219, 230, 235, 237, 239, 246. 247. 263. — 968, 4° 144. 229, 230, 245, 274, 302. — 969, 4° 118, 145, 146. 151, 172, 182. 183, 193, 197. 200, 206, 212. 217. 218, 226, 229, 235, 237, 248, 249. — 970, 4° 172. — 975. 4° 338. — 979, 4° 16, 84, 248, 338. — 979 b, 4° 193, 230, 233. — 1011, 4° 172. — 1013, 4° 275.
Hrs. ÁM. 67, 8° 273. — 146 b, 8° 38, 76, 360. — 147, 8° 15, 38, 44, 94, 118. — 148, 8° 38, 122. 178, 356. — 151 a, 8° 257. — 153 V, 8° 38, 44, 276, 281, 302, 362, 364, 373. — 153 VI, 8° 76. — 154, 8° 15, 16. 29, 38, 44. 55, 64, 76, 84, 91, 178. 257. — 166 a, 8° 257. — 166 b. 8° 257. — 193, 8° 275. — 193 III, 8° 271, 272. — 194, 8° 273. — 213, 8° 229. — 226, 8° 252, 272. — 241, 8° 174, 267. — 246, 8° 106, 178. — 247, 8° 97, 98, 100, 104, 188, 190, 197, 200, 218. 228, 229, 238. — 276, 8° 172, 230, 274, 310. — 277, 8° 17, 118, 173, 197, 199, 235, 316.
Hrs. ÁM. 434 A, 12° 96. — 434 a, 12° 96. — 434 d, 12° 97. — 441, 12° 257, 316.
Handritasafn Bókmentafélagsins 35, fol. 84, 257, 259, 273, 274, 375, 376.
Hrs. Bmfj. 68, 4° 273, 376. — 105, 4° 15, 16. — 148, 4° 109. — 176, 4° 178. — 228, 4° 109. — 302, 4° 38. — 353, 4° 382. — 384, 4° 64. — 385, 4° 16. — 387, 4° 144.
Hrs. Bmfj. 9 I, 8° 84. — 13, 8° 257, 310. — 19, 8° 326. — 43, 8° 332. — 68, 8° 382. — 89, 8° 281. — 108, 8° 354. — 109, 8° 118. — 132, 8° 29. — 139, 8° 109. — 150, 8° 322, 332. — 160, 8° 29, 318. — 179, 8° 29. — 194, 8° 310, 315. — 278, 8° 272. — 302, 8° 29. — 310, 8° 29, 144. — 317, 8° 273. — 321, 8° 273. — 327, 8° 118, 144. — 338, 8° 315. — 340, 8° 44, 172, 245, 322. — 370, 8° 377, 381. — 372, 8° 330. — 382, 8° 354, 362, 370. — 387, 8° 268. — 464, 8° 171. — 559, 8° 29. — 567, 8° 382. — 605, 8° 166, 173, 181, 183, 184, 199, 204, 205, 207, 214—16, 235. 241, 262, 275, 289, 291. — 614, 8° 44, 148, 245, 322, 330. — 629, 8° 375. — 633. 8° 144, 322. — 634, 8° 310. — 637, 8° 334. — 638, 8° 259. — 639, 8° 144, 259. — 646, 8° 96. — 651, 8° 103, 214, 219, 310. — 656, 8° 145, 146, 178, 181, 190, 199, 213. 215, 217, 220, 221, 228, 249, 260. 310. — 658, 8° 189. — 663, 8° 102, 106. — 665, 8° 265. — 681, 8° 29. — 734, 8° 144, 322, 382.
Hrs. Bmfj. í Reykjavík 82, 8° 310. — 139, 8° 380.
Handritasafn í British Museum, Add. 11, 242, 4° 96.
Handritasafn Finns Magnússonar í Advocates Library 41, 4° 44, 45, 74, 84.
Hrs. F. Magn. í British Museum 174. 4° 38, 44, 94, 118. — 293, 4° 38. — 294 4° 15, 29. — 180, 8° 15, 29.
Handritasafn ísl. í Stokkhólmi 35, fol. 15. — 60, fol. 15, 226. — 64, fol. 183, 231. — 2, 4° 15. — 9, 8° 16.

Handritasafn ísl. í Uppsölum 80, 8° 230.
Handritasafn Jóns Árnasonar A XII, 8° 118, 162. — A XX 162. — B III, 8° 310. — B X, 8° 310. — B XV, 8° 310. — B IX, 8° 326. — B XXI 144, 146, 174.
Handritasafn Jóns Sigurðssonar 130. 4° 310. — 231, 4° 16, 74, 84, 144, 318, 328. — 245, 4° 191, 194, 196, 211. — 254, 4° 44, 324, 340, 358. — 271, 4° 231. — 394, 4° 144. — 398, 4° 54, 118, 122, 146, 151, 162, 174, 217, 316, 331. — 401, 4° 338. — 405, 4° 15, 16, 38, 44, 54, 84, 94. — 406, 4° 99, 263, 357. — 55, 8° 340. — 262. 8° 211. — 282, 8° 118, 144—46, 166, 178, 180, 181, 183, 189, 190, 205, 207, 214, 218, 221, 235, 239, 240, 274, 275, 294, 314.
Handritasafn Páls Pálssonar 10, 8° 96.
Handritasafn Rasks 28 109. — 32 109. — 46 a 134, 144. — 82 144. — 86 324. — 87 38, 377, 381. — 88 a 144, 273. — 89 29. — 94 17. — 110 272. —
Handritasafn Svend Grundtvigs 65 16, 38, 45, 54, 84, 94, 118, 276, 302, 362, 367, 368, 370, 374. — 66: 38, 45, 76. 178, 181, 183, 184, 188, 200, 203, 206, 212, 215, 216, 219, 221, 226, 227, 229, 231, 233, 235, 237, 239, 245, 246, 252, 272—74, 276, 284, 288, 289, 295, 302, 314, 318, 328, 354, 364, 366—74. — 67 16, 38, 44, 45, 94, 104, 118, 144—47, 151, 157, 162, 164, 172, 178, 180—84, 186, 192, 196, 197, 200, 205, 207—9, 211, 214—16, 218—21, 224, 227—33, 235—37, 240, 241, 244—49, 252, 260, 262—65, 277, 281, 284, 289, 298, 301—3, 310, 322, 333, 360, 362, 366—74, 377. — 118 118, 144—46, 166, 178, 180, 181, 183, 189—91, 194, 196, 205, 207, 211, 214, 218, 221, 235, 240, 274, 275, 294, 314.
Handritasafn Thotts 489, 8° 15, 38, 44, 54, 84, 94, 184, 207, 217, 318.
Handrit í Gammel kongelig Samling 2873, 4° 181.
Handrit í Ny kongelig Samling 67, fol. 273. — 76, fol. 274, 375, 376. — 1141, fol. 15, 38, 44, 54, 84, 94, 362, 364, 373, 374. — 1837, 4° 257. — 1873, 4° 84, 257. — 1885 b, 4° 16. — 1892, 4° 257. — 1894, 4° 16, 38, 44, 54—55, 64, 91, 178, 257.
Handrit í 4° í hrs. Bmfj. með hendi Sigmundar Mattíassonar, óskrásett 354.
Handrit í 8° í hrs. Bmfj. frá Jóni Borgfirðingi, óskrásett 359.
Handrit í 12°, í eigu Jóns skjalavarðar Þorkelssonar 350.
Hángur herkonungur í Álfheimum 159.
*Hann er að róa hýr á kinn 266.
Hannes 154.
Hannes Hafstein, sýslumaður 229.
Hannes Kolbeinsson 326.
*Hann rær og hann slær 264.
Hanns vísur 333.
Hann talar við frúna sína 277.
*Hann tók upp og hann tók niður 277.
Hattkvæði 326.
Hattskvæði 326.
Hattvísur 324.
Hátúnabrekkur 30.
Hátúnafjall 120.
Haukadalur 218.
Hávarður á Djúpalæk 138.
*Heil og sæl jatla mín 245.
Heimdallur 121.
Heimskukvæði 368.
Helga 15, 18.
*Helga bredda reið á skóg 226.
Helgafell 195, 217.
Helgi Sigurðsson, prestur að Jörfa 97, 104, 145, 146, 172, 178, 188, 190, 197, 200, 203, 205, 216, 218, 219, 224, 227, 228, 230, 231, 235, 237—39, 241, 244, 245, 262—65, 267.
Helías 96.
Heljarhlíð 120.
Hellisá 317.
*Hér býr einn bóndinn upp með á 372.
Herdís prestsdóttir 112.
*Hér er Emanúel minn við síðu 106.
*Hér er komin Grýla 111.
*Hér er kominn Dúðadurtur 164.
*Hér er kominn Leppalúði 152, 155.
*Hér fer Grýla 146.
Hergerðarnaut 8.
Hergilsey 16.
Hergils úr Hergilsey 16.
*Hér koma kýr mínar 235.
Herkúles 330.
Hermann í Mjóafirði 372.
Heródes 105, 173.
*Hestur hljóp um hyllu 192.
*Hestur minn á haugi 184.

*Hestur minn stendur á Haugi 209, 210.
Hettusálmur 328.
*Heyjamaður mér hey 286.
Heykollsstaðir 124.
*Heyrði eg í hamrinum 196, 228.
*Heyrði eg í skinnunum 162.
*Heyri lýðir hróðurs efni 328.
Hildifríður 43.
Hildigerður 33.
Hildur 66—67, 70, 76, 87.
Hildur Jóhannsdóttir í Vigur 252, 277.
Hjallasandur 195.
Hjaltastaður 134.
Hlaðbjört(—björg)Gunnarsdóttir konúngs á Gautlandi 66, 73—74, 75.
Hlíðarhagi 17.
*Hlupu börnin fram á pallinn 147.
Hnappavellir í Öræfum 29.
Hnúkurinn 115.
Hnúta 145.
Hólarnir 114.
Holland 326.
Hólmfríður Grímsdóttir á Steinsvaði 126.
Hólmgarður 61.
Holt 218.
Hrafn 31—32, 34—37, 38.
*Hrafnarnir fundust við Almannagjá 249.
Hrafnasamtal 249.
*Hrafninn í hlíðum 355.
*Hrafnsaldur níu hundruð ár 273.
Hreggviður 331.
Hríngill Kríngill 282.
Hríngur konúngur 46, 48, 53, 56
*Hrísaldur þrír vetur 273.
Hríshólmavað 121.
*Hrittu móð úr hyggju slóð 269.
Hrærekslækur 130.
Húfukvæði 330.
Hugbjörg á Galtastöðum 129—30.
Hugsvinnur 172.
*Hugur er mér að hefja óð 326.
*Hún er suður í hólunum 147.
Húsey 128.
*Húsfrú reið til tíða 276.
*Húsfrú reið til tíðanna 276.
*Hvað á eg að gera 269.
*Hvað er upp á bænum, bænum 241.
*Hvað heitir hundur kalls 222.
*Hvað kannt þú að vinna 195.
*Hvað varstu að slátra 180.
Hvalströnd 190.
Hvammsel 131.
Hvammur 186.
Hvarfsbók 15, 107, 196, 269, 271, 334.
*Hvar á að tjalda 238.
Hvernig maður skal koma þeim manni heim aptur 105.
*Hvert hefir þú gengið 301.
*Hvert varstu gengin 302.
Hvítramannaland 16.
Hyndla 71, 73, 74.
Hyndluljóð 65—76.
Hyrnan 162.
*Hættu' að gráta litli Láfi 266.
*Hættu' að gráta Mángi minn 174.
Höfðahreppur 169.
Höfðaströnd 170.
Höfðhólar 116.
Höfn 136.
Högni á Hallfreðarstöðum 132.
Hörgá 383.
Höttur 145.

*Í austri auðugs manns gaukur 246.
*Í brekku þóttist Brúsaskeggur bíða' of lengi 288.
*Í fyrra vetur fyrir jólin 225.
Ígrá 328.
*Í hana er spunnið hý og rokkur 330.
*Illa liggur á lúru minni 270.
*Illur dreingur er hann Jón 269.
*Í miðjum garðinum bann axlar sín skinn 279.
*Í mistækum mannanna dómum 375.
*Í neðri loptum ljósið skín 269.
Ínga 140, 152.
Ínga á Brúarlandi 169.
Íngibjörg á Grikklandi 78—79.
Íngibjörg Schulesen, frú í Kaupmannahöfn 223.
Íngigerður húsfreyja 361.
ÍngimundurGrímsson,hreppstjóri áSkerðingsstöðum 183, 201.
Íngimundur Grímsson í Miðhúsum 54, 94.
Íngólfur 331.
Íngunn í Bót 132.
Island 16, 208, 383, 384.
Íslenzk æfintýri Rvk. 1852, 257.
Ísúngskvæði 364.
Ísúngur kaupmannsson 365.
Ívar Jónsson á Vaði í Skriðdal 103.

Jakob Sigurðsson, skólapiltur 277.
*Járnsmiður mér sleggju 285.

